þotti heradit undan dragazst hurfu þeir aftr til skipa sinna ok er (þeir) suipuduzst at sa þeir at Olafr konungr var j brottu æinn saman. sokuduzst nu vın fast ok gerizst nu mikill harmr j herinum. Nu er fra Olafi konungi at segia ath eftir er hann er fraskila uordinn sinum monnum hittir hann bygd stora. ok er heradsmenn sa hann synizst þeim sem hann hafi med ser her vvigann ok hann mune alla þeirra bygd upp æyda ef æigi uerdr þat rad tekit at duge. safnnazst nu saman heradshofdingiar ok fara a mot honum ok bioda honum sligt gialld sem hann uill a þa lagt hafa. sidan akuedr Olafr konungr suo mikit kuikfe gull ok brent silfr sem hann uill hafa ok sidan eru menn til fæingnir at flytia þetta godz til strandar. ferr Olafr konungr ok fylgir þeim sealfr ok rekr firir ser menn ok kuikfe. ok er menn hans sea hann huar hann ridr af lande ofan uerda þeir fegnari en fra megi segia. en fra landzmonnum er þat at segia at suo sem þeir sea hermenn marga fara j mote ser bryniada en Olaf konung æinn saman reka þa med byrdum firir ser herteknna ok naut þeirra (ok) saude æpa þeir ok yla akafliga ok hrifa upp j hofut[1] ser ok ræyta sig. Olafr konungr hafde med ser tulka huar sem hann for. hann spurde þa eftir þessum illum latum. þeir segia honum at þessir menn þikizst ordnir firir sionhuerfingum myklum. segia nu at þeim syndizst ouigr herr kominn at þeim ok sua biartr at þeir þordu æigi j gegnn at uega. gerde hann þeim þa .ij. kosti annat huort at uega j gegnn honum ef þeir þyrde edr færa þat til strandar sem þeir færi med. en þeir kioru at færa helldr fe til strandar. konungsmenn toku nu vid strandhǫggum en hinir hurfu aftr heim.

## Olafr konungr vann margyghe.

23. Hina .xiiij. uppras atti Olafr konungr vt j Kallsár. þeir uoru þa j fǫr med honum þorkell jall hinn hafui ok Ulfr son þorgils sprakalegs. þar heriudu þeir a illgerdamenn heidna nockura stund. þeir heidingiar blotudu kappa .ij. til fulltings ser þa er flestir urdu fra at hrockua ef a þa var hæitit. þat var annat margygr ok la hon stundum j Karlsám en stundum var hon j sio. hon saung suo fagurt at hon suæfde skipshafner. ok er hon kende firir sina naturu at menn aller voru sofnnadir huelfde hon skipunum ok dreckti sua monnum. en stundum æpti hon suo haatt upp at marger urdu at giallti ok hurfu firir þat aftr. Annat kuikuende uar uillegaulltr hann hafde marga mannzalldra. einge madr skyllde drepa gris af lide hans. hann uar forkunnar mikill

[1]) hofdut *Cd.*

ok akafliga grimligr. Landzmonnum uæitir nu litt hernadrinn fa þeir iafnnan j vidskiptum þeirra Olafs konungs stora mannskada med frekum fiargiolldum ok uægdarlausum peninga upptektum. þui taka hæidingiar nu þat rad at kalla ser til fulltings sina fulltrua margygc ok gallta med hinum mesta blotskap ok fiandligri forneskiu. ok þoat vuinrinn vissi sig uanmatlugan at geta nockura motstöðu haft vid suo agætan guds riddara sem var hinn hæilagi Olafr konungr Haralldzson þa uill hann þo uist æigi daufheyraz vid eyrende ok akall sinna kumpana. þikizst þat ok sea at þessi Olafr mun honum vinna vbættan skada j nidran ok nidrbrote sinnar fagannar. þui byriar hann suo sinn kyndugskap at æinnhuernn tima þa er Olafr konungr ok hans menn lagu til byriar j Karllsám heyrdu þeir at upp kom suo fögr raust med saunghliodum at alldri heyrdu þeir a sina daga þesshattar hliod [319] fyrr med suo sætum son ok undarligum ym at innan litils tima fellr suefnn at þeim suo akaft at þeir geta vist æigi firir ser uoku halldit. Konungr sitr j lyfting a skipi sinu ok less a bok sina ok er menn aller voru sofnnadir ser konungr huar margygr kemr upp. hon er suo sköput at a henni er hofut suo skapat sem a hrosse med standande eyrum ok opnum nosum. hon hefir græn augu akafliga stor ok kiapta gryfuiliga stora. hon hefir bógu sem hross ok fram skapat sem hendr en aptr sköput at aullu sem ormr med lykkiu akafliga mikille ok breidum sporde. drekker hon suo monnum ok skipum at hon setr hendrnar upp a annat bordit en bregdr spordinum nidr undir skipit ok upp a bordit odrum megum ok huelfir suo skipinu at hon ridr um þuerann kiolinn ok steypizst suo j kaf. hon er lodin sem selr ok gra at lit. Margygr kann sina natturu at þegar hon ueit at menn eru sofnnadir hefer hon sig at skipe Olafs konungs ok met krafte vuinarins getr hon upp komit hondunum a bordit. ok er Olafr konungr ser þat gripr hann suerdit Hneite ok hleypr fram eftir skipinu ok er þat allt iafnfram at margygr hefir þa upp komit spórdinum odrum megum a bordit. konungr höggr þa hendr af margyge en hon kuedr uit suo hatt ok oskurliga at slik læti þottizst konungrinn æinge heyrt hafa. hon slönguir ser þa þuert a bak aftr ok slær j sundr kioftunum ok bæinir suo raustina. Konungs menn uaknna nu a skipunum ok þikiazst æigi uita huat vm er. bregdr nu morgum miog vid þessi læti. konungr bidr þa hlifa ser med marke hins hæilaga kross ok med guds fulltinge ok bænum Olafs konungs fek hann suo um gengit. at honum ok hans monnum vard þessi vuættr ekki at skada. sökk hon sidan þar nidr sem hon uar komin ok vard at henni þar ekki mæin sidan. —

Olafr konungr drap gaulltinn a skoginum.

24. Nu renna þeir a land upp ok fa mikils fiar. Olafr konungr lætr þar briota blothaug þeirra hæidingia. en þui uar hann suo kalladr at iafnnan er þeir hofdu storblot til árs ser edr fridar skylldu aller fara a þenna haug ok blota þar fyrr sogdum kuikendum ok baru þangat mikit fe ok logdu j hauginn adr þeir gæingu fra. Olafr konungr fek þar ogrynne fear. fara til skips med þenna fearhlut. konungr reid sæinazst ok litadizst iafnnan vm ef hann sæi nockura nylundu. menn hans berr bradla undan ok er Olafr konungr ser þat ridr hann af vt j riodr nockut ok hugde at radum huort hann skyllde aftr huerfa edr æigi. þa heyrde konungr braukon mykla j skoginn alla uega fra ser þa rennur þar gallti med lid sitt ok þekr allt riodrit. gallti ferr rytande ok emiande med illum latum ok gapanda gine. hann var suo storr at konungr þottizst þesshattar kuikende ekki fyrr sligt set hafa þuiat hans bust næfde naliga vid limar uppi hinna hæstu trea j skoginum. konungr hopade þa hestinum ok fordade fotum sinum. en gallte gædde þa ferdina ok lagde upp ranann ok tennurnnar a sǫdultreyiu konungs. þa bregdr konungr suerdi sinu ok hǫggr ranann af gallta ok fellr hann nidr j sodulinn. gallte quad vid ogurliga ok sneri undan ok uillde æigi bida hogsins annars. en þo sagde Olafr konungr suo at hann þottizst gallta vidkuðd amatliguzst heyrt hafa annat en margygiar ok þa mesta mannraun ok hugraun synt hafa er hann atti hogguaskifti[1] vid þessi kuikende. sidan kall(a)de Olafr konungr suerd sitt Hnæite er adr het Bæsingr. nu hefir hann rana af gallta ok tennr. ridr hann med þetta til skipa ok vard sidan miog lofat þetta þrekuirke Olafs konungs.

Fra ordum visindakonu.

25. Fimtandu orrostu atti Olafr konungr a Peitulande ok for langt fra skipum med her sinn allt til kastala þess er Uarannde heitir ok brende þar bygdina. þess getr Ottarr suarti.

Knattut unngr at eyda  
ognntæitr iofur Peitu  
reyndit ræsir steinda  
raund j Tuskalandi.

[1]) hogguat skifti *Cd.*

Ok enn seghir Siguatr.

Malms uann Mæra hilmir
munnriodr er komt sunnan
gagnn þar er gamlir sungu
geirar upp a Leiru.

uard firir uiga niordum
Uarrannde sea fiarre
brendr a bygdu lande
bærr hæitir suo Pæitu.

þadan for Olafr konungr til Einglandz ok atti hinn .xvj. bardaga j Audafurdu ok hafde sigr. Hina xvij. orrostu atti hann uestarliga a landinu j þeim stad er a Uallande heitir. þadann [320] for Olafr konungr j Austrueg ok hafde markat vid hæidit land. þar var a þui lande spakona su er sagde firir orlog manna ok lif. forunautum konungs þotti gott vid hana at tala. þeir spyria konung ef hann uillde ganga til frettar vid hana. hann letzst þat æigi uilldu. þa spyria þeir ef konungr uillde leyfa þeim at spyria hana nockut eftir hans forlaugum en hann quezst þat æigi banna mega. þeir fara til motz uit uoluuna ok spyria hana ef hon hefde nǫkkut hugat at vm Olaf konung huersu langlifr hann mun verda. hon mællti. þar standa yfir æfui hans ognnargeislar þeir er mer er æigi lofat þangat at sea. en suo skulu þer segia konungi ydrum segir hon at hann mun æitt mismæle mæla a allre æfui sinne ok lata samdęgris lifit.

Olafr konungr gerde Konungssund ok kom sua i brott.

26. Olafr konungr atti hina .xviij. orrostu j Suiþiod ok urdu þar margar atlǫgur. Olafr konungr hellt skipum sinum inn j Mar en Suiar sofnnudu her myklum ok lagu firir utan vm þuera hofnnina a herskipum ok ætludu þess at bida at skip Olafs konungs freri þar j hafnninne ok þotti sem ser munde [þa auduellt[1] at vinna skipin ok drepa mannfolkit ef ollum megum mætti at þeim sækia. Olafr konungr let þa uæita umbud nockura. hann let menn sina fara a land upp. þeir felldu uidu stora ok adr en friosa tok let hann gera fleka stora af uidenum alla uega vt j fra skipunum. en þegar er siorrinn tok at kolna þa toku þeir batana ok hrȩrdu flecana ok gerdu a ellda stora suo alldri matti friosa at skipum þeirra vm uetrinn. en um uorit er Suiar hofdu liddratt mikinn ok ætludu at beriazst vid Olaf ok taka hann af lifue ok er hann spurde þessa firirætlan Suia ser hann at hann hefir (æigi) lidkost til at deila af kappe vid allan Suia her. þui fellr hann fram til bænar ok bidr þann fulltings ok styrks til brottkuomu ór þessum lifshaska er allt gott ma sem er æinn ok almattigr allzualldande gud ser ok sinum monnum. ok er hann hefir endada sina bęn bidr hann menn

[1]) þauduellt *Cd.*

sina vinda segl upp ok sigldu at nese þui er gengr af Agnafit. ok er konungr kemr þar springr iordin j sundr allt til siofar med suo myklum stormerkium at þessi skurdr er a æinu augabragde suo bræidr ok diupr at þar matti vel skipum hallda. þat heitir sidan Konungssund en Stockholmr þat er af sprack mille osminnis ok Konungssunndz. siglde hann suo uestr til Einglandz med myklum sigri ok uar med þorkatli jalli vm uetrinn. Vm sumarit eftir fara þeir Vlfr jall ok þorkell hafi med Olafi konungi j uestruiking ok til Jrlandz ok fara a land ok er su talin hin .xix. orrosta Olafs konungs ok fa mikils fiar. þar fiarade uppi skip þeirra. nu sia þeir at Jrar sækia af lande ofan med myklu fiolmenni. ok er Olafr konungr serr þat er suo sagt at þa hafui hann hæitit at hann skyllde alldri framhǫggua j hernade suerde ne ǫxi nockurum manni til skada. vid þetta heit skipadizst suo fliott at þegar samstundis flutu skip Olafs konungs en hans uuinir tynduzst ok fellu j þa grǫf er þeir hǫfdu honum ætlat. sigla þa til Æinglandz ok voru þar aller vm uetrinn.

## Draumr Olafs konungs.

27. Eftir þetta let Olafr konungr smida knorru .ij. mykla ok uandade miog smidu til ok voru skipin bade sterk ok fǫgur. þat uar æina nátt þa er Olafr konungr suaf j sæng sinne at hann dreymde at til hans kæme einn gǫfugligr madr ok ogurligr ok mællti vid hann. bat hann hætta ætlan þeirri at fara j vtlǫnd. far aftr til odala þinna þuiat þu munt uera konungr yfir Noregi at æilifu. hann skilde suo drauminn at hann munde konungr uera j Noregi ok hans ættmenn langa æfui. sidan kallade konungr til tals þorkel jall ok alla hina uitrozstu menn ok sagde þeim huat er hann hafde firir borizst um sina firirætlan þa er hann munde sigla vt til Nioruasunda ok suo til Jorsala. suo ok firir huat er hann uar þui afhorfinn at fara hæim at sækia hæilaga stade. uar firir þessa uitran Olafs konungs þat radit af uitrum monnum at hann skyllde hallda til Noregs ok freista huernn afla hann fæinge þar ser til upræistar.

## Ættartolur fra Gongurolfui.

28. Olafr konungr hafde uerit j hernade uestr j Uallande .ij. sumur ok einn uetr þa uoru lidnir(!) fra Suoldrar orrostu .xiij. ár. þa stund hofdu radit Noregi jarlar fyst Æirikr ok Sueinn Hakonarsynir en sidan Suæinn ok Hakon Æiriksson hann uar systurson Knutz konungs Suæinssonar. þa uoru j Uallande jallar .ij. Vilhialmr ok Rodbert fadir

þeirra uar Rikgærdr Rudujall þeir redu firir Nordmandi. systir þeirra [321] uar Emma drotning er att hafde Adalradr konungr a Einglande. synir þeirra voru þeir [1] Jatmundr ok Jatuardr hinn gode Jatuigr ok Jatgæirr. Rikgardr Rudu jarl var son Rodbertz langaspiotz en sonarson Gönguhrolfs jalls þess er uan Nordmandi hann uar son Rögnualldz Mærajarls hins rika en modir hans uar Hilldr dóttir Hrolfs nefiu. Hrolfr var suo mikill at æinge hestr matti hann bera ok uar hann þui kalladr Gonguhrolfr hann uar hinn mesti uikingr ok oæirinn. hann hafde hoggit strandhogg stór j Uik austr er hann kom ór uiking firir þat uard honum ræidr Haralldr hinn harfagri ok gerde hann vtlægan af Noregi. þa for Hilldr modir hans a fund Haralldz konungs ok flutti mal hans. konungr uar suo reidr at þat stodade ekki. þa quat hon visu þessa.

Hafnnit Nefiu nafni
nu er rekinn gandr or lande
horskann Horda barmá
hui beller þui stillir.
illt er uit ulf at yglazst
yggs ualbrikar slikan
muna vid hilmis hiardir
hægr ef hann gengr til skogar.

Eftir þat for Gonguhrolfr or lande ok heriade leinge sidan um Uestrlönd ok ruddi ser til rikis j Uallande ok sotti þangat fiolde Nordmanna ok bygde þar er sidan er kallat Normandi. Fra Gonguhrolfi eru komnir Rudujarlar suo sem sagt er. þeir toldu leinge frędsemi sina til Noregs hofdingia ok uirdu þat mikils. voru þeir hinir mestu vinir Nordmanna ok attu med þeim fridland aller Nordmenn þeir er þat uilldu. Vm haustit kom Olafr konungr j Nordmandi ok dualdizst þar vm uetrinn ok hafde fridland.

## Radagerd Olafs.

29. Nu er at segia fra Knuti konungi at a sama manade er Edrikur striona hafde uegit Jatmund fostrson sinn son Adalrads konungs rak hann or lande alla sunu Adalrads konungs. Suo segir Siguatr.

Ok senn sonu
sló huernn ok þo
Adalrads eda
vt flęmde Knutr.

Til Ruduborgar a Uallande komu synir Adalrads konungs af Einglande til modurbrædra sinna. þat var j þann tima er Olafr konungr kom uestan ór uiking ok uoru þeir aller þann uetr j Nordmanndi ok bundu

[1]) þeirra *Cd.*

lag sitt saman med þeim skildaga at Olafr konungr skyllde æignazst Nordimbraland ef þeir gæti aftr unnit Æingland af Dǫnum. þa sende Olafr konungr um haustit Hrana fostra sinn til Æinglandz at afla þar at lide ok hann sende sonu Adalrads til vina sinna med jartæignnum ok frænda. en Olafr konungr fek Hrana lausafe mikit at spenia lid undir þa ok var Hrani a Æinglande um uetrinn ok feck trunat margra rikismanna ok var landzmonnum betr vileat at hafa samlenda konunga yfir ser. en þo uar ordinn suo mikill styrkr Dana j Einglande at allt folk var þa undir brotit þeirra rike.

Olafr konungr hellt til Einglandz ok sva til Noreghs.

30. Um uorit eftir foru þeir uestan Olafr konungr ok synir Adalrads ok komu til Æinglandz þar hæitir Menniungafurda ok gengu þar a land upp med lide sinu til borgar. þar voru margir þeir menn er þeim hafde lide heitit. þeir unnu borgina ok drapu mart manna. en er Knutz menn urdu vit uarir þa drogu þeir her saman ok urdu allfiolmennir suo at synir Adalrads hofdu ecki lidsafla vid ok sa sinn kost þann bezstan at hallda j brott uestr til Rudu þa skildu þeir Olafr konungr þuiat hann uillde æigi aftr huerfa til Uallandz. hann siglde j brott ok nordr med Æinglande allt til Nordimbralandz. hann lagde at hofn þeirri er heitir firir Uallde ok bardizst þar vid þa bęiarmenn ok fek sigr ok fe mikit. þar let hann eftir langskip ok bio þadan .ij. knorru ok hafde hann þa .xx. hundrat manna albryniadra ok ualit lid miog. hann siglde nordr j haf um haustit ok fengu ofuidre mikit suo at mannhætt uar en med þui at þeir hofdu lidkost godan ok hamingiu Olafs konungs þa hlydde suo at skip hellduzst. þess getr Ottar.

Valfasta bio uestan
uedrǫrr .ij. knorru
hætt hafui þer sotta
oft skiolldunga þofti.

nadi straumr ef stæde
strangr kaupskipum angra
innan bordz a unnum
erringar lid uerra.

Ok enn quat hann.

Eige rædduzst ægi
ér forut sę storan
allualldr of getr alldar
æinge nytri drenge.

oft var fars en fossi
flaustr hratt af ser brottum
neytt adr Noreg bæittut
nidiungr Noreg midian.

Her segir at Olafr konungr kom utan at midium Noregi. ey su hæitir Selia er þeir toku land vid vt fra Stade. þa mællti konungr at þat munde vera timadagr [3?2] er þeir hofdu lent vid Seliu ok quad þat

uera gæfu er suo hafde til borit. þeir gengu þa upp a eyna. konungr stæig þar ǒdrum fæti j læirr en steyptizst ǒdrum fæti a kne. fell ek nu sagde haun. þa suarar Hrani. æigi felltu en festir þu fot j lande. Konungr hlo at ok mællti. verda ma suo ef gud uill. Ganga þa ofan til skipanna ok sigldu sudr til Ulfarssunda. þar spurdu þeir at Hakon jall uar sudr j Sognni ok uar hans þa uon nordr þegar er byr gæfui ok hafde hann æitt skip.

Olafr konungr fangadi Hakon jarl i Saudungarsundi.

31. Olafr konungr hellt inn af læid er hann kom sudr yfir fiallit ok sneri inn til Saudungssunda ok lagdizst þar. la sinu megin sunzsins huort skipit ok hofdu medal sin kadal digran. a þeirri sǒmu stundu reri at sundinu Hakon jall Æiriksson ok hafde skeid alskipada ok hugde hann at kaupskip .ij. uære j sundinu. roa þeir fram j sundit mille skipanna. nu draga þeir Olafr konungr upp streingina undir midiann kiolinn a skeidinne ok undu med uindasum. ok þegar er nockut festi skeidina þa hallade ok sidan huelfde. Olafr konungr tok a sunde þar Hakon jall ok alla hans menn þa er þeir nadu at handtaka en sumir hofdu tynnzst firir skotum ok grioti en sumir sucku nidr. Suo segir Ottarr.

Blagæida toktu brædir
bengialfurs ok þa sialfa
skafti gnóx med skreyttu
skæid Hakonar ræide.

ungr sottir þu þrottar
þings magrenner hingat
mattut jall þar er attut
attland firir þui standa.

Jall uar uppleiddr a konungsskipit hann uar manna uænstr ok uel hærdr hann hafde spent gullhlade at hofdi ser ok settizst nidr j firirrumit. þa mællti Olafr konungr. eigi er þat logit fra ydr frændum huersu fridir þer erut synum en farnir eru þer nu at hamingiunne. Jall suarar. eigi er þetta uhamingia er nu hefir oss hent hefir þat leinge uerit at ymser hafa sigradir verit suo hefir her ok farit med ydrum frendum ok uorum at ymsir hafa betr haft. ek er litt kominn af barns alldri ok uoru uær nu ecki uel uidkomnir at veria oss vissu ver oss æinkis otta von. kann ok vera at oss takizst i annan tima betr til. þa suarar Olafr konungr. grunar þig ecki þat jall at her hafui nu suo til borit at þu munir huorki hedan j fra fa sigr ne vsigr. Jall suarar. þer munut rada konungr at sinne. Konungr mællti. huat uilltu til uinna jall at ek lata þig burt fara huert er þu uill hæilan ok usakadan Jall spurde huers hann beiddizst. Konungr suarar. eingis annars en þer farit j brott ór lande ok gefit upp riki yduart ok suerit þess eida at þer halldit

æigi orrostu j mot mer hedan j fra. Jall letzst þat gera mundu. Nu uinnr Hakon jall æida Olafi konungi at hann skal alldregi sidan beriazst j moti honum ok æigi ueria Noreg med ofriki firir Olafi konungi ne sækia hann. þa gefr Olafr konungr honum grid ok ollum hans monnum. tok jall uit skipe þui er hann hafde haft. roa nu j brott leid sina. þess getr Siguatr.

Eikr kuat ser at sækia
Saudungs konungr naudir
frægdar giarnn j fornnu
fund Hakonar sunde.
strangr hitti þar þengill
þann jarll er uard annar
æzstr ok ætt gat bezsta
ungr a danska tungu.

Eftir þat byrr jall ferd sina ór lande ok siglir uestr til Æinglandz hittir þar Knut konung modurbrodur sinn segir honum allt huernnig farit hefir um vidskifti þeirra Olafs konungs. Knutr konungr tok vid honum forkunnar uel setr Hakon jall innan hirdar med ser ok gefr honum mikit ualld j sinu riki. duelst Hakon jarll þar langa hrid med Knuti konungi.

## Ferd Olafs konungs.

32. Olafr konungr sneri austr med lande ok atti uida þing uid bęndr gengu margir honum til handa en sumir mælltu j mot þeir er voru frændr edr uinir Sueins jalls. ferr Olafr konungr þui skyndiliga austr til Uikr ok helldr lide sinu inn j Uikina ok setr upp skip sin sækir nu a land upp. en er hann kemr a Uestfolld þa fögnudu honum margir menn vel þeir er verit höfdu uinir födur hans. þar uar ok mart ættmanna hans um Folldina. hann for um haustit a Upplond a fund Sigurdar stiupfödur sins ok kom þar snemma dags. en er Olafr konungr uar kominn nærr bęnum þa hliopu firir þionustusueinar hans til bęiarins ok komu inn j stofu. Asta modir Olafs konungs uar þar inne ok konur margar med henni. þa sogdu suæinar henni um ferd konungs ok suo þat at hans uar þangat uon. Asta stendr þa upp þegar ok het a kalla ok konur at buazst um sem bezst. hon let fiorar konur taka bunat stofunnar ok bua med tiolldum ok um palla. .ij. kallar baru halm a golfit .ij. settu skaptker ok trapizsu. .ij. settu bord .ij. settu a uistina. .ij. baru inn öl. .ij. sende hon burt [323] af bænum. en aller adrir będe kallar ok konur gengu vt j gardinn. sendimenn foru þar til er uar Sigurdr konungr ok höfdu med ser tignarklęde hans ok hest med godum sodli. en bitullinn uar allr smelltr ok gylltr. fiora menn sende hon fiogurra uegnna j bygdina ok baud til sin öllu stormenni

at þiggia ueitzslu er hon gerde fagnadarǫl[1] j mot syne sinum. alla menn er firir voru let hon taka hinn bezsta bunat sinn er til attu.

Olafr kom heim til modur sinnar.

33. Sigurdr konungr syrr uar uti staddr a akri er sendimenn komu til hans ok sogdu þessi tidende ok suo þat allt er Asta let at hafazst hæima a bęnum. hann hafde þar marga menn med ser sumir skaru kornn sumir bundu sumir baru heim kornn sumir hlodu en hann ok .ij. menn med honum gengu stundum a akrinn en stundum þar til er hladit uar kornninu. Suo er sagt af bunade Sigurdar konungs at hann hefde kyrtil blan ok blar hosur upphafua sko ok bundna at legg gra kapu hatt gran uidan. stafr j hende ok a ofan silfrholkr gylltr ok j silfrhringr. Suo er sagt fra lunderni Sigurdar konungs at hann uar umsyslumadr mikill ok bunadarmadr um fe sitt ok bu ok red sealfr bunade. einge uar hann skartzmadr helldr famalugr manna uitrazstr þeirra er þa uoru j Noregi ok audgazstr at lausafe. hann uar fridsamr ok uagiarnn. Asta kona hans uar stor ok riklundut. þessi voru bornn þeirra. Guthormr uar ellzstr þa Gunnhilldr Halfdan ok Sigurdr þa Haralldr. þa mælltu sendimenn. þau ord bat Asta at vit skylldum bera þer at henni þætti allmikit undir at þer tækizst nu stormanliga ok bat þess at þu skylldir nu meirr likiazst j ætt Haralldz hins harfagra um skaplynde en Hrana mionef modurbrodur þinum edr Nercid jalli hinum gamla þott þeir væri spekingar mykler. Konungr mællti. tidende mikil segi þit enda flyti þit allakafliga ok latit hefir Asta mikit yfir þeim monnum fyrr er henni uar minne skyllda á ok se ek at sama skaplynde mun hon hafua um ok tekr hon þetta med myklum akafa ok er uel ef hon færr son sinn suo ut læitt at þat se med þuilikre stormenzsku sem nu leidir hon hann inn. en suo litzst mer ef suo skal uera at þeir er sitt uedsetia j þetta uandamal mune huorke sea firir fe sinu ne fiorui. þessi madr Olafr brytzst j moti myklu ofrefli ok a honum ok hans rade liggr ræide Danakonungs ok Suiakonungs ef hann helldr þessu fram. þa settizst Sigurdr konungr nidr ok let taka af ser skoklęde sin ok dro a sig kordunohosur ok batt med gylltum sporum. þa tok hann af ser kapuna ok kyrtilinn ok klæddizst sidan pellzklędum ok yzst skarlatzkapu ok gyrde sig med gullbunu suerde ok setti hialm a hofut ser. steig a hest sinn. hann gerde uerkmenn j bygdina ok tok ser .xxx. manna uel buna ok ridu þegar med honum. en þa er hann ræid upp j gardinn firir stofuna sa hann at ǫdrum megin j gardinum

[1]) syne *tilf. Cd.*

brunade fram merke ok þar med ræid Olafr konungr ok med honum hundrat manna ok aller uel bunir. þa var ok skipat monnum allt medal husanna. fagnnade Sigurdr konungr þegar af hesti Olafi stiupsyne sinum ok lide hans ok baud til dryckiu med ser. en Asta gek til ok kysti med sętligu halsfange Olaf son sinn ok baud honum med ser at duelíazst ok allt hæimillt land ok lid er hon mætti honum uæita ok læidde hann inn j stofuna til hasętis. Olafr konungr þackade henni uel bod sitt. Sigurdr konungr fek menn til at uardueita klædnat þeirra ok gefa kornn hestum þeirra en hann gek til hasætis sins ok uar su uæitzsla geor med hinu mesta kappe[1] ok stormenzsku.

### Badagiordir þeirra Olafs konungs Sigurdar ok Aastu.

34. þa er Olafr konungr hafde þar læinge dualizst þa uar þat æinn dag at hann hæimte til tals vid sig Sigurd konung ok Astu modur sina ok Hrana fostra sinn. þa mællti Olafr konungr. suo er uordit sem ydr er kunnigt at ek er kominn hingat til landz ok verit adr langan tima vtanlandz. hefui ek ok minir menn haft alla þessa stund þat æina oss til flutningar er uer hofum sott j hernade ok morgum stodum orrostur att ok ordit bæde til at hætta lifue ok salu. hefir margr madr saklaus ordit sitt at lata firir oss sumir fe en sumir lifit med. en yfir þeim æignum sitia utlendir menn er atti minn fadir ok hans fadir ok huerr eftir annan vorra frænda ok er ek odalborinn til. en þeir hafa tekit æigur vorra frænda allar undir sig er ecki eru tilbornir en ver sitium firir misse er at[2] [324] langfedga tale erum komnir fra Haralldi hinum harfagra. ætla ek ydr helldr satt at segia at sækia oddi ok eggiu frændleifd mina ok kosta þar til allra minna frænda ok vina ok allra þeirra er at þessu rade uilea snua med mer. suo skal ek ok upp hefia þetta tilkall at annathuort skal uera at ek skal æignnazst rike þat allt til forrada er þeir raku burt af Olaf konung Trygguason frænda minn edr ek skal her falla a frændleifd minne. nu uænti ek Sigurdr magr um þig ok adra menn þa er odalbornir eru j lande til konungdoms at lǫgum þeim er setti Haralldr hinn harfagri þa mun ydr æigi suo fiarre fara at þer munit æigi upp hefiazst ok reka af hondum frændaskam þessa at æigi muni þer alla ydr til leggia vid þann er forgangsmadr uill gerazst at hefia ætt uora. en huort sem þer uilit lysa nockurnn mandom um þenna hlut þa ueit ek skaplynde alþydunnar at komazst undan þrælkan vtlendra hofdingea þegar traust beri til. hefui ek firir þa sok þetta mal firir onguan upp

[1]) kappa *Cd.* [2]) fra *Cd.*

borit fyrr en þer at ek uæit at þu ert uitr madr ok kant forsia til þess huernnig ræisa skal fra upphafui þessa ætlan huort þat skal fyst ræda j hliode firir nockurum monnnm edr skal þat bera j fiolmenni þegar firir alþydu. hefui ek nu nockut tõnn a þeim rodit er ek tok Hakon jall hondum ok er hann ór lande stockinn ok gaf hann mer med suardaga þann hlut rikis er hann atti adr. nu lęt ek at oss muni lettara falla at æiga vm vid Suein jall einn helldr en þeir uæri badir til landuarnnar. Sigurdr konungr suarar. æigi byrr þer litit j skapi þuiat þessi ætlan er meirr af kappi en forsia at þui sem ek uirde enda er þess uon at langt se j mille litilmenzsku minnar ok ahuga þess hins mykla er þer byrr j skapi þuiat þa er þu vart litt af barnns alldri kominn uarttu þegar fullr af kappi ok uiafnnade j ollu þui er þu matter. ertu nu reyndr miog j orrostum ok samit þig miog eftir sidueniu utlendra manna. nu uæit ek at suo fremi hefir þu þetta upp borit at ecki mun tia at letia þig ok er þat uorkunn at slikir hlutir liggi j myklu rumi þeim er nockurir eru kapsmenn at oll ætt Haralldz hins harfagra ok konungdómrinn fellr nidr. en j ongum heitum uil ek uera bundinn fyrr en ek ueit ætlan edr tiltekiu annarra Upplendingakonunga. en uel hefir þu þat gert er þu letzst mig fyrr uita þessa ætlan en þu bærir þetta j hamęli firir alþydu. nu uil ek heita þer umsyslu minne vid konunga ok suo vid adra hofdingea ok landzfolk. suo skal þer ok heimillt uera mitt fe til styrks þer. en suo fremi mun ek þetta bera firir alþydu er ek se at nockur framkuęmd ma at uera edr styrkr fæzst til þessa storrædis. firir þui at suo skalltu til ętla at mikit er j fang tekit ef þu uill kappi deila vid Olaf Suiakonung ok Knut er bade er konungr yfir Æinglande ok Danmorku ok mun rammar skordur þurfa vid at ræisa ef duga skal. en ecki þiki mer olikligt at þer uerde gott til lids þuiat alþydan er giorn til nyiungarinnar. for suo fyrr þa er Olafr Trygguason kom til landz at aller urdu þui fegnir ok naut hann þo æigi lengi konungdomsins. þa tok Asta til orda. suo er mer gefit sonr minn at ek er þer fegin ordin ok þui fegnnuz at þinn þroske mætti sem mestr verda. vil ek til þess õngan hlut spara þann er ek a en litit er her til rada at sea er ek er en helldur uillda ek ef þui uæri at skifta at þu yrdir yfirkonungr j Noregi þott þu lifdir æigi leingr en Olafr konungr Trygguason en hitt at þu uærir æigi mæire konungr en Sigurdr syrr ok yrder ellidaudr. þa skildu þau tal sitt. dualdizst Olafr þar vm hrid med lide sinu. Sigurdr konungr uæitti þeim annann-huernn dag at bordhalde fiska ok miolk en annanhuernn dag slatr ok mungat.

### Tala Hræreks konungs.

35. þa uoru Upplendinga konungar margir þeir er rikium redu ok voru þeir flestir er komnir voru af ætt Haralldz hins harfagra. firir Heidmork redu brędur .ij. Hrærekr ok Hringr en j Gudbrandzdolum Gudrődr. konungr uar ok a Raumariki. æinn sa er hafde þottn ok Hadaland. a Ualldresi uar ok konungr. Sigurdr konungr syrr atti stefnulag vid alla fylkiskonunga uppi a Hadalande ok suo vid bændr ok uar á þeirri stefnu Olafr Haralldzson. þar bar Sigurdr upp firir þa konungana radagerd Olafs mags sins ok bidr þa styrktar bæde at lide ok radum ok samþyckis. telr vm hver naudsyn þeim er a at reka af hondum þat undirbrot er Danir ok Suiar hafa þa naudbeygt ok marga uega nidrat ok nidrlamit [325] alla ætt Haralldz hins harfagra. segir at nu mun til verda sa madr er firir mun ganga þessu radi telr þa upp morg snilldarverk er Olafr hefir gert j ferdum sinum. þa suarade Hrærekr. satt er þat at miog er nidrfallit riki Haralldz hins harfagra er æinge hans ættmadr er yfirkonungr j Noregi. nu hafa menn her j lande ymis vid freistat. uar Hakon Adalsteinsfostri konungr ok kunnu aller þui uel. en er Gunnhilldarsynir redu lande þa uard ollum suo leitt þeirra riki ok uiafnnadr at helldr uilldu vtlenda konunga hafa yfir ser ok vera sealfradir. þuiat utlendir konungar voru þeim iafnnan fiarre ok uondudu litt vm sidu manna hofdu slikan skatt af sem þeir skildu ser. en er þeir urdu usattir Haralldr Danakonungr ok Hakon jall þa heriudu Jomsuikingar j Noreg en þa reis j mote allr landzmugi ok margmenni ok hratt þeim suo af riki. eggiudu menn þa til þess Hakon jall at hallda lande firir Danakonungi ok veria oddi ok eggiu. en er hann þottizst fullkominn til rikis af styrk landzmanna þa gerdizst hann suo hardr ok grimmr uit lydinn at menn þoldu honum æigi ok drapu þrændir hann sealfuir en hofu til rikis Olaf Trygguason er odalborinn uar til konungdoms ok uel til hofdingea fallinn firir allra hluta sakir. geystizst at þui allr landzmugrinn at uilea hann konung hafa yfir ser ok reisa þa upp at nyiu riki Haralldz hins hárfagra þat er hann hafde æignnazst. en er Olafr þottizst fullkominn j riki þa uar firir honum æinge madr sealfrade gek med freku at vid oss smakonunga ok hæimte undir sig þær skylldur allar er Haralldr konungr harfagri hafdi hertekit en sumt frekara. en at sidr voru menn sialfrada firir honum at æinge red a huernn trua skyllde. en er hann var fra lande radinn þa hofu uær nu halldit vinattu vid Danakonung ok hofum ver nu af honum traust mikit um alla hluti en sialfræde ok hoglifui innanlandz ok ecki ofriki. nu er þat at segia fra minu skaplynde at ek uni vel vid suo buit. uæit ek æigi þott

minn frænde se konungr yfir lande huort battnna skal vid þat nockut minn rettr en ella mun ek ðngan hlut æiga j þessi radagerd. þa mællti Hringr brodir hans. birta mun ek mitt skaplynde betra þike mer þott ek hafui hit sama riki ok eignir at minn frænde se yfirkonungr yfir Noregi en utlendir konungar ok mætti enn uor ætt hressazst her j lande. er þat mitt hugbod um þenna mann Olaf at audna hans ok hamingea mun rada huort hann skal riki fa edr æigi. en ef hann uerdr æinualldzkonungr yfir Noregi þa mun sa þickiazst betr hafa er stærri hluti a til hans at telia um hans vinattu. nu hefir hann j onguan stad mæira kost en æinnhuerr uorr en þui minna at uær hofum aller nockut land ok riki firir at rada en hann hefir ecki eru ver ok ecki sidr odalbornir til konungdomsins en hann. nu uilium uær unna honum mestrar tignar her j lande ok uæita honum suo mikit lidsinne ok fylgia þui fram med ðllum uorum styrk ok mætti. hui munde hann oss þat æigi godu launa ok leinge muna med godu ef hann er suo mikill manndomsmadr sem ek hygg ok aller kalla. nu munu ver a þa hęttu leggia (ef) ek skal rada ok binda uinattu uit hann. Eftir þat stod upp annarr at ðdrum ok talade ok kom þar nidr at þess voru flestir fusari at binda felagskap sinn ok uinattu uit Olaf konung. hann het þeim ok sinne vinattu fullkominne ef hann yrde æinualldzkonungr yfir Noregi ok bundu þat med eidum ok fastmælum.

Olafr konungr Harallzsun for vm Noreg ok Vpplond.

36. Eftir þetta stefndu konungar þing. bar Olafr konungr þa upp firir alþydu þessa radagerd ok þat tilkall er hann hefir þar til rikis beider þa bændr ser uidrtoku til konungs yfir landit heitr þeim þar j mot logum fornnum ok at ueria land firir utlendum her ok hofdingium talar vm þat langt eyrendi ok sniallt ok fek godan rom at male sinu. þa stodu upp konungar ok toludu annar at odrum ok fluttu þetta mal firir lydnum. uard þat at lyktum at Olafi uar gefit konungs nafnn yfir ollu lande ok dęmt honum land at upplenzskum lðgum. þa hof Olafr konungr þegar ferd sina ok (let) biod(a) upp firir ser uæitzslur þar sem konungs bu voru firir fyst um Hadaland ok þa sotti hann nordr j Gudbrannzdale. for þa suo sem Sigurdr konungr syrr gat til at lid dreif til hans suo mart at hann þottizst æigi halft þurfa ok hafde hann nærr .ccc. manna. þa endizst honum ecki uæitzslunnar sem a kuedit uar þuiat þat hafde uerit siduenia at konungar hofdu farit vm Upplond med .lx. manna edr .lxxx. manna en alldri mæirr en med hundrat manna. for konungr þa fliott yfir ok uar æina natt j sama stad. en er hann kom

[326] nordr til fiallz þa byriade hann ferd sina nordr yfir fiallit. þordr Siguallda skalld uar med Olafi konungi fyrr er hann uar j hernnade. Siguatr var son þordar hann var at fostri med þorketli at Apauatnne. en er Siguatr kom til Noregs a fund Olafs konungs þa baud hann at færa honum kuæde. konungr segir at hann uill æigi hlyda kuæde hans ok hann uill ecki yrkia lata vm sig. þa quad Sighvatr.

Hlyd minum brag meidir
myrkhallz þui ek kann yrkia
alltiginn mattu æiga
æitt skalld drasils tiallda.
þui ollungis allra
alualldr lofum skallda
þer fę ek hrodrs at huoru
hlit annarra nitit.

Olafr konungr gaf Sighuati gullhring er stod mork. hann gerdizst hirdmadr Olafs konungs. þa quat Sighuatr þetta.

Ek tok lystr en ek lasta
leyfd idnn er þat sidan
soknnar niordr uit suerde
sa er min vile þinu.
þollr fek þu huskall hollann
hǫfum radit uel badar
látrs en ek lanardrottinn
linnz bloda mer godann.

Sighuatr kom af Jslande til Olafs konungs. hann quad þa enn visu.

Georbænn mun ek gumnar
gams ræit erum heitinn
adr þagnni vid ægis
elld en nu bid ek fellda.
landaura uæittu lunndi
lad þuerrande at knerri
en of fanga ungum
ek hefui sealfr krafit halfa.

Olafr konungr kom ofan lide sinu j Uppdal ok for suo ofan til Orkadals. hann atti þar þing vid bændr ok beidde at þeir skyllde taka vit honum. þa let hann ok fram flytia vitnne þau er vid voru þa er Hakon jall suarde Olafi konungi land ok sinn hluta rikis er fyrr hafde att Æirekr jall. þat voru .iiij. fylke j þrandheimi Orknndęlafylke Gauldęlafylki Strindafylki Eynafylki. margir menn væittu honum þar godar vittokur sumir mælltu j moti en sumir flydu undan. Sueinn jall uar inn j þrandheimi at Steinkerum ok let þar bua til iolaueitzslu. þar uar kaupstadr.

## Fra ferdum Olafs konungs.

37. Einarr þambarskelfir spurde til ferda Olafs konungs. þa for hann upp j Gaulardal med huskalla sina. hann sende menn inn til Nidaross en let þar taka rodrarskutu er hann atti for sidan inn eftir firde ok kom æinn dag sidarlla inn til Steinkera ok baru niosnn Sueini jalli vm ferdir Olafs konungs. Jall atti langskip mikit er flaut tialldat firir bęnum let hann þegar um kuelldit flytia a skipit allt lausagodz sitt

ok klædnat manna ok dryk ok vist sem skipit tok vid. reru þegar um nottina ok komu j lysing vt j Skarsund. Olafr konungr hafde radit ser til skipa vt j Orkadal tok þar bondafôr ok hafde .v. skip hellt þegar inn eftir firdenum. þa sneri jall at lande inn fra Masarvik þar uar þyckr skogr. logdu nærr berginu at lauf ok limar toku yfir skipit hiuggu þeir stor tre ok settu a vtborda j sia ofan suo at æigi sa skipit firir laufinu var ok æigi alliost ordit þa er konungr reri inn um þa. lognn var vedurs. konungr reri inn vm eyna en er syn fal a mille þa reri jall vt a fiordinn til Frostu ok lagde þar at lande þat var hans riki. Sueinn jall sende menn vt j Gaulardal eftir Æinare mage sinum. en er hann kom til jalls þa sagde jall honum fra skiftum þeirra Olafs konungs ok suo þat at hann uillde lata lide safnna ok fara a fund Olafs konungs ok beriazst vit hann. Æinarr suarar. ver skulum radum at fara hallda til niosn huat Olafr ætlazst firir latum hann þat æitt fra oss spyria at ver sem kyrrir. kann þa vera ef hann spyrr ecki lidsafnnat uornn at hann setizst inn at Steinkerum um jolin þuiat þar er nu uel firir buit. en ef hann spyrr at ver hofum lidsafnnat þa mun hann stefnna þegar vt eftir firde ok hofum ver hans þa ecki. Suo uar gert sem Æinarr mællti. for jall a ueitzslur til bonda upp eftir Stioradal. en er Olafr konungr kom inn til Steinkera þa tok hann upp ueitzsluna ok (let) bera a skip sin ok aflade til byrdinga ok hafde med ser bæde uist ok dryk ok biozst j brott sem skyndiligazst ok hellt vt til Nidaróss. þar hafde Olafr konungr efnnat til kaupstadar ok husat konungsgard en adr uar þar æinbęle. en er Æirekr kom j land þa sat hann at Hlôdum þar sem fader hans hafde fyrr hofutbæ sinn en rækti ecki þat er Olafr konungr let gera. uoru þau nidr fallin en sum stodu ok þo helldr ubyggilig. Olafr konungr hellt skipum sinum upp j Nid let þar þegar buazst vit j þeim husum er uppi voru en ræisa upp þau er nidr voru fallin ok hafde þar til fiolda mannz. let þa ok flytia upp j husin bade dryk ok vist ok ætlade þar at sitia um jolin. En er Sueinn jall spurde þat ok Æinar þambaskelfir þa safna þeir lide ok fara vt til Gaulardals hit efra ok stefnna vt til Nidaross ok hofdu nær .xx. hundrat manna. Menn Olafs konungs voru vt a Gaularase ok helldu [3:7] hestuord. þeir urdu uarir vid herinn er utan for vm Gaulardal ok baru konungi niosn vm midnætti. stod konungr upp þegar ok let uekia lidit. gengu þeir þegar a skipin ok baru vt oll klæde ok uopnn sin ok þat er þeir fengu med komizst reru þa vt ór anne. kom þa iafnnskiott lidit jalls til bæiarins toku þeir þar iolauistina alla ok brendu bæinn allann. for Olafr konungr vt eftir firde til Orkadals ok gek þar af skipum for þa

vt eftir dalnum allt til fiallz ok austr yfir fiallit allt til Dala. Fra þessu er sagt er Sueinn jall brende bæinn j Nidarose j flocke þeim er orti Klængr Brusason hann var þa med Sueini jalli.

Brunnu allualldz inni
elldr hygg ek at þau fellde
æimr stők a her hrime
halfgeor vid Nid sealfa.

Olafr konungr for þa eftir Gudbrandzdőlum ok þadan vt a Heidmork ok for allt at ueitzslum. Olafr konungr safnar her saman þa er a leid uetrinn hann hafde mikit lid af Heidmork er konungar fengu honum. foru þadan lendir menn miog margir ok riker bændr. j þeirre ferd uar Ketill af Hringunese. Olafr konungr hafde lid mikit af Raumariki. Þordr Guthormsson af Steig kom til lids vid hann vid mykla suæit manna sækia þeir þa vt til siofar ok rada ser til skipa ok buazst vid j Uikinne ok hofdu fritt lid ok mikit. Sueinn jall safnnar lide um allan Þrandheim þegar eftir iolin bydr ut leidangri ok byr skip sin. J þenna tima voru j Norege fiolde lendra manna. voru þeir margir rikir ok suo ættstorir at þeir voru komnir af konunga ættum edr jalla ok attu skamt til at telia ok voru storaudgir. var þar allt traust konunga edr ialla þeirra er firir lande redu er lendir menn voru þuiat suo var j hueriu fylke sem lendir menn rede firir bondalidinu. vel var Sueinn jall vingadr uit lenda menn uard honum gott til lids. þar voru þa med honum Æinarr þambarskelfir magr hans. Þorir hundr. Aslakr af Finneyiu. Rutr ór Uiggium Þorgæirr af Kuelldrum ok marger adrir lendir menn. þeir foru vt ór firdinum er þeir voru bunir ok helldu sudr firir Rogaland. þa kom til motz vid þa Erlingr Skialgsson ok hafde mikit lid ok med honum margir lendir menn helldu þa ollu lide sinu austr til Vikr er a læid langafőstu en er Sueinn jall sotti inn j Vikina ok hellt hann lidinu inn um Grenmar ok lagdizst þar.

## Olafr konungr for i moti Sueini jarli.

38. En er Olafr konungr spyrr lidsofnnut Sueins jalls ok Æinars þambarskelfis vm allan Noreg ferr hann a fund Sigurdar konungs syrs mags sins ok segir honum lidsofnnut þeirra Sueins jalls. munu þeir ætla segir hann at brenna skip min ok drepa lid mitt ok æignna ser sidan land allt. en þo at fundr uorr se vuidrkuæmiligr at missera tale þuiat nu er ofarliga a langafostu þa mun ek þo æigi nenna ődru en fara j moti þeim huat sem j kann at georazst ok uil ek magr at þu ser j főr med mer. Sigurdr konungr suarar. æigi mun mæira lid

mer fylgia en suo at mer þiker von at ek muna buinn med mitt lid þa er þer uilit farit hafa. þeir fara nu med þat lid er Sigurdr konungr fek til motz vid meginherinn. þeir hofdu allz .xx. langskip ok .ij. skæidr ok .ij. knorru er Olafr konungr kom j land med. Olafr konungr hellt lide sinu innan eftir Vikinne ok var þa skamt j mille þeirra ok vissu huorir til annara. Olafr konungr styrde þui skipe er Kallhofde var kalladr þar var skorit hofut fagurt a framstafnne. konungr sealfr hafde þat skorit. þat hofut uar læinge haft i Noregi. þat var laugardaginn firir palmsunnudag er þeir lǫgduzst suo nærr.

## Huorirtueggiu biugguz til bardaga.

39. Palmsunnudags mǫrgin þegar at lysti stod Olafr konungr upp ok klęddizst gek a land ok let þa blasa lidinu ǫllu til landgongu ok atti tal vid þa. ok sagde þa. at hann hafde spurt at skamt munde vera j mille þeirra Sueins jalls. skulu ver nu vid buazst þuiat skamt mun til fundar uors. uopnnizst menn nu ok bue huerr sig ok sitt rum þar sem skipat er adr suo at aller se þa bunir er ek læt blasa til brottlǫgu. sidan roi samfast fari ǫnguir lauser fyrr en allr herrinn ferr. duelizst ok ǫnguir eftir þa er ek læt suifa ór hofninne þuiat æigi megum vær uita huort ver munum jarll hitta þar er nu liggr hann edr munu þeir sækia j mot oss. en ef uornn fund berr saman ok nai ver æigi frestun ok takizst orrosta þa heimti uorir menn saman skip sin ok seem bunir vit at tæingia. hlifum oss fyst ok hafit skiolldu yfir ydr ok firrit ydr suo sarum. gætum uopna uorra at uær berim æigi a sæ vt edr kastim a glæ ok latum suo lida hina hæstu tid dags. en er orrosta festizst ok skipin hafa saman bundizst gerum þa sem [338] hardazsta hrid ok dugi huerr sem manligazst. Olafr konungr hafde a sinu skipe .c. manna ok hofdu þeir aller hringabryniur ok ualska hialma. flestir menn hans hǫfdu huita skiolldu ok lagdr a hinn raude kros edr dreginn med gulle edr blam steini. kross let hann draga j enne a ǫllum healmum med bleikiu hann hafde huijtt merke þat uar ormr. hann let ok syngia ser tider gek sidan a skip sitt ok bat menn snæda ok drekka nockut sidan let hann blasa herblastr ok leggia vt ór hofnninne. en er þeir komu firir hofnn þa er Sueinn jall la j þa var lid hans aluopnnat ok ætlade at leggia vt ór hofninne. en er jarll ok hans menn sa konungs lid þa toku þeir at tæingia skipin ok settu upp merke sitt. en er Olafr konungr sa þat at hann nade æigi frestun let hann fylkea lide sinu suo at samtæingd voru .xx. skip firir Nesium en sin skæid j huornn arm en knerrirnir lagu yzstir ok sund breitt a millum ok

skæidanna. Sueinn jall hafde halfan vta tôg skipa. en er þeir sa uidrbunat Olafs konungs mællti Æinar þambarskelfir. siait þar fylking konungs ok ma hana kalla ecki þyckua en æigi kemr mer þat a uvart þo at raninn verde hardsottr a fylking hans adr en sol gengr j ægi j kuelld en rum er þer ætlat jarll j huorum fylkingararme er þu uill. Ef ek neyti þess rums quat jarll þa muntu fara med mer. Einge er þess uon quat Æinar at mitt skip fari ór teingslum ok j skipaflota konungs at beriazst vid hann naudgan þuiat ek se at honum er ecki um at beriazst j dag þo at hann uili æigi uanbuinn vera vid þer ok monnum þinum. Eigi fann ek þat fyrr quad jarll at þer yrde hugfatt. Kalla þat sem þu uill quad Æinar. enda ma uera jall at þer se gæfufatt ef mer er hugfatt. Æigi mun þat quad jarll þuiat ver munum gera skothrid harda. Æinar mællti. æigi er jafnnkomit a um uitzmune med yckr Olafi konungi. rad eru .ij. firir hende ok hefir konungr bæde en þu huorke. þat er rad annat at þyrma hatit ok gera þeir suo en annat at hlifa ser ok varduæita skeyti sem ek hygg at þeir mune gera ok mun hord hrid su er þeir senda aftr skæytin þo at þu siair æigi vid þui. Suo gek sem Æinar gat.

## Nesia orrosta. feck Olafr sigr.

40. Nv buazst þeir Sueinn jarll til bardaga ok gera harda skothrid en Olafr konungr ok hans menn hlifa ser ok geyma skotvopnn oll ok gek þui langt fram a dag. en er þui linte þa greida þeir atrodr sinn lagde konungr at skipe jarlls tokzst þar hord orrosta. Suo segir Sighuatr.

Væitti soknn þar er sotti
siklingr fiıum mykla
blod fell rautt a rodna
ræin j hofnn at Suæine.
sniallr hellt at sa er olli
æirlaust konungr þeirra
en Suæins lid er at sônnu
saman bundu skip sunde.

Her segir þat[1] at Olafr konungr hellt at en Sueinn jall la firir j hofninne. Sighuatr skalld var þar j orrostunne hann orti þegar vm sumarit eftir flok þann er Nesia visur erv kalladar ok segir þar vanliga fra þessum tidendum. Hann segir suo.

þat er kunnt hue kennir
Kallhofda let ialli
odda frostz firir austan
Agdir nærr um lagda.

[1]) þ't (*d. e.* þuiat) *Cd.*

Orrostan uar hin snarpazsta ok var þat langa rid er ecki matti sea j mille huernn ueg hniga munde. fell þar mart af huorumtueggium ok fiolde sarr. Suo segir Sighuatr.

Varat sigmara Sueine
suerda gnys at fryia
giods ne godrar hridar
gunnreifum Oleifui.
þuiat kuistingar kosta
komat herr j stad verra
attu suo þar er sottuzst
seggir huorirtueggiu.

Jarll hafde lid meira. en konungr hafde æinualalid a skipe sinu þat er honum hafde fylgt j hernade ok buit suo uel sem fyrr uar sagt at huerr madr hafde hringabryniu urdu þeir ecki sarir. en er lidit tok at falla a skipi jalls en sumt sart þa þyntizst skipanen a bordunum redu þa til uppgaungu menn Olafs konungs var þa merkit upp borit aa[1] þat skip er næst var skipe jarlls. Olafr konungr fylgde sealfr fram merkinu. Suo segir Sighuatr.

Stong od gyllt þar er gæingu
gǫndlar serks und merkium
gnys med gǫfgum rǫsi
greidendr a skip ræidir.
þeygi var sem þessum
þæingils a ior streingia
miod firir malma kuediu
mær heidþægum bæri.

þar var snorp orrosta ok fellu miog Sueins menn en sumir hliopu firir bord. Suo segir Sighuatr.

Vær drifum huatt at heyra
hatt uoppna brak knatti
rǫnd klufu rodner brandar
reidir upp a skæidir.
en firir bord þar er borduz
buin feingu skip dræingir
nærr flaut vt vid eyre
ofair bændr sarir.

Ok enn quat hann.

Aulld uann ossa skiolldu
autsætt uar þat rauda
hliom þar er huiter koḿu
hring midlundum þingat.
þar [329] hyk ungan gram geingu
gunnsylgs en vit fylgdum
bratt fek suanr þar er slæduzst
suerd upp j skip gerde.

þa tok at snua mannfallinu upp a lid jalls. þotti konungsmonnum þa uænna horfa. sotti konungr þa at jallzskipinu ok uar þa uit sealft buit at þeir munde upp ganga a þat skipit. en er jall sa j huert uefnni komit uar þa het hann a frambyggia at þeir skyllde hǫggua tæingslin ok leysa skipit ór flotanum. þeir gerdu suo. þa færdu konungsmenn stafnnlea a skæidarkylbuna ok helldu þeim. þa mællti jarll at þeir skylldu af hoggua kyl(b)una ok suo gerdu þeir. Suo segir Sighuatr.

[1]) at *Cd.*

Sealfr bat suarta kylfu
Suæinn hardliga skæina
nærr uar adr j ora
auduon roit hánum.
þa er til giods en giode
giort fengum hræ suðrtum
yggs let herr um hðggit
hrafnni skæidar stafnna.

Æinar þambarskelfir hafde lagt sitt skip a annat bord jarllzskipinu. þa kðstudu þeir ackeri j framstafnn a jallsskipinu ok fluttuzst aller samt vt a fiordinn. Besse Skalldtorfuson var j firirrumi a skipi jalls. en er skipit sæig fram fra flotanum þa mællti Olafr konungr er hann sa Bessa þuiat hann uar audkendr uænn ok uel buinn. farit hæilir Bessi. Hann suarar. verit hæiler konungr. Suo segir Besse j flocki þeim er hann orti þa er hann kom a fund Olafs konungs ok sat j fiotrum.

Hrodurs bad hæilan lida
bagkennannanda(!) þenna
en snarræde sliku
suarat unnum uer gunnar.
ord selldum þau ellda
ut haudrs boda traudir
knarar haps sem ek keypta
kynstor a uit bryniu.

Ok enn quat hann.

Sueins raunir hefig senar
snart rækinga hiarta
þar er sualtungur sungu
saman foru uit storar.
elgs mun ek æigi fylgia
ut hridboda sidan
hest at huerium kosti
branna dyrra manni.

Ok enn segir hann.

Kryp ek æigi suo sueigir
sara linnz i uore
buinn olitinn vti
endr þer til handa.
at ek herstefnni hafnna
hæidmildr edr þa læidumzst
ungr kunnig þann þraungui
þin hollvine mina.

Nu flydu sumir jallsmenn a land upp en sumer gengu til grida. þa reru þeir Sueinn jall vt a fiordinn ok logdu þar skip sin. leitar jall rada vid lenda menn. Erlingr Skialgsson red þat at þeir skylldu sigla nordr j land ok fa ser lid ok beriazst enn vid Olaf konung. en firir þui at þeir hofdu latit lid mikit þa fystu flestir at jall fære ór lande a fund Suiakonungs mags sins ok efldizst þadan at lide ok fylgde þui Æinar þambarskelfir þotti honum sem þeir hefde þa æinge efnni a at beriazst uit Olaf konung. skildizst jall þa uit lid þeirra ok siglde þa sudr yfir Folldina ok med honum Æinar þambaskelfir. en margir adrir lendir menn þeir er æigi uilldu flyia odul sin foru nordr til heimila sinna. hafde Erlingr um sumarit fiolmenni mikit.

## Vidrtal Olafs konungs ok Sigurdar.

41. Olafr konungr ok hans menn sa þa at jalls menn hȯfdu samanlagt skipum sinum. þa eggiar Sigurdr syr at þeir skyllde leggia at jalli ok lata til stals suerfa med þeim. uillde hann lata taka hondum Erling Skialgsson þori hund Aslak af Finneyinm Rut af Uiggiu þorgæir af Kuelldrum ok lata þa uinna æida konungi ok gerazst hans lendir menn ella væri þeir drepnir. Olafr konungr mællti. se ek at suo munde hæfa Sueini en þo mun þat firirfarazst at sinne vil ek æigi suo launa gude þann sigr er hann hefir gefit mer. enda kann ek Erling Skialgsson suo georlla ok adra þa er þu nefndir at þeir munu æigi uilia vinna æida j suo mikille ok hardre ræide sinne ok firir guds sakir skal æigi blasa hár af hȯfde þeim. uil ek ok sia fyst huert rad jall take ok huort þeir hallda saman flockinum edr skilizst lidit vid jall. Sigurdr quat hann rada skylldu en þat er mitt hugbod segir hann at vid skaplynde yduart ok radgirnne at sæint tryggui þer storbokkana suo sem þeir eru nu uanir adr at hallda til kaps ok iafns vid þa hofdingiana. uard ecki af atlȯgunne. sa þeir þa bratt at skildizst lid jalls. þa let Olafr konungr rannsaka valinn. lagu þeir þar nockurar nætr ok skiptu herfange. þa quat Sighuatr visur þessar.

þess get ek mæirr at misse
mordár sa er for nordan
harda margr j hȯrdum
heimkuomu styr þeima.
sȯck af sunda blacki
sunnu mȯrg til grunna
satt er at Suæini mattu
sannknuta ver vti.

Flyr æigi oss j are
innþrænzk þo at lid minna
gert hugdag suo snertu
snotr mær konungs uæri.

brudr mun helldr at hade
hafa drott þa er fram sotti
folld rudu skers sem skyllde
skeggi adra tueggiu.

Afli uex þuiat efla
Upplendingar sende
Suæin fundu þer þenna
þilblaks konungs uilia.
raun er hins at Hæinir
hrælinn megu vinna
þeir ǫxla foss fleira
fiolreks en ȯl drecka.

Olafr konungr gaf giafir godar Sigurdi konungi [330] syr magi sinum at skilnade ok suo odrum hofdingium þeim er honum hofdu lid uæitt. hann gaf Katli af Hringunese karfa .xv. sessa ok flutti Ketill karfann upp eftir Raumelfui ok allt upp til Miors. Olafr konungr hellt niosnum til fara jalls en er hann spurde at jall uar or lande farinn for hann uestr eftir Vikenne. dreif þa lid til hans ok uar hann til konungs tekinn a þingum. for hann suo til Lidandisness. þa spurde hann at Erlingr Skialgsson hafde safnnat mikinn. dualdizst konungr ekki a Nordraugdum þuiat hann fek radbyre. for hann þa nordr til þrandheims þuiat honum þotti þar vera allt

megin landzsins ef hann fengi þar undir sig komit medan jall væri ór lande. En er Olafr konungr kom j þrandheim þa uard þar æinge uppræist j moti honum ok var hann þar til konungs tekinn ok settizst um haustit j Nidarose ok bio þar til uetrsetu ok let þar husa konungsgard ok ræisa Clemenskirkiu sem nu stendr hon ok markade toptir til garda ok gaf bondum ok kaupmonnum ok þeim ðdrum er honum syndizst ok husa uilldu. hann sat þa fiolmennr þuiat hann treysti illa þrændum um trulæik ef jall kæmi aftr j land. voru berazstir j þui Jnnþrendir ok fek hann þadan ðngar skylldur ne skatta.

## Andlaat Hakonar jarls. ord Olafs Suiakonungs.

42. Svæinn jarll for fyst til Suiþiodar a fund Olafs Suiakonungs mags sins ok sagde honum allt fra vidskiptum þeirra Olafs digra ok læitar þa rada vid Suiakonung huat hann skyllde upptaka. konungr segir at hann skal med honum vera ef hann uill ok hafua þat riki til forrada er honum þiki sæmiligt. en ad odrum kosti mun ek fa þer mikit lid at sækia land af Olafi. Jall kiðre þann þui at þess fystu fleire þeir er æignir attu j Noregi er þar voru med jalli. þar satu þeir yfir þessi radagerd ok kom þat asamt med þeim at hann skyllde fara landueg um Helsingialand ok Jamtaland ok suo ofan j þrandheim þuiat jall treystizst uel Jnnþrændum ef hann kæmi þar. en þeir toku þat rads at fara fyrst j hernat ok heria um Austrueg at fa ser fiar. Sueinn jall for med lide sinu austr j Gardariki ok heriade þar ok dualdizst þar vm sumarit en er haustade þa sneri hann aftr til Suiþiodar. þa tok Sueinn jall sott ok anndadizst. dræifdizst þa lidit ok foru sumir til Suiþiodar en sumir til Helsingialandz ok Jamtalandz ok um Kiol til þrandheims ok sðgdu þar þau tidende er gerst hofdu j forum þeirra. Æinar þambarskelfir ok su suæit er honum fylgde foru um uetrinn a fund Suiakonungs ok uar þar j godu yfirlæti. þar uar ok mart þeirra manna er jalli hofdu fylgt þuiat konungi hugnade storilla vid Olaf digra þat er hann hafde setzst j skattlðnd hans en rekit j burtu Suæin jall. het hann þar firir Olafi digra hinum mestum afarkostum þa er hann mætti uit komazst. hann sagde at æigi munde Olafr suo diarfr uera at hann munde taka undir sig æignir þær er jallar hofdu haft. þui fulltingdu margir Suiakonungs menn at suo munde vera. Suiakonungr let þa þings kuedia ok sagde þat upp a þui þinge at vfridr skyllde vera landa a mille Noregs ok Suiþiodar ok drepa skyllde huernn norrænan mann er þangat kæmi. en hann bannade sinum monnum at fara til Noregs. ek uil ok sagde Suíakonungr æigi æiga nafnn uid þann digra

mann þuiat hann er uikingr ok skal hann kalla hinn digra mann en þann skal upp festa er ỏdruuiss georir. Nu hefzst ufridr landa a mille. en er þrændir spurdu til sannz at Suæinn jall var andadr ok hans uar ecki uon til landz þa snerizst oll alþyda til hlydne vid Olaf konung foru þa margir menn jnnan ór þrandheimi a fund Olafs konungs ok gerduzst hans menn sumer sendu ord ok iartæignir at þeir uilldu honum þiona. for hann þa um haustit inn j þrandheim ok atti þing vid bændr ok var hann j hueriu fylki til konungs tekinn. hann for þa vm haustit ut til Nidaross ok leth þangat flytia allar konungs skyldur ok efnnade þar til uetrsetu.

### Af logum ok landzrett Olafs konungs.

43. Olafr konungr let husa konungsgard j Nidarose. þar var geor mikil hirdstofa ok hasæti konungs j midre hallinne ok sat innar fra Grimkell byskup hirdbyskup hans ok adrir hans kennimenn en utar fra radgiafar hans. j ỏdru ỏnduegi geggnt honum sat Beornn digri ok þar næst gestir. uit ellda skyllde þa aul drecka. hann skipade monnum j þionustu sem sidr konunga uar til. hann hafde med ser .lx. hirdmanna ok .xxx. gesta ok setti þeim mala ok lỏg. hann hafde ok .xxx. huskarlla er starfa skyllde j konungsgardinum sligt er þurfti til at flytia. hann hafde ok marga þræla. j gardinum var ok mikill skale er hirdmenn suofu j þar uar ok mikil stofa er konungr atti hirdstefnnur [331] ok malstefnur ok sættarstefnnur. þat uar sidr hans at risa snemma um mornna ok klædazst ok taka handlaugar ganga til kirkiu ok hlyda ottusỏng ok morgintidum ok ganga sidan a stefnnur ok sætta menn edr tala þat annat er honum þotti skyllt. hann stefnnde til sin bæde rikum ok vrikum ok þeim ollum er uitrazstir voru. hann let upp telia firir ser laug þau er Hakon Adalstæinsfostri hafde sett j þrandheimi. hann skipade logum med rade hinna uitrozstu manna. tok hann af edr lagde vid þat er honum syndizst en kristinn rett setti hann vid rad byskups ok annarra kennimanna ok lagde a þat alla stund at taka af heidni ok fornnar vueniur þær er kristnnispell var j. suo kom at bændr iattudu þeim logum. Suo segir Sighuatr.

Loftbygguir matt leggia
landrett þann er skal standa
unnar allra manna
æykia lids a midle.

Olafr konungr uar madr sidlatr stilltr uel ỏrr ok fegiarnn. þa uar med konungi Sighuatr skalld ok fleiri islenzskir menn. Olafr konungr spurde

eftir huernig kristnne uæri halldin a Jslande ok þotti honum mikilla bota auant at uel uæri er þeir sogdu honum fra kristnihalldinu at lofat uæri at eta hross ok bera vt bǫrnn sem heidnir menn gerdu ok en fleire hlutir þeir er kristnespell uar j. þeir sogdu konungi fra morgu stormenni er þa uar a Jslande. Skafti þoroddzson hafde þa lǫgsǫgnn a Jslande. vida af lǫndum spurde hann af hattum manna ok sidum þa menn er gerlla uissu ok læidde mest at spurningum um kristinndom huernn ueg halldinn væri bęđi j Orknneyium ok Hiatlande ok Færeyium. spurdizst honum suo til at uidaz munde mikit a skorta at vel uæri. slikar rædur hafde hann oftliga j munne edr um laug at tala ok landzrett.

## Olafr sendi menn til Noreghs til Olafs konungs.

44. þann sama uetr komu austan ór Suiþiod menn Olafs Suiaonungs ok redu firir brædur .ij. þorgautr skarde ok Asgautr armadr ok hofdu med ser fiora menn ok .xx. En er þeir komu austan um Kiol j Veradal þa stefnndu þeir þing vid bændr ok heimtu skatta af hendi Suiakonungs ok baru þa bændr rad sin saman ok kom þat asamt med þeim at þeir munde geallda sligt sem þeir heimti af hende Suiakonungs ef Olafr konungr krefde huorke skatta ne skylldur firir sina hǫnd. kuoduzst æigi tuennum giallda uilia. foru þa sendemenn vt eftir dǫlunum ok fengu hinu sǫmu annsuǫr huar sem þeir attu þing en ecki fe. þa foru þeir j Stioradal ok stefnndu þar þing en bændr uilldu æigi til koma. þa sa þeir sendemenn at þeirra eyrende uar ecki ok uillde þorgautr snua aftr austr. ecki þicki mer uer hafua rekit eyrende konungs sagde Asgautr uil ek fara a fund Olafs konungs er þo skiota bændr þangat sinu male. Nu red hann ok foru þeir til bæiar ok toku ser herbergi j bænum. þeir geingu til konungs eftir um daginn er hann sat yfir bordum kuoddu hann ok sǫgdu at þeir foru med eyrendum Suiakonungs. konungr bat þa koma til sin annan dag eftir. En er konungr hafde lokit morgintijdum annan dag gek hann til þinghus sins ok let þangat kalla menn Suiakonungs ok bat þa bera upp eyrende sitt. þa talade þorgautr ok sagde fyst huerra eyrenda þeir foru ok þat sidan huersu Jnnþrændir hǫfdu suarat.[1] Eftir þat bæidde hann konung órskurdar huert þeirra eyrende skyllde uerda þangat. konungr suarar. þa er konungar ok jarllar redu lande þa uar ekki vndarligt at landzmenn væri þeim lydskylldir er þeir voru her ættbornir til rikis ok uar þat þo rettara at jallar hefde uæitt þeim lydne

[1]) suara *Cd.*

konungum er rettbornner væri her til rikis helldr en at luta til utlendra hofdingia en hefiazst upp j mote rettum konungum ok fella þa fra lande. en Olafr Suiakonungr er kallar til Noregs þa uæit ek æigi hueria tiltolu hann hefir þa er sannlig er en hitt megu uer muna at huernn mannskada ver hofum fæingit af honum ok hans monnum ok frændum. þa suarar Asgautr. æigi er undarligt at þu ser kalladr Olafr digri allstorliga suarar þu þuiliks hofdingia eyrendum oglaugt uæiztu huersu þungbær þer mun vera ræide konungsins ok hefir suo uordit þeim er enn uoru med meira krafti en mer synizst at þu munir uera. en ef þu uill hallda rikinu þraliga þa er þer sa til at geraz hans madr ok fara a fund (hans) ok munu ver þa bidia firir þer at hann fai þer at lani þetta riki. þa suarar konungr ok tok hogliga til orda. ek uil rada þer annat rad Asgautr farit nu aftr til [332] konungs yduars ok segit honum suo at snemma i uór mun ek fara austr til landzenda ok landamæris þess er at fornnu hefir skilit riki Noregskonungs ok Suiakonungs ma hann þar þa koma ef hann uill at uit gerim sætt ockra ok hafui þat riki huorr ockarr sem odalborinn er til. þa snua sendimenn j brott ok aftr til herbergis ok buazst j brott en konungr gek þa til borda. sendimenn gengu þa enn til konungsgardz. en er dyruerdir sa þat segia þeir konungi. hann bat þa æigi inn lata þuiat ek uil ekki uit þa mæla. Foru sendimenn j brott. segir þorgautr at hann mun aftr huerfa ok hans menn en Asgautr segir at hann uill reka konungs eyrende. þa skiliazst þeir. ferr þa þorgautr inn a Strind en Asgautr ok þeir .xij. saman snua vt til Gaulardals ok til Orkadals ætlar þa at fara sudr a Mæri ok reka þar konungs eyrenndi. En er Olafr konungr uard þess uarr þa sendi hann gesti ut eftir þeim. þeir hittu þa vt a Nese vit Stæin toku þa hondum ok bundu ok leiddu þa inn a Gaularas ok ræistu þar galga ok hæingdu þa þar er sia matti utan af firde af þiodleid. þorgautr spurde þessi tidende adr hann fór aftr af þrandheimi for hann þa alla leid þar til er hann fann Suiakonung ok sagde honum þat er gerst hafde j þeirra fðr. konungr uard allreidr er hann heyrde þetta sagt ok skorti þar æigi ord storligh.

## Bod Olafs konungs til Jslandz.

45. Eptir um uorit baud Olafr konungr lide vt ór þrandheimi ok biozst at fara austr j land. þa biugguzst ór Nidarose Jslandz fðr. þa sende Olafr konungr ord ok iarteignir Heallta Skeggiasyne ok stefnnde honum a sinn fund en sende ord Skapta lðgsogumanni ok

ǫdrum þeim er mest redu lǫgum a Jslande at þeir tæke ór lǫgum þat er honum þotti mest j mote kristnum dome. þar med sende hann uingiarnnlig ord ǫllum landzmonnum. Konungr for sudr med lande ok dualdizst j hueriu fylke ok þingade vid bændr en a hueriu þinge let hann upp lesa kristin lǫg ok þau bodord er þar fylgdu. tok hann þegar af vid lydinn margar uueniur ok heidinn dom þuiat jallar hofdu uel halldit fornn lǫg ok landzrett en um kristnnihalld letu þeir huernn gera sem uillde. uar þa suo komit at uidazst um siobygder voru menn skirder en kristin log uoru flestum ukunnig. en um dale ok fiallbygdir uar uida naliga alhæidit þuiat þegar er lydrinn uar frialsari þa festiz þeim þat hellzst j skapi um atrunat er þeir hofdu j barnnæsku numit. en þeim monnum er æigi uilldu vid skipazst ord konungs um kristnihalldit þa heth hann[1] afarkostum bæde rikum ok urikum. Olafr konungr uar til konungs tekinn a hueriu þinge. mællti þa æinge madr moti honum. Olafr konungr la j Karmsunde. þa foru ord j mille þeirra Erlings Skialgssonar at þeir skyllde sættazst ok var lagdr sattarfundr mille þeirra i Huitingsey.

Sætt þeirra konungs ok Erlings. capitulum.

46. þa toludu þeir sialfir um sætt sina. þotti Erlingi þa nockut annat j finnazst j ordum konungsins en honum hafde verit fra sagt þuiat hann bæiddizst at hafua uæitzslur þær allar er Olafr Trygguason hafde ueitt honum ok sidan jallar Suæinn ok Hakon. mun ek þa segir hann gerazst yduarr madr ok hollr uinr. Konungr suarar. suo litzst mer sem þer se æigi uerra at taka af mer iafnnmyklar uæitzslur sem nǫ tokt af Æireki jalli þeim manni er þer hafde gert hinn mesta mannskada. ek mun þig lata uera gofgazstan lendra manna j Noregi þott ek uil uæitzslurnar midla at sealfræde minu en lata æigi suo sem þer lender menn seth odalbornir til ættlæifdar minnar. en ek skyllda margfoldum uerdum ydra þionustu kaupa ef ek fenga hana trausta. Erlingr hafde ecki skaplynde til at bidia konung neinna[2] muna um þuiat hann sa at konungr uar ecki leidetamr. sa hann ok at .ij. voru kostir firir hondum sa annar at gera ǫngua sætt vid konung ok hætta þa huernn ueg færi edr lata konung aullu rada þo at honum væri þat miog j mote. hann mællti til konungs. su mun ydr min þionusta hallkuæmst er ek uæite ydr at sialfræde minu. þeir skildu þa talit Eftir þat gengu til frændr ok vinir Erlings ok badu hann uægia ok hafua uit vid en æigi ofrkapp. muntu sogdu þeir uera gofgazstr lendra

[1]) h° (ɔ: hon) *Cd.* [2]) nei einna *Cd.*

manna j Noregi bæde at frændum ok framkuæmdum ok fiarafla. Erlingr fann at þetta uar hæilræde ok gerir hann suo gengr til handa konungi med þeim skildaga er konungr uillde firir skilia. skilduzst eftir þat ok voru sattir at kalla. for konungr þa leid sina austr med lande.

## Tal konungs ok bonda.

47. Jnnan litils tima for Olafr konungr austr j Uikina. en er þat spurdizst þa [333] foru Danir j brott þeir er þa hofdu syslur haft af Danakonungi ok sottu þeir til Danmerkr ok uilldu æigi bida Olafs konungs. en Olafr konungr fór inn eftir Vikinne ok atti þing vid bændr gek undir hann allt landzfolk. tok hann þar allar konungs skylldur ok dualdizst þar vm sumarit j Uikinne. hann hellt austr vm sumarit yfir Folldina ór Tunsbergi ok allt austr vm Suinasund. þa tok vid ualld ok riki Suiakonungs. hann hafde þar sett yfir .ij. syslumenn Æilif gautzska yfir hinn nyrdra hluta en Hroa skialga yfir enn eystra hlut allt til Elfar. Hroi atti ætt tuæim megin Elfar en bu stor j Hising. hann uar rikr madr ok storaudigr. Æilifr uar ok storættadr. þa er Olafr konungr kom med lidinu j Ranriki þa stefnnde (hann) þing vid landzmenn ok komu til hans þeir menn er eyiar bygdu edr nærr sio. en er þing uar sett þa talade Beornn stallari ok bad bændr taka vid Olafi til konungs þar sem annars stadar j Noregi. Bryniulfr het madr æinn gaufugr bonde ok var kalladr ulfallde hann stod upp ok talade. vitum vær bændr huat rettazst væri um landaskifte j mille Noregskonunga ok Suiakonunga ok Danakonungs at Gautelfr hefuir radit fra Uæni til siofar en nordr merkr til Æidaskogs en þadan Kiolr nordr til Finnmerkr ok suo þat at ymser hafua geingit a annarra riki ok lǫnd. hafua Suiar lǫngum haft ualld allt til Suinasunndz. en þo ydr satt at segia væit ek margra manna uilea til þess at betra þætti at þiona Noregskonungi ef menn bæri traust til þess þuiat Suiakonungs riki er bæde sudr ok nordr fra oss ok allt firir ofan ok þess uon at Noregskonungr muni fara nordr j land þangat er megin landz er meira ok hǫfum uær þa æigi afl at hallda dæilu vid Gauta. nu uerde þer herra at sea hæillt rad firir oss fusir erum ver at gerazst ydrir menn. En eftir þingit þa var Bryniulfr j bode konungs ok toludu þeir mart sin a mille j æinmæle. þa for konungr austr eftir Uikinne. En er Æilifr spurde at konungr uar þar þa let hann bera niosnn til fara hans. hann hafde .xxx. manna sinna suæitunga hann uar j bygdinne ofanverdre vid merkr ok hafde þar bondasafnnat. margir bændr foru a fund Olafs

konungs en sumir sendu vinattubod til hans. þa foru menn j mille þeirra Olafs konungs ok Eilifs ok badu bændr at þeir legde stefnnu sin j mille ok rede ferd med ser sogdu suo Eilifi at þeim uar þess (uon) af konungi ef ecki uæri uid skipazst hans ord at þeir munde uon æiga af honum afarkosta en kuodu Æilif æigi skylldu lid skorta. uar þat þa rads tekit at þeir skyllde ofan koma at æiga þing vid konung. en þa sende konungr þori gestahofdingia sinn ok þa .vj. til Bryniulfs. þeir hofdu bryniur undir kyrtlum en hottu yfir healmum.[1] Eftir um daginn komu bændr ofan med Æilifi þar uar þa Bryniulfr ok hans suæit ok þeir þorir med honum. konungr lagde skipum sinum at þar er var klettr nockur gek hann þar upp ok settizst nidr ok lid hans j klettinn. en uollr uar firir ofan ok uar þar bondalidit en menn Eilifs stodu upp j skialldborg firir honum. Beornn stallari talade langt ok sniallt af konungs eyrende. en er hann settizst nidr þa stod Æilifr upp ok tok til mals. J þui bile stod upp þori langi gestahofdingi ok bra suerde ok hio til Æilifs a halsinn suo at af tok hofudit. þa hliop upp lidit allt bondanna en hinir gauzsku toku a ras undan. þeir þorir drapu nockura menn af þeim. en er herrinn stoduadizst þa stod konungr upp ok mællti ath bændr skylldu nidr setiazst. þeir gerdu suo ok var þar mart talat en at lyktum uard þat at bændr gengu til handa konungi ok jattudu honum hlydne. en hann het þeim þui j mot at skiliazst æigi vid þa ok vera þar til þess er þeir Olafr Suiakonungr lyki æinnhuernn ueg malum sinum. Eftir þat lagde Olafr konungr undir sig alla hina uestri sysluna ok for hann um sumarit allt austr til Elfar fek hann þar allar skylldur med sio ok um eyiar. en er a læid sumarit sneri hann aftr nordr j Uikina ok lagde upp eftir Rau(m)elfui. þar er foss mikill er Sarpr hæitir. nes gengr j ána nordan at fossinum þar let Olafr konungr gerda um þuert nesit af grioti ok torfui ok uidum ok grafa dike firir utan ok gerde þar iardborg mykla en j borginne efnnade hann til kaupstadar. þar let hann husa konungsgard ok gera Mariu kirkiu. hann let þar ok marka toftir til annarra garda ok fek þar til menn at husa. hann let þangat flytia ǫll fǫng er til uetrvistar þurfti ok sat þar um uetrinn med myklu fiolmenni en hafde sina menn j ollum syslum. hann bannade allar flutningar ór Uikinne upp a Gautland bæde sild [334] ok sallt en þat mattu Gautar illa uon[2] uera. hann hafde mikit jolabod baud til ór herodum morgum storbondum.

[1]) healfum *Cd.* [2]) *r.* án

## ÞAATTR EYUINDAR VRARHORNS.

Eyuindr urarhörnn er madr nefnndr ættadr af Austraugdum hann uar madr ættstorr hann for huert sumar j hernat stundum uestr um haf edr j Austrueg ok til Frislandz hann hafde tuilögsessu uel skipada. hann hafde uerit firir Nesium ok uæitt lid Olafi konungi. en er þeir skilduzst þa het konungr honum vinattu sinne nær sem hann uillde kraft hafua. Eyuindr uar um uetrinn j iolabode med Olafi konungi ok þa þar godar giafar af honum. þar uar ok þa med konungi Bryniulfr ulfallde ok þa j iolagiof af konungi suerd gullbuit ok med bæ þann er Ueitaland hæitir ok er þat hinn mesti höfutbærr. hann quat visu um giafarnar ok er þetta nidrlag at.

Bragningr gaf mer
brand ok Uæitaland.

þa gaf konungr honum lendz mannz rett ok uar hann hinn mesti vin konungs alla stund. þann uetr for þrandr hinn huite austr a Jamtaland at heimta skatt af hende Olafs[1] konungs. en er hann hafde saman dregit skattinn þa komu þar menn Suiakonungs ok drapu hann ok þa .xij. en þeir toku skattinn ok færdu Suiakonungi. þetta spurde Olafr konungr ok likade honum storilla. Olafr konungr let boda um Uikina kristin lög med sama hætti sem nordr j lande. ok gek þat uel fram þuiat Uikuerium uoru kristnilaug myklu kunnare en nordr j lande. þuiat þar uar będe uetr oc sumar fiolmennt af kaupmonnum bæde Dönum ok Söxum. Uikuerir hofduzst miog j kaupferdum til Æinglandz ok Flæmingialandz ok Danmerkr en sumir j uikingu ok hofdu uetrsetu a kristnum londum. Um uorit sende Olafr konungr ord Eyuinde at hann skyllde koma til hans. þeir töludu leinge einmæli. bratt eftir þat biozst Eyuindr at fara j uiking hann siglde sudr eftir Uikinne ok lagde at j Ekreyium vt fra Hising. þar spurde hann at Hroi hinn skealgi hafde farit nordr j Ordost ok hafde þar dregit saman læidangr ok landskyllder ok uar hans þa nordan uon. þa reri Eyuindr inn til Augasunda[2] en Hroi reri þa nordr ok hittuzst þeir j sundinu ok borduzst. þar fell Hroi ok nærr .xxx. manna med honum en Eyuindr tok fe þat allt sem þeir Hroi hofdu haft. for Eyuindr þa j Austrueg ok heriade þar um sumarit.

[1]) Suia *Cd.* [2]) *r.* Haugasunda.

## þorgautr drap Gudleik.

49. Gvdlæikr girzske het madr hann fór austr j Gardarike optliga ok uar hann firir þa sok kalladr Gudlæikr girdzske. þa bio Gudlæikr skip sitt ok ætlade at fara um sumarit austr j Gardarike. Olafr konungr sende ord Gudleiki at hann skyllde hitta hann. en er hann kom til konungs þa sagde konungr at hann uill gera felag vid hann bidr hann kaupa ser dyrliga gripe þa er torfæingnir se her j lande. Gudleikr sagde þat a hans forsia vera skylldu. þa let konungr græida j hendr honum fe slikt sem honum syndizst. for Gudleikr um sumarit j Austrueg. þeir lagu nockura hrid vid Gautland. var þa sem oft kann verda at æigi uoru allir halldinordir ok urdu landzmenn uarir uit at a þui skipe uar felagi Olafs digra. Gudleikr for um sumarit j Austrueg til Holmgardz ok keyfti þar pell agætt er hann ætlade Olafi konungi ser til tignarklæda ok þar med skinn dyr ok bordbunat agætan. Um haustit er þeir foru austan fek hann anduidri ok lagu þeir miog leinge vid Eyland. þorgautr skarde hafde um haustit borit niosnn um farar Gudleiks. kom hann þar at þeim med langskip ok bardizst vid þa. þeir Gudleikr borduzst en firir þui at lidsmunr uar mikill þa fell Gudleikr þar ok mart skipveria hans. tok þorgautr fe þeirra allt ok suo gerssimar Olafs konungs. skiptu[1] þeir herfange sinu at iafnnade en hann segir at gerssimar Olafs konungs skal hafua Suiakonungr. er þat nockurr hlutr af skatti þeim er hann a at taka af Noregi. þorgautr for þa austr til Suiþiodar. þessi tidende spurduzst bratt. Eyuindr urarhornn kom litlu sidar til Æylandz. en er hann spyr þetta þa siglir hann austr eftir þorgauti ok hittazst þeir j Suiaskerium ok borduzst. þar fell þorgautr ok flest lid hans edr hliop a kaf. tok þa Eyuindr allt fe þat er þeir toku af Gudleiki ok suo gerssimar Olafs konungs. Eyuindr for aftr til Noregs um haustit færde hann þa Olafi konungi gerssimar sinar. þackade Olafr konungr honum uel ferd sina ok het honum at nyiu sinne uingan. hafdizst Eyuindr vid j herforum nockur sumur ok þotti vera hinn frægazsti madr hellt vingan sinne alla stund vid Olaf konung. hann fell firir Æinari jalli Sigurdarsyne sem sidarr mun sagt verda j Orkneyinga jarlla þætti ok þotti konungi ser miog misbodit j þui verke.

## Fra Olafi konungi.

50. [335] þat sama sumar hafde Olafr konungr leidangr vti ok fór þa enn austr til Elfar ok la þar læinge um sumarit. þa foru ord mille þeirra Olafs konungs ok Raugnnualldz jalls ok Jngibiargar Tryggua-

[1]) skipti *Cd.*

dottur konu[1] jalls. hon gek at med ǫllu kappi at uæita Olafi konungi. hon uar aftakamadr mikill hellt þar til frændsemi Olafs konungs ok þat annat at henni matti æigi fyrnnazst uit Suiakonung þat er hann var j Suǫlldrar orrostu mote Olafi konungi brodur hennar þottizst hon firir þat æiga at rada[2] firir Noregi. uar jarll at fortǫlum hennar miog snuinn til vinattu vid Olaf konung. kom suo at þeir konungr ok jarll skilldu hittazst vid Elfui. ræddu þar mart ok miog um skifte þeirra Noregskonungs ok Suiakonungs ok sogdu þat badir sem satt var at þeim var mikit ofrelsi at fridspille þeirra a mille. nu settu þeir grid sin a mille ok frid (til annars) sumars sidan gefazst þeir giofum at skilnade ok mælltu til uinattu. for þa konungr nordr j Uikina ok hafde hann konungstekiur allt til Elfar ok allt landzfolk hafde þa undir hann gengit. Olafr Suiakonungr lagde oþocka suo mikinn til Olafs konungs Haralldzsonar at æinge madr skyllde þora at kalla hann nafnni sinu rettu suo at hann heyrde ok kǫlludu hann hinn digra mann ok uæittu honum hardar atǫlur iafnan er þeir heyrdu hans getit.

## Hiallti kom til Olafs konungs.

51. Bændr j Uikinne toludu sin a mille at sa veri til at konungar gerde sætt ok frid sin j mille ok kolluduzst illa vitkomnir ef konungar berdizst. æinge þorde þenna kurr diarfliga upp at bera firir konungi. þa badu þeir Beornn stallara at hann skyllde þetta mal flytia firir konungi at hann sende menn til Suiakonungs ok byde honum sættir af sinne hende. Beornn uar traudr til ok mælltizst undan en vid bæn margra vina sinna þa het hann at lyktum at flytia þetta firir konungi ok kuezst suo hugr um segia sem konungr munde omiukliga þui taka at uægia i næinum hlut vid Suiakonung. þat sama sumar kom vtan af Jslande Hiallti Skeggiason til fundar vid Olaf konung. tok hann uel vid Hiallta ok baud honum med ser at vera ok uisade honum til sætis hea Birnni stallara ok voru þeir mautunautar gerdizst þar bratt vingott ok godr felagskapr. Æitthvert sinn atti Olafr konungr (stefnu) vid lid sitt ok vid bændr ok redu landradum. þa mællti Beornn stallari. hueria ætlan hafui þer herra um ofrid þann er her er a mille yduar ok Suiakonungs. hafa nu huorirtueggiu latit marga menn firir ǫdrum en æinge ǫrskurdr er nu helldr en adr huat huorir skulu hafa af rikinu. þer hafit her setit j Uikinne æinn uetr ok .ij. sumur ok latit at baki ydr allt land nordr hedan. nu leidizst monnum her at sitia þeim er æignir eigu edr odul nordr j lande. nu er þat uile będe lendra manna ok annarra

[1]) dottir kona *Cd.* [2]) rade *Cd.*

bonda at einn ueg skeri ór. en firir þui at nu er grid ok fridr settr uit jall ok Uestrgauta þikir monnum sa nu hellzst til at þer sendit menn til Suiakonungs at bioda sætt af yduarre hende þuiat þat er huorum tueggium gagnn þeim er londin byggia her ok þar.. At tali Biarnnar gerdu menn godann rom. þa mællti konungr. rad þetta Beornn er þu hefir her upp borit þa er þat makligazst at þu hafir firir þer gert ok skaltu fara þa sendifõr. niottu ef uel er radit en ef mannhaski gerizst af þa uelldr þu þui miog sealfr. er þat ok þin þionusta at tala j fiolmenni þat er ek uil mæla lata. þa stod konungr upp ok gek til hamessu en þadan til borda. Um daginn mællti Heallti til Biarnnar. hui ertu suo okatr felagsmadr ertu siukr edr ræidr. Beornn sagde honum rædu þeirra Olafs konungs ok sagde þetta forsending. Hiallti suarar. suo er konungum at fylgia at þeir menn hafa metnnat mikinn ok eru framar virdir en adrir menn en oft verda þeir j lifshaska ok verdr huorttueggia uel at kunna. mikit ma konungs gæfua. nu mun frami fazst mikill j ferdinne ef uel tekzst. Beornn mællti. auduelliga tekr þu a vm ferdina ok muntu fara uilia med mer þuiat konungr mællti at ek skyllda uelia menn til. Hiallti suarar. fara uil ek at uisu ef þu uill þuiat uannfæinginn mun mer þickia sessunautrinn annar ef vit skilium. þa uar Sighuatr skalld med Olafi konungi. hann bad Biornn til ferdar med ser en til þeirrar ferdar voru menn ecki fusir. þar uar þo vingott med þeim Birnni ok Sighuati. Sighuatr quat þa visu.

**Att hefig gott vid goda**
**grams stallara alla**
**adr þa er ossa drottni**
**ogndiarfs um kne huarfa.**
**Beornn fazstu oft at arnna**
**is firir mer at visu**
**giods mega gott um rada**
**gunnriodr þuiat vel kunnut.**

Sidan het Sighuatr ferdinne.

Biornn var sendr til Sviarikis af Olafi konungi ok Hiallti.

52. [336] Fam dõgum sidarr þa er Olafr konungr uar a stefnnu kom þar Beornn ok þeir .xij. saman. hann sagde konungi at þeir uoru bunir at fara sendiforina ok hestar stodu uti albunir. uil ek nu uita segir Beornn med huerium eyrendum uær skulum fara edr huert rad þer leggit til med oss. Konungr suarar. þer skulut segia Suiakonungi þau min ord at ek uil setia frid mille landa uorra til þeirra takmarka sem Olafr Trygguason hafde firir mer ok se þat bundit fastmælum at huorigir gangi þar umfram. en um mannlat þessi þarf einge madr at geta ef sættir skulu verda þuiat Suiakonungr færr æigi oss med fee

bætt[1] þann mannskada er uer hofum fæingit af Suium. þa stod konungr upp ok gek ut med þeim Birnne. þa tok hann suerd buit ok gaf Birnni. þetta suerd gaf mer Rognualldr jarll. til hans skulu þer fara ok bera honum þau min ord at hann leggi rad ok styrk til med ydr at þer komit fram eyrendinu. þiki mer þa uel syslat ef þu heyrir ord Suiakonungs ok segi hann annattueggia nei edr ia. en fingrgull þetta fær þu jalli þuiat þessa jarteignn mun hann kenna. Heallti gek at konungi ok kuadde hann ok þurfu ver miog konungr þinnar hamingiu. Konungr bat þa heila skiliazst ok hittazst. þa uæik konungr aftr ok mællti. skalltu fara Hiallti med Birnne. (Ja) segir hann. Bæta mun þat til quad konungr þuiat þu hefir oft reyndr verit at hamingiu. Hiallti suarar. vitit þat vist at ek skal allan hug a leggia ef þat uegr nockut. þeir Biornn ridu j brott leidar sinnar. en er þeir ridu upp a Gautland quat Sighuatr visur þessar.

Katr var ek oft þa er vti
ordigt uedr a fiordum
uisa segls j vase
uindblasin skof strindar.
hestr od kafs af kostum
kilir ristu haf Lista
vt þa er æisa letu
unda skæidr af sunde.

Sniallr letum skip skolla
skiolldungs uid ey tiolldat
firir agætu uti
anduert sumar lande.
enn j haust er hestar
hafþornns a mo spornna
tek ek ymissar eckiur
idnir hlyt at rida.

Ok er þeir ridu um Gautland sid um aftan þa quat Sighuatr.

Jor rennr aftanskæru
allsuangr gautur langar
uoll kna hofr til hallar
hǫfum litinn dag slita.

nu er þat er blackr um becki
berr mig Dǫnum fiarri
fakr laust dreings j dike
dægr mætazst nu fæti.

þa ridu þeir j kaupstadinn j Skǫrum ok fram um stræti at garde jarlls. Sighuatr quat.

Vt munu eckiur lita
allsnudalla prudar
ferd scai reyk huar ridum
Rǫgnualldz j bæ gaugnum.

keyrum hross suo at heyri
hardla langt at garde
hesta ras at husum
hugsuinn konan innan.

þeir Biornn kuomu nu til bæiar Rognualldz jalls var þeim þar uel fagnnat. Beornn uar frægr madr ok mǫrgum monnum kunnigr at syn ok male þeim ollum er set hǫfdu Olaf konung þuiat Beornn talade a hueriu þinge konungs eyrende. Jngibiorg kona jalls gek at Hiallta ok minntizst vid hann. hon kende hann þuiat hon uar þa med Olafi konungi

[1]) *oss tilf. Cd.*

Trygguasyne frænda sinum er Hiallti var þar ok talde frændsemi mille konungs ok Jngibiargar ok Uilborgar konu Hiallta. þeir voru brædr synir Uikingakara lendz mannz af Uðs Æirekr biodaskalle fadir Astridar modur Olafs konungs ok Bauduar fadir Olofar modur Gizsðrar huita faudur Uilborgar ok voru þar j godum fagnade. Æinn dag gengu þeir Hiallti ok Beornn a tal vid jall ok Jngibiorgu þa bar Beornn upp eyrende sin ok synde jartæignir. Jarll suarar. huat hefir þig Beornn þess hent er konungr uill dauda þinn. er þer at sidr fært med þessu eyrendi at ek hygg at æinge mune sa vera ef þessum ordum mælir firir Suiakonungi at refsingalaust komizst burt. Beornn suarar. ðngir hlutir hafua mer þeir til handa borit er Olafr konungr hafui mer ræidzst en morg er su radagerd hans bæde firir sialfum ser ok monnum hans er hætting mun j þikkia huernn ueg af ræzst. en oll rad hans her til hafua oss snuizst til hamingiu ok uæntum uær at enn mune suo uera. nu er ydr jarll þat at segia at ek mun fara a fund Suiakonungs ok æigi fyrr aftr huerfa en ek hefui hann heyra latit oll þau ord er Olafr konungr baud mer at flytia til eyrnna honum nema mer banne hel edr ek se heftr suo at ek se æigi sealfradr. mun ek suo gera huort þer uilit nockurnn (hug) a leggia ordsending konungs edr ðnguann. þa mællti Jngibiorg. skiott mun ek birta minn hug at ek vil at þer leggit alla stund a at gera uilea Olafs konungs suo at þetta eyrende komizst fram vid Suiakonung huernn ueg sem hann uill suara. þott þar liggi uid ræide Suiakonungs edr ðll æignn uór ok riki þa uil ek helldr til þess hætta en hitt spyrizst at þer leggit undir hðfut ordsennding Olafs konungs firir hrætzslu sakir vid Suiakonung. hafui þer til þess burde ok frændastyrk at vera frialser orda yduarra her j Suiauellde ok [337] mæla mal yduart þat er uel samir ok ðllum mun þickia aheyriligt rikum ok urikum ok þo at konungrinn sealfr heyri upp a. Jarll suarar. ecki er þat blint huers þu eggiar. nu ma vera at þu radir þessu at ek heita konungsmonnum at fylgia þeim sua at þeir nai at flytia eyrendi sitt uid konung huort sem honum likar uel edr illa. en minum radum uil ek lata fram fara en hlaupa ecki eftir akafua Biarnnar edr annarra manna um suo mikit uandamal. uil ek at þer duelizst med mer unnz mer þikir nockut likligt at framkuæmd megi at uerda þessu eyrende. En er jarll hafde suo mællt þackade Beornn honum uel ok sagdizst hans radum uilia fram fara. voru þeir med jalli miog lengi. Jngibiorg var forkunnar uel til þeirra. ræddi Biornn firir henni sitt mal ok þotti þat illa er duelia skyllde suo ferdina. þau Hiallti toludu þetta oft oll saman. þa mællti Hiallti. ek mun fara til Suiakonungs ef þit uilit. ek

er ecki norrænn madr munu Suiar mer ðngar sakir gefa. ek hefi spurt at med Suiakonungi eru islenzskir menn j godu yfirlęti minir kunningiar skalld hans Gizsorr suarti. ok Ottarr suarti. mun ek þa foruitnaz huers ek uerd af uarr huort þetta mal mun suo uuænt horfa sem nu er latit edr eru þar ðnnur efni j. mun ek finna mer sligt til eyrinda sem mer synizst. þetta þotti þeim Jngibiorgu ok Birnni hit mesta snarręde ok redu þau þetta til fasta med ser. byrr Jngibiorg þa ferd Hiallta ok fek honum til fylgdar .ij. menn gauzska ok baut þeim suo at þeir skyllde honum uel fylgia ok suo ef hann villde senda þa. hon fek honum til skotsilfrs .xx. merkr uegnar. hon sende ord ok iarteignir til Jngigerdar konungsdottur at hon skyllde allan hug a leggia hans mal. For Hiallti þa unnz hann kom til Suiakonungs ok fann bratt skalldin Ottar ok Gizsðr ok urdu þeir honum fegnir ok gengu þegar med honum firir konung ok sogdu honum at sa madr uar þar kominn er samlendr uar vid þa ok mestr madr at virdingu a Jslande ok badu konung honum uel fagnna. konungr bad (þa) Hiallta hafua j sueit med ser ok hans fðrunauta. En er hann hafde þar uerit nockura hrid ok gert ser menn kunna þa uirdizst hann huerium manni uel. Skalldin voru oft firir konungi ok Hiallti med þeim voru þeir maldiarfir. gerdizst hann þa konungi malkunnigr ok spurde hann þa tidenda af Jslande.

## Hiallti kom firir Suiakonung. capitulum.

53. Einnhuernn dag gek Hiallti firir konung ok skalldin med honum. þa tok Hiallti til mals. suo er uordit konungr sem ydr er kunnikt at ek er her kominn a yduarnn fund ok hefi ek farit langa leid ok torsotta. en sidan er ek kom vm haf ok ek spurda til yduarrar tignar þa þotti mer ofrodligt at fara suo aftr at ek hefda æigi set ydr ok ydra uegsemd. en þat er lðg mille Jslandz ok Noregs at islenzskir menn er þeir koma j Noreg geallda þar landaura. en er ek kom um haf þa tok ek uit landaurum skipueria minna. ok firir þui at þat er rettazst at þer eigit þat uelldi er j Noregi er þa for ek a yduarnn fund at fæ̊ra ydr landaura. Syndi þa konungi silfrit ok hellti j skaut Gizsðri suarta .x. morkum silfrs. Konungr mællti þa. fair hafua oss sligt fært um hrid af Noregi. uil ek Hiallti kunna þer þðk ok ðfusu firir þat er þu hefir suo mykla stund a lagit at fæ̊ra oss landaura helldr en giallda ouinum uðrum. en þo uil ek at fe þetta þiggir þu at mer ok med vinattu mina. Hiallti þackade konungi med mðrgum ordum. þadan af komzst Hiallti j hinn mesta kærleik vid konunginn ok var oft aa tale vid hann. þotti konungi sem uar at hann var uitr madr ok

ordsniallr. Hiallti sagde skalldunum at hann uar sendr med iartæignum til Jngigerdar konungsdottur ok bidr at þeir skyllde koma honum til tals vid hana. þeir sögdu ser litit firir þui ok ganga æinn dag til husa hennar. sat hon þar ok drak vid marga menn. hon fagnnade uel skalldunum þuiat þeir voru henni miog malkunnir. Hiallti bar henni quediu Jngibiargar konu jarlls ok sagde at hon hefde sent hann til traustz ok vinattu þangat til hennar ok bar fram iartæignir. konungsdottir tok þui uel ok sagde honum heimila skylldu sina vinattu. satu þeir þar lengi dags ok drucku. spurde konungsdottir hann margra tidenda ok bad hann oft koma til tals vid sig. Hann gerde suo. kom þar oftliga ok talade vid hana ok sagde henni þa af trunade um sinar ferdir ok þeirra Bearnnar ok spurde hana huersu konungr munde taka þui male at sætt veri ger mille þeirra konunganna. hon kuezst þat hyggia at þess munde æigi læita þurfa at sætt væri ger vid Olaf digra. sagde at konungr munde suo ræidr at hann væri nefnndr Olafr.

## Vidtal konungs ok Hiallta.

54. þat uar æinn dag at Hiallti sat firir konungi ok talade vid hann. konungr var þa allkatr ok druckinn miog. þa mællti Hiallti til konungs. allmykla tign ma her sia margs konar ok er nu þat at sion uordit er ek hefui oft heyrt fra sagt at æingi konungr se [338] iafnngofugr sem þer herra. allmikill harmr er þat er uer æigum suo langt hingat at sækia ok suo meinfært fyst hafsmegin mikit en þo æigi fridsamligt at fara af Noregi þeim monnum er hingat uilia sækia med vinattu. enn huort leita menn ecki vid at bera sattmal mille yduar ok Olafs digra. ek heyrda þat iafnan miog talat er ek uar j Noregi at aller mundi þes fusir at fridr yrde ok þat uar mer sagt af ordum Noregskonungs at hann væri fus til at sættaz vid ydr. ok uæit ek at þat mun til koma at hann hefir minna afl en þer. suo uar ok þat mællt at hann ætlade at bidea Jngigerdar dottur yduarrar ok er sligt uænst til heilla satta þuiat hann er hinn mesti merkismadr at þui er ek heyrda rettorda menn fra segia. þa suarar konungr. ecki skal mæla sligt Hiallti en æigi uil ek firirkunna þig slikra orda sidan þu ueitzst æigi huat varazst skal. æigi skal þann hinn digra mann her konung kalla j minne hird ok er til hans myklu minna skot en margir kalla ok mun þat suo þikia ef ek segi þer at su mægd megi æigi maklig[1] uera þuiat ek er hinn .x. konungr at Uppsölum suo at huerr hefir eftir annan tekit uorra frænda ok verit æinualldzkonungar yfir Suiauellde ok morgum ödrum londum ok verit aller yfirkonungar annarra konunga a Nord-

[1]) makligt *Cd.*

londum. en j Noregi er litil bygd ok þo sundrlaus. hafa þar verit smakonungar en Haralldr hinn harfagri uar mestr madr j þui lande ok atti hann skipti vid fylkiskonunga ok braut þa undir sig. kunni hann ser þann faggnat at agirnnazst ecki Suiakonungs uelldi ok sat hann firir þui j fride ok uar enn þar frændsemi mille þeirra. en er Hakon Adalsteinsfostri kom j Noreg þa sat hann j fride þar til er hann heriade a Gautland ok Danmork. en þa uar elfdr[1] flockr j mot honum ok uar hann felldr fra lande. Gunnhilldar synir voru ok af lifui teknir þegar þeir gerduzst ohlydnir Danakonungi. lagde þa Haralldr Gormsson Noreg vid sitt riki ok skattgillde ok þotti oss Haralldr Gormsson myklu minne madr firir ser en Uppsalakonungar þuiat Styrbeornn frændi uorr kugade hann ok gerdizst Haralldr hans madr en Styrbeornn uard þo at lata sinn hlut firir Æireki fodur minum er þeir reyndu med ser. en er Olafr Trygguason kom til Noregs ok kalladizst konungr þa letum ver honum þat æigi hlyda. foru uer Sueinn Danakonungr ok tokum hann af lifui. nu hefui ek æignnazst Noreg ok æigi med minna riki en þu mattir nu heyra ok æigi uerr at komizst en þu mattir nu heyra. en ek hefui sott med orrostu ok sigrat konung þann er adr red firir. mattu ætla uitr madr at þat mun fiarre fara at ek lati laust þat riki firir þeim hinum digra manni ok er þat undarligt er hann man æigi þat er hann komzst naudugliga vt ór Leginum þa er ver hofdum hann her inne byrgt. hygg ek at honum væri þa annat (i) hug ef hann kæmizst med lifui a brott en hallda deilu vid oss Suiana. nu skalltu Hiallti hafua æigi firir oss slikar rædur j munne oftar. Hiallta þotti ouænt horfa at konungr munde uilia sættazst. hann hætti ok tok annat tal. Nockuru sidar þa er Hiallti var a tale vid Jngigerde konungsdottur sagde hann henni alla rædu þeirra konungs. hon quat ser slikra sætta uon. Hiallti bat hana leggia til nockur ord vid konung ok sagde þat hellzst stoda mundu. hon quat hann ecki mundu a hlyda huat er hon mællti. en vm ma ek ręda ef þu uill. hann quazst þauk kunna þess at suo væri.

### Jngigerdr taladi vid fǒdur sinn.

55. Jngigerdr var a tali vid fǒdur sinn (einn)huernn dag ok er hon sa at hann var katr þa mællti hon. hueria ætlan hafui þer a um deilu ydra vid Olaf digra. margir menn kæra nu þat uandræde hafa sumir latit fe en sumir frændr firir Nordmonnum ok er ǒngum manni ydrum kuæmt j Noreg at suo bunu. var þat miog vsyniu er þer kolludut til rikis j Noregi. er land þat fatækt ok illt yfirfarar uilia menn þar j

[1]) r. efldr

lande huernn mann at konungi helldr en ydr. nu ef ek skyllda rada mundu þer lata kyrt vera at kalla til Noregs en briotazst helldr til rikis j Austrueg þess er hinir fyrre Suiakonungar ok nu firir skommu lagde under sig Styrbiornn frændi uorr en lat(a) Olaf digra hafa frændleifd sina ok gera satt vid hann. Konungr suarar ræiduliga. þat er þitt rad Jngigerdr at ek lata af riki j Noregi en gifta þig Olafi digra. nei segir hann. annat skal fyrr. helldr skal hitt at ek skal j uetr a Uppsalaþinge gera bert firir alþydu Suia at almenningr skal vti at lide adr isa take af uottnum. skal ek fara j Noreg ok æyda land þat oddi ok eggiu ok brenna allt ok geallda þeim suo otruleik sinn. Uar hann þa suo odr at hon matte ȯngu orde suara. gek hon þa j brott. Hiallti hellt uord a ok gek þegar at finna hana. spurde hann þa huert hennar eyrende uard til konungs. hon segir at suo for sem hana uænti at ȯngu orde matti vid hann koma ok hæitadizst j moti ok bad hon [339] Hiallta alldri geta þessa mals firir konungi. Jngigerdr ok Hiallti þa er þau toludu ræddu oft vm Olaf digra. sagde hann henni oft fra honum edr hans hattum ok lofade sem hann kunne ok uar þat sannazst fra at segia. hon let ser þat vel skiliazst. Hann mællti. skal ek konungsdottir mæla þat firir ydr er mer byrr j skape. Mæl þu sagde hon suo at ek heyri ein. Hann mællte. huernn ueg munde þer suara ef Olafr digre bæde yduar. Hon rodnade ok suarar helldr vbratt. ecki hefi ek hugfest þetta mal firir mer þuiat ek ætla at ek muni æigi þurfa þeirra suara bæidd vera. en ef Olafr konungr er suo uel at ser gerr sem þu segir fra honum þa munda ek æigi minn mann kunna at æskia odruuis ef æigi er þat at þu munir helldr hafa j hole gillt j marga stade. Hiallti segir at ȯngan hlut hefir hann framarr latit en er um konunginn. hon bat hann varazst at mæla þetta firir nockurum manni þuiat konungrinn mun verda þer ræidr ef hann verdr þessa uarr. Hiallti mællti þetta vid skalldin. þeir sogdu þat hit mesta happarád ef framgeingt mætti uerda. Ottarr uar madr maldiarfr hann mællti firir konungi sligt sem Hiallti um mannkosti Olafs digra. En er Hiallti uar sannfrodr um eyrendi sitt þa sende hann hina gautzsku menn med brefum til jalls þeim er þau Jngigerdr ok Hiallti hofdu gert. Hiallti let þau uita rædur þeirra Jngigerdar ok suo um suðr hennar. komu sendimenn til jalls nockuru firir jol.

### Olafr konungr sendi menn til Upplanda.

56. Þa er Olafr konungr hafde sent þa Biorn austr j Gautland þa sende hann marga menn til Upplanda med þeim eyrendum at boda

uæitzslur firir ser ok ætlade hann at fara um uetrinn at uæitzslum[1] yfir landit þuiat þat hafde verit sidr hinna fyrre konunga at fara a uæitzslur upp j nand markbygdinne. hann stefnnde til sin ollum bygdarmonnum ok þeim ollum er first voru meginbygdinne. hann rannsakade kristnehalld manna ok þar sem honum þotti abota vannt kendi hann þeim retta sidu ok lagde suo mikit vid ef þeir uillde æigi af lata heidninne at suma let hann ór lande fara en suma let (hann) lima at hondum ok fotum edr stinga augu vt suma heingia edr hôggua. ônguann let hann uhegndan þann er æigi uillde gude þiona. for hann suo um allt þat riki. iafnt hefnde hann rikum sem vrikum. hann fek þeim kennimenn at sida folkit. hann hafde .ccc. uigra manna þa er hann for upp a Raumarike. hann fann þat bratt at kristnnehalldit uar þui minna er hann sotti mæirr a landit upp. hann hellt hinn sama fram at hann sneri môrgum lyd a retta tru en uæitti storar refsingar þeim er æigi uilldu hlyda hans ordum. En er þat spurde konungr sa er red firir Raumariki þa þotti honum gerazst mikit uandmæli þuiat huern dag komu til hans margir menn þeir er sligt kærdu firir honum sumir rikir en sumir orikir. konungr sa tok þat rad at hann for upp a Heidmôrk a fund Hræreks konungs. hann var þeirra uitrazstr konunganna. en er þeir toku tal sin a mille þa kom þat asamt med þeim at senda ord Gudrôde konungi nordr j Dali ok suo a Hadaland til þess konungs er þar uar ok bidia þa koma a Heidmork til fundar vid Hrærek konung. þeir lôgduzst æigi ferdina under hôfut ok hittuzst þar .v. konungar a Heidmork þar er nu hæitir a Hringsakri. Hringr var hinn .v.ti konungr brodir Hræreks. þeir konungar ganga nu a tal æinir. tok sa konungr til orda er kominn var af Raumariki ok segir fra ferd Olafs digra ok þeim vfride er hann gerde i manndrapum ok meidingum ok tekr upp fe firir ôllum þeim er nôckut mæla j móte honum en ferr med her manna yfir land uort en ecki med þui fiolmenni er lôg eru til. hann sagde ok at firir þeim vfride hafde hann þangat flyit ok marga adra rikismenn quat hann flyit hafa odul sin af Raumarike. en þott nu se þetta uandræde oss næst þa mun skamt til at þer munut firir sliku eiga at sitia ok er nu firir þui bezst at ver radim aller saman huert rad upp skal taka. En er hann lauk rædu sinne þa uiku aller þar til suara er Hrærekr var. hann mællti. nu er þat fram komit er mig grunade at vera munde er ver attum stefnnu a Hadalande ok þer vorut akafazstir aller til at ver skylldim Olaf upp hefia yfir oss at hann munde oss uerda hardr j hornn at taka þegar hann hefde æinn

[1]) um uetrinn *tilf. Cd.*

ualld yfir lande. eru nu .ij. kostir firir hondum. sa annarr at uær farim a fund hans ok latum hann æinn allt skera ok skapa uor a mille ok ætla ek oss þann betr gegnna en sa er annarr at risa j mote medan hann hefir æigi uidara farit yfir. en þott (hann) hafui .ccc. manna er oss þat ecki vid of ef ver erum aller at æinu rade. en oftazst sigrazst þeim uerr er fleire eru saman iafnnrikir en hinum er æinn er odduite firir lide. ok er þat mitt rad at hætta æigi til þess at etia hamingiu vid Olaf [340] konung. En eftir þat talade huerr konunga þat sem synndizst lôttu sumir en sumir fystu ok vard æinge orskurdr radinn toldu þeir a huorutueggia syna anmarka. þa tok til orda Gudrôdr Dala[1] konungr ok mællti suo. undarligt þiki mer er þer uefit suo miog órskurd um þetta mal ok erv þer miog gagnnhræddir vit Olaf. ver erum her .v. konungar ok æingi verr ættborinn en hann. væittu ver honum styrk til at beriazst vid Suein jarll ok hefir hann med vorum afla æignazst land þetta. en ef hann uill nu firirmuna huerium vorum þess litla rikis er ver hôfum adr haft ok uæita oss piningar ok kugan þa kann ek fra mer at segia at ek uil færazst undan þrælkan hans. ok kalla ek þann yduarnn ecki at manna vera uilia er nockut ædrazst j þui at taka hann af life ef hann ferr j hendr oss upp hingat a Hæidmork firir þui at þat er ydr at segia at æigi styru uer frialsu hôfde medan Olafr er a lifue. En eftir þessa eggian snua þeir allir at þessu rade. þa mællti Hrærekr. suo litzst mer um radagerd þessa sem ver munum hafa samband med oss at æinge skiotizst j æinordinne uit annan. nu ætli þer þa er Olafr konungr kemr hingat a Hæidmork at ueita honum her atgongu at akuedinne stefnnu. þa uil ek æigi þann truleik under ydr æiga at þer set þa sumir nordr j Dôlum en sumir a Raumariki. uil ek ef þetta rad skal stadfestazst med oss at uer seem asamt dag ok nott þar til er þetta rad uerdr framgeingt. þessu iatta konungar ok fara þa allir samt. þeir lata bua ueitzslur firir ser vt (a) Hringsakri ok gera niosnir fra ser vt a Raumariki suo at þeir vitu dag ok nott um ferdir Olafs konungs. en Olafr konungr for um Raumariki ok allt med þuilikum hætti sem fyrr uar fra sagt. en er þeim Olafi konungi enduzst ueitzslur æigi firir fiolmennis sakir þa let hann þar bændr til leggia at auka ueitzslur þar sem honum þotti skorta edr naudsyn til bera at dueliazst en sumstadar dualdizst hann skemr en ætlat var ok uard ferd hans fliotari en akuedit var upp til uatzsins. en er konungar hôfdu rad þetta stadfest sin j mille þa senda þeir ord ok stefnna til sin ollum lendum monnum ok rikum bondum ór ollum fylk-

[1]) Dana *Cd.*

ium. en er þeir koma þar þa eiga konungarnir stefnnu vid þa ok gera firir þeim bert þessa radagerd ok kueda a stefnnudag nærr sea ætlan skal at framkuẹmd verda. a þeim (fundi) kueda þeir at huerr þeirra skal hafa .ccc. manna. senda þeir þa aftr þessa menn til þess at þeir skylldu lide safnna ok koma til motz vid þa konungana þar sem a kuedit var.

## Olafr var til konungs tekinn a Vpplondum.

57. Sea radagerd likade uel flestum monnum en þo er sem mællt er at huerr a ser vin med ouinum. A þeirre stefnnu uar Ketill af Ringunese. en er hann kom heim um kuelldit þa matadizst hann. eftir þat klẹddizst hann ok huskarllar hans ok foru ofan til uatzsins toku þar karfa þann er Ketill atti er Olafr konungr hafde gefit honum taka þa ok skipaz vid arar ok roa vt yfir uattnit. hann hafde .xl. manna ok alla uel buna ok uopnnada. þeir komu um daginn snemma vt til Uatzenda for þa Ketill vid .xx. menn en adrir .xx. gættu skips. Olafr konungr uar þa a Heide a ofanverdu Raumariki. Ketill kom þar þa er konungr gek fra ottusaung fagnade konungr uel Ketli. Ketill segir at hann vill tala vid konung skiott. þeir ganga a tal .ij. saman. þa segir Ketill konungi huat konungar hafua med hondum ok alla tilætlan þeirra þa er hann er uiss ordinn. en er Olafr konungr er þessa varr ordinn þa kallade hann menn til sin sende suma j bygdina at stefnna til sin ræidskiotum suma sende hann upp til uatzsins at taka skip þau oll er þeir fengi ok hafua i moti ser. en hann gek þa til kirkiu ok let syngia messu. gek sidan þegar til borda. en er hann var mettr biozst hann þa sem skiotazst ok for upp til uatzsins. koma þar skip j mot honum. stigr hann þa sealfr a karfann ok med honum suo margir menn sem karfinn tok vid en huerr annarra tok ser þar skip sem hellzst fek. en um kuelldit er a leid letu þeir fra lande. logn uar uedrs. þeir reru upp eptir uatnninu um nottina. konungr hafde .cccc. manna. Fyrr en dagade komu þeir til Hringsakrs urdu þar uardmenn æigi fyrr uarir uit en lidit kom til bæiarins. þeir Ketill uissu j huerium herbergium þeir konungarnir suofu. let Olafr konungr taka þau herbergi ǫll ok gẹta at æinge madr komizst j brott bidu suo lysingar. konungar hofdu æigi lidskost til uarnar ok uoru þeir aller samt hondum teknir ok leiddir firir konung. Hrærekr uar madr foruitri ok hardradr. þotti Olafi konungi hann otruligr þott hann gerde sætt vid hann. hann let blinda Hrærek badum augum ok [311] hafde hann med ser þuiat hann ugde speke hans ef hann væri vhamladr en uillde þo æigi drepa hann firir

sakir Eymundar brodur sins en fostbrodur Olafs er þa uar j hernade en hann let skera tungu ꝍr hꝍfde Gudrꝍde Dalakonungi. en Hring ok .ij. adra let hann sueria ser æida at þeir skilldu fara a burt or Noregi ok koma alldri aftr. en lenda menn edr bændr þa er sannir voru at þessum suikrædum rak hann suma ór lande sumir voru meiddir af sumum tok hann sættir. Hann atti .iij. daga þing a Upplondum ok lagde undir sig oll Upplond ok uar þar til konungs tekinn sem annarsstadar ok hann nam þa af ꝍll fylkiskonunga riki ok var at þui þa gerr romr mikill. En er þessi tidende voru sogd a Grenland suaf Sigurdr j kniam Astu ok uaknade vid rom þenna ok spurde Astu huat sagt væri. hon quat Olaf vera tekinn til æinualldzkonungs a Upplondum ok af tekit rike allt af fylkiskonungum. Eigi þarftu quat Sigurdr suo akafliga mer þetta at segia. Olafr mun godan uilia minn hluta gera. þiki mer ecki undir þessu. uil ek giarnna gefa Olafi mitt rike til þess at honum þiki sitt rike þa meira en adr en odrum þiki minna firir at lata sitt riki. Suo segir Styrmir hinn frode at Olafr konungr Haralldzson hafi tekit riki af .xi. konungum a Upplondum firir Olafi Suiakonungi. en hann segir at þui ætti Olafr sænski Upplond at Æirekr Hakonarson hefde þui heitit honum til lidueitzslu ser þa er hann bardizst med honum moti Olafi konungi Trygguasyni. ok er þat lꝍgtekit er hann hefir saman sett. sættu þeir slikum refsingum er at þessum landradum urdu kunnir sem fyrr segir. Fra þessu segir Ottarr suarti.

Lytande hefir liotum
landradundum branda
umstillingar allar
illa folld um golldit.
hafa letzstu heimska iofra
herskordande fordum
mundangs lꝍng þa er meinum
mętr gramr uit þig sęttu.

Ok enn quat hann.

Braut hefir bauduar þreytir
branda riodr ór lande
meirr fannzst þeim en þeirra
þrek dꝍglinga rekna.
stok sem þiod um þeckir
þer huerr konungr ferri
heptut er en eftir
ordreyr þess er sat nordazst.

Ok enn quat hann.

Nu rædr þu firir þeirri
þik remmir gud myklu
folld er fordum helldu
fim bragningar gagni.
breid eru austr til Eida
ættlꝍnd undir þui gꝍndlar
ongr sat ellda þrꝍnguir
adr at sliku lade.

þa er Olafr konungr hafde undir sig lagit þat riki er þessir .v. konungar hofdu haft adr ok adrir .vj. þeir er Styrmir reiknar j sinne bok. suo segir Sighuatr.

Vpplond fek enda
os næista ok þar ræisti
kristnnihalld þat er helldu
huerr ueitir suerdz beita.

adr styrdu þui eydar
ellifu fyrr hella
milldings mals en gulldu
menn visliga gisla.

tok konungr þa gisla af lendum monnum ok bondum. hann tok ueitzslugiolld nordr ór Dǫlum ok uida um Heidmǫrk ok sneri hann vt aftr a Raumariki ok þa uestr a Hadaland[1]. þann uetr anndadizst Sigurdr syrr magr hans ok hafde uerit uitr konungr. þa sneri Olafr konungr a Hringariki ok gerde Asta modir hans ueitzslu a moti honum. bar þa Olafr konungr einn konungsnafnn j Noregi.

## Olafr talar vid brædr sina.

58. þa er Olafr konungr uar a ueitzslu med Astu modur sinne leidde hon fram bǫrnn sin ok synde honum. Konungr setti a kne ser Guthorm brodur sinn en a annat kne Halfdan brodur sinn. konungr sa a sueinana. þa ygldizst hann ok leit reiduliga til þeirra. þa gluppnudu sueinarnir. þa bar Asta til hans hinn yngsta brodur hans er Haralldr het. þa uar hann þreuetr. konungr yggldizst a hann en hann sa upp j moti honum. þa tok konungr j har sueininum ok kifti. sueinninn tok upp j kamp konungi ok hnykti. konungr mællti þa. hefnisamr muntu sidar frændi. Annan dag ræikade konungr uti um bęinn ok Asta modir hans med honum. þa ganga þau at einne tiornn þar voru þa sueinarnir ok leku ser Guthormr ok Halfdan. þar voru geruir bęir ok kornnhlǫdur storar naut mǫrg ok saudir. þar var leikr þeirra. skamt þadan fra vid tiornina var Haralldr ok hafde tresponu marga ok flutu þeir þar vid land. konungr spurde huat þat skyllde. Haralldr quat þat vera skip sin. þa hlo konungr ok mællti. vera kann þat frænde at þar komi at þu radir firir skipum. þa kall(a)de konungr þangat sueinana ok spurde Guthorm. huat uilltu flest æiga frænde. Akra segir hann. Huersu vida akra munder þu eiga vilia. Hann suarar. þat uillda ek at nesit væri alsait huert sumar þetta er liggr vt j vatnit. en þar standa j .x. bæir. Konungr suarar. kornn mætti þar mikit a standa. Konungr mællti þa vid Halfdan. huersu hygginn sueinn ætlar þu at þu ser. Æinkis ætla ek vm þat vert quat Halfdan. Huat uilldir þu flest eiga quat konungr. Kyr segir hann. þat er þarfligt quat konungr edr huersu margar uilldir þu kyr æiga. þat ætla ek at mer munde þa þikia skapliga

[1]) Halogaland *Cd.*

margar at þær stæde vmhuerfis uattnit Ugni sem þraunguazst at drecka. Konungr mællti. trautt ertu hofsmadr [34c] um nautfiolda frænde. muntu hafa agirnne Sigurdar fodur þins en æigi meire virding. munu þit verda bumenn mykler badir brædr. en huat uilltu flest eiga Haralldr frænde. Huskalla quat hann. Huersu marga quat konungr. Æigi kann ek þat at telia helldr en annat. en þa þætti mer uel ef þeir væri suo margir at þeir æti at einu male allar kyr Halfdanar brodur mins. Konungr hlo þa ok mællti. þat þiki mer synna at þu viler braʇt eyda[1] riki Halfdanar brodur þins ef kyrnar eru hans riki. en þat ætla ek modir at þu fædir her konung upp er Haralldr er en abyrgzstu uinsæld hans. en hafua mun hann uit ok riki medan hann lifir. Æigi er getit fleira orda þeira.

## Skipt(i) rikis.

59. J Suiþiod uar þat fornn landz sidr medan heidni var at hofutblot skillde uera at Uppsolum at blota skillde at goi til fridar ok sigurs konungi þeirra ok skylldu menn þangat sækia vm allt Suiauellde. skillde þar þa uera þing ok markadr allra Suia ok kaupstefna ok stod uiku. en er kristni kom j Suiþiod þa hellzst þar þo lôgþing ok markadr. en nu sidan er kristnni uar alsida j Suiþiod en konungar afræktuzst at sitia at Uppsôlum þa uar færdr markadrinn ok hafdr at kyndilmessu ok hefir þat halldiz sidan alla stund ok er nu æigi lengr en .iij. daga. enn er þar þing Suia ok sækia þeir þar til um allt landit. Suiauellde liggr j môrgum hlutum. einn hlutr er hit uestra Gautland ok Uermaland ok Markir[2] ok þat er þar liggr til. undir þeim byskupi er þar er yfir eru .ix. hundrat kirknna. annarr hlutr landz er eystra Gautland. þat er annarr byskupdomr þar fylgir Gotland ok Eyland ok er þat allt saman myklu meira byskupsuellde. J Suiþiod sialfri er einn hlutr landz er hæitir Sudrmannaland þat er æinn byskupsdomr. þa hæitir enn Vestrmannaland edr Fiadrundaland þar er enn byskupsdomr. þa heitir Tiundaland hinn þride hlutr Suiþiodar. þa er hinn fiorde hlutr Atiandaland. þa er hinn vti Sialand ok þat er liggr hit eystra med hafinu. Tiundaland er gôfgazst ok bezst bygd j Suiþiod. þangat lytr til allt riki. þar eru Uppsalir þar er ok erchistoll ok þar er vid kendr Uppsala (a)udr. suo kalla Suiar æigu allra Suiakonunga. J (huerri) þessi deilld landz er sitt lôgþing ok sin lôg um marga hluti ok j hueriu lôgþinge er lôgmadr ok rædr hann mestu vid bændr. þat skulu lôg vera sem hann kuedr upp. en ef konungr edr jarll edr byskup fara yfir land ok æigu þing vid bændr þa suarar logmadr af hende bonda en

[1]) heyda (*först skrevet* heyra) *Cd.* [2]) Merkir *Cd.*

þeir fylgia honum suo allir at uarlla þora ofreflismenn at koma a alþinge þeirra ef eigi lofa bændr edr lôgmadr. en þat allt er login skilr a þa skulu oll hallazst til motz vid Uppsala lôg ok allir lôgmenn adrir skulu vera undirmenn þess lôgmannz er a Tiundalande er.

---

## HER HEFR VPP ÞAAT STYRBIARNAR SUIAKAPPA
## er hann bardiz vid Eirek Suiakonung.

Fra þui er at segia at Æirekr ok Olafr redu Suiauelldi synir Bearnnar hins gamla. Olafr atti Jngibiorgu dottur þrandar Sulu jarlls. Vlfr het brodir hennar. Beornn het son Olafs ok Jngibiargar. Olafr vard braddaudr af eitri undir bordum at Uppsôlum. Æirekr fædde Beornn upp med hird sinne eptir er fadir hans var andadr. Ulfr fostrade hann. þa er Beornn var .xij. vetra sat hann a haugi fôdur sins ok kom æigi undir bord med konungi. þa talde hann til rikis j fysta sinn ok quat likt tilfarit rikinu yfirsionar ok alldri sinum ok quat nockut bernsliga fram fara. hinn sami atburdr gerdizst um þat annat vorit ok hit þridea. Æirekr talde hann æigi tilkominn til konungdoms ne til erfdar fyrr en hann væri .xvj. vetra en þa kuezst hann mundu lata vera kyrt firir sina hond. A þeim misserum urdu þeir missattir Aki hirdmadr Æireks ok Beornn. rak Biorn slædur yfur hôfut honum en Aki rak hornn a naser Birnni. en þann sama dag drap Biornn Aka firir hallardyrum. þat uillde Biornn ôngu bæta en konungr bætti þat ok vard þa konungr at fara til ueitzslu annarrar. en Biornn uar þar eftir ok beid þings. en a þinge redu bændr mann til af litlum stigum þann er Birnni uarnnade konungdoms. uar sa til konungs tekinn yfir þeim hluta landz er Birnni bar til. Eftir þat ridu þeir Beornn ok Ulfr af þinge. slitu þeir nu suo þinginu at alþyda manna kastade eftir þeim torfui ok grioti. þat redzst litlu sidar at Biornn for til hirdar med konungi. nockuru eftir þat leysti konungr Biornn af hende med .lx. skipa alskipadra ok uel bunum at ôllu ok skyllde hann vera a burtu .iij. vetr þuiat hann þottizst æigi mega hafua hann j rikinu sakir framgirnne ok ospektar ok þys bændanna. sidan for Beornn j brottu hellt hann þa frettum til huar vera munde konungr þeirra Suianna hinn nytekni. for Beornn þa til motz vid hann ok atti vid hann bardaga [343] ok fellde hann. for Beornn j Austrriki ok heriade þar ok skylldade

menn uida til herfarar med ser. A þriggia uetra fresti nade hann Jomsborg a Uinlande ok uard þar yfir hofdinge. Þar urdu undr þau þa er hann uar þar med lid sitt at j dike þui er um uar gert borgina kom upp finngalkn mikit ok quat þetta.

Hilldr stendr hueriann morginn
hialldrs undir raudum skillde
nu hafa sigrmeyiar settan
suerdleik Daunum hardan.

æigut uiga ucige[1]
uil balldrs fődur illan
Odinn hőrdr sem aller
oliosan ualkiosa.

En adr en Biornn for ór lande gaf Æirekr konungr honum vidnefnne af hardfæinge sinne ok styriolld ok kallade hann Styrbiornn. hann for nu j uestruiking. j Danmork gerde hann ufrid mikinn. Þat uard at sætt vid Dane at hann gek at æiga Þyri dottur Haralldz Gormssonar enda skylldu þeir fa honum hundrat skipa ok heyia med honum .iij. folkorrostur. ok þa er hann hafde æina natt huillt inne þa for hann til Uindlandz til Jomsborgar af þui at þar var kominn fiolde lids or austrlondum til motz vid hann ok namuzst forina ef hann kęmi æigi. en med lide þui őllu for hann aftr til Danmerkr ok hafde hann þa .x. hundrat herskipa ok letzst mundu setiazst j bu þeirra Dana nema fenge þeir honum .cc. herskipa ok mann þann er hann kiore j forina. en hann kaus Haralld konung. þa kuodu Danir visu.

Eigi uilldu Jotar
ræida gialld til skæida
adr Styrbiarnar stæde
strandar dyr a lande.

nu er Danmarkar drottinn
j dreingia lid genginn
landa uanr ok lyda
lifir anaudr hann audar.

Sidan foru þeir Styrbeornn med oll þessi herskip til Suiþiodar.

## Orrosta Eireks ok Biarnar Suiakappa.

61. Þorgnyrr het madr ok var Þorgnyrsson hann uar lőgmadr a Tiundalande ok suo hafde fadir hans verit. hann uar allra manna uitrazstr er þa voru j Suiauellde. hann uar j mikille uirdingu med Æireki konungi þuiat þar uar lausn ok band allra uandamala sem Þorgnyr uar. hann uar þaa miog alldradr er her er komit sogunne ok litt syndr. En er Æirekr konungr spyrr lidsafnat Styrbiarnar þikizst hann uita at hann mun ætla at uinna Suiauellde undan honum. stefnir hann þa þing ok læitar rads vid spekinga sina. Þorgnyr lőgmadr lagde þat til at hann bætti miog lőg vid alþydu ok gerde rett manna godan ok kuęde a huat uopnna edr herklæda huerr bondi skyllde æiga.

[1]) uiege *Cd.*

hann skyllde ok lata stika þiodleid þa er til Upsala la suo at æigi uæri þar skipum fært. .iij. menn voru þeir med konungi er hann hafde j mikille uirdingu þeir uoru ecki uinsælir af alþydu þo voru þeir garpar mykler ok mattu þo litlu sidr heita illuirkiar en hreystimenn. einn þeirra het Helgi þorgisl ok þorir. En er Styrbeornn kom vid Suiþiod uard hann uarr vid uidrbuning þann er þar var firir. helldu þeir at lande þar sem þeim þotti fridligazst. þeir toku at rydia gotu j gegnnum skog þann er Myrkuidr hæiter. en þa voru menn geruir j mot þeim ok bonnudu þeim ferd yfir skoginn. Styrbeornn gerde þeim .ij. kosti at hann munde brenna skoginn nema þeim uæri lofut ferd yfir hann. Æirekr konungr kaus at þeir færi yfir skoginn. Styrbiornn komzst med lid sitt allt a Fyrisuollu. Styrbiornn brende skip þau oll er hann hafde þangat haft þuiat hann ætlade at menn munde þa sidr flyia er einge uar kostr j brott at komazst. þorgnyr lögmadr lagde þat rad til med Æireki konungi at hann skyllde lata safnna saman öllum eykium hestum ok uxum ok gera ok a alla ok sla fram ór okunum brodda ok attgæira. þar skyllde þrælafolk ok illþyde fara eftir a. var ok suo gert at þessu ollu saman uar fyst hleyft a lid Styrbiarnnar enn fysta dag ok fek Styrbiornn af þessu mikit mannspell. annan dag börduzst þeir ok fylktu lide. æinge uar þa lidsmunr. þar var Hemingr jarll med Styrbirnni. natt skilde þa. Styrbeornn blotade þa þór at aeggian Vlfs fostra sins ok alþydu. þa nott uar senn madr raudskeggiadr j herbudum Styrbiarnnar ok quat þetta.

**Lætr æigi mig lytir**
**lidbandz sa er frid grandar**
**ræidr er ek stala styri**
**Styrbeornn uera kyrran.**

**þat mun sad um sidir**
**sigr nennum her kenna**
**rodin eru leyfdra lofda**
**lindis sar at binda.**

þa nott hina somu gek Æirekr j hof Odins ok gafzst honum til sigurs ser ok kuat a tiu uetra frest sins dauda. morgu hafde hann adr blotat þuiat honum horfde vuænna. litlu sidarr sa hann mann mikinn med sidum hetti sa sellde honum reyrsprota j hond ok bad hann skiota honum yfir lid Styrbiarnar. ok þat skyllde hann mæla. Odinn a ydr alla. ok er [314] hann hafde skotit þa syndizst honum gaflak a lofti ok flo yfir folk Styrbiarnar ok þegar slo blinde a lid Styrbiarnar ok sidan a sealfan hann ok eftir þat urdu suo mikil undr at skrida brast upp j feallit ok hliop ofan a lid Styrbearnar ok drapzst allt hans folk. ok er Haralldr konungr ser þat lagde hann a flotta ok aller Danir ok hofdu syn sina þegar þeir komu a brott þadan er spiot hafde komit ok flogit yfir þa. þeir komu til Danmerkr. Styrbiornn bad sina menn stinga

nidr merkisstôngum ok flyia huergi. þar fell Styrbeornn ok allt lid hans. þa uar Æirekr a Uppsala brecku ok bad yrkia þann er kunne ok het launum firir. þorualldr Hialltason orti visur þessar.

Farit til Fyrisuallar
folkatungls huerr er hungrar
verdr at uirkis garde
uestr kuelldridu hesta.

þar hefir hreggdôgguar hôgguit
hollaust er þat solar
elfar skins firir ulfa
Æirekr j dyn geira.

Ok enn quat hann.

Jll uard elfar fialla
audkuediundum bediar
til Suiþiodar sidan
sæims uikinga hæiman.

þat æitt lifir þeirra
þeir hofdu lid fleira
gott uar her at henda[1]
hundings er rann unda.

þorualldr þa at launum halfrar merkr hring firir huora visu. ecki orti hann adr ne sidan suo at menn vissu.

## Fra Hroa.

62. Hroi het madr er upp fæddizst j Danmôrku hann var gods bonda son. hann var atgeruimadr ok sterkr at afli ok uel viti borinn. Hroi var iafnan j kaupferdum ok aflade ser þann ueg fiar. hann var hagr uel suo at hann aflade enn lôngum a þui mikils fiar. þa red firir Danmorku Sueinn konungr Haralldzson er kalladr uar tiuguskegg. hann var vinsæll konungr af sinum landzmonnum. þat var æitt sumar at Hroi braut skip sitt vid land sunnarla vid Danmork ok tynde þar fe ollu þui er a uar. menn hellduzst at kalla ok geingu a land. þa tok Hroi at smida ok aflade ser fiar. hann var uinsæll vid sina felaga ok æige hafde hann lenge þa idn haft adr honum grędduzst peningar þuiat hann var hinn mesti þiodsmidr. enn liek a hinu sama at honum forst æigi uel med fe þuiat þegar hann hafde fe dregit sem hann uillde þa for hann ór lande ok tynde fenu. Hroi var audkendr synum fra þui sem flestir menn adrir j yfirlitum þuiat auga hans uar annat blatt en annat suart en madrinn uar hinn uaskligsti ok uel stilltr þott hans væri æigi uel leitat. hann græddi iafnnan fe þegar hann var a lande en hann tynde þegar er hann for j kaupferdir. En þa er hann hafde þrysuar skip sitt brotit j kaupferdum þa þottizst hann skilea at honum var ecki sea idnn ætlut. en þat var þo næst skapi hans at fara landa a mille med kaupeyre sinn. ok er suo uar komit þa kemr honum j hug at hann skal fara a fund Sueins konungs ok uita huat er hann leggi til rads med honum. þuiat hann visse at hann var hæilradr honum ok

[1] h'nda (ɔ: henda *ell.* handa).

margir hlutu goth af hans radum. Hroi gerir nu suo ok er hann kom firir konunginn kuadde Hroi hann. Konungr spurde. huerr ertu. Hroi heitir ek segir hann. Konungr spurde. ertu ofara Hroi. Hann suarar. annars væri mer meirr þaurf af ydr at þiggia en slik skiotyrde. uillda ek helldr at þer legdit til vit mig fe ok hamingiu þina ok kann vera at þa dugi. uenti ek at þa megi meira gipta ydr ok hamingia en vgæfa min. Suæinn konungr mællti. ef þu ætlar giftu at sækia a minn fund þa er þat uænst at vit georim felagskap ef þu uill. Menn sögdu at konungi væri þetta vradligt uit slikann ogiftumann sem Hroi var at gera felag vid hann ok kuodu hann þegar mundu tyna fenu. Konungr suarar. þar skal a hætta huart meira megi konunglig gift edr ugæfa hans. Sidan lagde konungr fe til vid Hroa ok skilldu æiga badir saman. Hroi leggzst nu j kaupferdir med þessu konungs tillagi at æigi skyllde hans gialld vera þo at tyndizst fet en niota ef grǫddizst ok greida konungi þa iafnnmikit fe sem hann fek honum firir önduerdu. Hroi for nu læid sina ok tokzst uel til um ferdirnar ok græddizst nu skiott fe ok kemr aftr at hausti til konungs med myklu fe ok skamt lidr adr en hann gerir uelaudgan. uar hann þa kalladr Hroi hinn audge edr Hroi hinn prude ok for hann med þessu konungs tillagi huert sumar til ymisra landa.

### Fra Hroa.

63. Eitthuert sinn mællti Hroi til konungs. nu uil ek at þer takit yduarnn hlut herra at æigi beri suo illa til at ek tyna yduare æigu. Konungr suarar. ætlar þu þer þat betr gegnna at okkart felag se æigi lengr. en æigi þætti mer þat vradligt at þu uærir her innanlandz j minu trausti ok kuæntizst þu ok settizst vm kyrt med minne forsia. ok litzst mer æigi uǫnna at þu buizst nu j kaupferdina. þiki mer þui slysa uænna sem þu hefir nockut adr af þui reynt. Hroi uill nu skipta fenu ok suo var gert. Sueinn konungr mællti þa. þitt rad er þetta Hroi en æigi mitt ok betr þætti mer allz þu hefir þo adr giftu til min sott at hon helldiz [345] þer. Menn toku undir at þat hefde hann reynt at skiot væri konungs gifta j hans naudsyn. Konungr quat hann uel hafa med ser verit ok sagde uera skada mikinn ef hann ratade j nockura olycku. ok skilia nu vid þetta. Hroi rædzst nu j kaupferder ok hefir aud fiar. hann siglir nu til Suiþiodar ok helldr upp Löginn ok lögdu at vid uöllu nockura. Hroi atti þa æinn alla ahofnn a skipinu. Ok einn dag gek hann a land einn saman ok er hann hafde geingit vm stund kom madr a moti honum sa uar iarpr a hár ok retthærdr ok

uar helldr fręknnligr. Hroi spurde þenna mann at nafnne en hann letzst Helgi heita ok ver(a) hirdmadr Æireks konungs. hann spurde huerr kaupmadrinn væri. Hroi sagde til sin ok kannadizst Helgi vid hann ok letzst hafa set hann fyr. Helgi kuezst uilia kaupa vit hann. Hroi spyr huersu mikit hann uill at þui gera. þa suarar Helgi. væit ek at þer Danir erut her komnir vit land ok er mer suo sagt at þeir se aller leigumenn þinir en þu æigir alla ahǫfnn a skipinu. nv uil ek kaupa at þer farminn allan ef þu uill. Hroi quat hann vera storkaupamann mikinn. Helgi kuezst kunna at kaupa smam kaupum sem storum. Hroi spyrr. huar er fe þat er ek skal af þer taka. Helgi bat hann ganga med ser ok kuat hann þa sia mundu at þat var ecki fals er hann baud honum. þeir gengu nu þar til er æin skemma stod firir þeim. hon uar full af uarninge. þetta fe baud Helgi allt vid farminum sem þar uar inne ok syndizst Hroa sem allkaupmannliga munde vera vid bodit ok munde æigi mikit afkaup j vera þo at þeir skipte þessu. þottizst hann fa hagkeype a uarninge. for þat fram at þeir kaupa þessu ok lata akuedit med ser. skilia nu at suo mælltu ok ferr Hroi til skip(s) sins.

## Raad þorgnyrs jarl(s) vid dottur sina.

64. þegar hinn næsta dag eftir kemr Helgi ofan med marga menn ok faraskiota ok lætr flytia j brott uarninginn suo at allr var j brottu vm kuelldit ok skorti Helga til þess huorke menn ne eyki. Eftir fa daga gengr Hroi æinn saman a land upp ok ætlade at skipa til flutningar at flytia ofan uarning sinn. þa uar lidin ein nott fram yfir þat er skilit var at hann skyllde sækia lata. þotti Hroa sem huorigum munde vid liggia um nott þoat hann kęmi sæinna en mælltt var þuiat Hroi atti mart at annazst. Hroi var j godum klędum þuiat hann uar skardzmadr mikill hann hafde bellti agætt ok knif ok kom mikit fe til huorstueggia hann hafde god uopnn ok godann skarlakskyrtil med skikkiu hladbuinne yzsta klæda. uedr uar gott. hann for þar til er hann kom til skemmunnar ok stod hon opin en fe sitt sa hann huergi. honum þotti þetta undarligt. gengr hann umhuerfis skemmuna kemr hann þar at j einhuerium stad er Helgi suaf. Hroi spurde huar fe hans uar. Helgi kuezst ecki fe vita þat er hann ætti. Hroi spurde hui suo ma vera. Helgi kuetzst ut hafa borit feet at þeirre stundu sem akuedit var. en ek sa þig þa æigi eftir koma. nu uar þess æinge uon at ek lata þar standa feet firir huers manz hondum ok þui let ek j burt flytia feet ok ætla ek mer þat nu allt en ecki þer. Hroi

quat hann skiott skipta ok æigi iafnnliga ok er ecki undarligt þott þer safnnizst skiott fe ef þu sætir slikum leynibrøgdum oft. Helgi quat ser vid slikt hafua fram flutzst nockura stund ok sagde ser dugat hafua til þessa. en konungr a søk a þui segir Helgi er þu uarduæittir þitt æigi þuiat þat eru her landz løg at huerr skal sitt varduæita suo at æigi megi huerr þiofr stela ella a konungr søk (a) honum. nu skal a þessu male konungs domr uera. Hroi quat æigi at feuænligar horfa ef konungr uillde nockut hallda a þessi søk uit hann. Vit þetta skilia þeir ok gengr Hroi til gardz annars. ok er hann kemr miog suo j gardinn sa hann át .ij. menn gengu snudigt eftir honum uar annar miog likr kaupunaut hans. Hroi hafde kastat belltinu a hals ser ok þar hek vid knifr æinn hardla femikill. þessi madr het þorgisl er firir gek. hann uar brodir Helga. hann seildizst eftir belltinu þegar þeir funduzst ok mællti vid. suo gengr huerr at sinu. þetta bellti ok knif toktu fra mer j Uallande en ek let mer smida þessa gripe j Einglande. Hroi suarade. ecki þiki mer enn horfa feuænliga. ok brosti vid. Sidan gek Hroi leid sina en þeir sneru aftr. ok er hann hafde æigi langt gengit þa gek madr j moti sa uar mikill ok illigr hann hafde æitt auga. ok er þeir fynduzst spurde Hroi huerr sa madr væri. Hann suarar. kenna ætta ek þig þuiat ek hefir a mer merki at vit hofum sezst fyrr. Hroi spurde huath hellzst væri til merkia vm þat. Sa madr mællti. æigi þarftu at bregdazst okunnr [346] vid þat. þu fæddizst upp (j) Danmork sem þu uæitzst ok uart madr æinsynn ok æitt sinn er þu hafdir farit kaupferd ok latt uit Samsey nockurar nætr þa var ek þar firir þu hafdir med þer (Finna) ok keyftir þu at þeim at þeir finnuitkade ór mer augat. ma huerr madr. (sea) sa er uitz er uitande at þessi augu hafa j einum hausi verit bæde. hefir þu nu annat en ek annat. ok skal konungr her um dęma a morgin ok um þat er þu tokt bellti ok knif af þorgisle brodur minum. Ecki kennumzst ek vid þetta segir Hroi en uera þiki mer nu mega at søkott verdi nu j dag. ok brosti at litinn þann. Eftir þat skildu þeir ok gek Hroi til skips sins. hann gat ecki um þetta firir sinum monnum ok fann einge madr at honum likade eigi allt hit bezsta. ok um morgininn eftir gek Hroi til borgarhlids ok uar einn j før. ok er hann kom þar stodu skemmur hea honum þangat heyrde hann manna mal ok tok madr til orda. huort mun Hroi sea hinn heimski koma til þings a morgin. Annarr suarar. þeim manni horfir ouænt þuiat konungr dęmir iafnan eftir þui sem þeir flytia brædr huort sem þat er rett edr ranngt. Hroi leth sem hann heyrde æigi ok gek leid sina. hann kom þar at sem kona ein iung gek til uatz. øngua

þottizst hann set hafa konu fridari en þessa ok er hann kom at henni leit hon uit honum ok mællti. huer ertu. Ek heiti Hroi segir hann. Ertu Hroi hinn heimski segir hon. Hann suarar. ek ætla þat nu vera ærit mikit sannefnne en att hefui ek ædri nôfnen fyrr. edr huert er þitt nafnn segir hann. Hon segir. ek heiti Sigrbiorg ok er ek dottir þorgnyrs lôgmannz. Hroi mællti. uillda ek niota uitzsku hans edr huort muntu uilia nockut uæita mer dugnnat. Hon suarar. litit er fôdur minum iafnan um danska menn enda er hann ok einge uin þeirra brędra ok iafnnan uerda þeir firir honum at lata sinn lut. Hroi spurde. uilltu nockut rád leggia til med mer. Eingi hefir fyrr til min rada leitat segir hon ok er æigi synt at ek kunna þat rad at þer gagni þot ek uillde nockut til leggia en ærit ertu girnnelegr madr. gak nu med mer ok nem stad undir loftskemmunni minne ok mun georlla huat þu heyrir mællt þat er þer megi gagnn at verda ef nockurr leggr rad a med þer. Hann sagde suo uera skylldu. Hon gengr nu j brott en Hroi uar þar undir lofthskemmunne. þorgnyrr kende rôddina dottur sinnar er hon gek j skemmuna ok spurde hann. huernn ueg er uedr uti dottir. Gott er uedr segir hon. þorgnyrr mællti. huart mun Hroi hinn heimski koma a þingit j dag. Hon kuetzst þat æigi uita. þorgnyrr spurde. hui anduarpar þu suo dottir þungliga hefir þu fundit hann Hroa hinn heimska. huort synizst þer hann alluænligr ok eiguligr. uilltu nu uæita honum lid ok asia. Hon mællti. seg þu nu þa ef þu uærir j þuiliku uandrędi staddr sem hann er huat þu mundir til taka en æinge munde til taka uilia fe til at flytia þitt mal. þorgnyrr suarar. æinge uandręde þiki mer þetta. ek munde koma lata prett j moti prett ok mun Hroi kunna at gera þat j moti Helga. ma þat huerr madr skilia ef madr gripr upp eigu mannz med flærdum ok suikum ok ann honum eingis gods firir. konungr a sôk a þeim manni ef satt skal uppi ok ma hann gera hann at þiof ok af allri eigu sinne ok sæmd. en uel ma Hroi giallda lyge j moti lyge ok mun Hroi kunna þat allt adr. Hon suarar. æigi væri hann þa Hroi hinn heimski ef hann væri iafnuitr þer. en huersu skylldir þu þa med fara ef madr kallade til auga þins segir hon edr hueriu mundir þu þar firir suara. þorgnyrr suarar. lata koma fadęmi moti fadęmum. Sidan segir þorgnyrr henni huat er hann mun huerigu lata j moti koma ok kemr su frasôgn sidarr fram.

## Vidreign Hroa ok Helga.

65. Eftir þetta gengr Sigrbiorg j brott ok hitti Hroa ok spurde huersu hann hefde hugfest þat er honum uar radit. en hann kuezst

ætla at hann mundi miog uel muna mart j. Hon mællti. far þu j lid fôdur mins þa er hann ridr til þings ok hird ecki um atôlur hans þoat hann kasti kalldyrdum a þig þuiat hann þikizst vita at ek hefir fundit þig ok rennt hug til þin en ek uænti at hann se þer sinnadr j þraut þui helldr er hann væit at mer þikir meira mali skipta. en ecki fær ek radit þer rad ef þer uerdr þetta ecki at rade. þau skilia nu at suo mælltu. ok er þorgnyrr uar buinn ridr hann til þings ok mætir Hroi honum þegar vid borgarhlidit ok kuaddi hann uel. þorgnyrr mællti. huerr ertu. En Hroi segir til sin. þorgnyrr spurde. huat uill Hroi hinn heimski j mitt lid. far annan stig ecki uil ek at þu farir med oss. Hroi suarar. ecki muntu spara jord vid mig at ganga eftir ok fara leid þa sem ek uil med þui at þer se ecki mein at mer. en mer er her okunnigt ok uillda ek niota foruneytis yduars. berr mer ok ærnna naudsyn til [347] at fara þessa ferd ok flytia nockut mitt mál. þa toku menn undir ok sôgdu þat satt uera. fara nu þar til er þeir koma a þingit ok hafde þorgnyrr mikit lid. þar var ok kominn fiolde landzmanna. þorgnyrr mællti er menn komu a þingit. eru þeir brædr her komnir Helgi ok þorgisl. þeir sôgduzst þar komnir. þat er þa rad segir þorgnyr at gera konungi kunnikt vm skipte ydr Hroa hins heimska. Helgi segir. þat segi ek at suo var mællt med ockr at Hroi skyllde eiga allan uarnning þann er j skemmunne var en ek skyllde vt bera ok eyda skemmuna ok akuedit nærr Hroi skyllde eftir koma. en ek skyllde þar j mote taka farm allan af skipe hans ok flytia þat j brott. en nu gerde ek eftir þui herra segir hann sem skilit var ok þa er ek hafda rudda skemmuna ok borit vt uarninginn þa var[1] Hroi æigi þar kominn. sidan let ek j brott flytia ok uillda ek æigi at þiofar stæli j brott. ætla ek mer nu fét en þer konungr æigit sok a honum er hann varduæitti æigi godz sitt ok uillde at adrir spillti ser a fe hans. nu skulu þer herra her um dęma. Konungr mællti. prettr uar þetta en uera kann at þu komizst til fiarins ef þann ueg er vm farit edr uar suo mællt Hroi. Hann kuetzst æigi þess dylia[2] mega en þo er her herra grein j. a þat urdu vit Helgi sattir er vit keyptumzst vid at ek skyllde æiga allt þat er j var skemmunne. nu kalla ek mer oll skridkuikuende molu ok madka ok oll spilledyr þau sem inne uoru. tel ek hann skylldan þessu vt at rydia ok ollu þui sem inne uar en ek hygg at hann hafui þat æigi gert. þar med æignna ek mer hann Helga þuiat hann var þa inne j skemmunne er vit keyftum ok badir vit. en þo at hann se illr madr þa ma hann þo vera þræll minn edr ek sel hann

[1]) þar *Cd.* [2]) dylya *Cd.*

mansale. nu æige þer herra konungr her um at dœma. Konungr mællti. vit brogdotta attu nu vm Helgi ok æigi ouitra. þorgnyrr mællti þa. uel mælizst þer Hroe ok er her vhægt til motmælis. en huat er at tala vm skipti yckr þorgisl. þorgisl suarar. þat kalla ek at Hroi hafui tekit fra mer knif ok bellti ok huortueggia mycla gerssime. þorgnyrr mællti. þa mun Hroi[1] her verda at suara til nǒckuru edr ganga vid ella ef honum þikir þetta satt vera. Hroi mællti. her mun ek verda at suara til nockuru. ek fæddizst upp j Danmorku ok atta ek mer brodur er Sigurdr het. hann var at ǒllu efnniligri madr en ek hann var synu yngri. ok æitt sinn fór hann med mer til Uallandz j kaupferd hann var þa .xij. vetra gamall. ok æinn dag a markadinum hitti sueinninn firir ser mann einn mikinn ok retthærdann. þeir slogu þegar kaupe saman ok gek af mikit fe j siode er sueinninn atti suo at hinn hafde þar ecki moti at gefa en sa var þo feskygn er til motz var kominn vid hann ok uillde hann flest til fiarins. gerdizst þat af at hann drap sueininn ok uillde myrda en menn urdu þo varir vit ok sǒgdu mer. en er ek kom at þar er brodir minn var daudr þa uar þessi madr j brottu la þar eftir knifrinn ok belltit en fe var allt j brottu. nu hefui ek þann ueg komizst at þessum gripum ætla ek at þorgisl hafui stolit fenu en drepit brodur minn. nu skulu þer herra her um dœma. þorgnyrr mællti. sligt erv sannliga olifismenn sem þeir brædr eru.

## Af bodum Hroa vid þori.

66. Nv gengr þorir brodir þeirra Helga ok þorgisl. þa mællti hann suo. her mun vm uandamal mest at dœma sem ek a hlut j. sagde hann sidan sogu sina huersu hann hafde mist auga sins sem fyrr uar ritat. nu uæntir ek herra at þer gerit godan minn hlut segir hann þuiat her ma hann æigi moti þræta at suo er farit sem ek segi. æigu þer herra ecki at virda vtlenda menn meira en oss brædr þuiat ver hofum lengi verit ydr þarfir ok lagizst ecki undir hofut þat sem þer hafit viliat firir oss leggia. Konungr mællti. þetta er undarligr hlutr ok faheyrdr en þo skalltu Hroi suara her firir nǒckuru. Hroi suarar. ecki kennumz ek vid þetta ok vel ma ek (fa) til skirslu at þetta er vsatt a mig sagt[2] en þo skulu her bod j moti koma af minne hende firir ydra skylld herra. Lat oss heyrra þa segir konungr. Hroi mællti. ek bydr þori at sitt auga se stungit or hǒfde a huorum ockrum ok leggi sidan j skalir. ok ef ór einum hause eru bæde þa munu vera iafnnþung. skal þa ok bæta þori eftir ydrum domi. en ef æigi eru

[1]) Helgi *Cd.* [2]) satt *Cd.*

iafnnþung edr þorir uili þetta æigi þa mun hann kunna at liuga fleira en þetta æitt. þorir quazst æigi þetta uilia. þorgnyrr mællti. þat kemr til þess at þu lygr ok ferr ydr brædrum nu sem iafnan illa ok illmanliga. ma nu ok vera at ydr uefizst lǫng ok margfolld lyge vm hals ok hǫfud ok hafui [348] þer ok læinge setit j konungs trausti umakliga ok hefir hann ætlat ydr betri menn en þer erut. nu þarf æigi lengr at ganga duldr hins sanna her vm þui at þat er nu ollum augliost uordit at æinge er annarr domr rettr en Hroi rade lifui þeirra brædra ok fe. Hroi mællte. skiotr er domr minn ok man ek ecki sidar uitrari. at þa brædr þori ok þorgisl uil ek lata taka af lifui en þu konungr skallt æiga jardir þeirra en ek lausafe. en Helgi vil ek at gerr se ór landi suo at hann æigi her alldri landvært sidan ok se drępr ok tiltækr ef hann verdr staddr j Suiþiod. dęmi ek mer fe hans allt. Sidan voru þeir þorgils ok þorir teknir ok ræistr þeim galgi ok hæingdir sem þiofar at lanzlǫgum. Sidan uar slitit þinginu ok for huerr heim af þinginu til sinna heimkynna ok uar hann nu kalladr Hroi hinn spaki. Sidan þackade hann þorgny lǫgmanni liduæitzslu sina letzst æigi mundu[1] hafa undan styrt ef hann hefde æigi notit hans rada vit ok uitzsku. nu kann uera ath þer þicki ek gerazst georbænn vit þig ok bidia dottur þinnar mer til handa. þorgnyrr suarar. ek ætla þat rad at suara her uel um þuiat snemma barst dottir min þat firir at henni leizst uel a þig ok uillde æiga þig. Sidan tokuzst þessi rad med sæmd ok mikille virdingu ok uar þar inne hǫfd hin fegursta uæitzsla. eftir þat biozst Hroi til brottferdar ok for til Danmerkr ok kom a fund Suæins konungs ok sagde honum allt fra sinne ferd ok sagde honum huersu gæingit hafde ok kuetzst ǫngum manni æiga iafnngodr at uera sem honum. færde Hroi honum marga goda gripe or Suiþiod. Suæinn konungr quat honum uel tekizst ok gæfusamliga ok uordit þo helldr nærr styrt huersu fara munde. skildu þeir konungr eftir þat ok voru iafnan vinir sidan medan þeir lifdu. for Hroi til Suiþiodar ok uar þorgnyrr logmadr þa anndadr. tok þa[2] logmannz dęmi eftir hann þorgnyrr son hans ok uar hinn mesti uitringr. skiptu þeir Hroi peningum med ser eftir landzlǫgum rettum ok urdu uel asattir. þotti Hroi hinn bezsti dreingr en kona hans var foruitri ok er þar j Suiþiod fra þeim komit mart gǫfugmenni.

[1]) munda *Cd.* [2]) tok *tilf. Cd.*

Er þau funduz Jngigerdr ok jarl.

67. A dogum Olafs konungs Haralldzsonar var Þorgnyr logmadr a Tiundalande þeir langfedgar hofdu þar verit yfir logmenn vm margra konunga æfui. Þorgnyrr var þa roskinn madr hann hafde vm sig hird mykla hann var kalladr uitrazstr madr j ǫllu Suiariki hann var frænde Rognualldz jalls ok fostrfadir. Nu er þar til mals at taka at sendemenn Jngigerdar konungsdottur ok Hiallta komu til Rognualldz jarlls ok Jngibiargar ok sǫgdu at konungsdottir hefde oft rætt um vid Suiakonung vm sættir þeirra Olafs digra ok hon var hinn mesti vin Olafs konungs. en Suiakonungr uard ræidr vid j huert sinn er hon nefnde Olaf konung ok henne þotti eingi von sætta at suo bunu. Jall sagde Birnni en Beornn sagde hit sama at hann munde æigi fyrr aftr huerfa en hann hitti Suiakonung ok segir at jall hafde honum þui heitit at fylgia honum a fund Suiakonungs. Nu lidr fram uetrinn en þegar a bak jolum byrr Rognualldr jarll fǒr sina. hann ræid vid .lx. manna. þar var j fǒr Beornn stallari ok hans forunautar. for jarll austr allt j Suiþiod. en er hann sotti upp a landit þa sende hann menn sina fram firir (til) Uppsala ok sende ord Jngigerde konungsdottur at hon skyllde koma vt a Ullarakr j mot honum. þar atti hon bu stor. en er konungsdottur kuomu ord Rognualldz jarlls þa biozst hon vid vid fiolda mannz Hiallti rædzst þa til ferdar med henni. en adr hann færi gek hann firir konung ok mællti. sitit allra konunga hæilazster ok er þat satt at segia at ek hefir huergi þes komit at ek hafui slika tignn set sem med ydr. uil ek þess bidia ydr herra at þer set vinir minir. Konungr suarar. hui lætr þu suo brautfusliga. huert skal þu fara. Heallti suarar. ek rid vt a Ullarakr med Jngigerde dottur yduarre. Konungr mællti. far þu þa vel ok ertu vitr madr ok sidugr ok kannt uel at vera med tignum monnum. Gek þa Hiallti j brott. Jngigerdr konungsdottir ræid til bus sins vt a Ullarakr let þa bua ueitzslu j mot jalli. Þa kom jall þar ok uar honum uel fagnat dualdizst hann þar nockurar nætr ok tǒludu þau konungsdottir mart ok flest vm þa Suiakonung. segir hon jalli at vuænt horfir um sættir. þa mællti jarll. frændkona sagde hann huern ueg er þer gefit vm þat ef Olafr Noregs konungr bidr þin. synizst oss sem þat muni hellzst æinblitt til sætta ef mægdir mætti takazst mille konunganna. en ek uil ecki ganga med þui male ef þat er þuert mot þinu skapi. Hon suarar. fadir minn mun sea rad firir mer en annarr er [349] æinge sa minn frænde er[1] ek uili helldr min rad undir æiga en ydr þau er mer þikir myklu rade gegnna. en huersu

[1]) ok *Cd.*

radligt synizst ydr þetta. Jarll fysti hana miog ok taldi sem uar marga hluti upp til frama uit Olaf konung þa er storuegligir voru. hann sagde henni inniliga fra þeim atburdum er þa hafde firir skemzstu georzst er Olafr konungr hafde handtekit .xi. konunga a æinum mornni ok tekit þa alla af riki. mart tǫludu þau vm þetta mal ok urdu uel asatt. for jarll a brott ok med honum Heallti. Rognualldr jall kom at kuelldi æinn dag til bus þorgnyrs lǫgmannz. þat var bær mikill ok storkostligr. voru þar margir menn vti. þeir fǫggnudu uel jarlli ok toku vid hestum þeirra. Jarll gek j stofu ok uar þar mikit fiolmenni. þar sat j ǫnduegi madr gamall. ǫnguan mann hǫfdu þeir set iafnnmikinn. skegg hans var suo sitt at þat la a kniam nidre ok um alla bringuna. hann uar vænn madr ok geruiligr. Jarll gek firir hann ok quaddi hann. hann tok uel quediu hans ok bat hann ganga til sætis þess er hann (var) uanr at sitia. jarll settizst gegnt honum. þeir duoldu zst nu þar nockurar nætr adr jall gek firir hann ok bar upp eyrende sin ok bad at þeir þorgnyrr skylldu ganga j malstofu. þeir Beornn ok Hiallti gengu med jalli ok er þeir kuomu þar þa tok jarll til mals ok mællti. sagde fyst fra þui er Olafr konungr hafde þangat sent menn ok þeir voru þar þa komnir ok hann hafde þui þeim hæitit at fylgia þeim a fund Suiakonungs ok hann sagde at Suiakonungr tok þessu male suo þungliga at hann let ǫngum manni hlyda skylldu at fara med þessu mali. nu er suo komit fostri at ek er æigi æinhlitr at þessu. hefui ek nu þui sott a þinn fund at ek uænti hedan heilla rada ok traustz. En er Jarll lauk sinu male þa þagde þorgnyrr vm hrid en er hann tok til orda mællti hann. undarliga skifti þer. þer girnizst at taka tignarnǫfnn en kunnit ydr ǫngan fǫgnut edr firirhyggiu þegar þer komit j nockurnn uanda. hui skylldir þu æigi sia firir þui adr þu hetir þessi ferd at þu hefir æigi riki til þes at mæla j mot Olafi konungi. þikir mer eigi uerra at vera j bondatale ok vera frials orda minna at mæla sligt er ek vil þo konungr se hea. nu mun ek koma til Uppsala þings ok uæita ydr þat lid at þer megit mæla þar uhræddir sligt er ydr likar. Jarll þackade honum uel þessi hæit ok dualdizst med honum til Uppsala þings ok ridu med þorgny til þings. uar þar allmikit fiolmenni. þar kom Olafr Suiakonungr med hird sina.

### Ræda konungs ok Raugnualldz jarls.

68. Hinn fysta dag er þing uar sett sat konungr a stoli ok þar hird hans umhuerfum. en annan dag eftir a þinginu satu þeir a einum stoli jarll ok þorgnyrr ok sat þar firir þeim hird jalls ok huskalla-

sueit þorgnyrs en a bak stolnum stod bonda mugrinn ok allt vmhuerfis vm hring. sumir foru a hædir ok a hauga at heyra þadan til. þa stod upp Beornn stallari hea stoli jalls ok mællti hatt. Olafr konungr sendi mig hingat þes eyrendis at bioda Suiakonungi sætt ok þat landaskipti sem at fornnu hefir verit mille Suiakonungs ok Noregskonungs. Hann mællti suo hatt at Suiakonungr heyrde gerlla. en er hann heyrde nefnndan Olaf konung ætlade hann ath sa munde hans eyrende tala. en er hann heyrde rætt vm sætt ok landaskifte mille Suiþiodar ok Noregs þa skilde hann af huerium rotum risa munde. þa hliop hann upp ok kallade at sa madr skyllde þegia ok sagde þat ecki stoda mundu. Beornn settizst þa nidr. en er hliod fekzst þa stod jarll upp ok mællti. hann sagde fra ordsending Olafs konungs ok sættarbodum vid Suiakonung ok fra þui er Uestrgautar sendu konungi oll ord til þess at sætt skylldi gera vit Noregsmenn. taldi hann huat Uestrgautum var at þui at missa þeirra allra hluta af Noregi er þeim uar arbót j en j annan stad at sitia firir ahlaupum þeirra ok hernade ef Noregskonungr heriar a þa. jarll sagde ok at Olafr Noregskonungr hefde menn þangat senda þeirra eyrenda at hann uill bidia Jngigerdar dottur Suiakonungs. En er jarll hætti at tala þa stod konungr upp. hann talade ok suarade þungliga um sættina ok uæitti jalli þungar atðlur ok stora firir ofdirfd þa er hann hafde gert grid ok frid vid þann hinn digra manninn ok lagt vid hann vinattu. taldi hann sannan at landradum vid sig sagde þat makligt at hann væri rekinn ór lande ok sagde at allt sligt hlaut hann af eggian konu sinnar ok quat þat verit hafa hit osniallazsta rad at hann skyllde fæingit hafa firir girndar sakir slikrar konu. hann talade langt ok sniallt ok sneri [350] rædunne a hendr Olafi digra. En er hann settizst nidr þa var hliott. þa stod upp þorgnyrr ok er hann stod upp þa stodu upp allir bændr þeir er adr hofdu setit ok þustu at allir þeir er j ðdrum stðdum hðfdu setit edr verit ok uilldu hlyda til huat er þorgnyrr talade. uar þa fyst gnyrr mikill af fiolmenni. en er hliod fekzst þa mællti hann.

### Suaur þorgnyrs jarls vid Suiakonung.

69. Annan ueg er nu skaplynde konunga j Suiariki en fyrr hefir verit. þorgnyrr fðdurfadir minn munde Æirek Uppsalakonung Ønundarson ok sagde þat fra honum er hann var a lettazsta skæide at hann hafde huert sumar leidangr vti ok for til ymisra landa ok lagde undir sig Finnland ok Kirialaland suo Eis(t)land ok Kurland ok vijda vm Austrlond ok mun enn sea jardborgir ok ðnnur storuirke þau er hann

gerde ok uar hann ecki suo mikilatr at æigi hlyddi hann monnum ef skyllt attu at tala vid hann. þorgnyrr fadir minn munde Biornn konung ok uar med honum langa æfui. uoru honum hans sider kunnir. vm hans daga voru sidir godir stod hans riki med myklum styrk en ǒngum þurde. uar hann ok gǒfugr ok dęll sinum monnum. ek man Æirek hinn sigrsæla ok uar ek med honum j mǒrgum herfǒrum iok hann riki Suia ok uarde hardfæingiliga uar oss gott radum vid hann at koma. en konungr þessi lætr ǒnguan mann þora at mæla vid sig nema þat æina er hann uill vera lata ok hefir vid þat allt kapp en lætr skattlond sin undan ser huerfa af eliunarleyse ok þrekleyse. hann girnnizst til þess at hallda Noreg undir sig er æinge Suiakonungr hefir agirnnzst ok georir þar[1] morgum manni mein. nu er þat uile uorr bóndanna Olafr konungr at þer georit sætt uit Olaf digra Noregskonung ok giptit honum Jngigerdi[2] dottur ydra. en ef þer uilit uinna aftr undir ydr riki þat er j Austrueg er ok frændr ydrir hafua þar þa uilium ver allir fylgia ydr til þess. nu med þui at þer uilit æigi hafua þat er uær męlum þa munu ver ueita ydr atgongu ok drepa ydr her þegar a þinginu ok þola ydr æigi olaug ok ofrid. hafua suo gert hinir fyrri forelldrar uorir þeir steyftu tueimr konungum j æina kelldu a Mulaþinge er adr hǒfdu uppfyllzst oiafnnadar ok ofmetnadar sem þer gerit nu vid oss. segit nu skiott huornn kost þer vilit nu helldr upp taka. þa gerde lydrinn þegar vopnnabrak ok gny mikinn. Konungr stendr þa upp ok mællti. segir at hann vill allt þann ueg vera lata sem bændr vilia. hafa suo gert aller Suiakonungar at lata bændr rada ollu med ser þui er þeir villdu. stoduadizst þa allr kurrinn bondanna. en þa taka hofdingiar at tala konungr ok jarll ok þorgnyrr ok gera frid ok sætt af Suiakonungs hende eftir þui sem Noregskonungr hefir ord til sent. uar a þui þinge þat radit at Jngigerdr konungsdottir skillde uera gift Olafi konungi j Noregi. skillde konungr jalli fa festar. konungr fek honum allt sitt umbod a þessum radahag ok skildizst þar vid suo buit. En er jarll fór heim þa hittuzst þau Jngigerdr konungsdottir ok tǒludu sin aa mille vm þetta mal. hon sendi Olafi konungi slædur af pelle ok gullsaumadar miog ok silkeræmur. for jall aftr j Gautland ok Biornn med honum. dualdizst Biornn þar litla hrid ok fór aftr til Noregs vid forunæyti sitt. en er hann hitti Olaf konung sagde hann honum eyrendislok sin þau sem voru. þackade konungr honum vel ferdina ok sagde sem var at hann hafde gæfu til borit at koma fram eyrendinu j vfride slikum. Olafr

[1]) *r.* þat [2]) Jngibiorgu *Cd.*

konungr for þa er uorade vt til siofar let þa bua skip sin ok stefnnde til sin lide for vm uorit vt eftir Vikinne allt til Lidandisnes ok allt for hann nordr a Halogaland. sende þa ord lendum monnum ór herudum ok bio þa ferd sina er hann skyllde fara j mot festarkonu sinne. ueitzsla su skyllde vera vm haustit austr vid Elfui vid landamæri.

## Suikrædi Hræreks vid Olaf konung.

70. Olafr konungr hafde med ser Hrærek konung blinda. ok er hann var groinn sara sinna þa fek konungr honum .ij. menn til þionustu ok let hann setia j hasęti hia ser. Hrærekr var famalugr ok styggr ef menn mælltu vid hann. þat uar uenia hans at hann let skosuein sinn leida sig vti um daga fra ǫdrum monnum þa barde hann sueininn. en er sueinninn hliop fra honum þa sagde hann Olafi konungi at sueinninn uillde ecki honum þiona. þa uar skift vid hann þionostumonnum ok for allt sem adr at æinge hellzst vid. þa fek Olafr konungr honum þann mann er Sueinn het ok uar hann frænde Hræreks ok uar hans madr adr. hann hellt teknum hætti vm stridlæti sitt [351] en er þeir voru .ij. saman staddir þa var (hann) katr ok malrædinn. hann minntizst a marga hluti þa er fyrr hafde verit þa er hann var konungr ok minntizst a æfui sina fyrre ok suo a þat huerr brugdit hafde hans riki ok sælu en gert hann at ǫlmosumanni. en hitt þiki mer þo undarligt ok þo mest ok þungazst segir hann er þu edr adrir minir frændr þeir er mannuænligir hafa verit skulu nu vera suo myklir ættlęrar at ongrar suiuirdingar skal reka þeirrar er a ætt uorre er ger. þuilikar fortǫlur hafde hann oft uppi. Sueinn sagde at þeir attu vid ofreflismenn vm mykla at skifta en þeir hofdu litils kosti. Hrærekr mællti. til huers skulu uær leinge lifa vid skǫmm ok meidzsl nema suo beri at at ek mætti blindr hefnnazst a þeim sama er mig sigrade sofannda. gerum suo uel at vit drepum Olaf digra. hann ottazst nu ecki at ser. ek skal radin til setia ok æigi uillda ek hendr til spara ef ek mætta synar neyta en þat ma ek æigi firir sakir blindlæiks mins ok skalltu bera uopn a hann. en þegar er Olafr konungr er drepinn þa huerfr rikit undir ouine hans. nu kann vera at ek verda konungr ok skalltu þa vera jarll minn. Suo kom um fortaulur hans at sueinninn iattade þessu vrade. Suo uar firirætlat at þa er konungr gengr til aftansaungs stod sueinninn vti j suolum firir honum ok hafde brugdit sax undir skickiu sinne. en er konungr gek vt ór stofunne þa bar hann skiotara at en Suein varde ok sa j andlit honum. þa blicknade sueinninn ok uar suo fǫlur sem narr[1] ok felluzst honum hendr. Konungr

[1]) gnarr *Cd.*

fann hrætzslu a honum ok mællti. huat er nu Sueinn uilltu suikia oss. Sueinn kastade nu fra ser saxinu ok fell til fota konungi ok mællti. allt a guds uallde ok ydru herra. Konungr bad menn sina taka hann ok var hann settr j iarnn. þa lętr konungr fæsa sæti Hræreks a annan pall. hann gaf grid Sueini for hann ór lande. Konungr fek Hræreki annat herbergi at sofa j en þat er hann sealfr suaf i. en suaf þar j þui husi fiolde hirdmanna. hann fek til .ij hirdmenn at fylgia Hræreki dag ok nott. þeir menn hofdu lengi verit med Olafi konungi ok hafde hann þa reynt at truleik vit sig. Hrærekr gerde ymizst at hann þagde marga daga suo at æingi madr fek ord af honum en stundum uar hann suo katr at þeim þotti at hueriu orde gaman er hann mællti en stundum mællti hann mart ok illt. suo ok at stundum drak hann huernn af stocki en oftazst drak hann litit. Olafr konungr gaf honum vel skotsilfr. oft gerde hann þat ádr hann lagdizst til suefnns at hann let taka miadarbyttur ok gaf at drecka ǫllum hirdmonnum. af þui þockadizst hann þeim uel vm hrid.

## Af Finni ok Hræreki. capitulum.

71. Madr er nefndr Finnr hinn litli upplenzskr madr edr finnzskr at ætt. hann uar litill madr ok allra manna skiotazstr suo at eingi hestr tok hann a ras hann kunni manna bezst vit boga. hann hafde lengi verit trunadarmadr ok þionustumadr Hræreks. hann kunne uega um ǫll Upplǫnd hann uar ok malkunnr ollu stormenni. hann slotzst oft j ferd med þeim Hræreki ok til þionostu vit hann ok komzst oft j tal vit Hrærek ok oftazst skommum samfast at mæla vid hann ok uillde ecki gruna lata þeirra tal. en er a leid uorit ok þeir sottu vt j Uikina þa huarf Finnr a brott fra lidinu nockura daga. þa kom hann enn aftr ok dualdizst vm hrid. Suo fór oft fram ok uard þui æingi gaumr at gefinn.

## Hrærekr komz a brott fra Olafi konungi.

72. Olafr konungr kom til Tunbergs firir paska ok dualdizst þar miog lengi um uorit. þar kom þa til bæiarins mart kaupmanna bæde Saxar ok Danir ok austan or Uik ok nordan ór lande. uar þar mikit fiolmenni. þar uar ár mikit ok dryckiur storar. þat barst at a æinu kuelldi at Hrærekr uar kominn til herbergis ok helldr sidla ok hafde miog druckit ok var þa katr vel. þa kom Finnr hinn litli med miadarbyttu ok uar þar grasadr miǫdr hinn sterkazsti. þa let Hrærekr gefa

at drecka ollum þeim er inne voru til þess at huerr sofnade j sinu rumi. Finnr uar þa j brottu gæinginn. lios brann þa j herberginu. þa uakti Hrærekr upp þa menn er honum voru vanir at fylgia ok segir at hann uill ganga til hæimilishus. þeir hofdu skridlios med ser en myrkr var a uti mikit en loftrid uar at ganga til salernisins. en er þeir satu j nadhusinu þa heyrdu þeir vt at madr mællti. hogg þu fiandann. þa heyrþu þeir brest mikinn ok dett sem nǒckut felli. þa mællti Hrærekr. fulldrucknir munu þeir þarnna er þar æigazst vid farit til skiott ok skilit þa. þeir biugguzst skiott ok hlupu vt en er þeir komu vt a ridit þa uar sa hǒgginn fyrr er sidarr gek ok drepnir þo badir. þar voru komnir [352] menn Hræreks Sigurdr hit er verit hafde merkismadr hans ok þeir .xij. saman. þar var Finnr hinn litle. þeir drogu likin upp a mille husanna en hofdu Hrærek met ser hlupu a skutu skip er þeir attu ok reru j brott. Sighuatr skalld suaf j herbergi konungs hann stod (upp) um nottina ok skosueinn hans med honum ok geingu til annars huss. en er þeir skylldu aftr fara ok ofan firir ridit þa skridnade Siguatr ok fell a kne ok stak nidr hendinne ok uar þar vott vndir. hann mællti. þat hygg ek at nu j kuelld muni konungr hafa fengit oss karfafotinn ok hlo at. en er þeir kuomu j herbergit brann þar lios. þa spurde skosuæinninn. hefir þu skæint þig edr hui ertu j blode einu allr. Hann suarar. ekki er ek skæindr en þo mun þetta vita tidenda. Hann uakti þord merkismann reckiufelaga sinn ok geingu þeir vt ok hǒfdu med ser skridlios ok fundu bratt blodit. þa leitadu þeir ok fundu likin ok baru kenzsl a. þeir sa at þar var trestolpi mikill ok skylihǒgg mikit ok spurdizst þat sidan at þat hafde verit gert til þess at teygia þa vt er drepnir voru. þeir mælltu sin j mille at naudsyn bæri til at uekia konunginn ok hann visse þessi tidende sem bradazst. þeir sende skosueininn til herbergis þess er Hrærekr suaf j. þar suofu menn allir en Hrærekr var j brottu. hann uakti þa menn er inne suofu ok sagde tidendin ok stodu menn þa upp ok foru þangat sem likin voru. En þo at naudsyn væri til þessa at konungrinn visse sem fyrst þa þorde þo æingi at vekia hann. þa mællti Siguatr til þordar. huort uilltu helldr lagsmadr at uekia konunginn edr segia honum tidendin. þordr suarar. firir ǒnguann mun þori ek at uekia hann en segia mun ek konungi tidendin. Siguatr mællti. mikit er enn eftir nætr ok kann vera adr dagr se at Hrærekr hafui fæingit ser fylsni þat at hann hafui nogt undanbragd suo at hann se æigi audfundinn. en þeir munu enn skamt komnir þuiat likin eru enn æigi kolld. skal oss alldri henda su skǒm at ver latim æigi konunginn vita þessi

tidendin ok suik. gak þu þordr upp j herbergin ok bid min þar. þa gek Siguatr til kirkiu ok bad klockaran hringia firir sal hirdmanna konungs ok nefnnde þa er vegnir voru. Klockarin gerde sem hann var bedinn. en er hringt var þa uaknnade konungr ok settizst upp. Hann spurde huort þa væri ottosaungs mál. þordr suarar. verri efnni eru j. tidendi eru uordin Hrærekr er j brottu en drepnir hirdmenn þinir .ij. þa spurde konungr at tidendum. þordr sagde af sligt er hann visse. þa stod konungr upp· ok let blasa til hirdstefnu. en er lidit kom saman þa nefnnde konungr menn til at fara alla uega fra bænum at leita Hræreks będe a sio ok a lande. þordr lange tok skutu ok for med sina menn at leita Hræreks hafde hann .xxx. manna. en er lysa tok þa sa þeir at skutur .ij. foru firir þeim. en er huorir sa adra þa reru huorir sem mest mattu. þar var Hrærekr ok hafde .xxx. tigu manna. ok er saman dro med þeim þa sneru þeir Hrærekr at lande ok hlupu þeir allir upp nema Hrærekr hann settizst upp j lyptingunne. hann mællti ok bad þa uel fara ok hæila hittazst. þa reru þeir þordr at lande þa skaut Finnr hinn litle ðru ok kom su ðr a þord midian ok fek hann þegar bana en þeir Sigurdr hlupu a skoginn en menn þordar toku lik hans ok fluttu til Tunbergs ok suo Hrærek. Olafr konungr tok þa vid ha!lde Hræreks. hann let þa uandliga geyma hans ok gallt mikinn varhuga vid suikum hans. Hrærekr var þa hinn katazsti ok fann eingi madr a at æigi likade honum vel. þat barst at uppstigningardag at Olafr konungr gek til hamessu. þa gek byskup med processione um kirkiu ok leiddi konunginn ok er þeir komu aftr j kirkiuna þa leidde byskup konung til sætisins firir nordan dyrr j kornum. en þar hit nęsta sat Hrærekr konungr sem hann uar vanr. hann hafde yfuirhofnina yfir hofdi ser. en er Olafr konungr hafdi nidr setzst þa tok Hrærekr a oxl honum ok þrysti. hann mællti. pellzklæde hefir þu nu frænde. Olafr konungr suarar. nu er hatid mikil halldin j minning þa er Jesus Christus steig til himna af iordu. Hrærekr suarar. ecki skil ek af suo at mer hugfestizst þat er þer segit fra Kristi. þiki mer þat helld(r) otruligt en þo hafa margs dęmi uordit j fornneskiu. En er messan var upphafin þa stod konungr upp ok hellt upp hondum ok laut til altaris. Hrærekr spratt þa upp skiott ok hart hann lagde til Olafs konungs saxsknife er rythningr hæitir. lagit kom j yfirhofnina vit þat er hann hafde nidr lotit. skaruzst miog klędin en konungr uard ecki sárr. en er Olafr konungr fann þetta tilræde þa hliop hann fram a golfit. Hrærekr lagde j annat [353] sinn ok miste. Hann mællti þa. flyrr þu nu Olafr digri firir mer blindum. Konungr bat menn taka hann

ok leida vt ór kirkiunne ok suo var gert. Eftir þessa atburde eggiudu menn at hann leti drepa Hrærek. sogdu menn at konungi uar hin mesta gæfuraun at hafa hann med ser ok þyrma honum hueriar vhæfur sem hann tekr til. en hann liggr um þat natt ok dag at væita ydr liflat. en ef þer sendit hann j brott þa siam ver æigi mann til at fai suo halldit hann at hann komizst æigi j brott. en ef hann verdr laus þa ma hann þegar hafa flokk uppi ok gera mart illt. Konungr suarar. rett er þat mællt en margr hefir dauda tekit firir minne illgerdir en hann. en traudr er ek at tyna sigri þeim er ek fek a Upplendinga konungum er ek tok .v. konunga a æinum mornni ok nada ek suo ollu riki þeirra at ek þurfta æingis mannz bani at verda en þeir voru allir frændr minir. en þo fæ ek nu uarla set huort Hrærekr mun fa naudgat mer til edr æigi at lata drepa sig. Hrærekr tok þui a ðxl konungi at hann uillde uita huort hann uar j bryniu edr æigi.

## (Fra) Olafi konungi ok þorarni.

73. Madr er nefndr þorarinn Nefulfsson hann uar vitr madr ok islenzskr kyniadr nordan um land. ecki uar hann ættstorr. ordsniallr ok diarfmælltr vid tignna menn hann var farmadr mikill. þorarinn uar manna liotazstr ok bar þat mest fra huersu illa hann var limadr. hann hafde hendr þyckuar ok liota(r) en fætr þo myklu liotari. hann var þa staddr j Tunsbergi er þessi tidendi voru ok nu var fra sagt. hann var malkunnr Olafi konungi. hann bio kaupskip er hann atti hann ætlade til Jslandz vm sumarit. Olafr konungr hafde þorarin j bode sinu nockura daga ok talade konungr mart vid hann. þat uar æinn morgin snemma at konungr uakti en adrir menn suofu ok skæin sol ok uar liost inne miog. konungr sa at þorarinn hafde rett annan fot undan klædunum. hann sa a fotinn vm hrid. þa uoknnudu menn j herberginu. konungr mællti til þorarins. uakat hefui ek vm hrid ok hefui ok set þa syn er mer þikir mikils vm vert ok er þat mannzfotr sa er ek hyggr at æingi fotr skal her j kaupstadnum liotari vera. Ok bad adra menn at hyggia en allir er sa sogdu at suo væri. þorarinn fann huar til uar mællt ok suarar. fatt er suo einna hluta at ðruænt se at hittizst annat sligt. Konungr mællti. helldr vil ek þui atfylgia at æigi muni fazst iafnnliotr fotr ok suo þoat ek skyllde vedia vm. þa mællti þorarinn. buinn er ek at uedia vid ydr at ek mun finna annan fot liotara. Konungr suarar. sa ockarr skal kiosa bæn at ðdrum er sannara hefir. Suo skal vera segir þorarinn. Hann bra þa undan klædum ðdrum fæti ok uar sa ðngum mun fegri en þar uar af hin minzsta tain. ok a ek nu

uedfet sagde þorarinn. Konungr mællti. hinn er fotrinn þui ferligri at þar eru fim tær ferlligar a þeim en her eru fiorar. ok a ek at kiosa bæn at þer. þorarinn suarar. dyrt er drottins ord. hueria bæn uilldu þer at mer kiosa. Konungr suarar. þa at þu flytir Hrærek vt til Grænlandz ok fær hann Leifui Æirekssyne. þorarinn suarar. ecki hefir ek komit til Grænlandz. Konungr mællti. farmadr slikr sem þu ert þa er þer mal at fara til Grænlandz ef þu hefir æigi fyrr komit. þorarinn suarar fa vm þetta mal. en er konungr sagde sinn vilea þa uæik hann æigi af hende ok mællti. heyra skal ek ydr lata herra mina bæn at ek uil bidia ydr hirduistar. en ef þer uæitit mer þat þa uerd ek skylldr til at uæita ydr ok gera yduarn vilia Konungr jatade þessu ok gerdizst Olafr konungr gladr. uard þorarinn þa hirdmadr Olafs konungs. þa bio hann skip sitt ok er hann var albuinn þa tok þorarinn vid halldi Hræreks. en er Olafr konungr ok þorarinn skilduzst þa mællti þorarinn. nu ber suo til herra sem æigi er ðruænt ok oft kann verda at ver komim æigi fram Grænlandzforinne berr oss at Jslande edr at ðdrum lðndum. huersu skal ek skiliazst vid konung þenna þess er ydr likar. Konungr suarar. ef þu kemr til Jslandz þa skalltu selia hann j hendr Gudmunde Eyiulfssyne edr Skafta lðgsogumanni edr ðdrum hofdingium þeim er mina vinattu uilia hafa. en ef þig berr at odrum londum þeim er hingat er nær þa haga suo til at þu uitir uist at hann komi alldri sidan lifs j Noreg. en geor þat þui at æina nema þu siair æinge fðng a ðdru. En er hann uar buinn ok byr gaf þa siglde hann vtleid allt firir vtan eyiar ok nordr fra Lidandisnesi. siglde hann a haf honum byriade sæint. hann siglde firir sunnan Jsland ok suo austr um landit j Grænlandzhaf. fek hann þa [354] rettu stora ok uolk mikit. en er a leid sumarit tok hann land j Breidafirde. þorgils Arason kom til þeirra fystr virdingamanna. þorarinn synde honum ordsendingar ok iarteignir Olafs konungs til vidrtoku Hræreki konungi. þorgils tok vid honum ok var Hrærekr med honum vm uetrinn. hann undi þar æigi ok bæiddizst af þorgisle at hann leti fylgia honum til Gudmundar a Mðdruuðllu ok sagde at hann þottizst þat spurt hafua at med Gudmundi væri rausn mest a Jslande ok hann væri honum til handa sendr. þorgils let fylgia honum til Gudmundar a Mðdruuðllu. tok Gudmundr vid honum uel firir sakir Olafs konungs ok uar hann þar uetr annan. þa undi hann þar æigi lengr. þa fek Gudmundr honum vist a litlum bę ok heitir a Kalfskinne. þar var Hrærekr hinn þridea uetr. þar uar fátt hiona. suo sagde Hrærekr at sidan er hann let af konungdomi hefde hann þar uerit suo at honum hefde bezst þott. þar uar hann af

ollum monnum mest metinn. Eftir um sumarit fek Hrærekr sott þa er hann hefde leitt til bana. Suo er sagt at sa (einn) konungr huilir a Jslande. þorarinn Nefulfsson uar lengi sidan j fórum en stundum med Olafi konungi. þat sumar er þorarinn for til Jslandz med Hrærek for Heallti Skeggiason vt til Jslandz ok leidde Olafr konungr hann med giofum a brott. þat sama sumar fór Eyuindr urarhornn j uestruiking ok kom vm haustit til Jrlandz til handa Konufógr Jrakonungi. þeir hittuzst vm haustit j Ulfreksfirde Jrakonungr ok Einarr jarll ór Orkneyium ok uar þar orrosta mikil. hafde Jrakonungr lid meira ok fek sigr en jarll flyde æinskipa ok kom suo vm haustit aftr til Orkneyia at hann hafde latit mestan hlut fiar ok manna ok unde jall storilla ferd sinne ok kende osigr sinn mest Nordmonnum er voru j orrostu med Jrakonungi.

---

## VPPHAF FOSTBRÆDRA SOGHU.

### capitulum.

Gvd drottinn Jesus Christus sa til þess þórf vora allra Nordmanna at uelia oss slikan formælanda sem suo kostgæfde med mikille godfyse uora naudzsyn sem þessi skinande gæisli ok lysanda liosker hinn heilagi Olafr konungr Haralldzson huerr at æigi at æins elskade sinn undirgefinn lyd j Noregi helldr ok iafnnuel þa sem a Jslande bygdu þa sem sottu hans tign ok virding prydannde huernn eftir þui med veralldar virdingu sem hann fann tilfelldan suma med fegiofum en suma med nafnnbotum. gafuzst ok þær raunir a at þeir fengu mesta ast ok elsku af Olafi konungi sem gud elskudu framazst. Olafr konungr unni mikit hirdmonnum sinum ok þotti ser j þui miog misbodit ef þeim uar med ófund misþyrmt ok þeim ollum framazst er honum þotti mestr madr j. þikir af þui tilheyriligt at setia her nockurnn þatt af hirdmonnum hans tuæimr þorgæiri Hafarssyne ok þormode Bessasyne er leinge voru med honum j mórgum mannraunum þo at þeirra se æigi iafnnan vid getith j sealfri Olafs sógu. ma af sliku merkia gætzsku ok giftu Olafs konungs at hann uæitti þat athalld suo myklum[1] uæirdarmonnum sem þeir voru fostbrædr at þeir elskodu konunginn yfir alla menn fram. urdu þeim ok sidan sin verk óll at

[1]) ok *tilf. Cd.*

frægd ok frama þau sem þeir unnu j heidr vid konunginn ok syndu af ser agæta uðrnn dad ok dræingskap adr þeir endadu sitt lif ok erfuide þessarar ueslu veralldar.

## Vppruni þeirra þorgeirs ok þormodar.

75. A dogum hins heilaga Olafs konungs uoru margir myklir hofdingiar undir hans konungsrike æigi at æins j Noregi helldr j ollum londum þeim er hans konungsdomr stod yfir ok uoru þeir mest virdir af gude er konunginum likade bezst. J þenna tima uar hofdinge mikill a Jslande j Jsafirde sa er Uermundr het hann uar þorgrimsson brodir Uigastyrs. Uermundr hafde bustad j Uatzfirde hann uar uitr madr ok uinsæll huatr ok hardradr. hann atti þa konu er þorbiorg het hon uar kollut þorbiorg hin digra dottir[1] Kiartans Olafssonar. hon uar uitr kona ok storlynd rik ok storrad. auallt er Uermundr uar æigi heima þa red hon firir herade ok firir monnum ok þotti huerium manni sinu mali uel komit þo at hon rede firir. Hafarr het madr hann uar Klepsson hann bio at Jokulskelldu. Hauarr uar kyniadr sunnan af Akranese ok hafde flyit þadan firir uigasokum þuiat hann uar mikill hauadamadr ok udęll. hann atti þa konu er þorelfr het hon uar bræidfirzsk at ætt hon uar dottir Alfs j Dǒlum gofugs mannz ok agætz. Hauarr ok þorelfr attu þann son er þorgæirr het hann var bradgerr madr mikill uexsti sterkr ok vdęll ok kapsfullr. hann nam a unga alldri at hlifa ser med skillde en uega med suerde. Bessi het madr er bio j Jsafirde hann atti þa konu er þorgerdr het. son þeirra het þormodr hann uar a unga alldri huatr madr ok hugprudr medalmadr uexsti suartr a hár ok hrockinhærdr. J þenna tima bio a Reykiaholum a Reykianese þorgisl Arason hann uar hofdinge [355] mikill uitr ok vinsæll rikr ok raduandr. Jllhugi het brodir hans hann var hirdmadr hins hæilaga Olafs konungs. hann uar farmadr mikill ok uar annan uetr med Olafi konungi en annan uetr a Reykiaholum. hann hafde vt kirkiuvid þann ok skalavid þann er þar var. þeir brędr voru synir Ara Mársssonar Atlasonar Ulfssonar hins skialga er nam Reykianes Haugnnasonar hins huita Otryggssonar Oblaudssonar Heorleifssonar konungs. þorgerdr het modir þeirra hon uar dottir Alfs j Dǒlum.[2] Modir Alfs var þorhilldr dottir þorsteins hins rauda Oleifssonar hins huita[3] Jngialldzsonar Frodasonar. Modir Jngialldz uar þora dottir Sigurdar orms j auga. modir Sigurdar var

[1]) *r.* systir. [2]) Hognnasonar hins huita Otryggssonar Oblaudssonar *tilf. Cd.*
[3]) Otryggssonar Oblaudssonar *tilf. Cd.*

Astlaug dottir Sigurdar fafnisbana. þorgeirr Hafarsson uar systrungr þorgils Arasonar. þorgæirr ok þormodr oxu upp j Jsafirde ok uar[1] snemma uingott med þeim þuiat þeir voru skaplikir. snemmendis sagde þeim suo hugr sem sidarr bar raun a at þeir munde uopnndaudir verda þuiat þeir voru radnir til at lata huergi sinn hlut undir liggia vid hueria menn sem þeir attu malum at skipta. meirr hugdu (þeir) at frægd ok frama þessa heims en dyrd annars heims fagnnadar. þui toku þeir þat rads med fastmælum at sa þeirra skyllde annars hefnna er lengr lifde. en þo at þa væri kristnir menn kalladir þa var þo j þann tid ung kristni ok miog uanger suo at margir gnæistar heidinnar uillu voru þa enn j ueniu margra manna. J fyrnnsku hafde su siduenia verit hardfæingra manna þeirra er þat logmal gerdu sin a medal at sa skyllde annars hefnna er lengr lifde. þa skylldu þeir ganga undir þriu iardarmen ok uar þat æidr þeirra. sa læikr þeirra var a þa lund at rista skyllde upp þrear langar torfur. þeirra endar skylldu allir fastir vera j iordu en hæimta upp lyckiurnar suo at madr mætti ganga þar vndir. þann læik fromdu þeir þorgeirr ok þormodr. þormodr var þeirra nockuru ellri en þo var þorgeirr þeirra sterkari. vppgangr þeirra gerdizst bratt mikill. foru þeir vida vm herut ok voru ecki miog vinsælir. tỏldu margir þa vera ecki iafnnadarmenn. hofdu þeir hraskinn hea fedrum sinum. virdu suo margir at þeir hellde þa til þessarrar vspecktar. foru þeir menn er vanhluta þottuzst uordnir firir þeim a fund Vermundar ok badu hann af koma þessu vandræde. Vermundr baud Hauari ok Bessa a sinn fund ok sagde þeim at monnum likade litt vid sonu þeirra. er Hauarr segir hann vtanherads madr ok hefir setzst her nidr at einkis mannz lofui. hofu ver ecki amazst vid bygd þina her til. en nu synizst monnum standa af þorgæiri syne þinum nockurr hrode ok stormr. vilium ver nu at þu breytir bustad þinum ok færir j brott bygd þina ór Jsafirde. en Bessa ok son hans munu ver þui æigi a burt reka at þeir eru her herads menn ok væntum ver at minne stormr mun standa af þormodi ef þeir skiliazst. Hauarr suarar. rada muntu þui at ver munum radazst j burt ór Jsafirde med fe voru en æigi væit ek nema þorgæirr vile rada sinu vistaferlle. Nu eftir þessa vidrædu færde Hauarr bygd sina sudr til Borgarfiardar ok bygde þar sem nu eru kallader Hauarstadir. þorgeirr var þa ymizst med fỏdur sinum edr uestr j Jsafirde med þormode ok voru morgum andvaragestir þar sem þeir komu. laungum var hann a Reykiaholum med þorgisle frænda sinum ok hafde af honum gott yfirlæti. mikit vin-

[1]) ua *Cd.*

fæinge uar med þeim þorgisle Arasyne þegar a unga alldri ok hellzst þat medan þeir lifdu badir.

### Jodr drap Hauar. capitulum.

76. Jodr het madr er bio at Skeliabrecku hann var Klængsson. Jodr uar garpr mikill ok oiafnnadarmadr mikill rikr ok storradr vigamadr mikill ok bætti sealldan menn þo at hann vægi. Jodr for vm uetrinn vt a Akranes ok huskallar hans med honum at miolkaupum. j þeirre fðr kom hann til Hauars ok bad at hann skyllde lia honum hest vt a nesit. Hauarr sagdizst lea honum mundu hestinn. ok uil ek sagde hann at þu latir her eftir hestinn er þu ferr aftr. Jodr quat suo vera skylldu. hann for vt a nesit ok keyfti þar miol sem hann hafde adr ætlat ok for heimlæidis. ok er hann for med Grunnafirde nær bæ Hauars þa ræddu forunautar hans vm vid hann at þeir munde eftir lata hestinn. Jodr suarar. æigi nenni ek nu at dueliazst ok mun ek nu hafa hestinn heim undir klyfium ok senda honum þegar aftr er ek hefui haft j mina naudsyn. þeir suara. gera mattu suo ef þu uill en æigi hefde Hauari auallt likat at af þui væri brugdit er hann villde vera lata. Ecki mun nu firir þat gefit verda sagde Jodr. Hauarr sa ferd þeirra ok fór til fundar vid þa ok mællti. nu munu þer lata eftir hestinn. Jodr [366] suarar. þu munt vilea lea mer heim hestinn. Hauarr suarar. æigi mun nu hestrinn fara lengra. Jodr suarar. þo munu ver nu hafa hann þo at þu uilir æigi. Hauarr suarar. vera ma at suo se. hann hleypr at hestinum ok hio ofan klyfiarnnar ok tok j tauma hestsins ok sneri heim a leid. Jodr hafde mikit krokaspiot j hende. hann snarar þa at Hauari ok leggr spioti a Hauari midium. af þui sare let Hauarr lif sitt. Jodr tok hestinn ok hafde med ser ok fór leid sina til þess er hann kom heim. Heimamonnum Hauars þotti honum seint heim verda ok foru at læita hans ok fundu hann daudan þar sem hann hafde ueginn verit. þeim þotti þat mikil tidende ok morgum ðdrum.

### þorgeirr drap Jodur bonda.

77. þorgeirr Hauarsson var j þenna (tima) vestr j Jsafirde er uig Hauars spurdizst vida um herut. ok er þorgeiri var sagt lat fodur sins ok braa honum ecki vid tidendasognn þessa. eigi rodnade hann þuiat honum rann æigi reide j hðrund. æigi bliknade hann þuiat honum rann æigi ræide j bæin. helldr bra hann ser a ðnguan ueg vid þessa tidendasognn þuiat æigi var hans hiarta sem foarnn j fugle. æigi uar þat blodfullt suo at þat skylfui af hræzslu helldr var þat hert af

hinum hæsta hofutsmid. Suo er sagt at þorgeirr væri litill kuennamadr talde hann þat vera suiuirding sins kraptz (at) hokra at konum. sealldan hlo hann æinge var hann gapsmadr oblidr ok ohyr huersdagliga vid alþydu. mikill var hann vexsti ok dreingiligr j asionu rammr at afle. þorgeirr atti ðxi breida stundar mykla skðfnungsðxi. su ðx var snarpegg ok huðs ok fek mðrgum manni ærinn nattverd. hann atti ok mikit spiot þat var med hordum oddi ok huðssum eggium mikill falr a ok digr(t) skaft. J þenna tima voru her a lande suerd otid monnum til uopnnaburdar. Nu er þorgeirr spurde uig fðdur sins þa fór hann a Reykiahola til þorgils Arasonar ok sagde honum at hann villde fara sudr til Borgarfiardar at hitta modur sina ok bad at hann skyllde fa honum far yfir Breidafiord. þorgisl gerde sem hann bad. nu for hann sudr j Borgarfiord ok er (æigi) sagt fra nattstðdum hans. færdir voru godar ok snialaust j heradinu uotnin lagu ðll. ok er hann kom sudr yfir Huita þa lagde hann leid sina til Skeliabrecku. uedr var þykt ok hlætt myrkt vti będe firir vedrs sakir ok nætr. þorgeirr kom til Skeliabrecku sid vm aftan. ok er hann kom a bæinn þa voru dyrr aftr loknar ok menn nykomnir j stofu fra ellde. lios brann j stofunne. þorgeirr drap a dyrr. Jodr mællti. a dyrr var drepit. gangi vt nockurr sueina. þa sa vt æinn huskarll ok ser mann firir dyrum standa med uopnum ok spurde huerr hann væri. Hann suarar. Vigfuss heiti ek. Huskall mællti. gak þu inn heimil er þer gisting. þorgeirr mællti. æigi þigg ek at þrælum gisting. mæl þu at Jodr gangi vt. Hann gengr inn en þorgeirr stendr vti. Jodr spurde huerr kominn væri. Huskall suarar. æigi væit ek huerr hann er. ætla ek at hann viti æigi sealfr. Jodr mællti. huort baud þu honum gisting. Huskall suarar. baud ek honum ok villde hann æigi þiggia gistingarbod at þrælum bad hann þig vt koma. Jodr tok spiot j hond ser ok setti healm a hofut ser gengr vt j dyrnnar ok .ij. huskallar med honum. ser mann vti firir dyrum. snyrr vt spiotinu ok setti spiotzoddinn j þreskiolldinn en stod sealfr firir innan. Hann spyrr huerr hinn komni madr væri. Sa suarar. ek hæiti þorgeirr. Jodr mællti. huerr þorgeirr ertu. Hann suarar. Hauarsson er ek. Jodr mællti. huert er eyrendi þitt hingat. þorgeirr suarar. æigi væit ek at hueriu verdr en eftir vil ek læita ef þer vilit mer nockuru[1] bæta vig þat er þu uott Hauar fðdur minn. Jodr mællti. hefir þu æigi spurt þat at ek hefuir morg vig uegit ok hefig fa bætt. þorgeirr suarar. okunnigt er mer þat. en huat sem þat er þa kemr þetta til min at leita eftir þessum uigsbotum er mer er suo nærr hðggit. Jodr suarar.

[1]) nockura *Cd.*

æigi væri allfiarri at minnazst þin j nockuru. en firir þat mun ek æigi bæta þer þetta vig at ðdrum mun skyllt þickia at ek bæta ðnnur vig þau sem ek hefui vegit. þorgeirr suarar. þer munut rada huernn þer vilit minn gera en ek mun rada þyckiu minne. Nu er þeir ręddúzst þessi ord vid þa stod þorgeirr æigi allnær dyrum. hann hafde spiot j hægri hende ok snere fram oddinum en ðxi j hinne vinstri hende. Jodr ok hans monnum var dimt vt at lita þuiat þeir voru fra liosi komnir en þorgeirr matti nockuru gerr sea þat er j dyrunum var. nu er minzstar uonir voru þa hliop þorgeirr upp at dyrunum ok lagde spiotinu a Jodr midium ok þegar j gegnum hann suo hart at hann fell inn j dyrnar j fang fylgdarmonnum sinum. þorgeirr snyrr a brott j nattmyrkrinu en huskallar Jodrs starfa at honum. þa var þorgeirr .xv. uetra er þetta vig var. sem þormodr orti j erfuidrapu þorgeirs.

Starf hǫfzst upp þa er arfa
[357] auduæitir sig daudan
hastrennir var hlunna
haugsniallr Klęngs falla.
efnnd tokzst Hauars hefndar
hapstods þa er var mode
hann hlaut happ at vinna
huatr .xv. uetra.

### þorgeirr hitti modur sina.

78. Nv ferr þorgeirr vm nottina vt firir Hafnarfioll ok nam æigi fyrr stadar en a Hauarsstðdum. hann drepr þa a dyrr ok er sæint til hurdar gengit. þorelfr kuedr æinn huskall til vt at ganga. hann vaknnar ok hrifr j ðgun ok mællti. æigi væit ek at naudsyn se at vt at ganga þo at menn fari vm nætr. þorelfr mællti. sa æinn mun fara vm nætr j myklu myrkri er naudsyn mun til bera. Æigi væit ek þat segir hann. Hann reis þo upp seint þat ok gengr til dyranna ser mann vti firir dyrunum ok heilsar honum ecki. snyrr inn til reckiu sinnar legzst nidr ok breidir a sig. þorgeirr gengr inn lykr aftr hurdu snyrr til stofu. þorelfr spurde. huerr kom madr. Hann suarar. þat er bæde at ek væit æigi huerr hann er enda þiki mer ecki undir. þorelfr mællti. oforuitinn madr ertu. Hon mællti vid gridkonu æina. ris þu upp dottir ok gak til stofu ok vit huerr madr se. Hon reis upp ok gek til stofu. lykr upp hurdunne ok spurde. huort er nockurr madr j stofunne. Henni uar suarat. er her æinnhuerr madr. Hon spurde huerr hann væri. Hann nefnndizst þorgeirr. Hon lykr aftr hurdinne gengr j skala. þorelfr spurde. huerr var madr. Hon suarar. þat ętla ek at kominn se þorgeirr sonr þinn. þorelfr ris þa upp ok kuæikti lios gengr til stofu ok fagnnar vel syne sinum ok spyr tidenda. þorgeirr suarar. auerki nockur gerdizst j kuelld at Skeliabrecku. Hon spurde. huerir attu hlut

at þui. þorgeirr suarar. Jodr var firir auerkum. Hon suarar. litill mannskade. huerr uann a honum. þorgeirr suarar. ecki ma ek þat af mer bera. Hon spurde huersu mikill auerki þat væri. þorgeirr suarar. þat ætla ek at æigi muni þurfa vm at binda þuiat ek sa a spiotinu at otrautt munde hafa bitit j gegnum hann þuiat hann fell a bak aftr vid lagit j fadm fylgdarmonnum sinum. þorelfr suarar þa med glǫdu briosti. obernsligt verk var þat ok niottu heill handa son minn. edr hui lǫgdu þeir æigi eftir þer fylgdarmenn Jodrs. þorgeirr suarar. feingin var þeim ǫnnur athǫfnn. Hon setti þorgeiri nattuerd. ok er hann var mettr þa mællti þorelfr. þat synizst mer rad at þu leggizst nidr en risir upp ofanverda nott ok stig a bak hesti skuodum fæitum er vit æigum rid heim uestr til Breidafiardar. huskallar minir skulu fara med þer ok fylgia þer huersu langt er þer uel likar. her munu menn koma a morgin at leita þin ok hofum ver æigi fǫng til at hallda þig her firir fiolmenni. jsa mun skiott leysa ef þeyrrinn hellzst ok er þa verra at fara. hefir þu nu ok vnnit þat er mest var naudsyn til. ber þu ok þorgisle frænda minum ord til þess at ek vil radazst uestr þangat j atthaga minn. þorgeirr gerde eftir þui sem modir hans bat. lagdizst þa til suefnns ok reis upp snemma vm mǫrgin ok ræid j brott ok er ecki vm hans ferd (getit) fyrr en hann kom uestr til Breidafiardar fek ser þar skip ok for a þui vestr til Reykianes. sagde þar vig Jodrs. syndizst ǫllum monnum þeim er þessi tidende heyrdu sogd sia atburdr undarligr ordinn er æitt ungmenni hafde ordit at bana suo hardfæingum heradshofdingia ok myklum kappa sem Jodr var. en þat var þo æigi vndarligt þuiat hinn hæsti hǫfutsmidr hafde skapat ok gefit j briost þorgeiri suo ohrætt hiarta at hann hræddizst ecki ok uar hann j ollum mannraunum sem bit oarga dyr. ok af þui eru aller godir hlutir af gude gefnir. þa er allr ǫrugglæikr af gude gerr ok gefinn j briost huotum monnum ok med sealfræde at hafua til þess kraftinn er þeir vilia. þuiat Kristr hefir mennina skapat ok gert þa sina tilæskingarsonu en æigi þræla. en þat mun hann huerium gialida er til stundar. þorgeirr hafdizst þa ymisst vid a Reykiaholum edr uestr j Jsafirde. Vm uorit eftir þessi tidende redzst þorelfr a Reykianes uestr med allt sitt. þat sama sumar var sætzst a uig þeirra Hauars ok Jodrs. þorgeirr var þa lǫngum med Bessa þeir þorgeirr fengu ser æinn feriustut ok reduzst til þess skips .vj. menn adrer. þeir letu ræidazst firir um sumarit.

### Fra þorgeiri ok þormodi fostbrædrum.

79. Madr er nefnndr Jngolfr er bio j Jokulsfiordum hann var kalladr Jngolfr suidinn. sa bærr var kalladr a Suidinsstodum er hann bio. þorbrandr het sonr hans hann var garpr mikill odęll ok ouinsæll ok badir voru þeir frændr viafnnadarmenn myklir toku iafnan annarra manna fe med kugan edr rani. þeir voru þingmenn Vermundar ok hellt hann miog hende yfir þeim fedgum [358] þuiat þeir gafu honum godar giafir jafnan ok var þeim þui æigi skiott hefnndr sinn osami þann er þeir gerdu morgum monnum at æidr Vermundar stod firir. Sigrfliod het kona hon var eckia ok bio j Jokulsfiordum hon uar vitr ok vinsæl ok mikill gagnsmadr mǫrgum. Fiordr einn uar j mille bygda þeirra Jngolfs ok uar henni j mǫrgum hlutum stor uandræde at þeim. þorgeirr ok þormodr gerduzst til at fara nordr til Stranda til fangs. ok er þeir voru bunir til farar þa gerde a motuidre ok gaf þeim æigi vt ór Jsafirde hofdu margir af þeim mikil uandræde. ok er komit var at uetri þa rann a byrr ok toku til segls ok sigldu vt eftir Jsafirde gott uedr ok litit. skipit gek litit firir uedrs saker ok er þeir hofdu siglth nockura stund þa tok vedrit at þyknna ok þui næst at drifa. ok er þeir komu vt firir Jokulsfiord þa kom uedr j moti þeim bæde huast ok kallt med fiuke ok frosti. vissu þeir þa æigi huar þeir foru gerdizst þa myrkt bæde af nott ok af myrkri med fiuke. sneru nu skipinu foruidris ok fengu þo stor afaull urdu aller aluotir ok freri at þeim klædin. reyndu Ranar dætr dreingina ok budu þeim sin fadmlǫg. komu loks j einn fiord helldu þar inn eftir ok j fiardarbottninum voru naust ok skip inne. settu þar skip sitt ok biuggu vm. ganga a land ok læita bæiar ok finna loksins æinn litinn bæ. drepa a dyrr ok gengr þar vt madr ok hæilsar þeim bidr þa inn ganga er vti erv j illu uedri. ganga til stofu. þeim var hæilsat. þa spyrr æin kona huerr firir þeim væri foradamadr er komnir væri. henni var sagt at þorgeirr ok þormodr væri þar komnir edr huerr spyrr at þui. þeim var suarat at su heti Sigrfliod er at spurde. ok hefui ek heyrt ykkar getit en æigi hefui ek set yckur fyrr en huort hafi þit verit meirr vinsælir edr uedrsælir j dag. þeir suorudu. margir munu þat kalla ligt ok þo skipta nockut huerir til tala. Sigrfliod suarar. suo ma vera. Nu bydr hon at taka vid klædum þeirra. er þa elldr upp kuæiktr ok þidd klæde þeirra. eftir þat var þeim fæinginn nattverdr ok þui næst til reckiu fylgt ok buit vm þa vel. sofna þeir skiott. Frost ok fiuk kueda helgalldra vm husþekiur ok syna þeim er vt sia sinn snarpann leik med litille męde ok mikille ognn. go elrishundrinn alla nottina oþrottligum kioftum ok tǫgg med

grimmum kuldatônnum allar jardir. Ok er lysa tok vm morgininn þa var vt set ok er sa kom inn spurde þorgeirr huat er uedrs væri vti. sa suarar at uedr væri samt ok vm kuelldit. Sigrfliod mællti. æigi þurfui þer uedrsiukir at vera. velkomnir skulu þer her vera at þui sem ver hofum fông a ok farit huergi hedan fyrr en gott er vedr. þorgeirr suarar. vel ferr þer husfreyia bod vid oss en ecki bita oss illuidri þuiat ver hyggium huorke firir konum ne bôrnnum. Vedrit hellzst uiku lagde þa fiordu alla ok gerde islôg mikil. Æinn morgin snemma sa Sigrfliod vt ok kom inn farande. þorgeirr spurde huat uedrs uæri. Hon suarar. nu er gott uedr kyrt ok uedrlitit. þormodr mællti. stôndum upp þa sueinar. Sigrfliod mællti. huat berizst þer nu firir. þormodr suarar. ver munum fara fæti nordr a Strandir ok vita huat til fangs vili verda en lata her eftir skipin. Sigrfliod mællti. undarligir menn eru þer vilit fara at starfa at huolum en taka æigi nalægri fefông ok dreingiligri. þormodr spurde huer þau fefông væri. Hon suarar. dreingiligra synizst mer at drepa illmenni þau er ræna goda menn en starfa at huôlum. þormodr spurde til huerra hon mællti þat. Hon suarar. þetta mæli ek til þeirra Jngolfs ok þorbrannz er môrgum manni hafa gert skôm ok skada. hefnde þer ok margra manna j ydru uerki ef þer legdit þa vid uelle ok munde ydr þat verk margir godu launa. þormodr mællti. æigi uæit ek huersu hæilrad þu ert nu þuiat þeir eru vinir Vermundar ok mun þat æigi laust eftir renna ef þeim er nockut gert til meins. Sigrfliod mællti. nu kemr at þui sem mællt er at spyria er bezst til uolegra þegna. þer þikizst vera garpar myklir þegar er þer kugit kotunga en hręđizst þegar er nockur er mannraun j. þorgeirr spratt þa upp hart ok mællti. standit upp suæinar ok launit husfreyiu gisting. þa stodu þeir upp ok uopnnuduzst. ganga þeir vt er þeir voru bunir.

## Drepnir fedgar Jngolfr ok þorbrandr.

80. Nu fara þeir fostbrædr a ise yfir fiordinn komu a bæinn a Suidinstodum adr menn voru upp risnir. Jngolfr vakti ok heyrde at menn gengu vti hea æigi allfair. þeir þorgeirr drepa a dyrr. vit þat uaknna þeir menn er inne voru standa skiott a fætr. huildu þeir fedgar iafnnan j klędum þuiat þeir attu sôkott vid marga menn. þeir hôfdu med ser .ij. huskalla fraliga. þeir herklędduzst allir ok tekr sitt spiot huorr þeirra fedga j hond ser ganga til dyranna ok luka upp. sia mennina [359] vti saman .viij. uel uopnnada spyria huerr þar væri floksforinge. þorgeirr suarar. ef þer hafit heyrt nefndan þorgeir

Hauarsson ok þormod Bessason þa megu þer þa nu lita. þorbrandr suarar. ifalaust er þat at ver hǫfum heyrt yduarr getit ok sialldan at godu edr huert er eyrende yduart hingat. þorgeirr suarar. þat er eyrende at skaka skaudir ok iafnna uiafnnad. vilium ver gera ydr tuo kosti. annar er sa at þer gangit fra fe ydru ǫllu þui er ydr er kent ok þer hafit lengi fengit med rǫngu ok kaupit ydr þann ueg lif edr verit fe med kallmenzsku medan ydr endizst lif til. þorbrandr suarar. ver hofum fiarins uel aflat med hraustleik ok munum ver æigi annan ueg lata. en ek uillda þorgeirr at fyrr neyttir þu daguerdar a spiotzoddi minum en aa fenu. þorgeirr suarar. ek er manna berdreymazstr ok hefir mig æinkar oryrliga til min dreymt en allryrliga um þig ok mun þat eftir ganga ok mun Hel husfreyia þin leggia þig ser j fadm ok vilia dauda bonda sins ok muntu suo lata fe þitt allt þuiat firnnum nytr þess er firnum fær. Nu at suo mælltu sækia þeir þorgeirr ok þormodr at þeim fedgum kallmannliga en þeir ueriazst dreingiliga. sækir þorgeirr at þorbrandi en þormodr at Jngolfui. þeir bǫnnudu fǫrunautum sinum at uinna a þeim fedgum þuiat þeir vilea sealfir yfir þa stiga. Nu er dimt at sea inn j dyrnnar þuiat litt var lyst en ut var liosara at sia ok var þeim hægra at veriazst er inne voru. Huskallar Jngolfs hlaupa vt ok sækia a(t) forunautum þorgeirs ok sæta auerkum vid þa. þau urdu endilok þessa fundar at þorbrandr fell firir þorgeiri en Jngolfr firir þormodi. .ij. menn fellu af lide þorgeirs. Huskallar Jngolfs urdu miog sarir. þessa atburdar getr þormodr j þorgeirs drapu.

Alldrspille kued ek ǫllu
Jngolfs sonar hingat
frett eru vig þau er ek ueittag
ualldr hasleipnis tiallda.

fell firir frægium stille
fiortion var þa liona
litt var þat til þrætu
þorbrand drasils uandar.

þeir þorgeirr taka .ij. hesta ok klyfia þa af mat. þeir raku a burt naut þau er hellzst voru holld a. fara vit suo buit aftr yfir fiordinn. Sigrfliod uar vti er þeir komu aftr hon heilsar þeim uel ok spyrr tidenda. þeir sogdu þau er gerzst hǫfdu. Sigrfliod mællti. uel hafi þer heiman gengit ok hagligan hualskurd haft rekit margra manna sneypu ok suiuirding. en nu mun ek fara til Uatzfiardar a fund Uermundar at segia þessi tidende. þer skulut bida min heima. þeir badu hana rada.

## Sigrfliod fann Vermund j Vatzfirde.

81. Sigrfliod kuedr nu med ser huskalla sina .iij. þau taka einn .vj.æring er hon atti. þeir roa inn eftir Jsafirde ok letta æigi fyrr en þau koma j Uatzfiord sid um aftan. Sigrfliod mællti þa vid forunauta

sina. nu skulu þer vera halldinordir ok segia ecki fra tidendum þeim er gerst hafa latit mig hafua ord firir oss. þeir sǫgdu suo uera skylldu. Nu ganga þau til bæiarins ok hittu þar menn at mali. tekr Uermundr uel vid þeim ok spyrr tidenda. þau kolluduzst æinge segia kunna. voru þau þar vm nattina j godu yfirlæti. Vm morgininn segir Sigrfliod at hon munde heim fara. Vermundr latti þess. ertu hingat segir hann sealldkuęm ok er þat rad at þu farir æigi suo skyndiliga. Sigrfliod suarar. ek a illa heimangæingt segir hon en nu er gott vedr ok uil ek þetta vedr æigi lata undan ganga. Uermundr quat hana rada mundu. fara þau til siofarins. Sigrfliod mællti at huskallar skylldu flota skipinu en hon bregdr Vermunde a æinmęli ok taka þau tal sin a mille. Sigrfliod mællti. hafui þer spurt vigin þau er gerduzst j Jǫkulsfirde. Uermundr suarar. huer uig eru þat. Sigrfliod suarar. þorbrandr ok Jngolfr voru þar uegnir ok .ij. menn adrir. Vermundr suarar. hucrir drapu þa. Sigrfliod suarar. þorgeirr Hauarsson ok þormodr Bessason. Vermundr mællti. miog ganga þeir nu af ser suaribrædr er þeir drepa menn firir oss. en þat munda ek vilia at æigi dræpi þeir fleire mina menn. Sigrfliod suarade. þat er uon er þer se suo gefit en þat munu sumir menn mæla at þeir hafui æigi þessa menn firir ydr drepit helldr ma hinn ueg at kueda at þeir hafui firir ydrar sakir þessi uig uegit. edr huerr skal hefnna rán ok hernnat ef þer uilit æigi er stiornarmenn erut kalladir þessa herads. ok synizst oss sem þeir þorgeirr ok þormodr hafui nu þat unnit er þer værit skylldir til at gera ok mun ydr suo synazst ef ydr gefr æigi missyne j þessu mali. for ek þui a yduarnn fund at ek uillde þa j frid kaupa er uigin hafa vegit. æigi firir þa sǫk at þeir se bota verdir er uegnir voru firir þui at þeir hafa firir lǫngu firirgert bæde fe ok lifui helldr vilium ver gera j ollu yduarnn soma. nu er her hundrat skotsilfrs er ek vil þer gefa til fridkaups þeim þorgeiri ok þormodi. Hon bregdr undan skickiu sinne fesiod ok hellir silfrinu j kne honum. silfrit var gott. Hefir Uermundr brun [360] upp vid fegiðfina sæfazst nu ok hæitr þeim nockurum fride. sagdizst þo æigi vilia languistir þeirra þar j Jsafirde. Nu skiliazst þau ferr hon heim til bus sins ok sagde þorgeiri ok þormodi huersu farit hafde med þeim Vermunde. þeir þǫckudu henni sin tillǫg. Nu eru þeir med henni a uist vm uetrinn til þess er uora tok ok uedrleikr battnade. flota þeir skipinu ok er þeir voru farar bunir þacka[1] þeir Sigrfliod vistaruæitzslu ok allan uelgerning þann er hon hafde þeim væittan. skiliazst þau vinir. fara þa nordr a Strandir ok hafazst þar vid vm sumarit ok verdr þeim gott til fiar hafa þat af huerium er þeir

[1]) þackade *Cd.*

kuodu a. voru allir vid þa hræddir sem fenadr vid leo þa er hann kemr j þeirra flok. Bessi for bygdum a Laugabol j Laugardal þuiat Vermundr uillde æigi lata vera vit bæ sinn hraskinn þeirra þorgeirs ok þormodar. Vm haustit fara þeir nordan af Strôndum til Jsafiardar ok setia upp skip sitt þar sem þeim þotti uel komit vera ok bua þar vm. ferr þormodr nu til fôdr sins en þorgeirr ætlade at fara sudr a Reykianes til frænda sinna. læitar þa huerr firir ser forunauta þeirra þangat sem þeir attu odul. mælazst þeir þat vit adr þeir skiliaz at þeir munde þar finnazst þa er vora tæki ok fara þa en allir nordr a Strandir. skiliazst at suo mælltu.

## þorgeirr drap Butrallda. capitulum.

82. þorkell het madr er bio j Geruidal. hann var uel fiaræigande en litill j þegnnskap æinrænn j skaplynde en huglaus j hiarta. hann var kuongadr madr hann hafde æigi fleire hion en .iij. gridkona uar hinn þride madr. Butrallde het madr hann uar æinhleypingr mikill madr uexsti ok rammr at afle liotr madr j asionu hardfæingr j skaplynde uigamadr mikill naskylldr Vermunde j Uatzfirde. hann var nasbradr ok heiftudigr. hann hafde vist a sumrum en let rekazst yfir a uetrum. hann var ouinsæll. iafnan for hann yfir a uetrum vid þridea mann ok settizst a bu manna nockurum nottum saman en, firir sakir frændsemi vid Vermund var honum æigi golldit þat verkaup er hann vann til. Butrallde kom vid hinn þridea mann til gistingar vm aftan til þorkels ok þo at þorkatli væri matrinn sarr þa þorde hann þo æigi at synia þeim gistingar. var þeim til stofu fylgt ok kueigt lios. sitia þeir med uopnnum en heimamenn voru framme. þa var af vetri nôckut. kominn sniar a jord j skafla a fiollin en sniolaust j heradit. þorkell kom stundum j stofu at spyria þeirra hluta er honum var foruitni a at vita. hann spurde Butrallda huert hann ætlade at fara. hann kuezst fara skylldu sudr vm hæide til Breidafiardar. þorkatli kom j hug at æigi væri vist at þeim munde uedr gefa hinn næsta dag. þa drap stall hiarta hans ok þotti ill seta hans þuiat j hans hiarta mættuzst þær sinka ok litilmenzska ok j þui bile var drepit a dyrr ok batnar honum ecki vid gengr fram ok til dyranna lykr upp hurdunne ok ser æinn mikinn mann firir dyrum standa med uopnum. þorkell spyrr þenna mann at nafnni. hann kuetzst þorgeirr hæita ok vera Hauarsson. þa kom ædra j briost þorkatli ok klappade um hans hiarta suo at dattade vid. þorkell mællti. her er kominn Butrallde uit hinn þridea mann ok uæit ek æigi huernn frid hann uill ydr bioda. hygg ek at hann hafui illan hug a þer

en ek ma ecki man(z) blod sia ok mun ek falla j ouit ef þer berizst a. þorgeirr suarar. ecki mun til saka. Gengr inn ok til stofu setzst þar nidr a annan bek gagnnvert Butrallda. þeir mælazst ecki ord vid sitia huorirtueggiu med uðpnum. þorkell ok kona hans koma j stofu tekr hann upp bord ok setr firir þa Butrallda. þorkell mællti. skammr er skutill minn þorgeirr. gaktu hingat ok sit hea Butrallda. þorgeirr ræis upp ok gengr um þuert golf ok setzst nidr undir bordzenda. Fra verdgetum er uandliga sagt .ij. voru diskar fram settir. þar var æitt fornnt skamrifstykki a diske huorum ok fornn ostr til gnættar. Butrallde signde skamma stund ok tok upp skamrifstyckit ok leggr æigi fyrr nidr en af var allt. þorgeirr tok upp osthlutinn ok skar af sligt er honum syndizst. hann uar hardr ok torsottr. huorgi þeirra uillde æiga vid annan knif ne kiðtstycki. en þo at þeim uæri litt uand-adr nattuerdr þa foru þeir þo æigi j bur at skepia ser nattverd þuiat þeim þotti þat suiuirding sinnar kallmenzsku. ok er þeir voru mettir þa for þorkell j stofu ok kelling hans tok hon mat af borde. þorkell mællti. þau gistingarlaun uillda ek af ydr hafa at þer ættizst ecki illt vid medan þer erut a minum bæ. synizst mer þat rad at þorgeirr sofui frami hea oss en Butralldi ok hans forunautar sofui j stofu. Sofa þeir af þa nott. Um morgininn risa þeir upp. bonde reis ok upp. lios var kueigt bord fram sett ok matr a borinn med sama [361] hætti ok vm kuelldit. ok er þeir voru mettir þa for Butrallde j brott ok hans forunautar. hann ferr upp eftir dalnum. nockuru sidarr ferr þorgeirr j brott ok upp eftir dalnum. á fellr ofan eftir Geruidal. brðtt hæidarbrecka liggr upp ór dalnum þar sem læidin liggr j breckunne uar hardr skafl ok mikill. þorgeirr ser fðr þeirra Butrallda ok serr at þeir munu hafa hardfenni mikit j heidarbreckunne ok toruellda leid. snyrr yfir ána ok ferr odrumegin upp en þeir fara. kemr hann upp a breckuna ok snyr þa til þiod-leidarinnar hann kemr ath skaflinum ok skorar nu med ðxinne fðnnina firir ser. Butrallde litr nu huar þorgeirr ferr. Hann mællti þa. rennr kappinn nu þorgeirr Hauarsson. Hann suarar. ek mun nu æigi lengra undan ydr fara. þorgeirr stendr a breckubruninne en Butrallde skorar fðnnina. ok er hann kom j midia breckuna þa setr þorgeirr spiot-skaftit j mille fotanna ok snyr fram oddinum hefir ðxina reidda um ðxll rennir sidan ofan at Butrallda. Hann heyrir huininn af fðr þorgeirs litr upp ok finnr æigi fyrr en þorgeirr hio framan j fang honum ok þar a hol. fell hann a bac aftr en þorgeirr rennr yfir fram til þess er hann kom nidr a jðfnu suo hart at forunautar Butrallda hrutu fra j brott. Forunautar Butrallda þordu æigi at hefna hans ne at rada a hann þuiat

þeim þotti illt at æiga nattboll undir ðxi hans. starfa þeir at like Butralda. en þorgeirr sneri upp a hæidina ok for til þes er hann kemr sudr til Reykiahola. hefir þar godar vidtokur er hann þar um uetrinn. Um uorit for þorgeirr uestr til Jsafiardar þar sem skip þeirra stod uppi. kemr þormodr þar ok skipueriar þorgeirs ok fara nordr a Strandir þegar þeim gaf uedr.

## þorgeirr felldi þorgils ok hans menn.

83. þorgisl het madr er bio at Lækiamoti j Vijdedal hann uar mikill madr ok sterkr uopnnfimr godr buþegnn. hann uar nainn at frændsemi Asmundi hærulang fðdur Grettis ok miog skylldr þorstæine Kuggasyne. þorgisl uar kalladr Mágsson hann uar kominn a Strandir a almenningar ok uar þar genginn a hualskurd ok forunautar hans. þorgeiri verdr illt til fear ok fæingiar þar sem hann uar kominn berr honum nu einge hualfðng j hendr ne ðnnur gæde. nu spyrr hann huar þeir þorgisl voru at hualskurdinum fara þeir þormodr þangat. Ok er þeir koma þar þa mællti þorgeirr. þer hafit mikit at uerki ok er þat rad at lata fleire menn niota þar er ollum er iafnhæimillt. þorgisl suarar. gangit a hualinn ok skerum huorirtueggiu þat er oskorit er ok hafui þa huorir þat er skera. þorgeirr mællti. þer hafit nu mikinn hluta af skorit ok uilium ver annathuort at þer gangit af hualnum ok hafui þer þat sem skorit er en vit þat sem oskorit er ella æigum at helminge allan skorinn ok oskorinn. þorgisl suarar. leitt er oss at ganga af hualnum en ver erum radnir til at lata æigi þann hlut firir ydr er skorinn er ef ver megum a hallda. þorgeirr mællti. þat munu þer ok vita verda hue lengi þer megit a hallda hualnum firir oss. þorgisl suarar. þat er ok uel at suo se. Nu herklęddust huorirtueggiu ok buazst huorir til bardaga. ok er þeir voru uopnadir mællti þorgeirr. þat uil ek þorgisl at ver beriumzst tueir æinir. þu ert madr fulltida ok reyndr jafnnan at kallmenzsku ok er mer foruitnne mikil at reyna mig a þer huerr ek er. skulu adrir menn ekki til hlutazst med ockr. þorgisl suarar. uel likar mer at suo se. Nu sækiazst þeir at ok beriazst huorirtueggiu. þeir þorgisl ok þorgeirr lata skamt storra hðggua a mille þuiat huortueggi þeirra var storhðggr. en firir þui at þorgeirr uar mæirr lagdr til mannskada þa fell þorgisl firir þorgeiri. J þeim bardaga fellu .iij. menn af lide þorgisl ok þrir menn af þorgeiri. Eftir þenna bardaga foru forunautar þorgisl nordr til herads med myklum harmi. þorgeirr tok upp allan hualinn en um uig þorgisl vard þorgeirr sekr skogarmadr. þeir þorgeirr ok þormodr voru þat sumar nordr a

Strðndum ok voru þar allir menn hræddir vid þa. Vm haustit foru þeir a Reykiahola til þorgils Arasonar ok voru þar um uetrinn. Jllhugi suarti ræid sunnan vm uorit med .xxx. manna. honum uar þar uel fagnnat. Hann sagde þorgeiri frænda sinum at hann hefde honum fari tekit sudr j Floa a laun ok keyft honum þar part j skipe. letu þeir þorgisl ok Jllugi nu flytia fararefni þorgeirs til skips. en þeir uilldu eigi fylgia þorgeiri fyr til skips en þorsteinn Kuggason uar til þings ridinn ok þui satu þeir onduert þingit heima a Reykiaholum.

## Skilnadr þeirra fostbrædra.

84. Nu frettu þeir þorgisl ok Jlluge at þorsteinn var til þings ridinn rida nu heiman med .lx. manna. þeir voru þar j fðr fostbrædr þorgeirr ok þormodr. rida nu undan flockarnir. en er þeir fostbrædr ridu inn at á þeirre er heitir Drifande. hon er j Gilsfirde. þa mællti þorgeirr. huar ueitzstu adra .ij. fostbrædr þa at okkr se iafnne(r) at hraustleika ok framgaungu. þormodr mællti. [362] finnazst ætla ek munu ef vida er læitat. þorgeirr mællti. þat ætla ek at huergi finnizst a Jslande. en huat ætlar þu huorr ockarr muni af ðdrum bera ef vid reynum med okr. þat væit ek æigi segir þormodr en hitt uæit ek at sia spurning þin mun skilia felag med ockr ok foruneyti. J þessu bile ridr þorgeirr fram firir hamarinn. siorinn uar at fallinn suo at hestrinn uar nærr a sunde undir honum ok er hann kom firir foruadann þa hleypr hann af bake. hann sa þa at þormodr sneri hesti sinum ut med firdinum. þorgeirr kallade þa at þormodr skyllde rida firir hamarinn. þormodr suarar. skilia mun med ockr fyst at sinne ok far þu heill ok uel. Eftir þat ræid þormodr vt aftr med Gilsfirde ok letti æigi fyrr ferd sinne en hann kom heim a Laugabol til Bessa fodur sins.

## þorgeirr drap Torfua.

85. Eftir skilnat þenna stigr þorgeirr a hest sinn ok ridr eftir flockinum ok er hann kemr j Saurbæ þa uar flockrinn ridinn upp til Suinadals. þorgeirr ræid snudigt miog. sa madr bio at Marskelldu er Illenne het. sa madr uar a uist med honum er Torfui het hann uar kalladr bðggull. hann uar farinn ofan til arinnar at hoggua hrisbyrde a bak ser. hann hafde lagt hana upp a bak ser. en þorgeirr ræid nedan eftir bockunum. ok er þorgeirr kom gegnt honum þa kallade hann a hann ok spurde huat er hann heti. en Torfui heyrde æigi at hann kallade a hann j þui at uedrinu laust j byrdina. en þorgeirr uillde spyria at flockinum ok kallade a hann nockurum sinnum en Torfui

heyrde alldri. en er þorgeiri leiddizst a hann at kalla reiddizst hann vid er honum uar adr skapþungt. hann ridr þa yfir ana at Torfa ok leggr spioti j gegnum hann. Torfui uar þegar daudr. þar var sidan kalladr Bôggullækr. þorgeirr ræid þa leid sina þar til er hann nade þeim Jlluga sudr j Miosunde segir hann þeim þa uig Torfa. þeir lata litt yfir uerki þessu.

### þorgeirr drap Skum ok Biarna.

86. Madr er nefnndr Skufr hann bio j Hundadal hann uar godr bonde ok gagnnsamr vit menn. Biarnne het son hans er þa uar heima med honum. Skumr het saudamadr er gætti fear hans. þorgisl ok Jllugi [voru þar uanir[1] at gista at Skufs j Hundadal þa er þeir foru til þings. nu fara þeir med flocki uestan af Reykianese en þeir hafa sent menn til þings at tiallda budir. hôfdu þeir haft nattstad j Saurbæ ok voru þar fram a daginn ok ridu um nottina uestan j Dali ok ætludu at hafua daguerd at Skufs. þeir kuomu j Middale er mornna tok fram firir þyckuaskoga æia þar ok sofnna þorgeirr hafde godan hest raudan mikinn uexste. ok er lidinn uar morgininn fara þeir at hrossum. Hestr þorgeirs fanzst huergi. þeir foru lengi at læita hestsins þuiat skogar myklir voru um alla hlidina þar sem bæ(i)rnir standa. lykr suo þeirra leit at þeir finna æigi hestinn taka þa einn klyfiahest ok skifta klyfiunum a fleire hesta. er þorgeiri feinginn sa hestr til ræidar. fara eftir þat fram firir bæinn at Saudafelli geta þa at lita huar madr ridr raudum hesti ok rekr saudi firir ser upp eftir eyrunum fra Saudafelli. hann elltir fast saudina firir ser þuiat hann hafde hest godan. þorgeiri synizst sa hestr likr sinum hesti. nu lætr hann sem hann uite æigi ok hefir af augabragd huert madrinn ræid ok ser at hann rekr saudina til bæiarins j Hundadal er Skuf hofdu golldnir verit vm uorit uestan ór Laxárdal. ok hofdu ærnnar geingit j brott ok for Biarnne at leita ánna ok hafde hann tekit hest þorgeirs. Nu ridr flokrinn til bæiarins j Hundadal ok bioda hôfdingiarnir forunautum sinum at þeir take af hrossunum utangardz ok lati æigi hrossin ganga j tunit. En þeir þorgisl ok Jlluge ridu til hus vid fa menn. þorgeirr ridr til kuiarinnar. Skumr uar þa hæim kominn ok rekr inn j kuina saudina. Biarnne sitr a baki. þorgeirr spurde huerr sa madr væri er þar sitr a hestbake. Hann suarar. ek hæitir Biarnne. þorgeirr mællti. þu hefir uænligan hest edr huerr a. Hann suarar. sannspurt er þat at hann er uænligr en þat uæit ek æigi huerr hann a. þorgeirr suarar. hui toktu

[1]) [var þar uanr *Cd.*

hann. Biarnne suarar. þui tok ek hann at mer þotti betra at rida en ganga. þorgeirr suarar. þat synizst mer rad at þu stigir af bake ok latir hestinn koma j hendr æiganda. Biarnni suarar. ek mun litlu vid auka þuiat ek mun æigi lengra rida en heim til dyranna. þorgeirr suarar þat uil ek at þu latir nu hestinn lausann. Biarnni uill nu snua hestinum heim ok rida til hus en þorgeirr leggr spiotinu j gegnum hann suo at hann fell daudr a iord. Skumr saudamadr serr at Biarnni fell af hestinum hann tok ǫxi sina ok hio til þorgeirs tueim hondum. þorgeirr laust spiotinu vid hǫgginu ok bar af ser en hann hio hægri hende med ǫxi sinni ok klauf hann j herdar nidr. Forunautr þorgeirs fór heim ok sagde hǫfdingium þessi tidendi. þeim þotti þessi tidendi ill [363] vera. fa þa menn til at fylgia þorgeiri j brott at hann gangi æigi j augsyn fǫdr hins uegnna. Eftir þetta sǫgdu þeir Skufui til ok bioda honum sealfdęmi firir uigin. en þo at Skufui væri þungbærr harmr sinn þa sa hann æigi annan soma synna en at þiggia sealfdęmi af suo gǫfgum monnum sem þeir voru frændr allra hellzst at sa uar sekr skogarmadr er vigin hafde vegit. nu sættuzst þeir at suo mælltu. þeir þorgisl ok Jlluge atu daguerd j Hundadal ok ridu eftir þat sudr til Borgarfiardar. þorgeirr hafde ridit undan sudr ok er hann kom til Huassafellz stodu þar menn vti. Saudamadr var þa heim kominn fra fe sinu ok stod þar j tuninu ok studdizst fram a staf sinn ok talade vid adra menn. stafrinn var lagr en madrinn modr ok uar hann nockut biugr steylldr a hæli ok lengdi[1] halsinn. en er þorgeirr sa þat ræiddi hann upp ǫxina ok let detta a halsinn. ǫxin beit uel ok fauk af hofudit ok kom vijds fiarri nidr. þorgeirr ræid sidan j brott en þeim felluzst ollum hendr er (j) tuninu hofdu verit. Litlu sidar komu þeir frændr eftir voru þeim þa sogd þessi tidende ok þotti þeim þetta æigi hafa vel til borit. er suo sagt at þeir frændr bættu uig þetta firir þorgeir ridu þeir sidan til motz vit þorgeir. Hann fagnar þeim uel. þeir spurdu hui þorgeirr hefde þetta vig uegit edr huat þorgeirr fynde til vm mann þenna. þorgeirr suarar. æigi hafde hann nockurar sakir til motz vid mig en hitt var satt at ek matti æigi vid bindazst er hann stod suo uel til hǫgsins. þat mun synazst j þui sagde þorgisl at þu munt ohandlatr reynazst en bætt hǫfu vit nu uig þessi. Sidan rida þeir allir saman til skipsins.

[1]) l'ngi (ɔ: lengi) *Cd.*

### þorgeirr kom a fund Olafs.

87. Sa madr uar til skips kominn er Gautr het hann uar Slæituson hann uar naninn at frændsemi þorgisli Magssyne er þorgeirr hafde vegit. Gautr uar mikill madr ok sterkr odæll ok hardfæingr. hann hafde fari tekit af Austmonnum ok uissi ðngar vonir at þorgeirr munde þar fara. hann let illa vid þorgeiri. Austmenn finna skiott at Gauti var oþocki mikill a kuomu þorgeirs ok synizst þeim nockut uandhæfui a uera at þeir se samskipa vid þeirra skaplynde. skipit var albuit ok bundinn bulke en þo uar þat til rads tekit at bulkinn var rofinn ok uar fe Gautz a land borit. for hann þa nordr til herada. þeir frændr ridu æigi fyrr ór heradi en skip let j haf foru þa til þings med myklu fiolmenni ok sættuzst firir hond þorgeirs a uig þorgisl. færa fram syknnu hans. þorgeir ok hans felaga uelkir j hafui lengi. sia at lyktum land firir stafnn fram kenna þat land ok er þat Jrland. synizst þeim synn ofridr vera. þorgeirr suarar. þat er synna ef ver ueriumzst uel at uær faim nockurum irskum manni ærinn nattuerd adr ver sem drepnir ok er þa nockut þægt j uorre uðrnn. Nu kasta þeir ackerum æigi alnærr landi briota upp uopnn sin ok buazst vid bardaga ef þess þyrfti vid. mikit fiolmenni uar at sia a landit upp ok mðrg spiot sem a skog sæi. en þo at Jrar hefde haskeft spiot þa toku þau æigi til þeirra. Nu helldu þeir fe sinu ok sigldu a brott er þeim gaf byr. þeir foru þadan til Einglandz ok voru þar vm hrid ok hefir þormodr suo vm ort at þorgeirr hafui þar godar giafir þegit at hofdingium. Eftir þat for þorgeirr til Danmerkr ok fek þar suo mykla virding at Danir tignudu hann sem konung. þorgeirr kom til Noregs ok fór a fund Olafs konungs. hann gek firir konunginn ok kuaddi hann. Konungr tok uel quediu hans ok spurde huerr hann væri. Hann suarar. ek er islenzskr madr ok hæitir ek þorgeirr. Konungr mællti. ertu þorgeirr Hauarsson. Hann suarar. sa er madr hinn sami. Konungr mællti. heyrt hefui ek þin getit þu ert madr mikill uexsti ok dræingiligr j asionu ok munt vera æigi j ðllu gæfumadr. Konungr baud þorgeiri med ser at vera ok þa gerdizst þorgeirr hirdmadr Olafs konungs. Olafr konungr lagde mykla virding a þorgeir þuiat hann reyndizst j ðllu hinn rðskuazsti madr ok uar kominn til Olafs konungs þa er her er komit Olafs sðgu.

### Fra Olafi konungi ok ferdum hans.

88. Nv er þar til mals at taka er fyrr uar frahorfit at Olafr konungr fór brudferd at sækia festarkonu sina Jngigerde dottur Olafs

Suiakonungs. Olafr konungr hafde lid mikit ok ualit miog suo at honum fylgde allt stormenni þat er hann mætti na ok huerr rikismadr hafde ualit ser lid. uar allt lid þetta buit med hinum bezstum fǫngum bæde at skipum uopnnum ok klædum. þeir helldu lidinu austr til Konungahellu. en er þeir komu þar þa spurdu þeir ecki til Suiakonungs. uoru þar ǫnguir menn komnir af hans hende. Olafr konungr dualdizst vid Konungahellu lengi vm sumarit ok leiddi miog at spurningum vm ferdir Suiakonungs ok radaætlan hans. en æinge kunne honum vist fra at segia. þa sendi hann menn upp a Gautland til Rǫgnnualldz jarlls ok let spyria eftir ef hann uisse huat til bar er Suiakonungr kom æigi til stefnnu sem ætlat var. Jall suarar at hann uisse æigi huat til bar. en ef ek verd þess varr segir hann þa mun ek senda menn mina til Olafs konungs ok lata hann vita huer(t) efnni j er ef þessi duǫl er firir annars sakir [364] en fiolskylldu er oft berr til at ferdir Suiakonungs dueliazst meirr en hann ætlar.

## Born Olafs Suiakonungs.

89. Olafr konungr Æireksson atti fridlu er Edla het dottir jarlls af Uin(d)lande. hon hafde verit hertekin ok uar firir þat kollut hans ambatt. bornn þeirra voru þau Önundr Astridr ok Holmfridr. enn gat hann son annan vid drotningu ok var hann fæddr a Jacobs messudag. en er hann var skirdr þa let byskup hann hæita Jacob. en þat nafnn likade Suium illa ok kolludu alldri hafa Suiakonung Jacob heitit. ǫll voru bǫrnn Suiakonungs frid synum ok uel viti borin. drotning var riklundut ok ecki uel til stiupbarnna sinna. Konungr sende Ǒnund son sinn til Uindlandz ok fæddizst þar upp med modurfrændum sinum ok hellt hann ecki kristni langa hrid. Astridr konungsdottir fæddizst upp aa uestra Gautlande at gofugs mannz er Egill het. hon uar kuenna friduzst ok bezst ordc farin gladmællt ok litilat ok milld af fe. en er hon uar fulltida at alldri uar hon þa oftliga med fedr sinum ok þockadizst huerium manni uel. Olafr Suiakonungr uar madr riklyndr ok oþydr j mali. honum likade storilla þat er landzherrinn hafde gert at honum þys a Upsala þinge ok hæitit honum afarkostum ok kendi þat mest Rǫgnnualldi jalli en æingan tilbunat hafde hann til vm brudferdina sem mællt uar vm uetrinn at hann skyllde gifta Jngigerde dottur sina Olafi Noregskonungi ok fara þa um sumarit til landamæris. En er a leid sumarit gerdizst mǫrgum manni foruitni a hueria ætlan konungr munde a hafua huort hann munde hallda sattmal vid Noregskonung edr munde hann riufa fridinn. margir uoru um þetta hugsiukir en æinge

uar suo diarfr at þyrde konung at at spyria um þetta mal. en margir kærdu þetta mal firir Jngigerde konungsdottur ok badu hana uerda visa huernnig konungr munde vilia. Hon suarar. ofus er ek at tala um þetta vid konung edr uitskifte þeirra Olafs digra þuiat þar er huorge annars vin ok þa æinu sinne hefir hann mer illa suarat er ek flutta mal Olafs digra. Henni fek þetta mal mikillar ahyggiu. uar hon hugsiuk ok okát grunade hana þat mæirr at hann munde æigi ord sin efnna vid Noregskonung þuiat þat fannzst a at huert sinn uard hann ræidr er Olafr digri uar konungr kalladr.

## Tal konungs ok dottur hans.

90. þat uar æinn dag snemma at Suiakonungr ræid vt med hauka sina ok hunda ok med honum menn hans. en er þeir fleygdu haukunum þa drap konungs haukr .ij. orra ok þegar eftir þa rende hann fram ok drap þria orra. hundarnir hliopu undir er a jord kom. Konungr hleypti seallr eftir uæidinne ok hældizst miog ok sagde suo. langt mun ydr flestum at þer uæidit suo. þeir sônnudu þat at æinge konungr munde suo uæida. ræid konungr þa heim ok allir þeir. Konungsdottir gek þa vt er hon sa fôdr sinn rida j gardinn sneri hon þangat til ok hæilsade honum. hann fagnnade henni hlæiande ok bar fram fuglana ok sagde fra uæide sinne ok mællti. huar uæitzstu þann konung er suo mykla uæide hefir fæingit a suo litille stundu. Hon suarar. god morginuæidr er þetta herra er þer hafit uæitt .v. horra. en mæira er þat er Olafr Noregskonungr tok a æinum mornne .v. konunga ok æignnadizst allt riki þeirra. En er konungrinn heyrde þetta hliop hann af hestinum ok mællti. vittu þat Jngigerdr at suo mykla ast sem þu hefir lagt uit hinn digra mann þa skalltu hans alldri niota ok huorke yckart annars. skal ek gifta þig nôckurum þeim hôfdingia er mer se æigande vinatta vid en ek ma alldri vera vinur þess mannz er riki mitt hefir tekit at herfange ok gert mer skada margann j ranum ok manndrapum. Skildu þau suo sina rædu ok gek sina leid huort.

## Fra Rôgnnualldi jarlli.

91. Jngigerdr konungsdottir var nu viss ordin hins sanna um ætlan fôdr sins ok sende þegar menn ofan a uestra Gautland til Rôgnnualldz jarlls ok let segia honum huat þa uar tijtt med Suiakonungi at brugdit uar ôllu sattmale vid Noregskonung ok bat jarll uit uarazst ok Uestrgauta ok sagde at þeim munde þa osynn fridr af Noregsmonnum. En er jarll spurde þessi tidendi sendi hann bod um

allt riki sitt at menn uaradizst ef Noregsmenn heria a þa. jarll gerde ok sendimenn til Olafs konungs digra ok let segia honum þau ord at hann uill hallda sætt ok vinattu vid Olaf konung ok bæiddi þess med at konungr skyllde æigi heria a riki hans. En er þessi ordsendingh kom til Olafs konungs uard hann ræidr miog ok hugsiukr ok uar þat nockura daga at æingi madr fek ord af honum. Eftir þat heimti at ser Olafr konungr radgiafa sina ok skaut a husþinge vid lid sitt. stod fyst upp Beornn stallari ok talade. hof þar fyst er hann hafde farit austr til fridgerdar ok sagde huersu jarll hafde honum fagnnat. hann sagde ok huersu Suiakonungr hafde þungliga tekit þeim malum j fystu. en su sætt er ger uar segir hann uar meir ger af styrk fiolmennis ok riki þorgnyrs ok liduæitzslu jalls en af goduilia [365] Suiakonungs. ok uæit ek at konungr mun þui uallda at sættin er rofin en jall reyndu uer sannan vin Olafs konungs. nu uill konungr uita af ydr hofdingium ok odrum lidsmonnum huert rad hann skal taka. huort nu ganga upp a Gautland ok heria vid þat lid sem nu hofum ver edr synizst monnum annat rad upp at taka. Hann talade langt ok sniallt. Eftir þat toludu rikismenn ok kom þat miog j æinn stad nidr at allir lottu hernadar. Hann mællti suo. þott ver hofum lid mikit þa er her saman komnir rikismenn en til hernadar eru æigi fallnir verr ungir menn. er þat ok hattr konunga er þeir fara j hernnat at þeir hafua marga menn til framgaungu ok beriazst þeir oft æigi uerr er litit fe æigu en audgir menn. En af fortǫlum þeirra uar þat rad tekit af konungi ok hans monnum at riufa leidangrinn. ok gaf konungr þa huerium manni heimfarar leyfui en lysti þui at annat sumar munde hann leidangr vti hafua af ollu lande ok hallda til motz vid Suiakonung ok hefnna þessa lausmælis. þetta likade ollum uel. For Olafr konungr nordr j Uikina ok settizst um haustit j Borg ok let þangat draga oll fǫng til med fiolmenni ok sat þar um uetrinn.

## Fra Olafi konungi ok Sighuati skaalld.

92. Suo er sagt at Sighuatr skalld uæri lengstum med Olafi konungi medan þeir voru a lifui badir. ok æinhueriu sinne bar suo til forum þeirra Olafs konungs at þeir hofdu farit um Dofrafiall. en þat uar um uetr ok var þar Siguatr þa. ok þar tok þa snæfall mikit ok geordizst ill færdin ok uar miollin suo diup at hrossin fengu æigi uadit ok foru menn a fæti ok villdu þo læita af fiallinu. ok nu bar suo til er a leid daginn ok dimma tok at þeir urdu .ij. saman Olafr konungr ok Sighuatr ok hafde hann yfir ser felld gran. ok er þeir sottu af

fiallinu ok færdin battnade þottizst Sighuatr finna at konunginum sualade miog þuiat honum hafde ordit akafliga hæitt vm daginn. þa mællti Sighuatr uit konunginn ok kuetzst mædazst taka miog undir felldinum af hita ok erfuide ok letzst æigi mega bera hann lengr eftir ser. Konungrinn bat hann selia ser felldinn ok mundi hann bera. ok nu gerdu þeir suo ok foru þeir suo um hrid ok tok konungi at ornna undir felldinum. ok þa koma þeir at bę nockurum. þa mællti Sighuatr. æigi er þat minnr at mig tekr nu at kala en mer uar hæitt firir stundu. Er suo nu skalld segir konungr. æigi þiki mer skipta þott ek bera klædi þin allt til bæiarins ok se ek nu bragd þitt. Ok nu fara þeir til bæiarins ok þa sagde Olafr konungr. uel kantu at vera med tignum monnum Sighuatr. Sighuatr skalld mintizst þessa þa er hann kom af Jslande ok uar nykominn uit land þar er konungrinn Olafr uar firir. ok uar hann a moti nockuru fiolmennu ok uar þraungt miog um konunginn ollumegin af folkinu. en Sighuatr uillde firir huernn mun hitta konunginn sem fyst ok ferr hann til motzsins ok borazst fram a mille manna ok færr æigi komizst allt firir konunginn ok quat visu suo hátt at hánn skyllde heyra mega.

þraunguizst ek vm ungann
itrnenninn gram þenna
bægizst ðlld suo at æigi
Olafs naeg mali.
mer uar ord at órum
audsott frómum drottni
þa er odum miog modir
mioll a Dofrafialli.

Konungrinn heyrde ok kende manninn ok bad gefa honum rum ok greiddizst þa ferd hans suo at þeir konungrinn funduzst ok toluduzst vid sligt er þeir uilldu ok skildu eftir þat. Suo er enn sagt at Olafr konungr hellt undir skirnn dottur Sighuatz skalldz er Tofa het ok vm þat quat Sighuatr visu þessa.

Drottinn healp þu þeim er dottur
dyr er þinn uile minne
heim or heidnum domi
hóf ok nafnn gaf Tofu.
hellt undir uatr hinn vitri
uard ek þeim feginn harda
mornne minu barnne
modrackr Haralldz brodir.

## Sighuatr for til Rogualldz jarls.

93. Menn mælltu allmisiafnnt til Rognualldz jarls. sumir sögdu at hann uæri uinr Olafs konungs en sumum þotti þat ecki truligt ok kuodu hann rada mundu at Suiakonungr hellt æigi ord sin ok sattmal vid Noregskonung. en Sighuatr skalld uar mikill uinr Rognualldz jalls. hann baud at fara a fund Rognualldz jalls ok vita huers hann yrde af uarr fra Suiakonungi ok uita ef hann mætti sættum a koma. Konungi

likade þat uel ok þotti honum gott firir trunadarmonnum sinum at tala til Jngigerdar konungsdottur. A ǫnduerdum uetri for Sighuatr ok þeir þrir saman austr um Markir ok suo til Gautlandz. En adr þeir Olafr konungr skilduzst quad Sighuatr.

Nv sittu heill en hallar
her finnumzst meirr en þinnar
at unnz ek kem uitea
Olafr konungr mala.
skalld bidr hins at halldi
healmdrifui gramr lifue
endizst leyfd ok lande
lyk ek visu nu þuisa.

Ok enn quat hann.

Nu eru mællt en mala
meirr kunnum skil fleire
ord þau er oss mun verda
allz mest konungr flestra.
gud lati þig gæta
gedhardr konungr jardar
uist hefig þann þuiat þinnar
þu ert til borinn uilea.

Sidan foru þeir austr til Æidarskogs ok [366] fæingu illt far yfir ána eikiukarfa einn ok komuzst nauduliga yfir ána. Sighuatr quad.

Let ek til Æids þuiat odumzst
aftrhuarf dreginn karfa
uær stilltum suo ualltan
uotr til glæps a bati.
taki hlægisskip hauga
herr sakag far uerra
let ek til hæims a hruti
hætt fór betr en ek uættag.

Sidan foru þeir um Heidarskog. Sighuatr quad.

Varat fyrst er ek rann rastir
reidr um skog at Æidum
menn of uæit at mættum
meine tolf ok æinum.
hygg ek a fot en flestum
fell sar a il uara
huatt gengu þo þingat
þann dag konungs manna.

Sidan foru þeir vm Gautland ok komu at kuellde a þann bæ er Hof hæitir. þar uar byrgd hurd ok komuzst þeir æigi inn. Hionin sogdu at þar var hæilagt. Brott hurfu þeir þadan. Sighuatr quat.

Red ek til hofs at hæfa
hurd uard aftr en ek spurda
inn settag nef nenni
nidrlutt firir vtan.
ord gat ek fyst at fyrdum
flǫgd bad ek en þau sǫgdu
hnektuzst hæidnir reckar
hæilagt uit þau deila.

þa kom hann at ǫdrum garde ok stod þar husfreyia j dyrum. bat þa ecki þar inn koma sagde at þau attu alfa blot. Sighuatr quat.

Gangattu inn kuat eckian
armi dræingrin læingra
hrædumzst ek uid Odins
erum heidin uer ræide.
rygr kuetzst inne æiga
oþegt su er mer hneckti
alfa blot sem ulfui
vt vin j bæ sinum.

Annat kuelld komu þeir til þriggia bænda ok nefnndizst huerr þeirra Ôluir ok raku þeir hann allir vt. þa quat Sighuatr.

Nu hafa hnekt þeir er hnacka
hæinfellz vid mer settu
þeygi bella þollar
þrir samnafnar tide.
þo seam hitt at blædir
hafskids muni sidan
vt huerr Oluer hæitir
allz mest reka gesti.

þa foru þeir vm kuelldit ok hittu[1] hinn fiorda bonda ok uar sa kalladr bezstr þeirra. vt rak hann þa. Sighuatr quat.

For ek at finna báru
frid uættag mer sidan
briot þann er bragnar letu
bliks uilldazstan myklu.
greps let vit mer gætir
gestr þa er illr hinn uesti
litt reyfui ek þa lyda
lost ef sia er hinn bazsti.

Ok enn quat hann.

Mista ek firir austan
Eidaskogs a leidum
Astu buss sem ek æsta
okristinn hal uista.
rigs fankag son Saxa
sadr uar aungr firir þadra
vt uar ek æitt kuelld heitinn
inni fiorum sinnum.

En er þeir kuomu til Rôgnnualldz jarlls þa sagde jall at þeir hefde haft erfuida fôr. Sighuatr quad.

Att hafa ser þeir er sottu
sendimenn af hende
Sygnna grams med sagnir
siklinka for mykla.
spurdu flest en fyrdar
fông eru stor uit gôngur
uordr red nytr þui er nordan
Noregs þann ueg fôrum.
Driuggeinginn uar dreingium
dreingr magnar lof þeingils
austr til iofra þrystis
Æidaskogs a læidum.
skylldit mer adr milldan
minn drottinn kom ek finna
hlunz af hilmis runnum
hneckr dyrliga beckiar.

Rognualldr jall gaf Sighuati gullhring. Ein kona sagde at hann hefde gæingit til nockurs med þau hinu suôrtu ôgu er hann for med. Sighuatr quat.

Oss hafa ôgun þessi
islenzsk kona visat
brattan stig at baugi
biortum rett hin suortu.
sia hefir miodnanna manni
min okunnar þinum
fætr a fornar brautir
fulldreingiliga geingit.

En er hann hafde verit med jalle um langa hrid þa spurde hann at sendimenn hôfdu komit Jarizsleifs konungs austan ór Holmgarde at bidea Jngigerdar dottur Suiakonungs til handa honum. ok þat med at Suiakonungr tok þessu mali uænt. þa kom til hirdar jalls Astridr

[1]) hitti *Cd.*

Suiakonungs dottir uar þar þa ueitzsla gôfuglig. gerdizst Sighuatr þa bratt malkunnigr konungsdottur. hon kannadizst nu vid hann ok kynferde hans þuiat Ottarr suarti var þar systurson hans ok hafde hann þa lenge uerit med Suiakonungi. uar þar mart talat. spurde jall Sighuat huat er hann ætlade huort Olafr konungr munde uilea fa Astridar. ok ef hann uill þat þa segir jall[1] uæntir ek at um þetta rad spyrim vit ecki eftir Suiakonung. Sligt hit sama mællti Astridr konungsdottir. Eftir þat foru þeir Sighuatr heim ok komu litlu firir jol heim til Borgar ok fundu Olaf konung. ok er Sighuatr gengr j borgina ok litr a ueggina ok quat visu.

Bua hilmis sal hialmum
hirdmenn þeir er suan grenna
her se ek bens ok bryniu
beggia kost a ueggium.
þuiat ungr konungr æinge
ugglaust er þyggra
husbunade at hrosa
[367] hôll er dyr med ollu.

Sidan sagde Sighuatr fra ferdum sinum ok quad visur þessar.

Hugstora bid ek heyra
hreslundr jofurr þessar
þolda ek uós firir visur
verdung ok fôr gerdag.
sendr uar ek upp af ôndrum
austr suaf ek fatt j hausti
til Suiþiodar sidan
suaufangs j fôr langa.

En er hann talade vit konung quad hann.

Læit vid ydr hinn itra
Olafr hugat malum
rett er er ek rikan hittag
Rôgnnualld konungr halldit.
deillda ek mal hins millda
malma nordr j Gôrdum
horda môrg en ek heyrda
hæidmannz tôlur græidre.
Folk red uid sig fylkir
flest er ek kom uestan
ætt sem adr um huatti
Æireks Suia þeirra.
en þuiat ialla frænda
æins þat er tokt af Suæine
ydr kuad ek iord er nadut
Ulfs brodur lid stoduzst.

þig bid ek solar sokkuir
sin halldin vel Rinar
huernn er hringa þôrnnar
huskalla nefui iallar.
en huerr er austr uill sinna
iafnn uistir þat Lista
þæingill þinna dreingia
þar a halld und Rôgnnuallde.
Spakr let Ulfr medal yckar
Olafr tekit malum
þau fengu suðr sætta
sakar leggi þid beggia.
þar let þiofa ryrir
þær sem ôngar uæri
riptar reknar heiftir
Rognualldr kuedit alldar.

Bratt segir Sighuatr Olafi konungi þau tidende er hann hafde spurt. vard konungr fyst allokatr er Sighuatr sagde honum bonord Jarizsleifs

[1]) at hann *tilf. Cd.*

konungs ok sagde Olafr konungr at honum uar illz æins uon af Suiakonungi nærr sem ver fam honum golldit. En er fra læid spurde konungr Sighuat margra tidenda austan ór Gautlande. Sighuatr segir honum mikit fra malsnilld Astridar konungsdottur ok fridleik ok mælltu þat aller menn at hon væri at ǒngum hlut uerr um sig en Jngigerdr systir hennar. Konungi fell þat uel j skap ok j eyru. sagde Sighuatr honum ok allar rædur þeirra Astridar ok fannzst honum mart vm þetta ok mællti. æigi mun Suiakonungr þat hyggia at ek muna þora at fa dottur hans at oleyfui hans. En ecki uar þetta mal borit firir flæire menn. Olafr konungr ok Sighuatr toludu oftliga vm þetta mal. konungr spurde Sighuat uandliga at huat er hann kannade af huerr vin hans Rǒgnnualldr jarll uar. Sighuatr sagde at jall uar hinn mesti vin hans ok quat.

Fast skalltu rikr vid rikan
Rǒgnnualld konungr hallda
hann er þydr at þinne
þǒrf natt ok dag sattum.

þann uæit ek þinga kennir
þig bazstan vin myklu
a austruegum æiga
allt med grænu sallti.

En eftir jolin foru þeir austr þordr skotakollr systurson Sighuatz ok annar madr med honum leyniliga fra hirdinne. þeir foru austr til Gautlandz. En er þeir komu til hirdar Rǒgnnualldz jallz baru þeir fram firir hann jartæignir þær er þeir Rǒgnnualldr jarll ok Sighuatr hofdu gert med ser at skilnade. þeir hǒfdu ok þær jartæignir er Olafr konungr sialfr hafde sent jalli af trunade. þegar iafnnskiott byzst jarll til ferdar ok med honum Astridr konungsdottir ok hǒfdu nærr hundrat manna ok ualit lid bæde af hird jarlls ok rikum bondasonum ok uandade sem mest allan bunat uopnn ok klæde ok hesta ridr sidan leidar sinnar nordr j Noreg. ok komu til Sarpsborgar j mot kyndilmessu. Olafr konungr hafde þar latit vid buazst ok uar þar hin bezsta uæitzsla. hann hafde til stefnt ór herudum mǒrgu stormenni. En er jarll kom þar med sinu lide þa fagnar konungr honum æinkar uel ok uoru jalli fæingin herbergi stor ok god ok buin itarliga ok þar med þionustumenn þeir er firir sa at þar skyllde ongan hlut skorta þann er uæitzslu mætti frida. En er su uæitzsla hafde stadit nockura daga þa uar konungr a malstefnnu med jarlli ok Astride. en þat kom upp af tale þeirra at su uar radagerd at Rognnualldr jall fastnade Olafi konungi Astride dottur Olafs Suiakonungs med þeirre hæimanfylgiu sem adr hafde skilin uerit Jngigerde systur hennar. uar þa su uæitzsla aukin ok uar þa druckit brudkaup þeirra Olafs konungs ok Astridar drotningar med mikille uegsemd. Eftir þat fór Rǒgnnualldr jarll aftr til

Gautlandz. ok at skilnade uæitti Olafr Rôgnnualldi godar giafir ok storar ok skilduzst hinir bezstu vinir ok helldu þat medan þeir lifdu.

### Jngigerdr gift Jarizleifi konungi.

94. Eftir um uorit komu til Suiþiodar sendimenn Jarizslæifs konungs austan ór Holmgarde ok foru at uitea þeirra mala er Suiakonungr hafde hæitit at gifta Jn(gi)gerde dottur sina Jarizsleifi konungi. Olafr konungr talade þetta mal firir Jngigerde ok sagde henni at þetta uar hans vile at hon giftizst Jarislæifi konungi. Hon suarar. ef ek skal giftazst Jarizsleifi konungi þa vil ek hafa j tilgiof mina [368] Aldæigiuborg ok jarlls riki þat er þar liggr til. en sendimenn iattudu þessu af hendi konungs sins. þa mællti Jngigerdr. ef ek skal fara austr j Gardariki þa vil ek kiosa mann þann ór Suiauellde er mer þikir bezst til fallinn at fara med mer. vil ek þat til skilia at hann hafui austr þar æigi minne nafnnbot en her ok j ongan stad uerra rett edr minne metord en hann hefir her adr. þessu iatade konungr ok sliku sama sendemenn. sellde konungr ok suo sendimenn til þessa mals tru sina. þa spurde konungr Jngigerde huerr sa madr væri j hans riki er hon uillde kiosa ór hans riki til fylgdar vit sig. Hon suarar. sa madr er Rognnualldr jall Ulfsson frænde minn. Konungr suarar. annan ueg hefui ek hugsat at launa honum drottins suikin þau er hann fór til Noregs med dottur mina ok sellde hana þar til fridlu þeim hinum digra manni er hann visse uórn uuin mestan ok skal hann firir þat þetta sumar uppi hanga. Jngigerdr bad fôdur sinn þa hallda tru sina er hann hafde henni sellt ok kom suo firir bæn hennar at konungr sagde at Rôgnnualldr skyllde fara j gridum ór Suiauellde ok koma æigi j augsyn honum ok æigi til Suiþiodar medan hann er konungr. Jngigerdr sende þa menn til Rôgnnualldz jarlls at segia honum þessi tidende ok gerde honum stefnulag huar þau skyllde hittazst. Jarll biozst þegar ok ræid upp a eystra Gautland fek ser þar skip ok hellt lide sinu til motz vid Jngigerde konungsdottur. foru ôll saman vm sumarit austr j Gardariki. þa giptizst Jngigerdr Jarizslæifi konungi voru þeirra synir Ualldamar ok Visiualldr Holldi hinn frækni. Jngigerdr drotning gaf Rôgnualldi jalli Aldeigiuborg ok þat jallsriki er þar fylgde. uar Rôgnnualldr jarll þar lengi ok þotti agætr madr. Synir Rôgnnualldz jarlls ok Jngibiargar voru þeir Ulfr jall ok Æilifr jall.

---

## HER HEFR VPP ÞAATT EYMUNDAR OK OLAFS KONUNGS.

capitulum.

Hringr hefir konungr hæitit er red firir Upplondum j Noregi. þat fylki uar kallat Hringariki er hann uar konungr yfir. hann uar uitr ok vinsæll godgiarnn ok uellaudigr. hann uar Dagsson Hringssonar Haralldzsonar hins harfagra ok þotti su ætt bezst ok gofguzst j Noregi at æiga til hans at telia. Hringr atti .iij. sonu ok voru allir konungar. æinn het Hrærekr hann uar þeirra ellzstr annar het Eymundr þride Dagr. þeir voru allir hardfæingir menn ok voru j vtgerdum firir fôdur sinum ok j uikingu ok ofludu ser suo metorda. þetta var j þann tima er Sigurdr konungr syrr red firir Upplondum. hann atti Astu Gudbrannzdottur modur Olafs konungs hins helga. þorny het systir hennar modir Halluardz hins helga en ônnur Jsridr modurmodir Steigarþoris. þeir voru fostbrædr er þeir oxu upp Olafr Haralldzson ok Eymundr Hringsson þeir voru ok miog iafnnalldra. þeir vonduzst vid jþrottir allar þær er kallmann bætti ok voru ymizst med Sigurde konungi edr med Hringi konungi fôdur Eymundar. En þa er Olafr konungr for til Æinglandz þa for Eymundr med honum. þar var ok med þeim Ragnnarr Agnnarsson Ragnnarssonar ryckils Haralldzsonar harfagra ok mart annarra rikra manna. voru þeir þui agælare ok vijdfrægre sem þeir foru vidara. sem nu hefir raun a uordit vm Olaf konung hinn helga at hans nafnn er kunnikt uordit um alla Nordrhalfuna. ok þa er hann fek ualld yfir Noregi lagde hann undir sig allt land ok eyddi ollum fylkiskonungum sem segir j sôgu hans med ymsum atburdum sem frodir menn hafua ritat. þuiat þat er iafnan sagt at hann tok riki af fim konungum a æinum mornne en allz tæki hann af .ix.[1] konungum þar innanlandz eftir sôgn Styrmis hins froda. let hann drepa suma en suma mæida suma rak hann ór lande. J þessu flode urdu þeir Hringr ok Hrærekr ok Dagr. en Eymundr ok Ragnarr jarll Agnnarsson voru þa j vikingu er þessi tidendi gerduzst. foru þeir ór lande Hringr ok Dagr ok voru lengi j hernade. sidan foru þeir austr j Gautland ok redu þeir þar lenge sidan. en Hrærekr konungr uar blindadr ok uar med Olafi konungi þar til er hann suæik hann ok rægde saman hirdmenn hans suo at þeir drapuzst. en hann uæitti Olafi konungi tilræde uppstigningardag j kórnum j Kristkirkiu ok skaruzst pellzklædin er konungrinn var j. en gud barg er konungrinn uard ecki sarr. en sidan uard Olafr konungr honum ræidr ok sende hann til

[1]) r. .xi.

Grænlandz ef byri gæfui med þorarnne Nefulfssyne en þeir komu til Jslandz ok uar hann med Gudmunde rika aa Mǫdruuǫllum j Eyiafirde ok do hann a Kalfskinne.

## Fra Eymunde ok Ragnari.

95. Nv er þat fyst at segia at þeir Eymundr ok Ragnnarr komu til Noregs litlu sidar med morgum skipum. þa var Olafr konungr huerge nærr. þeir spyria nu þessi tidende er fyr uar fra sagt. Eymundr stefnir þing [369] vid landzmenn ok talar a þessa lund. her hafa ordit mikil tidende j lande sidan uer forum j brott hǫfum mist frændr vora en sumir ór lande reknir med harmkuælum. hofum uer bæde skom ok skada eftir uora gǫfga frændr ok ættstora. er nu æinn konungr yfir Noregi þar er adr uoru margir. ætla ek þat riki uel komit er Olafr konungr fostbrodir minn styrir þoat þat þiki nu nockut med ofsa ganga um hans riki. uænti ek mer af honum godrar sæmdar vtan konungs nafn. Nu lǫgdu til vinir huorratueggiu at hann skyllde hitta Olaf konung ok reyna ef hann villde gefua honum konungsnafnn. Eymundr suarar. æigi mun ek bera herskiolld j moti Olafi konungi ok æigi uera j anndskota flocki j moti honum en æigi nenni ek af þessum sokum hinum myklum er nu ero uordnar uor j medal at ganga nu a hans miskunn ok leggia nidr mitt tignarnafnn. en huat ætli þer þa firir liggia ef ver uilium æigi til sætta leggia nema koma ecki a hans fund. uæit ek at hann mun mer mykla sæmd væita ef vit finnumzst þuiat æigi mun ek ganga a riki hans. en hitt þiki mer osynna at þer standizst iafnnuel er minir menn erut ef þer siait frændr ydra suiuirda miog. en ef þer eggith mig fram þa þiki mer þat skapraun þuiat ver mundum adr verda eida at sueria ok hæfir oss þa uel at hallda. þa mælltu lidsmenn Eymundar. huat hyggr þu ef æigi skal til sætta ganga nema koma ecki a konungs fund ok fara vtlægr af æignum sinum enda koma ecki j andskota flok konungs. Ragnnarr mællti. miog hefir Eymundr talat eftir þui sem mer er j skapi ok æigi treysti ek uorri hamingiu j moti giftu Olafs konungs. en suo þiki mer ver verda firir at sea ef ver skulum flyia iardir uorar at[1] ver þikim þa vera mæiri en adrir kaupmenn. Eymundr mællti. ef þer uilit þat rad upp taka sem mer er j skapi ok mun ek segia ydr mina ætlan ef þer uilit þat. ek hefui frett andlat Ualldamars konungs austan ór Gardariki ok hafa nu þat riki synir hans þrir hinir agætazstu menn. en hann skipti med þeim rikinu ualla at iafnnade þuiat nu hefir æinn mæira riki en hinir .ij. ok hæitir æinn Burizlafr er mest hefir af fǫdurleifdinne ok er

[1]) ef *Cd.*

hann þeirra ellzstr. annarr hæitir Jarizleifr. hinn þride Uartilaf. Burizlafr hefir Kænugard ok er hann bezst riki j ǫllu Gardariki. Jarizleifr hefir Holmgard en hinn þride Pallteskiu ok þat riki allt er þar liggr til. en þeir verda nu æigi asattir vm rikin sin a mille ok unir sa nu sizst sinum hlut er mest hefir ok bezst haft ór skiptum ok þikir honum þat minka sitt riki er hann hefir minna en fadir hans ok þikizst hann af þui minne sinum forelldrum. nu kemr mer þat j hug ef ydr synizst suo at sækia þangat ok vitia þessa konunga ok vera med odrumhuorum ok helldr med þeim er sinu riki vilea hallda ok una þui er fadir þeirra hefir skift medal þeirra. man oss þat verda gott bæde til fiar ok virdingar. nu skal ek festa þetta rad med oss. Ok er þetta allra þeirra uile. uoru þar margir þeir menn er ser uilldu fiar afla en attu at reka harma sinna j Noregi. uilldu þeir helldr ryma land en eftir sitia ok sæta afarkostum af konungi ok vvinum sinum. radazst nu a brott med Eymunde ok Ragnari ok sigla a brott med myklu lide ok uǫldu at hreysti ok hardfæingi ok helldu j Austrueg. ok þetta fretti Olafr konungr æigi fyrri en þeir voru j brottu ok hann kuat þat illa vera er þeir Eymundr hofdu eigi fundizst þuiat (vit) skilldum betri vinir skilizst hafa ok er þat sem uon er at hann hafui grimdarhug a oss. en þar er sa madr farinn ór lande er uer mundum mestar sęmdir uæitt hafa j Noregi uta(n) konungs nafnn. Sagt hafde verit Olafi konungi huat Eymundr hafde sagt a þinginu ok sagde konungr at hann var likligr til þess at taka gott órræde. ok er nu ecki fleira her fra ath segia. vikr nu sǫgunne aftr til Eymundar ok Ragnars jalls.

### Eymundr kom j Gardariki.

97. þeir Eymundr letta nu æigi fyrr sinne ferd en þeir koma austr j Holmgard til Jarizleifs konungs. sækia þeir nu fyst a fund Jarizleifs konungs eftir þui sem Ragnarr beidde Jarizleifr konungr uar mægdr vid Olaf Suiakonung hann atti dottur hans Jngigerde. ok er konungr spyrr kuomu þeirra þangat j land sendir hann menn (til) þeirra þess eyrendis at bioda þeim fridland ok a konungs fund til fridrar uæitzslu. ok þat þeckiazst þeir uel. Ok er þeir sitia at uæitzslunne spyria þau konungr ok drotning uandliga tidenda ór Noregi fra Olafi konungi Haralldzsyne. en Eymundr quat þar mart gott fra honum at segia ok hans hattum sagde þa lenge hafua verit fostbrædr ok felaga. en Eymundr uillde ecki tala þat er honum mislikade vm þau tilfelli er fyrr var getit. Nu uirdizst þeim [370] Eymunde ok Ragnari uel allt til konungs en æigi uerr til drotningar þuiat hon uar hinn mesti skor-

ungr ok milld af fe en Jarizleifr konungr uar ecki kalladr milldr af fe sinu en uar stiornnsamr konungr ok riklundadr.

## Skildagi Eymundar vid Jarizleif konung.

98. Nv spyrr konungr huert þeir ætla sina ferd edr farleingd at stofna. en þeir segia suo. uer hofum þat spurt herra at þer uerdit at minka nockut yduart riki firir brædrum ydrum. en uer erum flæmdir ór landi ok hofum sott austr hingat j Gardariki a yduarnn fund þriggia brædra. ætlum uer þann yduarnn at at hyllazst er mestan gerir uornn soma at ueg ok uirdingu þuiat uer uilium afla oss fiar ok frægdar ok þiggia sæmd ok soma af ydr. kom oss þat j hug at þer mundit uilea hafa med ydr uaska menn ef um sęmd ydra er setit af frændum ydrum þeim hinum sômum er nu gerazst ydr at fiandmonnum. nu biodumzst uer til at gerazst uarnarmenn rikis þessa ok ganga her a mala ok taka af ydr gull ok silfr ok god klæde. en ef ydr synizst æigi þetta rad med skiotu atkuæde þa tôkum uer þenna sama hlut med ôdrum konungi ef þer uisit oss fra. Jarizleifr konungr suarar. miog þurfum uer yduars lidsinnis ok radagerda þuiat þer erut uitrir menn ok hardfæingir Nordmenn. en mer er ukunnikt huers þer beidizst af voru fe j ydra þionustu. Eymundr suarar. þat er fyst at þu skallt fa oss æina hôll ok lide uoru ôllu ok lata oss ôngan hlut skorta af hinum bezstum tilfôngum ydrum þann er ver þurfum at hafa. þann kost uil ek segir konungr. Eymundr mællti. þa er hæimillt þetta lid til forystu þer ok framgongu firir lide þinu ok riki. her med skalltu greida huerium lidsmanni uorum eyre ueginn silfrs en skipstiornarmanni huerium ofan a halfan eyre. Konungr suarar. þat megum uer æigi. Eymundr mællti. þat megi þer herra þuiat uær skulum taka j þetta fe bior ok safala ok þa hluti adra er her eru audfæingir j ydru landi ok skulu uer þat meta en æigi lidsmenn uorir. ok ef herfang uerdr nockut þa mattu oss upp græida fét en ef uer sitium kyrrir þa skal minka uornn hlut. Ok nu jattar konungr þessu ok skal þessi mali standa .xij. manade.

## Eymundr feck sigr j Gardariki.

99. Nu setia þeir Eymundr upp skip sin ok bua uel um. en Jarizleifr konungr lætr þeim bua æina stæinhôll ok let hana uel tiallda med guduefiarpelli. en þeim uar fæingit þat er þeir þurftu at hafa med hinum bezstum fôngum. voru þeir nu huernn dag j mikille glede ok skemtan med konungi ok drotningu. En er þeir hofdu þar æigi lenge verit j godu yfirlæti komu bref fra Burizlafi konungi til Jariz-

leifs konungs ok segia suo. at hann bæiddizst nockurra herada ok kaupluna af konungi er næst liggia riki hans ok quat ser þat uel falla til aftekta. Jarizleifr konungr sagde nu Eymunde konungi huers brodir hans beidde hann. Hann suarar. fátt kann ek til þess at leggia en hæimol er ydr uor fylgd ef þer uilit þat upp taka. en naudsyn berr til at uægia uit brodur þinn ef uit godu gengr. en ef hitt er sem mig grunar at hann mun bæida meira er þetta er til latit þa attu uid þig kiorit huort þu uill af leggia edr eigi riki þitt edr uilltu hallda þui med dreingskap ok lata suerfa til stals med yckr brædrum ef þu serr at þu getr halldit þig sidan. er þat ohaskasamara at lata iafnan uppi er hann bæidir en morgum mun þat þikia litilmannligt ok okonungligt þo at þu takir þann upp. uæit ek ok æigi til huors þu helldr her utlendan her ef þu skallt ecki a oss treysta. skalltu nu æiga vid þig kiorin. Jarizleifr konungr kuetzst æigi nenna at vreyndu upp at gefa riki sitt. Eymundr mællti þa. skalltu suo segia sendimonnum brodur þins ath þu uill ueria riki þitt. gef honum ok ecki langa tomstund at safnna lide moti þer þuiat þat hafa uitrir mællt at hamingiusamligra væri at beriazst a sinne iordu en a annara. Foru nu sendimenn aftr ok sogdu konungi sinum allt sem farit hafde at Jarizleifr konungr uillde ǫngan hlut midla af rikinu uid brodur sinn en uera buinn at beriazst ef hann uill a riki hans ganga. Konungr mællti. lids ok traustz mun hann þikiazst uonir æiga ef hann ætlar ser at keppa vid oss. edr komu nǫkkurir utlendir menn til hans þeir er honum gæfui rad at styrkia riki hans. Sendimenn sǫgdu at þeir hefde heyrt þat at þar uæri Nordmanna konungr vit .vj. hundrat Nordmanna. Burizlafr konungr mællti. þeir munu honum þetta radit hafa. Hann stefnir nu lide at ser. Jarizleifr konungr lætr fara herǫr um allt riki sitt ok boda nu konungar ut lide sinu. for þat nu sem Eymundr ætlade at Burizlafr konungr fór or riki sinu moti brodur sinum. ok er þeir hittuzst uar þar skogr mikill vid modu æina ok settu sinar tialldbudir huorir suo at áin uar j mille ok var ok æigi mikill [371] lidsmunr þeirra. Eymundr konungr ok aller Nordmenn hofdu æinir ser tiolld ok satu suo fiorar nætr kyrrir at huorigir redu til bardaga vid adra. þa mællti Ragnarr. huers bidum uer edr huat merkir seta sea. Eymundr konungr suarar. konungi uorum þikir oflitill flockr vvina sinna ok eru litils verd rad hans. Eftir þat hitta þeir Jarizleif konung ok spyria huort hann ætlar ecki til bardaga at rada. Konungr suarar. mer synizst sem uer hafim godan lidskost ok æigim uer mikinn lidskost ok traust. Eymundr konungr suarar. annann ueg litzst mer þat herra. j fystu er

ver komum hingat þotti mer sem vera munde litit herlid j hueriu tiallde ok mæir geruar herbudir til fiolganar en þar munde mart lid j vera. en nu mun annat vera at þeir verda at auka tialldbudir sinar edr byggia utan buda ella. en mikill herr hefir fra ydr hlaupit heim j herat ok mun þer otraustr vera herrinn. Konungr spurde. huat er nu til rada. Eymundr suarar allt er nu ohægra en fyrr var ok hofum uær setit ór hende oss sigrinn þenna. en at hǫfu uær nockut hafzst Nordmenn. skip uor oll hofum ver flutt upp eftir modunne ok a herklęde. munu uær þangat fara med uoru lide ok koma a bak a þeim en tiolldin skulu standa aud eftir. en þer skiotit a fylking sem huatligazst med ydru lide. Nu uar suo gert ok uar blasinn herblastr ok merki uppsett ok skiputhu huorirtueggiu til orrostu. gengu nu saman fylkingar ok tekzst þar hin snarpazsta soknn ok var bratt mikit mannfall. þeir Eymundr konungr ok Ragnarr uæittu þeim Burizlafi konungi hart ahlaup ok komu honum j opna skiolldu. uard þar hin snarpazsta orrosta ok mikit manntion ok eptir þat raufzst fylking Burizlafs konungs ok tok lid hans at flyia. en Eymundr konungr gek j gegnum lid hans ok fellde suo margan mann at langt er at skra nofn þeirra allra. ok nu brestr flotti j lidenu suo at ecki uard vitnam ok flyia a merkr ok skoga þeir er undan komuzst ok þagu suo lifit. en j þessi suipan var þat sagt at Burizlafr konungr væri fallinn. Tok Jarizleifr konungr nu mikit herfang eftir þenna bardaga. æigna flestir Eymunde konungi sigrinn ok Nordmonnum. hofdu (þeir) her af mikinn metnat ok gek þat eftir malaefnum þuiat gud drottinn Jesus Kristr uar rettdęmr um þetta sem um allt annat. foru þeir nu heim j riki sitt ok hafde Jarizleifr konungr nu bæde riki sitt ok herfang þat er hann fek j þessi orrostu.

## Rad Eymundar.

100. Eftir um sumarit ok um uetrinn uar kyrt ok tidendalaust ok styrde Jarizleifr konungr badum rikiunum med radum ok umsia Eymundar konungs. voru Nordmenn nu j myklum soma ok virding ok eru nu hlifskiolldr firir konungi at radum ok herfangi. en firirforuzst malagiolldin af konungi ok ætlar hann ser nu minne lidsþǫrf er konungrinn uar fallinn ok þikir nu friduænligt um allt sitt riki. Ok er æindagi kom malagialldzsins þa gek Eymundr konungr a fund Jarizleifs konungs ok mællti suo. her hofum uer verit herra j ydru riki um hrid. kiosit nu huort kaup uort skal standa leingr edr uilltu nu at skili med oss uort felag. ok læitum ver annars hǫfdingia þuiat tregt hefir fet vt græitzst. Konungr suarar. ek ætla nu æigi iafnmykla naudsyn til

bera sem fyrr til yduars lidsinnis. verdr oss þat mikil fiaraudn at gefa ydr suo mikinn mala sem þer kuedit a. Suo er herra segir Eymundr konungr þuiat nu skal greida eyri gullz huerium manni en halfa mork gullz huerium skipstiornnarmanni. Konungr mællti. þa kys ek laust kaup uort. þat skal a þinu uallde segir Eymundr konungr en viti þer vist at Burizlafr er daudr. þat hygg ek satt uera segir konungr. Eymundr spurde. uegliga mun leide hans buit edr huar er grǫftr hans. Konungr suarar. æigi uitum uer þat glǫgt. Eymundr mællti þat byriar herra yduarre tign at uita um iafngofgan brodur yduarn huar leg hans er. en hitt grunar mig at lidsmenn ydrir mune uilhallt sagt hafa ok eigi uæri enn sannyndi uitoth þessa mals. (Konungr mællti.) huat uiti þer sannara af at segia þat at uer megim þui helldr trua. Eymundr suarar. suo er mer sagt at Burizlafr konungr lifui j Biarmalandi j uetr ok þat hofum uer spurt med sannyndum at hann eftir her a hendr þer med myklu fiolmenni ok mun þetta uera sannara Konungr mællti. nærr mun hann her koma j uort riki. Eymundr suarar. suo er mer sagt at hann muni her koma a þriggia uiknna fresti. Ok nu uill Jarizleifr konungr æigi missa þeirra lidsinnis. kaupa þeir nu enn saman um .xij. manudr. þa spurde konungr. huat liggr nu firir huort skulu ver lide safnna ok beriazst vid þa. Eymundr suarar. þat er mitt rad ef þer uilit hallda Gardariki firir Burizlafi konungi Jarizleifr spurde. huort skal hingat stefnna lidinu edr j moti þeim. Eymundr suarar. hingat skal ollu stefnna þui sem maa [372] komazst til borgarinnar. ok er lidit kemr þa munu ver enn leggia til nockur rad þau er oss þikia uænst at dugi.

## Bardagi þeirra brædra. capitulum.

101. þessu næst lætr Jarizleifr konungr senda herbod um allt sitt riki ok kemr nu til hans mikill bonda herr. Eftir þetta sendir Eymundr konungr menn sina a mǫrkina ok lętr fella vidu ok færa heim at borginne ok setia upp a borgararmana. hann lætr snua liminu huers tres vt af borginne at æigi mætti skiota upp i borgina. mikit diki let hann ok grafa firir vtan borgina ok færa brott molldina ok væita uatni j eftir. sidan let hann leggia ofan yfir vidu ok bua suo vm at ecki mætti a sia ok sem hæil uæri jordin. En er þessi syslu uar lokit þa spurdu þeir til Burizlafs konungs at hann uar kominn j Gardariki ok stefnnde þangat til borgarinnar sem þeir uoru firir konungarnir. þeir Eymundr konungr hofdu ok bua latit sterkliga vm .ij. borgarhlid ok ætludu þar at veria ok suo til brottgongu ef þyrfti. Ok um kuelldit

þa er hersins uar uon um morgininn eftir bad Eymundr konungr konur ganga vt a borgararmana med alla dyrgripe sina ok buazst vm sem bezst kynne þær ok festa digra gullhringa upp a slangir ath þeim mætti sem mest um finnazst. uæntir ek segir hann at þeir Biarmar mune gearnir til gersimanna. munu þeir rida huatt ok uuarliga at borginne er solin skinn a gullit ok a guduefuina hina gullofnnu. Nu uar suo gert sem hann sagde firir. Burizlafr kemr nu at borginne med her sin ór[1] morkinne fram ok sea þeir nu fegurd til borgarinna(r) ok hyggia nu gott til at einge niosn mune firir þeim hafa farit. rida nu at hart ok hermannliga ok fa æigi til gætt. fellr fiolde mannz j dikit ok farazst þar. en Burizlafr konungr var sidar j fylkingu ok uerdr hann nu uarr vid þessar ofarar. Hann mællti suo. vera ma at æigi verde her iafnnaudsott sem ver hugdum til ok eru þessir radagerdamenn myklir Nordmennirnir. Hyggr hann nu at huar bezst mun at at sækia ok var nu j brottu oll fegurdin su er synd uar. ser hann nu at oll borgarhlid eru aftr lokin nema tuð æin ok er þar ecki auduelligt jnn ath komazst þuiat skortir æigi storan vidbuning ok fiolmenni. þui næst uar slegit upp heropi ok eru borgarmenn bunir til bardaga. vid sitt borgarhlid var huorr þeirra konunganna Jarizleifr ok Eymundr. tokzst nu hardr bardagi ok fell mart folk af huorumtueggium. þar uar nu suo mikil atsoknn er firir uar Jarizleifr konungr at þar var uppganga væitt j þui borgarhlide er hann uarde en konungr vard særdr a fæti miog. uard þar mikit mannspell adr en sott uar borgarhlidit. þa mællti Eymundr konungr. nu ferr j ouænt efni er konungr uorr er sarr uordinn. en þeir hafa drepit marga menn firir oss ok komazst nu upp j borgina. geor nu huort er þu uill Ragnarr segir hann. uer þetta borgarhlid edr far til med konungi uorum ok uæit honum lid. Ragnarr suarar. her mun ek vid hafazst en þu far til konungs þuiat þar mun rada vid þurfa. For Eymundr nu þangat med mikit lid ok sa at Biarmar voru nu komnir inn j borgina. hann ueitti þeim þegar mikit slag ok illt. drapu þeir þegar mikit lid af Burizlafi konungi. sękir Eymundr konungr at fast med myklu kappe ok eggiar miog sina menn ok eigi hefir verit hardari sokn iáfnlǫng en þessi. ok nu flyia Biarmar or borginne allir þeir er upp stodu ok nu flyr Burizlafr konungr med mikille manntion. en Eymundr konungr ok hans menn reka flottann til skogar ok drapu merkismann konungs ok er nu enn þat sagt at konungrinn mune fallinn vera ok er nu myklum sigri at hrosa. hefir Eymundr konungr nu framit sig miog j þessi orrostu ok

[1]) ok *Cd.*

er nu kyrt at sinne. sitia þeir nu j myklum soma med konungi ok uirdazst þeir huerium manni uel innanlandz en malagiolldin verda enn sein af konungi ok torsott suo at þau greidduzst ecki eftir skildögum.

## Fra Eymunde.

102. Sua bar til enn æinhuernn tima at Eymundr konungr talar til konungs at hann skuli greida af hendi mala þeirra suo sem rikum konungi somde. kuezst ok hyggia at þeir hafui honum meira fe j hendr unnit en malinn atti at vera. ok kollum ver þetta yduart missyne. ok æigi munu þer nu þurfa uors gengis edr lidsinnis. Konungr mællti. vera kann nu þo at uel hlyde þo at þer gefit æigi yduart fullting til ok hafui þer þo oss mikit lid væitt. en þat er mer sagt at lid yduart se uant at öllum hlutum. Eymundr suarar. huat er nu undir þui herra er þer skulit æinir vm allt dęma. þikiazst nu ok margir minir menn mikils mist hafua sumir fota edr handa edr nockurra lima edr fæingit skada a heruopnum sinum ok [373] uerdr mikill kostnadr uorr. ok enn mattu þat bæta ok kios oss nu annathuort til edr fra. Konungr mællti. æigi kys ek ydr j brott en ecki gefum ver ydr iafnmikit fe þegar uer uitum æigi uon ofridarins. Eymundr suarar. fe þurfum uær ok æigi uil(i)a minir menn vinna til matar æins. ok helldr munu ver fara j annarra konunga riki ok læita þar eftir uorri sæmd. en likligt er þat at æigi muni nu gerazst vfridr her j lande edr uæitzstu nu uist at konungrinn er drepinn. þat hyggium ver satt segir konungr firir þui at ver hofum merki hans. Eymundr spyrr. ueitzstu nu þa gröft hans. Næi segir konungr. Eymundr mællti. þat er ovitrligt at vita þat æigi. Konungr suarar. huat uæitzstu þat georr en adrir menn þeir er sannan visdom bera a þetta. Eymundr suarar. minna þotti honum at lata merkit en lifit ok hygg ek hann undan komizst hafua ok verit j Tyrklande j uetr ok ætlar en at heria a hendr ydr ok hefir hann med ser oflyianda her ok eru þat Tyrkir ok Blökumenn ok mörg önnur ill þiod. ok þat hefui ek heyrt at þat se likligra at hann gangi af kristninne ok hann ætlar at skipa þessi hinne illu þiod rikin ef hann færr unnit Gardariki undan ydr. en ef suo verdr sem hann ætlar þa er þat vænst at alla ydra frændr reki hann ór lande med suiuirdingu. Konungr spyrr. huersu skiott man hann her koma med þat hit illa lid. Eymundr suarar. a halfs manadar fresti. Huat er nu til rads sagde konungr þuiat nu megum uer æigi missa yduarrar forsio. Ragnarr sagde at hann uillde at þeir færi þa j brott ok bad konung hafa sin rad. Eymundr mællti. amælis allar þat ef ver skilium suo vid konung

j þuilikum haska þuiat konungr var þa j fride er ver komum til hans. nu uil ek æigi suo vid hann skilia at hann siti eigi j fride eftir ok munum ver enn helldr kaupa vid hann þessa .xij. manudr ok bæti hann mala uornn sem skilt var med oss. er nu at hyggia at radagerdum huort lide skal safnna edr vili þer herra at ver uerim æinir landit Nordmenn en þu sitir kyrr hea vorum vidskiptum ok takir þa (til) lids þins er ver erum yfirkomnir. þat uil ek segir konungr. Eymundr mællti. ger æigi suo bradlitit a þetta herra. hinn er til annarr at hallda saman herlidinu ok þat litzst mer somasamligra ok æigi skulum uær fyrstir renna Nordmenn. en uæit ek at margr mun nu þess albuinn verda þeir sem firir spiotzoddum eru hafdir. en hitt uæit ek æigi huersu þeir munu j rauninne gefazst sem nu eggia þessa mest. en huersu skal þat vera herra ef ver komumzst j færi uit konunginn huort skulum ver drepa konunginn edr æigi. þuiat alldri verdr endir a þessum vfride medan þit lifit badir. Konungr suarar. æigi man ek huorttueggia gera at eggia menn til bardaga vit Burizlaf konung enda gefa sok a ef hann er drepinn. Nu fara huorir heim til hallar sinnar ok letu ecki safnna lide ok ǫngan vidrbuning væittu þeir. ok þetta þikir ollum monnum undarligt er nu er sizst vid buizst er mest ogn ferr at hende. Ok litlu sidarr fretta þeir til Burizlafs konungs at hann uar kominn j Gardariki med mikinn her ok marga illa þiod. Suo let Eymundr konungr sem hann visse æigi huat vm var ok hann hefde ecki spurt. Margir menn mælltu þat at hann munde æigi þora at beriazst vid Burizlaf.

### Eymundr drap Burizlaf konung.

103. Einn morgin arla kuedr Eymundr med ser Ragnar frænda sinn ok .x. menn adra. hann let sodla þeim hesta rida nu .xij. saman vt af borginne en æigi fleire. en allt lid annat uar eftir. Biornn het islenzskr madr er for med þeim ok Gardaketill ok Astkell het madr ok þordar .ij. þeir Eymundr hofdu med ser lausan hest ok voru þar a herklæde þeirra ok vist. nu rida þeir allir j brott j kaupmannz gerui ok vissu menn æigi huat er undir bio þessi ferd edr huat þeir mundu firirætlazst j brogdum. þeir rida nu j skog einn ok fara allan þann dag þar til er kom at nott. þa koma þeir or skoginum fram ok at æinne mikille æik þar uar hea uollr fagr ok vida slettr. þa mællti Eymundr konungr. her munum ver stad nema. þat hefui ek spurt at Burizlafr konungr mun her nattstad hafa ok tialldstad j natt. þeir ganga nu umhuerfis tred ok med riodrinu ok hugdu at huar beztr

munde uera tialldstadrinn. þa mællti Eymundr konungr. her mun Burizlafr konungr lata setia herbudir sinar. mer er sagt at hann tiallde iafnan nærr skogi ef þui ma uit koma ok æiga þar þa undanbragd ef hann þarf til [374] at taka. Eymundr konungr tok þa æinn stræing edr kadal ok bad þa ganga j riodrit her at þessu trenu. hann mællti at æinnhuerr madr skillde fara upp j limarnar ok bera þar aa stræinginn ok suo uar gert. sidan suæigdu þeir tréed allt til þess er limarnnar voru komnar allt at jordu nidr ok undu suo tred allt ath rotinne. þa mællti Eymundr konungr. þetta likar mer nu uel ok ma os þetta koma at godu gagnni. Eftir þat bera þeir streinginn ok festa endana. ok er lokit var þessu starfui þa uar midr aftan. Nu heyra þeir til lids konungsins huar þat fór. ganga þeir nu j skoginn til hesta sinna. þeir sea nu lid mikit ok æinn dyrligann vagnn ok fylgia þar margir menn ok þar var merki firir borit. þeir snua at skoginum ok j riodrit ok at þangat er bezstr var tialldstadrinn sem Eymundr konungr gat til. ræisa þeir þar landtialldit ok suo allt herlidit vt j fra med skoginum. gek þui allt til myrkrs. Konungstialldit uar hardla dyrligt ok uel gert. þar voru fiorar stukur af ok staung mikil upp ór ok knappr a ór gulle ok uedruite med. þeir sa ǫll tidende ór skoginum til herlidsins ok letu hliott yfir ser. ok er myrkt uar ordit þa uoru log kueigt j tiolldunum ok vita þeir at nu mun til matar buizst j tiolldunum. þa mællti Eymundr konungr. uer hofum litlar uistir ok hæfir oss þat æigi ok mun ek rada til budaruardar ok fara til herbuda þeirra. Eymundr tekr nu stafkarlls buning bindr ser gæitarskegg ok gengr vid .ij. stafui. hann ferr j konungstialldit ok bidr ser matar ok gengr firir huernn mann. hann fór ok j hinu næstu tiolld ok uard gott til fæingiar ok þackade uel godann bæina. ferr hann nu j brott fra tiolldunum ok skortir nu æigi uistir. en er menn hofdu druckit ok etit sem menn uilldu þa uar hliott eftir þat. Eymundr konungr skiftir nu lidinu sinu j tuo stade. let uera eftir .vj. menn j mǫrkinne at gæta hesta sinna ok lata buna vera ef skiott skal til taka. Nu ganga þeir Eymundr j riodrit .vj. saman til herbudanna ok lata sem ecki se at uandrædum. þa mællti Eymundr. Rǫgnnualldr[1] ok Beornn ok þeir hinir islenzsku menn skulu ganga til tressins þar sem uer hofum þat nidr suæigt. Hann selr sina bolǫxi j hendr huerium þeirra. þer erut menn storhǫggir ok neytit nu uel þess j þorf. þeir ganga þa þar til sem limarnar voru nidr suæigdar. ok enn mællti Eymundr konungr. her skal hinn þridi madr standa a læidinne til riodrsins. sa skal ecki gera nema hafa streinginn j

[1]) *saal. for* R. (ɔ: Ragnarr) *Cd.*

hende ser ok lata ganga sem ver hæimtum er ver hôfum annan enda. ok er uær hôfum um buizst sem ver uilium þa skal sa drepa ôxarskapti a snærit er ek hefir til ætlat. en sa skal uita er a stræingnum helldr huort hann skelfr af þui er ver hrærum hann edr af hogginu. ok þa er uær hofum gert þessa bending er fram skal koma ok oss liggr vid ef hamingian uæitir oss þa skal sa segia er stræinginn hefir ok skal þa hoggua limar tressins ok mun þat þa hart ok skiott upp spretta. Nu gera þeir sem þeim uar firir sagt. Biornn ferr med þeim Eymundi konungi ok Ragnari ok ganga nu at tialldinu ok gera rumsnôru a streinginn ok hafua vid spiotskoftin ok færa a uedruitann er upp uar af stônginne a landtialldi konungsins ok rann hon upp at knappinum ok var kyrt at farit. en menn suofu fast j ollum tiolldum er þeir voru farmodir ok miôg druknir. En er þetta var gert þa hæimta þeir endana ok stytta suo stræinginn ok gera rad sin. gengr Eymundr konungr nu nærr tiallde konungsins ok uill vera æigi fiarri er kift er tialldinu. er nu drepit a snærit ok kennir þa þes sa er a hellt at skalf stræingrinn. segir sa þeim er hoggua skulu. nu hoggua þeir tred ok sprettr þat hart ok hatt upp ok kippir upp ollu landtialldi konungsins ok langt a skog a burt. login slocknudu oll j þessu. Eymundr konungr hafde glogt midat a um kuelldit huar konungrinn huilde j tialldinu. snyrr hann nu þangat ok uæitir konunginum bradann bana ok suo morgum odrum. hann hefir nu med ser hôfud Burizlafs konungs. hleypr hann nu j skoginn ok menn hans ok verda æigi fundnir. þeir uerda nu ottafullir er eftir eru af monnum Burizlafs konungs af þessum tidendum hinum myklum. en þeir Eymundr konungr rida nu j brott þar til er þeir koma nu heim snemma môrgins. ok ferr nu a fund Jarizleifs konungs ok segir honum sannliga fall Burizlafs konungs. ok lit nu a herra a hofudit ef þer megit kenna. Konungr rodnar er hann sa hôfudit. Eymundr mællti. þessu uolldu uær Nordmenn hinu mykla þrekuirke herra ok buit nu til graftrar likama brodur yduars uel ok sæmiliga. Jarizleifr konungr [375] suarar. bradradin tidendi hafui þer gert ok oss nalæg en þer skulut groftr hans bua edr huert rad munu þeir taka nu er honum hafa fylgt. Eymundr suarar. þess get ek at þeir æigi þing ok mun huerr þeirra annan gruna um þetta verk þuiat þeir urdu ecki vit oss uarir ok munu þeir skiliazst med sundrþycki ok mun æinge odrum trua ok fara saman suæitum ok þess uæntir mig at fatt af þeirra monnum uæiti umbuning konungi sinum. Nu fara Nordmenn ór borginne ok rida hinn sama ueg um môrkina ok þar til er þeir koma til herbudanna. ok gek eftir þui

sem Eymundr konungr gat til at lid Burizlafs konungs uar allt j brottu ok skildizst med sundrþycke. ferr Eymundr konungr nu j riodrit ok la þar lik konungsins ok ôngir menn hia. bua þeir nu um lik hans ok setia þeir nu hofudit vid bolinn ok foru hæim med. uar hans groftr þa a margra manna uitorde. Gek nu allt landzfolk a hônd Jarizleifi konungi med suordum æidum ok er hann nu konungr yfir þui riki sem þeir hôfdu adr badir haft.

Eymundr konungr for fra Jarizlafuo[1] ok til brodur hans.

104. Nv lidr sumarit ok uetrinn ok uerdr ecki til tidenda ok verdr enn ecki greiddr malinn. þat var ok firir konunginum tiad af sumum monnum at mikils uar at minnazst um brodurdrapit ok sogdu suo at þeir þættizst nu konungi ædri uera Nordmennirnir. Ok nu kemr sa dagr er malinn skyllde greidazst þa ganga þeir til konungs herbergia. hann fagnar þeim uel ok spyrr huat þeir vilia suo snemma morgins. Eymundr konungr suarar. þat kann vera herra at þer þurfit ecki uors lids lengr ok greide þer nu uel af hende þann mala er uær æigum at hafa. Konungr mællti. mikit hefir af gerst yduarre hegatkuomu. Satt er þat herra segir Eymundr þui at firir longu uerir þu af riki rekinn ef æigi nytir þu uor vid. en vm frafall brodur þins er nu sem þa er þu gaft þat kuijtt. Konungr mællti. huert rad taki þer nu upp. Eymundr suarar. huert mundir þu sizst uilea. Æigi uæit ek þat segir konungr. Eymundr suarar. ek uæit þo gerlla. sizst uilldir þu at ver færim til Uartilavi konungs brodur þins en uer munum nu þo þangat fara ok væita honum allt þat er uer megum ok sit nu hæill herra. Ganga þeir nu vt skiott ok til skipa sinna er þa voru albuin. Jarizleifr konungr mællti. skiott foru þeir nu j brott ok æigi ath uorum uilia. Drotning suarar. suo mun fara ef þit Eymundr konungr æigit radum at skifta at hann mun uerda ydr þungr j skaute. Konungr mællti. þat væri gott rad ef þeir yrde afradnir. Drotning suarar. fyr mun hitt at hende koma at þer munut fa af þeim nockura sneypu. Sidan for hon til skipa ok Rôgnnualldr jarll Ulfsson vid nockura menn þar er þeir Eymundr lagu vid land ok var þeim sagt at drotning uill finna Eymund konung. (Hann) mællti. truum henni ecki þuiat hon er konungi vitrari en æigi uil ok uarna henni uittals. þa uil ek fylgia þer segir Ragnarr. Næi segir Eymundr ecki er þetta vfridarfôr enda er ecki ofrefli lids til komit. Eymundr hafde tuglamottul ok suerd j hende. þau settuzst nidr a backa æinum þar sem leira uar undir nidri. þau settuzst nærr

[1]) Jarizlaf ͦ Cd.

honum drotning ok Rögnualldr jall ok naliga a klæde hans. Drotning mællti. þat er illa er þit konungr skulut suo skilia. uillda ek giarnna hlut j æiga at betr færi med yckr en uerr. þa hafde huorki þeirra hendr sinar kyrrar. hann leysti mottulbond sin en hon dro af ser glofann ok bra upp yfir höfut ser. hann ser nu at æigi er suikalaust ok þat uar raunar at hon hafde sett menn til at drepa hann ok hafua þat at marki er hon brygde upp glofanum. ok þegar hlaupa þeir menn fram. Eymundr sa þa fyrre en þeir komu at honum. sprettr hann þa upp skiott ok fyr en þeir hugdu uard mottullinn eftir. attu þeir hans þa ecki kosti. Ragnarr sa þetta ok hliop a land af skipunum ok suo huerr at ödrum ok uilldu drepa menn drotningar. en Eymundr quat æigi skylldu suo uera. hrundu þeir þeim ofan firir læirbackann ok hofdu a þeim hendr. Ragnarr mællti. nu munu ver æigi meta vid þig Eymundr radin. skulu uær nu flytia þau j burt med oss. Eymundr suarar. æigi byriar oss þat ok skulu þau heim fara j fride þuiat æigi uil ek suo slita vinattu vid drotningu. Ferr hon nu heim ok æigi eyrende fegin. en þeir sigla j burt ok letta æigi fyrr en þeir koma j riki Uartilaui konungs ok sækia a hans fund. en hann tekr uit þeim uel ok spurde þa tidenda. en Eymundr sagde allt sem gengit hafde bæde upphaf ok skilnat þeirra Jarizleifs konungs. Huat ætlizst þer nu firir segir konungr. Eymundr suarar. þui het ek Jarizleifi konungi at ver mundim hingat leita til yduar þuiat mig grunar at hann mune minka vilea riki þitt sem brodir hans gerde vid hann. ok siai þer nu rad yduart herra huort þer kiosit oss til yduar edr fra edr huort þu þikizst nockut þurfua uors gengis. Ja segir konungr fusir værim uer til yduars fylgis edr til huers mæli [376] þer. Eymundr suarar. hinn sama kost uilium ver hafa sem ver hofdum med brodur þinum. Konungr mællti. gef mer stund til at radazst um vid mina menn þuiat þeir leggia fet fram þo at ek greida af hende. þessu iatar Eymundr konungr. Vartilafr konungr stefnir þing vit menn sina ok segir þeim huer frett komin uar af Jarizleifi konungi brodur hans at hann sitr um riki hans ok segir at Eymundr konungr er þar kominn ok bydr þeim sitt traust ok forstödu. þeir fysa konung miog at taka vid þeim. ok vid þetta kaupa þeir saman ok skilr konungr ser radagerdir hans. þuiat ek er minne radagerdamadr en Jarizleifr konungr brodir minn ok uard yduar þo j mille gengit. uilium ver oft æiga rædur vid ydur en giallda ydr allt eftir skildögum. Nu eru þeir þar j myklum soma ok godu yfuirlæti af konungi.

### Sætt þeirra brædra Jarizleifs ok Vartilafs.

105. Sa atburdr vard at sendimenn komu fra Jarizleifi konungi at bæida þorpa ok borga er lagu vid riki hans af Vartilaf konungi. hann berr nu upp þetta firir Eymundi konungi en hann suarar suo. þer æigit þessa rad herra. Konungr mællti. nv er til þess at taka er skilit var at þer leggit radin til med oss. Eymundr suarar. suo litz mer herra sem vera mune fangs uon at frekum ulfui. heimt man bratt hit mæira ef þetta er til latit. ok fari sendimenn aftr j fride segir hann sea munu þau þickiazst uór rad edr huersu lengi þarftu lide at safnna. Halfan manut segir konungr. Eymundr mællti. kued nu a herra huar þer skulut finnazst til orrostu ok seg sendimonnum at þeir megi segia konungi sinum. Ok uar nu suo gert ok fara sendimenn hæim. Byzst nu huorrtueggi herrinn til orrostu ok koma saman j akuednum stad at landamæri. setia þeir nu herbudir sinar ok eru þar nockurar nætr. Vartilafr konungr mællti. huat skulum ver her sitia til æinskis. hofum æigi sigrinn ór hendi oss. Eymundr mællti. lat mig firir rada þuiat frest eru illz bezst ok er æigi enn komin Jngigerdr drotning er rad hefir firir þeim öll þo at konungr se foringe lids þeirra ok skal ek nu vord hallda herra. Konungr suarar. suo sem þer vilit. þeir sitea nu þar .vij. nætr med herinn. ok æina nott var uedr illt ok myrkt miog þa huarf Eymundr konungr fra lide sinu ok Ragnarr. þeir foru j skog ok a bak herbudum Jarizleifs konungs ok setiazst nidr hea götu æinne. þa mællte Eymundr konungr. þessi gata mun vera ridin af monnum Jarizleifs konungs ok ef ek uillda leynazst þa munda ek nu fara ok verum nu her fyst. Ok er þeir höfdu setit um stund þa mællti Eymundr konungr. ouitrliga sitium ver. þui næst heyra þeir at ridit var ok suo þat at kona var j ferdinne. urdu þeir þess uarir at madr ræid firir konunne en annar for sidar. þa mællti Eymundr konungr. þar mun drotning fara ok skipumzst uer nu tuæim megin gotunnar ok er þeir koma at oss þa særi þer hestinn undir henni en þu Ragnarr tak vid henni. Ok er þessir rida fram hea finna þeir æigi fyrr en hestrinn fell nidr daudr en drotning oll j brottu. annar segir at hann sa suipinn mannzsins er stök yfir götuna ok þordu æigi at hitta konunginn þuiat þeir vissu æigi huort þessu olli menn edr tröll. leyndužst nu heim at fara ok gera æigi vart vid sig. Drotning mællte vid þa fostbrædr. sæint letti þer Nordmenn suiuirding vid mig. Eymundr mællti. vel skulum uær vid ydr gera drotning. en æigi uæit ek huort þu kyssir nu fyst konunginn at sinne. Fara þeir nu til herbuda Vartilafs konungs ok segia honum at drotning er þar komin. hann fagnar þui ok uakir

sealfr yfir henni. En um morguninn bidr hon Eymund konung koma til sin. ok er þau hittuzst þa mællti drotning. þat er bezst rad at ver sættimzst ok uil ek biodazst til at gera a mille yduar. uil ek þui lysa adr at ek mun Jarizleif konung mest meta. Eymundr konungr suarar. konungr a her ualld yfir. Drotning suarar. þin rad munu þo mest hôfd. Eftir þat hittir Eymundr Vartilauum konung ok spyrr ef hann uill at drotning geri þeirra a mille. Konungr suarar. æigi kalla ek þat radligt er hon hefir þo þui hæitit at minka vornn hlut. Eymundr mællti. muntu vna þui at hafa þat er þu hefir adr. Ja segir konungr. Eymundr mællti. ecki kalla ek þat gerd ef æigi er aukinn þinn hlutr þuiat iafnnt attu at taka arf eftir brodur þinn sem hann. Konungr suarar. þess ertu fusari at ek kiosa hennar gerd a ok se þat þa. Eymundr konungr segir nu drotningu at þui er jattat at hon skal gera sætt mille konunganna. þat mun þa þin rad segir hon ok muntu sea a huerium minnzst mæin eru edr huer gerd uera skal. Eymundr konungr mællti. ecki latta ek at yduarr somi uæri gerr. þa uar blasit til motz ok sagt at Jngigerdr drotning uill tala vid konunga ok lidsmenn þeirra. ok er lidit kom saman þa sia menn at Jngigerdr drotning er j flocki þeirra Eymundar konungs ok Nordmanna. er nu bodit af hende Uartilafs konungs at drotning skule gera. Hon segir Jarizleifi konungi at hann skal hafua hinn æzsta hlut Gardarikis en þat er Holmgard. [377] en Uartilafr skal hafa Kænugard þat er annat bezst riki med skottum ok skylldum þat er halfu mæira riki en hann hefir adr haft. en Pallteskiu ok þat riki er þar liggr til skal hafua Eymundr konungr ok vera þar konungr yfir ok hafua allar[1] landskylldir vskerdar þær er þar liggia til þuiat ver uilium hann æigi j brott ór Gardariki. ef Eymundr konungr a erfingea eftir sig þa se þeir erfingiar eftir hann at þui riki. en ef hann a ongan son eftir sig þa skal huerfa aftr til þeirra brædra. Eymundr konungr skal ok hafua landuornn firir þeim brædrum ok ollu Gardariki en þeir skulu efla hann at lide ok sinum styrk. Jarizleifr konungr skal vera yfir Gardariki. Rognualldr jarll skal hafa Aldæigiuborg eftir þui sem hann hefir adr haft. Uar þessi sætt ok rikia skifti samþykt ok stadfest af ollum landzlyd. skylldu þau Eymundr konungr ok Jngigerdr drotning gera um oll uandamal. For nu huerr heim til sins rikis. Vartilafr konungr lifde æigi lengr en .iij. uetr. tok hann þa sott ok andadizst ok uar hinn uinsælazsti konungr. Eftir hann tok riki Jarizleifr konungr ok styrde nu æinn badum rikiunum. en Eymundr konungr red firir sinu riki ok uard æigi gamall. hann andadizst erfingialaus ok

[1]) aller *Cd.*

uard sottdaudr ok þotti þat hinn mesti mannskade ollu landzfolki þuiat æigi hefir verit meire spekingr utlendr j Gardariki en Eymundr konungr ok æigi uard herskatt j Gardariki medan hann hafde landuornn firir Jarizleifi konungi. En j sott Eymundar konungs þa gaf hann riki sitt Ragnari fostbrodur sinum þuiat hann unne honum bezst at niota. uar þat j leyfui Jarizleifs konungs ok Jngigerdar drottningar. Rognualldr Ulfsson uar jarll yfir Aldæigiuborg þau uoru systrabornn ok Jngigerdr drotning. hann uar hofdinge mikill ok uar skattgilldr undir Jarizleif konung ok uard gamall. ok þa er hinn hæilagi Olafr Haralldzson uar j Gardariki þa uar hann med Rǫgnualldi Ulfssyni ok uar þeirra vinatta hin mesta. þuiat allir gofgir menn uirdu Olaf konung mikils medan hann uar þar en þo ǫngir mæira en þau Rognualldr jarll ok Jngigerdr drotning þuiat huort þeirra unne ǫdru med leyndri ast.

## Odinn kom til Olafs konungs med dul ok prettum.

106. Litlu sidarr en Olafr konungr hafde fæingit Astridar dottur Olafs Suiakonungs for hann at heimbodum vm landit ok var a uæitzslu j Vikinne. þa kom æinn madr okunnr til hans ok gek firir konung ok kuadde hann. Konungr tok honum ok spurde hann at nafnni en hann nefnndizst Gestr ok bæiddizst at dueliazst med hirdinne. en konungr hafde þar fatt um en skipade honum at sitia utar fra gestum. gek hann þar til sætis ok uar helldr vþydr ok stickinn ok þo uppiuodslumikill. hann var stuttklæddr ok hafde sidann hatt nidr firir andlitit ok sa vgerlla asionu hans. skeggiadr uar hann. Konungr bad menn vera faskiptna vid kuomumanninn. ok vm kuelldit er konungr gek til sængr let konungr kalla Gest ok spurde ef hann kynne nockut skemta. en hann var bæde frodr ok diarfmælltr. vard þeim þa talat mart til hinna fyrre konunga er verit hofdu ok þeirra framaverka. Gestr spurde konung. huerr uilldir þu herra hellzst fornnkonungr verit (hafa) ef þu ættir vm þat at kiosa. Konungr suarar. ek villde æingi hæidinn madr vera huarke konungr ne annarr madr. Gestr mællti. þat er liost at þu munt ecki annar madr vera en þu ert en at hinu spyr ek huerium þu uilldir likazstr fornnkonungi uera ef þu skylldir nockurum. nu er en sem adan segir konungr at ek villda ongum fornnkonungi likr vera. en ef (ek) skyllda nockut þar vm tala þa villda ek hellzst hafa atferd ok hofdingskap Hrolfs kraka þess þo at ek hellda allri kristni ok tru minne. Gestr mællti. hui uilld(i)r þu hellzst vera sem Hrolfr kraki sem ecki at manni matti hæita hia þui sem annar konungr sa er verit hefir. edr hui villdir þu æigi vera sem sa konungr er sigr hafde vid huernn

sem hann atti bardaga ok suo .var vænn ok uel at jþrottum buinn at æingi uar hans like a Nordrlondum. ok suo matti odrum sigr gefa j soknum sem sialfum ser ok suo kringr skalldskapr sem odrum monnum mal sitt. Konungr settizst þa upp ok tok til tidabokar er uar j sænginne ok ætlade at sla j hofut Gesti ok mællti. þu uillda ek sizst vera hinn ille Odinn. Segia menn þa suo verda vid Gesti at hann færi þar nidr sem hann var kominn. þottizst konungrinn þa vist uita huerr uerit hafde. gallt hann þa margfallt lof gude firir þat er sia vhræinn ande er syndizst j liking hins illa Odins gath ǫnga þa vel edr tal framsett at nockurnn skugga edr sorta [378] drægi a hit biartazsta blom hans hæilagrar truar. þat er sagt æitthuert sinn at æinn hirdmadr sa er æigi er nefnndr spurde Olaf konung þa er hann ræid med hird sina hea hauginum Olafs Gæirstada alfs. seg mer herra ef þer vorut her heygdir: Konungrinn suarar honum. alldri hafde ǫnd min .ij. likame ok æigi mun hon hafua æigi nu ok æigi a upprisudeginum. ok ef ek segda annat þa er æigi almennilig trua rett j mer. þa mællti hirdmadrinn. þat hafua .menn sagt þa er þer komut fyrr til þessa stadar at þer hefdit suo mællt. her uorum ok her forum. Konungrinn suarar. þetta hefui ek alldri mællt ok alldri mun ek þetta mæla. Ok komzst konungrinn vid miog j hugnum ok laust þegar hestinn sporum ok flyde sem skiotazst þann stadinn. ok uar þat audfundit at Olafr konungr uillde þessa uillu ok uantru med ǫllu eyda ok af ma þuiat guds leynda doma visse hann fullkomliga firirbodit vera at foruitnnazst framar en uile Jesu Christi stendr til þa liosa at gera.

---

HER HEFR UPP HINN NIUNDA (ÞAATT) OLAFS SOGHU HARALLDZSUNAR.

capitulum.

J þann tima er Olafr konungr sat j Sarpsborg bar þat til æinn tima at mikill madr ok okunnr gek firir konunginn ok kuaddi hann. en konungr tok honum vel ok spurde hann at nafnni. en hann nefnndizst Toki ok quetzst vera Toka son Tokasonar hins gamla. hann beidde konunginn at vera med hirdinne nockurt skæid. Konungr uæitti honum þat ok .skipade honum sæmiligt sæti. Toki (uar) faskiptinn ok drak longum litit. hann var sidugr ok vidfellinn ok þockadizst huerium

manni uel. þát fann konungr at Toki uar bade frodr ok frettinn leysti hann ok ór ollu uel ok uitrliga. þotti konungi hin mesta skemtan at rædum hans. þat sa menn at Toki uar gamall madr en þo sa þeir at hann hafde verit afburdar madr at uexsti ok uænlæika. þat uar æinn dag er konungr talade vid Toka ok spurde huersu gamall madr Toki væri. hann sagdizst þat ogerlla vita. en hitt ueit ek at mer var alldr skapadr at ek skyllda lifa .ij. mannzalldra ok þiki mer uon at þeir se bratt endadir at þui sem flestra manna alldrar gerazst. Konungr mællti. muna muntu þa Half konung ok recka hans edr Hrolf kraka ok kappa hans. Toki suarar. man ek þa huoratueggiu þuiat ek var med þeim badum. Konungr spurde. huorir þottu þer þar frægri. Toki suarar. þat skulu þer dęma herra en ek skal segia ydr þar til æinn æfuintyr. þa var ek sem ernnazstr madr ok for ek landa a mille ok hafda ek suæit manna ualda med mer. eftir þui sem mer þotti standa ok uit mitt hæfui vera þuiat ek þotti þa þeim fram fylgia er j freknara lagi voru. var þat ok satt at mer þotti þa fatt ufært. for ek þa vijda vm lǫnd ok uillda ek reyna orlæik hofdingia ok frægdir kappa þeirra. var þat ok lagit a mik med alldrinum at ek skyllda huergi una lengr en .xij. m(anudr) ok vissa ek at þat gek eftir. þa spurda ek til Hrolfs kraka orlæika hans ok millde frægda ok framauerka ok hraustleika kappa hans at þeir væri olikir ollum ǫdrum at afli ok allri atgerui. gerdumzst ek fuss at finna þenna konung ok kappa hans. for ek þa ok suæitungar minir þar til er ek kom fram j Danmorku ok a fund Hrolfs konungs. gek ek firir hann ok kuadda ek hann. en hann tok mer vel ok spurde huat manna ek væri en ek sagda honum. hann spurde mig at eyrindum en ek sogdumzst vilea þiggia at honum uetrvist. en hann kuezst vid ǫngann mann mat spara ok eigi munde hann vid mig fystann edr suæitunga mina. ek spurda þa huar ek skyllde sitia. hann bat mig þar sitia sem ek gæta rutt mer til rums ok kift manni ór sæti. ek bat hann hafa þokk firir. treysta ek mer þa hardla vel. red ek þar þegar a er sat Bauduar biarke. Konungr skilde þat til at þeir skilldu ecki moti briotazst. tok ek þa j hendr Bǫduari ok setta ek fæturna j fotskemilinn. let ek siga herdarnar en ek herda handleggina. treysta ek þa a af ollu afli. en hann sat kyrr suo at huergi gat ek honum vikit. en stundum var hann raudr sem blod en stundum bleikr sem bast edr blarr sem hel edr fǫlr sem nárr suo at ymsir þesser litir færduzst j hann suo bra honum vid. sidan tok ek j hendr Hiallta hinum hugpruda. herti sig þar huorr sem gat. hann ok ek. honum gat ek kift a framanverdan stok en þa gat hann ofallt vid rett ok settizst

nidr aftr firir mer. gek þessu nockura stund þar til at ek gafumzst upp tok ek þa til Huitserks hins huata ok treysta ek a sem ek orkada. gat ek honum þa fram kift ok suo huerium at ödrum. for ek suo j kring um hallina ok gek þadan af huerr ór [379] sinu sæti. sidan sat ek þar er mer likade ok minir menn. höfdu ver allir hinu sæmiligzstu sæti. uar þar hin mesta mikilmenzska a öllu ok þar hefui ek suo verit at mer hefir bezst þott at ollum hlutum. en er sumar kom gek ek firir Hrolf konung ok þackade ek honum vetruistina ok sagda ek at ek munda þa j brottu verda. en hann baud mer med ser at vera en ek unda þui æigi. for ek þa enn vida ok þar til at ek spurda til Halfs konungs ok recka hans. var mikit af sagt huilikir hreystimenn þeir voru. for ek þa enn þar til at ek kom hingat j Noreg ok a fund Halfs konungs. gek ek firir hann ok kuaddi ek hann en hann tok mer hardla vel en ek bæidda hann vetruistar en hann kuat mer þat til ræidu at sitea þar suo lengi sem ek villda verit hafa. ek spurde þa huar ek skyllda sæti hafa ok minir menn. hann bad mig þar sitia sem ek gæta kift manni ór rumi med iöfnum skildaga ok Hrolfr kraki gerde. geng ek þar at sem sat Vtstæinn jarll a adra hond konungi. tok ek j hendr honum ok ætlada ek honum ór sæti at kippa. herte ek mig þa af ollu megni ok gat ek ecki at gert. sidan gek ek til Jnnstæins. þa til Hroks hins suarta. þa til Bearnar suo til Bardar. gat ek ongum þeirra fram kift. þann ueg fór ek innann vm alla hallina at ek gat þar öngum ór sæti kift. ok þat er ydr sannazst at segia herra at æigi bra þar ser mæirr vid hinn yzsti madr ok hinn minnzsti helldr en Böduarr biarke. sidan gek ek aftr firir konung ok spurda ek þa huar ek skyllda sitia med þui at ek gæta huergi rutt mer til rums. hann sagde þa at ek yrda at sitia skör lægra en hans menn. fór ek þa til sætis þar sem mer var skipat ok minir menn. skorti þar öngan fögnut þann sem hafua þurfti. ok þar þotti mer ecki at nema þat æina er ek atti þar upp at sia til annara manna en adrir menn nidr til min ella hefdi mer þar bezst þott. skulu þer nu segia herra huorir frægri uoru. Audset er þat quat konungr at myklu sterkari hafua verit reckar Halfs konungs en æinge þiki mer verit hafa konungrinn samtida oruari ok betr at ser en Hrolfr kraci. en huort ertu skirdr madr edr æigi. Toki suarar. ek er primsignndr en æigi skirdr sakar þess at ek hefui verit ymizst med hæidnum monnum edr kristnum en þo trui ek a Huitakrist er ek nu ok þess eyrendis kominn a yduarnn fund at ek vil skirazst ok þann bodskap hafua sem þer biodit þuiat mer þikir æigi uist at ek muna þat af betra manni fa mega. Konungr vard vid þat gladr er hann

uillde skirnn taka ok gude þiona. var Toki sidan skirdr af hirdbyskupi Olafs konungs ok andadizst j huitauodum.

Sigurdr vann trollkonu.

108. Sigurdr er madr nefnndr hann uar son Aka Uagnnssonar hann uar rikr madr ok sat j Danmǫrkinne. hann fór ǫr lande æitthuert sumar til Uindlandz ok uar honum þat mest at eyrendum at afla ser dyrgripa þeirra er gerssimar þotti vera. ok er hann uar þar staddr þa kom til hans sa madr er Jon het at nafnni. hann byzst til þess at kaupa med fe Sigurdar gerssimar til handa honum ef hann villde. en þesshattar menn eru þar kalladir brokunarmenn er þa syslu hafua at kaupa med fiarhlutum manna ok uilea þann ueg firir tulka. Sigurdr þektizst bodit ok tekr Jon vid fenu ok verr. ok var madrinn kaupgegnn ok kaupir hann dyrliga gripe til handa Sigurde ok færir honum sidan ok likar honum uel ok launar hann Jone starfit ok gefr honum silfr nockut ok þat med at hann bydr honum med ser at vera ef hann villde. en Jon letzst æigi þat vilea ok skilia þeir nu. þess er vid getit ath Jon a ser fridlu ok byrr fadir hennar j dal æinum. þangat ferr hann a fund hennar þann sama dag er þeir Sigurdr skildu. ok vm kuelldit er þau voru j reckiu komin þa heyra þau vt gny mikinn ok þui næst reid ogurliga. ok vid þetta allt saman sprettr bonde upp ok gengr vt ok uill vita hueriu gegnir. Hann ser þar standa konu æigi þeckiliga ok bidr bonda giallda skulld sina. ok lęt ek mer lika segir hon huort þu uill geallda þig sealfan edr gestinn. Hann Jon heyrir þetta ok hleypr upp ok vt j þær dyrr er til sudrs horfdu ok uill forda ser ef hann ma. Hon getr at lita drosin huar hann hliop ok leggr eftir honum. en þo uerdr hann skiotari til tialldanna þar er þeir Sigurdr uoru firir ok þegar kallar hann Jon ok bidr hann healpa ser. Sigurdr kennir mal hans ok hleypr vt j tialldzdyrnnar med skiolld ok hefir brugdit suerd j hende. en Jon smygr inn hea honum j tialldit. ok er hon kemr vtan at tialldinu þa bidr son Sigurd brott ganga ór dyrunum en hann letzst þat æigi vilea. Hon hafde skalm j [380] hende ok lætr ser verda obilt ok leggr til Sigurdar skalminne en hann bregdr skilldinum firir sig. ok leggr hon j gegnum skiolldinn ok steypir ser vid nockut sua. en hann uikzst undan littat ok nemr hann þui æigi skalmaroddrinn. Hann hǫggr j moti med suerdinu ok slæmir til suo ok tekr af henni hondina. Hon þolir illa sarit ok hleypr a brott æpande en Sigurdr leggr eftir henni. ok er þau hafa hlaupit nockura stund þa snyzst hon vid honum Sigurdi ok mællti. þat er będe at þu hefir mik-

inn sigr unnit a mer enda mun þer suo þikia. en þo mæli ek þat vm at þu megir alldri sidan mannzblod sia. Nu leggr hon a brott en Sigurdr ferr aftr til tialldzsins. þeir fara nu þadan þa er þeim gefr byr ok kemr hann hæim i Danmork til æignna sinna. hann er iafnan med Knuti konungi ok uirdr uel af honum.

## Olafr konungr bætti vandkuǫdi Sigurdar.

109. Fra þui er sagt at æinhueriu sinne sagde Alfifa konungi fra Sigurdi at hann hefde unnit mikinn sigr a flagde nockuru ok sagde hon þenna atburd ok þat med at þo lægi a miog mikit um suo hraustan menn ok uaskann ef hann skyllde alldri blod sea mega. þessi hlutr hafde leyniliga farit ok æigi þottuzst menn vita hui hon hafde þessa uor. ordit. konungr suarar henni ok qaat þetta æigi mundu satt vera. þa mællti hon at hann skillde raun til gera. ok muntu þa vita segir hon huort satt er edr æigi. Hann uekr ser nu blod ok berr j augsyn Sigurdi. ok med þui at hann var uitr madr þa fær hann ser þess rads læitat at hann verdr æigi greidliga berr um þetta mal ok vard tuimæli a. nu grunar þo konung at satt muni vera ok leggr hann a Sigurd ouirding mykla ok fæd. Ok æitt sinn er konungr ferr or lande j herfǫr ok skyllde Sigurdr fara med honum þuiat konungr uillde firir huern mun at hann færi med honum. en þorarinn het fostri Sigurdar ok gera þeir nu þat rad med ser at þorarinn skal vinna a Sigurdi firir þui at hann uill æigi fara j herforina. ok uæit hann huat til uannkuæda er ordit vm hag hans. þeir stilla nu suo til at þorarinn gerir sig druckinn af vine ok adr hafua þeir suo latit sem þeir væri missattir ok hleypr þorarinn er hann er druckinn eftir Sigurdi ok leggr spioti (til) hans. ok telst Sigurdr æigi færr nu j herfor þessa sakir sárs þess er hann fek af spiotinu. Konungr verdr vid þetta akafliga ræidr ok uillde at Sigurdr hefde farit þuiat honum þotti þess uon at þa munde bert verda huort hann mætti sia blodit ok uillde konungr lata drepa þorarin. en Sigurdr bad honum fridar ok lætr konungr þat gangazst ok er nu suo buit. Alfifa tiar nu firir konungi ok kallar æigi suikalaust vera mundu þetta bragdit ok segir nu huersu farit hefir um auerkann ok kuetzst spurt hafa allth rad þeirra. en æigi vissu þeir hui hon hafde fregit þetta þuiat þeir þottuzst þetta bragd leyniliga gert hafa med ser. ok nu af fortolum hennar reiddizst konungr Sigurdi ok rak hann fra ser ok bidr hann ecki uerda þar j landi ok quat honum æigi hlyda mundu nema hann gerde suo. Ok eftir þetta ferr Sigurdr ór lande. hann ferr til Noregs unnz hann kemr a fund Olafs konungs.

hins digra. hann kemr þangat a hinne efzstu uiku langafostu en æigi kemr hann fyrr til mals vid konung en a paskadaginn ok gengr firir konung ok kuedr hann. Konungr spurde huerr hann uæri. en hann nefnir sig ok letzst vera danskr madr. æinn vissa ek Sigurd j Danmork segir konungr þann er mikils uar virdr ok er mer minne uon nu þess her. þat kann þo vera segir Sigurdr at sa hinn sami se nu her kominn. Ok sidan hefr hann upp sǫguna ok segir konungi allan atburd þangatkuomu sinnar ok suo firir hueriu mæine hann uar ordinn ok sidan skilnat þeirra Knutz konungs. Olafr konungr harmade þat miog er suo dyrligr hofdinge uar suo þungt leikinn ok letzst kynligt þikia er Knutr konungr uillde suiuirda hann firir þessa sok sligt vinfæingi sem adr hafde verit þeirra a mille. ok nu tekr Olafr konungr ok ristr kross j lofa ser suo at blod kemr vt ok mællti sidan. lit hingat nu Sigurdr. Hann gerir suo ok fær nu seth blodit suo at honum bregdr ecki vit ok alldri sidan uard honum at þessu mein. ok uar hann oft þadan j fra j storum mannhættum ok uar ofallt hinn uaskazsti madr. Sigurdr er nu med Olafi konungi ok er j mikille sæmd ok godri uirdingu af honum ok ferr nu þui fram um hrid. Nu kemr þar at Knutr konungr spyrr þetta at Sigurdr er med Olafi konungi ok uel virdr af honum ok hann er nu slikr madr firir ser sem adr. ok sendir hann menn sina eftir honum ok bydr honum til sin ok hæitr honum nu sinne uingan sem fyrr hafde verit. nu finna þeir Sigurd ok segia honum ordsending Knutz konungs en hann færr þui suo suarat at hann letzst æigi mundu skiliazst uit Olaf konung suo mikit gott sem hann ætti honum [33 l] at launa. ok þat þickiumzst ek vita segir hann huorum þeirra Olafs konungs edr Knutz konungs er mæire sæmd at þiona ma ek þar um taka merki a sealfum mer. Fara nu sendimenn aftr til Knutz konungs ok segia honum suo buit. en Sigurdr er med Olafi konungi j godri virdingu.

## Jsleifr feck Dǫllu er siþan var byskup.

110 þat er nu þessu næst at segia at Jslæifr son Gizsorar huita ver uænn madr ok tiguligr ecki mikill uexsti manna uinsælazstr. hann uar ungr j skola a Saxlande. þes er getit æitthuert sinn er hann fór sunnan ok kom vid Noreg þa var med Olafi konungi Brandr hinn ǫrui. Konungr uirde hann mikils ok a æinne hatid mællti konungr. Brandr þigg at mer skikkiu þessa. þat uar skarlaks mǫttull ok undir gra skinn. þeir Brandr ok Jsleifr funduzst j bænum ok uard þar fagnafundr. Jsleifr uar þa prestr ok felitill er hann kom sunnan ór lond-

um. þa mællti Brandr. þu skallt þiggia at mer skikiu þessa er konungrinn gaf mer. Hann suarar. æigi hefir þu enn tapat ǿrlyndenne ok uil ek giarnna þiggia. Ok æinn hatidardag er Brandr uar at konungs borde þa mællti konungr ok læit til hans. hui skal nu æigi hafa skickiuna Brandr er ek gaf þer. Hann suarar. herra gefit hefig[1] hana presti æinum. Konungr mællti. sia uillda ek prestinn ok uita huer uorkunn mer þikir a er þu logadir suo skiott konungs giofinne. Menn toku ok suo undir at hann færi undarliga med þuiliks mannz giof. ok at kirkiufunde talade Brandr til konungs. herra þar stendr hann nu þar prestrinn vid kirkiuna ok er j skikkiunne. Konungr læit til hans ok mællti. hinn ueg munu vit nu breyta Brandr þuiat nu uil ek gefa honum skickiuna ok kalli hann til min prestinn. Brandr kuetzst þat giora mundu. Sidan kom Jsleifr firir konung ok kuadde hann. Konungr tok vel kuediu hans ok mællti. skickiu þa prestr er Brandr gaf þer hana uil ek gefa þer ok mun ek giallda Brande verd firir þuiat sua litzst mer a þig at ek uil fela mig undir bænum þinum. Hann suarar. herra allgod þotti mer adr giofin Brandz en þo myklu meiri virding at þiggia af ydr uit þessi ummæli. Sidan for hann til Jslandz ok þotti frændum hans rad at styrkia hann med kuonfange. Hann uar madr felitill en atti stadfestu goda j Skalahollti ok godord. sidan for hann nordr j Videdal til Asgeirsár. þar bio sa madr er þorualldr het hann atti dottur er Dalla het. þeir komu þar snemma dags ok kuaddi bonde þa ok baud þeim þar at vera. Jsleifr quat þa talazst mundu fyst vid þuiat suo stennzst af ath ek ferr bonordzfor þingat ok bidr ek dottur þinnar. Hann mællti. godar frettir ganga fra þer. en suo vil ek þessu mali suara at þu skallt radazst nordr hingat ef þu uill radahaginn. Hann suarar. æigi get ek at mer synizst þat at lata stadfestu mina ok manna forrad ok suæit ok munu ver helldr skilia. Sidan sneru þeir hestum sinum ok ridu. en hon Dalla uar uppi a heydes ok uar hin uænligsta kona. gek þorualldr þangat. Hon mællti. huerir komu menn oss okunnir. Hann sagde henni. Hon mællti. huert uar eyrendi þeirra. Hann sagde at bonordzfǿr var til hennar. Hon mællti. huersu suaradir þu. Hann segir henni þat. Hon mællti. æigi mundi þetta firir hafua stadit radahagnum ef ek hefda radit. Hann suarar. ertu þessa miog fus. Hon suarar. firir þat mun ganga þuiat ek hafui þa metnadargirnnd at æiga hinn bezsta manninn ok hinn gofgazsta soninn med honum er a Jslande mun fædazst. þiki mer æigi vradligt at gera eftir þeim. Hann mællti. ecki hafua þin rad litit matt her til. Sidan uar eftir þeim ridit. Nu segir

[1]) hafig *Cd.*

þorualldr at hann kuetzst ætla at æigi munde þat uit nema radahagnum þott æigi redizst hann nordr þangat. Jsleifr letzst þessum malum uel kunna. Sidan uar hon gift honum ok bygdu sidan j Skalahollti ok attu at sonum Gizor ok Tæit ok þorualld ok uoru allir gôfgir menn þo at æinn bæri af ollum. Gizôrr uar mikill madr ok sterkr. sidan var þat rad landzmanna at hafua byskup nokkurnn yfir ser ok uar til þess ualinn Jsleifr ok for hann utan ok kom ut ok uar j Skalahollti. en Dalla uillde bua a halfu landi þa uar um ohæginde at læika med monnum at skifta feam med þeim. tiundir uoru þa ôngar en tollar voru þa til lagdir vm land allt. Jslæifr uar hinn agætazsti madr j sinum hattum. med honum var uppfæddr Jon Augmundarson er sidan uar byskup a Holum. ok mællti hann þeim lofsordum til Jsleifs at iafnan þa er menn ræddu um þa menn er uænir voru edr hagir edr at odru uel. suo uar Jsleifr fostri minn hann uar manna uænstr manna hagazstr allra manna bezstr. þa mælltu þeir. huerr gat nu [382] hans. Hann suarar. þa kemr mer hann j hug er ek heyri gods mannz getit. hann reynda ek suo at ollum hlutum.

## Olafr konungr for til Danmerkr i Limafiord.

111. A einhueriu sumre er sagt at Egill son Hallz af Sidu for utan af Jslande til Noregs med þeim manni er Tofui het ok uar Ualgautzson Tofui uar gautzskr madr ok gofugr at kyne. Suo er sagt at Ualgautr fadir hans væri jall a Gautlandi. þeir Tofui fedgar voru oskapliker þuiat jarll var blotmadr mikill en Tofui lagdizst j uiking a unga alldri ok tok hann þa þegar skirnn ok retta tru. Tofui uar a uist med Agli Hallzsyne um uetrinn a Jslande adr Egill for vtan med honum. þeir urdu uel ræidfara um hafit. koma vid Noreg ok foru a fund Olafs konungs. tok hann uit þeim uel ok baud þeim med ser at vera ok þeckiazst þeir þat. Suo segia sumir menn at þorlaug kona Egils færi med honum ok þorgerdr dottir þeirra ok væri hon .viij. uetra gômul. ok er þeir voru med konungi uirde hann þa mikils ok þikir Egill vera merkiligr madr sem likligt er firir tilbrigda sokum. skemmu læigdu þeir til handa þeim mædgum þa er þeir voru til hirduistar ok bygdu þær þar um hrid. þat er fra sagt at þa er þeir hofdu verit nockura stund med hirdinne at þeir oglediazst miog ok finnr konungrinn þat bratt ok spyrr huat til kome. Egill suarar. mer þætti þat vera meiri somi herra at þær uæri med hirdinne kona min ok dottir en firir uanda sakir kunnum ver þess æigi at bæida. þat vilium ver þo giarnna gera segir konungrinn ef ydr likar suo betr.

ok nu fara þær þangat til hirdarinnar. Ok er konungrinn ser meyna Þorgerde dottur Egils þa mællti hann. quaz þess uænta at hon munde æigi gæfulaus. ok suo gafzst ok sem likligt var þuiat hon er modir Jons byskups hins helga. Nu eru þau ǫll saman med hirdinne vm uetrinn ok er uorar þa spyrr Tofui ef hann leyfde þeim kaupferd at hafua vm sumarit þangat er þeim syndizst. en konungr letzst æigi lofa sumarlangt firir þui at mer eru send ord af Knuti konungi at ver skulim æiga sattarfund j Limafirde j Danmorku j sumar ok ætla ek at koma til stefnnunnar. Ok nu byzst Olafr konungr til ferdar þessarrar ok hefir hann .ix. skip ok goda[1] skipan. ok fara þeir med honum Tofui ok Egill. Ok er nu ecki getit um ferd konungs adr hann kemr j Limafiord. ok er þeir eru þar komnir þa er Knutr konungr æigi þar kominn ok var hann vestr a Æinglande. nu uerdr Olafr konungr varr þess at Knutr konungr uar j suikum vid hann ok hyggr at sækia fund þenna med fiolmenni. ok segir Olafr konungr nu monnum sinum hueria frett hann hafde af Knuti konungi. ok uil ek æigi at ver bidim hans her ok þiki mer hann nu brugdit hafua fyrre þessum sattarfunde ok munu ver nu fræista at gera her upprasir ok heria a land Knutz konungs ok giallda honum suo suikin ok ginning þessa. Þeir ganga nu af skipunum ok gera uppras harda a landit ok uerdr folkit hrætt ok afla þeir mikils hlutskiptis j fearhlutum. Konungrinn mællti suo firir at þeir skyllde taka .xv. uetra gamla menn ok ellri ok læida ofan til skipa. Ok nu fa þeir fe mikit ok marga herteknn(a) menn. landzlydrinn flyr undan en þeir reka flottann konungsmennirnir. ok þar kom at konungr mællti at stodua skyllde lidit ok huerfa aftr. þuiat ek se bragd þeirra at þeir munu þegar uid nema er þeir fa ser afla til en flyia undan þar til ok teygia oss suo fra skipum uorum. Nu snua þeir til skipanna ok er þeir koma þar allir þa bidr konungr þa buazst til brotferdar. ok suo gerdu þeir ok liggia sidan albunir ok hafa tiolld a lande. ok uoru þar uarduæittir j bǫndum hinir herteknu menn ok uar þangat at heyra óp ok uæinan. Suo er sagt at Egill Hallzson rædir uit Tofua felaga sinn. þetta eru ill læti ok hormulig er menn þessir hafa ok mun ek fara ok leysa þa. Ger æigi þat vinr segir hann Tofui þuiat konungr leggr þar firir ræide sina ok uillda ek giarnna at þu yrdir eigi firir þui. Æigi ma ek þetta bera segir Egill myklu er folk þetta aumara uil ek æigi heyra læti þessi lengr. Sprettr upp sidan ok ferr til tialldzins ok leysir bandingiana alla ok lætr a brott hlaupa ok eru þeir senn ǫr augsyn. Nu er sagt konunginum at mennirnir voru

[1]) godan *Cd.*

a brottu ok suo huerr þa hafde leysta. en hann vard vid þetta ræidr ok segir hann skulu her firir hafa mikit vite ok sina ræide. ok er þat nu þo kyrt vm nottina ok frettir Egill þetta ok litzst nu misradit.

### Konungr hialpadi Eigli.

112. Um[1] morgininn eftir þegar þeir voru bunir lata þeir ór læginu. þa kemr þar madr af lande ofan hlaupande geystr miog ok kallade ut a skipin ok segir sig æiga naudsynia eyrendi [383] at finna konunginn. en þeir gefa ǒngan gaum at kalle hans. Toku þeir þa at sigla med biorgum nǒckurum fram ok bar æitt skipit fram hea ǒdrum skipunum nockut suo. ok er þeim manni er kallat hafdi þotti þeir daufheyrazst uid þa hleypr hann fram eftir biorgunum ok kastar ofan a skipit þat er fyst ferr glofum ok syndizst þeim suo sem dust ryke af þeim. ok sidan hleypr sa madr a brott. en þat fylgir sendingu þessi at sott kemr a skipit mikil ok tekr suo fast at menn fa uarlla borit væpande ok fengu margir bana af. ok nu tekr Egill sottina ok suo harda sem þeir menn er hardazst fengu af þess er æigi gek ǒnd ór honum. en hann bar suo prydiliga at æigi kom stynr ór halse honum. hann mællti vid Tofua at hann skyllde segia konungi at hann uillde giarnna hitta hann. Tofui gerir suo at hann ferr a fund Olafs konungs ok segir honum suo at Egill er siukr ok hann uill hitta hann. en konungr suarar honum ongu orde. Tofui bad hann þarfliga ok sagde naudsyn a vera at þeir fyndizst. en konungr uard suo ræidr Agli at hann uill æigi fara at finna hann. sidan segir Tofui Agli suo buit. Egill bidr Tofua fara j ǒdru sinne ok flytia sitt mal vid konunginn. ok gerir hann suo ok segir konungi at madrinn er framkominn miog ok uill nu idrazst miog at hann hefir j moti ydrum vilea gert ok uill nu leggia allt a yduart ualld herra ok ger nu suo uel at þu firirlit æigi manninn suo miog ok miskunna honum. Konungrinn litr uid Tofua ræiduliga ok bidr hann brott ganga. Tofui segir Agli huar komit er ok þikir Egli nu mikils vm vert. fæingith ræide konungs fyst at upphafui en ordinn nu firir suo myklu afelli at hann þikizst æigi uita huernn enda hefir. ok nu mællti hann enn vid Tofa. gak nu ok finn vin minn Finn Arnason ok bid hann ganga firir konung ok bidea mer eirdar af honum at hann firirliti mig æigi suo sem a horfizst. Nu hittir Tofui Finn ok segir honum malauoxstinn ok gengr hann þegar a konungs fund ok Tofui med honum. ok sidan mællti Finnr. herra segir hann ger nu firir ydra tignn at þer healpit uid manninum er nu liggr

[1]) Em *Cd.*

dauduona ok seait huersu mikill dreingr hann er ok hreystimadr. þat færr æingi madr skilit at stynr komi ór halse honum. hygg at at tignn ydr uaxi vm þetta mal firir uorn vinskap. þa gak nu til hans ok lat hann niota þinnar gætzsku. Konungr suarar. hitt hugda ek at æingi skyllde briota min bod en firir þin ord Finnr þa ma ek ganga a fund Egils. ok uist villda ek þess gud bidia at hann ledi honum lif til þess at ek mætta hefnna honum ok fa fullt viti firir þat at hann gerde. Ja herra segir Finnr þat er a ydru uallde. Nu ferr konungr a fund Egils ok ser hann uera miog mattfarinn ok er eitt allra manna ord at æigi hefde set hraustara mann. ok nu ser Egill at konungr er kominn ok fagnar hann honum uel en konungr tekr ecki quediu hans. Sidan mællti Egill. þess uil ek ydr bidia herra at þer takit hende firir briost mer ok væntir ek mer þar af miskunnar þo at ek hafua æigi uerdleika til. þat þikir monnum a finnazst at konungi þotti mikils um uert ok bra duki um augu ser. leggr sidan hendr sinar a briost Egli ok mællti sidan. þat ma um mæla at þu ert nærr ærit hraustr. Suo er fra sagt at vid atak hans linar þegar sottinne ok hægizst miog. en konungr gengr a brott fra Egli ok batnar honum stund fra stund ok þar kemr at hann verdr alhæill. En þat er sognn manna at Knutr konungr hafui keyft at æinum finnzskum manni ok fiolkunnigum miog at hann skyllde fara til Limafiardar a fund Olafs konungs ok skyllde gera suo af sinum kænleik at konungr ok lid hans fæinge sott mykla ok illa suo at þeir fengi alldrtila af ef nockut dueldizst ferd þeirra Olafs konungs ok mętti hann finna þa. ok hafui sa þesshattar madr verit er glofunum kastade. Ok er nu ecki getit um ferd konungs adr hann kemr heim j land.

## Valgautr jarl tok skirn.

113. Einn dag bar suo til at Egill ok Tofui gengu firir konung. fellu þa fram ok badu af ser ræide ok bioda konungi firir sig febætr suo sem hann uill sealfr gert hafua. en konungr kuetzst ecki uilia fe þeirra ok segir æina lausnina til uera a þessu mali. Huat er þat herra sogdu þeir. Alldri komit þer j uort uinfeinge segir hann nema þui at æina at af ydrum brogdum ok kænleik verde þit suo rikir at Ualgautr fadir þinn Tofui komi a uornn fund. nu ef suo uerdr þa skulu þit lausir vera undan þessum sokum. Tofi suarar. þat er skiotazst um at ræda at firir allt fram uilldim ver æigi hafa [331] þina ræide. en þo er þat alluist at þessu verdr æigi a læid komit nema þinnar hamingiu nioti vid. þuiat firir þa sok er ek æigi hæima med fedr minum at hann

setr allann sinn matt ok kraft j moti kristnum domi ok vill firir ongan mun þann sid taka. en þo skulum ver vid læita at gera þetta med yduarre forsia. Nu bua þeir Tofui ok Egill ferd sina til Gautlandz ok fara sidan unz þeir koma a fund Ualgautz jarlls ok ganga firir hann ok gengr Tofui fyrre ok quedr hann sidan. Hann fagnnar honum uel ok hans forunautum ok bydr honum med ser at uera. ok uilldim uer nu sonr at þu flæmdizst æigi fra oss j brott ok uerit nu her ok styrit riki þessu med oss þuiat þetta er ydr æignn eftir oss sem þer uitit. Tofui suarar. þetta er uel bodit fadir segir hann sem uon var at ydr. en þo mun nu æigi suo buit uera mega at sinne þuiat her liggur vid nu lif uort at þer takit uit oss blijdliga ok latit suæigiazst eftir uorum uilia. þuiat Olafr konungr hefir þat a lagit vit oss ok sende oss hingat þeirra eyrenda til þin at þu komir a hans fund. en ef ver getum æigi þessu a læid komit þa var þat a lagit vid oss at ver skylldim tyna allri hans vinattu ok þar lifuinu med. ok er þat sannazst vm at ræda at Olafr konungr er hinn mesti agætismadr ok olikr odrum monnum ok þat fylgir med at æingi madr ma þat ordum inna huersu mikit at skilr siduna þann er konungrinn hefir ok þeir allir er hans ordum hlyda edr sa se(m) þu hefir ok adrir hæidnir menn. ger nu suo uel firir þinn manndom ok uora frændsemi ok fylg at um þetta mal sem uór er naudsyn til ok uile. Jarll spratt upp vid ok suarar med mykille ræ(i)de ok sór vm at hann quat alldri uit sig mællt hafa verit slik endimi at hann munde lata sid sinn þann er hann hafde lengi hafdan ok hans ættmenn. edr ek munde koma a fund þes konungs er mer er allra manna oskapfelldazstr þeirra er ek hefui spurdaga til. ok hefir þu j mȯrgu lagi sundr sagt vorre frændsemi ok standi menn upp ok taki hann ok seti j myrkuastofu ok alla forunauta hans. Jall var nu suo ræidr at storum bar. ok uar nu suo gert sem hann mællti at þeir voru byrgdir j myrkuastofu. Annan dag eftir er þat sagt at menn ganga med hȯfdingium ok vinum jarlls at bidia at hann uægi syne sinum ok honum same æigi at þreyngia hans rade. ok er þat uegr yduar sogdu þeir. takit nu upp helldr nockut gott rad ok sæmiligt sem þer erut likligir til þegar þer hugsit malit ok ræide ydr sefazst. Jarll suarar ok spurde huerr sa uar hinn mykle madr er næstr gek Tofa. læide þann hingat til mals vid mik. Nu er suo gert ok er Egill kom firir jarll þa spurde jarll huerr hann væri. en Egill segir honum deili a ser. þa mællti jarll. huat kantu at segia mer fra konungi þessum honum Olafi edr huern ueg barst at er þit fæingut hans ræide. Egill segir honum nu alla tilstȯdu um þetta ok talar þar sidan sniallt eyrinde þuiat hann

var vel ordfærr. undruduzst þeir miog er hea voru hans ordsnilld. sidan segir hann jalli huerr agætismadr Tofui var ok huersu gott var slikan son at æiga ok bidr hann nu gera honum sæmd ok virding firir menzsku sokum ok frændsemi. Jarll mællti þa at Tofui skyllde þangat koma ok var þa suo gert. þa mællti Valgautr jarll er (hann) uar þar kominn. suo virdizst mer segir hann sem ydr þiki at synu ganga at konungr yduarr hafui rad mitt allt j hondum ef ek kemr a hans fund. en nu firir þa sôk at þer hafit a honum ast mykla ok vilit hans vilia gera j þui er þer megut en hafit honum æida suarit ok lif yduart vid lagit. en mik væntir þo þess þo at ydr þiki þat olikligt at konungr yduarr neyde mik til æinskis hlutar þott ek komi a hans fund. ok er ek j trausti vm þat at suo mun kraftr ok mattr godanna skyla oss at ek verdr ecki naudungarmadr konungs þessa. en firir snilld þessa mannz hans Egils ok firir þat annat at ek se reyndar er ræide gengr af at æigi byriar mer at gera Tofua liftion þa er nu suo komit at ek mun fara med ydr ef þer uilit ok med ôngum fiolda lids ef þer kallizst þa lausir vera ok syknir ef konungr ser mig ok ek kemr a hans fund. en ecki berumzst ek þo þat firir at taka truna þa er hann bodar ok fyr skulu brenna þorp ok kastalar j minu riki ok margr godr dreingr latinn en ek iata mig undir þessa uhæfu. Nu eftir þetta byzst Valgautr jarll til ferdar med þeim ok fara sidan unnz þeir koma til Noregs ok a fund Olafs konungs ok þeir Tofi ok Egill. ok kallazst nu lausir vera þessa mals ok undan ræide konungs. en konungr quat at visu suo vera. Nu hafa þeir þar godar vidtôkur ok um morgininn [335] eftir læitar konungr eftir vid jarll ef hann villde taka truna ok telr þat firir honum met morgum ordum ok merkiligum. Ualgautr jarll suarar ok sagde at þat munde alldri verda hans rad kuat ecki þurfa mundu sligs vid sig at læita. Konungr mællti. suo mun monnum nu synazst at ek hafui ualld ok riki til þess at neyda þig til truar ef ek uil. en þat uil ek þo æigi gera firir þui at þat verdr þęgt mest j guds augliti at monnum se æigi naudgat til at gerazst guds þionar ok uill gud æigi naudga þionustu en uerdr feginn þeim huerium er til hans uilia snuazst at sialfræde sinu. Nu lætr konungr jarll a brott fara j fride ok dualar hann ecki brottferdinne. en suo liggr læid þeirra at skogar myklir eru þar sem þeir fara. ok er þeir jarll ok hans forunautar voru komnir j æinnhuerna skog ok voru æigi langt farnir fra þui er þeir konungr funduzst ok þar tekr jarll sott mykla ok hættliga. ok þegar sendir hann menn aftr a fund Olafs konungs til þess at hann villde at konungrinn kæmi þa at hitta hann. Nu fara þeir at finna

konung ok segia honum at jarll vill hafa hans fund. ok þegar ferr konungr med þeim ok hittazst þeir jarll ok segir hann konungi at nu vill hann taka truna. en konungr tekr þat med þockum er hans hugr hefir suo vel skipazst. sidan fek konungr kennimann til ok var jallinn nu skirdr. Ok þa er þui embætti var lokit þa mællti jarll. nu uil ek æigi at ek se a brott færdr ór þessum stad þuiat mer segir suo hugr um at ek muna æigi marga daga lifa hedan j fra. en ef suo verdr þa vil ek þess bidia at her se kirkia ger til salubotar mer j þessum stad sem ek hefui staddr verit ok skirnn tekit ok se þar fe til lagit suo at su kirkia megi uel halldazst firir þeim sokum. Suo er sagt at jarll var nærgætr ok andazst hann ok er suo gert sem hann bad at kirkian var ger ok fe til lagit. en Tofi sonr hans tok riki þat er hann atti a Gautlande ok var hann hinn mesti agætismadr. Egill var nu hinn kærsti vin Olafs konungs j annat sinn ok for hann til Jslandz til ættjardar sinnar ok þotti vera hinn bezsti dreingr.

---

## HER HEFR UPP ÞAATT ÞORMODAR KOLBRUNAR SKALLDZ.

### capitulum.

Kon(un)grinn Olafr uar hardla vinsæll af sinum monnum sakir orlæiks ok allrar atgerui æigi at æins j Noregi helldr j ollum hans skattlondum ok vida annars stadar. Nu uikr sogunne ut til Jslandz ok tekr þar til er þormodr Bessason for hæim til fôdr sins a Laugabol eftir er þeir þorgeirr Hauarsson skildu felag sitt ok uar þar miog marga uetr. honum þotti jafnan daufligt hæima. Kona het Grima er bio j Augri. hon uar eckia uel fiaræigande. þat uar mællt vm Grimu at hon kynne mart firir ser ok var hon kollut af sumum fiolkunnig. nu firir þui at kristne uar ung ok miog vanger þa syndizst suo sumum monnum sem þat uæri atgerui at madr væri fiolkunnigr. þordis[1] het dottir Grimu er þar ox upp med henni heima hon uar væn ok vinnugod. Kolbakr het þræll hennar hann uar mikill uexsti ok sterkr madr. þormodr lagde iafnnan kuomur sinar j Augur ok var jafnan a tale vid þordise ok af hans kuomum ok tale kostudu þui sumir til at þormodr fiflde þordise. ok er Grima visse þat þa kom hon æinhueriu sinne at

[1]) þ'dise *Cd.*

male vid þormod ok mællti. þat er ordtak margra manna at þu fiflir dottur mina þordise. en mer er þat litt at skapi at hon hlioti af þer nockut ord. æigi firir þui at henni se uanbodit þar sem þu ert helldr firir þa sok at vera kann at þeir menn er til hafa gerst at bidia hennar vile hennar æigi fa ef þeir uita at þu ert nockut vid hennar mal ridinn. ma vera at þeim synizst troll nær dyrum standa þar sem þu ert. nu ef þu uill bidia hennar þa mun ek gefa þer hana. þormodr suarar. vel fara þer ord um þetta mal ok skal ek meta nockurs þin ord. en æigi er skaplynde mitt suo buit til þess at kuænazst þo æski ek mer æigi framar en æiga dottur þina en þo mun þat firirfarazst. Nu skiliazst þau at suo mælltu. ferr þormodr heim ok hefzst heima vid þat sem eftir uar sumarsins. Nu er uetra tok þa gerdizst islǫg mikil ok færdir godar. lagdizst iss yfir uikina Augursuik. þormodi þotti daufligt heima þuiat fatt uar til skemtanar a Laugaboli. endrnyiar hann þa farirnnar j Ögur til hials vid þordise. kemr þa hinn sami ordromr aftr vm vinfæinge þeirra þordisar. þormodr hafde skiolld ok suerd iafnan j Ögur þuiat hann atti sokott vid marga menn. Grima [386] ræddi þa enn um vid þormod at hann skyllde af venia kuomur þangat ok firra suo dottur sina amæli. þormodr suarar uel en þo kom j sama stad nidr þat barst at æinn dag þa er þormodr uar þar kominn at Grima mællti vid Kolbac. ek vil senda þig inn j hus med uindur nockurar er hafua skal j uef þann er þar er ofinn. Hon lykr upp ǫrk æinne er hon atti tekr þar uindur nockurar ok æitt mikit sax bitrligt. lætr þat koma j hendr Kolbak ok mællti suo. haf þetta ok gak æigi slyppr. Hann tok vid saxinu. Grima let koma vindurnar medal stakka honum. hon fór hondum vm hann allan. Eftir þat for Kolbakr læidar sinnar. vedrit tok at þykna ok hlana tok af fol þat er fallit hafde. ok er þormodr ætlade hæim [mællti þordijs.[1] þat uillda ek at þu færir hit efra um Ögursuik ok hit efra inn eftir hlidinne til Laugabols. þormodr mællti. huat berr til þess at þu uill at ek fari adra leid heim. þordijs suarar. vera kann at ijs hafui uestnnat at uikinne j dag er uedr hefir verit hlætt ok uillda ek at þu færir ǫnga slysfǫr. þormodr suarar. ǫruggr mun iss vera. þordijs mællti. æigi bid ek þig flæira en suo at mer mun verr þikia ef þu syniar mer. Nu hæitr þormodr henni at fara þa leid sem hon bad. Sid um kuelld fór þormodr heim ór Ögri. ok er hann var skamt a leid kominn bregdr hann a sitt rad ferr hit gegnsta inn yfir Uikina a ise. Saudahus stod firir innan uikina. þormodr gek firir saudahus dyrnar ok j þui bile hliop madr ór husinu med brugdit

[1]) [þordijs mællti *Cd.*

sax ok hio til þormodar. þat hȯgg kom a hond þormodi firir ofan ȯlboga ok uar þat mikit sár. þormodr kastar skilldinum ok bregdr hinne uinstri hende suerdinu ok hȯggr nu badum hondum til Kolbaks ok lætr skamt hȯggua a medal. suerdit bæit ecki þuiat Kolbakr uar suo miog magnnadr at hann bitu æigi jarnn. Kolbakr hio æigi oftar til þormodar en vm sinn. þa mællti Kolbakr. kost a ek nu þormodr allz vid þig þess er ek uil en nu mun ek æigi meira at gera. Kolbakr snyrr heim ok segir Grimu tidendin. henni þotti hann hafa oflitit at gert. þormodr ræist j sundr linbrok sina ok batt sár sitt ok gengr heim vid suo buit. Verkakona bæid þormodar j stofu ok var þar lios en adrir menn j reckiu komnir. þormodr neytti litt matarins. gridkona serr at hann var blodugr. hon gengr fram ok segir at þormodr er heim kominn ok klæde hans voru blodug. Bessi riss upp ok gengr j stofu ok hæilsar þormodi ok spurde tidenda. en þormodr segir fra funde þeirra Kolbaks. Bessi mællti. var suo at Kolbak bitu æingi jarnn. þormodr suarar. oft hio ek til hans ok bæit æigi helldr en ek berda med talknskide. Bessi mællti. þar kom fram trollskapr Grimu. en æigi er synt hue nærr þessarrar sneypu verdr hefnnt þuiat vid trollskap er at eiga. Bessi bindr sár þormodar þuiat hann uar læknir godr.

## Kolbak vard brott komit

115. Um morguninn eftir ferr Bessi vid marga menn j Ȯgur. ok fyrr en þeir komu a bæinn þa mællti Grima vid huskalla sina. nu skulu þer aller fara j stofu ok skipa bek hinn oædra ok sitia þar j dag medan þeir Bessi eru her. þeir gerdu sem Grima baud þeim foru j stofuna ok skipadu hinn oædra bek ok allir uopnnadir. Grima skipade Kolbak a midiann bek ok bra hondum sinum yfir hȯfut honum. Nu koma þeir Bessi a bæinn ok drepa a dyrr. Grima gengr vt ok hæilsar þeim. Bessi segir. þat ætlum ver at þer þiki litit undir um uora hæilsu en þat vitum ver uist at oss þikir æigi uerr ath þu uærir æigi hæil. Grima suarar. miog kemr mer þetta ordtak a uuart þuiat ver hugdum at þu uærir vinr uorr sem ver erum þinir. edr segi þer nockur tidende. Bessi suarar. þau æin segium ver tidende at ver hyggium ydr adr kunnig vera. Grima suarar. ver hofum æinge tidende nyliga spurt edr huat kunni þer oss at segia. Bessi mællti. ver kunnum þau at segia at Kolbakr þræll þinn vann a þormodi syne minum. Grima suarar. þat eru ill tidende ok mikil ok ma þo vera at sȯnn se þuiat ek senda hann j gearkuellde inn j hus med ueft ok kemr hann æigi hæim. ma vera at

hann hrædizst auit min þuiat hann væit huert vinfæinge mer er vid þormod. mig hefir grunat at Kolbakr hafui þotz vera j þingum vid þordijse en nu hefir hann synt mykla folsku er hann hefir unnit a godum dreing firir uandlætis sakir ok fært suo amæli a hendr dottur minne en gert oss skǫm ok klæki. er ek skylld til at reka þessa rettar sem ek hefir fǫng aa. Bessi mællti. þat mæla sumir menn Grima at þu kunner vm hug þer at mæla ok se nokut vanset huat þer byr j skapi. Grima suarar. allir menn kunna at mæla vm hug ser ef vilia [387] en raun mun sanna huersu mer er gefit vm þetta mál. nu kann ek þok ok ǫfusu at þer gangit inn j hus uor ok rannsakit uor herbergi ok dragit suo grun af at ver sem samuitande þess illuirkis er Kolbakr hefir unnit. Nu geingr Bessi inn j stofu med sinu foruneyti ok skipar hinn ædra bek. sitr þar nockura stund ok ser æigi Kolbak þar er hann sat gagnnvert honum. gengr fram eftir þat ok rannsakar bæinn ok finnr æigi Kolbak. Eftir þat lysir hann auerkum a hendr Kolbaki ok for heim vid suo buit. Sár þormodar hafdizst illa ok la hann leingi ok var hann ǫruendr æinart sidan medan hann lifde. Kolbakr uar j Ǫgri um uetrinn ok uarduæitti Grima hann a laun vm uetrinn. Vm sumarit eftir uar mal buit til alþingis a hond Kolbaki. a þui þingi vard Kolbakr sekr skogarmadr. Skip stod uppi j Uadli þui skipe styrde norrænn madr er Jngolfr het. skipit uar miog albuit at alþinge en æigi gaf þeim uedr. þa er menn uoru ridnir ór herade til þings kom Grima at male vid Kolbak ok mællti. þess er mer uon at þu munir verda sekr skogarmadr j sumar um auerka þormodar. en firir þui at sekth þin hlytz af mer þa vil ek þer frelse gefua ok skalltu æigi lengr þręll vera. þar med skalltu bua þria hesta a laun .ij. ockr til ræidar en æinn til klyfiaburdar. vil ek fylgia þer til skips. Kolbakr uard feginn fegiofinne ok frelse sinu. Hann byrr vm nott ferd þeirra suo at ǫngir menn urdu varir vid þeirra brottfor. þau ridu Glamuheide til Arnnarfiardar ok suo hit efra vt eftir fiollum. koma vm nott j Uadil þa er allir menn voru j suefnni. voru flestir menn a skipe en styrimadr suaf vid fa menn a lande. Grima gengr at tialldinu ok sprettir tialldskǫrum en Kolbakr varduæitti hesta þeirra. hon gengr jnn j tialldit ok uekr upp styremanninn. Jngolfr hæilsar Grimu ok spurde tidenda. ok eftir þat mællti Grima. þat er eyrendi mitt hingat at ek villde taka æinum manni far þeim er her er kominn. Jngolfr suarar. huerr er sa madr. Grima mællti. Kolbakr hæitir hann. Jngolfr suarar. huort uann sa a þormodi. Grima mællti. sa er madr hinn sami. Jngolfr suarar. mikit uandhæfui synizst mer a þui vera at taka vid þeim manni sem suo

hardfæingir menn æigu hlut j sem þeir fedgar eru. hofum ver her lengi uerit ok legit med bunu skipe ok kann vera at fyrr kome Bessi heim j herat en oss gefui j brott ok ma vera at ver faim æigi leynt manninum firir þeim. Nu ser Grima at hann tekr seint þeirra mal. þa vindr hon fram fegyrdle undan kapu sinne ok hellir þar .cc. silfrs j kne styremanni ok mællti suo. þetta fe vil ek þer gefa til uidrtoku vid Kolbak ok asia. Jngolfr suarar. fagurt er fe þetta ok mun oss dyrkeyft verda ef þeir finna oss her ok takim uer vit skogarmanni þeirra. Grima mællti. se ek kaup med ockr. þu munt taka vid Kolbaki ok fe þessu er ek hefui fram ef þer gefr byr j dag. Jngolfr suarar. suo skal vera sem þu mælir. Nu tekr hann vid fenu ok fylgde Kolbaki a skip vt med uarnnat sinn. Grima hefzst vit a lande ok minnir þa a hinu fornnu fræde er hon hafde j bernsku numit. j þui bile fellr anduidrit. Lætr Jngolfr vt bera hwdfot þeirra ok er(u) ardegis at ollu bunir. þa er sol uar j landsudri rann byrr a. ganga þeir Jngolfr ok Kolbakr a land ok quedia hana uel. byzst hon þa til brottfarar ok fær ser foruneyti ok er ecki sagt fra fɔr hennar fyrr en hon kemr heim. ok var þat synu fyrr en menn kuomu af þinge. Jngolfr geingr a skip ok þui næst vinda þeir upp segl. þeim gaf uel byre ok attu skamma vtivist koma vid Noreg. Kolbakr fór a burt ór Noregi hann redzst j lid med uikingum nockurum ok reyndizst hardfæingr madr j ollum mannraunum. þormodr kom heim af þinge med fɔdr sinum j Laugardal ok uar med honum nockura uetr. æigi hofum uer heyrt getit at þormodr hafui fæingit mæire sæmd sins auerka en sekt Kolbaks. þormodi þotti lɔngum daufligt heima.

## þormodr hitti þorbiorgu.

116. Nockuru sidarr redst hann til farar med huskollum fɔdr sins er þeir skylldu sækia fiska er Bessi atti vt j Bolungaruik. þeir sigldu gott uedr ut eftir Jsafirde ok er þeir komu firir Arnnardal þa kemr anduidri ok verda þeir sæhafa at dalnum. kasta þeir ackeri ok fara a land ok ræisa tialld ok hafazst þar vid nockura stund þuiat þeim gaf æigi a brott. Katla het kona er bio j Arnnardal hon uar eckia hana hafde att sa madr er Glumr het. dottir Kɔtlu het þorbiorg hon uar sealig kona ok ecki æinkar uæn suɔrt a hár ok suo a brun þui uar hon kollut kolbrun. þormodr gek æinn dag [33?] upp til bæiar. þormodr kemr j stofu ok var þar ecki manna nema konur. Katla heilsar þeim er kominn var ok spyrr hann at nafnne. þormodr sagde til sin[1]. Katla mællti. heyrt hefui ek þin getit. Nu var þormodr þar vm

[1]) sins *Cd.*

daginn ok eru konur katar vid hann. þormodr rennir augum til dottur husfreyiu ok litzst honum uel a hana hon hefir ok nockut augbragd a þormodi ok verdr henni hann uel j skapi. Nu er þormodr þar um daginn ok ferr sid heim vm kuelldit til tialldz sins. Hann uenr þangat kuomur sinar ok spretta upp af honum æinstaka mansaungsvisur ok likar þeim uel konunum. Katla mællti vit þormod. attu nockur eyrende ut j uikina. þormodr suarar. æinge eyrende a ek onnur en skemta mer. þotti mer daufligt hæima. Katla mællti. huort mun þer betra þikia edr skemtiligra at fara med þeim edr uera her medan þeir fara vt eftir fiskunum ok skemta þer her. nu er þat heimillt ef þu villt at suo se þuiat mikit gaman er oss at þer. þormodr suarar. uel fara þer ord til min ok mun ek þiggia þat er þu bydr þuiat mer þikir skemtiligt her at vera. Nu ferr þormodr til kumpana sinna ok sagde þeim at hann mun þar eftir dueliazst medan þeir fara eftir fiskunum. bidr þa koma vid dalinn er þeir fara utan. Nu skilia þeir. ferr þormodr heim til bæiar en forunautar hans fara eyrenda sinna. þormodr uar j Arnardal[1] halfan manut. hann yrkir þa lofkuæde um þorbiorgu kolbrun. þat kuede kallade hann Kolbrunarvisur. ok er kuædit uar ort þa færde hann kuędit suo at margir heyrdu ok mælltizst uel firir af þeim er heyrdu. Katla dro af hendę ser þa fingurgull mikit. hon mællti. þetta fingurgull uil ek þer gefa at kuædislaunum ok nafnnfesti þuiat ek (gef) þer þat kenningarnafnn at þu skallt heita Kolbrunarskalld. Hann þackade henni geofina ok festizst þat nafnn vid hann. Forunautar þormodar komu þar vid land. stigr þormodr þa a skip med þeim ok þackar husfreyiu þann fagnnat er hon hafde honum væitt. Katla mællti at þormodr skyllde æigi þar hea snæida ef farar hans bæri þar hea. skiliazst þau vinir. ferr þormodr heim a Laugabol ok var heima þat sem eftir var sumarsins. Ok er uetra tok ok isa lagde þa mintizst hann þess uinfæingis er honum hafde verit uid þordise dottur Grimu j Ǫgri. gerde þormodr þa heimanfor sina ok leggr læidina j Ǫgur. Grima tok vid þormodi med mykille glede en þordis ræiddizst nockut suo vid honum ok skaut oxl uid þormodi sem konur eru uanar þa er þeim likar æigi allt vid kalla. þat fann þormodr skiott ok serr þo at hon skaut augum j skakk stundum ok sa um oxl til þormodar. kom honum j hug at dælla var at draga ef halft hlopti.[2] þordis mællti þa. þat hefui ek firir satt at þu munir fatt til þess er uit hǫfum uit mælltzst. hefui ek þat spurt at þu hafir fæingit þer nyia unnostu ok ort um hana lofkuæde. þormodr suarar. huer er

[1]) Laugardal *Cd.* [2]) *r.* hleypti

su unnosta min at þu segir at ek hafa ort kuædi um. þordijs suarar. su er þorbiorg kolbrun ut j Arnnardal. þormodr suarar. ðngu gegnir þat at ek hafui kuedit um þorbiorgu. hitt er satt at ek orta um þig lofkuede þa er ek var j Arnnardal þuiat mer kom j hug huersu langt j mille bar uænleiks þins edr þorbiargar ok suo hit sama kurtæise. em ek til þess her kominn at ek uil nu færa þer kuædit. þormodr kuedr þa Kolbrunarvisur ok snyrr þeim eyrendum til lofs þordise er mest voru adr akuedin at hann hafde um Kolbrunu ort. gefr hann nu þat kuæde þordise til hæils hugar vid sig ok asta. Ok suo sem myrkt el dregr upp ór nordri ok fellr nockut fðl ok læidir af med litlum vinde ok kemr eftir a biart solskin med blidu lognni suo dro kuædit af allan oræktar myrkua af hug þordisar. þormodr kemr þa iafnan j Ögur ok hefir þar vidrtektir godar. ok er suo hafde fram farit um hrid þa unde þormodr uel sinu rade.

## Fra þormodi.

**117.** þat bar til æina natt er þormodr uar heima at hann dreymir æina natt at þorbiorg kolbrun kemr at honum ok spurde huort hann uekti edr suæfui. Hann sagdizst uaka. Hon suarar. þer er suefns. en þat æitt berr firir þig at suo mun eftir ganga sem þu uakir. huort hefir þu gefit annare konu kuędi mitt þat er þu ortir um mig. þormodr suarar. æigi er þat satt. þorbiorg mællti. satt er þat at þu hefir mitt lofkuæde gefit þordise ok snuit j kuædinu þeim eyrendum er mest voru akuedin er þu hefir um mik ort þuiat þu þordir æigi litill kall at segia at þu hefdir um mig ort. uilldir þu æigi satt segia um hueria konu þu hafdir ort. nu mun ek þer þui launa lausung þina ok lygi at þu munt taka augnauerk mikinn ok strangan suo at bæde ðgu munu springa ór hðfde [339] þer nema (þu) lysir firir alþydu klækiskap þinum þeim er þu tokt af mer kuede mitt ok gaft annare konu. munt þu alldregi hæill verda ne(ma) þu fellir nidr þær uisur er þu hefir snuit til lofs þordise en takir þær upp er þu hefuir um mig ort. kenn sidan þetta kuæde suo odrum sem þat uar firir onduerdu ort. þormodi syndizst hon vera ræidulig þottizst sia suipinn hennar er hon gek j brott. Hann uaknar vid þat er hann hafde suo mikinn ðgnnauerk at hann matti uarla þola væpande ok ma ecki sofa þat er eftir er nætrinnar. Hann huilir lengi um morguninn. ok er allir menn voru upprisnir adrir en þormodr þa kemr Bessi at reckiu þormodar ok spurde huort hann væri siukr er hann ræis æigi upp sem adrir menn.

þormodr sagde at honum væri illt j ðgum. Bessi suarar. æigi er sa hæill er j ðgun uerkir. þormodr quat þa visu.

Jlla red ek þui at allar
eydraupnis gaf ek meyiu
mer bar doms j drauma
dis Kolbrunar visur.

þa tok ek þetta freyia
þrudr kann mart hin pruda
liknnumzst ek helldr vid hillde
huitings a mer uiti.

Bessi mællti. huat hefir þer j drauma borit. þormodr sagde drauminn ok allan malauoxst kuædissins. Bessi mællti. ohagligar unnostur attu. hlautzst af annare ðrkumbl en nu æigi minne uon at ðnnur spreinge ðgu ór hðfdi þer. en þo er þat nu millt rad at þu snuir kuædinu a þann hatt sem þu ortir þat firir ðnduerdu. þormodr quat suo uera skylldu. nu lysir þormodr firir alþydu huersu farit hafde vmb kuædit ok gefr þa at nyiu uit morg uitne þorbiorgu. þormodr uerdr þa bratt heill þess mæins. Nu munu uer huilazst lata fyst frasognn um þormod kolbrunarskalld.

## þorgeirr Hauarssun drap Snorra. capitulum.

118. Nv er at segia fra þorgeiri Hauarssyne hirdmanni Olafs konungs hins helga. þat uar æitt sumar at hann kom skipe sinu j Nordrá[1] ok hellt þui upp j Huita[2] ok setti þar upp j þann stad er nu er kallat þorgæirshrof. hann for um uetrinn til uistar a Reykiahola ok uar þar þann uetr med frændum sinum. selr þar uarning sinn þann er hann hafde uestr þangat haft. fór um vorit sudr til Borgarfiardar ok byrr þar skip sitt. litlu firir þing ferr hann uestr a Reykiahola eftir vðru þeirre er þar uar saman dregin ok hann hafde tekit firir uarning sinn þann er hann hafde sellt vm uetrinn. hann flytr uoruna til Skogarstrandar ok færr ser þar hesta sudr yfir hæide til Borgarfiardar ok æinn madr med sa er ræid firir ok hafde kly(f)iahest j togi. þorgeirr ræid eftir med skiolld sinn ok spiot ok ðxi hann hafde hialm a hðfde. fara uit suo buit sudr a Myrar. Sa madr bio a Huitzstodum er Snorri het ok hann uar kalladr Hækilssnorri. hann uar mikill madr ok sterkr ouænn yfirlitz grimligr j asionu odǫll ok ouinsæll nasbradr ok oþydligr j skaplynde. Helgi het son hans hann uar þa a ungum alldri. mannahusin uoru þa nedarr en nu eru ok uar þa kallat a Mel. lambahus stod mikit uestr j tuninu þar sem nu er kalladar Snorra toftir. þeir þorgeirr fara þar hia garde. ridr forunautr þorgeirs fram um bæinn en klyfiahestar þeir er þorgeirr rak hlaupa heim j tunit. kemr Snorri vt vid þat er þorgeirr elltir hestana ok uill reka ór tuninu.

[1]) r. Huita [2]) r. Nordra

hestunum þotti gott at bita ok nam sa ofallt stadar er hann rak æigi. Snorre gengr inn ok tekr æitt mikit krokaspiot hleypr vt ræidr ok blotar hestunum ok þorgeiri. berr hann med spiotinu ok særir hestana. synizst þorgeiri æigi ðruænt at hann mune bana hestunum. hleypr af baki ok hefir skiolldinn firir ser. spiotit hefir hann j hende. Hann sækir þa at Snorra. hann horuar undan til lambahussins ok uerst med spiotinu. .ij. huskarllar Snorra sa at hann hliop vt ræidr med spiot sitt. tekr sina ðxi huorr þeirra fara þeir til fulltings vid Snorra. þorgeirr uerst þeim med myklu afli ok ðruggleik ohræddr sem hit oarga dyr. Huskallar verda bratt sarir þuiat þeir hðfdu skamskeftar ðxar en þorgeirr lagde spiotinu hart ok tijdum. hrucku þeir Snorri inn j lambhusit. dyrnar voru þraungar ok lagar a husinu ok uar þar illt inn at sækia eftir þeim. þorgeirr hleypr upp a husit ok ryfr ok þar sem husit raufazst leggr Snorri vt spiotinu j moti þorgeiri. uerdr þorgeirr af þui nockut sarr ok þo litt. raufazst nu husit vida. þa getr þorgeirr hoggit spiotit af skafti ok iafnnskiott hleypr hann inn j husit med skiolld sinn ok ðxi ok hio þegar med oxinne j hofut Snorra suo hart at hann klauf hausinn allan. færr Snorri þegar bana. Snyrr þorgeirr þa at huskollum Snorra ok sækir þa grimliga. lauk suo þeirra læik at þorgeirr drap þa bada. eftir þat gengr hann vt ok stigr a bak hesti sinum ridr til dyranna ok segir at Hækilsnorri [300] uill hafua fund þeirra. ok mun hann bida yduar j lambahusinu. Ridr eftir þetta j brott ok til fundar vid forunaut sinn. hann hafde rekit klyfiahestana ór tuninu medan þeir borduzst. fara vid suo buit til skips. byrr þorgeirr skip sitt ok helldr þui ut til Seleyrar. bidr þadan byriar ok lætr j haf at byr bunum. hefir skamma utivist tekr Noreg ok ferr skiott a fund Olafs konungs ok færr þar godar uittðkur. þessa uiga getr þormodr j þorgeirsdrapu.

Hus braut hart til Snorra
suerdrudr ok styr gerde
hinn er heiptir manna
Hækilsonar ræki
uard eggiadr þar þriggia
þorgeirr huotu meiri.

Helgi sonr Snorra bio a Huitstodum lengi. hann uar olikr fodur sinum bæde yfirlitz ok j skaplynde. hann færde husin þar sem nu eru. Helgi atti kenningarnafnn ok uar kalladr huitr ok uar honum þat æigi auknefnni þuiat hann var uænn madr ok uel hęrdr huitr a hár. vit hann er kendr bærinn a Huitstodum. Helgi var vinsęll madr af herads-

monnum godr buþegnn ok gagnsamr vid alþydu. hann deillde vm Gufusitiar vid þorstæin Egilsson þuiat þorstæinn villde kaupa sitiarnar en hann uillde æigi selia. Hann fór um uetrinn med huskollum sinum eftir heyi. þorsteinn for eftir þeim med huskollum sinum. þeirra fundr vard j eyium þeim er liggia sudr fra Huitstǫdum. A þeim funde bordnzst þeir Helgi. a þeim funde vard Helgi sárr miog. til þess fundar kuomu margir godfusir menn ok sættu þa ok keyfti þorsteinn sitiarnar en bætti Helga auerkann.

## þorgeirr drap þori fra Hrofaa i Steingrimsfirde.

119. þorir het madr er bio at Hrofaa j Stæingrimsfirde hann uar mikill hauadamadr ok ouinsęll. hann vard missattr vid hirdmann Olafs konungs j kaupstefnnu ok særde hann konungsmann myklu sari. a þat mal var ecki sętz. ok er konungr uard þessa uarr þa mislikade honum miog sea atburdr. hann mællti þa vid þorgeir. þat uil ek at þu hefnir þessa auerka er hirdmadr minn var særdr vt a Jslande ok læid suo Jslendingum at beria a minum monnum. þorgeirr suarar. þess væntir mik ath ek muna hefnnt fa þessarra motgerda er ydr hafa geruar verit j þessu uerki. Konungr mællti. þui byd ek þer um þetta mal at ek væit at þu munt minn uilia gera j þessu uerki. þorgeirr byrr skip sitt snemma til Jslandz. honum byriar uel ok kemr skipinu j Uadil. hann ferr þa heim a Hola ok tekr þa til skalasmidar. Ueglagr het sa madr er at skalasmid var med honum ok gerde sinu megin skalann huorr þeirra. Skalinn uar um endilangt þilinn en æigi odrum þilium. þau þili helldnzst þar til er Magnus byskup var at stadnum (j) Skalahollti hinn sidari. A ǫnduerdum uetri for þorgeirr nordr til Stæingrimsfiardar til Hrofár ok Ueglagr smidr med honum. þeir komu a bæinn sid um aftan ok drapu a dyrr. kona æin gengr til dyra ok heilsar þeim er komnir voru ok spyrr þa at nafnni. þorgeirr segir hit sanna til huerir þeir voru. þorgeirr spurde huort bonde væri hæima. Hon quat hann heima vera. þorgeirr mællti. bid þu hann vt koma. Hon gengr inn ok segir at menn eru komnir vti þeir er hann uilldu hitta. þorir spurde huerir þeir væri. Hon suarar. þat ætla ek at þorgeirr Hauarsson væri ok forunautr hans. þorir riss upp ok tekr spiot sitt gengr vt j dyrnar ok setr spiotzoddinn j þreskiolldinn ok hæilsar þeim er komnir voru. þorgeirr tok ecki quediu hans. hann mællti þa. þat er eyrendi mitt hingat at ek uil uita hueriu þu uill bæta Olafi konungi firir þann uansa er þu gerdir honum j þui er þu uant a hirdmanni hans. þorir suarar. ertu nockut adile þessa mals. þorgeirr

suarar. firir þat mun ganga þui at ek hefui konungs umbod. þorir suarar. vera ma at suo se en uarlla virdizst mer sem ek heyra ord hans a þo at þu mæler æitthuat. þorgeirr suarar. þat er satt at þu heyrir hann æigi mæla en þo ma vera at þu kennir nockurnn tima hans riki. Ok er minzstar uonir voru leggur hann spiotinu til þoris. þat lag kom framan j fang honum ok gek þegar a hol. fell þorir inn j dyrnar. þorgeirr snyrr a brott ok e ecki sagt af ferdum hans fyrr en hann kom heim a Hola.

## Veglagr fannz at þyfsku. capitulum.

120. Um uetrinn eftir bar þat til nylundu a Holum at þar uoru stuldir myklir. hurfu monnum gripir ór hirdzslum ok uar suo mikill gangr at þui at ór huers mannz hirdzlu huersu ramligr láss sem firir (uar) huarf nockut en þo uar æinge brotinn. Jllugi Arason uar þann uetr heima a Holum. Eftir jol um uetrinn heimta þeir brædr hion sin saman. þorgisl tekr suo til ordz. þat er ollum monnum kunnikt at her hafa verit j uetr stuldir myklir hefir her mart ór lokum horfit. uilium ver nu hafua uppi rannsoknn. skal fyst rannsaka hirdzslur ockar brædra en eftir þat annara hæimamanna. ok ef ecki finnzst her þat sem stolit er þa munu uer fara a adra bæi at rannsaka. Nu fór þat fram at rannsakadar voru hirdzslor [391] manna ok fannzst ecki þat er menn læitudu. Ueglagr smidr atti æina kistu stora. þorgisl mællti at Ueglagr skyllde luka upp kistunne ok syna þat sem j væri. Hann suarar. alldri hefir ek rannsakadr verit sem þiofar ok mun ek æigi upp luka kistunne. þorgisl mællti. æigi er (til) þins æins sia læikr georr helldr hafua uorar kistur ransakadar verit ok ma þer þat er yfir margan gengr. Hann suarar. þo at þer hafit aller rannsakadir verit þa mun ek þo æigi upp luka kistunne. Jllugi spratt þa upp hann hafde æina stora ðxi j hende. ef þu uill æigi fram selia þinn lyckil segir hann þa hefui ek at uarduæita konungs ðxi þa er lyckill er at ollum lasum til upp at luka. nu mun ek med þeim lukli upp luka kistunne. Hann sa at Jllugi mundi hoggua upp kistuna. selr fram lyckilinn. lykr Jllugi upp kistunne ok finnr þar marga gripe þa er monnum hafde horfit. þa þottuzst menn uita at hann munde stolit hafa ollu fenu. Uar hann þa neyddr til sagnna. gengr hann þa vid morgum stuldum ok fylgir þeim þar til er hann hafde folgit fe vti j ymsum stodum. Jllugi mællti þa. olifismadr synizst mer Ueglagr vera ok er þat mitt rad at hann se hengdr. þorgeirr mællti. æigi muntu suo uilia skiliazst vid smid þinn. Jllugi suarar. rangt synizst mer at suo mikill þiofr gangi undan. þorgeirr mællti.

huort sem þat er rett edr rangt þa mun hann ydr dyrkeyftr verda ef ek ma rada. Jlluge mællti. mikit kapp leggr þu a med þiofnum ok munt þu illt at sok hafa ok æigi mun þinn hæidr ofallt standa firir honum þo at hann gangi nu undan. nu fari (hann) burt af Ræykianese ok komi alldri aftr. Nu fylgir þorgeirr Ueglagi uestr a Laugabol til þeirra þormodar ok Bessa ok bad at þeir mundi taka vid honum. þeir toku uit honum firir sakir þorgeirs ok uar hann med þeim um uetrinn.

## Fra þeim fostbrædrum.

121. þat bar til vm uorit eftir at þeir þorgeirr ok þormodr foru nordr a Strandir ok allt nordr til Hornns. ok æinn dag foru þeir j biarg at sækia ser huannir ok j æinni to er sidan er kollut þorgeirsto skaru þeir myclar huannir. skyllde þormodr þa upp bera en þorgeirr uar eftir. þa brast aurskrida undan fotum hans. honum uard þa þat firir at hann greip um æinn huannniola med grasinu ok hellt þar nidri allt vid rotina ella hefde hann ofan fallit. þar var sextögt ofan a fioru-griot. hann gat þo æigi upp komizst ok hek þar þann ueg ok uillde þo med ongu moti kalla a þormod ser til biargar þo at hann felli ofan a annat bord. ok uar þa bani viss sem uita matti. þormodr bæid uppi a homrunum þuiat hann ætlade at þorgeirr munde upp koma. en er honum þotti þorgeiri dueliazst suo myklu lengr en uon var at þa gengr hann ofan j skriduhiallana. hann kallar þa ok spyrr hui hann komizst alldri edr huort hann hefir enn æigi nogar huannirnar. þorgeirr suarar þa med oskelfri röddu ok ottalausu briosti. ek ætlar segir hann at ek hafui þa nogar at þessi er uppi er ek helld um. þormod grunar þa at honum mune æigi sialfratt um. ferr þa ofan j tona ok ser uegs ummerke at þorgeirr er kominn at ofanfalli. tekr hann þa til hans ok kippir honum upp enda uar þa huonnin nær oll upptognut. fara þeir þa til fanga sinna. En þat ma skilia j þessum lut at þorgeirr uar vskelfr ok olifhræddr ok flestir hlutir hafa honum verit kallmannliga gefnir sakir afls ok hreysti ok allrar atgerui. segia menn at þeir hafui verit allir þrir a æinne uist a Reykiaholum þorgeirr þormodr ok Grettir hinn sterki Asmundzson ok hafui verit nærr vm afl þeirra tueggia ok Grettis æins. segia menn ok at þorgisl hafui suo sagt at lögbergi a alþinge er hann var spurdr at uetrtaksmonnum sinum huort þeir mundu æigi roskuazstir menn a ollu Jslande ok sizst kunna nokkut at hrædazst. en hann suarar þui suo at þat væri æigi suo þuiat Grettir er myrkhræddr en þormodr gudhræddr en þorgeirr sagde

hann ecki uætta hrædazst kunna ok sizst bregda ser vid nockurnn uofuæifligann haska. Sidan foru þeir nordan af Strondum med feng þann er þeir hofdu fæingit. for þorgeirr hæim a Reykiahola en þormodr a Laugabol. um sumarit eftir bio þorgeirr skip sitt. Ueglagr kom til skips ok tok þorgeirr uit honum ok flutti hann utan. skipit kom vid Orkneyiar. Rögnualldr jarll Brusason uar þa buinn til hernadar þuiat uikingar margir lagu um eyiarnar. þorgeirr selr þa kaupskipit ok redzst j lid med jalli. Ueglagr for upp a Skotland ok gerdizst þar mikill þiofr ok uar þar hengdr sidan. þorgeirr uirdizst uel þuiat hann reyndizst þui meire kappi sem meire mannraun kom til. Suo orti þormodr.

Niordr gek a skid skordu
skeleggr en þat telium
hialldrs [392] at heria uillde
hungalldrs med Rognualldc.

litt sparde fior fyrda
fremdar milldr at hillde
dreings uard dad at lengri
diarfr Hauars arfui.

J hernade vard þorgeirr agætr madr at hug ok uopnnfime. Jarll uard agætr af þesse ferd þuiat hann sigradizst huar sem hann kom. sid um haustit for þorgæirr til Noregs ok var med Olafi konungi. Um uorit bio Jllhugi skip sitt til Jslandz. þorgeirr sagde at hann uill fara med honum. Jllhugi mællti. oradligt synizst mer þat at þu farir til Jslandz þuiat þu ert her uel kominn med konunginum en þu att fass gods at vitia til Jslandz. nu mun ek æigi flytia þig fra fridinum ok til vfridaring þuiat þu munt ecki suo mikit gott upp taka a Jslande sem þu hefir her af konungi. þorgeirr suarar. vera ma at ek komumzst til Jslandz þo at þu flytir mig æigi. Nu byrr Jllhugi skip sitt ok lætr j haf þa er honum gaf byr. ok er Jllhugi uar j brottu þa gek þorgeirr firir konung ok bad ser fararleyfis. Olafr konungr mællti. suo virdizst mer at minne mannheill hafir þu a Jslande en her med oss ok þiki mer radligra at þu ser her med oss en a Jslande. þorgeirr sotti miog þetta mal ok konungr sa at þorgeiri þotti mikit undir ath hann lofade honum. þa mællti konungr. nu mun at þui koma sem ek sagda j fystu er ek sa þig at þu mundir æigi j ollu gæfumadr. en nu mun ek lofa þer ath þu farir til Jslandz en æigi munn vit oftar siazst ef vit skilium nu. þorgeirr mællti. þök kann ek ydr at þer lofit mer förina en þat ætla ek at fara þegar at sumri a yduarnn fund. Konungr mællti. uera ma at þu ætlir suo en æigi mun suo uerda. Nu skiliazst þeir at suo mælltu. þorgeirr tok ser fari med þeim manni er Jokell het ok for med honum til Jslandz. þat skip kom j Uadil ok for þorgeirr a Reykiahola til uistar. Jllhuga ræidde lengi vti um sumarit ok kom skipi sinu

sid um haustit nordr j Hraunhöfn a Melrackaslettu. Hann setti þar upp skipit ok bio þar um ok for sidan nordan um suæitir ok ætlade heim a Hola. Gautr Slæituson er fyrr uar getit kom til fundar vid Jllhuga ok tok ser far med honum at sumri. Æinn dag er Jlluge ade hesti sinum kom madr at honum sa var j huitri heklu. hann kuaddi hann. Jllhugi tok kuediu hans ok spurde huerr hann væri. Hann suarar. ek heiti Helgi. Jllhugi suarar. huadan ertu kyniadr. Hann suarar. kyn mitt stendr uida fotum en þo er þat flest firir sunnan. en huergi a ek hæima nu ok æigi hefui ek heill til þess at hafa .ij. missera biorg. en iafnan tekr ek kaup a sumrum ok margir menn kennazst vid kenningarnafnn mitt er ek er kalladr Helgi selseista. Jllhugi mællti. fanefnt er þat en þo hefui ek æigi heyrt þin getit Hann mællti. þat er eyrendi mitt hingat at ek vil vita ef þu uill flytia mig utan at sumri. Jllugi mællti. eru þar nockur uandræde a hondum edr hefir þu nockut fe. Helgi suarar. æinge hefir ek uandræde en litit fe en vera mætti suo at þer væri handlettir at mer þuiat ek er oflettr madr. Jllhugi mællti. ert þu nockurr jþrottamadr. Æinge sagde hann en mikit a ek traust undir fotum ok briosthæill madr er ek þuiat æinge færr tekit mik a rás. Jllhugi suarar. gagnn væri at þui þeim er allhræddr kann verda. Helgi suarar. æigi hefui ek þat reynt at verda allhræddr en uita vil ek huort þu uill væita mer farit. Jllhugi mællti. kom þu til fundar vid mik j uór ok ver med mer j flutningum er ek dreg saman vöru mina ok far þa med mer til skips. Helgi suarar. sia kostr likar mer alluel. Nu skilia þeir at suo mælltu. fór Jllhugi uestr a Reykiahola ok var þar vm uetrinn.

## þorgeirr drap Gaut.

122. Brædr .ij. biuggu j Garpsdal het annarr Kalfr en annar Steinolfr. þeir voru a ungum alldri vinsælir menn ok uel audigir. þordis het kona er bio j Olafsdal. hon var eckia god husfreyia ok gagnnsöm. son hennar het Eyiulfr hann var geruiligr madr ok vinsæll. þorgeirr het frænde þordisar er hon hafde uppfætt. hann hafde þat kenningarnafnn at hann uar kalladr þorgeirr hofleysa en þat nafnn hlaut hann af þui at hann hafde til allz meira en hann þurfti. med þeim brædrum Eyiulfui ok þorgeiri var vingott þeir voru badir geruiligir menn ok knair ok miog olatir ok var mikit vm þa löngum. þordis amadizst oft vid glimur þeirra en þeir glettuzst þui meirr vid hana. ok einn dag er þeir glimdu a golfui var mikit um þa. kuomu þeir oft vid kellingu ok drogu uerk hennar a fotum ser ok mællti kelling. litil

fremd er j þui at spilla uerki minu ok glettazst vid mik. en spa mun ek yckr spa. suo uel sem nu er med yckr þa munu þit .ij. fostbrædr uest skilia yckart vinfæinge. þeir suorudu. æinkar ospalig synizst ockr þu uera. Kelling suarar. huersu sem yckr synizst þa mun þat eftir ganga. Um uorit er þeir Jllhugi ok þorgeirr hǫfdu verit um uetrinn a Reykiaholum beidde þorgeirr Jllhuga at hann skyllde [[illegible]] uæita honum far med ser um Jslandzhaf. Jllugi væitti þat sem hann bad. Kalfr ok Steinolfr toku ser far med Jllhuga. Nu er menn foru til skips um sumarit þa mællti Jllhugi vid þorgeir. þat uillda ek nu frænde at þu færir til skips med monnum minum. en ek a eyrende til þings med þridia mann at hitta vine mina mun ek rida nordr af þinge ok uillda ek at þa væri skipit albuit. þorgeirr quat suo vera skylldo sem Jllhugi uillde. þorgeirr for nordr a Slettu til skips en Jllhugi biozst til þings. Kalfr ok Steinolfr ok Helgi selsæista uoru j fǫr med þorgeiri en vara þeirra hafde fyrr farit austr ok nordr. þa er þorgeirr kom j Hraunhǫfn setti hann fram skipit ok bio. Gautr Slæituson uar til skips kominn ok hafde annat motunæyti. þar uar illt til elldiuidar ok foru sinn dagh huorir at afla elldiuidar. Æinn dag foru þeir þorgeirr at afla elldiuidar en Gautr uar hæima. matsuæinar Gautz hofdu ketil[1] uppi ok er uella var komin a ketil þeirra þa var lokit elldivide. segia þeir þa til Gauti. Hann gengr til tialldz þorgeirs tekr ofan spiot þorgeirs ok hǫggr af skafti. hann tekr ok skiolld þorgeirs. gengr sidan til elldstoarinnar klyfr j sundr skiolldinn ok spiotskaptit ok elldir undir katlinum. verdr þa uel matbuit. þorgeirr kom heim um kuelldit. hann saknar nu skialldar sins ok spiotz. hann spyrr huerr suæina hans hafui skiolld hans ok spiot. Gautr suarar. ek tok skiolld þinn ok spiotskaft ok klauf ek undir ketil uornn er adr matti æigi matbua. þuiat lokit var elldiuidinum en oss þotti illt hratt at eta en spiot þitt liggr j rumi þinu. þorgeirr suarar. naudsyn uar þat at þer byggit mat yduarnn til suo at þer ætit æigi hratt þuiat Olafr konungr bannar hueriumm manni hratt at eta. Nu fann ecki a þorgeiri at honum mislikade þessi tiltekia. þorgeirr uar heima annan dag ok bio skip sitt. en Gautr for at elldibrondum med foruneyti sinu. Matsueinar þorgeirs hofdu ketil uppi. þeim uard elldiuidar fátt ok sogdu til þorgeiri. hann for til tialldz Gautz ok tok skiolld hans ok spiot hans hio hann af skafti ok klauf undir ketil huorttueggia ok skorti hann æigi elldiuidinn. Gautr kom heim ok fann spiot j rumi sinu skaftlaust. skiolld sinn ser hann huergi. hann spyrr þa huat menn viti til skialldar hans ok spiot-

[1]) ketill *Cd.*

skeptis. þorgeirr suarar. ek klauf undir ketil huortueggia. Gautr mællti. seint lætr þu af at auka oss skapraunir. þorgeirr suarar. suo er læikr huerr sem hæiman er giorr. Gautr hio þa til þorgeirs en þorgeirr laust hǫggit af ser med ǫxi sinne ok skæindizst þo litt þat a fæti. þa hlupu menn a mille þeirra ok helldu þeim. þorgeirr mællti. æigi þurfui þer at hallda mer þuiat ek mun mig til æinkis likligann gera at sinne. Nu fara huorirtueggiu til tialldz sins ok um nottina er menn voru sofnadir ris þorgeirr upp tekr ǫxi j hond ser ok gengr til tialldz Gautz ok sprettir tialldskorum ok gengr at rumi Gautz ok uekr hann upp. Gautr uaknar ok sprettr upp ok uillde taka til uopna. j þuí bile hio þorgeirr til hans ok hio hann j herdar nidr. fek hann af þui skiotan bana. þorgeirr gengr j burt ok til tialld(z) sins. Budunautar Gautz uoknudu vid brestinn er hann uar ueginn. styrmdu þeir þar yfir honum daudum ok biuggu sidan um lik hans. Vm þenna atburd quad þormodr visu.

Gaut uæit ek son Slæitu
snarfæingan med lid dreingia
haulldr vid hardar deilldir
hiordiarfan er nam fiorui.

enn hne orua .spennir
almþings j gny malma
rik uard þeim ræki
raun ofstopa launat.

## Drap þorgeirs Hauarssunar.

123. Eftir þenna atburd sa þeir um dag huar skip siglde af hafe þangat til Hraunhafnnar. þat skip tok þar hofnnina ok lagu um ackeri æigi allnær landi. þorgeirr fór a bati med skipverium sinum til kaupskipsins ok spurde huerir firir skipinu rede. honum var sagt at þorgrimr Æinarsson er kalladr var trolli grænlenzskr madr[1] rædr firir skipinu ok annarr madr þorarinn ofsi þorualldzson nordlenzskr madr. þeir spurdu huersu fiolmennt þeir hefde a skipinu. honum var sagt at þeir voru .xl. kalla innanbordz. Nu sa þorgeirr at þar uar mikill lidsmunr ef þa skilde nockut a þuiat þeir þorgæirr voru æigi meirr en .xx. uigir menn. þorgeirr mællti. ydr kued ek at þessu styrimennina. þat er mællt af mǫrgum monnum at uær sem huorirtueggiu ofstopamenn. nu synizst mer þat rad at uær gætim huorirtueggiu at uær gerim eigi uora hreysti ok hardfæinge at fiflsku ok vfride. synizst mer þat rad at uær setim grid med oss til uarygdar. þeir toku þui vel ok for þat fram at grid voru sett. Nu er grid voru sett þa for þorgeirr til skips. hann [34] flutti þa a skip allt fe sitt ok let skipit liggia um ackeri æigi allnærr lande ok voru hans menn allir a skipe. þuiat hann trude þeim æigi til þess fullnadar þo at gridin væri sett. Menn komu af lande ofan til

[1]) er *tilf. Cd.*

fundar vit þa þorgrim ok segia þeim vig Gautz Sleitusonar þuiat þorgeirr hafde ecki sagt fra uiginu. ok er þorarinn ofsi heyrde þessi tidende þa heimti hann þorgrim til mals vid sig ok mællti suo. æigi munda ek grid hafa sellt þorgeiri ef ek hefda uitat uig Gautz uinar mins ok frænda. nu uillda ek uita til huers ek skal ætla um liduæitzslu þar sem þu ert ef ek uil hefnna Gautz. þorgrimr suarar. æigi mun ek skiliazst j þessu mali uid þig en torsotligr synizst mer þorgeirr vera þar sem hann er her kominn. þorarinn mællti. ver skulum bera a land upp skrud ok lereft ok adra goda gripe ok breida til þerris. ok kann uera at nockurir menn þorgeirs fari at undrazst ok munu ver þa drepa fyst ok fæcka suo lid þeirra. þorgrimr suarar. gera mattu þat ef þu vill. þeir þorgrimr ok þorarinn hǫfdu ætlat til Grænlandz ok attu þeir felag saman. Einn godann vedrdag baru þeir a land upp skrud ok lereft ok adra goda gripe ok breiddu vit þerri. þann dag foru þeir Kalfr ok Steinolfr .xij. saman a bati til landz eftir uatnni. ok er þeir sa uarninginn þa hlupu þrir menn af lide þeirra þangat sem uarningrinn uar ok þegar er þeir komu þar voru þeir drepnir. ok eftir þat foru þeir þorgrimr ok þorarinn med lide sinu at þeim Steinolfui ok toku þa ok settu þa j fiotra en drapu .vj. menn þar hia uatninu. Helgi selseista hio j fystu einn forunaut þorgrims ok eftir þat hliop hann j brott. menn runnu eftir honum ok fengu æigi tekit hann. Helgi hliop id efra eftir fiollum daga ok nætr ok nam æigi fyrr stadar en a þinguelli ok sagde þeim þorgisle ok Jlluga tidendi þau sem gerst hofdu. Nu eftir þessi uig toku þeir þorgrimr kaupskipsbatinn þann er þeir Kalfr hofdu haft til landz ok foru þa til skipsins. þorgeirr var a skipe ok þeir .viij. saman ok visse æigi þau tidende er a landi hǫfdu georst þuiat leiti bar a medal þar sem uatnnit uar ok skipit. f(i)nnr þorgeirr æigi fyrr en þeir fluttu kaupskipit med .ij. batum þangat til skips hans allir herklæddir. þeir þorgeirr þrifa uopnn sin. þorgrimr ok þorarinn flytia skip sitt at skipe þorgeirs ok leggia bord vid bord. tekzst þar hardr bardagi. na þeir bratt uppgaungu ok lata skamt storra hǫgua a mille. þorgeirr hǫggr tueim hondum med bræidexi. ok uar lengi adr en þeir kæmi sari a hann firir þui at ongum þotti gott at æiga gisting undir ǫxi hans. þo hlutu þat margir. Menn þorgeirs fellu bratt. hliop þorgeirr þa aftr j stafninn ok uardizst þadan þuiat uit mikinn lidsmun uar at æiga. allir menn agættu uornn hans þeir er vissu huersu roskliga hann uardizst. ok mælltu aller æitt um hans frækleik at menn þottuzst ǫngan hans iafnningia fundit hafa. þorgeirr hio hart ok tidum af ǫruggum hug ok myklu afli þuiat mæire raun var

at rada at þorgeiri vndir hǫgg hans en at leoni þa er teknir ero fra henne huelparnir er hon þa grimmuzst j sinu edli. Almattigr er sa er suo ǫrugt ok uhrætt hiarta gaf j briost þorgeiri ok æigi uar hans pryde af monnum ger ne honum j briost of borin helldr af hinum hæsta hofutsmid. Nu reyndizst þeim þorgrimi ok þorarnni suo at mæiri mannraun væri at sękia þorgeir en at klappa um iugur konum sinum. þa sottizst þeim seint ok uard þeim hann dyrkeyftr þuiat þormodr hefir suo um ort at þorgeirr yrde fiogurra manna bani adr hann væri ueginn. en .ij. menn eru nefnndir j þorgeirsdrapu þeir er hann vo. Márr het austmadr en annar þorir ok kom Marr fystr banasari a þorgæir. hann hio a hond þorgeiri. ok er hann hafde þat sar fæingit þa hio hann Maa banahogg. en þorir lagde spioti j gegnum þorgeir en þorgeirr gek a lagit ok hio hann banahǫgg. Um þessa atburde quat þormodr visu þessa.

**Hauks fra ek hræfa læki**
**hardrædis þraut bæde**
**vid suiprunna sennu**
**suerd alldregi verda.**
**Márr het madr ok þorir**
**malsniallr er let falla**
**adr fragum þa þeirra**
**þorgæirs lokit eiru.**

Nu er þorir uar fallinn en spiotit stod j gegnum þorgeir þa fell hann æigi. en þa var skamt hǫggua a medal þuiat þeir þorgrimr ok þorarinn stodu nærr ok unnu þeir þa a þorgeiri. ok þa fell þorgeirr ok let lifit. þorarinn hio hofudit af þorgeiri ok hafde med ser a brott. Suo segia menn at þeir kryfde þorgeir til hiarta ok uilldu sia huiligt hiarta hans uar suo hugprudr sem hann uar. en menn segia suo at hiartat var æinkar litit. ok hafa þat sumir menn firir satt at minne se hugprudra manna hiortu en huglausra þuiat menn kalla mæira vera [355] blod j myklu hiarta en j litlu. en þeir kalla hiartablode hræzslu fylgia ok segia menn þui datta hiarta j briostinu at þa hrærir hiartat blodit.

## Eftirmaal vm þorgeir.

124. Eftir þenna bardaga skildu þeir þorgrimr ok þorarinn felag sitt at bæn þorarins. þuiat þorarinn þottizst mikinn sigr unnit hafa uænti hann ser virdingar her a lande eftir sigrinn. þorgrimr hafde skip ór felagi en þorarinn lausafe. hellt þorgrimr til Grænlandz ok forst honum uel. þorarinn aflade ser manna ok hrossa ok ræid nordan ór Hraunhǫfnn med .xij. mann. hann hafde hofud þorgeirs j belg vid slagalar ser til agætis. var þat skemtan þeirra[1] a aafǫngum at þeir

[1]) at *tilf. Cd.*

toku hofud þorgeirs ór belgnum ok settu þat a þufur upp ok hlogu at. en er þeir komu j Eyiafiord þa ádu þeir skamt fra Naustum. þeir toku þa enn hofut þorgeirs ok settu þat upp a þufu sem þeir voru uanir. þeim syndizst þa hofudit ogurligt. ǫgun opin ok munnrinn uti tungan. þeim syndizst ǫgun hrærazst j hofdinu ok suo tungan. vid þa syn urdu þeir hræddir ok felmsfullir. þeir grofu þa grǫf med ǫxum sinum hia þufunne ok hrundu þar j hǫfdinu ok baru a ofan torf ok griot. Slettukallar ruddu skipit likum ok fluttu likin til landz ok iordudu þar j hǫfninne allra manna lik þeirra er þar hǫfdu fallit. en æigi nentu þeir til kirkiu at færa þuiat j þann tima voru aungar kirkiur nærr Hraunhofnn. Kalfr ok Steinolfr voru ór fiotrum leystir eftir bardagann. Nu þo at ung væri kristnin her a lande j þann tid þa uar þo æigi uande til at taka fe ueginna manna. Jllhugi for þat sumar utan nordr a Slettu. ok þat sama sumar foru utan Eyiulfr j Olafsdal ok þorgeirr hófleysa fostbrodir hans j Grimsáróse ok þat skip kom j ey þa er Lofot het. þetta sumar eftir er uetr var lidinn fra uige þorgeirs bio þorgisl Arason mal a hendr þorarnni ofsa um uig þorgeirs ok Ari son hans ok morgum monnum odrum er at hofdu verit at uiginu þorgeirs ok gerdu mikinn reka at þessum auerkum. A þessi mal uar sætzst a alþinge ok gerde[1] þorgisl æinn um oll malin. gullduzst þar a þinginu .cc. silfrs um uig þorgeirs ok hafde Gudmundr hinn riki annat hundrat at rade þorgisls Arasonar. þat sama sumar uar þorarinn ofse ueginn inn j Eyiafirde a manna mote. A þui sumre fór Kalfr ok Steinolfr vt til Jslandz. þeir komu vt j Uadle a Bardastrond ok foru heim til bussins j Garpsdal. Eyiolfr ok þorgeirr hofleysa keyftu skip j Noregi ok helldu þeir þui j haf þa er þeir voru bunir. þa uelkti vti lengi ok komu sid um haustit j Borgarfiord. ok er þeir voru þar komnir skilde þa a um landtokuna. uillde Eyiolfr hallda skipinu til Straumfiardar þuiat þangat var byrr en þorgeirr uillde hallda j Dagurdarnes. þa uar gengit til siglu ok eftir læitat huorir fleire væri skipueriar þeir er sigla uillde edr j rett leggia. en firir þui at monnum hafde leitzst j hafinu þa voru þeir fleire er sigla uilldu til landz. þeir fostbrædr voru suo ræidir at þeir toku til uopnna en menn gættu suo til at ecki uard at. toku þeir Straumfiord. ok þegar er skipit uar landfast nordit þa fek þorgeirr ser hest. ridr hann fra ok til þess er hann kom j Garpsdal tok ser uist med þeim brædrum. Eyiolfr uar vid skip þar til er upp uar sett ok um buit. for hann þa heim uestr j Olafsdal til modur sinnar ok uar med henni um uetrinn. Spakelling er fyrr uar fra sagt tok sott

[1]) gerdu *Cd.*

ok anndadizst hina næstu nott eftir palmadag. lik hennar uar flutt a skipi ut a Reykianes þui at einge uar kirkia nærr Olafsdal en su er a Holum var. Eyiolfr ok huskallar hans fluttu lik spakellingar til kirkiu. ok er likit var nidrsett uestnade vedrit. gerde a hafuidre ok frostuidri lagde fiordinn langt vt Gilsfiord ok matti æigi skipinu fara inn til dalsins Olafsdals. þorgisl mællti vid Eyiolf. þat synizst mer rad at þu ser her til þess er lidr paskauika. mun ek þa fa þer menn at fara med skip þitt ef þa ma komazst firir isum. en ef þa er æigi fært þa mun ek fa þer hest heim at rida. en ef naudsyn berr til þa megu huskallar þinir fara heim fyr en þu. Eyiolfr suarar. þetta mun ek þiggia. Nu foru huskallar heim. Fimta dag j paskauiku sagdi Eyiolfr at hann uillde heim fara. þa let þorgisl bua honum hest til farar ok baud honum mann til foruneytis. hann sagdizst æinn saman rida uilia. Nu ridr hann utan af Reykianese ok inn um Berufiord ok Kroksfiord ok er hann atti skamt til Garfsdal(s) þa voru þeir Kalfr ok Steinolfr vti staddir undir æinum husuegg ok hioluduzst uit. þa geta þeir at lita huar menn ganga utan eftir uelli uopnadir æigi allfair. þeir toldu mennina ok voru .ix. saman ok er þeir nal(gazst) [3v] husin þa sneru þeir fram firir husin. þeir þickiazst kenna mennina ok synizst þeim þar vera þorgeirr Hauarsson ok þeir atta er fellu med honum a skipinu. þeir voru aller alblodgir. þeir gengu heim eftir uellinum ok ór gardinum ok er þeir koma at a æinne er fellr firir innan bæ þa hurfu þeir. þeim brædrum vard osuift vid þessa syn. ganga þeir inn j skala ok setiazst nidr ok sortnar vm þa. Önundr het madr er gætti nauta j Garpsdal hann gek ór fiosi er þeir voru inn komnir brædr. hann ser huar madr ridr utan eftir uellinum alluænligum hesti. sa madr var gyrdr suerde ok hefir spiot j hende ok hialm a hofde. ok er hann nalgazst husin þa kennir hann manninn ok er þat Eyiulfr. Onundr gengr j stofu þar uar þorgeirr hofleysa ok konur nokkurar. Onundr tok til orda. nu ræid Eyiolfr her um tun Ok er þorgeirr heyrde þessa sǫgu þa hliop hann upp ok gengr fram tekr spiot j hond ser gengr vt. Eyiolfr var þa kominn a innanuerdann uollinn. þorgeirr hliop eftir honum en Eyiolfr reid leid sina ok serr æigi at madrinn for eftir honum. ok er hann kemr at anne þa var hon uppgeingin ok læitadizst hann firir.* þorgeirr kallade þa ok mællti at hann skyllde bida ef hann þyrde. Eyiolfr heyrir kallit ok litr til ok ser huar þorgeirr rennr. hleypr af baki ok rennr j mot honum. ok er þeir finnazst þa leggr huorr þeirra spioti j gegnum annan ok letu iafnnsnemma lifit. Nu kom þat fram er spakellingin hafde þeim firir sagt. þeir brædr

ganga til stofu þa er af þeim leid omeginit. þeir spyria huar þorgeirr væri ok er sagt at hann væri vt genginn ok hafde tekit spiot j hond ser þa er Onundr sagde for Eyiolfs. þeir brædr ganga vt snudigt ok inn or garde til arinnar ok voru þeir þa nyfallnir ok æigi eyrendir. satu þeir brædr yfir þeim til þess er þeir voru badir daudir ok færdu lik þeirra til kirkiu. þormodr kolbrunarskalld spyrr nu oll þessi tidendi ok þottu mikil.

---

## HER HEFR VPP ÞAATT EYMUNDAR AF SKǪRUM.

### capitulum.

Litlu eftir þat er Olafr Suiakonungr hafde brugdit vid Olaf konung Haralldzson þui sattmale sem geort var med þeim a Uppsala þinge bio sa madr a Skorum j uestra[1] Gautlande er Eymundr het. hann uar logmadr ok manna uitrazstr ok ordsniallazstr. hann uar ættstor ok frændmargr ok storaudigr. hann uar kalladr undirhyggiumadr ok medallagi tryggr. hann uar madr gǫfgazstr a uestra Gautlande þa er jarll uar j brottu. þat uor er Rognualldr jarll fór ór Gautlande attu Gautar þing oftliga ok kærdu þat mal oftliga sin j mille huat Suiakonungr munde til taka. þeir spurdu at hann uar þeim ræidr firir þat at þeir hofdu uingazst vid Olaf Noregskonung helldr en halldit dæilu vid hann. Olafr Suiakonungr hafde ok borit sakir a þa menn er flutt hofdu Astride dottur hans til Noregs. mælltu þat sumir at þeir skilldu læita ser traustz til Noregskonungs ok bioda honum sina þionustu. sumir sogdu at Uestrgautar hofdu æigi styrk til þess at hallda dæilu vid Suiakonung. en Noregskonungr uerdr oss fiarri þuiat landzmegin hans er fiarre. ok er þat til at gera fyst menn til Suiakonungs ok freista ef ver komumzst j sætt vid hann. en ef þat fæzst æigi þa er sa kostr at leita til Noregskonungs. Badu þa bǫndr Eymund at fara þessa ferd en hann quat ia vid ok for vid .xxx. manna. kom hann fram j eystra Gautlande. voru þar margir frændr hans ok uinir ok fek hann þar godar vidtokur. hann atti þar tal vid hina uitrozstu menn vm þetta uandmǫli ok kom þat allt asamt med þeim ok þotti monnum mikit um lǫgleysur þær er konungr gerde. fór Eymundr upp j Suiþiod ok atti þar tal vid marga menn ok kom þar allt j æinn stad nidr. hann

[1]) j *tilf. Cd.*

hellt fram forinne til þess er hann kom til Uppsala. tok hann ser gott herbergi um nattina. Vm daginn eftir gek Eymundr a konungs fund þa er hann sat a stefnu ok fiolment um hann. Eymundr gek firir konung ok hneigde honum ok kuaddi hann. konungr leit uit honum ok hæilsade honum ok spurde tidennda. Eymundr suarar. sma eru tidende med oss Gautunum. en þat þikir oss nymæle er Atli hinn dęlski a Uermalande for j uetr upp a markir med skid sin ok boga. hann kollu ver mestan væidemann. hann hafde fæingit a fiallinu suo mykla gravðru at hann hafde fyllt skidkialka sinn suo sem mest gat hann fyllt ok flutt eftir ser. þa snere hann heim af markinne. hann sa þa einn jkornna j vidum uppe ok skaut til hans ok miste. þa uard hann ræidr m(iog) ok let lausann sledann ok rennde eftir jkornnanum. en jkornninn for þangat sem mestr uar skogrinn en stundum j limar upp. þa siglde hann j mille limanna a odru tre. en er Atli skaut at honum þa flaug ę firir ofan edr nedan. en alldri for jkornninn suo at æigi sæi Atli hann. honum gerdizst suo [357] mikit kapp a þessi uæide at hann skræid þar eftir allann daginn en æigi at helldr gat hann uæitt þann jkornna. en er myrkua tok kastade hann ser nidr j snio þar sem hann uar kominn sem hann var uanr. vedr uar a drifanda. eftir um morgininn for Atli at læita sleda sins ok fann alldri. sidan for hann heim vid suo buit. slikt eru min tidendi herra. Konungr suarar. litil tidende ef ecki er fleira fra at segia. Eymundr suarar. var enn skommu þat er tidende ma kalla at Gauti Tofason for med .v. herskipum vt eftir Gautelfui. en er Gauti la j Ekreyium þa komu þar Danir med .v. skipum storum. þeir Gauti unnu skiott .iiij. skipin en hit vta skipit komzst a haf undan ok kuomu þeir segli vid. Gauti for eftir þeim æinskipa. ok dro fyst saman. þa tok uedr at uaxa. gek þa mæira kaupskipit. þa sottizst miog hafit. villde Gauti þa aftr snua. þa gerde bratt storm uedrs ok braut þa skipit vid Hlessey ok tyndizst feit alt ok meire hlutr manna. en hans forunautar skylldu hafua bedit hans j Ekreyium. þa kuomu at þeim Danir a .xij. kaupskipum ok drapu þa alla en toku allth fe þat er þeir hofdu adr fæingit. suo gafzst þeim agirnnen. Konungr suarar. þetta eru mikil tidende ok frasogulig. en huert er þitt eyrende hingat sagde konungr. Eymundr suarar. ek ferr herra at læita uandmæla vm þat er lðg uor greinir a ok um Uppsala lðg. Konungr mællti. huat er þat er þu uill spyria. Eymundr suarar. þar voru .ij. menn edli[1] bornnir iafnnbornir at ætt en oiafnir at æigu ok skaplynde. þeir deilldu um jardir ok gerde huorr odrum skada ok sa mæira er rikare var adr. en þeirra dæila uar

[1]) edlu *Cd.*

nidrsett ok dǫmt vmb a allzheriar þinge. hlaut sa at giallda er rikare uar adr. en at fysta sale gällt hann gagl firir gas en gris firir gamallt suin en firir halfa mork gullz gallt hann halfa mörk silfr en adra halfa af leire ok molldu. en umfram het hann hinum afarkostum er þetta fe tok j sina skulld. huat dæmi þer vm herra. Konungr suarar. gialldi hann fullum giolldum þat er dǫmt var en konungi sinum .iij. slik. en ef þat er æigi golldit firir iafnnleingd þa fari hann utlægr af allri æigu sinne. falli fe hans allt j. konungsgard ok hafui sa halft er sok atti vid hann. Eymundr skirskotade þessum orskurd undir þa menn alla er vid voru ok þar voru þingfastir ok skirskotade til þeirra laga er gengu a Uppsala þinge. Eftir þat kuadde hann konung ok gek j burt sidan. þa hofdu adrir menn sinar kærur firir konungi ok sat hann þar lengi dags. En er konungr kom til bordz þa spurde hann huar Eymundr være. honum var sagt at hann være hæima j herbergi. þa mællti konungr. gangi eftir honum ok skal hann uera j bode minu. þui næst komu inn sendingar ok þar eftir foru inn læikarar med hörpur ok gigiur ok mörg onnur saungfæri ok þar nęst kuomu inn skeinkiarar[1]. uar konungr allkátr ok hafde marga rika menn j bode med ser ok gadẹ æigi Eymundar lögmannz. drak konungr þann dag allan ok suaf af um nattina.

## Er konungr reed spurningar Eymundar.

126. Um morgininn eftir er konungr uaknnade þa hugsade hann huat Eymundr hafde talat um daginn. En er konungr var klæddr let hann kalla til sin spekinga sina. hann hafde iafnan nærr ser .xij. hina uitrazsta menn. þeir satu yfir domum med honum ok redu um uandamal. en þat uar æigi uandalaust þuiat konungi likade illa ef dómum uar hallat fra rettu. en þo skilldu öngir þora at mǫla j moti honum. A þeirri stefnu tok konungr til orda ok bad þangat kalla Eymund lögmann. en er sendimenn komu aftr. herra segia þeir Eymundr lögmadr reid a burt þegar hann hafde snætt. þa mællti konungr. segit nu godir höfdingiar huat visse lagafrett su er Eymundr spurde j giar. þeir suörudu. herra þer munut hugsat hafua ef þat kom til annars en hann mællti. Konungr suarar. þeir .ij. edli[2] bornir menn er hann sagde fra (at) hofdu osattir verit ok þo annar rikari ok gerdi huorr ödrum skada þar sagde hann fra okkr Olafi digra. Suo er sogdu þeir allt sem þer segit herra. Konungr mællti. a okru male uar domr a Uppsala þinge. en huat kemr þar er hann sagde fra at uangolldit var at gagl uar

[1]) skeinkarara *Cd.* [2]) edla *Cd.*

firir gas en gris firir gamallt suin edr læirr halft firir gull. Arnnuidr blinde suarar. herra þat er olikazst rautt gull edr læirr en mæira skilr þo konung ok þræl. þer hetut Olafi digra dottur yduarre Jngigerdi ok er hon konungborin j allar ættir ok halfor af Uppsala ætt er tignuzst er a Nordrlondum [38] þuiat su ætt er komin fra godunum sealfum. en nu hefir Olafr konungr fæingit Astridar ok þo at hon se konungsbarnn þa er þo ambatt modir hennar ok uinduersk. mikill munr er þeirra konunga er annarr þiggr slikt med þok ok er þat at uon at ecki megi einn konungr (n)orrænn vid Uppsalakonungi. giolldum þar aller þackir firir at þat halldizst þuiat godin hafa lengi haft rægt a ættmonnum sinum þoat nu afrækizst margir þann atrunat. þeir voru brædr .iij. Arnnuidr blinde hann uar syndr suo litt at hann uar ualla hestfærr ok uar manna maldiarfazstr. annarr het þoruidr stame hann fek æigi mællt .ij. ordum leingra samfast. hann uar manna gæfazstr diarfazstr ok æinardazstr. þride het Freyuidr daufui hann heyrde illa. þeir brædr voru aller menn rikir audgir ok kynstorir foruitra ok kærir konungi. þa mællti konungr. huat uæit þat er Eymundr sagde fra Atla dǫlska. þa suarade æinge ok læit huerr til annars. Konungr mællti. segit nu. þa mællti þoruidr stame. Atli atsamr dǫlskr folskr. þa mællti konungr. huerr a þessa snæid. þa suarar Freyuidr daufui. herra mæla mun ek berara ef þat skal j ydru lofui vera. Konungr mællti. tala nu Freyuidr j voru leyfui sligt er þu uill. Freyuidr tok til mals. þoruidr brodir minn er uor er uitrazstr kallar hann þann allan æinn Atta ok atsam(an) dælskan ok folskan. þann kallar hann suo er fridrinn er læidr suo at hann keppizst til smarra hluta ok færr þa æigi en lætr firir þa sok farsæliga hluti stora. nu er ek daufr ok æigi suo þo at æigi hafua ek heyrt þo marga menn sligt kæra at monnum likar illa bæde rikum ok orikum þat er þer þerra halldit æigi ord ydr uit Olaf konung digra ok hitt en uerr er þer rufut dom allzheriar er gerr var a Uppsala þinge. æigi þurfu þer at hrædazst Noregskonung ne Danakonung ok ǫngan annan medan Suia herr uill fylgia ydr. en ef landzfolk uill snuazst a hendr ydr med æinu samþycki þa siam uer vinir ydrir æingi rad til þau at uist se at duga mune. Konungr suarar. huerir gerazst hofdingiar at þessu vrade at rada land undan mer. Freyuidr suarar. allir Suiar uilia hafa fornn lǫg ok landzrett sinn fullan. litit a hitt herra huersu margir hofdingiar ydrir sitia nu yfir radagerd med ydr. ek ætla nu satt at segia ydr at ver sem her .vj. er kalladir erum radgiafar ydrir en allir adrir hygg ek at j brottu se rikismenn j herudum ok æiga þeir þar þing vid landzmenn. ok ydr satt at segia þa

er herðr uppskorin ok send um land ok stefnt refsingarþing. aller uer brǿdr hofum til verit bednir at æiga hlut j þessi radagerd en æinge uorr uillde þat nafnn æiga at heita drottins suikari þuiat æigi uar suo uorr fadir. Konungr mællti. huert orræde skulu uer nu hafua. uande mikill er til handa borinn. gefit nu rad til godir hðfdingiar at ek fai halldit konungdominum ok fðdurarfui minum en ecki uil ek dæila uit allann Suia her. Arnnuidr suarar. herra þat synizst mer rad at þer ridit ofan j árós uit þat lid er ydr uill fylgia. takit þar skip ydr ok farit suo ut j Lðginn. stefnnit þar til yduar folkinu. farit æigi med stridlæti biodit monnum lðg ok landzrett. drepit nidr herorinne mun hon enn ecki uida farit hafa yfir landit þuia(t) stundin hefir skðm uerit. sendit menn ydra til þeirra manna er þetta rad hafua med hondum ok freista ef sia kurr mætti nidr setiazst. Konungr segir at hann uill þetta rad þeckiazst. uil ek segir hann at þer brædr farit þessa ferd þuiat ek trui ydr bezst af minum monnum. þa mællti þoruidr. ek mun eftir uera en Jacob fari þess þarf. þa[1] mællti Freyuidr. gerum suo herra þuiat hann uill æigi uid ydr skilia j þessum haska en uid Arnnuidr munum fara. þessi radagerd uard framgæing at Olafr konungr for til skipa sinna ok hellt ut j Loginn. kom honum þar bratt fiolmenni. en Freyuidr ok Arnnuidr ridu ut a Ullarakr ok hofdu med ser Jacob konungs(son) ok drogu þo dul yfir ferd hans. þeir urdu bratt uarir uit at þar uar firir safnnadr ok herhlaup bonda.

## Raadagiordir Suia vid konung. capitulum.

127. Nv er fra þui at segia at bændr attu þing nætr ok daga. ok er þeir brædr fundu frændr sina ok uine þa segia þeir at þeir uilia radazst j flockinn en þui taka aller uel. uar þa þegar miog skotit radum undir þa ok dregzst þar til fiolment. ok mæla þo aller æitt ok segia suo. at þeir skulu æigi lengr hafa Olaf konung yfir ser ok uilea æigi honum þola ofsa ok ofdramb þat er hann uill æinkis mannz male hlyda þott storir hofdingiar segi honum sannynde. En er Freyuidr fann akafua lydsins þa sa hann j huert efnni komit var. [395] hann atti stefnur vid landzhofdingia ok talade firir þeim ok mællti. suo litz mer ef þetta storæde skal fram fara at taka Olaf Æireksson af riki sem ver Uppsuiarnir munum firir skulu vera. hefir her iafnan suo verit at þat er Uppsuia hofdingiar hafa stadfest sin a mille þa hafua hlitt þeim radum adrir landzmenn. æigi þyrfti uorir frændr at þiggia rad af Uestrgautum um sina landstiornn. nu verdum ver æigi þeir ættlerar at

[1]) þetta *Cd.*

Eymundr þurfui oss rad at kenna. nu uil ek at ver bindim rad uor saman frændr ok uinir. þessu iatadu allir ok þotti uel mællt. Eftir þat snyrr allr fiolde lydsins til þessa sambandz er Uppsuia hofdingiar toku med ser. voru þeir þar hofdingiar firir Freyuidr ok Arnnuidr. en (er) þat fann Eymundr þa grunade hann huort þetta rad munde verda framgeingt. for hann þa til fundar vit þa brædr ok attu þeir tal saman. spurdu þeir brædr Eymund. hueria ætlan hafui þer um þat ef Olafr Æireksson er tekinn af lifui huernn konung uili þer þa hafua. Eymundr suarar. þann sem oss þikir bezst tilfallinn huart sem hann er af hofdingia ætt edr æigi. Freyuidr suarar. æigi uilium uer þat Uppsuiarnir at konungdomrinn gangi ór langfedga ætt hinna fornnu konunga a uorum dogu(m) medan suo god fŏng eru til sem nu eru. Olafr konungr a tuo sonu ok uilium uær annanhuornn þeirra til konungs taka ok er þo þeirra mikill munr annarr er edli[1] borinn ok suænskr at allri ætt en annar er ambattar son ok uindueskr at allri ætt halfri. At þessum orskurd uard romr mikill ok uilia aller Jacobum til konungs taka. þa mællti Eymundr. þer Uppsuiarnir hafit ualld til þess at rada þessu at sinne en hitt segi ek ydr sem eftir mun ganga at þeir sumir er nu uilia ecki annat heyra en konungdomr j Suiþiod gangi æigi ór langfedga ætt þa munu þeir sealfir lifa ok iata er konungdomr mun j adra ætt ganga ok mun þat betr hlyda. Eftir þat letu þeir brædr læida fram Jacobum konungsson ok letu honum þar gefa konungs nafnn ok þar med gafu Suiar honum Ŏnundar nafnn ok uar suo kalladr sidan medan hann lifde. þa uar hann .x. uetra edr .xij. Eftir þat fær Onundr ser hird ok ualdi ser hŏfdingia ok hofdu þeir allir saman lid suo mikit sem honum þotti þurfa en hann gaf heimfararleyfui ollum bondamug. Eftir þat foru sendimenn mille konunganna ok þui næst kom suo at þeir hittuzst sealfuir ok gerdu sætt sina. skyllde Olafr konungr uera yfir lande medan hann lifde. hann skyllde ok hallda sætt ok frid vit Noregskonung ok suo uit alla þa menn er j þessi radagerd hofdu verit. Ŏnundr skyllde ok konungr uera ok hafua sligt af lande sem semdizst med þeim fedgum en uera skylldr at fylgia þa bondum ef Olafr konungr gerde þa nockura hlute er bændr uilldu æigi þola honum. En eftir þat voru menn sendir til Noregs a fund Olafs konungs med þeim eyrendum ath hann skyllde fara j stefnnuleidangr til Konungahellu til motz vid Suiakonung ok þat med at Suiakonungr vill at þeir tryggi sættir sinar. En er Olafr konungr heyrde þessa ordsending þa uar enn sem fyrr at hann uar giarnn til fridarins ok ferr hann med lide sinu sem akuedit uar. kom þar Suiakonungr. En er þeir magar

[1]) edlu *Cd.*

finnaz þa binda þeir sætt sin a mille ok frid. var Olafr Suiakonungr þa godr vidmælis ok miuklatr. Suo sagde Ari prestr hinn frode at bygd su la j Hising er fylgt hafde ymizst til Noregs edr Gautlandz. þa mælltu þeir konungarnnir sin a mille at þeir skylldu hluta um æignn þa ok kasta til te(n)ingum ok skyllde sa hafa er stærra kastade. þa kastade Suiakonungr firir sex tuo ok mællti at Olafr konungr þyrfti æigi eftir at kasta. Hann suarar ok hristi teningana j hendi ser. enn eru tuo sex a tenningunum ok er gude minum enn litit firir at lata þau upp horfa. Hann kastar ok koma upp .ij. sex. þa kastar Suiakonungr enn .ij. sex. þa kastar Olafr Noregskonungr eftir. uar þa a odrum sex en annar hraut j sundr ok voru þar a .vij. ðgun. ok æignadizst hann bygdina. Æigi hofum ver heyrt getit fleire tidennda a þeim funde. skilduzst konungarnir sattir. Eftir þessi tidende er nu uar fra sagt sneri Olafr konungr lidinu aftr j Uikina. for fyst til Tunsbergs. duald-izst þar litla hrid ok for þa nordr j land ok um haustit allt nordr j þrandheim ok let þar bua til uetrsetu ok sat þar um uetrinn. þa uar Olafr æinualldzkonungr yfir ollu þui riki er haft hafde Haralldr hinn harfagri ok þui framarr at þa uar hann æinn konungr j lande. hann hafde þa feingith med fride ok sætt þann hluta landz er Su(i)akonungr hafde haft en tok hinn hluta med uallde ok red firir sem annars stadar en Danakonungr hafde att. Knutr konungr red j þann tima bæde firir Æinglande ok Danmork ok uæitte ecki tilkall til Noregs j þann tima suo at framgæingt yrde.

### Fra sueinum tue(i)mr eyuentyrr.

128. þat er sagt æinn tima þa er Knutr konungr sat j Einglande at .ij. pilltar fatækir foru þa yfir land einnahuerra eyrenda sinna annarr danskr en annar norrænn. þeir koma þar fram sem Knutr konungr var a ueizslu. þeir uoru hea odrum stafkollum. þeim uard mart talat. þar kom at þeir foru j manniafnnat huorr fremri uæri Olafr konungr Haralldzson edr Knutr konungr. fylgde hinn norręni [...] sueinn þui at Olafr Haralldzson væri fremri konungr ok at ollu agætari. en hinn danski sueinn fylgde fram Knuti konungi. ok uard her af sem vida annars stadar ef j mannjofnnut er farit þræta mikil ok þar til at þessi romr kom firir Knut konung sealfan. var honum ok sagt huat þeir hofdu at tala. Lætr hann þa kalla pilltana bada firir sig. gek sa gladliga sem Knuti konungi hafde fylgt j sinum ordum ok hugdi ser til nockurs bata peninga edr metnnadar en hinn norræni pilltr uar nockut ottande ok gek þo diarfliga. en er þeir komu firir konung

spurde konungr huorr sa veri at honum hefdi fram halldit. en hinn danski sagde til sin. Konungr mællti. huat finnr þu til þess at ek se fremri. Sueinninn suarar. mer þikir þer bade rikare ok oruare ok flestum konungum agætari. Konungr mællti. en huat finnr þu til hinn norræni sueinn at Olafr konungr, se fremri en ek. Sueinninn suarar. ek get æigi þat suo greiniliga sagt þuiat ek hefi huorki til fræde ne ordgnogt eftir þui um at tala sem mer þikir vera utan þat hellzst at mer bydr þetta j skap at huern tima þa er hans er getit at hann se olikr ollum konungum ǫdrum sakir allrar alferdar. ok þat er ok min ætlan at suo beri raun a þo at þat birtizst enn sidarmæirr. Konungr bad þa j burtu ganga. fann ok æingi madr a honum nockura stygd vid norræna pillt ne nockura blidskapi vid hinn danska suæin. Sidan voru tekin upp dryckiubord ok kuomu inn sendingar. konungr let gefa sinn hana steiktann huorum sueinanna. fannzst hinum danska um helldr fátt þuiat hann hugde til meire giafa. En er ofan voru dryckiubord geymdu pilltarnir hanana ok hofdu sig sidan af stad ok foru ferda sinna ok þar til er uegir þeirra skilduzst þuiat hinn norræni uillde aftr til Noregs. þa talade hinn danski sueinn. til litils kom mer þat at hallda fram Knuti konungi þuiat mer syndizst sa haninn synu fæitari er hann gaf þer helldr en sa er hann gaf mer edr uilltu skipta vit mik um hanana. þat spare ek æigi sagde hinn norræni þuiat ek hefir ǫnga elsku a þessari giof Knuts konungs ok haf þu huornn er þu uill. þa kiore hinn danski þann sem hinn norræni atti adr ok skildu sidan. Fór hinn danski leidar sinnar þar til er hann hungrade. tok hann þa hana sinn ok át hann ok reyndizst hann ǫngu betr en hann ætlade. ok er hinn danski sueinn ór sǫgunne. Hinn norræni sueinn gek ok sinn ueg þar til er hann gerdizst matlystr. tekr hann þa upp hana sinn ok er hann bregdr a knifinum brestr vid en bitr ecki. undrazst hann þetta. skar þa frekara ok finnr nu at haninn er fullr af gullpeningum. tekr hann þa ok geymir peningana. þikir nu hardla uænt um. skilr nu at þetta hefir uordit af guds forsio ok uilia. for hann sidan j kaupstade ok sellde peningana ok tok firir ser þarfliga hluti. ok tokz honum þat allt likendum framarr. skorti hann ok sidan alldri peninga um sina daga. Mega þat nu ok aller uist uita at þetta allt saman hefir hann hlotit af hæilaglæik Olafs konungs sem nu skinn j stortaknum med allzualldanda gude.

---

## þAATTR þEIRRA ORKNEYINGHA.

### capitulum.

Mikill hermadr Æinar jall j Orkneyium Sigurdarson jalls hann þotti æingi iafnnadarmadr. hann heriade a Jrland ok bardizst j Ulfreksfirde vid Konufògur Jrakonung. fek Æinarr jall þar usigr mikinn ok mannalat. Annat sumar eftir fór Eyuindr urarhornn uestan af Jrlande ok ætlade til Noregs. uedr uar huast ok stormr mikill. þa sneri Eyuindr til Asmundaruogs ok la þar uedrfastr um hrid. En er þat spyrr Æinarr jall þa hellt hann þangat lide miklu tok hann þar Eyuind ok let drepa en gaf grid flestum monnum hans. foru þeir heim til Noregs um haustit ok a fund Olafs konungs ok sogdu honum aftoku Eyuindar. Konungr suarar fa vmb ok fannzst þat a þo at honum þotti mannskade mikill ok miog j moti ser gert. um flest uar konungr famælltr þat er honum þotti ser miog j moti skapi. þorfinnr jarll sende þorkel fostra sinn vt j eyiar at heimta saman skatta sina. Æinarr jall kende þorkatli miog uppræist þa er þorfinnr jall hafde tilkall haft vt j eyiarnar. for þorkell skyndiliga ór eyiunum yfir a nes. spurde þorfinnr jall at hann uar þess viss ordinn at Æinarr jall ætlade honum dauda ef æigi hefde vinir hans edr frændr gert honum niosn. nu mun ek æiga þann a baugi at lata þann verda fund ockarnn jalls at um skifti med okr en þann annann at fara leingra a brott ok þangat at jall æige alldri [401] ualld yfir mer. þorfinnr jall fysti þess miog at hann skyllde fara austr til Noregs motz vid Olaf konung. muntu segir jall mikils metinn huar sem þu ert med tignum monnum. en ek væit beggia yckart skaplynde þitt ok jalls at þit munut skamma stund mundazst til. Biozst þa þorkell a fund Olafs konungs ok for um haustit til Noregs ok var vm uetrinn med Olafi konungi j myklum kærlæikum. hafdi konungr þorkel miog vid rad sin þotti honum sem var þorkell vitr madr ok skorungr mikill. fann konungr þat j tali hans at hann misiafnnade miog frasognn vid jalla ok uar vinr mikill þorfinnz en lagde þungt til Æinars jalls. Ok snemma vm vorit sende konungr skip uestr vm haf a fund þorfinnz jalls ok ordsending þa at jall skyllde koma a hans fund. hann lagdizst æigi ferdina undir hofut þuiat vinattumal fylgdu ordsendingunne.

### þorkell drap Einar jarl. capitulum.

130. Ðorfinnr jall for austr til Noregs ok kom a fund Olafs konungs. fek hann þar godar vittokur ok dualdizst þar leinge vm sum-

arit. en er hann biozst uestr þa gaf Olafr konungr honum langskip mikit ok gott med ollum ræida. þorkell fostri redst til ferdar med honum jalli ok gaf jall honum þat skip er hann hafde uestan. skilduzst þeir konungr ok jall hinir bezstu uinir med myklum kærleikum. þorfinnr jall kom um haustit til Orkneyia. en er Æinarr jall spurde þetta þa hafde hann fiolment ok la aa skipum. Brusi jall for til fundar vid þa brædr ok bar sætt a mille þeirra. kom enn suo at þeir sættuzst ok bundu þat æidum. þorkell fostri skyllde þa j sętt tekinn ok vinattu vit Æinar jall ok þat uar ok mællt at huorr þeirra skyllde odrum ueita uæitzslu ok skyllde jall fyrre sækia j Sandvik til þorkels. En er jall var þar a uæitzslu þa var þar uæitt kappsamliga. jall var ecki katr. þar var mikill skali ok dyrr a badum endum. þann dag er jall skyllde burt fara ok buazst þa skyllde þorkell fara med honum til uæitzslu. þorkell sendi menn fram a leidina a niosnn þa er þeir skylldu fara um daginn. en er þeir komu aftr sogdu þeir þorkatli at þeir fundu þar þrennar satir ok uopnnada menn. ok hyggium ver þer satt at segia at suik muni undir vera. En er þorkell spurde þetta þa frestade hann buninge ok heimti saman menn sina. Jall bad hann buazst ok sagde mal ath rida. þorkell sagde at hann atti mart (at) annazst. hann gek stundum vt en stundum inn. Elldar voru a golfinu. þa gek þorkell inn um adrar dyrr ok med honum einn madr er nefnndr er Halluardr. hann uar islenzskr madr austfirzskr at ætt. hann lauk aftr hurdinne. þorkell gek innar eftir skalanum mille elldzsins ok þess at jall sat. Jall spurde. ertu nu buinn. þorkell suarar. ek er buinn nu. þa hio þorkell til jalls j hofudit. Jall steyftizst fram a golfit. Halluardr mællti. her se ek alla uesta fangarads er þer dragit jall æigi af elldinum. Hann keyrde þa spaurdu under hnackabæin jalli ok kifti honum upp ath pallinum. þorkell ok þeir badir felagar geingu vt skyndiliga vm adrar dyrr en þeir geingu inn. stodu þar vti menn þorkels med aluæpnni. Jallsmenn toku til hans ok uar hann þa daudr en ollum felluzst hendr til hefnnda. var þat ok at bradan bar ath miogh enda varde ǫngan mann þessa verks af þorkatli. voru menn ok flestir uopnnlausir inne en margir adr vinir þorkels godir. bar þat til med audnu þeirre er þorkatli var lagit lengra lif. for þorkell þa til skip(s) sins en jarlls menn j burt. þorkell siglde þann dag j burt ok austr j haf ok uar þat eftir uetrnætr. koma þeir þa med hæilu ok holldnu til Noregs. for þorkell þegar a fund Olafs konungs ok fek hann þar godar vidtǫkur. let konungr yfir þessu uerki uel. var þorkell med honum um uetrinn.

## Vidtal þeirra brædra.

131. Eftir frafall Æinars jalls tok Brusi jall þann hluta landz er adr hafdi haft Æinarr jall þuiat þat uar med margra manna vitorde huerium skildaga þeir Æinarr ok Brusi höfdu felag gert. þorfinni jalli þotti þat rettazst at halfar eyiar hefdi huorr þeirra en þo hafde Brusi .ij. uetr huornntueggia hlut eyianna. en um uorit kallade þorfinnr til landz uith Brusa at hann vill hafua helming landa. en Brusi gaf æigi jakuęde vid þetta. attu þeir stefnnur at þessum malum. geingu þa at vinir þeirra at semia þetta mal. ok kom suo at þorfinnr let ser ecki annat lika en hafua helming eyia en segir þat med at Brusi þurfti æigi mæira en þridiung med þat skaplynde sem hann hefir. ek unda þui segir hann at hafa þridiung landz þann er ek tok eftir födr minn j arf. kallade ok æingi til j hendr mer. en nu hefui ek tekit annan þridiung eftir brodur minn at rettum maldögum. en þo at ek se uanfærr til at deila kappi vit ydr frænde þa mun ek þo annars aleita [?] en iatta undan mer riki. þeir skildu at suo bunu malstefnu þessa. en er Brusi sa at hann mundi æigi standa iafnnfætis vid þorfinn. þuiat hann hafde riki myklu mæira ok traust af Skotakonungi modurfödur sinum. þa red Brusi þat af at fara ór lande austr a fund Olafs konungs ok hafde med ser Rognnualld son sinn ok var hann þa tiu uetra. En er jall hitti konung þa tok hann uel vid honum. en er jall bar upp eyrende sin ok segir konungi allan malauoxst þann er uar med þeim brædrum ok bat konung uæita ser styrk til at hallda riki sinu. baut þar fram j moti fullkomliga sina vinattu. Konungr suarar ok tok þar fyst til mals er Haralldr hinn harfagri hafde æignazst odul öll j Orkneyium en jallar hafua sidan haft j len en alldri at æignn. ok er þat til iartæignna segir hann at þa er Æirekr blodöx ok synir hans voru j Orkneyium þa voru jallar þeim lydskylldir. en er Olafr Trygguason frænde minn (kom j land) þa gerdizst Sigurdr jall fader yduarr hans madr. nu hefui ek tekit eftir hann allann arf. nu uil ek gera þer þann kost at þu gerizst minn madr. mun ek þa fa þer eyiar j len. skulu uit þa freista ef ek uæiti þer minn styrk huort betr skal at hallde koma edr þorfinni brodur þinum traust Skotakonungs. en ef þu uill æigi þenna kost þa mun ek eftir læita þeim æignum ok odulum er uorir frændr hafa att uestr þar. þessar rædur hugfesti jall med ser ok bar firir vine sina ok læ(i)tade rads vid þa hueriu hann skyllde iatta. huort hann skyllde at þessu sættazst vid Olaf konung ok gerazst hans madr. en hitt er mer osynna huerr minn hlutr verdr at skilnade uorum ef ek kued nei vid þuiat konungr hefir bert gert firir mer til-

kall at hann þikizst æiga eyiarnar. en vid storrædc hans ok þat at uer erum her komnir þa mun honum litit firir at gera þat af uorum kosti sem hann uill. En þo at jalli þætti a huorutueggia andmarki þa tok hann þann kost at leggia allt a konungs ualld bæde sig ok riki sitt. tok þa Olafr konungr af jalli ualld ok forrad yfir ollum erfdalondum ok gerdizst jall þa konungs madr ok batt þat suardogum.

## Ferd jarla til Noregs.

132. þorfinnr jall spurde at Brusi brodir hans uar farinn austr a fund Olafs konungs at sækia traust af honum. en firir þui at þorfinnr hafde farit fyrr a fund Olafs konungs ok komit ser þar j uinattu þa þottizst hann æiga þar uel firir buit ok visse at þar munde margir fylgia hans male. Gerir þorfinnr jall þat rad at hann byrr ferd sina sem skyndiligazst ok for til Noregs ok ætlade at sem minnzstr skyllde verda misfari þeirra Brusa ok ecki skyllde eyrende hans til lykta koma. ok er þorfinnr hitti konung uar þat annan ueg en hann hafde ætlat. þuiat þa er hann kom a fund Olafs konungs uar lokit ok greitt allt um sattmal þeirra konungs ok Brusa. þorfinnr jall visse ok æigi at Brusi hafde upp gefit riki sitt fyrr en þorfinnr jall uar kominn a fund Olafs konungs. En þegar þeir hittuzst þorfinnr jall ok Olafr konungr þa hóf konungr upp hit sama tilkall til rikis j Orkneyium sem hann hafde haft vid Brusa ok bæidde þorfinn þess hins sama at hann skyllde iata konungi þeim hluta landa er hann atti adr. Jall suarar uel ordum konungs ok sagde suo at honum þotti mikit undir um uingan hans. ok ef þer herra sagde jall þikizst þurfa liduæitzslu minnar mot ǒdrum hofdingium þa hafui þer fullt til þess unnit. en mer er æigi hent at væita ydr handgaungu þuiat ek er adr jall Skotakonungs ok honum lydskylldr. En er konungr fann vndandratt j suorum jalls um þessa malalæitan er hann hafde adr upphafit þa mællti konungr. ef þu jall uill æigi gerazst minn madr þa er sa annarr kostr at ek setia þann mann yfir Orknneyiar er ek uil. en ek uil at þu uæitir þa suardaga at kalla ecki til landa þeirra ok lata þa j fride uera af þer er ek set yfir. en ef þu uill onguann þenna kost þa mun suo þykia þeim er ek set yfir sem ufridar muni þeim af þer uon. ma þer þa æigi undarligt þikia at dalr komi moti holi. Jall suarar ok bad konung gefa ser frest at hugsa þetta mal. Konungr gerde suo gaf jarlli stund ok orlof at rada um þetta vid uine sina. þa bæiddi jall þess at konungr skyllde lea honum frest til annars sumars ok fari hann heim þa fyst. er hæima radunæyti mitt allt segir hann en ek er bernskr madr firir alldrs sakir.

Konungr bad hann þa kiosa annathuort. þorkell fostri uar þa med konungi. hann sendi menn leyniliga til jalls ok bat hann æigi þat firirætlazst huat er honum var j hug at skiliazst suo vit Olaf konung at þeir væri æigi sattir suo sem hann uar kominn j hendr konungi. þottizst hann sia at æinbeygdr uar kostr at lata konung æinn ollu rada. þotti þeim sa þo æigi kiðruisligr at æiga ðnga uon sealfr til ættleifdar sinnar ok uæita suardaga til þess at þeir hefde j fride þat riki er ecki voru til bornir. en firir þui ath honum syndizst ouist um brottfðr sina þa kiore hann þat at ganga til handa konungi ok gerazst hans madr sem Brusi brodir hans hafde gert. Konungr fann þat at þorfinnr uar myklu [...] skapstærri en Brusi. trude hann þui þorfinni uerr. sa konungr þat at hann munde þikiazst æiga styrks uon af Skotakonungi þo at hann brygdizst j þessu sattmale. skilde konungr þat af uizsku sinne. Brusi gek tregligar at ðllu sattmale en mællti þat æina um at hann ætlade ser at hallda. en þar er þorfinnr uar gek hann gladr at ollu. þegar hann hafde radit firir ser huernn hlut hann skyllde upp taka þa gek hann glatt at ollum skildaga ok dro um þat ðngan hlut er konungr bæiddi hit fysta kuelld. en þat grunade konung at hann munde ætla at gera eftir sumar sættir.

## Konungr segir vpp sættir.

133. þa er Olafr konungr hafde hugsat firir ser allt þetta mal let hann blasa til fiolmennrar stefnnu ok let þangat kalla jalla bada. þa mællti hann. sattmal uort Orkneyinga jalla uil ek nu birta firir alþydu. þeir hafa nu iatat minu æiginordi yfir Orkneyium ok Hialltland(i) ok gerst minir menn ok bundit þat suardogum. ok uil ek nu gefa þeim j len Brusa þridiung en þorfinni annan suo sem þeir hafa fyrr haft. en þann þridiung er atti Æinarr jall þann læt ek falla undir mig firir þa sok at hann drap Eyuind urarhorn hirdmann minn ok felagsmann kærann. uil ek sea firir þeim hluta landz þat er mer synizst. þat uil ek ok til skilia vid yckr brædr jalla mina at þit takit sættir af þorkatli Amundasyne[1] firir drap Æinars brodur yckars. uil ek at domr se undir mer ef þit uilit þui iata. En þat uar sem annat at þeir iattudu þui ollu er konungr mællti. gek þa þorkell fram ok festi a konungs dom ok slæit suo þessu þinge. Olafr konungr dęmde bætr firir Æinar sem firir .iij. lenda menn en firir sakar skyllde nidr falla þridiungr giallda. þorfinnr jall bat ser brottfararleyfis konung. en er þat fekzst biozst hann skyndiliga. en er hann var albuinn þa

[1]) Ônundarsyne *Cd.*

uard þat æinn dag er jall drak a skipe at þar kom firir hann uouæifliga þorkell Amundason ok lagde hofudit j kne honum ok bad hann af gera sligt er hann uillde. Jall spurde hui hann gerde suo þar sem ver erum adr sattir at konungs domi ok statt upp. Hann gerde suo ok mællti. sætt þeirre er konungr gerde j mille uor mun ek hlita a mille uor Brusa. en þat sem til yduar kemr af skulu þer æinir rada. þo at konungr hafu(i) mer skilit æignir minar edr landzuist j Orkneyium þa kann ek suo skaplynde yduart at mer er ufært j eyiarnar nema ek fari j trunade ydrum[1] uil ek þat festa ydr segir hann at koma alldri til Orkneyia huat sem konungr mællti vm þat. Jall þagnnade ok tok sæint til mals ok mællti. villtu þorkell at ek dęma vm ockr mal en hlita æigi konungs domi þa mun ek þat hafua upphaf at sætt ockarre at þu skalt fara med mer til Orkneyia ok vera med mer ok skiliazst eigi vit mik nema mitt leyfui se til. vera skylldr til at veria land mitt ok allra hluta þeirra er ek uil gera lata medan vit lifum badir. þorkell suarar. þat skal a ydru ualldi herra sem allt annat þat er ek ma rada. Gek þorkell til ok festi jalli allt þat er hann quad a. Jall sagde at hann munde sidarr um fegiolld a kueda. en hann tok þa suardaga af þorkatli. snerizst hann þegar til ferdar med jalli. for jall þegar er hann var buinn ok sazst þeir konungr alldri sidan. Brusi jall dualdizst eftir ok biozst mæir af tomi. en adr jall for j brott atti Olafr konungr stefnu vid hann ok mællti. þat synizst mer at ek muna þig hafa at trunadarmanni vm þetta mal þar firir uestan hafit. ætla ek at þu skalt hafua .ij. hlute landz til forrada þa sem þu hefir adr haft. vil ek at þu ser æigi minne madr edr orikari en þu uart adr er þu ert mer handgeinginn. en ek uil festa suo trunat þinn med þui at her se eftir med mer Rǫgnualldr sonr þinn. se ek þa ef þu hefir mitt traust ok .ij. hluti landa at þu matt uel hallda þig firir þorfinni jalli. Brusi tok þat med þockum at hafua .ij. hluti landa. dualdizst Brusi þa litla hrid adr hann for j burt ok kom um haustit uestr til Orkneyia. Rognualldr Brusason uar eftir med Olafi konungi. hann uar allra manna fridazstr hárit mikit ok gult sem silki. hann uar snemma mikill ok sterkr ok manna geruiligazstr bæde firir uitz sakir ok allrar atgerui. hann uar lengi med Olafi konungi. þess getr Ottarr suarti j drapu þeirre er hann orti um Olaf konung.

Gegnn erut þer at þegnum
þiodskiolldungra goda
halldit hæift a uelldi
Hialltlendingum kennir,

[1]) yckrum *Cd.*

æigi uard a jordu
ognnbradr adr þer nadut
austr sa er eyium uestan
ynglingr undir sig þryngi.

þa er brædr foru uestr til Orkneyia þorfinnr ok Brusi þa tok Brusi .ij. hluti landz til forrada en þorfinnr þridiung. uar hann iafnnan a Katanese ok a Skotlande en setti menn sina yfir eyiarnar. hafde Brusi æinn landuornn firir eyiunum. En j þann tima uar þar miog herskatt þuiat Nordmenn ok Danir heriudu þangat miog ok j uestruiking ok komu oft uit Orknneyiar þa er þeir foru uestr edr uestan ok namu þar nesnám. Brusi talde at þui vit þorfinn brodur sinn er hann hafde ǒngar utgerdir firir Orkneyium edr Hiatlande en hafde skatta ok skylldr af sinum[1] hluta. þa baud þorfinnr honum þann kost at Brusi skyllde hafa þridiung landz en þorfinnr .ij. luti ok hafa æinn landuornn firir hond beggia þeirra. en þo at þetta skifti yrde æigi bradfæingis þa er þo suo sagt at þetta skifti hafui fram farit þa er Knutr konungr hinn riki hafui undir sig lagit (Noreg) en Olafr konungr var or lande farinn. þorfinnr jall Sigurdarson hefir verit gofgazstr jall j Orkneyium ok haft mest riki Orkneyinga jalla. hann atti mikit riki a Skotlande ok Jrlande. hann æignnadizst [:05] Hiatland ok Orkneyiar ok Sudreyiar. Suo segir Arnnorr jarllaskalld.

Hringstride uard hlyda
herr fra þussa skerium
rett segig þiod hue þotti
þorfinni til Dyflinnar.

þorfinnr uar hinn mesti hermadr. hann tok jalldom tuæuetr ok red meirr en .lx. uetra ok uard sottdaudr a ofanverdum dǒgum Haralldz Sigurdarsonar. en Brusi andadizst a dogum Knutz hins rika litlu eftir fall Olafs konungs hins helga.

### Her segir fra þeim Hareki ok konungi.

134. Nv ferr tuennum sogum fram ok skal þar nu til taka sem adr uar fra horfit. at Olafr konungr Haralldzson hafde frid gert vid Olaf Suiakonung ok þat at Olafr konungr for þat sumar nordr til þrandheims. hann hafde þa uerit fim uetr konungr. þat haust bio hann til uetrsetu j Nidarósi ok sat þar um uetrinn. þann uetr uar med Olafi konungi þorkell fostri Amundason suo sem fyrr uar sagt. Olafr konungr læiddi þa miog at spurningum um kristnihalldit j landinu huort þa uæri ok spurdizst honum suo til sem ecki uæri kristnihalldit þegar

[1]) sina *Cd.*

er nordr sotti a Halogaland en þo skorti mikit a um Naumudal at uel uæri ok inn um Þrandheim. Madr er nefndr Eyuindr skalldaspiller. hans son uar Harekr ok bio j eyiu þeirre er Þiotta heitir þat er a Halogalande. Eyuindr hafde verit ecki festerkr. hann uar ættstorr ok skǫrungr mikill. J Þiottu bygdu þa smabændr æinir ok æigi allfair. Harekr keyfti þar æinn bæ litinn fyst ok for þar bygdum til. en a fam uetrum hafde hann rutt a brott ollum bondum þeim er þar bygdu adr suo at hann atti æinn eyna alla ok gerde þar þa hofutbæ mikinn. hann uard bratt uellaudigr hann uar spekingr at uite ok framkuęmdarmadr mikill. hann hafde lengi haft af konungum mikil metord hann uar j frændsemistolu vid Noregskonunga. af þeim sokum hafde Harekr haft mikinn metnnat af landzhǫfdingium. Gunnhilldr modir Hareks uar dottir þeirra Halfdanar jalls ok Jngibiargar dottur Haralldz hins harfagra. Harekr uar þa helldr a efra alldri er þetta uar tidenda. Harekr uar mestr uirdingamadr a Haloga(lande) ollu. hann hafde þa langa hrid haft finnkaup ok konungs syslu a Markina. hafde hann stundum æinn haft en stundum hofdu fleire med honum. ecki hafde hann komit a fund Olafs konungs en þo hofdu ord farit j millum þeirra ok uar þat allt uingiarnnligt. ok þann uetr er Olafr konungr sat j Nidarose foru enn menn j mille þeirra Hareks j Þiottu. þa lysti konungr yfir þui at um sumarit eftir ætlade hann at fara nordr a Halogaland ok allt nordr til landzenda. en þeir Haleygiar hugdu allmisiafnnt til þeirrar ferdar.

## Olafr var til konungs tekin(n) nordr i landit.

135. Olafr konungr biozst um uorit med .v. skipum ok hafde nær .ccc. manna. en er hann uar buinn þa byriar hann ferd sina nordr med lande. en er hann kom j Naumdælafylki þa stefnnde hann þing vid bændr. uar hann þa til konungs tekinn a hueriu þinge. hann let ok þar sem annars stadar lǫg þau upp lesa sem hann baud monnum þar j lande kristni at hallda en lagde uit lif ok limar edr alæigu sǫk huerium manni er æigi uillde undir ganga kristin log. uæitti konungr þar mǫrgum manni storar refsingar ok let þat iafnt ganga yfir rikann sem orikann. skildizst hann suo vid j hueriu herade at allt folk iatte at hallda retta tru. en flestir rikir menn ok margir storbændr gerdu uæitzslu j moti konungi. for hann suo um allt Halogaland. Harekr ór Þiottu gerdi uæitzslu Olafi konungi ok uar þar alimikit fiolmenni ok uæitzsla hin prydiligsta. gerdizst Harekr þa lendr madr Olafs konungs. fek konungr (honum) ueitzslur sem hann hafde fyrr haft af hinum

fyrrum landzhofdingium. Madr er nefndr Grankell edr Grannketill audigr bonde ok helldr uit alldr. en þa er hann uar ungr at alldri haf(d)e hann verit j hernade ok hinn mesti hermadr. hann uar jþrottamadr mikill. Asmundr het son hans ok uar hann um alla hluti likr fedr sinum edr nockuru framarr. þuiat þat er margra manna mal at firir fridlæiks sakir ok afls ok jþrotta hafui hann uerit hinn þride madr bezst at ser gerr j ollum Noregi. en fyst hafui verit til nefnndr Hakon Adalsteinsfostri ok Olafr Trygguason. Grankell baud Olafi konungi til uæitzslu ok uar þar akaflig uæitzsla ok uæitt allkappsamliga. læidde Grankell konung vt med storum giofum. Konungr baud Asmunde at fara med ser ok lagde til þess morg ord. Asmundr uillde æigi drepa hende vid ueg sinum ok redzst hann til ferdar med konungi ok gerdizst hans madr ok kom ser j hinu mestu kærlæika vid Olaf konung. dualdizst konungr mestan hluta sumars a Halogalande ok fór j allar þing(h)ár ok kristnade þar allan lyd. þa bio j Biarkey þorir hundr hann uar rikazstr madr nordr þangat. hann geordizst lendr madr Olafs konungs. margir [..] rikra manna synir reduzst til ferdar med Olafi konungi. þa er læid sumarit kom konungr nordr aftr ok sneri þa inn eftir þrandheimi til Nidaross ok sat þar vm uetrinn. ok þann uetr kom þorkell fostri uestan ór Orkneyium þa er hann hafde drepit Æinar jall. þat haust var j þrandheimi hallæri mikit a kornni er adr hafde verit god arferd lengi. en þa uar hallæri mikit nordr allt j landit ok þui meira er nordar uar en kornn uar gott austr j land ok suo um Upplond. þess nutu þrendir at þeir attu þar fornn kornn.

## Blot þeirra Jnnþrænda ok konungr fann Olfui.

136. þat haust voru sogd Olafi konungi innan ór þrandheimi þau tidendi at bøndr hofdu þar uæitzslur storar. konungi uar suo sagt at þar voru oll minne signut þór ok Asum at fornnum sid. þat fylgde ok þeirri sôgu at þar uæri drepin naut ok hross en rodnir aller stallar j blodinu ok framit blot ok uæittr sa atrunadr ok formali at þat skyllde vera til arbotar þeim. þat fylgde þui at ollum þotti audsætt at godin hofdu ræizst þui er Haleygir hofdu horfit til kristni. En er konungr spurde þessi tidendi þa sendi hann menn inn j þrandheim ok stefndi til sin bondum þeim er hann red at nefna. Madr er nefnndr Oluir a Eggiu. hann var kendr vid bæ þann er hann bio a. hann var rikr madr ok ættstorr. hann var hofutsmadr ferdar þessarar af bonda hendi til konungs. En er þeir komu a konungs fund þa bar konungr a hendr þeim þessar sakir. en Ôluir suarar af hende bonda sagde at þeir hôfdu ongar uæitzs-

lur hafdar þat haust nema gillde sin edr huerfingsdryckiur en sumir vinabod. en þat er ydr er sagt fra ordtökum vórum þrænda þa er ver dreckum þa kunna allir uitrir menn at varazst slikar rædur en æigi kann ek at synia firir hæimska menn ok öloda huat þeir mæla. Oluir uar madr malsniallr ok maldiarfr ok uardi hann allar þessar (sakir) firir bændum. en at lycktum segir konungr at Jnnþrendir mundu sealfuir bera ser vitnne huernn ueg þeir voru truadir. fengu þa bændr orlof til hæimferdar. foru þeir ok þegar er þeir voru bunir. Sidarr vm uetrinn var konungi sagt at Jnnþrændir hofdu fiolment a Mærinne ok voru þar bloth stor at midium uetri. blotudu þeir þa til fridar ok uetrarfars gods. En er konungr þottizst sannfrodr vm þetta þa sendi hann menn ok ordsendingar inn j þrandheim ok stefndi bondum vt til bæiar. nefnndi hann til þa bændr er honum þotti uitrazstir. Bændr attu tal sitt ok toludu sin a mille vm ordsendingar þessar. voru þeir aller ofusari ferdarinnar er adr hofdu farit. en vit bæn allra bonda þa uard Oluer til ferdar. Ok er hann kom til bæiar for hann bratt a konungs fund ok toku þeir tal. bar konungr þat a bændr at þeir hefde haft midsuetrarblot. Oluer sagde at bændr væri osannir at þessi sok. höfdu ver sagde hann iolabod ok vina j herudum ok samdryckiur. ætla menn æigi suo hneft til jolanna at æigi uerde stór afhlaup dryckiunnar ok drucku menn þat læinge sidan. en a Mærinne er mikill hofutstadr ok hus stór ok bygd mikil umhuerfis. þikir monnum þat gott til gledi at drecka morgum monnum saman. Konungr suarar fa ok helldr ræiduliga þottiz hann uita annat sannara. bat bændr aftr fara. en ek mun sagde hann þo uiss uerda hins sanna þo at þer dylit ok gangit j mot. en huersu sem her til hefir uerit þa gerit sligt æigi oftar. Foru bændr hæim ok sogdu sina ferd ok þat at konungr uar helldr ræidr.

## Olafr konungr leet drepa Ölfui bonda a Eggiu.

137. Olafr konungr hafde uæitzslu mykla um paska ok hafde marga menn j bode sinu bæiarmenn ok bændr. en eftir paska let konungr setia fram skip sin ok bera til ræida ok arar ok let þilia skipin ok tiallda. let fliota suo buin vid bryggiur. Olafr konungr sendi menn sina jnn j Veradal eftir paskana. Madr er nefndr þoralldi ármadr konungs hann uarduæitti konungs bu at Haugi. konungr sendi honum ord at hann skyllde koma til hans sem skyndiligazst. þoralldi lagdizst æigi þa ferd undir höfud ok for þegar med sendimonnum. Konungr kallar hann a æinmæli ok spurde. huat er sannynde um þat er mer er sagt fra sidum Jnnþrænda huort suo er at þeir snuizst til blota. uil

ek segir konungr at þu segir mer sem er at þu uæitzst sannazst. er þu til þess skylldr þuiat þu ert minn madr. þoralldi suarar. þat er fyst ydr at segia at ek flutta hingat til bęiarins med mer sonu mina .ij. ok konu ok lausafe allt þat er ek matta. en ef þer uilit þessa sǫgu af mer hafa þa skal þat a ydru uallde. en ef ek segi suo sem er þa munu þer sea firir minu rade. Konungr mællti þa. segdu þu satt um þat er ek spyr þig. en ek skal sia firir þinu rade suo at þig skal ekki saka. þat er ydr satt at segia herra at ek skal segia sem er at inn [407] um þrandheim er naliga allt folk hundhæidit j atrunade þott sumir menn se þar skirdir. en þat er sidr þeirra at hafua blot a haustit annat at midium uetri en hit þridea ath sumre ok fagnna þui suo. er(u) at þessi radagerd Eynir ok Sparbyggiar Verdęlar ok Skeynir. .xij. menn eru þeir er firir bæitazst um blotuæitzslurnar ok a nu Oluer at hallda upp ueitzslunne. er hann nu j starfui myklu a Mærinne ok þangat flutt oll faung þau er til þarf at hafua ueitzslunnar. En er konungr uar hins sanna uiss ordinn þa let hann blasa saman lidinu ok lætr segia monnum at til skipa skyllde ganga. Konungr nefnnde menn til skipstiornar ok suo suæitarhofdingia edr huar huergi sueit skyllde til skips. uar þa buit skiott. hafde konungr .v. skip ok .ccc. manna ok hellt inn eftir firde. uar godr byrr ok toldu sneckiurnar ecki lengi firir uindinum. en þess uarde ongann mann at konungr munde suo skiott koma inn þangat. Konungr kom um nattina inn a Mærina. uar þar sleginn mannhringr um hus. þar uar Oluer hondum tekinn ok let konungr drepa hann ok miog marga menn adra. en konungr tok upp uæitzsluna alla ok let flytia til skipa sinna ok suo fe þat allt bæde husbunat ok klædnat ok gripe er menn hofdu þangat flutt ok let skipta at herfange med monnum sinum. Konungr let ok uæita heimferd at bændum þeim er honum þottu mestan hlut att hafa j þessum radum. voru sumir hondum teknir ok j iarnn settir en sumir komuzst med hlaupi undan ok firir morgum uar fe upp tekit. Konungr stefnnde þa þing vid bændr. ok firir þui at hann hafde þa marga rikismenn hondum tekit ok hafde þa j sinu uallde þa redu þat af frændr þeirra ok uinir at iata konungi hlydne ok uard æinge uppræist moti konungi ger j þat sinne. Sneri konungr þa ollu folki a retta tru ok setti þar kennimenn ok let þar kirkiur gera ok uigia. Konungr lagde Olui vgilldan ok kastade sinne æigu a allt þat er hann hafde att. en þa menn adra er honum þotti mest sakbitnir let hann suma drepa en suma mæida suma rak hann ór lande en tok fe af sumum.

Olafr konungr gifte Kalfi konu þa er Olfir hafde att.

138. Madr er nefnndr Arnni Armodsson[1] hann atti þoru dottur þorsteins galga. bornn þeirra voru þau Kalfr Finnr þorbergr Amundi Kolbeorn Arnni ok Ragnnhilldr hana atti Harekr or þiottu. Arnni uar lendr madr rikr ok agætr mikill vin Olafs konungs. þa voru med konungi synir hans Kalfr ok Finnr ok voru þar j myklum metnnade. Kona su er att hafde Oluer a Eggiu uar jung ok frid audig ok ættstór þotti sa kostr agæta godr en forrad hennar hafde Olafr konungr. þau Oluer attu .ij. sonu iunga het annar Kalfr[2] en annar þorir. Kalfr Arnason bæidde þess af konungi at hann gifti honum konu þa er atth hafde Oluer. en firir uinattu sakir uæitti konungr honum þat ok þar med æignir þær er Oluer hafde att. konungr gerde hann lendan mann sinn ok fek honum umbod sitt inn um þrandheim. gerdizst Kalfr þa forrikr ok hôfdinge mikill þuiat hann var uitr madr.

Olafr bodadi tru.

139. þa hafde Olafr konungr verit .vij. uetr j Noregi. þat sama sumar komu til hans jarllar ór Orkneyium þorfinnr ok Brusi. æignnadizst Olafr konungr lond oll þau er fyrr uar sagt. þat sumar fór Olafr konungr nordr um Mæri huoratueggiu ok inn um Raumsdal um haustit. þar gek hann af skipum sinum ok for þa til Upplanda ok kom fram a Lesium. hann let þar taka hinu bezsta menn ok bædc a Lesium ok a Dofrum. ok urdu þeir at taka vid kristni edr dauda þola edr undan at flyia þeir sem þui kuomu vid. en þeir er vid kristninne toku fengu konungi sonu sina j gisling til trunadar. Olafr konungr uar þar um natt er Borar[3] hæita a Lesium ok setti þar firir presta. En a su er rennr eftir dalnum ok Otta hæitir þar var bygd fôgr tueim megin arinnar ok er kollut Loar ok matti konungr sea eftir endilangri bygdinne. hann mællti þa. skadi mikill er þat at brenna skal bygd suo fôgr ok god. Stefnnde þa ofan j Dale med lide sinu ok voru a bæ þeim um nottina er Nes hæitir ok tok konungr ser herbergi j lofti æinu. þar suaf hann j sealfr ok þat[4] stendr enn j dag ok ecki at gert sidan. ok var þar fim nætr ok skar upp þingbod ok stefnde til sin bændum bæde af Uanga Lom[5] ok Hædal. ok let þat bode fylgia at þeir skulu annattueggia hallda upp bardaga vid hann ok þola bruna af honum edr taka vid kristni ok fa honum sonu sina j gisling. Sidan komu þeir a fund konungs ok gengu til handa honum en sumir flydu sudr til Dala.

[1]) *r.* Arnmodsson [2]) *r.* Griotgardr [3]) *r.* Bôar [4]) þar *Cd.* [5]) loni *Cd.*

### Her segir fra Dalagudbrandi.

140. Dalagudbrandr er madr nefnndr er suo uar sem konungr væri yfuir Dolum ok uar hessir at nafnnbot. hǫnum iafnade Sighuatr skalld at riki ok uidlende [108] uit Erling Skialgsson. sem Sighuatr quad.

Einn uissa ek þer annan
iallz briktoput likan
uitr red gumna gætir
Gudbrandr red sa londum.

yckr kued ek iafnna þikia
ormlads hati bada
lygr hinn at sig lęgir
leggsetrs edr telst betri.

---

## þAATTR GUDBRANDZ KULU(!) OK OLAFS KONUNGS.

Nu er þat at segia af Gudbrande at hann atti æinn son þann er her er vit getit ok Alfr er nefnndr ok unni forkunnar mikit. hann uar manna geruiligazstr. En þa er Gudbrandr fra þessi tidende er Olafr uar kominn a Loar at naudga monnum til at taka uid kristne þa skar hann upp heror ok stefnnde allri Dạlabygd til bæiar þess er Hundþorp hæitir til fundar uit sig. ok þar komu þeir allir ok ogrynne lids firir þui at þar liggr nærr uatnn þat er Lǒgr hæitir ok matti þar iafnnuel fara til a skipum sem a landi. ok atti Gudbrandr þar þing vit þa ok sagde. at sa madr var kominn a Loar er Olafr het ok uillde bioda monnum tru adra ok briota god vór oll j sundr ok segir at hann æigi myklu mæira gud ok merkiligra ok mattkara. ok er þat furda er iordin brestr æigi j sundr undir honum er hann þorir sligt at mæla edr god uor lata hann lengr ganga. ok uænti ek ef ver berum þau vt ór hofui voru er her stendr heima ok oss hefir iafnnan dugat ok ser hann Olaf ok hans menn þa mun gud hans bradna ok sialfr hann ok menn hans ok at ongu uerda. þa ęptu þeir aller senn ok mælltu at Olafr skyllde alldri þadan komazst ef hann kæmi a fund þeirra ok æigi munde hann lengra koma þora edr fara sudr eftir Dǒlunum. þuiat þar ætludu þeir til .vij. hundrat manna at fara a niosnn til Bræidu. en firir þui lide uar hofdinge Alfr son Gudbrandz. hann var þa átian uetra gamall. ok margir adrir med honum ok komu til bæiar þess er Hof hæitir ok voru þar .iij. nætr. ok kom þar mart lid til þeirra þat er komit var af Lesium Lom ok Uanga[1] þeir er æigi uilldu skirnn taka. en Olafr kon-

[1]) r. Vaga

ungr setti eftir kennimenn ok Sigurd byskup a Lom ok Uogum. sidan foru þeir yfir Urgurðst ok komu nidr a Lisu[1] ok voru þar um nott ok fragu þar þau tidende at lid var mikit firir þeim. þeir fregnnudu ok at bændr þeir er a Bræidunne voru biugguzst til bardaga mot þeim. En er konungr stod upp þa klæddizst hann ok fór sudr eftir Suuollum[2]. ok lettu æigi fyrr en a Bræidunne ok sa þar mikinn her firir ser ok bunir til bardaga. Sidan fylktu þeir lide sinu ok reid konungr sialfr firir ok orti orda a bændr ok baud þeim at taka vid kristnne. þeir suorudu. þu munt ðdru verda vid at koma j dag en at gabba oss her. þa lustu bændr upp heropi ok bðrdu uopnum a skiolldu sina. Konungsmenn hlupu þa fram ok skutu spiotum. en bændr sneru þa undan a flotta suo at fatt æitt stod eftir. var þa Alfr son Gudbrandz hondum tekinn ok gaf Olafr konungr honum grid ok hafdi med ser. þar uar konungr .iiij. nætr. þa mællti konungs vid Alf. far þu aftr til fðdr þins ok seg honum at ek mun bratt þar koma. Sidan for hann hæim aftr ok sagde fðdr sinum oll tidende at þeir hðfdu hitt Olaf konung ok barizst vid hann. en lid uort flyde allt j fyrstunne þegar en ek uar þa þegar handtekinn segir hann. gaf hann mer grid ok bat mig segia ydr at hann kæmi her bratt. nu hofdu uær æigi mæirr en .cc. manna af þui lide ollu er uer hðfdum til motz vid hann. nu ræd ek þer fadir at beriazst æigi uit þenna mann. Heyra ma ek þat segir Gudbrandr at ór þer er bardr allr kiarkr ok fórtu illu hæille hæiman ok mun sia fðr þin lengi uppi vera ok truir þu nu þegar a ora þa er sia madr ferr med ok þer hefir mykla hneisu gert ok þinu lide. Ok um nattina eftir dreymde Gudbrand at madr kom til hans lioss ok stod af honum ognn mikil ok mællti uit hann. son þinn fór litla sigrfðr mot Olafi konungi en myklu muntu hafa minne ef þu ætlar þer at hallda bardaga mot Olafi konung(i) ok muntu falla sealfr ok munu uargar draga þig ok allt lid þitt. Hann var hræddr miog vid þessa ogn ok sagde þorde istromaga er enn uar hofdinge j Dolum. Hann suarar. sligt hit sama bar firir mik. Ok of morguninn letu þeir blasa til þings ok sogdu at þeim þotti þat rad at æiga þa þing vid þann er nordan for med ny bodord ok vita med huerium sannyndum hann ferr. Sidan mællti Gudbrandr vit son sinn. þu skallt fara a fund konungs þess er þer gaf grid ok .xij. menn med þer. ok suo uar gert. Ok er hann kom a konungs fund þa sagde hann konungi sin eyrendi at bændr uilldu æiga þing vit hann ok setia grid mille konungs ok bonda. Konungr let ser þat uel lika. ok bundu þau grid vid hann æinkamalum medan su stefna uæri. ok

[1]) r. Sil [2]) r. Siluollum

foru þeir aftr vit suo buit ok sogdu Gudbrandi ok þorde [409] at grid voru sett. Konungr for þa til þess bæiar er Lidsstadir eru kalladir ok var þar .vj. nætr. þadan fór konungr til fundar vid bændr ok atti þing vid þa. en uæta var a um morguninn sidan þingit var sett. þa stod konungr upp ok sagde. at Lesir ok a Lom ok a Uaga hofdu tekit vid skirnn ok brotit nidr blothus sin ok trudu nu a sannann gud er skop himin ok jǫrd ok alla hluti. Sidan settizst konungr nidr. en Gudbrandr suarar. eigi vitu ver huernn þu kallar suo. kallar þu þann gud er þu getr æigi set ok einge annar. en ver æigum þann gud er huernn dag ma sia ok er þui æigi vti j dag er uott er uedr ok mun ydr hann ogurligr þikia ok mikill firir ser. uænti ek at ydr skioti skelk j bringu ef hann kemr a þingit. en med þui at þu segir at gud yduarr ma suo mikit þa latt þu hann nu suo gera at uedr (se) skyiat a morgin en regn ecki ok finnumzst her þa. Sidan for konungr hæim til herbergis ok fór med honum son Gudbrandz j gisling. Um kuelldit spurde konungr Alf huernn ueg gud þeirra væri gerr. hann segir. at hann uar markadr eftir þór ok hefir hamar j hende ok mikill uexsti ok holr innann ok er gert undir honum sem stallr se ok stendr þar a þa er hann er vti. æigi skortir hann gull a ser ok silfr. fiorir hlæifar brauds eru honum færdir huernn dag ok þar slatr vit. Sidan foru þeir j reckiu en konungr uakti þa natt ok var a bænum. En er dagr var kominn for konungr til messu ok sidan til bordz ok þa til þings. en uedri uar suo hattat sem Gudbrandr hafde firir sagt. þa stod upp byskup j kanterakapu ok mitr a hǫfdi ok bagal j hende ok taldi tru firir monnum ok sagde margar iartæignir er gud hefde gert ok lauk suo sinne tolu. þa suarar þordr istromage. mart mælir hyrningr sia er staf hefir j hende ok uppi a sem uedrar se bunir. en med þui at þit felagar kallit gud yduarnn suo mattkann ok margar jartæignir gera þa mæltu vid hann ath a morgin firir sol lati hann vera heid ok sidan solskin ok finnumzst þa ok gerum þa annathuort at uer sém sattir um þetta mal edr holldum þa til bardaga. Ok skilduzst þa at sinne vid suo buit.

## Gudbrandr ok þordr toku tru.

142. Kolbæinn sterki het madr er uar med Olafi konungi hann var kyniadr af Fiordum. hann hafde þann bunat at hann uar gyrdr suerde ok hafde j hende ruddu mykla er menn kalla kylfu edr klumbu. Konungr mællti vid Kolbæin at hann skyllde uera nærr honum um morguninn. sidan mællti hann vit sina menn. gangi þer þangat til j

natt sem skip bonda eru ok borit raufar a ǫllum en ridit j brott eykium þeirra af bæium þar sem eru. Ok suo var gert. en konungr uar a bænum þa nott alla ok bad (gud) at hann leysti þat uandræde med sinne milldе ok miskunn. En er konungr hafde lokit tidum þa for hann til þings. ok er hann kom þar þa voru sumir bændr komnir. þa sa konungr ok þeir mikinn fiolda bonda fara til þingsins ok baru medal sin mannlikan mikit glæst allt med gulli ok silfri. en þa er þat sa bændr þeir er a þinginu voru þa hlupu þeir aller upp ok lutu þui skrimsli. sidan var þat sett a midian þinguoll. satu bændr ǫdrum megin en ǫdrum megum konungs lid. Sidan stod upp Gudbrandr ór Dolum ok mællti. huar er nu gud þinn konungr. þa ætla ek at nu beri hann lagt hǫkuskeggit ok suo þiki mer sem nu se minna karp þitt ok þess hyrnings er þer kallit byskup er þar sitr hia þer. þuiat gud uorr er nu kominn er ollu rædr ok serr ydr med huossum augum. ok se ek at þer erut felmsfullir ok þorit ualla augum vpp at sia. nu fellit nidr hindruitne ydra ok truit a gud vǫrnn er allt hefir rad yduart j hende. Ok lauk suo sinne rædu. Konungr mællti uit Kolbæin sterka suo at bęndr uissu ecki til. ef suo berr til j eyrende minu at þeir seai fra gode sinu þa sla þu þat hogg sem þu matt mest med ruddunne. Sidan stod konungr upp ok mællti. mart hefir þu Gudbrandr mællt j morgininn til uor. lætr þu kynliga yfir þui at þu matt æigi sea gud uornn. en uær uæntum at hann muni koma bratt til uór. þu ognar oss gude ydrum er bæde er blindr ok daufr ok ma huorki biarga ser ne ǫdrum ok kemzst ongan ueg or stad nema ḅorinn se ok uænti ek at nu se honum skamt til illz. ok liti þer nu j austr ok siait at þar ferr nu gud minn med liose. þa rann upp solin ok litu allir bændr til solarinnar. en j þui bile laust Kolbæinn god þeirra suo at þat brotnnade allt j sundr ok hlupu þar vt myss suo storar sem kettir ungir uæri ok edlur ok ormar. en bændr urdu suo hræddir at þeir flydu til skipa. En er þeir hrundu vt skipum sinum þa hliop þar inn uatnn ok fylldi upp ok mattu menn æigi a koma. en þeir er til eykianna hlupu þa fundu þeir æigi. Sidan let konungr kalla a bændr ok sagde at hann uill æiga tal vid þa. ok hurfu bændr þa aftr ok settu þing. þa stod konungr upp ok mællti suo. eigi uæit ek hui sætir þetta hark ok hlaup er þer gerdut. en nu megu þer [413] sia huat gud yduarr matti sa er þer barut a gull ok silfr ok mat ok sa þer nu hueriar uættir þess hofdu neytt ok myss ok ormar ok edlur ok pauddur. nu hafua þeir uerr er a sligt trua ok æigi lata af heimsku sinne. nu taki þer gull yduart ok gessimar er her ferr nu um uollinn

ok hafit heim til kuenna yduarra ok berit alldri sidan vm stokka edr stæina. en her eru nu .ij. kostir med oss annattueggia at þer takit vid kristni ella halldit bardaga vid oss j dag ok beri þeir sigr af odrum er gud uill sa er uer truum a. þa stod Dalagudbrandr upp ok mællti. skada mikinn hofum ver bedit j dag um god uart. ok þo med þui at hann matti oss ecki vid healpa þa uilium uer nu trua a þann gud sem þer truit. Ok toku þa allir vid kristni. þa skirde byskup Gudbrand ok son hans ok setti þar eftir kennimenn. ok skildu þeir vinir er adr voru ouinir ok let Gudbrandr gera kirkiu j Dǫlum. Olafr konungr for sidan vt a Hæidmork ok kristnade þar. þuiat þa er hann hafde tekit konungana treystizst hann æigi at fara vida eftir sligt storuirke. var þa ouida kristit um Heidmork. en j þessi ferd letti konungr æigi fyrr en Heidmork var oll alkristin ok þa voru eftir settir kennimenn. þa fór hann vt a Hadaland ok þotnn ok retti þar sidu manna. letti suo at þeir voru alkristnir. þadan for hann a Hringariki ok geingu menn allir undir kristni. þat fragu Raumar at Olafr konungr biozst upp þangat ok sofnnudu þeir lide myklu ok mælltu suo sin a mille. at þat var þeim eymune su yfirfǫr er Olafr konungr hafde þar farit fyrra sinn ok sogdu suo ath hann skyllde æigi sidan suo fara. En er Olafr konungr for a Raumariki med lide sinu þa kom bondasafnnadrenn a mot honum vid a þa er heitir Nitia. hofdu bændr her mikinn. en er þeir funduzst ortu bændr þegar a til bardaga. en þo brann bratt vid hlutr þeirra ok hrucku þeir þegar undan ok voru bardir til batnadar þuiat þeir toku sidan kristni. For konungr yfir þat fylki ok skildizst æigi fyrr vid en þar hofdu allir menn vid kristni tekit. þadan fór hann austr j Soleyiar ok kristnade þa bygd. þar kom til hans Ottar suartaskalld ok bæiddi at ganga til handå Olafi konungi. þann uetr adr hafde andazst Olafr Suiakonungr. þa uar Ǒnundr Olafsson Suiakonungr. Olafr konungr sneri þa aftr a Raumariki. var þa miog lidinn uetrinn. þa stefnde Olafr konungr þing vid bęndr fiolment j þeim stad sem sidan hefir verit Heidsæuisþing. setti hann þa þau lǫg at til þess þings skyllde koma Upplendingar ok Heidsæfuis[1] lǫgh skyllde ganga um oll fylki a Upplondum ok suo uida annars stadar sem sidan hafa þau gengit. En er uorade sotti konungr vt til siofar. let þa bua skip sin ok fór vt til Tunsbergs ok sat þar vm uorit þa er þar uar fiolmennazst ok menn komu til bæiarins af odrum londum. uar þar þa arferd god allt um Uikina ok til godrar hlitar allt nordr til Stads en hallæri mikit nordr þadan.

[1]) Heidsæfims

HER ER þAATTR EINDRIDA OK ERLINGHS.
capitulum.

Olafr konungr sende bod um uorit uestr um Agdir ok allt nordr vm Rogaland ok Hordaland at konungr uillde huorki kornn ne mallt ne miol þadan j brott lata selia. let hann þat ok bode fylgia at hann munde þangat koma med lid sitt ok fara at uæitzslum suo sem siduenia er til. for þetta bod þadan austr til landzenda. Æinar þambarskelfir hafde verit med Olafi Suiakonungi sidan Suæinn jarll andadizst magr hans ok gerdizst Suiakonungs madr ok tok af honum len mikit. en er Suiakonungr uar anndadr þa fystiz Æinar at læita grida uit Olaf digra. hofdu þar farit adr fyrr ordsendingar mille. En er Olafr konungr la j Elfinne þa kom þar Æinarr vit fa menn ok ræddu þeir konungr vm sattmal ok samdizst þat med þeim at Æinarr skyllde fara nordr til þrandheims ok hafa æignir sinar allar ok suo þær æignir er Bergliotu hofdu hæiman fylgt. fór Æinar þa nordr j þrandheim en konungr dualdizst j Uikinne.

Eindridi E(i)narsson flutti med ser Sigridi Erlingsdottur.

144. þa sat Erlingr Skialgsson a Jadri hann atti Jngibiorgu[1] Trygguadottur þau attu mǫrg bǫrnn. Skialgr het son þeirra Lodinn ok ok þorir. Sigridr het dottur þeirra hon var at fostri j Kormt a Augualldznese. Olafr konungr skipti um armenning vit þann mann er var fostrfadir Sigridar Erlingsdottur ok setti hann þann mann nidr nordr j Folkrin. Sigridr for nordr med honum ok uar þess þo ofus ok unde uit illa er hon þottizst vera flæmd fra frændum sinum. þa uar Endride heima med Æinare fǫdr sinum aa Gimsum. hann uar þa geruiligazstr ungra manna j Noregi. Endride bio skip sitt til siglingar ok ætlade sudr j land. þat uar æinn dag er Sigridr Erlingsdottir uar vti stodd [411] at hon sa at skip æitt glæsiligt uar komit vid eyna bunir ennispænir ok suirarnir ok uida stæint firir ofan sioinn. þar sa hon ok med fritt drengiaval. Hon gek þangat ok spurde huerr firir red skipinu. Endride sagde til sin ok fǫdr sins. Ek uæit gerlla sagde hon huerr þu ert edr uilltu uæita mer far sudr j land til fodur mins. Hann spurde. huerr er fadir þinn. Erlingr Skialgsson segir hon. Endride Æinarsson[2] var j starfui myklu at hlæda skip sitt odruuis en adr uar hlætt ok gade hann litt til huat er hon sagde. þeir helldu þegar fra eyiunne er þeir voru bunir. en Sigridr hafde gengit vt a skipit ok ǫmuduzst lidsmenn litt vid hana. En er þeir hofdu um siglt ok menn

[1]) r. Astride [2]) Skialgsson *Cd.*

settuzst j rum sin þa mællti Endride. huerrar ættar kuezst þu uera meyia. Hon suarar. ek er dottir Erlings Skialgssonar. Endride mællti. þetta hugsada ek of sid edr hui sagdir þu þetta suo sid. Hon suarar. ef þu ert traudr ad taka vid mer þa munde þer þui firr fara sem ek hefda þer fyrr sagt. Endride mællti. æigi þiki mer uandalaust at fylgia þer en suo verdr nu at vera sem ordit er. Sigla þeir nu ok æigi lengi adr en anduidre georde j mot þeim ok uar æigi annar kostr en hallda til hafs. rak þa at eyiu æinne ok komuzst nauduliga a land þess at þeir helldu skipi ok monnum. þeir geingu a eyna ok fundu þar fiskiskala ok biugguzst þeir þar firir. en er þeir foru til suefns þa spurde Endride Sigridi. huerr uilltu at þer huile næst j nott. Hon suarar. ek uil huila vid uegg en þa uil ek at þu huilir mer hit næsta. Suo skal vera sagde hann. Ok lagu þar þa nott. en uedrit hellzst .iij. nætr. Sidan letti upp hridinne ok foru þau til skips. þa mællti Endride. æigi tekzst oss greidliga til um ferdina ok þætti mer Sigridr sem þer væri nu betra heima j eyiunne Folkrin en rekazst her med oss. Hon suarar. ek tel enn litt at segir hon. Sidan gaf þeim æigi austr at sigla ok sigldu þau inn til þrandheims. Æinarr tok faliga vit þeim ok mællti vit Endrida. ecki hafui þer nu frænde litit vit um fridlurnar þar sem nu er dottir Erlings fridla þin. Endride suarar. æigi uardi mig slikra orda af þer fadir þott ek uillde fylgia henni a fund fődur hennar. en þui uelld ek æigi þo at uedr banne ockr greidliga at fara. Æinarr mællti. þig skadar ecki frændi ef ek æinn mæli þetta en hitt munda ek ætla at þa uirding hefde Erlingr fadir hennar a ok adrir frændr hennar. nu er mer ecki um vist hennar her. Endride suarar. ecki skal ek þui hallda þer a hendr. en kent hefir þu mer at hafa ecki mannatokur her a Gimsum. en brott skulu losna suo margir menn med mer at þer skal syn buhlifd j þui vera. Sidan let Endride fram setia karfa einn er hann atti ok steig hann þar a (ok) menn hans. þa mællti Æinarr. huert skal nu fara Endride. Ek ætla at flytia Sigride a fund fődr sins Æinarr mællti. þat mun þer ok uest gegnna. Endride suarar. æigi mun nu firir ollu verda um set. Sidan foru þeir sudr firir land ok byriade litt ok namu æigi fyrr stadar en þeir komu sudr a Jadar ok gengu upp til beiarins a Sola. őngir voru þar menn vti. sidan gengu þeir inn ok satu menn uit dryckiu. bæine var þeim uæittr ok voru menn aller fair uit þa. æinge voru tiolld j stofu Erlings en hringabrynia hek yfir huerium manni ok hialmr ok suerd. ok er menn foru til suefnns þa uar Endrida fylgt j loft æitt uel buit. reckia uar þar buin uegliga ok uar honum þangat til fylgt. Endride gek at huilunne

ok sa ath kona huilde þar j ok kende hann þar Sigride. hon bad hann skiott j burt ganga ok mun þer æigi þat duga at sofa her inne. Hann quat suo uera skylldu. þar næst heyrde hann dyn mikinn ok uar þar þa kominn Erlingr bonde ok margir menn med honum. Erlingr mællti. hui legstu nu æigi j sęngina Endride. ecki er þat nu osęmiligra en at sofa hia dottur minne j fiskiskalum. Endride suarar. suo at æins suaf ek þar hia henni at henni uar þat æinge skom ne frændum hennar ok gerda ek þetta mæirr firir hennar bæn en til vsæmdar vit ydr. Erlingr suarar. ecki muntu þar nu ordum æinum uit koma en kostr[1] mun þer at bera jarnn ok færazst undan. Endride suarar. launa ma betr goda fylgd. en þo at þetta se nockur þreynging þa skal þo þat gera at firra suo konuna amæli ok sealfan mig. Hann quat þa visu.

Mer kom mundar fura
meyiar holld j eyiu
fatt segir Freyrr hit retta
fiarre allt nema uarrar.
enn sa er oss uill kenna
atgæirs af þui flæira
balldr mun sea til sealldan
segi hann alluesall þegia.

Erlingr mællti þa. sæma mundu ver vit þat ef ecki hefdi mæira at ordit en slikt suo.

Eindridi gerdi skirslur fyrir Sigridi Erlingsdottur.

145. Nu lidr af nattin ok um morguninn sat Endride til jarns ok fastade sem sidr er til þeirra manna er jarnn skulu bera. ok er [412] hann skyllde bera jarnnit þa er suo sagt at æigi matti skoruligar at þui vinna. En er .iij. nætr voru lidnar uar leyst til handarinnar ok var fiolde manna hia. aller matu vit Erling atkuæde um skirsluna. þa mællti Erlingr. sligt ma madr bezst skirr vera sem þu ert Endridi ok hefir þu dreingiliga hrundit þessu male ok þigg nu af oss goda sæmd. Endride suarar. at er þat nu gert er mest la vid at ek hefir firt dottur þina amæli ok suo mig en uistir minar munu her ecki langar vera a Sola at sinne. Ok gek j brott. Allir fundu at Endrida bio mikit j skapi ok hann uar ræidr ordinn. þa mællti Skialgr son Erlings til fǫdr sins. huort skulu þit Endridi at þessu skilia. Erlingr suarar. huat ma ek nu at gera. Skialgr mællti. suo hygzst mer at fadir at æigi muni suo buit hlyda uit ofrkapp þeirra frænda ok riki mikit en suo haduliga sem gert hefir uerit til þuiliks mannz sem Endridi er. Erlingr suarar. huat ma ek nu at gera flæira en bioda honum god bod. en þo at þeir fedgar se rikir menn þa erv uær ecki uppgefnir firir þeim. Skialgr mællti. suo er þat en þo uerdr þat margs mannz bani. væri þat nu mitt rad at bioda honum god bod. Erlingr spyrr. huat skal bioda honum. Skialgr mællti. ek uil bioda honum fram Sigridi dottur þina. Erlingr suarar. huar hafua menn sligt heyrt at ek

[1]) kosti *Cd.*

munda nockurum manni bioda fram dottur mina. þat þætti mer mælanda at hann bædi hennar ok þa gæfua ek honum hana. Skialgr mællti. næi fadir æigi er suo. æingar eru þat yfirbætr at hann nai at æiga dottur þina þuiat ecki er hann uerr mannadr en hon. ok a hitt firir at koma hans suiuirding at þu gerir honum þa uirding at bioda honum dottur þina firir sina þraunguin(g) ok mædu er hann hefir skoruliga borit. ok er ecki medalsæmd at æiga slikann mann at mag sem Endridi er þo at þu kuædir meirr at æinu orde en þer þikir matuligt. Erlingr suarar. biod þu honum hana fram ef þu uill. Skialgr mællti. villtu iatta þui ok ganga vit sidan firir honum ok mun ek þa a hætta. Erlingr mællti. rad þu nu frænde ek se at þu uillt uel. Sidan hitti Skialgr Endrida ok mællti. þat uill fadir minn at þu farir heim ok uill hann fagnna þer uel ok gefa þer fe til satta. Endride suarar. ecki þarf ek fe at þiggia af fôdr þinum ok mun ek þo fa fe suo at mer mun endazst ok minum monnum. Skialgr mællti. fylgia ma þat fenu at þer megi sæmd at vera þuiat þer mun kostr radahags vid Sigride systur mina ef þu uill sættazst. Endride mællti. ecki skal þui leyna ydr at hon er suo meyia her j Noregi at ek uillda hellzst æiga en þo mun ek nu ecki bidia hennar at sinne. Skialgr suarar. þa ertu miog ræidr uordinn ef þu uillt lata ganga undan hinn bezsta kost er til er. en kost muntu æiga radahags uit Sigride þo at þu bidir hennar æigi ef þu uill þui at fadir minn uill bioda þer konuna. Endridi mællti. þetta er mikils vert þuiat æinge madr mun þat kunna at uirda huersu mikils honum mun þat uert þikia at hann bi(o)de fram nockurum manni dottur sina ok skal nu vist fara at finna hann. Sidan gengu þeir heim a bæinn ok uar Erlingr uti ok mart manna ok fagnar hann þa uel Endrida. þa mællti Endridi. eru þat þin ord Erlingr at bioda mer dottur þina. þat er rett ok satt segir Erlingr. Endridi mællti. mæl þu manna hæilazstr ok uil ek þetta bod giarna þiggia ok þat allt sem mer hefir mislikat adr uil ek þer nu upp gefa. Sidan foru fram festar en þo uill Endride nu heim fara at sinne.

## Vidrtal þeirra fedga Einars ok Eindrida.

146. Nu ferr Endridi læidar sinnar þar til er þeir koma uit ey eina. þar sa þeir skip æigi færi en .xx. ok uar j dreki mikill. Endridi mællti. betr uæri nu at þessir væri fridmenn. ok gek upp a drekann. hann kende aftr j lyptingunne fôdr sinn. Endridi fagnar uel fôdr sinum. Æinarr sa til hans ok mællti. hui hefir þu kringluskurd a hari sem klerkar. ek hugde at þu uærir ecki uigdr madr ok ecki ertu minn

son. Endridi mællti. uæitzstu þat fadir at þa er menn sitia til jarnns ok skulu skirazst at skera skal hár þeirra. en ecki mattu segia j sundr frændsemi med ockr edr huat skal lid þetta hit mykla. Æinarr suarar. ek skal þat segia þer. þott þu berir æigi traust til at reka þinnar suiuirdingar þa mun ek þo æigi nenna at sitia kyrr firir. þott þu hafir hæitt iarnn borit ok brent holld þitt þa munda ek uilia at sumir bæri kallt jarnn j holldi ser af þeim Jadarbyggiunum ok uorir ouinir eru. ok olikr ertu ordinn Hakoni modurfødr þinum edr sumum fodrfrændum þinum Ketli hæng edr Kuelldulfui. Endridi mællti. reidr ertu nu fadir en sattir eru vit Erlingr nu ok hefir hann bætt mer fe. Æinar mællti. huat hefui ek sligt heyrt at taka a ser mutu sem putur ok fe sem ueslingar. en þar sem þu satzst til jarnns ok tokt femutu j [413] botina þa mun þat ecki hepta mina ferd. Endridi suarar. þa þarf mæira vid. fylgia ma þat fenu er mer þikir mæira undir Sigridr dottir hans skal fylgia fenu ok skal ek æiga hana. Æinarr mællti. fridende eru þat vist en dyrt þiki mer þu hafa keyft hana þar er þu bart jarnn til ok þike mer þetta einge sætt ok ecki heftir þetta mina ferd. Endridi suarar. meira þarf þa vit. ok uæit ek æigi huarth þer þikir nockur virding edr sæmd j þui er Erlingr baud mer fram dottur sina. Æinarr mællti. þat er vist virding mikil ef þat er satt ok ecki þiki mer su sæmd minne en ouirding su er þu fekt j iarnnburdinum þuiat hræddr hefir Erlingr þa verit er hann baud þer fram dottur sina ok mun ek mer þetta lika lata. ok førum nu med ollu þessu lide ok synum þeim afla uornn huat er ver æigum undir oss. Endride suarar. þat uil ek giarnna. Sidan sigla þeir sudr med landi. en er þeir fedgar sia skipin mællti Skialgr. se nu fadir at betra er at æiga þessa menn at vinum en at ouinum er her fara. en nu er þat mitt rad at vit buum ueitzslu uegliga j moti þeim ok stormannliga þuiat þig skortir æigi fe til þess. Erlingr quat suo uera skylldu. uar nu geingit j mot þeim fedgum ok fagnnat sem bezst matti. uar sidan uæitzsla hin uegligsta er Endridi gek at brudhlaupi sinu. ok sidan voru menn med giofum brott leystir ok mælltu þeir Æinarr ok Erlingr til vinattu med ser ok skildu at suo mælltu. Endridi for heim (med) konu sina Sigride ok undi uel sinu rade

Vidrtal þeirra Olafs konungs ok Erlings Skialgssunar.

147. Erlingr Skialgsson hellt riki sinu allt nordr fra Sognnsæ ok austr til Lidandisnes. red hann ollu vid bændr en uæizslu konungs hafde hann myklu minne en fyrr. en þar stod þo su ognn af honum at eingi madr lagde j adra skal en hann uillde. Olafi konungi þotti

ofgangr at vm riki Erlings. Madr het Aslakr Fitiaskalle hann uar kynstorr ok rikr. Skialgr fadir Erlings ok Askell fadir Aslaks voru brædrasynir. Aslakr var mikill vinr Olafs konungs ok setti konungr hann nidr a Sunnhordalande ok fek honum þar len mikit ok uæitzslur storar ok bad konungr hann hallda til fullz vid Erling. en þat uard ecki þann ueg þegar konungr uar æigi nærr. þa uard Erlingr æinn at rada þeirra j millum var hann ekki at miukari þoat Aslakr uillde sig fram draga hea honum. foru þeirra skipti suo at Aslakr hellzst æigi uit j syslunne. for hann þa a fund Olafs konungs ok sagde honum fra vidskiptum þeirra frænda. Konungr bad Aslak vera med ser þar til er ver Erlingr finnumzst. Konungr gerde ord Erlingi at hann skyllde koma til Tunsbergs vm uorit a fund hans. en er þeir finnazst þa æigu þeir stefnur ok mællti konungr. suo er mer sagt Erlingr fra riki þinu at æingi madr se sa nordr fra Sognnsæ ok til Lidandisnes er frelse sinu halldi firir þer. eru þeir menn margir þar er odalbornner þættiz til vera at hafua rettynde af iafnnbornum monnum ser. nu er her Aslakr frændi þinn ok þikizst hann helldr kulda af kenna ydrum uitskiptum. nu uæit ek þat æigi huort helldr er at hann hefir til þess sakar nockurar edr skal hann hins at giallda er ek hefir sett hann yfir uarrnnat minn. en þo at ek nefnna hann til þessa hellzst þa kæra slikt þo margir firir oss będe þeir er j syslum sitia suo ok þeir er bu uor uarduæita ok armenning hallda ok uæitzslur skulu bua j moti mer ok lide minu. Erlingr mællti. þui skal skiott suara segir hann at þui skal neita at ek gefa þær sakir Aslaki ne odrum þoat j þionustu yduarre se. en hinu skal ek iata at þat er nu sem lengi hefir verit at huerr uorr frænda uill uera odrum mæire. ok hinu odru skal iata at ek geri þat lostigr at bey(g)ia hals firir ydr herra en hitt mun mer ordigra þickia at luta til Selþoris er þrælborinn er j allar halfur þo at hann se nu armadr yduar edr annara þeirra er hans makar eru þott þer leggit metord a. þa toku til mals beggia uinir ok badu at þeir skylldu sættazst. sogdu suo at konungi væri at ǫngum manni styrkr iafnnmikill sem at Erlingi ef hann væri yduarr fullkominn vin. j annan stad mælltu þeir til Erlings at hann skyllde uægia uit konung. segia suo ef hann helldizst j uinattu vid konung at honum munde þa allauduelligt at koma þui fram sem hann uillde uid huern mann annan. Lauk suo stefnu þeirre at Erlingr skyllde hafa somu uæitzslur sem hann hafde adr haft ok settuzst nidr allar sakir þær er konungr hafde haft a hende Erlingi. skyllde þa Skialgr son Erlings fara til Olafs konungs ok uera med honum. for þa Aslakr aftr til bua sinna ok uoru þa sattir at kalla.

Erlingr for ok heim til bua sinna ok hellt teknum hætti um riki sitt. Nu uikr aftr sögunne þar til sem fyrr uar fra horfuit sem uar þormodr kolbrunarskalld er sidar mæirr uerdr hirdmadr ok astfolginn þionustumadr hins hæilaga Olafs konungs Haralldzsonar.

---

## þAATTR þORMODAR ER HANN ER MED KNUTI KONUNGI I DANMORK.

### capitulum.

[414] Prydemadr mikill var þormodr kolbrunarskalld ok uel at jþrottum buinn skalld gott medalmadr a uðxst allra manna snarazstr. hann undi ser ongu eftir andlaat þorgæirs fostbrodur sins. ok þat sama sumar sem hann var ueginn for þormodr vtan vestr j Vadli ok er ecki sagt af ferdum þeirra fyrr en þeir komu fram j Danmork. þa red þar firir Knutr hinn riki ok var honum sagt fra þormodi at hann væri mikit afbragd annarra manna bæde sakir hreysti ok kappgirnne ok suo skalldskapar. ok sendir konungr eftir honum ok bad hann koma a sinn fund. þormodr bregzst fliott vid ok ferr at hitta konung ok gengr firir hann ok kuedr hann agætliga. en konungr fagnar uel þormodi ok bydr honum þegar til sin. ok ferr þat ord fra þer segir konungr at þu ser uel fallinn til at uera j konungs hird ok þiona tignum monnum. þormodr suarar. þat er mer æigi fellt herra firir þui at ek er æigi til færr at setiazst j rum hofutskallda slikra sem med ydr hafua uerit ok er ek ecki reyndr at þui at yrkia vm þuilika hofdingia sem þer erut. Konungr mællti. þetta vilium ver at þu kiosir af at vera med oss. þa suarar þormodr. herra uarlla er oss þetta fallit þuiat ver erum illa stilltir ok kann vera at uer fam æigi til gætt ok þiki mer illt ef ek hrata her j nockurnn ofagnnat firir sakir skaplyndis mins. þuiat oft nenni ek litt at gera j moti skapi minu en þo uil ek ydr þess bidia at þer firirkunnit mig æigi þess er ek mun mæla. þat uerdr stundum mællt af sumum monnum at æigi hafui gefuizst at fullu þeim monnum er med ydr hafua verit. Konungr mællti. uar med oss þorarinn loftunga. þormodr suarar. satt er þat herra en var þo su stund vm hrid at æigi þotti þat olikara at þorarinn bæri sig æigi heilan a brott. en ydr mun þo suo reynaz at ek er myklu verra skalld en þorarinn. Konungr mællti. miog verdu ver eftir at læita vid þig þormodr ok ma

þat gera vm stundar sakar en þo ma þat a finna at ver uilldum þina þionustu hafa. Gud þacki ydr þat herra segir þormodr en þo verdum uer at ætla hof firir oss þott ver uitim þat at ydr se merkiligazst at þiona. Nu man ek þat syna segir konungr sem ek gat adr at helldr en æigi farir þu til min ok mun ek gefa þer þuilikann mala sem þorarinn hafde en þat uar mork gullz. Herra sagde þormodr ef ver tokum þenna kost þa þurfum ver miog þinnar umstille ok umsiar þuiat ek er raunlitt stilltr sem ek sagda ydr. þormodr tekr nu þetta af at hann ferr til hirduistar med Knuti konungi ok er hann þar um hrid ok uel uirdr. hann skemtir oft konungi. ok er þat fra sagt at hann skemti allra manna bezst ok oft kuæde hann visur vm þat er vid bar. Konungi hugnnade hann vel ok verdr þo ecki mæira um en hann hugde til. Lidr nu sumarit.

## þormodr rædz med Hareki.

149. Um uetrinn er þat sagt at madr sa kemr til hirdarinnar er Harekr hæitir. honum er suo farit at hann er uikingr mikill ok illgerdamadr en hann er þo uinr Knutz konungs. færde hann honum iafnan herfang mikit ok gerssimar margar ok uirde konungr hann mikils. Suo er sagt at konungr frettir nu Harek at huersu honum hefir farizst vm sumarit. en hann segir at æigi hafui nu uel farizst. kuezst latit hafa stafnnbua sinn. ok uil ek þess bidia ydr herra at þer fait mer stafnnbua annan ok er þo uandfæingit j stad hans at þui at mer þikir þuiat hann uar oft godr tiltaks um ord ef suara þurfti huort sem skyllde skattyrdazst edr læita lofgiarnnligra orda. Konungrinn ihugar þetta mal ok kuetzst þo uilia bioda honum til sin ef hann uillde þat ok hætti hann hernnade ok kuezst ser þat rad synazst uænligt at hann gerde suo. en Harekr letz enn uilia hafa hina somu idn. þar er hann vm uetrinn med konungi. hann er uel uit þormod ok gerde miog at athuarfui vid hann. Harekr uekr til miog oft vid konunginn um stafnnbuann at hann skuli fa honum. en konungr slitr æigi ór þui suo bratt. þormodr uerdr æigi firir ofund af monnum sem oft kann verda uit þa menn sem nykomnir eru til hirdar ok uirdir uel. en þar kemr um malit Hareks at hann segir honum at hann kyss þormod til stafnnbua ser. Konungr mælir ecki þui j moti ef þormodr uillde. ok uar nu þess lęitat uid hann ok tok hann þui ofliott helldr ok kom þat loks at konungr sealfr rædir um uit hann ok segir at hann uill at þormodr redizst til med Hareki. þormodr suarar. þat er mer nu skapfelldazst at vera med ydr herra ok er mer sea allz ukunnr hann

Harekr. Konungr bidr nu þormod til ok segir hann hafa nu munu j moti uingan sina ef hann gerir nu þetta sumarlangt firir ord sin. þormodr suarar. helldr uillda ek nu herra med ydr uera en þo firir þui at þer bæidit þessa þa uil ek æigi þessu afsuor uæita med oll(u) en skilia uil ek nockut j malit. ef ek radumzst j þessa ferd med Hareki þa uil ek rada huar j hafnir skal leggia edr brot skal leggia. Konungr iatar þessu ok [415] segia suo uera skulu sem hann bæidir. Ok nu er kemr at þeirre stundu er þeir Harekr ok þormodr skulu brott fara fra hirdinne þa koma æigi fram giafir þær af konungs hende uit þormod sem honum þotti ser hæitit hafua verit. ok eru þeir konungr nu badir saman staddir. þa þikir þormodi radligt vera munu at minna konunginn a med nockuru moti ok quad hann þa visu þessa.

Loftungu gaftu lengi
latr þat er Fafnir atti
þu letz mer enn mæri
merkr franoluns uonir.
uerdr em ek uarga myrdir
uidlendr fra þer sidan
edr helldr um sia sialldan
sliks rettar skal ek uætta.

Konungr dregr þegar gullhring af hende ser er stod halfa mork ok gaf þormodi. Haf nu mykla þǒk firir herra segir þormodr en firirkunnit oss æigi uorrar framgirnne þott ek mæla vm þetta enn nockuru framar. þat tǒludu þer herra at ek skyllda mork gullz þiggia af ydr j malagiof. Konungr suarar. þat er satt skalld er þu mælir ok skal þat ok æigi af draga. Tekr konungr nu hring annan ok gefr honum. ok er hann tok uit þessum hringnum þa quat hann visu þessa.

Flest of ser hue fasta
fagrbunar hefui ek tuna
badar hendr or breidum
bardz þiodkonungs garde.
elld a ek iofri at giallda
ungr þeim er bregdr hungri
diups ber ek gull a greipum
gradugs ara badum.

Nu skiliazst þeir Knutr konungr.

### þormodr drap stafnbua Olafs konungs.

150. þormodr rædzst nu til skips med Hareki ok gerdizst stafnnbui hans ok fara þeir vm sumarit. ok þikir þormodr vera godr tiltaks bæde um ord ok atgongu ok likar þeim uit hann æinkar uel. þat er sagt æitthuert sinn at alidnu sumri at þeir leggia skip sin j lægi sid um aftan hea ey nockurre. ok þat sea þeir at renna fram hea þeim skip nockur ok uar þat dreki er fyst for ok alluegligt skip. ok er drekann bar fram hea skipinu þui er þormodr uar a þa kallade madr af drekanum. ór hart ór konungs hofnninne segir sa. þeir uilea þegar bregda tiolldunum ok lata or hofninne. ok er þormodr ser þat þa bad

hann huerge brott leggia. ok minnizst nu a segir hann huat mællt var med oss at ek skyllda slijku rada. þeir suorudu felagar hans bidia hann æigi uerda suo odan. ok hefir þu matt rada þessu enn her til firir oss ok enn kann vera at suo se. Drekinn brunar nu fram at skipi þeirra þormods ok gengr nærr ok þikir þeim er a drekanum eru seint uit latit at leggia ór hofninne. þat er sagt at stafnnbuinn a drekanum stendr upp ok bregdr suerde ok hǫggr til þormodz. en hann lætr æigi a sig hallt uerda ok hoggr j moti til þess mannzsins. ok berr suo til at sa letz en þormod sakade ecki. ok þegar hleypr þormodr af skipe sinu ok upp a drekann ok hefir skiolldinn firir ser ok aftr eftir skipinu allt til lyftingar. En vit þetta allt saman uard kall a skipinu ok frettizst nu huat tidenda er. ok er þormodr þui næst hondladr en uikingar leggia þui nęst brott ok hirda ecki um þormod huat af honum verdr. En drekanum styrir Olafr konungr ok er honum sagt huat j hefir gerst ok suo at uegandinn er handtekinn. ok bidr konungr lata drepa hann ok kallar hann þess verdann vera. Ok er Finnr Arnnason heyrir þetta er konungr mællti þa gengr hann til ok uill uita huerr madrinn se sa er uegit hefir stafnnbuann. ok mællti er þeir funduzst. firir hui uartu suo diarfr madr at þu treystir at hlaupa a konungsskipit sligt sem þu hafdir adr unnit. þormodr suarar. þat kom til þess segir hann at ek hirta ecki um lifit ef ek kæmumzst a ualld konungsins. Nu segir Finnr þetta Sigurde byskupi ok bidr hann uæita ser orda fullting vid konunginn at bidia manninum fridar ok ræda um med ser. ok synizst þeim sem honum hafui huatliga ordit allt iafnnsaman ok bidea þeir nu konung at hann skuli gefua honum grid ok fara um þat morgum ordum. Konungr spurde hui hann kæmi a hans ualld þar sem hann uar adr a ǫdru skipe suo illa sem hann hafde sina sok til buit. þormodr heyrde þetta sealfr ok suarar konungi med visu þessi.

Hafa þottumzst ek hættins
hafs sækiande ef tækir
hreins uid halldi minu
huert land þegit branda.
rikr uil ek med þer rękir
rannda linnz hinn suinne
rond berum ut a andra
eybaugs lifa ok deyia.

Ja sagde konungr audsætt er þat a þessi tiltekiu at þu hirdir litt um lifit ef þu kemr þui fram sem þu uilldir. en þat hygg ek at uerir þu þat rum er þer er j skipat edr huert er nafnn þitt. þormodr sagde til sin. ok er ek fostbrodir þorgeirs Hauarssonar. Konungr mællti. meire gæfumadr skylldir þu vera en þorgæirr uar. en hitt er mer synt at þu munt lagdr til ohappanna þuiat mer synizst þu ungligr edr huersu morg hefir þu uigin uegit. þormodr quat þa visu.

Sex hefig allz sizst uxu
on hiallta ty fionir
kendr er ek vid styr stundum
stalregns boda uegnna.

þo em ek enn at mun manna
mordz uarliga ordinn
uer letum þo þeirra
þritögr skarar bita.

Konungr mællti. þörf uære at bu bidir æigi adra xxx. uetra. en þo er skade at slika menn þuiat þu munt uera skalld mikit. þormodr suarar. þat mun nu miog a ydru ualldi [416] huersu gamall ek skal uerda. en gods uæntir ek at ydr firir sakir þins vinir þorgeirs Hauarssonar fostbrodur mins. fór ek ok þui mest af Jslande at ek þottumzst uita at þu mundir vilia lata hefnna hirdmannz þins ok uinar þorgeirs Hauarssonar en ek uissa mig skyllzstan til at hefnna hans med yduarre umsia. Konungr mællti. þiggia muntu höfut þitt allz þu ert a minn fund kominn. uil ek at þu leitir firir þer huert er þu uill firir mer. þormodr suarar. su lifgiof kemr mer firir litit þuiat mer er okunnikt um Noreg en ek uil ecki læita til annara konunga en þin. nu ger þu annathuort tak uit mer edr lat mik drepa ella. Ok nu uit arnön byskups ok Finnz ok hins annars er konungi fellzst uel j þocka til þormodar þa mællti konungr. statt upp þu þormodr. nu muntu verda at giallda mer til þionustu sealfan þig firir þann mann minn er þu vott. ertu uel til fallinn at fara sendiferdir minar. þa quat þormodr visu.

þarf sa er þer skal huarfla
þæingill firir kne lengi
suaradu hogliga hueriu
hugbord konungr orde.

fair eru uer ne fryiu
frændr voru þa uændir
minnumzst ek meirr a annat
mitt starf konungdiarfir.

Konungr suarar. gaman mun vera at skalldskap þinum ok æigi ætla ek at þu verdir til lyckta vgæfumadr. þormodr var nu med konungi ok uar hann þui betr til hans sem hann hafde lengr verit. þuiat konungi reyndizst hann hinn röskuazsti madr j ollum mannraunum.

## þormodr fór til Grænlandz.

151. þat sama haust er þormodr kolbrunarskalld kom til Olafs konungs kom skip af Grænlandi til Noregs. þui skipe styrde sa madr er Skufr het hann uar grænlenzskur madr at ætt farmadr mikill uitr madr ok uinsæll uinr mikill Olafs konungs ok var honum handgenginn. Skufr for til hirdar med Olafi konungi. þeir þormodr ok Skufr logdu saman lag sitt ok uar med þeim alluingott. Um uorit eftir bio Skufr skip sitt vt til Grænlandz. þormodr gengr þa firir konung ok mællti. þat uillda ek konungr at þu lofadir mer at fara til Grænlandz j sumar med Skuf Grænlendingi. Konungr suarar. huert er eyrendi þitt til

Grænlandz. huart ætlar þu at hefna þorgeirs suarabrodur þins. þormodr suarar. æigi uæit ek huers audit uill verda um þat. Konungr mællti. æigi uil ek banna þer forina þuiat ek þikiumzst vita huat er þu uill. Nu skilia þeir at suo mælltu. þormodr tok ser far med Skuf. ok er þeir voru miog bunir þa fara þeir a fund konungs ok þacka honum alla vingan þa er hann hafdi þeim ueitt. konungr bad þa uel fara. konungr gaf þormodi hring ok suerd þa er þeir skilduzst. Ganga þeir nu a skip ut ok er þeir gengu a skip ok settuzst nidr þa gek madr vt a skipit at skutbryggiu. sa madr uar mikill uexsti herdibreidr ok þyckr undir hondina hann hafde sidan hatt a hôfde. ok mattu þeir ogerlla sea hans asionu en þat er þeir mattu af sia þa syndizst þeim skulbrunn ok skeggiadr ok gerpligr j asionu. sa madr gek firir Skuf ok kuaddi hann. Skufr tok uel quediu hans ok spurde hann at nafnni en hann nefndizst Gestr. Skufr mællti. huar er kyn þitt. Hann suarar. uida stendr kyn mitt fotum. en þat er eyrendi mitt hingat at ek uil at þer uæitit mer far j sumar til Grænlandz. Skufr suarar. okunnigr ertu mer ok vita (verd ek) vid skipueria mina huat þeim syniz rad huort ek taki uit þer edr æigi. Gestr mællti. æigi uæit ek enna þat ætlada ek at styrimenn ætti firir skipi at rada en æigi hasetar. ok er þat likligazst at ek uinna hlutuerk mitt at minu læiti suo at æigi þurfui hasetar firir mig at uinna. Nu lauk suo þeirra uidrædu at Skufr het Gesti farinu. Gestr gek upp j bęinn ok kemr aftr med mykla byrde ok þunga suo at uarla mattu .ij. menn upp taka. Skufr let þa j haf. þeir fengu stór uedr ok huoss. þess lidbetri uar Gestr sem meire uar raun til. suo syndizst þeim sem Gestr munde hafua .ij. manna megin j sinum tiltôkum. helldr stodst allt j odda med þeim þormodi ok Gesti j þui sem uit bar. Suo barst at æinn dag at þormodr ok Gestr attu austrmal at hallda badir. j þann tid uar byttu austr hafdr a skipum en æigi dęlu austr. nu uar þormodr j kile nidri ok sokti byttunum en Gestr tok uit uppi a þilium ok bar ut austrinn. þormodr uar ecki sterkr madr ok selldi hann oft ecki langt upp bytturnar ok uard Gestr at sæilazst miog j mot byttunum adr hann fenge nad þeim. Gestr mællti þa. sel þu upp auuirdit knaligar butturnar. þormodr suarar ongu en gerde sem adr. Nu er minnzstar uonir voru þa lætr Gestr fallazst ofan bytturnar fullar af sio j fang þormodi. þormodr uerdr allr aluotr ok hleypr upp ór iaustrinum ok þrifr uopn sin. Gestr tekr ok sin uópn uilia þeir þa berazst. Skufr bidr þa menn standa j mille þeirra. eru þeir þa skildir. Skufr mællti þa. æigi samir at menn se vsattir a skipum þuiat osættinne fylgir mart til mæins ok sealldan mun þeim skipum uel farazst

er menn eru usattir innan bordz. nu uilium uær bidia yckr at þit synit ônga ouisu medan þit erut a skipinu en georit sem yckr likar þa er þit komit a land. Nu sefazst þeir af ordum Skufs ok eru nu grid sett a millum þeirra. Skip þeirra [417] uelkir uti lengi ok fa þeir stor afôll. j einum myklum stormi gengr j sundr seglra þeirra fór þa utan bordz allt seglit. taka menn seglit ok heimta at ser ok voru Gestz tiltok þar sterkliguzst. Skufr mællti at þeir menn voru litt hagir er farit hôfdu af Grænlande med honum. en hann hafde seth þa þormod ok Gest mart hagliga telgia. Skufr mællti þa vid Gest. uill þu gera saman ra vora. Gestr suarar. litt er ek hagr bittu þormod hann er madr suo ordahagr at hann mun þegar yrkia saman rána suo at fost mun vera sem negld se. Skufr mællti þa vid þormod. uilltu gera saman ra vara. Hann suarar. fa þu Gesti hann er madr suo sterkr at hann mun stinga saman hlutunum suo at fast mun vera. en þo ma ek freista at telgia annan hlutinn ef Gestr telgir annan. Nu er fengin sin ôx huorum þeirra ok telgir sinn rarhlut huorr þeirra. Gestr litr nockut suo til þar er þormodr er. en þa er þormodr hafde telgt sinn hlut rarinnar þa setz hann nidr a bunkann. en Gestr telgir nockuru lengr þat tre er hann uar at. ok er hann hætti at telgia þa bar hann saman hlutina ok þurfte þa af huoregum at taka hlutnum. Nu festir Gestr saman rana ok eftir þat festa þeir seglit vid rana ok þui næst sigla þeir. Sid um haustit toku þeir Grænland. skipit kom j Eireksfiord ok skipudu þar upp.

Her segir fra þeim Grænlendingum. capitulum.

152. þorkell Læifsson bio j Brattahlid hann uar hofdinge mikill rikr ok uinsæll hann uar uinr hins helga Olafs konungs. þorkell kom bratt til skips ok keyfti at styrimonnum ok hasetum þa hlute er hann uillde hafa. hann keyfti mollt þau sem þar voru til ok adra hluti þa sem torugætazstir voru a Grænlande. Skufr gerde þorkatli j kunnlæika at hirdmadr ok skalld Olafs konungs uar a skipenu er þormodr het ok sagde at Olafr konungr sende honum þormod til hallz ok trauzstz ef hann þyrfti nockurs vit. Nu af þessum ordum Skufs baud þorkell þormodi til sin ok þat þektizst þormodr. Skufr uar vid skip til þess er þat uar upp sett ok um buit. eftir þat redst hann heim til bus sins. hann atti bu a þeim bæ er a Stockanese hæitir. þat er j Æireksfirde ôdrum megum fiardar en Brattahlid odrum megum. vid Skuf bio sa madr er Biarnni het. hann uar uitr madr ok uinsęll gerr at ser ok smidr mikill. hann uardueitti bu þeirra Skufs beggia þa er Skufr uar j forum. þeir attu felag saman ok fór uel med þeim felag. þormodr for

til uistar j Brattahlid til þorkels Læifssonar. Gestr uistadizst j Æireksfirde a bæ þeim er j Uik hæitir. þar bio sa madr er Grimr er nefnndr. þorgrimr trolli Æinarsson bio j Æinarsfirde a bæ þeim er a Laungunese hæitir. þorgrimr uar godordzmadr ok mikill hôfdinge rikr ok fiolmennr garpr hinn mesti j skaplynde. uit þorgrim bio systir hans er þordis het. hana hafde att sa madr er Hamundr het. synir þordisa(r) voru .iiij. a uist med henni. einn þeirra het Bauduarr annar Falgeirr .iij. þorkell .iiij. þordr. þeir voru aller garpar myclir ok fraligir menn. þorunn het onnur systir þorgrims hon bio j Æinarsfirde a þeim bæ er a Langanese het. hon atti son er Liotr het hann uar mikill madr uexsti ok rammr at afle. Aller frændr þorgrims voru myklir hauadamenn ok oiafnnadarmenn. Sigridr het kona er bio j Æinarsfirde a þeim bæ er a Hamri hæitir. Sigridr atti gott bu en þo ecki stóraudig en uel audig at uinsældum. Sigurdr het son hennar hann uar at bui med henni. hann uar fraligr madr ok vinsæll ok litill hauadamadr.

## Vidreign þeirra Lodins ok þormodar.

153. Lodinn het madr hann uar verkstiore þorkels j Brattahlid. hann uar godr uerkmadr ok uæidemadr mikill. honum fylgde at lagi kona su er Sigridr het hon uar fæingin til at uinna þormodi. skemma uar j Brattahlid ute æigi afost husum er þorkell uar uanr at sofa j ok setumenn hans. þar brann lios hueria nott j skemmunne um uetrinn. Lodinn suaf inni j skala hea uerkmonnum þorkels. Lodni þotti Sigride oft uerda dualsamt a kuelldum j skemmunne er hon togade af þormode. þotti honum Sigridr ga sin minnr en verit hafde kom honum j hug kuidlingr sa er kuedinn er um lausungarkonur.

A huerfanda hueli
eru þeim hiortu skopud
ok brigd j briost um lagin.

Rædir hann þa vm uit hana at hann uill æigi uistir hennar langar a kuelldum j skemmunne. hon suarar honum þann ueg sem henni uar j skapi til. þikir honum hon leggia sialldnar[1] .x. (fingr) up ser um hals en uerit hafde. Lyftizst þa litt þat ræide j sinu rume. en ræide huers mannz er j galle en lif j hiarta minne j hæila mettnadr j lungum hlatr j millti lystisemi j lifr. þat bar til æinn aftan þa er þeir þorkell ok þormodr uilldu ganga til skemmu ok Sigridr eftir þeim at Lodinn tok til Sigridar ok hellt henni en hon togadizst ór hondum honum. ok er

[1]) leggia *tilf. Cd.*

þormodr serr þat þa tekr hann j hond Sigride ok uill kippa ór hondum Lodni. en þat gengr æigi skiott. ser þorkell þa þeirra þæfu. hann mællti þa uit Lodin. lattu Sigride fara læidar sinnar. oskuggasamligt er allt um hennar uistir uti þar a kuelldum. brennr þar lios biart. mun ek gæta hennar uti þar a kuelldum suo at ecki skal at uerda um hennar rad þat er henni [418] se til suiuirdingar ne þer til sneypu en þu gæt hennar uel þess j mille. Nu vid þessi ord þorkels þa lætr Lodinn raknna hendr af Sigride ok ferr hon læidar sinnar med þeim þorkatli ok þormodi. ok uar nu kyrt um hrid.

## þormodr drap Lodin.

154. þa er at jolum dregr lætr þorkell mungat hæita þuiat hann uillde ioladryckiu hafa ok gera þat til agætis ser þuiat sealldan var joladryckia a Grænlande. þorkell baud þangat uinum sinum at iolum ok uard þar fiolment um jolin. Skufr ok Biarni af Stockanese voru ok þar vm jolin at heimbodinu þuiat þadan uar husbuningr hafdr klæde ok ker til bodsins. Nu drucku menn jolin med mikille gledi ok skemtan. affaradag jola biugguzst menn til brottfarar ok foru suo sem bunir voru ok þǒckudu þorkatli uel uæitzslu ok heimbod. Lodinn uerkstiori greiddi monnum klæde sin ok handagerui er hann hafde uarduæitt um jolin. hann setti fram skip þeirra Skufs ok Biarnna ok let bua. huskallar baru ofan ker ok klæde þau sem hǒfdu uerit hǒfd til bodsins af Stockanesi. Lodinn uar j selskinz kufli ok j skinnbrokum ok uar gyrdr j brækr. nu voru þar aller menn nærr j ǒnn nockurre. Lodinn kemr þa farande j stofu vid .iiij. menn. þar uar adr æigi flæira manna en þormodr ok Biarni bondi af Stockanesi ok uar j sinum beck huorr þeirra ok tǒluduzst suo vid vm þuert golf. þormodr la a framanuerdum stockinum. Nu er þeir Lodinn komu j stofuna þa græip Lodinn j fætr þormodi ok kifti honum fram a golfit. þeir drogu þa þormod utar eftir golfinu. þa hleypr Biarnni upp ok gripr um Lodin midian ok uegr hann upp j bringu ser ok rekr hann nidr uid golfinu. Biarnni bannar þeim er þormod drogu ok bad þa lata hann lausann. ok suo gera þeir. Nu stendr þormodr upp. hann mællti þa vid Biarnna. æingi tilkuoma þiki mer sligt vera þuiat ver Jslendingar erum uanir slikum skinnlæiks brogdum ut a Jslande. þeir Lodinn ganga fram ok lata sem ecki se j ordit. Nu er þeir Skufr uoru albunir til farar þa gæingr þorkell til skips med þeim ok hæimamenn hans. ganga þeir menn a skip ut er fara skylldu. þeir Skufr hofdu feriu æina ok la bryggia a land. Biarnni stod hea bryggiuspordinum ok bæid Skufs er

hann talade vid þorkel. Lodinn uar a lande uppi skamt fra skipinu ok hafde þa af hende greitt farangr [þui manna[1]. þormodr uar skamt fra þui sem þeir þorkell toludu. ok er minnzstar er(u) vonir þa gengr þormodr at Lodni ok bregdr suerde ok hǫggr Lodin banahǫgg. þorkell heyrir brestinn ok litr til ok ser huar Lodinn er fallinn. þorkell mællti þa vid menn sina at þeir skyllde ganga at þormodi ok drepa hann. en þeim uard bilt. Biarni mællti þa at þormodr skyllde ganga a skip vt. hann gerde suo. Biarnni gek eftir honum ok er hann kom a skip þa heimta þeir vt bryggiuna. þorkell eggiar þa atgongu sina menn ok uill beriazst til þormodar. Skufr mællti þa. bradlitilh gerir þu nu þorkell a þetta mal er þu uill drepa þormod hirdmann ok skalld Olafs konungs. mun ydr madrinn dyrkeyftr verda ef konungr spyrr at þer latit drepa hann. allra hellzst er konungr sende hann ydr til handa ok til skiols ef hann þyrfti nockurs uit. synizst þat j þessu male sem oft kann at verda at ræidin litr æigi hit sanna. nu uilium uær bioda ydr sealfdǿmi firir þormod ok uig Lodins en þormod munu uær æigi lata medan uær stondum upp. Nu med þessum ordum Skufs þa sefazst þorkell. attu margir þa hlut at um sætt þeirra. for þat fram at þeir sættuzst. handsalade Skufr þorkatli sealfdǿmi firir vigit. for þormodr þa at uistafare a Stockanes til þeirra Skufs ok Biarna ok uar med þeim þat sem eftir uar uetrarins.

### Fra þeim þormodi ok Fiflegli.

155. Egill het madr hann uar huskall þeirra Skufs ok Biarna. Egill uar mikill madr uexsti ok sterkr liotr ofimr ok uuitr obragligr yfirlitz. hann atti kenningarnafnn ok uar kalladr Fiflegill. þormodr uar laungum ogladr ok okatr. husbændunum þotti a þui mikit mæin er hann uar hliodr ok spurdu þeir hann at ef þeir mætti nockurar bætr rada a hans hliodleika. þormodr suarar. þat uillda ek at þit fengit mer fylgdarmann nǫckurnn þann er ecki gerde annat en hann fylgde mer þangat sem ek uillda farit hafua. þeir sǫgdu suo uera skylldu badu hann kiosa ser mann af huskollum sinum þann sem hann uillde. þormodr mællti. Fiflegil kys ek til fylgdar vid mik hann er madr mikill ok sterkr æigi ofuitr at gera þat sem ek uil firir hann lagt hafua. þeir badu hann rada en þo undruduzst þeir hui hann kaus Egil ser til fylgdarmannz. Nu gerdizst hann fylgdarmadr þormodar ok leku oft at honum dǿtr hæimskunnar þær dul ok ranguirding suo at hann uisse æigi georlla huerr hann uar. Biarni smidade þormodi exi

[1]) r. bodsmanna(?)

bræida at firirsognn þormodar. hon uar slett oll ofan fra hamri ok til eggiar æingi uar eguolr firir henni hon uar herdugod ok snarpegg ok sæigt jarnn j.

## (Drap þorgrims trolla.)

156. [419] Um uorit eftir þessa atburde foru menn til þings j Garda j Æinarsfiord þat er j Eireksfirde ok hofdu aller saman buder. læ(i)ti bar a mille ok þar sem þeir hofdu budir ór Æinarsfirde. þormodr uar j bud med þeim Skuf ok Biarna. Nu er menn hofdu tialldat budir sinar þa var þorgrimr trolli eigi kominn. ok litlu sidarr uar sen fôr hans ok uar hon audkend þuiat hann hafde skrautligt lid ok suo skip ok skipat medal stafnna skrautligum skiolldum þar uoru ok morg spiot a skipe. suo uar mikill ofsi þorgrims at menn (þordu varla at) mæla iofnum ordum vid hann edr vid frændr hans. uæidarfæri hôfdu þeir Grænlendingar iafnan a skipum sinum. Nu er skip þorgrims rende at lande þa gengu margir at sea skart þeirra ok uopnnabunat til strandar. þeir rydea skipit ok kasta a land ueidarfærum þeim sem a skipinu voru. þormodr uar þar vid staddr er þeir ruddu skipit. hann tekr upp æinn selskutil ok litr a er þau hofdu a land kastat. æinn forunautr þorgrims gæingr a land ok tekr til skutilsins ok mællti. lumi þu af skutlinum madr þuiat þer mun til litils koma þo at þu halldir a honum. ok þat ætla ek at þu munir litt kunna at bæita skutlinum. þormodr suarar. litzst þer suo sem ek muna litt kunna at bæita skutlinum. Hann suarar. suo synizst mer uist. þormodr mællti. þikizst þu betr kunna at bæita en ek. Hann suarar. eflaust ætla ek þat. þormodr quat þa visu.

Betr letz bæita skutli
balldr hælir þui skialldar
þollr hleypr hart um hellur
hlunnriods en uær kunna.

georr uæit ek hitt hueriu̅m harri
hugdyrstr skipar fystum
uæitti oss sa er atti
ormstorgs j skialldborgu.

þormodr gengr þa heim til budar sinnar eftir þat. þeir forunautar þorgrims tiallda þa bud hans med myklum snôfurlæik ok buazst uel um. þat barst at æinn godan uedrdag a þinginu at menn allir gengu fra bud þeirra Skufs ok Biarna nema þormodr einn .hann la heima j hudfatinu sinu ok suaf. hann hafde breitt a sig felld tuilodinn er hann atti. felldrinn uar ôdru megin suartr en odru megin huitr. Nu er þormodr hafde sofit nockura stund þa uaknar hann ok ser at mennirnir allir voru brottu ór budinne nema hann æinn. hann undrazst nu þuiat mart manna uar at bud er hann sofnade. Ok (j) þui bile kemr Fiflegill inn j budina ok mællti. of fiarri ertu nu mikille skemtan. þormodr

mællti. huar uartu edr huat er nu til skemtanar. Egill suarar. ek uar at bud þorgrims trolla ok er þar mikill hluti þingheimsins. þormodr mællti. huat er þar til skemtanar. Egill suarar. þorgrimr Æinarsson segir þar sǫgu. þormodr mællti. fra huerium manni segir hann sǫgu. Egill mællti. æigi uæit ek fra huerium manni sagan er en hitt uæit ek at hann segir uel fra ok skemtiliga. er stoll settr undir hann vti firir budinne ok sitia menn þar umhuerfis ok hlyda til sǫgunnar. þormodr suarar. kunna munt þu at nefnna nǫckurn mann þann er j sogunne er allra hellzst er þu segir at suo mikit gaman se at. Egill suarar. þorgeirr nockurr uar j sǫgunne kappi mikill ok virdizst mer at þorgrimr munde nockut hafua verit vid sǫguna ok gengit miog uel fram sem likligt er. uillda ek at þu færir þangat ok hlyddir til sǫgunnar. þormodr suarar. suo ma uera segir hann. Nu riss þormodr upp ok tekr yfir sig felld sinn ok snyrr ut hinu suarta ok tekr ǫxi sina j hond ser ok setr hott a hofut ser. gengr sidan til budar þorgrims ok Egill med honum. nema stadar undir budar gafhladinu ok hlydazst þar vm ok matti ogeorlla heyra þat er sagt var. uedr hafde a uerit biart ok solskin mikit. en er þeir þormodr[1] komu undir budina þa tok uedrit at þyknna. þormodr gerde ymizst at hann horfde upp j himininn edr nidr j iordina. Egill mællti. hui lætr þu þer a þann ueg horfir stundum j loft upp en stundum j iord nidr. þormodr suarar. þann ueg er nu himininn jsionar sem uant er þa er uobrestrinn uerdr. Egill mællti. firir hueriu er þat uant at uerda at uobrestrinn kemr. þormodr suarar. firir tidendum uerda uobrestir ofallt. en nu ef suo uerdr at þu heyrir uobrestinn þa forda þer suo sem þu matt ok hlaup suo sem þu matt skiotazst heim til budar ok gæt þin þar. Nu er þeir toluduzst þetta vid þa gerir a skur mykla ok (uot)uidre. hlaupa menn þa a burt fra sogunne ok huerr til sinna(r) budar þuiat menn hofdu ecki uit uætunni buist. sumir foru j budina þorgrims ok uard mikil þraung j budardyrunum. horfdu aller menn at budinne. þorgrimr sat a stolnum ok bæid ef nockut rymdizst j budardyrunum. þormodr mællti nu uid Egil. bid þu nu her en ek mun ganga fram firir budina ok uita huat þar se tidenda. en ef þu heyrir uobrestinn þa hlaup þu hæim til budar uorrar suo sem þu matt skiotazst. Nu gengr þormodr fram firir budina ok þar at er þorgrimr sat. þormodr mællti þa. huat sǫgu var þat er þu sagdir. þorgrimr suarar. ecki ma ek þer þat segia j fam ordum stormerki þeirrar sogu edr huert er nafnn þitt madr. Hann suarar. Uigfuss hæiti ek. þorgrimr mællti. huers son ertu. Hann suarar.

[1]) þorgrimr *Cd.*

ek er Otryggsson. þorgrimr uill þa upp risa af stolinum en þormodr hio þa j hofut honum ok klauf [420] hann j herdar nidr ok bra ꝺxinne undir felld sinn. en hann settizst undir herdar honum ok kallade. fari þer hingat. a er unnit a honum þorgrimi. Nu snuazst menn j budardyrunum ok sia auerkann ok spyria huerr a honum hefir unnit edr huat uæitz þu til þess mannz er a þorgrimi uann. þormodr suarar. her sa ek hann firir skemzstu en ek hliop þegar undir hofut honum er a honum var unnit ok sa ek æigi huert sa for hedan er a honum uann. nu taki her nockurr til ok styde hann en sumir fari at læita þess er a honum uann. þa setiazst menn undir hofut þorgrimi en sumir foru at læita uegandans. þormodr for j burt. hann gengr þa fram med sionum firir nes nokkut. hann sneri þa felldi sinum ok let þa horfa vt hit huita felldarins. Egill heyrde brestinn er þormodr uann a þorgrimi. hann hliop þa heim a leid til budar Skufs. Menn geta at lita[1] þeir er j læitinne voru huar madrinn hliop ok ætludu at sa munde vera sannr auerkans. Egill uard stórhrǫddr er hann sa mennina hlaupa eftir ser herklædda. ok er hann uard handtekinn gerr þa skalf j honum leggr ok lidr firir hrætzslu sakir. Oll bæin hans skulfu þau sem j voru hans likama. en þat voru .cc. bæina ok .xiiij. bæin. ten(n)r hans nꝺtrudu. þær voru .xxx.. allar ædar j hans horunde piprudu firir hræzslu sakir. þær voru .cccc. ok .xv. En er þeir kendu manninn huerr var þa þottuzst þeir vita at hann munde æigi drepit hafa þorgrim þuiat Egill uar æinge madr. rann þa af honum hræzsla sem hita af jarni. Nu foru þeir j budirnar at læita uegandans ok finzst hann æigi. Vm hræzslu Egils var þetta kuedit.

Hræddr uar hinn er meiddi
hior alldregi suiptir tiallda
skulfu sidan skips i alfui
skiotlyndum medal hárs ok fota.

bade tennr bæin ok ædar
brann uitzskunnar huerfui þann ueg
firnna hart sem elldr a árnni
æzsla mikil var þessi hræzsla.

þeir menn er uegandans læitudu foru fram til siofarins þar sem nes æitt gek j fram. þar mættu þeir manni j huitum fellde. þeir spurdu hann at nafnni en hann nefnndizst Tortryggr. þeir spyria hann at huert hann ætlade at fara. Hann suarar. ek læitar þess mannz er a þorgrimi uann. þeir genguzst j moti ok foru huorirtueggiu snudikt. skilr þa skiott med þeim ok for þormodr leidar sinnar ok skildi suo med þeim.

[1]) læita *Cd.*

## Biarni fann þormod eftir vig þorgrims.

157. þeir Skufr ok Biarnne saknna þormodar ok þikir þeim æigi ðruænt at hann muni vera ualldr auerkans. þuiat Skufr hafde heyrt j Noregi atektir Olafs konungs um hefnnd eftir þorgeir Hauarsson. Nu er lidr hinu mestu hlaup þeirra manna er læitadu uegandans þa toku þeir Skufr ok Biarnne bat æinn a laun ok letu þar a nockurar vistir. þeir reru fram firir nesit þuiat þeim uar sagt at þar hefde madr sezst j huitum fellde sa er nefnndizst Tortryggr. ok er þeir koma firir nesit þa sia þeir huar þormodr sat. roa þeir þa at lande ok męla at þormodr skule ganga a skip vt. hann gerir suo. þeir spyria huart hann hafui unnit a þorgrimi. þormodr quat þat satt uera. þeir spurdu huat hann ætlade huersu mikill auerki hann ætlade at þat mundi uera ordinn. þormodr quat þa visu.

Auruendis redzst undir
opt finnumzst þat minne
ðll er fremd of fallin
fior neps j stra greppi.
ef hreggboda hðgguit
hefig uart j skðr suarta
nadda bordz þuiat nirde
nættings bana uættag.

En þo ma vera segir þormodr at hoggit hafui æigi nogt ordit þuiat sma uerda iafnan ðruendra manna hðgg. en þo hio ek þui æigi flæire hoggin at ek ætlade at þorgrimi skyllde þetta ærit til bana. Skufr mællti. gæfu hafdir þu a er þeir kendu þig æigi þa er þu sazst undir herdum þorgrimi. þormodr quat þa visu.

Vndr hui æigi kendu
elbauruar mik gerua
stals ber ek mart a mali
mart um skoft hit suarta.
birgumzst langt þuiat lengra
lif uar ty skoput drifu
þremia pollz edr þolli
þeim alldrtile seima.

Skufr mællti. suo ma uera. en huart uar Falgæirr þar hia þordisarson kappinn. þormodr suarar þar uar hann. Skufr mællti. þo mundi hann nu odr uerda vid uig þorgrims frænda sins. þormodr quat visu.

Stræingde þess a þingi
þarflyndr ef mig fynde
haulldr at hoggua skyllde
hæit lofgerdar uæite.
nær stod ek randa ryre
reckr letzst æi mik þeckia
gott er þat at huldar hetti
hefir halldit smidr stefia.

Biarni mællti. þu munt nu lata vera suo buit um hefnd eftir þorgeir ok hefir þu nu þo gert firir þitt nef þangat ut. þormodr quat þa visu.

Mætta ek hefnnd en hrafni
hrings fek ek bragd a þinge
hialldrs let ek uige ualldit
uarga fletz vid marga.
gnyþolli let ek gialla
gert hefig firir mer suortum
mæirr hefnde þo þeirra
þorgæirs uinir flæire.

Biarni mællti. þo munu margir þat mæla at þu hafuir gert aflausn um hefnndina er þu hefir drepit þann hofdingia er mestr uar a Grænlandi þar er þu ert kominn her æinmani ok er osynt [421] huort þu kemzst brott af Grænlandi þuiat þorgrimr atti marga fraliga frændr ok frækna. þormodr suarar. æigi ma þat uist vita enn huerium fæigd er næst. Nu flytia þeir hann til Æireksfiardar ok fylgia honum j helli þann er þormodz hellir er kalladr. sa hellir er j siofarhomrum odrum megum fiardar en Stockanes odrum megum. hamrar erv upp ok nidr fra hellinum ok ma klifa upp ok nidr ok uar þo huartueggia illt at fara. þeir Skufr ok Biarni mælltu uit þormod. vertu her j hellinum ok muno vit koma til þin er lokit er þinginu. þeir Skufr ok Biarni fara nu aftr til þingsins. þormodar var saknat a þinginu ok þottuzst menn vita at hann munde hafua vegit þorgrim. þorgrimr letzst þegar eftir auerkann. Bauduarr ok Falgæirr biuggu mal til a hendr þormodi um uig þorgrims ok uard þormodr sekr skogarmadr um uigit. ok er lokit uar þinginu for huerr heim til sins heimilis.

þorgeirr drap þa fræ(n)dr a Grænlandi. capitulum.

158. þeir Skufr ok Biarni komu til fundar uit þormod ok sǫgdu honum sekt sina ok mælltu at hann skyllde þar uit hafazst j hellinum. sogdu at hann mundi huergi frid hafua ef menn uisse huar hann uæri. sogduzst þeir mundu koma iafnan til fundar vid hann ok færa honum uistir edr þat annat er hann þurfti ath hafua. Firir hellisdyrunum uar grassto mikil ok mattu nauduliga þeir menn er færir voru hlaupa af hǫmrunum ofan j grastona. þormodi þotti daufligt j hellinum þuiat þar uar fatt til skemtanar. æinn godan uedrdag redzst þormodr brott fra hellinum. hann klifr upp hamrana ok hafde med ser ǫxi sina. Nu er hann uar skamt kominn brott fra hellinum þa mætir hann manni a læid. sa uar mikill uexsti ok osyniligr liotr ok æigi godr yfirbragz hann var j veriu miog sidri. hon uar saumut saman af morgum tǫtrum hon uar margfolld ok feliott sem laki ok hǫttr af upp af tǫtrum saman saumadr. hon uar ǫll allusug. þuiat þa er solskin var heitt þa gengu uerkfakar fullir fra fodri hans horundz a hinar yzstu trefr sinna herbergia ok letu þar þa vid solu sidur uit blika. þormodr spurde þann mann at nafnni. sa suarar. ek hæiti Oddi ok er ek gaungumadr æinn fastr a fotum ok er ek kalladr Lusaoddi eliunarlauss madr ok æigi allyginn nockut frodr ok hefui oft gott af godum monnum. edr huat heitir þu segir Oddi. Torradr hæiti ek segir hann. Huat manna ertu Torradr. Ek er æinn æinhleypingr segir hann edr huort uilltu æiga

kaup vid mik. Oddi suarar. fatt a ek til kaupa edr hueriu uilldir þu uit mik kaupa. Torradr suarar. ek uillde kaupa yfirhöfn þa er þu hefir. Oddi suarar. æigi þarftu at spotta mik. Torradr suarar. æigi spotta ek þig ek mun selia þer kapuna er ek er j en þu skallt selia mer veriuna er þu ert j ok fara sendifor mina a Stockanes ok koma þar j kuelld ok segia þeim Skuf ok Biarna at þu hafir mann hittan j dag þann er Torradr nefndizst ok hann skifti vid þig yfirhofnum. æigi byd ek þer flæire eyrende. skalltu þa æignazst kapuna ef þu kemr þessu til leidar j kuelld. Oddi suarar. æigi er allauduelligt at komazst yfir fiordinn þuiat þar þarf skip ok farning at hafua yfir fiordinn en þo ma vera at ek koma þessu til leidar ef ek uil. Nu skipta þeir klædunum. tekr Oddi vid blarri kapu ok ferr j en Torradr ferr j ueriu Odda ok ferr þadan til Æinarsfiardar ok þar til er hann hitti smalamann þordisar af Löngunesi. Torradr spyrr huat synir hennar gerde edr huort þeir uæri heima. Smalamadrinn suarar. æigi er Bauduarr hæima en brædr hans voru hæima j natt ok eru nu ronir a fiski. þormodr suarar. suo ma uera at se. Nu hugdi smalamadrinn at hann ræddi vid Lusaodda þuiat hann kendi buning hans. Nu skiliazst þeir at suo mælltu. ferr þormodr til nausta þeirra þordisar ok hefzst þar vid. ok er kuellda tok þa ser þormodr at þeir brædr roa at lande. þorkell ræri fram j halsi en þordr j midiu skipe Falgeirr j austrrumi. Nu er skipit rennir at lande þa stod þorkell upp ok for fram j stafnn ok ætlade at taka uit skipinu. þormodr gengr ut ór naustinu ok þikiazst þeir þar kenna Lusaodda. þormodr snyrr at þorkatli bregdr exi undan ueriunni ok hoggr j höfut þorkatli suo at hann færr þegar bana. þa snyrr þormodr a brott ok steypir af ser ueriunni ok hleypr. þeir þordr ok Falgeirr hallda eftir honum en hann undan. Hann kemr a siofarhamrana yfir hellinum ok hleypr ofan j tona. þordr hleypr þegar eftir honum. hann lyknar þegar j knesfotunum er hann kom nidr ok lytr afram. þormodr hio j þui medal herda honum suo hart at öxin sok ok fyr en hann fengi nad oxinne ór sarinu þa hliop Falgeirr ofan j tona ok hio þegar til þormodar. þat högg kom medal herda þormodi ok uard þat allmikit sár. þa rann þormodr undir hendr Falgeiri þuiat hann nade æigi oxinne. þormodr finnr þa at hann verdr afluani firir Falgeiri. þikir honum þa midlungi vænn sinn kostr slyppr madr en þo miog sarr. rennir hann þa hugnum til fulltings ser þangat sem Olafr konungr uar ok uæntir ser þadan hamingiu. J þui bile fell öxin ór hendi Falgeiri ok nidr firir hamrana. þikir þormodi nu nockuru uænna er þeir eru badir slyppir ok þui [422] falla þeir badir ofan firir hamrana a sioinn ok j kaf ok reyna

þeir þa sund sitt ok færazst ymsir j kaf. finnr þormodr þa at hann mædizst af blodras. en firir þa sok at þormodr uar æigi fæigr slittnade broklinde Falgæirs. rekr þormodr þa ofan brækr um hæla honum. dafrazst honum þa sundit færr hann þa annat kaf at ðdru ok dreckr þa omællt. skytr þa upp þionum ok herdunum en uid andlat sealft skaut upp andlitinu ok uar þui likazst at sia sem þa er madr glottir ath nockuru. ok j þui drucknar Falgæirr. en þormodr uar þa miog mattfarinn. hann lagdizst þa j æitt sker ok skreid þar upp a griot ok la þar ok uænti ser þa æinskis annars en liflatz suo uar hann mattlauss.

### þeir Biarni hitta þormod j skerinu.

159. Nu er at segia fra Lusaodda. hann for suo sem mællt var med þeim Torrade ok kom a Stockanes um aftaninn ok sagde þeim Skuf ok Biarna at hann hefde mann hittann um daginn þann er Torradr nefnndizst ok skipti uit hann yfirhðfnum. ok mællti hann at ek skylldi fara a Stockanes ok segia þeim Skuf ok Biarna fund ockarnn ok klædaskipti. þeir kenna kapuna ok þikiazst vita at þormodr muni þui Odda sent hafua til þeirra at hann mun ætlat hafua at gera nockut storuirke. þeir taka þa æinn bat af launungu um kuelldit ok roa yfir fiordinn ok er þeir nalgazst hellinn þa sea þeir kuikt nockut j æinu skeri ok tala um med ser huort uera muni selr edr rostungr. roa at skerinu ok ganga upp ok sia þar mann liggia ok kenna at þar var þormodr. þeir spyria hann tidenda. hann segir þau sem gerst hðfdu um kuelldit. Skufr mællti. vist hefir þu æigi til æinkis undan rekizst a Garda þinge er þu hefir ordit a æinu kuelldi bani .iij. brædra mikilla kappa ok kynstorra manna. þormodr suarar. þat æitt kom mer j hug adr þit komut hingat at ek munda her lifit lata j skerinu. en nu þiki mer æigi oruænt at ek muni verda græddr ok ma þa enn uerda at nockurr Grænlendingrinn deyi fyrr en ek. þeir spyria hann um samæignn þeirra Falgæirs. þormodr quat þa visu.

Skopta ek þa er uppi
undarligt a sunde
hrokr do hæimskr vid klæki
hans razsaklof gandi.

alla læit ek a ulli
egguedrs hugar gluggum
setti gaurr ok glotti
gunnflon vid mer sionir.

þeir Skufr ok Biarni baru þormod a skip vt j fiorum skautum þuiat hann matti æigi ganga. þeir sækia j hellinn klædi hans ok vistir þuiat þeim þotti hann ecki þar mega vera leingr. þeir roa med hann inn eftir firdinum Æireksfirde.

### Fra Gamla ok Skum(!).

160. Gamli het madr er bio j Æireksfiardarbotni uppi undir ioklum. Gamli uar felitill madr ok æinrænn uæidemadr mikill. Grima het kona hans hon uar mikill suarkr gerr at ser læknir godr nockut fornfrod. æigi uoru þar flæire menn en þau .ij. þau kuomu sialldan til annarra manna ok sialldan komu adrir menn til þeirra. þeir Skufr ok Biarni lendu skipi sinu skamt fra bæ Gamla. gengr Skufr fra skipe til bæiar ok er honum þar uel fagnnat ok bodinn greide. Skufr mællti. er sa græide at uer uilldum at þer þiggia. Grima suarar. huerr er sa greide. Skufr suarar. sarann mann hefui ek her med at fara þann er ek uillda ath þu græddir. Grima mællti. huerr er sa madr. Skufr suarar. þormodr skalld Olafs konungs er ordinn firir auerkum. Grima mællti. huerr hefir a honum unnit. Skufr sagde henni tidendin þau sem gerst hǫfdu. Grima mællti. mikill atburdr er sia ordinn ok mikit uandamal synizst mer j vera at takazst a hendr skogarmann þeirra frænda þorgrims ok allra hellzst er hann hefir nu suo mikit storuirke unnit j sektinne. Skufr suarar. ek skal fe firir þig bæta ef þer verda nockurar sakir gefnar um þetta mal ok huergi skal þig j skada um kostnat þann er þu hefir firir þormodi. Nu lykr suo þeirra vidrædu at Grima tekr vid þormodi. er hann þa færdr upp til bæiar ok fægir Grima sar hans ok bindr um ok er honum þa nockuru hægra. Skufr ok Biarni foru þa hæim a Stockanes. þessi tidende þottu ollum monnum a Grænlande mikil ok uard æigi skiott uist hins sanna vm þenna atburd þuiat margir menn hofdu þat firir satt j fystunni at þormodr munde druknat hafua þa er lik Falgæirs fannzst rekit. Sár þormodar hafdizst illa ok la hann xij. manudr j sárum. þa er uetr uar lidinn fra falli þeirra brædra þa gek þormodr mille stofu ok elldhus ok uar þo æigi hæill sársins.

### þeir frettu at þormodr lifdi. capitulum.

161. Um uorit eftir uard sa atburdr a Laungunesi at þordis let illa j suefni um natt ok ræddu menn um at hana skylldi uekia. en Bauduarr son hennar suarar. lati þer modur mina niota draums sins þuiat vera ma at firir kellingu beri nockut þat er hon uill uita. Nu uar hon æigi uǫkt ok kemr þo þar at hon uaknnar at lyktum ok anduarpar hatt. Bauduarr tok til orda. illa hefir þu latit j suefni modir edr huat bar firir þig. þordis suarar. uida hefui ek gondum rent j natt ok er ek nu uiss ordin þeirra hluta er ek vissa æigi adr. Bauduarr mællti. huat er þat. Hon suarar. þat er brædrabani þinn er a lifui ok er a uist

[423] med þeim Gamla ok Grimu j Æireksfiardarbotnni. nu munu ver fara a fund þeirra ok uil ek lata taka þormod af lifui. munu uer koma j Brattahlijd ok bidia þorkel fara med oss þuiat hann mun illa kunna ef þeim er nockut til mæins gert þuiat þorkell helldr miog hende yfir þeim. Bauduarr kuezst buinn þeirrar ferdar þegar hon uillde. Nu standa þau upp ok taka æina skutu er þau attu. stiga þar a skip .xv. kallar med þordise fraligir ok uel uopnnadir roa um nottina vt eftir Æinarsfirde ok suo til Æireksfiardar. var þa suo komit at nott uar lios. Nu er þordis er a læid komin med sitt foruneyti um nottina vard sa atburdr j Æireksfiardarbottni at Grima lætr illa j suefni ok mællti þormodr at Gamli skyllde vekia hana. Hann suarar. æigi uill Grima at hon se uokt þott hon lati illa j suefni þuiat iafnan verdr hon þa þeirra hluta viss er henni berr naudsyn til at vita. Hættu þeir hialinu en Grima uaknar. Gamli mællti. illa letz þu j suefni edr huat bar firir þig. Grima suarar. þat bar firir mig er ek uæit nu. þordis af Laungunese er a læid komin med .xv. kalla ok æ(t)lar hingat at fara þuiat hon er nu uiss ordin af trollskap sinum at þormodr er her nu med oss ok ætlar hon nu at drepa hann her. nu uil ek at þu ser at husi j dag Gamli þuiat æigi eru þit of lidmargir þoat þit set badir heima firir ok .xv. menn sæki yckr heim allra hellzst er þormodr er æigi uopnnfærr. en þo mun ek æigi senda yckr a iokla a brott ok hafizst hæima vid j dag.

## Fra þordisi ok þormodi.

162. Nu er at segia fra þordise at hon ferr um nattina til þess er hon kemr j Brattahlid. þorkell fagnar þeim uel ok bydr þeim greida. þordis mællti. sa er malauoxtr at (ek) ætla at fara a fund Gamla ok Grimu þuiat ek er uiss ordin at þormodr skogarmadr minn er med þeim sa er margir ætludu druknnadan vera. nu uillda ek at þu færir med oss ok helldir med oss til þess at ver nædim laugmali af þeim Gamla ok Grimu ok uæitzstu þa huat er uær æigumzst vid ef þu ert hia sealfr. þorkell suarar. olikligt þiki mer vera at Gamli muni vita skogarmann yduarnn. en þo mun ek fara med ydr a fund þeirra Grimu. Nu hafua þau þordis þar daguerd en þorkell sopazst at um menn þuiat hann villde ecki æiga undir þeim Bauduari ef þau greinde a. ok er menn voru mettir þa for þorkell a skipe vid .xx. menn ok fara vid suo buit Grima atti stol mikinn. a brudunum stolsins var skorit likneski þors. Grima mællti vm morgininn. nu uil ek skipa til uerks j dag. stol mun ek setia a stofuugolf mitt þar vil ek at þormodr siti a þa er menn koma. vil ek æigi at þu risir upp af stolinum medan

buimenn eru a bænum. nu þoat þer þiki nockurr vfridr fara at þer edr nylundur j gerazst þa ris þu æigi upp af stolinum þuiat ecki stodar at hokra undan j hyrningar ef þer verdr bana audit. en Gamli skal festa upp ketil ok sioda sel j dag. hann skal bera sorp a elldinn ok gera reykfast j husunum en ek mun sitia a þreskillde vti ok spinna garnn ok tala vid komendr. Nu er suo gert sem Grima firir sagde. ok er skip þeirra þorkels ok þordisar eru sen at lande fara þa setz þormodr aa stol Grimu en Gamli sydr ok berr sorp a elldinn. uerdr reykfast j husunum ok fylgir þat þo at myrkua mikinn lagde med reyknum vm oll husin suo at ecki matti sia. Grima sat a þreskillde ok spann. hon quat nockut firir munni ser. Nu renna skipin at lande ok ganga menn upp til bæiar. geingr þorkell at dyrum ok heilsar Grima honum vel ok bydr honum greida þann sem hann uill hafua. þorkell mællti. þordis a Laungunese er her j for ok hefir hon þat firir satt at þormodr skogarmadr þeirra se med þer. nu uilium ver at þu selir þormod fram ef hann er her þuiat þer man ðrdigt verda at hallda skogarmann þeirra. Grima suarar. undarligt synizst mer þat uera er þer ætlith at ek muna hallda skogarmann þeirra a Longunesi þar sem ek sitt vid annan mann j husi her j koti minu. þorkell mællti. uist er þat olikligt en þo uilium ver nu rannsaka herbergi þin. Grima suarar. þess munu þer kosti æiga at rannsaka bæ minn þo at þer hefdit æigi suo mikit fiolmenni. nu þiki mer ofallt gott er þu kemr j min hus en illt mun mer þikia at þeir Æinarsfirdingar hlaupi her med gems sitt ok spilli her nockuru j herbergium minum. þorkell mællti. vid þordis[1] munum inn ganga ok rannsaka. Nu gera þau suo. foru nu inn j husin ok ransokudu ok uar þar æigi long duol þuiat husin voru bædi fa ok sma. þau luka upp stofunne ok var hon full af reyk ok sa þau ecki til tidenda. ramt uar j husunum af reyknum ok voru þau helldr skemr inne en þau mundu [415] ef reyklaust væri. Nu koma þau vt ok er þa ranns(ak)adr bærinn vti. þa mællti þordis. æigi þottumzst ek gerlla sea firir reyknum huat j stofunne var tidenda. nu munu uer fara upp a stofuna ok taka af skiainn ok lata leggia vt reykinn ok sia þadan til huat j stofunne var tidenda. Nu fara þau þordis ok Biarni upp a stofuna ok taka af skiainn ok lata leggia vt reykinn ok sia þatan til huat j stofunne er tidenda. nu fara þau ok riufa en mæirr vm skiabulunginn ok sia nu vnı alla stofuna. geta þau þa at lita huar stoll Grimu stod a midiu golfui. þau sa þór med hamri sinum sitia skorin a stolbrudunum. en þau sa æigi þormod.

[1]) þordisi *Cd.*

fara þau nu af stofunne ok ganga til dyra. þa mællti þordis. eftir er enn nockut forneskiu þinnar Grima er þors likneski er skorit a stolinum. Grima suarar. ek er sealldkuem til kirkiu at heyra kenningar lærdra manna þuiat ek a langt at fara en fament heima nu kemr mer þa j hug er ek se likneski þors af tre gert þat er ek ma briota ok brenna huersu myklu sa er mæire er skapat hefir alla hluti syniliga ok usyniliga ok æinge madr ma yfir hans uelldi stiga. þordis suarar. vera ma at þu hugsir sligt en nærr munde nu leggia at ver mundim meirr at þer leggia ok naudga þer til sagnna ef æigi væri þorkell her med sligt fiolmenni þuiat suo segir mer hugr um sem þu uitir nockut til huar þormodr er. Grima suarar. at þui kemr nu sem mællt er at oft er sa uillr er geta skal ok þat annat at huerium bergr nockut ef hann er æigi fæigr. en þat er naudsyn at þu þackir þat gude at fiandinn a þig æigi suo hæimila til illz sem þu uilldir gert hafa þuiat þat er uorkunn at madr geti æigi sannz en hitt er æigi uorkunn at hann hafui æigi trunat a þui er hann ser med ǫgunum. Nu skilia þær at suo mælltu. ferr þordis j brott med lid sitt ok suo þorkell huort til sins hæimilis ok er nu kyrt vm hrid.

## Fra þormodi ok Egli er þeir foru.

163. þa er þormodr uar heill ordinn sars sins er hann fek af Falgæiri þa komu þeir Skufr ok Biarni eftir honum ok fluttu hann a brott med ser. þormodr launade þeim Gamla ok Grimu lidueizslu þa er þau hofdu honum væitta med myklum fiarhlutum. Hann for þa heim a Stockanes ok uarduæittu þeir Skufr ok Biarni hann j stockaburi sinu a laun. þar uar þormodr hinn þridea uetr. þann uetr selldu þeir Skufr ok Biarni bæinn a Stockanesi ok adrar æignir j iordum þær sem þeir attu ok ætluduzst at radazst j burt af Grænlande. Snemma vm uorit biuggu þeir skip sitt ok settu fram. þa fystizst þormodr ór utiburinu sagdizst æiga eyrendi nordr j fiordu. hann færr ser æinn bat. Fiflegill retzst til ferdar med honum. Egill setzst til ara en þormodr styrir. Egill uar godr rædir ok uel syndr. uedr uar gott ok solskin mikit ok uindlitit. þeir fara nordr til Æinarsfiardar ok inn eftir firde. ok er þeir komu inn a fiordinn þa okyrdizst (þormodr) j stafninum. hann rydzst um ok hallar skipinu miog a ymsa uega. Egill mællti. hui lætr þu þer suo æriliga huort uilldir þu hafua skipit yfir ockr. þormodr suarar. ouært er mer. Egill mællti. ualla ma ek roa firir starfui þinu ok stanke. En huat sem Egill mællti um þat lykr suo umbrotum þor-

modar at hann huelfir skipinu undir þeim. kafar þormodr þa undan batinum ok þadan tekr hann annat kaf at ödru til þess er hann kemr a land. hann hefir med ser exi sina. Egill kemr upp hea batinum ok færr komizst a kiolinn ok tekr þar huilld litazst um ok hyggr at ef hann sæi nockut þormod ok færr hann huerge hann seth. Egill rettir batinn ok eyss upp. settizst hann til ára ok snyrr batinum ok rærr vt eftir Æinarsfirde. letti hann æigi fyrr ferd sinne en hann kom heim a Stockanes. segir þeim Skufi ok Biarna allt hit sanna fra ferd sinne. lætr hann þat ok fylgia sogunne at hann ætlar at þormodr se druknnadr. þeim Skuf ok Biarna þotti sea atburdr undarligr ordinn uera ok þikiazst þo ecki suo buit mega at gera en renna þo a grunum huort þormodr mun daudr vera.

## þormodr vann a Lioti. capitulum.

164. Nu skal segia fra þormodi huat er hann hefzst at. þa er hann kom a land uatt hann fyst klædi sin ok eftir þat tok hann a sig gaungu ok ferr til þess er hann kom a Hamar til Sigridar. hann kom þar sid dag(s). hann drap þar a dyrr ok gæingr þar vt æinn madr ok hæilsar honum snyrr aftr ok gæingr til stofu. þormodr gengr eftir honum j stofuna. hann setz utarliga. Sigridr tok til orda ok mællti. huerr kom madr j stofu. þormodr suarar. Osuifr hæiti ek. Sigridr mællti. suo er margr sem hæitir. vill Osuifr vera her j natt. Hann quezst þat þiggia mundu. Er hann þar um nottina. ok vm morguninn kom Sigridr at mali uit hann ok spurde. huert ætlar þu at fara þormodr. Hann suarar. [[illegible]] Osuifr nefndizst ek. Sigridr mællti. satt var þat at þu nefnndizst Osuifr en þegar kenda ek þig er ek sa þig. þormodr suarar. þa er æigi dællt at dyliaz þuiat þu hefir rett kendann manninn. en þar er þu spurdir at vm farar minar þa ætla ek at fara a Longunes til þorunnar Æinarsdottur ok at hitta Liot son hennar. þuiat mer er hann sagdr mikill madr uexsti ok skartzmadr hefui ek ok þat spurt at hann leggi illar umbrædur a uit mik. Sigridr suarar. þa skal fara Sigurdr son minn med þer þuiat lengi hafa þau þorunn ok Liotr verit þung[1] til ockar sem til margra annarra. þormodr suarar. oradligt synizst mer þat at Sigurdr fari med mer þuiat þit munut æigi mega hallda bustat yckrum her ef nockut skerst j med oss. Sigridr mællti. giarnna uil ek lata bustat minn til þess at Liotr fai nockura suiuirding. Nu ferr Sigurdr med þormodi a Langanes. þeir þormodr drepa þar a dyrr ok gæingr æin kona vt ok hæilsar þeim. Sigurdr

[1]) þungr *Cd.*

spurde huart Liotr væri heima. Hon sagde hann j stofu. Sigurdr mællti. bid þu hann koma vt. Kona gengr j stofuna ok mællti. þat var mællt Liotr at þu skylldir vt ganga. Liotr spurde huerr þat mællti. Hon suarar. Sigurdr fra Hamri kom en ek kenda æigi annann. Liotr mællti. huernn ueg uar sa madr synum er þu kendir æigi. Hon suarar. suartr a harslit ok hrockinhárr. Likann segir þu þann mann þormodi sokudolg minum. Nu geingr Liotr fram ok tekr spiot j hond ser ok konur med honum þær sem j stofunne voru. Hann gengr vt j dyrrin ok kennir þormod. hann leggr þegar til þormodar ok stefnir a hann midian. þormodr lystr vid ǒxinne ok berr nidr spiotit ok kemr j fotinn honum firir nedan kne ok verdr þat sar mikit. Liotr lytr vid lagit er hann lagde til þormodar ok þa hio Sigurdr medal herda Lioti ok særir hann myklu sari. þa hliop Liotr inn j dyrrin. þormodr hio eftir honum ok kom hǒggit a lærit ok ræist ofan lærit ok kalfann. hliop ǒxin nidr j þreskiolldinn. Liotr fell inn j dyrrin. konurnar hliopu yfir hann fram ok raku aftr hurdina. þeir Sigurdr snua a brott. þa mællti þormodr at Sigurdr skyllde fara heim a Hamar ok segia modur sinne tidenden. en ek mun læita firir mer sègir þormodr. Nu skiliazst þeir ok ferr Sigurdr heim ok segir módur sinne þat er j hefir gerst. Sigridr mællti. þat synizst mer rad at þu farir a fund þeirra Skufs ok Biarnna ok skorir a þa til uidrtǒku ok segir þeim at ek uil selia land mitt ok kuikfe. uil ek ok radazst j brott med þeim af Grænlandi. Nu for Sigurdr læidar sinnar ok er hann uar skamt kominn fra garde þa hittir hann þormod ok hafde hann þar bedit Sigurdar. fara þeir nu badir saman a fund þeirra Skufs ok Biarna ok segia þeim sligt sem j hafde gerst. ferr Skufr þa ok selr land Sigridar ok flytr j brott med ser allt bufelli hennar. ferr aftr til skips sins. Æinn aftan redzst þormodr hæiman. hann tekr bat ok reri yfir Æireksfiord um nottina. hann gengr fra skipe þar til er hann kemr a Lǒngunes. hann ferr til naustz þordisar ok leggzst þa nidr ok felst. þuiat hann ætlade at Bauduarr munde roa a sia vm daginn sem hann uar uanr. Ok er a læid morguninn þa ser hann at .iij. menn gengu fra bænum til skipsins. þeir ræddu um þat huort Bauduarr munde heim koma um daginn þuiat hann hafde farit at binda um sar Liotz a Langanes. þormodr liggr sem adr þar sem hann uar kominn þuiat hann uar litt gengr firir sarinu. þeir huskallarnir reru nu a fiski sem firir þa uar lagt ok er leid a daginn ser þormodr at huskallarnir roa at lande. þormodi gerdizst uerkmikill fotrinn. Madr het Karr hann uar uerkstiori þordisar. hann uar nu roinn med huskǒllum hann uar ok frændi Bauduars. nu

uinna þeir at fangi sinu ok setia upp skip sitt ok bua um. uedri uar þann ueg farit at þoka uar ok uruæta. ganga þeir heim er þeir voru bunir. þormodr heyrir at þeir ræda um at Bauduarr væri heim kominn. þormodr uillde hafa skipit yfir fiordinn til Uikr. Ok er þeir Karr voru nærr at tungarde komnir þa mællti Karr. mer hefir eftir legit bolex min ok mun ek ganga eftir. þeir budu at fara med honum en hann uillde þat æigi ferr nu ofan snudigt. þormodr uar þa kominn til skipsins ok hefir þa fram sett. Karr litr manninn ok kennir þormod. snyrr hann heim ok ætlar at segia Bauduari huat titt er. þormodr sier Kar at hann snyr heim ok uill þormodr snua eftir honum. en honum uar suo stirdr fotrinn at hann matti huergi komazst. hann kastar þa ðxinne eftir Kár ok kom a fotinn firir nedan knesfotinn ok bæit ór kalfann or fætinum. Karr halltrar heim ok uerdr fðr hans sæin. þormodr tekr ðxi sina ok hleypr a skipit ok rær fra landi ok stefnir til bæiarins j Uik. þordis hafde sofit um kuelldit ok er hon uaknar uarpar hon mædiliga ðndinne ok mællti. huort er Bauduarr heim [427] kominn edr æigi. Hann suarar. her er ek modir edr huat uilldir þu nu. Hon suarar. bita mætti nu bæitfiskr ef at borde væri dreginn segir hon. þuiat her hefir verit þormodr skogarmadr þinn j allann dag j nausti voru ok hefir hann nu unnit a Kár frænda þinum ok tekit bat þinn ok rærr nu yfir a fiord. ok hygg ek at honum se uerkr j sari þui er Liotr uæitti honum. get ek ok at honum verde æigi greidfært yfir fiordinn firir þoku sakir. þætti mer æigi fiarri at uer færim til fundar vid hann. Bauduarr sprettr þegar upp ok mællti. buinn er ek þessarar ferdar segir hann. En er þau koma vt firir dyr þa sia þau huar Karr halltrar ok uar hann þa kominn heim at husunum en þormod sea þau huergi þuiat þokan uar suo myrk.

## Leitad eftir þormodi.

165. Hlaupa þau nu a skip mædgin ok .v. menn adrir med þeim. þrifa þau tæina-ring ok roa a fiordinn at læita þormodar vm nattina. þormodr heyrir nu til þeirra rodrinn ok malit grunar nu at þordis muni vera a leid komin med huskalla sina. synizst þormodi þeygi uænn kostrinn ef hann uerdr fundinn. Holmr æinn litill var skamt fra þormodi en þadan var þo langt til landz ok gengu þar yfir hallædar en æigi gek yfir at medaldðgum. þat verdr þormodi firir hann huelfir skipinu en hann leggzst til holmssins. þarabruk lagu um allan holminn. grefzst þormodr nidr j æitt þarabruk medal stæina ok berr a sig mikit þarabruk. þau þordis fara um nottina ok sia j þokunne sorta

nockurnn a sionum ok vita æigi huat þat var. roa at þangat ok sia at þar holfir skip a sionum ok eru arar j homlubondum. Huskallar mælltu. her mun þormodr hafua roit a stæin nockurnn ok huelft skipinu ok mun hann hafa tynst. þordis suarar. æigi mun þormodr enn hafa druknnat helldr mun hann hafua ordit uar uit fôr uora ok mun hann hafua huelft skipinu at sealfuuilea sinum til þess at uær ætludum hann druknadan vera. en hann mun til holmsins lagizst hafua ok mun hann þar hafa folgizst. nu skulu ver leggia skipit at skerinu ok læita hans þar. Suo gera þau. en er þau koma j skerit þa mællti þordis. nu skulu þer stanga med spiotaoddum þarann allann j holminum ok læita hans suo. þeir gerdu sem þordis lagde firir þa. en þo fundu þeir hann æigi. þormodr rende þa hugnum til Olafs konungs ef hans gæfa mætti nockut duga honum. þormodr skæindizst vijda af spiotum þeirra. en er þeir hofdu farit um holminn allan ok stangat spiotunum þaran allan þa syndizst þeim æigi von at hann munde þar vera. þordis mællti þa. þat er ætlan min at þormodr se her j skerinu þo at ver finnum hann æigi. nu ef hann er sniallari en gæit edr hugprudare en merr ok megi hann heyra mal mitt þa suari hann. þormodr heyrde huat er hon mællti ok uillde þa suara en hann matti æigi þuiat honum þotti sem tekit væri firir munn ser. Nu fara þau þordis j burt vid suo buit ok taka þat skip er þormodr hafde þangat haft. Nu er þau voru burt farin þa ræis þormodr upp or brukinu. hann legzst þa þangat a læid sem honum þotti skemzst til landz þuiat þa lysti j þokuna. Hann hende þar sker fra skeri þau sem a leidinne voru ok tok huilldir j skeriunum. ok er skamt var til landz þa kom þormodr j æitt sker ok var bade stirdr ok modr suo at hann matti þa huergi þadan fara.

## Olafr konungr vitradiz Grimi bonda.

166. A þeirre nátt dreymde Grim j Uik at madr kom at honum uænn ok tiguligr. sa madr spurde Grim huart hann uekti edr suæfui. Grimr þottizst suara. uaki ek vist edr huerr ertu. Draumnadrinn suarar. ek er Olafr konungr Haralldzson ok er þat eyrendi mitt hingat at ek uil at þu farir eftir þormodi hirdmanni minum ok skalldi ok uæitir honum biorg þuiat hann ma æigi komazst þadan sem hann liggr j skerinu skamt fra bæ þinum. hefir honum æigi slett farizst j kuelld. nu segi (ek) þer þat til marks at þat er satt er firir þig berr at sa madr vtlendr er uerit hefir med þer .iij. vetr ok Gestr nefnndiz at hann hæitir Stæinarr ok er kalladr Helgustæinarr. hann er islenzskr madr ok for þui af Jslande at hann ætlade at hefnna þorgeirs Ha–

uarssonar. en þo at Stæinarr se garpr mikill ok hardfæingr þa mun honum þo litils verda af audit um hefnnd eftir þorgeir ok mun annars stadar koma hans hardræde mæirr fram. Nu er Olafr konungr hafdi þetta mællt þa uaknar Grimr. riss hann þa upp ok uekr Gest ok mællti at hann skyllde upp standa. riss hann þa upp ok tekr suerd j hond ser gengr vt med Grime setiazst þeir nidr vti. þa mællti Grimr. huat hæitir þu. Gestr suarar. muna muntu þat huat ek hefir þer til sagt. Grimr suarar. man ek uist huat er þu nefnndizst en at hinu uil ek spyria huort þu hæitir sem þu nefnndizst. Gestr suarar. hui æigi suo. Grimr mællti. þui ef þu hæitir Stæinarr ok ert kalladr Helgustæinarr a þinu lande. Gestr mællti. huer sagde þer þat at suo væri. Grimr suarar. Olafr konungr. [433] Gestr mællti. nærr hittir þu Olaf konung. þa sagdi Grimr honum drauminn allan. Stæinarr mællti. satt er þat j draumi þinum er til min kemr. vænti ek at suo mune vera flæira. Nu fara þeir Stæinarr at læita þormodar ok finna hann þar sem Olafr konungr hafde til visat. færa þeir hann hæim j Vik ok uarduæita hann þar a laun ok græda hann. ok er hann uar hæill ordinn auerkans þa flytr Stæinarr hann til skips þuiat Skufr uar þa vid skip. redzst Stæinarr þa j burt ór Vik ok er vid skip. Forin Skufs frestazst þar til er lokit uar þinge Grænlendinga. Bauduarr gerde sekan Sigurd Sigridarson um auerka vid Liot. Eftir þingit var Skufr albuinn til siglingar.

## þormodr drap Liot.[1]

167. þann morgin er byrr rann a ok Skufr ætlade at sigla foru þeir fra skipi þormodr ok Stæinarr at oleyfui Skufs a æinum bati. þeir foru til Æinarsfiardar ok inn eftir firdinum firir bæ þorunnar. þar sa þeir .iij. menn a skipe sitia a fiske. þeir kenna þar Liot þorunnarson. þeir leggia at þegar ok beriazst vid þa ok lykr suo þeim funde at Liotr fellr ok þeir menn er med honum voru. fara þeir aftr þormodr ok Stæinarr til skips. Skufr uar þa buinn til siglingar. stigr þormodr a skipfiol en Stæinarr er eftir. hann ferr til vistar j Brattahlid til þorkels Læifssonar. Skufr ok Biarni lata[2] j haf fa goda byre ok ferst uel taka Noreg med hæilu ok holldnu. en er þeir Skufr ok Biarni komu j Noreg þa skipta þeir fe sinu. hafde Biarni skip ór felagi en Skufr lausafe. Hellt Biarni sudr til Danmerkr ok gek þadan til Roms ok sotti heim hinn hæilaga Petrum postula. Romaborg letu gera .ij. brædr het annarr Romulus en annarr Remus. en er borgin uar alger þa urdu

[1]) Liotr *Cd.* [2]) lati *Cd.*

þeir missattir af huors nafnni borgin skyllde hæiti taka. þui red Romulus Remo brodur sinum fiorrad ok drap hann. þa uar borgin kend uit Romulum þuiat hon hæitir Roma at bokmale. J þeirri for andadizst Biarni. Skufr ok þormodr foru a fund Olafs konungs. en Sigridr ok Sigurdr son hennar keyftu ser iardir j Noregi ok biuggu þar til daudadags. Konungr uar ecki margr til þormodar j fystunni.

### þormodr kom til konungs.

168. Sa madr hafde komit af Jslande a fund Olafs konungs er Grimr het ok kalladizst hefnnt hafua þorgæirs Hauarssonar. ok firir þat lagde Olafr konungr a hann virding ok gaf honum giafir. en þormodr visse a honum ǫll deile ok var Grimr æith illmenni ok hafde myrdan mann vt a Jslande. þat bar at æinn dag at Olafr konungr sendi dryckiarhornn þormodi ok mællti at hann skyllde kueda visu.

þer fengut fe færa
flim er oft kuedit Grime
mer ok myklu fleira
mæringr en þorf væri.

hann hefir hundzverk unnit
huinn getr sligt edr minna
mætr en ek menzsku bættag
mina gramr ok þina.

Konungr mællti. þikizst þu mæire fremd hafua gert a Grænlande en Grimr a Jslande. þormodr suarar. þat ætla ek at þer þiki suo ef þu ueitzst gerlla. Olafr konungr mællti. huat uantu mest til frægdar a Grænlande. þormodr quat þa visu.

þollr vo þorgrim trolla
þar laut hardr til iardar
adr red ek odda hridar
otraudr Lodins dauda.

þar nam ek þorkel fiorui
þordr let ond hinn fiorde
felldr uar frægr til folldar
Falgæirr skorungr þeirra.

Olafr konungr mællti. framar hefir þu gert vm uigin a Grenlande en fiskimadrinn kallar aflausnn fiskinnar. þuiat hann kallazst sig leysa ef hann dregr fisk firir sig en annan firir ǫngul hinn þridia firir vad .iiij. firir skip. þormodr suarar. vo ek þo enn .ij. menn um daginn adr uær sigldum af Grænlande en Helgustæinarr drap æinn. Olafr konungr mællti. huerir voru þeir menn. þormodr suarar. Liot uo ek ok huskall hans systurson þorgrims trolla. Olafr konungr mællti. hui uottu þa suo marga. þormodr suarar. illr þotti mer merar iofnnudr þeirra. Konungr mællti. huernn ueg uar merar iofnudr sa. þormodr suarar. þeir toldu mig vera suo med monnum sem meri med hrossum. Vorkunn uar þa a segir konungr at þer mislikade miog þeirra umræda. hefir þu ok stort at gert. þormodr quat þa visu.

Els hefig illan dila
eckels þeim er mig sektu
geig uann ek geruidraugum
Grænlendinga brendan.

sa mun at sækitifuum
suerdels fromum verda
hrings a bryggiar tanga
hoggræddr nema mæirr logi.

Konungr mællti. suo mun vera sem þu segir. sæint mun sa dile græddr verda um mennina er þu hefir uegnna a Grænlande. þadan af var þormodr med Olafi konungi j myklum kærlæikum þuiat hann reyndizst hinn rȯskuazsti j ollum mannraunum. þormodr fór j Garda austr med Olafi konungi ok þoldi med honum alla vtlegd. for aftr med Olafi konungi til Noregs þuiat þormodi þotti betra at deyia med honum helldr en lifa eftir hann daudan. sem enn mun sidarr sagt verda.

---

## þATTR AASBIARNAR SELSBANA.

capitulum.

Quędi mȯrg þau er skalldin hafa ort ok samansett af lifui ok lagastiornn hins heilaga Olafs konungs. suo sem Ottarr suarti Sighuatr skalld Gizsȯrr gullbrarfostri þorfinnr munnr sealfs hans hirdmenn Hofgardarefr ok Æinarr Skulason [425] ok margir adrir. birta ok sannliga syna at saga hins heilaga Olafs konungs ok hans kappa er sȯnn en huorki efld ne aukin sem margar fornnsogur þær er sagdar eru utan or hæime edr fiarlægum londum. en þo at her stande j morg þau æfuintyr sem æigi þikir skiluisliga vid sȯguna koma j upphafui ok koma þo oll j æinn stad nidr adr luki. þuiat þau hniga ok hallazst oll til uegs ok virdingar hinum heilaga Olafi annathuort sakir iartæignnagerdar edr frægdar ok framauerka æinardar edr orugglæiks sem enn mun lysazst j eftirfaranda efnni ok ęfuintyri.

Asbiorn hitti þori sel aarman(n) konungs.

170. Sigurdr het madr ok var þorisson hann uar brodir þoris hundz j Biarkeyiu. Sigurdr atti Sigride Skialgsdottur systur Erlings. Asbiornn het son þeirra hann þotti allmannuęnligr j uppuexsti. Sigurdr bio j Ond[1] a þrandarnesi hann uar madr storaudigr ok uirdingamadr mikill. ecki uar hann konungi handgeinginn. ok uar þorir firir þeim brædrum at uirdingu er hann uar lendr madr konungs. en heima j

[1]) r. Ömd

bunade þa uar Sigurdr j ðngan stad minne ristnumadr. hann var þui vanr medan heidni uar at hafa þrenn blot huernn uetr. æitt at uetrnottum annat at midium uetri þridia at sumri. en er hann tok vid kristnni þa hellt hann teknum hætti um uæitzslurnar. hafde hann þa um haustit vinabod mikit en jolabod um uetrinn ok baud þa enn til morgum monnum. hina þridiu uæitzslu hafde hann at paskum ok hafde þa fiolment. sliku hellt hann fram medan hann lifde. Sigurdr uard sottdaudr. þa uar Asbiorn .xviij. uetra gamall tok hann þa fe eftir fðdr sinn. hann tok þa tekinn hatt fðdr sins ok hafde .iij. uæitzslur a huerium vetri sem fadir hans. þess uar skamt j mille er Asbiorn hafde tekit vid fðdrarfui sinum ok þess at arferd tok at uestna ok sæde manna brugduzst. Asbiorn hellt hinu sama fram um uæitzslur sinar ok naut þa þess vid er þar voru fornn korn ok ðnnur fðng þau er hafua þurfti. en er þau missari lidu af ok onnur komu uar þa kornn ðngum mun betri en fyrr. þa uillde Sigridr ath veislr væri af teknar allar edr svmar. Asbiornn villde þat æigi for hann þa vm havstit at hitta vine sina ok keypte korn þar sem hann fek en þa af sumum. for enn suo fram þann uetr at hann hellt ollum ueizslum. En eftir um uorit fenguzst litil sæde þuiat æigi gat frækornn ath kaupa. ręddi Sigridr um at fæcka skyllde huskalla. Asbiornn uillde þat æigi ok hellt hann ollu hinu sama. þat sumar var kornn helldr oaruænt. þat fylgde ok þa at suo uar sagt sunnan ór lande at konungr bannar sunnan ór landi ok nordr j land at lata flytia kornn mallt edr miol. þa þotti Asbirni uandazst vm tilfðng buss sins. var þat rad hans at hann let fram setia byrding er hann atti. þat var haffæranda skip at uexsti. skipit var gott ok ræide vandadr miog til. þar fylgde med segl stafat med uende. Asbiornn redzst til ferdar ok med honum .xx. menn. foru nordan um sumarit ok er ecki sagt fra ferd þeirra fyrr en þeir komu sudr j Karmsund aftan dags ok lðgdu uit Augualldznes. þar stendr bęr mikill upp skamt a eyna Kðrmt er hæitir a Augualldznese þar var konungsbu. þar red firir þorir selr uar hann þar armadr. þorir uar madr ættsmar ok hafde mannazst uel starfsmadr godr sniallr j male aburdarmikill framgiarnn ok ouæginn. hlyddi honum þat uel sidan hann fek konungs syslu ok styrk. hann uar skiotordr ok ðrordr. þeir Asbiornn lagu þar vid um nott. en um morguninn er liost uar ordit gek þorir ofan til skips ok nockurir menn med honum. hann spurde huerir firir skipe þui rede hinu ueg-liga. Asbiorn segir til sin. þorir spurde huert hann skyllde fara hit læingsta edr huat er at eyrindum væri. Asbiornn sagde at hann uillde

kaupa kornn edr mallt. sagdi sem satt var at hallęri mikit uar nordr j landit. en oss er sagt at her se uel ært edr uilltu bonde selia mer kornn. ek se at her eru hladar storir. væri oss þat órlausnn at þurfa æigi at fara lengra edr uidara her um Rogaland. þorir suarar. ek kann at segia þer þat at þu matt her uel aftr huerfa ok fara æigi lengra þuiat þu munt ecki kornn her fa ne j ǒdrum stodum þuiat konungr bannar at selia her kornn nordr j landit. ok farit aftr Haleygir sa mun ydr hinn bezsti. Asbiornn suarar. ef suo er bonde sem þu segir at uær faam ecki kornn keyft þa mun æigi mitt eyrende minna en sia hybyli Erlings frænda mins. þorir spurde. huersu mykla frændsemi attu vid Erling. Asbiornn suarar. modir min er systir hans. þorir suarar. uera kann þa at ek hafua mællt ecki uarliga ef þu ert systurson Erlings konungsins þeirra Rygianna. þa kostudu þeir Asbiornn tiolldum af ser ok logdu vt skipi sinu. þorir kallade a þa ok [430] mællti. farit nu uel ok komit her er þer farit aftr. Asbiornn quat suo uera skylldo.

## þorir rænti Aasbiorn.

**171.** Fara þeir Asbiornn nu leid sina ok koma at quelldi dags a Jadar. for Asbiornn upp til bæiar a Sola vid .x. mann en adrir .x. gættu skips. En er Asbiornn kom a Jadar fek hann þar godar vidtokur. setti Erlingr hann hit næsta ser ok spurde hann margs nordan ór lande ok uar hinn katazsti. Asbiornn segir hit liosazsta af sinu eyrende. Erlingr segir at þat uar æigi uænligt firir þa sǒk at konungr bannar kornnsǒlur. uæit ek æigi segir hann þeirra manna von at traust muni til hafua at briota ord konungs. verdr monnum uanngætt til skaps hans þuiat margir eru spillendr at vm vinattu vora. Asbiorn suarar. sæint er satt at spyria. mer uar kent a unga alldri at modir min væri frialsborin j allar halfur ok þar med at Erlingr a Sola væri gǒfgazstr hennar (frænda) en nu heyri ek þig segia sealfan at þu ser æigi frials firir konungs þrælum her a Jadri at rada firir korni þinu sligt er þer likar. Erlingr sa til hans ok mællti vid er hann glotti vm tenn. minna viti þer til konungs rikisins Haleygirnir en uær Rygirnir ok ǒrordr muntu hæima frænde attu ok ekki langt til þess at telia. dreckum nu fyst frænde. siam a morgin huat þa er um eyrendi þitt. þeir gerdu suo ok voru allkatir um kuelldit. Eftir um daginn talazst þeir frændr vid Erlingr ok Asbiorn. Erlingr mællti. hugsat hefui ek nockut um kornnkaup þitt Asbiornn edr huersu uandr muntu at kaupunautum. Asbiornn segir at hann hirdir alldri at huerium hann

kaupir ef honum er hæimillt sellt. Erlingr mællti. þat þiki mer likara at þrælar minir munu æiga suo kornn at þu munir vera fullkaupa. þeir eru ecki j logum edr landzrett vid adra menn. Asbiorn segir at hann uill þenna kost. Uar þa sagt þrælunum til um þessa kaupstefnu. letu þeir fram kornnit ok malltit ok selldu Asbirnni. hlod hann skip sitt sem hann villde. En er hann uar albuinn leidde Erlingr hann vt med storum giǫfum ok skildu þeir med kærlæikum. fek Asbiorn gott byrlæide ok lagde um kuelldit j Karmsund vid Ŏgualldsnes ok voru þar vm nottina. þorir selr hafde þegar spurt vm kuelldit um farar Asbiarnar ok suo þat at skip hans uar kafhladit. þorir stefnndi til sin lide um nottina suo at hann hafde firir dag .lx. m̃anna. hann for a fund Asbiarnar þegar at litt uar lyst gengu þeir þegar vt a skip. þa voru þeir Asbiorn klæddir ok hans felagar ok hæilsar Asbiorn þori. hann spurdi huat þunga Asbiorn hefdi a skipi. Hann segir at kornñ ok mallt uar a. þorir suarar. þa mun Erlingr gera at uanda at taka firir hegoma tal konungs ok læidizst honum æigi at uera hans motstǫdumadr j ǫllu ok er furda j at konungr lætr honum allt hlyda. Var þorir malodr um hrid. en er hann þagnade þa segir Asbiorn at þetta kornn hofdu att þrælar Erlings. þorir suarar snellt sagde at hann hirti ecki vm pretta þeirra Erlings. en nu er hitt til Asbiornn at þer gangit a land elligar færu ver ydr utbyrdis þuiat ver uilium ǫnga þreynguing af ydr hafa medan ver rydium skipit. Asbiorn sa at hann hafde ǫngan lidskost vid þori ok geingu þeir a land upp. en þorir let flytia farm allan af skipe. En er rutt uar skipit þa gek þorir eftir skipinu ok mællti. furdu gott segl hafui þer Haleyirnir ok taki sumir byrdings segl uort ok fai þeim. fullgott er þeim at sigla vid þat lausum kile. þa var suo gert at skift uar um seglin. ok foru þeir Asbiorn brott vid suo buit ok stefnndu þa nordr med landi ok letti æigi fyrr en hann kom hæim onduerdan vetr ok var sia fǫr allfræg. Var þa allt starf tekit af Asbirni um uæitzslurnnar a þeim uetri. þorir hundr baud Asbirni frænda sinum til iolauæitzslu ok modur hans med þeim monnum er þau uilldu hafa med ser. Asbiorn villde æigi fara ok sat heima. þat fannzst a er þori þotti Asbiorn gera ouirding til bods sins. hafdi þorir miog j skaupe um farar Asbiarnar. bædi er segir þorir at mikill er munr uirdingar uar frænda Asbiarnar. enda gerir hann suo sligt starf sem hann lagdi a j sumar at sækia kornnit til Erlings a Jadar en hann uill æigi fara j næsta hus til min. uæit ek æigi huart hann ætlar at Selþorir muni j huerri hǫfnn firir vera. Slik ord fretti Asbiorn fra þori ok onnur þuilik. hann unde storilla vid ferd sina ok

enn verr er hann heyrde sligt at athlatri haft ok spotti. Hann uar hæima vm uetrinn ok for huergi til heimboda.

### Aasbiorn drap þori.

172. Asbiornn atti langskip þat uar sneckia tuitogsessa hon stod j nausti myklu. Eftir kyndilmessu let hann fram setia skipit ok bera til ræida ok bua at ollu. þa stefnndi hann til sin monnum sinum ok hafdi nærr .x. tigum manna alla uel uopnada. en er hann var buinn ok byr gaf þa siglde hann sudr med landi ok fara þeir ferdar sinnar ok byriar seint. en er þeir koma sudr j land þa fara þeir meirr vtlæid en þiodleid. Ecki uard til tidenda j þeirra ferd fyrr en þeir komu at quelldi .v. dag j paskauiku utan at Kormt. henni er þann ueg farit [431] at hon er mikil ey ok lǫng ok ecki bygt vida. liggr hon vid þiodlæid firir utan. þar er mikil bygd ok er þo vijda eyin obygd þat er vt liggr til hafsins. þeir Asbiorn lendu vtan at eyiunne þar sem obygt var. En er þeir hofdu tialldat þa mællti Asbiorn. nu skulu þer vera her eftir ok bida min en ek mun ganga upp a eyna a niosnn ok vita huat tidenda se j eyiunne þuiat ver hofum ecki spurt adr. Asbiorn hafde uondan bunat ok hatt sidan ok fork j hendi ok gyrdr suerde undir klædunum. hann gek upp a land ok yfuir eyna. en er hann kom a hęd nockura þa(r) er hann matti sia tidendi til bęiarins a Ǒgualldznese ok fram a Karmsund þa sa hann mannafǫr mykla bæde a sio ok a lande ok sotti þat folk allt til bęiarins a Ǒgualldznesi. honum þotti þat undarligt. sidan gek hann heim til bæiar ok þar til er þionustumenn biuggu mat. hann heyrde þa þegar ok skilde af tali þeirra at Olafr konungr var þar kominn til ueitzslu suo þat med at konungr uar til bordz genginn. Asbiornn sneri þa til stofunnar. en er hann kom j stofuna þa geingu adrir vt en adrir inn ok gaf æingi gaum at honum. opin uar stofuhurdin. Asbiorn sa at þorir selr stod firir hasæti konungs. þa var miog lidit a kuelldit. Asbiorn heyrde til at madr spurde þori at vidskiptum þeirra Asbiarnar ok suo þat at þorir sagdi þar fra langa sogu ok þotti Asbirni hann halla synt. þa heyrde hann at madr spurde huernn ueg Asbiorn yrde vid þa er þeir ruddu skipit. þorir suarar. bar hann sig til nockurrar hlitar ok þo æigi uel. en er uer tokum af honum seglit þa gret hann. En er Asbiorn heyrde þetta þa bra hann suerde sinu hart ok hliop innar j stofuna ok hio þegar til þoris ok kom hoggit a halsinn. fell hof(ud)it a bordit firir konunginn en bukrinn a fætr honum. vrdu borddukarnir j blodi æinu uppi ok nidri. Konungr bat taka hann. ok suo var gert at Asbiornn var hand-

tekinn ok leiddr vt ór stofunne. ok þa uar tekinn a brott bordbunadrenn ok suo lik þoris var j brott borit ok sopat allt þar er blodugt uar ordit. Konungr uar allræidr ok stillti þo uel ordum sinum.

### Bod Skialgs vid konung firir Aasbiornn.

173. Skialgr Erlingsson stod upp ok gek firir konung ok mællti. herra nu mun sem oftar at þar mun vera til umbotar at sia er þer erut. ek vil bioda fe firir manninn at hann hallde lifui ok limum en þer herra skerit ok skapit allt annat. Konungr segir. er æigi daudasok Skialgr ef madr brytr paskafrid ok su ǫnnur ef hann drepr mann j konungs herbergi. su hin þridia at ydr fodur þinum mun litils verd þikia er hann hafde fætr mina firir hǫggstok. Jlla er þat herra segir Skialgr at ydr mislika(r) ella uæri uerkit hit bezsta. en ef uerk þetta herra þikir ydr ollum moti skapi ok mikils uert þa uænti ek at æigi taka ek mikit j min þionustugiolld annat ef ek fę æigi þetta. þuiat þat munu margir menn mæla at ydr se sligt uel geranda. Konungr mællti. þott þu ser mikils uerdr Skialgr þa mun ek æigi firir þinar sakir briota lǫgin ok leggia konungstignnina suo. Skialgr snerizst þa j brott ok vt ór stofunne. .xij. menn hofdu þar verit med Skialgi ok fylgdu honum allir ok margir adrir geingu ut med honum. Skialgr mællti til þorarins Nefulfssonar. ef þu uill hafa vinattu mina þa legg þu a allan hug at madrinn se æigi drepinn firir sunnudaginn. Sidan for Skialgr ok menn hans ok toku rodrarskutu er hann atti ok roa sudr med landi suo sem af matti taka ok komu vm nattina j ellding a Jadar ok geingu þar upp til bæiar ok til þess loptz er Erlingr suaf j. Skialgr hliop a hurdina suo at j sundr gek þegar at nǫglunum. vid þat uaknnade Erlingr ok þeir sem inne suofu. hann uard skiotazstr a fætr ok gek til dyranna. hann greip skiolld sinn ok suerd ok spurde huerr þar færi suo akaft. Skialgr segir til sin ok bad upp lata hurdina. Erlingr suarar. þat uar ok likligazst er allhæimsliga fór at þu mundir vera edr fara menn eftir ydr. þa var upp latin hurdin. þa mællti Skialgr. þess uænti ek at Asbirnni frænda þinum þiki ek æigi ofskiotr þo at þer þiki ek akaft fara þar sem hann sitr a Augualldznesi j fiotrum ok er þat mannligra at fara at duga honum. Sidan hafazst þeir ord vid fedgar sagdi Skialgr Erlingi allan atburd vm uig Selþoris.

### Aasbiorn var dæmdr (til) dauda.

174. Olafr konungr settizst j hasæti sitt þa er um var buizst j stofunne ok var allræidr. þa spurde hann at um uegandann. honum uar

sagt at hann uar vti j suolunum j gætzslu. Konungr spurde. hui hann væri æigi drepinn þorarinn suarar. kalli þer þat æigi mord herra at drepa mann um nætr. Konungr suarar. seti hann þa j fiotur ok drepi a morgin. þa uar Asbiornn fiotradr ok byrgdr j æinu huse um nattina. Eftir um morgininn hlyddi konungr tidum. sidan gek hann a stefnu ok sat þar framan til hamessu. þa gek hann til kirkiu ok mællti til þorarins. mun nu vera solin suo hatt at Asbiorn uinr yduar mun mega hanga. þorarinn suarar ok laut konungi. þat sagde byskup hinn fyrra friadag at sa konungr er allz a ualld þoldi skapraun ok er [430] sa sæll er helldr ma þar j nockuru eftir likia en hinir er þa dǫmdu hann til dauda edr þeir er ollu manndrapinu. nu er æigi langt til morgins ok er þa syknn dagr. Konungr læit vid honum ok mællti. rada muntu þessu þorarinn at hann mun æigi j dag drepinn. skalltu nu taka vid honum ok varduæita hann. ok vit þat uist at þar liggr vit lif þitt ef hann kemzst j brott med nockuru moti. Gek konungr þa leid sina en þorarinn for þar til er Asbiorn sat j iarnum. let þorarinn af honum fioturinn ok fylgde honum j stofu æina litla ok let fa honum dryk ok mat ok sagde honum huat konungr hafde a lagt ef Asbiorn hlypi j brott. hann sagde at þorarinn þyrfti þat ecki at ottazst. Sat þorarinn þar lenge dags hia honum ok þar suaf hann vm nottina. Laugardaginn stod konungr upp ok for til morgintida sidan gek hann til messu ok þadan a stefnnu ok uar fiolde kominn a stefnnu af bondum. attu þeir mart ath tala. sat konungr þar lengi dags ok uar helldr sid gengit til hamessu. Eftir messuna gek konungr þegar til matar ok er hann uar mettr drak hann um hrid suo at bord voru uppi. þorarinn gek þa til þess er kirkiu uarduæitti ok gaf honum .ij. merkr silfrs til þess at hann skyllde hringia skiott til helgar. Ok sem konungs bord foru ofan ok konungr hafde druckit þa stund sem honum þotti fallit þa voru bord brott tekin. þa mællti konungr ok sagde at þat var rad at þrælar færi med uegandann ok dræpi hann. J þui bile uar hringt til helgihallz. þa gek þorarinn firir konung ok mællti. grid mun þessi madr hafua skulu fram um helgina þo at hann hafui illa gert. Konungr suarar. gættu hans þorarinn suo at hann komizst æigi j brott. Gek konungr þa til nonu en þorarinn gek ok sat hia Asbirnni. en um daginn gek prestr til Asbiarnar ok skriftade honum ok gaf honum lof til at hlyda hamessu drottinsdag. þorarinn gek þa firir konung ok bad hann fa mann til at uarduæita Asbiorn. uil ek nu sagde þorarinn uid skiliaz hans mal. Konungr bat hann hafua þock firir. þa feck konungr menn til at uarduæita Asbiorn. uar þa settr fiotur a hann. En er til

hamessu var farit þa var Asbiorn læiddr til kirkiu at hlyda messu. stendr hann nu uti firir kirkiudyrum en konungr ok hird hans inne.

Konungr tok sættir af Asbirni.

175. Nv er þar til at taka er fyrr uar fra horfuit er þeir Erlingr ok Skialgr gerdu rad sin um þetta uandkuædi ok stadfestu þeir þat med aeggian Skialgs ok annarra sona Erlings at þeir safnna lide ok skera upp herðr. ok kom þa bratt saman lid mikit ok redu til ferdar ok til skipa ok uar skorat nærr .xv. hundrat manna. Foru þeir med sinu lide ok komu sunnudaginn vid Kormt a Ögualldznese ok geingu upp til bæiar med ollu lide sinu ok komu j þann tima er lokit uar gudspialli. gengu upp at kirkiunne ok toku þegar Asbiorn ok brutu af honum fiotrana. En vit gny þenna ok uopnnabrak þa hlupu aller j kirkiuna þeir er adr (voru) vti. en þeir er j kirkiunne voru þa litu þeir aller vt nema Olafr konungr hann sat ok sazst ecki um. þeir Erlingr skipodu lide sinu tueim megin strætis er la fra kirkiu til stofu. stod Erlingr ok synir hans næst stofunne. ok er allar tidir voru sungnar þa gek konungr þegar ór kirkiu. gek hann fystr fram j kuina en sidan huerr eftir ðdrum hans manna. Ok þegar er hann kom heim at dyrunum þa gek Erlingr firir dyrnnar ok laut konungi ok kuaddi hann. konungr bad gud geyma hans. þa tok Erlingr til mals. suo er mer sagt herra at Asbiornn frænda vorn hafui hent glopska mikil ok er þat illa ef suo er ordit at ydr mislikar. em ek þui her kominn at bioda firir hann sætt ok yfirbætr slikar sem þer vilit sealfir gert hafua en þiggia þar j mot lif hans ok limar ok landzvist. Konungr suarar. suo litz mer Erlingr sem þu munir nu þikiazst hafua ualld a malum ockrum Asbiarnar. uæit ek æigi hui at þu lætr sem þu skulir bioda bætr firir hann. ætla ek þig þui hafua samandregit her mannz at nu ætlir þu at rada vór a mille. Erlingr suarar. herra þu skallt rada ok rada suo at ver skilium sattir. Konungr suarar. ætlar þu at hræda mig Erlingr. hefir þu firir (þui) lid mikit. Næi segir Erlingr. En ef annat byrr nu undir segir konungr þa mun ek nu huergi flyia. Erlingr segir. ecki þarftu at minna mig a þat at þeir hafua fundir vorir verit flestir her til at ek hefui ecki lidkost haft vid ydr. en nu skal ecki leyna ydr þui sem mer byrr j skapi at ek vil at vit skilim sattir ella mun ek ecki hætta til flæire funda ockarra. Erlingr uar þa raudr sem blod j andlite. þa gek fram Sigurdr byskup firir konung ok mællti. herra ek byd ydr undir hlydni firir guds sakir at þer sættizst vid Erling eftir þui sem hann bydr at madr þessi hafui lifs grid ok lima en þer radit ollu satt-

mali. Konungr mællti. þer skulut rada. þa mællti byskup. fai þer konungi festina þa er honum like. Sidann gek Asbiornn til grida ok a konungs ualld. Erlingr fek festi. konungr tok vid en Asbiorn minntizst a hond konungi. þa sneri Erlingr a brott med lide sinu. uard þa ecki at kuedium med þeim konungi. gek konungr þa j stofu ok Asbiorn med honum. sidan lauk konungr vpp sattargerdinne ok mællti suo. þat skal vpphaf [433] sattargerdar ockarrar Asbiorn at þu skallt ganga undir landzlǫg þau at sa madr er drepr þionustumann konungs þa skal hann ganga undir þa þionustu ef konungr uill. nu uil ek at þu takir upp armenning þessa er Selþorir hefir haft ok rad her firir bui a Ǫguallldznese. Asbiornn segir at suo skal vera sem konungr uillde. verd ek þo fyst at fara heim (til) buss mins ok skipa þar til. Konungr let ser þat uel lika. for konungr þadan til annarar ueitzslu er geor uar j moti honum. en Asbiorn redzst þa til ferdar vid forunæyti sitt. þeir hofdu legit j leyniuogum þa stund alla er Asbiorn var j brottu hofdu þeir niosnn af ferdum hans. Sidan snerizst Asbiorn til ferdar ok letti æigi fyrr um uorit en hann kom nordr til bus sins. hann var sidan kalladr selsbani. En er Asbiorn hafde æigi lenge hæima verit þa hittazst (þeir) þorir hundr frændrnir ok talazst vid. spurde þorir uandliga at ferdum hans ok alla atburde þa er þa hofdu til tidenda ordit. en Asbiorn segir þa sem gengit hefir. þorir suarar. þa muntu þikiazst hafua rekit suiuirdingar þinnar þeirrar er þu uart ræntr a hausti. Suo er segir Asbiorn edr huersu þiki þer frænde. þorir suarar. þat skal skiott segia at fǫr þin hin fyrre er þu fort sudr j land uar hin osæmiligsta ok stod þo til nockurrar vmbotar. en þessi fǫr er bade þin skǫm ok allra frænda þinna ef þat skal framgæingt verda at þu gerizst konungs þræll ok iafnnadarmadr hins uesta mannz Selþoris. nu gerdu suo uel ok mannliga at þu sit helldr heima at æigum þinum ok skulu ver frændr þinir uæita þer styrk til þess at þu komir alldri j slikt uandrædi sidan. Asbirni þotti þetta uænlikt. ok adr þeir skildizst uar þetta rad stadfest at Asbiornn skyllde sitia at bui sinu ok fara ecki a fund konungs edr j hans þionustu. ok sat hann hæima at buum sinum.

## Olafr konungr efldi kristindom i Noregi.

176. Eftir þat er þeir Olafr konungr ok Erlingr Skialgsson hofdu hitz a Augualldznesi þa hofzst med þeim af nyiu sundrþycki ok óx til þess er þar af gerdizst med þeim fullr fiandskapr mille þeirra. Fór Olafr konungr at uæitzslum um Hǫrdaland um vorit. þa for hann upp a Uors þuiat hann spurde at folk uar þar litt truat. hann atti þing vid

bændr þar sem a Uange hæitir. komu þar bændr fiolmennir ok med aluępni. baud konungr þeim at taka vid kristne. en bændr budu bardaga j mot ok kom suo at huorirtueggiu fylktu lide sinu. Var þa suo um bændr at þeim skaut skelk j bringu ok uillde æingi þeirra fremzstr standa ok uard þat at lycktum er þeim gegnndi betr at þeir gengu til handa konungi ok toku sidan vid kristne. skildizst konungr æigi fyrr vid þa en þar var alkristnnat. þat uar æinn dag at konungr ræid læid sina ok saung psalma sina. en er hann kom gegnnt haugunum þa nam hann stadar ok mællti. þau skal segia min ord madr manni at ek kalla þat rad at alldri sidan fari Noregs konungr j mille þessara hauga. Er þat ok sógnn manna at flestir konungar j Noregi hafui þat uarazst sidan. þa fór Olafr konungr ut a Ostrarfiord. kom hann þar til skipa sinna. for hann þa nordr j Sognn ok tok þa ueitzslur er sumrade. en er hausta tok for hann inn j Fiordu en þadan upp a Ualldres. þar uar adr hæidit. Konungr fór sem akafazst upp til uatzsins ok kom þar a uuart ok tok þar skip þeirra. gek konungr þar a sialfr med ollu lide sinu. sidan sende hann bondum ord ok setti þing suo nærr uatnninu at konungr atti allann kost skipa ef hann þættizst þurfa. Bændr sottu þing med aluæpni. konungr baud þeim kristni en bændr æptu j moti ok badu hann þegia ok gerdu þegar gny mikinn ok uopnnabrak. En er konungr sa at þeir uilldu ecki ahlyda þat er hann mællti ok kendi þeim ok þat annat at þeir hófdu muga mannz at ecki stod vid þa sneri konungr rædunne ok spurde þa ef nockurir væri þeir menn a þinginu er þær sakir ættizst vid at þeir villde at hann setti j mille þeirra. þat fannzst a bratt a ordum bonda at margir voru þar rangsattir sin a mille er þa hófdu samhlaupa ordit at mæla mot kristninne. En þegar bændr toku at kæra mal sin þa aflade huerr ser suæitar at flytia mal sitt. gek þui þann dag allan. at kuelldi uar slitit þinginu. þegar at bændr hofdu spurt at Olafr konungr hafde farit upp a Ualldres ok hann var kominn j bygdina ok þa hofdu þeir latit fara herðr ok stefnnt saman þegnn ok þræl ok foru med þann her mot Olafi konungi. en alþyda var j bygdinne eftir. bændr helldu enn safnnade er þinginu uar lokit. Konungr uard þessa viss. ok er hann kom a skip sin þa let hann roa um nattina um þuert uattnit. let konungr þar ganga upp j bygdina brenna ok ræna. eftir um daginn reru þeir nes fra nese ok let konungr brenna bygdina. En er þeir bændr er j safnnadinum voru sa reyk ok loga til bæia sinna þa urdu þeir lausir j flockinum. stefnnde þa huerr heim ok læitade ef finna mætti hyski sitt. en þegar er rof kom j lidit þa [43⅓] for huerr at odrum til þess at allt ridladizst j sma

flocka. en konungr reri þa yfir vatnnit ok brenndi þa a huortueggia landit. Komu þa margir bændr til hans ok badu miskunnar budu handgaungu. sidan gaf konungr huerium manni grid er til hans kom ok þess krafde ok suo fe þeirra. mællti þa æinge madr j mot kristnni. let konungr þa skira folkit ok tok gisla af bondum. dualdizst konungr þar leinge vm haustit. let konungr þa draga skip sin j mille vatnna vm æid. for konungr lith um landit upp j fra uotnunum þuiat hann trude illa bondum. hann let þar kirkiur gera vida ok setti þar kennimenn yfir. En er Olafi konungi þotti von frera þa sotti hann upp a landit kom hann fram a þotnn. þess getr Arnor jallaskalld er Olafr konungr hafde brent vm Upplond.

Gæingr rett þar er yngui
Upplendinga brende
þiod gallt ræsis ræide
rann sa er fremstr var manna.
uilldu ofgar alldir
adr uar styrt til uoda
grams dolgum fekzst galgi
gagnnprydande hlyda.

Sidan fór Olafr konungr um Dali ok nam æigi fyrr stadar en hann kom j þrandheim ok allt nordr til Nidaross. hann bio þar til uetrsetu ok sat þar um uetrinn. sa uar hinn .xj. uetr hans konungdoms. Adr um sumarit for Æinarr þambarskelfir ór landi. fyst uestr til Æinglandz ok hitti þar Hakon mag sinn ok dualdizst þar med honum vm hrid. sidan for Æinarr a fund Knutz konungs ok þa af honum godar giafir. eftir þat for hann sudr um sio ok kom til Romaborgar ok kom aftr annat sumarit ok for þa til bua sinna ok hittuzst þeir Olafr konungr ecki.

Her er fæddr Magnus konungr hinn godi. capitulum.

177. Alfhildr het kona ok uar konungs ambatt hon var þo af godum ættum ok uar med hird konungs. en þat uard til tijdenda at Alfhilldr uar med barnni en þat vissu trunadarmenn at Olafr konungr mundi vera fadir barnnsins Alfhilldar. Suo bar at æina natt at Alfhilldr tok sott. þar uar fatt manna. þar voru konur nockurar ok prestr ok Sighuatr skalld en fair adrir. hon uar þungliga halldin ok gek henni nærr dauda. hon fæddi suæinbarnn ok uar þat vm hrid at þau uissu oglǫgt huart lif uar med barnninu. barnnit skaut upp ǫndu allomattuliga. (bad) þa prestr Sighuat fara at segia konungi. Sighuatr suarar. ek þori firir ongan mun at uekia konunginn þuiat hann bannar huerium manni at bregda suefni firir ser fyr en hann uaknar sealfr. Prestr suarar. naudsyn berr til at barnn þetta fai skirnn mer synizst þat allolifligt. Sighuatr suarar. helldr þori ek at rada til þess at þu skirir barnnit en uekia konunginn ok mun ek hallda upp auitum ok gefa nafnn. Suo gerdu þeir at suæinninn uar skirdr ok het Magnus. Eftir

um morguninn er konungr uar uaknnadr ok klæddr þa var honum sagt allt fra þessum atburde. þa leth konungr kalla Sighuat firir sig. Konungr mællti. hui uartu suo diarfr at þu letzst skira barnn mitt fyrr en ek uissa. Sighuatr suarar. þuiat ek uillde helldr gefa gude tuo menn en æinn fiandanum. Konungr mællti. firir hueriu munde þat vid liggia. Sighuatr suarar. þuiat barnnit uar at dauda komit ok munde þat uera fiandans madr ef þat dæi hæidit en nu er þat guds madr. en hitt annat at ek uissa þo at þer værit ræidir mer at þar mundi æigi mæira vid liggia en lif mitt. en ef þer vilit at ek tyna lifinu firir þessa sǫk þa uænti ek at ek se guds madr. Konungr mællti. hui letz þu Magnus hæita ecki er þat uort ættnafnn. Sighuatr suarar. ek let hæita eftir Karllamagnuse konungi. þann vissa ek konung bezstan j hæiminum. þa mællti konungr. gæfumadr ertu mikill Sighuatr ok er þat æigi undarligt at gæfa fylgi uitzsku en hitt er kynligt sem stundum kann henda at su gæfa fylgi vuitrum manni at ouitrlig rad snuizst til hamingiu. Uar þa konungr allkatr. Sueinn sa fæddizst upp ok uar bratt efnniligr er alldr færdizst yfir hann.

### Aasmundr drap Aasbiorn selsbana.

178. þat uor hit sama fek Olafr konungr j hendr Asmunde Grankelssyne syslu a Halogalande at hafa til motz vid Harek j þiottu. en hann hafde haft adr alla suma at uæitzslu en suma at leni. Asmundr hafde skutu ok a nærr .xxx. manna uel uopnnada. en er Asmundr kom nordr þa hittuzst þeir Harekr sagde Asmundr honum huernn ueg konungr hafde til skipat um syslu let þar fylgia iartæignir konungs. Harekr suarar suo at konungr munde rada huerr syslu hefde. en ecki gerdu suo hinir fyrri at minka uornn rett er ættbornir erum til rikis en fa þeim j hendr bondasonum er ecki hafa sligt fyrr med hondum haft. En þo at fyndizst a Hareki at honum þætti fiarri skapi þa let hann Asmund vid syslu taka sem konungr hafdi ord tilsent. for Asmundr þa heim til bussins dualdizst þar litla hrid for þa j syslu sina nordr a Halogaland. En er hann kom nordr j Langey. þar biuggu brædr .ij. het annar Gunnstæinn en annarr [435] Karli þeir voru menn audgir ok virdingamenn myklir. Gunnstæinn var busyslumadr mikill ok ellre þeirra brædra. Karlli var fridr synum ok skartzmadr mikill. en huartueggi þeirra uar mikill jþrottamadr. Asmundr fek þar godar vidtǫkur ok dualdizst þar um hrid ok heimti saman or syslu sligt er hann fek. Karli ræddi um uit Asmund at hann uillde fara a fund Olafs konungs at læita ser hirduistar. Asmundr fysti þess rads ok het fulltinge

sinu vid konunginn at hann fengi þat eyrendi sem hann bæiddi. ok redzst Karlli til ferdar med Asmundi. Asmundr spurde þat at Asbiorn selsbani hafde farit sudr j Uogastefnnu ok hafde byrding mikinn er hann atti ok a .xx. menn ok hans uar þa nordan von. þeir Asmundr foru sudr med landi ok hofdu anduidri ok þo litit. sigldu skip j moti þeim af Uogaflotanum. þeir spurdu j hliode um ferdir Asbiarnar. þeim var sagt at hann var sunnan a ferd. þeir Asmundr ok Karlli voru reckiufelagar ok uar med þeim hit kærsta. þat uar æinn dag er þeir Asmundr reru fram eftir sundi einu at byrdingr siglde mot þeim. þat skip var audkent þar[1] voru hlyr biort bæde stæind huitum steine ok raudum. þeir hofdu stafat segl. þa mællti Kalli vid Asmund. oft talar þu at þer se mikil foruitnne a at sia hann Asbiorn selsbana. ek kann æigi skip at kenna ef hann siglir æigi her nu. Asmundr suarar. gerdu suo uel felagi ef þu kennir hann at þu segir mer til hans. þa rendzst hia skipin. þa mællti Kalli. þar er hann selsbani nuna uit styrit j blam kyrtli. Asmundr suarar. ek skal fa honum raudan kyrtil. Sidan skaut Asmundr spioti til Asbiarnar ok kom a hann midian ok flaug j gegnum hann ok stod j hofdafiolinne fast en Asbiorn stod daudr uit styrit. fara sidan huorirtueggiu læidar sinnar. Fluttu þeir lik Asbiarnar nordr a þrandarnes. þa let Sigridr senda eftir þori hund til Biarkeyiar. kom hann þa er buit uar lik Asbiarnar. en er menn foru j brott ualdi Sigridr monnum sinum giafar. Hon læiddi þori til skips ok adr þau skildu mællti hon. suo er nu þorir at Asbiorn son minn lyddi astsemdarradum þinum. nu uannzst honum æigi lif til at launa þer sem uert uar. nu þo at ek se verr tilfær en hann þa skal ek þo hafa uilea til. nu er her giof at ek uil gefa þer er ek uillde at þer kęmi uel at hallde. þat er spiot þat hit sama er stod j gegnum Asbiorn son minn ok er þat alblodugt. mattu þa helldr minnazst a at þat mun til hæfa spiotinu sár þat er þu sallt a Asbirni brodursyne þinum. nu yrdi þer skoruliga ef þu letir þetta spiot suo af hondum at þat stæde j briosti Olafi hinum digra. nu mæli ek þat um sem ek uilldi at væri at þu verdir huers mannz nidingr ef þu hefnir hans æigi. Sneri hon þa j brott. þorir uard suo ræidr ordum hennar at hann matti ongu ordi suara ok æigi gade hann af hondum at lata ok æigi gade hann bryggiunnar ok mundi gengit hafa a kaf ef æigi hefdi menn tekit til hans ok stutt[2] hann er hann gek vt a skipit. þat uar malaspiotit ecki mikit ok gullrekinn falr a. Roa þeir þorir þa j brott ok hæim til Biarkeyiar. Asmundr ok þeir felagar foru læid sina til þess er þeir kuomu sudr j þrandheim ok a fund Olafs konungs. sagde Asmundr huat til tidenda

[1]) þat *Cd.* [2]) studdi *Cd.*

hafde gerst j ferd hans. gerdizst Kalli þa hirdmadr Olafs konungs helldu þeir Asmundr uel sina vinattu. En ordtok þau er þeir Kalli ok Asmundr hofdu haft adr uig Asbiarnar yrdi þa for þat ecki leynt þuiat þeir sealfir sogdu konungi. en þat uar þar sem mællt er at huerr a ser vin med ouinum ok voru þeir þar sumir er sligt hugfestu ok kom þat firir þori hund j Biarkey.

Olafr konungr skipadi log ok landzrett.

179. Olafr konungr biozst um uorit er a leid ok bio skip sin. sidan for hann vm sumarit sudr med landi ok atti þing vid bændr. sætti menn ok sidade landit. tok konungsskylldir þar sem hann fór. for hann allt austr til landzenda. Hafde Olafr konungr kristnat landit þar sem stor herut voru. þa hafdi hann ok skipat lǫgum um allt land. hann hafde ok þa lagt undir sig Orknneyiar sem fyrr er sagt. hann hafde ok haft ordsendingar ok gert ser marga vine a Jslande ok Grænlandi ok suo j Færeyium. Olafr konungr hafde sent til Jslandz kirkiuvid ok uar su kirkia geor a þinguelle þar sem alþinge er. hann sende þar med klucku mykla. hon er enn þar. þat uar þa eftir er Jslendingar hofdu fært lǫg sin ok sett kristinn rett eftir þui sem Olafr konungr hafdi ord til sent. Sidan foru af Jslande margir metordamenn þeir sem handgeingnir gerduzst Olafi konungi. þorkell Eyiulfsson þorlæikr Bollason þordr Kolbæinsson þordr Barkarson þorgæirr Hauarsson þormodr kolbrunarskalld. Olafr konungr hafde sent vingiafar morgum hofdingium til Jslandz. en þeir sendu honum þa hluti er þeir uæntu at honum munde hellzst sending j þikia. En j þessu vinattumarki er konungr gerde til Jslendinga biuggu enn fleire hlutir undir sem sidar urdu berir.

Olafr konungr sendi þorarinn til Jslandz. capitulum.

180. [436] Olafr konungr sendi þetta sumar til Jslandz þorarinn Nefulfsson med eyrendum sinum. ok hellt þorarinn skipe sinu til Jslandz ok for vt ór þrandheimi ok fór fyst med Olafi konungi ok fylgdi honum sudr a Mæri. siglde þorarinn þa a haf ok fek mikit radbyre suo at hann siglde .viij. dęgr til þess er hann tok Eyrar a Jslande ok for þegar til alþingis. ok kom þar er menn voru at logbergi ok gek hann þegar til logbergs. En er menn hofdu þar mællt logskil þa tok þorarinn til mals. ek skildumzst vid Olaf konung firir .iiij. nottum. hann sendi quediu hingat til landz ollum hofdingium ok landzstiornarmonnum ok þar med allri alþydu kalla ok kuenna ungum monnum ok

gômlum sælum ok uestlugum quediu guds ok sina ok þat med at hann uill uera til allra hluta yduarr drottinn ef þer vilit vera hans þegnar en huorir annarra vinir ok fulltingsmenn. Menn suorudu uel male[1] hans ok sogduzst aller uilia vera vinir konungs ef hann væri uinr þeirra. þa tok þorarinn til mals. þat fylgde quediusending konungs at hann bæiddizst vinattu af Nordlendingum at þeir gæfui honum ey edr utsker er liggr firir Eyiafirde ok menn kalla Grimsey. uill konungr þar j moti uæita þau gæde af sinu lande sem menn kunna at bæida. en sendi ord Gudmunde a Môdruuollum at flytia þetta mal þuiat hann hefir þat spurt at Gudmundr rædr þar mestu. Gudmundr suarar. fuss er ek til vinattu Olafs konungs ok ætla ek mer þat til myklu meira gagnns en æitt utsker þat er hann bæidizst. en þo hefir konungr þat æigi rett spurt at ek eiga meira rad en adrir þuiat þat er nu almenningr gerr. nu munu uer æiga stefnnu uor j mille þeir menn er mest hafa gagnn af eyiunne. Ganga menn sidan til buda. Eftir þat æiga Nordlendingar stefnu sin a mille ok toludu þetta mal. lagdi huerr til sligt er syndizst. uar Gudmundr flytiande malsins ok sneru þar margir eftir þui. þa spurdu menn hui Æinarr brodir hans legdi ecki til. þikir oss hann segia þeir flest kunna gerlla at sia. Æinarr suarar. þui er ek faræfinn um þetta mal at mig hefir æinge at kuatt. en ef ek skal segia mina ætlan þa hygg ek at sa muni til vera herlandzmonnum at ganga undir ôngar skattgiafar vid Olaf konung ok adrar alogur slikar sem hann hefir j Noregi ok munu ver æigi gera æinum oss til handa helldr sonum uorum ok þeirra sonum ok allri ætt uorri þeirri er þetta land byggir. ok su anaud mun alldri huerfa af þessu landi. en þo at þessi konungr se godr madr sem ek trui uel at se þa mun þat þo fara hedan sem hingat til þa er konungaskipti verda at þeir verda misgodir sumir godir en sumir illir. en ef landzmenn her vilea hallda frelsi sinu þui er þeir hafa haft sidan land þetta bygdizst þa mun sa til vera at lea konungi æinkis mals a huorki um landzæignn her ne um þat at giallda hedan akuednar skylldur þær at lydskylldur megi metaz. en hitt kalla ek uel fallit at menn sendi konungi uingiafar þeir er þat vilea gera. hauka edr hesta tiolld edr segl edr adra goda gripe þa er sæmiligir eru. er þui þa uel uarit ef uinatta fylgir. en um Grimsey er þat at tala ef þadan er æinge hlutr hafdr sa er til matarfanga se þa ma þar fæda her mannz ok ef þar er utlendr herr ok fari þeir þadan med langskipum þa ætla ek at môrgum kotbondum muni þickia þrôngt firir dyrum. Ok þegar at Æinarr hafde þetta mællt ok int allan vtueg þenna þa voru allir snunir til æins samþyckis at þetta

[1]) malade *Cd.*

skyllde alldri fazst. sa þorarinn þa eyrendislok sin um þetta mal. þorarinn gek annan dag til logbergs ok mællti þa enn eyrendi konungs ok hof suo. Olafr konungr sende ord vinum sinum hingat til Jslandz ok nefndi til þess Gudmund Eyiulfsson Snorra goda þorkel Eyiulfsson Skapti lögsögumadr þorstæinn Hallzson. hann sendi ydr ord til þess at þer skylldut koma a fund hans ok sækia þangat vinattubod. mællti hann þat at þer skylldit æigi þessa ferd undir hofut leggiazst ef ydr þætti nockut undir um hans vinattu. þeir suorudu þui male suo. þockudu konungi bod sitt en sogduzst segia mundu þorarni sidan um ferdir sinar þa er þeir hofdu radit firir ser ok um radizst uit uine sina. En er hofdingiar toludu rad sin þa sagdi huerr sem syndisst um ferdir sinar. Snorri godi ok Skapti lögsögumadr löttu þess at leggia a þa hættu uit Noregskonung at allir senn færi af Jslandi þeir menn er mest redu firir landinu. sogdu þeir at af þessi ordsending þottu þeim grunir af dregnir um þat er Æinarr hafde getit at konungr munde ætla til nockurra pyndinga vit Jslendinga ef hann mætti rada. Gudmundr ok þorkell fystu miog at skipazst uel uit ordsending konungs kolludu þat uera mundu sæmdarför mykla. En er þeir toludu þetta a mille sin þa stadfestizst þat med þeim at þeir sealfir skylldu [437] huergi fara en huerr þeirra skyllde fa mann firir sig þann er þeim þætti bezst til fallinn. ok skiliazst vid suo buit a þui þinge ok urdu ongar utanferdir a þui sumri. þorarinn for tuiuegis um sumarit ok kom um haustit a fund Olafs konungs ok sagdi honum sin eyrendi slik sem voru ok suo þat med at hofdingiar mundu koma af Jslande suo sem hann hafde ord til sent edr synir þeirra ella.

---

## FÆREYINGA ÞATTR OK OLAFS KONUNGS.

Rettliga hafa frodir menn suo ritat ok sannliga sagt at Olafr konungr hafui skattgilld öll þau lond er nu liggia undir Noreg vtan Jsland. fyst Orknneyiar Hiatland Færeyiar ok Grænland sem fyrr var ritat um Orknneyiar. ok er suo sagt at a .ix. ari hans konungdoms komu af Færeyium til Noregs at ordsendingu Olafs konungs Gille logmadr Læifr Ozsorarson þoralfr ór Dimon ok margir adrir bondasynir. þrandr ór Gotu biozst til ferdar en er hann uar buinn þa tok hann fellisott sua hann matti huergi fara ok d(u)aldizst hann eptir. En er þeir

Færæ(y)ingar kuomu aa fund Olafs konungs þa kallar hann þa a tal ok atti uid þa stefnu. lauk hann þa upp erende sin uit þa erendi þau er unndir biuggu ordsenndingunni ok sagde þeim suo at hann uill hafua skatt af Færæyum ok þat med at Færæyingar skilldu hafua þau laug sem Olafr konungr setti þeim. en j þessi stefnu fanzt þat a ordum konungs at hann mundi taka festu til þessa mals af þeim Færeyingunum er þa voru þar komner ef þeir villdi þat mal suardaugum binnda. baud þeim monnum sem þar voro komnir ef þeir uilldu þenna kost at þeir er gofgazstir væri af þeim skylldi gerazst handgengnir ok þiggia af honum metord ok vinattu. Hinum færeyskum monnum virduzst suo ord konungs sem grunir mundu a uera huernn ueg þetta mal mundi snuazst ef þeir villde æigi undir þat ganga er konungr bæiddi. en þo at til þess mals væri flæire stefnur lagdar þa vard þat allt framgæingt er konungr bæiddizst. gæingu þeir til handa konungi ok gerduzst hans hirdmenn Læifr gille ok þoralfr en allir þeir Færeyingar uæittu suardaga Olafi konungi til þess at hallda þau lǫg j Færeyium ok þann rett er hann setti þeim ok skattgillde þat er hann quat a. Sidan biugguzst hinir færeysku menn til heimferdar. en at skilnade uæitti konungr þeim uingiafir er honum hofdu handgeingnir gerst. fara þeir ferdar sinnar þa er þeir eru bunir. en konungr let bua skip ok fek menn a ok sendi þa menn til Færeyia at taka þar vid skatti þeim er þeir Færeyingar skilldu giallda honum. þeir urdu snembunir ok er þat fra þeirra ferd at segia at þeir koma æigi aftr ok æinge skattr a þui sumre er næst var eftir. segia (menn) at þeir hafa ecki komit til Færeyia hafde þar ok æinge madr skatt hæimtan.

## Fra S(igurdi) ok þ(randi) (i) G(ǫtu).

182. Uor þat hofdu farit af Noregi skip til Færeyia. a þui skipe foru ordsendingar Olafs konungs til þess at koma skylldu utan af Færeyium æinnhuerr þeirra hirdmanna hans Leifr Ozorarson Gilli lǫgmadr þoralfr ór Dimon. En er þessi ordsending kom til Færeyia ok þeim uar sagt þa rada þeir sin a mille huat undir mun bua ok kom þat asamt med þeim at þeir hugdu at konungr mundi uilea spyria eftir um þau tidende er sumir menn hofdu firir satt at þar mundu gerst hafa j eyiunum um misfarar sendimanna konungs þeirra tueggia skipa er æinge madr hafdi af komizst. þeir redu þat af at þoralfr skyllde fara. redzst hann til ok bio byrding er hann atti ok aflade þar til manna. voru þeir a skipe .x. menn edr .xij. En er þeir voru bunir ok bidu byriar þa var þat tidenda j Austrey at æinnhuernn godan vedr-

dag gek þrandr j stofu en þeir lagu j pallinum Sigurdr ok þordr ok Gautr. þa mællti þrandr. mart verdr a mannz æfinne. otijtt uar þat þa er menn voru ungir at sitia edr liggia uedrdaga goda þeir menn er til allz eru uel færir. ok æigi mundi þat liklict þikia hinum fyrrum monnum at þoralfr ór Dimon mundi uera meiri þroskamadr en þer. en byrdingr sa er ek hefui att ok her stendr j nausti ætla ek at hann gerizst suo fornn at hann funi undir bradinu. er her huert hus fullt af ullu ok uerdr ecki til verdz halldit. mundi æigi suo ef ek væri nockurum uetrum yngri. Sigurdr hliop vt ok het a þord ok Gaut quazst æigi þetta fryiuord standazst uilia. þeir ganga vt ok þar til er huskallar voru ganga til ok setia fram byrding. letu þa til flytia farm ok hlodu skipit ok biuggu þat a fam dǫgum. voru þeir ok .x. menn edr .xij. a skipe. toku þeir þoralfr vt æitt uedr aller ok vissuzst til iafnan j hafinu. þeir komu at lande er myrkr var j Hernu. logdu þeir Sigurdr utar firir strondinne ok var þo skamt [433] a mille þeirra. þat uar til tidenda um kuelldit er myrkt var ordit at þeir þoralfr ętla til reknna at buazst. þa gek þoralfr a land upp ok annarr madr med honum ok leitǫdu ser stadar. en (er) þeir voru bunir ofan at ganga þa sagde sa er honum fylgde ath kastat uar klæde yfir hofut honum ok tekinn upp af iordu. j þui bile heyrdi hann brest. sidan var farit med hann ok ræiddr til fallz en þar var undir sior ok uar hann keyrdr a kaf. en er hann kom a land for hann þar til er þeir þoralfr hofdu skilit. hann fann þoralf ok uar hann þa klofinn j herdar nidr ok uar þa daudr. En er skipueriar þoralfs urdu þessa uarir þa baru þeir lik hans vt a skip ok nattsettu þar. þa uar Olafr konungr a uæitzslu j Lygru. voru honum þegar ord ger. uar þa stefnt ǫruarþing ok uar konungr a þinginu. hann hafde þangat stefnna latit þeim Færeyingunum af badum skipunum ok voru þeir til þings komnir. En er þingit uar sett þa stod konungr upp ok mællti. þau tidende er her eru ordin er þui betr at slik eru sialldheyrd. her er af lifui tekinn godr dræingr ok hyggiu ver at saklaus se edr er her nockurr sa madr a þinginu er þat kunni at segia huerr ualldr er uerks þessa. En þar gek æinge uit. þa mællti konungr. ecki er þui at leyna huerr minn ahugi er um uerk þetta at ek hygg a hendr þeim Færeyingum. þiki mer þann ueg hellzst at unnit sem Sigurdr þorlaksson hafui uegit manninn en þordr lagi hafui manninn a kaf fært. en þat fylgir at ek get þess til at þat muni til vera fundit at þeir mundi æigi uilea at þoralfr segdi eftir þeim þær odadir er hann mun hafa vitat at satt er en oss hefir verit grunr a um mord þau ok illuirke er sendimenn miner hafa þar myrdir verit. En er kon-

16*

ungr hætti tali sinu þa stod upp Sigurdr þorlaksson ok mællti. ecki hefui ek talat fyrr a þingum man ek þui ecki ordfærr vera miog en þo ætla ek nu ærnna naudsyn til bera at suara nockuru. uil ek þess til geta at ræda þessi er konungr hefir nu upp borit man uera komin undan tungurotum þeirra manna er myklu eru ouitrari en hann ok uerri. en þat er ecki leynt at þeir eru sanner vorir ouinir. er þat ok olikliga mællt at ek mundi vilia vera skadamadr þoralfs þuiat hann var fostbrodir minn ok godr uin. en ef þar væri nockur ðnnur efni j ok væri sakir mille ockar þoralfs þa er ek suo viti borinn at ek mundi helldr til þessa uerks læita hæima j Færeyium en her undir handariadri ydrum konungr. nu uil ek þessa mals synia firir mig ok firir alla oss skipveria. uil ek þar bioda firir æida suo sem lðg ydr liggia til. en ef ydr þikir hitt fullara þa uil ek bera jarnn ok uil ek at þer set sealfir vid skirsluna. En er Sigurdr hætti tali sinu þa urdu margir til flutnings vid konung at Sigurdr skyllde na undanfærslu. þotti Sigurdr hafa uel talat ok sogdu hann usannan mundu uera at þui er honum uar kent. Konungr suarar. um þenna mann man tuena skipta ok ef hann er loginn þessi sðk þa man hann uera godr madr en at ðdrum kosti man hann vera nockuru diarfari en dęmi munu finnazst til ok er þat æigi minnr mitt hugbod en þo get ek at hann sealfr beri ser uitni her um. En uit bæn manna þa tok konungr festu af Sigurdi til iarnnburdar. skyllde hann koma um morgininn eftir til Lygru skyllde byskup þar gera honum skirslu. ok slæit suo þinginu. for konungr aftr j Lygru en Sigurdr ok forunautar hans aftr til skips sins. Tok þa bratt at myrkua af nott. þa mællti Sigurdr til forunauta sinna. þat er satt at segia at ver hofum komit j mikit vandkuædi ok vordit firir mikille alygi ok er konungr sea brogdottr ok man audsærr vorr kostr ef hann skal rada. let hann fyst drepa þoralf en nu uill hann gera oss at obotamonnum. er þeim litit firir at uilla jarnnburd firir oss. nu ætla ek þann uerr hafa er til þess hættir vid hann. nu legzst innan eftir sundinu fiallagol. ræd ok þat at ver uindum segl uort vid hunboru ok stefnum vt a haf. fari þrandr sealfr annat sumar at selia ull sina ef hann uill. en ef ek komumzst j brott þa þiki mer þess von at ek koma alldri sidan til Noregs. þeim Færeyingum þotti þetta sniallrædi. taka þeir at setia upp segl sitt ok lata ganga um nottina j haf vt sem mest mega þeir. letta þeir æigi fyrr en þeir koma til Færeyia. let þrandr illa yfir þeirra ferd. þeir suorudu æigi uel.

Karl hinn mærski kom til Olafs konungs.

183. Bratt spurde Olafr konungr þat er þeir Sigurdr voru j brottu. þa lagdizst þung umbræda a ferd þeirrą. voru þeir sumir at þa kolludu þess von at þeir Sigurdr mundu sônnu sagdir er adr hofdu syniat firir þa. Olafr konungr uar faordr um þetta mal en þottizst þo uita sannynde a þui er adr hafde hann grunat. for hann þa ferda sinna ok tok uæitzslur er honum voru bunar. Olafr konungr biozst vm vorit ór Nidarose ok drozst lid at honum mikit bæde þar ór þrandheimi ok vidara annarstadar nordan or lande. en er hann uar buinn ferdar sinnar þa for hann at lide sinu fyst sudr a Mæri ok hæimti saman læidangurslid sitt ok for suo ór Raumsdal. sidan for hann a Sunnmæri [439] ok la hann j Hereyium ok bæid lidsins. atti þa oftliga husþing kom þar mart til eyrnna honum þat er honum þotti þurfa. þat uar a æinu þinge er hann atti at hann hafdi þat mal uppi. sagde fra mannskada þeim er hann hafdi fæingit j Færeyium. en skattr segir hann er þeir hafa mer hæitit þa kom æigi fram. nu ætla ek þangat menn at senda eftir skatt. Uæik hann þessu mali til ymisra manna at til þeirrar ferdar skylldu buazst. en þar komu þau suor a moti at menn tolduzst undan ferdinne. þa stod madr upp a þinginu mikill ok uaskligr sa hafdi raudann kyrtil hialm a hofdi ok gyrdr suerdi ok hôggspiot j hende. hann tok til mals þat er satt at segia quat hann at her er mikill munr manna er þer æigit konung godann en hann þræla illa. þer kuedit næi vid sendifôr er hann vill senda ydr en þer hafit þegit af honum adr vingiafir ok marga sæmiliga hluti. en ek hefui verit her til æinge konungs vinr hefir hann verit ouin minn telr hann at sakar se til þess. nu uil ek bioda ydr konungr at fara ferd þessa ef ecki eru uilldare fông a. Konungr suarar. huerr er þessi madr hinn dræingiligi er suarar voru male ok hefir þu mikit firir adra menn þa er her eru. þu baudzst til ferdar en þeir tolduzst undan at ek hugda at uel mundu uit skipazst. en ek kann a þer æinge deili ok æigi uæit ek enn nafnn þitt. Hann suarar. nafnn mitt er ecki uant konungr. þess er mer uon at þer munut heyrt hafua mik nefndan ek er kalladr Karll hinn mærski. Konungr suarar. suo er Karll heyrt hefui ek þin getit ok er þat satt at segia at verit hafa þær stundir at ef fundi ockra bæri saman er þu mundir ecki kunna at segia fra tidendum. en nu skal ek æigi uerr hafa en þu at þu bydr mer lidsemd þina at ek skal leggia j moti aufusu ok skalltu Karl koma til min j dag ok uera þar j bode minu skulu vid þa tala um þetta mal. Karl suarar at suo skal vera. ok uar nu slitit þinginu.

### Karl hinn mærski sættiz vid konung.

184. Karl hinn mærski hafde verit vikingr mikill ok hinn mesti ransmadr ok hafde konungr miok oppt giorua menn til hans ok villde hann af lifi taka. enn Karl hinn mærski uar ættstor ok mikill jþrottamadr um marga hluti. En er Karl uar radinn til ferdar þessarrar þa tok konungr hann j sætt ok þar næst j kærleik vid sig let bua ferd hans sem bæzst. voru þar þa a skipi .xx. menn. konungr gerdi ordsennding til uina sinna j Færæyium sennde Karl til hallz vid sigh þar er var Leifr Ozaurarson ok Gilli lögmadr. sendi hann til þess iartæignir sinar. For Karll þegar hann uar buinn byriade þeim vel ok komu til Færeyia ok lagu j þorshofnn j Straumsey. Sidan uar þar þing stefnnt ok kom þar fiolmennt. þar kom þrandr ór Gôtu med flok mikinn. en er þeir hofdu tialldat ok umbuizst þa geingu þeir til fundar vid Karll hinn mærska. voru þar kuediur godar. sidan bar Karll fram ord ok iartæignir Olafs konungs ok uinmæli (til) þeirra Læifs ok Gilla. þeir toku þui uel ok budu Karlli til sin ok at flytia eyrendi hans ok uæita honum sligt eyrendis traust sem þeir hefdi fông a. tok hann þui þaksamliga. Litlu sidar kom þar þrandr ok fagnnadi uel Kalli. er ek segir hann feginn ordinn er slikr dreingr hefir hingath komit til landz med eyrendi konungs vors er ver erum allir skylldir undir at ganga. uil ek ecki annat en þu farir til uetruistar med mer ok þat allt med þer þins lids er þu uill ok þinn uegr er þa meiri en adr. Karll segir at hann uar radinn at fara til Læifs en ek munda elligar fusliga þetta bod þiggia. þrandr suarar. þa mun Læifi audit verda uegsemdar af sliku. en eru nôckurir adrir hlutir at ek mega suo gera at ydr se lidsemd at. Kall segir at honum þotti mikit uæitt j at þrandr drægi saman skatt vm Austrey ok suo um allar Nordreyiar. þrandr segir at þat var skyllt ok hæimillt at hann væitti þann bæina at ordsending konungs. gek þrandr þa aftr til budar sinnar. uard a þui þinge ecki flæire tidende. For Karll til vistar med Læifi Ozorarsyne ok uar hann þar vm uetrinn. hæimti Læifr skatt saman vm Straumsey ok um allar eyiar sudr þadan. Um uorit eftir fek þrandr uanhæilsu mykla hann hafde augnauerk mikinn ok þo adrar kramar myclar en þo biozst hann til þings sem hann var uanr. en er hann kom a þing ok bud hans uar tiolldut þa let hann tiallda undir suortum tiolldum innan af til þess at þa væri sidr skirdræfth en adr. En er dagar nockurir uoru lidnir af þinginu þa ganga þeir Leifr ok Karll til budar þrandar ok voru fiolmennir.

### Karl sok feit af þeim frændum.

185. Nu komu þeir at budinne þrandar þa stodu þar vti nockurir menn. Leifr spurde huort þrandr væri at bud. þeir kuodu hann þar vera. Leifr mællti at þeir skylldu bidia hann vt ganga. æigu uid Kall eyrendi vid hann. En er þeir komu aftr segia þeir at þrandr hefir þann augnnauerk at hann mætti ecki vt [440] ganga ok bad þa Leif at þeir skylldu inn ganga. Leifr mællti vid foruneyti sitt at þeir skylldu fara uarliga þa er þeir kæmi j budina. þraunguizst æigi ok gangi sa fystr vt er sidazst kemr inn. Leifr gek fyrst inn ok þar næst Kall ok hans forunautar ok foru med aluæpnni sem þa er þeir skylldu til bardaga buazst. Læifr gek inn at hinum suortum tiolldum ok spurde hann huar þrandr væri. þrandr suarar ok hæilsar Læifi. hann tok quediu hans. Leifr spurde huort hann hefde nockurnn skatt heimtan or Nordreyium eda huerr greidi a munde verda um silfr þat. þrandr suarar at honum hafde þat ekki or hug geinngit er þeir Karl haufdu uid mællz ok sagde at greide munde at gerazst vm skattinn. her er siodr Leifr er þu skallt vid taka ok er silfr j. Leifr sazst vm j budinni ok sa fatt manna. þar lagu menn j pallinum en fair satu vpp. sidan gek Leifr til þrandar ok tok uid siodnum ok bar utar j budina þar er liost var ok steypti silbrinu a skiolld sinn ok rotar j hende sinni ok mællti at Karl skillde sia feit. þeir litu a vm stund. þa spurde Karl huersu Leifi litizst feit. Hann suarade at. huerr hygg ek at illr se sem her er j af þeim peningum sem her (er) um at velia j Nordreyium. þrandr heyrde þetta ok mællti. (þiki) þer eigi gott feit. Leifr suarar. suo er segir hann. þrandr mællti. eigi eru þeir medalmannnidingar frændr minir er þeim ma til æinkis trua. hefui ek sent þa j uór at hæimta skatt um Nordreyiar þuiat ek hefui til æinkis færr verit j vor. en þeir hafua tekit mutur af bondum at taka falssilfr j skattinn þat er æigi þikir tækt. ok er næst Leifr at sea þat fe er golldit hefuir verit j landskylldir minar. Bar Leifr þa aftr silfrit tok vid siod odrum ok bar til Kalls ok ransokudu þeir þat fe. spurde Karl þa huersu Leifi litizst þat fe. Uont segir hann ok æigi suo at um þær skylldir er ouannliga er firir mællt at æigi uerdi sligt (tekit) en æigi uil ek þetta fe taka til handa Olafi konungi. Madrinn sa er la j pallinum kastade felldi af hofdi ser ok mællti. satt er þat hit fornnkuedna. suo ergizst huerr sem elldizst. suo ferr þer ok þrandr at þu lætr Karll hinn mærska reka fe firir þer j allan dag. þar var Gautr hinn raude. þrandr hliop upp vit ord Gautz ok vard malode ok væitti storar atolur frændum sinum. en er hann hætti mællti hann at lyktum at Leifr skyllde selia honum þat fe. en

tak her vid siod at landbuar minir hafa fært mer hæim j vór. en þo at ek se oskyggnn þa er þo[1] sealfs hond huerium holluzst. Madr ræis upp j pallinum (var) þar þordr lagi ok mællti. æigi hliotum ver medalordaskuak af honum Karli hinum mærska ok væri launa firir vert. Leifr tok vid silfrinu ok bar þegar firir Karl. sa þeir fet. þa mællti Leifr. æigi þarf lengi at sea þetta silfr her er huerr peningr odrum betri ok vilium uer þetta fe hafa. fa þu til mann at sia er uegit er. þrandr suarar at honum þætti þat bezst til fæingit at Læifr sæi firir hans hond. geingu þeir Læifr þa vt ok skamt fra budinne settuzst þar nidr ok uogu silfrit. Karll tok hialminn af hofdi ser ok hellti þar j silfrinu er uegit var. þeir sa mann ganga hia ser ok hafdi refdi j hende[2] hott sidan a hofde heklu græna ok berfættr ok knytt linbrok at bæine. hann setti nidr refdit j uollinn ok gengr fra ok mællti. se vid Mærakarll at þer verdi æigi mæin at refdi minu.

## Drepin Karl.

186. Litlu eftir þetta komu þar menn aluopnadir ok akafliga kallande at Læifr Ozorarson færi sem skiotazst til budar Gilla lôgmannz. þar hliop inn vm tialldskarar Sigurdr þorlaksson ok hefir særdan mann hans til olifis. Læifr hliop upp ok gek þegar j brott ok til fundar vid Gilla logmann. gek med honum allt budarlid hans en Karll sat eftir. þeir Austmennirnir stodu j hring um hann. Gautr hinn raudi hliop at ok hio med handexi yfir herdar monnum ok kom hôgg þat j hofut honum Karlli ok vard sar þat ecki mikit. þordr lagi greip upp refdi þat er stod j uellinum ok laust ofan a ôxarhamarinn suo at ôxin stod j hæila. þusti þa fiolde manna ór bud þrandar. Karll var þadan daudr borinn. þrandr let yfir þessu verki hit versta en baud fe til sætta firir frændr sina. Leifr ok Gilli geingu at eftirmali ok kom þar æigi febotum firir. uard Sigurdr utlægr firir auerka uit þann budarmann Gilla er hann hafdi a unnit en þordr ok Gautr firir uig Karlls. Austmenn biuggu skip sitt þat er Karll hafdi þangat haft ok foru aftr a fund Olafs konungs. en þess uard æigi audit at hefnd kæmi fram firir vfride þeim er þa gerdizst j Noregi ok sidarr mun fra verda sagt. Ok er nu lokit at segia fra þeim tidendum er urdu af þui er Olafr konungr hæimti skatt af Færeyium. en þo gerduzst dæilur sidan j Færeyium eftir Karl mærska ok attu(zst) þa vid þrandr or Gotu Leifr Ozsorarson ok Gilli logmadr. ok eru fra þui storar frasagnir sem enn mun sagt verda.

[1]) þa *Cd.* [2]) annar þeirra *tilf. Cd.*

Sætt þeirra Færeyingha ok þrandar.

187. Eftir uig Karlls mærska ok auerka uid budarmann Gilla logmannz voru þeir brottreknir ok geruir ór Færeyium Sigurdr þorlaksson þordr lagi Gautr raude frændr þrandar. þrandr fek þeim skip haffæranda ok fe nockut ok þottuzst þeir litiliga af hondum leystir. hafa þeir atȯlur myclar vid þrand sogdu at hann hafde [441] undir sig dregit fodurarf þeirra en midlade þeim ecki af. þrandr sagdi þa myklu mæira hafa en þeir ætti. sagdizst hafa annazst þa lengi ok midlat þeim oft fiarhluti en illa j þok lagit. Nu lata þeir Sigurdr j haf ok eru .xij. menn saman a skipe ok er þat ord a at þeir ætli at hallda til Jslandz. ok er þeir hafa skamma stund j hafui verit þa rekr a storm mikinn ok hellz uedrit nærr uiku. þat vissu allir þeir er a landi voru at þetta uar þeim Sigurdi j moti sem mest ok sagdi monnum vuænt hugr um þeirra ferd. ok er aleid haustit funduzst rekar af skipi þeirra j Austrey ok er uetr kom gerduzst afturgaungur myklar j Gȯtu ok vida j Austrey ok synduzst þeir oft frændr þrandar. ok uard monnum at þessu mikit mein sumir fengu bæinbrot edr ȯnnur meitzsl. þeir sottu þrand suo miog at hann þordi huergi æinn at ganga vm uetrinn. var nu mikit ord a þessu. Nu er a læid uetrinn sendi þrandr ord Leifi Ozsorarsyni at þeir skylldu finnazst. ok suo gera þeir. ok er þeir finnazst mællti þrandr. ver hittum j fyrra sumar fostri j uandrædi mikil at vid þui uar buit at allr þingheimrinn mundi beriazst a. nu uillda ek fostri minn sagdi þrandr at þat væri logtekit gert med ockru rade at menn hefdi alldri uopnn til þings þar er menn skulu lȯgskil sin tala ok spectarmal. Leifr quat þetta uel mællt. ok skulu vit her vid hafa rad Gilla lȯgmannz frænda mins. þeir voru systrasynir Gilli ok Leifr. Nu finnazst þeir allir saman ok tala þetta med ser. Gilli suarar suo Leifi. brigt þiki mer at trua þrandi ok munu vit þui iata at handgengnir menn allir hafui uopnn sin ok nockurir þeir er ockur fylgia en almenningr se uopnnlaus. Nu rada þeir þetta med ser til stadar. Lidr nu af uetrinn ok koma menn til þings vm sumarit j Straumsey. nu er þat einn dag at þeir Gilli ok Leifr ganga fra budum sinum a æina hæd er var a eyiunne ok talazst þar vid. ok nu sia þeir austr a eyna undir solina at a hofda þann er þar var ganga upp menn æigi allfair þar til er þeir sea .xxx. manna. þar blika vid solskininu skilldir fagrir ok hialmar skrautligir ȯxar ok spiot ok uar þat lid hit hardligsta. þeir sea at madr gek firir mikill ok uaskligr j raudum kyrtli ok hafde halflitann skiolld blan ok gulan hialm a hofdi ok hoggspiot mikid j hende. þeir þottuzst þar kenna Sigurd þorlaksson. þar gek madr hid

næsta honum þrekligr j raudum kyr(t)li ok hafdi raudan skiold. at visu þottuzst þeir þenna kenna at þar var þordr lagi. hinn þride madr hafde raudan skiǫld ok dreginn a mannfae[1] ok mikla auxi j hennde þar var Gautr raude. þeir Leifr geingu nu skiott heim til buda sinna. þa Sigurd ber bratt at ok eru þeir allir vel uapnadir. þrandr geingr vr bud sinni moti þeim Sigurdi ok margt manna med honum ok hans menn med uapnum allir. þeir Leifr ok Gilli hofdu fatt manna hia þui sem þeir þrandr ok var þess mestr munr er þeir hofdu fair æinir uop(n). þeir þrandr ok frændr hans geingu at flocki þeirra Leifs. þa mællti þrandr. suo er hattat Leifr fostri quat hann at her eru komnir frændr minir ok foru skyndiliga næst ór Færeyium. nu nenni ek æigi at ver frændr farim suo halloki firir yckr Gilla. eru her .ij. kostir firir hondum sa annar at ek dęma æinn yduarr a mille. en ef þer vilit þenna æigi þa man ek æigi hepta þa at þui er þeir vilia at hafazst. þeir Leifr sia at þeir hafua ongan lidskost at sinne vid þeim þrandi. taka nu þenna kost at handsala oll mal j dom þrandar ok lykr hann þegar gerd upp segir at hann mun ecki sidarr uitrari. er su gerd min segir þrandr at ek vil at þeir frændr minir se frialsir at vera þar j Færeyium sem þeim likar þo at þeir hafui adr verit brott geruir. en fe uil ek af huorigum gera. riki þau er her ero j Færeyium vil ek þat skipti a gera at ek hafui þrid(i)ung annan Leifr þridea synir Sigmundar. hafua riki þessi leingi at ǫfund ordit ok bitbæinum. þer Læifr fostri segir þrandr vil ek bioda barnnfostr ok fostra Sigmund son þinn. vil ek enn gera þat til gods vid þig. Leifr suarar. þat vil ek at barnnfostr þat se undir atkuædum þoru huort hon uill at son hennar fari til þin edr se hann med ockr. Skilia vid suo buit. ok er þora væit um fostrit þa suarar hon. suo ma vera at mer litizst þat enn annan veg. en æigi mun ek kiosa undan Sigmunde syne minum þat fostr ef ek skal rada þuiat mart þiki mer þrandr hafa firir flesta menn. Sigmundr son þoru ok Læifs for j Gǫtu til fostrs til þrandar. hann var þa þreuætr at alldri ok hit vænligsta mannzefnni ok ox hann þar upp.

þordr feck Jsridar modursystr Olafs konungs.

188. Olafr konungr for um haustit inn j Vikina ok gerdi ord firir ser til Upplanda ok let bua uæitzslur firir ser ok ætladi hann at fara vm uetrinn vm Upplǫnd. sidan byriade hann ferd sina ok for til Upplanda for þar at uæitzslum ok leidretti þa hluti er honum þotti abota vant. samdi [442] hann þa enn kristnina þar sem honum þotti

[1]) mannfas *Cd.*

þurfa. þat gerdizst til tidenda þa er konungr var a Hæidmork at Ketill kalfr af Hringunese hof upp bonord sitt. hann bat Gunnhilldar dottur Sigurdar syrs ok Astu modur Olafs konungs. atti Olafr konungr suor ok forrad þessa mals um Gunnhillde systur sina. tok hann þessu mali vænliga. var þat firir þa sok at hann visse at Ketill var madr ættstorr ok audigr vitr madr ok hofdinge mikill sem her er fra sagt. þetta allt saman bar til þess at konungr unne rads þessa Ketli. var þetta framgæingt at Ketill fek Gunnhilldar ok uar konungr sealfr at þeirre væitzslu. Olafr konungr for þadan nordr j Gudbranzdale tok þar uæitzslur. þar bio sa madr er þordr het ok uar Guthormsson hann bio a bæ þeim er a Stæig hæitir. þordr uar rikazstr j hinn nedra hlut dalanna. en er þeir Olafr konungr hittuzst þa hof þordr upp bonord sitt ok bat Jsridar Gudbranzdottur modursystur Olafs konungs. atti konungr suor þessa mals. En er at þeim malum uar setit þa uar þat af radit at þau rad tokuzst ok fek þordr Jsridar. gerdizst hann sidan oludarvin Olafs konungs ok þar med frændr hans ok uinir þeir er eftir honum hurfu. For Olafr konungr þa sudr aftr um Hadaland ok þotnn þa um Hringariki ok þadan vt j Vikina. for hann til Tunbergs um uorit ok dualdizst þar lengi medan þar var kaupstefna sem mest ok tilflutningar. let hann þa bua skip sin ok hafdi hann med ser fiolmenni mikit um sumarit.

### Steinn ok þoroddr komu til konungs.

189. Sumar þetta kom af Jslande at ordsendingu Olafs konungs Stæinn Skaptason þoroddr son Snorra goda Gellir þorkelsson Egill son Sidu Hallz. Gudmundr Eyiulfsson hafdi anndazst adr um uetrinn. hinir islenzsku foru þegar a fund Olafs konungs er þeir mattu ok fengu þegar godar vidtokur ok voru allir med konungi.

---

## ÞAATTR ÞEIRRA KONUNGANNA OLAFS OK KNUTZ.

Sva er sagt at Knutr hinn riki er sumir menn kalla Knut hinn gamla væri j þenna tima konungr yfir Æinglandi ok yfir Danmorku. Knutr var son Sueins tiuguskeg(g)s Haralldzsonar. þeir langfedgar hǒfdu radit langa æfui firir Danmork. Haralldr Gormsson fǒdurfadir Knutz konungs hafde æignazst Noreg eftir fall Haralldz Gunnhilldar-

sonar ok tok skatta af. setti hann þa til landgætzslu Hakon jall hinn rika. Sueinn Danakonungr son Haralldz red ok firir Noregi ok setti yfir til landgætzslu Æirek jall Hakonarson. redu þeir brædr þa landi ok Sueinn Hakonarson til þess at Æirekr jarll for til Æinglandz at ordsendingu Knutz hins rika mags sins en setti til rikis Hakon son sinn ok systurson Knutz hins rika. En sidan Olafr konungr Haralldzson kom j Noreg þa kom hann (til) Sigurdar syrs mags sins ok efldizst þadan. tok hann þa fyst hondum Hakon jall ok setti hann af riki suo sem fyrr er ritat. for Hakon jall þa til Knutz modurbrodur sins ok hafde verit met honum alla stund sidan til þess er her er komit sogunne. Knutr hinn riki hafde æignazst Æingland med orrostum ok barizst til ok hafde hann þar haft langt starf adr en landzfolkit væri hlydit ordit. en er hann þottizst fullkominn þar til landzstiornar þa minntizst hann huat er hann þottizst æiga þess rikis er hann hafde æigi sealfr varduæitzslu en þat var j Noregi. hann þottizst æiga at erfdum allan Noreg en Hakon systurson hans þottizst æiga suman ok þar med þottizst hann hafua latit virdingina. Sa var æinn hlutr til þess er þeir Knutr (ok) Hakon jarll hofdu kyrru halldit um tilkall j Noreg. þat fyst at Olafr konungr Haralldzson kom j land hliop upp allr mugr ok margmenni ok uilldu ecki heyra annat en Olafr væri einn konungr yfir ollu landi. en þa er menn þottuzst vera osialfradir firir riki konungs þa leitudu sumir or landi. foru margir rikismenn a fund Knutz konungs ok uilldu þar þydazst. þa fengu allir af honum fullar hendr fiar. matti þar ok sia tign myklu mæire en j ǫdrum stodum bæde af fiolmenni þui er þar var huersdagliga ok umbunade þeim odrum er þar var a þeim herbergium er hann atti ok hann var sealfr j. Knutr hinn riki tok skatt ok skylldur af þeim godlondum er audguzst voru a Nordrlondum. en þeim ollum mun er hann atti meire skylldur at taka en adrir konungar þa gaf hann ok meira en huerr annarra. j ollu riki hans var fridr suo godr at æinge þorde annan ueg at gera edr ganga en hann uillde en sialfir landzmenn hofdu frid ok fornan rett. af sliku for frægd mikil um oll lond. En þeir er komu af Noregi kærdu ofrelsi sitt. margir tiadu ok þat firir Hakoni jalli en sumir firir Knuti konungi at þiggia af þeim frelsi sitt. þessar rædur fellu jalli uel j skap ok kærde þat firir Knuti konungi ok badu hann læita eftir ef Olafr konungr uillde gefa upp rikit firir þeim edr midla med sattmali odru. ok voru margir flutningsmenn uit jall um þetta mal ok kom suo þui mali at hann ahlyddizst ok þotti þetta vænligt rad.

## Ordsendingar Knutz til Olafs konungs.

191. [443] Knutr hinn riki sendi menn vestan af Æinglandi til Noregs ok var þeirra ferd buin alluegliga. hofdu þeir med ser bref ok innsigle Knutz konungs. komu a fund Olafs konungs Haralldzsonar vm uorit j Tunsbergi. En er konungi var sagt at þar voru komnir menn Knutz konungs hins rika þa vard hann styggr vid[1]. segir suo at Knutr munde ônga menn med þeim eyrendum þangat senda er honum edr hans monnum munde gagnn at vera. ok var þat nockura daga at sendimenn nadu æigi konungs fundi. En er þeir fengu lof til at mæla vid konung þa gengu þeir firir konung ok baru fram eyrende Knutz konungs med brefum ok sogdu at Knutr konungr kallar sina æign a Noregi ollum ok telr at hans forelldri hafi þar riki haft firir honum. en firir sokum þeim at Knutr konungr uill frid bioda til allra landa þa uill hann æigi herskillde fara til Noregs ef annars er af kostr. en (ef) Olafr konungr Haralldzson uill konungr vera at Noregi þa fari hann a fund Knutz konungs ok taki land af honum ok gerizst hans madr ok gialldi honum slikan skatt sem jarllar fyrr. sidan bera þeir fram bref ok sogdu þau sligt hit sama. þa suarar Olafr konungr. þat hefui ek heyrt sagt j fornnum frasôgnum at Gormr Danakonungr þotti vera gilldr þiodkonungr ok red hann firir Danmork æinne. en þessum Danakonungum er sidan hafa verit þikir þat ecki æinhlitt. er nu suo komit at Knutr rædr firir Æinglandi ok Danmorku ok hefir hann nu undir sig brotit mikinn hluta Skotlandz. nu kallar hann til ættlæifdar minnar j hendr mer. kunna skyllde hann hof at um agirnina. edr huort ætlar hann æinn at rada firir ollum Nordrlondum edr mun hann æinn eta ætla allt kal af Æinglandi. fyrr mun hann þui orka en ek færa honum hofut mitt edr uæita lotning ne eina. nu skulu þer segia honum þau min ord at ek mun veria oddi ok eggiu Noreg medan mer endazst lifdagar til en giallda æigi skatt nockurum manni af riki minu. Eftir þenna orskurd biugguzst a brott sendimenn Knutz konungs ok urdu æigi eyrendi fegnir. Sighuatr skalld hafde verit med Knuti konungi ok gaf hann honum gullhring þann er stod halfmork. þa var þorarinn loftunga med Knuti konungi ok gaf Knutr konungr honum tuo hringa ok stod huorr halfmork ok þar med suerd buit. Suo quat Sighuatr.

**Knutr hefir ockr hinn itri**
**alldadgofugr badum**
**hendr en hilmi fundum**
**hun skrautligazst bunar.**

**þer gaf hann mork edr meira**
**marguitr ok hior bitran**
**gullz rædr gerua ollu**
**gud sialfr en mer sealfa.**

[1]) þeir *tilf. Cd.*

Sighuatr gerde at athuarfui menn Knutz konungs ok spurde tidenda. þeir sogdu honum sligt er hann spurde. Sighuatr spurde at vidtali þeirra konungs ok eyrendislokum. þeir sogdu at konungr hafdi þungliga tekit þeirra malum ok vitum ver æigi af huerium hann hefir traust til sliks at næita þui at gerazst madr Knutz konungs ok fara a hans fund ok mundi sa hans kostr bezstr. þuiat hann er suo milldr ok miskunnsamr at alldri gera suo stort hofdingiar af vid hann at æigi gefui hann þegar upp þat allt er þeir koma a hans fund ok uæita honum lotning. uar þat firir skommu er til hans komu .ij. konungar nordan af Skotlandi af Fiui ok gaf hann þeim upp ræidi sina ok lond þau oll er þeir hofdu adr haft ok þar med storar vingiafar. þa quat Sighuatr.

Hafa allframir iofrar
ut sinn hofut Knuti
færd or Fiui nordan
fridkaup uar þat midium.
selldi Olafr alldri
oft uo sigr hinń digri
hans j hæimi þuisa
hann ongum suo manni.

Sendimenn Knutz konungs foru aftr læid sina ok byriade þeim uel vm hafit. foru þeir sidan a fund Knutz konungs ok sogdu honum eyrendislok sin ok suo þau alyktarord Olafs konungs er hanп mællti vit Knut konung. Æigi getr Olafr konungr þess rett ef hann ætlar at ek muna æinn eta kal allt af Æinglande. munda ek helldr vilia at hann fyndi þat at mer byrr fleira innan rifia en kal æitt þuiat hedan skulu honum koma kolld rad undan hueriu rifui. þat sama sumar komu af Noregi til Knutz konungs Aslakr ok Skialgr son Erlings a Jadri ok fengu þeir þar godar vidtokur þuiat Aslakr atti Sigride dottur Suæins jalls Hakonarsonar voru þau brædrabornn ok Hakon Æireksson. þar fek Knutr konungr þeim frændum uæitzslur storar med ser.

## Fra Olafi konungi ok Aunund konungi.

192. Olafr konungr stefndi til sin lendum monnum sinum ok fiolmenti miog um sumarit þuiat þau foru ord um at Knutr hinn riki mundi fara med her uestan af Æinglande. ok um sumarit þottuzst menn spyria þat af kaupskipum þeim er uestan komu at Knutr konungr mundi saman draga her mikinn a Einglande. En er a leid sumarit þa sannade annarr en annarr syniade at hann munde koma. en Olafr konungr uar vm sumarit j Uikinne ok hafde menn a niosnn ef Knutr kæmi til Danmerkr. Olafr konungr sendi menn vm haustit [444] austr til Suiþiodar (til) Aunundar mags sins ok let segia honum ordsending Knutz konungs ok tilkall þat er hann hafde vit hann vm

Noreg ok let þat fylgia at hann hugde ef Knutr legde undir sig Noreg at Önundur munde litla hrid þada(n) af j fride vera j Suiauellde. ok kallar þat rad at þeir bynde saman rad sin ok risa j moti ok segia þa huorki til skorta styrk ne hardræde at hallda dæilu vid Knut konung. Önundr konungr tok uel ordsending Olafs konungs ok sendi þau ord j moti at hann uill leggia felagskap af sinne hende vid Olaf konung suo at huorr þeirra uæitti ǫdrum styrk af sinu rike huorr sem fyrr þarf. þat uar ok j ordsending mille þeirra at þeir skyllde finnazst ok ætla rad firir ser. ætlade Önundr konungr at fara um uetrinn eftir um uestra Gautland en Olafr konungr efnnade ser til uetrsetu j Sarpsborg. Knutr hinn riki kom um haustit til Danmerkr ok sat þar um haustit med fiolmenni mikit. honum var sagt at menn ok ordsendingar hofdu farit mille Noregskonungs ok Suiakonungs ok þar munde storræde undir bua. Knutr konungr sendi menn til Önundar konungs j Suiariki ok þar med storar giafir ok vinmal. segir suo at vel matti hann kyrr sitia hia deilu þeirra Olafs digra þuiat Önundr konungr segir hann ok hans riki skal j fride firir mer. En er sendimenn komu a fund Aunundar konungs þa baru þeir fram giafar þær er Knutr konungr sendi honum ok vinattu hans med. Önundr konungr tok þeim ordum ecki fliott ok þottuzst sendimenn þat finna at Önundr konungr munde vera miog snuinn til vinattu vid Olaf konung. foru þeir aftr ok sogdu Knuti konungi sin eyrendislok ok þat med at þeir badu hann ǫngrar vinattu vænta af Önundi konungi.

### Raadin Biarmalandzferd. capitulum.

193. Uetr þann sat Olafr konungr j Sarpsborg ok hafde fiolmenni mikit. þa sende hann Kalla hinn haleyska nordr j land med eyrendum sinum. for Kalli fyst til Upplanda sidan nordr um fiall kom hann fram j Nidarose. tok þar fe konungs suo mikit sem hann hafde ord til sent ok skip gott er honum þotti uel til fallit ferdar sinnar þeirrar er konungr hafde firir ætlat en þat uar nordr til Biarmalandz. uar suo ætlat at Kalli skyllde hafa[1] felag konungs ok æiga at helminge huorr uit annan. hellt Kalle skipi sinu nordr a Halogaland snemma vm vorit. redzst þa til ferdar med honum Gunnstæinn brodir hans ok hafdi hann med ser kaupeyre. þeir voru nærr .xxx. manna a skipe þui. foru þegar snemma nordr a Mǫrkina. þorir hundr spurde þetta. þa gerde hann mann ok ordsending til þeirra brædra ok þat med at hann ætlar at fara um sumarit til Biarmalandz. vill hann at þeir

[1]) fe *tilf.* Cd.

hafui samflot ok hafui at iafnnade þat er til fæingiar verdr. þeir Kalli senda þau ord a moti at hann skyllde hafa halfan þridea tog manna suo sem þeir hafa. uilia þeir þa at fe þui se skipt at iafnnade mille skipanna firir vtan kaupeyre þann er menn hafa. En er sendemenn komu aftr þa hafde hann latit fram setia langskip mikit er hann atti ok latit bua. hann hafde til skip(at) huskalla sina ok voru a skipinu nærr halfum atta tigum manna. hafde þorir æinn forrad lids þess ok suo afla þann allan er fengizst j ferdinne. en er þorir var buinn hellt hann skipinu nordr med lande ok hitti þa Kalla nordr j Sandveri. sidan foru þeir allir samt ok byriade þeim uel. Gunnstæinn mællti vid Kalla brodur sinn þegar at þeir hittuzst þeir þorir. at honum þotti þorir hafa hollzsti fiolment ok ætla ek radligra at ver setimzst aftr ok forum ecki suo at þorir ætti alla kosti undir ser þuiat ek trui honum illa. Kalli segir. æigi uil ek aftr huerfa en þo er þat satt ef ek hefda vitath þat þa er ek uar hæima j Langey at þorir mundi koma j for vora med lid suo mikit sem hann hefir þa mundu ver hafa halfu fleire menn med oss. þeir brædr toludu þetta firir þori spurdu hueriu þat gegndi er hann hafde menn suo myklu flæire med ser en suo sem ord hofdu um farit. þorir suarar suo. ver hofum skip mikit ok lidsmanna skylmt. þiki mer ok j haskaferdum slikum æigi godum dreingium of aukit. Foru þeir vm sumarit oftazst þann ueg sem skipin gengu til. þa er byrlæide var þa gek mæira skip þeirra Kalla ok sigldu þeir þa undan. en þegar huassara var sigldu þeir þegar eftir þeim. voru þeir þorir sealldan aller samt en uissuzst þo til jafnnan. En er þeir komu til Biarmalandz þa lǫgdu þeir til kaupstadar. tokzst þa kaupstefnna fengu þeir menn aller fullfeinge fiar er fe hofdu til at veria. þorir fek of gravoru bior ok safala. Karlli hafde ok allmikit fe þat er hann keyfte j skinnavoru. En er þar uar lokit kaupstefnnu þa sigldu þeir vt eftir anne Vinu. uar þa sagt j sundr fride uit landzmenn. en er þeir koma a haf vt þa æiga þeir skiparastefnnu. spurde þorir huort monnum er nockurr hugr a at ganga [445] upp a land ok fa ser fiar. Margir suorudu at þess væri fuser ef fefǫng lægi vit ok væri þau bryn firir. þorir sagde at fe munde fazst ef ferd su tækizst vel en æigi oruænt at nockurr haski gerdizst j forinne. aller sogdu at til þess uilldu rada ef fiaruon væri. þorir suarar. at þann ueg uar þar hattr þa er audgir menn letuzst at lausafe skyllde skipta med hinum dauda ok ǫrfum hans. skyllde hann hafa halft edr þridiung edr minna. þat fe skyllde bera j skoga edr hauga ok ausa vid molldu. stundum voru hus at ger. Hann segir at þeir skyllde buazst til ferdar at kuelldi dags. uar ok suo

mællt at æingi skyllde renna fra odrum. æinge skyllde ok eftir vera þa er styrimadr sagde at j brot skyllde fara. Fair menn voru eftir at skipum.

Þorir hundr ok þeir brædr foru til Biarmalandz.

194. Nv ganga þeir upp Þorir ok þeir brædr. voru fyst uellir slettir ok þar næst mork mikil. Þorir gek fystr en þa þeir brædr sidar Kalli ok Gunnstæinn. Þorir bat menn fara hliodliga ok hleypti af tream berki suo at huert sæi fra odru. þeir komu þa fram j æitt riodr mikit en j riodrinu var skidgardr harr ok hurd firir ok læst .vj. menn af landzmonnum skylldu uaka yfir skidgardinum hueria nott sinn þridiung huerir .ij. Ok er þeir komu til skidgardzins þa voru uokumenn heim farnir en þeir er þar næst skylldu uaka voru æigi komnir a uollinn. Þorir gek at skidgardinum ok krækti upp a oxinne. las sig upp eftir skaftinu ok for suo inn um skidgardinn ôdrum megum hlidsins. hafde Kalli komizst yfir gardinn. komu þeir iafnnsnemma (til) hurdarinnar toku þa fra slagbrandana ok luku þa upp hurdina. gengu menn þa inn j gardinn. þa mællti Þorir. j gardi þessum er haugr hrærdr saman med gulli ok silfri ok molldu ok skulu menn þar til fara. en j gardinum stendr god Biarma ok heitir Jomali er æinge suo diarfr at hann ræni. Sidan gengu þeir a hôginn ok toku fee suo mikit sem mest mattu þeir ok baru j klædin sin. fylgde þar molld mikil sem uon uar at. Sidan mællti Þorir at menn skyllde j brot fara. nu skulu þit brædr Kalli ok Gunnstæinn fyrr fara en ek mun sidarr. Sneru þa allir vt til hlidsins en Þorir uæik aftr til Jomalans. tok silfrbolla er stod j kniam honum var hann fullr upp af silfrpeningunum. steyfti hann j kellting ser en dro a hond ser hodduna er yfuir uar bollanum. hann gek þa vt til hlidsins. þeir forunautar voru þa allir komnir vt or skidgardinum. urdu þa varir vit at Þorir hafde eftir dualizst. Karli huarf aftr at læita hans ok hittuzst þeir firir innan hlidit. sa Kalli at Þorir hafde þar silfrbolla. sidann rann Kalli at Jomala. hann sa at digurt men uar a halsi honum. Kalli færde upp exina ok hio[1] j sundr tygilinn a halsi honum er menit var fast vid. uard hôggit suo mikit at hofudit fauk af Jomala. vard þa brestr mikill suo at ollum þeim þotti undr j. tok Kalli þa menit foru þeir þa j brott. En iafnnskiott sem brestrinn hafde ordit komu fram uardmenn ok blesu þegar j hornn sin. þar næst heyrdu þeir þa alla uega fra ser ludrblastr. sottu þeir þa fram at skoginum. en þeir heyrdu aftr at riodrinu óp ok kall ok voru þar Biarmar komnir. Þorir hundr gek sidazst allra sinna manna en .ij.

[1]) hia *Cd.*

menn gengu firir honum ok baru sek mille sin. þar uar þa þui likazst j sem aska. þar tok þorir j med hendi ser ok sadi þui j slodina. stundum kastade hann þui fram yfir lydinn. foru suo or skoginum a uollluna. þeir heyrdu at herr Biarma for eftir þeim med gaulon illri. sottu þeir þa eftir þeim fram ór skoginum a tuær hendr þeim en huergi komu þeir suo nærr þeim ne uopn þeirra at mein yrde at. en þat[1] kannazst þeim af at Biarmar sḡi þa ecki. En er þeir komu til skipa sinna þa gengu þeir Kalli fyst a skip. þuiat þeir voru fremstir adr en þorir uar lengst a lande. þegar er þeir komu a skip sin kostudu þeir tiolldum af ser ok slogu festum sinum. sidan drogu þeir segl upp. gek skipit bratt vt a haf en þeim þori tokz allt sæinna ok allt oaudradnara. en er þeir komu af ser tiolldum ok toku til segls þa voru þeir Kalli komnir langt undan lande sigldu huorirtueggiu yfir Ganduik. þa var lios nott sigldu þeir brædr nætr ok daga allt til þess er þeir komu nockurnn dag at eyiu nockurre sid um aftan. lægdu þeir segl ok köstudu ackerum ok bidu þeir straumfallz þuiat raust mikil var firir þeim. þa komu þeir þorir eftir þeim. liggia þeir þar vm ackeri.

## þorir drap Karla.

195. þeir þorir skiota nu bati. gek hann þar a ok menn hans ok reri til skips þeirra Kalla. þorir gek upp a skipit. þeir brædr hæilsadu honum vel en þorir bæiddi Kalla fa ser menit. þuiat ek þikiumzst makligazstr at hafa kostgripe þa er þar voru teknir þuiat mer þottu þer min at niota er þer komut skadlaust undan er mer þottir þu Kalli styra oss til hinnar mestu vhæfu. þa suarar Kalli. Olafr konungr a fe þat allt er ek ferr [illegible] med ok ek afla j ferd þessi. nu ætla ek honum menit. far þu a fund konungs ef þu uill. kann þa vera at hann fai þer menit ef hann uill firir þui æigi hafa at ek tok af Jomala. þa segir þorir at hann vill at þeir fari a land upp ok skipti fæingi sinu. Gunnstæinn suarar ok sagdi at skiptizst straumar ok væri mal at sigla. Sidan draga þeir upp stræinge sina ok segl. en er þorir sa þat ferr hann ofan a batinn. reru þeir til skipsins. þeir Kalli hofdu þa dregit upp segl sith ok voru þa langt komnir adr þeir þorir hofdu komit upp seglinu. foru þeir suo at þeir Kalli sigldu firir ok hofdu huorirtueggiu vid allt segl. þeir foru suo þar til er þeir komu j Gæisuer. þar er bryggiulægi fyst er nordan ferr. þar komu þeir huorirtueggiu aftan dags ok logdu til hafnar j b(r)yggiulægi. logdu þeir þorir innar (j) hofnina en þeir Kalli lagu j vtanverdri hofninne. En er þeir hofdu tialldat þa gek þorir a land upp ok þeir miog margir saman. fara þeir

[1]) þ'r (*d. e.* þeir) *Cd.*

til skips Kalla hôfdu þeir þa um buizst. þorir kallar vt a skipit ok bat styrimenn a land ganga. þeir brædr gengu a land ok nockurir menn med þeim. þa hof þorir hina somu rædu sem fyrr ath hann bad þa a land fara ok bera fe til skipta þat er þeir hofdu tekit at herfange. þeir brædr sôgdu at æinge naudsyn væri til þess fyrr en þeir kæmi j bygd. þorir segir at þat se ecki siduenia at skifta herfangi æigi fyrr en hæima ok hætta suo til um dræingskap manna. þeir toludu nockurum ordum ok þotti sinn ueg huorum. þa sneri þorir j brott ok er hann var skamt kominn þa uæik hann aftr ok mællti at forunautar hans skylldu þar bida hans. hann kallar a Kalla. ek uil mæla vid þig æinmæli segir hann. Kalli gek j moti honum. en er þeir hittuzst lagdi þorir spioti til hans ok a honum midium suo at j gegnum hann stod. þorir mællti. kenna muntu þar Kalli æinn Biarkeyinginn hugda ek at þu mundir kenna spiotit sels(h)efnni. Kalli do þegar en þeir þorir gengu þegar til skipsins. Gunnstæinn sa þegar a fallit Kalla. runnu þeir til ok toku likit ok baru til skips sins. brugdu þegar tiolldum ok hæimtuzst fra landi sidan undu þeir upp segl ok foru læidar sinnar. þeir þorir sa þat. þa reka þeir af ser tiolldin ok buazst sem akafligazst. en er þeir undu seglit þa (g)ek j sundr dragræipit for seglit ofan þuerskipa. uar þeim þori þat duol mikil adr þeir kæmi upp segli j annat sinn. voru þeir Gunnstæinn langt komnir adr skridr uar a skipi þoris. þeir gerdu bæde sigldu ok reru. sligt hit sama gerdu þeir Gunnstæinn. komu þeir fyrr j Lengiuuik þa snua þeir þar at lande. drozst sæint saman med þeim. þegar at eyiarsund tokuzst til þa var þeim Gunnstæini miukara at uikia skipe sinu en þo drogu þeir þorir eftir. ok þa er þeir Gunnstæinn komu firir Lengiuuik þa snua þeir þar at lande ok hliopu af skipe sinu a land upp. af stundu komu þeir þorir eftir þeim ok hlaupa a land eftir þeim ok elltu þa. kona æin gat folgit þa Gunnstæin ok holpit honum ok er suo sagt at su væri miog fiolkunnig. ok foru þeir aftr til skips ok toku fe þat allt er a uar skipinu en baru a griot j stadinn. fluttu skipit vt a fiordinn, ok hiuggu a rauf ok sôktu nidr. sidan foru þeir þorir heim til Biarkeyiar. þeir Gunnstæinn foru fyst huldu hôfde ok fluttuzst a smabatum um nætr en lagu um daga. foru suo til þess er þeir komu fram yfir Biarkey ok allt til þess er þeir komu or syslu þoris. Gunnstæinn for fyst j Langey ok dualdizst þar skamma stund. for þa þegar sudr a læid ok letti æigi fyrr en hann kom sudr j þrandhæim ok hitti þar Olaf konung ok sagde honum tidende þau sem ordit hofdu j Biarmalandzferdinne. Konungr let illa yfir ferdinne ok baud Gunnstæini med ser at

vera ok segir at hann skal retta malit Gunnstæins þa er hann mætti. Gunnstæinn þecktizst bod þat ok dualdizst med Olafi.

Fundr þeirra Olafs konungs ok Aunundar konungs.

196. Suo uar sagt fyrr at Olafr konungr uar þann uetr j Sarpsborg en Knutr hinn riki sat j Danmork. Önundr konungr ræid þann uetr yfir hit vestra Gautland ok hafde meir en .xxx. hundrat manna. foru þa menn j mille þeirra Olafs konungs. gerdu þeir sin a mille stefnulag ok skilldu hittazst vm uorit uit Konungahellu. frestudu þeir fundinum firir þa sok at þeir uilldu uita hueria tilætlan Knutr konungr hefdi. En er a leid uorit biozst Knutr konungr med lide sinu at fara uestr til Æinglandz. hann setti eftir j Danmorku Hordaknut son sinn ok þar med honum Ulf jarll son þorgils sprakaleggs. Ulfr atti Astride dottur Suæins konungs ok systur Knutz konungs hins rika. þeirra son uar Sueinn konungr er sidan uar konungr yfir Danmork. Ulfr jarll uar hinn mesti merkismadr. [4:7] Knutr konungr for austr til Æinglandz. en er þat spurde Olafr konungr ok Önundr konungr þa hittuzst þeir j Elfinne vit Konungahellu. var þar fagnnafundr med þeim ok vinattumal mikil suo at þat var bratt bert gert firir alþydu. en þo mælltu þeir marga hluti sin a mille þa er þeir vissu .ij. æinir ok vard þat sumt sidarr framgæingt ok ollum augliost. En at skilnade konunga skiptuzst þeir giofum vit ok skildu þeir vit suo buit. for þa Önundr konungr a land upp en Olafr konungr for nordr j Uikina en sidan vt a Agdir ok þadan nordr med landi. ok la hann miog lengi j Æikundarsunde ok bæid þar byriar. spurdu þa at Erlingr Skialgsson ok þeir Jadarbyggiarnir med honum lagu j safnade ok hofdu her mannz. þat uar æinn dag at menn toludu mille sin um uedr huort væri sunnanuedr edr utsynningr edr huort þat uedr væri segltækt edr æigi firir Jadar. toludu þat flestir at osiglanda væri. þa suarar Halldorr Brunason. þat munda ek ætla segir hann at siglanda mundi þikia þetta uedr firir Jadar ef Erlingr Skialgsson hefde uæitzslu buit firir a Jadri. þa mællti Olafr konungr at af skylldi taka tiolldin ok leggia vt skipin. var suo gert. sigldu þeir þann dag firir Jadar ok dugdi uedrit hit bezsta ok logdu at um kuelldit j Huitingsey. for konungr þadan nordr a Halogaland ok for þar at ueitzslum.

Bod Olafs konungs til Jslandz. capitulum.

197. þat uar æinnhuernn tima er Olafr konungr hæimti til mals uit sig þa er ko(m)nir voru af Jslande þorodd Snorrason Gelli þor-

kelsson Stæin Skaptason Egil Hallzson. þa tekr konungr til mals. þer hafit j sumar uakit þat mal at þer villdit buazst til Jslandz en ek hefui æigi uæitt andsuor her til vm þetta mal. nu vil ek segia ydr huernn ueg ek vil vera lata. Gelli ætla ek til Jslandz at fara ef hann vill flytia þangat eyrendi min. en adrir menn þeir sem nu eru her þeir munu æigi fara til Jslandz fyrr en ek spyr huernn ueg þeim malum er tekit er þu Gellir skallt þangat flytia. En er konungr hafde þetta upp borit þa þotti þeim er fusir voru ferdarinnar ok bannat var suik vit sig ok þotti seta sin ill ok ofrelsi. En Gellir biozst til ferdarinnar ok for um sumarit til Jslandz ok hafde med ser ordsendingar þær er hann flutti fram annat sumarit a alþinge. En su var ordsending konungs at; hann bæiddi þess Jslendinga at þeir skyllde taka vid þeim lõgum er hann hafde sett j Noregi en uæita honum af sade[1] þegnngillde ok nefgillde firir nef huert þann er .x. peninga gera oln uadmals. þat fylgde þar med at hann het med vinattu sinne ef þeir uillde þessu iata en elligar afarkostum þeim er hann mætti vit komazst. Yfir þessu satu menn lengi ok redu um sin a mille ok (kom) þat asamt at lyktum med alþydu at næita ollum skatti ok ollum alogum þeim er kraft var. For Gellir þat sumar vtan ok a fund Olafs konungs ok hitti hann vm haustit j Uik austr þa er hann uar kominn af Gautlande ofan. suo sem enn mun sagt uerda sidarr j sogunne. þa er a læid haustit sotti Olafr konungr nordr j þrandheim ok hellt sidan lide sinu til Nidaross ok let þar efnna til uetrsetu. sat Olafr konungr þann uetr j kaupange sa var hinn tiunde uetr hans konungdoms.

---

## HER HEFR VPP ÞAATT STEINS SKAPTASUNAR.

Trvfastr madr ok traustr uar hinn hæilagi Olafr konungr Haralldzson vit vine sina ok undirgefinn lyd suo alldri vmbreytti hann sinum ordum vtan stora naudsyn. hann var hardr ok vueginn þriozskum monnum ok þralatum j ollum stodum þar sem hann atti guds rettar at reka en þolinmodr um sinar motgerdir ok bidlundar godr vid alla goda menn. var þat iafnan ecki audfundit a konungi huersu honum likade. hellt hann ok kapsamliga ollu sinu riki ok krununnar rett huerir sem a uilldu sæilazst orettliga ok gerdi a þui ongann

[1]) r. lande

manna mun sem enn mun lysazst sidarr j sǫgunne. Ketill iamti het madr hann uar son Onundar jalls or Sparabui j þrandheimi 'hann flyde firir Eystæine konungi hinum illrada austr vm Kiol. hann bygde þar sem nu hæitir Jamtaland. austr þangat flyde fiolde mannz ǫr þrandheimi firir ofriki Eysteins konungs. konungr skattgillde þrandheim ok setti þar yfir konung er Saurr het. Sonarson Ketils het Helsingr ok þorir odru nafnni. hann uar kendr uit Helsingialand. þat bygde hann. En er Haralldr hinn harfagri ruddi riki firir ser þa stucku enn firir honum fiolde manna or lande þrændir ok Naumdęlir ok gerdizst þa enn bygdin austar um Jamtaland ok foro sumir allt austan[1] j Helsingialand ok uoru þar lydskylldir undir Suiakonunga. En er Hakon Adalstæinsfostri uar konungr yfir Noregi þa settizst fridr ok kaupferd ór þrandheimi til Jamtalandz. en firir sakir vinsælda konunga þa sottu Jamtar austan a fund konungs ok iattudu þa hlydni sinni ok gulldu honum skatt. setti hann þeim lǫg ok landzrett uilldu þeir helldr luta undir hans konungdom en undir Suiakonung [448] þuiat þeir voru komnir af Nordmanna ætt. suo gerdu Helsingiar aller þeir er ættadir voru nordan um Kiol. ok Helsingiar stadfestu þat med fullu ok hellz þat lenge sidan allt til þess er þeir Olafr konungr Haralldzson ok Olafr Suiakonungr dæilldu um landaskipte. þa hurfu Jamtar ok Helsingiar til Suiakonungs ok redu þa landaskipti austan Eidaskogr ok Kiolr nordr allt til Finnmerkr. tok Suiakonungr þa skatt af Jamtalande ok Helsingialande. en Olafi konungi þotti þat komit hafua j sattmal met þeim Suiakonungi at annan ueg skyllde fara af Jamtalande en at fornnu hafde farit. en þo hafde þat lengi stadit at Jamtar hofdu Suiakonungi golldit skatt ok þadan hofdu syslumenn verit yfir landi. uilldu þa Suiar ecki annat heyra en undir Suiakonung hyrfui allt land þat er la firir austan Kiol. var þa suo sem oft eru dęmi til þott magsemd ok uinatta væri med konungunum at þo villdo huorirtueggiu hafa riki þat allt er þeir þottuzst tiltolu æiga. hafde Olafr konungr fara ord um þat latit til Jamtalandz at þat uar hans uile at Jamtar uæitti honum hlydni en het þeim afarkostum elligar. en[2] Jamtar hofdu gert rad sin at þeir villdu hlydne veita Suiakonungi.

### Steinn drap aarman(n) Olafs konungs.

199. þoroddr son Snorra goda ok Stæinn Skaptason undu illa vid er þeir voru æigi sialfradir. Steinn Skaptason var manna fridazstr synum ok bezst at ser gerr vm jþrottir skalld gott ok skartzmadr

[1]) *r.* austr [2]) er *tilf. Cd.*

mikill metnnadarfullr. Skafti fadir hans hafdi orta drapu vm Olaf konung ok hafde kent Steini ok uar suo til ætlat at hann skyllde færa konungi kuædit. Stæinn batzst æigi orda ok amælis vid Olaf konung bæde j sundrlausum ordum ok samfostum. badir voru þeir þoroddr ouarmælltir. sogdu suo at konungr uillde verr hafa en þeir er sonu sina hôfdu sent honum j trunad en konungr lagde þa j ofrelse. konungr ræiddizst vid ord þeirra. þat var æinnhuernn dag er Stæinn Skaptason var firir konungi at hann spurde hann ef hann villde hlyda kuædi þui er Skapti fadir hans hafde ort um hann. Konungr suarar. hitt mun fyst til vera Stæinn at þu kuedir þat er þu hefir um mig ort. Steinn sagde at þat uar ecki er hann hafde ort. em ek ecki skalld segir hann en þo at ek kynna at yrkia þa munde ydr þikia þat sem annat um mig helldr litiluggiligt. Gek Steinn þa j brott ok fann huar for ok þottizst vita huar til mællt var. þorgæirr het armadr konungs er red firir bui hans j Orkadal hann uar þa med konungi ok heyrde a uittal þeirra konungs ok Steins. for þa þorgæirr heim. Litlu sidarr var þat a æinnehuerri natt er Stæinn hliop j brott ór bænum ok skosueinn hans med honum. foru þeir upp um Gaularas ok suo ut til þess er þeir komu vt j Horradal[1]. at kuellde koma þeir til konungsbus er þorgeirr red firir. baud þorgeirr þeim þar at vera um nattina ok spurde hueriu gegnndi vm ferdir hans. Steinn bat hann fa ser hest ok sleda med. sa hann at þar var heim ekit kornni. þorgæirr suarar. æigi uæit ek hueriu sætir um farar þinar huort þu ferr nockut j konungs leyfui. þotti mer hinn fyrra. dag ecki miukt fara med yckr konungi. Steinn suarar. þo at ek se æigi sealfrade firir konungi þa skal ek æigi suo firir þrælum hans. þa bra hann suerdi ok drap armanninn en tok hestinn ok bad sueininn hlaupa a bak. en Steinn settizst j sleda. foru þeir ueginn ok þa nott alla til þess er þeir komu ofan a Mære j Surnnadal. sidan fara þeir ok fa ser flutningar yfir fiordu ok foru sem akafligazst. Ecki sogdu þeir vig þetta þar sem þeir komu ok sogduzst vera konungsmenn. fengu þeir forbæina godan þar sem þeir komu. þeir komu at kuellde dags j Gizska. for hann til bus þorbergs Arnnasonar. var hann æigi hæima en kona hans var hæima Ragnnhilldr dottir Erlings Skialgssonar. færr Steinn þar allgodar vidtokur þuiat þar voru adr kunnlæikar myklir met þeim. Sa atburdr hafde ordit adr þa er Steinn hafde farit af Jslande. atti hann þa sealfr skip þa er hann kom af hafui utan at Gizska ok lagu þar uit eyna. þa la Ragnnhilldr a golfui ok skyllde verda lettari ok uar allith halldin. en prestr uar æinge

[1]) r. Orkadal

j eyiunum ok æigi þar nærr. uar þa komit til skipsins ok spurt ef þar væri prestr nockurr. þar uar æinn prestr a skipinu er Brandr het uestfirzskr ok ungr madr ok lærdr helldr litt. sendimenn badu prest fara med ser til hennar. honum þotti þat uandi mikill en uisse fakunnande sina ok uilldc hann æigi fara. þa lagde Stæinn ord sin til vid prest ok bat hann fara. Prestr suarar. fara mun ek ef þu uill fara med mer þiki mer at þer mikit traust til umrada. Steinn sagdi at hann kuetzst fara mundu. þeir foru til bæiarins ok þar til er Ragnhilldr uar. litlu sidar fæddi hon barnn var þat mer ok þotti helldr vmattulig. þa skirde prestr barnnit en Steinn hellt þui undir [449] skirnn. Stæinn gaf meyiunne fingrgull. Ragnhilldr het Steini vinattu sinne fullkominne ok hann skyllde þangat koma a hennar fund ef hann þættizst nockurs vid þurfa. Steinn segir at hann mun æigi fleirum meyium til skirnar hallda ok skilduz at suo bunu. En nu uar þar komit er Stæinn hæimti þessi vilmæli ath Ragnhilldi ok segir huat hann hefir hent ok suo þat at hann mun ordit hafua firir konungs ræide. Hon segir at magnni vm liduæitzsluna bat hann þar bida þorbergs ok skipade Stæini hit næsta Eystæini horra[1] syni sinum. hann var .xij. vetra gamall. Steinn gaf giafir Ragnhilldi ok Eystæini.

## Fundr þeirra konungs ok þorberghs.

200. Nv er fra þui at segia at þorbergr kemr heim ok hefir adr spurt allt vm farar Stæins ok uar hann helldr ofrynn. Ragnnhilldr gek til mals vit hann ok sagde honum vm farar Stæins ok bat hann taka uit honum ok sea a mal hans. þorbergr suarar. ek hefui spurt segir hann at konungr hefir latit æiga ðruarþing eftir þorgæir ok Stæinn uar utlægr gerr. suo þat at konungr er honum hinn ræidazsti ok kann ek mer mæiri suinnu en takazst a hendr vtlægan mann ok hafa þar firir konungs ræide. latt þu Stæin brott fara sem skiotazst. Ragnhilldr suarar at þau skylldu bæde j brott fara edr vera þar bæde. þorbergr bad hana fara huert er hon villde. uænti ek þess segir hann at þu komir skiott aftr þuiat ek ætla at her muni þin metord mest. þa gek fram Eysteinn son þeirra. hann segir at hann mun æigi eftir vera ef Ragnhilldr ferr j brott. þorbergr segir at þau lysti mikit þralynde uit sig j skaplynde a þessu male. ok er þat uænst at þit radit þessu er þo þikir yckr allmikit varda en of[2] miog er þer ættgengt Ragnhilldr at uirda allitils ord konungs. Ragnhilldr suarar. ef þer uex allmiog j augu at hallda Stæin þa far þu med hann a fund Erlings fodur mins edr fa

[1]) *r.* orra [2]) ef *Cd.*

honum þat foruneyti er hann komizst j fride. þorbergr segir at ecki mundi hann þangat flytia hann ok mun þo Erlingi ærit mart til verda vit Olaf konung. Steinn uar þar vm uetrinn. en eftir jol komu til þorbergs sendimenn konungs med þeim ordum at þorbergr skal koma til konungs firir midea fôstu ok er lagt rikt vid þessa ordsending. þorbergr bar þetta firir vine sina ok læitade rads uid þa huort hann skyllde a þa hættu leggia at fara til Olafs konungs at suo felldu male. en flestir lottu ok kolludu þat rad at lata fyrr Stæin af hondum en fara a fund konungs. þorbergr uar en fusari at leggiazst æigi þessa ferd undir hofut. Nockuru sidar for þorbergr til motz vid Finn brodur sinn ok bar þetta mal firir hann ok bat hann fara med ser. Finnr suarar at honum þotti illt kuonriki sligt at þora æigi firir konu sinne at hallda æinord sinne vid lanardrottin sinn. kost muntu æiga segir þorbergr at fara huergi en þo ætla ek at þu farir æigi minnr firir hrædzslu sakir en hollustu vid konung. Skilduzst þeir vid suo buith ok voru badir ræidir. Sidan for þorbergr til Arnna brodur sins ok sagde honum þetta mal suo buit ok bat hann fara til konungs. Arni suarar. undarligt þiki mer um þig mann suo uitrann ok firirlæitinn er þu skallt rasat hafa j suo mykla vgiptu at hafua fæingit konungs ræide þar er æingi bar naudsyn til. þat uar nockurt uorkunnarbragd at madr helldi frænda sinn edr fostbrodr en þetta allz æinge at hafa tekizst a hendr mann islenzskann ok utlaga konungs ok hafa sealfan sig j uede ok alla frændr sina. þorbergr suarar. satt er þat er mællt er at æinn er audkuise ættar huerrar. su ohamingia er mer nu audsæzst fodur mins huersu honum glaptizst sona æignin er hann atti þann sidazst er æingi likende hefuir uorrar ættar ok dadlaus er. mundi þat sannazst ef mer þætti æigi vid modur mina skom mællt at ek mundi æigi kalla þig uornn brodr. þa for þorbergr j brott ok hæim ok uar helldr okatr. sidan sendi hann menn nordr til þrandheims a fund Kalfs brodur sins ok bat hann koma til Agdanes a mot ser. ok er sendimenn komu til Kalfs þa het hann ferd sinne ok hafde æinge ord firir.

### Vm ferd þeirra brædra. capitulum.

201. þat er at segia fra Ragnhilldi at hon sendi ord austr a Jadar til Erlings fodur sins bat hann senda ser lid þadan. Sidan foru synir Erlings Sigurdr ok þorir ok hafdi huorrtueggi þeirra tuitogsessu ok hafde .ix. tigu manna. en er þeir komu nordr til þorbergs þa tok hann uel vid þeim. biozst hann þa til ferdar ok hafde þorbergr tuitôg-

sessu ok for nordr læidar sinnar. en er þeir komu nordr þa lagu þeir firir þeim brædr þorbergr Finnr ok Arnni med .ij. tuitogsessur. fagnar þorbergr uel brædrum sinum ok sagde at þa hefde (þeir) tekit bryningunne. Finnr quat þess scalldan hafa þurft vid sig. Sidan fara þeir med lide sinu ollu nordr til þrandheims ok uar þar Stæinn j fŏr. ok er þeir komu til Agdanes þa uar þar Kalfr firir ok hafde hann tuitŏgsessu uel skipada. foru þeir lide sinu til Holms ok lagu þar um nott. en um morgininn attu þeir tal sin a [450] mille. villdu þeir Kalfr ok synir Erlings at þeir færi med ollu lidenu hæim til bæiarins ok letu þa skæika at skopudu. en þorbergr villde at fyst væri med uægd farit ok lata bod bioda. samþyktizst Finnr ok suo Arnni þessu rade. var þa þat af radit at þeir Finnr ok Arni foru til fundar vid Olaf konung ok voru fair menn saman. Konungr hafde spurt um fiolda þann er þeir hŏfdu ok uar þa helldr stirdr j vidrtali þeirra. Finnr baud bod firir þorberg brodur sinn ok suo firir Stein. baud at hann skyllde greida suo mikit fe sem hann uillde en þorbergr skyllde hafa landzuist ok uæitzslur sinar en Stæinn lifsgrid ok lima. Konungr suarar. suo litz mer sem þessi fŏr muni suo vera hæiman ger at þer munit þickiazst hafa haft rad vid mig edr meirr. en þess mundi oss sizst uara af ydr brædrum at þer mundit med her fara moti oss. kenni ek rad þessi at þeir Jadarbyggiarnir munu hafua upphafit en ecki þarf mer fe at bioda. þa suarar Finnr. æigi hofum uær brædr firir þa sok lid suo mikit saman dregit at uær munum ydr ofrid bioda konungr. helldr berr hitt til at ver uilium ydr fyst bioda uora þionustu. en ef þer næitit ok ætlit þorbergi nockura afarkosti þa munu ver fara med lid uort a fund Knutz hins rika. þa læit konungr vit honum ok mællti. ef þer brædr vilit uæita mer suardaga til þess at fylgia mer utanlandz ok innan ok skiliazst æigi uit mig nema mitt se lof edr leyfui til. æigi skulu þer leyna mig ef þer vitit radin mer suikræde. þa uil ek sættazst vit ydr. Sidan ferr Finnr aftr til lidsins segir þessa kosti er konungr hefir gert. bera þeir nu saman rad sin. segir þorbergr at hann vill þenna kost firir sina hond. er ek ofus at flyia af æignum minum ok sækia til vtlendra hofdingia ætla ek mer sæmd at Olafi konungi ok at uera þar sem hann er. þa mællti Kalfr. onga æida mun ek uinna konungi en uera þa æina hrid j lande er ek helld uæitzslum minum ok odrum metordum ok konungr uill uera minn vin ok er þat minn uile at suo gerum ver aller. Finnr suarar. til þess mun ek hætta at lata konung rada skildaga med ockr. Arnni Arnnason suarar. ek er radinn þorbergr brodir at fylgia þer þo at þu vilir beriazst vid konung. þa skal ek ok

æigi skiliazst vid þig enn ef þu tekr betra rad ok mun ek fylgia yckr Finni ok taka þann kost er þit takit yckr til handa. Gæingu þeir a æitt skip brædr þorbergr Finnr ok Arnni ok reru inn til bæiarins ok gengu allir a konungs fund. for þa fra(m) þetta sattmal at þeir brædr suordu konungi æida. þa læitade þorbergr Stæini grida vid konung en konungr segir at Steinn skyllde fara huert er hann uillde firir honum. en ecki mun hann med mer vera sidan segir konungr. þa foru þeir þorbergr ut til Holms til lids sins. for þa Kalfr inn a Eggiu en Finnr for til konungs en þorbergr ok annat lid þeirra for heim. Steinn for hæim med sonum Erlings ok vm uorit snemma for hann uestr til Æinglandz ok til fundar uit Knut konung ok var med honum lengi j godu yfirlæti.

### Finnr kugadi þori hund firir vijg Kalla.

202. þa er Finnr Arnnason hafde litla hrid dualizst med Olafi konungi uar þat æinnhuernn dag at konungr kallar Finn til mals uid sig ok enn fleiri menn þa er hann var uanr at hafa radagerdir uit ok sagdi suo. su radagerd stadfestizst j skapi minu at ek ætla j uor at bioda vt læidangri af ollu lande bæde at lide ok skipum ok fara med her þann allan er ek fæ j moti Knuti konungi hinum rika. þuiat ek uæit um tilkall þat er hann hefir hafit upp til rikis j hendr mer at hann mun æigi ætla þat firir hegomamal at hafa. nu er þat at segia þer Finnr at ek uil at þu farir sendifor mina nordr a Halogaland ok hafir utbod ok biodir þar ut almenning at lide ok skipum ok stefnir þui nordr[1] til motz vid oss a Agdanes. Sidan nefndi konungr flæire menn. sendi hann suma menn inn j þrandheim en suma sudr j land suo at hann let þetta bod fara um allt land. þat er sagt fra ferdum Finnz at hann hafde skutu ok a nærr .xxx. manna. en er hann uar buinn þa for hann þar til er hann kom a Halogaland. þa stefnndi hann þing vit bændr. bar þar upp eyrendi sin ok krefr læidangrs. bændr attu j herade skip stor j læidangrsfør. skipuduzst þeir uel vit ordsending konungs ok biuggu skip sin. en er Finnr sotti nordr a Halogaland þa atti hann þing en sendi menn sina fra ser at kuedia utbod lidsins þar sem honum syndizst. Finnr sendi menn til Biarkeyiar til þoris hundz let þar krefia leidangurs sem annars stadar. en er þori komu ord konungs þa biozst hann til ferdar ok skipade huskollum sinum skip þat er hann hafde haft adr um sumarit til Biarmalandz. bio hann þat med sins æins kostnade. Finnr stefnndi þangat j Uogana ollum

[1]) *r.* nordan

þeim er nordr voru þadan. þar kom saman vm uorit lid mikit ok bidu þar allir til þess er Finnr kom nordan. þangat uar þa kominn þorir hundr. En er Finnr kom let hann þegar blasa til motz ok husþing(s) læidangrslidenu en a þui þinge syndu menn uopnn sin. suo uar ransakat vtbod j huerri skipræidu. en er þat uar græitt þa mællti Finnr. þig uil ek at þessu quedia þorir hundr. huert bod [451] uilltu bioda Olafi konungi firir uig Kalla hirdmann(z) hans edr firir ran þat er þu tokt fee þat er hann atti nordr j Lengiuuik. nu hefui ek umbod hans til þessa mals en ek uil nu uita suor þin. þorir litadizst um ok sa til huorrartueggiu handar ser standa marga menn aluopnada kendi hann Gunnstæin brodur Kalla ok marga adra frændr hans. skiot eru bod min Finnr allt mal uil ek leggia a konungs dom þat er honum þikir at vid mig. Finnr suarar. þat er nu uenst at þer se minne virdingar af unt þuiat nu munt (þu) uerda at festa a minn dom ef sættazst skal. þa ætla ek enn alluel komit segir þorir ok skal þat ecki undan draga. Gengu þeir þa fram til festu ok skilde Finnr firir allt um þetta mal. sidan segir Finnr upp sættina at þorir skyllde giallda konungi .x. merkr gullz en Gunnstæini ok þeim frændum adrar .x. merkr. en firir ran ok feskada hinar þridiu .x. merkr ok giallda nu upp þegar. þorir suarar. þetta er mikit fegialld. Finnr suarar. hinn er annar kostr at lokit se sætt allri. þorir suarar at Finnr munde lea fresta at hann læitade lana vid forunauta sina. Finnr bat hann giallda þar þegar j stad ok þo þat umfram at þorir skylldi fram selia men þat hit mykla er hann tok af Kalla daudum. þorir kuetzst ecki men tekit hafa. þa gek fram Gunnstæinn ok sagde at Kalli hefdi menit a halse þa er þeir skilduzst. en þa uar j brottu er uer tokum lik hans. þorir segir at hann hafdi ecki huglæitt um men þat en þo at uær hefdim þadan haft nockut men þa mundi þat hæima liggia j Biarkey. þa setti hann spiotzodd firir briost þori ok mællti at hann skyllde fram selia menit. þorir tok þa menit af halsi ser ok selldi fram menit. sidan sneri þorir j brott ok til skips sins. Finnr gek ut a skipit eftir honum ok mart manna med honum. gek Finnr eftir skipinu ok toku þeir upp rumin. en uit siglu sa þeir undir þilium nidri tunnur .ij. myklar suo at þeim þotti mikil furda at. Finnr spurde huat j tunnunum væri. þorir sagdi at þar var j drykkr hans. Finnr mællti. hui gefr þu oss ecki at drecka suo mikinn dryk sem þu hefir. þorir mællti vid mann sinn at renna skyllde j bolla. sidan uar rent j bolla var þeim gefit at drecka ok uar þat hinn bezsti dryckr. þa bad Finnr þori uega feet. þorir gek eftir skipinu aftr ok fram ok talade vid ymsa menn. Finnr kallar ok bat hann bera fram feet.

þorir bat hann ganga a land upp ok kuetzst þar mundu græida fet. þa gek Finnr a land upp ok menn hans. þa kom ok þorir ok græidde fet. uar þa uegit ór æinum siod .x. merkr. þa let hann fram knytiskauta marga uar j sumum mork uegin sumum half edr aurar nockurir. þa mællti þorir. þetta er lanfe er ymsir menn hafa let mer þuiat uppi er skiott silfr mitt allt þat er ek a. Sidan gek þorir vt a skip en er hann kom aftr uo hann smam ok smam. þa læid a daginn. En þegar þinginu uar lokit þa gengu menn til skipa sinna ok biugguzst til brottlögu. toku menn þa at sigla er bunir voru. kom þa suo at flestir menn hofdu siglt. Sa Finnr þa at þynntizst lid um hann. kolludu menn a hann ok badu hann vera buinn. var þa enn æigi ueginn þridiungr fiarins. þa mællti Finnr. sæint gelldr þu fet þorir se ek at þer þikir mikit at greida af hendi. skalltu nu ok kyrt uera lata fyst ok giallda nu konungi þat er eftir er. Stod þa Finnr upp ok sneri burt. þorir hundr suarar. uel þiki mer þat Finnr at vit skilium en uilia skal ek til hafua at giallda þessa skulld suo at konungi þiki æigi uangolldit ok badum yckr. þa gek Finnr til skips sins ok siglde. þorir uard sæint buinn or hofninne. en er segl kom upp þa helldu þeir ut um Uestfolld ok sidan a haf ut ok suo sudr med landi at siar uar j midium hlidum edr stundum uatnnade land. let suo ganga þar til er þeir sigldu j Æinglandz haf ok kom hann fram a Æinglande. for sidan a fund Knutz konungs ok tok hann uel uit honum. kom þa þat upp at þorir hafdi of lausafiar. hafde hann þar þat fe er hann hafde tekit j Biarmalandz ferdinne ok þeir Kalli. en j tunnum þeim hinum myklum var botnn skamt fra ödrum botnni ok uar þar j mille dryckr en tunnan huortueggi uar full af gram skinnum ok bior ok safala. Var þorir þar med Knuti konungi. Finnr Arnnason for med lid þetta til Olafs konungs ok sagde honum allt fra ferd sinne ok suo þat at hann kuezst hyggia at þorir væri ór landi farinn ok uestr til Einglandz a fund Knutz hins rika. ok ætla ek hann vera oss alloþarfan. Konungr suarar. þui truum uer at þorir mun oss uera otrur ok þiki mer hann iafnan betri firr mer en nærr.

### Aasmundr Grankelsson hrakti menn Hareks.

203. Asmundr Grankelsson var þann uetr a Halogalandi j syslu sinne ok uar hæima med fedr sinum Grankeli. þar liggr til hafs vtver æitt er bæde var at uæida sela ok fugla egguer ok fiskuer en þat hafdi at fornnu legit til bæiar Grankels. en Harekr or þiottu hafde uæitt tilkall. uar þa suo komit at hann hafdi haft af uerinu gogn nockur

missari en þa þottizst Asmundr ok þeir fedgar [452] hafua konungs traust til allra rettra mala. foru þeir badir fedgar a fund Hareks ok sogdu ord ok iartæignir Olafs konungs at Harekr skyllde lata af tilkall vm verit. Harekr suarar þungliga. segir at Asmundr for til konungs med syslu[1] rógi fyrr ok nu med þessu tilkalli hefui ek oll sannynde til mins mals. skylldir þu Asmundr kunna at ætla þer hof þo at þu ser mikill firir þer er þu hefir konungs traust ok ef þer skal hlyda at drepa hofdingia en ræna oss[2] ok gera slik obatauerk vid oss er þikiumz firirmenn ok kunna at hallda til fullz þott oss væri iafnnbornir menn. en nu er þat allfiarri at þer set iafnnadarmenn minir firir ættar sakir. Asmundr suarar. þess kenna margir af þer Harekr at þu ert frændstorr ok ofreflismadr sitia ok margir firir skordum hluta firir þer en þo er þat likligazst Harekr at þu uerdir j annan stad til at læita at hafa fram uiafnnat en uit mig edr taka suo miog aflaga sem þetta er. Skildu þeir uit suo buit. Harekr sendi huskalla sina .x. edr .xij. med rodrarferiu mykla. þeir foru j verit toku þar allzskonar uæideskap ok hlodu feriuna. en er þeir uoru j brott bunir þa kom þar at þeim Asmundr Grankelsson med .xxx. manna ok bad þa laust lata fang þat allt er þeir foru med. huskallar Hareks suorudu um þat helldr obratt. sidan uæ(i)ttu þeir Asmundr þeim atgongu. kendi þa lidsmunar. voru þa huskallar Hareks sumir særdir en sumir bardir en sumir a kaf reknir ok fæingit allt borit a skip þeirra ok hofdu þeir Asmundr þat med ser. Koma huskallar Hareks hæim uit suo buit ok segia honum fra ferd sinne. Harekr suarar. þetta mun orka tidenda þuiat þat hefir ecki fyrr gert uerit at beria mina menn. Uar þetta mal kyrt ok lagde Harekr æigi ord j ok uar hinn katazsti. Harekr let bua um uorit æina tuitogsessu var þat skip alluel buit at monnum ok ræida. for þa Harekr um uorit j leidangr. En er hann fann Olaf konung þa uar þar firir Asmundr Grankelsson. þa kom konungr a stefnnulagi med þeim ok sætti hann þa ok festu þeir á konungs dom. sidan let Asmundr flytia fram vitni sin þau at Grankell hafde att verith. en konungr dęmdi eftir þui. vrdu þa botalausir huskallar Hareks en dęmt verit til handa Grankeli. Harekr segir at honum var skamlaust at hlita konungs domi huernig sem mal þetta skipadizst sidan.

## Fra þoroddi ok dryckiuskap bonda.

204. þoroddr Snorrason dualdizst j Noregi at radi Olafs konungs þa er Gellir þorkelsson fek leyfui til at fara til Jslandz suo sem fyrr

[1]) *r.* sliku [2]) er *tilf. Cd.*

var ritat ok var hann þa med Olafi konungi ok undi illa vid ofrelsi sitt. þuiat hann skylldi æigi fara ferdar sinnar þangat sem hann uillde. Önduerdan uetr þann er Olafr konungr uar j Nidarosi þa lysti hann þui at hann villde senda menn til Jamtalandz at heimta skatt. en til þeirrar farar voru menn ofusir þuiat af lifui voru teknir sendimenn Olafs konungs þeir er hann hafdi fyrr senda þrand hinn huita ok þa .xij. saman suo sem fyrr var ritat. ok hofdu þeir Jamtar sidan halldit lydskylldu[1] undir Suiakonung. þoroddr Snorrason baudst til þessarar farar þuiat hann hirti alldri huat yfir hann gengi ef hann væri sialfrade. þat þektizst konungr ok foru þeir þoroddr .xij. saman. þeir komu fram austr a Jamtalandi ok sottu heim þann mann er þorir het. hann uar þar lǫgmadr ok mestr ordamadr þar fengu þeir godar uittokur. En er þeir hofdu þar dualizst litla stund þa baru þeir upp eyrendi sin firir þori. hann suarar ok sagdi at firir þeim suorum redu ǫngum mun sidr adrir landzmenn[2]. en hann quezst þings skylldu lata kuedia. Var suo gert at ǫruarþing var upp bodit ok stefnt þangat fiolmenni. for þorir til þingsins en sendimenn duolduzst at hans medan. þorir bar upp mal þetta firir alþydu. en þat kom asamt med þeim ǫllum at þeir skylldu ongan skatt giallda Noregs konungi. en sendimenn villdu sumir heingia lata en sumir uilldu þa hafa til blotz. en þat var af radit at þa skyllde hallda þar til er syslumadr Suiakonungs kæmi þar. skylldu þeir þa starfa firir þeim sligt er þeir villdu med rade landzmanna en gera þat yfirbragd a at sendimenn væri uel halldnir ok at þeir skyllde skattzsins bida ok skyllde skipta þeim a uistir .ij. huerium saman. þoroddr var uit annan mann at þoris. þar var jolauæitzsla mikil ok samburdarǫl. margir voru þar or þorpum ok drucku allir samt vm iolin. Annat þorp var þadan skamt þar bio magr þoris rikr ok audigr. hann atti son uaxinn. þeir magar skylldu drekka half jol at huors þeirra ok fyrr at þoris. þeir magar druckuzst a en þoroddr a bondason ok uar þar kappdryckia mikil vm kuelldit ok kappmæli mikit ok manniofnudr mikill med Noregsmonnum ok Suium ok þui næst vm konunga þeirra bædi þa er fyrr hofdu verit ok þessa er nu voru ok suo þau skipti er verit hofdu mille landa j manndrapum ok ranum er uerit hofdu mille landanna. þa mællti bondason. ef vorir konungar hafua flæire menn latit þa mun syslumadr Suiakonungs iafna med .xij. manna fiorui þa er þeir koma sunnan eftir jol ok uitu þer ogerlla ueslir til huers þer erut dualdir. þoroddr hugsade sitt mal ok margir drogu glott at ok fundu hneygslyrdi ok suo konungi þeirra. for þat æigi leynt er olit mællti med þeim

[1]) hlydskylldu *Cd.* [2]) landmenn *Cd.*

Jamtðnum. en þoroddr [453] hafdi adr ecki j grunat. Eftir um daginn toku þeir uopnn sin ok klæde ok logdu ser til handargagnns. Eftir um nottina er menn voru sofnnadir hlupu þeir þoroddr til skogar. en um morguninn er menn urdu varir vid brothlaup þeirra foru menn med sporhunda ok hittuzst þeir j skoginum þar sem þeir hofdu folgizst ok hofdu þa heim j skemmu. þar var grðf diup. voru þeir þar j latnir ok hurd læst firir. hofdu þeir litinn mat en æinge klæde nema sin æin. Ok er komu mid jol for þorir ok allir frelsingiar til mags sins skyllde hann þar drecka hinn efra hlut jolanna. þrælar þoris skylldu gæta grafamanna. en þeim uar dryckr ætladr nogr en þeir stilltu litt drykiunne ok gerdu sig suo ðloda þegar vm kuelldit. en er þeir þottuzst fulldruknir þa mælltu þeir sin a mille er mat færdu grafarmonnum at þa skyllde ecki skorta. þoroddr quat þeim kuædi ok skemti þrælunum en þeir kolludu hann mundu uera uirdingamann ok gafu honum kertislios mikit. þa kuomu þeir vt er adr voru inne þrælarnir ok kolludu akafliga at hinir skylldu inn fara. en þeir voru huorirtueggiu olodir suo at þeir luku huorki aftr grofina ne hurdina af skemmunne. þa reist þoroddr j sundr j streinge felld sinn ok knyttu saman ok gerdu snðru a endunum ok kostudu upp a skemmugolfit. þat uafdizst um arkarfot æinn ok uar fast. þeir læitodu þa upp at fara. lyfti þoroddr upp forunaut sinum til þess er hann stod a ðxslum honum. sidan las hann sig upp j gegnum glugginn. þar skorti æigi ræip j skemmunni ok let hann þau ofan siga j mot þoroddi. en er hann skyllde draga hann upp þa fek hann huergi dregit hann. þa mællti þoroddr at hann skyllde kasta reipi um bitann j skemmunne en gera lykkiu a endanum ok bera þar j uidu ok griot suo at þat uar mæir en iafnnuggi hans. hann gerdi suo. for þa sigit ofan j grofina. en er þorodr kom upp þa tok hann klæde j skemmunne sem þeir þurftu. þar voru hræinstokur nockurar ok bundu ofgar a fætr ser. en adr þeir færi j brott þa logdu þeir elld j kornnhloduna en sidan j brott j nattmyrkrit. hladan brann ok mart annat j þorpinu. þeir þoroddr foru alla nott a eydemerkr en faluzst er at degi var komit. En um morguninn uar saknnat þeirra. þa uar farit med sporhunda ok þeirra leita farit alla uega fra bænum en hundarnir roktu sporin aftr til bęiarins. þuiat þeir kendu af hræinstokunum ok rðktu þangat sporin sem klaufirnar hofdu gengit af hræinsfitiunum ok uard þeirra ecki læitat.

### þoroddr fann Arnliot gellina.

205. þeir þoroddr voru lengi a eydimorkum ok komu æitt kuelld at æinum husabæ ok gengu þar inn. en þar sat inne kallmadr ok kona ok nefnndizst hann þorir ok segir at su er kona hans er þar sat inne ok suo þat at þau attu husakot þat. bonde baud þeim þar at vera en þeir þagu þat. hann sagde þeim at þui uar hann þar kominn at hann hafde flyit ór bygdum firir uiga sakir. Uar þeim þoroddi uæittr godr bæini ok motuduzst þeir uit elld. sidan uar buit um þa þorodd j seti ok logduzst þeir til suefns en þa uar enn æigi logi af elldinum. þa sa þoroddr at þar gek fram madr ór audru huse ok hafde hann onguan mann set iafnnmikinn. sa madr hafde skarlaks kyrtil hladbuinn ok uar hinn uegligsti sionum. þoroddr heyrde þann hinn mykla mann auita þau vm þat at þau toku vid gestum ok hofdu uarlla ser mat. þau suorudu. vertu æigi ræidr sialldan hefir þetta j moti borizst. uæit þu honum nockura hialp ef þu matt þuiat þu ert betr tilfærr en uit. þeir þoroddr heyrdu þenna mann nefndan Arnnliot gellina ok suo at systir hans væri husfreyia þoris. þoroddr hafdi heyrt getit Arnliotz gellina ok suo þat med at hann var hinn mesti stigamadr ok illuirke. Suofu þeir þoroddr af þa nott þuiat þeir voru mæddir af gongu. en er eftir var þridiungr nætr þa kom þar Arnliotr ok bad þa upp standa ok buazst til ferdar. þeir þoroddr stodu upp þegar ok klædaz. var þeim gefinn daguerdr. sidan fek þorir skid huorum þeirra. Arnnliotr redzst til ferdar med þeim. steig hann a skid þau voru bæde long ok breid. en þegar er Arnnliotr laust vit gisla sinum[1] þa uar hann huar fiarre þeim. þa bæid hann þeirra ok sagde þa huergi komazst ok bad þa stiga a skid med ser. þeir gerdu suo. for þoroddr nær honum ok hellt undir bellti Arnnliotz en forunautr þoroddz hellt honum. skræid Arnnliotr þa sem hann væri laus. þeir komu til sæluhus nockurs þa er þridiungr var af nott. drapu þeir þar upp elld ok biuggu ser til matar. en er þeir motuduz þa mællti Arnnliotr bad þa ongu nidr kasta af matnum huorki bæinum ne mola. Arnnliotr tok upp silfrdisk ok mótuduzst þar af. en er þeir voru mettir þa hirde Arnnliotr leifar þeirra. sidan biugguzst þeir til reknna. j annan enda hussins uar loft uppi af þuertriam foru þeir þangat a loftit ok [454] logduzst þar til suefnns. Arnnliotr hafde hóggspiot mikit ok var falrinn gullrekinn en skaftit suo hatt at hann tok hendi til fals en hann var gyrdr suerde. þeir hofdu vopn sin ok klæde uppi a loptinu hia ser. Arnliotr bat þa vera hliodsama. hann la fremstr a loptinu. litlu sidar komu þar

[1]) h'm d. e. honum *Cd.*

til hus .xij. menn ok voru kaupmenn foru þeir til Jamtalandz med varning sinn. en er þeir komu j husit gerdu þeir mikit vm sig ok voru katir ok gerdu firir ser ellda stora. en er þeir mòluduzst þa kostudu þeir vt bæinum ollum. sidan biugguzst þeir (til) reknna ok logduzst nidr j set. En er þeir hofdu litla hrid sofit þa kom þar til hussins trollkona æin mikil en er hon kom inn sopadizst hon um fast tok bæin ok allt þat er henni þotti ætt ok slo j munn ser. þa greip hon þann mann er nęstr henni uar ok ræif hon þann allan j sundr ok kastadi j elldinn. þa uoknnudu þeir vid illan draum ok hlupu upp. en hon færde til heliar huernn at òdrum suo at æinn uar eftir a lifui. hliop hann þa innar undir loftit ok kallar til hialpar ser ef nockurr uæri sa a loptinu er honum mætti hialpa. Arnnliotr sæildizst j moti honum ok kipti upp a loptit. þa for hon fram at elldinum ok tok at eta menn þa er stæiktir voru. þa stod Arnnliotr upp ok greip spiot sitt ok setti spiotit mille herda henni suo at oddrinn tok ut um briostit. Hon brazst vid hart ok kuat uit illiliga ok hliop vt. Arnnlioti uard laust spiotit ok hafde hon þat med ser. Arnnliotr gek ut ok ruddi ut hræum mannanna ok setti firir hurdina ok bætti þat er hon hafde fra brotit. suofu þeir þa þat er eftir uar nætrinnar En er lysti stodu þeir upp ok atu mat sinn. en er þeir voru mettir mællti Arnnliotr. nu munu uer her skilia. skulu þer fara eftir uagnnabraut þessi er þeir kaupmenn-irnir foru j giar en ek mun læita spiotz mins. mun ek hafa at verk-kaupi þat er mer þykir fenytanda af þui er þessir menn attu. skalltu bera quediu mina Olafi konungi ok seg honum suo at hann er suo manna at mer er mest foruitne a at finna en quedia min mun honum litils þikia uerd. Tok hann þa upp silfrdisk ok dukinn med ok mællti. færit konungi gripi þessa ok segit at þat er quedia min. Sidan buazst þeir til ferdar huorirtueggiu ok skiliazst þeir at suo mælltu. for þoroddr ok þeir forunautar ok suo sa madr er undan hafdi komizst til þess er þeir fundu Olaf konung ok fundu hann j kaupangi ok segir þoroddr honum allt fra ferdum sinum ok bar honum quediu Arnnliotz ok færde honum gripina. Konungr suarar. þat uar illa er Arnnliotr kom ecki a minn fund ok er skade mikill er suo illt skal liggia firir hraustum dreing ok merkiligum manni. þoroddr uar sidan med Olafi konungi þat er eftir uar uetrar ok fek leyfui af honum at fara til Jslandz eftir um sumarit. þeir Olafr konungr skildu þa med vinattu.

## Fra ferd Olafs konungs vm Nore(g)h.

206. Olafr konungr for nu med lide sinu ok hafdi læidangr vti firir ollu lande. fylgdu honum þa allir lendir menn nema Einar þambarskelfuir. hann hafde nu vm kyrt hæima setit at buum sinum sidan hann kom j land ok þionade ecki Olafi konungi. atti Æinar stormyklar æignir ok hellt sig uel ok rikmannliga. hann hafde ǒngar ueitzslur konungs. Olafr konungr hellt lide sinu sudr um Stade dræif þa enn til hans mikill fiolde ór herudum. þa hafdi Olafr konungr skip þat er hann hafdi gera latit vm uetrinn er Uishundr var kallat allra skipa bezst. var a framstafninum vishundar hǒfuth gullbuit. þess getr Sighuatr.

Lyngs bar frekr til fæingiar
flugstyggs sonar Tryggua
giolnar gulli molnu
gud uillde suo rodnar.
annarr leth a unnir
Olafr buinn hala
langr þo driugt hinn digri
dyrshornn Uishund sporna.

For konungr þa sudr a Hordaland. hann spurde þar þau tidende at Erlingr var farinn or lande ok hafde haft lid mikit skip .iiij. edr v. hann hafde sealfr skæid mykla en synir hans .iij. tuitǒgsessur ok hofdu siglt uestr til Æinglandz a fund Knutz hins rika. For þa Olafr konungr sudr med landi ok hafde allmikit lid. hann læiddi at spur(n)ingum ef menn visse nockut til Knutz hins rika. en þat kunnu allir at segia at hann uar uestr a Æinglande. þat uar ok sagt med at hann hefdi leidangr vti ok ætladi til Noregs. en firir þa sok at hann hafde lid mikit en hann fek ecki hit sanna spurt huert hann skyllde stefnna til motz vid Knut. en monnum þotti ser illa gegnna duol j æinum stad med lid suo mikit. þa red hann þat af at sigla sudr til Danmerkr ok hafde lid þat allt med ser er uigligazst var ok bezst buit en gaf huerium þeim fararleyfui. suo sem quedit er.

Olafr knyrr und arum
ordsniallr Uishund nordan
brytr annar gramr uti
undheims dreka sunnan.

Nu for þat lid heim er honum þotti minnzst fylgd j. hafde Olafr konungr mikit lid ok fritt ok voru þar flestir lendir menn ór Noregi nema þeir er adr uar sagt at ór lande væri farnir edr eftir voru heima.

## Olafr heriade til Danmerkr.

207. [455] þa er Olafr konungr for til Danmerkr ok hellt lide sinu til Siolandz en er hann kom þar þa uæitti hann uppgongu. var bæde landzfolkit rænt en sumt drepit sumt hrakt ok bundit ok flutt suo

til skipa. en allt flyde undan þa er þar kom ok uard af þui æingi uidrtaka ok gerde hann þar hit mesta heruirke. En er Olafr konungr uar a Siolande þa spurde hann þau tidende at Ǫ̊nundr konungr hafde her uti ok for med læidangr mikinn austan firir Skaney ok heriade hann þar. uar þa bert gert vm radagerd þa er þeir Olafr konungr ok Ǫ̊nundr konungr hǫfdu haft j Elfinne er þeir gerdu sattband sitt at þeir skylldu badir uæita motstodu Knuti konungi. Fór Onundr konungr til þess er hann fann Olaf konung mag sinn. en er þeir funduzst þa gerdu þeir bert firir lide sinu ok landzmonnum at þeir ætludu undir sig at leggia Danmork ok bæida ser uittoku af landzmonnum. en þar uar sem vida annarstadar finnzst dǫmi til at þa er landzfolkit verdr firir hernnade ok hafua æigi styrk til vidtoku þa iata flestir þeim alogum er ser kaupa fridinn. uard þa suo at margir gengu til handa konungunum ok iatudu þeim hlydni. logdu þeir land undir sig þar sem þeir foru en heriudu at odrum kosti. Sighuatr getr þessa hernadar j drapu þeirri er hann orti um Knut konung.

Knutr vard und himnum
hygg ek ætt ath frett
Haralldz j her
huger vel duga.
let ser lydr Gauta
lid sudr ór Nid
Olafr iofurr
arsæll fara.

þordut nordan
namzst þat med gram
til sletz sualer
Selunz kilir.
enn med annan
Ǫ̊nundr Dǫnum
a hendr honum
herr sænskan ferr.

## Herbunadr Knutz konungs til Noregs.

208. Knutr hinn riki hafde spurt uestr til Æinglandz at Olafr Noregskonungr hafdi farit med lide sinu til Danmerkr ok þar uar ofridr mikill j riki hans. tok þa Knutr konungr lide at safnna. drodz þa saman bratt her mikill ok fiolde skipa. var Hakon jall annar hofdinge firir þeim her. Sighuatr skalld kom þat sumar til Æinglandz uestan ór Rudu af Uallande ok sa madr med honum er Bergr het. þeir hofdu þangat haft kaupferd hit fyrra sumarit. Sighuatr orti visur þær er kalladar eru Uestrfaravisǫr ok er þetta upphaf at.

Bergr hefir minzst hue margar
morgun Ruduborgar
bord let ek j fǫr fyrda
flest j arminn vestra.

En er Sighuatr kom til Æinglandz for hann a fund Knutz konungs ok uillde bidia ser lofs at fara til Noregs. Knutr konungr hafde lagt vid

hann firir kaupskip ǫll fyrr en hann hafde buit her sinn. En er Sighuatr kom til Knutz konungs þa gek hann til konungs herbergis ok uar þat læst ok stod hann lengi vti en er hann hitti konung þa fek hann lof sem hann uillde. Sighuatr quat þa.

Vtan vard ek þa er Jota
anspilli fek stillir
męlld sa herr firir halldi
husdyr firir spyriazst.

en eyrendi oru
attungr j sal Knuti
Gorms berr ek oft a armi
iarnnstukur vel luka.

En er Sighuatr uard þess uarr at Knutr konungr byr herfǫr sina a hendr Olafi konungi ok hann visse huern styrk hann hafdi þa quat hann.

Ort tegazst Olaf gerua
allt hefir sa er fiorualltan
konungs dauda mun ek kuida
Knutr ok Hakon uti.

halldi landuordr þo at ualldit
ualla Knutr ok ialla
dælla er fyst a fialli
fundr ef hann sealfr kemzst undan.

Ok enn quat hann.

Atti jall at sætta
allframr buendr gamla
ok þeir er oftar toku
Olaf at þui mali.

þeir hafua fyrr af fari
fram er Æireks kyn mæira
hofdu keyft en heiftir
Hakon saman bundit.

## Knutr kom lide sinu til Danmerkr.

209. Knutr hinn riki hafdi buit her sinn ór lande. þa hafde hann of skipahers. hann sealfr hafde dreka þann er lx var at rumatali voru þar ok a hǫfut gullbuin. Hakon jall hafde annan dreka er var fertogr at rumatali voru þar ok gullbuin hǫfut a en segl bæde voru stofut med bla ok raudu ok grænu oll voru skipin stæind firir ofan sia. morg ǫnnur hofdu þeir stor skip ok uel buin. þess getr Sighuatr j Knutz drapu[1].

Knutr uar und himnum
herr austan ferr
frid fylkis lid
franeygr Dana.
skræid uestan uidr
uar glæstr sa er bar
utan andskota
Adalrads þadan.

ok baru j byr
bla segl vid ra
dyr dǫglings for
dreka landreka.
en þeir er komu
kilir uestan til
voru læid lidu
Limafiardar brim.

[1]) drapa *Cd.*

Suo er sagt þa er Knutr konungr hellt þeim her uestan af Æinglande ok kom ollu lide sinu hæilu til Danmerkr ok lagdi til Limafiardar ok uar þar firir mikill safnadr landzmanna.

### Raad Vlfs jarls ok Dana. capitulum.

210. Vlfr jall Sprakaleggsson hafde settr verit til landgæzslu j Danmorku þa er Knutr konungr for til Æinglandz. hafdi hann sellt j hendr Ulfi jalli son sinn þann er kalladr uar Hordaknutr. uar þat hit fyrra [456] sumar sem fyrr var ritat. En þegar er Knutr konungr uar j brottu þa sagde Ulfr jall at konungr hefde bodit þat eyrendi at skilnade þeirra at hann villde at þeir tæki til konungs yfir Danauelldi Hordaknut son hans. fek hann firir þa sôk hann oss j hendr. hefui ek segir hann ok margir hofdingiar þat kært firir konungi at monnum þikir þat uande mikill at sitia her konunglausir en hinum fyrrum Danakonungum þotti þat fullræde at hafa konungdom yfir Danauellde æinu saman en þa er hin fyrri æfui uar redu margir þessu riki. en þo gerizst þat nu myklu meira uandkuæde en fyrr hefir uerit þuiat uær hofuum her til nad j fride at sitia firir utlendum hofdingium en Noregskonungr ætlar at heria a hendr oss ok er monnum þo grunr a at Suiakonungr muni ok til þeirrar ferdar radazst. en Knutr konungr er nu a Einglande. Sidan bar jall fram bref ok innsigle Knutz konungs þau er sonnudu allt þetta er jall bar upp. þetta eyrendi studdu margir hofdingiar ok af þeirra fortôlum allra saman red landzfolkit þat af at taka Knut til konungs. ok uar suo gert a þui sama þinge. En at þessi radagerd uar uphafsmadr Emma drottning. hafde hon latit gera bref þessi ok latit jnnsigla. hafde hon med brôgdum nad jnnsigle konungs en hann sialfr uar leyndr ollu þessu. En er þeir Hordaknutr ok Ulfr jall urdu þess varir at Olafr konungr uar kominn nordan ór Noregi med lid mikit þa foru þeir til Jotlandz þat uar megin mest Danauelldiss. skaru þeir þar upp herôr ok stefnndu þeir saman her miklum. En er þeir Hordaknutr ok Ulfr jall urdu þess uarir at Suiakonungr uar þar kominn firir longu med her sinn þa þottuzst þeir æigi hafa traust til at leggia til bardaga uit þa bada. þa helldu þeir safnnadi a Jotlandi ok ætlôdu at veria firir konungum en skipaherinn drogu þeir saman j Limafirde ok bidu suo Knutz hins rika. En er þeir spurdu at Knutr uar uestan kominn til Limafiardar þa gerdu þeir sendimenn til konungs ok drotningar Emmu ok badu at hon skyllde uerda uiss huort konungr uar þeim ræidr edr æigi ok lata þess uerda uara. drotning ræddi þetta mal firir konungi ok segir at Hordaknutr son þeirra uill bæta ollu

þui er konungr uillde ef hann hefde þat gert er konungi þætti j moti skapi. (Konungr suarar) at Hordaknutr hafde ecki sinum radum fram farit. hefir þat suo tekizst segir hann[1] sem uon uar at at hann uar barnn at alldri ok ouiti er hann uillde konungr hæita ef nockurnn uanda beri til handa honum at land þetta mundi herskillde farit ok leggiazst undir utlenda hofdingia ef æigi kæmi uorr styrkr til. nu ef hann vill nockut uit mik sættaz þa fari hann a uornn fund ok leggi nidr hegom-anafnn þat er hann hefir sig konung kallat. Sendi drotning þessi sǫmu ord Hordaknuti ok þat med at hon bad hann (æigi) þessa ferd undir hǫfut leggiazst sagde sem uar at hann mundi æigi styrk til hafa at standa j moti fedr sinum. En er þessi ordsending kom til Horda-knutz þa leitadi hann rads uit jall ok uit adra þa er þar voru. en þat fannzst bratt þegar landzfolkit spurdi at Knutr hinn gamli uar kominn þa dreif til hans allr mugr lids ok þotti þar traust sitt allt. sa jall at .ij. voru kostir firir hondum annathuort at fara a fund Knutz ok leggia allt a hans ualld edr flyia undan af lande a burt. en aller fystu Hordaknut at fara a fund fǫdr sins[2] ok gerdi hann suo. En er þeir hittuzst þa fell hann til fota honum ok lagdi innsigli j kne honum þat er hans nafnn fylgdi. Knutr konungr tok j hond syni sinum ok setti hann suo hatt sem fyrr hafde hann setit. Ulfr jarll sendi Suein son sinn a fund konungs. Suæinn uar systurson konungs. hann bat grida fodur sinum af konungi ok baud at setiazst j gisla af hendi jalls. þeir Suæinn ok Hordaknutr voru iafnngamlir. Knutr konungr sendi þau ord til jarlls at hann safnnade her ok skipum ok færi suo til fundar uit hann en sidan talade þeir um sattmal sitt. Jarll gerde sem hann bat.

## Hernadr Olafs i Danmork.

211. En þa er Olafr konungr ok Ǻnundr konungr spurdu at Knutr konungr uar uestan kominn ok þat at hann hafdi oflyianda her þa sigldv þeir firir Skaney. taka þa at heria ok brenna herut sækia suo austr firir land til motz vid Suiariki. en þegar at landzfolkit spurde at Knutr konungr uar uestan kominn þa uard ecki af handgongu vid konungā. þessa getr Sighuatr.

Gatut drottnar
Danmork spanit
undir sig sokum
snarir herfarar.

þa let snarpla
Skaney Dana
haulldr heriada
hǫfutfremzstr iofurr.

þa sottu konungar austr firir landit ok logdu at þar er hæitir ain helga ok duolduzst þar um hrid. spyria þeir at Knutr konungr for med her

[1]) hon *Cd.* [2]) þins *Cd.*

sinn austr eftir þeim. þa bera þeir rad sin saman ok taka þat rads at Olafr konungr ferr med lide sinu a land upp allt a merkr til uatz þess er ain helga fellr ór. gerdu þar j árosinum stiflu med vidum ok torfui ok stifldu suo uppi vatnnit [457] ok skaru þar diki stor ok hleyptu saman fleire votnnum ok gerdu þar vida floa en j arfarueginn hiuggu þeir storvidu. þeir voru þar j starfui marga daga ok hafde Olafr konungr tilstilli um vmbrot þessi en Önundr konungr hafde starf firir skipahernum. Knutr konungr hafdi spurt til ferdar konunga ok suo skada þann allan er þeir hofdu gert j riki hans. hellt þa til motz vid þa þar er þeir lagu j anne helgu ok hafde hann mæirr en halfu meira (lid) en þeir badir. þess getr Sighuatr.

Læit af iofurr
ættmanna fanz
Jotlandz etazst
jlendr af þui.

ualdi folldar
flest ran Dana
hlifskiolld hafa
hofutfremzstr iofur.

## Olafr konungr ok Onundr veittu Knuti ahlaup.

212 þat uar æinnhuern dag at niosnarmadr Önundar konungs sa sigling Knutz konungs ok atti hann þa æigi langt þangat. þa let Onundr konungr blasa herblastr. raku menn þa tiolld af ser ok herklædduzst reru þeir upp ok vt eftir hof(n)inne ok austr firir landit lǫgdu þeir þa saman skipin ok tæingdu ok biugguzst til bardaga. Önundr konungr hleypti niosnarmonnum upp a landit ok foru þeir a fund Olafs konungs ok sogdu honum þessi tidendi. þa let Olafr konungr briota stifluna ok hleypa anne j farueginn en fór vm nattina ofan til skipa sinna. En er Knutr konungr kom firir hofnnina þa la herr konunga buinn til bardaga þotti honum þa sid dags at leggia til orrostu vid þa vm þat er herr væri buinn allr. þuiat floti hans var mikill ok þurfti vidan sia at sigla ok var langt j mille hins fysta skips ok hins sidazsta suo þess at vtazst for ok hins er næst er landi. vedr uar litit. Knutr konungr sa at Sviar ok Noregsmenn hofdu rudda hofnnina. þa lagdi hann inn j hofnina ok suo oll skip sem rum hǫfdu en þo la meginherrinn vt a hafinu Um morguninn er liost var ordit þa var lid þeirra[1] sumt a tali en sumt a landi uppi at skemtan sinne annarri. þa finna þeir æigi fyrr en þar geysazst at þeim uotnn med fossfalli. þar fylgdu vidir storir ok rak at skipum þeirra en skipin meidduzst firir en uotnin flutu vm alla vollu. folkit allt þat er a landi var ok mart þat er a skipum var tyndizst firir en aller þeir er þui nadu hioggu festar sinar ok

[1]) sumt a lande uppi *tilf. Cd.*

leystuzst ut ok rak skipin sundrlaus. drekann mykla er Knutr konungr var a vard laus ok rak ut firir strauminum. vard honum ecki audsnuit med arum rak hann inn at flotanum konunganna. en er þeir kendu skipit þa logdu þeir at alla uega umhuerfis. en firir þa sok at skipit uar bordmikit suo sem borg væri en fioldi manna a ok ualit lid hit bezsta ok uar skipit ecki audsott. en stundin uar skom adr en Ulfr jall kom at med lide sinu ok uard hord orrosta. þui næst dræif at herr Knutz konungs ollu megin at þeim þa sa konungar Olafr ok Onundr at þeir munde þa unnit hafa at sinne þann sigr sem þeim vard audit at sinne. letu þa siga skipin a homlu ok leystuzst j brott or her Knutz konungs ok skildu flotana. En firir þa sok at atlagan þessi hafdi ecki þann ueg tekizst sem Knutr konungr hafde til skipat ok hofdu skipin ecki fram lagit sem ætlat var. ok uard ecki af atlogu j annat sinn ok konnudu þeir Knutr konungr lid sitt ok toku at binda sar sinna manna ok skipudu þa lidinu ok biugguzt vm. En er þeir hǒfdu skilizst ok ser fór huerr flotinn kǒnnudu þeir Olafr konungr þa lid sitt ok fundu at þeir hǒfdu ecki mannspell fæingit. þa sa þeir ef þeir bide þar þess er Knutr konungr hafde buit her sinn allan þann er hann hafde ok legdi at þeim at lidsmunr var mikill suo at litil von var at þeir munde sigr hafa en auduitat ef orrosta yrde at þar mundi verda allmikit mannfall. nu uard þat rad þeirra at roa lidinu ollu austr med landi. en er þeir sa at floti Knutz konungs for ecki eftir þeim þa ræistu þeir upp segl sin. Ottarr suarti getr þess j drapu þeirre er hann orti um Knut konung.

Suium hnecktir þu soknna
siklingr ǒr hinn mykla
ulfr þar er ain helga
ulfs bæitu fek hæitir.

hellzstu þar er hrafnn ne sualltat
huatradr ertu lade
ognnar staf firir iofrum
uggr tuæimr uit kyn bæima.

þordr skalld Suartzson[1] orti erfuidrapu um Olaf konung helga. su er kollut Hrodadrapa ok er þar getit þessa fundar.

Atti Egda drottinn
Olafr þrumu stala
uit agætann Jota
audling þann er gaf hringa.

skautat skarft at moti
Skanunga gramr hanum
Suæins uar sonr at ræyna
slægr þaut ulfr um hræfui.

## Bod Onundar konungs vid Olaf konung.

213. Olafr konungr ok Ǫnundr konungr sigldu austr um Suiakonungs uelldi ok at aptni dags logdu þeir at lande þar sem hæitir j Bardzuik. lagu þar konungar um nottina. en þat fannzst a um Suia at

[1]) *r.* Siareksson

þeim uar bratt hæim at fara. þuiat mikill hlutr Suiahers siglde um nattina austr med landi ok lettu æigi fyrr sinne [458] ferd fyrr en þeir koma heim til sins hæimilis. en er Önundr vard þess varr þa lysti af degi. þa let hann blasa til husþings. gek þa lid allt a land ok var þing sett. Önundr konungr tok til mals. suo er segir hann sem þer vitit Olafr konungr at ver hofum farit j sumar aller saman j hernnat vida vm Danmork ok höfum feingit fe mikit en ecki af londum. en ek hefui haft j sumar halft fiorda hundrat skipa en nu er æigi mæirr eftir en hundrat skipa. nu litz mer suo sem uær munum ecki til sæmdar dueliazst her æigi med meira lid en uær höfum þo at þer hafit .lx. skipa sem þer hafit haft j sumar. nu þiki mer[1] uisligra at fara aftr j riki mitt ok er gott hæilum uagni heim at aka ver hofum aflat j ferd þessi en latit ekki. nu vil ek Olafr magr bioda ydr at þer farit med oss ok verim aller saman ok takit sligt af minu riki sem þer fait ydr uel halldit ok þat lid sem ydr fylgir. gerum þa er vór kemr sligt er oss synizst. en ef þu uillt æigi þann kost þa er þat til at hafua land vort til yfirferdar. þa skal ydr þat hæimillt at fara landueg j riki yduart nordr j Noreg.

Fra Olafi konungi ok Onundi konungi. capitulum.

214. Olafr konungr þackade Önundi konungi vinsamlig bod er hann baud honum. en þo ef ek skal rada segir hann þa mun annat rad tekit ok munu ver hallda saman her vorum þeim er nu er eftir. hafda[2] ek fyst j sumar adr en ek for or landi[3] halft fiorda hundrad skipa. en er ek for or landi þa ualdi ek af her þeim ollum af þat lid er mer þotti bezst ok skipade ek þessa .lx. skipa er nu hefui ek her. nu litz mer suo sem yduart lid muni þat j brott hafua hlaupit er dadlausazst er ok uest fylgd er j en ek se her alla hirdstiora ydra ok hofdingia ok ueit ek at þat lid mun bezst til uopnns er hirdin er. hofum uær enn mikinn her ok skipakost ok suo god ath uer megum vel liggia uti a herskipum sem herkonungar hafa gert jafnan a uetrum. en Knutr konungr mun litla hrid liggia j anne helgu þuiat þar er ecki hofn skipaher hans mun hann fara austr eftir oss. þa skulu ver ok hallda undan ok mun oss bratt dragazst lid. en er hann snyrr aftr þangat er hafnir þær eru er hann ma leggia j flotanum ollum þa mun þat vera mart lid öngum mun sidr heimfust en herr uorr. uæntir mig at uer hofum suo vm buit j sumar at þorpkallinn viti huat hann skal vinna j sumar bæde a sio ok lande a Skaney. ok mun herr Knutz

[1]) synizst mer *tilf. Cd.* [2]) halft a *Cd.* [3]) hafda ek *tilf. Cd.*

dræifazst bratt vids uegar ok væit þa æigi huerium sigurs uerdr audit. hofum fyst niosnir af huert rad hann tekr upp. Lauk Olafr konungr suo mali sinu at allir menn gerdu godan rom at ok uar þat rads tekit sem hann villde vera lata. voru þa niosnir gerdar til lids Knutz konungs en þeir lagu þar badir konungarnir.

## Knutr konungr baud Vlfui tafl.

215. Knutr konungr sa þat at þeir konungarnir helldu austr med landi. þa gerde hann ord ok lid a land upp ok let menn sina rida dag ok nott suo sem lid konunga for hit ytra. foru þa adrir niosnarmenn aftr en adrir fram vissi Knutr konungr a huerium degi tidende af ferd þeirra voru niosnarmenn j ferd þeirra konunga. En er hann spurde at mikill hluti lids þeirra var fra þeim farinn þa hellt hann her sinum aftr til Siolandz ok lagdizst j Eyrasund med her sinn allann. la sumt vid Sioland en sumt vid Skaney. Knutr konungr ræid upp til Hroiskelldu dag hinn næsta firir Michaelismessu ok med honum suæit manna. en þar hafde gert ueitzslu j moti honum Vlfr jarll magr hans ok uæitti allkapsamliga ok var allkatr. Konungr uar famalugr helldr. jarll orti orda a hann ok læitade þeirra malsemda er hann uænti at konungi mundi betr þikia. konungr suarar fa. þa spurde jarll ef hann uillde tefla skaktafl. hann jattade þui. toku þeir þa skaktafl jarlls ok leku. Ulfr jall var rikazstr j Danmorku þegar er konung leid. systir Ulfs jalls uar Gyda er atti Gudini jarll Ulfnadsson. voru þeirra synir Haralldr Æinglakonungr Tosti jall Ualþiofr jall Mörukari jall Sueinn jall. Gyda het dottir þeirra er atti Jatuardr hinn gode Einglakonungr.

## Taflbraugd Vlfs jarls ok vmtal.

216. En er þeir leku at taflinu konungr ok jarll þa lek konungr[1] fingrbriot mikinn. þa skækti jarll af honum riddara. konungr bar aftr taflit ok sagde at hann skyllde annat læika. jall ræiddizst ok skaut nidr bordinu stod upp ok gek j brot. Konungr mællti. rennr þu nu Ulfr hinn ragi. Jarll suarar ok snerizst aftr vid j dyrunum ok mællti. lengra mundir þu runnit hafa j anne helgu ef þu hefdir þui matt vit koma. kalladir þu þa æigi Ulf hinn raga er ek lagda til at hialpa þer er Suiar ok Nordmenn bordu ydr sem hunda. Gek jall þa j brott ok vt ok for til suefnns. [459] litlu eftir gek konungr til suefnns. Eftir vm morguninn þa er konungr klæddizst þa mællti hann vit skosuein sinn. gak þu til Vlfs jarlls segir hann ok drep hann. Sueinninn gek ok uar j

[1]) jall *Cd.*

brottu vm hrid ok kom aftr. þa mællti konungr. drap þu jall. Æigi sagdi hann þuiat hann var genginn til kirkiu Lucis.

### Konungr leet drepa Vlf jarl.

217. Madr het Juarr norrænn at ætt hann var hirdmadr konungs ok herbergissueinn hans. konungr mællti til Juars. gaktu ok drep jall. Juarr gek til kirkiu ok innar j korinn ok lagdi suerdi j gegnum jarllinn. fek jall þar bana. Juarr gek aftr til Knutz konungs ok hafdi alblodukt suerdit j hendi. Konungr spurde. drap þu jallinn. Jvarr suarar. suo gerda (ek) vist herra. þa gerdir þu vel quat konungr En eftir er jall var drepinn þa letu munkar læsa kirkiuna. þa var þat sagt konungi. hann sendi menn til munka ok bad þa lata upp kirkiuna ok syngia tidir. þeir gerdu suo sem konungr bat. en er Knutr konungr kom til kirkiu þa keyfti konungr iardir myklar til kirkiunnar suo at þar var herat mikit. hofzst sa stadr miog. Sidan ræid konungr til skipa sinna ok la þar lengi vm haustit med allan her sinn.

### Konungr spurdi at Knutr hellt til Eyrasundz.

218. þa er Olafr konungr ok Ǫ̊nundr konungr spurdu at Knutr konungr hafdi halldit til Eyrasundz ok hann la þar med her sinn þa attu konungar husþing. taladi konungr Olafr ok sagdi at þetta hafdi farit at getu hans at Knutr hafdi æigi uerit lengi j anne helgu. ok uænti ek nu at flæira skal fara at getu minne vm vidrskifte uór. Knutr hefir nu litinn fiolda hia þui sem hann hafdi en hann mun hafa minna sidarr. þuiat þeim er æigi olæidara en oss at liggia vti a skipum j haust. ok mun oss sigrs verda audit ef oss skortir æigi þra ok tilrædi. hefuir suo farit j sumar at ver hǫfum haft lid minna en þeir hafua (latit) firir oss bæde menn ok fe. þa toku Suiar at mæla suo. at þat var ecki rad at bida þar frera ok uetrar þo at Noregsmenn eggiudu þess. vita þeir ogerlla huer islǫg her kunna at verda er fryss haf allt oftliga a uetrum. vilium ver fara heim ok vera æigi her leingr. Gerdu þa Suiar kur mikinn ok mællti huerr j ordastad annars. var þat radit at Ǫ̊nundr konungr ferr þa heim med her sinn en Olafr konungr var þa enn eftir j Danmorku.

### Niosnarmenn Knutz konungs foru med febod.

219. Enn er Olafr konungr atti tal uit lid sitt þa læitade hann rada vid hǫfdingia huert rad þeir skylldu upp taka. en þar kom litt asamt med monnum. kalladi annarr þat rad er annar kallade orad ok

uolkudu þeir miog leinge rad firir ser. Niosnarmenn Knutz konungs voru j her þeirra iafnnann ok komu þeir ser j tal vid marga menn ok hofdu þeir fram fehod ok vinattumal af hendi Knutz konungs. en þar letu margir leidaz eftir ok selldu þeim trunat sinn at þeir skylldu gerazst menn Knut(z) konungs ok hallda riki undir hann er hann kęmi j Noreg. toku þeir þa vid fegiofum en sumum var hæitit sidarr. en hinir voru allmargir er adr hofdu þefat[1] stormanligar giafar. firir þui at þat var satt at segia fra Knuti konungi at huerir at a hans fund komu þeirra manna er honum þotti nockur virding at ok hann villdu þydazst þa fek huerr af honum fullar hendr fiar. vard hann af þui storliga vinsæll ok var mest vm orlæti hans vid vtlenda menn ok þa er leingst voru at komnir.

## Olafr konungr taladi vid menn sina.

220. Olafr konungr atti oft tal ok stefnur vid sina menn[2] ok spurdi at radagerdum. en er hann fann at sitt lagdi til huerr þa grunadi hann at þeir væri sumir j hans lide at annat rædde en radligazst þætti ok munde æigi radit huort allir mundi honum retta skulld giallda um trygdina. þess eggiudu margir at þeir skylldu taka byr ok sigla til Eyrarsundz ok suo til Noregs. segia at Daner munu ecki þora at þeim leggia þo at þeir lægi firir med mikit lid. en Olafr konungr uar suo mikill uitzskumadr at hann sa at sligt var ofæra. visse at annan veg hafdi Olafi Trygguasyni farit þa er hann var falidadr þa er hann hade orrostu firir Suoldr en Danir þyrde æigi at beriazst. visse konungr at j her Knutz konungs uar fioldi Nordmanna. grunadi konung þa at þeir er sligt mælltu mundi hollare vera Knuti konungi en honum. uæitti Olafr konungr þa orskurd ok segir suo at menn skulu buazst þeir er honum vilia fylgia ok fara landueg hit efra vm Gautland ok suo til Noregs. en skip vor segir hann ok allan þunga þann er uer megum æigi eftir oss flytia uil ek senda austr j Suiakonungs uelldi ok lata þar uarduæita til handa oss.

## Ræda konungs ok Hareks.

221. [460] Harekr ór þiottu suarar mali konungs. segir suo at þat er audsætt segir hann at æigi ma ek fæti fara til Noregs. ek er madr gamall ok þungfærr ok uónligt at ek æigi hundz alldr einn olifat. ætla ek mig traudan at skiliazst vid skip mitt hefui ek þar lagt stund a um skip þat ok bunat þess suo at mer er læitt at lia ouinum minum fangs

[1]) *r.* þegit [2]) ok atti oft tal vid sina menn *tilf. Cd.*

a skipe þui. Konungr suarar. far þu med oss Harekr uær skulum bera þig eftir oss ef þu matt æigi ganga. Harekr quat.

Radit hefuig at rida
rinleygs hedan minu
lads dynmari læida
longum helldr en ganga.

þott leggfiotr liggi
lundr j Eyrasundum
kann þiod keski minnc
Knutr a herskipum vti.

þa let Olafr konungr bua ferd sina. hofdu menn jgangsklæde sin ok uopnn sin ok þat sem fekzst af ræidskiotum þa uar klyfiat af klædum ok lausafe. en hann sendi menn ok let flytia austr j Kalmarner skip sin ok settu þar upp ok fluttu ræida ok annan uarnnat til uarduæitzslu. Harekr gerdi sem hann hafdi sagt at hann bæid fyst byriar ok sigldi sidan vestr[1] firir Skaney ok allt til þess er hann kom at holminum ok uar aftan dags en byrr var at blasande. þa let hann lægia seglit ok suo taka ofan uedruita en sueipa skip allt firir ofan sio med gram tiolldum ok let roa j nockurum rumum aftr ok fram en let flesta menn sitia lagt j skipinu. Nu sa uardhallzmenn Knutz konungs ok toludu um sin a mille huat skipa þat mundi vera ok gatu þess at fluttir mundu vera salltkallar edr sild er þeir sa fa menn a ok litit lid en skipit syndizst þeim gratt ok bradlaust ok þotti þeim sem skipit munde skinit af solu ok sa þeir at skipit uar sett miog. En er Harekr kom fram vm herinn þa let hann ræisa uiduna ok draga segl upp ok setia upp gyllta vedruita. uar seglit huitt sem drif ok stafat med raudum ok blám uendi. þa sa menn Knutz konungs siglingina ok sǫgdu mæire uon at Olafr konungr hefdi þar um siglt. Knutr konungr mællti. þat mun æigi vera þuiat Olafr konungr er madr suo uitr[2] at hann hefdi ecki æinskipa farit j geggnum her suo mikinn. munu þar ǫnnur brugd j uera þuiat þar mun hart hǫfut vid styre setit hafa. nu se ek fǫr Olafs hann mun geinginn a land med fiarhlutum. Harekr mun her hafua vm siglt vid honum færr eingi madr set. suo siglde hann æinu sinne fyrr med skæida spreinge þa er ek uillda hann fæigan ok þeim mun framar at þa siglde hann j gegnum skipastol vornn ok sagdizst minn madr. nu hefuig hitt æigi til loxs j tima mist Hareks þess manz er ek uillda fæigazstan ok suo Olaf konung en þo hefui ek farit þa fǫr at Olafr er æigi j fride sidan medan uit lifum badir. Suo segia sumir menn at Knutr muni vitat hafua um ferd Hareks ok hann mundi æigi suo farit hafua ef æigi hefdi adr vinattumal farit mille þeirra Knutz konungs ok þotti þat birtazst þa er vinattumal þeirra Knutz stadfestuzst. Harekr orti visu þessa þa er hann siglde nordr um Uedrey.

[1]) austr *Cd.* [2]) madr *tilf. Cd.*

Leckat ek Lundar eckiur
lębaugs at þui blæia
skiotum æik firir vtan
ey ne danskar meyiar.

jord at ek æigi þorda
illa flaustz a hausti
a flatslodir Froda
foru aftr vali krapta.

For Harekr þa ferdar sinnar ok letti æigi fyrr en hann kom nordr a Halogaland ok hæim til buss sins j þiottu.

Gellir þorkelsson hitti konung.

222. Olafr konungr for fyst um Sioland ok kom fram j uestra Gautlande ok for spa(k)liga ok fridsamliga en landzmenn væittu honum ok hans monnum godan forbæina. for konungr til þess er hann kom ofan j Uikina ok suo nordr eftir Uikinne til þess er hann kom j Sarpsborg. dualdizst hann þar ok let bua til uetrsetu. gaf konungr þa heimfararleyfui mestum hluta lids en hafdi med ser þa af lendum monnum er honum þotti bezst til fallner. þa voru med honum aller Arnnasynir. voru þeir mest virdir af konungi. þa kom til Olafs konungs Gellir þorkelsson ok hafde komit adr af Jslande vm sumarit sem fyrr var sagt ok dualdizst med honum lenge vm vetrinn.

Olafr konungr taladi vid Sighuat.

223. Sighuatr skalld hafde lengi verit med Olafi konungi suo sem her er ritat ok hafde konungr gert hann stallara sinn. Sighuatr var ecki bradmælltr madr j sundrlausum ordum en skalldskapr var honum suo tiltækr at hann quat af tungu fram sem annat mal. hann hafdi verit j kaupferdum ok þadan for hann til Æinglandz ok hitti þar Knut konung ok þa af honum læyfui at fara til Noregs sem fyrr uar ritat. en er hann kom til Noregs for hann til fundar uit Olaf konung ok hitti hann j Sarpsborg. Sighuatr gek firir Olaf konung þa er hann sat yfir matbordum. hann kuaddi konung. konungr læit uit honum ok þagde. Sighuatr quat.

Hæim erum hingat komnir
hygg at iofur skattna
menn nemi mal [461] sem ek inne
min stallara þinir.

seg þu huar sess hafit hugdan
sæim þiodkonungr bæimum
allr er þeckr med þollum
þinn skali mer innan.

Sannadizst fornnkuedit mal at mörg eru konungs eyru. Olafr konungr hafde farit vida um land ok hafde hann frett allt vm farar Sighuatz at hann hafde hitt Knut konung. Olafr konungr mællti til Sighuatz. æigi uæit ek huart þu ætlar nu at vera uorr stallari edr hefir þu geordz madr Knutz konungs. Sighuatr quat.

Knutr spurde mig mætir
milldr ef ek hanum uillda
hendilangr sem hringa
hugræiſum Olæifui.

æinn quat ek senn ath sonnu
suara þottumzst ek drottinn
god eru gumna huerium
gnog dęmi mer sæma.

þa mællti Olafr at Sighuatr skyllde ganga til sætis þar sem hann uar uanr at sitia. Sighuatr kom ser þa enn bratt j kærlæika hina somu sem fyrr.

### Konungr taladi vid fiskikarl.

224. þa er Knutr konungr hafde borit fe undir hôfdingia j Noregi kemr æinn madr at Olafi konungi a fiskibati ok festi vid styrisstæingr konungsskipe. Olafr spyrr huerr hann væri. Ek er æinn huskall quat (hann en þik) fundit æigi fyrr en nu. þat hefir til halldit at ek uerdr at uinna firir omegd minni. ek byggi .xij. aura jord er þu att ok færi ek þer landskylldir þær sem a at giallda. Konungr mællti. hui kendir þu skip uor ef eingi sagdi þer. Kall mællti. sa er æinn suo hlutrinn at ek hefir tekit mer til jþrotta. vil ek af þui þessu hrosa at ek vil byggia iordina lengr. at huert skip mun ek kenna huart at þu att edr þinir menn. Olafr konungr mællti. vera muntu at fleira glôggþeckinn en þui muntu hrosa at þu munt tidendi þikiazst kunna at (segia) af skipafôrum. Hann suarar. ek sa menn fara a skipe pruda ok hlioda ek hugda at þui af hueriu er þeir (hofdu) mest þungat skip sitt en þat þotti mer frasagnar uert er ek sa at þar voru toskur .ij. fullar (med) gull ok silfr. for ek sidan a brott. manade sidarr foru þeir hea mer katir. þa hugda ek at huat til tidenda væri flæira en gledi þeirra. ek sa toskur hinar sômu ok voru þa tomar. uggi ek at þar se margir uondir af ordnir af fôgru fe. Æigi er þat olikligt quat konungr ęn nu skalltu æignnazst jord ok fe firir sôgu þina ok kom a minn fund ef þer eydazst fe. en ef[1] Knutr edr synir hans rada lande þa uitia þu þeirra. þat hafde verit sendiskip Knutz konungs j fyrra sinn at bera fe undir lenda menn ok toku þa þeir sex uid fenu er nefndir eru j Olafs sôgu.

### Biorn þiggr fe (af) monnum Knutz.

225. Tolf sendimenn Knutz konungs þeir er fe hofdu borit undir lenda menn voru med Kalfui Arnnasyni. þeir foru um land ok toku af monnum suardaga. þeir spyria Kalf huort þa muni þeir vid fenu tekit (hafa) er Knuti konungi væri mestr styrkr at. Kalfr kuetzst þat vist

[1]) ek *Cd.*

helldr ætla. en eftir er enn æinn ok mun sa torfæinginn þuiat hann er astvinr konungs en æingi er honum fegiarnnari. mun þar mestu verda til at veria enda er ok mikit mannkaupit j. Sendemenn spurdu huerr sa uar. Kalfr segir at þat var Biornn stallari. þeir foru litlu eftir þetta fra Kalfui ok komu bradliga til Biarnar. hann fagnar þeim vel ok setti þeirra foringia ser hit næsta. Hann mællti til Biarnnar. ver fðrum at hitta landzmenn er Knutr konungr telr sina menn nu vera ok merkir hann þat annan ueg en monnum se titt. hann lysir fyrr orlæik sinn ok giaflynde en hann viti vilia yduarn. þui sendi (hann) þer fegrsta fiarhluti at honum þotti j þer mest vinkaup ok stærstu rida vm þina hollostu. en þo bæididzst hann af ydr j moti gersimum sinum at þer festit honum trunat yduarnn med suardogum at þer skulit æigi taka vid Olafi konungi orrostulaust. Hann berr þa fram æinn kistil ok tekr þar upp ór tolf gullhringa. hann mællti. lofa ek konung yduarnn en lasta ek æigi. en seg nu Biornn þat er ek spyrr þig. hefir Olafr konungr gefit þer suo mikit fe allan þann tima er þu hefir honum þionath sem Knutr konungr nu at sinne æinn tima ok þo osenum. Biornn suarar. æigi mun ek kæra a Olaf um giafalausi þuiat mart hefir hann storuel til min gert. Biornn geymir þa hringana ok hæitr suardðgum. byrr þeim sidan uæitzslu. Ok er menn voru at uæitzslunne gerdizst Beornn okatr ok leit iafnan nidr firir sig. ok er minnzstar vonir voru bat Beornn menn sina upp standa ok taka sendimenn Knutz konungs ok festa a galga. ok suo uar gert. Nu uænti ek þess quat Beornn at þeir æigi odru a(t) hrosa þa er þeir koma heim j heluiti en ek muni þat til fiar uinna at suikia suo uirduligan lanardrottin sem ek a. ætla ek ok þetta fe suo myklu betr komit j hondum ok hirdzslu Olafs konungs en þeirra vondra suikara sem mer færdu.

## Biornn kom a fund Olafs konungs.

226. Beornn byrr nu ferd sina ok ridr a fund Olafs konungs þar sem hann var. hann kemr at hallardyrum. En nu skal þar til taka sem Olafr konungr var er hann sat yfuir bordum ok bat menn rada draum sinn. þeir spurdu huat hann hafde dreymt. [462] Hann suarar. þat bar firir mig at mer þotti bearnndyre ganga at hallardyrum ok laust med hramme sinum dyruordinn ok gek sidan inn j haull ok færdi mer hofut sitt ok var dyrit miog daprligt. Ok j þessi suipan bæidd(i) Beornn dyruordu inngaungu Dyruerdirnir vilia æigi lofa honum ok fara firir dyrnar. Beornn bregdr þa suerdi ok hðggr dyruordinn banahðgg en annarr tekr a ras undan. Beornn gek firir Olaf ok lagdi hofudit j kne

honum ok mællti. ek færi ydr hofut mitt herra ok gerit af huat er þer uilit. Konungr mællti. hui hefir þinn hagr suo miog spillzst edr huert vandræde stendr þig. Beornn suarar. illt gerizst j lande herra þuiat menn taka fe til at suikia þig. Knutr konungr hefir sent .xij. menn med fegiofum hingat j Noreg til motz vid lenda menn þina ok gefit þeim fe til motganngs. þeir komu ok til min ok færdu mer .xij. gullhringa ok eru þeir nu her herra þuiat mer þotti þeir betr komnir ydr j hondum en þeim uondum suikarum er marga hafa blekt med sinum suiksamligum talum ok fiandligum fortolum. Konungr læit a fet ok mællti. bædi er nu Beornn at Knutr setr fagran talsigann firir ydr enda verdi þer miog ueykir firir fenu ok ostyrkir. en fair hafa nu um tima til uor komit med slikum eyrendum at oss hafui fet fært en hofut þit Beornn mun þar sæmst sem nu er þat. Beornn sagdi konungi þa at hann hafdi hengia (latit) alla sendimenn Knutz konungs. þa mællti Olafr konungr. þu hefir synt vid mig mykla hollostu ok dreingskap ok þigg nu at mer hringa þessa. Beornn þackadi konungi sem uert uar. sidan gek hann til skripta vid Sigurd byskup ok hellt alla tima vinattu sina vid Olaf konung ok fell med honum a Sticklastödum sem sidar mun sagt verda.

## Sendir menn j Noregh.

227. Erlingr Skialgsson ok synir hans aller hofdu uerit um sumarit j her Knutz konungs j suæit med Hakoni jalli. þar uar þa þorir hundr ok hafdi metord mikil. en er Knutr konungr spurde at Olafr konungr hafdi farit til Noregs þa slæit hann læidangrinum ok gaf leyfui ollum monnum at bua ser til uetruistar. var þa j Danmorku mikill herr utlendra manna bæde enskra manna ok norrænna ok enn af flæirum londum er lid hafde komit til hersins. Erlingr Skialgsson for um sumarit til Noregs med ollu lide sinu ok þa af Knuti konungi storar vingiafir at skilnade. þorir hundr uar eftir med Knuti konungi. en med Erlingi foru nordr j Noreg sendimenn Knutz konungs ok hofdu med ser of lausafiar. foru þeir um uetrinn uida um land sem fyrr er sagt. ræiddu þa af hondum fe þau er konungr hafdi hæitit monnum um haustit til lids ser en gafu hinum morgum er þeir feingu med fe keyft vinattu uit Knut konung. en þeir höfdu traust Erlings til yfirferdar. gerdizst þa suo at fioldi manna snerizst til vinattu vid Knut konung ok hetu honum vinattu sinne ok þui med at uæita Olafi konungi motstödu. gerdu þat sumir bert þegar en hinir voru myklu flæire er leynduzst at firir alþydu Olafr konungr spurde þessi tidendi ok

kunnu margir honum at segia fra þessum tidendum. ok uar þat miog fært j fiolmæli þar j hernum. Suo segir Sighuatr.

Feandr ganga þar þæingils
þiod bydr oft med sioda
hôfgan malm firir hilmis
haus ofallinn lausann.

sik uæit huerr of barra
hollan selr uit gulli
vert er sliks j suortu
sinn heluitis innan.

Ok enn quat hann.

Kaup uard dapr þar er diupan
drottinn rett af sottum
þeir er heim a himnum
huass elldz suikum helldu.

Oft uar su umræda þar j munne hôfd huersu illa samdi Hakoni jalli at fara med her a hendr Olafi konungi er hann hafdi honum lif gefit þa er hann hafdi a hans ualld komit. en Sighuatr uar hinn mesti vinr jalls ok þa er Sighuatr heyrde amællt jalli þa quat hann.

Geordi hilmir hardann
huskalla þa jalla
ef vid Olaf fiorui
ouægir fe þægi.

hird nam hans at uerda
halæit firir þui male
dælla er oss er allir
erum uer um suik skirir.

Olafr konungr hafdi jolabod mikit ok var komit til hans mikit fiolmenni. þat uar hinn .vij. dag jola at konungr gek ok fair menn med honum. Sighuatr fylgdi honum dag ok nott. hann uar þa med honum. þeir gæingu j hus æitt þar voru hirdir j dyrgripir konungs. hann hafdi þa hafdan vmbunat mikinn sem uandi hans uar til. hæimtir voru saman dyrgripir til þess ath gefa hit viij. kuelld jola. þar stodu j husinu suerd æigi allfaa gullbuin. Sighuatr quat.

Suerd standa þar sunda
sárs leyfu uér arar
herstillis verdr hylle
holluzst buin gulle

uit tæka ek uika
uarendr med þer sendir
elldz ef þu æitthuert uilldir
allualldr gefa skallde.

Konungr tok æitt suerdit ok gaf honum. þar uar gulli buinn medalkafli ok gullbuin hiollt a. uar þat allgodr gripr en giof sia uar æigi ôfundarlaus ok heyrde þat sidarr. þegar eftir jolin byriade Olafr konungr ferd sina til Upplanda. þuiat hann hafde fiolmenni [463] mikit en tekior nordan ór lande hofdu ôngar til hans komit þa um haustit er læidangr hafdi uti uerit um sumarit ok hafdi konungr þar allan alla til lagdan sem fong uoru a. þa voru ok æinge skip at fara med lid sitt nordr j land. hann spurde ok þat æitt nordan er honum þotti ecki

friduænligt ok ecki truligt ef hann færi med myklu lide. red konungr firir þa sok þat af at fara til Upplanda. en æigı hafde suo langt lidit sidan hann hafde farit þar at uæitzslum sem lôg stodu til edr uande konunga hafde verit. en er konungr sotti upp a landit þa budu honum lendir menn ok rikir bændr ok lettu suo hans sealfs kostnade. Beornn er madr nefnndr gautzskr at kyne vinr ok kunninge Astridar drotningar ok nockut skylldr henni ok hafde hon fæingit honum armenning ok syslu a ofanuerdre Hæidmork hafde hann ok yfirsoknn um̄ Eystredale. ecki uar Beornn kærr konungi ok ecki uar hann þockasæll af bóndum. þat hafde at borizst j bygd þeirre er Beornn red firir at þar urdu huorf stor ok stuldir a haustum þat uoru naut ok saudir ok allzskonar fenadr. Beornn let þar kuedia þings ok lysti huðrfum. hann kallade þı likligazsta til slikra illgeorda er sátu j markbygdum̄ ok fiarri odrum monnum. uæik hann þa male til þeirra er bygdu Eystridali. su bygd uar miog sundrlaus. var bygt vit uatnnit edr þar sem markir voru ruddar en fastadar bygdir samfastar.

---

## RAUDULFS þAATTR.

### capitulum.

Ulfr het madr er kalladr uar Raudulfr Ragnnhilldr het kona hans. Dagr ok Sigurdr hetu synir hans þeir voru efniligir menn. þeir voru a þui þinge er Beornn hafdi sett ok helldu upp suorum af hende bænda ok baru þa undan sokum. Birni þotti þeir storliga lata ok vera bramlsmenn myklir at uopnum ok klædum ok sagde þa brædr æigi olikliga til at hafa slikt gert. þeir hofdu suðr firir ser ok slæit suo þui þinge Litlu sidarr kom Olafr konungr til Biarnar armannz med myklu lide ok tok þar ueitzslu. þar uar mart talat til þessa mala ok kært firir konungi. sagdi Biorn at honum þottu Raudulfssynir likazstir til at uallda slikum oskilum. Uar þa sent eftir Raud(ulf)ssonum. en er þeir fundu Olaf konung þa talde hann þa olikliga til þiofnadar ok bar þa undan kenzslum þessum. þeir brædr budu konungi til sin til þriggia natta uæitzslu med ollu lide sinu. konungr het at koma ok uar akuedinn dagr til. Uar þat helldr sid dags er konungr kom til Raudulfs. hann hafde .cc. manna. konungr sa þar garda hafua ok uel

lukta. en er þeir komu at hlidinu þa uar þat opit ok uel um buit. lek grind a jarnnum ok var ecki auduelligt inn at komazst ef læst væri hlidit. En er konungr ræid j hlidit þa stod bonde þar firir innann ok fiolmenni mikit ok fagnnadi hann ok aller þeir konungi ok hans monnum. stigu þeir af hestum sinum. þar hafde Raudulfr bonde ok synir hans gert bæ virduligan. Spurde konungr bonda ef þat væri kirkia hit fagra hus er þar stod j gardinum. Raudulfr suarar. þetta er suefnnskemma min[1] herra er gior uar j sumar ok er nu hit fysta alger. oll ræfr hennar voru sponþðkt. Sidan gengu þeir til stofu ok sa konungr at þat var allmikit hus. stofan uar bordþðkt ok uel brædd. Konungr sa þar j gardinum mðrg hus stór ok sma ok oll fagrliga giðr. spurde konungr ef þar væri kirkia nockur j gardinum. Æinge sagdi bondi þuiat ecki hefir byskup her komit fyrr en med ydr. Sidan let byskup ræisa landtialld sitt þar a uellinum firir stofunni ok saung þar aptansðng ok uar honum lokit j moti dags setri. eftir þat gek konungr til stofunnar ok voru kerti borin firir honum. en er hann kom j stofuna þa uar þar uel um buizst. sidan settizst konungr j hasæti þat er honum var buit. Byskup sat til hægri handar honum en drotning til uinstri handar ok þar rikiskonur vt fra henni til beggia handa. Næst byskupi sat Finnr Arnnason ok þa Kalfr Arnason brodir hans. þorbergr sat vtar fra honum. satu þeirra yzstir Arnnbiornn ok Kolbeinn Arnnasynir ok þa Arnni brodir þeirra. þeir brædr voru allir lendir menn konungs. En er skipat uar ollu forunæyti konungs upp a hapallana þa uar alskiput stofan hit efra med ueggium. en hæimamenn ok firirbodsmenn satu a ræidestolum. Raudulfr bonde sat at framan a þeim stol(n)um er stod firir lendum monnum. var þar hin fegursta uæitzsla ok margskonar dryckr ok allr godr. Synir Raudulfs gengu um bæina ok skipðdu ollu eftir þui sem bezst somdi. Konungr gerdi sig blidan ok katan ok fannzst mikit um list þa ok kurtæisi þa er þar var aa ðllu ok suo huersu stormannliga uæitt uar ok skoruliga allt fór fram. Konungr orti a tal vid Raudulf bonda ok fannzst þat bratt a at bonde uar ordfærr madr ok foruitri. gerdizst þa gledi mikil um alla stofuna vid dryckinn. Konungr spurde Raudulf margra hluta okunnra en Raudulfr hafde til allra hluta órlausnn. þat uar sumt at konungi [464] uar adr kunnikt en sumt visse hann æigi. en allt þat er konungr visse þa var þat eftir þui[2]. nu lagde konungr af þui atrunat a rædur hans. Raudulfr sagde ok huergi lengra en konungr spurde. Olafr konungr spurde Raudulf þeirra hluta er þa voru enn æigi fram komnir huern ueg uerda mundi.

[1]) er *tilf. Cd.* [2]) sem konungr uisse *tilf. Cd.*

en Raudulfr uæitti orskurd um flest. þa spurde konungr huort hann væri spamadr. Raudulfr suarar. fiarri ferr þat herra segir hann. Hui ueitzstu sligt firir quat konungr er æigi er fram komit. Raudulfr suarar. legg ecki trunat a sligt þoat ek geipa mart firir ydr en ecki uæit ek sligt med sannyndum. Konungr suarar. at hefi ek hugat nokkut ok synizst mer suo sem þu segir ongan hlut framar en þu þikizst uita ok seg mer huat til berr at þu uæitzst firir ouordna hluti enda ser þu æigi spamadr. Sumt merki ek af uindum segir Raudulfr en sumt af himintunglum solu edr tungli edr stiornum en sumt af draumum. Konungr spurde þa at serhuerium hlut þessa greina. en Raudulfr gerir þann órskurd ollum rædum konungs sem honum likar vel. ræddu þeir flest um hattu draumanna. Konungr mællti. muntu kenna mer nockut rad til þess at mer birtizst draumar um þat er mer er mest foruitnni a at vita. Ecki ma ek ydr rad til þess kenna segir Raudulfr þuiat þer uitit þat adr ok allt annat myklu framarr en ek. en þat geri ek stundum segir Raudulfr þa er ek uil foruitnazst j draumi sannynde nyrra hluta at ek tek ny klædi ok ferr ek j nyia sæng þa er stendr j nyium stad. j þeim stad ok þeirri sæng edr þeirri huilu ok sligt er þa dreymir mig marka ek ok mun þa ganga eftir þui sem ek fær radit drauminn. Konungr spyrr hueria jþrott hann kynni bezst. þuiath ek se at þu munt marga hluti uel kunna. Raudulfr suarar at hann uar æinge jþrottamadr. en ef ek skal nockut til taka þa þikiumzst ek hellzst kunna drauma at skilia edr rada eftir þui sem ganga mun. Konungr spurde huort hefir þu kent sonum þinum allar jþrottir þinar. Raudulfr bat konung þa eftir spyria. Eftir þat let konungr kalla Raudulfssonu til sin ok mællti. Raudulfr fadir yckar kannazst mer uitr madr. hafui þit numit allar hans jþrottir. Sigurdr suarar hann uar ellri þeirra brædra. kann ek at sidr segir hann allar hans jþrottir at æin er su er hann hefir mer kent ok skil ek þo at ek hefui þa æigi iafnnuel numit sem hann ok er su æin af hans jþrottum mǫrgum. Huer er su segir konungr. Sigurdr suarar. þat er at greina gang himintungla solar ok tungls ok uita allan gang himintunglanna þeirra er ek se ok kenna stundir þær er merkia dægr suo at ek mega uita leingd um dag ok nott þo at ek seai æigi himintungl ok uæit ek þo grein allra stunda bæde dag ok nott. Konungr suarar. þetta er mikil jþrott. en huer er þin jþrott Dagr segir konungr. Hann suarar. litilshattar mun ydr þat þikia herra. Huer er su segir konungr. Æina jþrott hefui ek numit at fodur minum su er mer þikir hellzst frasagnar vert ok kann fadir minn þar þo myklu meira af at segia en ek kann. Konungr spurde huer su væri. Dagr suarar. þat

ætla ek ef ek se uanliga j ðgu manni ok mega ek sia allt athæfui hans ok ek uita med hueriu yfirbragdi madr sa er at ek mega þa skynia hattu hans huers hattar madr hann er ok skal ek þa uita kost ok lðst a honum. Konungr suarar. þetta er mikit augnnabragd ef suo er sem þu segir ok fær ek þetta skiott reynt. Konungr mællti til byskups. suo uirdizst mer sem þann bonda hofum uer hæim sott at ek hyggr at ver faim æigi j uorum flocki hans lika at viti edr jþrottum edr sona hans ok þikiumzst ver þo hafa gott mannual ok æigi skal her j Noregi kostr þeirra manna er betr se mentir en þeir er nu eru med oss en þo hygg ek at oss skorti flestar uit þa fedga.

## Olafr konungr ok hans menn toku ser jþrottir.

229. Olafr konungr uar allkatr ok uæik sinne rædu til byskups ok spurde. hueria iþrott uili þer til taka herra byskup þa er þer þikizst til færir. Byskup suarar. þat mun ek hellzst til taka ef ek skal nockut til finna at ek skal suo syngia tidir .xij. manudr alla þær er hafa þarf þo at ek hafui ðnga bok vid. Konungr suarar. þetta er uist mikil jþrott med þeim hætti sem er. þa mællti byskup. herra heyra uilium uer ydra jþrott Konungr suarar. þat skal vera. þat mun ek þa hellzst til taka at huernn mann at ek se um sinn ok uilia ek uel at hyggia þa skal ek kenna hann. þessi jþrott er af myklu vite ok skynsemi. þa mællti Olafr konungr. þessi skemtan er uær hofum upp hafit skal fara nockuru vidara vm stofuna. Kalfr Arnnason seg huat þu tekr til jþrotta þer. Kalfr mællti. æigi mun ek mellta ræide mina huersu lengi sem ek þarf at bera hana. þa mællti konungr vid Finn Arnnason. segia verdr þu oss þinar jþrottir. Æigi fær ek þat sagt herra segir Finnr. Finn til nockut segir konungr. þat finn ek þa til jþrotta mer ath ek mun æigi flyia ór nockurum haska fra lanardrotni minum medan hann uill vid halldazst ok standi hann upp. þat er uist likligt segir konungr at þer endizst þat [465] uel. þa mællti konungr. heyra vilium ver þina jþrott þorbergr. Hann suarar. þat ætla ek mer at riufa huorke ord ne æid uid lanardrottinn minn. Konungr suarar. þetta er vant mal ok er þo likligt at slikum vinnizst þat bezst sem þu ert en margir hallda nu litt trunat uit mik þeir er firir skommu uar mer æingi uon at. þa mællti konungr til Arnnbiarnnar. hueria jþrott hefir þu framazst. Arnbiornn uar sterkr madr. þat mun ek til fa segir hann at ek þikiumzst uel færr a bogaskot ætla ek at æigi skuli sa bogi finnazst jnnanlandz at mer se æigi uopnnhæfr. Konungr sagdi at suo mundi uera. Sidan spyrr konungr Kolbæin hueriar hans jþrottir væri þær er hann

uilldi til taka. Hann suarar. þriar eru jþrottir minar ok eru þær allar iafnar ok þo onga framarr en uel goda firir sig bæinskeyti ok skidaferd ok sund. Konungr sagdi at hann tæki æigi mæira af en væri. þuiat þu ert uel buinn at þessum iþrottum sem þeir menn sem bezst eru buner iafnsterkir þa mællti konungr. seg þu Arnni huat uilltu tiltaka. (Hann suarar.) ef ek skal med landi fram sigla sneckiu minne ok se ek j aktaumum at æinge sneckia ǫnnur tuitogsessa jafnmikil siglir hia mer at ek uilia fyrri suipta en þeir. Konungr sagdi at æingi mundi þess þurfa at fryia honum segir æingan kunna nærr at ætla vfærunne en hann huat næst ma hlyda. Konungr spurde Beornn stallara hueria jþrott hann þættizst hellzst kunna. þat mun ek hellzst til taka segir Beornn ef ek skal tala a þingum ord edr eyrendi lanardrottins mins at æinge skal suo rikr a heyra at ek tala at lægra edr skelfara huort er honum likar uel edr i la. Konungr suarar. þessu trui ek uel sidan þu uart a Uppsalaþinge ok taladir þa ok gerdir ræidan Olaf Suiakonung þuiat flestum monnum mundi þat uerda framaskortr. Sidan tǫludu þetta .ij. ok .ij. sin a mille ok sogdu til sinna jþrotta. uard af þessu mikil skemtan en konungr gek at sofua.

### Olafr konungr þa veizlu hia Raudulfi.

230. Raudulfr bonde fylgdi konungi til vtiskemmunnar hinnar nyiu er konungr hafde set um kuelldit ok ætlat at kirkia uæri þa uar logn uedrs ok hæiduidri ok suo at huergi annat sa en heidan himininn. Konungr spurde Sigurd Raudulfsson. huat mun vera uedrs uti a morgin. Drifa segir hann. þat þiki mer olikligt segir konungr. Konungr gek þa til huilu sinnar ok uar þar uel um buit. En er konungr gek inn j suefnnhusit uar kerti loganda borit firir honum. Hann litadizst um vti j suolunum ok hugdi at smid hussins ok skilde þegar setning a husinu at þat uar kringlott. gek hann þa inn. en firir innan sualirnar voru skialldþili umhuerfis husit. fiorar dyrr voru a skemmunne ok allra iafnnlangt a mille. en med ueggþilium voru reckiur bunar allar[1] ok allt tialldat þar er bæta þotti. en j þui husi voru ræistir upp tuttugu stafir hafir ok digrir ok stodu þeir j hring. þar uar af upp huelft rafit ok uar þat pentat allt ok pu(n)cterat en j mille stafanna voru brikr en þar firir innan voru sængr bunar rikum monnum. mattu þar liggia j .xx menn en .xl. j utskemmunne var þar skipat j hirdmonnum konungs. j midiu husenu uar arinn settr ok kringlottr ok vidr med tre georr ok pallar vmhuerfis upp at ganga. en uppi a arnninum stod sæng mikil ok ger med hinum mesta haglæik. flest tre voru þar

[1]) allir *Cd.*

med kopar edr iarnnum slegin ok aull pentót en sumt gullagt. vpp af hornnstofunum voru storir knappar af æire geruer ok gyllter en vt ór hornstofunum voru iarnslar en þar af upp kertistikur ok stodu þar a kerti med þremr kuislum. Raudulfr segir at konungr skal fara j þa sæng er þar uar buin ef hann uill drauma foruitnnazst en drotning skal huilazst j annarre sæng nattlangt. Konungr quat suo vera skylldu. ok er hann uar af klæddr steig hann j huiluna ok lagdizst sidan til suefnns. þa sa hann til hægri handar ser j hinu idra setinu at þar var skipat byskupi ok kennimonnum hans en til uinstri handar huilde drotning ok konur hennar. en vt fra hofdafiolinne þa lagu j þeim fiordunge Arnbiornn ok Kolbæinn Arnnasynir ok þeirra menn. en upp fra fotafiolinne la Finnr ok þorbergr Arnnasynir. Olafr konungr uakti lengi um nattina sem hann var uanr sóng fyst bænir sinar sidan hugsar hann mart. þa sa hann upp yfir sig j rafit at þar uar pentadr gud sealfr ok uelldishringr hans ok þar ofan j fra æingla fylki hans en þar firir nedan himin sa er huerfdr er utan vm loft óll. ok þar undir voru mórkut himintungl en nedazst sky ok uindar ok þa fuglar en nedazst jord ok þar med gras ok vidr ok margskyns kykuende a marga lund. en a nedra rafinu firir vtan stafina voru markadar fornneskiur ok frasagnir fra agætum konungum. ok læit konungr þar læingi a. en er hann hugsade her um þa uar þo sa æinn hlutr er honum þotti undarligri en [466] allt annat at honum þotti skemman snuazst undir ser edr sængin ella. sidan fell suefnn a hann ok sofnnade hann. en er hann uaknar hugsar hann drauma sina. þui næst dagade stod byskup þa upp til ottusóngs. Konungr klæddizst ok gek sidan ok hlyddi morgintidum. sidan gek hann j malstofu ok let kalla til sin Raudulf bonda ok sagde honum draum sinn. at hann hafde set kross med undarligum hętti ok græinde sidan med hueriurn hætti hann uar. Konungr mællti. þu skallt segia mer j dag eftir hamessu huat draumr þessi merkir. Raudulfr suarar. merkiligr þiki mer draumr þinn en af mun ek gera nockut. en þer skulit bæta mer herra ef þer hugsit at hann se annan ueg en ek geri af. Uedr uar þykt ok drifanda sem Sigurdr hafdi sagt. þa let konungr kalla til sin Raudulfssonu Dag ok Sigurd. þa let konungr sea ut ok sa huergi skylausann himininn. þa bad hann Sigurd segia ser huar sol væri komin. Hann quat a. þa let konungr taka solarstæininn ok helt upp ok sa hann huar gæislade ór stæininum ok markadi a þui suo til sem hann hafdi sagt. þa spurde konungr Dag huernn hann sęgi skaplaust hans. Ecki fær ek þer þat sagt herra segir Dagr en þo at ek geipi nockut vm huersdagliga menn þa er þat odruuisu. en her

hefui ek huorki uit til ne skilning en þat er min ætlan at fatt muni vera afatt um ydra skapsmuni. Seg þu quat konungr ecki tiar undan at fara. Dagr suarar. þat herra sem flesta hendir at þu ert kuenhallr. Rett segir þu quat konungr ok erv þer fedgar langt vmfram flesta menn at vite ok hyggendi. Sidan gek konungr til messu. en er tidum var lokit þa gek konungr til malstofu ok med honum byskup ok drotning ok lendir menn Raudulfr bondi ok synir hans.

## Draumr Olafs konungs.

231. þa spurde konungr Raudulf. ma suo vera sem mer syndizst j nott at sængin snerizst undir mer edr husit ella. Raudulfr suarar. þui uar suo smidat at þer skylldut rett horfa a solina ok draumr þinn skyllde þer at solu ganga ok allt þitt rad ok suo þessi foruitni. þa mællti konungr. nu uil (ek) at þu segir drauminn ok huat er hann merkir. Raudulfr suarar. hitt mun ek fyst segia huat þu satt edr hugsadir adr þu sofnnadir. þu batt gud birta firir þer nockut huernn enda æiga munde orrosta þessi ok styriolld er nu hefir hafizst edr huernn ueg fara munde rikit hedan af en sidan signdir þu þig ok sofnnadir j nafnni krossins. Rett segir þu quat konungr. en huat segir þu af drauminum. þer syndizst j suefnni kross standa a iðrdunni mikill ok grænn sem gras ok likneskiu a krossinum. en er þu satt hðfudit rodunnar ok uar þat af raudu gulli gert. en er þu satt andlitit þa þotti þer sem þar væri vtan vmb hringr litr sem regnnbogi en uaxinn sem uelldishringr guds en innan j hringinum voru markadir æinglar ok himnarikis dyrd. kross þessi er þu satt ok krossfesting merkir ofrid. en suo sem þu ert hðfudsmadr þa muntu æiga hðfudit j drauminum. ok suo sem þer þotti hofudit vera gert af raudu gulli ok þar lysti af sem fyrr var sagt af lysegulli þar mun birtazst tignn þin umfram alla menn adra j þessu lande suo sem rautt gull er dyrra huerium malmi. en þar sem asionan uar ok bæde fylgde syn ok mal ok heyrnin er þar ok uit fðst þa uard þer synd j þessu himnariki j himneskri dyrd. þar uar þer synt j þui ðmbun godra uerka er þu snyrr morgum manni til rettrar truar med þinum ordum ok rikdomi. en hðfut mannz er mæirr bollott en langt þa get ek þer synt hafa verit ecki langt lif edr eydiligt ueralldar riki. Konungr spurde. huat mun uelldishringr sa merkia er mer syndizst. Raudulfr suarar. hringr sa merkir æfui þina ok riki þitt. hringr er endalaus suo mun ok vera frægd þin. hringrinn huass upp ok nidr suo ferr ok æfi þin at hðrd munu verda æfuilok þin ok huoss upphofin er mistud fodurins ok margra frænda gðfggra

ok þessa hæims uelldi þitt. halsinn a likneskiunne syndizst þer af kopar gerr. þat er hardr malmr ok eru klockur af geruar er mest hliod fylgir. þat riki er næst kemr eftir þig mun vera fagurt ok birtazst firir huers mannz eyrum þui nærr sem hliod storra kloknna. þar lek vm vtan skotelldr þat er hit grimmazsta herskaparfæri hrædiligt ok ostadfastligt. kopar er hardr ok styrkr þat riki mun ok vera ostðduligt. en er þat var ofan ok nedan slitit firir malmaskiptit þar mun þat riki ecki langt vera ok ðngir afkuistir munu þar af lifna j þessu lande. þer syndizst sem ofan ór hofdinu greiddizst gulligr lockr ofan a axsllir. þat mun þat merkia at ydr uegsemd mun mest prydd j þessu landi ok vida annars stadar. Raudulfr (segir). en þa leiddir þu firir augu þer fadm ok briost rodunnar ok vt hendrnar a krossinum. þa syndizst þer geort vera af silfri. þar uar ok markadr himintungla gangr sol ok stiornnur [467] ok tungl med birti ok fegurd. þat riki er þa kemr næst mun vera hardla uegsamligt suo sem himintungl lysa loft ok jord ok aller menn fagnna birti solarinnar ok hon er nytsamlig heiminum. hon gefr lios j uerolldina ok vermir jordina til auaxstarins suo mun ok þat riki verda kært ok astsællt gott ok farsællt ollu landzfolkinu. en þar er þu satt likneskiuna bræida fadminn þar mun sa hafa myklu meire en allir adrir hofdingiar hafa haft her j lande ok vera vidfa(d)mare at þreyngia folkinu af ðdrum londum. en lockar þeir hinir gulligu er fellu ofan a briostit þar mun sa hinn agæti hofdinge vera ydr nockut hendilangr ok pryddr af yduarre dyrd. ok suo breidr sem var fadmrinn þa var hann stuttr ok þui mun hans riki vera ecki langt. þar næst sattu firir nedan briostit bræida gerd liggia um roduna ok tok nærr allt undir hendrnar upp gerdin. uar hon or iarnni ok skygd sem suerd. þat ma kalla megingerd riki þat mun vera styrkt med mattuligum hofdingia. en þat var sumt skygt jarnn þar mun mart skygt suerd a lofti fyrr ok sidarr. en gerdin uar oll faat med brogdum ok uirduligum haglæik at þui er þer syndizst. þar uar saga Sigurdar Fafnisbana ok Haralldz hillditannar ok enn nockut af verkum Haralldz hins harfagra. sa hofdinge mun fremia stor brogd þau er monnum mun þikia storliga vitrlig ok hagliga med sinne framkuæmd. en er þer voru a synd stormerki hinna agætazstu hofdingia ok hinna mattkozstu konunga þat mun hann allt syna med sealfum ser ok af þeirra liking mun hann fremiazst. en iarnnit er hardr malmr ok morgum monnum til skada lagdr. þat riki uænti ek at morgum þiki skadsamt fra upphafui allt til enda ok þar a medal sagdi Raudulfr. en er þu satt firir nedan gerdina kuidinn þat uar litt miogh sem bleikt gull þat uar litat ok

fagrt þar uar fad a flur ok vidir ok allzkonar kuikende þau er a iordu ganga ok margsskonar blom er a iordu uex. allt þetta uar gert fagurt med hinum mesta haglæik. þat riki uar þer synt er þar mun næst eftir koma þat var gulligt sem vm hofudit. en rautt gull ok blæikt gull a ecki saman nema nafnn æitt. þat munda ek ætla at sa konungr munde hafa nafnn þitt ok vera þo æigi þinn maki. þar uar a markadr iardar auoxstr fegurd ok pryde hæimsins suo mun sa konungr pryda þetta riki med godri stiornn ok bloma myklum ok suo mikill hagleikr sem þer uar syndr suo margfalliga mun hann vera sinu folki sagdi Raudulfr. en þar er þu huglæiddir ok satt ofan lengra vm þann sama mann synndizst þer nidr fra nafla uar um skopin silfurs litr a þess er skirt er ok þo uel litt. þat silfr gengr her j landi ok med þui ma hann alla hluti kaupa en utanlandz er þat æigi gealldgæingt. sa hofdinge mun vera mikill ok ollum uegr at her j lande en utanlandz mun hans time æigi uerda sem hit skira silfr birti. en er þat silfr uar uel litkat ok fagurt þar mun hann ollum uel lika ok hans riki mun standa med fegurd ok pryde ok mun hann fylgia skopum sinum allt til enda lifs sins. mun af honum kuistazst ualldit ok dreifazst j kynkuislir sem þa uar komit ofan til fota mannzsins ok suo sem hann uar bolrinn þa mun hann j flestum hlutum vera iafnninge sinna firirmanna. Raudulfr mællti. þar er þer syndizst lærin ok horundslitr a fagr þar mun rikit uerda tuiskift ok mun þa rikit koma j brædraskifti. en er þer syndizst a badum lærum hðrundzlitr þa munu þeir dæila makliga ok iafnnliga sin a mille ok suo sem fætrnir hallda upp ollum likama suo munu þeir hallda upp dgmum sinna firirmanna ok mun þeirra riki fara eftir rettri skipan ok almenniligri menzsku. Raudulfr segir. þar er ydr synndizst ofan fra kne fotleggir .ij. af tre. en þat er fornnt mal at þess mannz rad gangi a trefotum er margir hlutir takazst illa. þat riki er þa kemr mun vera hart ok illt undir at bua ok tuiskipti med frændum hygg ek at ill endimork verdi a þeirra skipti ok munu þeir þo uera af einum kynkuislum. þar mun hefiazst frænda róg ok illar dæilor. Raudulfr segir. þar næst sattu a risturnar fram ok uar þat af tre allt. þer syndizst sem fæturnir væri mislðgum lagdir a krossinum ok settr jarnngaddr j gegnum badar risturnnar en tærnar voru lagdar huer yfir adra. þa var þer synt hueriar misgongur þar munu uerda edr mislðgur þar munu brædr berazst banaspiot eftir. þar er þu satt æinn jarnngadd j gegnum badar ristr en tærnnar fram lagdar huer yfir adra suo sem bornn gera ruta med fingrum ser þeirra afkuæmi mun huert odru mygia ok vilia til iardar koma. Nu er drauminum lokit herra segir Raudulfr ok hefui

ek [468] nu af gert þat sem mer þiki likligazst at hann þyde. Konungr bat hann hafa þok firir ok letzst þat ætla at hans iafnninge mundi uarlla fazst firir uitzsku sakir nema synir hans stige honum (i) spor. gek konungr þa burt til malstefnnu. Um morguninn eftir reynde konungr jþrottir Raudulfssona ok reyndizst eftir þui sem þeir sǫgdu. Konungr spurde huat manna Raudulfr uæri edr kona hans. Raudulfr sagdizst vera suænskr at ætt audigr ok ættstorr. en ek hliopumzst þadan med konu þessa er ek hefui al(t) sidan en hon er systir Hrings Dagssonar. þa uaknnade konungr vit ætt þeirra beggia fann hann þat at þeir fedgar voru foruitra. Sigurdr kunni dægr at græina þo at hann sæi æigi himintungl en Dagr sa kost ok lǫst a huerium manni. ok reyndi konungr huorstueggia þeirra jþrottir ok uirdizst honum suo at huortueggi þeirra mundi satt fra segia Konungr spurde Dag huernn hann sæi skaplaust Biarnnar armannz. Dagr sagdi at hann uar þiofr ok þat med at hann sagdi huar Biorn hafde folgit a bæ sinum bæde bæin ok hornn ok hudir af nautum þeim er hann hafdi stolit um haustit. er hann ualldr sagdi Dagr allra þeirra stulda er j haust hafa ordit ok hann hefir odrum kent. Dagr sagdi konungi huar hann skylldi leita fiarins hia Birnni. En er konungr for fra Raudulfi uar hann ræifdr uingiofum storum. foru synir Raudulfs þa med konungi. for konungr fyst til Biarnar ok reyndizst honum suo sem Dagr hafdi sagt. Konungr let Biorn fara or landi a brott ok naut hann drotningar at þui er hann uar æigi af lifui tekinn.

## Olafr konungr let drepa Ǫlui þorissun.

232. þorir son Oluis a Eggiu stiupson Kalfs var þa .xviij. uetra gamall hann hafdi fæingit gott kuonfang a Hæidmork var hann hinn uinsælsti madr ok þotti uænn til hofdingia. hann baud konungi heim til ueitzslu med lid sitt. konungr þektizst bodit ok for til þoris fek þar godar vidtokur. uar þar uæitzsla hin stormanligsta ok uar uæitt allkapsamliga en ǫll voru fǫng hin bezstu. Konungr ok menn hans ræddu þat sin a mille at þeim þotti þat miog saman fara husakynne edr husbunadr ok bordbunadr edr dryckr ok madrinn sa er uæitti. Dagr let ser fatt um finnaz edr ecki. Olafr konungr uar uanr at hafa rædur vid Dag ok spurde hann ymissra hluta. reyndizst honum þat allt med sannyndum er Dagr sagde huort sem þat var lidit edr okomit. festi konungr þa trunat mikinn a rædum hans. þa kallar konungr Dag a æinmæli ok ræddi þa firir honum miog marga hluti. þar kom nidr ræda konungs at hann tiade firir Dag hue skoruligr madr þorir uar. Dagr let ser

fatt um finnazst ok let þat allt satt er konungr sagde. þa spurde konungr hueria skaps annmarka þorir hefde. Dagr kuetzst hyggia at þorir mundi uel skapi farinn ef honum væri þat suo gefit sem alþyda mætti sia. Konungr bad hann segia ser þat er hann spurde ok segir at þess uar hann skylldr. Dagr suarar. þa muntu uilia uæita mer ath ek rada hefndinne ef ek skal lostinn segia. Konungr sagdi at hann uill ecki domum sinum undir adra menn skiota ok bat hann segia ser þat er hann spurde. Dagr suarar. dyrt er drottins ord. þat mun ek til skaplastar þori finna sem margan kann henda hann er madr of fegiarnn. Konungr spurde. er hann þiofr edr ransmadr. Dagr suarar. æigi er þat. Huat er þa segir konungr. Dagr suarar. hann uann þat til fear at hann er drottins suikari hann hefir tekit fe af Knuti konungi til þess at suikia ydr. Konungr suarar. huernn ueg gerir þu þat satt. Dagr suarar. hann hefir a hinne hægri hendi hring digran firir ofan ðlnboga er Knutr konungr hefir gefit honum ok lætr hann ðngann mann sea. Eftir þat slitu þeir konungr tali sinu ok var hann reidr miog. þa er konungr sat yfir bordum ok menn hofdu druckit um hrid ok voru allkatir. þorir gek um bæina. þa let konungr kalla þori til sin. Hann gek framan at bordinu ok tok hondum upp a bordit. Konungr mællti. huersu gamall madr ertu þorir. Ek er .xviij. uetra segir hann. Konungr mællti. mikill madr ertu þorir iafnngamall ok geruiligr. Tok þa konungr hondina hægri ok strauk upp at ðlnboga. þorir mællti. takþu kyrt þar a ek hefui sull a hendinne. Konungr hellt hendinne ok kende at þar uar hart undir. Konungr mællti. hefir þu eigi spurt segir hann at ek er læknir ok lat mig sea sullinn. þorir sa at þa mundi ecki tia at leyna. konungr let þori taka hondum ok setia j iarnn. þa gek Kalfr at ok bat þori grida ok baud firir hann fe. margir menn studdu þat mal ok budu sitt fe fram. Konungr uar suo ræidr at ecki matti ordum uit hann koma. sagdi konungr at þorir skyllde slikann dom hafa sem hann hafde honum ætlat. Sidan let konungr drepa þori. en uerk þat uard at hinne mestu ofund bæde þar um Upplond ok ongum mun sidr um þrandheim sem ætt þoris uar mest. Griotgardr son Öluis ok brodir þoris hann uar ellri þeirra brædra hann uar ok hinn geruiligsti madr ok [469] hafde suæit um sig. hann uar þa staddr a Hæidmork. ok sidan spurdizst þangat aftaka þoris þa uaitti hann arasir þar sem firir voru menn konungs edr fe hans. en at ðdru hueriu hafdizst hann vid a skogum edr j odrum fylsnum. En er konungr spurde ofrid þenna þa let hann niosnum til hallda vm ferdir Griotgardz. vard konungr uar vid huar Griotgardr hafde nattstad tekit æigi langt fra þui er konungr var.

Olafr konungr for þa þegar um nottina kom þar er dagade. slogu menn hring um stofuna þar sem þeir voru inne. þeir Griotgardr uoknudu vid uopnbrak ok manna gny. hlupu þeir þa þegar til uopnna sinna. hliop Griotgardr ut j forstofuna. hann spurde huerr firir lide þui rede. honum var sagt at þar uar kominn Olafr konungr. Hann spurde ef konungr mætti nema mal hans. Konungr stod firir dyrunum. hann sagde at Griotgardr metti mæla sligt er hann uillde ok heyri ek ord þin segir hann. Griotgardr suarar. ecki mun ek grida bidia. Hann hliop þa ut ok hafdi skiolld yfir hofdi ser en suerd brugdit j hendi. Litt uar lyst ok sa ugerlla. hann lagdi suerdi til konungs en þar vard firir Arnnbiornn Arnnason. kom lagit undir bryniuna ok rendi upp j bryniuna ok suo j kuidinn fek hann þegar bana. Griotgardr uar ok þegar drepinn ok flest allt lid hans. Eftir þessa atburde sneri konungr ferd sinne sudr aftr til Uikrinnar. ok er hann kom til Tunsbergs þa gerde hann menn fra ser j allar halfur ok syslur ok krafdi ser lids ok læidangurs. skipakostr uar litill voru þa æinge skip nema þau er bændr attu en lid drotzst uel til hans ór herudum en fatt kom um lengra. ok fann konungr þat bratt at landzfolkit mundi vera snuit af æinordinne vid konung. Olafr konungr gerdi lid a Gautland austr sendi þa eftir skipum sinum ok odrum þeim uarnnade er (þeir) hofdu eftir latit um haustit[1] en ferd þeirra manna uard sæin þuiat þa uar æigi betra en um haustit at fara j gegnum Danmork er Knutr konungr hafde her uti um uorit um alla Danmork ok hafde æigi færri skip en .xij. c.

## Olafr fangadi Knutz menn. capitulum.

233. þat gerdizst til tidenda at konungr gat ahent .ij. sendimenn Knutz konungs er þar hofdu eftir verit at skipta fe med lendum monnum. hann neydir þa til sagna. þeir sogdu .vj. lenda menn uit fe Knutz konungs tekit (hafa) þa er adr eru nefnndir. Olafr konungr let þessa i fride fara omeidda a mot þui sem hann hafde adr gert vid þa. Rǫgnualldr jall Brusason var þa med Olafi konungi. hann spurde hui at æigi skyllde drepa flugumenn. eru margir illir ordnir her j lande af þeirra ordum. er þu vid þa æigi odrapgiarnn er minna gera til saka. Olafr mællti. ek hefui land þetta halldit eftir guds lǫgum þuiat þat eru guds lǫg at hegnna osidu en rasa æigi eftir ræide sinne. ydr þotti stridr minn domr um þat er ek let drepa þori ok þui skal þetta nu vitislaust er uit mig er afgert at ek a þat hæimillt at firirgefa þat. vænlir ek ok (at) gud muni mer þetta hirtingarleyse æigi til sekta dœma. Foru Knutz menn þa hæilir a brott.

[1]) laustit *Cd.*

undan hans uallde ok uilea suma med fogrum fortolum en suma med hirting konungligra atkuæda suo at ongum hlydde um hans daga þeim sem gud hafde hann formann yfirskipat frammi at hafa forneskiu edr fianligan atrunat flærdsamligra skurgoda. þui setti hann sinar snðrur firir hina fornnu vini sina þa sem hann visse fra ser naudga dregna verit hafa at þeir sealfir ynne sogdum astuin allzualldanda guds Olafi konungi nockurnn likamligan skada þann er hann mætti badar hendr a festa treystande at firir þessa gilldru talsamligra suika mætti hann aftr vinna oaflatliga þann skada er hann hafde firir ordit ok Olafr konungr hafde honum gert. ok þui skal nu fyst segia huat bændr ok lendir menn hofduzst at j Noregi um þessar tidir. þorir hundr hafdi finnferd haft þessa .ij. uetr af Hakoni jalli ok hafdi fæingit j finnferdinne óf fiar ok att morg kaup vid Finna. hann let gera ser .xij. hræinbialba med suo mikille fiolkynge at ecki uopn festi a ok sidr en a bryniu. en hit sidarra sumarit bio þorir langskip þat er hann atti ok skipade huskollum sinum hann stefnndi saman bondum ok krafde læidangrs allt um hinu næstu þing drozst þa saman mikit fiolmenni. for hann nordan um uorit. Harekr or þiottu hafdi mikinn lidsafnnat ok fek mikit lid. urdu til þessarrar myklu flæire uirdingamenn þoat þessir se agætazstir. lystu þeir yfir þui at þetta lid skyllde fara j moti Olafi konungi ok veria honum land ef hann kæmi austan. Æinarr þambarskelfir hafde forrát mest allt ut vm þrandhæim sidan lát Hakonar jarls spurdizst þuiat Æinari þottu þeir fedgar uera hellzst komnir til æigna þeirra er Hakon jarl hafde att. minntizst Æinarr þa firirhæita þeirra ok vinmala þeirra er Knutr konungr hafde uæitt honum at skilnade. let þa Æinarr bua skip gott er hann atti ok gek þar a sealfr med myklu foruneyti. en er hann uar buinn þa hellt hann skipe þui a fund Knutz konungs fagnnade konungr honum uel. sidan bar Æinarr upp eyrende sin firir konung segir suo at hann uar kominn ath vitea hæita þeirra er konungr hafde mællt at Æinarr skyllde bera tignnarnafn j Noregi ef jarls væri æigi vid kostr. Knutr konungr segir at þat mal visse allan annan ueg vid. hefui ek nu segir hann sent menn ok jartegnir til Danmerkr til Suæins sonar mins ok þat med at ek hefui gefuit honum riki j Noregi en ek uil hallda vid þig vinattu skalltu hafa þuilikar nafnnbætr af mer sem þu hefir burde til ok vera lendr madr minn. Sa Æinarr þa hlut sinn ok huer at hans eyrendi mundi uerda. biozst hann þa til hæimferdar. en er hann visse firirætlan Knutz konungs ok suo þat at mikil uon uar at Olafr konungr kæmi austann ok ecki væri fridsamligt j lande kom Æinare a j hug at æigi mundi undir at

hrapa ferdinne meirr en suo sem hogligazst væri ef þeir skyllde beriazst vid Olaf konung en hafa ecki til framflutningar rikisins þa helldr en adr. siglde Æinarr þa j haf er hann uar buinn ok kom þa til Noregs er adr voru fram komin þau tidende er þar gerduzst mest a þui sumri.

### Vidbuningr bænda.

256. Hofdingiar j Noregi helldu niosn austr til Suiþiodar ok sudr til Danmerkr ef Olafr konungr kæmi austan ór Gardariki. fengu þeir þegar spurt er Olafr konungr var kominn til Suiþiodar. en þegar at þat uar spurt þa for herbod um land allt var stefnnt vt almenningu at lide kom þa þar saman herr mikill. en þeir lendir menn er voru af Ögdum Rogalande ok Hordalande þa skiftuzst þeir. sneru sumir nordr en sumir austr ok þotti huortueggia lids vid þurfa. sneru austr synir Erlings af Jadre med lid þat allt er austr var fra þeim ok voru þeir þar hofdingiar yfir þui lide en nordr sneri Aslakr af Finneyium Erlindr ór Gerdi ok adrir lendir menn er voru þadan nordr. þessir er nu voru nefndir voru allir æidsuarar Knutz konungs til þess at rada Olaf konung af lifui ef þeim gæfui færi a þui ok mætti þeir ser suo vid koma.

### Vinir Olafs konungs fundu hann.

257. En er þat spurdizst j Noregi at Olafr konungr væri kominn austan til Suiþiodar þa sofnnuduzst saman vinir konungs þeir er honum uilldu fylgia. var j þeim flocki tignnazstr madr Haralldr Sigurdarson brodir hans hann uar þa .xv. uetra gamall mikill madr uexsti ok malsniallr. [481] mart var þar annarra gofgra manna þeir fengu allz .vj. hundrat manna þa er voru af Upplondum ok stefnndu med lid þat allt austr vm Æidarskog til Uermalandz ok allt austr til Suiþiodar. spurduzst þa firir um ferdir Olafs konungs. Olafr konungr var j Suiþiod vm uorit ok hafdi þadan niosnir nordr j Noreg ok fek þadan þa æina spurnn at ofridsamligt munde þangat at fara ok þeir menn er þadan komu lottu hann miog at fara j landit. hann hafdi æinradit at fara med lidi sinu sem adr. Olafr konungr spurde Önund konung huernn styrk hann munde fa honum at uæita honum at sækia land sitt. Önundr konungr sagde honum at Suium var ecki um at fara til Noregs herfðr. vitum uer segir hann at Nordmenn eru hardir ok orrostumenn myklir. skal ek æigi sæint segia ydr huat ek uil til leggia ek uil fa ydr .cccc. manna ok uelia af hirdmonnum minum hermenn goda ok uel uopnnada sidan uil ek gefa ydr lof til at þer farit

ok fait ydr sligt lid allt er þer megit ok ydr uill fylgia. Olafr konungr tok þenna kost biozst sidan ferdar sinnar. Astridr drotning uar eftir j Suiþiodu ok Ulfhilldr konungsdottir.

### þeir funduz Olafr konungr ok Sigurdr byskup ok Haralldr.

258. En er Olafr konungr hof ferd sina þa kom til hans lid þat er Suiakonungr fek honum voru þat .cccc. manna. ferr konungr er Suiar komu ok stefndu fyst upp a land til marka. en þar er konungr þa ueitzslu fyst þa la firir þeim uatn er Suiar kalla sio er þat osallt uatnn ok jse þakit ok uar miog hallt. hestar voru oskuadir. þa bat konungr fara fyst til messo ok um hinn fysta lagasông hellt konungr firir ôgu ser ok þegar dræif j lognni krôinmu. sidan letti af elinu. fara þeir sidan ok uard forin þo sæin en rida stundum en fara stundum a skipe. þa sa þeir rida j moti ser .xij. menn þeir voru allir j suortum kuflum ok kendu þar Sigurd byskup ok lærda menn hans. Konungr spurde byskup hueriu gegnnde um farar hans. hann kuetzst ętla sidan at (koma) æigi aftr j Noreg. Konungr mællti hui skulum vit suo skiott skilia. Byskup suarar. þui at nu eru ill tidende j landinu hafa menn tekit uit fe Knutz. uggi ek at þu ser æigi þrem nottum leingr j landinu ok villda ek þa æigi vid vera þuiat ek uæit huernn hug lendir menn hafa til þin ætla þeir at ræisa herfloka mot þer ok hafa til sellt Knuti konungi trunat sinn ok suardogum bundit. Konungr mællti. þinn fullting uillda ek þo hafa ok minir menn þui helldr sem ek ætti skemra lif eftir ok mer væri haskinn nærr. Byskup suarar ok sagdi suo vera skylldu. þa fara þeir a fiall þat er skilr Suiþiod ok Noreg. konungr hafdi þa nærr .xij. hundrat manna ok komu þar fram er kallat var Jarnnberaland. kom þa j moti þeim lid þat er farit hafde af Noregi til motz vid hann sem fyrr var sagt hitti hann þa Haralld brodur sinn ok marga adra frændr sinâ ok uine vard þar hinn mesti fagnnafundr. hofdu þeir þa aller samann .xviij. hundrat manna.

### Dagr kom til Olafs konungs.

259. Dagr er madr nefnndr hann er sonr Hrings konungs þess er land hafde flyit firir Olafi konungi en menn segia at Hringr væri son Dags Hringssonar Haralldzsonar hins harfagra. Dagr var frændi Olafs konungs. þeir fedgar Hringr ok Dagr hofdu stadfestz j Suiauelldi ok hofdu þar fæingit riki til forrada. Um uorit er Olafr konungr uar kominn austan til Suiþiodar sendi hann ord Dag frænda sinum at hann

skyllde radazst til ferdar med honum med allan þann styrk sem hann hefir til en ef þeir fa land j Noregi þa skyllde Dagr hafua þat riki ok æigi minna en forelldrar hans hofdu haft. en er þessi ordsending kom til Dags þa fell honum þat vel j skap þuiat honum leku landmunir at fara til Noregs ok taka þar vid riki þui sem forelldrar hans hofdu haft. hann suarar skiott þessu mali ok het ferdinne. Dagr uar madr skiotordr ok fliotradr ok akafamadr mikill ok hreystimadr ok æinge spekingr at vite. Dagr safnnade ser lide ok fek hann ser nær .xij. hundrat manna. for hann med lid þat til fundar vid Olaf konung.

Vm ferd Olafs konungs ok hans manna austan til (Noregs).

260. Olafr konungr gerde ord fra ser ok sendi ord þeim monnum er þat uilldu hafa til fefanga ser at afla hlutskiptis þar sem vvinir hans væri firir ok taka upp firir þeim þa skylldu þeir til hans koma ok honum fylgia. Olafr konungr flutti þa her sinn ok for um bygdir sumr herrinn en sumr vm eydimerkr ok oftliga yfir uotnn stor. þeir drogu skip ok baru mille uattnanna eftir ser. fioldi mikill lids dræif til konungs markamanna ok stigamanna. er þar sidan vida kalladar Olafsbygdir er hann hafde nattstade. letti hann æigi fyrr ferd sinne en hann kom fram j Jamtaland. for konungr þa nordr til Kialar. skilduzst menn hans j bygdirnar ok for(u) miog sundrlaust medan þeir vissu æigi ofrida(r) uon. en er þeir skildu lid sitt fylgde konungi [482] Nordmanna lid en Dagr for j annan stad med lid sitt.

Gaukaþorir ok Hafrafasti toku tru.

261. Menn eru nefnndir þeir er annar het Gaukaþorir en annarr Hafrafasti þeir voru stigamenn myklir ok hinir mestu ránsmenn þeir hofdu med ser .xxx. sinna lika. þeir brædr voru mæire ok sterkari en adrir menn æigi skorti þa hug ok aræde. þeir spurdu til þessa hers er þar for yfir land ok mælltu j mille sin at þat munde vera sniallrædi at fara til konungs ok fylgia honum til landz sins ok ganga j folkorrostu med honum ok reyna sig suo þuiat þeir hofdu æigi fyrr j bardaga uerit þeim er lide uar fylgt þeim uar forvitne a at sea konungs fylking. þetta rad likade uel forunautum þeirra gerdu þeir ferd sina til fundar vid Olaf konung. en er þeir komu þar þa gengu þeir med suæit sina firir Olaf konung ok hofdu þeir aluæpnni sitt. þeir kuoddu konung. hann spurde huat manna þeir væri. þeir nefndu sig ok sogduzst vera þarlandzmenn. þeir baru þar upp eyrende sin ok budu konungi fylgd sina. Konungr suarar. suo litzst mer sem j ydr

mvni vera god fylgd ok erum ver fusir vid ydr at taka edr huort eru þer skirdir menn edr æigi. Gaukaþorir suarar at hann uar huorki kristinn ne heidinn. hofum ver felagar ðngann atrunat annan en træystum afli voru ok sigrsæli ok uinnzst oss þat at gnogu. Konungr suarar. þat er skade mikill er menn suo lidsamligir skulu æigi a Krist trua skapara sinn. Gaukaþorir suarar. er nockurr sa j þinu lide konungr at mæira hafui a degi uaxit en vit brædr. Konungr bat þa skirazst lata ok taka tru retta þar med. ok fylgit þa oss sidan skulu uer þa gera ydr uirdingamenn mykla. en ef þit vilit þat æigi þa farit aftr til idnar yckarrar. þa suarar Hafrafasti. sagdi at hann uill æigi uit skirnn taka. snua þeir sidan j brott. þa mællti Gaukaþorir. þetta er skðm mikil at konungr þessi gerir oss lidræka þar kom alldri fyrr at ek uæra æigi hlutgeingr vit adra menn skal ek alldri aftr huerfa at suo bunu. Sidan skutuzst þeir j suæit med ðdrum markamonnum ok fylgdu flockunum. sækir Olafr konungr þa uestr til landz sins.

## Olafr konungr sagdi byskupi syn (sin)a.

262. En er Olafr konungr for uestr til landzsins ok vm Kiol ok sotti þa uestr af fiallinu suo at land lægdi uestr at sia. mart lid for fyrr en konungr enda mart sidarr. ræid hann þar er rumt uar vm hann. uar hann hliodr ok mællti ecki vid adra menn. ræid suo læingi dags at hann sazst vm. þa ræid byskup at honum ok mællti. spurde huat hann hugsade er hann var suo hliodr. þuiat konungr uar iafnugladr ok margtaladr vid menn sina j ferdum ok gladr iafnan vid þa er nærr honum voru. Konungr suarar med mikille ahyggiu. undarliga hluti hefir firir mig borit um hrid. ek þottumzst sia yfir Noreg er ek læit uestr af fiallinu kom mer þat j hug at ek hafde marga daga verit gladr j þui lande. mer gaf þa stora syn suo at ek sa um allan þrandheim ok þui næst um allan Noreg. ok (er) su syn hafde verit firir ðgum mer þa sa ek þui næst allt þar til er var siorr (ok) land þar til er ek sa um allan hæiminn. ek kenda ok gerlla þa stade er ek hefui fyrr set suo ok þa stade er ek hefui spurnn af ok iafnnuel þa er ek hefui æigi fyrr heyrt getit bæde bygda ok obygda suo vijd sem verolldin er. Byskup sagde at þessi syn uar storum hæilaglig.

## Fundr þeirra Olafs konungs ok Kalfs Arnnasunar.

263. Litlu eftir þenna atburd ser konungr rida a mot þeim .v. menn þar uar Kalfr Arnnason. hann kuaddi konung uirduliga en konungr læit vid honum ok bat gud geyma hans. Konungr spurde huert

hann ætlade at fara er hann uar suo ofarliga a fiollum. hugda ek þig mæira starf mundu firir hondum æiga nu j landinu er þu skallt uinna þer til jalldgmis en at fara sem uæidemenn a fiall upp. Kalfr suarar. her mun ek lyckiu lata a læid minne er ek hefui ydr fundit en starf mitt er æigi litit j lande en þo er þat ecki minnr j uoxst færth en tignarnafnns uænnti ek mer ecki af Knuti konungi. en þat er satt at uær hofum tekit uit feam Knutz konungs ok hæitit þui at taka æigi uit þer orrostulaust en lidsafnnadr mikill er a Stiklastodum ok eru þar bændr margir þeir er reka þikiazst æiga harma sinna vid ydr hefui ek þar ok mykla suæit manna er ek ætla til styrks vid ydr. en j fystu er lidit er fylgt mun ek uera j bondaflocki ok minir menn ok skiota dynskot j flok yduarnn. en upp fra þui er blod kemr a jord uilium uær aller þinir menn vera þuiat ver erum þa lausir allra orda ok æida vid Knut konung. Konungr þagnnade um hrid ok mællti sidan til þorbergs. huersu skulum ver trua ordum Kalfs. Æigi uæit ek þat quat þorbergr Kalfr er ockar vitrari en tillaga vissa ek æigi uerr vm hrid ok uggi ek at litt niotum uer hans vitz vid edr hinna betri rada hans. Finnr letzst georlla sea kunna truskap Kalfs þo at hann væri æigi at spurdr þuiat Kalfr er slægr sem refr. snui þer uond j har honum ok uil ek hoggua hofud af honum edr virgul um hals honum en ek mun skiota stocki undan fotunum ok se hann suo upp [483] festr a galga ok læida honum suo landrat ok drottins suik. Ræidr ertu nu Finnr quat konungr er þu uill drepa lata brodur þinn edr spara æigi þinar hendr at tyna honum ok somir þer æigi suo at gera. Finnr suarar. þat somir mer vel herra þui at firir skommu kendir þu mer þat at hneckia vǫndu rade ef ek se glæp a manni. þeim mun betra er mer at drepa brodr minn en adra menn sem mer er skylldra at hneckia firir honum uondu rade. Finnr ætlade þa at Kalfi en hann nade þui ecki þuiat konungr let hallda honum. Kalfr sneri þa annan ueg ok letti æigi fyrr en hann kom aftr til lids sins.

## Kongr kom j Verdæla fylki.

264. Sidan er Olafr konungr sotti ofan af fiallinu þa var bærr sa firir þeim er a Sulu hæitir j ofanuerdri bygd j Uerdelafylki. en er þeir konungr sottu ofan at bænum þa lagu akrar vid ueginn. Konungr bat menn fara spakliga ok spilla æigi okrum firir bonda. gerdu menn þat uel medan konungr uar uit en þeir Suiar er sidar foru þa gafu þeir ecki gaum at þui ok hleyptu menn suo um akrinn at hann uar allr nidr lagdr at iordu. sa bonde er þar bio er nefndr þorgeir ok uar

kalladr fleckr hann atti .ij. sonu frumuaxsta. þorgeirr fagnnade uel konungi ok hans monnum ok baud honum allan þann forbæina er hann hafde fông a. Konungr tok þui uel ok spurde þorgeir at tidendum ok huat tijt veri þar j lande edr huort safnnadr nockurr væri gerr j moti honum. þorgeirr segir at lid mikit var saman dregit þar j þrandhæimi ok þar voru komnir lendir menn nordan ór lande ok sunnan. en æigi uæit ek segir hann huort þeir ætla þui lide at stefnna ydr a hendr edr annarsstadar. Sidan kærde þorgeirr firir konungi skada sinn ok ospekt konungsmanna er þeir hofdu nidr brotit akra hans. Konungr sagde at þat uar illa ordit er honum var mæin gert. sidan ræid konungr þar til er akrinn hafdi stadit ok sa hann at allr uar at iordu lagdr. hann ræid umhuerfis ok mællti suo. þess uænti ek segir konungr at gud muni læidretta skada þinn bonde ok mun akr þinn bættri a uiku fresti (en) adr en hann spilltizst. vard þat hinn bezsti akr sem konungr sagde Konungr dualdizst þar vm nott en um morguninn bio hann ferd sina. hann sagde at þorgeirr bonde skyllde fara med honum en hann baud til ferdar sonu sina. Konungr sagde at hann skyllde fara med honum. en suæinarnir villdu æigi eftir vera. Konungr bat þa æigi fara en þeir uilldu æigi letiazst lata. þa villdu konungsmenn binda þa. Konungr mællti er hann sa þat. fari þeir aftr munu þeir koma. Suo for sem konungr sagde vm suæinana.

### Konungr cristnadi menn nordr vkunnigha.

265. Olafr konungr spurde þa enn af nyiu at land var enn vijda litt kristit en hann lagde mikinn hug a at snua lydnum til almenniligrar truar um allt sitt riki bæde um eyiar ok anndnes. Eftir þui sem j æinu fornu kuæde visar til bygde a æinu andnese nordarliga j Noregi þar sem god langskipahôfnn var undir fiarri meginbygdinne ok suo þiodlæid einn bondi ok husfreyia nôkkut olldrut þau attu .ij. bôrnn son ok dottur at þui sem j upphafui kuædissins segir ok suo hefr.

Karll hefir buit
ok kona olldrut
(a) anndnesi
æinhueriu.

atti son
vid sæima bil
dræingr ok dottur
driugskyrliga.

þar var ok þræll ok ambatt. bondi uar spakr madr ok ohlutdeilinn en kelling var suarkr mikill ok red miog firir hybyla hattum dagliga. bondason var katr ok gledefullr glennzsugr ok uppiuodslumikill. bondadottir var ellri næm ok natturuuitr þoat hon hefdi æigi vid

fiolmenni upp uaxit. bonde atti etiutik stora er Lærir het. onguar skyniar hofdu þau a hæilagri tru. Suo bar til a æinu alidnu hausti at æykhestr kallz do var hann miog fæitr ok med þui at heidnir menn hofdu hrossakiot ser til fædu var hestrinn til gerr ok nyttr. ok j fystu er fleginn var rak þræll af honum j æinu þann lim sem eftir skapan natturunnar hafua þesskyns kuikende til getnadar sem ǫnnur dyr þau sem aukazst sin a mille ok eftir þui sem fornnskalldin visa til hæitir uingull a hestum. ok suo sem þrællinn hefir hann af skorit ok ætlar nidr at kasta a uǫllinn hea ser hleypr bondason til hlæiannde ok gripr vid ok gengr inn j stofu þar var firir modir hans dottir hennar ok ambatt. hann hristir at þeim uingulinn med morgum kallzyrdum ok quat visu.

Her megit sea
helldr rǫskligan
vingul skorinn
af uigs fǫdur.
þer er ambatt
þessi Volsi
allodaufligr
innan læra.

Ambattin skellir upp ok hlærr en bondadottir bat hann vt bera andstygd þessa. Kerling stendr upp ok gengr at odru megin ok gripr af honum ok segir at huorki þetta ne annat skulu þau onyta þat sem til gagns ma verda. gengr fram sidan ok þurkar hann sem vandligaz ok uefr jnnan j æinum linduki ok berr hea lauka ok ǫnnur grǫs suo [484] at þar firir mætti hann æigi rottna ok leggr nidr j kistu sina. lidr nu suo a haustit at kelling tekr hann upp huert kuelld med æinhuerium formala honum til dyrkanar ok þar kemr at hon uendir þangat til ollum sinum atrunade ok helldr hann firir gud sinn læidande j somu uillu med ser bonda sinn ok bornn ok allt sitt hyski. ok med fiandans krafti uex hann suo ok styrknar at hann ma standa hea husfreyiu ef hon uill ok at suo gervu tekr kelling þann sid at hon berr hann j stofu huert kuelld ok kuedr yfir honum visu fyst manna færr sidan bonda ok suo huerr fra ǫdrum þar til sem kemr at lokum til ambattar ok skylldi huerr madr kueda yfir honum visu. fannzst þat a huers þeirra ummælum huersu hueriu þeirra var vm gefit.

## Olafr konungr hitti andnesmenn.

266. þat hafde verit æinhueriu sinne adr en Olafr konungr uard landflotta firir Knuti konungi at hann hellt skipum sinum nordr med landi. hann hafde frett af þessu andnesi ok þeirri otru er þar for fram ok med þui at hann villde þar sem annars stadar folkinu snua til rettrar truar segir hann firir læidsogumanninum at hann skal af

vikea læidinne ok til þeirrar hafnnar er liggr undir fyrr græindu andnese þuiat byrr uar hægr. koma þeir sid dags j þessa hǫfnn lætr konungr tialda yfir skipum en segir at þeir skulu a skipum liggia vm nottina en hann uill ganga heim til bæiar ok bidr fara med ser Finn Arnnason ok þormod Kolbrunarskalld. þeir taka ser allir grakufla ok steypa utan yfuir klædi sin ok ganga suo heim til bæiar um kuelldit j hume vikia af til stofu ok setiazst a beck annan ok skipa suo sessum at Finnr sitr innzstr þa þormodr en konungr yzstr. bida þar til þess er myrkt er ordit suo at eingi madr kemr j stofu. ok eftir kemr innar kona med liosi ok var þat bonda dottir hon heilsar monnum ok spyrr þa at nafnni en þeir nefnduzst aller Grimar. hon gerir þa upp lios j stofunne. hon ser iafnan til gestanna ok lengst horfir hon a þann er yzstr sitr ok suo sem hon byzst fram at ganga uerdr henni liod a munne ok mællti suo.

Ek se gull a gestum
ok guduefiar skickiur
mer fellr hugr til hringa
helldr uil ek þing en liuga
kenni ek þig konungr minn
kominn ertu Olafr.

þa suarar hann tilkomumadr sa er yzstr sat. latt þu kyrt yfir þui þu ert kona hyggin. Ecki skiptuzst þau flæirum ordum vid. gek bonda dottir fram ok litlu sæinna kemr inn bonde ok son hans ok þræll. setzt bonde j hægsæte sonr hans upp hea honum en þræll yfir lengra fra honum. eru þeir katir vid gestina af kyrt þeirri. sidan er snuit hybylum a læid ok tekit bord ok settr matr fram. bonda dottir settizst upp hea brodur sinum en ambatt hea þræli. Grimar sitea aller samt sem fyrr var sagt. sidazst kemr innar kerling ok berr Uolsa j fangi ser ok gengr at hægsætinu firir bonda. ecki er þess getit at hon queddi gestina. hon rekr af dukana af Uǫlsa ok setr a kne bonda ok quat visu.

Aukinn ertu Uolse
ok vpp vm tekinn
lini gæddr
en laukum studdr
þiggi Maurnir þetta blæti
en þu bonde sealfr
ber þu at þer Uolsa.

Bondi let ser fatt vm finnazst tok þo vid ok quat visu.

Munde æigi
ef ek um reda
blæti þetta
borit j aftan.
þiggi Maurnir
þetta blæti
en þu son bonda
se þu vid Volsa.

Bondason greip vid honum ok yppir Volsa ok vindr at systur sinne ok quat visu.

Beri þer beytil
firir brudkonur
þær skulu uingul
uæta j aptan.
þ. M. þetta blæti
en þu dottir bonda
drag þu at þer Volsa.

Hon gerir ser helldr fatt vm en vard þo at at fylgia hybylahattum tok helldr tæpt a honum ok quat þo visu.

þess suer ek vid Gefion
ok vid gudin ønnur
at ek naudig tek
vit nosa raudum.
þ. M. þ. bl.
en þræll hiona
þrif þu vid Volsa.

þrællinn tekr vit ok quat.

Hlæifr væri mer
halfu sæmri
þykkr ok okkvinn
ok þo uidr
en Uølsi þessi
a uerkdogum.
þ. M. þ. blæti
en þu þy hiona
þrystu at þer Vølsa.

Ambattin tekr vid honum miog blidliga uefr hann at ser ok klappar honum ok quat visu.

Vist æigi mætta ek
uid um bindazst
j mig at keyra
ef vid æin lægum
j andketu.
þ. M. þ. blæti
en þu Grimr gestr uorr
grip þu vid Volsa.

Finnr tok þa vid ok hellt a. hann quat þa visu.

Legit hefuig uida
firir andnesium
snæfgum hondum

segl upp dregit.
þ. M. þ. blæti
enn þu Grimr gride minn
grip þu vid Uolsa.

Hann fek þa þormode. tok hann vid ok hugde at allgl(ð)ggliga huersu Uolsi er skapadr brosti hann þa ok quat visu.

Sa ek æi fordum
þo hefuig farit vida
flent redr fyrri
fara med beckium.
þ. M. þ. blæti
en þu Adalgrimr
tak enn vid Volsa.

Konungr tok vid ok quad visu.

Verit hefuig styrir
ok stafnnbui
ok odduiti
allra þioda.
þiggi M. þ. blæti
en þu hundr hiona
hirtu baknn þetta.

Hann kastade þa fram a golfit en hundrinn greip þegar upp. en er kerling sa þat þa var hon oll a flugi. bra henni miog vid ok quat visu.

Huat er þat manna
mer okunnra
er hundum gefr
hæilagt bleti
hefui mig um hiarra
ok a hurdasa
vita ef ek [485] borgit fæ
blætinu helga.
legg þu nidr Lerir
ok lat mig æigi sia
ok suelg æigi nidr
sartikin rôg.

Konungr kastar þa af ser dularklædunum. þeckizst hann þa. telr hann þa tru firir þeim ok uar kelling treg til truarinnar en bondi nockuru fliotare en med krafti guds ok kostgæfui Olafs verdr þat at lyktum at þau taka oll tru ok eru skird af hirdpresti konungs ok helldu uel tru sidan er þau urdu askynia a huernn þau skylldu trua ok þektu skapara sinn. sa nu huersu illa ok omannliga þau hofdu lifat ok oligt ollum odrum godum monnum. ma þat j sliku synazst at Olafr konungr lagde allan hug a at eyda ok af ma alla osidu ok hæidni ok fordęduskap æinn ueg a hinum yzstum utskogum Noregs uelldis sem j midium herutum meginlandzsins. hafde hann a þui mesta hugsan ad draga

sem flesta til rettrar truar. er þat nu ok audsynt ordit at hann hefuir suo gert þessa hluti ok alla adra at gude hefir likat.

### Konungr þaa feizlu(!) hia bonda einum.

267. Nv er þar til taka sem fyrr var fra horfuit at konungr ræid fra þorgæiri af Sulu. þa sea þeir rida .iij. menn j moti ser þat var æinn bonde ór Ueradal. hann quaddi konung ok mællti. þat er eyrendi mitt herra at segia ydr at menn hafa tekit vid fe Knutz konungs til þess at suikia land undan ydr en ek hefui æigi vit tekit þuiat ek var ecki at kuaddr en ek fór til þess a yduarnn fund at ek vil bioda ydr til .ij. natta uæitzslu med ollu lide ydru. Konungr suarar. hyggr þu at huat þu mælir edr uæitzstu fiolmenni mitt. Bondi mællti. æigi hefui ek þat talit en get ek til at æigi se fleira en .xiij. hundrut en æigi færra en .xj. Konungr mællti. vel segir þu at ek hefir .xij. hundrut manna ok munu ver þiggia uæitzslu. Heim ferr bondi at bua ueitzslu ok bidr þa æigi troda akra sina. þat munda ek vilea sagdi konungr en æigi er hægt at st(i)ornna .xij. hundrudum manna. þeir fara nu unnz þeir koma at ǫkrum bonda ok rida millum fram akranna. þormodr kolbrunarskalld kemr at fram med suæit sina ok mællti. sealfrade hefui ek verit sidan ek var .vij. uetrum ellri ok hefui ek sealfr radit forum minum sidan ok suo skal en vera. Hleypir um akrinn midiann ok suo huerr at odrum unnz akrinn uar allr nidr brotinn. þeir koma a uæitzsluna. Konungr quat þa omakliga uæitzslu at þiggia suo ospakliga sem þeir hofdu farit. bondi suarar. sea þottumzst ek þat at þer mundit æigi geta ollum skadlaust styrt .xij. hundrudum manna enda mun vera annathuort at fagnnadr mun suo mikill verda j lande þessu ath um þetta mun æinkis verth þikia ella mun sannazst hit fornnkuedna at suo skal bol bæta at bida annat mæira. Konungr ok lærdir menn voru j husum jnne en tiolld voru vti yfir almenninge. hæimamenn unnu natt med degi. þormodr kolbrunarskalld hyggr at radi sinu min(n)izst heitz þess er hann het a Grænlandi at fasta .ix. drottins daga en eta kiot fostudaga .ix. adr hann dræpi þorgrim trolla. þormodr uaknar ok uill efnna heitit kemr at sodgreifa ok tekr æitt mǫrbiuga ok brytr j sundr etr halft. Sodgreifinn mællti. ertu konungs madr. þormodr mællti. satt er þat. Sodgreifi taladi. litt er uandat lid med konungi ok mun honum æigi uel lika ef hann uæit huat þu gerir. þormodr suarar. oft gerum ver annat en konungr uill uæit hann stundum en stundum æigi. Sodgræifi mællti. æigi muntu Krist leyna. Ecki ætla ek þat segir þormodr en annathuort mun ockr

Krist mæira a skilia en halft morbiuga ella munu vit verda uel asattir. Konungr byzst snemma vm morguninn ok vill bida lids sins a aifanga ok þackade uel bonda bæina sinn.

### Gaukaþorir ok hans menn toku skirn.

268. þa flytia þeir her sinn ut til Stafs. en er hann kom a Stafamyrar þa atti konungr duol. hann spurde þa til sannz at bændr foru med her j moti honum ok þat med at hann munde þa æiga orrostu bratt. þa kannade hann lid sitt ok var skodat manntal þa funduzst þar .ix. hundrat heidinna manna. en er konungr visse þat þa bat hann þa skirazst lata sagde at hann vill æigi hæidna menn hafa med ser munu ver segir hann ecki mega treystaz lidsfiolda gude skulu ver treystazst þuiat med krafti ok miskunn munu ver sigr fa en æigi blanda hæidnu folki vid vora menn. Er þetta heyrdu heidnir menn þa baru þeir saman rad sin ok at lyktum letu skirazst .cccc. manna en .v. hundrat næittu kristni ok sneri þat folk aftr til sins landz. þa ganga þar fram þeir brædr Gaukaþorir ok Hafrafasti ok bioda konungi sitt lid. hann spurde ef þeir hefde tekit skirnn ok tru retta. Gaukaþorir segir at þat uar æigi. Konungr bat þa taka vid tru edr fara a burt at odrum kosti. þeir sneruzst þa j brott ok toku tal sin a mille ok toludu sin a mille huert [486] rad þeir skylldu upp taka. þa mællti Hafrafasti. þat er at segia fra minu skapi at ek vil æigi aftr huerfa ok mun ek fara til orrostu ok væita lid ødrum huørum en æigi þike mer skipta j huorum flocki ek er. þa suarar Gaukaþorir. ef ek skal til orrostu fara þa vil ek konungi lid uæita þuiat honum er lids þorf mæire. en ef ek skal a gud trua huat er mer verra at trua a Huitakrist en a annan Krist nu er þat mitt rad at ver latim skirazst ef konungi þikir þat mycklu male skipta. førum þa sidan til orrostu med honum. Hafrafasti suarar. þu rett j fystu før okkare nu skalltu enn rada en ecki kenni ek mer af þessu ok væit ek at konungr mun rada sigrinum edr huort hann ferr lifs af Stiklastødum edr æigi. Hui uæitzstv þat quat Gaukaþorir. þui quat Hafrafasti at konungr er biartr at ek ma æigi sea j moti honum ok ætla ek at þat se sigrblomi hans ok æigi mun ek betr kunna firir mer en konungr firir ser ok ef ver førum til soknar ok tokum skirnn þa kaupi konungr firir vora hond vid Krist sinn. Nu jatta þeir aller at taka vid tru ganga sidan til konungs ok segia at þeir uilea skirazst lata. voru þeir þa skirdir af hirdpresti konungs ok byskupadir. Konungr tok þa j hirdsidu med ser ok segir at þeir skulu vera undir merki hans j orrostu. uar þat kallat dreglalid j framgaungu.

## Skipan Olafs konungs vm lidith.

269. Olafr konungr hafde þa til sannz spurt at skamt mundi vera til þess er hann munde æiga orrostur vid bændr. en sidan er konungr hafde skodat lid sitt ok hafde hann þa mæirr en .xxx. hundrada manna ok þotti þat þa vera mæiri herr en menn hefdi þar fyrr set j jafnnfatæku lande. Sidan talade konungr firir lide sinu ok mællti suo. ver hofum mikit herfolk ok fritt lid. nu vil ek segia monnum hueria skipan ek vil hafua a lide voru. ek mun lata merki mitt fara fram j midu lide ok skulu þar fylgia hirdmenn ok gestir ok þar med þat lid er til uor kom a Upplondum ok suo þat lid er her kom til uór j þrandheimi en til hægri handar fra uoru merki skal vera Dagr Hringsson ok med honum þat lid allt er hann hafde til foruneytis vid oss ok skal hann hafa annat merki en til uinstri handar fra voru merki skal vera þat lid er Suiakonungr fek oss ok allt þat lid er til uór kom j Suiavellde ok skulu þeir hafa hit þridea merki. vil ek nu at menn skiptizst j suæitir ok hæimtizst saman frændr ok kunningiar þuiat þa mun huerr annars bezst gæta ok huerr annan kenna. ver skulum marka lid uort ok gera herkumbl a hialmum vorum ok skiolldum draga þar a med blæikiu. en er ver komum j orrostu þa skulum ver aller hafua eitt ordtæki fram fram Kristz menn krossmenn konungsmenn. ver munum hliota þunnar fylkingar er ver hofum litit lid þuiat ek vil æigi at þeir kringi um oss lide sinu. skipumzst ver nu j suæitir en sidan skal suæitum skipa j fylkingar en menn skulu vera med aluæpnni dag ok nott þar til er uær vitum huort fundr vorr mun verda ok bonda. Sidan er konungr hafde talat þa fylktu þeir lide sinu ok skipudu eftir þui sem konungr hafde fyrir sagt. en eftir þat atti konungr stefnur vit suæitarhofdingia. voru þa þar komnir þeir menn er konungr hafde sent j herat at krefia lids. þeir kunnu þau tidendi at segia ór bygdinne þar sem þeir komu at þar uar alæyda af uigum monnum ok uar þat folk allt farit j bonda safnnat. en þar er þeir hittu menn þa villdu fair þeim fylgia en flestir suorudu þij at firir þa sok satu hæima at þeir villdu huorigum fylgia ok uilldu æigi beriazst j mot Olafi konungi ok æigi j moti frændum sinum ok hofdu þeir fatt lid fæingit þa spurdu konungr menn rads edr huat þeim þætti tiltækiligazst. Finnr suarar malı konungs. segia mun ek huernn ueg gert mundi vera ef ek skal rada. þa mundi ver fara herskillde um allar bygdir ok ræna fe ollu en brenna suo uandliga bygd alla at alldri stædi kot eftir. giallda suo bondum drottins suik. hygg ek at margir munu lausir j flockinum ef þeir sea reyk ok loga hæim til husa sinna

en vitu ogerlla huat tijtt er um bǫrnn konur ok gamalmenni fenat edr annat frændlit. vænti ek segir hann ef nockurir rada til at riufa safnnadinn at þa munu bratt raufaz fylkingar þuiat suo er bondum gefit at þat rad er þa er nyiazst þa er þat ǫllum kærazst. En er Finnr lauk male sinu þa gerdu menn þar at godann rom likade morgum þat vel at rada til fefanga en ollum þotti bęndr makligir til skada en likligt þat er Finnr sagde at bændr mundi margir lausir j safnnade honum(!). þormodr Kolbrunarskalld samþykti mest þessu radi ok quat visu.

Brennum oll firir innann
innen þau er ver finnum
land skulum huer med hiorui
herbiorgum grams veria.
yss hafui allra husa
Jnnþrændr kol sinna
angr mun kuæigt j klungri
kalld ef ek ma uallda.

En er Olafr konungr heyrde akafa lydsins þa krafde hann ser hliods ok mællti. hafa bændr verdleika [487] til þess at suo veri gert sem þer bæidit ok ecki mundir þu þar litilvirkr ath þui þormodr en annat mun ek rads taka en brenna land vort. þat hafui þer þo gert herra at brenna land firir bondum. Satt er þat þormodr at ek hefui þat gert at brenna bæi firir þeim ok uæitt þeim storar adrar refsingar. gerda ek þa þat at þeir gengu af tru sinne adr en toku upp blot ok villdu ecki lata at vorum ordum ok attu ver þa guds rettar at reka ok erv þessi drottins suik myklu minna verd þo at þeir halldi æigi tru sina vid oss ok munu þo þessi æigi þikia litils verd þeim er mandomsmenn vilea vera. nu á ek her nockura heimilld a at væita nockura fridun er þeir misgera vid mik en þa (eigi) er þeir hǫtuduzst vid gud. nu uil ek at menn fari spacliga ok geri æigi heruirke vil ek fara fyrst til fundar vit bændr sættumzst ver þa er þat vel en ef þeir hallda bardaga vid oss þa erv þar .ij kostir firir bondum. en ef ver follum j orrostu þa er þui vel radit at fara þangat æigi med ransfe. en ef ver sigrumzst þa skulu ver vera arftokumenn þeirra er beriazst j moti oss þuiat þar munu sumir falla en sumir flyia ok hafua huorirtueggiu firir gert allri æigu sinne. er þa gotth at ganga til storra bua ok bæia vegligra en þess nytr æinge madr er brent er. er ok suo ransfe at þat ferr at spellum meire hlutr en þat er nytt er af. skulu ver nu fara dræift vt eftir dolunum ok hafa med oss alla viga menn þa er uer fám skulu ver ok hoggua bu edr taka adra hluti þa er menn þurfu til matar ser en menn geri ekki heruirke annat vel þiki mer at þer drepit niosnarmenn bonda ef þer takit þa. þa skal Dagr fara ok hans menn hit nedra fram eftir dǫlunum en uer munum fara vt þiodlæid ok hittazst at kuelldi ok hafa aller æinn nattstad.

Vin vard af vatni.

270. Konungr ræid huitum hesti vm daginn en þa er minnzst var von drap hestrinn fæti ok stok j sundr fotrinn j honum. huerr madr baud konungi sinn faraskiota en Olafr konungr quatzst annathuort ganga skylldu edr rida hinum sama hesti þuiat hann quat bysna skylldu til battnadar. Konungr batt þa fot a hestinum hofdu þeir þa duðl nockura á aifanga ok uar hestum hagi fæinginn. ok er þeir kuomu aftr til hesta er þeirra gættu sa þeir þa at hestrinn var hæill uordinn sa er konungr hafde ridit. Konungi hafde varmt ordit um daginn bat hann þa færa ser uatnn j keri. hann bat byskup blezsa. hann gerdi suo. Konungr tok med ok læit a ok mællti æigi uil ek mungat drecka. ok bat sueininn taka uatnn j annat sinn. hann gerde suo. en er hann kom aftr þa blezade byskup fek sueinninn þa konungi kerit en er konungr sa þa mællti hann. sidr uil ek miod drecka en mungat a fostutidum. Kuaddi konungr þa til hirdprest sinn at taka uatnn. hann ferr ok tekr uatnnit. Sigurdr byskup blezsar þa enn ok færr konungi. Konungr mællti er hann hafde vid tekit. sidr uil ek vin drecka en miod edr mungat. Byskup mællti. þigg þu feginn dryk þenna. sa gefr þer er hæimillt a. Konungr dreckr þa af kerinu ok lofadu aller nærr uerandis menn gud sem verdukt var.

Tilskipan konungs vm folkit.

271. Sva er sagt at Olafr konungr fylkti lide sinu þa skipade hann skialldborg þa er hallda skyllde firir honum j bardaga ok hina sterkuzstu menn valdi hann þar til ok þa er snarpazstir voru. þa kallade hann skalld sin til sin ok bat þa ganga j skialldborgina. skulu þer segir konungr her vera ok sia þau tidende er her georazst ok er ydr þa æigi segiannsaga til er þer skulut fra segia ok yrkia um sidan. þar uar þa þormodr kolbrunarskalld. Gizsorr gullbrárfostri. Hofgarda Refr ok hinn fiorde þorfinnr munnr. þa mællti þorfinnr til Gizorar gullbrarfostra. stǫndum æigi suo þrǫngt lagsmadr at æigi nai Sighuatr skalld rumi sinu þa er hann kemr hann mun vera vilia firir konungi ok æigi mun konungi annat lika. Konungr heyrde þetta ok suarar. ecki þarf Sighuati at snæida þo at hann se æigi her oft hefir hann oss vel fylgt. hann mun nu ok bidea firir oss ok munu ver þess miog þurfa. þormodr suarar vera ma þat konungr at ydr se bæna mest þorf en þunt mundi vera um merkisstǫngina af aller hirdmenn ydrir væri a sudruegh uar þat ok satt at ver toldum at þui þa er æinge fek rum firir Sighuati þo at mæla ætti vid ydr. þa mælltu þeir sin a mille

sðgdu at þat væri vel fallit at yrkia þa aminningarvisur nockurar vm þau tidende er þa mundo bratt at hendi berazst. þa quat Gizsðrr.

Skulu ogladan ifa
ord fregnni þau borda
buumzst vid þraung a þinge
þegns dottir megi fregnna.
þoat sigrrunnar suinner
segi uon Hedins kuonar
uerum j ala eli
austr bragnninge traustir.

þa quat þorfinnr munnur.

Rockr at regnni myklu
randa gardz hins harda
uill vid vise sniallan
[488] Uerdgla lid beriazst.
uerium aluailld ðruan
ðlum tæitan ma suæita
fellum þrændr j þundar
þess eggia ek nu hreggi.

þa quat þormodr kolbrunarskalld.

Ala þrðng at eli
ðr stiklanda myklu
skilldu æi skelknir haulldar
skalmolld uex nu falma.
buumzst vid sokn en slæknir
seggir skulu ord um fordazst
er at geirþinge gaungum
gunnreifir med Olæifi.

Visur þessar namu menn þa þegar ok hafua verit sidan at minnum hafdar.

## Fra Olafi konungi.

272. þat hafdi verit æitt sinn er Olafr konungr var j Gardariki at Jngigerdr drotning for or lande læidar sinnar. sa Olafr konungr a for hennar ok quat visu.

Fagr stod er bar brude
blackr syndizst mer spracki
oss let yndiss missa
augfðgr kona a hauge.
keyrde gerdr ór Gaurdum
godlat uala slodar
æik en æin glðp sækir
jall huernn konur allar.

Ok enn quat hann.

Ar stod ok enn dyra
jalla doms med blomi
hardla græn sem Haurdar
huatt missari vissu.
nu hefir beckiar tre bliknnat
bratt Mardallar grati
lind hefir laufui bundit
limuord j Gaurdum.

Ma þat a þessum augsynazst at honum hefir vit Jngigerde verit betr en flestar konur adrar. er þat nu liost uordit at henni hefir þat verit hin mesta hofutgæfa ok huerium ðdrum er uit hann hafua j vinattu verit.

### Konungr let skriptaz fyrir.

272. Sidan bio Olafr konungr ferd sina ok sotti vt eftir Dolum hann tok ser nattbol ok kom þar saman allt lid hans ok lagu undir berum himne ok vndir skiolldum sinum. en þegar at lysti bio konungr her sinn fluttuzst þa enn ut eftir dǿlunum er þeir voru bunir. þa komu til konungs bændr miog margir ok gengu flestir j lid med honum ok kunnu aller æitt at segia at lendir menn hefde saman dregit her vuigann ok ætla at hallda bardaga vid Olaf konung let hann þa huernn mann til skrifta ganga uit byskup ok lærda menn ok syngia Pater noster. sidan let hann syngia messo ok taka corpus domini en þa er menn geingu til skripta foru þeir Gaukaþorir ok Hafrafasti med flok sinn at sitia æinhuers stadar. Konungr spurde hui þeir gerde æigi sem adrir menn. Ecki hofum ver til at huisla vid byskup sagde Gaukaþorir. Ecki mun þat suo vera quat konungr en þat megi vera at þer berit þar ecki mikinn vana til. Let konungr þa verda sagt þeim til skriftargangs ok breyttu þeir ser sidan sem adrir menn. þa tok konungr nockurar merkr silfrs ok fek j hendr æinum bonda. fe þetta skalltu varduæita ok skipta sidan leggia sumt til kirkna en sumt til kennimanna ok ǿlmosumanna ok gefa firir sal þeirra manna er falla j orrostu. Bondi spurde. skal fe þetta gefa firir saal yduarra manna. þa suarar konungr. þetta fe skalltu gefa firir sal þeirra manna er med bondum eru j orrostu ok falla firir uopnum vorra manna en þeir menn er oss fylgia j orrostu ok þar falla þa munu ver biargazst at aller saman.

### Vidrtal konungs ok þormodar.

273. þa natt er Olafr konungr la j safnadenum ok adr er fra sagth uakti hann longum ok bat til guds firir ser ok ǿdru lide sinu ok sofnnade litt ok rann hofge a hann j mot deginum. en er hann uaknnade þa rann dagr upp. Konungi þotti helldr snemt at uekia herinn. þa spurde hann huort þormodr skalld uekti. hann uar þar nærr ok spurde huat hann uillde honum. Konungr sagde. tel þu oss kuæde nockut. þormodr settizst upp ok quat suo hatt at miog suo heyrde um allann herinn en hann quat Biarkamal hinu fornnu. en adr en hann tok til spurde þormodr hui Sighuatr skalld skyllde æigi skemta ok launa gullinhialltan er þu konungr gaft honum j jolagiof j fyrra uetr. Konungr mællti. uæitzstu æigi at Sighuatr er nu æigi her. æinge mun oss nu þarfari en hann er hann bidr firir oss a sudruegum. þormodr suarar. þa mun þat nu gera huorr okkar sem tilfærr er ek mun

drygia kallmenzsku ok skemtan j dag en hann spilar fingrum sinum at Romi. þetta er upphaf at kuædinu.

Dagr er up kominn
dynia hana fiadrar
mal er uikingum at uaka
ok vinna erfuide.
uaki ok uaki
uina höfut
aller hinir æzstu
Adils ok Suia.

Harr hinn hardgræipe
Hrolfr skiotande
ættgodir menn
er ecki flyia.
uek ek ydr at vine
ne at uifls runnum
helldr uek ek ydr at hördum
Hilldar læike.

þa uaknnade lydrinn ok er lokit uar kuedinu þa þockudu menn honum ok fannzst monnum mikit vm ok þotti uel til fundit ok kolludu huskalla huðt. Konungr þackade honum skemtan sina. sidan tok hann gullhring ok gaf honum. þormodr þackade honum giofina ok mællti. godan æigu uær konunginn en uant er at sia huersu langlifr verdr en su er bæn min konungr at þer latit ockr huorki skilia lifs ne dauda þuiat ek uillda fara til æinnar gistingar ok þer j kuelld. þat skal ok vera quat konungr ef vit förum badir lifs af Stiklastodum. Ecki þiki mer þa iafnnmikit a liggea quat þormodr en hitt er satt at ek uil ecki lifa eftir þig þuiat ek hefir rannsakat rad mitt ok synizst mer suo at sidan er ek uar .vij. uetrum ellri hafui sa æinn hlutr verit mer til healpar framlæidis er ek (hefi) fylgt þer ok þinu foruneyti ok þickiumzst ek þat ecki med odygd gert hafua. Væit ek at þu munt ecki hirda at lifa eftir mik quat konungr en æigi uæit ek huort vit erum iafnnbunir til at fara til æinnar gistingar. edr huersu gamall madr ertu edr huersu marga menn hefir þu drepit j æinuige. þormodr suarar. ek er nu nockuru meirr en halffertögr en mer þiker uon at ek muna .xiiij. monnum hafa at bana ordit. Ecki þiki mer þu miog gamall quat konungr en þo mun ek þui heita þer at þu komir til nockurrar huilldar eftir seond þina ok munt þu æigi mega minna vid koma en dægr komi firir huernn mann er þu hefir uegit. Hins bæidda ek þig herra at skilia alldri vid ydr. Konungr suarar. aller munu ver ok saman fara ef ek ma rada medan þer uilit æigi uit mig skiliazst. þa mællti þormodr. þess uænti ek herra huort sem fridr er uerri edr betri at ek se nærr ydr staddr medan ek a þess kost huorir sem sigr kunna at hafa. Sidan quat þormodr visu.

þer mun ek enn unnz ödrum
alualldr náir skalldum
nær vættir þu þeirra
þingdiarfr vm kne huarfla.

braut komumzst ver þo væitim
valtafnn frekum hrafnni
vist eigum þat uoga
uiggrudr edr þar liggium.

## Konungr let drepa Hrut ok hans menn. capitulum.

274. Olafr konungr fluttizst nu vt eftir dðlunum fór þa enn Dagr med sinu lide adra læid. Konungr letti æigi fyrr sinne læid en hann kom a Stiklastade. þa sa þeir her bonda ok for þat lid dræift miog ok var suo mikit at af huerium stig dræif lid en vida þat er storflockar foru saman. þeir sa huar for suæit manna ofan or Ueradal ok hofdu þeir þar verit a niosn. ok foru nærr þui er lid konungs var ok fundu æigi fyrr en skamt uar a mille þeirra suo at menn mattu kennazst. þar uar Hrutr af Uiggiu med .xxx. manna. Hrutr atti konu ok son er Lodinn het hans son var Sigurdr ullstræingr er stad setti j Nidarholmi. Sidan mællti konungr. þat man ek at Hrutr taldizst uorr uinr uil ek at Gizsðrr ok Egill Hallzson fari med gesta suæit j mot Hruti ok taki hann af lifui. Voru menn til þess fliotir. þa mællti konungr enn til Jslendinga. suo er oss sagt at þat se sidr yduar at bændr se skylldir a haustum at gefa huskollum sinum slagasaud. nu uil ek þar gefa ydr hrut til slatrs. þeir suorudu. uel helldr þu konungr a glediordum til minnis astuinum þinum. Hinir islenzsku voru þessa verks audeggiadir foru þegar at Hruti med ðdrum monnum uar Hrutr drepinn ok ðll suæit hans toku þeir þar uopnn ok fe ok skiptu med ser. Konungr nam stad ok stoduade herinn er hann kom a Stiklastade ok buazst þar uit. menn gerdu sem konungr bæiddi. sidan uar skotit a fylkingu ok sett upp merki. Dagr uar þa enn æigi kominn med sitt lid ok misti þess fylkingararms. þa mællti konungr at þeir Upplendingar skylldu þar taka vid merke. þiki mer þat rad segir konungr at Haralldr brodir minn se æigi j orrostu þuiat hann er barnn ath alldri. Haralldr suarar. ek skal at visu vera j orrostu en ef ek er æigi suo sterkr ath ek mega æigi uallda suerdi minu þa kann ek þar rad til at binda skal hðnd mina uit medalkafla. æinge skal vera uilea betri þer en ek at vera oþarfr bondum ok uil ek fylgia suæitungum minum. Suo segia menn at Haraldr kuæde þa visu þessa.

þora mun ek þann arm ueria
þat er eckiu munr nockurr
riodum ver af ræide
rðnd er ek j hlyt standa.

gengr at greppr hinn iunge
gunnblidr þar er slôg rida
her þa menn at morde
mot a hæl firir spiotum.

Haralldr red ok var hann j orrost(u).

## Konungr talar med þorgils bonda.

275. þorgisl alma het bonde sa er bio a Stiklastodum hann uar sonr Grims hins goda. þorgisl baud konungi lidsemd sina at vera j bardaga med honum en sagdizst þo tekit hafa vit feam Knutz konungs. Olafr konungr mællti. þat litz mer þa rad at hea siti beggia vinir. mattu þo hafa þok firir bod þitt en su lidueitzsla þikir oss hentari at þu biargir monnum uorum eftir bardaga þeim er sarir erv en uæit hinum vmbunat er falla j orrostu. suo ok ef þeir atburdir verda at ek falla j bardaga þessum væit vmbunat like minu eftir þui sem naudsyn berr til ef þat er þer æigi bannat. þorgisl het þessu konungi sem hann beiddi.

## Konungr taladi fyrir lydnum.

276. Nv er Olafr konungr hafde fylgt lide sinu þa talade hann firir þeim ok mællti suo. menn skylldu herda hugina ok ganga diarfliga fram ef orrosta yrde sagde hann hofum ver lid gott ok mikit en þott bændr hafui nockuru mæira lid þa mun audna sigri rada er þui firir ydr at lysa at ek mun æigi flyia or þessi orrostu skal ek annat huorth sigrazst a bondum edr falla her ella. uil ek þess bidea at sa hlutr komi [490] upp er gud serr at oss gegni bezst. skulu ver þui treysta at ver hôfum rettara at mæla en bændr ok þo þat med at gud mun frealsa oss eftir orrostu þessa ella uæita oss myklu mæire laun firir þat allt lát er ver hofum her en ver kunnum oss at æskia. en ef ek hlyt vm at mæla eftir orrostu þessa þa skal ek gæda ydr huernn eftir sinum verdlæikum ok þui huernn ueg huerr gæingr fram j orrostu. mun þa ef ver hôfum sigr nogt bæde land ok lausir aurar at skipta med ydr er fara adr med ouinir uorir. uæitumzst uel ok rennum a sem hardazst j fystu skiott mun um skiptazst er lidsmunr er mikill æigum uón af skiotum atburdum en hitt mun oss þungt falla at ver beriumzst til mæde ok uerde menn af þui ouigir. munu uer æiga minna dæilldarlid en þeir er ymser ganga fram en sumir huilazst ok hlifa ser. en ef ver gerum suo harda hrid at þeir snua undan er fystir eru þa mun falla huerr um annan þuerann ok verda þeirra ofarar

þess at mæire sem þeir erv flæire saman. En er konungr hætti tölu sinne þa gerdu menn mikinn rom at mali konungs ok eggiade huerr annan j akafa.

## Draumr hins heilaga Olafs konungs.

277. þordr Faluson bar merki Olafs konungs. suo sagde Sighuatr skalld j erfuidrapu þeirri er hann orti um Olaf konung ok stællti eftir Uppræistardrapu.

þordr fra ek þar suo hardan
þreifzst ognn med Oleifi
god foru þar gæirum
giort uig saman hiörtu.
stöng bar hatt firir hringa
hialldrs modum gram brodur
fulld uann fagrliga gyllda
framlundadr Ögmundar.

Olafr konungr uar suo buinn at hann hafde gylltan healm a hofde ok huitan skiolld ok lagdr a kross af gulle. j annarre hende hafde hann kesiu þa er nu stendr j Kristzkirkiu j Nidáróse vid alltare. hann var gyrdr suerde er Hnæitir het ok uar hit bitrazsta suerd ok gulli buinn medalkafli hann uar j hringa bryniu. þess getr Sighuatr skalld.

Aulld uann Olafr fellda
öflgan sigr hinn digri
gek soknnþorinn sækia
syniur fram j bryniu.
enn er austan nefnna
hofzst hilldr med gram milldum
mart segig bert j biarta
blodrost Suiar ódu.

En er Olafr konungr hafde fylgt lide sinu þa voru bændr huergi nær komnir. þa mællti Olafr konungr at lidit skyllde nidr setiazst ok huila sig. settizst konungr þa nidr ok allt lid hans. þa hallade konungr ser ok lagde hofudit j kne Finne Arnnasyne þa rann a hann suefnn ok uar þat um hrid. þa sa þeir her bonda ok sottu þeir til motz vid þa ok höfdu upp sett merki sin ok uar þat hinn mesti mugr manna. þa uakti Finnr konung ok sagde at bændr sottu þa at þeim miog. en er hann uaknnade þa mællti hann. hui uaktir þu mig Finnr ok letzst mig æigi niota draums mins. Finnr suarar. ecki munde þig þess dreyma at æigi munde skylldara at uaka ok buazst vid hernum er at oss ferr edr siai þer æigi huar nu er komit bondalidit. Konungr mællti. ecki eru þeir suo nærr oss at æigi uæri betr at ek hefdu sofit. þa mællti Finnr. huat dreymde ydr herra er ydr þikir suo mikil missa j er þer uoknnudut æigi sealfir. þa sagde konungr draum sinn er hann þottizst sea stiga fra himnum ok þottizst hann þar ganga j loft upp ok suo langt at hann sa himininn opnazst ok þangat la stiginn til. uar ek þa segir hann kominn j hit efzsta stigit er þu uaktir mig. Finnr mællti. ecki þiki mer draumr yduar suo godr sem ydr mun þikia. ætla ek þetta

vera firir feigd yduarre ef þetta er nockut annat en suefnnorar æinir er firir ydr hefir borit. þar er þeir voru staddir voru ber a æinne þufu. konungr tekr berin ok rennir j lofa ser. þa sa konungr huar upp voru sett merki bonda. hann mællti þa. vesôl ber quat hann. Rognnualldr Brusason suarar. mismællt uard þer nu konungr. lid mundir þu nefnna vilea. Rett segir þu jall quat konungr æigi muntu minna mismæli mæla þa er þu att skamt olifat. þat gek eftir sem segir j iallasôgum.

Fra Arnlioti gellina er hann kom til Olafs konungs.

278. Enn uard sa atburdr þa er Olafr konungr kom a Stiklastade at madr æinn kom til hans þar. þui þotti þetta nynæmi at æigi þotti þessi madr odrum likr þeim er þa hofdu til konungs komit. hann uar madr suo harr at æinge tok betr en j oxl honum. hann uar allfridr madr synum ok fagr a hár hann uar uel uopnnadr ok hafde healm a hofde ok j hringabryniu. skiolld raudan ok gyrdr suerdi bunu hafde j hende gullrekit spiot mikit ok suo digurt skaptit at handfyller uar j. sa madr gek firir konung ok kuaddi hann ok spurde ef konungr villde þiggia lid at honum. Konungr spurde huat manna hann væri edr huat hann heti edr huadan hann væri kyniadr. hann suarar. ek a kyn a Jamtalande ok Helsingialande ok hæiti Arnnliotr ok kalladr gelline kann ek ydr þat hellzst fra mer at segia at ek uæitta forbæina monnum ydrum þeim er þer sendut a Jamtaland [491] at hæimta þar skatt ok fek ek þeim j hendr silfrdisk æinn er ek senda ydr til jartæignna at ek uillda vera vin yduar. þa spurde konungr huort Arnnliotr veri skirdr edr æigi. Æigi suo ek uita sagde hann. A huernn truir þu sagdi konungr. A matt minn ok meginn sagde Arnliotr ok hefir mer sa atrunadr unnizst at nogu her til. þa ætla ek at þu skulir nu trua a Jesum Cristum er skapat hefir himin ok iôrd ok menn alla segir konungr ok til hans skulu ok fara allir menn eftir daudan þeir er godir eru ok rettlatir. nu muntu vilea taka skirnn ok fara til bardaga med mer. Æigi uil ek skirnn taka quat Arnnliotr ok munu mer þo bita jarnn æi sidr en æinhuerium annarra manna. Skilia munu vit þa quat konungr. Geingr Arnnliotr þa j burt ok setzst nidr æinn samann. þa mællti hann. þetta er þo kynligt at einn er sa madr j hæimi at ek uillda vid uingazst en hann gerir mig nu lidrekan en ek se þann margan fylgia honum at ek þikiomzst æigi uerr uigr. enda uæit ek æigi huat suo illt fylgir skirnn þessi at æigi mune þat betra at fylgia hinum gôfgazsta manni ok taka skirnn helldr en skilia vid hann. For Arnnliotr þa aptr

til konungs. Konungr spurde þa. uilltu nu a Krist trua. Arnnliotr suarar. heyrt hefui ek getit Huitakristz en ecki er mer kunnikt um athofnn hans edr huar er hann rædr firir. nu mun ek trua þui ollu er þer segit mer uil ek nu fela allt mitt rad ydr a hendi. Sidan uar Arnnliotr skirdr ok kent þat af frædum er konungi þotti skylldazst vera ok skipade konungr honum j ȯnduerda fylking firir merki sinu þar er uar Gaukaþorir ok Hafrafasti ok suæitungar þeirra.

---

## HER ER ÞAATTR VM FALL OLAFS KONUNGS.

Ymr þat ok æpir ferr ok flygr firir huers mannz eyru huersu illa ok omanliga bændr breyttu vid sinn herra ok hȯfdingia j daligum drottins suikum er þeir flærdsamliga fromdu at fella rettan konung fra lande ok þui uikr nu sogunne þangat sem fyrr var fra horfit at lendir menn ok bændr hofdu saman dregit her ouigan þegar þeir spurdu at Olafr konungr uar austan farinn or Gardariki ok hann uar kominn til Suiþiodar ok þeir spurdu at hann kom austan til Jamtalandz ok ætlade at fara austan vm Kiȯl til Vermalandz þa stefnndu þeir hernum jnn j Þrandheim ok sofnnudu þa saman allre alþydu þegnn ok þræl ok fara suo inn til Veradals ok hȯfdu þeir suo mikit lid at æinge madr uar sa þar er set hefde iafnnmikinn her saman kominn. uar þar sem iafnan kann at verda j myklum her at lid var allmisiafnnt. þar var mart lendra manna ok mikill fiolde rikra manna ok bonda en þo var hitt allr mugr er voru þorparar ok verkmenn ok var þat allr meginherrinn er j Þrandheimi hafde saman safnaz ok uar þat lid allmiog geyst til fiandskapar vid Olaf konung.

### Tala Sigurdar byskups hins danska.

280. En er Knutr konungr hafde lagt land undir sig j Noregi sem fyrr uar ritat ok þat med at hann setti þar til landz Hakon jall. hann fek jalli hirdbyskup þann er Sigurdr het hann uar danskr at kyne ok hafde hann lengi verit med Knuti konungi var byskup sa akafr j skape ok sundrgerdamadr j ordum sinum. uæitti hann Knuti konungi orda fullting mikit en hann uar hinn mesti ouin Olafs konungs. sa byskup uar j her þessum ok talde oftliga firir bondalide ok eggiade

miog uppræistar moti Olafi konungi. Sigurdr byskup talade a æinu husþinge þar var þa mikit fiolmenni. hann tok suo til orda. her er nu saman komit lid mikit suo at j þessu hinu fatæka landi mun æigi kostr at sea meira her innlendzskann. skyllde nu uel at halldi koma þessi styrkr fiolmennis þuiat nu er ærin naudsyn til ef Olafr þessi ætlar enn æigi af at letta at heria a ydr. uandizst hann þui þegar aa unga alldri at ræna fe ok drepa menn ok for til þess vida vm lond en at lyktum for hann hingat til landz ok hof suo upp at hann ouingadizst mest vid þa er bezstir voru ok rikazstir sem er herra Knutr konungr er aller eru skylldir til at þiona sem kunna ok settizst hann j skattland hans sligt hit sama væitti hann Suia konungi. en jarlla Suein ok Hakon rak hann af ættlæifdum sinum en sealfs sins frændum uar hann þo grimmazstr er hann rak konunga alla af lande a burt var þat þo uel sums kostar þuiat þeir hofdu adr brugdit tru sinne ok suardðgum uit Knut konung en fylgt þessum ollum oradum er hann tok upp. nu slæit þeirra vinattu makliga hann uæitti þeim uæitzslur[1] en tok under sig riki þeirra ok æignir ok eyddi suo j lande ollum tignum monnum. en sidan munu þer uita huernn ueg hann hefir buit vit lenda menn drepit hina agætazstu en margir ordnir landflotta firir honum. hann hefir ok farit vida vm landit med ransmonnum brent herudin en rænt ok drepit folkit edr huerr er sa her rikra manna er æigi mune æiga storar sakir vid hann. nu ferr hann med vtlendan her ok erv þat flest markamenn ok stigamenn ok adrir ránsmenn. ætli þer hann nu munu linara er hann ferr med [492] þetta illþyde er hann gerde þa sligt heruirke er aller lottu hann þeir er honum fylgdu. kalla ek þat rad at þer minnizst nu orda yduarra vid Knut konung edr huat hann red ydr ef hann læitade enn aftr til landz huernn ueg þer skylldut hallda frelse ydru þui er Knutr konungr het ydr bat ydr standa j moti ok reka af hondum oalldarflocka þessa. er nu sa til at radazst j moti þeim ok drepa nidr illþyde þetta ok lata þar liggia huernn sem kominn er nema þer vilit helldr draga hræ þeirra j hollt ok hreyse. veri æingi suo diarfr at þa flyte til kirknna þuiat þeir eru uikingar ok illrædismenn. En er byskup hætti tolu sinne þa gerdu menn at rom mikinn ok gulldu aller samþycke at gera sem hann bæidde j stride ok motgerdum vid Olaf konung.

[1]) r. mæizslur

Tal bænda ok raadagiordir.

281. Lendir menn þeir er þar voru saman komnir attu stefnur ok radagerdir ok skipudu þa huernn ueg fylkia skyllde edr huerir hofdingiar uera skyllde firir lidenu. þa mællti Kalfr Arnnason. þat er bezst til fallit at Harekr ór þiottu gerizst hofudsmadr firir her þessum þuiat hann er kominn af ætt Haralldz hins harfagra hefuir konungr a honum allþungan hug firir sakir uigs Grannkels mun hann sitia firir hinum mestum afarkostum ef Olafr konungr kemr en til rikis en Harekr er reyndr miog j orrostu ok madr metnnadargiarnn. Harekr suarar at þeir menn voru til þess betr felldir er þa voru a lettazsta skæide ok ungir at alldri en ek er nu madr gamall ok ecki uel færr til orrostu. en frændsemi er med ockr Olafi konungi en þo at hann uile þat litils virda vid mig þa samir mer þo eigi at ganga framar j flok j moti honum en æinhuerr annar j uorum flocki. ertu þorir uel til fallinn at uera hǒfudsmadr at hallda bardaga moti Olafi konungi erv þar nogar sakir til bæde attu honum at hefnna frænda latz ok þess at hann rak þik or lande ok af æignum þinum. hefir þu þui hæitit bæde Knuti konungi ok frændum þinum at hefnna Asbiarnar edr ætlar þu at betra færi muni gefazst vid Olaf konung en suo sem nu er at hefnna þeirrar suiuirdingar allrar saman. þorir suarar mali hans. ecki ber ek traust til at ræisa merki mitt j moti Olafi konungi edr gerazst hofdinge firir lide þessu. hafua lendir menn her mannmug mestan kann ek storlæti þeirra at þeir munu ecki mer uilea hlyda edr odrum haleyskum manni en ecki mun þurfa at minna mig a þær saker er ek a at gialldа Olafi konungi. man ek þat manna lát er Olafr konungr hefir af lifui tekit fiora menn ok alla gǒfga at metordum ok kynferdum. Asbiornn brodurson minn þori ok Griotgard systursonu mina Olui faudur þeirra ok er ek huers þeirra skylldr at hefnna. nu er þat fra mer at segia at ek hefui ualit af huskollum minum .xi. þa er snarpazstir eru ok ætla ek at ver skulum ecki vid adra meta at skipta hoggum vid Olaf konung ef ver komumzst j færi vid hann.

Kaalfr Aarnason tok at tala firir bondum.

282. Kalfr Arnason tok þa til mals. þess munu ver þurfa vm rad þat er ver hǒfum upp ræist at gera nu æigi at hegomamali er herrinn er saman kominn. munu uer annars uit þurfa ef ver skulum hallda bardaga vid Olaf konung en þess at huerr færi sig undan at taka upp uanda þenna þuiat suo megu uer til ætla þo at Olafr konungr hafui æigi mikit lid hea her þeim er uer hofum þa er þar þo

ðruggr odduite firir ok mun allt lid hans vera honum hlydit ok truth til fylgdar en (ef) ver verdum nu nockut er hellzst skulum firir vera foringiar lidsins ok vilium ver æigi nu treysta á herinn ok eggia ok væita forgaungu þa mun þegar fiolde lidsins þat er stall mun drepa ór hiarta ok þui næst huerr ser rads leita. en þo at herr se her mikill þa munv ver koma j þa raun ef Olafr konungr ferr med her sinn a hendr oss er oss osigr viss nema ver seem oskelfir sealfir radamennirnner en mugrinn geysizst fram med æinu samþycke en ef æigi verdr suo þa er oss betra at hætta æigi til bardaga ok mun sa kostr audsæzstr þickia at hætta a miskunn Olafs konungs ef hann þotti þa hardr er minne voru sakir til en nu mun honum þikia. en þo uæit ek at suo mun monnum skipat j lide hans at mer mun þar grida kostr ef ek uil þess læita. nu ef þer uilit sem ek þa uil ek at þorir ok þu Harekr ganga(!) undir merki þui er ver skulum upp ræisa ok fylgia sidan. gerumzst ver ok aller snarpir ok skeleggir j þessum radum er ver hofum upp tekit ok holldum suo fram bondahernum at æigi megi a oss finna ædruna ok mun alþydu fram eggia er ver erum gladir at fylkia ok eggia lidit. En er Kalfr hafde lokit at tala eyrendi sitt þa uikuzst aller undir rædu hans ok sǫgdu at þeir uilldu at Kalfr sęi rad firir þeim uilldu aller at Kalfr uære hǫfdinge firir lidino ok skipade þar huerium er hann uillde.

## Bændr skipudu fylkingar.

283. [493] Kali het madr er baudzst til at bera merki j moti Olafi konungi ok þegar hann hafde þetta talat vard hann blindr ok matti ecki vera j bardaga fengu þeir þa til annan mann merki at bera. Kalfr let þa upp setia merki ok skipade huskollum sinum undir merkisstong ok þar med Hareki ok lide hans en þorir hundr uar med suæit sina j ǫnduerdum fylkingarbrodde firir merkinu. þar uar ok ualit af bondum suæitir a tuær hlidar þori þeir er snarpazstir voru ok bezst uopnnadir uar su fylking bæde long ok þyck ok voru þar j valdir þrændir ok Haleygir. en til hægra uegs fra fylkingunne uar sett onnur fylking ok til vinstre handar fra adalfylkingunne voru Rygir ok Hordar ok Sygnir ok hofdu þeir hit .iij. merke. þorstæinn knararsmidr er madr nefnndr hann uar mikill ok sterkr smidr godr ok kaupmadr mikill uigamadr ok oæirinn um alla hluti hann hafde ordit osattr vid Olaf konung ok hafde konungr tekit af honum kaupskip nytt ok mikit er hann hafde gert var þat firir ospektar sakir ok þegnngillde er hann atte at giallda. þorsteinn uar þar þa j hernum hann gek fram firir

fylking ok þar til sem þorir hundr stod hann mællti suo. her uil ek uera j suæit med ydr þorir þuiat ek ætla ef vit Olafr konungr hittumzst at bera uopnn a hann ef ek ma uera suo nærr staddr ok giallda honum skiptoku er hann rænti mik skipe þui er æitt uar bezst haft j kaupferdum. þeir toku vid þorstæine ok gek hann j suæit med þeim.

## Bændr ok lid þeirra kom til Stiklastada.

284. En er skipat uar til vm fylkingar þa toludu lendir menn ok badu menn gaum gefa at um stődur sinar huar huerium var skipat edr undir hueriu merke þa skyllde huerr vera edr huersu nærr honum var skipat merkinu. badu þa vera menn uakra ok skiota at ganga j fylking þegar ludrar kuæde vid ok herblastr kæmi upp ok ganga þa j fylking. þeir attu þa enn læid langa at flytia herinn ok uar þess at von at fylkingar mundu berazst j hergaungu. Sidan eggiudu þeir lidit. þa mællti Kalfr at aller þeir menn er harma sinna ætti at reka vid Olaf konung skylldu þa fram ganga under merki þat er fara skyllde j moti konungs merki ok vera minnigir þeirra meingerda er hann hefde þeim uæitt. segir at þeir mundu æigi komazst j betra fære at hefnna harma sinna ok frelsa sig suo fra anaud ok þrælkun er hann hefir ydr undir lagt er sa nu segir hann blæydemadr er æigi berst nu diarfliga þuiat (æigi) er sakleyse vid þa er j moti eru munu þeir æigi spara ydr ef þeir komazst j færi. At mali hans uar georr allmikill romr uar þa kall mikit ok eggian um allan herinn. sidan fluttu þeir bændr her sinn til Stiklastada. þar var firir Olafr konungr med lid sitt þeir voru j őnduerdu lide Kalfr Arnnason ok Harekr ór þiottu fram firir merkinu. en er þeir mættuzst þa tekzst æigi allskiott arasin þuiat bændr frestudu atgaungu firir þa sok at lid þeirra for huergi nærr iamfram ok bidu þeir þess er sidarr for. þorir hundr hafde farit sidazst med sina sueit þuiat hann skyllde til gæta at ecki slægizst aftr af lide þeirra þa er heróp kæmi upp edr lid sæizst. Olafr konungr gerde þui æigi atgaungu at hann bæid Dags. Suo er sagt at bændr hofdu æigi minna lid en .xij. þushundrat. En Sighuatr segir suo.

Olmr er um harmr sa er hilmir
hafde gulli uafdan
jofurr kræiste sa er austan
aflfatt medalkafla.

gagnn fengu þui þegnar
þeir er halfu flæire
huotut tælde þat hilldar
huorunge fry ok voru.

Konungr taladi til Kalfs ok þoris ok bonda.

285. þa er lid huorratueggiu stod ok menn kenduzst þa mællti konungr. hui ertu þar Kalfr edr huat uerdr nu af fridinum þeim er þu hetzst oss austr a fialli. Kalfr mællti. riufazst mun sa fridr. Hui skal þat kuat konungr þuiat uinir skildu ver sudr a Mæri ok illa samir þer at beriazst j moti mer edr skiota gæigrskoti j moti oss þuiat her eru fiorir brædur þinir. Kalfr suarar. mart ferr nu annan ueg en bezst munde sama. skilduzst þer suo at æina vid oss at naudsyn bar oss til at fridazst vid þa er eftir voru verdr þar nu huerr at vera sem staddr er en sættazst mundu ver ef ek skyllda rada. þa suarar Finnr. þat er mark at um Kalf ef hann mæler vel þa er hann radinn til at gera illa. Konungr mællti. vera kann Kalfr at þu uiler sættazst en ecki fridsamliga þiki mer þu lata. en huersu fuss ertu at vita þinn hluta ef vit komumzst heiler brott. Ecki fuss quat Kalfr. þo mun ek segia þer quat konungr. huorki mun ek ræna þig lifui ne fiarhlutum. sudrgaungu byd ek þer sætzstu vid gud þa ertu sattur vid mig. þorir hundr quat konungr uilltu uita þinn hluta ef ek kem lifs af Stiklastodum. Ecki renn ek fra þui quat þorir. Æigi mun ek bioda þer sudrgongu quat konungr slika menn þarf j lande at uinna þat allt er konungr þikizst þurfa ok æinge dugande [494] madr uill uinna. þorgeirr af Kuiststodum edr Kuelldrum mællti. þer konungr skulut nu hafua slikann frid sem margir hafa adr af ydr hafdann ok munu þer nu þess giallda. Konungr suarar. æigi þarftu þorgæir suo miog at fysazst til uors fundar þuiat æigi mun þer audit verda sigrs a oss j dag þuiat ek hof þig til rikis af litlum manni edr mantu glogt huat titt uar jolin fyrre en nu voru. Morg hefui ek jol suo drukkit quat þorgeirr at ek hefir eigi j minne lagt. Ek mun þig þa a minna quat konungr. þa vartu innan hirdar med mer ok bart æigi þitt hôfut lægra en ek mitt. uandada ek at þer hina smærri hluti sem hina stærri uillda ek at þu gengir fra þuiat med þer se ek sizst nockura hluti hæfa. þorlæifr kueikr streingde þa hæit at uerda þess mannz bani er fystr ynne a Olafi konungi. Gizsorr gullbrarfostri tok til orda. þat er tijtt vt a Jslande at hafua akuędisverk þikiazst þeir þa komnir til huilldar eftir erfuide sitt er uerki er lokit. Konungr suarar. þar standa gegnt þer j fylkingu brædr .ij. ok er annar ramr at afli en annar fiolkunnigr þa verr þu þig fryiu ef þu feller þa bada. Gizsorr suarar. þar skal at snua sem þu uisar áa tæigr mun hardslægr en stund ecki laung þo mun rada huersu jarnn bita.

## Framganga þoriss hundz.

286. þorir hundr gek þa fram med suæit sina firir merkit ok kallade. fram fram buandmenn. þa lustu bændr upp heropi ok skutu bæde ðrum ok spiotum. Olafr konungr mællti at hans menn skylldu ok sla upp heropi. æptu þeir þa herop. en er þui uar lokit þa eggiuduzst þeir suo sem þeim uar kent ok mælltu suo. fram fram Kristzmenn krossmenn konungsmenn. En er þetta heyrdu bændr þeir er stodu vt j arminn þa mælltu þeir sligt hit sama sem þeir heyrdu þa mæla. en er bændr adrir heyrdu þat þa hugdu þeir þat vera konungsmenn ok baru uopnn a þa. borduzst þeir þa sealfir ok fell mart adr þeir kenduzst vid sig. Uedr uar biart ok skæin sol j hæide. en er orrostan tokzst þa laust roda a himininn ok a solina ok adr en lette gerde myrkt sem vm nott. Olafr konungr hafde fylkt þar sem hæd nockur uar ok steyptuzst þeir ofan a lid bonda ok uæittu suo hart athlaup at fylking bonda bognade suo miog at þar stod þa briost fylkingar konungs sem adr hofdu stadit þeir sem efstir voru j bonda lide ok var þa buit mart bonda lid at flyia en lendir menn ok huskallar þeirra stodu fast ok uar þa allsnðrp orrosta. Suo segir Sighuatr.

Vijtt er folld und fotum
fridbann uar þar monnum
þa red j bðd brada
bryniat folk at dynia.

þa er arliga ærit
alms med biarta hialma
mikill uard a stad Stikla
stalgustr er ofan þustu.

Bændr eggiuduzst ok knuduzst til framgaungu. þess getr Sighuatr.

For j fylking þeirra
fram idrazst nu midre
snarir funduzst þar þrændir
þess uerks buendr merki.

þa sotti at lid bonda ðllu megin. hiuggu þeir er fremstir voru en þeir er þar voru næst lðgdu spiotum edr skutu ðrum edr kðstudu grioti edr handsðxum ok flettiskeptum. gerdizst þa mannskædr bardagi. Konungr mællti þa. ek se margan fðdur þann er son edr brodir stendr a mot en nu se ek æigi at at þui megi gera annat en ek uil þess bidea huernn mann at ganga fra þadan er þeir kenna sina naunga j mot ser ganga. Arnnliotr het bondi hann suarar konungi. sonu atta ek .ij. þa er æigi voru adrir uænni iafnnbornir ok hirde ek æi þo at ek verda huorumtueggia þeirra at bana ef þeir uilea æigi skilea uit suo uont rad en æinum hlut kuidum uer at ver holldum æigi þer hæilum herra en æinge mun þinna manna uilia vid þig skilia. þa tok at falla mart af huorumtueggium j fustu hrid. fellu þeir Arnnliotr gellini

Gaukaþorir ok Hafrafasti ok suæit þeirra ðll ok hafde huerr þeirra mann firir sig edr .ij. en sumir flæire. þa þyntizst skiott firir framan merki konungs. bat konungr þord bera fram merkit en hann fylgde sealfr merkinu. en su suæit manna er hann hafde til ualit at vera ser nærr j orrostu voru þeir menn j hans suæit er uopnndiarfazstir voru ok bezst bunir. þess getr Sighuatr.

Mest fra ek merkium næstann
minn drottinn fram sinum
stong uard gyllt at ganga
gnogr styrr óx þar fyrre.

Olafr konungr gek fram ór skialldborginne ok j ðnduerda fylking ok er bændr sa j ðgu honum þa hrædduzst þeir ok felluzst þeim hendr. þess getr Sighuatr.

Gæirs hygg ek grimligt væri
gunnræifum Olæifui
lofrækendum lita
leons j huassar sionir.
þordu æi þrænskir uirdar
þotti herssa drottinn
ogurligr j ðgu
ormfran sea hanum.

þa uard allhord orrosta. gek konungr þa sealfr fram j hðggorrostu. Suo segir Sighuatr.

Raud j recka blode
rðnd med gumna hondum
dreyrug suerd þar er dyran
drott þiodkonung sotti.
ioku at iarnna læike
Jnnþrændir soknn stinna
rekinu uar [495] grár j ræikar
raudbrunan hior tunum.

Olafr konungr bardizst þa alldiarfliga. hann hio til þorgæirs af Kuistðdum leñdz mannz er fyrr var getit vm þuert andlitit ok j sundr nefbiorg af hialminum ok klauf hðfudit firir nedan ðgun suo at nærr tok af. en er hann fell þa mællti konungr. huort er þat satt er ek sagda þer þorgæir at þu munder æigi sigrazst j ockrum uitskiptum. J þeirre suipan skaut þordr nidr merkistðnginne suo hart at stðngin stod. þa hafde þordr fæingit banasár ok fell hann þar undir merkinu. þa fellu ok þar þorfinnr munnr ok Gizsorr gullbrarfostri ok hafde hann soknn att uid þa .ij. menn er honum voru ætladir ok drap hann annan þeirra en særde annan adr hann fell. Suo sagde Hofgardarefr.

Einn hafde gny gunnar
gall bals hárs skala
runu askr vit roskua
regnndiarfr .ij. þegnna.
dalsteypis hio draupnnis
dðggfrey bana hðggui
hann raud iarnn en annan
arstrauma uann saran.

þa uard þat er fyrr uar sagt at himinn uard hæidr en sol huarf at syn ok gerde myrkt. þess getr Sighuatr.

Vndr lata þat ytar
æigi smatt er matti
skyniordungum skordu
skylauss rôdull hlyia.
driug uard a þui dægri
dagr nade litt fogrum
orrostu fra ek austan
atburd konungs furda.

J þann tima kom Dagr Hringsson med þat lid er hann hafde tok hann þa at fylkia lide sinu ok setti upp merki. en firir þui at myrkr var mikit þa vard ecki skiott vm atgongu þuiat þeir vissu æigi vist huat firir var en þo sneru þeir þar at er firir voru Rygir ok Hôrdar. voru þessir atburdir margir iafnnsnemma edr sumir litlu fyrr en sumir ok ma æigi alla senn segia.

## Fall hins heilaga Olafs konungs.

287. Kalfr ok Olafr hetu frændr Kalfs Arnnasonar þeir stodu a adra hlid honum ok voru menn myklir ok hraustir. þeir voru synir Arnnfinnz Arnnasonar Armodssonar. a adra hlid Kalfi Arnnasyni gek fram þorir hundr. Olafr konungr hio til þoris vm þuerar herdarnar suerdit bæit ecki en suo syndizst sem dust hryti ór hræinbialbanum. þessa getr Sighuatr.

Milldr fann georst hue galldrar
grams silfurs meginrammir
fiolkunnigra Finna
fullstorum barg þori.
þa er hyrsendi hundi
huna gulli bunu
slæt red sizst at bita
suerde laust vm herdar.

þorir hio til konungs ok skiptuzst þeir þa vid nôckurum hôggum ok bæit ecki suerd konungs þar er hræinbialbinn var firir en þo vard þorir sarr a hende. Suo quat Sighuatr.

þollr dylr sannrar snille
steins en þat fra ek hæima
huerr siai hundz verk stærri
hugstors en vann þorir.
er þuergarda þorde
þrottr er fram vm sotti
gnys j gegnn at hoggua
gunnrackr konungmanne.

Beornn stallari hio þa til þoris hunds bitru suerde ok bæit ecki a. hann spurde konung þa. huat skal at gera vid þa menn er æigi bita jarnn. Konungr suarar. beria skal þa er æigi bita iarnnin. Beornn gek þa j brot ok fek ser æinn staur ok aftr til þoris ok mællti suo. bydr konungr oss at beria hunda þa er æigi bita jarnn. Hann laust þa til þoris suo mikit hôgg at hann uar nærr j ouiti. en er þorir raknar vid greip hann spiot sitt ok leggr til Biarnar ok j gegnum hann ok mællti þa. skulu ver bauta biornnuna ef þer berit hundana. Beornn gek a lagit at hondum honum ok laust hann suo mikit hôgg at hann bar æ hallt hofut sidan. þorir mællti þa. hælumzst ek um uæidar uid adra bændr

þuiat ek bautada þann biorninn er beysti vid kampinn. þa vard allhörd orrosta ok j þui sneri konungr j moti þeim Kalfi frændum ok uæitti hann þa banasár Olafi frænda Kalfs. þorstæinn knarrarsmidr hio til Olafs konungs med breidri öxi ok kom a fotinn vinstra vid kned firir ofan. þorleifr kuæikr endi hæitstrenging sina ok drap þorstæin knarrarsmid. en sumir segia at Finnr Arnnason uægi hann. en vid sar þat er konungr fek hnæigdizst hann at stæine einum ok kastade suerdinu ok bat gud healpa ser. þa lagde þorir hundr spioti til konungs kom lagit nedan undir bryniuna ok rendi upp j kuidinn. þa hio Kalfr til konungs kom þat högg hinum vinstra megin a halsinn. menn greinazst at þui huort Kalfr væitti konungi sár þetta. þessi .iij. sár hafde Olafr konungr til liflatz. Eftir fall konungs fell su suæit oll er fram hafde gengit med honum. Biarnni gullbrarskalld quat þetta um Kalf Arnnason.

Jörd red þu uige at varda
uigræifr firir Oleifi
brautzstu vid bragning nyzstan
bag þat kued ek mik fragu.
fram gekt j styr ströngum
stod uerk en ód merki
satt er at soknn vm uæittir
sniallr undz gramr uar fallinn.

Sighuatr skalld quat vm Beornn stallara.

Beornn fra ek aud af örnu
endr stallara kende
hug hne hallda dugde
hann sotti fram drottinn.
fell j her med hylle
hann verdugra manna
frægr at hilmis höfde
hrodaudigs sa daude.

J þessu kom Dagr at.

## Tal Kalfs vid bændr.

288. Kalfr Arnnason mællti þa. nu er konungr yduarr fallinn kollumzst ver nu æiga Noreg til forrada. Dagr mællti. þat væri til hugganar þeim er eftir lifdi at þer ynnit iafnnadar vm landit oss til forrada. Huerir erv til landz segir [496] Kalfr. Byd ek sealfan mik segir Dagr. Bændr suorudu. uist æigi uilium ver þig til konungs kiosa. Dagr mællti. þa byd ek Haralld brodur Olafs ydr til konungs at taka. Bændr suorudu. ef ver uilldum æigi hafa Olaf at konungi yfir oss þa vilium ver halfu sidr Haralld brodur hans. þa er til Hringr fadir minn segir hann vitr madr ok radinn. Kalfr suarar. Hringr er gamall ok erv ver þa konunglauser. Enda vili þer æigi mik segir Dagr ennda er ek uarlla tilfærr sakir uitzmuna landz at gæta en þo betr tilkominn at uarduæita j hendr astuinum Olafs konungs en Knutr konungr edr synir hans hafui land þetta. Kalfr suarar. aller uerdu uer þa at klækium

æinum. kalli þer nu at uær hafuim uælltan konung þenna enda bregdumzst ver nu Knuti konungi. Dagr suarar. vili þer æigi æinnhuernn þenna þa skulum ver gera ydr þa hrid at þer skulut allan alldr ǒrkumbl eftir bera. þa tokzst bardage med þeim ok kalla menn þat Dags hrid. j þeirre orrostu fell fiolde manna. æigi hofdu þrændir reynth hardare hrid en þessa er Olafs menn gerdu sidan er Dagr kom til. þeir raku marga menn vt a ána er ofan fellr eftir Veradal ok stǒngudu þa med spiotum til bana. Haralldr Sigurdarson ok Rǒgnnualldr Brusason letu skamt storra hǒggua a mille. Finnr Arnnason mætti j bardaga Kalfi brodur sinum ok lagde spioti til hans kom j lærit. fek Kalfr mikit sár ok mællti þa til Finnz brodur sins. æigi hyggr þu nu at brodir huat er þu gerir. Finnr suarar. uæit ek huat ek uil ok suo huat er ek gerir þuiat ek uillda drepa alla drottins suikara. hafui þer mikinn glæp geruan suikit yduarnn lanardrottin þann er þer munut alldri slikann fa. þa fell enn mart af bondum. þessir lendir menn Erlingr ór Gerde Aslakr af Finneyium. uar þa nidr hǒggit merkit firir bændum er þeir hǒfdu adr med farit. Uar þa orrosta hin akafazsta. þa sneru þeir j mot Dag Kalfr Arnnason Harekr ór þiottu ok þorir hundr med þa fylking er þeim fylgde. uard þa Dagr oflide borinn ok sneri þa a flotta ok allt lid hans. þat hafa menn ok sagt at þormodr kolbrunarskalld uar þann dag j kyrtli raudum er hann biozst til bardaga ok drap upp blǒdunum firir en kyrtillinn uar sidr miog a bakit. æinn hirdmadr spurde hui hann byggizst suo. þormodr suarar. þui at ek ætla mer lengrum afram en a bak aftr. Hann uar gyrdr suerdi þui er Olafr konungr gaf honum. hann hafde ǒxi sina j hende en ǒngua hlif. Konungr spurde þormod hui hann byggizst æigi til bardaga sem adrer menn ok hefde onga hlif. edr ætlar þu at bændr munu æigi kunna at beriazst. þormodr suarar. þat skulu bukallar finna j dag at ǒx min skal mer bædi skiolldr ok brynia. þat hafa menn at minnum haft ok agætum huersu roskliga þormodr bardiz vm daginn þuiat hann hio .ij. hondum med ǒxi sinne hinn fyrra bardagan en med suerdinu alla Dagshrid þuiat þa gek ǒxin af skaptinu. fellu margir menn firir honum suo at sæint er þeirra nǒfnn allra at skra.

## Syn þorfinnz.

289. þorfinnr skalld ok þordr brodir hans urdu sarir miog suo at þeir voru ouigir. nu er þeir lagu j ualnum sa þeir lios yfir liki konungsins. þetta undruduzst þeir miog. þordr tok til orda ok mællti. hui mun lios þetta yfir konunginum æigi munu þau endimi sǒnn at

konungrinn se hæilagr. þorfinnr suarar. likligt er þat at hann se hæilagr ok eru þat æigi enndime. Nu uar orrosta hòrd ok fellu margir menn j bardaganum. en er Dagr var ofrlide borinn þa mællti hann at Olafs menn skylldu fara j æinum flocki burt med honum. þa uar þormodr kolbrunarskalld ecki miog sárr en ouigr sakir mæde ok uillde hann þo standa hea suæitungum sinum. æigi uar hann þui ecki sarr edr litt at hann hefde ser hlift mæirr en adrir helldr hitt at monnum þotti annars stadar audueIldra til at sækia en þar sem hann uar. Æinn madr spurde þormod. sattu nockut skiolld minn er ek kastade ádan. Huat skal þer rògum skiolldr quat þormodr. geta munda ek mer slikann skiolld ef ek uillda en æigi giafuin þann er ek hefi mist. Dalr nockurr uard firir þeim. dræifdizst þa flockrinn tueggia uegnna j brott. voru margir miog sarir ok margir mæiddir suo at til æinskis voru fęrir. bændr raku skamt flottan þuiat hofdingiar sneru brott aftr ok þar til er ualrinn la þuiat margir attu þar at læita eftir frændum sinum. þorir hundr gek þar til er la lik Olafs konungs ok uæitti þar umbunat lagde nidr ok retti ok bræiddi yfir klæde. en er hann þerdi blodit af andlitinu þa sagde hann suo sidan at andlitit konungs var suo fagrt ok rode j kinnum sem þa er hann suæfui en myklu biartara en adr þa er hann lifde. þa kom blod konungsins a hond þori ok rann a greipina þar er hann hafde sár fæingit ok þurfti um þat sar æigi at binda þadan j fra. suo greri skiott. uottade þorir þetta ok þenna atburd sealfr þa er helgi Olafs konungs kom upp firir alþydu. uard þorir [497] hundr fystr til þess at hallda upp helgi Olafs konungs þeirra manna er þar hofdu j motstoduflocki hans verit.

## Vidræda þeirra brædra eftir bardagann.

290. Kalfr Arnnason læitade at brædrum sinum er þeir voru fallnir. þeir ręddluzst vit j ualnum Finnr ok þorbergr Arnnasynir en þar lagu hea þeim Arrne ok Kolbeornn daudir. Finnr mællti. hue oft hefir þu j ual verit þorbergr brodir. Verit hefui ek nockurum sinnum segir hann ok hefir mer of allt illt þott. En huersu þiki þer nu quat Finnr. Gott segir þorbergr þuiat her er miugt ok lint vni ek uel vid. Suo er mer ok quat Finnr at ek hefui òngann suida j sarum edr uæitzstu ef þau endime eru sònn at konungrinn se hæilagr hea ockr. Suo ertu skiotordr kuad þorbergr at þu hyggr illa at huat þu mæler edr gair æigi ella uisser þu helgi hans firir laungu. Finnr suarar. heyrir þu huat nu er vm. Ek uæit æigi til huers þu talar segir þorbergr. Ek þikiumz quat Finnr heyra malit hundzsins Kalfs brodur mins hann mun uilea

lata græda ockr ok mun uel til gefa þuiat ek mun nu geta hefnt Olafs konungs. þorbergr mællti. uinn þu æigi a brodur þinum. Finnr suarar. hird ek æigi huers brodir hann er enda er æigi oft a þat at minnazst at ek hafa verit uitrari en konungr edr þu en geor vissa ek a fiallinu at æigi munde slik fadęmi hafua fram farit ef ek hefda þa radit at Kalfr hefde þa verit drepinn. þorbergr mællti þa suo hatt at Kalfr matti heyra. gættu ok uinn æigi a Kalfi brodur þinum. Kalfr gek þa helldr tæpara. en þegar at Finnr sa hann þa kastade hann saxi til hans ok hliop j gegnum nidr ristina ok uard Kalfr sidan ualla ohalltr. Kalfr mællti þa. vm ser konungr nu med þer er hann unni þer æigi ohaps ęn visse at ek þurfti hegningar. Finnr suarar. dylstu ecki uit þat at ek uillda at þar hefde a þig komit at þig hefde sem fyst oll troll tekit sem þes mun skamt at bida. Kallade hann þa bæde gudniding ok drottins suikara. Kalfr mællti. sættumzst vid nu ok þigg þu at mer yfirbætr. ęk hefui uerit kalladr mestr uór brædra her til en nu skal ek þikiazst minnzstr hedan fra. Finnr mællti. huerium manni muntu þikia minne ok verri ok æinge mun bætr þiggia at þer dugande manna muntu huerium manni læidr er þenna atburd spyrr. Annat uar ord Finnzs hardara en annat. Kalfr gaf ecki at þui gaum ok let Finn bera a brott ór ualnum ok suo þorberg. uar þa hugsat um sár þeirra ok hofdu þeir æinge banuæn þuiat þeir hofdu fallit firir uopnnaburd ok mæde. þa let Kalfr bera þa ofan til skips ok fór med þeim sealfr. en þegar er hann sneri a burt þa fór allt bondalidit þat er þar atti hæima j nand nema þeir menn er þar storfudu at frændum sinum ok vinum þeim er sarir voru edr at likum þeirra er fallnir voru. voru menn þa fluttir heim a bæi suo at huert hus uar fullt af þeim en tialldat vti yfir mörgum. en suo undarliga mart folk sem þar hafde saman safnnazst j bondaherinn þa þotti þat æigi minnr fra likendum huersu skiott safnnadrinn raufzst þa er til þess tokzst ok bar þat miog til at hit mesta fiolmenni hafde þar safnnazst ór herudum ok voru þui heimfusir.

## Vidrtal þeirra þormods ok Dags.

291. Svo er sagt þa er lokit var bardaganum at þormodr gek þar at er Dagr ok hans menn höfdu stadar numit eftir bardagann þuiat þa var æigi uigliost firir nætr sakir. bændr satu um þa Dag at þeir skylldu æigi a burt komazst vm nottina ok ætludu þegar at þeim at ganga er lyst uar ordit. Dagr mællti. er nockurr sa madr j minu lidę er rad kunni til þess at leggia at ver komimzst a burt suo at bændr

æigi ðngan kost a oss þuiat ek uæit at þeir munu þegar at oss leggia er lysir ef ver bidum her. Æinge madr uæitti suor male hans. ok er þormodr sa at æinge fenguzst rad af þeirra hende þa mællti hann. hui munu eigi finnazst rad til þess segir hann. Dagr spurde. huerr er sa madr er suo talar vm ræistiliga. Hann suarar. sea hæitir þormodr. Dagr mællti. ertu þormodr kolbrunarskalld. Sa madr hinn sami segir þormodr. Dagr mællti. huat rad er þat at þu ser til þess at ver kommimzst j brott med lid uort. þormodr suarar. þer skulut fella morkina ok gera ellda stora af hrisinu en færa stofnna sem flesta fram at elldinum ok skulu fiorir menn vera vid huernn elld en þrir menn skulu ganga um elldana jafnnan en æinn skal kynda huernn elld. en þa er þer hafuit suo gert nockura hrid þa slockui þer alla senn elldana ok farit þa læid ydra ok gefuit huorke stad j dag ne a morgin. en bændum mun þikia sem kominn se at mugr mannz er þeir sea kuigt allt vid elldana. en er mornnar þa munu þeir sea þetta rad ok er mer þa von at þeir fari eftir ydr en þo mun þa suo mikill verda yduarr misfari at mik uæntir at ecki saki til. Dagr mællti. ertu nðckut saarr þormodr. Hann [498] suarar. fiarri ferr þat. Dagr mællti. fardu þa austr j Suiþiod med mer ok mun ek þa gera uel til þin en þu att her nu æinkis godz at bida. þormodr suarar ecki mun þess audit uerda at ek þiona ðdrum konungi er Olafr konungr er fallinn. Snyr þormodr þa j brott en þeir Dagr hðfdu þetta rad ok komazst vid þat undan. Bændr þeir er bæima attu j Veradal gæingu til hðfdingianna Hareks j þiottu ok þori(s) hundz ok kærdu firir þeim sin uandræde ok sogdu suo. flottamenn þessir er her hafua undan komizst munu fara upp vm Veradal ok munu bua oþarfliga at hæimilum vorum en oss er ecki fært heim medan þeir eru þar. nu gerit suo uel farit eftir þeim[1] ok latit ecki mannzbarnn j brot komazst þuiat slikan kost mundu þeir oss ætla ef þeir hefde betr haft af vorum funde ok suo munu þeir enn gera ef ver hittumzst sidarr suo at þeir hafui mæira kost. en vera kann at þeim duelizst j dðlunum ef þeir uita ser æinskis otta uonir munu þeir þegar fara ospakliga um bygdir uorar. Ræddu bændr um þetta morgum ordum med akafa myklum at hofdingiar skylldu fara ok drepa þat folk allt er undan hafde komizst. ok er hofdingiar tðludu þetta sin a mille þa þottu þeim bændr mart hafua satt sagt j sinu tale. redu þa þat at þorir hundr redzst til ferdar med Verdelum ok hafde .vj. hundrat manna þat er hans lid uar. foru sidan. tok þa at natta. letti þorir æigi fyrr ferd sinne en hann kom um nottina vpp a Sulu ok spurde hann þar þau tidende at vm kuelldit

[1]) ok latit eftir þeim *tilf. Cd.*

hafde þar komit Hringr Dagsson ok margar adrar suæitir af Olafs-monnum hafua þeir þar haft natluerdarduol en farit sidan a fioll upp. þa segir þorir at hann mun ecki ellta þa vm fiǒll ok sneri hann þa ofan j dalina ok fengu mart annarra manna drepit. sidan foru bændr til hæimila sinna en þorir for eftir um daginn til skipa sinna en konungsmenn þeir er sarir voru fordudu ser leynduzst j skogum en sumir fengu ser healp af monnum.

## Haralldr Sigurdarson komz or bardaga.

292. Haralldr Sigurdarson uar sarr miog j orrostu en Rognnualldr Brusason flutti hann til bonda æins um nattina eftir bardagann. tok þa bonde uit Haralldi ok hafde hann a laun ok let þar græda hann. sidan feck hann til son sinn at fylgia honum j brott foru þeir þa huldu hǒfde vm fioll ok eydimerkr ok komu fram a Jamtalande. þa quat Haralldr þetta.

Nu verdeg skog af skogi
skreidazst litils hæidar
huerr uæit nema ek verda
uida frægr um sidir.

Nu er at segia fra þormodi at honum fekzst mikils er hann var litt sárr ok harmade þat miog ok þottizst vita at hann munde æigi uerdr uera firir illra gerda sinna sakir at falla med konungi. nu bidr hann þa Olaf konung med godfyse at hann seai a med honum. hann mælltizst þa vid æinn saman ok talade. huort muntu nu hinn hæilagi Olafr konungr æigi ætla at enda vid mik þat sem þu hetzst mer at þu mundir mig æigi firir roda lata ef þin rad mætti standa. Ok þui næst heyrir hann at stræingr gellr ok er skotit ǒru ok kemr hon undir vinstri hond þormodi ok þar a hol. uerdr hann þessu sare feginn hardla miog ok mællti. þat hygg ek at þessi madr (hafe) bezstu hæille boga upp dregit enda uæit ek at nu skall þeim er skyllde. Gengr þormodr þangat at sem uar lik konungsins ok settizst þar nidr ok brytr skefti af ǒxinne. þormodr heyrir mann kalla j ualnum af lide bonda. huat er þeirra manna j ual er tala megi keskimal edr gamanyrde. uar ek alldri þar staddr er aller menn væri iafnneliunarlausir ueit (ek) at margir menn munu mega mæla ser gaman þo at sarir se. þa suarar honum madr. miog illa er ydr farit lagut a illu rade j dag en gait æigi nu yduarr er liggit a heliar þremi. Huerr suarar mer segir hann. Heming mattu mig kalla en huerr ertu Hiarrande er mitt nafnn ok man ek at ek atti þann son er Hemingr het ok for hann til

Jorsala. unna ek honum mikit. En nu mun æinge sinum fødur ofegnari en ek quat Hemingr hafui þer breytt of illa vid konung. Æigi høfum ver godu rade fylgt quat Hiarrande en þo uillda ek at þu færir hingat ok sættimzst vid. Hemingr mællti. æigi uerd ek j blode ydru bonda helldr far þu hingat ok vita ef þu nædir at deyia j blode konungsmanna ok uilldi þer þat nockur skirsla verda Hiarrandi suarar. uita uillda ek huat þer uæri at mæine. ek þikiumzst uita gerr huat manna þu mundir verda. Hann suarar. a kneam' stend ek j ualnum þuiat suo er ualrinn fallinn at mer þykt at ek ma æigi falla nidr en idr eru j grase sum. edr huat er þer at meine fadir. Hiarrande mællti. spioti er ek lagdr geggnum. þat uisse þormodr at Hearrande skræid til Hemings ok do þar sidan en þormodi ohægdizst miog sarit sem von var.

### Daudi þormodar kolbrunarskalldz.

293. [499] þormodr gengr þa heim til husanna ok at æinne bygghlødu er menn Olafs konungs hofdu inn verit færdir þeir er sarir voru. þormodr hafde bert suerd j hende ok er hann gek inn þa kom madr j mot honum. þormodr spurde hann at nafnni en hann kuetzst Kimbe hæita. þormodr spurde. vartu j bardaganum. Var ek segir hann med bændum er betr var. Ertu nockut sárr segir þormodr. Litt segir Kimbe edr huort uartu nockut j bardaganum. þormodr suarar. var ek med þeim er betr hofdu. Kimbi sa at þormodr hafde gullhring a hende hann mællti. þu munt vera konungs madr fa þu mer gullhringinn en ek mun leyna þer. bændr munu launa þer ospekt ef þu uerdr a uegi þeirra edr ertu nockut sárr. þormodr suarar. ecki er ek sárr suo at lækningar þurfui enda hafdu hringinn ef þu uill. latit hefui ek nu mæira þui at mer tekr nu at þikia minna gaman at gulli en uar. Kimbi retti fram hondina ok uillde taka hringinn. þormodr suæiflade til suerdinu ok hio af Kimba hondina ok quat hann æigi þeirre mundu stela sidan. Kimbi þolde illa. þormodr quat hann reyna skylldu huersu sarin væri at þola. sidan for Kimbi a brott en þormodr stod eftir. þa hleypr madr innan or hlodunne ok sæker uidarfang. kona æin vermde uatnn j katle til þess ath fægia sar manna. þormodr gek at æinum uandbalk ok studdizst þar vid. þa mællti konan vid þormod. huat manna ertu huort ertu konungs madr edr ertu af bonda lide. þormodr suarar ok quat visu.

A ser at ver uorum
uigræifir med Olæifui
sár fek helldr at huoru
huit brudr ok frid litinn.

skinn a skillde minum
skalld fek hrid til kallda
nærr hafa æski askar
eyrendan mik geruan.

Konan mællti. hui lætr þu æigi binda sar þin ef þu ert miog sárr. þormodr suarar. þau æin hefui ek sár at ecki þarf at binda. Konan mællti. þu munt þat kunna at segia mer er ver hofum lenge um rætt j kuelld huerr bezst hefir fram gæingit j bardaganum edr minnzst blift ser. þormodr quat þa visu.

Ort uar Olafs hiarta
ód fram konungr j blode
rekin bitu (stal a) Stikla
stodum kuaddi lid bauduar.

elþolla læit ek alla
almuedrs nema gram sealfan
reyndr uar um flest j fastri
flæindrifu ser hlifa.

Bonde æinn kom þa j kornnhlôduna er þau tôludu þetta hann fór at foruitnazst huat tijlt uæri um konungsmennina. þar voru margir menn miog sarir ok let hatt j holsarum manna edr hofutsarum sem nattura er til storsára. Bonde nam stadar j hlôdunne ok hlyddizst þadan vm ok er hann heyrde at hatt læt j holsarum manna þa mællti hann. þat er von at konunginum hafui litt gengit bardaginn vid bændr suo þrottlaust lid sem þetta er at honum hefir fylgt þuiat mer þikir suo mega at kueda at þeir þoli æigi oæpande sar sin ok eru þetta fylur en ecki dugandi menn. þormodr suarar. synizst þer suo felagi sem þeir se æigi þrottmykler en her eru inne. Ja segir hann suo synizst mer sem her se flestir menn of þreklausazstir saman komnir. þormodr suarar. vera kann þat at nockurr se sa her inne at æigi se þrekmikill ef til er reynt ok æigi mun þer mitt sár mikit þikia þott þu hygger at þui. Bondi suarar. ek ętla þa uæri betr at þu hefdir bæde morg ok stor. Snyrr bonde þa utar eftir hlôdunne ok ætlade ut at ganga. j þui hoggr þormodr eftir honum. þat hôgg kom a bakit ok hio hann af honum bada þionappana. Styn þu æigi nu quat þormodr. Bondi quat uit hatt med myklum skræk ok þræif til þionappanna badum hondum. þormodr mællti. þat vissa ek at vera munde her inne nockur madr sa er æi munde þrottigr reynazst. er þer illa saman farit er þu finnr at þrek annara manna þar er þu ert þrottlaus sealfr. eru her margir menn miogh sarir ok uelar æinge þeirra en þu bræktir sem gæit blæsma ok uæinar sem merr þo at þu hafir æina uôduaskæinu litla.

capitulum.

294. Eftir þenna atburd kom j hlöduna kona med miolkskiolur .ij. su er færa ætlade dryk sárum monnum. hon mællti vid þormod. huerr er þessi madr er her stendr vid balkinn. Hann suarar. þormodr heiti ek. Hon mællti. hefir þu nockut verit vit bardagann j dag. þormodr suarar. þat uillda ek ætla at þat skyllde nockurir bændr æiga at segia hæim konum sinum j kuelld at þormodr kolbrunarskalld hafui komit til bardagans j dag en þo uilnumzst ek hins at nockurir megi ecki fra segia. Konan mællti. huerir gengu bezst fram med konunginum. þormodr quat visu.

Harralldr uar bitr at beriazst
baudræifr med Oleifui
þar gek hardra hiorua
Hringr ok Dagr a þinge.
redu þeir und raudar
randir prutt at standa
fek benþidurs blacki
bior döglingar [500] fiorir.

Konan mællti. þu munt vera sárr miog edr uilltu drecka miolk þat er sarum monnum gott til styrktar. þormodr suarar. æigi þarf ek miolk at drecka þuiat ek er nu suo fullr sem ek hafui nysopit skyr ut a Jslande en ek er þo litt sarr. Konan mællti. hui ertu suo litlaus ef þu ert sarr þo litt. þormodr quat þa visu.

Vndrazst öglis landa
eik hui ver sem blæikir
farr verdr fagur af sarum
fann ek örua drif suanni.
mik flo malmr hin döckui
magni keyrdr j gegnum
huast bæit hiartat næsta
hetligt jarnn er ek ætla.

Konan mællti. þat þottumzst ek sea a þer at þu mundir miog sárr vera er þu uart suo litlaus ok lattu binda sár þin sem adrir menn ok lat mik sea. Sidan settizst hann nidr ok kastade klædum af ser. en er læknir sa sár hans þat er hann hafde a sidunne hon kendi þess at þar stod ör j en þat visse hon æigi uist huert jarnnit hafde snuit. hon hafde þar gert j stæinketli af lauk ok önnur grös ok uellt þat saman ok gaf at eta þeim hinum sarum monnum ok reyndi suo huort þeir höfdu holsár þuiat þa kendi af laukinum or sarinu. hon bar þat at þormodi ok bat hann eta. hann suarar. ber j brot ecki hefui ek grassott. Sidan tok hon spennitöng ok uillde draga ut jarnnit en þat uar fast ok gek huergi. stod ok litit ut þuiat sarit uar sollit. þa mællti þormodr. sker þu til iarnnsins suo at uel megi ná med tönginne fa mer sidan ok lat mik kippa. Hon gerde suo. þa tok þormodr gullhring af hende ser ok gaf lækninum bat hana sligt af gera sem hon uillde. en godr er nautrinn segir hann Olafr konungr gaf mer hring þenna j morgin. Sidan tok þormodr töngina ok kipte a burt örinne. en a

orinne voru krokar ok lagu þar a tágar af hiartanu sumar raudar en sumar huitar gular ok grænar. ok er þat sa þormodr þa mællti hann. vel hefir konungrinn alit oss huitt er þessum kalli um hiartarætr. þa quat þormodr visu.

Emkad ek raudr en riodum
rædr gron skǫgul manni
haukasetrs hin huita
hugfár um mik saran.
hitt uelldr mer at melldrar
mordueniande feniu
diuft ok danskra uopnna
Dagshridar spor

Ok er hann hafde þetta kuedit þa andadizst hann standande uit uandbalkinn ok fell æigi fyrr til iardar en hann uar daudr. Haralldr konungr Sigurdarson fyllde visuna er þormodr hafde ort. Dagshridar spor suida sagde hann suo munde skalldit vilea kuedit hafua. Nu lykr þar æfui þormodar med þessum atburdum sem nu voru sagdir.

### Fra bændum.

295. Olafr konungr fiell miduikudag hinn fiorda kalendas Augusti. þat var nærr midium degi er þeir hittuzst ok helldr firir en at midium degi tokzst orrostan en konungr fell firir nón en myrkrit hellzst fra midmunda til nóns. Suo segir Sighuatr.

Hord er sizst hermenn gerdu
hlif raufzst firir gram lifue
ǫnd at Æingla sende
omiuk konung siukan.
ok bra Olafs fiorui
olld þar er herr klof skiolldu
folksodda gek fylkir
fund en Dagr hellt undan.

Ok enn quat hann.

Adr uitu æigi mæidar
ognar skers ne herssar
þiod red þæingils dauda
þann styrk bondmanna.
er slikan gram soknnum
sárelldz undir felldi
mǫrg la dyr j dreyra
drott sem Olaf þotti.

Bęndr ræntu ecki ualinn ok uar suo eftir ǫrrostu at helldr slo otta a marga er j mote Olafi konungi hofdu verit en þo helldu þeir illuilianum ok dęmdu þat sin j mille at aller þeir menn er med konungi voru ok hǫfdu fallit skylldu hafa ongan þann umbuning edr groftr er godum monnum somde ok kǫlludu þa alla ransmenn ok utlaga. en þeir menn er rikir voru ok þar attu frændr j ualnum gafu ecki gaum at þui fluttu þeir sidan frændr sina til kirkiu ok uæittu þeim vmbunat.

### Madr feck syn.

296. þorgisl alma ok Grimr son hans foru til ualsins vm kuelldit er myrkt uar ordit. þeir toku upp lik Olafs konungs ok baru þar til

er uar huskytra nockur litil ok aud annan ueg fra bænum ok hǫfdu þeir lios med ser ok uatnn. toku þa klæde af likinu ok þogu þui ok suæipudu sidan med lindukum ok lǫgdu þar sidan nidr j husinu ok huldu vidum suo at æigi mætti sea þott menn kæmi j husit. ok gæingu j brott sidan ok hæim til bæiarins. þar hafde fylgt hernum mart stafkalla huorumtueggia ok fatækisfolk þat er ser bat matar. en þat kuelld eftir bardagann hafde þat folk mart þar dualizst ok er nattade læitade þat ser herbergis vm ǫll hus bæde stór ok sma. þar var æinn blindr madr sa er sagt er fra hann var snaudr ok fór suæinn æinn med honum ok læidde hann vti um bæinn ok læitadu ser herbergis. þeir kuomu at þui sama huse er fyrr uar getit. þar voru dyrr suo lagar at nærr uard at kriupa inn. ok er hinn blinde madr kom inn j husit þa þræifadizst hann firir vm husit [501] ok læitade huort þar mætti nockut nidr setiazst. hott hafde hann a hofde[1] ok steyptizst hottrinn firir augu honum er hann laut nidr. hann kendi firir hondum at tiornn var a golfinu. þa tok hann upp hendinne votri ok komu fingurnir vid ǫgun. en þegar bra klada a huarmana suo myklum at hann strauk fingrunum uotum vm ǫgun sin sealfr. sidan opade hann vt ór husinu ok sagde at þar matti ecki liggia inne þuiat þar var allt vott. ok er hann kom vt ór husinu þa sa hann fyst þegar skil handa sinna ok suo allt þat er nærr honum uar ok þat er hann matti sea firir nattmyrkri. hann gek þegar hæim til bæiarins ok inn j stofu. margir menn voru þar firir ok lysti hann firir þeim at hann hefde fæingit syn sina ok uar hann þa skygnn madr. en þat vissu margir menn at hann var lengi blindr þuiat hann hafde þar leinge adr verit ok gæingit vm bygdir. hann sagde at þa sa hann fyst er hann kom út ór husi æinu litlu. ok uar þar allt uott inne segir hann græip ek þar j hendinne ok nera ek uætunne um ǫgu mer. hann segir huar þetta hus stod en þeir menn er þar voru undruduzst miog þenna atburd ok toludu sin a mille huat þar munde inne vera j þui huse. En þorgisl bonde ok sonr hans Grimr þottuzst uita huar af þessi atburdr munde vera. þeir hrædduzst miog at ouinir konungs mundu rannsaka husit. sidan leynduz þeir j brott ok foru til hussins ok toku likit ok fluttu þat j brott vt j hagann ok falu þar. foru þa sidan til bæiarins ok suofu af þa nott.

## Fra þori hund.

297. þorir hundr kom fimtadaginn ofan ór Ueradal ut a Stiklastade ok fylgde honum lid mart. þar uar ok firir mart bonda lid. uar

[1]) hende *Cd.*

þa enn rofinn ualrinn. fluttu menn j brott frændr sina ok vine en uæittu biorg sarum monnum þeim er menn uilldu græda. en fiolde manna hafde þar andazst sidan er lokit uar bardaganum. þorir hundr gek þar til er konungrinn hafde fallit ok læitade liksins ok fann æigi. þa spurdizst hann firir ef nockurir menn kynne at segia honum huar lik konungs væri komit en þat visse æinge madr at segia honum. þa spurde hann þorgisl bonda huat hann visse til liks konungsins. þorgisl suarar. ecki uar ek j bardaga uæit ek þadan fa tidende. fara nu margar sogur. þat er nu sagt at Olafr konungr hafui hittr uerit uppi hea Stad ok suæit manna med honum. en ef hann hefir fallit þa munu snæitungar ydrir hafua folgit hann j holltum edr hraunum. En þo at þorir þættizst vita at hann uar fallinn þa toku margir undir ok gerdu þann kurr at konungr munde hafua burt komizst ór orrostu ok skamt munde til at hann munde fa her ok fara aftr a hendr þeim. for þorir þa til skipa sinna ok sidan ut eftir firde. þa tok at dreifazst allt bondalid ok fluttu j brot hina saru menn alla þa er hrǫrande voru huerr til sins hæimilis.

### Fra þorgilsi ok Grimi syni hans. capitulum.

298. þorgisl alma ok þeir Grimr fedgar hofdu j sinne uardueitzslu lik Olafs konungs ok voru um þat miog hugsiuker huernn ueg þeir fengi til gætt um lik Olafs konungs at æigi fenge ouinir hans at misfara[1] likinu þuiat þeir heyrdu þat ordtak bonda at þat rad munde til liggea ef lik konungs fyndizst at brenna þat edr flytia a sio vt ok sockua nidr. þeir fedgar hôfdu set vm nottina suo sem kertislios brynne þar yfir er lik konungs la j ualnum ok suo sidan er þeir hofdu folgit likit þa sa þeir iafnan lios þangat er konungrinn huillde. þeir hrædduzst at ouinir konungs munde fara ok læita liksins þar er uar ef þeir sǫi þessi merki. uar þeim þorgisle ant til þess at flytia likit til þess stadar nockurs er þeim þætti uel komit. þeir þorgisl gerdu kistu ok uondudu sem mest ok lôgdu þar j lik konungsins en sidan gerdu þeir adra kistu ok baru þar j griot ok halm suo at þat skyllde mannz hofgi vera. luktu þa kistuna vandliga. ok er a brottu uar af Stiklastodum allt lid bonda þa biuggu þeir ferd sina þorgisl ok Grimr. þeir fluttu lik konungs til skips leyniliga settu kistuna undir þiliur nidr. fek hann ser rodrarferiu nockura ok voru þeir saman .vij. menn edr .viij. ok voru þeir aller frændr hans ok vinir. kistu hafde hann met ser þa er griot uar j. settu hann j skip suo at aller mattu sea. foru sidan vt eftir firde ok fengu gott læide. komu at kuellde er myrkua

[1]) mispara *Cd.*

tok til Nidáross lôgdu þar vid konungs bryggiu. sidan sende þorgisl upp j bæinn ok let segia Sigurde byskupi at þar uar komit lik Olafs konungs. en er hann spurde þessi tidende þa sendi byskup menn sina ofan a bryggiur. þeir toku rodrarskutu ok logdu þar at skipe þorgisl ok badu þa fa ser lik konungsins. þeir þorgisl toku kistu þa er uppi stod a þiliunum ok [502] baru a skutuna. sidan reru þeir menn vt a fiordinn ok soktu þar nidr kistunne þa uar myrkt af natt. þeir þorgisl foru upp eftir anne til þess er þraut bæinn ok logdu þar at er Saurhlid er kallat. þat uar firir ofan bæinn. þa baru þeir upp likit ok inn j æydeskemmu nockura er þar stod upp fra ôdrum husum. uôktu þeir þar þa nott yfir likinu. þorgisl gek ofan j bæinn ok fann hann þa menn at mali er hellzst hofdu þar verit uinir konungs ok spurde hann þa ef þeir villde taka vid like konungs. þat þorde æinge madr at gera. sidan fluttu þeir þorgisl likit upp med anne ok grofu þar nidr j sand j mel þeim er þar uar. biuggu þeir suo um at æigi skyllde nyuirke a sia. hofdu þeir þessu lokit ollu adr dagade. foru þa til skips sins ok lôgdu þegar ut ór ánne foru sidan ferdar sinnar til þess er þeir kuomu heim a Stiklastade.

## Sueinn ok Alfiua komu til Noregs.

299. Svæinn Knutzson ok Alfifa dottir Alfinnz jallz hafde setzst til rikis a Uindlande j Jomsborg en þa hafde komit til Suæins konungs ordsending Knutz konungs fôdur hans at hann skyllde fara til Danmerkr ok þat med at hann skyllde fara til Noregs ok taka þar uit riki ok hafa þar med konungsnafnn yfir Noregi. Sidan for Suæinn til Danmerkr ok hafde þadan lid mikit. fór med honum Haralldr jall ok mart annat rikismanna. þess getr þorarinn loftunga j kuæde þui er hann orti um Suæin konung Alfifuson er kollut er Glælungs kuida.

þat uar dullaust
hue Danir gerdu
docka fôr
med dôglinge.
þar var jall fyst

at upphafui
ok huerr madr
er honum fylgde
annar dræingr
odrum betri.

Sidan fór Suæinn j Noreg ok Alfifa modir hans ok uar hann þa til konungs tekinn a hueriu lôgþinge. hann uar þa kominn austan j Uikina er orrosta var a Stiklastodum ok Olafr konungr fell. Sueinn letti eigi ferd sinne fyrr en hann kom um haustit nordr j þrandheim var hann þar til konungs tekinn sem j ôdrum stôdum. Sueinn konungr hafde ny lôg j lande um marga hluti ok uar þat eftir þui sem lôg voru j Dan-

morku en sum myklu frekari. æinge madr skyllde af lande fara nema j konungs leyfui. en ef færi fell under konung æignn þess. en huerr er uig uægi skyllde hafa uegit lande ok lausum eyre. en ef madr uar utlægr ok tæmdizst honum arfr þa æignnadizst konungr arf þann. at jolum skyllde huerr bonde fa konungi mæli mallz af ardri huerium ok lær af uxa huerium þreuetrum ok uar þat kallat vinatoddi ok spann smiors. ok husfreyia huer rygiarto þat uar lin orotit suo mikit at spent fengi lengsta fingri ok þumalfingri. bændr skylldu upp gera hus þau oll er konungr uillde hafa a bustódum sinum. seau menn skylldu gera æinn lidfærann ok gera firir huernn .xv. uetra gamla(n) mann ok med homlu læiga. huerr madr er a(t) lande reri skyllde giallda konungi landuordu huadan sem hann reri. en fiskaskip huert er færi af lande a burt skyllde giallda konungi rum um þuert skip. madr huerr er færi til Jslandz skillde giallda landaura þarlendzkr ok utlendzkr. þat fylgde þessu at þa skylldu danskir menn hafu(a) suo mikinn mettnat j Noregi at æins þeirra uittne skyllde hrinda tiu Nordmanna uitnne. En er þessi lagasetning kom upp ok bert uar firir alþydu þa toku menn þegar at ræisa ufud j moti ok gerdu kur sin j mille. mælltu þeir suo er ægi hofdu verit j motfor uit Olaf konung. taki þeir nu Jnnþrændir vinattu ok laun af Knytlingum þess er þeir borduzst vid Olaf konung ok felldu hann fra lande ok þar med uar ydr hæitit fride ok rettarbot en nu hafui þer anaud ok þrælkun ok þar med storglępi ok suiuirding ok nidingsskap. En þar uar ecki gott til motmæla. þa sa aller at ohæfuiliga uar radit. baru menn þo ægi traust til at gera uppræist j moti Suæini konungi. bar þat mest til þess at menn hefde gisla sellt Knuti konungi sonu sina edr adra frændr sina ok þat med at þa uar æinge madr til uppræistar. bratt hofdu menn amæli mikit til Suæins konungs ok kendu þat miog Allifu þat er j mote skape þotti en þa nadizst sannmæli af mórgum monnum til Olafs konungs.

## Fra Einari þambaskelfi.

300. Uetr þann hofzst umræda su af morgum monnum þar j þrandheimi at Olafr konungr være madr sannhæilagr ok iartæignir margar yrde at helgi hans. hofu þa margir ahæit vid Olaf konung vm þa hluti er monnum þotti mali skipta. fengu menn margir af þui heilsubot en sumir fararbæina edr adra hluti þa er naudsyn þotti til bera. Æinarr þambarskelfir uar þa kominn til bua sinna ok hafde þær uæitzslur sem Knutr konungr hafde fæingit honum þa er þeir hófdu fundizst [503] j þrandheimi ok jarllar hofdu fyrr gefit honum. Æinarr

hafde ekki miog verit j motgaungu vid Olaf konung hrosade hann þui sealfr. Æinarr minntizst þess at Knutr konungr hafde heitit honum ialldęmi yfir Noregi ok suo þat at konungr endi ecki heit sitt. Æinarr uard fystr manna til at hallda upp helgi Olafs konungs virdingamanna j Noregi.

### Fra þeim brædrum Arnasonum.

301. Finnr Arnnason dualdizst litla hrid a Eggiu med Kalfi þuiat hann kunni þui storilla er Kalfr hafde verit j ferdinne ok bardaga moti Olafi konungi. uæitti Finnr honum iafnan hardar atǫlur af þeim sǫkum. þorbergr Arnnason uar myckli betr stilltr en Finnr en þo fystizst þorbergr at fara heim til bus sins. fek Kalfr þa brædrum sinum langskip gott med ollum ræida ok godum bunade fek þeim ok frit foruneyti foru þeir heim til bua sinna. Arrnne Arnnason la læinge j sarum ok uard hæill ok ǫrkumblalauss fór hann sidan til buss sins vm uetrinn. toku þeir aller grid af Suæine konungi ok settuzst þeir heima brædr aller um kyrt. Sighuatr skalld hafde þegit hæimfarar leyfui þa er Olafr konungr fór austr j Gardariki en annat sumar for Sighuatr ór lande ok sudr til Roms ok med honum Besse Skalldtorfuson. þa quat Sighuatr visu þessa.

**Roms let en ek hellt hæima**
**hermodr a fǫr godri**
**giallar uond þann er gulli**
**gaf mer konungr uafdan.**
**sullt þa er silfri hialltat**
**suerd dyrt vidir þuerdu**
**logdo uopnn en uigdu**
**uers ylgiar staf fylgdu.**

En um haustit er þeir Sighuatr ok Besse uoru sunnan a læid þa mættu þeir Nordmonnum þeim er sǫgdu fall hins heilaga Olafs konungs. en uit þau tidende urdu þeir Sighuatr ok Besse ugladir miogh. Sighuatr quat þa.

**Stod ek a mot en mintumzst**
**mǫrg brast sundr targa**
**bræid ok bryniur sidar**
**borgum nærr um morgin.**
**munda ek þann er ende**
**ǫnduerdan brum londum**
**ferd minn uar þa þenna**
**þordendr konungr fordum.**

Suo er sagt at Besse þrutnade ok gerde dreyrraudan yfirlitz ok gat ecki gratit. hann gek aftr j borgina til Petrskirkiu ok sprak þar af helstride þui er hann hafde eftir fall hins hæilaga Olafs konungs. Besse uar þar grafinn at Petrskirkiu sem hann and(ad)izst. en Sighuatr komzst vid ok fellde tár er hann fra lat Olafs konungs. ok er menn sa at Sighuatr fellde tár þa mælltu þeir er vid voru staddir ok sogdu at Sighuati yrde okallmanliga er hann skyllde grata sǫgdu at hann munde

þreklitill vera er hann uard suo ueykr vid slika tidendasǫgnn. En er Sighuatr heyrde þetta quat hann visu þessa.

Fuss lætzst madr ef missir
mæyiar fadms at deyia
keyft er ast ef eftir
oflatinn skal grata,
en fullhuginn fellir
fliott styggr sa er ann drottni
uort år reck litz verra
uigtar konungs arum.

Uigtár kollum ver þat sagde Sighuatr er ver fellum vid slik tidende. Nu ferr Sighuatr sunnan kemr j Danmork ferr þa huldu hǫfde firir sakir rikis Knutz konungs þuiat hann uar grimmr ollum vinum Olafs konungs. Sighuatr kom til gistingar til æins riks bonda ok duldizst. en þat hofdu menn til skemtanar um kuelldit þeir sem firir voru at menn ræddu um skalldskap manna ok vard suo j þeirra tǫlu at þeir amælltu Sighuati vm kuedskap sinn ok tǫldu at hann hefde mart rangt ort. þa quat Sighuatr visu þessa.

Munu þeir er mest vm skynia
munn uigurs dains kunna
sidr at Sighuatz brodri
suinnz braglǫstu finna.
sik uill huerr at hneckir
halldordr bodi skialldar
els þui at aller mæla
iflaust gerat fifle.

En vm nattina er Sighuatr var sofnadr kom at honum dottir husbondans. hon uakti Sighuat ok mællti at hann skyllde upp standa ok a brott fara. þuiat þu uart kendr j gear aftan af visu þeirre er þu kuatt. en Knutr konungr hefir um allt sitt riki sett menn til hǫfuds þer at drepa þig ef færi gæfui a. nu muntu a morgin drepinn uera ef þu ferr æigi a burt j natt. Sighuatr ræis þa upp fliott ok for dag ok nætr þar til er hann kom j Noreg. Margir menn uæittu honum amæli ok toldu at hann hafde illa skilit uit Olaf konung. þa quat Sighuatr.

Hafua lati mig hæitann
Huita Kristr at vite
elld ef ek Olaf uilldag
er ek skirr um þat firrazst.
uatnnærin hefig uittne
uask ek til Roms j haska
olld leyne ek þui alldri
annarra suo manna.

Sidan for Sighuatr til hirdar Magnus konungs ok uar med honum. gerdizst hann hirdmadr hans ok uar konungr uel til hans.

## þorir hundr sagdi Knuti jartegnir Olafs.

302. Mikil var umbræda um helgi Olafs konungs ok suo um þat huerr at Knuti konungi skyllde segia. þorir hundr quazst þat gera mundu. þuiat ek hefui jartæign fæingit af konungi ok leynt hellzsti leingi. uær hǫfum keyft at Finnum .xij. mǫtvnautar [535] at þeir gerde oss þa bialba at ecki biti jarnn a. ermr uar skom a bialba þeim er ek

hafda ek var hogguinn a hondina suo at miog suo leysti fra þumalfingrinn. en þa er uer unnum a konunginum hof hann til himins ðgu sin. þa kom mer j hug glæpr minn ok bra mer vil miog suo at fra mer tok syn ok þa medan rann blod konungsins eftir spiotskeptinu ok upp a hond mer. þa var fingr minn vid groinn er ek tok syn ok er sem þradr liggi eftir um fingrinn. þessa iartæignn skal ek syna Knuti konungi hann uæit huersu makligr ek var. þorir hundr ferr til Æinglandz ok segir Knuti konungi allt huersu farit hafde. Konungr vard miðg ogladr uit þessa sðgu. þorir spurde hueriu þat gegnnde. Konungr suarar. ek þottumzst þat vita at annarhuor ockarr munde hæilagr vera ok hafda ek mer þat ætlat. þo skal ek nu leggia fe fystr til skrins Olafs konungs hans ouina ok trua fystr helgi hans ok æigi skal ek koma j Noreg med þui er Olafr er hæilagr. þorir hundr for af lande a burt litlu eftir fall Olafs konungs. þorir for ut j Jorsalahæim ok allt til Jorsala ok andadizst þar at þui er flestir menn segia. Sigurdr het son þoris hundz hann uar fadir Rannueigar er atti Jon Ar(n)ason Arnnasonar. þeirra bðrn uoru þau Vidkunnr j Biarkey Sigurdr hundr Erlingr ok Jardþrudr. Harekr ór þiottu sat hæima at bui sinu þar til er Magnus Olafsson kom j land þa drap Asmundr Grannkelsson hann j trausti konungs ok eru sidan myklar frasagnir vm skipti þeirra Asmundar ok Harekssona en Kalfr sættizst vid Magnus konung.

## Vmræda heilagleiks.

303. Eftir Stiklastada bardaga um sumarit uar su vmræda ath Olafr konungr munde sannhæilagr iafnnuel af þeim monnum er fyrr hðfdu af ollum fiandskap j mot honum gengit. toku menn þa at snuazst til amælis vid þa menn er mest eggiudu motgangs uit Olaf konung. uar af þui einna mest kent Sigurde byskup(i). gerduzst menn þa miog hans ouinir suo mykler at hann sa þann æinn sinn kost at fara a burt ok uestr til Æinglandz a fund Knutz konungs. Sidan gerdu þrændir menn ok ordsendingar til Upplanda at Grimkell byskup skyllde koma nordr til þrandheims. Olafr konungr hafde sent Grimkel byskup aftr til Noregs þa er konungr fór austr j Gardarike hafde Grimkell byskup sidan verit a Upplondum. en er þessi ordsending kom til byskups þa biozst hann þegar til ferdar þeirrar. bar þat miog til er hann for at byskup trude at þat munde sannynde uera er sagt uar fra iartæignnageord Olafs konungs ok helgi hans.

## Andlaat Knutz konungs ins rika.

304. þa er Suæinn konungr hafde radit lande .iij. uetr þa fellde hann Tryggua Olafsson firir innan Boknn. annan uetr eftir vard Magnus konungr jlendr. Sidan fór Suæinn konungr til Danmerkr ok tok þar vid riki med Hordaknuti brodur sinum. Suo segir Bearnni gullbrarskalld j Kalfs flocki.

Hafua letzstu unga iofra
erfd sem til red huerfa
satt er at sitia matti
Suæinn at Danmork æinne.

kendut Kalfr til handa
kappfusum Magnuse
ollut er at stiller
iǫrd hann fekzst ór Gaurdum.

þann sama uetr uard Sueinn Alfifuson sottdaudr j Danmork en Knutr hinn riki andadizst ok þann uetr Jdus dag nouembris manadar. þa hafde hann konungr verit yfir þremr þiodlondum Æinglande Danmork ok Noregi .vij. uetr. en yfir Æinglande ok Danmork fiora uetr ok .xx. en fyst yfir Danmork æinne .iij. uetr. en hann var allz konungr .vij. uetr ok .xx. en þeir menn er glǫg(g)ligazst telia segia suo at Olafr konungr hinn helgi væri yfir Noregi .xv. uetr sidan Suæinn jall for ór lande en adr um uetrinn tok hann konungsnafnn a Upplondum. Suo segir Sighuatr.

Olafr red hit efra
andprudr firir þui lande
fulla uetr adr felle
fimtan a þui lade.

huerr hafui fædzst hit nyrdra
heims enda ser kendan
skiolldungr hellt en skillde
skemr landreki hinn fremri.

Olafr konungr uar halfertǫgr at alldri þa er hann fell at sǫgn Ara prestz hins froda. hann hafde att .xx. orrostur. Suo segir Sighuatr.

Sumir trudu a gud gumnar
grein uar lids a midle
folkorrostu fylkir
framradr tigu hade.

fregr bad hann a hægre
hand kristith lid standa
fedr Magnus bid ek fagnnla
fliott mætum gud drottni.

Nu er sagdr nockurr hlutr sǫgu Olafs konungs fra þeim tidendum er gerduzst medan hann red Noregi ok suo fra falle hans. en nu skal þat æigi nidr leggia er honum er þo mest uegsemd j at segia fra þui er helgi hans var upptekin ok fra jartæignagerd hans.

---

NIDRANARORD ALFIFU TIL HEILAGS OLAFS KONUNGS.

Zacharias agætr kennimadr ok fadir hins blezsada Johannis baptiste spade ok firir sagde j þeim lofsông er dagliga synngzst j hæilagri kirkiu til lofs ok heidrs lausnara vorum [506] ok lauarde huerr at suo uattar at blezadr drottinn Jesus Cristus formerade ok fullgerde lausnn ok frelse sins lyds j sinne uitian. sannliga uitiade drottinn Jesus sins lyds þa er hann sende sitt lysanda liosker huert at birte alla Nordrhalfuna sem uottar lifssaga ok iartæignagerd hins blezada Olafs konungs at uist æigi munu dęmi til finnazst at nockurr iardneskr konungr hafui framar hans fótspor gengit um marga hluti en þessi hans uirkta vin Olafr konungr. Grimkell byskup fór til fundar vid Æinar þambaskelfi tok Æinar feginsamliga vid byskupi. mælltu þeir sidan marga hluti suo ok þat er þar j lande hofdu stórtidende ordit. urdu þeir a marga hluti sattir sin a mille. sidan for byskup inn til kaupangs tok þar oll alþyda vel vit honum. hann fór eftir uandliga um taknn þau er sogd voru fra Olafi konungi spurdizst honum uel til þess. Sidan gerde byskup ordsending inn a Stiklastade til þorgils ok Grims sonar hans ok stefnnde þeim vt til bæiar a sinn fund. þeir fedgar lôgduzst þa ferd æigi undir hofut ok foru ut til bæiarins a fund byskups. þa syndo þeir ôll þau merke er þeir hofdu viser ordit suo ok þat huar þeir hofdu folgit lik konungs. Sidan sende byskup eftir Æinari þambarskelfi ok kom Æinarr til bæiarins. hofdu þeir byskup þa tal saman vid konung ok alþydu ok badu at konungr skyllde lof til gefa at lik Olafs konungs væri tekit ór jordu. konungr lagde þar lof til ok bat byskup gera þar af slikt er hann uillde. þa uar mikill fiolde manna j bænum. Byskup ok Æinarr ok menn med þeim foru til þar sem lik konungs uar iardat ok letu þar til grafa. kistan var þa komin upp ór iordu miog suo. þat uar ok margra manna rad at byskup leti lik konungs grafa nidr j jord at Klemenskirkiu. En er lidit uar fra andlati hans .xij. manudr ok .v. nætr þa uar upp tekinn hæilagr domr hans. uar þa kista Olafs konungs spanosa sem nyskafin væri. Grimkell byskup gek þa til er upp uar lokit kistu Olafs konungs. þar uar dyrdligr ilmr þa berade byskup andlit konungs ok uar onguann ueg brugdit asionu hans. slikr litr ok rodi j kinnum sem þa er hann munde er hann væri nysofnnadr. en a þui fundu menn mikinn mun er set hofdu Olaf konung þa er hann fell at sidan hafde uaxit hár hans ok negl þui næst sem þa munde ef hann hefde lifs uerit her j hæime þa alla stund sidan hann fell. þa gek Sueinn konungr til at sea lik Olafs konungs

ok aller hofdingiar þeir er þar uoru þa mællti Alfifa. fúrdu sæint funa menn j sandinum. ecki mundi suo vera ef hann hefde j molldu legit. Sidan tok byskup sôx ok skar af hari hans ok af kômpum hans. hann hafde haft langa kampa suo sem þa var tijlt. Byskup mællti til konungs ok Alfifu. nu er hár hans skorit ok kampar suo sijtt sem þa er hann andadizst en þuilikt uaxit sem nu siai þer af skorit. þa suarar Alfifa: þa þiki mer þetta hæilagr domr ef þat brennr æigi j elldi en oft hôfum ver set hár manna hæillt ok osakat þeirra er lengr hafa j iordu legit en þessi madr. Sidan let byskup taka ser elld j glodarkeri ok blæzsade. reykelsi lagde hann ok j elldinn ok þar med hár Olafs konungs. en þa er brunnit var reykelsit allt þa tok byskup har ór elldinum ok uar þa obrunnit. let byskup þetta sia konung ok adra hofdingea. þa bat Alfifa harit leggia j ouigdan elld. þa suarar Æinarr þambaskelfir ok bat hana þegia ok ualde henni mörg ord hord. Uar þat þa byskups atkuæde ok konungs samþycki ok domr allz heriar at Olafr konungr væri madr sannhæilagr. uar þa likami hans borinn j Clemens kirkiu ok uæittr umbunadr adr yfir haalltari. uar kistan suæiput pelli ok tialldat um guduefium. urdu þa þegar margar jartæigner þar at helgi Olafs konungs.

## Jarteinir hins hellaga Olafs konungs.

306. þar a melhum sem lik Olafs konungs hafde legit kom upp fagr brunnr ok fengu menn bot mæina sinna af þui uatnni. uar þar uæitir umbunadr ok hefir þat uatnn uerit iafnan sidan uandliga uarduæitt. uar þar fyst ger kapella ok sett þar alltarit sem legit hafde lik konungsins en nu stendr j þeim stad Kristzkirkia. let Eystæinn erkibyskup þar setia haalltari j þeim stad sem konungrinn hafde legit þa er hann ræisti þetta hit mykla mustari. Suo er sagt at Olafskirkia stande þar nu sem þa stod eydeskemma su er lik Olafs konungs uar nattsett j. þar er nu kallat Saurblid er hæilagr domr Olafs konungs uar borinn af skipe ok er þat nu j midium bæ. Byskup uarduæitti helgan dom Olafs konungs skar har hans ok negl þuiat huorttueggia óx suo sem þa er hann væri lifande madr j þessum heimi. Suo segir Sighuatr.

Lyg ek Olafui æigi
yss sem kuikir tifar
gædi ek hellzst j hrôdri
haruoxst konungs aru.

en hellzst þeim er son selldu
sudr þann er ox j Gôrdum
hann fek þess af liosum
lausn Ualldamar hause.

þorarinn loftunga [507] orti um Suein konung kuędi þat er Glælungs kuida hæitir ok eru þessar visur j.

Nu hefir ser
til sess hagat
þiodkonungr
j þrandheimi.
þar uill æ
æfui sina
bauga briotr
bygdum rada.

þar er Olafr
adan bygde
adr hann huarf
til himirikis.
ok þar uard
sem uitu aller
kuikligr hattr
af konungmanni.

Hafdi ser
hardla radit
Haralldzson
til himerikis
adr seimbriotr
at sætu uard
þar er hann
med hæilu liggr
lofsæll gramr
like sinu.

þar kna
sem a kuikum manni
hár ok negl
hanum uaxa.
þar borduegs
biollur knegu
um sæng hans
sealfar hringiazst.
ok huernn dag
heyra þiodir
klucku hliod
yfir konungmanni.

Enn þar upp
af alltari
Kristi þæg
kerti brenna.
suo hefir Olafr
adr hann anndadizst
syndalaus
salum borgit.

þar kemr huerr
er hæilagr er
konungr sealfr
krypr at gagnni.
ok bæidendr
blindir sækia
þiodir mals
sem þadan hæilir.

Bid þu Olaf
at hann arnni þer
hann er guds madr
grundar sinnar.
hann um geti
af gude sealfum
ár ok frid
ollum monnum.
þa er þu rettir
firir reginnagla
boga mals
bænir þinar.

## Fra suerdinu Hneiti er atti Olafr konungr.

307. Sá atburdr uard a Stiklastödum j orrostu sem fyrr uar ritat at Olafr konungr kastade fra ser suerdinu Hnæiti þa er hann fek sár. en æinn suænskr madr hafde [brott suerdit[1] ok tok þa upp suerdit Hnæiti ok for med þat. en sa madr komzst ór bardaga ok fór med ödrum flottamonnum. kom hann fram j Suiþiod ok for hann med odrum monnum heim til buss sins ok hafde hann suerdit vm alla sina æfui

[1]) r. [brotit suerd sitt

en sidan hans son ok huerr eftir annan þeirra frænda ok fylgde þat iafnan at huer sagde ôdrum nafnn suerdzsins ok suo þat huadan þat uar komit. En myklu sidarr a dôgum Kirialags Myklagardz keisara at þar uar j Myklagarde stór suæit Ueringea þa bar suo at a æinu sumri þa er konungr uar j herferd ok lagu þeir j herbudum sinum. Ueringiar helldu uord ok uoktu yfir konungi lagu þeir a uellinum firir utan herbudir en þeir er adr hofdu uakat logduzst þa nidr. þeir uoru aller aluopnnadir. þat uar þa er þeir logduzst til suefnns at huerr þeirra hafde hialm a hofde ok skiolld yfir ser suerd undir hofde ok skillde leg(g)ia hina hægri hônd um medalkafla. en huerr þeirra felaga sem hlotit hafde hinn efra hlut uaknnade hann j dagan þa var suerd hans j brottu en er hann læitade þa sa hann huar suerdit la a uellinum langt fra honum a burt. hann stod upp ok tok suerdit. ætlade hann at felagar hans þeir er uakat hôfdu mundu gert hafua til spotz vid hann at uela fra honum suerdit. þeir syniud(u) þess firir sig. Slikir atburdir urdu .iij. nætr. þa undradizst hann miog sealfr ok suo adrir þeir er þetta sa edr heyrdu ok spurdu menn eftir hueriu þetta mundi gegnna. þa segir hann at suerd þat er kallat Hnæitir ok Olafr konungr hafde att ok borit sealfr j orrostu a Stiklastodum. hann segir ok huernn ueg farit hafde vm suerdit. Sidan uar þetta sagt Kirialags konungi. þa let konungr kalla til sin þenna mann er med suerdit fór fek konungr honum .iij. iafnnuægi suerdzsins af gulle en konungr let suerdit bera j Olafskirkiu þa er Uæringiar hallda. uar þat þar sidan yfir alltare. Endride iunge het lendr madr j Noregi a dôgum þeirra Haralldz gilla Jnga Eystæins ok Sigurdar. Endride uar þa j Myklagarde er þessir atburdir gerduzst ok sagde þessa sôgu j Noreg suo sem Æinar Skulason uottar j drapu þeirre er hann orti um Olaf konung hinn helga. ok er þat kuæde kuedit um þenna atburd ok fleire adra þott her se æigi skrifadir.

## Magnus konungr let gera skrin Olafs.

308. þa er Magnus konungr Olafsson hinn (gode) uar til konungs tekinn j Noregi let hann gera skrin ok bua gulle ok silfri ok stæinum. er skrin þat giort suo sem likkista bæde at mikillæik ok ad odrum uexsti en sualer undir nidri en yfir uppi uar uaxit sem rafr ok þar upp af hofut ok bust a ugttinu. lamar a bak en hespur a firir ok þar læst med lukli. Sidan let konungr leggia j skrinit helgan dom Olafs konungs. urdu þar þa margar jartæignir. Suo segir Sighuatr.

Geort er þeim er gott bar hiarta
gullskrin af ueg sinum
hrosa ek helgi ræsis
herr sotti gud drottinn.

þar gengr margr fra mærum
mæidr þess konungs ræide
hræins med helgar sioner
hrings er blindr kom þingat.

þa var þat j logh tekit at hallda hæilagt um allan Noreg artid Olafs konungs. uar sa dagr þegar suo halldinn sem hinu stærstu hatidir. Suo quat Sighuatr:

Oss dugir Olafs messo
iofur magnnar gud fagnna
mæinalaust j minum
Magnus fǫdur harmi.

skylldr er ek skilfings hallda
skollaust þess er bio gulle
helge handar tialgur
harmdauda mer raudu.

## Jartein v(eitt) Guthormi.

309. J þenna tima uar Guthormr son Ketils kalfs af Hringunese ok Gunnhilldar [508] systur Olafs konungs hins helga j uestruiking. hann hafde fridland ok uetrsetu j Dyflinne a Jrlande ok uar þar med kærlæikum myklum med Maddade konungi. um sumarit for Maddadr konungr ok Guthormr med honum til Brethlandz ok fengu þar ogrynne fiar. Sidan logdu þeir j Ǫngulsund. þa skilldu þeir þar skipta herfange sinu. en er fram uar borit þat hit mykla silfr ok allzkonar gersimar þa uillde konungr æinn saman hafa þat allt ok virda þa litils vingun sina vid Guthorm. Guthormi likade þat illa ef hann skyllde uera hlutræningr ok menn hans. konungr sagde at hann skyllde æiga .ij. kosti firir hondum. sa annar at una þui er ver vilium vera lata en sa annar at hallda bardaga vid oss ok hafui sa þa fe er sigr hefir ok þat med at þu skallt ganga af skipum þinum. skal ek þau hafua. Guthormi syndizst mikill uande a badar hendr þotti illt at lata skip sin firir ongua tilgeǫrd þat uar ok haskasamligt at beriazst vid konung ok þat hit mykla lid er honum fylgde en lidsmunr þeirra uar suo mikill at konungr hafde .xvj. langskip en Guthormr .v. skip. þa bat hann konung lea ser fresta .iij. nætr til umrada vit sina menn hygzst hann a þeirre stundu mega mykia konungs skaplynde ok koma sinu male j betri vingan vit hann med fortolum sinna manna. en þat fekzst ecki af konungi sem hann mællti til. þat uar Olafs messo aftan. þa kaus Guthormr ser þann kost helldr at deyia med dræingskap edr uega sigr helldr en þola skom ok suiuirding ok klækisord. þa kallade hann a gud ok hinn helga Olaf konung frænda sinn ok bat hann þa fulltings ok healpa(r) ser ok het[1] til þess helga mannz huss at gefa tiund af ollu

[1]) til þes helga mannz at gefa *tilf. Cd.*

þui herfange er þeir hlyti ef þeir fenge sigr. Sidan fylkti hann lide sinu ok skipade j moti þeim hinum mykla her ok red til at beriazst. en med fulltinge guds ok hins helga Olafs konungs þa fek hann sigr en þar fell Maddadr konungr ok huerr madr er honum fylgde. ok eftir þann halæita sigr þa uendi Guthormr hæim ór þeirri fôr gladr med ôllum fiarhlut þeim er þeir hôfdu. þa uar af tekit silfrinu þui er þeir hôfdu fæingit hinn tiundi hlutr suo sem hæitit uar hinum hæilaga Olafi konungi ok uar þat ofamikit fe suo at af þui fe let Guthormr gera rodu eftir uexsti sinum edr stafnnbua sins ok er þat likneski myklu mæira en þeir menn er nu eru. gaf Guthormr rodu þa suo buna til stadar hins heilaga Olafs konungs. hefir hon þar uærit sidan til minningar sigrs Guthorms ok iartæignar hins heilaga Olafs konungs.

Kirialax konungr feck sigr firir aarnon hins heilaga Olafs konungs.

310. Sa atburdr uard j Griklande þa er þar var Kirialax konungr at konungr fór a Blokumanna land. en er þeir komu a Persinna uollu þa kom þar a moti honum hæidinn konungr med oflyianda her. þeir hofdu þangat haft hestalid ok uaggna stora miog ok ofan a uigskôrd. en er þeir biuggu um nattbolstat sinn þeir skipudu uôgnum huerium vm annan firir vtan herbudirnar grofu þeir dike stor firir innan var þat þa uige suo mikit sem borg ueri. Konungr hinn hæidni uar blindr. en er Grickia konungr kom þar þa settu Grickir fylking þar j moti ok ridu fram huorirtueggiu ok borduzst. for þa at illa ok ohæfuiliga. flydu þa Grickir ok hôfdu fæingit mikit mannlat en hæidingiar fengu sigr. þa skipade konungr fylking af Frôkkum ok Flæmingium. en sidan ridu þeir fram j moti hæidingium ok bôrduzst vit þa ok fór sem hinum fyrrum at margir flydu en aller voru drepnir þeir er æigi komuzst undan. uar þa Grickia konungr ræidr miog hermonnum sinum. þeir suara honum suo badu hann taka til Uæringia vina sinna. Konungr suarar suo. at hann uill æigi spilla gessimum sinum suo at læida fa menn þott þeir se huasser j moti suo myklum her. þa suarar ordum konungs þorir helsingr er þa red firir Ueringium. þott þar væri firir elldr brennande þa munda ek ok minir þegnar j hlaupa ef ek uissa at þat keyftizst j at þer konungr hefdit þa frid. Konungr suarar. heiti þer a hinn hæilaga konung til fulltings ok sigrs ydr. Veringiar hofdu fim hundrat manna. þa toku þeir hæit sitt ok hetu þui at gera kirkiu j Myklagarde med sinum kostnade ok godra manna stodum ok lata þa kirkiu ræisa til uegs ok dyrda hinum hæilaga Olafi. Sidan runnu Væringiar fram a uôlluna. en er þat sa hæid-

ingiar þa segia þeir konungi suo at þar for enn lid af Grickium ok er þetta sogdu þeir æigi hand full manna. þa spyrr konungr. huerr er sa hinn tigulige madr er þar ridr a huitum hesti firir lide þeirra. Æingan seam ver sôgdu þeir. þar var æigi minne lidsmunr en .lx. hæidingia voru j mot æinum kristnum manni en æigi helldu Væringiar at sidr til bardaga alldiarfliga. en þegar er þeir [509] (kuomu saman) þa kom flotti j lid hæidingia af hrætzslu suo at þeir toku þegar at flyia. Ueringiar toku at drepa mikinn fiolda. en er þat sa Gricker ok Frackar þeir er adr hofdu flyit firir hæidingium sækia þa til ok reka flottann. voru þa Væringiar komnir upp j uagnaborg. uar þar hit mesta mannfall. En er hæidingiar flydu þa uard handtekinn hinn heidne konungr ok hofdu Væringiar hann med ser. toku kristner menn þa herbudir hæidingia ok uagnaborg.

## Jartein Olafs konungs vid konu.

311. Græifui æinn uar j Danmôrk illr ok ôfundsiukr. hann atti ambatt æina ættzskada ór þrændalogum ok dyrkade hon Olaf konung ok trude fastliga hans hæilaglæik. en sa greifui er adr gat ek tortrygde allt þat er honum uar sagt fra þessum hins helga mannz jartæignum quat þat ecki vera nema kuitt æinn ok pata gerde ser at gamnni ok gabbi lof ok dyrd þa alla er landzfolk uæitti þeim goda konungi. En nu kom at þeim hatidardegi er sa hinn millde konungr let lif sitt upp a ok aller Nordmenn helldu. þa uillde sa hinn ouitri græifui ecki hæilagt lata ok baud ambatt sinne at hon skyllde ellda ofnn til brauds a þeim degi. vita þottizst hon æde þess græifa at hann munde henni sarliga þess hefnna ef hon gerde æigi þat er hann baud henni. gengr hon til þegar ok bakade ok elldi ofnninn ok uæinade miog medan hon starfade ok hæitadizst vid Olaf konung ok kuetzst alldri mundu a hann trua nema hann gerde nockura bending ok hefnnde þessi odæmi. Nu munu þer heyra mega makligar refsingar ok sannligar iartæignir. allt uar þat iafnnskiott ok a æinne stundu at græifui þessi uard blindr badum ôgum ok braud þat allt uard at grioti er hon hafde j ofnnin skotit ok er komit af þui grioti til hins helga stadar Olafs konungs ok vida annarstadar. Sidan hefir Olafs messa halldin uerit j Danmôrk.

## Miraculum Olafs konungs.

312. Uestr a Uallande uar æinn madr suo uanhæill at hann uar krypplingr ok gek a kniam ok knuum. hann uar staddr uti a ueg ok

uar sofnnadr. þa dreymde hann at madr kom til hans gofugligr ok spurde huert hann ætlade at fara. en hann nefnnde æinn bæ til. en hinn gǫfuglige madr mællti uit hann. far þu til Olafs kirkiu þeirrar er j Lundunum stendr ok muntu þar hæill verda. En sidan uaknnade hann ok for þegar a læid til Olafs kirkiu. en um sidir þa kom hann til Lunduna bryggiu ok spurde þar borgarmenn ef þeir kynne at segia honum huar Olafs kirkia væri. en þeir kuodu myklu flæire kirkiur þar vera en þeir visse huerium huer uar helgud. En litlu sidar þa gek madr at honum ok spurde huert hann gerdizst. hann sagde honum. uit skulum fara segir hin komni madr badir samt til Olafs kirkiu ok kann ek læid þangat. Sidan foru þeir yfir bryggiuna ok foru þat stræti er til Olafs kirkiu la en er þeir kuomu til kirkiugardzhlidsins þa stæig sa yfir þreskiǫlldin þann er j hlidinu var en kryplingrinn uelltizst þar inn yfir ok ræis þegar heill upp. en þa er hann sazst vm þa var forunautr hans horfinn.

## Miraculum.

313. Olafr het son Haralldz konungs annar Magnus. hann lifde skamma stund sidan var Olafr konungr j Noregi. hann let gera kirkiu j Noregi j kaupange j þeim stad er Olafr konungr uar fyst iardadr ok let þar mustari bua at ǫllu. uar þa uigd Kristkirkia. uar þar þa Olafs skrin ok byskupsstoll. þar urdu þa margar iartæignir. margir sottu þangat at iafnnlæingd þess er kirkian er vigd ok a þeim degi er sa guds dyrlingr Olafr konungr skildizst vid þenna heim ok for til æilifrar dyrdar. En nu hofdu flutz .iij. siukir[1] þangat til hans helgu grafar ok hugdu ser til miskunnar ok hæilsu. nu færr æinn af þeim syn sina a messu aptninum er sionlauss kom þangat en a messu deginum sialfum þa er heilagr domrinn uar vt borinn ok skrinit uar nidr sett j kirkiugarde eftir uanda þa fek mallauss madr miskunn er adr uar dumbi. kona æin uar hinn þride madr er þangat hafde sott ór Suiþiod austan ok j ferd þeirri hafde hon þolat mykla naud ok uar sionlaus. treystizst hon miskunn guds ok kom þar farande a þeirri hatijd. hon uar læidd sionlaus inn j hus þess hins helga mannz en at messo um daginn ok fyr en hon uar ut sungin þa sa hon badum ǫgum hans hit helga skrin. for hon þadan a brott hæileyg med halæitum fagnnade en hon hafde blind verit vm atian ar ok gallt gude þackir.

[1]) til *tilf. Cd.*

### Miraculum j Nidarosi.

314 Sa atburdr gerdizst j Nidárose er skrin Olafs konungs var borit vm stræti at hǒfugt uard skrinit suo at menn fengu æigi or þeim stad borit. en sidan uar skrinit nidr sett ok brotit upp strætit ok [510] læitat huat þar uar vndir ok fannzst þar barnns lik er myrt hafde verit ok folgit þar. uar þa þat j brott borit en aftr bætt strætit suo sem adr hafde uerit en borit skrinit at uanda.

### Olafr konungr frialsade menn af elldi.

315. Um daga Magnus konungs berfætz bar þat til j kaupange þar er Olafr konungr huilir at elldr kom j hus j bænum ok brann vida. þa var borit vt ór kirkiu skrin Olafs konungs ok sett a mot elldinum. sidan hliop til madr æinn huatuiss ok ouitr ok barde skrinit ok hæitadizst vit þann hinn helga mann suo at þeir hugdu at allt munde þa upp brenna nema hann byrge þeim j sinum bænum bæde kirkian ok ǒnnur hus med. let almattigr gud uid berazst kirkiubrunann en þeim hinum ouitra manni sendi hann augnaverk þegar eftir um nottina ok la hann þar allt til þess er hinn heilagi Olafr konungr bat honum miskunnar vid almatkan gud ok bættizst honum j þeirri kirkiu syn sin ok hæilsa.

### Jarteinir Olafs konungs.

316. Sa atburdr uard enn j kaupangi at kona æin uard færd til stadar hins hæilaga Olafs konungs sem hann huilir. hon uar suo aumlig at hon uar kreft ǒll saman suo at badir fætr lagu biugir vid knen uppi. en er hon uar oft a bænum ok hafde hæitit a hann gratande þa bætti hann henni þetta hit mykla uanhæilinde at fætr hennar ok leggir ok limir aller rettuzst ór hlyckium fra þionum ok uar sidan huerr hennar limr ok lidr med rettri skepnnu. matti hon æigi adr skrida þangat en þadan gek hon heil ok hraust til sinna heimkynna.

### Olafr frelsti mann.

317. Mann æinn danskann toku hæidnir menn ok fluttu til Vindlandz ok hofdo þar j bondum med odrum herteknum monnum var hann vm daga j iarnum einn saman uarduæitzslulaus en um nætr þa uar hann suo buinn j fiotri til þess at hann hlypizst æigi j brott en sa hinn aumi madr bæid alldri suefnn ne ro firir harms sokum. huglæiddi hann marga uega huat til skyllde taka edr healpræda læita kuiddi miog anaud ok hrætzslu bæde sullt ok pislum ok uænti ǒngrar vtlausnar af

frændum sinum firir þui at þeir hðfdu leystan hann fra hæidnum lond-um med fe ok þottizst hann vita at þeim munde þickia þa mikit firir þui ok kostnadarsamt at ganga undir hit þridea sinn. vel hefir sa madr er æigi bidr slikt illt þessa hæims sem hann þottizst bedit hafua. Nu gerde hann ser þat j hug at hlaupazst j brott ok komazst undan ef þess yrde audit. þui næst red hann til a nattarþeli ok drap adr son bonda ok hio af honum hofudit ok stefnnde til skogar med fioturin undan. en um morguninn er lysti verda þeir varir vid ok fara eftir þeim med hunda er þeir voru uanir at spyria þa upp er undan kuom-uzst. þeir finna hann j skogi þar er hann la ok hafde leynnzst firir þeim. nu taka þeir hann hondum ok beysta ok læika allz konar illa. sidan draga þeir hann hæim lia honum lifs ok þo nauduliga ok ðngrar annar(ar) miskunnar. draga hann til ok settu þegar j myrkuastofu þar er inne voru .xv. adrir kristnir menn. bundu hann þegar bæde j iarn-um ok ðdrum bondum sem fastazst mattu þeir. suo þotti honum ues-olld ok pisler þær er hann hafde fyrr haft sem þat væri skuggi nockur þess allz hins illa er fyrr hafde hann reynt. æinge madr sa hann j þeim pislum med sinum ðgum ath honum bæde miskunnar. ðngum manni þotti aumligt vm uesolld hans nema kristnum monnum er þar lagu bundnir med honum þeir hðrmudu ok gretu hans mein ok sina ogæfu. en um dag nockurnn lðgdu þeir rad firir hann badu at hann hetizst hinum hæilaga Olafi konungi ok gæfizst til embættismannz honum j hans dyrdarhuse ef hann kæmizst j brott med guds miskunn ok hans bænum ór þeirri prisund. nu jattade hann þui feginn ok gafzst þegar til þess stadar er þeir badu hann. Nott æina hina næstu þottizst hann sia mann æinn standa hea ser ecki mikill ok þotti hann mæla vid sig a þa læid. heyr þu hinn aumi madr segir hann hui riss þu æigi upp. Hann suarar. lauardr minn huat manna ertu. Hann suarar. ek er Olafr konungr er þu kalladir a. Ho ho lauardr ok vinr godr ek uillde feginn upp risa ef ek mætta. Sidan (hæitr) hinn komni madr a hann ok quat suo at orde. stattu upp skiott ok ædrazst ecki firir uist ertu [brotu] lauss. þui næst uaknade hann ok sagde þa sinum felðgum huat firir hann hafde borit. sidan badu þeir hann upp standa ok freista ef satt væri. upp stendr hann ok kende at hann uar lauss. þa sogdu felagar hans at honum mundi þat firir ecki koma þuiat hurd uar bæde læst utan ok innan. þa lagde til gamall madr er þar uar ðmliga halld-inn ok bat hann [511] æigi tortryggia þessa hins helga mannz miskunn er hann hafde lausnn af feingit. ok suo at hann mun þui iartæignn gert hafa at þu skylldir af hans miskunn hedan laus uerda en æigi þer til

uesalldar mæire ok pisla meiri. nu lát uid fliott segir hann ok læita dyra ok ef þu matt nu brott komazst þa ertu holpinn. Stockr hann þegar a skog a brott iafnnskiott. þeir urdu þa þegar varir uit er hans gættu. þeir slogu þa lausum hundunum ok fara þeir sem skyndiligazst en hann liggr ok leynizst ok ser gerlla uesell kall huar þeir fara eftir honum. nu uillazst hundarnir farssins þegar þeir geingu at honum en þeim ollum uilltizst syn at æinge þeirra matti finna hann ok la hann þar firir fotum þeim. uendu þessir þa hæim aftr ok uæinudu miog ok hormudu miog er þeir mattu æigi finna hann. en Olafr konungr let hann æigi finnazst er hann uar til skogar kominn ok gaf honum heyrnn sina ok hæilsu goda er þeir hofdu adr barit hofut hans ok knosat til þess er hann uar daufr. þui næst kom hann ser a skip med kristnum monnum tuæimr þeir er leingi hofdu þar legit ok verit pindir ok neyttu þess farkostar aller saman sem akafazst ok flutluzst þa a læid af þeim hlaupstige. Sidan sotti hann til þess helga mannz hus er hann uar heill uordinn ór herfðr. þa idradizst hann sinna hæita gek þa a ord sin vit þann hinn millda konung ok hliopzst j brottu vm dag ok kom at kuellde til bonda æins þess er honum uæitti herbergi firir guds saker. sidan vm nattina er hann uar j suefnni þa sa hann meyiar .iij. ganga til sin fridar ok fagrbunar ok ortu orda a hann ok bðrdu hann med myklum auitum hui hann skyllde suo diarfr gerazst at hann hlype fra þeim goda konungi er honum hafde suo mykla miskunn uæitt fyst er hann leysti hann ór iarnum ok allre pisl ok fysazst fra þeim liufa lauard er hann hafde adr gefizst. þui næst uaknade hann felmsfullr ok stod upp þegar ardegis ok sagde husbonda huat firir hann hafde borit. en hinn gode bonde let hann ðngu ðdru vid koma en fara aftr til þess stadar. Sa madr ritade at upphafui þessa iartæignn er sealfr sa a honum iarnnastadinn.

### Olafr konungr græddi Kolbein.

318. Kolbæinn het madr iungr ok fatækr en þora modir Sigurdar konungs iorsalafara let skera tungu ðr hofdi honum. ok uar til þess æigi mæiri sok en sa hinn ungi madr Kolbæinn hafde æitt stycki haft af diski konungs modur ok sagde at stæikari hafdi gefit honum en hann þorde æigi uit at ganga firir henni. sidan fór sa madr langa hrid mallaus. þess getr Æinar Skulason j Olafsdrapu.

Gðfug let hðrnn or hofde
huitings of sok litla
audar aumum bæide
ungs mannz skera tungu.

þann sam uær er vorum
ualaust numinn mali
hodda briotr þar er hæitir
Hlid ſam uikum sidar.

Hann sotti til þrandhæims ok til Nidaross ok uakti at Kristzkirkiu. en um ottosaung Olafs uokudag hinn sidarra þa sofnnade hann ok þottizst sia hinn hæilaga Olaf konung koma til sin ok taka hendi sinne j stufinn tungunnar ok heimta hana. en hann uaknade heill ok þackade gude feginsamliga ok Olafi konungi er hann hafde heilsu ok miskunn af þe_it. hafde farit þangat mallaus til hans helga skrins en þadan for hann hæill ok skorinordr.

## Heilagr Olafr hialpadi Halldori.

319. A dogum þeirra Eystæins konungs ok Jnga uard sa atburdr at sa madr er Halldorr er nefnndr uard firir Uindum ok toku þeir hann ok uæittu honum meitzsl skaru kuerkina ok drogu þar ut tunguna ok skaru af j tungurotunum. sidan sotti hann til hins helga Olafs konungs ok rende hann hugnum til þess hins helga mannz ok bat gratande þann hinn blezsada konung lea ser mals ok hæilsu. þui næst fek hann mal ok miskunn af gude firir arnnadarord hins signnada Olafs konungs ok gerdizst þegar þionostumadr hans vm alla sina lifsdaga ok var dyrdligr madr ok trufastr. þessi atburdr ok iartæignn uard halfum manade firir Olafs voku hina sidarre a þeim degi er Nicholaus cardinalis uar landfastr j Noregi.

## Hinn helgi Olafr konungr bætti orkuml Rikgarz prestz.

320. Brædr .ij. voru a Upplondum kristnir menn ok feadir vel synir Guthorms grabaks Æinarr ok Andreas modurbrædr Sigurdar konungs Haralldzsonar. attu þeir odal ok æignir allar. systur attu þeir frida at asionu en æigi til forsiala vid orde uondra manna sem sidar reyndizst. hafde hon blidlæti mikit vid prest æinn enskan er Rikgardr het er þar uar a uist med þeim brædrum hennar ok gerdi honum mart j uilld [512] oft mikit gagnn firir sakir goduilia þeirra. bar at æigi betr en vm konu þa flaut ferligt ord. þegar þat uar a malrædu komit þa hugdu allir menn þat a hendr presti ok suo brædr hennar. þegar þeir urdu þess varir þa letu þeir hann likligazstan til vera firir alþydu j þeirri myklu blidu er þeirra uar a medal. uard þeim þo laginn mikill ofagnadr sidar sem æigi uar ðruænt er þeir leyndu þessi vel ok letu ecki a ser finna. en um dag nockurnn kolludu þeir prest til sin. hann

uarde æinskis af þeim nema gods. teygdu þeir hann hæiman med ser ok kuoduzst fara mundu j annat herat ath smida þar nockut þat er þeir þyrfti ok badu hann fylgia ser. þeir hofdu hæiman mann æinn er visse rad med þeim ok foru a skipe eftir uatnne þui er Rǫnd hæitir. þeir geingu þar a land upp ok leku stund nockura. þa foru þeir j nockurnn leyndan stad. þeir badu þa þrælinn liosta prest ǫxarhamars hǫgg. hann gerde sem þeir bado ok slo prest suo at hann la j suima. En er hann uitkadizst þa mællti hann. hui skal nu suo hart vid mig læika. þeir suorudu. þu uæitzst þo at æinge segi þer þa skalltu nu vita huat þu hefir gert. Baru þeir sidan sakir firir hann en hann syniade ok bat gud skipta ok hinn hæilaga Olaf konung a millum þeirra. Sidan brutu þeir fotleggi hans. þa drogu þeir hann a mille sin til skogar ok bundu hendr hans a bac aftr. sidan logdu þeir stræing at hofdinu en þilio undir herdar honum ok settu j sneril ok sneru at stræinginn. þa tok Æinarr hæl ok setti a ǫgat presti en þionn hans stod upp yfir ok laust a med ǫxi ok hleypti vt ǫganu suo at þegar stok nidr a kampinn. en þa setti hann hælinn a annat ǫgat ok mællti vid þioninn. sla þu nu kyrrara. Hann gerde suo. þa stok hællinn af ǫganu ok slæit fra huarminn ofan. en sidan tok Æinarr huarminn fra upp med hendi ser ok sa at ogastæinnin uar þar. þa setti hann hælinn vid kinnina ut en þionninn laust aa ok sprak ogastæinninn vt a kinnarbæinit nidr þar sem hæst var. sidan opnnudu þeir munn hans ok toku tunguna ok drogu ut ok skaru af en sidan leystu þeir hendr hans ok hofut. þegar er hann uitkadizst þa uard honum þat firir at hann lagde ǫgnastæinin upp undir brunina j stad sinn ok hellt þar at badum hondunum. þa baru þeir hann til skips ok foru til bæiar þess er heitir a Sæhæimi ok lendu þar. þeir sendu mann til bæiarins at segia at prestr uar a strondu nidri. medan sa madr uar farinn er sendr var þa spurdu þeir ef prestr mætti mæla. en hann bladrade tungunne ok villde vid læita at mæla. þa mællti Æinarr uit brodur sinn. ef hann rettir vid ok grær firir tungustufinn þa kemr mer þat j hug at hann mun mæla mega. Sidan kiptu þeir tungustufnum med tǫng ok skaru tysuar þadan fra ok j tungurotunum hit þridia sinn ok letu hann þar liggia halfdaudan. Husfreyia þar a bęnum var fatęk en þo fór hon þangat. batt hon þa sár hans oll ok læitade honum hæginda slikra sem hon matti ok bar hon hann hæim til huss ok dætr hennar med henni j motlum sinum. hann la þa hinn sari prestr aumliga halldinn. uilnadizst hann iafnan guds miskunnar en tortrygde alldri bat mallaus med hugrenningu ok sorgfullu hiarta þui ollu traustara sem hann uar siukare ok rende hug til hins millda Olafs

konungs guds dyrlings. hafde hann mart adr heyrt sagt fra honum ok hans dyrdaruerkum ok trude þui af ollu hiarta a hann til allrar healpar j sinum naudum. En er hann la þar lami ok numinn ollu magni þa gret hann sarliga ok stundi med saru briosti ok bat hinn blezsada Olaf konung duga ser, en eftir midia nott þa sofnnade hann hinn sari prestr. þa þottizst hann sia gofugligann mann koma til sin ok mæla vid sig. illa ertu læikinn Rikgardr felagi se ek at æigi er mattrinn mikill. Hann þottizst suara ok sanna þat. þa mællti sa. miskunnar ertu þurfui. Prestr suarar. ek þyrfta nu guds miskunar ok hins helga Olafs konungs. Sa suarar. þu skallt nu ok fa. þui næst tok hann tungustufinn ok hæimti suo hart at prest(i) vard illt vit. þui næst strauk hann hendi sinne um ogu honum ok bæin. suo ok vm adra limu hans þa er sarir voru. þa spurde prestr. huer hann væri. Hann læit vit honum ok mællti. Olafr er her nordan or þrandhæimi. En sidan huarf hann a brott. en prestr uaknnade alhæill ok þegar tok hann at mæla. sæll er ek segir hann gudi þacka ek ok hinum hæilaga Olafi konungi er hann hefir græddan mik. En suo hörmuliga sem hann uar adr læikinn suo bradar bætr fek hann allrar þeirrar ohamingiu. en suo þotti honum sem hann hefdi huorki uordit sarr ne siukr tungan hæil ögun bæde j lag komin bæinbrotin groin ok allr hans likami [513] hæill uordinn ok fæingit hina bezstu hæilsu. en til jartæigna var þat a ögum hans er ut hofdu verit stungin þa greru örr huit a huarminum huorumtueggia til þess at sia matti dyrd þess hins goda konungs a þeim manni er suo aumliga uar læikinn.

## Miraculum sancti Olavi.

321. Nv uar þat j annat sinn er Olafr konungr gerde fagurt taknn ok fatijtt. buandkall æinn milldr ok mæinlauss uard firir klandri rikra manna þar j herade sem hann bio ok gafu þeir honum þiofs sök mæirr firir illzsku sakir þeirra en sannynda. dæmdu þeir hann skiott ok drogu þeir hann til galga j moti guds lögum ok manna ok uilldu öngua undanferslu af honum taka. sidan er sa hinn uesli madr fek æigi skirslu firir sig komit þo at hann bæde þa hina illu menn þa uænti hann ser öngrar biargar edr healpar af ödrum monnum. skaut hann þa sinu male ok ollu trausti undir guds miskunn ok arnnadarord hins virduligazsta herra Olafs Haralldzsonar ok bat hann uæita ser fullting eftir sannyndum vid almattkann gud allra hellzst þa ok er hann bergr oft miskunnsamliga þegar er a hann er hæitit ok storum hafua til uerkat ok verdir erv sannra refsinga. Nu kemr þar at lokum þo at flæira ræde

um at þeir hinir illu menn fara sinne illzsku fram vid þann aumingia. hæingia hann upp saklausann ok firir lög fram. en sa hinn gode konungr er hann hafde oft a kallat dugde honum miskunnsamliga er hann þottizst adr staddr allnauduliga. en þegar iafnnskiott er hann lyptizst af iordu upp þa syndizst honum hinn gode guds astuin Olafr konungr skiota fiol undir fætr ser ok studdizst hann uit þa miskun nærr þann dag allan allt til þess er kona (hans) ok synir komu fra riks mannz æins ok hofdu þa þegit leyfui af honum at iarda likit ok ofan at taka. sidan komu þau til hangans. þa klæif sonr hans upp j tred þat sem hann hek vid. en þui tre uar skotit j berghamar ok fek hann allnaudugliga kropit til at hoggua uirgulinn j sundr. en þa er þui var lokit þa steyptizst sa hinn aumi likami þar nidr firir þat hit bratta biarg ok hugde þat huerr madr sa er þar var at huert bæin munde sundr brottna þegar at nidr kæmi. en suo mikit uar honum skiol at vernnd drottins ok arnnadarorde þessa hins helga mannz at honum matti huorke tortima galgi ne virgull ok æigi þat þott loft væri mikit til iardar at falla ok oslett undir. nu ræis hann upp þegar er hann kom nidr ok þotti suo sealfum er hann tok at huglæida sem draumr hefde verit. en þegar er hann uitkadizst ok fek megin sitt þa biozst hann ok fór þangat sem hinn helgi Olafr konungr huilir ok sagde erkibyskupinum ok öllum korsbrædrum fra önduerdu mali ok til enda hueria miskunn (hann) hafde þegit af almattkum gude firir sakir arnnadarordz hins göfugliga guds astuinar Olafs konungs.

## Jartein Olafs konungs.

322. Kona nockur uar j kaupange j stad þeim er huiler hinn hæilage Olafr konungr su er brottfallz sott hafde marga daga ok giptizst hon manne iungum ok leynde sem hon matti þeirri sott. Nu er þau komu j huilu sina eina nott þa minntizst hennar su hin auma sott ok uaknnade bonde hennar vit þat hit illa mæin er hon la ok snörglade ok brautzst a bak aftr ok visse ecki til sin. uesæll þottizst hann ogæfu sinnar ok harmade miog uid suo bótlaust afall at hann matti öngann ueg fra letta. læitar þo vid hana hue opt sa bardagi kæmi at henni edr ef hon uisse nockura lækning til vera til bota hennar mæinsemi. hon[1] sagde þa hina illu sott a hueriuin manade vitea sin ok öngua lækning quat hon ser at healpum verda. nu j þeim harmi ok ofagnnade er þau hofdu bæde hion þa kallade hon a hina helgu mey Mariu er vist er at sönnu modir miskunnar ok a hinn heilaga Olaf

[1]) ok *tilf. Cd.*

konung badu þau gratande lia ser siukum ok harmsfullum nockurrar liknnar. sidan tiade hon mal sitt skriptapresti sinum ok sagde hon sina ogęfu ok læitade vit hann heilla rada. en hann hugde at þegar huat guds ord segia j gudspiallinu ok sagde henni suo at þeirrar sottar bidr æinge madr bætr nema med bænum ok fostum. en eftir þessa aminning þa foru þau bæde hion til hinnar helgu Olafskirkiu ok hofdu med ser uaxlios at dyrka þa hina helgu hatijt. fôstudu ok uôktu þar um nottina med morgum uanfærum monnum ok illa hæilum. Nu a næsta degi eftir þegar þa var hatidardagr þess hins helga konungs. en vm morguninn sidan er ottosaung uar lokit suo sem þeirri hatijd somde er sa guds dyrdarmadr let lif sitt a þa fór hon hæim med suo halæitri miskunn at fra þeim degi ok til enda lifs hennar vitiade hennar alldri su hin illa ohamingia. en suo mikill akafui hafde verit meins þessa at a ongum man(a)de miste hennar sa otimi sidan er hon læid or hinni mestu bernsku. þa óx þeim suo mikil gift eftir þa guds miskunn at a huerium iafnnlæingdar [514] degi þess hins helga mannz aptans er hon hafde heilsu þegit þa uôktu þau ok fostudu ok faluzst a hende gude almatkum med ôlmosugerdum ok godum bænum ok môrgum miskunnarverkum.

### Olafr stoduadi elldz gaangh.

323. Sua bar at æitt sinn j Gôrdum austr at elldr kom j ⱪaupbæ þann er Holmgardr hæitir ok stod æigi til minna voda en borgin ôll munde brenna upp. nu flydu aller menn ok urdu felmsfuller ok kuomu til klerks eins ok kennimannz er Stephan het en hann þionade þar hinne helgu Olafskirkiu ok uilldu freista j suo mikille naudsyn styrktar ok velldis hins helga Olafs konungs ok ræyna suo til sannz sôgur annarra manna. en þegar er prestrinn heyrde þeirra vilea ok bænarord þa tekr hann j fang ser likneski þess hins goda lauardz ok setti a mot elldinum. sidan þokade elldrinn huergi um þat fram er hann var þa kominn ok uard suo borgit hinum mesta hlut borgarinnar.

### Olafr konungr leysti vandrædi.

324. Fra þui er ok uerdugt at segia at sa hinn gode konungr gerde j herade þui er þelamork heitir dag nockurnn er bændr komu saman ok funduzst aller af þui herade ok ræddu um a medal sin at þeir uilldu lata gera stæinkirkiu þeim hinum helga konungi til lofs ok dyrdar en talgugriot matti huergi finnazst þar j nand þa er at var læitat. nu a þeim degi er stæinmæistarinn sa skyllde a brott fara er

til verks þess var fæinginn þa leth almattigr gud bresta j sundr fiall æitt mikit þar þegar j nand ok var þadan flutt allt griotit til kirkiusmidarinnar en heradsmenn aller letu upp smida sidan med godum vilea ok myklum kosti.

## Olafr konungr leet finnaz vngan suein.

325. Sueinn litill tapadizst fra frændum sinum j herade þui er næst liggr kaupange. en þeir voru þa staddir at samkundu nockurre. nu fengu þeir ser þar lid þegar ok foru at læita barnnsins. en þa er allar vonir voru rannsakadar þa fannzst sueinninn huergi (ok suo) annan dag allan ok mattu ecki til spyria. þa hetu þeir a hinn heilaga Olaf konung ser til miskunnar ok skutu saman fiarhlutum huerr eftir sinum efnum ok sendu þegar samdægris til hæilagrar kirkiu treystande a hans miskunn ok læitadu þa hit þridea sinn at barnninu ok fundu þegar sueininn þar sofanda hea huse æinu sem optazst hǫfdu þeir farit ok læitat. foru þa fegnir hæim med grati ok þockudu vorum hinum millda drottni alla þa dyrd ok pryde er hann gerir þess hins helga mannz j huert sinn er a hann er kallat.

## Miraculum virdulighs Olafs konungs.

326. Mart hefui ek sagt fra iartæignum þeim er drottinn uór hefir gert firir sakir hins helga Olafs konungs en þetta synizst mer allhalæitt vera er miog uekr upp hug margra guds vina. at sonnu suo sem sal huers kristins mannz er agætari at edlis skapan en likaminn suo er ok hennar daude hættari ok þyngri ok suo hæilan dyrdligri. en ouinr allz mannkyns lettir alldregi af sligt at vinna uit oss a huerium degi sem hann uann j paradiso fordum. hug ok salu huers mannz uill hann æ spilla ok tæla huernn mann med suikfullre flærd. þui skrǫkui bidr hann trua er hann telr firir en guds ræide ok bodorda brot segir hann litils verd vera. veralldar virding hæitr hann ok suikr med þui margann mann en guds dom ok heluitis kualar kuedr hann ǫngann mann hrædazst þurfa. med þeirri villu sueik hann hinn fysta mann þar med bleckir hann huernn dag hans afspringe til þess at hann gleyme ollum guds bodordum. suo sem hann gerde uit mann æinn þann er hann suæik med suo banuænum dryk af diǫfulsins ablæstri. en sa hinn uesli madr uar j þui herade ofdrambsfullr þuiat ouinrin hafde hann blindat suo at j moti munut sinne ok veralldar girnnd uirde hann æinskis annars hæims pisler er hann gafzst j fiandans valld til þess at fa sinar rangar fystir ok sagde sig suo or ollu samneyti heilagra

manna sidr[1] hlifde hann messodegi hins blezada mannz Olafs konungs. En æinhuernn tima bar suo til þa er fiolde manna sotti til þess stadar er sa haleiti konungr huiler ok uæntu ser miskunnar. þa for sa hinn vesli madr ok þangat ok firir þær æinar sakar at hann mætti sia ok heyra mæla ok gera nockut þess j saurlifis synd er hann fenge fastligar bundit sig j vinattu vvinarins en adr. en uorr drottinn er suo miukhiartadr at honum þikir þui ollu aumligra um þann aumingia er hann ser sarligar suikinn en æinnhuernn annan kristinn mann. nu um daginn þa er likamr þess hins helga mannz var vt borin med halæitri dyrd þa tok sa hinn aumi madr at huglæida dyrd þess hins helga mannz ok uesolld sina ok æilifann ofagnnat er hann þottizst æiga mundu firir hondum þegar er hann skildizst vid þessa verolld. þui næst vitiade hans suo halæit miskunn hins helga anda firir sakar nauist þess gud(s) milldings ok sende honum suo mykla idran at vtan þottuzst menn þat mega sia a honum huersu ðmliga hann þottizst þa hinn uesli madr syngazst hafa. en [515] þa er skrinit uar flutt ór þeim stad er þat hafde stadit þa læitade hann þar til miskunnar sem sa hinn helgi likami hafde adr huillzst. tok hann þa at kalla a þann hinn millda mann med sarum styn ok anduðrpum. bat med sarum grát þann hinn millda konung med guds fulltinge leysa þau hinu sæigu syndabond af ser er fiandinn hafde hann j uafdan. nu let gud hann niota arnnadarordz halæitliga hins helga Olafs konungs ok leysti hann til sin ór andskotans uellde. ųendi honum enn med þui miskunnar ok æilifrar dyrdar ef hann hafnnade sinum okynnum ok næitte andskotans aeggiun. sidan er at þui kom at hann skyllde til skripta bera sin mæin ok saurlifui þa þorde hann æigi uesall at segia til ok glæymde þa ok uillde æigi græida sitt lif syndugt. þa sende uorr drottinn honum suo mykla sott ok akafa ok ræis hann æigi fyrr upp ór þeirri sott en hann hafde bætt med skriptagang alla sina glæpi þa er hann hafde gert. þui næst fek hann hæilsu andar ok likama ok þottizst hann georlla fundit hafa j sinu omagni at firir ofdrambs sakar ok likams munud hafde hann uillzst ok snuizst fra gude ok tynt j þui salu sinne. sidan gerdizst hann þui ðllu gudrettligri ok truari sem hann visse sig ferligar adr farit hafa ok flæira þess drygt er gude ok ollum godum monnum var gagnnstadligt. dyrkade hann drottin vornn ok hinn hæilaga Olaf konung alla sina lifsdaga sidan medan hann lifde.

[1]) sida *Cd.*

Ord Einars þambaskelfis.

327. þa er Suæinn konungr red firir Noregi ok Alfifa modir hans þa tok landzfolkit aumliga vid uesolld sinne þar sem riki þeirra stod yfir ok var þar hormuligt undir þui rike at liggia med ofrelse ok oarani þuiat folkit lifde mæir uit bufear fodr en manna mat. þui at alldri uard a þeirra dogum mikit ár j Noregi sem heyra ma j visu þeirre er Sighuatr quat.

Alfifu mun æfui
ungr dræingr muna læingi
er oxa mat atum
inne skaf sem hafarar.

annat uar þa er Olafr
ognnbradr er red lade
huerr atti þa hrosa
healmþornns freku kornne.

Fra þui er sagt æinhueriu sinne at þing uar fiolment j Nidarose ok var a þinginu Suæinn konungr ok Alfifa modir hans ok var þa enn talat vm mikit vanretti bonda. en þa var æinge romr gerr at male hans ne Alfifu ok uar þa huorke iattat ne næitat. þa suarar Æinarr þambaskelfir suo aller menn heyrdu. æinge var ek uinr Olafs konungs en þo uoru þrændir þa ǒngir kaupmenn er þeir selldu konung sinn helgann ok toku vid fyl ok meri. konungr þessi kann ecki at mæla en modir hans vill illt æitt ok ma ærit. þa brugdu aller grǒnum þeir er heyrdu ok hlogu at ok sagdi huor ǒdrum. þotti uel mællt vera. þa mællti Alfifa. hui sitia bændr æigi nidr ok hlyda konungs eyrende en kurra æigi suo. þa þǒgnnudu bændr en Æinar stod upp ok mællti hatt suo aller heyrdu. fari menn hæim hart illt eyrende hafua menn hingat haft bæde nu ok oftar til fundar Alfifu ok mega menn helldr bida hæima uanrettis þess er at hondum berr en sækia æigi aller j æinn stat ok hlyda þar æinnar konu ordum þeir er æigi uilldu hlyda Olafi konungi þeim er nu er sannhæilagr ordinn. ok hefir ok þat mest nidingsverk gert uerit her j lande er menn suiku Olaf konung ok hefir þat illu ræift sem von var. ok suo mykla anaud hefir folk þolat sidan þetta riki kom yfir at þat skyllde gud uilea at þat væri skamt ok hefir þo verit ærit langt. Gek Æinarr þa af þinginu ok allr mugr fiolmennis med honum.

Andlaat Sighuatz skalldz.

328. Sighuatr skalld uar med Magnuse konungi ok hafde iafnnan mikinn hugtrega af andlati hins hæilaga Olafs konungs suo sem heyra ma j visu þeirre er hann quat þa.

Gæing ek vm þuert fra þæingils
þroazst ecki mer recka

em ek sem bast j briosti
blæikr verdungar læike.

minnumzst ek hins hue manna
minn drottinn let sinnum
oft a odalstoftum
ordsælstr er uar fordum

Nu er at þeirri stundu læid er almattigr gud uillde kalla Sighuat fram af þessum hæime þa tok Sighuatr til at yrkia drapu um Olaf konung hinn helga ok stællti eftir Sigurdar sogu. Sighuatr kom þa a skipe uit ey þa er Selia hæitir. ok er hann uar þar kominn þa uard sa atburdr at æinn bonde sa er a meginlande bio inn fra eyiunne tok mykla sott suo at hann uar banuænn en kona hans sat yfir honum med hryggum hug. ok er mattr bondans tok at minnkazst þa vitradizst Olafr konungr konu bondans j draume ok mællti vid hana. nu skulum vit skipta verkum. þu skallt fara til motz vid Sighuat skalld mitt en ek mun sitia yfir bondanum. ok seg honum suo at ek uil æigi at hann stæli drapu þa er hann yrkir um migh eftir Sigurdar [516] sögu helldr uil ek at hann stæli eftir Uppræistar sögu. Nu eftir þessa vitrön for husfreyia til motz vid Sighuat ok sagde honum huat konungr hafde henni vitrat ok eftir þat for hon hæim. En medan hon hafde a brottu verit þa hafde Olafr konungr vitrazst bondanum ok gert hann hæilann. Sighuatr sneri þa drapunne ok stællti hana eftir Uppræistar sögu. ok eftir þat tok Sighuatr sott harda. j þeirre sott uitradizst honum hinn hæilagi Olafr konungr ok baud honum med ser at fara ok quad a dag huenar hann munde j moti honum koma. Nu er sa dagr kom er konungr hafde akuedit þa quat Sighuatr visu þessa.

Sæinn þiki mer sunnan
soknndiarfr Haralldz arfui
langr er at lyda þæingils
lifs sorg konungs morgin.

huatka ek hæidis göthua
hyrtælanda sælan
nu hefig uætt j dag drottins
duelr bid ek hans j Seliu.

Ok eftir þat andadizst Sighuatr ok var lik hans fært nordr til kaupangs ok uar grafit at Kristzkirkiu.

---

## ÞAATTR FRA ÞRANDI OK FRÆNDUM HANS.

J þann tima er Suæinn uar konungr j Noregi ok Alfifa modir hans var Þrandr hæima j Götu ok frændr hans Sigurdr Þordr ok Gautr hinn raude. ok er suo sagt at Þrandr væri ecki quongadr madr hann

atti æina dottur er Gudrun het. Ok er frændr þrandar hofdu þar verit nockura hrid þa kemr hann at male vid þa ok sagde at hann uill æigi at þeir se þar lengr uit oþrifnnat sinn ok alferdarleyse. Sigurdr suarar illa quaz hann illz æins unna ollum frændum sinum ok segir hann sitia yfir fődurarfui sinum. atluzst þa hart vid j ordum. foru þeir þa j brott þrir frændr. þeir fara til Straumseyiar hon er fiolbygduzst Færeyia. Sa madr atti þar bu er þorhallr het hinn audge. hann atti konu þa er Birnna het ok uar kollut Straumseyiar birnna hon uar suarre mikill ok sealig kona. þorhallr var þa synt vit alldr. hafde Birnna verit gefin til fiar. þorhallr atti nærr fe undir huerium manni ok gallzst honum vida litt. þeir Sigurdr þordr ok Gautr koma uit Straumsey ok finna þorhall bonda at (mali). Sigurdr bydr honum at hæimta fe hans til helmingar af skulldastődum þeim er orifligstir voru. en ef hann þyrfti at sækia til þa uillde hann hafua firir starf sitt þat er til soknar þyrfti en bonde j sinn hlut helming. þorhalli þotti sa hardr en þo uard þat samkeypi þeirra. Sigurdr ferr nu vijda vm Færeyiar ok heimtir saman fe þorhallz ok sækir til þegar honum þikir þess þurfa. færr hann af bratt mikit fe suo at hann setr af audgan bratt. Sigurdr er nu laungum ok þeir aller frændr med þeim þorhalli. oft berr saman tal þeirra Sigurdar ok Birnnu ok er þat mal manna at þar mune vera fiflingar med þeim. eru þeir þar vm uetrinn. At vori segir Sigurdr at hann uill leggia bufelag vid þorhall. en hann uar helldr fárr uit þat adr husfreyia atti hlut at. þa gerde bonde at ok let husfreyiu rada. taka þau nu frekt radinn. verdr þorhallr nu firir bord borinn ok rada þau Sigurdr ollu þann ueg sem þau uilldu.

## Draap þorhallz.

330. Ðat bar til tidenda vm sumarit at skip kom vit Færæyiar ok braut j spon vid Sudrey ok tyndizst miog feet ok voru .xij. menn a skipe ok tynduzst fim en .vij. komu lifs a land. het æinn Hafgrimr ok Biarnngrimr ok Hergrimr. þeir voro aller brædr ok voru styrimenn. þeim uard illt til uista ok annars þess er þeir þurftu. Sigurdr þordr ok Gautr foru til fundar uit þa ok quat þa litt komna ok bydr þeim ollum til sin. þorhallr kom þa at male uit Birnnu ok þotti þui brad-radit gert. Sigurdr quat sitt skylldo vid brenna. eru þeir þar ok helldr uel uirdir ok betr en þorhallr. þorhallr bonde uar smakuæmr ok uard þeim oft at ordum ok Biarnngrime. þat uar æitt kuelld er menn satu þar j stofu þa uard þeim at ordum þorhalli bonda ok Biarnngrime. þorhallr sat j bek ok hafde stafsprota æinn j hende hann uæifde honum

er hann uar malodr ok uar oskygnn ok kemr stafrinn a nasar Biarnngrime. hann uard odr vit ok uill taka til oxar ok færa j hðfut þorhalli. Sigurdr hliop til skiott ok gripr Biarnngrim ok segir at hann uill gera þa satta. ok þetta ferr suo at þeir sættazst. eru þeir þar vm uetrinn ok æigazst fatt vid þadan fra. Lidr af uetrinn segir Sigurdr at hann mun birgia þa med nockuru moti. hann færir þeim byrding færan er þeir þorhallr attu badir saman. let þorhallr ser þat enn illa lika þar til er husfreyia tok hann ordum. Sigurdr fek þeim vist ok foru til skips lagu a skipum vm nætr en geingu hæim til bæiar (um daga). Ok er þeir voru buńir var þat æinn morgin at þeir geingu hæim til bæiar. Sigurdr uar æigi a bænum hæima ok gek um syslur ok gerde sligt er honum þotti þurfa. sidan voru þeir þar um daginn. kom Sigurdr heim ok for til bordz voru kaupmenn þa farnir ofan til skips. Sigurdr spurde er hann kom undir bord huar þorhallr bonde væri. honum uar sagt at hann mun sofa. þat er onatturligr suefnn segir Sigurdr [517] edr huort er hann klæddr edr æigi ok vilium ver bida hans at mat. Nu uar geingit til skala ok la þorhallr j reckiu sinne ok suaf. þat uar sagt Sigurde. hann sprettr upp ok gæingr fram ok at rumi þorhallz ok verdr bratt þess viss at þorhallr uar daudr. Sigurdr leggr af honum klæde ok serr at reckia hans er vida blodug ok finnr sár undir vinstri hende honum ok hafde hann lagdr verit med miofu iarnne til hiartans. Sigurdr mællti at þat væri hit versta verk ok þat man hinn armi Biarnngrimr vnnit hafa ok þikiazst nu hefnt hafa stafshðggsins. skulu ver nu fara ofan til skips ok hefnna þeirra ef suo uill verda. Taka þeir frændr nu uopnn sin ok hefir Sigurdr mykla oxi j hende ok hlaupa ofan til skips ok uar Sigurdr malodr. hann hleypr þegar vt a skipit. j þessu spretta þeir brædr upp er þeir heyra blot ok bðluan. Sigurdr hleypr at Biarnngrimi ok hðggr .ij. hondum med ðxi framan j fang honum suo at oxin stendr a kafui. uar þat þegar banasar. þordr lagi hðggr til Hafgrims med suerde a ðxslina ok snidr ofan siduna alla ok fra hondinn ok hefir hann þegar bana. Gautr raudi hðggr med ðxi j hofut Hergrime ok klyfr hann j herdar nidr. ok er þeir erv aller daudir þa segir Sigurdr at hann mun ecki gera a hluta þeirra er eftir voru en fe kuetzst hann vilia hafua þat er þeir brædr attu eftir ok uar þat þo litit. þeir Sigurdr fara hæim med fe þetta. þikizst hann nu vel hefnnt hafa þorhallz bonda en æigi at sidr læikr illth ord a Sigurde ok ollum þeim frændum um liflat þorhallz. Sigurdr færr nu Birnnu ok gæingr þar til bus med henni. þau þorhallr ok Birnna attu mart barnna.

### Draap þorualldz ok prettir Gautz rauda.

331. þorualldr het madr hann bio j Sandey. þorbera het kona hans. hann uar audigr madr at fiarhlutum ok þa vit alldr er þetta uar. Gautr raude kemr til þorualldz ok bydzst til at hæimta fe hans þat er litt uar komit a skulldastodum. ok þat uar kaup þeirra miog a mynd ok med þeim þorhalli ok Sigurdi. Gautr er med þeim þoruallde æigi skemrum en med Sigurde. bratt er þat talat at Gautr fifle konu þorualldz. dregzst honum miog fe. Æitthuert sinn kom sa madr er þorualldr atti fe ath. þat uar fiskimadr æinn ok vm kuelldit var myrkt j stofu ok satu menn þar þa hæimti þorualldr fe sitt af fiskimanne. en hann suarar sæinliga ok helldr illa. Gautr ræikade a golfinu ok nockurir menn j myrkrinu. en er minnzst varir mællti þorualldr. legg þu manna armazstr saxi firir briost gǫmlum manni ok saklausum. Hann hne upp at þilinu ok uar þegar daudr. ok er Gautr heyrde þetta hliop hann þegar at fiskimanninum ok hǫggr hann þegar banahǫgg kuat hann æigi skylldu fleire ohaupp vinna. gengr Gautr þar j bu med eckiunne ok færr hennar.

### Leifr kom til Færeyia.

332. Leifr het madr hann uar son þoris Bæinissonar. hann var j kaupferd mille Noregs ok Færeyia ok hafde uel fe. hann uar ymizst med Leifui Ozsorarsyne þa er hann uar j Færeyium edr þuride megineckiu ok sonum hennar. Nu er þat æitthuert sinn er Læifr þorisson kom skipe sinu vid Færeyiar ok Sigurdr þorlaksson bydr honum heim til sin j Straumsey ok þessu rada þeir. Læifr Ózsǫrarson kom til skips ok tekr a þessu æigi miog er nafne hans hefir radit sig til Sigurdar quat þat ecki sitt rad ok quat honum mundu heimila vist verit hafa j Sudrey med ser. Læifr quat nu suo buit vera verda ok for hann til uistar med Sigurde ok setr Sigurdr hann hit næsta ser ok er uel til hans. er hann þar vm uetrinn j godu yfuirlæti.

### Vitrun Sigmundar til þuridar megineckiu.

333. Um uorit eftir er þat sagt æinn dag at Sigurdr sagdizst fara skylldu ok hæimta fe sitt af nabua sinum er Biornn het. ok vil ek Leifr segir hann at þu farir med mer ok ser til samnings med ockr þuiat Beorn er miog skapuani en ek hefui leingi mist mins fiar firir honum. Leifr quezst fara uilia sem hann uillde. ganga nu tuæir samt til Biarnar ok hæimtir Sigurdr fee sitt en Beornn suarar illa. þui næst eru þar upphlaup stor ok uill Beornn hoggua til Sigurdar en Læifr

hliop a mille ok kom ðx Biarnar j hofut honum suo at þat uard þegar at uige. Sigurdr hliop þa at Birnne ok hio hann banahðgg. þessi tidendi spyriazst nu. Sigurdr uar nu æinn her til frasagnar. riss þa enn illt ord a Sigurde. þær þuridr megineckia ok þora dottir hennar fryia miog Leifi Ozsurarsyne at hann vile alldri hefia handa hueriar skammir sem þeim eru geruar. leggia a hann fæd ok fiandskap en hann hafde vid gott þol ok mikit. þær sogdu þol hans af bleyde ok framkuæmdarleyse. æirir þeim mædgum storilla lat Læifs þorissonar. þikiazst vist vita at Sigurdr mun hann drepit hafa. Suo er sagt æinhueriu sinne at þuride husfreyiu dreymde at Sigmundr Brestisson bonde hennar kæmi at henni er verit hafde. hann mællti til hennar. þat er sem þer synizst at ek er her kominn ok er mer þetta lofath af gude sealfum segir hann. en haf æigi hardan hug ne illan a Læifui magi þinum [518] þuiat honum mun audit verda at reka yduarra skamma. Eftir þat uaknar þuridr ok segir þoru dottur sinne drauminn ok þadan fra eru þær betr til Læifs en adr.

## Vidreignir j eyium.

334. þat er nu næst þessu at segia at skip kom af hafui vit Færeyiar j Straumsey skamt fra bæ Sigurdar. þat voru norrænir menn het Arnnliotr styrimadr. þeir voru .xviij. menn a skipe. sa madr bio vit skipalægit er Skopti het hann uar j starfui med kaupmonnum ok þionade vel til þeirra. virdizst þeim ok vel til hans. Styrimadr kemr at male vit Skofta ok sagde suo. þer mun ek segia trunat minn segir hann at þeir voru synir minir Biarnngrimr ok brædr hans er þeir Sigurdr þorlaksson drapu en ek villde at þu uærir j radum med mer at ek gæti nad þeim Sigurde ok hefnnt sona minna. Skopti kuezst ecki gott æiga at launa Sigurde ok het Arnnlioti at gera hann þegar uarann uit er þeim gæfizst færi a þeim Sigurde. Nu æitthuert sinn um sumarit fara þeir þrir frændr a skipe Sigurdr þordr ok Gautr. þeir fara til æinnar eyiar at sækia slatrfe þuiat þat er sidr Færeyinga at hafa nytt kiot ollum missarum. Ok er þeir voru farnir þa gerir Skofti Arnnliot uaran vid. bregda þeir vid skiott kaupmennirnir ok voru .xv.[1] saman a kaupskipsbatinum ok komu til þeirrar eyiar er þeir Sigurdr voru firir ok ganga upp a eyna .xij. saman en .iij. gættu skips. þeir Sigurdr sa mennina er upp komu a eyna ok tala med ser huerir vera mune. þeir sa at menn voru j litklædum ok med uopnnum. ma vera sagde Sigurdr at her se komnir kaupmennirnir þeir er her hafua legit j

[1]) .xij. *Cd.*

sumar ok ma vera at annat se eyrende þeirra en at reka kaupstefnu æina saman ok man vid oss eyrende. suo munu uær æiga vid at buazst. nu skulu uær ganga j moti þeim ok hafa rad Sigmundar Brestissonar segir Sigurdr ok hlaupa sidan ser huerr uorr ok finnumzst at skipe voru aller. Nu gangazst þeir j moti. Arnnliotr eggiar þegar forunauta sina ok bidr þa hefnna sona sinna. þeir Sigurdr stockua undan ser huerr þeirra ok komazst aller j fioruna til skips sins. þa koma þeir Arnnliotr ok sækia at þeim. Sigurdr hǫggr til þess er at honum sotti ok rekr undan honum fætr bada firir ofan kne ok hafde sa bana. þordr drepr mann annann en Gautr hinn þridea. þa hlaupa þeir a skip sitt ok roa fram med eyiunne ok finna kaupskipsbatinn ok þar a þrea menn. Sigurdr hleypr a batinn ok drepr æinn þeirra en rekr .ij. a kaf. taka batinn ok roa a burt badum skipum ok heim. Sigurdr safnar monnum at ser ok ferr vt til eyiarinnar ganga upp a eyna. austmenn hlaupa saman ok ætla at veria sig. þordr lagi mællti. þat er rad Sigurdr frænde at gefa þessum monnum grid er ver æigum allz kosti vit en uær hofum adr unnit Arnlioti mikinn skada. Sigurdr suarar. þat er uel mællt en þo uil ek at þeir leggi allt a mitt ualld ef þeir skulu grid hafua. þat for fram at þeir selldu Sigurde sealfdǿmi en hann gerir a hendr Arnlioti þrenn manngiolld firir huernn þeirra. þat fe gallt Arnliotr allt ok uar hann sudreyskr madr ok hafde hann þat j bætr firir sonu sina ok for vid þat j burt af Færeyium. Sigurdr uard uarr vid suik Skofta ok sagdi at hann skal hafua lif sitt en fara j burt af Færeyium. ok for hann til Noregs ok uard utlagi af Færeyium.

## þordr leitadi at faa þuridar megineckiu.

335. Nu er at segia fra þui at Sigurdr þorlaksson eggiar þord brodur sinn at hann skyllde kuænazst. þordr spyrr huar hann sæi honum konu. Æigi man ek hea þeim kosti snæida er mer þiker bezstr her j Færeyium þat er þuridr megineckia. Ecki ætla ek mer suo hatt segir þordr. Æigi mantu fa ef vit bidium æigi segir Sigurdr. Ecki man ek þessa læita segir hann ok man æigi nærr leggia at hon vili mer giptazst segir þordr en þo mattu þessa læita ef þu uill. Sigurdr ferr nu annan dag til Skufeyiar ok berr þetta mal upp firir þuride. hon tekr þessu ecki fliott en hann flytr malit ok þar kemr at hon kuezst mundu radazst vm vid uine sina ok sonu ok letzst mundu gera honum ord um þat sem þa var at læika. Ferr Sigurdr heim ok sagde allt liklikt um suðr hennar. undarliga væit þat vid segir þordr ok grunar mig at þessu fylgi æigi alðgi. þuridr hitti Læif mag sinn ok þoru dottur sina

ok sagde þeim bonordit. þora spyrr hueriu hon suarar. hon quazst hafua miog fra visat en þo minnr en henni uar at skape edr huat þiki þer rad dottir. Hon suarar. æigi muntu fra visa ef ek ræd ef ydr er nockut þat j hug at roa þess a hefnnilæit er oss hefir til skamma geort verit ok æigi se ek annat þat tæygeagnn er likara se til at þeir verde at dregnir en þetta. þarf ek æigi at leggia ord j munn modur minne þuiat marga uega ma hon þa a þat draga suo at þeir rade ecki j þat. Læifr uerdr samþyckr um þetta þoru ok kuezst hug skylldu a leggia at þeir hefde vm sidir þat er þeir voru makligir. kuodu a dag med ser nærr þeir skylldu til koma þessa mala at uitia. þa mællti Læifr. langt hefir þrandr þa fram sed er hann baud ockr barnnfostr ok kenni ek þer uolld um þat þora segir hann ok er þat daude Sigmundar sonar ockars ef hann er þa med þrandi er nockut skerst ór med oss [519] Sigurdi. Æigi ætla ek segir þora at hann skuli þar lengi vera hedan fra ok er mal at vit farim til Austreyiar ok finner þu þrand fostra þinn. Oll verda þau a þat satt.

## Fra ferdum Leifs ok konu hans.

336. Fara þau Læifr nu oll saman ok eru þau .vij. menn a sk(i)pe ok koma vid Austrey ok hofdu innan uott um daginn ok voru þeir Læifr uotir miog en þora uar þurr. þau ganga upp til bæiar j Gðtu ok fagnar þrandr þeim uel ok lætr drepa upp ellda firir þeim Leifi. en þoru var fylgt til stofu ok uar suæinninn Sigmundr þar hea henni son hennar. hann var þa .ix. uetra gamall ok hinn skiotligzsti at sia. modir hans spurde huat þrandr hefde kent honum. en hann kuezst numit hafua allar saksoknir at sækia ok rottarfar sitt ok annarra. la honum þat græitt firir. þa spyrr hon huat fostri hans hefde kent honum j helgum frædum. Sigmundr kuezst numit hafa pater noster ok kredduna. hon kuezst heyra vilia ok hann gerde suo ok þotti henni hann syngia pater noster til nockurrar hlitar. en kredda þrandar er a þessa læid.

Gangat ek æinn ut
fiorir mer fylgia
fim guds æinglar
ber ek bæn firir mer
bæn firir Kristi
syng ek salma .vij.
siai gud hluta minn.

ok j þessu kemr þrandr j stofuna ok spyrr huat þau tale. þora suarar ok segir at Sigmundr son hennar hafui flutt firir henni fræde þau er hann hafde kent honum ok þiki mer æingi mynd a segir hon a kredo. þui er suo hattat sem þu uæitzst segir þrandr at Kristr atti .xij. lærisuæina edr flæire ok kunne sina kreddu huerr þeirra. nu hefi ek mina kreddu en þu þa er þu hefir numit ok erv margar kreddur ok er sligt segir hann æigi a æina lund rett. Skilia nu tal sitt. Um kuelldit er þeim allbæint ok uar druckit allfast ok uar þrandr hinn katazsti ok segir þrandr at þar skal bua um þau j stofunne ok gera flatsæng a golfuinu. Læifr segir at suo matti uel vera. þora segir at hon uillde at Sigmundr segi henni af frædum sinum ok lægi hia henni um nottina. þat ma æigi segir þrandr þuiat þa ma ek alldri sofa j natt. þetta verdr þu at uæita mer þrandr minn segir hon. Ok þat vard at suæinninn liggr hea þeim. en þrandr atti ser æina litla skemmu ok suaf hann þar iafnan ok sueinninn hea honum ok fatt manna hea honum ok gek þrandr til skemmu sinnar ok var þa langt af nott. Læifr ætlar at sofa ok leggzst nidr ok snyrr fra konu sinne. hon rekr hendr j bak honum ok bat hann æigi sofa. standit upp segir hon ok farit vmhuerfum Austrey j nott ok mæidit huert skip suo at ecki se siofært. Ok suo gera þeir. var Læifi þar kunnikt j hueria uik. mæiddu þeir þar huert fliotanda far suo at ecki uar siofært. þeir sofa ecki vm nattina standa upp snemma um morgininn. fara þau þora þegar ofan til skips en Læifr gek ofan til skemmu ok bidr þrand uel lifa ok hafa þock firir godan fagnnat ok uill þora at Sigmundr fari med henni. þrandr hafde litit sofit um nattina ok sagdi at ecki matti suo vera at Sigmundr færi j brott. Læifr gengr skyndiliga til skips en þrandr þottizst nu sia allt rad þeirra Læifs ok bidr huskalla sina taka skutu er hann atti. hlaupa þar a margir menn. þeir gera suo ok fellr þar inn kolblarr siar ok verda þeir fegnir er þeir komazst a land ok er ecki skip fært j eyiunum ok verdr þrandr þar at vera huort er honum þikir gott edr illt. Læifr ferr þar til er hann kemr heim ok safnar þa monnum at ser ok er þat þann dag adr en þeir Sigurdr skulu finnazst eftir um daginn.

## Leifr drap Sigurd ok frændr hans. capitulum.

337. Nv er at segia fra þeim Sigurde þorlakssyne at þeir buazst hæiman vm daginn ok eggiar at þeir skylldu huata. þordr segir at honum er litit vm at fara. ok ætla ek at þu ser fæigr segir hann er þu akafaz a þetta suo miog. Ger þig æigi at undri segir Sigurdr ok ver

æigi suo hræddr at öngri mannraun ok skulu ver at visu æigi riufa þa stefnu er ver hofum sammælltzst a. þu munt rada segir þordr en æigi kemr mer a uuart at æigi komi ver aller hæim hæilir j kuelld. þeir foru .xij. saman a æinu skipe ok uel uopnnadir. þeir hofdu stormuidri um daginn ok strauma hættliga ok baru uel af ok komu uit Skufey. þa sagde þordr at hann mun æigi læingra fara. Sigurdr kuezst fara skylldu upp til bæiar þo at hann færi æinn. þordr quat hann feigan mundu uera. Sigurdr gæingr upp a eyna. hann uar j raudum kyrtli ok hafde tuglamottul blan a herdum ser. hann uar gyrdr suerde ok hafde hialm a höfde. hann gæingr upp a eyna. ok er hann kemr miog upp at husunum þa ser hann at aftr voru hurdir. Kirkia stod j tuninu gegnnt dyrum su er Sigmundr hafde gera latit. ok er Sigurdr kom upp j mille heimahusa ok kirkiu þa ser hann at kirkia er opin ok kona gæingr fra kirkiunne j raudum kyrtle ok blan [520] mottul a herdum. Sigurdr kende at þar var þuridr husfreyia ok uikr at henni. hon hæilsar honum blidliga ok gæingr at tre æinu er la j tuninu. þar setiazst þau a tred ok uill hon horfa at kirkiunne en hann uillde horfa at heimadyrum ok fra kirkiunne. en hon red ok horfdu þau at kirkiunne. Sigurdr spurde huat manna væri komit. hon quat þar mannfatt. hann spurde huort Læifr væri þar. hon quat hann æigi þar vera. Eru synir þinir hæima segir hann. þat ma kalla segir hon. Huat hafa þeir talat um mal uor sidan segir Sigurdr. þat höfum ver um talat segir hon at ollum oss konunum litzst bezst a þig ok munde litt sæinkat af minne hende ef þu værir oklusadr. Mikill giptuskortr hefir mer þa ordit segir Sigurdr ok ma þat ok skiott skipazst at ek se lauss madr. þat er sem uerda ma segir hon. Ok j þui uilldi hann suæigia hana at ser ok tok hondum um hana en hon las at ser tuglamottulinn. ok j þui uar lokit (upp) hurdunne ok hliop ut madr med brugdit suerd ok uar þat Heri Sigmundarson. ok er Sigurdr ser þat þa smygr hann nidr or mottlinum ok uard suo lauss en þuridr helldr eftir mottlinum. nu koma vt flæire menn ok hleypr Sigurdr ofan eftir uellinum. Heri þrifr upp spiot æith ok hleypr ofan a uollinn eftir honum ok uerdr hann skiotazstr. hann skytr spiotinu til Sigurdar. ok (er) Sigurdr ser at spiotit stefnir a herdar honum þa leggzst hann nidr uit uellinum ok flygr spiotit yfir hann fram ok nam stadar j uellinum. Sigurdr stendr upp skiott ok þrifr spiotit ok sendir aftr ok kemr þat a Hera midian ok hafde hann skiott bana. Sigurdr hleypr þa ofan j æinstigit. en Leifr kemr þar at er Heri liggr ok snyrr skiott þadan fra ok hleypr þadan fram a eyna ok þar firir ofan sem hann kom at. ok segia menn at þar ser .xv.

fadma hatt j fioru nidr. Leifr kom standande nidr. hann hleypr til skips þeirra ok er Sigurdr þa kominn at skipinu ok ætlade at hlaupa vt aa skipit. en Leifr lagde þa suerdi til hans a siduna en hann snaradizst vid honum ok gek suerdit a hol at þui er Læifr hugde. Sigurdr hliop þa ut a skipit ok letu fra lande ok skilde þar med þeim. Læifr gengr upp (a) eyna til manna sinna ok bidr þa skiott fara til skipa. ok skulu uær hallda eftir þeim. þeir spyria huort hann hefir spurt lat Hera edr fundit Sigurd. hann kuezst æigi mundu mart fra segia at sinne. þeir hlaupa a tuð skip ok hafde Leifr atta tige manna ok uard misfari þeirra æigi alllitill. þeir Sigurdr koma at lande j Straumsey ok hafde Sigurdr styrt skipinu ok uar faordr vit þa. en er hann gæingr upp af skipinu þordr spurde huort hann munde mið̄g sárr vera. hann kuezst þat ogeorlla uita. Sigurdr gengr at naustuegginum er þar uar nærr sionum ok leggr þar hendr sinar a upp. en þeir rydia skipit ok ganga sidan upp til naustzsins ok sea at Sigurdr stendr þar ok uar þa stirdnadr ok daudr. þeir fluttu lik hans heim ok sogdu ecki þessi tidende. fara þeir til nattuerdar ok er þeir eru at mat þa koma þeir Læifr at bænum ok uæita þar atsoknn ok bera elld at. þeir ueriazst uel ok eru .xj. menn firir en .xxx. voru at komner. ok er elldr sotti husin þa hleypr Gautr raude vt ok þolir æigi inne lengr. Steingrimr Sigmundarson sotti at honum ok .ij. menn adrir en hann uardizst uel. Gautr hð̄ggr a kne Steingrime ok af kneskelina ok uar þat mikit sár suo at hann gek iafnan halltr sidan ok drap annan felaga hans. þa kemr at Læifr Ozsorarson ok æigazst þeir uit uopnnaskipte ok lykr suo at Læifr drepr Gaut. þa hleypr ut þordr lage ok j mot honum Brandr Sigmundarson ok .ij. menn adrir ok sottu at þorde. en suo lauk med þeim at þordr drepr Brand ok forunauta hans bada. þa kom at Læifr Ozsorarson ok leggr suerde þi hinu sama j gegnum þord er adr hafde hann lagt med Sigurd brodur hans ok let þordr skiott lif sitt.

### Leifr rędr nu einn. daudi þrandar.

338. Eftir þessi tidendi ferr Læifr hæim ok uerdr frægr af þessum verkum. en er þrandr spurde þessi tidende þa fellu honum þau suo nærr at hann do af helstride. Læifr rædr nu æinn ollum Færeyium ok uar þat um daga Magnus konungs goda Olafssonar. Læifr for til Noregs a fund Magnus konungs ok tekr af honum len yfir Færeyium. kemr heim j Færeyiar. byrr þar til elle. Sigmundr son hans bio j Sudrey eftir fð̄dur sinn Læif ok þotti mikilmenni. þuridr husfreyia ok Læifr onduduzst a dogum Magnus konungs en þora uar med Sigmunde syni

sinum ok þotti alla stund hinn mesti kuenskorungr. son Sigmundar het Hafgrimr ok eru fra honum komnir Æinarr ok Skeggi synir hans er uerit hôfdu firir skommu syslumenn j Færeyium. Stæingrimr hallti Sigmundarson bio j Skufey ok þotti godr bonde. Ok er her æigi getith at mæire afdrif hafe ordit Sigmundar Brestissonar edr afkuæmis hans.

---

## ORKNEYINGHA ÞAATTR.

[521] Olafr konungr Haralldzson fek ônga lydskylldu af þorfinne jalli sidan er þeir skildu eftir sattmal þeirra Brusa jalls allra saman. gerdizst þorfinnr jall nu hofdinge mikill manna mestr a uoxst liotr yfuirsyndar suartr a hár skarplæitr ok nockut skolbrunn ok hinn hermannligsti. hann uar kapsmadr mikill ok agiarnn bæde til fear ok metnadar sigrsęll ok kænn j orrostum ok godr arædis. hann uar þa .v. uetra gamall er Melkolfr Skotakonungr modurfadir hans gaf honum jalls nafnn ok Katanes til yfirsoknar en þa uar hann .xiiij. uetra er hann hafde utgerdir firir lande sinu ok heriade a riki annarra hôfdingia. Suo segir Arnorr jallaskalld.

Hilmir raud j hialma
hreggi skilfings eggiar
fór adr fimtan uæri
fetriodr hugins uetra.

georr letz grund at ueria
gedfræknn ok til sækia
errinn Æinars hlyri
æingr mann j skyranne.

þorfinnr jall hafde styrk mikinn af Skotakonungi. dro þat miog riki hans fram j Orkneyium er sa styrkr uar honum suo nærr. Skotakonungr andadizst þa er þeir brædr voru sattir. tok þa riki j Skotlande Kall Hundason. hann þottizst æiga Katanes sem hinir fyrri konungar. uillde hann þar hafa skatta af sem annarsstadar en þorfinnr jall þottizst æigi hafua ofmikinn arf eftir modurfôdur sinn þo at hann hefde Katanes. þotti honum ser ok fyrri hafa gefit uerit ok uillde þui æinga skatta af giallda. geordizst nu af þessu fiandskapr mikill ok heriudu huorir a adra. Karl konungr uillde setia þann hofdingea a Katanes er Moddan het. hann uar systurson hans ok gaf honum jalls nafnn. ræid Moddan þa ofan af Skotlande ok efldizst at lide j Sudrlande. geingu þa niosnir til þorfinnz jalls dro hann þa her saman um Katanes kom þa þorkell fostri utan af Orknneyium med mikit lid til motz uid þor-

finn jall ok hôfdu þeir þa synu mæira her. ok þegar er Skotar uissu þat at þorfinnr jall hafde mæira lid þa uard þeim sæinna um arasina ok ridu sidan upp j Skotland. þorfinnr jall lagde undir sig Sudrland ok Ros ok heriade uida um Skotland: snere þadan aftr a Katanes en þorkell ut j eyiar. læidangrlid for heim. jall sat a Katanesi j Dungalsbæ ok hafde .v. langskip ok suo nokkut mart lid at þau voru uel skiput. Moddan kom a fund Karls konungs ok sagde honum sinar farar oslettar. Karl konungr uard ræidr miog er heriat uar a land hans. gek hann þegar a skip ok hafde .xi. langskip ok mikit lid ok hellt þa nordr firir Skotland. hann sende Moddan aftr a Katanes med lid mikit ok ræid hann id efra um Skotland. var suo stefnnth at hann skyllde þadan at koma ok skyllde þorfinnr jall þa verda j klofanum. Nu er at segia fra Kalli konungi at hann letti æigi fyrr en hann kom a Katanes ok uar skamt a mille þeirra. þorfinnr jall tok þat rad sidan at hann stæig a skip ok hellt vt a Petlandzfior(d) ok ætlade til Orknneyia ok uar suo skamt a mille þeirra. ok er þeir sa segl Karl konungr er þeir sigldu austan a fiordinn ok sigldu þegar eftir þeim. þeir þorfinnr jall stefnndu austr med eyium ok ætludu til Sanduikr. hann lagde austan undir Dyrnes. gerde þegar ord þorkatli at hann skyllde safnna lide. þorfinnr jall la undir Dyrnese ok hafde sid komit. en um morguninn er liost uar finna þeir æigi fyrr en Karl konungr rærr þar at þeim a .xi. skæidum. voru þa .ij. kostir firir hondum. sa annarr at hlaupa a land en leyfa skipin ouinum sinum ok feet allt. hinn annarr at leggia til motz uid konung ok lata audnu rada. þorfinnr jall heitr þa a sina menn ok bat þa briota upp uopn sin. kuezst æigi uilea a flotta leggia. bat þa roa at rôskliga. tæingia þa huorirtueggiu skip sin. þorfinnr jall eggiar lid sitt miog ok bat þa uera akafa ok gera harda hina fystu hrid. kallar Skota fa standazst munu. þesse orrosta var bæde hord ok lông. Suo segir Arnorr jallaskalld.

Endr hyck Karli kendu
kyndum lofut bryniu
land uara lofdungs kindar
laust firir Dyrnes austan.
fim sneckium hellt framme
flugstyggr af bug dyggum
rausnar madr at ræsis
ræidr ellifu skæidum.

Ad lôgdu skip skatnar
skilit fell herr a þiliur
suomu jarnn j aumu
od bord Skota blode.
stall drepa stræingir gullu
stal bæit en rann suæiti
broddr flo bifduzst oddar
biartir þeingils hiarta.

þorfinnr jall eggiar nu akafliga lid sitt ok uard þar allhôrd hrid. hellduzst þeir litt Skotarner firir framan siglu a konungsskipinu. þa hleypr

þorfinnr jall aftan ór lyptingunne ok fram a skipit ok bardizst allhraustliga. ok er hann sa at þyntizst skipanin konungs eggiade þorfinnr jall sina menn til uppgaungu. ok er þat sa Karl konungr þa bat hann hoggua tæingslin ok leggia burt ollum skipaher sinum allbradliga[1] taka til ara sinna ok leggia [522] fra. þa koma þeir þorfinnr jall stafnliam a konungsskipit bat þorfinnr jall þa upp bera merki sitt ok fylgde mikil suæit manna med honum. þa hliop Karl konungr af skipe sinu med þa menn er upp stódu en mestr hluti uar fallinn a þui skipe. Karl konungr hliop a annat skip ok bat þa taka til ara ok logdu þa Skotar a flotta en þorfinnr ellti þa. Suo segir Arnorr.

þruma uar þeyge skemri
þat uar skiott med spiotum
mætr uit minna neyti
minn drottinn rak flotta.

gall adr grams menn felli
gunnmárr und her sárum
hann uo sigr firir sunnan
Sanduik rudu branda.

## þorkell fostri drap Moddan.

340. Kall konungr hellt undan sudr til Breidafiardar ok safnnar þa lide af nyiu. þorfinnr jall uæik aftr eftir bardagann. kom þa þorkell fostri til motz uit hann ok hafde mikit lid. sigldu þeir þa sudr til Breidafiardar eftir þeim Kalli konungi. Ok þegar er þeir komu uit Skotland toku þeir at heria. þa uar þeim sagt at Moddan jall uar nordr a Katanesi j þorsá ok hafde þar mikit lid. hann hafde ok sent til Jrlandz eftir lide þuiat þar atti hann marga frændr ok uine ok beid hann þess lids. þa gera þeir þat rad at þorkell fostri for nordr til Kataness med suman herinn en þorfinnr jall la eftir uit Skotland ok heriade þar. þorkell fór leyniliga þuiat honum uar allt landzfolk traust ok trutt a Katanesi. gek æinge niosnn firir honum þar til er hann kom a þorsa a nattarþeli ok tok hus a Moddani jalli ok baru at elld. Moddan svaf j lofti einu. hann hliop ut ok j þui er hann hliop ofan firir loftsualarnar hio þorkell suerde eftir honum ok kom a halsinn ok tok af hofudit. Eftir þat gafuzst menn upp en sumir komuzst a hlaupi undan. þar uar mart manna drepit en gefit grid sumum. Dualdizst þorkell þar skamma hrid adr hann for til Breidafiardar. hafde hann þa her allan med ser þann er fekzst a Katanesi ok um Sudrland ok Ros. mætti hann þa þorfinni jalli a Mærhæfui ok sagde honum sligt er gerst hafde j hans læikum. þackar þorfinnr jall honum uel sitt starf. lagu þeir badir þar vm hrid.

[1]) abrauliga? *Cd.*

## Fra Orkneyinghum.

341. Nv er at segia fra Kalli konungi at hann for upp a Skotland eftir orrostu þeirra þorfinnz jalls ok efldizst at lide at nyiu. hann dro her saman sunnan af Skotlande hit uestra ok hit eystra ok allt sunnan af Satiri. þa kom ok til motz uit hann herr af Jrlande er Moddan jall hafde eftir sent. sende hann þa uida til hofdingia eftir lide ok stefnde her þeim ollum til motz vid þorfinn jall ok uard fundr þeirra a Torfnese firir sunnan Bæfiord. þar uard orrosta hord ok hofdu Skotar her myklu meira. þorfinnr jall uar j onduerdri fylkingu sinne. hann hafde gullrodinn healm a hofde ok gyrdr suerde spiot j hende ok hio ok lagde badum hondum. Suo er fra sagt at hann væri fremzstr allra sinna manna. hann gek þar at sem firir uar fylking þeirra Jranna. uar hann suo akafr j fystu med sina suæit at þeir hrucku þegar firir ok fengu sidan alldri uidrettu. let Kall konungr þa bera fram merki sitt til motz vid þorfinn jall. uar þa hardr bardage vm hrid ok lauk med þui at Kall konungr lagde a flotta en sumir segia hann fall(i)t hafa. Suo segir Arnnor(r) jallaskalld.

Ulfs tuggu raud eggiar
æitt þar er Torfnes heitir
ungr olli þui þengill
þat uar manadag franar.
sungu þar til þinga
þunn firir Eckial sunnan
suerd er siklingr bardizst
snarr uit Skotlandz harra.

Hatt bar Heallta drottinn
healm at gæira salmi
ógnnstærir raud Jrum
odd j ferdar broddi.
minn drottinn hlaut mattar
milldr und bretzskum skilldе
hende Hloduers frænde
hermenn en tok brenna.

þorfinnr jall rak flottan allt upp a Skotland ok lagde undir sig landit huar er hann fór ok allt sudr a Fifi en sende þorkel fostra fra ser med sumt lidit. En þa er Skotar vissu at jall hafde fra ser sent sumt lidit foru þeir þa at honum er adr hôfdu undir hann gengit. ok þegar þorfinnr jall uard uarr uit suik þeirra hendir hann saman menn sina ok for a moti þeim. uard Skotum þegar sæinna um arasina er þeir vissu jall vera vidbuinn. þorfinnr jall red þegar til bardaga er hann mætti Skotum en þeir nentu æigi at ueria sig. sloguzst þegar a flotta a merkr ok skoga. ok þa er þorfinnr jall hafde rekit flottann hæimti hann saman lid sitt ok sagde at þa uillde hann brenna lata allt herat þuiat hann uillde geallda Skotum suo suikin. foru menn þa um þorp ok bæi ok brendu huetuetnna suo at æigi stod kot eftir. drapu mennina þa er þeir fundu. en konur ok gamalmenni droguzst a merkr ok

skoga med uælon ok uæinan. keyrdu sumt firir ser ok hertoku. Suo segir Arnorr jallaskalld.

Tynduzst bol þa er brende
brazst ath þat dægr haske
stôk j reyr en roknnu
raudr elldr Skotauellde.
mordkenner gallt monnum
mein a sumri æinu
fengu þeir um þengil
þremr sinnum hlut minna.

Eftir þetta for þorfinnr jall nordr eftir Skotlande[1] til [523] skipa sinna ok lagde undir sig land huar sem hann fór. for þann þa nordr a Katanes ok sat þar um uetrinn. en huert sumar þadan fra hafde hann læidangr vti ok heriade um sumrum med lide sinu ôllu.

## Af framaverkum þorfinnz jarls.

342. þorfinnr jall gerde þat framaverk j Orknneyium at hann uæitti allri hird sinne ok morgum odrum rikum monnum allan uetr j gegnum bæde mat ok mungat suo at æinge madr þurfti j skytning at ganga. suo sem ollum hofdingium er tijtt j odrum londum konungum ok jorlum at uæita um jol hird sinne ok gestum. J þenna tima andadizst Bruse jall ok tok þorfinnr jall þa undir sig allar eyiar. En þat er sagt fra Rôgnnuallde Brusasyne at hann uar j orrostu a Stiklastodum þa er Olafr konungr fell. komzst Rôgnualldr j brott med ôdrum flottamonnum. hann flutti ór orrostu Haralld Sigurdarson brodur Olafs konungs. uar Haralldr sárr miog. kom Rôgnnualldr honum til lækningar at æins litils bonda en Rôgnualldr fór austr um Kiol til Jamtalandz ok þadan til Suiþiodar a fund Onundar konungs. Haralldr uar med bondanum þar til er hann uar græddr. fek bonde honum þa son sinn til fylgdar vid hann ok fór hann þa austr til Jamtalandz ok til Suiþiodar huldu hôfde. ok þa er þeir skildu j kiorr æinum þa quad Haralldr visu þessa.

Nu uerd ek skog af skogi
skreidazst litils heidar
huerr ueit nema ek verda
vida frægr um sidir.

Haralldr kom j Suiþiod ok for til fundar vid Rognualld jall. foru þeir badir austr j Gardariki ok mikit lid annat þat er verit hafde med Olafi konungi. þeir lettu æigi fyrr en þeir komu austr j Holmgard a fund Jarizlafs konungs. tok hann uit þeim forkunnar vel firir sakir hins hæilaga Olafs konungs. gerduzst þeir þa landuarnnarmenn hans firir Gardariki aller saman ok Erlingr[2] jall sonr Rognualldz jalls.

[1]) Jotlande *Cd.* [2]) *r.* Eilifr

Magnus Olafsson til konungs tekinn j Noregi.

343. Rognualldr Brusason var eftir j Gardariki þa er Haralldr Sigurdarson for j Myklagardz riki. hafde Rǫgnualldr þa landuǫrnn um sumrum en uar j Holmgarde um uetrum. konungr uirde hann mikils ok þar eftir ǫll alþyda. Rognualldr jall uar huerium manni mæire ok sterkare ok manna fridazstr synum atgeruimadr mikill suo at æige fannzst hans iafninge. Suo segir Arnorr jallaskald at Rognualldr atti j Gaurdum .x. orrostur.

Dæilldizst af suo at alldri
el grafninga þelar
gunnar niordr j Gordum
gunnbradr tiu hade.

Æinarr þambarskelfir ok Kalfr Arnnason sottu Magnus Olafsson austr j Gardariki. uar Rognualldr firir þeim j Aldeigiuborg. var þa vit sealft buit at hann munde ganga at Kalfui adr en hann gerde hann varan vid huersu af stod um ferdir þeirra. segir Æinarr at Kalfr idradizst glęps þess er hann hafde fellt hinn hæilaga Olaf konung fra landi. uill hann þat nu bæta a Magnuse syni hans. segir hann Rǫgnualldi at Kalfr uill hefia Magnus til rikis ok efla hann j moti uikingum Knytlinga. ok eftir þat sefazst Rǫgnualldr. bæidir þa Æinarr þambarskelfir þess at Rǫgnualldr skuli radazst til ferdar med þeim upp j Holmgard ok finna þar Jarizleif konung ok flytia fram eyrendi sin ok segia at þeim uar suo læitt ordit riki Knytlinga ok mest Alfifu at þess geck ekki yfir þa at þeir uile þeim lengr þiona. bidia þa þess at Jarizleifr skuli fa þeim Magnus Olafsson til hofdingia. flytr Rognualldr þa þetta mal med þeim ok Jngigerdr drottning ok margir adrir gofgir menn. Jarizleifr konungr uar þess traudr at fa Magnus j hendr Nordmonnum suo sem þeir hofdu buit vit fodur hans. en þat tokzst þo at .xij. hinir gofguzstu menn soru æida at þetta uar allt trutt. Rognualldi jalli gaf Jarizleifr konungr upp æidinn firir trunadar sakir. Kalfr sor þann æid Magnusi konungi at hann skal fylgia honum utanlandz ok innan ok gera þa hluti alla er Magnusi þætti þa sitt riki mæira edr frialsara en adr. Eftir þat toku Nordmenn Magnus til konungs ok gerduzst honum handgeingnir. duolduzst þeir Æinarr j Holmgarde þar til er læid jol. foru þa ofan til Aldæigiuborga(r) ok ofludu ser þar skipa. foru þegar austan er isa leysti um uorit. redzst Rognualldr Brusason til ferdar med Magnusi konungi. foru fyst til Suiþiodar ok þadan til Jamtalandz ok suo austan um Kiol til Ueradals. ok þegar at Magnus konungr kom j þrandheim gek allt folk undir hann. fór hann þa ut til Nidaross ok uar

þa til konungs tekinn a Eyrarþinge yfir allt land. Eftir þetta voru skipti þeirra Magnuss konungs ok Sueins konungs.

### Rognvalldr beiddi Magnus at fara til eyia.

344. þa er Rôgnualldr jall Brusasoñ kom j Noreg þa spurde hann andlat Brusa fôdur sins hann fretti þa at þorfinnr jall hafde tekit undir sig allar eyiar. fystizst þa Rôgnualldr jall at fara til odala sinna ok bat at Magnus konungr skyllde gefa honum orlof til þessarrar ferdar. Magnus konungr sa at þat uar naudsyn Rognualldz ok tok uel undir þetta mal. gaf Magnus konungr þa Rognualldi jallsnafnn ok þriu langskip ok uel skiput. fek honum þa j len þann þridiung eyia sem Olafr [524] konungr hafde attan ok hann hafde fæingit Brusa jalli fodur Rognualldz. hafde Magnus konungr Rognualld fostbrodur sinn j fullkominne vinattu sinne ok quad honum hæimilann skylldu sinn styrk nærr sem hann þyrfti. skilduzst þeir med hinum mestum kærlæikum.

### Fra ferd Rogualldz.

345. Rôgnualldr jall Brusason siglde austr til Orknneyia ok for fyst til bua þeirra er fadir hans hafde att. gerde þa ordsending til þorfinnz jalls frænda sins ok bæiddizst at hafa þann þridiung eyia sem fadir hans hafde att. hann let ok segia þorfinne jalli at Magnus konungr hafde skipat honum j len þann þridiungh landa er Olafr konungr hafde att. bæiddizst hann nu at hafa .ij. hluti med uilld þorfinnz jalls frænda sins. En j þenna tima atti þorfinnr jall deilur myklar vid Jra ok Sudreyinga. þottizst hann þa miog þurfa lidsinnis manna ok uæitti hann þau andsuor sendimonnum Rognualldz at hann skal rikit taka j sitt ualld þann þridiung sem hann a at rettu. en þann þridiung sem Magnus kallar ser þa iattodu ver þui Olafi konungi hinum helga meirr af þui at þa voru uær komnir j greipr honum en hitt at oss þætti þat rettligt. mun þa ok samþycke ockart Rôgnvalldz frænda bezst at vit innumzst litt til um þann þridiung landa. hefir hann leinge at deilldum farit. en ef Rognualldr uill vera mer hollr goduiliamadr þa þiki mer þat riki uel komit er hann hefir ser til skemtanar ok badum ockr til styrks. er mer bratt lidsinne hans vid mæira en skattar þeir er ek tek þar af. Eftir þat foru sendemenn aftr ok segia at þorfinnr jall hafui iatat honum .ij. hlutum landa ef hann uill vera honum styrksmadr sem uera ætti firir frændsemis sokum. En Rognnvalldr letzst til þess æins kalla er hann þottizst æiga. en firir þui at[1] þorfinnr jall gaf suo auduelliga upp londin kuezst (hann) at visu vilea vera honum sinnadr ok

[1]) er *tilf. Cd.*

fullkominn vin eftir þui sem frændsemi þeirra stod til. tok nu Rognualldr undir sig tuo hluti landa.

### Bardagi þeirra brædra(!) þorfinnz ok Rognualldz.

346. Snemmendis vm uorit sendi þorfinnr jall ord Rognualldi frænda sinum ok bæidir þa at hann færi j hernat med honum ok hafa fiolmenni sligt sem hann fengi. En þegar at Rognualldi kuomu þessi ord brazst hann uit þegar ok dro her saman ok safnnar at ser skipum ollum þeim er hann fek. ok er hann uar buinn for hann til fundar vid þorfinn jall. hafde þorfinnr jall þa buit her sinn ok tok hann þa alluel vid Rognualldi frænda sinum ok lögdu þa saman lag sitt. þeir frændr heriudu um sumarit vm Sudreyiar Jrland ok Skotlandzfiord. þorfinnr jall lagde undir sig þar sem þeir foru. Vm sumarit attu þeir orrostu mykla þar sem Uatzfiordr hæitir. orrostan tokzst snemmendizst ok fengu þeir frændr sigr. þess getr Arnnorr jarllaskalld.

Væit ek þar er Uatzfiordr hæitir
uásk j myklum haska
mins uit mannkyns reyne
merki drottins verka.
þiod bar skiott af skæidum
skialldborg fira morgum
georlla fra ek at ginde
grar ulfr um gna sarann.

Eftir orrostu þessa uendu þeir aftr til Orknneyia ok satu um kyrt þann[1] uetr. For suo fram .viij. uetr at Rognualldr jall hafde tuo hluti eyia suo at þorfinnr jall uandade ecki um. en huert sumar voru þeir j hernade stundum badir samt en stundum ser huorr þeirra sem Arnnorr segir.

Ymizst uann sa er unne
i(r)sk fell drott þa er sotti
balldrs edr bretzskar alldir
bra elldr Skota uelldi.

Med þeim frændum uar ofallt uel er þeir funnduzst. en ef verri menn gengu a mille þeirra þa voru iafnnan græinir taladar. sat þorfinnr jall löngum a Katanesi þar sem Gaddgedlar heita þar mætizst Skotland ok Eingland.

### Af hernadi þorfinnz jarls.

347. Ðat er a æinu sumre er þorfinnr jall heriade um Sudreyiar ok Skotland. hann hafde gert fra ser lid sudr a Æingland at strandhöggi en undan honum uar rekit fee allt. En er Æinglismenn verda uarir uit ferd uikinga sofnnuduzst þeir saman ok foru at þeim ok toku af þeim fe allt en drapu af þeim menn alla þa er dugande voru en

[1]) ueg *tilf. Cd.*

sende aftr ræningia nockura ok badu þa segia þorfinni jalli huersu þeir leiddu uikingum ran ok hrifsan. hôfdu þar um morg hadulig ord. foru sidan a fund þorfinnz jalls ok sôgdu honum sinar ofarar. hann let illa yfir þui er menn hans hôfdu tynnzst en kuezst þar ecki mega at hafua. en til þess kuezst hann alluel fallinn at giallda Æinglismonnum had ok spott þat er þeir drogu her at en skilia quaz hann mundu fyst at sinne med þeim. en ef hann væri heill at sumri sagde hann at þeir skylldu finnazst.

### Her segir af hernadi þorfinz jarls til Jrlandz ok vidara.

348. J þenna tima uar Hôrdaknutr yfir Æinglande ok Danmork. eftir þat for þorfinnr jall til Orknneyia ok sat þar um uetrinn. snemma um vorit hafde hann utbod um allt riki sitt. sende þa bod Rognuallde frænda sinum ok þui iatar Rognualldr. Rognualldr hafde utbod um allt sitt riki. þorfinnr jall dro her saman um Orknneyiar ok Katanes hann hafde ok mikinn her af Skotlande ok Jrlande ok um allar Sudreyiar drozst honum lid. hellt hann her þeim ollum til Æinglandz suo sem hann hafde heitit þeim. [525] Hôrdaknutr uar j Danmork er þetta uar tidenda. en þegar at jallar komu vid Eingland toku þeir at heria ok at ræna. en þeir hôfdingiar er þar voru til landuarnnar settir foru a mot þeim med lide ok uar þar orrosta mikil ok hord ok fengu jallar sigr. Eftir þat foru þeir uida um Æingland ok heriudu drapu menn ok brendu bygdina huar sem þeir foru. þessa getr Arnnorr.

Ein uar su er Æingla minner
egghrid ne mun sidan
hatt vid helming mæira
hringdrifr komit þingat.
bitu suerd en þar þurde
þunngeor firir Maun sunnan
Rognnualldz kind und randir
ramligt folk hins gamla.

Stông bar jall a Æingla
ættgrund en raud stundum
ue bat uise knyia
uerþung ara tungu.
hyrr óx haler þurru
herdrott rak flotta
æimr hratt en laust lioma
limdolgs nærr himne.

þorfinnr jall atti .ij. folkorrostur a Æinglande en morg slôg ok manndrap uæitti hann j ôdru lagi. hann la þar miog suo allt sumar j gegnum en um haustit for hann heim til Orknneyia um uetrinn.

### Kalfr flydi til Orkneyia.

349. J þenna tima uard Kalfr Arnnason landflotta firir Magnusi konungi. for hann uestr vm haf til þorfinnz jalls mágs sins. þorfinnr atti þa Jngibiorgu jallamodur dottur Finnz jalls Arnnasonar. uar Kalfr

þa j myklum kærlæikum vid þorfinn jall. hann hellt suæith mykla sinna manna. uard jalli þa kostnadarsamt. uoru þeir ok þa margir er þat mælltu firir honum at hann skyllde æigi Rǫgnualld hafua lata .ij. hluti eyia suo mikinn fekostnat sem hann hafde sealfr. ok eftir þat sendi þorfinnr jall menn ut j eyiar ok bæidiz þess þridiungs af Rǫgnualldi jalli er att hafde Æinarr jall rangmudr. En er su ordsending kom þa bar jall þat firir uine sina. eftir þat kallar hann þangat sendemenn þorfinnz jalls. Rǫgnvalldr segir at þann hlut eyia er þeir kalla til hefde hann tekit j len af Magnusi konungi ok konungr kallade þat sina fǫdrlæifd. nu quad hann Magnus konung ualld a æiga huerr þeirra þann hlut eyia skyllde hafa. en æigi kuetzst hann lata skylldu ef þat være konungs vile at hann hefde. Foru sendemenn uit þetta a burt ok segia þorfinni jalli þessi ord. kolludu uisa uon at þetta munde æigi fazst þrautarlaust. En er þorfinnr jall heyrde þetta uard hann ræidr miog ok quad þat osannligt at Magnus konungr ætti brodurarf hans. kallar þat mæirr uerit hafa firir þui iattat at þeir voru þa komnir j greipr Olafi konungi helldr en þat uæri rett arfskifti. nu þiki mer Rognualldr æigi uel launa mer er ek hefui hann nu latit hafa j frelse rikit um hrid ef ek skal nu æigi na brodurarfui minum nema ek beriumzst til. Uard þorfinnr jall um þetta suo ræidr at æigi myklu sidar sendir hann menn j Sudreyiar ok upp a Skotland ok dro at ser lid. lysti hann þui at hann mun fara a hendr Rǫgnualldi jalli ok hæimta þa uægdarlaust þat er hann nade æigi þa er hann læitade med fride eftir. Ok nu er þetta sagt Rǫgnualldi jalli. þa stefnnde hann at ser vinum sinum ok kærir þetta firir þeim þat er þorfinnr jall frænde hans ætlar at fara med her ok ofride a hendr honum. læitade hann þa eftir huernn styrk þeir uilea uæita honum kallazst æigi uilea lata sitt at ollu oreyndu. en er hann bæiddi órskurdar um þetta mal þa lǫgdu menn her allmisiafnt til. sumir mælltu eftir Rǫgnualldi jalli ok tǫldu uorkunn at hann uillde æigi midla rikit. en hinir voru sumir er þat mælltu at uorkunn væri at þorfinnr uillde hafa rikit um hrid er Rognualldr hafde adr haft þann hlut er Æinarr jall hafde att. toldu þat ok orad at Rǫgnualldr legde til bardaga uit þorfinn uit þat lid sem hann fengi af .ij. hlutum eyia þar sem þorfinnr hafde þridiung ok Katanes ok mikinn hluta af Skotlande ok allar Sudreyiar. þeir menn voru at þat mælltu at læitat munde um sættir. beida þess at Rǫgnvalldr jall byde þorfinni jalli helming eyia ok mætti þann ueg enn semiazst frændsemi þeirra. En er Rǫgnualldr fann þat at sitt lagde huerr til en aller lǫttu hann uppræistar þa birte hann uilea sinn. sagde at hann uill æigi midla riki sitt

med næinu sattmale. letzst helldr mundu at sinne gefa upp rikit ok sækia a fund Magnus konungs fostbrodur sins ok læita eftir huernn styrk er konungr uill fa honum til at hallda riki sinu. Eftir þetta byrr hann ferd sina ok ferr austr til Noregs. lettir æigi fyrr en hann kemr a fund Magnuss konungs. ok er hann er þar kominn segir hann konungi allan malauoxst. Konungr fagnar uel Rögnualldi jalli ok baud honum med ser at vera suo lengi sem honum likade ok taka len af ser suo mikit at hann fengi uel halldit sig ok lid sitt. en Rögnualldr jall sagde konungi at hann uillde at hann fengi honum afla til at sækia riki sitt. Magnus konungr kuetzst at visu skylldu sinn styrk til leggia eftir þui sem hann beidde. Dualdizst Rögnvalldr skamma stund j Noregi adr en hann byriade ferd sina uestr til Orknneyia. hafde hann þa mikit lid ok fritt er Magnus konungr hafde uæitt honum. þat fylgde ok med at hann sende ord Kalfui Arnnasyne at hann skyllde hafa æignir sinar ok landzuist j Noregi ef hann uæitti Rögnualldi jalli j skiftum þeirra þorfinnz jalls.

## Bardagi firir Raudabiorgum.

350. Rognualldr jall siglde af Noregi uestr til Orknneyia ok kom af hafui uit Heatland ok dro at ser [526] lid ok for þadan sudr j Orkneyiar. stefnde til sin vinum sinum ok efldiz þadan at lide. þorfinnr jall uar a Katanesi ok komu honum þegar niosnir um ferdir Rögnualldz jalls. dro hann at ser lid um Skotland ok Sudreyiar. Rögnualldr jall let þegar fara ordsending Magnuss konungs til Kalfs Arnnasonar ok tok Kalfr þui ollu likliga er konungr hafde mællt. Rögnualldr jall dro saman her sinn j Orknneyium ok ætlade yfir a Nes. en er hann kom a Petlandzfiord þa hafde hann .xxx. stórskipa. þar kom j moti honum þorfinnr jall ok hafde .lx. skipa ok flest sma. uard fundr þeirra firir Raudabiorgum ok logdu þegar til bardaga. þar uar ok kominn Kalfr Arnnason ok hafde .vj. skip ok oll stór ok lagde ecki til bardaga. Ok nu tekzst hinn hardazsti bardagi. eggiade huortueggi jall lid sitt. en er suo hafde fram farit vm hrid snyrr mannfallinu a hendr þorfinni jalli. uar þat mest af þui at bordamunr (uar) mikill. þorfinnr hafde mikit skip ok uel buit ok lagde hann þui fram alldiarfliga. en er rudduzst hin smæri skipin þa uar lagit at jallzskipinu a bæde bord. uoru þeir þa stadder allnaudugliga. fell þa fiolde mannz af skipe jalls en sumir urdu miog sarir. eggiade Rognualldr jall þa sina menn til uppgaungu. En er þorfinnr sa j huert oefnni komit uar let hann hoggua skip sitt or tæingslum ok reri til landz. hann let

leggia af skipi sinu .lx. lika. þar gengu af aller þeir er ouigir uóru firir sara sakir. þa baud þorfinnr Arnori jallaskalldi at ganga af skipe. hann uar j jalls suæit ok j kærlæikum myklum. hann gek a land ok quat visu.

Dreing er j gegnn at ganga
gott er at fylgia drottni
elld leynig þui alldri
ofuss syne Brusa.
oss er ef jallar þessir
ógnbradir til radazst
hȯrd mun uin raun verda
uandligr kostr firir handum.

þorfinnr jall skipar skip sitt af hinu bezsta lide er hann hafde til. eftir þat ferr hann til fundar vid Kalf ok bad hann lids. sagde suo at Kalfr munde ecki fa keyfta vinattu Magnuss konungs er hann uar ordinn adr landflotti. er þu fekth þa æigi til gætt er hann uar adr kominn j allmykla kærlæika. mattu suo ok ætla ef Rognualldr sigrazst a oss ok gangi riki þeirra Magnuss konungs her firir uestan hafit at þu munt þa ecki her uel kominn. en ef ver sigrumzst þa skal ydr ȯngan hlut skorta er ek a kost. eru uit firir ongum manne uppnæmir her firir uestan hafit ef vith erum badir a æinu rade. mantu ok æigi uilea uita þat a þig at liggia hea sem kattr j hreyse þar er ek beriumzst til frelsis huarumtueggium. eru þær ok teingdir med ockr at huorum samir þat betr at uæita lid ȯdrum sidan uennzslalausir menn eru j moti. En er Kalfr heyrde eggian þorfinnz het hann a sina menn ok bat þa leggia til bardaga med þorfinni jalli. greiddu nu atrodrinn badir saman þorfinnr jall ok Kalfr. ok er þeir komu til orrostu uar herr þorfinnz buinn at flyia en fiolde fallinn. jall lagde fram skip sitt a mot skipe Rognualldz jalls ok uard þar hin hardazsta orrosta. Suo segir Arnorr.

Huornntueggia sa ek hoggua
hird a Petlandzfirde
uor þrifuzst mein ath meiri
min audgiafua sina.
siarr blerr en dræif dreyre
dȯckr a saumfȯr klocka
skaut a skialldrim suæita
skockr uar blode stockinn.

Kalfr lagde at hinum smærrum skipum Rȯgnvalldz ok hraut þau skiott þuiat þar uar bordamunr mikill. En er leidangrslid þat er ór Noregi uar komit sa rodin skip hea ser þa leystu þeir skip sitt ór tæingslum ok lȯgdu a flotta suo ath fa æin skip voru eftir med jallz skipe. tok þa orrostan at hallazst. Suo segir Arnorr jallaskalld.

Gramr munde sa gȯmlu
gunnbradr und sig lade
hann fek myklu minna
mannspioll koma ȯllu.
ef jlendra endils
ættstafr hafa knætti
uellti herr um hiallta
hialmþrotta lid drottins.

Ok nu er meginherrinn hafde flyit þa lögdu þeir Kalfr ok þorfinnr jall badir at skipi Rögnvalldz jalls ok fellu þa miog menn Rognualldz jalls. Ok er Rögnvalldr jall sa j huert oefni komit uar ok hann matti æigi sigrazst a þeim þorfinni ok Kalfi þa let hann hoggua tæingslin ok lagdizst a flotta. uar þa alidinn miog dagrinn ok tok at myrkua. Rognualldr jall siglde þegar a haf vm nattina ok suo austr til Noregs. letti æigi fyrr en hann kom a fund Magnuss konungs. hann tok vid honum vel sem fyrr ok baud honum med ser at vera. ok þar dualdizst Rognualldr jall um stund.

## þorfinnr jarl lagdi vndir sig eyiar.

351. Nu er at segia fra þorfinni jalli at um morgininn eftir orrostuna let hann roa um allar eyiar at læita flottamanna. voru margir drepnir en sumir gengu til grida. lagde þorfinnr jall þa undir sig allar eyiar. let þa huernn mann ganga til handa ser iafnnuel þa er voru æidsuarar Rognualldz jalls. settizst þorfinnr þa j Orknneyiar med fiolmenni en dro faung at ser af Katanesi. en Kalfr Arnnason sendi hann j Sudreyiar ok let hann þar sitia til styrks vid sig. En er Rögnvalldr jall hafde dualizst med Magnusi konungi um hrid segir hann konungi at hann uill læita aftr til eyia. en er konungr heyrde þat þa kalladi hann þat oradligt fyrr en uetri letti af [527] ok siarr tæki at þidna kallazst þa uilea fa honum lid sem hann þurfti ok gnogan skipakost. Rögnualldr suarar suo. kuetzst nu æigi uilea tyna lide Magnuss konungs kallar þat æigi mega radazst nema med storu mannspelle ef hann drægi her a hendr þeim þorfinni jalli suo mikit riki sem þeir hafua uestr þar. ætla ek nu at fara uestr a æinu skipe ok skipa þat sem bezst. uæntir mig at þa se ecki borin niosn firir oss. mun þa annathuort uera ef ek kem j eyiar at ek mun koma a ouart ok megum uær þa skiott fa unnit þann sigr er uær fam trautt edr æigi unnit uit lidfiolda. en ef uart uerdr uit uora ferd þa latum uær enn hafit gæta uór. Magnus konungr bat hann fara sem honum likade en koma enn til sin þegar hann uillde. Ok eftir þetta byrr Rognualldr skip sitt ok vandar menn til. reduzst þar til ferdar med honum hirdmenn Magnuss konungs nockurir. hafde hann a skipe æinuala lid. ok er þeir voru bunir sigldu þeir j haf þat var onduerdan uetr ok fengu uel byre.

## Rogualldr komz at eyium.

352. Rognualldr kom af hafui vit Hiatland. spyrr hann þa at þorfinnr jall var j Orknneyium ok hafde ecki fiolmennt. voru honum þa

ongar vonir ofridar um hauetri hellt Rognualldr þegar sudr j Orknneyiar. þorfinnr jall uar j Hrossey ok ugde ecki at ser. en þegar at Rögnualldr kom j Orknneyiar hellt hann þangat er hann spurde til þorfinnz jalls ok kom suo a ouart at æigi uard uart vid fyrr en þeir höfdu tekit allar dyrr a husum þeim er þorfinnr jall ok hans menn voru inne. þat uar um nott ok voru flestir menn j suefni en jall sat þa enn ok drak. baru þeir Rognualldr elld at bænum. en er þorfinnr jall uard uarr uit ofridinn sende hann menn til dyranna ok let eftir fretta huerir firir ofride rede. uar þa sagt at Rognualldr jall væri þar kominn. menn hlupu þa til uopnna ok matti þo ecki uörnn uit koma þuiat ollum uar uarit ut at ganga. tok(u) husin þa skiott at loga. ręddu þorfinnr þa vm at menn skyllde bæida vthgaungu þeir er gridum skylldu na ok þess uar læitat vid Rognualld jall. leyfde hann vtgaungu konum ollum ok ofrealsum kallmonnum en kallar þa hirdmenn þorfinnz flesta at honum munde æigi betri lifs en daudir. uoru þeir menn ut dregnir er grid uoru gefin. tok þa bærinn at brenna. þorfinnr jall tok þat rad at hann braut undan husunum skialldþile æitt ok hliop þar ut. hann hafde Jngibiorgu konu sina j fadmi ser en nidmyrkr uar a. komzst hann burt med reyknum suo at jalls menn urdu æigi uarir uid. reri hann þegar um nottina til nes æinn a bati. Rögnualldr jall brende bæinn allan ok þa menn alla er inne uoru ok æinge madr ętlade annat en þorfinnr jall munde þar hafa latizst. Ok eftir þat for Rognualldr um allar eyiar ok lagde undir sig. sende þau ord yfir a nes ok suo til Sudreyia at hann ætlade ser þat riki sem þorfinnr hafde haft. mællti þa æinge madr a mot honum. þorfinnr jall uar þa a Katanesi a laun med vinum sinum ok for æinge frett af þui at hann hafde komizst ór brennu.

## Rognvalldr jarl drepinn.

353. Rognualldr jall sat j Kirkiuuoge ok dro þangat föng oll þau sem hann þurfti til uetrsetu. hann hafdi þa fiolmenni mikit ok rausnn mykla. Litlu firir jol for jall med suæit mykla j Papey hina litlu eftir mölltum er hæita skyllde til jola. Ok vm kuelldit er þeir voru j eyiunum satu þeir lenge uit bakstrellda ok ræddi sa um er elldinn kynde at elldiuidrinn tæki at fætkaz. þa mællti jall mismæli. þa eru uer ok fullgamler er þessir elldar eru brunner. en hann uillde suo mællt hafua at þeir uære þa fullbakadir. ok er hann fann tok hann til orda. mismæle mællta ek nu ok hefui ek æigi mællt mismæle fyrr suo at ek muna. kemr mer nu þat j hug er Olafr konungr fǫstri minn mællti a

Stiklastődum þa er ek fann mismæle hans. ef suo bæri til at ek mællta mismæle at ek skyllda suo uit buazst at ek munda þa skamt æiga olifat. kann ok uera at þorfinnr frænde minn se a lifui. Ok j þui heyrdu þeir at bęrrinn uar horfinn monnum. uar þar kominn þorfinnr jall ok baru þegar elld at husunum ok hlodu kost mikinn firir dyrunum. þorfinnr leyfde utgaungu ollum ődrum en jallsmonnum. ok er menn voru ut geingnir flestir gek madr j dyrnnar ut j linklædum æinum ok bat þa þorfinn jall sæilazst j moti honum diaknanum. en sa studdi hondunum a balkinn ok stiklade ut yfir balkinn ok mannhringinn suo at hann kom huar fiarre nidr ok þegar j brott j nattmyrkrinu. þorfinnr jall bat þa eftir hallda ok segir at þar fór jall ok er þetta hans færlæikr en æinskis mannz annars. Foru menn at læita hans ok skiptuzst j suæitir. for þorkell fostri med sianum at leita ok heyrdu þeir at racki go j siofar urdinne. Rognualldr jall hafde haft skikkiuracka sinn med ser. þorkell gerde hann handtekinn ok bat menn vinna at jalli ok bauth fee til. æinge uard til at helldr. þa uann þorkell sealfr at honum firir þui ath [528] hann visse at annartueggia þeirra uard at luta firir ődrum. þorfinnr jall kom þa at ok lastade ecki verkit. Duolduzst þa j eyiunum vm uetrinn[1] ok uar drepin sueit su őll er Rőgnuallde hafde þangat fylgt. En um morguninn eftir toku þeir byrding ok hlodu af mallti. gengu þar a sidan ok letu skiolldu þa vid stafna er þeir Rőgnvalldr jall hőfdu atta. letu ok æigi flæire menn a skipe en jalli hofdu fylgt. reru sidan til Kirkiuuogs. ok er þat sa suæitungar Rőgnualldz þeir er firir voru hugdu þeir at Rognualldr jall munde þar fara ok hans menn. gæingu a mote þeim slypper aller. þorfinnr jall let þar taka .xxx. manna ok drepa. voru þeir flestir hirdmenn Magnus konungs ok vinir hans. jall gaf grid æinum hirdmanne konungs ok bat þann fara austr til Noregs at segia Magnusi konungi tidendin.

## Groftr Rognualldz jarls.

354. Lik Rőgnualldz jalls var flutt til Papeyiar hinnar meire ok uar þar iardat. ok er þat mal manna at hann hafui æinn verit bezst mannadr ok vinsælstr af ollum Orknneyinga jollum ok allri alþydu uar hann miog harmdaude. Eftir þat lagde þorfinnr jall undir sig allar eyiar ok mællti þa æinge madr honum j moti. Snemma um uorit kuomu þessi tidende austr til Noregs firir Magnus konung ok þotti honum hinn mesti skade at Rognualldi fostbrodur sinum ok kuetzst þegar skylldu hefnna hans er honum gæfui tom til en hann hafde þa mikinn ofrid vid Suæin konung Ulfsson.

[1]) ? r. nottina

þorfinnr jarl kom til Haralldz(!) konungs.

355. J þenna tima kom til Noregs Haralldr konungr Sigurdarson fǫdurbrodir Magnus konungs ok gaf Magnus konungr honum halfann Noreg. voru þeir badir konungar yfir Noregi æinn uetr. þa budu þeir vt leidangri af ollum Noreg ok ætlǫdu sudr til Danmerkr. En er þeir lagu j Sęley reru .ij. langskip j hofnnina ok at skipe Magnus konungs ok gek madr af skipinu j huitum kufle ok aptr eftir skipinu ok suo upp j lyptinguna. konungr sat yfir mat. þessi madr kuaddi konung ok laut honum ok tok til braudhleifs eins ok braut af ok át. konungr tok quediu hans ok retti at honum kerit er hann sa at hann at braudit. konungr læit til hans ok mællti. huerr er þessi madr. Ek hæiti þorfinnr segir hann. Ertu þorfinnr jall segir konungr. Suo er (ek) kalladr uestr þar segir hann ok er ek her kominn med .ij. tuitoghsessur ok skipadar helldr uel at þui sem uer æigum kosti. nu uil ek roa þenna læidangr med ydr ef þer uilit þiggia at mer lid. en allt mitt lid ok ek sealfr skal a guds uallde ok ydru herra firir þau stormæle ek ek hefuig mot ydrum uilea brotit. þa geingu menn til ok heyrdu tal þeirra. Satt er þat þorfinnr jall ef fund ockarnn bæri saman at ek ætlade at þu skylldir æigi kunna at segia fra skilnade ockrum. en nu er þo suo uitlatit at æigi byriar minne tign at ek lata drepa þig. skaltu nu ok fara med mer en sætt ockra mun ek upp segia j betra tomi. þorfinnr jall þackade konungi ok gek a skip sitt. Konungr laa miog lenge j Sęley drozst þa herr til hans ór Uikinne. hann ætlade þadan at sigla sudr undir Jotland þegar byr gæfui. þorfinnr jall uar lǫngum a tale vid konung. var konungr uel til jallz ok hafde hann miog uid radagerdir sinar. þat uar æinn dag at jall gek a konungsskipit ok aftr j lyptingina. konungr bat hann sitia hia ser. settizst jall nidr ok drucku badir saman ok voru katir. madr gek j lyftingina j raudum kyrtli mikill ok uaskligr. sa kuaddi konung. konungr tok blidliga quediu hans. var þat hirdmadr konungs æinn. þessi madr tok til orda ok mællti. þig er ek kominn at finna þorfinnr jall. Huat uill þu mer segir jall. Ek uil uita hueriu þu uill bæta mer brodur minn er þu letz drepa uestr j Kirkiuuoge med odrum hirdmonnum Magnus konungs. Hefir þu æigi heyrt þat segir jall at ek er ecki uanr at bæta þa menn fe er ek læt drepa. finnzst þat j þui at mer þikir vidazst sakar til hafa verit er ek hefui mennina drepa latit. Ongu skiptir mig huersu þu hefir uit adra menn gert ef þu bætir þenna er ek a eftir at mæla. let ek ok þar fe nockut en ek uar læikinn sealfr haduliga. uerdr mer þat skylldazst at mæla eftir brodur minn ok mig. uil ek

hafua þar sæmdir firir en konungr ma þat upp gefa er til hans er gert ef honum þiker þat æinskis uert er hirdmenn hans eru læiddir ut ok hôggnir nidr sem saudir. Jall suarar. skil ek þat at þat mun mina kosti her fram draga er þu aatt ecki uolld aa mer. ertu æigi sa madr er ek gaf þar grid. At visu segir hann kosti attir þu at drepa mik þar sem adra menn. þa suarar jall. þat er satt sem mællt er at marga hendir þat er minnzst uarir. ætlada ek þa at ek munda huerge þess koma at ek munde þess giallda at ek uæri of fridsamr vid ouine mina en nu gelld ek þess er ek hefui þer grid gefit. æigi mundir þu hropa mig firir hofdingium j dag ef ek hefda þig drepa latit sem adra lôgunauta þina. Konungr læit vid jalli ok mællti. þar kemr þo enn þorfinnr jall at þu þickiz of fa drepit hafua mina hirdmenn obætta. Uar konungr þa suo raudr sem dreyre. Jall spratt þa upp ok gek ofan ór lyptingunne ok a skip sitt. var þa kyrt um kuelldit. En vm morguninn er [529] menn voru uaknnadir uar kominn a byrr. reru menn þa þegar ór hofninne. siglde konungr þa sudr j Jotlandz haf med ollum flotanum. fór skip jallz nærr til hafs ôndueerdan daginn. en er a tok at lida a daginn stefnde jall uestr j hafit. er fra honum ecki at segia fyrr en hann kom til Orknneyia ok settizst þar at riki sinu. Magnus konungr ok Haralldr sigldu til Danmerkr ok dualdizst þar um sumarit. uillde Suæinn konungr ecki hallda til motz vid þa. uar hann a Skaneyre med her sinn. A þui sumri tok Magnus konungr sott þa er hann læiddi til bana. lyst(i) hann þa firir alþydu at hann gaf Haralldi fodurbrodur sinum allt Noregs riki.

## Ordsendingar jarls til konungs.

356. þorfinnr jall red nu Orkneyium ok ollu rike sinu. Kalfr Arnnason var ok longum med honum. stundum var hann j uestruiking ok heriade um Skotland ok Jrland. hann uar ok j Æinglande ok var um hrid firir þingamanna lide. þa er þorfinnr jall spurde lat Magnus konungs sende hann þa menn austr til Noregs a fund Haralldz konungs med uinmalum. segir suo at hann uill gerazst vin hans. en er ordsending kom til konungs tok hann þui uel ok het konungr honum sinne vinattu. Ok þa er þessi ordsending kom aftr til jalls bio hann ferd sina ok hafde uestan .ij. tuitôgsessur ok mæirr en hundrat manna ok allfritt lid. for hann þa austr til Noregs ok fann konung a Hordalande. tok hann uit honum forkunnar uel ok at skilnade þeirra uæitti konungr honum godar giafuar. for jall þadan sudr med lande ok suo til Danmerkr. for hann þar um land ok fann Suein konung j Alaborg.

baut hann jalli til sin ok uæitte honum dyrdliga væitzslu. þa gerde jall þat bert at hann ætlade sudr til Roms. En er hann kom j Saxland fann hann þar Hæinrek kæisara ok tok hann forkunnar uel vit jalli ok gaf honum margar stórgiafar. hann fek honum hesta marga. ræid jall þa til sudrfarar. for hann þa til Roms ok fann þar pafann ok tok hann þar lausnn af honum allra sinna mala. Uendi jall þadan til heimfarar ok kom med hæilu aftr j riki sitt. let hann þa af herferdum lagde þa hug a stiornn lyds ok landz (ok) a lagasetning. Hann sat jafnan j Byrgisherade ok let þar gera Kristzkirkiu dyrligt musteri. þar var fyst settr byskupsstoll j Orknneyium. þorfinnr jall atti Jngibiorgu jallamodur. þau attu .ij. sonu þa er ór barnnæsku komuzst het annarr Pall en annarr Erlendr. þeir voru mykler menn ok fridir ok mæirr j moduræ̇tt sina. menn uitrir ok hoguærir. jall unne þeim mikit ok þar med oll alþyda.

Fra andlaati þorfin(n)z jarls rika.

357. þorfinnr jall hellt ollu riki sinu til daudadags. er þat sannliga sagth at hann hafui rikazstr uerit allra Orknneyinga jalla. hann æignnadizst .ix. jalldoma a Skotlande ok allar Sudreyiar ok mikit riki a Jrlande. Suo segir Arnnorr jallaskalld.

Hrafnsfæde uard hlyda
herr fra þussaskerium
rett segig þiod hue þotti
þorfinnr[1] til Dyflinnar.

þorfinnr jall var þa .v. uetra gamall er Mæ(l)kolfr Skotakonungr modurfadir hans gaf honum jallz nafnn. en sidan uar hann jall .lxx. uetra. hann andadizst a ofanuerdum dǫgum Haralldz Sigurdarsonar. hann er iardadr at Kristzkirkiu j Byrgisherade þeirre er hann hafde gera latit. uar jall miog harmdaude j erfdalondum sinum en um þau lond er hann hafde lagt undir sig med hernade þa þotti morgum ofrelsi mikit at bua undir riki hans. hurfu þa a brottu mǫrg riki undan þau er jall hafde undir sig lagt ok læitǫdu menn ser traustz undir þa hofdingea er þar voru odalbornir til rikia. gerdizst þa bratt audsær misser at frafalle þorfinnz jalls. þessar visur voru kuednar um orrostu þeirra Rognualldz jalls Brusasonar ok þorfinnz jalls.

Fragum Finnz hue magi
fylgdut Kalfr um dylgior
ok letz þu a sia sneckiur
snarla lagt at jalle.

[1]) þ'f. *Cd.*

aræde uartu eyda
ofuss syne Brusa
blæde rudr en tedut
heiftminnigr þorfinni.

Oskepnan uard uppi
endr þa er mörgum kende
halegt rog at hniga
bord þar er jallar bördurzt.
nærr reduzst astmenn orir
elldhrid en uard sidan
olld fek mæin hin millda
morg firir Raudabiorgum.

Biort uerdr sol at sortna
söckr folld j lög döckann
brestr erfuidi hit eystra
allr brunar siarr med fiollum.
adr at eyium fridum
inndrottar þorfinni
þeim healpe gud geyme
gædingar uel tædu.

---

## UPPHAF RIKIS ÞEIRRA PAALS OK ERLENDZ OK ÆTTARTOLUR.

Nv toku synir þorfinnz jalls riki eftir hann. uar Pall þeirra ellre. uar hann ok firir þeim j radum. ecki skiptu[1] þeir londum med ser ok urdu þo lengstum uel sattir a sin skipte. Jngibiorg jallamodir giptizst Melkolfui Skotakonungi er langhals uar kalladr. þeirra son uar Dungadr Skotakonungr fadir Vilhialms hins agæta mannz. hans son het enn Vilhialmr ödlingr er aller Skotar uilldu til konungs taka. Pall jall þorfinnzson fek dottur Hakonar jalls Juarssonar [530] ok attu þau morg bornn. son þeirra het Hakon. þau attu dottur þa er þora het. hon uar gift j Noreg Halldore syne Bryniulfs ulfallda. Bryniulfr het son þeirra er atte Gyride Dagsdottur. önnur dottir Pals het Jngiridr er atti Æinarr Uorsakrakr. Herbiorg het hin þridea dottir Pals hon uar modir Jngibiargar rognnu er atti Sigurdr a Uestnese ok voru þeirra synir Hakon pik ok Bryniulfr. Sigridr uar enn dottir Herbiargar modir Hakonar barnns ok Herborgar er Kolbæinn hruga atti. Ragnnhilldr het hin fiórda dottir Pals jalls. hon uar modir Bendikz fodur Jngibiargar modur Erlings erchidiakns. Bergliot het enn dottir Ragnnhilldar er atti Hauardr Gunnarsson. voru þeirra synir Magnus ok Hakon klo ok Dufniall ok þorsteinn. þetta eru allt jalla ættir ok gædinga j Orknneyium ok koma þessir menn aller vid sög(u)na sidar. Erlendr jall þorfinnzson atti þa konu er þora het ok uar Sumarlida dottir Ospakssonar. Modir Ospaks uar þordis dottir Hallz a Sidu. Erlingr ok Magnus voru synir þeirra en dætr þeirra Gunnhilldr ok Cecilia er Jsakr atti ok uoru synir þeirra

[1]) skiptum *Cd.*

Endride ok Kolr. Jatuor het dottir Erlings laungetin Bergr het son hennar.

Her segir af Haralldz konungs falli ok dauda dottur hans.

359. þa er þeir brædr Pall ok Erlendr hofdu riki tekit j Orkneyium kom austan ór Noregi Haralldr Sigurdarson med her mikinn. hann kom fyst vid Hiatland. þadan for hann til Orkneyia. þar let hann eftir Ellisif drottningu ok dottur þeirra Mariu ok Jngigerde. Ór Orkneyium hafde hann lid mikit reduzst jallar badir til ferdar med konungi. for konungr þadan sudr til Æinglandz ok lende þar sem hæitir Klifland ok uann Skardaborg. sidan lagde hann at vit Hallarnes ok atti þar orrostu ok fek sigr. Miduikudag næsta firir Mathiasmessu atti hann orrostu j Joruik vid jalla Ualþiof ok Mǒrukara þar fell Mǒrukare. sunnudag eftir uar su borg gefin j ualld Haralldi konungi er stod uid Stafnnfurdubryggiu. gek hann a land at skipa stadinn. þar setti hann eftir Olaf son sinn ok jalla Pal ok Erlend ok Eystæin orra mag sinn. J þeirre landgaungu kom j moti Haralldi konungi Haralldr Gudinason med allmikinn her ok j þeim bardaga fell Haralldr Sigurdarson. Eftir fall konungs kom Eystæinn orri fra skipum ok jallar ok gerdu allharda hrid. þar fell Eystæinn orri ok miog suo allr Nordmanna herr. Eftir þa orrostu leyfde Haralldr konungr Olafi syne Haralldz ok jǒrlum brottfor af Æinglande ok her þeim ollum er æigi hafde flyit. siglde Olafr vt vm haustit af Hrafnnseyre ok suo til Orkneyia. ok þann dag ok a þeirre stundu er Haralldr fell vard Maria braddaud dottir hans ok er þat mal manna at þau hafui æins mannz fior haft. Olafr uar um uetrinn j Orkneyium ok uar hann hinn mesti vin jalla frænda sinna. þær voru bræd(r)adætr þora modir Olafs konungs ok Jngibiorg modir jalla. Olafr for um uorit austr til Noregs ok uar þar til konungs tekinn med Magnusi brodur sinum. en er þeir brædr redu Orkneyium þa var samþycke þeirra mikit ok gott langa hrid. en er synir þeirra toku at megnnazst þa gerduzst þeir ofstopamenn mykler Hakon ok Erlingr. Magnus uar þeirra kyrrlatazstr. alle(r) voru þeir mykler ok sterkir ok uel mentir vm alla hluti. Hakon Palsson villde vera firirmadr þeirra brædra. þottizst hann vera mæire burdum en synir Erlendz þuiat hann uar dotturson Hakonar jalls Juarssonar ok Ragnnhilldar dottur Magnus konungs goda. villde Hakon at vinir hans hefdi ór skiptum mæira hlut þar en þeir at hnigu til sona Erlendz. en Erlendr uillde ecki at synir hans hefde lægra hlut þar j eyium. kom þa suo at þeir frændr mattu ecki asamt vera ok uar med þeim ecki ohætt. þa attu fedr þeirra hlut

at med (þeim). þeir skylldu semia malit. var þa fundr til lagdr ok fannzst þat bratt a at huorr þeirra hnæigde eftir sinum sonum ok urdu æigi asattir. gerdizst nu osamþycki med þeim brædrum ok skilduz osattir ok þotti þat morgum mikill skade.

### Saattarfundr Magnus ok Hakonar.

360. Eftir þetta foru godgiarnir menn j mille þeirra ok læita um sættir. var þa lagdr sattarfundr med þeim j Hrossey. a þeim funde geingu saman sættir þeirra med þui moti at þa uar skift eyium j helminga suo sem verit hafde med þeim þorfinne ok Brusa. stod suo um hrid. Hakon uar þa iafnan j hernade sidan hann þroskadizst gerdizst hann þa ofstopamadr mikill. ok læitodu miog a þa menn er þionodu undir þa fedgana. kom þa enn suo at þeir urdu osattir ok foruzst at med fiolmenni. Hauardr Gunnason ok aller adrir gædingar jalla baru enn samann med ser ok baru sattmal a mille. villdu þeir Erlingr fedgar þa æigi sættazst suo at Hakon væri þar j eyium. en med þui at vinum þeirra þotti mikit j abyrgd um dæilur þeirra þa [531] felldu þeir bæn at Hakoni at hann leti þetta æigi firir sættum standa at hann færi burt ór eyium at sinne. gek þa enn sættin saman at godra manna rade. Eftir þetta for Hakon burt ór eyium fyst austr til Noregs ok fann þar Olaf konung kyrra. þetta var ofarliga a hans dǫgum. dualdizst Hakon þar nockura stund. sidan for hann austr til Suiþiodar a fund Jnga konungs Steinkelssonar ok tok hann vid honum uel. hann fann þar vine sina ok frændr. hlaut hann þar hinn mesta heidr af vinsęldum Hakonar modurfǫdur sins. hann hafdi halldit riki af Stæinketli Suiakonungi sidan er hann uard landflotti firir Haralldi Sigurdarsyni. hafde hann þar ordit hinn vinsælsti bæde af konungi ok landzmonnum. Annarr dotturson Hakonar jalls Juarssonar uar Hakon er kalladr uar hinn norræni. hann uar fadir Æireks hins spaka er konungr uar j Danmorku eftir Eirek konung eymuna. Hakon dualdizst j Suiþiod vm hrid ok uar Jngi konungr uel til hans. en er suo hafde fram farit vm hrid þa leku honum landmunir at sækia uestr til eyia. þa uar j Suiþiod ungh kristni. voru þa margir menn þeir er foru med forneskiu ok þottuzst af þui verda frodir ok uiser margra hluta þeirra er æigi voru framkomnir. Jnge konungr uar uel kristinn madr ok voru honum læidir aller forneskiumenn. lagde hann mykla stund a at eyda ouenium þeim er leinge hofdu fylgt hæidninne. en landzhofdingiar ok storbændr kurrudu illa er um uar uandat osidu þeirra. kom þui suo at bęndr toku ser annan konung þann er þa hellt til blota Suæinn broder drottningar

ok var kalladr Blotsuæinn. firir honum uard Jnge konungr landflotta j uestra Gautland. en suo lauk þeirra skiptum at Jnge konungr tok hus a Suæine ok brende hann inne. eftir þat tok hann allt land undir sig. eyddi hann þa enn usidum morgum.

## Fra ordum visindamanz.

361. þa er Hakon Palsson uar j Suiþiod hann hafde frett til at þar j lande var sa madr er for med visende ok spadom huort er hann hafde til þess fiolkynge edr adra hluti. honum gerdizst foruitni a mikil at finna þann mann ok vita huer(s) hann yrde viss um forlǫg sin. ok eftir þetta for hann til þess mannz ok fann hann at lyktum j siobygd nockurre. for hann þar at uæitzslum ok sagde bondum um arferd ok adra hluti. en er hann fann þenna mann þa fretti hann eftir huersu honum munde gangazst til rikis edr annarrar hamingiu. Visendamadr spurde huat manna hann uæri. hann sagde nafnn sitt ok ætt sina at hann uar dotturson Hakonar Juarssonar. þa sagde visendamadr. hui muntu uilea taka af mer visendi edr sagnir. væitzstu þat at hinir frændr þinir hafua litinn hug haft a þesshattar monnum sem ek er ok ma þer þorf vinna ath þu læitir eftir at vita forlǫg þin af Olafi hinum digra frænda þinum er þer hafuit allan trunat a. en grunr munde mer a uera at hann munde æigi litilæti til hafua at segia þer þat er þig foruitnar edr vera æigi suo mattugr ella sem þer kallit hann. þa suarar Hakon. ecki uil ek honum amæla. ætla ek þat mæir at ek mun æigi uerdlæika til hafua at taka af honum visende en hitt at æigi muni hann vera suo uolldugr at ek mætta taka firir þat af honum visende. en þui hefui ek a þinn fund farit at mer hefir þat j hug komit at her mun huorgi þurfa at ǫfunda annan firir mannkosta saker edr trubragda. Sa madr suarar. uel likar mer þat at ek finn þat at þu þickizst þar æiga allt traust er ek er ok framar en trua su er þer hafit med farit ok adrir frændr þinir. er ok suo at þeir er a sligt stunda er undarliga farit. fara med fostur ok uǫkur ok ætla at þar af muni þeim uæitazst þeir hlutir er þeim er foruitnne a at vita. en þo at þeir stunde a sligt þa verda þeir þui sidr visir þess er þa foruitnar sem þa skiptir meira. en ver leggium oss j ǫngar meingerdir ok verdum ver þo iafnan viser þeirra hluta er vinum uorum þikir male skipta at þeir gangi oduldir. nu mun suo fara med ockr at þu munt þess niota fra mer er ek skil þat at (þu) þickizst helldr mega taka sannynnde af mer en kennimonnum Jnga konungs þeim er hann þickizst allt traust undir æiga. skaltu koma a þriggia natta fresti skulu vit þa freista at ek kunna at segia

þer nockura hluti þa er þig foruitnar. Eftir þat skilia þeir ok duelzst Hakon þar j bygdinne. ok at lidnum þremr nottum for hann ath finna visendamann. var hann þa j huse nockuru æinn saman ok uarpade mædiliga ǫndinne er hann gek inn. strǫk hendinne vm ennit sagde at hann hafde mycklu til kostat adr hann yrde þeirra hluta viss er hann skyllde foruitnaz. Hakon quezst þa heyra vilia sin forlǫg. spamadrinn tok til orda. ef þu uil(l) forlǫg þin vita þa er þar langt um at tala firir þui at þau eru mikil ok af lifue þinu ok stundan munu mikil stortidende hliotazst ok er þat mitt hugbod at (þu) uerdir æinualldz-hofdinge yfir Orknneyium at lyktum [532] en kann uera at þer þiki langt at bida. hygg ek ok þat at þar mune þitt afkuęmi rikia. en af uestrfǫr þinne þeirre er þu ferr næst til Orkneyia munu mikil stor-tidende af gerazst þa er þeir hlutir uerda framgæingnir er þar af mun leida. þu munt ok a þinum dǫgum lata gera glæp þann er þu munt annattueggia fa bætt edr æigi vid þann gud er þu truir a. en spor þin liggia lengra vt j heim en ek fæ set en þo hygg ek at þu munir her bera bæinin j nordrhalfunne. nu hefuig ek sagt þer þa hluti er ek mun at sinne. nu rædr þu huersu þu skallt vit una þitt eyrende. Hakon suarar. mykla sǫgnn segir þu ef sǫnn er en þat ætla ek at betr muni vera en þu segir vm minn hag. ma ok uera at þu munir þetta æigi med sannyndum set hafua. Spamadr bat hann þui af trua sem hann uillde en quad þetta mundu fram fara.

## Af radagerdum Hakonar Paalssonar.

362. Eftir þetta fór Hakon til fundar vid Jnga konung ok duald-izst med honum skamma stund. tok þa orlof af konungi til brautfarar. Hakon for fyst til Noregs a fund Magnus konungs frænda sins ok tok hann vel vid honum. þar frettir hann þau tidende af Orknneyium at Erlendr jall ok synir hans rede þar mestu ok voru alluinsælir en Pall fadir hans uar helldr afskipta litill vm rikit. þat þottiz hann ok spyria af þeim monnum er uestan komu ok hellzst mælltu trunat firir honum at[1] Orkneyingar mundu litt langa til at hann kæmi uestr þangat ok hofdu þeir frid godan ok kyrrsæti en ugdu ef Hakon kæmi vestr at af honum mundi standa ofridr ok styriolld. En er Hakon hugsade þetta firir ser þa þotti honum eigi oruænt at þeir frændr munde hallda riki firir honum en lata honum æigi ohætt ef hann kæmi uestr þangat æigi med fiolmenni. tok hann þat rad at sækia at Magnus kon-ung at hann kæmi honum til rikis j Orknneyium.

[1]) ok *Cd.*

Rædur Hakonar fyrir Magnusi konungi.

363. þetta var eftir er Magnus konungr hafde latit af lifue taka Steigarþore ok Egil ok frelsade landit af ollum ofride. Hakon uar vitr madr ok þottizst hann skilia a rædum Magnus konungs er þeir ræddruzst vid at konungr munde vera storrádr ok agiarnn a riki annarra hofdingia. Hakon tok þær rædur firir konungi at þat væri hofdingsbragd at hafa leidangr vti ok heria vestr vm haf ok leggia undir sig eyiar sem gerde Haralldr hinn harfagri. segir ok ef hann fenge riki j Sudreyium at þadan væri hægt at heria a Jrland ok Skotland ok ef hann kæmi undir sig Uestrlondum at þadan væri gott at eflazst med styrk Nordmanna a moti Æinglismonnum ok hefnna suo Haralldz Sigurdarsonar fôdurfôdur þins. En er þeir tôludu þetta fannzst þat a at konungi fell þetta vel j skap. kallade at þetta væri vel talat ok hôfdingliga ok nærr sinu skaplynde. en þat skalltu hugsa Hakon segir konungr ef ek geri þetta firir ord þin ok aeggian at fara med her uestr vm haf at þer skal ecki a uvart koma þott ek borag frekan atsug til rikia þeirra er liggia uestr þar ok gera ek at þui ôngan manna mun. En er Hakon heyrde þenna orskurd let hann ser fatt vm finnazst ok grunade huar til mællt munde. let hann þa af at eggia konung a næinar ferdir. þurfti þa ok litils vid þuiat eftir þessa rædu sende konungr bod vm allt riki sitt at læidangr skyllde vti vera gerde hann þat bert firir alþydu at hann ætlade her þeim at hallda vestr vm haf huat sem sidarr gerizst til tidenda j hans ferdum. biugguzst menn þa til þessarar ferdar a ollu lande. Magnus konungr hafde med ser son sinn til þessarar ferdar .viij. vetra gamlan er Sigurdr het hann var uel mannadr.

Herferd Magnus berbeins vestr vm (haf).

364 þa er þeir brædr Pall ok Erlendr rédu Orknneyium kom austan ór Noregi Magnus konungr. hann hafde her mikinn. honum fylgdu margir lendir menn Vidkunnr Jonsson Sigurdr Hranason Serkr ór Sogne Dagr Æilifsson Skopti ór Gizska Ôgmundr Finnr ok þordr Eyuindr ôlbogi stallari konungs Kali af Ôgdum Sæbiarnarson þorleifssonar hins spaka er Hallfredr mæidde ok Kolr son hans. Kali var spekingr mikill ok kærr konungi ok orti vel. þa er Magnus konungr kom til Orkneyia þa tok hann jalla Pal ok Erlend ok sende þa austr til Noregs en setti Sigurd son sinn yfir eyiar ok fek honum raduneyti. Magnus konungr fór j Sudreyiar ok fylgdu honum synir jalla Magnus ok Erlingr synir Erlendz jalls ok Hakon Palsson. En er Magnus konungr kom j eyiar tok hann at heria fyst j Liodhusum ok uann þar

[1]) h' ɔ: hann *Cd.*

(sigr). ok j þeirre ferd uann hann allar Sudreyiar ok toku hondum Logmann (son) Gudrodar Sudreyia konungs. þadan for hann sudr undir Brethland ok atti orrostu mykla j Öngulseyiar sunde vid jalla tuo bretzska Huga hinn digra ok Huga hinn pruda. ok er menn brutu upp uopnn sin ok biugguzst til orrostu settizst Magnus Erlingsson nidr aftr j firirrume ok uopnazst æigi. konungr spyrr hui hann sæti. hann letzst þar vit ongann mann sakir æiga. vil ek þui æigi beriazst. [533] (Konungr mællti). far þu undir þiliur nidr ok ligg æigi her firir fotum monnum ef þu þorir æigi at beriazst þuiat ek ætla þer æigi tru til ganga. Magnus tok salltara ok saung um bardagan en hlifde ser ecki. orrosta þessi uar bæde hord ok long ok uar bæde skotit ok hoggit. var þat læinge at æigi matti sea j millum huernn ueg hniga munde. Magnus konungr skaut af handboga ok annarr madr haleyskr hea honum. Hugi prude bardizst al(l)hraustliga. hann uar suo buinn ok bryniadr at ecki uar bert a honum nema augun. Magnus konungr bat hinn haleyska at þeir skyti badir senn til hans. gerdu þeir ok suo. kom onnur orin j nefbiorgina en ȯn(n)ur j augat ok uar su konungi kend.

Andlaat Kala.

365. Eftir fall Huga flydu Bretar. Magnus konungr red þa sigri myklum. hafde hann þar ok latit goda menn marga en fiolde sárr. j orrostu þessi hafde Kali fengit sar mȯrg ok æinge allbanuæn. Eftir orrostu þessa uende Magnus konungr aftr hit sydra med Bretlande ok Skotlande. þa hafde hann unnit allar Sudreyiar ok Ongulsey þat er þridiungr Bretlandz. Magnus konungr hafde gert Magnus Erlendzson skutilsuæin sinn ok þionade hann iafnan at konungs borde. eftir bardagan j Öngulseyiar sunde lagde Magnus konungr a hann oþocka mikinn. hann hafde ecki sárr ordit þott hann hefde (ecki) hlift ser. leyndizst hann a brott um nott fra konungi ok leyndizst um hrid j skogum medan konungsmenn leitadu hans. Magnus kom fram j hird Melkolfs Skotakonungs ok dualdizst þar vm hrid en stundum uar hann j Bretlande (med) byskupi nockurum. hann uar ok a Æinglande en ecki kom hann til Orkneyia medan Magnus konungr lifde. Magnus konungr hellt sunnan med Skotlande. þa komu j moti honum sendimenn Melkolfs Skotakonungs ok badu hann sætta. segia suo at Skotakonungr uill fa honum allar þær eyiar er liggia firir uestan Skothland ok hann fære stiornnfostu skipe mille ok meginlandz. Eftir þat lagde Magnus konungr sunnan at Satiri ok let draga skutu yfir Satiris hæid en hann hellt um hialmuȯl ok æignadizst suo allt Satiri. þat er betra en hin

bezsta ey j Sudreyium nema Mǒn. hon gengr vestr af Skotlande ok æid miott firir ofan suo at þar eru iafnan dregin skip yfir. Magnus konungr hellt þadan j Sudreyiar en sendi menn sina j Skotlandzfiordu. roa med ǒdru lande vt en odru inn ok eignar ser suo allar eyiar firir uest(an) Skotland. þa gerde konungr þat bert at hann munde sitia um uetrinn j Sudreyium en leyfdi þeim monnum er honum þotti mest naudsyn a uera heim at fara. en er lidsmenn vissu þat þa gerduzst þeir heimfusir ok kurrudu illa um brottuist sina. Konungr atti þa tal vit raduneyti sitt ok þa sa hann yfir sar manna. þa fann hann Kala ok fretti at sarum hans. hann quazst litt groa ok letzst æigi uita til huers draga munde. konungr læitade rada vit hann. Kali spurde. er æigi þat ath nu skiotizst vinir ydrir. Konungr letzst ætla at þat være æigi. Kali bat hann æiga uopnatak ok kanna suo lid sitt. konungr gerde suo ok saknar þa margra manna ok segir til Kala. þa quat Kali þetta.

Hue launa þer þinir
þingrikir hǒfdingiar
uestr bifazst reingr j rostum
reynþu oss konungr hnossir.

þa suarar konungr.

Aud hefuig minn þann er monnum
margtæitum red ek uæita
huf let ek klockuan klifa
kolgur illa folginn.

Eftir þetta hellt konungr uǒrd ef menn hlypizst fra honum. þa er Magnus konungr uar j Sudreyium þa fek hann til handa Sigurde syni sinum Biadmonio dottur Myrkkiartans Jrakonungs þialbasonar af Kunnaktum. þa var Sigurdr .ix. uetra en mærin .v. uetra. þenna vetr andadizst Kali ór sarum. J Ǫngulseyiar sunde hafde fallit Sigurdr snæis lendr madr af Ǫgdum frænde Kala.

Fæddr Kali.

366. Um uorit snemma for Magnus konungr ór Sudreyium ok fyst til Ǫrkneyia. þa fretti hann andlat jalla ok hafde Erlendr andazst j Nidarose hann var þar jardadr en Pall j Berguin. þa gifti Magnus konungr Gunnhilldi dottur Erlendz jalls Kol Kalasyne j fodurbætr ok fylgdu henni heiman nockurar æignir j Orkneyium ok bu j Papule. Erlingr son Erlendz jalls segia sumir menn at fallit hafui j Ǫngulseyiar sunde en Snorre Stulluson segir hann fallit hafua a Ulazstiri med Magnusi konungi. At brudhlaupi Kols gerdizst Erlendr m dr konungs

ok for austr j Noreg med konungi ok hæim a Agdir med konu sina ok settizst at buum sinum. þau Kolr ok Gunnhilldr attu .ij. bǒrn het son þeirra Kali en dottir Jngirid będe voru þau hin mannuænstu ok fædd upp med ast mikille.

### Sigurdr var til konungs tekinn.

367. þa er Magnus konungr hafde lande radit .ix. uetr for hann ór lande uestr um haf ok heriade a Jrland ok uar vm uetrinn a Kunnakto en um sumarit eftir fell hann a Vlazstiri Bartholomeus messodag. En er Sigurdr spurde fall fǒdur sins j Orkneyium for hann þegar austr til Noregs ok uar þar til konungs tekinn med brædrum sinum Eystæine ok Olafi. Sigurd(r) let eftir dottur Jrakonungs firir uestan hafit. Æinum uetri edr .ij. eftir [534] fall Magnus konungs komu uestan vm haf Hakon Palsson ok gafu konungar honum jalls nafnn ok riki sligt sem burdir hans stodu til. for hann þa uestr vm haf ok tok undir sig riki j Orknneyium. hann hafde iafnan fylgt Magnusi konungi medan hann lifde. hann uar med honum j hernade austr a Gautlande sem segir j drapu þeirri er ort er vm Hakon Palsson.

### Magnus feck jarls nafn.

368. þa er Hakon jall hafde riki haft j Orkneyium kom ofan af Skotlande Magnus son Erlendz jalls ok bæiddizst at taka vit fodurlæifd sinne. þat likade bondum uel þuiat hann var alluinsęll hann atti þar marga frændr ok maga þa er giarnna villdu honum til rikis hallda. þa atti modur hans sa madr er Sigurdr het þeirra son uar Hakon karll þau attu bu j Papule. þa er Hakon jall spurde at Magnus jall uar kominn j eyiarnar dro hann lid at ser ok uillde æigi upp gefa. Eftir þat foru vinir a mille ok leitǒdu um sættir. kom þui suo at þeir sættuzst at þui at Hakon gaf upp riki halft ef þat væri atkuæde Noregs konunga. Magnus for þegar austr til Noregs a fund Æystæins konungs þuiat Sigurdr uar þa vt farinn j Jorsalaheim. Eysteinn konungr tok uit honum forkunnar uel ok gaf honum upp fodurlæifd sina halfar Orkneyiar ok jalls nafnn. for Magnus jall uestr vm haf a uit rikis sins ok urdu þar fegnir frændr ok uiner ok oll alþyda. samdizst þa vel frændsemi þeirra Hakonar er vinir attu hlut j. uar þa ár ok fridr gódr j Orkneyium medan vinatta þeirra hellzst.

### Fra Magnusi jarli.

369. Hinn heilagi Magnus eyiajall uar hinn agætazsti madr mikill at uexsti dreingiligr ok skyrlegr at yfirlitum sidgodr j hattum sigrsæll j orrostum spekingr at vite malsniallr ok riklundadr ǫrr af fe ok storlyndr radsuinnr ok huerium manni uinsælli blidr ok godr uitmælis uit spaka menn ok goda en hardr ok oæirinn uit ránsmenn ok uikinga. let drepa miog þa menn er heriudu a bændr ok landzmenn. let hann taka mordingea ok þiofa ok refsade suo rikum sem orikum ran ok þyfskur ok ǫll oknytti. æigi uar hann vinhallr j domum. virde hann mæira gudligan rett en mannuirdingar mun. hann var storgiofull vid hǫfdingea ok rika menn en iafnan væitte hann þo mesta huggan fatækum monnum. j ollum hlutum hellt hann rikuliga guds bodord þiade sinn likama j mǫrgum hlutum þeim er j hans lofligu lifue voru birtir firir gude en leynt firir monnum. synde hann þa radagerd sina at hann bat ser æinnar meyiar hinnar dyrdligstu ættar af Skotlande ok drak brudhlaup til. bygde hann .x. uetr hia henne suo at hann spillti huorskis þeirra losta ok uar hræinn ok fleklaus allra saurlifis synda. ok er hann kende freistne a ser þa for hann j kallt uatnn ok bat ser fulltings af gude. margir voru þeir hlutir adrir ok dyrdligir mannkostir er hann synde sealfum gude en leynde mennina.

### Fra Magnusi ok Hakoni.

370. Þeir frændr Magnus ok Hakon hofdu landuornn nǫckura hrid suo at þeir voru vel samþyckir. Suo er sagt j kuæde þui er ort er um þa at þeir hafui barizst vid þann hǫfdingia er Dufniall heti ok uar manne firnare en brædrungr jalla ok fell hann firir þeim. Þorbiornn het gǫfugr madr er þeir toku af lifue j Borgarfirde a Heatlande. fleire eru þau tidende er kuædit uisar a at þeir hafue badir samt at verit þo at her se æigi græiniliga fra sagt. En er þeir frændr hofdu nockura stund lande radit þa uar en sem oftarr ok iafnan kann uerda at margir illgiarnir menn urdu til um at spilla frændsemi þeirra. drozst Hakon þa ogiptumenn meirr a hendr þuiat hann uar miogh ǫfundsiukr um uinsældir ok hofdingskap Magnus frænda sins.

### Fra Magnusi jarli.

371. Tvæir menn eru þeir til nefnndir er voru med Hakoni jalli er æinna uest gengu a mille þeirra frænda Sigurdr ok Sighuatr socki. þui[1] rógi kom suo med umtale uondra manna at þeir frændr drogu þa enn lid saman ok for huor j moti odrum jalla[2] med myklu lide. þeir

[1]) þ'm o: þeim *Cd.* [2]) jj *Cd.*

helldu þa badir til Hrosseyiar þar sem þingstod þeirra uar Orkneyinga. en er þeir komu þar þa fylktu huorirtueggiu lide sinu ok biugguzst til bardaga. þa voru þar jallar ok allt stormenni ok voru þar margir beggia uinir þeir er allan hlut attu j at sætta þa. gengu margir þa a mille med dreingskap ok goduilea. þessi fundr var a langafǫstu. En vid þat er margir godgiarnir menn attu hlut at at skirra uandrædum med þeim en uæita huorigum til ohæfu uit annan þa bundu þeir sætt sina med æidum ok handsolum. ok er þadan lidu nockurar stundir þa eindagade Hakon jall med false ok fagrmælum stefnudag hinum sæla Magnusi jalli at æigi skyllde snuazst edr onytazst frændsemi þeirra ok stadfastlega nygeorr fridr. skyllde þessi fundr til stadfestu fridar ok sættargerda þeirra a mille j paskaviku vm uorit j Egilsey. þetta likade Magnusi jalli sem fullkominn hæilhuga fridr (an) allra grunsemda [535] suika ok agirndar ok skyllde huorr þeirra hafa .ij. skip ok iafnnmarga menn. suordu þess badir at hallda þær sættir er hinir vitrozstu menn redu upp at segia þeirra a mille. En er paschatidin gek af buazst huorirtueggiu til þessa fundar. stefnde Magnus jall til sin þeim monnum ollum er hann visse vera godgiarnnazsta ok likligsta til umbota med þeim frændum. Hann hafde .ij. skip ok iafnnmarga menn sem mællt var. ok er hann var buinn hellt hann til Egilseyiar. ok er þeir reru j logni ok sækyrru þa ræis bode a skipe þui er jall styrde ok fell yfir skipith þar er jall sat. Menn jalls undruduzst miog þenna atburd er bode fell j logni þar sem æinge madr uisse von til at fyrre hefde fallit ok diupt uar undir. þa sagde jall. æigi er þat kynligt at þer undrizst þetta en þat er hugsan min at þetta se firirbodan liflatz mins. kann vera at þat komi fram er firir er spad um Hakon jall. skulum vær suo hugsa uort mal at ek get at Hakon frænde minn mun bua æigi um heillt vit oss a þessum funde. Menn jalls urdu hryggir vit þessi ord er hann sagde suo bradar vonir sins liflatz ok badu hann gæta lifs sins ok fara æigi a trunat Hakonar jalls. Magnus jall suarar. fara skal nu at sinne ok verde allt at guds vilea um vorar ferdir.

## Atferd Hakonar jarls at Magnusi jarli.

372. Nv er at segia fra Hakoni jalli at hann stefnde at ser lide myklu ok hefir herskip morg ok oll skiput sem til bardaga skyllde leggia. ok er lidit kom saman gerir jall þat bert firir monnum at hann ętlade at a þeim funde skyllde um skipta med þeim Magnusi jalli suo at þeir skylldu æigi badir firir Orkneyium. Margir hans menn letu uel yfir

þessi radagerd ok logdu til mörg ord ferllig. voru þeir med uestum tillögum Sigurdr ok Sighuatr socki. toku menn þa rodr mikinn ok foru akafliga. Hauardr Gunnarson uar a jallsskipe vinr ok radgiafui jarlla ok uar badum þeim iafnnhollr. Hakon hafde leynt hann þessu órade er Hauardr uillde vist æigi vid sæma. Ok er hann visse jall suo stadfastan j þessu orade þa hliop hann af iallzskipinu a sund ok suam j ey æina obygda. Magnus jall kom fyrr til Egilseyiar med lid sitt. ok er þeir sa ferd Hakonar jalls sa þeir at hann hafde .viij. herskip. þottizst hann þa vita at vm suik munde buit. sotti Magnus jall þa upp a eyna med lid sitt ok til kirkiu til bęnar ok uar þar um nottina en menn hans budu at veria hann. Jall suarar. leggia uil ek æigi lif yduart j hættu firir mik. ok ef æigi uerdr fridr settr med ockr frændum þa verde sem gud uill. Monnum hans þotti sannazst þat er hann hafde sagt. Nu af þui ath hann uisse firir um lifstunder sinar huort er þat uar helldr af hugspeki hans edr gudligri uitran þa uillde hann æigi flyia ok æigi fara langt fra funde ouina sinna. hann badst firir rækiliga ok let syngia ser messu.

## Bod Magnus jarls.

373. Hakon ok hans menn hlupu upp um morguninn ok runnu fyst til kirkiunnar ok rannsokudu hana ok fundu jall æige. hann hafde vid þridea mann gengit annan ueg a eyna j leyne nockut. ok er hin(n) helge Magnus jall sa at þeir læitödu hans þa kallar hann a þa ok segir huar hann var. bat hann þa æigi an(n)ars læita. ok er Hakon sa hann þa hliopu þeir þangat med ope ok uopnabrake. Magnus jall uar þa a bæn sinne er þeir komu til hans. ok er hann lauk bæn sinne þa signnde (hann) sig ok mællte til Hakonar jalls med stadfostum hug. æigi geordir þu vel frænde er þu gekt a æida þina ok mikil uon at þu gerir þetta mæirr af annarra illzsku en þinne. nu uil ek bioda þer .iij. kosti at þu gerir þenna nockurnn helldr en spiller æidum þinum ok latir drepa mik saklausann. Menn Hakonar spurdu huernn hann byde. Sa er hinn fysti at ek mun ganga sudr til Roms edr allt vt j Jorsalaheim ok sækia heim helga stade ok hafa .ij. skip ór lande med þui sem ver þurfum at hafa ok bæta huorstueggia ockars sal. þess mun ek sueria at koma alldri til Orkneyia. þessu var skiott næitat. þa mællti Magnus jall. nu med þui at lif mitt er a ydru uallde ok ek hefui j morgum hlutum til sekta gert uid almatkann gud þa sentu mik upp j Skotland til vina ockarra beggia ok se ek þar varduæittr ok .ij. menn med mer til skemtanar. sea þu suo firir at ek nai

æigi or þeirri varduæitzslu at koma. þessu uar skiott næitat. Magnus mællti. en(n) er eftir æinn kostrinn sa er ek mun bioda þer ok ueit gud at mæirr se ek firir yduarre sal en lifue minu. en betr samir þer þat þo en tyna lifue minu. lat mik aflima sem þer likar edr augum ræna ok set mik j myrkuastofu. þa mællti Hakon jall. þa sætt tek ek ok æigi beidi ek framarr. Hofdingiar hlupu þa upp ok mælltu til Hakonar jalls. drepa munu uer nu annanhuðrnn yckarnn ok æigi skulu þit badir fra þessum degi londum rada. þa suarar Hakon jall. drepit hann helldr þuiat fyrr uil ek rada riki ok londum en deyia suo bratt. Suo segir Holldbode rettordr bonde j Sudreyium fra vidrædu þeirra. hann uar þa met Magnusi annarr hans manna er þeir gerdu hann handtekinn.

## Haalshaugg Magnus jarls.

374. Sva var hinn virduligi Magnus jarl gladligr sem honum væri til veizlu bodit huarki [536] mællti hann med stygd ne reidiordum. ok eftir þessa rædu fell hann til bænar ok lau(t) j gaupnir ser ok helll(i) vt morgum taarum j guds augliti. þa er hinn helgi Magnus jarl var til dauda raadinn baud Hakon Ofeigi merkismanni sinum at drepa jarl. en hann neitti med hinni mestu reidi. þa neyddi hann Lifolf steikara sinn til at bana Magnusi enn hann tok at grata haastofum. ei skalltu grata þetta sagdi jarl þvi at frægd er i at vinna slikt. vertu med stadfostum hug þvi at þu skallt hafa klædi min sem sidr er til ok lǫg hinna fyrri manna ok eigi skalltu hrædaz þviat þu gerir naudigr ok sa er þer naudgar misgerir meira enn þu. Enn er jarl hafdi þetta mællt steypti hann af ser kyrtlinum ok gaf Lifolfi. siþan bat hann ser leyfis at bidiaz fyrir ok þat var honum veitt. hann fell til iardar ok gaf sik gudi ok færdi honum sialfann sik i forn. eigi at eins bad hann fyrir ser edr vinum sinum helldr ok þar med fyrir vuinum sinum ok banamonnum ok fyrirgaf þeim af ollum hug þat er þeir misgerdu med hann ok iatti gudi sinar misgerdir ok bad þær af ser þuaz i vthellingu blods sins ok fal ond sina gudi a hendi ok bad guds eingla koma i mot saal sinni ok færa hana i huilld paradisar. þat segia sumir menn at hann tæki corpus domini þa er honum var messan sungin. þa er guds vinr var til hoggs leiddr mællti hann til Lifolfs. stattu fyrir mer ok hogg mik i hofud mikit saar þviat eigi samir at hogga hofdingia sem þiofa. styrkstu aumr þviat ek hefir bedit fyrir þer til guds at hann likne þer. Eftir þat signdi hann sik ok laut hann vndir hoggit ok leid ǫnd hans til himins.

### Birtizst heilagleikr Magnus jarls.

375. Sa stadr var aadr mosottr ok gryttr enn litlu sidarr birtuz verdleikar Magnus jarls vid gud sua at þar vard grænn vollr er hann var veginn. ok syndi gud þat at hann var fyrir rettlæti veginn ok hann odladiz fegurd ok grænleik paradisar er kallaz iord lifandi manna. Hakon jarl leyfdi eigi at iarl væri til kirkiu færdr. Andlaatzdagr Magnus jarls er tueim nattum eftir Tiburcius messo. þa hafdi hann iarl verit yfir Orkneyium .vij. vetr ok þeir Hakon baadir saman. þa var lidit fra falli Olafs konungs fiorir vetr hins aatta tigar. þa voru konungar yfir Noregi Sigurdr ok Eysteinn ok Olafr. þa var lidit fra burdi Cristz .m. ok niu tigir ok ein(n) vetr.

### Færdr til kirkiu likami jarls.

376. Eftir fundinn þa hafdi þora modir Magnuss jarls bodit baadum iorlum til veizlu ok nu kom Hakon jarl til veizlun(n)ar eftir vig hins helga Magnuss jarls. þora geck sialf vm beina ok bar jarli dryck ok hans monnum þeim er at viginu hofdu verit sonar hennar. ok er dryckr feck aa jarl þa geck þora fyrir hann ok mællti. nu ertu einn kominn hingat herra enn ek vænta yckar beggia. muntu nu vilia gledia mik at guds vitni ok manna. ver mer nu i sunar stad enn ek mun þer j modur stad. þarf ek nu miok þin(n)ar miskunar ok at þu leyfir mer at sun minn se til kirkiu færdr. ver mer nu sva bæna sem þu vill at gud se þer a doms degi. Jarl þagnar ok hugsar maalit er hon bad sva miukliga gratandi at hon nædi sun sinn til kirkiu at færa. hann leit vid henni ok felldi taar ok mællti vid hana. graf þar son þinn senn þer likar. Siþan var jarl færdr til Hrosseyiar ok grafinn i Cristzkirkiu þeirri er þorfinnr jarl leet gera.

### Jarteinagerdir Magni martiris.

377. Bratt eftir þetta syndiz optliga himneskt lios yfir grefti hans. siþan toku menn at heita aa hann ef i haaska voru komnir ok greiddiz þeirra maal sem þeir beiddu. Jafnan var kendr himneskr ilmr yfir grefti hans ok fengu þar siþkir menn heilsu. þvi næst gerdu menn ferd sina bædi af Orkneyium ok Hialltlandi er vanheilir voru ok voktu at leidi hans ok toku bot allra sinna meina. enn þo þordu menn eigi þersu miok vpp at hallda medan Hakon jarl lifdi. Sua er sagt vm þa menn er mest voru i sokum vm fiorraad vid hinn helga Magnus jarl at þeir do flestir illum dauda.

Jarteinagerd sæls guds vinar M(agnus).

378. J þenna tima var Vilhialmr byskup i Orkneyium hann var þar fystr byskup. þa var byskupsstoll at Cristzkirkiu i Byrgisheradi. Vilhialmr var byskup .vj. vetr ens seaunda tigar. hann tortrygdi leingi helgi Magnus jarls þar til er birtuz hans verdleikar sva framarliga at gud let hans heilagleik þeim mun hærra vaxa sem meirr var tilreynt ok segir i iarteinabok hans.

Sudrferd Hakonar jarls.

379. Eftir vig Magnus jarls tok Hakon Paalsson riki allt vndir sik i Orkneyium. let hann þa alla menn ganga til eida vid sik ok trunadar þeir er aadr hofdu þionat Magnusi jarli. gerdiz hann þa hofdingi mikill ok hafdi alaug mikil vid vini Magnus jarls þa er honum þottu mest i moti ser verit hafa i þeirra vidrskiptum. Nockurum vetrum sidarr bio Hakon ferd sina or landi ok for sudr til Roms. j þeirri ferd for hann til Jorsala sem sidr er til palmara sotti þangat helga doma ok laugadiz i anni Jordan. eftir þat vendi hann aftr til odala sinna ok tok vndir sik riki i Orkneyium. hann gerdiz þa stiornsamr ok fridadi vel riki sitt. setti hann þa i Orkneyium ny lõg þau er bondum hugnudu myklu betr enn þau er aadr hofdu verit. toku vid sligt at vaxa vinsældir hans [537] kom sva at Orkneyingar stundudu ecki annat enn hafa Hakon at hofdingia ok hans afsprıngi.

Ættartala. capitulum.

380. J þenna tima er Hakon jarl hafdi riki i Orkneyium bio sa madr i Dali a Katanesi er Maddan het gaufugr madr ok vel audigr. hans dætr voru þær Helga ok Frakaurk þorleif. Helga Maddadar dottir var frilla Hakonar jarls ok var þeirra sun Haralldr er kalladr uar hinn slettmali enn Jngibiorg dottir þeirra er atti Olafr bitlingr Sudreyia konungr. Margret var enn dottir þeirra. Frakaurk Maddadardottir var gift þeim manni er het Liotr nidingr i Sudrlandi ok var þeirra dottir Steinuor hin digra er atti þorliotr i Rekavik. þeirra son var Aulfir rosta ok Magnus Ormr ok Maddan Eindridi ok Audhilldr dottir. aunnur dottir Frakarkar var Gudrun er atti þorsteinn haulldr fiaransmunnr. þeirra son var þorbiorn klerkr. Hakon Palssun aatti sun er Paall het ok uar kalladr hinn vmaalgi hann var faalyndr ok vinsæll. med þeim brædrum var aavallt faatt er þeir voxu vpp. Hakon Paalssun var sottbitinn þar i eyiunum ok þotti þat mannskadi mikill þviat vm hans daga ofanverda var fridr godr en bondum var grunr a vm samþycki þeirra brædra.

## Drap þorkels fostra.

381. Eftir andlaat Hakonar jarls toku synir hans riki ok voru þeir snemmendis vsamþyckir ok skiptu med ser riki i helminga. gerdiz þaa braatt greinir miklar med stormenne ok hurfu gædingar miok i tva stadi. Haralldr jarl hellt Katanesi af Skotakonungi ok var hann þar löngum enn stundum uppi i Skotlandi aatti hann þar marga frędr ok vini. þa er Haralldr jarl var staddr i Sudrlandi kom til hans sa madr er Sigurdr het ok var kalladr sun Adalbrikz prestz hann var kalladr slembir. hann kom ofan af Skotlandi ok hafdi verit med David Skotakonungi ok hafdi hann lagt a hann virdingar miklar. Haralldr jarl tok vid honum forkunar vel. for Sigurdr vt i eyiar med Haralldi jarli ok Frackaurk Moddansdottir þviat þa var andadr Liotr nidingr brodir(!) hennar. hofdu þær systr þa mikil landraad med Haralldi jarli. Sigurdr slembir var i miklum kærleikum vid aull þau. þa fylgdi honum Audhilldr dottir þorleifar Moddansdottur er siþan aatti Hakon klo. Audhilldi hafdi aatta Eirikr stræta. þeirra sun het Eirekr slagbellir. þa er þau komu vt i eyiar Frakaurk ok Sigurdr geriz sueitardrattr mikill ok heimti huartueggi jarla at ser vini sina sem flesta. enn þeir voru kærazstir Pali jarli Sigurdr a Vestnesi er atti Jngibiorgu hina tignu frændkonu jarla ok þorkell Sumarlidasun er iafnan var med Pali jarli ok var kalladr fostri hann var frændi Magnus jarls hins helga ok var manna vinsælazstr. virdu sva vinir jarls at þorkell mundi þa sitst spara til deilu fyrir sakir harma þeirra sem hann hafdi bedit af Hakoni jarli faudur þeirra. þessu kom sva at þeir Haralldr jarl ok Sigurdr slembir giordu til þorkels fostra ok draapu hann. Enn er þat spurdi Paall jarl let hann ser allmiok mislika ok safnadi þegar lidi at ser. enn er þess vurdu uisir vinir þeirra beggia foru menn a millum ok leitudu vm sættir aattu þa allir hlut i at þeir skylldu sættaz. Pall jarl var sva reidr at hann vill eigi sættaz nema þeir menn allir væri brott gerfir er at viginu hofdu verit. enn med þvi at bondum þotti stor mein a deilum þeirra þa logdu allir ord til at þeir skylldu sattir verda. kom þvi sva at Sigurdr var brott gerr or Orkneyium ok þeir menn allir er Pali jarli þotti mest sakadir vm verk þetta. Haralldr jarl hellt vpp botum eptir vig þorkels. þat var ok mællt i þersi sætt at batna skylldi frændsemi þeirra ok skylldu þeir vera baadir samt vm iul ok allar hinar stærstu haatidir. Sigurdr slembidiakn for brott or Orkneyium ok vpp i Skotland ok dualdiz þar vm hrid med Melkolmi Skotakonungi i godu yfirlæti. þotti hann þar hinn mesti afreksmadr i ollum karlmann-

ligum iþrottum. dualdiz hann vm hrid i Skotlandi aadr hann for vt i Jorsalaheim.

### Haralldr jarl drepin af galldri.

382. þat var vm daga þeirra brædra at þeir skylldu taka veizlu i Ôrfioru at bui Haralldz jarls ok skylldi hann þa kostnadi vpp hallda þau iôl af beggia þeirra hendi. var hann þar þa i vidbunadi miklum ok starfui. þær systr voru þar Frakaurk ok Helga med iarli ok saatu þær i litilli stofu at saumum sinum. Haralldr jarl geck i stofu þar er þær saatu systr a þuerum palli ok hann saa linklædi a millum þeirra nysaumat huitt sem drift. jarl tok vpp klædit ok sa at þat var vida gullsaumat. Jarl spyrr. huerr aa gersemi þersa. Frakaurk svaradi. þat er ætlat Pali brodur þinum Hui vandi þer honum sua miok klædi. eigi leggi þer iafnmikla stund aa at sauma mer klædi Hann var nystadinn vpp ok var i skyrtu ok linbrokum ok hafdi kastat motli aa herdar ser. hann kastadi af ser môtlinum ok rakti i sundr klædit. modir hans þreif til ok bad hann eigi aufunda þott brodir hans ætti god klædi. Jarl hnyckir af henni ok bioz til j at fara. þa hnyckti Frakaurk af ser falldinum ok reytti sik kuat þar vid liggia lif hans ef hann færi i klædit. þær greetu þa badar miok Jarl for i ei at sidr ok leet falla ofan vm sik. enn iafnskiott sem klædit hrundi ofan vm hann kom hrollr i hôrund honum ok bratt fylgdi þar verkr mikill ok af þvi lagdiz [533] (hann) j reckiu ok laa skamma rid aadr hann andadiz. þotti þat vinum hans skadi mikill. þegar eftir hans andlaat tok Pall brodir hans riki allt med samþycki allra bænda Paall jarl virdi sva sem þær hefdi honum ætlat gersemi þersa sem Haralldr jarl hafdi i farit ok fyrir þær sakir villdi jarl ecki vistir þeirra i Orkneyium. foru þær i brott or eyiunum med allt skulldalid sijtt ok fyst a Katanes ok þadan vpp i Skotland til bua þeirra er Frakork aatti þar. þar fæd(d)iz vpp med henni Erlendr son hennar medan hann var yngstr. þar fæddiz ok upp Aulfir rosta son þorliotz vr Rekavik ok Steinny dottir Frakarkar. Aulfir var manna mestr rammr at afli ok vppivodslumadr mikill ok vigamadr enn mesti. þar fæddiz vpp þorbiorn klerkr son þorsteins haulldz. þar fæddiz ok upp Margret dottir Hakonar jarls ok Helga Moddansdottir ok Eirekr slagbellir. þessir voru allir ættstorir menn ok miklir fyrir ser ok þottuz allir eiga mikit tilkarl til rikis i Orkneyium. þeir voru brædr Frakarkar Magnus hinn orfi ok Ottarr jarl i þorsey. hann var gofugr madr.

### Fra Paali jarli.

383. Paall jarl red þa Orkneyium ok var allvinsæll hann var allfamalugr ecki taladr a þingum leet miok adra raada rikinu med ser. hann var hoguærr ok dæll i ollu vid folkit milldr af fee ok spardi einga hluti vid vini sina. hann var vherskaar ok sat miok i kyrsæti. þa var i Orkneyium mart gofugra manna þeirra er kom(n)ir voru af iarla ættum. þa bio a Vestnesi i Hrolfsey gaufugr madr er Sigurdr heitir. hann aatti Jngibiorgu hina tignu. enn modir hennar var Herborg dottir Paals jarls þorfinnzsunar. þeirra synir voru Bryniulfr ok Hakon pik. þeir voru allir gædingar Pals jarls. þa voru synir Hauardz Gunnasunar enn gædingar Pals jarls ok Hakon klo sua þorsteinn ok Dufniall. modir þeirra var Bergliot enn hennar modir Ragnhilldr dottir Pals jarls. Erlingr het madr er bio a Katanesi. hann aatti fiora sonu ok alla vel menta Olafr het madr er bio i Gareksey. annat bu aatti hann i Dungaalsbæ a Katanesi. Olafr var it mesta afarmenni ok hafdi miklar virdingar af Pali jarli. Aasleif het kona hans. hon var vitr ok ættstor ok hin mesta fyrir ser. Valþiofr het sun hennar annar Sueinn þridi Gunni allir voru þeir vel mentir. Jngigerdr het systir þeirra. Sigurdr jarlsmaagr aatti þoru modur Magnus jarls þeirra son var Hakon karl. þeir fedgar voru hofdingiar miklir. J Rinarsey bio su kona er Ragna het þorsteinn het sun hennar gilldr madr fyrir ser. Kugi het bondi er bio i Vestrey vitr madr ok audigr a Gefsisnesi. Helgi het bondi er bio i Vestrey i þorpi þvi er þar er. þorkell fletta bio i Vestrey vdæll ok mikilhæfr. þorsteinn ok Haflidi voru vvinsælir menn. J Suiney a Petlandzfirdi bio felitill madr hans synir voru þeir Aasbiorn ok Murgadr hinir vaxligzstu menn. J Fridarey bio saa madr er Dagfinnr het. þorsteinn het madr er bio a Flugunesi i Hrossey hans synir voru þeir þorsteinn krokauga ok Bliann þeir voru vdelir menn. Jatuor dottir Erlendz jarls bio a Knarrarstodum ok Borgar son hennar. þau voru helldr vuinsæl. Jonn vængr bio i Haaey a Vpplandi. Rikgardr bio a Breckum i Streaumsey. þeir voru vrikir menn ok frændr Olafs Hrolfssunar. Grimkell het madr er bio a Glettunesi. þessir menn allir koma uid soguna sidarr.

Em ek sitz ytar hnektu
iarlla sætt er ek vætti
iofn fenguz hræ hrofnum
hægintrudr at sægia.

sleit fyrir eyiar vtan
allvalldr blaa tialldi
hafdi hrægsuol dufa
brimi fast vm lima.

Fraagum Finz hue maagi
fylgdud Kaalfr vm dylgiur
ok leetz þu a sia sneckiur
snaarla lagt at jarli.
arædi vartu eyda
vfuss syni Brusa
hlædirudr enn redut
heiptminnigr þorfinni.

Vskepnan vard uppi
endr þa er morgum kendi
haaligt rog at hniga
haurd þar er jarlar borduz.

þær reduz aastmenn orir
elldbrid er vard sidan
aull feck mein hin millda
mórg fyrir Raudabiorgum.

Biort verdr sol at suartri
saukkr folld i mar dóckan
brestr erfidi et eystra
aallr brunar siaar med fiollum.
aadr at eyium fridum
inndrott þorfinni
þeim hialp gud ok geymi
gædingr minni fædaz.

## Fra Kala er siþan vard jarl, capitulum.

384. Kaali sat at buum sinum a Ógdum ok var allra manna vitrazstr. hann for ecki til Orkneyia. Kolr[1] var spekingr mikill. Kali son hans vox þar vpp ok var hinn efniligzsti madr medalmadr vexsti kominn vel a sik limadr manna bezst liosiarpr a haarslit manna litillatazstr ok vinsælazstr ok atgiorfismadr mikill. hann orti visu þessa.

Tafl em ek aurr at efla
iþrottir kann ek .ix.
tyni ek traulla runum
tijd er bok ok smidir.

skrida kann ek aa skidum
skyt ek ok ræ sua at nytir
huartueggia kann ek at hyggia
harpslaatt ok bragþaattu.

Kali var iafnan med Solmundi frænda sinum syni Sigurdar sneisar. hann var gialldkeri i Tunsbergi ok aatti bu a Austrógdum. hann var hofdingi ok hafdi sueit mikla vm sik.

## Af Kala ok Gillakrist.

385. [539] þa var Kali .xv. vetra er hann for med kaupmonnum vestr til Einglandz ok hafdi godann kaupeyri. þeir helldu til þess kaupstadar er Grimsbær heitir. kom þar mikit fiolmenni bædi af Noregi ok Orkneyium af Skotlandi ok Sudreyium. þar fann Kali þann mann er nefnndiz Gillakristr. hann spurdi marx af Noregi ok taladi flest vid Kala ok geriz þar felagsskapr. hann sagdi Kala i trunadi at hann het Haralldr ok var sun Magnus berbeins en modir hans var i Sudrey. frettir hann þa Kala huersu honum mundi fagnad i Noregi ef hann kæmi þar. Kali segir at honum þotti likligr Sigurdr konungr til at fagna honum vel ef eigi spillti adrir vm. þeir Gillakristr ok Kali

[1]) Koli *Cd.*

skiptuz giofum vid at skilnadi ok het huar odrum sinni vinattu fullkominne huar sem fundi þeirra bæri saman.

## Fraa þeim Kala ok Joni.

386. Eptir þat for Kali vestan a hinu sama skipi ok komu vtan at Ǫgdum ok helldu þadan til Biorgyniar. þa kuat hann visu.

Vær hofum vadnar leirur
uikur fimm megingrimmar
saurs er ei vant þar er vorum
vidr i Grimsbæ midium.
nu er þat er mas of myri
meginkatliga latum
branda elg a bylgiur
Biorgyniar til dynia.

En er þeir komu til beiarens var þar fiolmenne mikit bædi nordan or landi ok sunnan ok fiolmenne mikit af odrum londum er þangat hofdu flutt gæzsku mikla. gengu þeir skipueriar i skytninga at skemta ser. Kali var skartzmadr mikill ok (hafdi) sundrgerdir miklar er hann var nykominn af Einglandi. fanz honum þa mikit vm sik ok morgum odrum þviat hann var godrar ættar ok sialfr vel mentr. En i þeim skytningi er hann drack var einn madr er Jonn het ok var Petrsson Serkssonar or Sǫgni. hann var þa lendr madr. modir hans het Helga dottir Hareks af Sętrum. Jonn var aburdarmadr mikill. Vnnr het gofug husfreyia er gardinn atti þann er þeir drucku i. gerdiz þa med þeim Joni ok Kala felagsskapr ok skildu med kærleikum. for þa Jonn heim til bua sinna enn Kali for austr a Agdir til fodur sins. Kali var ok longum med Solmundi frænda sinum. geck sua fram nockur missare at Kali var a sumrum i kaupferdum en heima a vetrum edr med Solmundi.

## Kali for i Dollzhelli. capitulum.

387. þat var eitt sumar at Kali hafdi farit vestr til þrǫndheims. hann laa vedrfastr i ey þeirri er Dollz heitir. J eyinne var hellir er kalladr var Dollzhellir. var þar kollut feevan. þeir kaupmenn gengu til ok gengu (i) hellinn ok hofdu þar hitt et mesta torfæri. komu at þar er vatn var vm þueran hellinn ok treystiz einginn yfir at leggiaz nema Kali ok madr er Haavardr het huskarl Solmundar ok logduz yfir vatnit ok hofdu snæri a medal sin. Kali lagdiz ok hafdi elldskid i hendi ok elldzvirki medal herda. komu a land. þar var hraunott ok odaunan mikit. fengu þeir varla tendrat liosit. þa ræddi Kali vm at þeir mundi eigi lengra fara. ok gerdi þar vordu til minnis. þa quad Kali visu.

Her hefi ek hafann reistann
hardgediodum varda
Dollz i dockum helli
draug leita ǒk sua bauga.

eigi veit hue yta
vnnskida ferr siþan
langa braut ok liota
leid yfir vatnid breida.

Eftir þat hurfu þeir aftr ok komu heilir til manna sinna. ok er ecki getid vm ferdir þeirra at til tidenda yrdi annat. ok er þeir komu til Biorgyniar þa for Kali i sama skytni(n)g til Vnnar husfreyiu. þar var ok Jonn Petrsson ok heimamadr hans sa er Byniolfr het mart var þar annarra manna þott her se ei nefndir.

## Fra Haauardi ok Bryniolfi.

388. þat var eitt kuelld er þeir Jonn ok Kali voru geingnir at sofa en margir saatu eftir ok drucku. var mart talat. menn voru druknir ok kom þar at rætt var vm manniofnut ok þat huerir gofgazstir þætti lendra manna i Noregi. flutti Bryniolfr þat at Jonn Petursson væri bezst mannadr ok ættborinn af hinum yngrum monnum fyrir sunna(n) Stad. enn Hauardr felagi Kala taladi til Solmundar ok segir hann at eingu verr mentann enn Jonn. kalladi at Vikueriar mundi hann meira virda enn Jonn Her af geriz deila mikil. ok er eylit męllti med þeim þa vard eigi betr stillt enn sva at Hauardr hliop vpp ok feck tre eitt ok lystr þui i hofud Bryniolfi sua at hann fell i vvit ok toku menn til hans enn Hauardi var i brott skotid ok a fund Kala ok sendi hann sudr til Aluidru til prestz þess er Rikgardr het. ok berr honum ord min til at hann taki vid þer þangat til er ek kem heim austr. Kali feck honum mann til fylgdar ok roa þeir sudr þar til er þeir koma til Græningiasundz. þa mællti Hauardr vid foronaut sinn. nu eru uit komnir vr hundahliodi ok munu vit nu hlifa ockur ok leggiaz nidr til suefns. Nu er þar til at taka er Bryniolfr vitkadiz ok var honum fylgt a fund Jons ok segir honum allann þenna atburd ok þat ath [540] manninum var i brott skotit. Jon gat sannz til Havardz ok let taka rodrarskutu ok voru þar aa tiu menn ok var Bryniolfr fyrir þeim. roa siþan sudr þar til er þeir koma til Gręningasundz. var þa liost af degi. þa sa þeir at skip laa fyrir þeim a fiorunni ok ma vera segir Bryniolfr at þeir kunni nockut at segia fra þeim Hauardi. gengu þeir vpp ok fundu þa. voru þeir Hauardr þa nyvaknadir. Bryniolfr berr þegar vopn a þa ok voru þeir þar vegnir badir felagar. ok foru nu med þessi tidendi aftr til biarins ok segir til Joni. ok eftir þetta vissi allr bæiarlydrinn. Kali let ser miok misbodit i vigum þessum. ok er menn foru i milli þeirra Jons segir Jon at hann vill at Kali dæmi þat er honum

þotti ser misbodit. þar skylldi fyrir vtan konungs rettr ok adilar maals. ok toku þeir Kali þenna kost enn þo voru engir kærleikar med þeim þadan i fra. For Kali heim eftir þenna atburd. ok er þeir fedgar finnaz ok segir Kali fra tidendum þessum ok maalalyktum þa segir Kolr. vndarliga þotti mer þer synaz er þu tokt nockura sætt fyrr enn Solmundr vissi. þicki mer þu vant vidkominn ok mega litinn lut i eiga nema leita vm sættir. ok eigi mundi Solmundr sua gera ef þinn huskarl hefdi verit drepinn. Kali suarar. þetta mun vera sannmæli fadir at ek mun hafa skiott a litid ok vartu fiarri at kenna mer radin. mun þat oft synaz at (ek) mun eigi iafndiupuitr sem þu. enn ek hugsada at Solmundr væri eigi sinum soma at nær þott ek neitta þeim at mer væri bodinn. kalla ek yckr Solmundi eigi suiuirding i at hafa einskopun fyrir yckarnn málalut ef hann bydr yckr enn ef er mer a huart til þarf at taka. en vandalaust kalla ek mer vid Bryniolf medan ek hefir eingum vmmælum upp lokit ok vid eingu fe tekit. Mart toludu þeir fedgar þar vm ok þotti sinn veg huorum þeirra. sendu þeir siþan menn at segia Solmundi þessi tidendi.

## Fra Joni ok Solmundi.

389. Eftir þat funduz þeir Solmundr ok þeir fedgar. villdi Kolr at menn væri sendir til Jons at leita vm sættir. enn Solmundr ok Halluardr brodir Hauardz villdu ecki annat enn mann(h)efndir ok kalla vfallit at bidea saatta. enn þo vard þat raada tekit sem Kolr villdi med þui moti at Kolr het at skiliaz eigi fyrr vid þessi maal enn Solmundr hefdi sinn soma. skylldi ok Kolr aull ráad fyrir gera. Enn er sendimenn komu aptr segia þeir at þungliga var suarat þeirra maalum ok Jonn syniadi þuerliga at bæta þann mann er aadr hafdi til vhelgi ser verkat. Solmundr kuat þetta eigi fiarri fara getu sinni at þat mun eigi til sæmdar at bidia Jon til sætta. bad nu Kol til leggia þau raad er dygdi. Kolr suarar. vill Hallvardr sik i nockura hættu leggia til hefnda eftir brodur sinn ok kann vera at þo verdi litid framgeingt. Halluardr kuez sik ecki spara vilia til hefnda þott þat se nockur mannhætta. þa skalltu fara leyniliga nordr i Sogn til þess mannz er Vni heitir. hann byrr skamt fra Joni. hann er vitr madr ok nockut fevani þviat Jonn hefir leingi þreyngt kosti hans hann er vin minn mikill ok nu hniginn nockut aa alldr. honum skalltu færa sex merkr vegnar er ek sendir honum til þess at hann leggi raad til at þu komir hefndum fram vid Bryniolf edr annan heimamann Jons þann er honum þicki eigi minna laat i. enn ef þetta verdr framgeingt þa skal Vni koma þer a

Studlu til Kyrpingaorms frænda mins ok suna hans Ogmundar ok Erlings ok þicki mer þa sem þu ser heim kominn. bid Vna siþan selia iord sina ok radiz til min. Halluardr byz til ferdar ok er fra hans ferd edr naatstodum ecki at segia fyrr enn hann kemr einn dag at kuelldi til Vna ok nefndiz ecki sinu nafni. þeir Vni spurduz almælltra tidenda ok vm kuelldit er menn saatu vid ellda þa fretti gestrinn miok eftir tignum monnum i Sogni ok Hðrdalandi. Vni sagdi at þar þætti engi lendr madr rikari enn Jonn bædi fyrir ættar sakir ok enn viafnadar ok spurdi ef þeir hefdi eingar raunir þess sudr i landit. hann gestrinn vard faarr vid er hann mællti sua. Ok eftir þat drifu menn fra elldinum sua at þeir vrdu tueir einir eftir. þa tok Vni til orda ok mællti. huart nefndiz þu adan Halluardr. Nei sagdi gestrinn ek nefndumz Saxi[1] vm kuelldit. Vni mællti. af er þa minn vandi ok þat munda ek ætla ef ek heta Bryniolfr at þu hetir Halluardr. enn þo skulum vit nu ganga at sofa. Gestrinn tok til hans ok mællti. eigi skulum vit enn ganga. Selldi þa fram fesiodinn ok segir at Kolr sendi honum silfr þat med kuediu sinne til þess at þu legdir til med mer at ek kæma fram hefndum (vid) Bryniolf eftir brodur minn. ok segir honum allt raad Kols. Vni mællti. makligr være Kolr gods fra mer enn eigi ma ek vita huers af verdr audit vm hefndina vid Bryniolf enn hingat er hans von aa [541] morgin eftir klædum frillu sinnar. Ok nu fylgir Vni honum ut til rossahus er stod fyrir dyrum vti ok fal i etustalli. þat var fyrr enn menn stodu vpp enn inne hafdi hann legit vm nottina. þa er Halluardr hafdi litla rid verit i rosshusinu þa saa hann at fraligr madr var kominn a stadinn ok kallar at konan skylldi bua sik. hon tekr klædi sin ok berr vt. þickiz Hallvardr þa vita huerr vera mun. gengr þa wt. Bryniolfr hafdi þa af ser lagit vðpnin er hann batt klædin konunnar. ok þegar þeir finnaz hðggr hann Bryniolf banahogg. geck Halluardr þa aftr i rossahusit ok fal sik þar. Medan vigit var vegit hafdi konan geingit inn at minnaz vid heimamenn ok er hon kom wt saa hon verks vmmerki ok hliop inn med kalli ok felmti sua miok at henni hellt vid vvit ok sagdi þo tidendin. Vni bondi hliop vt ok sagdi at gestrinn mundi verit hafa flugumadr ok sendi þegar menn Joni at segia tidendin ok eggiar sem mest at leita eftir manninum. ok fyrir þat grunadi engi madr Vna vm þersi raad. Hallvardr var i rossahusinu þar til er af leid hin mesta leitin. enn eftir þat for hann med raadi Vna til þess er hann kom a Studlu til Orms ok suna hans þeir fengu honum foruneyti heim austr. toku þeir Kolr ok Solmundr vel vid

[1]) *usikkert i Cd.*

honum ok vndu þeir nu vel sinum lut. Nu spyriaz þesse tidendi vida. verda menn nu vissir ens sanna. likar nu Joni allþungt. Lida nu sua þau misseri ok annan vetr er at dro iolum bioz Jonn heiman med .xxx. manna ok bra aa þat at fara a kynnisleit til Olafs modurbrodur sins. ok sua gerdi hann ok feck þar godar vidtokur. segir Jonn at hann ætlar þadan austr a Agdir a fund Solmundar. Olafr latti þess sagdi at ecki laa hans lutr vndir þott þeir skilde sva bunir. Jonn letz þvi eigi vna at Bryniolfs væri vhefnt. Olafr letz ætla at lijtt mundi hans lutr batna vid þat þott hann leitadi eftir. enn þo hafdi hann þadan .xxx. manna ok for med haalfu hundradi lids austr it efra ok koma a vuart þeim Solmundi ok Kol. Enn er Jonn var nyfarinn heiman nordan braaz Vni vid skiott ok for sudr a Studlu til þeirra Orms ok fengu þeir honum foruneyti sudr til Kols ok kom hann þar at iolum ok sagdi at Jonn var i atfor vid þa. Kolr gerdi þegar niosnir alla uega þagat sem Jons var at vôn. hann for þegar til motz vid Solmund ok saatu þeir frændr med fiolmenni. þeim kom niosn vm farar Jons ok gerdu þegar j môt honum. var fundr þeirra vid skôg nockurn slær þar þegar i bardaga. voru þeir Kolr myklu lidfleiri ok hofdu sigr. enn Jon leet marga menn ok flydi siþan a skoginn. hann vard sarr a fæti ok greri þat saar sva illa at hann var iafnan halltr siþan ok kalladr Jon fótr. hann kom heim nordr a langafostu ok þotti hans ferd helldr hædilig. Nu leid vetr þessi enn vm sumarit eftir leet Jon drepa tva frændr Kols Gunnar ok Aaslak.

## Sættir Orkneyia.

390. Litlu sidar kom Sigurdr konungr til biarens ok voru þa kærd fyrir honum þessi vandkuædi. Eftir þetta gerir konungr ord huorumtueggium ok stefndi til sin. komu þeir þa til konungs med frændr sina ok vini. var þa leitat vm sættir. kom þa sva at konungs domr skylldi vera a ollum maalum ok geingu huarir til festa vid adra. Sigurdr konungr gerdi þa sætt þeirra med raadi hinna vitruzstu manna. var þat bundit i sætt þeirra at Jon Petrsson skal fa Jngiridar Kolsdottur skylldi þa takaz vinatta med teingdum. vig felluz i fadma atfor vid þa Kol ok saar Jons var likat vid mannalaat austr þar. enn saarum var saman iafnat enn bættr skacki. skylldu huorir odrum lid veita innanlandz ok vtan. þat fylgdi ok sætt þessi at Sigurdr konungr gaf Kala Kolssyni Orkneyiar haalfar vid Paal iarl Hakonarsun ok iarlsnafn medr. hann gaf honum ok nafn Rognualldz iarls Brusasunar þuiat Gunnhilldr modir hans sagdi Rognualld verit hafa giorfiligazstan allra iarla i

Orkneyium ok þotti þat heillavænt. þenna lut Orkneyia hafdi aatt Magnus iarl modurbrodir Kala. Eftir sætt þessa skilduz þeir med kærleikum er aadr voru fiandmenn.

## Andlaat Sigurdar konungs.

391. þenna vetr sat Sigurdr konungr austr i Oslo. enn vm vorit a langafostu tok hann sott ok andadiz einni nott eftir Mariu messu. þa var Magnus son hans þar i bænum ok atti þar þing ok var til konungs tekinn vm allt landit eftir þui sem menn hofdu suarit Sigurdi konungi. hann tok allar konungligar fehirdzlur i sitt valld. Haralldr gilli var þa i Tunsbergi er hann fretti laat Sigurdar konungs. þa hafdi hann stefnur vid vini sina. sendi hann þaa eftir þeim Rognvalldi fedgum. þuiat hann hafdi verit iafnan vin hans siþan þeir funduz i Englandi. þeir fedgar hofdu ok mest til leidar komit vm skirslu Haralldz vid Sigurd konung med fulltingi margra lendra manna Jngimars Sueinssunar ok þiorstolfs Aslasunar. var þat raad þeirra Haralldz at eiga Haugaþing þar i Tunsbergi. var þar Haralldr til konungs tekinn yfir haalft land. voru þat kalladir naudunga eidar er hann hafdi suarid fodurleifd sina ser af hendi aadr hann nædi skirslunni. drifu þa menn til hans ok gerduz honum handgeingnir ok vard hann allfiolmennr. þa foru ord a millum þeirra Magnus konungs ok stod sva fiora vetr aadr en sættum vyrdi aa komit med þui at haalft land skylldi hafa huarr vid annan. enn Magnus konungr hafdi langskip ok bordbunat ok fehirdzlur [542] allar ok vndi hann þo verr sinum lut. hann fiandskapadiz a alla vini Haralldz konungs. Magnus konungr villde eigi halldaz laata giof þa er Sigurdr konungr gaf Rognualldi Orkneyiar ok iarldom þuiat hann fylgdi fastaz maalum Haralldz konungs aadr lauk skiptum þeirra ollum. þeir Magnus ok Haralldr voru þria vetr konungar yfir Noregi sua at hellz sætt þeirra at kalla enn hit fiorda sumar borduz þeir aa Fyrileif. þa hafdi Magnus konungr nær .lx. hundrad manna enn Haralldr .xv. hundrat manna. þessir voru hofdingiar med Haralldi konungi Kristrodr brodir hans Rognualldr iarl Jngimar af Aski þiostolfr Aalason ok Solmundr. Magnus konungr feck sigr en Haralldr flydi. þar fell Kriströdr ok Jngimar. hann kuad visu þessa.

Flaugd hauttu mik
til Fyrileifar
æ var ek vfuss
til orrostu,

mik bitu orfar
af aalmboga
mun ek alldregi
a Ask koma.

Haralldr konungr flydi austr i Vik til skipa sinna ok for sudr til Danmarkar a fund Eiriks konungs eymuna. hann veitti honum Halland til yfirferdar ok langskip aatta reidalaus. þiostolfr Aalasun selldi iardir sinar til skipa ok vopna ok sotti Haralld konung til Danmarkar vm haustid. Haralldr kom at iolum til Biorgyniar ok la i Floruvogum vm iolin. Eftir iolin leggia þeir til bearens. vard þar litil vidrtaka vard Magnus konungr handtekinn a skipi sinu ok meiddr enn Haralldr konungr tok vndir sik land allt. enn vm vorit eftir endrnyiadi Haralldr konungr giofina vid Rognualld vm eyiar ok iarlsnafn.

## Af raadum Kols.

392. þat raad gerde Kolr at senda menn til Orkneyia ok beida Pal jarl at hann gæfi vpp halfar Orkneyiar sem Haralldr konungr hafdi gefit Rognualldi. skylldi þa ok takaz vinatta med þeim ok heil frændsemi. en ef Paall jarl varnadi þess þa skylldu þessir menn hinir somu fara a fund Frakarkar ok Aulfis rostu ok bioda þeim helming landa vid Rognualld jarl ef þau villdu sækia med her af Pali jarli. Enn er þersir komu til Orkneyia a fund Pals jarls ok baaru fram sin erendi þa segir Pall jarl. skil ek tilkarl þetta at þat er efnat med raadi ok langri vndirhyggiu. hafa þeir sôtt at þessu Noregskonunga at hafa riki vndan mer. nu vil ek eigi þui launa þann vtrunat at gefa riki mitt þeim manni er eigi (er) nær kominn enn Rognualldr enn varna bro(d)ursyni minnum edr systursyni. þarf (h)er eigi langt vm at tala þuiat ek mun veria Orkneyiar med styrk vina minna ok frænda medan gud ann mer lifs. Saa þa sendimenn sijt erendi huert þangat mundi verda. fara þeir a brott ok sudr a Petlandzfiord til Katanes ok sua sudr i land a fund Frakarkar ok bera þar vpp erndi sin at þeir Kolr ok Rognnualldr jarl bioda þeim Aulfi halfar eyiar ef þau vilia vinna af Pali jarli. Frakaurk suarar. satt er þat at Kolr er spekingr mikill ok vitrliga er þetta seet at leita hingat afla þuiat ver hofum frændafla mikinn ok marga teingdamenn. ek hefir nu gifta Margretu Hakonardottur Moddadi jarli af Atioklum er gofgazstr er at ættum allra Skotahofdingia. Melkolmr fadir hans er brodir Melkolfs Skotakonungs fodur Dauids er nu er Skotakonungr. hofum ver ok morg sannlig tilkaurl rikis i Orkneyium enn erum sialf nocku(r)er raadamenn ok kollud nockut diupvitr. kemr oss ok eigi allt a vuart i vfridum. enn þo þicki mer gott at eiga felag vid þa fedga fyrir margra luta sakir. skolu þer þau min ord segia þeim fedgum at vit Olfir munum koma til Orkneyia annat sumar at midiu sumri med her a hendr Pali jarli. komi Rogn-

ualldr jarl þa til motz vid oss ok laati þa deila vm stafn vid Pal jarl. enn ek mun i vetr draga at mer lid af Skotlandi ok Sudreyium af frændum vinum ok maagum. Foru nu sendimenn austr til Noregs ok segia sua buit þeim fedgum. þenna vetr eftir byz Rognualldr jarl til vestrfarar ok þessir hofdingiar med honum Solmundr ok Jonn. þeir foru vm sumarit eftir ok hofdu fritt lid ok ecki mikit .v. skip edr .vj. þeir komu til Hialltlandz at midiu summri ok frettu ecki til Frakarkar. þaa logduz aa anduidri stôr. þa logdu þeir skipum sinum i Aalasund enn foru at veizslum vm landit ok fôgnudu bændr þeim vel. Enn þat er at segia fra Frakaurk at hon ferr vm vôrit i Sudrey ok eflaz þau Aulfir þadan at lidi ok skipum. þau fengi .xij. skip ok aull smaa ok helldr lijtt skipud. ok nær midiu sumri helldu þau til Ork(n)eyia ok ætla til motz vid Rôgnualld jarl sem mællt var ok byriar þeim helldr seint. þar var Aulfir rôsta hofdingi fyrir þui lidi ok var honum ætladr iarldomr i Orkneyium ef þau fengi þar var Frakaurk i faur ok mart hennar skulldalid.

### Bardagi Paals jarls ok Aulfuis.

393. þa var Paall jarl i Hrolfsey a Vestnesi at Sigurdar a veizslu. ok er hann spurdi at Rognualldr jarl var kominn til Hialltlandz þa var ok spurt at herr safnadiz or Sudrey a hendr honum. gerdi jarl þa ord Kuga i Vestrey ok þorkatli fleetti þeir voru vitrir menn ok morgum odrum gædingum stefndi hann til sin. A þessi stefnu leitadi Paall jarl raada vid vini sina. enn þat syndiz eigi aullum einn veg. sumir villdu laata midla riki vid adrahuora ok hafa eigi huaratueggiu i moti ser enn sumir reedu at jarl færi yfir a Nes til vina sinna ok vita huern afla hann [545] fengi þar. Pall jarl suarar. eigi vil ek nu bioda þeim riki mitt er ek syniada þa þuerliga þa er þeir leitudu vel eptir. þicki mer ok vhofdingligt at flyia land mitt at aullu vreyndu. vil ek þat raad taka at senda menn i nott ath safna lide vm allar eyiar. forum siþan i mot þeim Rognvalldi jarli ok laatum siþan suerfa til stals med oss aadr Sudreyingar komi. Var þat raad haft sem Pall jarl villdi. Sa madr var þa med Pali jarli er Sueinn het ok var kalladr briostreip. hann var hirdmadr jarls ok metinn mikils af honum. hann var iafnan i vikingu vm sumrum enn aa vetrum (med) jarli. Sueinn var mikill madr vexti ok sterkr suartr ok vhamingiusamligr hann var forn miok ok hafdi iafnan vti setid. hann var stafnbui jarls. þessir hofdingiar komu þegar vm nottina til Pals jarls Eyuindr Melbrigdason ok hafdi skip alskipat. annat hafdi Olafr Rolfssun or Gareksey. þridia hafdi þorkell flettir.

fiorda Sigurdr. et fimta hafdi jarl. þessum .v. skipum helldu þeir til Hrolfseyiar ok komu þar vm aftan vid solar setr. droz þaa lid til hans vm nottina enn skipin fenguz eigi fleiri. þeir ætludu vm daginn eftir at sigla til Hialltlandz i moti þeim Rögnvalldi jarli. Enn vm morgininn er sol var skamt farin komu þeir menn til Pals jarls er seet kuoduz hafa fara langskip sunnan af Petlandzfirdi. kuoduz eigi vita huart er voru .xij. edr .x. þeir jarl þottuz vita at þar mundi fara herr Frakarkar. bad jarl þa roa j mot þeim sem hardaz. þeir Olafr ok Sigurdr baadu at farit væri tomliga. sagdi at lid mundi til þeirra koma a huerri stundu. ok þa er þeir voru austr fra Tannskaarunesi sigldu þa langskipin austan fra Mula ok voru .xij. saman. þeir jarl teingdu þaa saman skip sin. þa kom til hans Erlingr bondi af Tannskaarunesi ok synir hans ok budu honum lid sitt. þa hofdu þeir sva þraungt a skipunum at þeir þottuz eigi mega fle(i)rum monnum vid koma. bad jarl þa Erling flytia at þeim griot medan þeir mætti fyrir vfridi. ok þa er þeir hofdu vm buiz komu þau Aulfir ok greiddu þegar atrodr ok hofdu þau lid fleira enn skip smæri. Aulfir hafdi skip mikit ok lagdi hann þui at skipi jarls ok var þar hin hardazsta orrosta. Olafr Rolfssun lagdi fram sitt skip at hinum smærstum skipum Aulfers ok var þar bordamunr mikill ok hraud hann a skamri stundu .iij. skip Aulfis. Aulfir lagde sva fast at skipi jarls at frambyggiar allir hrukku aptr vm siglu. þa eggiar Aulfir fast menn sina til vppgaungu ok hleypr sialfr vr lyptingunni ok fram i skipit ok gengr sialfr fystr vpp. Sueinn briostreip var fremstr allra jarls manna ok bardiz allroskliga. Jarl ser nu at Aulfir er vpp kominn a skipit ok eggiar nu fast sina menn. hleypr nu or lyptingunni ok fram i skipit. ok þa er Aulfir ser þat þreif hann vpp flettiskeptu ok fleygir til jarls ok kom a skiolldinn ok fell hann þegar a þiliur nidr. þa var öp mikit. J þui bili tok Sueinn briostreip vpp stein mikinn ok fleygdi til Aulfis ok kom fyrir briost honum ok vard hoggit sva mikit at hann fell þegar wtbyrdiss ok i kaf. Hans menn gaatu tekit hann ok drogu vpp i skip ok vissu menn eigi huart hann var lifs edr daudr. þa hlupu sumir til ok hiuggu teingslin ok villdu flyia. þa voru ofan reknir allir Aulfis menn af skipi jarls. toku þeir þa at flyia. Aulfir raknadi vid ok bad þa eigi flyia enn þa leet eingi sem heyrdi huat hann mællti. Jarl rak þa flottan austr vm Rossey ok sva fyrir austan Rossey ok Rognvalldzey ok sva a Petlandzfiord. dro þa i sundr med þeim. snyr jarl þa aftr. ok þar er þeir hofdu bariz laagu aud fimm skip Aulfis tok jarl þau ok skipadi þau sinum monnum. Föstudaginn var bariz en vm nattina leet jarl bua

skipin. safnadiz þa til hans fioldi lids ok tva(u) langskip. vm morgininn hafdi hann tolf skip ok aull vel skipud. Laugardaginn sigldi hann til Hialltlandz ok kom a vuart þeim er gættu skipa Rognvalldz jarls. let Pall jarl drepa mennina enn tok til sin feit ok skipin. Vm morgininn kom þeim Rognvalldi jarli niosn. hlaupa þeir þa saman ok hafa bondasafnat mikinn. foru siþan ofan til strandar ok eggiar þa Pal jarl at ganga aa land ok beriaz vid sik. enn Pall jarl trudi eigi Hiolltum ok villdi eigi a land ganga en baud at þeir skylldu faa ser skip ok berdiz a skipum. Enn þeir Rognvalldr jarl saa at þeir fengu engi skip a Hialltlandi sva at þeim væri þat færi ok skildu þeir vid sua buit. foru þeir Pall jarl til Orkneyia. en þeir Rognvalldr jarl voru a Hialltlandi vm sumarit enn flultuz til Noregs vm haustid med ymsum kaupmonnum ok þotti þeirra ferd hin hædiligzsta. Enn er Rognvalldr jarl kom heim austr ok þeir funduz fedgar spurdi Kolr huart Rognvalldr yndi illa vid ferd sina. hann suarar ok leet sijtt erendi helldr vvirduligt. Kolr suaradi. eigi þicki mer sva. mer þickir mikit at gert er Hialltar eru vinir ydrir ok betra farit enn heima setid. Rognvalldr suaradi. ef þu [546] lofar þessa faur þa mun vera annathuart at þu munir vvandari at vorum lut enn ek hugda edr þu munt sia þa luti i vorri ferd er ver hugsum eigi eftir. vil ek nu giarna at þu siair raad fyrir oss ok verdir sialfr i ferd med oss. Kolr suarar. eigi skal nu bædi gera auduellda allt fyrir þer enn koma sialfr huergi nær. mun ek vilia miok minum raadum fram fara þess at ek halla eigi ydrum soma. Rognvalldr suarar. giarna vilium ver þinum raadum fram fara. Kolr suarar. þat er hitt fysta mitt raad at þu gerir ord til Haralldz konungs ok annarra vina þinna[1] at þeir fai þer i vðr lijd ok skip til vestrfarar enn ver drogum at oss allan afla þann er ver faum i vetr ok raadum sua til i annat sinn at annathuart se at ver faam eyiarnar edr liggium þar eptir ella. þat byr mer i skapi segir Rognvalldr jarl at fara ei margar slikar sem þessi er ver forum vm rijd. ætla ek þat flestum i hug er nu forum.

### Raadagiord þeirra Rognvalldz jarls.

394. Paall jarl for til Orkneyia eftir þat er hann hafdi skip þeirra tekit Rðgnvalldz jarls. hann aatti þa at hrosa miklum sigri. hann hafdi vinabod mikit ok baud til sin gædingum sinum. þat var raad tekit at hlada vita j Fridarey. skylldi þar elldi i sla ef herr væri seenn fara fra Hialltlandi. þa var annar viti a Rinarsey ok sua a fleirum eyium sua at

[1]) sinna *Cd.*

sia mætti vm allar eyiar. skylldi þorsteinn sun Hauarz Gunnasunar hafa Rinarsey enn Magnus brodir hans Sandey. enn Kugi Vestrey. Sigurdr a Vestnesi Hrolfsey. Olafr Hrolfssun for til Kataness i Dungalsbæ ok hafdi þar yfirsokn. Valþiofr sun hans bio þa i Strionsey. Pall jarl veitti þa giafir sinum monnum ok hetu þa allir honum sinni vinattu fullkominni. hann hafdi fiolment vm haustid þar til er hann spurdi at þeir Rognvalldr jarl voru i brottu af Hialltlandi. var þa i eyium tidendalaust ok leid sua fram at jolum. Pall jarl hafdi þa jolabod mikit ok efnadi til at bui sinu þui er var i Jorfioru ok baud þangat morgum monnum. þangat var bodit Valþiofi Olafssyni vr Straumsey. þeir foru .x. a teinæringi ok tynduz allir a Vestfirdi atfangadag jula ok þotti þat mikil tidendi þuiat Valþiofr var manna bezst mannadr. Olafr fadir hans hafdi sueit mikla a Katanesi. þar voru synir hans Sueinn ok Gunni ok synir Grims or Suiney Aasbiorn ok Margadr enir vaskligzstu menn. þeir fylgdu iafnan Sueini. þat var þrim naattum fyrir iol at Sueinn Olafssun var roinn til fiska Aasbiorn ok Margadr. enn Aasleif husfreyia ok Gunni sun þeirra Olafs voru farin til heimbods skamt i brott til vina sinna. enn vm nattina eftir kom Aulfir rosta i Dungalsbæ med sueit þa er hann hafdi haft vm sumarit i viking ok tok hus a Olafi Rolfssyni ok baaru þegar elld at ok brenndu hann inni vid setta mann en leyfdu odrum vtgongu. þeir toku allt lausafe ok foru vid suo buit i brott. Siþan er Sueinn kalladr Aasleifarsun. hann kom heim atfangadag fyrir iol ok for þegar nordr a Petlandzfiord komu vm midnætti i Suefney til Grims fodur þeirra Asbiarnar. steig Grimr a skip med þeim ok fluttu þeir Suein til Skaalpeids a Knarrarstadi. Arnkell het madr er þar bio ok synir hans Hanefr ok Sigurdr. Grimr ok þeir fedgar sneru þadan aftr ok gaf Sueinn Grimi fingrgull. þeir Hanefr ok Sigurdr fylgdu Sueini i Jorfioru. þar var Sueini vel fagnat. fylgdu menn honum til Eyuindar Melbrigdasunar frænda sins en Eyuindr leiddi Suein fyrir Pal jarl ok fagnar Pall jarl honum vel ok fretti at tidendum. Sueinn sagdi laat fodur sins. Jarl leet illa yfir þi ok kuad miok af ser leitt hafa. baud hann Sueini med ser at vera. Sueinn þackadi jarli bōd sitt.

## Sueinn drap Suein.

395. Eftir þat foru menn til aftansongs. þar var mikill husabærr ok stod i hallendi ok var brecka aa bak husum ok þa er a kom leitid var fyrir ofan Aurridafiordr. a honum liggr Damisey. þar var kastali j eyiinni ok gætti sa madr er Blaann het sun þorsteins a Flydrunesi.

þar i Jorfioru var dryckiuskaali mikill ok voru dyrr vid eystra gaflad sunnan a hliduegg ok stod kirkia dyrdlig fyrir skaaladyrum ok nidr at ganga til kirkiunnar fra skaalanum. enn er inn geck i skaalann var a vinstri hond hella mikil en fyrir innan aulker bædi morg ok stór enn i gegn vtidyrum var stofa. þa er menn komu fra aptansong var monnum skipad i sæti. leet jarl Suein Aasleifarsun sitia et næsta ser innar fra en vtar fra jarli sat Sueinn briostreip et næsta. enn þa Jon frændi Sueins briostreips. þa er bord voru vpptekin komu menn þeir er sogdu druknun Valþiofs Olafssunar ok þotti jarli þat mikil tidendi. þa bad jarl at eingi skylldi segia Sueini Asleifarsyni vm iolin ok kuat honum þo ærit mart til ahyggiu. ok vm kuelldit er menn hofdu druckit geck jarl at sofa ok flestir menn. en Sueinn briostreip geck vt ok sat vti vm nottina eptir veniu sinni. ok vm nattina stodu menn vpp ok hlyddu tidum. ok eftir haamessu gengu menn til borda. Eyuindr Melbrigdasun hafdi mest forraat a veizlunni med jarli ok sat ecki vpp. skutilsueinar ok kertisueinar stodu fyrir bordi jarls en Eyuindr skeinkti þeim nofnum sitt ker huorum þeirra. þa þotti Sueini briostreip [547] Eyuindr skeinkia hærra i sijtt ker enn taka fyrr vid enn Sueinn Asleifarsun hafdi druckit af sinu keri ok kalladi Suein drecka sleituliga. þar hafdi lengi verit faatt med þeim Sueini briostreip ok Olafi Rolfssyni ok sua þeim nofnum siþan er Sueinn Aasleifarsun þroskadiz. Ok er druckit hafdi verit vm stund þa (var) farit til nonu. enn er menn komu inn þa var mællt fyrir minnum ok druckit af hornum. þa villdi Sueinn briostreip skipta hornum vid nafna sinn. þotti þat vera litid. Eyuindr vatt þaa miklu horni i hond Sueini Asleifarsyni. ok baud þat nafna sinum. þa reiddiz Sueinn briostreip ok mællti fyrir munni ser sua at nockurir menn heyrdu ok sua jarl. Sueinn mun Sueini at bana verda ok Sueinn skal Sueini at bana verda. þessu var a dreif drepit. var nu druckit allt framan til aptansǫngs. ok er jarl geck wt þa geck Sueinn Asleifarsun fyrir honum enn Sueinn briostreip sat eftir ok drack. Enn er þeir komu fram i aulstofuna kom Eyvindr eftir þeim ok bra Sueini aa einmæli. hann spurdi. heyrdir þu huat nafni þinn mællti þa er þu hafdir bodit honum hornit. Eigi sagdi hann. Eyvindr hermdi þa ordin ok sagdi at þat mundi fiandinn hafa[1] mællt fyrir munn honum vm nottina. mun hann ætla þer dauda enn þu skalt verda fyrr at bragdi ok drepa hann. Feck Eyvindr honum auxi i hond ok bad hann þar standa hia hellunni j skugganum ok bad hann hoggua framan i moti Sueini ef Jonn gengi fyrir honum. enn ef Jonn gengi sidarr þa bad hann Suein

[1]) hafdi *Cd.*

hoggua eftir nafna sinum. Jarl gek til kirkiu ok gaf eingi gaum at þeim Eyuindi. en þeir Sueinn briostreip ok Jonn gengu vt litlu sidarr enn jarl. hafdi Sueinn briostreip[1] suerd i hendi þuiat hann bar iafnan suerd þott adrir væri vopnlausir ok geck Jonn fyrri. lios bar at vtidyrunum enn vedr var þungt. ok er Sueinn briostreip kom at vtidyrunum hio Sueinn Asleifarsun framan i enni honum ok rasadi hann vid enn fell eigi. ok er hann retti vid þa sa hann mann standa i dyrunum ok hugdi at sa hefdi særdann hann. þa bra hann suerdinu ok hio i hofut honum ok klauf hann i herdar nidr. vard þar fyrir Jonn frændi hans ok fellu þeir þar badir. Eyuindr kom þa at ok leiddi Suein Asleifarsun i stofu þa er gegnt var vtidyrum ok var hann þar dreginn vt vm skiavindauga. þar hefir Magnus Eyuindarsun hest buinn til reidar ok fylgdi honum a brott a bak bænum ok sua i Aurridafiord. toku þeir þa skip ok flutti Magnus Suein i Damisey ok flutti hann þar i kastala enn Blaann fylgdi honum vm morgininn nordr til Eigilseyiar a fund Vilhialms byskups. þa var byskup at tidum er þeir koma þar. ok eptir messu var Sueini fylgt leyniliga til byskups ok segir Sueinn honum tidendin lat fodur sins ok Valþiofs ok vig þeirra Sueins ok het a byskup til traustz. byskup þackadi honum fyrir vig Sueins briostreips ok kuad þat landreinsun verit hafa. leet byskup Suein þar vera vm iolin enn eftir þat sendi byskup hann til Sudreyia i Tyruist til þess mannz er Holldbodi het ok var Hundasun. var hann þar hofdingi mikill ok tok allvel vid Sueini. dualdiz hann þar vm vetrinn ok var vel virdr af allri alþydu.

## Fra Paali jarli.

396. Nockuru sidar enn vigin hofdu verit i Jorfioru hlupu menn til fra kirkiunni ok var Sueinn borinn inn i hus þuiat hann var enn eigi erendr ok vissi þo ecki. andadiz hann vm nottina. þa let jarl skipa monnum i sæti ok vildi viss verda huerr valldit hefdi vigunum ok var þa saknat Sueins Asleifarsunar. þottuz menn þa vita at Sueinn hafdi vegit. þa kom Eyuindr at ok mællti. þat mega menn sia at Sueinn briostreip mun veitt hafa Joni liflaat. Jarl mællti at eingi madr skylldi blaasa haar af hofdi Sueins ok segir hann eigi þetta fyrir sakleysi gert hafa. enn ef hann fordaz minn fund segir hann þa mun hann ser illa geta i þui. þotti monnum þat likligaz at Sueinn mundi farit hafa i Papule til Hakonar karls brodur hins helga Magnus jarls. hann var hofdingi mikill spaakr ok hofsamr. Ecki spurdi jarl til Sueins a þeim vetri

[1]) hafdi *tilf. Cd.*

ok leet hann gera Suein vtlægann. þa er vora tok for jarl vida vm Nordreyiar at landzskylldum sinum. hann vingadiz þa miok vid stormenne ok gaf nær a tuær hendr. Jarl kom i Straumsey ok gaf þorkatli fletti bu þat er aatt hafdi Valþiofr Olafssun til þess at hann skylldi viss verda huar Sueinn væri nidr kominn. þorkell mællti. eigi kemr nu at þui sem mællt er at morg eru konungs eyru. enn þott þu ser jarl þa þicki mer vndarligt at þu hefir ecki freett til Sueins enn ek vissa þegar at Vilhialmr byskup sendi hann til Sudreyia til Holldboda Hundasunar ok hefir hann þar verit i vetr. Jarl mællti. huat skal ek gera vid byskup er sliku hefir bellt. þorkell suarar. eigi er at gefa byskupi sakir a þessu vid þat sem nu liggr aa. muntu þurfa allra vina þinna ef þeir Rognvalldr koma austann. Jarl segir at slikt er satt. Pall jarl for þadan til Rinarseyiar ok þa veizlu at Raugnu husfreyiu ok þorsteini syni hennar. Ragna var vitr kona. þau aattu annat bu i Papey. þar sat jarl þriar nætr þuiat honum gaf eigi til Kuga j Ve(s)trey. þau jarl ok Ragna toludu mart. segir hon jarli at honum var litill skadi at vm Suein briostreip þott hann væri garpr mikill. hlautz þu af honum vvinsældir miklar. væri þat mitt raad vm þann vanda sem at ydr horfir [548] at þer gerdit ydr vini sem flesta ok væri vsakgiafir. villda ek at þer gæfit ei sakir Vilhialmi byskupi edr odrum frændum Sueins Asleifarsunar helldr villda ek at þu gæfir vpp byskupi reidi þina ok þui framar at þu letir senda ord i Sudrey eptir Sueini ok gefa honum vpp reidi þina ok eignir sinar til þess at hann væri þer þuilikr sem fadir hans. hefir þat leingi verit sidr hinna gofguzstu manna at gera mikit fyrir sakir vina sinna ok afla ser sua traustz ok vinsælda. Jarl suarar. vitr kona ertu Ragna enn eigi hefir þu hlotid jarlsnafn i Orkneyium. eigi skalltu her landraadum styra. heyr a endemi at ek munda Sueini fee til sætta gefa ok ætla at þat mundi mer vega sigr til handa. Hann gerir sik her reidann vm ok mællti. gud skipti med ockur Rognvalldi jarli frænda ok laati sua ganga huorum sem gert hefir. ef ek hefi vid hann misgert þa er nu maal at bæta. enn ef hann vill ganga a riki mitt þa þicki mer sa minn vinr mestr er mik eflir til þess at ek fa halldit riki minu. ek hefi Rǫgnvalld alldri seenan. hefir ek þui sidr at minni vitund honum misbodit at þat er frændr vorir hafa gera latid þa vita menn at ek aatti þar eingan lut at. Margir suorudu at miok væri vsyniu a hann leitat at beriaz til rikis vid hann enn eingi mællti i moti. þa er aa tok lijda vorit leet Pall jarl hallda vita a Fridarey ok Rinarsey ok nær i ollum eyium sua at huern maatti sia fra odrum. Madr het Dagfinnr Lauduerssun er bu aatti i Fridarey vaskligr madr.

hann skylldi gæta þess vitans ok sla elldi i ef herr væri seenn fara fra Hialltlandi. Rognvaldr jarl sat vm vetrinn heima aa Ögdum at buum þeirra fedga ok gerdi ord til frænda sinna ok vina enn suma fann hann ok beiddi at þeir mundi efla hann til vestrfarar at lidi ok skipum ok vikuz flestir vel vid naudsyn hans. enn vm gǒi sendi Kolr tua byrdinga or landi annan vestr til Englandz at kaupa vist ok vopn enn odrum hellt Solmundr sudr til Danmerkr at kaupa þar slikt sem Kolr sagde fyrir þuiat hann hefir nu alla ætlun a bunadi þeirra. sua var ætlat at þessir byrdingar skylldu komnir i land at paschum enn þeir ætla at bua ferdina eftir paschaviku. hafdi sitt langskip huarr þeirra fedga enn Solmundr hafdi hitt þridia. þeir Kolr hofdu ok vistabyrding. Enn er þeir komu til Biorgyniar var þar fyrir Haralldr konungr. hann feck Rognvalldi langskip alskipat. Jonn fotr hafdi ok langskip. et setta hafdi Aaslaakr sun Erlendz or Hernum. hann var dottursun Steigarþoriss hann hafdi ok vistabyrding. þeir hofdu .vj. storskip .v. skutur enn þria byrdinga. þa er þeir laagu til byriar i Hernum kom skip vestan ok spurdu þeir tidendi af Orkneyium ok sua huern vidrbunat Pall jarl hafdi ef Rognvalldr jarl kæmi vestr þangat.

## Raad Kols jarls(!)

397. Rognvalldr jarl leet blaasa til husþings er þeir laagu i Hernum ok taladi þa vm vidrbunat Pals jarls ok hue mikinn fiandskap Orkneyingar syndu vid hann er þeir ætludu at veria honum frændleifd sina þa er Noregs konungar hofdu honum gefit at reettu ok talar þar vm langt erendi ok sniallt ok ætladi sua at fara til Orkneyia at faa þær edr lataz ella. gerdu menn godan rom at maali hans ok hetu honum traustri fylgd. þa stod Kolr vpp ok mællti. spurt hofum ver af Orkneyium at þar vilia allir menn aa mǒt ydr risa ok veria riki yduart med Pali jarli. vilia þeir seint af laata þeim fiandskap er þeir hafa vpp tekit vid ydr frændi. nu er þat mitt raad at leita þangat traustz er nogt er til at saa vnni ydr rikis er aa at rettu enn þat er inn helgi Magnus jarl modurbrodir yduarr. vil ek at þu heitir aa hann at hann vnni ydr frændleifdar þinnar ok sinnar erfdar. at þu latir gera steinmusteri i Orkneyium i Kirkiuvǒgi er þu fær þat riki þat er ecki se annat dyrdligra i þui landi ok latir Magnusi jarli helga frænda þinum ok leggir þar fee til sua at saa stadr mætti eflaz ok yrdi þangat komit hans helgum domi ok byskupsstolinum med. þetta þotti ǒllum raadligt ok var þetta heit fest. Eftir þat leetu þeir i haf ok gaf þeim byr godann ok

toku Hialltland ok wrdu þar huorir odrum fegnir. kunnu Hialltar at segia þeim morg tiþendi af Orkneyium ok duolduz þeir þar nockur(a) rijd.

## Af Kol ok Vna.

398. þat var eitt sinn at Kolr spyrr Vna er fyrr var getid. hann var þa er hann reez til þegar[1] hniginn at alldri eftir er hann hafdi verit i fiorraadum vid Bryniolf. þa spyrr Kolr. huart villtu Vni gefa til raad at brugdit verdi vitanum i Fridarey edr annaz þat at eigi verdi annar kueiktr. kued ek þik at þessu fyrir þui at ek veit at þu ert vitrari enn þeir flestir adrir er her eru nu þott her se nu virdingamenn meiri. Vni suarar. eingi er ek raadamadr ennda vil (ek) eigi gera herhlaup med minum raadum. vil ek þi þat kiosa sem sidarr skal at gera at ek ætla þat helldr [549] af sialfum mer til at taka. Ok litlu sidarr leet Kolr bua morg sma skip ok sneri aa leid til Orkneyia. þar voru eingir hofdingiar i for nema Kolr. ok er þeir koma sua langt at þeir ætludu at sia mundi ferd þeirra fra Fridarey þa let Kolr draga segl vpp a ollum skipum enn skipadi til monnum at hamla sua at sem minz gengi skipin þott vindr legdiz eftir ok let hann eigi setia hærra enn i mitt tre enn draga sua vpp sem þeir hofdu leingr farit. segir Kolr at þa mun seen verda faur þeirra or Fridarey sem þangat naalgaz meirr skipin. kann þa vera at þeir slai elldi i vitann enn fari sialfir a fund Paals jarls ok segi honum. Enn þegar seenn var vitinn a Fridarey þa leet þorsteinn Rǫgnusun kynda vita a Rinansey ok eftir þat var kueiktr huerr at odrum vm allar eyiar. enn bændr allir foru til jarls ok var þetta hitt mesta herlaup. Enn er Kolr saa at vitinn brann bad hann sina menn aftr fara. kuad vera mega at þetta yrdi nockurum at syndrþycki. ferr Kolr aftr til Hialtlandz vid sua buit ok segir at nu skal Vni taka til sinna raada. Vni kuedr til farar med ser þria menn hialtlenzka. þeir taka sexæring einn ok nockur fong onnur ok veidarfæri. þeir foru til Fridareyiar ok sagdiz Vni vera noręnn madr enn kuez hafa kuongaz i Hialltlandi ok aatt þar sunu. kuez hafa verit ræntr af monnum Rognvalldz jarls ok mælir hitt hardazsta til þeirra. hann tekr ser þar husavist ok roa synir hans til fiska enn hann er heima at gæta fanga þeirra. hann kemr ser i tal ok kunnleika vid þa menn er þar eru fyrir ok þockadiz hann vel.

[1]) r. þeirra

## Fra Orkneyingum.

399. Eftir þat er Dagfinnr hafdi brennt vitann for hann a fund Pals jarls sem fyrr var getid ok þar komu allir gædingar jarls. var þa halldit til frettum vm ferdir þeirra Rognvalldz jarls ok þotti monnum vndarligt at þeir kuomu huergi fram en þo helldu þeir saman lidinu þria daga. þa toku bændr at kurra illa ok segia at þat var folska mikil at brenna vita þott fiskimenn sæiz fara med baatum sinum. var þa skellt a þorstein Rǫ̈gnuson at honum hefdi illa tekiz er hann hafdi kueikt vitann a Rinansey. þorsteinn suarar ok kuez ei annat kunna enn ellda vitann er hann sa brendann a Fridarey ok kuad þetta af Dagfinni hlotiz hafa. Dagfinnr suarar. myklu oftar hliota menn illt af þer enn þu megir mer þat kenna. þorsteinn bad hann þegia ok hliop vpp med auxi ok hio hann þegar banahaugg. þa hlupu menn til vopna ok vard þar bardagi. þetta var (i) Rossey skamt fra Kirkiuvaagi. Sigurdr af Vestnesi ok synir hans Hakon klo[1] ok Bryniolfr veittu Hlodue fodur Dagfinnz enn þorsteini veittu frændr hans. þa var sagt jarli ok for hann til ok var leingi aadr hann gæti skilit þa. þa talar Kugi or Vestrey langt erendi ok sagdi sua. gerit eigi jarli skomm þessa at þer sialfir beriz sin a millum þuiat þurfa munu þer allra yduarra manna innan litils tima. gętum þess þa at ver seem eigi vfærir edr rangsaattir. enn þetta mun hafa geingit eftir vilia ok raadum vuina vorra ok verit prettr þeirra til þess at eyda sua uitunum. enn nu er vaan þeirra a hueriu dægri at þeir komi ok gerum sua uort raad. [Dagfinni mun her hafa einginn[2] illuili til geingit enn verit nockuru bradari enn skylldi. Gat Kugi her allz til ens sanna ok for vm morgum ordum vitrligum. kom þa sua at huarirtueggiu villdu at iarl skipadi enn þo var þat raadit at þeir rufu samnadinn ok foru menn heim. enn sa madr var til feinginn at gæta vitans i Fridarey er Eirekr het. Ok þa er Vni hafdi litla hrid verit i Fridarey kom hann at Eireki ok mællti. villtu at ek gæta vitans siþan ek gerir ecki annat ok ma ek vel sitia eintomi vid. Eirekr þaa þat. Enn þegar er menn voru eigi nær þar bar Vni vatn i vitann ok gerdi sua votann at huergi festi elld aa.

## Eytt vitum i Orkneyium.

400. þeir Rǫ̈gnvalldr jarl mælltu at þeir mundi þers bida er a stædiz misganga straumanna ok austanvedr þuiat þa er varla fært a milli Vestreyiar ok Hrosseyiar. enn austanvedr maa sigla fra Hialltlandi

[1]) *r.* pik [2]) [Dagfinnr mællti her hefir eingum *Cd.*

til Vestreyiar. ok þess væntu þeir Rôgnvalldr jarl ok komu friadagsaptan i Vestrey i Hofn til Helga er þar bio. þa vard eingum vita vpp skotid þuiat þa er seglin voru seen or Fridarey bioz Eirekr at fara til Paals jarls enn senndi menn til Vna at ellda vitann. ok er saa kom þar þa var Vni a brottu. enn er saa villdi ellda vitann þa var sua vôtr at eigi maatti elld a festa. ok er Eirekr spyrr þetta þyckiz hann sia huersu farit hefir. ferr siþan a fund Pals jarls ok segir honum. Enn er Rognvalldr jarl var kominn til Vestreyiar hliopu þeir saman eyiarskeggiarnir ok gera þeir Kugi ok Helgi raad fyrir þeim. þat er hitt fysta at leita grida til iarls ok fara sua skipti þeirra at Vestreyingar ganga vndir Rôgnvalld iarl ok sueria honum eida.

## Rognvalldr red Orkneyium.

401. Sunnudag hafdi Rognvalldr iarl tidir þar i þorpinu ok stodu þeir vti hia kirkiunni. þa sa þeir huar gengu xvj. menn slyppir ok kollottir. þeim þottu þeir vndarliga bunir. jarlsmenn ræddu vm huerir vera mundi. þa kuat jarl visu.

**Sextan hefir ek senar**
**senn ok topp i enne**
**iardar ellde firdar**
**ormvangs saman ganga.**

**þat baarum ver vitni**
**vestr at her see flestar**
**sia liggr vt vid Elon**
**ey kollottar meyiar.**

Eftir helgina foru menn Rognvalldz jarls þar vm hinar næstu bygdir ok gengu allir menn vndir iarl. þat var eina nott i Vestrey at jarlsmenn hofdu niosn af at eyiarmenn mundu eiga launþing til suikræda vid Rôgnvalld jarl. enn er jarl feck niosn af þa stod hann vpp ok for til þingsins. enn þat var tidenda [550] at jarlsmenn hofdu barda marga eyiarskeggia enn tekit Kuga bonda ok settan i fiotra ok kuat hann verit hafa vpphafsmann at þessu raadi. flutti Kugi maal sijtt ordfærliga ok fluttu margir adr(ir) þat ok sonnudu med honnum. þa kuad jarl þetta.

**Liggia se ek at leggium**
**laass bannar þer raasir**
**kuelldfôrlaustum karli**
**Kugi iarnin biugu.**

**ægit alldri Kugi**
**aftr muntu settr af prettum**
**naudr er at nyta eida**
**naattþing ok hallt saattum.**

Jarl gaf þar ollum monnum grid. bundu þeir þa at nyiu felag sijtt.

## Fra Rognvalldi jarli ok Pali.

402. þa er Rognvalldr jarl var kominn i Orkneyiar ok margir menn hofdu vndir hans valld geingit þa var Paall i Rossey ok hofdu

þeir þar þing ok raadagiord vid sina menn. beiddi iarl vmraada hue med skal fara þessu vandmæli. enn menn toku þar misiafnt aa ok var þat sumra raad at skipta skylldi londum vid Rognvalld iarl. enn flestir rikismenn ok sua bændr villdu kaupa Raugnvalld a brott med fe ok budu þar sina kosti til. sumir fystu at beriaz skylldi ok kolludu þat fyrr hafa vel tekiz. Rognvalldr jarl hafdi haft niosnarmann a þinginu. ok er þeir koma til hans fretti jarl skaald eitt er þar hafdi verit. (hann kuad).

**Heyre ek hitt at orir**
**hafa dolgar skap folgit**
**þeingill rikr af þingi**
**þann kuitt buandmanna.**
**at valldandar villdi**
**vargsediandi margir**
**at þu vigg a brim byggir**
**brandz enn Paal at landi.**

Eftir þetta sende jarl Rognvalldr menn a fund byskups ok beiddi hann medalferda ok sendi eftir þorsteini Rognosyni ok þorsteini Hauardzsyni or Sandey ok bad þa leita vm sættir med þeim frændum. kom byskup þui a leid at seet voru halfs manadar grid til vmleitunar leingri sætta. vard þa skipt eyiunum huar huorir skylldu kostnat aa hafa þessa stund. for þa Rognvalldr jarl til Rosseyiar enn Pall iarl for i Rolfsey. Ok i þenna tima vrdu þau tidendi þar i eyiunum at þeir frændr Sueinn Asleifarsun ok Jonn vængr af Vpplandi or Haaey ok Rikgardr fra Breckum or Strionsey foru at þorkatli fletti til bwss þess er Valþiofr hafdi aatt ok brendu hann inni med .ix. mann. þeir foru eftir þat a fund Raugnvalldz jarls ok gerdu honum þann kost at þeir mundu fara til Pals iarls med frændabaalk sinn ef Rognvalldr jarl villde eigi vid þeim taka. Jarl veik þeim eigi af hendi. ok þa er þat spurdi Haflidi þorkelssun for hann þegar a fund Paals iarls er hann spurdi brennu fodur sins ok tok Paall jarl vid honum. Eftir þetta bunduz þeir Jonn a hendi Rognvalldi jarli. giordiz hann þa braatt fiolmennr þar i eyiunum ok vinsæll. Raugnvalldr iarl leyfdi heimfor þeim Joni ok Solmundi ok Aaslaaki ok morgum odrum lidsmonnum sinum. enn þeir villdu bida vmskipta. þa sagdi Rognvalldr jarl. þat hygg ek ef gud vill at ek fai riki i Orkneyium at hann muni gefa mer styrk til ok hinn helgi Magnus jarl frændi minn at hallda þi þott þer farit heim til eigna yduarra. Eftir þat foru þeir heim til Noregs.

## Suein(n) fangadi Paal jarl.

403. Vm vorit snemma hafdi Sueinn Aasleifarsun farit or Sudreyium ok vpp aa Skotland at finna vini sina. hann dualdiz leingi (i) Atioklum med Moddadi iarli ok Margretu Hakonardottur ok toludu þau

marga hluti leyniliga. þar fretti Sueinn ofrid or Orkneyium ok gerdiz hann þa fuss þangat at fara ok finna frændr sina. hann for fyst til Kataness i þorsey ok med honum gðfigr madr er Liotolfr het. med honum hafdi Sueinn verit leingi vm vorit. þeir komu til Ottars iarls i þorsey brodur Frackakar ok leitadi Liotolfr vm sættir med þeim Ottari ok Sueini vm þat er Frackauk hafdi giora latid ok hellt Ottar(r) jarl þar botum vpp af sinni hendi. jarl het[1] ok vinattu sinni Sueini. enn Sueinn het þi Ottari jarli at hann skylldi styrkia Erlend son Haralldz hins slettmaala til þess at hann fengi fodurleifd sina i Orkneyium þa er hann villdi til kalla. Sueinn skipti þar skipum ok hafdi þorbiorn byrding ok aa .xxx. manna. tok hann þadan vtnyrding yfir Petlandzfiord ok sua fyrir vestan Hrossey ok sua til Efiusundz ok eftir sundinu til Rolfseyiar. A eyiarendanum var hofdi mikill ok vrd stor vndir nidri. þar laa oft otr i vrdinni. ok er þeir Sueinn reru eftir sundinu tok hann til orda. menn eru þar a hofdanum ok munu ver þar at leggia ok vita tidendi af þeim. vil ek at menn breyti nockut vmbuningi sinum. skulu ver rækia hudfðt vor ok skulu þar nidr leggiaz .xx. menn enn .x. skulu roa. ver skulum fara hofsamliga. Enn er þeir dragaz at eyiunni kalla menn af hofdanum at þeir skylldi roa til Uestnes ok færa Pali iarli þat er þeir hofdu a skipinu. þeir þottuz mæla vid kaupmenn. Enn Paall jarl hafdi verit vm nattina a Vestnesi at Sigurdar a veizslu. jarl hafdi stadit vpp snimma ok hofdu þeir .xx. menn farit sudr a eyna at veida otr er laa i vrdinni vndir hofdanum. þeir ætludu heim til dagdryckiu. byrdingsmenn reru at landi ok spurduz þeir almæ(l)tra tidenda. spurdu byrdingsmenn huatan þeir væri at komnir. fretta þeir ok huar jarl væri. þeir segia at hann væri þar a vrdinni. þetta heyrdu þeir Sueinn þar er þeir laagu i hudfotunum. bad Sueinn þa þar at leggia er eigi mætti sia af hofdanum. þa mællti Sueinn at þeir skylldu vopnaz ok vinna þegar a jarlsmonnum er þeir fyndiz. ok sua gera þeir. þar drapu þeir .xix. menn enn sex fellu af Sueini. þeir toku Pal jarl med valldi ok leiddu a skip ok sneru stafnhafi ok foru aftr hina somu leid fyrir vestan Hrolfsey ok viku aa milli Haaeyiar Grimseyiar ok sua fyrir austan Suelg. þadan til Breidafiardar ok eftir honum til Eckialsbacka. þar let hann eftir skip sijtt ok .xx. menn. enn þeir foru þar til [555] er þeir komu til Atiotla a fund Maddadar jarls ok Margretar systur Paals jarls var þeim þar vel fagnat ok setti Maddadr jarl Paal jarl i haasæti sijtt. ok er þeir hofdu nidr seetz kom Margret inn gangandi med mikla kuennasueit ok huarf til brodur sins. Eftir þat voru menn

[1]) hellt *Cd.*

feingnir til skemlunar vid þa. var Pall jarl helldr faarr sem eigi var vndarligt at hann mundi hafa ahuggiur miklar. ecki er getid orda þeirra Paals jarls ok Sueins medan þeir foru baadir saman. þau Maddadr jarl ok Margret ok Sueinn Asleifarsun gengu aa tal. enn vm kuelldit eftir dryckiu þa var þeim Sueini fylgt til suefnhus einum saman ok voru þar læstir ok for sua huert kuelld medan þeir voru þar.

### Fra Sueini Asleifarsyni er hann for til Orkneyia.

404. þat var einn dag at Margret lysti þui at Sueinn Asleifarsun skal fara til Orkneyia a fund Rognvalldz jarls ok bioda honum kost aa huarn hann vill helldr til rikis med ser i Orkneyium Pal jarl edr Haralld sun þeirra Maddadar þreuetran at alldri. Ok er Pall jarl vard aheyrdsli suarar hann. þat er fra minu skapi at segia at ek er sua farinn fra riki minu at eigi munu menn til slikra ferda spurdaga haft hafa. vil ek ok alldri koma siþan til Orkneyia. se ek at þessi hefnd mun af gudi gefin fyrir þiofnat vorn frænda. enn ef gudi þickir þat mijtt riki þa vil ek gefa þat Haralldi ef hann maa niota. enn ek vil at mer see feingit fee at stadfesta mik j munklifi nockuru ok hafi þer vord aa sua at ek komumz eigi a brott þadan. enn ek vil Sueinn at þu farir i Orkneyiar ok segir at ek se blindadr ok þo at fleira meiddr þuiat vinir minir munu sækia mik ef ek er heill madr. kann þa vera at ek mega eigi synia at fara til rikis mins med þeim þuiat ek get at þeim mune þickia meiri skadi at skilnadi vorum enn þeim mun vera. Ecki er getid fleiri orda iarls enn þessa. Eftir þat for Sueinn Asleifarsun til Orkneyia enn Pall iarl var eftir i Skotlandi. Ok er þetta frasögn Sueins vm þenna atburd. enn þat er sögn sumra manna er verr samir at Margret hafi radit til Suein Asleifarsun at blinda Pal iarl brodur sinn ok setia i myrkuastofu. enn siþan redi hon til mann annan at ueita honum þar lijflaat. enn eigi vitum ver huart sannara er. enn þat er monnum kunnigt at alldri siþan kom hann til Orkneyia ok ecki riki hafdi hann a Skotlandi.

### Fra Rognvalldi jarli ok Sueini Asleifarsyni.

405. þat var tidenda a Vestnesi þa er seinkadiz heimkuoma jarls þa let Sigurdr bondi senda menn at leita þeirra. enn er þeir komu þar er vrdin var sa þeir mannfallit. þa hugdu þeir at jarl mundi þar fallit hafa. foru heim ok sogdu þessi tidenndi. Sigurdr for þegar til at kanna valinn ok fundu þar .xix. jarlsmenn enn þeir voru .vj. menn þar er þeir kendu eigi. eptir þat sendi Sigurdr menn til Eigilseyiar a fund

byskups at segia honum þessi tidendi. ok for byskup þegar a fund Sigurdar ok toku tal vm þersi tidendi ok gat Sigurdr at þetta mundi vera af raadum Rognvalldz jarls. enn byskup suarar þi at aunnur raun mundi aa verda enn Rognvalldr jarl mundi suikit hafa Paal jarl frænda sinn. get ek segir byskup at adrir nockurir muni þetta vuerkan giort hafa. Borgar sun Jathuarar Erlendzdottur er bio at Geitabergi hann hafdi seet byrdinginn er sunnan fôr ok sudr aftr. enn er þat spurdiz þa hugdu menn at vera mundi af raadum Frackakar ok Aulfis rostu. Enn er þessi tidendi spurduz vm eyiarnar at Pall jarl var a brottu ok einginn vissi huat af honum var vordit þa leitudu þeir ser raada ok voru þeir flestir er þa foru a fund Rognvalldz jarls ok suordu honum hlydni. enn Sigurdr a Vestnesi ok synir hans Bryniolfr ok Hakon klo kuoduz eingum manni mundu eida sueria medan þeir vissu ecki til Pals iarls huart hans væri vôn til edr eigi. fleire menn voru þeir er neittu suardogum vid Rognvalld jarl. enn þeir voru summir er stund a kuoddu edr a dag nær þeir mundi til handa ganga ef þa spurdiz ecki til Paals jarls. Enn er Rognvalldr jarl saa at vit mart stormenne var at eiga þa tok hann a eingu þuerliga þui er bændr beiddu. ok lidu sua fram stundir at hann atti iafnan þing vid bændr ok gengu æ nockurir honum til handa aa hueriu þingi. þat vard til tidenda einn dag i Kirkiuvági at Rognvalldr jarl aatti þing vid bændr. ok er menn voru a þinginu vard seet at .ix. menn vopnadir gengu fra Skaalpeidi til þingsins. ok er þeir komu a þingit kendu þeir þar Suein Asleifarsun ok var monnum foruitni aa huat hann segdi tidenda. Sueinn hafdi a skip(i) farit sunnan til Skaalpeids ok latid þar eftir skipit enn þeir gengu til Kirkiuvôgs siþan. Ok er þeir komu a þingit þa hurfu at honum frændr hans ok vinir ok spurdu hann tidenda. enn hann suaradi faa ok bad kalla byskup til sijn. enn byskup fagnadi Sueini vel þuiat þar hafdi leingi verit vinaatta. gengu þeir aa tal .ij. ok (segir) Sueinn byskupi þa allt vm sinar ferdir þat er satt var ok bad hann nu vm raada med ser þenna vandalut. Byskup mællti. þetta eru mikil tidendi er þu segir Sueinn ok er meire vôn at vit verdim ockur eigi einhlitir vm þetta maal ok vil ek at þu bidir min her enn ek mun flytia maal þijtt fyrir alþydu ok Rognvalldi jarli. Geingr þa byskup til þings ok kuedr ser hliods. ok er þat fiekz þa talar byskup vm maal Sueins ok sagdi fyrir huat hann hafdi farit or Orkneyium edr huert afelli Pall jarl hafdi veitt honum fyrir vijg Sveins briostreips hins vesta mannz. beiddi byskup þa Rognvalld jarl grida til handa Sueini ok alla alþydu. þa suarar Rognvalldr jarl. heit ek Sueini gridum þriar nætr fyrir mik. enn sua þicki mer þu

byskup vndir brun at lijta sem þit Sueinn munit kunna at segia fra nockurum þeim stortidendum [556] (er) enn eru eigi vpp borin. vil ek at þu takir Suein i valld þijtt ok abyrgiz hann enn ek vil eiga tal vid hann a morghin. Ja ia sagdi byskup giarna vill hann vid ydr tala ok sem fyrst ok þinn madr vill hann geraz ef þer vilit vid honum taka. Jarl suarar. ecki þickia mer ofmargir minir vinir i þessu landi enn þo munu ver fleira tala aadr enn ek iatta þui. Siþan ganga þeir a tal .iiij. Rognvalldr jarl Kolr fadir hans byskup ok Sueinn Asleifarsun. segir Sueinn þa liuft ok leitt sem farit hafdi med þeim Pali iarli enn þeir gerdu þat raad at laata fara af þinginu hitt mesta fiolmenne. Jarl stendr vpp vm morgininn eftir ok gaf monnum þa heimfarar leyfui. enn er raufz fiolmenni a þinginu þa heimti hann serhuern mann til maals vid þa ok leet aadr alla menn heita Sueini gridum þa er vid voru medan hann segdi tidendin. enn vm morgininn eftir var til feingin Magnus(!) karl brodir hins heilaga Magnus jarls at segia Sigurdi a Vestnesi ok sonum hans vm farar jarls ok þat at hans var ecki vaan til rikis ok hann var meiddr. Sigurdr segir. mikil tidendi þicki mer vm fraferd jarls enn hitt þicki mer þo þyngz er hann er meiddr þuiat þers mundi hann huergi kominn at ek munda eigi fara a hans fund. Ok sua hefir hann sagt vinum sinum siþan at Hakon mundi eigi vmeiddr a brott hafa farit ef hann hefdi lidsafla til haft þa er hann sagdi honum þessa sogu. sua þotti honum mikils vm vert. Enn eftir þessi tidendi geingu allir menn i Orkneyium til handa Rognvalldi jarli ok gerdiz hann nu einn hofdingi yfir þessu riki er aatt hafdi Pall jarl. ok eigi myklu sidarr var markadr grunduollr til Magnuskirkiu ok aflat smida til ok for sua mikit fram verkinu aa þeim misserum at minna geck aa fiorum edr fimm þadan i fra. Kolr var þar mestr tilannadarmadr smidarinnar ok hafdi mest forsogn aa. Enn er fram tok at lijda smidinni vard jarli kostnadarsamt ok eydduz miok feen. þa leitadi jarl raada vid fodur sinn. enn Kolr lagde þat til at jarl skylldi færa lǫg a þui at jarlar hofdu tekit odul ǫll i erfd eftir menn. enn erfingiar leystu til sin ok þotti þat helldr hart. þa leet Rognvalldr jarl kuedia þings ok baud bændum at kaupa odǫlin sua at eigi þurfti at leysa ok kom þat asamt med þeim sua at ollum likar vel. enn giallda skylldi jarli mork af hueriu plogslandi vm allar eyiar. en þadan i fra skorti eigi fe til kirkiusmidar ok er þat smidi allmiok vandat.

### Jon byskup kom af Skotlandi.

406. þa er Rognvalldr jarl hafdi raadit .ij. vetr Orkneyium þa tok hann iolaveizlu at bui sinu þui er heitir a Knarrarstodum. þat var hinn setta dag iula at skip var seet fara sunnan af Petlandzfirdi. vedr var gott ok stod jarl vti ok mart manna hia honum ok hugdu at skipinu. þar var saa madr er Rolfr het ok var hirdprestr jarls. Ok er þessir menn toku land þa geingu þeir fra skipi ok hofdu jarlsmenn taul aa at vera mundo .xv. menn edr .xvj. enn i ǫnduerdu lidinu geck madr i blaarri[1] kaapu ok haf(di) brugdit haari vndir hufu. hann hafdi rakat skegg vm hokuna framanverda en vrakada huaptana ok heck þar sijtt ofan. þessi madr þotti þeim nockut vndarligr. enn Rolfr segir at þat var Jon byskup ofan af Skotlandi af Atioklum. þa geck jarl a moti þeim ok fagnar vel byskupi. setti jarl byskup i haasæti sijtt enn þionar sialfr fyrir borde sem skutilsueinn. Vm morgininn eftir veitti byskup tidir snimma ok þa for hann nordr til Eigilseyiar a fund Vilhialms byskups ok var þar til tiunda dags iola. þa foru þeir baadir byskuparnir a fund Rognvalldz jarls med virduligu foroneyti ok baaru vpp erendi sin. þeir segia fra einkamaalum Sueins Asleifarsunar ok Maddadar jarls þat at Haralldr sun þeirra skylldi bera jarlsnafn ok hafa Orkneyiar haalfar vid Rognvalld jarl enn Rognvalldr jarl skylldi raad hafa fyrir þeim ok sua þott Haralldr þroskadiz ok villdi sijtt huarr þeirra þa skylldi Rognvalldr jarl raada. var Sueinn ok þar med ok bar þetta med byskupi. Gerdu þeir Rognvalldr jarl þat raad at fundr var lagidr vm vorit a langafostu a Katanesi ok geck þa saman sættin med þessum skildaga ok var bundin eidum hinna bezstu manna af Orkneyium ok af Skotlandi. For þa Haralldr Maddadarsun vt i Orkneyiar med Rognvalldi jarli ok var honum þa gefit jarlsnafn. þa for i eyiarnar med Haralldi jarli þorbiorn klerkr. hann var son þorsteins haulldz ok Gudrunar dottur Frackakar. hann var vitr madr ok mikill fyrir ser. hann fostradi þa Haralld jarl ok reed miok fyrir honum. þorbiorn kuongadiz i Orkneyium ok feck Jngiridar Olafsdottur systur Sueins Asleifarsunar. var þorbiorn þa ymizst vt i Orkneyium edr vppi i Skotlandi ok var hinn fræknazsti madr ok hinn mesti viafnadarmadr vm flesta luti. Sueinn Asleifarsun tok vndir sik eignir þær allar er aatt hafdi Olafr fadir hans ok Valþiofr brodir hans. gerdiz hann þa hofdingi mikill ok hafdi iafnan fiolment med ser. hann var vitr madr ok forspaar vm marga luti. viafnadarmadr ok vfyrirleitinn. eigi voru j þann tima þeir .ij. menn

[1]) braarri *Cd.*

fyrir vestan haf er meira haattar þætti vera enn þeir Sueinn ok þorbiorn maagar. voru þa med þeim kærleikar miklir.

## Brenna Frackakar.

407. Ðat var eitt sinn at Sueinn Asleifarsun kom at maali vid Rognvalld jarl at hann skylldi faa bonum manna afla ok skip til þess at hefna þeim Òlfui ok Frackôk brennu Olafs fedr sins. Jarl mællti. ætlar þu eigi þat Sueinn at ockr mune nu ecki verda mein at Òlfui ok Frackôk kerlingu þeirri er til einkis er fær. Sueinn suarar. iafnan munu mein at þeim medan þau lifua. enda ætlada ek þa til annars er ek giorda stærst fyrir þinar sakir (enn) at þu mundir eigi slikt veita. Jarl suarar. [557] huat legg ek þa til er þer likar. Sueinn suarar. tuau skip vel buin Jarl kuad sua vera skylldu sem hann beiddi. Ok eftir þat byrr Sueinn faur sijna ok er hann var buinn sigldi hann sudr til Borgarfiardar ok tok wtnyrding til Dufeyra. þat er kaupstadr a Skotlandi. enn þadan for hann in fyrir Mærhæui ok til Eckialsbacka. þadan for hann til Atiokla til Maddadar jarls. þa feck hann Sueini leidtogha þa er leid kunnu vm fioll ok merkr þar sem hann villdi fara. for hann þadan hitt efra vm fiôll ok skoga fyrir ofan allar bygdir ok kom fram i Hialmundal nær midiu Sudrlandi. Enn þau Aulfir hofdu hueruetna haft niosnir þar er þeim þotti vfridar vôn or Orkneyium enn þessa leid var þeim eingi van hermanna. wrdu þau eigi fyrr vor vid herinn enn þeir Sueinn voru komnir i lid nockura a bak bænum Frackakar. þar kom i mot þeim Aulfir rosta med sextigum manna. slær þar þegar i bardaga ok verdr litil vidrtaka. hrauckua þeir Aulfir heim at bænum þuiat þeir naadu eigi skoginum. þar vard mannfioldi mikill.[1] Enn Aulfir hliop vpp til Hialmundalsaar ok sua vpp i fiallit ok for þadan til Skotlandzfiardar ok sua vt til Sudreyia ok er hann or sogunni. Enn er Aulfi dro vndan foru þeir Sueinn heim a bæinn ok ræntu þar huiuetna. en eptir þat brendu þeir bæinn ok alla þa menn er inni voru ok let Frackok þar lif sijtt. þeir Sueinn gerdu þar hitt mesta hervirki i Sudrlandi aadr þeir foru til skipa sinna. eftir þat laagu þeir vti vm sumarit ok heriudu vm Skotland. kom Sueinn at hausti til Orkneyia a fund Rôgnvalldz jarls tok hann vel vid Sueini. for Sueinn þa yfir a Nes i Duggalsbæ ok sat þar vm vetrinn. J þenna tima kom til Sueins ordsending Holldboda or Sudreyium at Sueinn skylldi koma til liducizlu vid hann þuiat þar hafdi komit Haulldr af Bretlandi ok hafdi elltan Holldboda or buum sinum ok rænt fee miklu. sa madr het Hrodbiartr

[1]) r. mannfall mikit.

er sendr var enskr at kyni. Sueinn braa skiott vid er honum voru send ordin ok kom vt i Orkneyiar til motz vid Rognvalld jarl ok bad Rognvalld jarl at hann skylldi faa honum lid ok skip. jarl spurdi huat Sueinn villdi þa at hafaz. hann kuad þann mann hafa ser ord sent er sizst aatti hann nij vid at kueda ok honum hafdi þa bezst gefiz er hann þurfti mest vid er flestir foro a hendr honum. Jarl suarar. vel veri þa ef þit skildiz vinir enn vtruir eru flestir Sudreyingar enn geta maattu drengskapar þins. enn ek mun fa þer tuau skip alskipud. þetta likar Sueini vel ok for þa til Sudreyia ok fann eigi Holldboda fyrr enn hann kom vestr i Maun þuiat hann hafdi þangat stockit. Enn er Sueinn kom i Maun þa vard Holldbodi honum feginn ok þar i Maun hafdi haulldrinn sa hinn bretzki gert heruirki mikit i raanum ok manndraapum ok vijda i Sudrriki. Fyrir honum hafdi fallit gaufughr madr er Andress het. hann aatti eftir konu er Jngirid het ok sun er het Sigmundr. Jngirid husfru atti fee mikit ok bw stor. þat raad gerdi Holldbodi at hann bædi hennar. enn er þat var vakit vid hana þa mællti hon at S(ueinn) skylldi þat til raadahags vinna at hefna Andres bonda sins. Sueinn suarar at hann mætti gera Bretum skada nockurn. en eigi ma ek vita huers af verdr audit vm mannalaat. Ok eftir þat fara þeir Sueinn ok Holldbodi i hernat ok hofdu .v. skip. þeir heriudu vm Bretland ok geingu þar vpp er heitir J(arls)nes ok gera þar heruirki mikit. þat var einn morgin at þeir geingu vpp i þorp nockurt ok var þar litil vidtaka. flydu bændr or þorpinu enn þeir Sueinn rændu þar huiuetna ok brendu .vj. bæi fyrir daguerd sinn. þa var þar med Sueini islenzkr madr er Eirekr het ok kuat þetta.

Bæir eru brendir
en buendr ræntir
sua hefir Sueinn hagat
.vi. i morgin.
gerdi hann einum
ærinn þeirra
leigir þar kol
leigumanni.

Eptir þetta foru þeir til skips sins ok laagu vti vm sumarit ok fengu mikit herfang enn haulldrinn hliop i ey þa er Lund heitir. þar var vijgi gott. saatu þeir Sueinn þar vm nockura rijd ok fengu ecki at giort ok foru heim um haustit i Maun.

## Af herferdum Sueins ok Hornboga.

408. þenna vetr gerdi Sueinn brudkaup til Jngiridar ok sat þa med sæmd mikilli. Vm vorit dro hann menn at ser ok for a fund Hornboda ok beiddi hann lids. enn hann taldiz vndan ok let at menn væri i athofnum margir enn sumir i kaupferdum ok feck Sueinn þar ecki af.

enn þat var raunar at þeir haulldrinn hofdu sætz a laun ok bundit lag sijt med segiosum. Enn Sueinn for eigi at sidr ok hafdi þa þriu skip ok vard litid til fiar aundvert sumar. enn er a leid foru þeir sudr undir Jrland ok toku þar kugg einn er munkar attu or Syllingum ok ræntu. hann heriadi ok vida a Jrlandi ok toko þar mikit fe ok foru vm haustid heim i Maun. þa hafdi Sueinn Asleifarsun skamma stund heima setid at hann heyrdi þann kuitt at Hornbodi mundi honum eigi trur. enn Sueinn duldiz vid þat. Ok eina nott vm varit var þat tidenda at vardmenn Sueins kuomu ok sogdu at vfridr for at þeim. þeir Sueinn hlupu til vôpna ok wt. þeir saa huar menn foru med elld at bænum ok hofdu lid mikit. þa lupu þeir Sueinn a hôl einn ok vorduz þadan. þeir hofdu ludr ok blesu. enn þar er þyckbyllt ok drifu menn til lids vid þa Suein sua at þar kom at þeir letu fra er til voru komnir. sloguz þeir Sueinn eptir ok elltu þa. þar fell mart manna i flottanum enn fioldi var saart af huoruintueggium aadr þeir skildu. Enn fyrir þessu lidi red Hornbodi ok hafdi hann dregit vndan i flottanum. for hann þar til er hann kom i Lundey. tok haulldrinn vel vid honum ok hellduz þeir saman. Sueinn for heim ok hafdi fiolment ok vardholld mikil þuiat hann trudi illa Sudreyingum ok selldi iardir sinar er a leid vetrinn til lausafiar ok for snimma vm vôrit sunnan til Liodhusa. hafdi hann gert mikit heruirki i þessarri ferd.

## Fra Rognvalldi jarli ok Sueini.

409. þa er Sueinn var i Sudreyium hafdi Rognvalldr jarl farit a Katanes ok tok veizlu i Vik med þeim manni er Haralldr het. Sueinn het son hans ok var hinn vaskligzsti madr. Enn [558] er jarl var aa veizlu kuomu þeir þorbiorn klerkr ofan af Skotlandi ok sagdi þau tiþendi at þorsteinn haulldr fadir hans var drepinn ok hafdi jarl einn drepit hann. Enn þat hofdu menn aa maali hue tidrætt þeim Rognvalldi jarli var ok þorbirni þuiat jarl gaadi varla at luka maalum sinum fyrir tali þeirra. For þorbiorn þadan vt i eyiar med jarli enn Sueinn Hroallzsun gerdiz þa skutilsueinn jarls. þorbiorn hafdi þa verit vm rijd a Skotlandi. hann hafdi drepa laatid tua menn þa er verit hofdu at brennu Frackakar med Sueini Asleifarsyni. Enn er Sueinn kom vr Sudrey þa for hann heim i Gareksey til buss sins enn ecki a fund Rognvalldz jarls sem hann var vanr er hann kom or hernadi. Enn er Sueinn kom or Sudrey vm sumarit ok jarl spurdi at hann var heim kominn spurdi hann þorbiorn huat hann ætladi hui Sueinn mundi eigi finna hann. þorbiorn suarar. þess get ek at Sueini misliki vid mik þuiat ek let

drepa þa menn er verit hofdu med honum at brennu Frackakar. Jarl mællti. eigi vil ek at þit seet missaattir. Ok eftir þat for Rognvalldr jarl (i) Gareksey ok leitadi vm sættir med þeim ok var þat auduellt þuiat badir þeir villdu at jarl skipadi. siþan gerdi hann þa saatta at sinni ok hellz su sætt leingi siþan

## Fra keskiordum Rognnvalldz jarls.

410. J þann tima kom til Orkneyia islenzkt far eitt. þar var a sa madr er Hallr het sun þorarins breidmaga. hann for til vistar i Rinansey til þeirra þorsteins ok Rognu. hann vndi þar illa ok bad þorstein at hann kæmi honum til Rognvalldz jarls. þeir foru a hans fund ok villdi jarl eigi vid honum taka. Enn er þeir kuomu heim þa spyrr Ragna hue fariz hafdi. Hallr kuad þa visu.

Sennda ek son þinn Ragna
saunn koma maal fyrir bragna
hans var haalig idia
hirduistar mer bidia.
hafa kuez hodda ryrir
hinn er hæstum veg styrir
neitti hann grupans gran(n)a
gnott vigligri manna.

Litlu sidarr for Ragna a fund Rögnvalldz jarls at erendum sinum. hon var sua buin at hon hafdi gaddan rautt a hofdi gert af rossahaari. Ok er jarl sa þat kuad hann.

Alldri (h)ef ek freitt þar er felldu
framstallz konur allar
uerdr at menia myrdir
miukordr hofuddukum.
nu tær hlauck vm hnacka
hoddstrindar sem binda
skrydiz brudr vid brædi
bengagls merar tagli.

Ragna mællti her kemr nu at þui sem mælt er at faarr er sua vitr at allt siai sem er. þuiat þetta er af hesti enn eigi af mere. Hon tok þa silkiduk ok falldadi ser med ok taladi eigi at sijdr maal sijtt. Jarl tok henni helldr seint i fystu enn myktiz rædan sua sem aa leid. ok feck hon þat erende sem hon villdi er hon feck hirduist Halli ok var hann leingi siþan med Rognvalldi jarli. þeir ortu badir saman haattalykil hinn forna ok letu vera .v. visur med huerium hætti. enn þa þotti oflangt kuedit ok eru nu tuær kuednar med huerium hætti.

## Fra Rognvalldi ok Suein Asleifarsyni.

411. þat er sagt at Sueinn Asleifarsun spurdi at Hornbogi var kominn i Sudrey. þa bad hann Rognvalld jarl fa ser lijd til at hefna sin. Jarl feck honum .v. skip ok styrdi einu þorbiorn klerkr enn odru Haflidi sun þorkels flettis. þridia Dufniall sun Hauardz Gunnasunar. fiorda Rikgardr þorleifarsun. fimta Sueinn Asleifarsun. Enn þegar er

Holldbodi spurdi til Sueins þa flydi hann or Sudreyium. þeir Sueinn draapu mart manna i Sudreyium enn ræntu vida ok brendu. þeir fengu mikit fee enn naadu eigi Hornboda ok alldri kom hann i Sudreyiar siþan. Sueinn villdi vera i Sudreyium vm vetrinn enn þeir þorbiorn villdu heim ok foru þeir vm haustid sunnan til Kataness ok komu i Dungalsbæ. ok er þeir skylldu skipta herfangi sinu þa mællti Sueinn at allir skylldu iafnmikit hafa nema hann hefdi hofdingia lut þui hann kuez einn hafa fyrir verit ok sagdi jarl hafa fengit þa til lids vid sik. hann leetz ok einn hafa sakir aatt vid Sudreyinga enn þeir eingar. en þorbiorn þottiz eingum mun sidr hafa til wnnit ok verit eigi sijdr fyrirmadr enn Sueinn. villdu þeir ok (at) allir skipstiornarmenn hefdi iafnan lut. enn sua vard at vera sem Sueinn villdi þui hann var myklu mannfleiri þar a nesinu. Enn þorbiorn for vvt i Orkneyiar a fund Rognvalldz jarls ok sagdi hue farit hafdi med þeim Sueini ok likadi þeim illa er hann hafdi gert þa hlutręninga. Jarl kuad þat eigi mundu einu sinni finnaz a at Sueinn veri eingi iafnadarmadr. enn þar mun enn koma at hann mun taka giolld fyrir sitt ranglæti. enn eigi skǫlu þer vm þetta deila ek skal fa ydr iafnmikit af minu sem þer misset vid hann. vil ek ok ecki at þer kallit a hann vm þetta ok væri vel ef eigi leiddi stærri vandkuædi af honum. þorbiorn suaradi. gud þacki ydr herra þann sǫma er þer gerit til vor ok eigi munu ver deila vid Suein vm þetta. enn alldri siþan skal ek vera vin hans ok gera skal ek honum nockura suiuirding her a moti. Ok eftir þetta segir þorbiorn skilit vid Jngigerdi systur Sueins ok sendi hana yfir aa nes til Sueins. tok hann vid henni vel enn þotti ger til sijn suiuirding mikil. var þa med þeim fiandskapr. kom þar at þui sem mællt er at forudin siatzt bezt vid. þa er Sueinn var i Sudreyium þa hafdi hann sett Murgat Grimssun i Dungalsbæ til forraada ok feingit honum i hendr syslu þa er hann hellt af Rognvalldi jarli. enn Murgadr var sakgæfuinn ok aleitinn ok vard hann vuinsæll vid sinn viafnat. enn þeir er mest vurdu fyrir viafnadi hans stucku a fund Hroalldz ok helldu sik þar. af þui gerdiz fiandskapr med þeim Hroalldi ok Murgad. Litlu sidar for Murgadr sudr til Vikr vid tugtugta mann at erendum sinum. ok aadr hann kom sunnan veitti hann heimsokn Hroalldi bonda ok drap hann ok nockura menn fleiri. foru sidan til Dungalsbæiar a fund Sueins. þa safnar Sueinn monnum ok ferr til Lambaborgar ok bydz þar vm. þar var vijgi gott ok sat hann þar med sextigi manna ok flutti at ser vistir ok onnur faung þau er þeir þurftu at hafa. Borgin stod a sæfuarhǫmrum nockurum enn steinveggr var fyrir ofuan vel smidadr. biorgin

gengu langt med sianum annan veg. þeir gerdu þa margar vspecktir a Katanesi i raanum ok fluttu þangat [559] til sin i borgina ok gerduz miok vuinsælir.

### Af ferdum Sueins Astleifarsunar.

412. Tidendi þersi koma til eyrna Rognvalldi jarli ok Sueini Hroalldzsyni. beiddi Suein(n) jarl fulltingis at hann leidretti þetta maal. fluttu þetta margir menn med Sueini. kom þui sua at Rognvalldr jarl braz vid ok for yfir til nes ok þessir hofdingiar med honum þorbiorn Haflidi þorkelssun Dufniall Hauarson ok voru þeir hinir tillagavestu a hendr Sueini. þeir foru til Dungalsbear ok var Sueinn þa i brottu. þeir spurdu at Sueinn var i Lambaborg. foru þeir jarl þaa þangat. ok er þeir kuomu til borgarinna(r) þa spyrr Sueinn huerr fyrir lidinu redi. honum var sagt at Rognvalldr jarl reed fyrir. Sueinn fretti jarl eftir erendum. Jarl suarar at hann vill at hann seli Murgard fram i valld þeirra. Sueinn spyrr huart hann skal grid hafa. Jarl letz þui eigi vilia heita. þa mællti Sueinn. eigi nenni ek at selia Murgat fram i valld þeirra Sueins Hroalldzsunar edr annarra vuina minna þeirra sem med ydr eru enn giarna villda ek vera saattr vid ydr herra. þa suarar þorbiorn klerkr. heyr huat drottinssuikinn mælir at hann villdi giarna saattr vera enn hefir aadr rænt land hans ok lagiz vt sem þiofr. launar þu illa jarli margann soma er hann hefir til þin gort sem þu munt ollum þeim er þu maatt þui vid koma. Sueinn suarar. eigi þarftu þorbiorn her sua mart til at leggia þuiat ecki mun fyrir þin ord gert. enn þat er hugbod mitt at þu munir honum verstu launa þann soma er hann hefir til þin gert aadr þit skilit fyrir þui at eingir munu gæfu af þer hliota þeir er nockut eigu vid þik. þa mællti Rognvalldr jarl at menn skylldu ecki skatyrdaz. Eftir þat settuz þeir vm borgina ok bonnudu allar atflutningar ok geck sua miok leingi at ecki maatti atsokn vid koma. ok er eydduz vistir þeirra þa kalladi Sueinn saman sina menn ok leitadi raada vid þa. enn allir menn mæltu eins munni at hans forsia villdu hafa medan hennar væri kostr. þa tok Sueinn til orda ok mællti. þat syniz mer vuirduligaz at suelta her enn ganga siþan a valld vuina sinna. hefir ok þetta sua farit sem likligt var at oss mun baadi skorta vid Rognvalld jarl vit ok gæfu. enn her hefir verit leitad vm sættir ok grid ok hefir huarki feingiz Murgardi felaga minum. enn veit ek at kostr mun her odrum monnum grida enn ek nenni eigi at selia hann fram vndir auxi. nu er þat eigi rett at her (gialldi) sua margir hans vandræda þott ek nenna eigi at skiliaz vid

hann at sinni. Ok eftir þetta tok Sueinn þat raad at knyta saman snæri þau er þeir hofdu enn vm nattina letu þeir þa Suein ok Murgad siga ofan or borginni a siainn ok eftir þat toku þeir sund ok laugduz fram med biorgunum þar til er þraut hamrana. eftir þat stigu þeir fotum a land ok foru vpp i Sudrland ok sua til Mærhôfi ok þadan til Dufeyra. þar fundu þeir orkn(eyska) menn a byrdingi het sa Halluardr er fyrir þeim var enn annarr þorkell þeir voru .x. saman. þeir Sueinn gengu a skip med þeim ok foru .xij. saman a byrdingi sudr fyrir Skotland þar til er þeir koma i Maeyiar. þar var þa munklifi Ballduini het aboti sa er fyrir reed. þar voru þeir Sueinn ok hans menn .vij. nætr vedrfastir ok sogduz vera sendir a fund Skotakonungs af Rognvalldi jarli. Munkar grunudu sôgn þeirra ok ætludu vera raansmenn ok sendu til landz eftir monnum. en þa er þeir Sueinn verda þess varir þa hlaupa þeir a skip ok ræntu stadinn fe miklu. þeir foru a brott ok inn eftir Myrkuafirde. þeir fundu i Eidinaborg David Skotakonung. tok hann vel vid Sueini ok baud þeim at vera med ser. Sueinn sagdi konungi allan maalavoxt þangatkuomu sinnar ok hue farit hafdi med þeim Rognvalldi jarli aadr þeir skilduz ok sua þat er þeir hofdu rænt i Maeyium. Voru þeir Sueinn vm hrid med Skotakonungi i godu yfirlæti. Dauid konungr sendi menn til þeirra manna er fiar hofdu mist fyrir Sueini i ferdinni ok leet þa sialfa virda skada sinn en bętti sinu fe huerium sinn misse. Dauid konungr baud Sueini at sækia konu hans i Orkneyiar enn faa honum slikar sæmdir i Skotlandi at hann mætti vel vid vna. Sueinn birti vilia sinn fyrir konungi ok sagdi sua at hann villdi at Murgadr væri þar eftir med konungi enn hann sendi ord til Rognvalldz jarls at hann tæki sættum vid hann enn Sueinn lezt vilia leggia allt sitt maal a valld Rognvalldz jarls. kuez þa iafnan vel vidr vna er þeir voru saattir enn þa illa er þeir voru vsaattir. Dauid konungr suarar. bædi er nu at jarl þersi mun vel vera enda þickir ydr þat eina vera er til hans veit. hættir þu nu a hans trunad enn fyrirlætr þat er ver biodum þer. Sueinn lezt hans vingan alldri laata vilia en sagdiz þo vilia bidia konung at hann veitti þetta. konungr quad sua vera skylldu. Dauid konungr sendi menn nordr i Orkneyiar med giofum ok þeirri ordsending at jarl skylldi taka sættum vid Suein. for þa ok Sueinn i eyiar nordr enn Murgadr var eftir med konungi. Sendimenn Davids konungs foru a fund Rognvalldz jarls. tok hann vel vid þeim ok sua giofum þeim er konungr sendi honum ok het sættum. tok hann siþan Suein i frid ok fulla vinaattu ok for hann þa til bua sinna.

## Fall Valþiofs jarls.

413. þa er þeir Sueinn ok Murgadr voru a brottu or Lambaborg toku þeir er i borginni voru þat raad at gefa vpp stadinn i valld Rognvalldz jarls. spurdi hann huat þeir vissu til Sueins ok þeirra Murgadar sidazst enn þeir sogdu sem var. Ok er jarl heyrdi þat mællti hann. satt er þat at segia eingra manna iafningi er Sueinn þeirra er ver eigum kosti her med oss. eru slik brogd bædi dreingilig ok hardfeinglig. enn eigi vil ek nidaz aa ydr þott þer hafit vafiz i þesso vandkuædi med Sueini. skal huerr yduarr fara i fridi fyrir mer. For jarl þadan heim i Orkneyiar enn sendi þorbiorn klerk med .xl. manna a skipe sudr til Breidafiardar at leita þeirra Sueins ok spurdiz ecki til hans. þa talar þorbiorn fyrir þeim at þeir færi vndarliga. rekumz eftir Sueini a leid fram [560] en hofum spurt at Valþiofr jarl faudrbani minn er skamt hedan med litla sueit manna. ok ef þer vilit fara at honum med mer þa vil ek þui heita ydr at mer skal eigi fara sem Sueini at ek gera ydr hlutræninga ef oss berr herfang i hendr. þuiat fe þat er ver faum skolu þer hafa enn skipta mer þui einu til handa er þer vilit þuiat mer þickir betri frægd enn fe. Eftir þat foru þeir þar til er Valþiofr jarl var a veizlu ok toku hus a þeim ok baaru þegar elld at. þeir Valþiofr hlupu til dyranna ok spurdi huerr fyrir elldinum redi. þorbiorn sagdi til sin. Valþiofr baud bætr fyrir vijg þorsteins enn þorbiorn kuat ecki þurfa vm sættir at leita. þeir Valþiofr vorduz vel vm rijd. enn er elldrinn sotti þa hlupu þeir vt ok vard þa skamt vm vorn þeirra þuiat þeir voru þrekadir miok af elldi. fell þar Valþiofr jarl ok .xxx. manna med honum. þar fengu þeir þorbiorn fe mikit ok hellt hann oll heit sin dreingiliga vid sina menn. foru þeir eftir þat vt i Orkneyiar a fund Rognvalldz jarls ok let hann vel yfir þeirra erendi. var þa kyrt i eyiunum ok fridr godr. J þann tima bio einn vngr madr i eyiunum er Kolbeinn hruga het ok var hitt mesta afarmenni þann let þar gera steinkastala godan var þat oruggt vigi. Kolbeinn aatti Herbiorgu systur Hakonar bæns en modir þeirra var dottir Herborgar Palsdottur. þessi voru born þeirra Kolbeinn karl Biarni skaalld Sumarlidi Aaslakr Frida. þau voru aull mikils haattar.

## Fra Eindrida vnga.

414. J þann tima redu synir Haralldz gilla i Noregi. var Eysteinn þeirra elldzstr enn Jngi var skilgetinn ok hofdu lendir menn aa honum mesta(r) virdingar. let hann þa raada ollu þui er þeir villdu. J þenna tima hofdu þessir lendir menn mest raad med honum Augmundr

ok Erlingr synir Kyrpingaorms. þeir giordu þat raad med Jnga konungi at hann skylldi senda ord Rognvalldi jarli ok veitti honum sæmligt heimbod. sogdu sem satt var at jarl hafdi verit mikill vin fodur hans ok baadu hann gera ser uid jarl sem kærazst sua at væri hans vin meiri en brædra hans huat sem i kynni at geraz med þeim. jarl var frændi þeirra brædra ok hinn mesti vin þeirra. Enn er þessi ord komu til Rognvalldz jarls veikz hann vid skiott ok bio ferd sina þuiat hann var fwss at fara til Noregs at finna frændr sijna ok vini. Til þessar ferdar beiddiz Haralldr jarl fyrir foruitnis sakir ok skemtanar. hann var þa .xix. vetra gamall. Ok er iarlar voru bunir foru þeir vestan med kaupmonnum ok hofdu sæmiligt foruneyti ok komu vm vorit snemma til Noregs. fundu þeir Jnga konung i Biorgyn. tok Jngi konungr alluel vid þeim. fann Rognvalldr jarl þar marga vini sina ok frændr. dualdi hann þar vm sumarit miok leingi. þat sumar kom vtan af Miklagardi Eindridi vngi. hann hafdi þar verit leingi a maala. kunni hann þeim þadan at segia morg tidendi ok þotti monnum skemtan at spyria hann vtan or heime. Jarl taladi iafnan vid hann. ok eitthuert sinn er þeir toludu þa mællti Eindridi. þat þicki mer vndarligt jarl er þu vill eigi fara vt i Jorsalaheim ok hafa eigi sagnir einar til þeirra tidenda er þadan eru at segia. er slikum monnum bezst hent þar sakir yduarra lista muntu þar bezst virdr sem þu kemr med tignum monnum. Ok er Eindridi hafdi þetta mællt fluttu þetta margir adrir med honum ok eggiudu at hann skylldi geraz fyrirmadr at ferd þessi. Erlingr lagdi her morg ord til ok sagdi at hann mundi raadaz i ferdina ef jarl villdi geraz fyrirmadr. Ok er þessa fystu sua gaufgir menn þa het jarl ferdinni. ok er þeir jarl ok Erlingr reedu þetta med ser þa volduz margir gaufgir menn til þessar ferdar. þessir lendir menn. Eindridi vngi skal leid segia Jonn Petrssun Aaslaakr Erlendzsun Gudormr maulr Kollr af Halllandi. sua var mællt at eingi þeirra skylldi meira skip hafa en þritugt at rumatali nema jarl ok eingi skylldi hafa buit skip nema hann. þui skyllde sua gera at eingi skylldi annann aufunda fyrir þat at sijt lid edr skip hefdi betr buit annar helldr enn annar. Jonn fotr skal gera laata jarli vtfararskip ok vanda sem mest. Rognvalldr jarl for heim vestr vm haustid ok ætladi ath sitia .ij vetr i riki sinu. Jngi konungr gaf jarli langhskip .ij. helldr litil ok einkar fógur ok gerr mest til rodrar ok voru allra skipa skiotuz. Rognvalldr jarl gaf Haralldi jarli annat skipit þat het Fifua enn annat het Hialp þessum skipum helldu jarlar vestr vm haf. Rognvalldr jarl hafdi ok þegit storgiafir af vinum sinum. þat var þridiadags kuælld er jarlar letu

i haf ok sigldu allgodann byr vm nattina. Miduikudag var stormr mikill enn vm nattina vrdu þeir vid land uarir. þa var myrkr mikit. þeir saa bodaslodir aullum megin hia ser. þeir hofdu aadr samfloti halldit. þa var eingi kostr annar enn sigla til brottz baadum skipunum ok sua gerdu þeir. þar var vrd fyrir enn litid forlendi enn hamrar hitt efra. þar hellduz menn allir enn tyndu fe miklu. sumt rak vpp vm nattina. Rognvalldr jarl bargst þa enn allra manna bezst sem iafnan hann var sua kaatr at hann leek vid fingr sina ok orti nær vid huert ord. hann dro fingrgull af fingri ser ok kuat visu.

Heingi ek hamri kringdann
hanga riupu tangar
grimnis sylg a gaalga
ginnungs bruar linna.

sua hefir gloraddar gladdann
gagfellz mik þella
lòms at ek leik vid mina
lautir hellis gauta.

Ok er þeir hofdu vpp borit faungin foru þeir a land at leita bygda þuiat þeir þottuz vita at þeir mundu vid Hialltland komnir. þeir fundu braatt bæi ok er þa skipt monnum i bygdir. þar wrdu menn jarli fegnir er hann kom ok spurdu menn at vm ferdir hans. Jarl kuad visu.

Brast þa er bædi lesti
baud hraunn skada monnum
suut feck vedrit vata
vinum Hialp [561] ok Fifu.

se ek at sia mun þickia
snarlyndra faur iarla
sueit gat vaas at visu
vinna hofd at minnum.

Husfruin bar skinnfelldar skickiu at jarlli. hann tok vid hlæiandi ok retti hendr a moti ok kuat.

Skek ek her skinnfelld hrockinn
skraut er mitt æfarlitid
stor er sa er stendr yfir aurum
stafnuaullr yfirhaufnum.

feingr er enn af vngum
alfangs mari gongum
brim rak hest vid hamra
huns skrautligir bunir.

þa voru gerfir fyrir þeim elldar storir ok bokuduz þeir þar vid. gridkona kom inn ok skalf miok ok mællti i skia(l)ftanum ok skildu menn eigi huat hon mællti. Jarl kuez skilia tungu hennar.

Dwsi þer enn Aasa
atatata liggr i vatni
hutututu huar skal ek sitia
helldr er mer kallt vid elldinn.

Jarl senndi menn sina .xij. til Einars i Gullberuvik enn hann letz eigi mundu vid þeim taka nema jarl kæmi sialfr. Ok er Rògnvalldr jarl spyrr þetta þa kuat hann.

Ala kuez Einarr vilia
eingan Rognvalldz drengia

mer fellr gautz a goma
gialfrs nema jarlinn sialfann.

veit ek at hraaz i heitum
hugþeckr firum ecki
inn geck yggs þar er brunnu
elldar sijd a kuelldi.

Jarl dualdiz miok leingi a Hialtlandi ok for vm haustid sudr til Orkneyia ok sat i riki sinu. þat haust kuomu til hans hialltlenzkir menn .ij. het annarr Aarmódr ok var skaalld. annarr Oddi hinn litli Glumsson ok orti enn vel. jarl tok vid þeim baadum til hirduistar. Jarl hafdi julabod mikit ok baud monnum til ok gaf giafir. hann retti gullrekit spiot at Ármodi skaalldi ok skelfdi vid ok bad hann yrkia visu a moti.

Eigi metr hinn itri
alvalldr giafar skaalldi
yggs vid adra seggi
elstærir mer færa.
sniallr bar glæst med gulli
grundar uaurdr at mundum
budlungr nyzstr it bezsta
blodkerti Aarmodi.

þat var einn dag vm iolin at menn hugdu at tiolldum. þa mællti jarl vid Odda hinn litla. gerdu visu vm athofn þess mannz er þar er aa tialldinu ok hafdu kuedna þina visu þa er ek hefi lokit minni visu haf ok eingi þau ord i þinni visu er ek (hefi) i minni visu. Jarl kuat.

Lætr vm auxl sa er vtar
alldrenn stendr a tialldi
siglreyr saudins vaara
slidrvaund ofan rida.
eigi mun þo at ægir
aurbeidanda reidiz
blikrudr bǒduars iokla
beinrangr framar ganga.

Oddi quat.

Stendr ok hyggr at hauggua
herdilwtr med suerdi
bandaalfr beidir rindi
balldr vid dyrr a tialldi.
fyrr muna hann med hiorfui
hætt nu er maal at sættaz
blædendr hleypiskida
hlunz adr geigr se wnninn.

Jarl hafdi ok Vilhialm byskup i bodi sinu vm iolin ok marga gædinga sina. þa gerdi hann bert vm raadagerd sina at hann ætladi wt i Jorsalaheim. bad hann byskup þa til ferdar med ser þuiat hann var Parisklerkr godr ok villdi jarl at hann væri tulkr þeirra. hann veitti jarli þetta ok het ferdinni. þessir menn reduz til ferdar med Rognvalldi jarli Magnus sun Hauardz Gunnasunar Sueinn Hroalldzsun. þessir eru af hinum minnum þorgeirr skotakollr Oddi hinn litli þorbergr suarti Ármodr skaalld þorkell krokauga Grimkell af Flettunesi Biarni sun hans. Ok er þessir .ij. uetr eru lidnir er þeir skylldu tilbunat hafa for Rognualldr jarl or Orkneyium snemma vm vorit austr til Noregs at vita huat þeim lidi hinum lendum monnum vm bunadinn ok er jarl kom til Biorgyniar voru þeir þar fyrir Erlingr ok Jonn jarlsmaagr.

þar var ok Aaslakr kominn enn Guthormr kom litlu sidarr. þar kom ok skip þat fyrir Biorgyn er Jonn fotr hafdi laatit gera jarli ok vandat forkunnar miok at smid ok buit allt. þar voru gylldir allir ennispænir ok vedrvitar ok vida annarstadar buit. var þat skip hin mesta gersemi. Eindridi kom iafnan til biærens[1] vm sumarid ok sagdi at hann mundi hina sidarri viku buinn enn þa var komin. Jarlsmenn kurrudu illa er þeir þurftu sua leingi at bida. villdu sumir at eigi væri hans bedit ok sogdu at menn hofdu farit slikar ferdir þott Eindridi væri eigi i ferd. ok nockuru sidarr kom Eindridi til bærins[1] ok kalladiz þa buinn. bad jarl þa sigla þegar er þeim þætti byrvænt. Ok er sa dagr kom er honum þotti leidi gefa lǫgdu þeir ǫr bænum vnndu a segl sin ok var helldr vedr litid. geck skipit jarls litid þuiat þat þurfti byr mikinn. adrir hofdingiar lægdu seglin ok villdu eigi sigla fra jarli. ok er þa bar vt vm eyiarnar tok at huessa vedrit. gerdiz þa sua huast vedrit at þeir þurftu at suipta a hinum smærum skipunum. enn jarlsskipit geck þa mikit. þeir sa þa sigla eftir ser .ij. skip mikil ok gengu þegar eftir ok vm þa fram. þat skip var annat vandat miok. þat var dreki ok voru bædi hofud ok krokar fyrir miok gullbuin. þat var hlyrbiart ok steint allt fyrir ofan sio þar er bæta þotti. Jarlsmenn mælltu at þar mundi Eindridi fara ok hefir hann þat litt halldit er mælt var at eingi skylldi buit skip hafa nema þer herra. Jarl suarar. mikill er ofsi Eindrida ok er þat vorkunn at hann vili ecki iafnaz vid oss sua sem ver erum vanfærir vid hann. enn vant er þat at sia huart gæfan ferr honum fyrir edr eftir. skulum ver ecki skapa ferd vora eftir akefdum hans. Bar þa Eindrida skiott vm fram a hinu meira skipinu enn jarl hellt samflota a sinum skipum [562] ok forst. þeim vel. kuomu þeir vm haustid til Orkneyia at heilu ok hǫlldnu.

## Fra Rognvalldi jarli ok Orkneyingum.

415. þat var þaa raadit at þeir mundi þar sitia vm vetrinn. saatu sumir a sinum kostnadi enn sumir voru med bǫndum enn margir med jarli. J eyiunum var sueim mikit ok skildi þa aa Orkneyinga ok Austmenn vm kaup ok kuennamaal ok mart vard þeim til. bar jarl þar mikinn vanda at gæta til med þeim þuiat huorirtueggiu þottuz honum allt gott eiga at launa ok allz gods fra honum verdir. Fra Eindrida er þat at segia at þeir komu vid Hialltland ok braut þar hitt goda skipit i spǫn ok tyndi miklu fee enn hitt id minna skipid helltz. en Eindridi var vm vetrinn a Hialtlandi ok sendi menn til Noregs ok let gera ser

[1]) r. biarins

austrfarar skip. Madr het Arni spytuleggr skipveri Erlendz hann for i Orkneyiar vm vetrinn ok þeir .x. saman. Aarni var viafnadarmadr mikill hraustr ok hardraadr. þeir felagar saatu a sinum kosti vm vetrinn. Arni keypti malt ok slaatr at landzseta Sueins Asleifarsunar. enn er hann heimti verdit dro Aarni vndan. enn i annat sinn er hann kom til voru honum golldin afaryrdi. enn aadr þeir skildi laust Arni hann auxarhamars haugg ok mællti. far ok seg kappanum Sueini er þu hætir iafnan ok laat hann retta lut þinn ei muntu meira vid þurfa. Hann bondinn for ok sagdi Sueini ok bad hann retta sinn lut. Sueinn suarar faa ok kuez eingu mundu vm heita. Einn dag vm vorit for Sueinn Aasleifarsun at landzskylldum sinum ok þeir .iiij. saman a teinæringi. leid þeirra laa hia ey þeirri er þeir Arni saatu i. ræddi Sueinn vm at þeir mundi þar at leggia. fiara var a mikil. Sueinn geck vpp einn ok hafdi auxi eina a laagu skapti ok ecki fleira vapna. hann bad þa geyma skips sua at eigi fiaradi vppi. þeir Arni spytuleggr saatu i skemmu einne skamt fra sio. geck Sueinn til skemmunnar ok inn. þeir Arni voru þar .v. fyrir ok heilsudu Sueini. hann tok kuediu þeirra ok taladi vm vid Arna at hann skylldi greida maal bondans. Arni kuat gott tom at þui vera. Sueinn bad hann gera fyrir sin ord ok greida maalit. Arni kuez þar ecki mundu fyrir gera. Sueinn kuez þa litils ok mundu vm beida ok i þui setti hann auxina i haufud Aarna sua at stod a hamri. honum vard laus auxin. Sueinn hliop vt (ok) fórunautar Arna eftir honum ofan a fioruna. lupu þeir hart leiruna ok vard einn skiotaztr ok var þar i hendingum med þeim Sueini. þaunglar storir laagu aa fiorunni i leirnum. Sueinn greip vpp einn þaungulinn ok rak i andlit þeim er næstr honum stod. þessi madr greip til augnanna baadum haundum ok þerdi or leirinn enn Suein dro vndan ok til skips sins ok for heim i Gaar(eks)ey. Litlu sidarr for Sueinn yfir a Katanes at erendum sinum ok sendi ord Rognvalldi jarli at hann skylldi sættaz a vig Arna spytuleggs. ok þegar at honum kuomu þau ord stefndi hann at ser þeim monnum er eftirmaal aattu vm vig Arna ok samdiz þat sua at þeim hugnadi ok hellt sialfr botum vpp. marga vspekt adra bætti hann af sinu þa er gior var vm vetrinn bædi af austmonnum ok Orkneyingum. Vm vorit snemma stefndi jarl þing i Rossey. komu þangat allir hofdingiar þeir er i hans riki voru. gerdi hann bert fyrir þeim at hann ætladi brott or Orkneyium ok vt i Jorsalaheim. sagdi ok þat at hann mundi rikit faa i hendr Haralldi jarli frænda sinum beiddi ok þers alla vini sina at veita honum hlydni ok fylgia honum vel huers sem kynni vid at þurfa medan hann þurfti brottu at vera. Haralldr jarl var þa nær .xx.

at alldri. hann var mikill vexti ok sterkr liotr madr ok vel vitr þotti monnum hann vænligr til hofdingia. Rognvalldr jarl bioz vm sumarit or Orkneyium ok vard sidbuinn þuiat þeir wrdu leingi at bida Eindrida adr skip hans kom austan or Noregi. Ok er þeir voru bunir helldu þeir brott or Orkneyium fimtan storskipum. þessir voru skipstiornarmenn Rognvalldr jarl Erlingr skacki Vilhialmr byskup Aaslakr Erlendzsun Guthormr Magnus Hauardzsun Sueinn Hroalldzsun Eindridi vngi ok þeir er honum fylgdu. þeir sigldu or Orkneyium sudr vndir Skotland ok sua til Englandz. ok er þeir sigldu til Nordimbralandz fyrir Hueruminni þa kuat Armodr.

Hraunn fyrir Hueru minne
haaleit þar er vær beittum
sueigir lauk enn lægiaz
laund fyrir Veizlu saundum.

eigi drifr i augu
allda laudri falldin
dreingr ridr þraatt af þingi
þeim er nu sitr heima.

þeir sigldu þadan sudr fyrir England ok sua til Vallandz. Ecki er sagt fra ferd þeirra fyrr enn þeir koma til sæborgar þeirrar er Nerbon heitir. þat var þar tidenda at jarl sa var andadr er þar hafdi fyrir raadit stadnum er Geirbiorn het. hann aa eftir dottur eina vnga ok frida er Ermingerdr het. hon uardueitti faudurleifd sina at raadi hinna gaufguzstu frænda sinna. þeir gerdu raad med drottningu at hon skylldi bioda Rognvalldi jarli til virduligrar veizlu sogdu ok at vida mundi hennar frægd vera ef hon fagnar sua vel gaufgum monnum sua langt sem þeir voru at komnir ok vida mundi hennar frægd beraz. drottning bad þa fyrir raada. Ok er þetta var radit voru menn sendir til jarls at segia at drottning bydr honum til veizlu med sua miklu fiolmenni sem hann villde sialfr. jarl tok þui vel ok þacksamliga valdi hann allt lid sijtt hitt bezsta til ferdar med ser. ok er þeir komu til veizlunnar var þar hinn bezste fagnadr ok eingi lutr sparadr sa er jarli þotti þa sinn somi meire enn aadr. Einn dag er jarl sat at veizlunne geck drottning i hallina ok margar konur med henne. hon hafde bordker a hende af gulli hon var klædd hinum bezstum klædum hon hafdi laust haarit [563] sem meyium er titt ok hafdi lagt gullhlad at enni ser. hon skeinkti jarli enn meyiarnar leku fyrir þeim. Jarl tok haund hennar med kerinu ok setti hana hia ser ok tauludu þau vm daginn. þa kuad jarl.

Vist er at fra berr flestu
Froda melldrs at godu
velskufadra vifa
vöxtr þinn konan suinna.

skord lætr haar a herdar
haukuallar ser falla
aatgiornum raud ek erni
ilka gull sem silki.

Jarl dualdiz þar miok leingi i allgodum fagnadi stadarmenn fystu jarl at stadfestaz þar ok toludu likliga vm at þeir mundi gifta honum fruna. Jarll kuez villdu fara ferd þa er hann hafdi ætlat enn quaz mundu þar koma er hann færi aftr ok gera þa af slikt er þeim syndiz. Eftir þat for jarl a braut med fòruneyti sinu. ok er þeir sigldu austr fyrir þrasnes hofdu þeir byr godann. saatu þeir þa ok drucku ok voru allkatir. jarl kuat þa visu.

Ord skal Ermingerdar
itr dreingr muna leingi
brudr vill rauck at ridim
raanheim til Jordanar.

en er aftr fara runnar
vnnviggs fyrir haf sunnan
rijstum heim at hausti
hualfron til Nerbonar.

þa quad Aarmodr.

Ek man Ermingerdi
vtan aunnur skaup verdi
margr elr sorg vm suinna
sidan alldri finna.

væri ek sæll ef ek suæfa
syn væri þat gæfa
brudr hefir allfagrt enni
eina naatt hia henni.

þa quad Oddi.

Trautt erum ver sem ek vætti
verdir Ermingerdar
veit ek at hosk maa heita
hladgrund konungr sprunda.

þat somir bil brima
baugastallz at aullu
hon lifui sæl vnd solar
setri myklu betri.

þeir foru þar til er þeir komu vestr a Galiciuland .v. naattum fyrir iol ok ætludu þar at sitia vm iolin. þeir leitudu vid landzmenn at þeir mundu setia þar torg til matarkaupa. enn þat er illt matland ok þotti landzmonnum þungt at fæda sua mikinn her. Enn þat var tidenda at i landinu sat haufdingi sa er þar var vtlendr i kastalanum ok hafdi a landzmonnum miklar pyndingar. hann heriadi a þa ef þeir iattadu eigi aullu þui er hann beiddi. baud hann þeim hinn mesta vfrid ok kugan. ok nu er jarl leitadi eftir vid landzmenn vm matkaup gerdu þeir honum þar kost vm at þeir mundi setia þar torg framan til faustu enn villdu þo raada vid þa audrum lutum med nockuru moti ok skylldi Rognvalldr jarl briota straum fyrir at hafa fe allt þat er fengiz af þeim. þetta berr jarl vpp fyrir sina menn ok leitadi raads vid þa huern vpp skal taka. enn flestir voru fusir a kastalamenn ok þotti þat vænligt til fanga ok gengu þeir Rognvalldr jarl at þeim kosti vid landzmenn. Enn er a leid julin kallar jarl sina menn a tal ok mællti. nu hofum ver setid her vm rijd ok hofum ecki aatt vid kastalamenn enn landzmenn letiaz helldr a kaupum vid oss þicki mer sem þeir hugsi at þat verde lokleysa sem ver hetum þeim. er þat þo ecki dreingiligt at leita ecki

vid þat er ver hofum heitit. nu vil ek hafa raad vid ydr huern veg ver skulum vinna kastalann þuiat ek veit at þer erut her raadagerdarmenn mestir. enn þo vil ek þess bidia þa menn sem her eru at huerr leggi til þat er likligaz er at dugi. Erlingr suaradi rædu jarls. eigi vil ek þegia vid ydru bodi en engi er ek raadagerdamadr er ok helldr at kuedia at þersu þa menn er fleira hafa set ok vanari er(u) slikum ferdum sem er Eindridi vngi. enn her mun fara sem mællt er at skiota mun verda til fugls aadr faai. megum ver ok freista at gefa til nockut raad fyrir huat sem kemr. skulum ver i dag ef ydr syniz þat eigi vraadligt edr audrum skipstiornarmonnum ganga til skogar allir ok beri huerr þriar axlbyrdar a baki vndir kastalann. þuiat mer lidz sua sem limit muni eigi traust vera ef mikill elldr er at borinn. skulum ver sua laata ganga þria daga hina næstu ok sia huat at skipaz. þeir giordu sem Erlingr baud. ok er þui starfi var lokit var komit fram at iolum. villdi byskup eigi laata þeim atgaungu veita medan iolahaatidin stædi yfir. Saa hofdingi het Gudifreyr er kastalann bygdi. hann var vitr madr ok hniginn nockut a alldr hann var klerkr godr ok hafdi farit vida ok kunni margar tungur. hann var madr agiarn ok viafnadarmadr mikill. hann kallar saman menn sina er hann saa tiltekiur þeirra ok mællti vid þa. þetta raad syniz mer vitrligt ok oss skadsamligt er Nordmenn hafa vpp tekit. mun oss sua gefaz ef elldr er at borinn at steinveggrinn mun vera vtraustr vm kastalann enn Nordmenn sterkir ok hraustir. munu ver eiga von af þeim snarprar orrostu ef þeir komaz i færi. vil ek nu raadaz vm vid ydr huern vpp skal taka i þersum vanda sem oss er fallinn. Enn hans menn allir baadu hann fyrir sia. þa tok hann til orda. þat er hitt fysta mitt raad at þer skulut knyta vm mik snæri ok lata mik sijga ofan fyrir kastalavegginn. skal ek hafa vǫnd klædi ok fara i herbudir Nordmanna ok vita huers ek verda viss. þetta var raad tekit sem hann sagde fyrir. Ok er Gudifreyr kom til Rognvalldz jarls ok sagdiz vera stafkarl einn ok mællti a vaulsku. þat skildu þeir hellz. hann for vm allar budir ok bad ser matar. hann skildi at med Nordmonnum var aufund mikil ok sueitardraattr. var Eindridi fyrir annarri enn jarl fyrir annarri. Gudifreyr kom til Eindrida ok kom ser i tal vid hann kærdi hann fyrir honum at hofdingi sa er kastalann hellt hefdi sent hann þangat. vill hann eiga vid þik felagskap ok væntir þers at þu munir honum grid gefa ef kastalinn verdr wnninn. ann hann þer betr gersima sinna ef þu villt slikt aa mot leggia enn þeim er hann vilia hafa at daudamanni. Slikt tauludu þeir ok mart annat enn jarl var leyndr. for þetta allt af hliodi i fystu. Ok er Gudifreyr hafdi

dualiz vm rijd med iarlsmonnum þa sneri hann aftr til sinna manna. enn þi fluttu þeir or kastalanum ecki þat er þeir aattu at þeir vissu eigi huart atlagan mundi takaz. þeir maattu ok [564] ecki trua landzfolkinu.

## Rognvalldr jarl vann borg eina.

416. þat var .x. dag jula er Rognvalldr jarl stod vpp. var vedr gott. bad hann þa menn sina vopnaz ok let blasa lidinu vpp (til) kastalans drogu þeir þa vidinn at ok hlodu baal vmhuerfis veggina. skipadi jarl monnum til atgaungu huar huerigir skylldu at ganga. jarl gengr at sunnan med Orkneyinga. Erlingr ok Aaslaakr vestan. Jonn ok Gudormr austan. Eindridi vngi nordan. Ok er þeir voru bunir til atsoknar hlodu þeir elldi i baalit. þa kuat jarl.

Vin bar huit in hreina
hladnipt skaugul drifta
syndiz faugr er fundumz
ferdum Ermingerdar.

nu tegaz aulld med elldi
eikum fremr at sækia
rida snorp or slidrum
suerd kastala ferdir.

þeir taka nu at sækia fast at bædi med elldi ok vǫpnum. skutu þeir þaa hart i virkit þuiat eigi maatti annarri atsokn vid koma. kastalamenn stodu laust aa vegginum þuiat þeir wrdu at gæta sijn vid skotum. þeir steyptu ok vt brennanda biki ok brennusteini ok vard iarlsmonnum litid mein at þui. for þat sua sem Erlingr gat at kastalaveggrinn hrundi fyrir elldinum er limit þoldi eigi ok wrdu a stor hlid. Sigmundr aungull het madr stiupsun jarls. hann sotti einn manna fastaz at kastalanum ok geck iafnan fram fyrir iarlinn. hann var þa varla roskinn. ok er atsokn hafdi verit vm rijd þa rucku allir inn af kastalavegginum. vedr var aa af sudri ok lagdi reykinn at þeim Eindrida. Ok þa er elldrinn tok sem fastaz at sækia let jarl bera vatn i ok kæla griotid þat er brunnit var. ok var þa huilld a atsokninni. Rognvalldr jarl kuat þa visu.

Muna mun ek iol þau er olum
austr gialdkera hraustum
vllr at Egda fiollum
vndleygiar med Solmundi.

nu ger ek enn vm adra
iafnlengd sem ek var þeirra
suerdz at sunnanverdum
suarm kastala barmi.

Ok enn quat hann.

Unda ek vel þa er vandiz
vijneik tali minu
gefinn var ek volsku vifui
vǫnarlaust a hausti.

nu ger ek enn þar er vnnum
aattgodu vel fliodi
griot verdr laust at laata
limsett ara mettann.

þa kuad Sigmundr aungull.

þer berit aftr er vðrar
ord þau skaugulborda
fiallrifs fægiþellu
fleyvangs til Orkneyia.
at aungr þar er slaug sungu
seggr vnd kastala veggium
eir þott elldri væri
itr dreingr framar gengi.

Eftir þat reed jarl til vppgaungu ok Sigmundr aungull. vard þar litil vidrtaka ok komuz þeir i kastalann. var þar margt manna drepit enn þeir er lifit þaagu gafu sik vpp i valld jarls. þar toku þeir mikit fe enn ecki fundu þeir hofdingiann ok nær einga dyrgripi. var þa þegar mikil vmræda huersu Gudifreyr mundi hafa vndan komiz. hofdu þeir þa þegar hinn mesta grun a Eindrida vnga at hann mundi honum hafa vndan skotid ok mundi hann hafa farit brott med reyk til skogar. Eftir þetta duolduz þeir Rognvalldr jarl skamma stund a Galiciulandi ok helldu vestr fyrir Span. þeir heriudu vida vm Spanland hitt heidna ok fengu þar mikit fee. þeir runnu vpp i þorp eitt enn þeir er bygdu þorpit hlupu saman ok redu til bardaga. var þar hart vidrnaam ok flydu landzmenn at lyktum enn mart var drepit. þa kuat jarl visu.

Vðn ek vt a Spani
var skiott rekinn flotti
flydi margr af mædi
menlundr konu fundar.
þui erum vær at vorum
væn hliod kuedin þiodum
valr tok vðll at hylia
verdir Ermingerdar.

Eftir þat sigldu þeir vestr fyrir Span ok fengu þar storm mikinn ok laagu þar þria daga vm akkeri sua at þeir hofdu allmikit vðs ok lagdi nær at þeir mundi briota skipin. þa kuat jarl.

Skal ek ei hryggr i hreggi
hlin medan streingr ok lına
sudr fyrir Suediu bardi
sualteigar brestr eigi.
beint nam ek huitri heita
haurskord er ek for nordan
vindr berr snart at sundi
sudmar konu prudri.

Eftir þat wndu þeir segl sin ok beittu wt at Niorfasundum allfagran byr. þa kuat Oddi.

Hafdi hollvinr lofda
hinn er miod dreckr inni
sundalauks med sueigi
siau dægr muni hægri.
enn riklundadr rendi
Raugnvalldr med lid skialldat
hesti halli glæstum
hlunz at Niorfasundum.

Ok er þeir beittu at sundinu kuat jarl visu.

Vindr hefir volsku sprundi
vetrar stund fra mundum
wt berum aas at beita
austrænn skotid flaustum.
verdum ver at gyrda
vaanar hart fyrir Spaani
vindr rekr snart at sundi
suidris vid raa midia.

þeir sigldu i gegnum Niorfasund ok tok þa at hægiaz vedrit. ok þa er þa bar or sundunum þa skildiz Eindridi vngi fra foruneyti jarls med .vj. skipum sigldi hann yfir hafit til Marseliar. enn þeir Rognvalldr jarl laagu eftir vid sundin ok toludu menn mart vm at Eindridi hefdi nu sialfr skirslu til giort huart hann hefdi Gudifrey vndan komit. Jarl let þa vinda segl sin. sigldu þeir a haf ok stefndu hitt sydra med Serklandi. þa kuat Rognvalldr jarl.

Landi vikr enn lauka
laugr tær a vid fogrum
sijd mun seggr at hrodri
seina nordr at einu.

þenna rist ek med þunnu
þijtt iardar men bardi
einum vt fyrir Spaani
aufund krok i dag hroki.

Ecki er getid vm ferd þeirra jarls fyrr enn þeir koma sudr fyrir Serkland ok laagu i naand Sardinarey ok vissu ecki til landa. þann veg var vedri farit at a logduz logn mikil þokur ok sælęgiur ok sa þeir nær ecki fra skipum ok forst þeim þui seint. þat var einn morgin at af lypti þokunni. stodu menn vpp ok lituduz vm ok saa þeir tuær eyiar ok er þeir sa til eyianna i annat sinn þa var horfin aunnur eyin. þetta sogdu þeir jarli. hann tok til orda. þat munu eingar eyiar verit hafa. þat munu vera skip þau er menn hafa vt hingat i heim er þeir kalla dromunda. eru þau skip sua mikil sem holmar til at sia. enn þar er annar dromundrinn hefir [565] legit þar mun lagz hafa vindr aa hafit ok munu þeir hafa siglt a brott. enn þessir muno vera nockurs farandi menn. Eftir þat lætr jarl[1] kalla til sijn byskup ok alla skipstiornarmenn. tok hann þa til orda. ydr kuet ek at þessu herra byskup ok Erling frænda minn. siai þer nockut raad edr efni var at ver megin nockurn sigr a þeim vinna er a dromundinum eru. Byskup suarar. torfuellt get ek ydr verda at leggia langskipin vndir dromundinn þuiat þer munet eigi geta betr enn krækt brandauxi a bordit. enn þeir munu hafa brennustein ok vellanda bik at (færa) vndir fætr ydr ok yfir haufud. megu þer sia jarl sua vitr sem þer erut at þat er hin mesta vfæra at leggia lid sitt ok sialfan sik i sua mikla hættu. þa tok Erlingr til orda. herra byskup segir hann. likligt er þat at þer munit þetta giorst kunna at sia at osigrvænligt mun vera at leggia at þeim. enn þann veg hygz mer at þott ver freistim at leggia vndir dromundinn at mer þickir vera mega at hinn mesta vopnaburdinn beri vt af skipunum vǫrum ef ver sibyrdum vid. enn ef eigi er sua þa megum ver skiott fra leggia þuiat þeir munu ecki ellta oss a dromundinum. Jarl tok til orda. þetta er dreingiliga mællt ok nær minu skaplyndi. vil ek þat nu

[1]) bp. ɔ: byskup *Cd.*

bert gera fyrir skipstiornarmonnum ok allri alþydu at huerr madr skal buaz i sinu rumi ok vopna sik med hinum beztum fǫngum. siþan skulum ver leggia at þeim. enn ef þeir eru kristner kaupmenn þa er kostr at gera frid vid þa. enn ef þeir eru heidingiar sem mik varir þa mun almattigr gud vilia veita oss þa miskunn at ver munum vinna sigr a þeim. enn af herfangi þui er ver faaum þar skulum ver faa fatækum monnum hinn fimmtuganda penning. Eftir þat brutu menn vpp vopn sijn ok vijggyrdludu[1] skip sin ok biugguz vm eftir þeim efnum sem þeir hofdu til. skipar jarl til huar huerigir skylldu at leggia. greiddu þeir þa atrodr ok logdu at sem vaskligazst.

### Rognualldr vann dromundinn.

417. Enn er þeir saa þat er a dromundinum voru at skipin reru at þeim ok menn ætludu til atsoknar vid þa toku þeir pell ok dyrgripi ok baaru wt a bordin ok gerdu þa haareysti mikit ok þotti jarlsmonnum sem þeir eggiadi Nordmenn a hendr ser. Rognvalldr jarl lagdi sitt skip aftr med dromundinum a stiornborda enn Erlingr a bakborda aftr þar. þeir Jonn ok Aaslakr (logdu) fram a sijtt bord huorr enn adrir vm mitt skip a bædi bord ok sibyrdu vid ollum skipunum. ok er þeir kuomu vndir dromundinn var hann sua bordhaarr at þeir mattu ecki vopnum vid koma. enn þeir steyptu loganda brennusteini ok loganda biki yfir þa. ok var þat sem Erlingr gat til at mestan vopnaburdinn bar vt af skipunum ok þurftu þeir ecki at hlifa ser þannig. Ok er þeim ortiz ecki aa vm soknina lagdi byskup fra sijtt skip ok tua(u) onnur ok voldu þeir þangat bogmenn sina ok logdu þeir i skotmaal ok skutu þadan a dromundinn ok var su þa mest atsoknin. færdu þeir þa vid hlifarnar en hugsudu lijtt vm huat er þeir hofduz at er vndir dromundinn hofdu lagt. Rognvalldr jarl het þa a sina menn at þeir skylldu taka auxar sinar ok hoggua bordin a dromundinum þar er minz væri iarnafarit aa. enn er menn a odrum skipunum saa athofn jarlsmanna toku þeir ok slikt raad. þar er þeir Erlingr hofdu at lagt heck ackeri mikit a dromundinum ok var krækt fleininum a bordit enn leggrinn vissi ofan at skipi Erlings. Audun hinn raudi het stafnbui Erlings. honum (var) lypt a ackeris stockinn enn siþan heimti hann ser fleiri menn sua at þeir stodu sem þeir maattu þreyngz a stockinum ok hiuggu þadan bordin sem þeir mattu ok var þat hauggit myklu efzst. ok er þeir hofdu hoggit sua storar dyrr at þeir maattu ganga inn i dromundinn redu þeir þa til vppgǫngu ok komu þeir jarl i hinu nedri

[1]) vijggyrdulu *Cd.*

rumin enn þeir Erlingr i hinu efri. ok er huorirtueggiu koma vpp i skipit verdr þar orrosta bædi mikil ok hörd. A dromundinum voru Saraceni þat kaullum ver Maumetz villumenn. þar var mart blamanna ok veittu þeir hina horduzstu mottoku. Erlingr feck þar saar mikit a haalsinn vid herdarnar er hann hliop vpp i dromundinn. þat greri sua illa at hann bar iafnan hallt hofudit sidan þi var hann skackr kalladr. Ok er þeir komu saman Rognvalldr jarl ok Erlingr hrucku Saraceni vndan fram i skipit. enn jarlsmenn gengu þa vpp huerr at odrum. vrdu þeir þa fleiri ok gengu at fast. þeir saa at a dromundinum var einn madr sa at bædi var meiri ok fridari en adrir. þat hofdu Nordmenn fyrir satt at sa mundi vera hofdingi þeirra. Rognvalldr jarl mællti at þeir skylldu eigi bera vopn a hann ef þeir mætti odruuisi faa hann. þa baaru þeir skiolldu at honum ok vard sua tekinn ok færdr sidan a skip byskups ok fair menn med honum. enn þeir draapu huert mannzbarn annat ok fengu mikit fe ok margar gersimar. þa er þeir hofdu lokit hinu mesta starfi settuz þeir þa nidr ok huilldu sik. þa kuat jarl þetta.

Erlingr geck þar er ockur
ognsterkr ruduz merki
frægr med fremd ok sigri
fleinlundr at dromundi.

blodu ver enn vida
var blod numit þiodum
suerd rudu sniallir fyrdar
snorp blamanna gorpum.

Ok enn kuat hann.

Nennum ver at vinna
valfall ma nu kalla
aar hefir dreingr i dreyra
dromund rodit skioma.

þat mun nordr ok nordan
naddregns konan fregna
þiod beid liott af lydum
liftion til Nerbonar.

Menn ræddu vm tidendin [566] þessi er þar hofdu gerzst. sagdi þa huerr þat er set þottiz hafa. ræddu menn ok vm huerr fystr hafdi vpp gengit ok vrdu eigi a þat saattir. þa mælltu sumir at þat væri vmerkiligt at þeir hefdi eigi allir eina sogn fra þeim stortidendum. ok þar kom at þeir wrdu a þat saattir at Rognvalldr jarl skylldi or skera. skylldu þeir þat sidan allir flytia. þa kuad jarl.

Geck aa dromund dockuan
dreingr reed snart til feingiar
vpp med ærnu kappi
Audun fystr hinn raudi.

þar naadu ver þiodar
þui hefir alldar gud valldit
bolr fell blaar a þiliur
blodi vapn at rioda.

þa er þeir hofdu ruddann dromundinn þa logdu þeir i hann elld ok brendu. Ok er þat saa madrinn sa hinn mikli er þeir hofdu hertekit bra honum vid miok ok gerdiz litverpr ok maatti sik eigi kyrran hafa. enn þo at þeir leitadi orda vid hann þa mællti hann ecki ok eingann

veg bendi hann ok ecki bra hann ser vid huart er þeir hetu honum godu edr illu. Enn þa er dromundrinn tok at loga sa þeir at sua sem logandi siorr hlypi i sioinn. þat feck mikils hinum hertekna manni. þat hofdu þeir fyrir satt at þeir hefdi vvandliga leitat fiarins ok nu hefdi runnit maalmrinn i elldzganginum huart er verit hefdi gull edr silfr. þeir Rognvalldr jarl sigldu þadan sudr vndir Serkland ok laagu vndir Serklandzborg einni ok gerdo þar .vij. naatta grid vid stadarmenn ok aattu vid þa kaup ok selldu þeim sijlfr ok annat fee. Einge madr villdi kaupa hinn mikla mann. ok eftir þat gaf jarl honum fararleyfui vid .v. mann. hann kom ofan vm morgininn eftir med sueit manna ok sagdi þeim at hann var ǒdlingr af Serklandi ok hafdi þadan verit leystr med dromundinum ok ǒllu þui fe er þar var aa. letz honum ok vest þickia at þeir brendu dromundinn ok foru þar sua illa myklu fe at eingi naut. enn nu aa ek mikit valld aa ydru maali. þer skulit nu fra mer þers mest niota er þer gaafud mer lijf ok leitudut mer slikrar sæmdar sem þer maattud. enn giarna villda ek at ver sæimz alldri siþan ok lifit nu heilir ok vel. Eftir þat reid hann aa land vpp en Rognvalldr jarl sigldi þadan sudr til Kritar ok laagu þar i ofuidri miklu. þa kuat Aarmodr visu er hann hellt vǒrd vm nattina.

Eigu ver þar er vaagi
verpr inn vm þraum stinnan
þann hǒfum ver at vinna
vardhalld a ske barda.

medan i nott hia nytri
naamduks haurundmiukri
lǒkr sefr lind hinn veyki
lijt ek vm auxl til Kritar.

þeir jarl laagu vndir Krit þar til er þeim gaf byr til Jorsala ok komu til Akrsborgar fǒstumorgin snemma ok gengu þa vpp med pris miklum ok fararbloma þeim er þar var sialldseenn. þorbiorn suarti orti þa visu.

Vard ek vm hrijd med herdin
hiorþys i Orkneyium
reed folkstara fædir
fyrr vm nætr til styriar.

nu berum raund med reyndum
raunsnarliga iarli
ort a vrga uaurtu
Akrsborg friamorgin.

þeir jarl duolduz i Akrsborg vm hrid. þar kom sott i lid þeirra ok aunduduz margir menn. þar andadiz þorbiorn suarti. Oddi hinn litli kuat.

Baaru lyng
lendra manna
fyrir þarsnes
þorbiorn suarta.

trad hlynbiorn
vnd hofudskaalldi
ata iord
Akrsborgar til.

þa sa ek hann
at hofudkirkiu
siklings vin
sandi ausinn.

nu þrumir grund
grytt yfir haanum
sǫlu signud
a Sudrlaundum.

þeir Rognvalldr jarl foru þa or Akrsborg ok sottu alla hina helguzstu stadi a Jorsalalandi. þeir foru allir til Jordanar ok lauguduz þar. þeir Rognvalldr jarl ok Sigmundr aungull logduz yfir aana ok gengu þar a land ok þangat til sem var hrijskiorr nockur ok ridu þar aa knuta stora. þa kuad jarl.

Ek hefi lagda lyckiu
leidar þueings vm heidi
snotr minniz þers suanni
swt fyrir Jordan wtan.

en ek hyck at þo þicki
þangat langt at ganga
blod fellr varmt a vidann
vǫll heimdrogum ǫllum.

þa kuat Sigmundr.

Knut mun ek þembiþrioti
þeim er nu sitr heima
satt er at helldr hǫfum hættann
hans kind i dag binda.

Jarl kuat.

Knut ridum ver kauda
kem ek modr i stad godann
þann i þyckum runne
þessa Lafranz messo.

Ok þa er þeir foru vtan af Jorsalalandi þa kuat Rognvalldr jarl.

Kross hangir þul þessum
þiost skyli lægt fyrir briosti
flyckiz fram aa breckur
ferd enn paalmr medal herda.

þeir Rognvalldr jarl foru vm summarit af Jorsalalandi ok ætludu nordr til Miklagardz ok komu vm haustid til þess stadar er heitir Jmbolum. þeir duolduz þar miok leingi i stadnum enn ef menn genguz a moti þa er þraung var ok þottiz annarr þurfa at saa vægde gongunne er aa moti honum[1] geck þa segir hann sua midhæfui midhæfui. þat var eitt kuelld er þeir geingu or bænum ok Erlingr skacki geck wt a bryggiuna skipsins gengu stadarmenn i moti þeim ok mælltu midhæfui midhæfui. Erlingr var druckinn miok ok let sem hann heyrdi eigi ok er þa bar saman stock Erlingr af bryggiunni ok ofan i leirinn er vndir var ok hlupu menn hans til at draga hann vpp ok wrdu at færa

[1]) h' ɔ: hann *Cd.*

hann af hueriu klædi. Vm morgininn eftir er þeir iarl funduz ok honum var sagt brosti hann at ok kuat.

Vill eigi vinr minn kalla
vard hann allr i drit falla
nær uar i þui æren
vgæfa midhæfui.
lijt byck ek at þa þætti
þeingils maagr er hann reingdiz
leirr fellr grar of geira
golegr i Jmbolum.

Þau tidendi wurdu nockuru sidar þar i stadnum er þeir gengu or stadnum miok druknir enn menn Jons fotz sôknudu hans enn einkis mannz annars. þeir sendu þegar at leita hans a aunnur skip ok fanz hann eigi enn ecki maattu þeir leita hans a land vm nottina enn þegar vm morgininn er liost var vordit fundu [567] þeir hann hia borgarvegg veginn. enn þess vard alldri vist huerr honum hefdi bana veitt. ueittu þeir þa virduligann grôft liki hans at heilagri kirkiu. Eftir þat foru þeir a brott ok er þeir komu nordr til Ægissness. þeir laagu þar nockurar nætr ok bidu byriar þers er þeim þotti godr at sigla nordr eftir hafinu til Miklagardz. þeir vônduðu þa miok siglingina ok sigldu þa vid pris miklum sua sem þeir vissu gert hafa Sigurd jorsalafara ok er þeir sigldu nordr eftir hafinu kuat jarl visu.

Ridum ræfils vakri
rekum eigi plog af akri
erium vrgu bordi
wt at Miklagardi.
þiggium þengils maala
þokum fram i gny staala
riodum gyldis goma
gerum riks konungs soma

## Af Rognualldi jarli.

418. Þeir Rognualldr jarl komu til Miklagardz ok var þeim vel fagnat af stolkonunginum ok Veringium. þa var Menelaus konungr fyrir Miklagardi er ver kollum Manula. hann veitti þeim mikit fee ok baud þeim maalagiof ef þeir villdi þar stadfestazst. þeir duolduz þar miok leingi vm vetrinn. þar var fyrir Eindridi jungi ok hafdi allmiklar virdingar af stolkonungi. hann aatti faatt vid þa jarl enn afþockadi helldr fyrir þeim fyrir odrum monnum. Rognualldr jarl byriar ferd sina vm vetrinn af Miklagardi ok for fyst vestr til Bolgaralandz til Dyraksborgar. þadan sigldu þeir vestr i hafit a Pul. þar gek Rognualldr jarl ok Erlingr af skipum sinum ok Vilhialmr ok allt hit gofgazsta lid þeirra ok ôfludu ser þar hesta ok ridu þadan fyst til Romaborgar ok sua vtan Romaveg þar til er þeir koma til Danmerkr. foru þadan i Noreg ok wrdu menn þar fegnir. ok var þessi ferd hin frægazsta ok þottu þeir meira haattar menn allir siþan enn aadr er farit hofdu. Medan þeir hofdu verit i ferdinni andadiz Augmundr dreingr brodir

Erlings skaacka hann þotti meira haattar þeirrá brædra medan þeir lifdu baadir. Enn eftir fall Jnga konungs var til konungs tekinn yfir þann flock Magnus sun Erlings ok Kristinar dottur Sigurdar konungs jorsalafara. enn Erlingr hafdi þa einn landraad i Noregi. Valldamar Danakonungr gaf Erlingi jarls nafn gerdiz hann þa hinn mesti hofdingi. Eindridi kom vtan nockurum vetrum sidarr enn þeir Rognualldr ok redz hann þa til Eysteins konungs þuiat hann villdi ecki eiga vid Erling. Enn eftir fall Eysteins konungs efldu þeir Eindridi ok Sigurdr sun Hau(a)rdz haullz af Reyri flock ok toku til konungs Hakon herdibreid sun Sigurdar konungs Haralldzsunar gilla. þeir felldu Gregorium Dagssun ok Jnga konung. þeir Eindridi ok Hakon borduz vid Erling vndir Seck. þa fell Hakon en Eindridi flydi. Erlingr jarl leet drepa Eindrida junga nockuru sidar i Vik austr. Rognualldr jarl dualdiz vm sumarit a Haurdalandi er hann kom i Noreg ok fretti þadan morg tidendi or Orkneyium. var þar vfridr mikill ok geingu gædingarnir miok i tua stadi. þeir voru fair er hia sæti sua at eingan lut ætti i. var Haralldr jarl odrum megin enn Erlendr jarl i odrum stad ok Sueinn Asleifarsun. Ok er Rognualldr jarl heyrdi þetta kuat hann visu.

Nu hafa gædingar geingit
gudfion er þat liona
vpp grafaz ill raad greppa
ærit morg aa særi.
þat mun þeygi siatna
þeim er suik vinnr heima
stigum litt a laagann
legg medan vpp heldr skeggi.

Jarl hafdi eingann skipakost enn þeir skylldu laata gera honum langskip nockut ganga þeir vel vndir þat ok iatta þui ollu sem hann beiddi ok gerdu skipin.

## Rognualldr jarl for til Orkneyia.

419. Jarl bioz vm summarit at fara vestr til Orkneyia i riki sijtt ok vard hann sidbuinn fyrir þui at hann dualdi mart. for hann vestr a kaupskipi[1] þui er aatti þorhallr Asgrimssun hann var islendzkr madr ok kynstorr ok atti bu sudr i Byskupstungu. jarl hafdi sueit mikla a skipi ok gofugt foruneyti. toku þeir Skotland þa er var af vetri miok langt ok laagu vid Torfnes. kom jarl litlu fyrir jul i riki sijtt.

## Eysteinn konungr fangadi Haralld jarl.

420. Nv er at segia fra þui huat til tidenda vard i Orkneyium medan Rognualldr jarl var i vtforinni. Sumar þat er jarl var farinn or landi kom austan or Noregi Eysteinn konungr sun Haralldz gilla. hann

[1]) kuapskipi *Cd.*

hafdi her mikinn. þa hafdi hann lagt herinum til R(inans)eyiar. þa spurdi hann at Haralldr jarl Maddadarsun var farinn til Katanes med tuitugsessu ok hafdi .lxxx. manna. hann laa þa i þorsaa. Enn er Eysteinn konungr spyrr til hans skipar hann þriar skutur ok for vestr yfir Petlandzfiord ok sua til þorsaar. kom hann þar sua at þeir jarl vrdu eigi fyrr varir vid enn konungsmenn geingu vpp a skipit at þeim ok gerdu jarl handtekinn. hann var leiddr fyrir konung ok foru þeirra skipti sua at jarl leysti sik .iij. morkum gullz. enn hann gaf riki sijtt i hendr Eysteini konungi sua at hann skylldi af honum hallda rikit sidan. giordiz jarl þa madr Eysteins konungs ok batt þat med suardǫgum. þadan for Eysteinn konungr til Skotlandz ok heriadi þar vm sumarit. hann heriadi vida vm England i ferd þeirri ok þottiz þa hefna Haralldz sona.

## Fra Eysteini konungi.

421. Eftir þat for Eysteinn konungr aftr i riki sijtt til Noregs ok var allmisiafnt rætt vm hans ferd. Haralldr jarl var i riki sinu i Orkneyium ok var þockasæll af flestum monnum. þa var andadr Maddadr jarl fadir hans en Margret modir hans var komin i Orkneyiar hon var væn kona ok suarri mikill. J þann tima andadiz Dauid Skotakonungr. var þa til konungs tekinn Melkolmr son hans hann var barn at alldri er hann tok riki.

## Fra Haralldi. capitulum.

422. Erlendr sun Haralldz hins slettmaala var leingzstum i þorsaa enn stundum i Sudrey edr i hernadi siþan Ottar jarl andadiz. hann var hinn mannvænligzsti madr [563] ok giorr at ser vm flesta luti milldr af fe blidr ok raadþægr manna vinsælazstr af sinum monnum. hann hafdi sueit mikla. Anakol het madr hann var fostri Erlendz ok red mestu med honum. hann var ættstorr ok hardfeingr. hann var raadgiafi Erlendz jarls. þa er Rognualldr jarl var farinn or riki sinu wt i Jorsalaheim for Erlendr a fund Melkolms Skotakonungs ok bad at hann gæfi honum jarls nafn ok Katanes til yfirferdar sua sem hafdi Haralldr jarl fadir hans. enn fyrir þui at Erlendr aatti marga vini enn Melkolmr var barn at alldri þa gekz þat vid at hann gaf Erlendi jarls nafn ok veitti honum Katanes halft vid Haralld frænda sinn. for Erlendr þa a Katanes ok hitti þar vini sina. Eftir þat dro hann lid at ser ok for wt til Orkneyia ok beiddi ser þar vidtoku. Haralldr jarl Maddadarsun dro lid at ser er hann spurdi ok gerdiz fiolmennr. foru þa menn i milli þeirra

frænda at leita vm sættir. beiddiz Erlendr haalfra eyia vid Haralld jarl ok villdi Haralldr jarl eigi vpp gefa. kom þa sua at grid voru sett þau misseri. enn þat var raadit at Erlendr skal fara austr a fund Noregs konungs ok beida helmings þess er Rognualldr jarl aatti ok lettz Haralldr jarl þann lut mundu vpp gefa. For þa Erlendr austr i Noreg en Anakol ok sum sueitin var eftir. Gunni Olafssun brodir Sueins Asleifarsunar hafdi getid born vid Margretu modur Haralldz jarls enn Haralldr jarl hafdi gert hann utlægann. ok af þui tokz (u)vinatta med þeim Sueini ok Haralldi jarli ok sendi Sueinn Gunna brodur sijn sudr i Liodhus til Liotolfs vinar sins er Sueinn hafdi verit med fyrr. Fugl son Liotolfs var med Haralldi jarli ok var þui faatt med þeim Sueini. þa er Erlendr jarl for austr i Noreg for Haralldr jarl yfir a Katanes ok sat i Vik vm vetrinn. Sueinn Asleifarsun var þa i þrazvik a Katanesi ok vardueitti þar bu stiupsona sinna þuiat hann aatti fyrr Ragnhilldi Jngimundardottur. þau voru skamma rijd asamt Olafr var son þeirra. Siþan aatti hann Jngiridi þorkelsdottur Andreas var sun þeirra. þat var odinsdag i efzstu viku at Sueinn var geinginn vpp i Lambaborg med nockura menn. þeir sa at byrdingr for nordan af Petlandzfirdi. þottiz Sueinn vita at þat mundi vera menn Haralldz jarls þeir er hann hafdi sent eftir skatti a Hialltlandi. Sueinn bad sina menn ganga til skipa ok leggia at byrdinginum. ok sua gerdu þeir ok toku allt þat er a var enn skutu a land monnum Haralldz jarls ok geingu þeir til Vikr ok sogdu honum. Haralldr jarl suaradi faa vm ok sagdi at þeir Sueinn myndi ymsir fe hafa ok skipti hann monnum sinum a veizslur a paschana. þat kalla Katnesingar at jarl veri . . .

## Fra Sueini Astleifarsyni.

423. þegar eftir paschaviku for Sueinn a byrdingi ok rodrarskutu vt i Orkneyiar ok er þeir komu a Skalpeid toku þeir þar skip af Fugli Liotolfssyni. hann var kominn sunnan or Liodhusum fra faudur sins ok ættladi til Haralldz jarls. ok i þeirri ferd toku þeir .xij. aura gullz af Sigurdi klaufa huskarli Haralldz jarls. þat fe hafdi ver(i)t fært i bæ enn þeir voru i Kirkiuvogi er aattu. Siþan for Sueinn yfir a nes ok vpp a Skotland ok fann Melkolm Skotakonung i Ardion. hann var þa .ix. uetra gamall. þar var Sueinn manad ok i allgodu yfirlæti ok bad Skotakonungr hann hafa þau gædi oll a Katanesi sem hann hafdi aadr er hann var vsaattr vid Haralld jarl. Sueinn þackadi konungi.

### Fra Sueini ok Anakol. capitulum.

424. Eftir þat bioz Sueinn a brottu ok skilduz þeir Skotakonungr i kærleikum miklum for Sueinn þa til skipa sinna ok sigldu sunnan til Orkneyia. þa var Anakol a Dyrnesi er þeir Sueinn sigldu sunnan ok saa þeir sigling fyrir austan Mula. þeir senda til Sueins Gauta bonda af Skeggbiarnarstodum ok beiddi Anakol at Sueinn skylldi sættaz vid Fugl vm skiptokuna þuiat þar var frænsemi ok var Fugl þa med Anakol. Enn er Gauti fann þa Suein þa sendi hann ord til Anakols ok bad þa Suein at þeir færi til Sandeyiar ok fyndiz þar þuiat hann letz fara mundu. þar var sættarfundr ok geck saman sættin enn sua kom at Sueinn skylldi gera slikt er hann villdi. Eftir þat redz Anakol til lids med Sueini ok badz i þui at koma sætt þeirra saman Erlendz jarls ok Sueins er hann kæmi austann þuiat þar var fiandskapr mikill af brennu Frackakar. þeir Sueinn ok Anakol foru til Strionseyiar ok laagu vid hofn nockurar nætr. þa bio i Strionsey þorfinnr Bessason hann aatti þa Jngigerdi systr Sueins er þorbiorn klerkr (hafdi) eina laatid.

### Sætt Erlendz ok Sueins.

425. þa er þeir Sueinn laagu vid Hofsnes sigldi þar af hafi Erlendr jarl. þeir Anakol ok þorfinnr leita nu vm sættir med þeim Sueini ok tok jarl þungliga a sættum kuat Suein iafnan andstreymann verit hafa þeim frændum enn halldit ecki þat er þeir Ottar jarl hofdu vid mæltz at styrkia sik (til) rikis. Sueinn baud þa iarli fylgd sina. var þar vm leitad dag allann ok geck eigi sættin fyrr saman enn þeir lystu þui baadir Anakol ok þorfinnr at þeir mundu fylgia Sueini or Orkneyium ef jarl villdi eigi sættaz vid hann. Erlendr jarl sagdi þau ord Eysteins konungs at þeir skylldu hafa þann lut Orkneyia er adr hafdi Haralldr jarl Sueinn gaf þat raad þa er þeir voru saattir at þeir skylldu fara aa fund Haralldz jarls aadr hann fretti þetta af odrum monnum ok bidia hann gefa vpp rikit. Sua var gert sem Sueinn mællti. þeir fundu Haralld jarl fyrir Kiareksstodum ok laa hann aa skipum. þat var Michiaalsmesso aftan at þeir Haralldr jarl sa at langskip reri at þeim ok grunudu at vfridr mundi vera. hliopu af skipunum ok i kastalann. Aarni Rafnssun het madr er hliop af skipi Haralldz jarls ok til Kirkiuvags. hann var sua hræddr at hann fann eigi fyrr at hann hefdi skiolldinn a herdunum enn hann var fastr i dyrunum. þeir Erlendr jarl ok Sueinn hlupu af skipunum ok sottu eftir þeim Haralldi jarli til kastalans ok veittu þeim atsokn bædi med elldi ok vapnum. þeir [569] vorduz allskoruliga ok skildi nott med þeim. þar wrdu margir menn sarir af

huarumtueggium ok voru þeir Haralldr jarl miok vpp gefnir ef leingr hefdi verit atsoknin. Ok vm morgininn eftir komu bændr ok beggia vinir ok leitudu vm sættir. enn þeir Erlendr jarl ok Sueinn voru traudir til sættanna enn þo for þat fram at þeir sættuz at þui at Haralldr sor þess eida at Erlendr jarl skylldi hafa hans lut eyianna. skylldi hann ok alldregi til rikis kalla i hendr hanum. foru þessir eidar fram at vitni hinna bezstu manna þar i eyiunum. Eftir þat for Haralldr jarl yfir a Nes ok sua i Skotland til vina sinna. for þa faatt manna or Orkneyium med honum. Erlendr jarl ok Sueinn stefndu þing vid bændr i Kirkiuvaagi ok sottu bændr til vm allar eyiar. flutti Erlendr fram sijtt maal ok sagdi þat at Eysteinn konungr hefdi gefit honum riki i Orkneyium þat er Haralldr jarl hafdi aadr at vardueita. beiddi hann þa bændr ser vidrtoku hafdi þar bref Eysteins konungs þau er þat saunnudu er hann sagdi. Sueinn flutti ok maal jarls ok margir adrir vinir Sueins ok frændr. kom þui sua at bændr iattudu Erlendi jarli hlydni. tok hann þa vndir sik allar eyiar ok gerdiz hofdingi yfir. enn sua var mællt med þeim Erlendi jarli ok bændum at hann skylldi eigi veria Rognualldi jarli þann luta eyianna er hann aatti ef honum yrdi audit aftr at koma. enn ef Rognnualldr jarl krefdi meirr enn haalfra eyia þa skylldu bændr veria þat med Erlendi jarli. Sueinn Asleifarsun var iafnan med Erlendi jarli ok bad hann vera varann ok trua eigi of vel Haralldi jarli edr Skotum. þeir laagu leingstum vm vetrinn a skipum ok helldu niosnum fra ser. enn er at dro iolum tok vedraatta at hardna ok for Sueinn heim i Gareksey til buss sins ok bad jarl eigi vuarann vera vm sik þott þeir skildi. ok sua gerdi jarl ok laa a skipum enn efnadi huergi i eyium stad til iolaveizlu.

## Haralldr jarl kom til Orkneyia aa vuart.

426. þat var til tidenda enn ellefta dag jula i Gareksey at Sueinn Asleifarsun sat vid dryck med huskorlum sinum. hann tok til orda ok gneri nefit. þat er ætlan min at nu (se) Haralldr jarl a ferd komenn til eyia. þeir suarodo huskarlarnir at þat veri vlikligt fyrir sakir storra storma þeirra er aa lagu. hann kuez vita at þeim mundi sua þickia. mun ek nu ok eigi gera jarli niosn fyrir hugbod mitt eitt enn þo grunar mik at þers muni þurfa. Ok fell þa nidr þat tal ok drucku þeir sem aadr. Haralldr jarl byriadi ferd sina wt i Orkneyiar a iulum. hann hafdi .iiij. skip ok tiutigi manna. hann laa .ij. nætr vid Gareksey. þeir lendu i Hafnarvagi i Hrossey. þeir geingu hinn þrettanda dag iula i fiord. þeir voru i Orkahaugi medan iulahelgin stod ok ærduz þar .ij.

menn fyrir þeim ok vard þeim þat farartalmi. þa var af nott er þeir komu i fiord. var þat þar tidenda at Erlendr jarl var kominn a skip sijtt ok hafdi druckit vm daginn vppi aa husi. þeir Haralldr jarl draapu þar .ij. menn. het annarr Ketill en annarr er eigi nefndr. enn þeir toku hondum .iiij. menn Arnfinn brodur Anakols ok annarr het Liotolfr ok .ij adra. Haralldr jarl for aftr i þorsaa ok þeir þorbiorn klerkr. þeir brædr foru til Lambaborgar Bendict ok Eirekr ok hofdu Arnfinn med ser. þegar vm nottina er Erlendr jarl vard varr vid vfridinn þa senndi hann mann til Garekseyiar at segia Sueini ok let hann þegar rinda skipum a sio ok for til fundar vid Erlend jarl sem hann hafdi ord til sent ok voru þeir þa a skipum leingi vetrar. þeir brædr Bendict sendu þau ord at Arnfinnr mundi þui at eins lauss laatinn ef þeir Erlendr jarl leti þa hafa skip þat er þeir aattu er tekit hafdi verit fyrir Kiareksstodum. Jarl var þess fusari at laust væri laatid skipit enn Anakol latti þess ok sagdi at Arnfinnr mundi brott komaz þott eigi væri þetta til wnnit. þat var midvikudaginn næsta fyrir faustu at þeir Anakol ok þorsteinn Rognusun foru yfir a Nes medr .xx. menn a skutu vm nott. þeir drogu skutuna vndir biorg nockur i einn leynivog. þeir geingu vpp ok leynduz i kiorrum nockurum skamt fra þrazvik. þeir biuggu sua vm at sua var sem madr lęgi i hueriu rumi. komid hofdu menn til skips vm morgininn ok grunudu þeir ecki vm. þeir Anakol saa roa menn fyrir a skipi vtan fra borg ok lenda i aarós. þa sa þeir mann rida fra borg enn annan ganga ok kendu þar Eirek. þa skipto þeir lidi sinu ok geingu .x. til siofar med aanni ok gættu at þeir kæmi eigi til skipsins enn adrir .x. geingu til bæiar. Eirekr kom litlu fyrr a bæinn ok geck til skaalhuss. þa heyrdi hann til vopnadra manna ok hliop hann þa i skaalann ok vt adrar dyrnar ok villdi til skips sins. enn þar voru menn fyrir ok var hann þa handtekinn ok færdr vt i eyiar til Erlendz jarls. voru þa sendir menn til Haralldz jarls ok segia honum at Eirekr mundi eigi fyrr lauss verda laatinn enn þeir Arnfinnr kæmi heilir til handa Erlendi jarli. ok þetta geck eftir þui sem þeir beiddu.

### Sættir þeirra Haralldz jarls ok Erlendz.

427. Um vorit eftir bioz Haralldr jarl af Katanesi ok for nordr til Hialltlandz. hann ætladi at taka af lifi Erlend junga. Enn hann hafdi bedit Margretar modur hans enn jarl hafdi syniat. eftir þat feck Erlendr ser menn ok nam hana a brott or Orkneyium ok flutti hana nordr til Hialltlandz ok settiz i Moseyiarborg ok hafdi þar vidbunat mikinn.

Enn er jarl kom i Hialltland settiz hann vm borgina ok bannadi allar tilflutningar. enn þar var vhægt atsokn vid at koma. foru menn til ok leitudu vm sættir med þeim. þa beiddi Erlendr at jarl skylldi gifta honum konuna enn baud sik til styrktar vid jarl ok sagdi at honum lægi meira vid at hann fengi halldit riki sinu en þotti þat vænz til at hann gerdi ser vuini(!) sem flesta. þetta fluttu margir menn med Erlendi ok vrdu þær malalyktir at þeir sættuz ok [570] feck Erlendr Margretar ok redz sidan til felags med Haralldi jarli ok foru þeir vm sumarit austr i Noreg. Ok er þat spurdiz i Orkneyiar þa gerdu þeir Erlendr jarl raad sin ok fysti Sueinn at þeir mundi fara i hernat ok afla ser sua fiar. ok sua gera þeir ok foru sudr til Breidafiardar ok heriudu fyrir austan Skotland. þeir foru sudr til Beruuikr. Knutr hinn audgi het madr hann var kaupmadr ok sat iafnan i Beruuik. þeir Sueinn toku mikit skip ok gott er Knutr atti ok var a fe mikit. þar var ok aa kona hans. eftir þat sigldu þeir sudr vndir Blyholma. Knutr var þa i Beruvik er hann spurdi raanit. hann keypti at Beruvikrmonnum .c. marka silfrs (at þeir) sætti eftir fenu. þeir voru flestir kaupmenn er eftir leitudu þeir foru a .xiiij. skipum at leita þeirra. þa er Erlendr jarl ok Sueinn laagu vndir Blyholmum ræddi Sueinn vm kuelldit at menn skylldu liggia tialldlausir. kuat S(ueinn) þickia van at Beruvikr(menn) mundi koma fiolmennir til þeirra vm nottina. enn vedr var huast. Gaafu þeir ecki gaum at huat sem Sueinn mællti ok lagu vndir tiolldum nema a skipi Sueins var ecki tialldat fyrir aftan siglu. Sueinn sat vpp i lod-kaapu a kistu einni ok kuez mundu buinn vera vm nottina. Einarr skeifr het skipveri Sueins. hann ræddi vm at sogur gangi fra vm roskleik Sueins. hann er kalladr karlmadr betri enn adrir menn enn nu þorir hann eigi at hafa tiolld a skipi sinu. Vardmenn voru vppi a holmanum. Sueinn heyrdi at þeir vrdu eigi a sattir huat þeir saa. hann geck vpp til þeirra ok spurdi vm huat þeir þrætti. þeir letuz eigi vita huat þeir saa. Sueinn var allra manna skygnstr ok er hann hugdi at saa hann at skip foru at þeim nordan .xiiij. hann geck a skip sitt ok bad vardmenn ganga a skipin ok segia huat vm var. Sueinn bad menn vaka ok reka af ser tiolldin. ok eftir þat gerdiz akall mikit ok æptu flestir a Suein ok spyria huat til raads skal taka. hann bad menn vera hlioda enn kuat þat vera sitt raad at leggia skipin a milli holmsins ok meginlandzins. ok freistum at þeir sigli vm oss. enn ef þeir sigla vm oss þa mun skilia med oss. enn ef þeir hallda at oss þa roum i moti þeim ok tokum vid sem hardaz ef fund vorn berr saman. Enn adrir raadmenn mælltu i moti ok kolludu þat eitt raad at sigla vndan. ok

sua var gert. Sueinn mællti. ef þer vilit vndan sigla beitid þa a hafit wt. Sueinn vard seinst buinn enn Anakol beid hans. þa geck skipit Sueins meira ok let hann þa minka siglingina ok beid Anakols ok villdi eigi at hann væri einskipa eftir. þa mællti Einarr skeifr er þeir Sueinn sigldu vid allt segl. er ei þat Sueinn at kyrt standi skipit vart. Sueinn suaradi eigi ætla ek þat enn þat ræd ek þer at þu leitir eigi oftar a hreysti mina er þu skyniar eigi fyrir rædslu sakir huart skipit skridr edr er þat kyrt. er þat þo allra skipa skiotaz vndir segli. Sneru þeir Sueinn þa inn vndir Mosey. þa sendi Sueinn menn til Eidinaborgar at segia Skotakonungi fra herfangi þeirra. Enn aadr þeir kæmi til borgarinnar þa ridu .xij. menn i moti þeim ok hofdu (vid) slagalar hosur fullar af silfri. ok er þeir funduz spurdu þeir at Sueini Asleifarsyni. þeir sogdu til hans ok spurdu huat þeir villdu honum. Skotar sogdu at þeim væri sagt at Sueinn væri handtekinn ok Skotakonungr hefdi sent þa at leysa hann ok sogdu fra erendum sinum. Konungr taldi lijt at felati Knutz enn sendi Sueini skiolld dyrann ok enn fleiri giafir. þeir Erlendr jarl ok Sueinn komu heim vm haustid til Orkneyia ok komu helldr sid. þetta sumar for Haralldr jarl austr i Noreg. þa kom ok vtan af Miklagardı i Noreg Rognvalldr jarl ok Erlingr skacki ok kom jarl litlu fyrir jul i Orkneyiar i riki sijtt.

## Sætt Rognualldz jarls ok Erlendz jarls.

428. þa foru menn þegar i milli þeirra Rognvalldz jarls ok Erlendz jarl ok leitudu vm sættir ok kærdu bændr einkamaal þau er verit hofdu med þeim Erlendi jarli at hann skylldi eigi veria Rognnualldi jarli sinn lut eyia. Var þa komit a stefnulagi med þeim jorlum i Kirkiuvaagi ok a þeirri stefnu bundu þeir eidum sætt sina. þetta var .ij. nottum fyrir jul ok sættuz þeir vid þat at halfar skylldi hafa eyiar huarr þeirra ok veria baadir rikit fyrir Haralldi jarli edr odrum ef til kalladi. þa hafdi Rognualldr jarl eingann skipakost aadr enn skip hans komu austan vm summarit. þenna vetr var allt kyrt enn vm vorit gerdu iallar raad sitt i moti Haralldi iarli ef hann kæmi austan ok for Erlendr jarl til Hialtlandz ok skylldi sæta honum ef hann kæmi þar vid. Rognualldr jarl for yfir til þorsar þuiat þers var van at Haralldr iarl mundi þangat þegar leita ef hann kæmi austan þuiat hann aatti þar marga vini ok frændr. þeir Erlendr jarl ok Súeinn voru a Hialtlandi vm sumarit ok duoldu skip aull sua at engi geingu til Noregs vm sumarit. Haralldr jarl for vm sumarit austan or Noregi ok hafdi .vij. skip ok tok Orkneyiar. en iij. þeirra urdu sæ(ha)fa til Hialtlandz ok toku

þeir Erlendr jarl þau. þa er Haralldr jarl kom i Orkneyiar þa spurde hann þau tidendi at þeir hefdi sætz Rognualldr jarl ok Erlendr jarl ok þar skylldi haalfar eyiar huarr hafa vid annan. þottiz hann þa sia sinn kost ok mundi honum ætlat ecki af londum. tok hann þa þat raad at fara yfir a Nes a fund Rognualldz jarls aadr þeir Erlendr jarl kæmi austan. þeir Erlendr jarl ok Sueinn voru þa a Hialtlandi er þeir spurdu at Haralldr jarl var kominn i Orkneyiar a .v. langskipum. biugguz þeir þa þegar til Orkneyia ok fengu i Dynraust strauma ok stor vedr ok skildi þar med (þeim). Suein bar þa aftr at Fridarey a .xij. skipum ok hugdu jarl tyndann. helldu þadan sudr til Sandeyiar ok var þar fyrir Erlendr jarl med .iij. skipum ok vard þar fagnafundr mikill. foru þeir þadan til Hrosseyiar ok spurdu þar vm ferdir Haralldz jarls.

## Talat vm sættir.

429. Nv er at segia fra þui at Haralldr jarl kom i þorsa ok hafdi .vj. skip. Rognualldr jarl var þa i Sudrlandi ok sat þar at brudkaupi þui er hann gipti dottur sina Jngiridi Eireki slagbrell. kom honum þegar niosn at Haralldr jarl var kominn i þorsa. [571] reid jarl fiolmennr ofan fra Beruvik i þorsaa. Eirekr var frændi Haralldz jarls ok aatti mikinn lut i at sætta þa ok margir adrir med honum. ok segia at þat var einsætt at lata sik eigi a skilia fyrir sakir frænsemi ok fostrs ok langs felagsskapar er verit hafdi med þeim. kom þui sua at stefnulagi var komit a med þeim ok gridum. skylldo þeir finnaz i kastala nockurum i þorsaa ok tala .ij. einir. enn iafnmargir menn huars þeirra skylldu vera hia kastalanum. þeir toludu leingi ok lagdiz vel aa. þeir hofdu ecki fundiz sidan Rognualldr jarl kom i land. Ok er aa leid daginn var sagt Rognualldi jarli at lid Haralldz jarls droz þangat med vagnum. Haralldr jarl kuat þat ecki saka mundo. þui næst heyrdu þeir vt til hauggva storra ok hlupu þeir þa vt. þar var kominn þorbiorn klerkr med mikla sueit manna ok sætti þegar averkum vid menn Rognualldz jarls. enn þeir kolludu jarlar at þeir skylldu eigi beriaz. hliopu menn þa til or stadnum at skilia þa. þar fellu .xiij. huskarlar Rognualldz jarls en hann vard saar i andliti.

## Raad Sueins.

430. Eftir þat aattu vinir þeirra lut i at koma sættum a med þeim ok kom sua at þeir sættuz ok bundu med eidum sætt sina ok efnudu nyian felagskap med trygdum ok handsolum. ok var þetta raadit at þeir skylldu þegar vm nattina vt til Orkneyia a hendr Erlendi jarli.

þeir helldu .x. skipum austan a Petlandzfiord ok helldu til Rinanseyiar ok lendu i Vidivagi ok geingu þar a land. þeir Erlendr jarl laagu a skipum sinum i Bardvik ok sa þeir þadan fiolmennit a Rinansey ok gerdu þadan niosnir. enn er þeir vrdu vissir at jarlar hofdu sætz þa var þat ok sagt at þeir mundu Erlendi jarli eigi laata kost strandhauggva edr annarra vistafanga ok mundu ætla at sitia þeim mat þar i eyinni. þa geingu þeir Erlendr jarl a tal ok leitadi raads vid lid sijt. kom þat asamt med þeim at Sueinn skylldi raada huert raad vpp skal taka. Sueinn veitti þau audsuor at þegar vm nottina skylldu þeir sigla yfir til Katanes ok sagdi at þeir hofdu eigi styrk til at deila vid þa baada i eyiunum. gerdi hann þat yfirbragd aa at þeir mundi fara til Sudreyia ok vera þar vm vetrinn. þat var fyrir Michials messo vm aftaninn at þeir sigldu a fiordinn. enn þegar þeir koma yfir a Nes hlaupa þeir i bygdina ok reka ofan strandhogg mikil ok hoggua a skip sin. Straumar voru miklir ok vand vedraatta ok var fiordrinn iafnan vfærr. enn þegar er leidi gaf sendi Sueinn mann a baati handan af nesinu ok sagdi at Erlendr jarl hafdi hoggit strandhogg a Katanesi ok lagu bunir at sigla til Sudreyia þegar er gæfi. Ok er þessi tidendi komu til eyrna þeim Rognualldi jarli þa skaut hann aa husþingi ok taladi fyrir lidi sinu. bad menn vera vara vm sik ok gæta sin vel ok liggia hueria nott a skipum þui at nu er þeirra Sueins a eingri stund aurfænt i eyiarnar þui helldr sem hann gerir meirr ord aa at hann muni or landi fara. A aunduerdum vetri foru þeir Sueinn or þorsaa ok vendu vestr fyrir Skotland. þeir hofdu .vj. langskip ok aull stor ok vel skipud. þeir toku rodrarleidi. enn er þeir voru a leid komnir af nesinu foru niosnarmenn Rognualldz vt i eyiar at segia honum tidendin. Jarlar lǫgdu þa skipum sinum til Skaalpeids ok villdi Rognualldr jarl at þeir lægi a skipum vm hrid. þa er þeir Sueinn komu vestr af Stauri ræddi Sueinn vm at þeir mundi eigi kuelia sik lengr a rodri ok bad þa snua skipunum vinda a segl sijn ok snua vndan vedrinu. þersi raadagerd þotti monnum helldr vmerkilig enn þo var sua gert sem Sueinn villdi. Enn er þeir hofdu vm siglt toku sneckiur skiott at ganga þuiat byrr var godr ok er ecki getid vm ferd þeirra fyrr enn þeir koma til Orkneyia i Vaagaland. þar spurdu þeir at jarlar laagu vid Skaalpeid a .xiiij. skipum fyrir Knarrarstodum. þar var Erlendr jungi ok Eirekr slagbrellr ok mart annarra gofugra manna þorbiorn klerkr var farinn vt i Papuli til Hakonar karls maags sins. þat var .iiij nottum fyrir Sijmonsmesso at Sueinn Asleifarsun veitti orskurd at hann villdi eggia at jorlum vm nottina. enn þat þotti monnum helldr

vraadligt vid þann lidsmun sem var. Sueinn villdi þo raada ok sua var gert þuiat jarl var þess fusari.

## Bardagi med jorlum.

431. Um nattina gerdi a drifuel blautt. geck Rognualldr jarl af skipi vid .vj. mann ok ætladi i Orfioru til buss sins ok vissi ser einkiss otta vônir. þeir Rognualldr jarl komu a Knarrarstadi i elinu. þar bio Botolfr begla islendzkr madr hann var skaalld gott. hann bad Rognualld jarl med ser vera vm nattina ok lagdi morg ord til. gengu þeir jarl inn ok voru dregin af þeim klædi logduz þeir til suefns. enn Botolfr skylldi vaurd hallda. þa nott hina somu lôgdu þeir Erlendr jarl at þeim Haralldi jarli ok komu a vvart sua at þeir Haralldr jarl wrdu eigi fyrr varir vid enn þeir heyrdu heropit. hliopu þeir þa til vapna ok vorduz dreingiliga. þar vard mikit mannfall ok lauk sua atsokninni at Haralldr jarl liop a land þa er .v. einir menn stodu vpp a skipinu. þar fell Biarni brodir Erlendz vnga gofugr madr ok tiu tigir annarra manna med honum enn fioldi var saart. Allir jarlsmenn hliopu af skipum ok flydu a land vpp. faatt fell af þeim Erlendi jarli enn þeir toku .xiiij. skip er jarlar aattu ok allt fe þat er aa var. ok sem lokit var hinu mesta starfi frettu þeir at Rognualldr jarl hafdi gengit af skipi sinu vm kuelldit ok fyst vpp a Knarrarstadi. ok þangat foru þeir. Botolfr bondi var vti fyrir dyrum er þeir kuomu ok fagnar hann þeim allvel. þeir spurdu huart Rognualldr jarl væri nockut þar. Botolfr kuat hann þar verit hafa vm nottina. enn þeir letu akafliga ok spurdu huar hann væri nu ok kuodu hann vita mundu. hann retti hondina vpp vm [572] gardinn ok kuat þetta.

Ferr at fuglum harri
firar neyta vel skeyta
ván a heidar hæna
hnacka dyz vnd backa.

þar lætr aalmr er olmir
vnnlinz stafir finnaz
laund verr lofdungr braandi
lynghæns dregit kyngium.

Jarlsmenn toku skeid or tuninu ok þottiz sa bezst hafa er mest gat hlaupit ok fyst hefdi valld yfir Rognualldi jarli. Enn Botolfr geck inn ok vakti jarl ok sagdi honum þau tidendi er giordz hofdu vm nottina ok sua huat jarlsmenn hofduz at. Hlupu þeir þegar vpp ok klædduz foru sidan a brott ok i Orfioru til buss jarls. ok er þeir komu þar var þar fyrir Haralldr jarl a laun. far(a) þeir jarlar þegar yfir a Nes a sinum baati huarr. annarr vid þridia mann enn annar vid fiorda mann. allir menn jarla foru yfir a Nes huerr sem ser far feck. þeir Erlendr jarl ok Sueinn toku aull skip jarla ok ofa fe annat. Sueinn Asleifarsun

let skipta ser til handa ollum gersimum Rognualldz jarls þeim er tekin voru af skipi hans ok sendi honum allar yfir a Nes. Sueinn fysti at þeir Erlendr jarl legdi skipum sinum vt i Vaagaland ok skylldi þar liggia vid fiordinn ef þeir sæi skipafarar þegar er færi fra Nesinu. þotti þadan ok gott at sæta ahlaupum ef færi gæfuiz aa. Enn Erlendr jarl red fyrir sakir aeggianar lidsmanna sinna at þeir foru nordr til Daminseyiar ok drucku þar vm daga i kastala einum miklum enn logdu huern aptan skip i teingsl ok suafu a þeim vm nætr ok leid sua fram a iolafostu.

Fall Erlendz jarls.

432. þat var .v. nottum fyrir iol at Sueinn Asleifarsun for austr i Sandvik til Sigridar frændkonu sinnar. hann skylldi sætta hana vid nabua hennar er Biorn het. enn aadr en hann for ræddi hann vm (vid) Erlend jarl at hann skylldi sofa a skipum vm nottina ok vera þa ei vuarari þott Sueinn væri eigi vid. Sueinn var eina nott at Sigridar frænkonu sinnar. Gisl het landseti Sigridar ok kærr vinr. hann bad Suein at hann skylldi gista þar. hafdi hann heita laatid mungaat ok villdi veita þeim Sueini. þa er þeir koma til Gils var þeim sagt at Erlendr jarl hefdi eigi geingit til skipa vm kuelldit. ok þegar er Sueinn spyrr þetta sendi hann Murgat Grimssun til jarls ok tua menn adra ok bad hann gefa gaum at raadum sinum þott hann gerdi eigi sua hina fyrri nattina. enn þat þicki mer vggligt at ek þurfa skamma stund at gera raad fyrir jarli þessum. þeir Murgadr foru a fund Erlendz jarls ok sogdu honum ord Sueins. Menn jarls kuodu honum vndarliga farit Sueini sogdu at honum þætti adra stund ecki vfært enn stundum var hann sua hræddr at hann vissi eigi huar hann skylldi vardueita sik edr adra. sogduz þeir mundu sofa i naadum aa landi enn fara ecki til skipa. Jarl kuat sua vera skylldu sem Sueinn mællti. ok geck Erlendr jarl til skipa ok .iiij. menn ok .xx. enn allir adrir laagu at husi. þeir Murgadr logdu i vik adra skamt þadan. þessa somu nott komu þeir Rognualldr ok Haralldr at (v)vorum Erlendi jarli sua at vardmenn þeir er voktu a eyiunni ok skipinu vrdu eigi varir vid fyrr enn þeir geingu vpp a skipit. Ormr het madr enn annarr Vfui. þeir voru a fyrirrumi a skipi jarls. Vfui hliop vpp ok villdi vekia jarl ok gat eigi vakt hann sua var hann dauddruckinn. Wfi þrifr vpp jarl i fang ser ok hliop vtbyrdiss med hann ok i eftirbaat er flaut vid skipit. enn Ormr liop (a) annat bord ok komz a land. þar fell Erlendr jarl ok flestir þeir menn er a skipinu voru. þeir Murgadr vauknudu vid heropit vm nottina ok toku til aara ok reru

fyrir nesit. nylysi var mikit ok saa þeir at jarlar logdu fra. þottuz þeir þa skilia at vm mundi hafa skiptz med þeim. reru þeir a brott ok fyst til Rennadals ok senda menn til Sueins Asleifarsunar at segia honum huat þeir hofdu seet. Haralldr jarl villdi grid gefa monnum Erlendz jarls enn Rognualldr jarl villdi bida fyst huart lik Erlendz jarls fyndiz edr eigi. Lik jarls fanz .ij. nottum fyrir iol ok var spiotskapt seet standa vpp i þarabruki. enn þat spiot stod i gegnum Erlend jarl. þa var lik hans fært til kirkiu enn grid voru gefin monnum jarls ok sua huskorlum Sueins .iiij. er teknir voru. Jonn het madr ok kalladr vængr hann var systurson Jons vængs er fyrr var getid. Jon hafdi verit med Hakoni karli ok hafdi gert sustur hans barn ok hafdi þa hlaupiz a brott i viking med Anakol. enn nu var hann med Erlendi jarli ok hafdi þo eigi verit i bardaganum. Menn Erlendz jarls sottu allir Kirkiuvag ok gættu sin i Magnus kirkiu. Jarlar foru þangat ok var lagdr sættarfundr i kirkiu. Jonn naadi eigi fyrr sættum af jorlum enn hann het at gera brudkaup til konun(n)ar. þar soru allir menn jorlum eida ok geriz Jon vængr aarmadr Haralldz jarls.

## Sueinn drap Erlend.

433. Eftir fall Erlendz jarls for Sueinn Asleifarsun til Rennadals ok fann þar Murgat ok kunnu honum gloggliga at segia fra þeim tidendum er giordz hofdu i Daminsey. Siþan foru þeir Sueinn til Hrolfseyiar ok komu þar at flodi siofar. þeir baaru reida allann af skipum ok saa rad fyrir. þeir skiptu monnum i bygdir enn helldu frettum til jarla ok annarra hinna fremstu manna huat hucrigir hofduz at. Sueinn Asleifarsun geck i fiallit vid .v. mann ok odrum megin til siouar ok leynduz a bæinn i myrkrinu. þeir heyrdu þar inn mælgi mikla. þeir voru þar fedgar þorfinnr Augmundr ok Erlendr maagr þeirra. hann Erlendr hældiz vm þat at hann hefdi veitt Erlendi jarli banasaar enn allir þeir þottuz þo vel gengit hafa. Ok er Sueinn hafdi þetta heyrt geck hann inn at þeim ok þeir forunautar. Sueinn vard skiotazstr ok hio Erlend þegar banahaugg. þeir toku þorfinn hǫndum ok hofdu med ser enn Ǫgmundr var særdr nockut. þeir Sueinn foru a þingavoll til Helga fǫdurbrodur sins ok voru þar aundverd jolin a laun. Rognualldr jarl for til Daminseyiar at jolum enn Haralldr jarl var i Kirkiuvǫgi. Rognualldr jarl sendi mann a þingavoll til Helga ok bad hann segia sua Sueini frænda sinum ef hann vissi nockut til huar hann var at Rognualldr jarl baud honum til sin vm iolin ok [573] kuez vilia eiga hlut i at sætta þa Haralld jarl. Ok er Sueini komu þessi ord þa for

hann a fund Rognvalldz jarls ok var med honum ofanverd jolin i godu yfirlæti.

### Fra Haralldi jarli ok Sueini Asleifarsyni.

434. Eftir iolin var lagdr sætt(a)rfundr med iorlum ok Sueini ok skulu þeir luka þeim maalum er aadr var a sætz. ok er þeir funduz atti Rognvalldr jarl mikinn hlut i at sætta þa enn menn nær allir voru þar vm helldr tillaga hardir þeir er eigi voru frændr edr vinir Sueins. sogdu iafnan vroa af honum standa. enn þat vard at sætt at Sueinn skylldi gialdda huarum jarlanna mork gullz ok hafa halfar iardir sinar ok langskip gott. Sueinn suaradi gerdinni. þa muno vorar sættir bezt halldaz ef ek er vraktr. Ecki villdi Rognvalldr jarl hafa gialldit af Sueini kuez i engu vilia hrekia hann. kuez miklu meiri þickia slægr til trygdar ok vinattu hans enn i fe. Haralldr jarl for eftir sættina til Garekseyiar ok bio helldr osparliga kornum Sueins ok þui odru sem þar var. Enn er Sueinn spurdi þetta kærdi hann fyrir Rognvalldi jarli skada sinn ok kuat slikt sættabrigdi ok quez vilia fara heim ok sia vm fong sin. Rognvalldr jarl suaradi. verþu med mer Sueinn ok mun ek senda ord Haralldi jarli þuiat hann mun verda þer ofmadr vid at eiga i deilunum þott þu ser mikill fyrir þer ok madr vaskr Sueinn villdi eigi letiaz laata ok for med hinn .x. mann a skutu i Gareksey ok kom sid vm kuelldit. þeir foru aa bak husum. Sueinn villdi at þeir kueikti elld ok bæri at skaalanum ok brendi bæinn ok þar med jarl inni. Sueinn Blaakarasun het madr hann var mest haattar þeirra manna er þa voru med Sueini. hann latti þess miok ok kuad vera mega at jarl væri eigi a bænum enn þott hann væri þar sagdi hann at þeir mundu eigi laata naa wtgongu konu hans ne dottur. enn segir at þat veri vfært at brenna þær inni. þeir Sueinn gengu at dyrunum ok inn i fordyrnar. hliopu menn þa vpp i skalanum ok komu aftr hurdinni. vrdu þeir Sueinn varir vid at jarl var eigi aa bænum. enn þeir er inni voru gafu vpp vǒrnina ok selldu þeir Sueini vapn sijn ok gengu vt slyppir allir ok gaf Sueinn grid aullum huskorlum Haralldz jarls. Sueinn steypti nidr ǒllu mungaati sinu ok hafdi brott med konu sina ok dottur. hann spyrr Jngiridi konu sina huar Haralldr jarl væri. enn hon villdi eigi segia Sueinn mællti. þegi þu þa ok bænd mer. Eigi villdi hon ok þat þui hon var frændkona jarls Af hondum selldi Sueinn vapnin summ er þeir koma a skip. Enn er þetta allt saman spurdiz var lokit sættum þeirra. Haralldr jarl hafdi farit til eyiar einnar at veida hera. Sueinn hellt til Helliseyiar hon er siobrott ok hellir mikill i biorgunum ok

fell siorr fyrir hellismunnan at flodunum. þa er huskarlar jarls fengu vopn sijn af þeim Sueini þa foru þeir a fund Haralldz jarls ok sogdu honum fra skiptum þeirra Sueins. Jarl let hrinda fram skipi sinu ok eggiadi at roa eftir þeim Sueini. ok laatum nu til staals suerfa med oss Toku þeir þa rodr eftir þeim sua at saa huorir adra ok kenduz. ok er Sueinn ser at þeir jarl draga eftir þeim þa ræddi Sueinn vm. ver munum verda at leita oss raads nockurs þuiat mer er ecki vm at finna jarl þann veg sem til er hagat vm lidsmun þann er vera mun. manum ver taka þat raad at fara til hellissins ok vita huat þar skiptiz at voru maali. þeir Sueinn koma til hellissins at vtfalli ok settu vpp skipit þuiat hellinum veik vpp i biorg. fell þa sior fyrir hellismunnann. þeir Haralldr jarl foru at leita þeirra vm daginn vm eyna ok fundu þa eigi. þeir saa eingar skipafarir fra eyiunni. þetta vndruduz þeir miok þotti þeim vlikligt at Sueinn mundi hafa sockit nidr. þeir reru vmhuerfis eyna at leita skipsins ok fundu eigi sem likligt var. gerdu þeir þat þa hellz af at þa mundi borit hafa at odrum eyium. foru þeir þangat þa sem þeim þotti likaz. var þat ok miok iafnskiott at þeir reru a brott ok siarrinn fell fra hellissmunnanum. þeir Sueinn hofdu heyr(t) vidrædu jarls ok hans manna. Sueinn let þa eftir skipit i hellinum enn tok byrding einn er munkar aattu ok helldu til Sandeyiar gengu þar vpp ok brenndu byrdinginn. enn þeir Sueinn gengu vpp a eyna ok komu a bæ þann er heitir a Vǫlunesi. þar bio saa madr er Baardr het hann var frændi Sueins. þeir kuoddu hann wt leyniliga ok sagdi Sueinn at hann villdi þar vera. Baardr kuat hann mundu sliku raada. enn ecki þori ek at þer seet eigi a laun. þeir gengu enn ok voru einir i husi sua at vandbaalkr einn var i milli þeirra ok annarra manna. laundyrr voru a husinu þui er þeir Sueinn voru i ok var ladit i grioti lausliga. þann aftan kom Jonn vængr aarmadr Haralldz jarls ok þeir .vij. saman. tok Baardr bondi vel vid þeim ok voru gerfir elldar storir fyrir þeim ok bokuduz þeir vid. Jonn var odmaalugr ok ræddi vm tidendi þau er giordz hofdu vm skifti þau er jarlar hofdu vid attz ok Sueinn. amællti hann miok Sueini ok kuat hann vera gridniding ok engum truann. hafdi hann nu sætz vid Halld jarl ok villdi þegar fara at honum ok brenna hann inni. sagdi ok alldri mundu vera frid i landi fyrr enn Sueinn væri or landi rekinn. Baardr bondi ok forunautar Jons suaradu helldr fyrir Suein Eftir þat tok Jonn at aamæla Erlendi jarli ok kuad þat eigi skada þott hann hefdi laatiz kalladi hann þann ofsamann at eingi maatti frialst hofud striuka fyrir honum. Ok er Sueinn heyrdi þetta þa maatti hann eigi standaz ok þreif

til vopna sinna ok liop at laundyrum ok hratt or griotinu. þa vard hark mikit. Sueinn ætladi at hlaupa fyrir skaaladyrnar. Jonn sat i skyrtu ok linbrokum ok er hann heyrdi til Sueins batt hann sko sina ok hliop vt fra elldinum ok þegar a brott af bænum enn nidmyrkr var aa ok frost mikit. hann kom vm nottina aa annan bæ ok var kalinn miok a fotum sua at af leysti sumar tærnar. Sueinn gaf [574] grid forunautum Jons fyrir ord Baardar bonda. Sueinn var þar vm nottina. enn eftir vm morgininn foru þeir brott þadan med skutu er Baardr aatti ok feck Sueini. foru þeir þa sudr i. Bardzvik ok voru vid helli einn Sueinn var stundum vm daginn at husi ok drack þar en suaf vid skip vm nætr ok gætti sin sua vid vuinum sinum.

## Fra Rognvalldi jarli ok Sueini.

435. þa(t) var einn morgin snemma at þeir Sueinn sa langskip mikit fra Hrolfsey ok til R(inans)eyiar ok kendi Sueinn þegar at þat var skip Rǫgnvalldz jarls þat er hann var sialfr vanr at styra ok logdu til R(inans)eyiar ok þar at sem lá skúta þeirra Sueins ok gengu .v. menn vpp af skipi jarls. enn þeir Sueinn voru a hæd nockurri ok gryttu þadan a menn jarls. ok er þeir saa þat af skipinu brutu menn vpp vapn sin. enn er þeir Sueinn sa þat hlupu þeir af hædinni ok i fiorуna ok hrundu vt skutunni ok hlupu þar aa. Langskipit hafdi rent vpp sua at þat var fast Sueinn stod vpp i skutunni er þeir reru vt hia langskipinu ok hafdi spiot i hendi. Enn er Rognvalldr jarl sa þat þa tok hann skiolld ok setti fyrir sik enn Sueinn skaut eigi spiotinu. enn er jarl sa at skilia mundi med þeim let hann bregda vpp fridskilldi ok beiddi at þeir Sueinn skylldi at landi fara. Enn er Sueinn sa þat bad hann sina menn at landi leggia ok kuez enn vid þat bezt vna ef hann yrdi saattr vid Rognvalld jarl.

## Fra Haralldi jarli ok Sueini

436. Eftir þat gengu þeir a land Rognvalldr jarl ok Sueinn ok toludu .ij. samt leingi ok lagdiz vel a med þeim ok er þeir saatu a talinu þa sa þeir sigling Haralldz jarls er hann for fra Katanesi ok til Vagalandz. ok er skipit bar vndir þa spurdi Sueinn jarl huat til raada skylldi taka. jarl segir at Sueinn skylldi fara yfir a nes þa þegar. þetta var a langafostu. þeir foru iafnsnemma or R(inansey). for jarl til Hrosseyiar en Sueinn for vestr i Straumey ok sa þeir Haralldr jarl skipit ok þottuz kenna at Sueinn aatti. helldu þeir þegar a fiordinn eftir þeim. ok er þeir Sueinn sa at jarl hellt eftir þeim þa gengu

þeir fra skipinu ok leynduz. Enn er Haralldr jarl kom til Straumeyiar sa þeir skipit ok grunadi þa at manna vistir mundi vera nærri ok villdi þvi eigi a land ganga. Amundi het madr ok var Hnefasun hann var vinr Haralldz jarls enn faudurbrodir stiupbarna Sueins Asleifarsunar. hann for a milli þeirra ok gat þui vid komit at halldaz skylldi hin sama sætt sem giorr hafdi verit vm vetrinn. þa hliop a stormr vedrs ok vrdu þeir þar at vera huar̃rtueggiu vm nattina ok skipadi Amundi þeim i eina reckiu baadum Haralldi jarli ok Sueini. j þui husi huilldu margir menn huars þeirra. Eftir sætt þessa for Sueinn yfir a nes enn Haralldr jarl yfir i Orkneyiar. þat spurdi Sueinn til orda jarls at hann kalladi sætt þeirra helldr lausliga. litinn gaum gaf Sueinn at þui. hann for sudr i Dala ok var vm paschana med Sumarlida vin sinum. enn Haralldr jarl for nordr a Hialltland ok var þar miok leingi vm varit. Sueinn for sunnan ef(tir) paschana ok mætti a leidinni brædrum Jons vængs .ij. het annar Bunupetr enn annar Blaan. þeir Sueinn toku þa hondum ok toku af þeim feet allt enn fluttu þa til landz. var þeim þa hogginn gaalgi. ok er allt var til buit mællti Sueinn at þeir skylldi hlaupa a land vpp. kuat Joni brodur þeirra þat meiri skamm at þeir lifdi. þeir voru leingi wti ok kalnir miok er þeir komu til bæia. Sueinn for þadan i Sudreyiar til Liodhusa ok dualdiz þar vm rijd. Enn er Jonn vængr spurdi at Sueinn hafdi handtekit brædr hans enn vissi eigi huat er hann hafdi af þeim gert. þa for hann i eyna helgu ok tok þar Olaf sun Sueins Asleifarsunar fostra Kolbeins rugu ok for med i Vestrey. þa fundu þeir Rognvalld jarl a Hreppisnesi. ok er jarl sa Olaf þa mællti (hann). hui ertu her Olafr. Hann suarar. Jonn vængr velldr þui. Jarl leit til Jons ok mællti. hui fluttir þu Olaf hingat. Hann suaradi. Sueinn tok brædr mina ok veit ek eigi nema hann hafi drepit þa. Jarl mællti. flyt þu hann aftr sem skiotaz ok dirf þik eigi at gera honum nockud til meins huat sem af brædrum þinum er vordit þuiat þer mun fyrir huorigum vært i eyium Sueini ne Kolbeini ef þu gerir honum nockut.

## Fra Rognvalldi jarli.

437. Eftir pascha vm vorit byriadi Sueinn ferd sina or Sudreyium ok hafdi .lx. manna. hann hellt til Orkneyia ok fyst til Rolfseyiar. þar toku þeir þann mann er Hakon karl het. hann hafdi verit med Haralldi jarli þa er Erlendr jarl fell. Hakon leystiz af .iij. morkum gullz ok frelsti sik sua vid Suein. þar i Rolfsey fundu þeir Sueinn skip þat er jarlar hǫfdu gert af Sueini ok voru hoggin or bordin .ij.

þat hafdi Rögnvalldr jarl gera laatid þuiat (Sueinn) hafdi (huorki) viliat kaupa ne þiggia skipit at jorlum. Sueinn hellt þadan til Hrosseyiar ok fann Rögnvalld jarl i Byrgisheradi. tok jarl honum þa vel ok var Sueinn med honum vm vorit. Rognvalldr jarl kuez þi hafa hoggit bord or skipinu at hann villdi eigi at hann gerdi skyndirædi þar i eyiunum þa er hann kæmi or Sudreyium. Haralldr jarl kom af Hialtlandi vm vorit a huitadogum. ok þegar hann kom i Orkneyiar sendi Rognvalldr jarl menn til hans ok segia at hann villdi at þeir Sueinn sættiz af nyiu. ok var þa lagidr saattarfundr fostudag i helgu viku i Magnus kirkiu ok gek Rognvalldr jarl med öxi breida til fundarins ok Sueinn med honum. geck þa saman sættin su hina sama sem efnut var vm vetrinn.

## Fra Sueini Asleifarsyni.

438. Þa gaf Rognvalldr jarl Haralldi jarli skip þat er aatt hafdi Sueinn enn gaf Sueini allt annat þat er giort var ok aa hans luta kom. þeir Rognvalldr jarl ok Sueinn stodu hia kirkiudyrunum medan seglit var vtborit þat hafdi verit vpplagit i Magnuskirkiu ok var Sueinn helldr vfrynligr er þeir baaru vt seglit. [575] Laugardaginn eftir þa er lokit var nontidum komu menn Haralldz jarls a fund Sueins Asleifarsunar ok sogdu at hann villdi at Sueinn kæmi til tals med hann. þetta bar Sueinn fyrir Rognvalld jarl ok fysti hann Suein lijtt þessar ferdar. kuez eigi vita hueriu trua mætti. enn Sueinn for eigi at sidr ok þeir .vj. saman. Jarl sat j litilli stofu a þuerpalli ok þorbiorn klerkr hia honum. faatt var manna annat hia jarli saatu þeir vm hrid ok drucku Eftir þat geck þorbiorn ok sogdu þeir Sueinn sua at þa grunadi miok vm tiltekiur jarls. þorbiorn kom aftr litlu (sidar) ok gaf Sueini skarlatz kyrtil ok skickiu kuaz eigi vita huart hann villdi giof kalla þuiat þessir gripir hofdu[1] teknir verit fra Sueini vm vetrinn Sueinn tok vid giofum þessum. Haralldr jarl gaf Sueini langskipit þat er hann hafdi aatt ok halfar eignir sinar ok iardir. hann baud Sueini at vera med ser ok kuat þeirra vingan alldri skilldo skilia. Vel tok Sueinn þessu ok for þegar vm nottina ok sagdi Rognvalldi jarli huersu farit hafdi med Haralldi jarli. Rognvalldr jarl let vel yfir þessu ok bad Suein til gæta at þeir yrdi eigi vsaattir.

## Fra jorlunum.

439. Nockuru sidarr reduz þeir til herferdar .iij. hofdingiar Sveinn þorbiorn Eirekr. þeir foru fyst til Sudreyia. þeir foru allt vestr

[1]) voru *Cd.*

i Syllingar ok vunnu þar sigr mikinn i Mariuhofn Kolumba messu ok fengu ofamikit herfang. foru eftir þat til Orknneyia. Eftir sætt þeirra Rognvalldz jarls ok Haralldz jarls ok Sueins[1] Asleifarsunar voru jarlar jafnan badir samt ok hafdi Rognvalldr jarl raad fyrir enn samþycki þeirra var gott. þa er þeir komu heim or Syllingum for þorbiornn klerkr til Haralldz jarls ok gerdiz raadgiafi hans. Sueinn for heim i Gareksey ok sat þar med fiolmenni a vetrum ok hafdi herfang sijtt til kostnadar ser med odrum fongum þeim er hann aatti þar i eyium. hann var mest hallr vndir Rognvalld jarl. huert sumar var hann i hernadi. þat var mællt at þorbiorn klerkr bætti ecki vm med þeim Rognvalldi jarli ok Haralldi jarli. þorarinn kyllinef het hirdmadr Rognvalldz jarls ok vin hans. hann var iafnan med jarli. þorkell het sueitungr þorbiarnar klerks ok vin. þa þorarin ok þorkel skildi a vid dryck i Kirkiuvaagi ok vann þorkell a þorarni ok komz sidan a fund þorbiarnar. Laugunautar þorarins sottu eftir þorkeli enn þeir þorbiornn vorduz or lopti einu. þa var (sagt) jorlum ok koma þeir heim at skilia þa. þorbiorn vildi eigi at Rognvalldr jarl dæmdi þetta maal ok gaf sok a eftirferdinni. Enn þa er þorarinn var heill saara sinna þa drap hann þorkel er hann gek til kirkiu. þorarinn liop til kirkiu enn þeir þorbiorn lupu eftir honum ok sueitungar hans. þa var sagt Rognvalldi jarli ok geck hann til fiolmennr ok spurdi huart þorbiorn villdi briota vpp kirkiuna. þorbiorn sagdi at kirkian ætti þeim ecki at hallda er inni var Rognvalldr jarl kuat kirkiuna mundu vbrotna at sinni ok var þorbirni þraungt fra kirkiunni. Ecki var sætz a þetta. for þorbiornn yfir a nes ok var þar vm rid. þa vard mart til med þeim þuiat þorbiorn gerdi margar vspektir bædi vm kuennamaal ok vm vigafaur. þorbiorn for leyniliga vt i Orkneyiar a skutu med .xxx. manna ok lendi vid Skaalpeid hann geck til Kirkiuvaags med fiorda mann. hann liop einn saman inn i skytning vm kuelld þar er þorarinn var inni ok drack. þorbiorn hio hann þegar banahogg. siþan liop hann i myrkrit langt a brott. Fyrir þessa sok gerdi Rognvalldr jarl þorbiorn klerk vtlægann fyrir allt sijtt riki. þorbiorn for yfir a nes ok var med Hǫsui maagi sinum a laun. hann var kalladr hinn sterki hann aatti Ragnhilldi systur þorbiarnar. þeirra sun var Stefann radgiafi fylgdarmadr þorbiarnar. Litlu sidarr for þorbiorn a fund Melkoms Skotakonungs ok var med honum i godu yfirlæti. Med Skotakonungi var sa madr er het Gilla Odran hann var ættstorr ok viafnadarmadr mikill. hann vard fyrir reidi Skotakonungs fyrir vspekt ok manndraap er hann gerdi i riki

[1]) Suein *Cd.*

hans. Gilla Odran liop i Orkneyiar ok toku jarlar vid honum. Gilla Odran var a Katanesi ok hafdi aarmenning jarla. Helgi het gofugr bondi a Katanesi hann var vinr Rognvalldz jarls. þa Gilla Odran skildi aa vm aarmenningina ok for Gilla Odran at honum ok drap hann. enn eftir vigit for hann vestr i Skotlandzfiordu ok tok vid honum saa hofdingi er het Sumarlidi haulldr. hann hafdi riki i Dolum i Skotlandzfirdi. Sumarlidi aatti Ragnhilldi dottur Olafs Sudreyia konungs bitlings. þessi voru born þeirra Dufgaall konungr Rǫgnvalldr ok Engull. þat er kollut Dalueria ætt. Rognvalldr jarl stefndi til sin Sueini Asleifarsyni aadr hann færi i hernat. ok er þeir funduz bad Rognvalldr jarl hann hafa tilsiar vid Gilla Odran ef honum gæfi færi aa. Sueinn letz eigi vita huers af yrdi audit.

### Sueinn drap Sumarlida.

440. Eftir þat for Sueinn i viking ok hafdi .v. langskip. ok er hann kom vestr fyrir Skotlandzfiordu spurdi Sueinn at Sumarlidi haulldr var a skip kominn ok ætladi i viking. hann hafdi .vij. skip. þar styrdi Gilla Odran einu skipi ok var hann farinn inn i fiordu eftir lidi þui er ei var komit. þegar er Sueinn spurdi til[1] Sumarlida lagdi hann til orrosto vid hann ok var þar bardagi hardr ok i þeirri orrostu fell Sumarlidi haulldr ok mikit lid med honum. þar var Sueinn þess viss at Gilla Odran var eigi þar. for Sueinn þa at leita hans ok fann hann i Myrkuafirdi ok drap hann þar Gilla Odran ok .l. manna med honum. Eftir þat for Sueinn i viking ok heim at hausti sem hann var vanr. ok er (hann) kom heim vard skiott fundr þeirra Rognvalldz jarls ok let hann vel yfir þessum verkum.

### Fra Rognvalldi jarli ok Haralldi jarli.

441. þat var sidr jarla nær huert sumar at fara yfir a Katanes ok þar vpp a merkr at veida rauddyri edr hreina. þorbiorn klerkr var med Skotakonungi enn stundum for hann ofan aa nes ok var leyniliga med vinum sinum. Hann aatti þria vini [576] a Katanesi þa er hann hafdi mest traust af. einn var Hǫsuir maagr hans. annarr Lifolfr er bio i þorsdal þridi var Halluardr Dufuson er bio i Kalfadal at Fornesi er geingr af þorsdal. þessir voru einka vinir hans

### Draap Rognvalldz jarls.

442. þa er Rognvalldr hafdi jarl verit .ij. vetr ok .xx. siþan er Paall jarl var handtekinn þa foru þeir jarlar yfir a Katanes at alidnu sumri eftir vanda. ok er þeir komu i þorsaa þa frettu þeir kuitt nockurn at

[1]) at *tilf. Cd.*

þorbiorn mundi vera vpp i þorsaa a laun ok eigi allfaamennr ok mundi ætla þadan til aahlaupa ef færi gæfiz aa. þa heimta jarlar menn at ser ok foru med hundrad lids ok ridu .xx. enn adrir gengu. þeir foru vm kuelldit vpp vm dalinn ok toku þar nockur gisting. Vm kuelldit er menn saatu vid ellda hnaus Rognvalldr jarl miok. Haralldr jarl mællti. huellr hnere frændi. þeir foru vpp vm dalinn vm morgininn ok reid Rognvalldr jarl iafnan fyrir vm daginn ok sa madr er Aasolfr het. annarr het Jomarr frændi hans .v. ridu þeir saman fyrir vpp eftir Kalfadal. ok er (þeir) foru at bænum var Hauskulldr bondi vppi a kornamstri einu ok hlod enn heimamenn baaru at honum. þeir Haralldr jarl ridu nockuru sidarr. enn er Hauskulldr kendi Rognvalld jarl heilsadi hann honum med nafni ok mællti akafa haatt ok spurdi at tidendum. ok maatti iafnvel heyra þott fiarri væri. þetta var skamt fra stofu ok stodu husin a brecku nockuri haarri en geilar þreyngar at rida at bænum ok vidbrekt miok. A þessum bæ var þorbiorn klerkr inni ok sat vid dryck. geilarnar gengu at husendanum vid gafhladit ok voru þa dyrr aa gafladinu ok hladit i grioti lausliga. þa er þeir þorbiorn heyrdu ordtakit ok Hauskulldr heilsadi þeim Rognvalldi jarli hlupu þeir þegar til vapna sinna ok brutu griotid or laundyrunum ok hlupu þar vt. þorbiorn hleypr fyrir gafhladit ok a geilagardinn voru þeir jarl þa komnir at dyronum. þa hio þorbiorn þegar til jarls enn Aasolfr bra vid hendinni ok tok af hondina. siþan kom suerþit a hauku jarls ok var þat mikit saar. Aasolfr mællti er hann feck hauggit. fylgi þeir betr jarli er honum eiga fleiri giafir at launa. Hann var þa aatian vetra gamall ok var nykominn til jarls. Rognvalldr jarl villdi hlaupa af baki er (hann) sa þorbiorn ok vard fotrinn fastr i stigreipinu. i þui kom Stefann at ok lagdi spioti a jarli. þorbiorn veitti þa annat saar jarli. enn i þui lagdi Jomarr spioti i lær þorbirni ok rendi lagit i smaþarmana. sneru þeir þorbiorn þa aa bak husunum ok var þar at hlaupa fyrir brecku mikla ok a myri blauta. J þui komu þeir Haralldr jarl ok bar sua til leidinni at þeir koma moti þeim þorbirni ok kendu þa huorir adra. þa mælltu menn jarls at þeir skylldi snua eftir þeim þorbirni þeir er vissu huat fyrir var ætlat. enn Haralldr jarl latti þess ok kuez bida vilia atkuæda Rognvalldz jarls vm þetta maal þuiat þorbiorn er vandamadr minn mikill sem þer vitid fyrir frændsemis sokum ok marga annarra vendzla er i milli eru. Enn þeir menn er hia Rognvalldi jarli voru styrmdu yfir honum daudum ok leid miok lǫng stund aadr þeir Haralldr jarl frettu tidendin. voru þeir þa komnir a myrina ok yfir fenit þat er geck eftir myrinni enn af aeggian foruneytis jarla hliopu þeir Haralldr jarl

ofan a myrina ok funduz vid fenit sua at sinum megin voru at huorir ok vordu þeir þorbiorn dikisbackan. drifu þa til hans menn af bænum þeir sem honum hofdu fylgt ok vrdu þeir saman .l. manna. þeir vorduz þa dreingiliga ok hofdu vigi gott þuiat fenit var bædi diupt ok breitt enn myrin blaut at fram ok matti þeirri einni atsokninni vid koma er þeir skutuz a med spiotum. þorbiorn mællti at þeir skylldi eingum aftr skiota. ok er skotin þurru þa hofduz þeir ord vid ok kalladi þorbiorn a Haralld jarl ok mællti sua. þess vil ek bidia ydr frændi at þer gefit mer grid enn ek vil bioda þetta maal a yduart valld at þer dæmit einir. vil ek þar eingan lut vndan draga þann er ek maa at ydr sæmd se þa meiri enn aadr. væntir mik ok frændi at þu munir muna at þær deilur hafa verit at þu mundir eigi þann mun gera med ockur Rognvalldi jarli ok mer at þu mundir drepa mik þott ek hefdi þetta verk unnit þa er hann færdi þik mest vndir ǫlboga ok let þik eingu raada helldr enn suein sinn. enn ek gaf þer bezstar giafir ok leitada ek þer virdingar i ollu þui er ek maatta enn verk þetta er ek hefir vnnit er glæpr mikill ok liggr þat a mer enn rikit allt er fallit i yduart valld. megu þer ok þat vita at þenna kost ætladi Rognvalldr jarl mer sem nu hefi ek honum veitt. er ok þat mitt hugbod frændi þott þann veg hefdi at boriz at ek væri laatinn enn Rognvalldr jarl lifdi at þer mundit gera hann at vidsæmingarmanni enn þer vilit gera mik at daudamanni. þorbiorn for her vm morgum ordum aheyriligum. fluttu þetta ok margir menn med honum ok baadu honum grida. kom sua at jarl tok at hlyda a er margir fluttu. þa tok til orda Magnus sun Havardz Gunnasunar gǫdingr jarla ok frændi. hann var þar gǫfgazstr madr i lidinu med Haralldi jarli. hann sagdi sua. eigi kunnum ver ydr raad at kenna jarl eftir þersi hinu miklu storvirki. enn segia mun ek huerr ordromr a mun leggiaz ef þorbirne eru grid gefin eftir þetta verk ok þat annat at hann þorir at segia ydr i augu vpp nær i hueriu ordi at hann hafi þetta it illa verk fyrir þik gert edr þer til sæmdar wnnit er þer ok ollum frændum jarls man eilif skomm ok [577] vsæmd at vera ef hans er eigi hefnt. hygg ek þat vini Rognvalldz jarls fyrir satt hafa at þu munir fyrir lǫngu verit hafa raadbanamadr jarls enn nu hafi fram komit. edr hyggr þu at hann muni af þer bera vitundina þa er hann skal sik vndan sokum færa. enn eingi helldr suǫrum vpp fyrir ydr þar er hann segir ydr nu i augu vpp at hann hafi þetta vverkan fyrir ydr vnnit enn huersu maattu meirr sanna þat enn þu gefir honum nu grid. er ek ok raadinn i at alldri skal hann af mer grid hafa ef nockurir dugandismenn vilia mer fylgia huart sem ydr er þat liuft

edr leitt. Slikt hit sama mællto brædr hans þorsteinn ok Hakon ok Sueinn Hroalldzsun. sneru þeir þa brott fra jarli ok vpp med dikinu ok leitudu huar þeir maattu yfir komaz. Ok er þeir þorbiorn saa at þeir Magnus snua vpp med dikinu þa tok þorbiorn til orda. nu mun þa aa hafa skilit vm raadagerdina. mun jarl vilia gefa mer grid en Magnus mun i moti mæla. Enn medan þeir toludu þetta hofuz þeir þorbiorn fra dikinu. þeir Haralldr jarl stodu a dikisbackanum. Ok er hann saa at ecki mundi verda af gridagiofinni hliop hann yfir fenit med ollum vopnum sinum ok var .ix. aalna yfir dikit. forunautar hans lupu eftir honum ok gat eingi yfir laupit enn flestir gaatu feingit backann ok slodrudu sua at landi. Menn þorbiarnar eggiudu at þeir skylldu snua a moti þeim Magnusi ok laata þar verda vmskipti med þeim. þa mællti þorbiorn. þat þicki mer raad at þat taki huerr vpp sem likligaz þickir at dugi enn ek mun enn leita a fund Haralldz jarls. Flestir menn lǫttu þess ok beiddu hann helldr leita a skoga ok forda ser. þorbiorn tok ecki vndir þat raad. ridloduz þeir forunautar hans fra honum ok leitudu ser ymsa vega hialpar. enn þeir þorbiorn vrdu eftir .ix. saman ok er hann ser at Haralldr jarl er kominn yfir dikit ferr hann a moti honum ok fell a kne fyrir honum ok kuez færa honum hofud sitt. Margir jarlsmenn baadu enn þorbirni grida. þaa tok jarl til orda. forda þer þorbiorn eigi nenni ek at drepa þik. Foru þeir þa ofan med Kalfadalsaa er þeir rædduz þetta vid. þeir Magnus sottu eftir þeim. ok er jarl sa þat mællti hann. forda þer þorbiorn eigi beriumz ek fyrir þik vid mina menn. þa skilduz þeir þorbiorn fra foruneyti jarls ok til audnaselia nockurra þeirra er heita Asgrims ærgin. þeir Magnus sottu eftir þeim þorbirni ok baaru þegar elld at husinu. þeir þorbiorn vorduz dreingiliga ok er husit tok at falla ofan af bruna gengu þeir þorbiorn wt ok voru þegar vopn borin a þa er þeim maatti vid koma. voru þeir aadr ok miok sottir af elldzgangi. letuz þeir þar allir felagar .ix. ok er leitat var til saarafars þorbiarnar hofdu vt sigit idrin i þat saarit er Jomar hafdi veitt honum. Haralldr jarl for leid sina ofan eftir dalnum enn þeir Magnus vendu aftr til Fors ok veittu vmbunat liki Rognvalldz jarls ok fluttu ofan i þorsaa.

## Fluttr likami Rognvalldz jarls.

443. Andlaazdagr Rognvalldz jarls Kala er .v. nottum eftir Mariu messo hina fyrri vm sumarit. Foru þeir Haralldr jarl þadan vt i Orkneyiar med likit med fogru foruneyti ok veittu groft at Magnuskirkiu ok huilldi hann þar til þess er gud birti hans verdleika med

morgum ok storum iarteinum. enn Biarni byskup let vpp taka helgan dom hans at leyfui pafuans. þar a steininum sem blod Rognvalldz jarls hafdi a komit þa er hann letz ma sia enn i dag sua fagrt sem nyblætt see. Rognvalldr jarl var miok harmdaudi þviat hann var allvinsæll þar i eyiunum ok vida annars stadar. hann hafdi verit hialparmadr mikill morgum monnum ðrr af fe hðgværr ok vinhollr jþrottamadr mikill ok skaalld gott. Dottur eina barna atti hann aa lifi Jngigerdi er atti Eirekr slagbrellr. þeirra bðrn voru þau Haralldr iungi ok Magnus mangi Rognvalldr ok Jngibiorg Elin Ragnhilldr.

## Fra Haralldi jarli ok Sueini.

444. Eftir fall Rognvalldz jarls tok Haralldr jarl vndir sik allar eyiar ok gerdiz einn hofdingi yfir. Haralldr jarl var mikill hofdingi manna mestr ok sterkazstr. hann aatti Afreko þeirra bðrn voru þau Heinrekr ok Hakon Helena ok Margret. þa er Hakon var faarra vetra gamall baud Sueinn Asleifarsun honum til fostrs ok fæddiz hann þar vpp. ok þegar hann var sua færr at hann maatti fara med odrum monnum þa hafdi Sueinn hann i hernat med ser huert sumar ok leitadi honum i ðllu virdingar. þat var haattr Sueins i þann tima at hann sat um vetrum i Gareksey heima ok hellt þar iafnan attatigi karla a sinn kost. hann atti sua mikinn dryckiuskaala at eingi var annar iafnmikill i Orkneyium. Sueinn hafdi a vorum starfa mikinn ok let færa nidr ofua mikit saad ok geck þar miok sialfr at. enn er lokit var þeim starfa for hann huert vðr i viking ok heriadi vm Sudreyiar ok Jrland ok kom heim eftir mitt sumar. þat kalladi hann vorviking. þa var hann heima til þess er akrar voru vppskornir ok seet var fyrir kornum. þa for hann i viking ok kom þa ecki fyrr heim enn manudr var af vetri ok kalladi hann þat haustviking.

## Sueinn for til Jrlandz.

445. þat var til tidenda eitthuert sinn at Sueinn Asleifarsun for i vorviking, þa for med honum Hakon sun Haralldz jarls þeir hofdu fim rodrarskip ok ðll stor. þeir heriudu vm Sudreyiar. þa var folk sua hrætt vid hann i Sudreyium at menn faalu allt lausafe sijtt i iordu edr urdum. Sueinn for allt sudr til Manar ok vard illt til fiar. þadan sigldu þeir vt vndir Jrland ok heriudu þar. enn er þeir komu nærr sudr vndir Dyflinn þa sigldu þar af hafi kiolar .ij. er komnir voru af Englandi ok ætludu til Dyflinnar. þeir voru hladnir enskum klædum ok var þar a gæzska mikil. þeir [578] Sueinn logdu at kiolunum ok budu

þeim til bardaga. Litil vard vorn enskra manna. ok ræntu þar huerium penninghi þeim sem aa var kiolunum nema enskir menn hofdu igangsklædi sin ok nockurar vistir ok foru siþan med kiolana. Enn þeir Sueinn foru i Sudreyiar ok skiptu herfangi sinu. þeir sigldu vestan med pris miklum. þeir gerdu til agætis ser er þeir laagu i hofnum at þeir tiolldudu enskum klædum yfir ser. enn er þeir sigldu i Orkneyiar saumudu þeir klædin framan a seglin sua at þannig var i at sia sem af skrudi einu væri gior seglin. þetta kolludu þeir skrudviking. Sueinn for heim i Gareksey til bws sins hann hafdi tekit af kiolunum vijn mikit ok miod enskann. þa er Sueinn hafdi skamma stund heima verit baud hann til sin Haralldi jarli ok gerdi i mot honum virduliga veizlu. þa er Haralldr jarl var at veizlunni vard þeim mart talat af risnu Sueins. jarl mællti. þat villda ek nu Sueinn at þu legdir af hernadinn. er nu gott heilum vagni heim at aka[1] enn þu veiz þat at þu hefir lengi fæddann þik vid hernadin ok lid þitt. enn viafnadarmonnum ferr sua flestum at þeir laataz i hernadinum ef þeir taka sik eigi sialfir fra. þa suaradi Sueinn ok leit til jarls ok mællti med brosu ok sagdi sua. vel er þetta mællt herra ok vingiarnliga mun ok gott at þiggia heilrædi af ydr. enn kæra þat sumir at þer seet litlir iafnadarmenn. Jarl suaradi. ek verd at abyrgiaz minn lut enn mælgi gengr mer til. Sueinn mællti. gott mun ydr til ganga herra. skal ok sua vera at af skal lata hernadinum þuiat ek finn at ek elldumz enn þuerr kraftrinn mikit i vasinu ok hernadinum. skal nu fara i haustviking ok villda ek at hon yrdi eigi med minnum afburdum enn varvikingin var. enn eftir þat skal af laata herforum. Jarl suarar. þat er ok vant at sia felagsmadr huart fyrr kemr hel edr langframi. Eftir þetta fell nidr rædan. Haralldr jarl for a brott af veizlunni ok var vt leiddr med sæmiligum giofum. skilduz þeir Sueinn med miklum kærleikum.

## Hernadr Sueins Asleifarsuuar.

446. Litlu sidarr bio Sueinn ferd sina i hernat. hann hafdi .vij. langskip ok oll stor. Hakon sun Haralldz jarls var med Sueini i faur. þeir helldu fyst til Sudreyia ok fengu þar litid herfang. foru þadan vt vndir Jrland ok heriudu þar vida. þeir foru allt sudr til Dyflinnar ok komu þar miok a vuart suo at stadarmenn vrdu eigi varir vid fyrr enn þeir voru komnir i stadinn. þeir toku þar mikit fe. þeir gerdu þar

[1]) taka *Cd.*

herteknа valldzmenn þa er þar voru i stadnum. foru þeirra skipti sua at þeir gaafu vpp stadinn i valld Sueins ok iattudu honum sua miklu gialldi sem hann villdi aa þa leggia. Sueinn skylldi ok skipa sinum monnum stadinn ok hafa valld yfir. Dyflinnarmenn sueria eid at þersu. þeir foru til skipa vm kuelldit enn vm morgininn skylldi Sueinn koma i stadinn ok taka vid fegiolldum. skipa stadinn ok taka gisla af stadarmonnum. Nu er fra þui at segia huat titt var i stadnum vm nattina. rædismenn þeir er i stadnum voru hofdu stefnu sijn i milli ok kærdu vandrædi sijn þau er þeim voru fallin. þotti þeim þungt at laata koma stad sinn i valld Orkneyinga ok allra hellzst þeim manni er þeir vissu mestan viafnadarmann i Vestrlondum. kom þat asamt med þeim at þeir mundu suikia Suein ef þeir mætti. þeir toku þat raad at þeir grofu ser grafir storar fyrir borgarhlidum ok vida annarsstadar milli husanna þar er þeim Sueini var ætlat at ganga. enn menn leynduz þar i husunum hia med vapnum. þeir letu vid yfir grafirnar sua at nidr skulldi falla þegar er mannzþunginn kemr a. siþan breiddu þeir haalm a sua at ecki matti til sia grafanna ok bidu sua morgins.

## Fall Sueins Asleifarsunar.

447. Vm morgininn eftir stodu þeir Sueinn vpp ok vapnuduz gengu sidan til stadarins. ok er þeir komu inn vm borgarhlidin gerdu Dyflinnarmenn kui fra borgarhlidinu allt at grofunum. þeir Sueinn sa ecki vid ok lupu i grafirnar. þeir stadarmennirnir hliopu þegar fyrir borgarhlidit enn sumir til grafanna ok baaru vapn aa þa Suein. þeim var vhægt vorn vid at koma ok letz Sueinn þar i grofinni ok allir þeir er inn hofdu gengit i stadinn. Sua er sagt at Sueinn letiz sidazst þeirra allra sinna felaga ok mællti aadr þessum ordum. viti þat allir menn huart sem ek laatumz i dag edr eigi at ek er hirdmadr hins helga Rognvalldz jarls ok ætla ek nu þar til traustz sem hann er med gudi. Menn Sueins foru þegar til skipa ok logdu a brott ok er ecki fra þeirra ferd at segia fyrr enn þeir koma i Orkneyiar. Nu er þar lokit fra Sueini at segia ok er þat maal manna at hann hafi mestr madr verit fyrir ser i Vestrlondum bædi at fornu ok nyiu þeirra manna er eigi hofdu meira tignarnafn enn hann. Eftir fall Sueins skiptu synir hans arfi med ser Olafr ok Andress. þeir gerdu hitt næsta sumar eftir er Sueinn var laatinn gafhlod i dryckiuskaala þann hinn mikla er hann hafdi aattann i Gareksey. Andres son Sueins aatti Fridu dottur Kolbeins rugu systur Biarna Orkneyinga byskups.

## Fra Haralldi jarli ok sonum hans.

448. Haralldr jarl red nu Orkneyium ok var hinn mesti hofdingi. hann atti sidar Huarflodu dottur Melkolms jarls af Morhęfi. þeirra born voru þau þorfinnr David ok Jonn Gunnhilldr Herborga ok Langlif. þa er Vilhialmr byskup hinn sidarri var andadr var vigdr til byskups eftir hann Biarni sun Kolbeins rugu ok var hann hinn mesti hofdingi ok kærr vin Haralldz jarls Biarni byskup hafdi frændbaa(l)k mikinn i eyiunum. Synir Eireks slagbrellz voru þeir Haralldr vngi ok Magnus mangi ok Rognvalldr. þeir brædr foru austr til Noregs [579] a fund Magnuss konungs Erlingssunar ok gaf hann Haralldi iarlsnafn ok halfar eyiar sua sem haft hafdi Rognvalldr jarl hinn helgi modurfadir hans. Haralldr jarl vngi for vestr yfir haf ok med honum Sigurdr murtr sun Juars[1] galla. Modir Juars var dottir Haaardz Gunnasunar. sa Juarr fell a akrinum med Erlingi skacka. Sigurdr murtr var a vngum alldri ok manna vænligazstr ok hinn mesti aburdarmadr. Magnus mangi var eftir med konungi ok fell med honum i Sogni. Komu þeir fyrst vid Hialltland ok foru þadan til Katanes ok sua vpp i Skotland a fund Vilhialms Skotakonungs. beiddi Haralldr jarl at Vilhialmr skylldi fa honum Katanes halft sua sem haft hafdi Rognvalldr jarl. þetta veitti konungr honum. þadan for Haralldr jarl ofan a Katanes ok efldiz þadan at lidi. þa kom til hans Lifolfr skalli maagr hans. hann aatti þar mart gofugra manna þeirra er frændr hans voru. Lifolfr aatti Ragnhilldi systr jarls. þersi var kalladr Haralldr jarl hinn iungi enn Haralldr Maddadarsun hinn gamli. Lifolfr hafdi mest raadagerd fyrir lidi jarls. þeir gerdu menn vt i Orkneyiar a fund Haralldz jarls hins gamla ok beiddu at hann mundi gefa vpp halfar eyiarnar sua sem konungr hafdi veitt Haralldi junga jarli. Enn er þessi ord komu fyrir jarl þa syniadi hann þess þuerliga at midla riki sijt med neinu saattmaali. Lifolfr skalli for þa ferd ok heitadiz jarl vid hann miok adr hann færi brott. Haralldr jarl gamli dro lid saman eftir þetta ok vard allfiolmennr. þeir Haralldr jarl vngi voru a Katanesi ok hofdu þar safnat nockurn þa er þeir spurdu at Haralldr jarl gamli dro lid saman þa sendu þeir (jarls) menn af nyiu Lifolf nordr yfir Petlandzfiord at skynia vm herinn. hann lagdi austan at R(inans)ey ok geck þar vpp a fiall ok fann þar .iij. vardhalldzmenn Haralldz jarls gamla ok drapu .ij. enn hǫfdu einn med ser til fretta. Lifolfr sa þa ok herinn jarls ok hafdi hann mart skipa ok flest stor. Sneri Lifolfr þa ofan af fiallinu ok til skips sins ok sagdi felǫgum sinum slik tidendi sem hann hafdi viss vordit. hann sagdi at

[1]) Jauars *Cd.*

Haralldr jarl hafdi sua mikinn her at þeim var vfæra at beriaz vid hann. er þat mitt raad segir Lifolfr at ver farim i dag nordr i þorsaa ok mun oss þar safnaz lid mikit i dag. enn ef þer vilit leggia til orrostu vid Haralld jarl þa er þat hin mesta vfæra huersu sem tekz. þa tok Sigurdr murtr til orda illu heilli hefir maagr jarls farit yfir Petlandzfiord er hann hefir eftir laatid hiartad. ok kuat eigi uænt horfa ef allir skylldi hiartalausir þegar þeir sæi her Haralldz gamla. Lifolfr suaradi. vant er þat at sia Sigurdr huar huergi berr hiarta sijtt ef til þarf at taka. ætla ek þat mund er ek renn fra Haralldi junga at ydr afburdarmonnum muni avinnt þickia eftir at standa. Enn ecki vard af faurinni i þorsaa. enn litlu sidarr sa þeir skipaflota Haralldz jarls fara vndan R(inan)sey. biugguz þeir þa til bardaga. Haralldr jarl geck a land vpp ok fylgdi lidi sinu. hafdi hann her myklu meira. þeir Sigurdr murtr ok Lifolfr fylgdu lidi vnga jarls. Sigurdr murtr var i raudum skarlatz kyrtli ok drap blodunum vndir bellti ser. sumir mælllo at sua mundi hann ok gera a bakit. hann bad eigi vpp drepa. þuiat eigi mun ek ofugr at ganga i dag. J sinn fylkingararm var huarr þeirra. ok er þeir hofdu fylkt lidinu seig saman orrostan ok var akafa hord. J lidi Haralldz jarls gamla var mart hinna horduzstu manna þeirra er ofrkappsmenn voru miklir ok bunir forkunnar vel sem voru frændr byskups ok margir adrir sueitarhofdingiar jarls. þa er stadit hafdi orrostan vm rid fell Sigurdr murtr ok hafdi vel bariz ok dreingiliga. Lifolfr geck annarra manna bezst fram. sua segia Katnesingar at hann gengi þrysuar i gegnum fylkingar Haralldz jarls gamla enn þo fell hann i þeirri orrostu med godan ordztir. þa er þeir voru badir fallnir Lifolfr ok Sigurdr murtr brast flotti i lidi jarls hins vnga. Haralldr jarl vngi fell vid torfgrauir nockurar. var þa þegar vm nottina set lios mikit þar er blodit hafdi nidr komit. þeir kalla iarlinn sannhelgann ok er þar nu kirkia sem hann fell ok er hann þar iardadr a nesinu. ok geraz vtølulígar iarteinir fyrir hans verdleik veittar af gudi ok vitrar þat iafnan at hann villdi yfir til Orkneyia til Magnus jarls ok Rognvalldz jarls frænda sinna. Eftir bardagann lagdi Haralldr jarl vndir sik allt Katanes ok for þegar vt i Orkneyiar ok hrosadi miklum sigri.

### Fra Orkneyinghum. capitulum.

449. Uilhialmr Skotakonungr spurdi at Haralldr iarl var fallinn ok þat med at Haralldr jarl Maddadarsun hafdi vndir sik lagt allt Katanes ok hann ecki sik eftir spurt. vard Skotakonungr þessu reidr miok ok sendi menn i Sudreyiar til Rognvalldz Sudreyia konungs Gudrodar

sunar. Modir Gudrodar var Jngibiorg dottir Hakonar jarls Paalssunar. Rognvalldr konungr var þa mestr hermadr i Vestrlondum. þat var .iij. vetr er hann laa vti a herskipum sua at hann kom eigi vndir sotkan raft. þegar er Rognvalldi komu þessi ord dro hann her saman vm allt Sudreyia riki ok af Satiri. hann hafdi ok mikit lid af Jrlandi. hellt hann þa nordr til Katanes ok tok vndir sik allt landit ok dualdiz þar vm rijd. Haralldr jarl sat i Orkneyium ok gaf eingan gaum at ferd konungs. enn er leid at vetri bioz Rognvalldr konungr heim i riki sijt i Sudreyiar. hann setti eftir a Katanesi .iij. syslumenn var einn Mani Olafssun annarr Rafn logmadr. Hlifolfr hinn alli het hinn .iij. Nockuru sidar enn Rognvalldr konungr for i Sudreyiar sendi Haralldr jarl mann yfir aa nes ok sagdi at þa þætti honum gott hans erendi ef hann gæti drepit einn af syslumonnum edr alla tua. þessi madr var fluttr yfir Petlandzfiord. for hann þar til er hann kom a fund Rafns logmannz. ok spurdi Rafn huert hann skylldi fara. hann vard faarr sua vm. Rafn tok til [580] orda. se ek a þer at Haralldr jarl hefir þik til nockurs illz sent hingat a nesit. enn ek nenni eigi at laata drepa þik þuiat þu ert frændi minn. Vid þetta skildu þeir ok for hann a brott þadan ok til Hlifolfs. ok foru þeirra skipti sua at hann veitti Hlifolfi liflaat. hliop hann þa i brott ok vt i Orkneyiar a fund Haralldz jarls ok sagdi honum huat er hann hafdi gert.

## Haralldr pindi byskup.

450. Haralldr jarl bioz nu or Orkneyium. ok er hann var albuinn for hann fyst nordr til þorsaar ok geck þar af skipum sinum. Byskup var i borginni a Skarabolstad. ok er þeir sa her Haralldz jarls sa þeir Katnesingar at hann hafdi her sua mikinn at þeir hofdu einga vidstodu. þeim var ok sagt at jarl væri i sua illu fari at vsynt væri hueriu hann eirdi. byskup tok þa til orda ok mællti. ef ockur skipti fara vel þa mun hann gefa ydr grid. Sua var gert sem byskup mællti fyrir. Herr jarls þusti af skipunum ok til borgarinnar. byskup geck i moti jarli ok fagnadi honum med blidum ordum. enn þeirra skipti foru sua at Haralldr jarl let handtaka byskup ok skera or honum tunguna enn siþan let hann stinga knifi i augun ok blinda hann. Jonn byskup kalladi a meyna hina heilugu Traullhænu i meizlunum ok geck sidan a brecku nockura þegar þeir letu hann lausann. kona ein var a breckunni ok bad byskup hana hialpa ser. hon sa at blod fell or andliti hans ok mællti. vertu hliodr herra þuiat giarna vii ek hialpa ydr. Byskup var færdr til þess stadar er huilir hin helga Traullhæna. þar feck byskup

heilsubot bædi maals ok synar. Haralldr jarl geck þa vpp at borginni ok gafu þeir hana þegar vpp i valld jarls. hann veitti monnum þegar storar refsingar ok lagdi a þa menn giolld stor er honum þotti mest verit hafa i landraadum vid sik. let hann þa enn alla Katnesinga ganga vndir sik med eidum huart er þeim var liuft edr leitt. siþan tok hann vndir sik eignir þær allar er aatt hofdu syslumenn þeir er til Skotakonungs voru farnir. sat Haralldr jarl þa a Katanesi med morgu folki.

## Fra syslumonnum.

451. Nu er at segia fra syslumonnum þeir reduz .vj. saman vpp i Skotland ok fundu þar konung vm vetrinn a iolafostu. kunnu þeir gloggliga at segia fra þeim tidendum er giordz hofdu a Katanesi i ferdum Haralldz jarls. þessum tidendum vard konungr allreidr enn tuennum giolldum kuez hann þeim giallda skylldu er sijt hofdu laatid. Hinn fysta dag er þeir voru med Skotakonungi let hann gefa haalfan þridia tug aalna klædiss huerium þeirra ok enn mork enska til skotzsilfrs ser sina huerium þeirra. voru þeir med Skotakonungi fram vm iol i godu yfirlæti. Enn þegar aa bak iolum sendir Skotakonungr ord ollum hofdingium i riki sinu ok dro her saman ofua mikinn vm landit ok stefndi þeim her ofan a Katanes a hendr Haralldi jarli. hafdi Skotakonungr allmikinn her ok ferr hann þar til er hann kemr i Eysteinsdal. þar mætiz Katanes ok Sudrland. herbudir Skotakonungs stodu eftir endilongum dolunum ok er þat lǫng leid. Haralldr jarl var a Katanesi er hann spurdi þessi tidendi. dro hann þegar lid at ser ok er sua fra sagt at hann fengi .lx. hundrada manna ok hafdi þo allz einga vidstodu at beriaz vid Skotakonung. sendi hann þa menn a fund Skotakonungs at leita vm sættir med þeim. enn er þat var flutt fyrir konungi sagdi hann at ecki þurfti vm sættir at leita nema hann hefdi enn fiorda huern penning af Katanesi þann er a var landinu. Enn er þessi ordsending kom fyrir Haralld jarl kalladi hann a tal vid sik landzmenn ok adra hofdingia ok leitadi raada vid þa. enn vid þat at þeir saa eingin efni sin gengu þeir at þessi sætt at Katnesingar gulldu fiordung eigu sinnar Skotakonungi fyrir vtan þa menn er a konungs fund hofdu farit vm vetrinn. Haralldr jarl for vt i Orkneyiar ok skylldi hann hafa Katanes allt sem hann hafdi aadr haft enn Haralldr jarl vngi tæki af Skotakonungi. J vfridi þeim var blindadr þorfinnr sun Haralldz jarls. hann hafdi verit gisladr af Skotakonungi. Eftir sætt þeirra for konungr vpp i Skotland. Haralldr jarl var nu einn hofdingi i Orkneyium. þat

var ofarliga a dogum Haralldz jarls er þeir Olafr maagr hans ok Jonn Hallkelssun efldu flock or Orkneyium ok austr i Noreg a hendr Suerri konungi. þeir toku til konungs Sigurd sun Magnus konungs Erlingssunar. J þann her reduz margir storættadir menn or Orkneyium þat var hinn sterkazsti flockr. þeir voru kalladir Eyiarskeggiar ok Gullbeinar vm hrid. þeir bǫrduz i Floruvǫghum vid Suerri konung ok fengu vsigr. þar fellu þeir baadir Jonn ok Olafr ok sua konungr þeirra ok mestr luti hersins. Eftir þat lagdi Suerrir konungr a Haralld jarl fiandskap mikinn ok kendi honum volld vm er flockrinn hafdi hafiz. kom þi sua at Haralldr jarl for vestan ok Biarni byskup med honum. Jarl gaf sik i valld Suerris konungs ok let hann einn skera ok skapa i milli þeirra. þa gerdi Suerrir konungr Hialltland allt af Haralldi jarli med skottum ok skylldum ok hafa Orkneyia iarlar ecki þat haft sidan. Haralldr jarl var þa .v. vetra gamall er honum var gefit iarls nafn. hann var .xx. vetr jarl sua at þeir Rognvalldr jarl hinn helgi voru badir saman yfir Orkneyium. eftir fall Rognvalldz jarls var Haralldr jarl i Orkneyium aatta vetr hins fimta tigar. hann andadiz a odru aari rikis Jnga konungs Baardarsunar. Eftir Haralld jarl toku synir hans riki Jonn ok Dauid. Heinrekr sun hans aa Ros a Skotlandi. þessir hafa rikazstir verit Orkneyinga iarla at tali þeirra manna er frasagnir hafa þar vm gort. er þar til nefndr Sigurdr Eysteinssun þorfinnr jarl Sigurdarsun Haralldr jarl Maddadarsun. þeir brædr Jonn ok Dauid redu badir londum eftir fǫdur sinn þar til er Dauid andadiz or sǫtt a þui aari sem Hakon galinn andadiz i Noregi. siþan tok Jonn jarls nafn yfir ollum Orkneyium.

---

HER HEFR

# NOREGHS KON(UN)GA TAL

ER SÆMUNDR FRODI ORTI.

---

[581] Þat verdr skyllt
ef at skilum yrkia
greppum þeim
at þeir gledi fyrda.
allra hellz
ef eru færi
virdar þeir
enn verit hofdu.
2. Roa skal fyst
fiarri reydi
ok koma þo nidr
nær aadr luki.
þar haf ek hugt
hrodri þessum
ordum þeim
eftir at mynda.
3. þar vil ek fyst
ef virar[1] hlyda
minni mærd
til maals taka.
(at) hugprudr
Haalfdan suarti
erfuiuord
aatti fræknann.
4. Tok kappsamr
vid konungs nafni
Haralldr braatt
hinn haarfagri.
þa er Haalfdan
hafdi drucknat
i hængs
hallar næfri.
5. Ok er hann
i (haug) lagidr
a herska
Hringariki.
enn barnvngr
burr Halfdanar
tok framlyndr
vid faudur arfi.
6. Eigi hann þat eitt
eiga villdi
er hans langfedr
leifdu haanum.
sua var rikr
ræsir Sygna
ok agiarn
vid audgefendr.
7. At allt land
Elfar a milli
ok Finnmerkr
fylkir aatti.
naadi hann
fyrir Noregi
aullum fyst
einn at raada.
8. Atti gramr
saa er giafir veitti
barna mart
þeir er bidu þroska

---

[1]) *r.* verar *ell.* virdar

þui kemr huers
til Harallz siþan
skeylldungs kyn
ens skararfagra.
9. Reed þria vetr
þundar bediu
siglingr snarr
ok siau tigi.
adr enn lofdung
lifi at ræna
audlings kom
einka dottir.
10. þa var haugr
eftir Harralld vorpinn
reisuligr
a Rogalandi.
þess mun æ
vppi leingi
hilldings nafn
Haalfdans sunar.
11. Tok Eirekr
vid iofurs nafni
blodaux braat
sem buendr villdu
var vigfimr
vetr at landi
Eirekr allz
einn ok fiora.
12. Aadr en vinsæll
vestan kæmi
Adalsteins
enka fostri.
ok Hakon
haalfrar allrar
brodur sinn
beiddi erfdar.
13. Enn Eirekr
vndan flydi
heiftar giarn
ok hans synir.
kom hardraadr
hersa mygir
aftr i land
alldri sidan.
14. Red kappsamr
fyrir konungdomi
Hakon einn
hrid nockura.
var .vj. vetr
samt at landi
tirar giarn
ok tuttugu.
15. Haadi gramr
gunni aa Fitium
vid Eireks
erfivordu.
vard i hǫnd
hilmr skotinn
þa er folkmeidr
flotta knadi.
16. þat hygg ek braatt
til bana leiddi
litid saar
lofdung snarann.
þar avallt
er visir do
hella kend
til Hakonar.
17. Enn i haug
Hau(r)dar logdu
sikling þann
a Sæheimi.
hurfu sua
fra Harallz arfa
fræknir menn
fiorfui ræntum.
18. þa hef ek heyrt
at Haralldr tæki

vaarsæll
iord ok riki.
red Grafelldr
Gunhilldar sun
niu vetr
fyrir Noregi.
19. Aadr enn Gorms sun
ok Gullharalldr
nafna sinn
at nai gerdi.
var siklingr
sudr at Haalsi
lifi ræntr
i Limafirdi.
20. Tok hardraadr
eftir Haralld fallinn
Hakon jarl
vid Haars vifi.
sa red tiggi
ok .xx.
.xiij. vetr
þundar bediu.
21. Wrdu ei god
i Gaulardal
æfilok
Eiriks faudur.
þa er Karkr þræll
knifi meitti
hattar stall
af Hakoni.
22. Misti litt
su er laugum styrdi
recka kind
raad hins bezsta.
þa er nordr
i Noregi
kristinn mann
til konungs toku.
23. Ok Olafr
arfui Tryggua
tok liddriugr
lond ok þegna.
hinn er fimm
a faam vetrum
lofda vinr
lond kristnadi.
24. Var Olafr
allz at landi
fimm at eins
fadmins galla.
adr Eirekr
med ofrlidi
ræsi þann
romu beiddi.
25. Su var allz
adr Ormr ryddiz
hrotta rijd
hörd ok leingi.
þar hefir aulld
er Olafr fell
Sualdrar vög
sidan kallat.
26. Red tolf vetr
tiri gaufgadr
Eirekr jarl
fyrir Yggs mani.
adr enn lofdungr
or landi for
vestr vm haf
sa er vini gæddi.
27. þa var vfr
Eireks skorinn
adr enn Romfaur
ræsir hæfe.
ok blodraas
til bana leiddi
vitran iarl
vestr med Englum.

28. Taldi laund
ok lausafe
sina eign
Sueinn ok Hakon.
ok tua vetr
at tali fyrda
Eireks arf
iarlar hofdu.
29. Adr i land
med litinn her
konungmadr
kæmi vestan.
ok Olafr
iarli mætti
i Saudungs
sundi midiu.
30. Vard Hakon þa
hilmi at sueria
eida þers
er Olafr beiddi.
at folkballdr
flyia skylldi
odul sin
til alldrslita.
31. Baud Olafr
austr fyrir Nesium
snarpa sokn
Sueini iarli.
vard lidfaar
laund at flyia
sigri suiptr
sonr Hakonar.
32. Feck lofsæll
lond med rin(g)um
Olafr einn
allt hinn digri.
red hrodmǫgr
Haralldz hins grænska
fimtan vetr
folldu gryttri.
33. Bar kappsamr
Knutr hinn riki
biartan seim
vnd bændr marga.
spardi lijtt
vid lenda menn
aud til þess
at þeir iofur vellti.
34. Reisti her
hilmi a moti
kyniadir vel
Kaalfr ok þorir.
þar var felldr
fylkir þrænda
sem stadir
Stikla heita.
35. þa bar raun
at ræsir var
Kristi kærr
um konung helgann.
stendr i Kristz
kirkiu midri
heilagt skrin
yfir Haralldz arfa.
36. þa red Sueinn
sunr Alfifu
snaka strid
sex fyrir landi.
adr enn Knutz sonr
af konungdomi
vinalauss
vard at flyia.
37. Kom agætr
austan or Gaurdum
einka sun
Olafs konungs.
feck Magnus
ok mikit riki

odalsiord
alla sina.
38. Var taallaust
tolf vetr konungr
monnum þarfr
Magnus godi.
aadr i sott
Sygna drottinn
afreks madr
andar misti.
39. Var harmdaudr
huerium manni
fylkir færdr
þar hans fadir huilir.
sa var nordr
i Noregi
Kristz at kirkiu
konungmadr grafinn.
40. Nu hefir ek talt
tiu landreka
þa er huerr var
fra Haralldi.
inta ek sua
æfui þeirra
sem Sæmundr
sagdi hinn frodi.
41. þo er þess maals
er ek mæla bygg
meiri lutr
miklu eftir.
nu skal þui
þadan af greida
iofra kyns
er enn lifir.
42. þat er mer sagt
at Sigurdr risi
Haralldz [582] sonr
heti fordum.
var Halfdan
Hrisa arfi
enn Sigurdr syrr
son Halfdanar.
43. þa gat son
Sigurdr ok Aasta
þann er Haralldz
heiti aatti.
sa reed[1] einn
allvitr konungr
vidri folldu
vetr .xx.
44. Aadr herfaur
hilmir gerdi
til Englandz
med ofstopa.
felldu vestr
i vapnþrumu
enskir menn
Olafs brodur.
45. Tok fridsamr
til faudurleifdar
ok aarsæll
Olafr kyrri.
sa rædr gramr
gryttri folldu
samfast vetr[2]
.vij. ok .xx.
46. Kom ofbraatt
ondu at ræna
mikil sott
Magnus faudur.
sa var enn
audlingr grafinn
Kristz at kirkiu
i kaupangi.

[1]) reid *Cd.* [2]) vestr *Cd.*

47. Enn Olafr
aatti enn kyrri
fræknan son
ok fiarr godan
red Magnus
fyrir mani Yggiar
tiu vetr
at tali fyrda.
48. Fra ek berfættr
born at ætti
Magnus morg
þau er metord hofdu.
voru þess
þeingils synir
fremdar fliotz
.v. konungar.
49. For maalsniallr
Magnus konungr
til Jrlandz
vngr at heria.
vard agætr
Eysteins fadir
fleina flaug
felldr i þeirri.
50. þat er þa sagt
at saman redi
þiodkonungar
þrir fyrir landi.
þat hef ek heyr(t)
at hafi varla
fremri brædr
a folld komit.
51. Vard Olafr
vngr hinn godi
lofsæll fystr
lif at missa.
maattu þess
Magnus sunar
skamma stund
skatnar niota.
52. Gerdi flest
þat er frama gegndi
innan[1] landz
Eysteinn konungr.
vnz hiartverkr
hilmi fræknann
brigda braatt
til bana leiddi.
53. þeir eru brædr
baadir lagdir
nordr i grund
a Nidar bacha.
þar stendr haatt
i hofudkirkiu
Olafs skrin
yfir alltari.
54. Enn Sigurdr
synu lifdi
þeirra leingz
þriggia brædra.
hinn er vt
til Jorsala
frægsta faur
for vr landi.
55. Reed agætr
ok ellifu
sextan vetr
Sigurdr fyrir riki.
aadr mannskæd
Mæra drottins
banasott
brygdi lifi.
56. þess er austr
i Oslo bæ

[1]) innaz *Cd.*

lofdungs lik
lagit i kistu.
ny grær iord
yfir iofurs beinum
at Halluardz
haarri kirkiu.
57. Enn biltraudr
bædi lifdi
eftir Sigurd
sonr ok dottir.
þess mun enn
þockum sidarr
dottir nefnd
Dæla hilmis.
58. Nu er helldr sua
at halla tekr
æfilok
iofra at telia.
het Magnus
maugr Sigurdar
heiptar giarn
enn Haralldr brodir.
59. þeir miok rǫgsamt
riki hofdu
nanir frændr
i Noregi.
allt for verr
enn vera skylldi
þess gallt margr
a medal þeirra.
60. Unz Magnus
misti beggia
sæmdarlaust
sigrs ok heilsu.
þat veit huerr
at Haralldr gilli
var samfast
sex vetr konungr.
61. Adr enn lofdung
af lifdogum
tirarlaust
toku fyrdar.
sa er at Kristz
kirkiu iardadr
i Biorgin
brodir iofra.
62. Fra ek landvǫrn
eftir lidinn ræsi
Sygna grams
at synir tæki.
var Eysteinn
Jnga brodir
soknar snarr
enn Sigurdr annarr.
63. Naadi frægt
i fridi standa
þeygi leingr
þeirra riki.
þuiat þeir brædr
er brutu særi
banaspiot
baaruz eftir.
64. Varat saklaust
þa er Sigurd hofdu
frækinn mann
fiorfi ræntann.
sa er i folld
hia fedr sinum
i Biorgin
buinn at liggia.
65. Var Eysteinn
austan fiardar
lifi ræntr
af lidi Jnga.
nu er saa gramr
grundu ausinn
andar sparr
austr at Forsi.

66. Stod einart
Jnga riki
attian vetr
ok adra .vij.
vnz Hakon
med herlidi
austr i Vik
Jnga felldi.
67. Sa er gunndiarfr
gramr i Oslo
haudri huldr
at hofudkirkiu.
enn Hakon
hlaut at raada
litla stund
landi ok þegnum.
68. Þui at Erlingr
aatti enn skacki
vænan sun
ok vel borinn.
gaafu landz folk
eftir lidinn Jnga
konungs nafn
Kristinar bur.
69. Ok Magnus
a Mæri nordr
fremdar giarn
felldi Hakon.
sa var vinsæll
vigdri molldu
ræsir huldr
i Raumsdali.
70. Var sokndiarfr
sun Kristinar
siautian vetr
i samt konungr.
vnz agætr
austr i Sogni
frækinn gramr
felldi Suerrir.
71. Nu er gunndiarfs
i grauf lagit
Magnus lik
i musteri.
a Biorgin
þar er buit gulli
stendr skrautgiort
skrin Sunnifu.
72. Nu er þat synt
at Suerrir rædr
ognar aurr
einn fyrir riki.
aullu þi
er aatt hefir
Harallz kyn
Haalfdans sunar.
73. Þo skal ek enn
þockum fleira
fra Berfætz
bornum segia.
audlings þess
er alldrigi
elld ne iarn
ottaz hafdi.
74. Het ein doglings
dottir Þora
su var gift
gofgum manni.
allra hellz
su er Jon fæddi
var sonsæl
systir iofra.
75. Kom raaduond
ræsis dottir
til nærlandz
nykra borgar.
gofuglynd
godrar tidar

allra helltz
Jslendingum.
76. þui at hugrackr
henni at fylgdi
einka sonr
iofra systur
hiartaprudr
sa er hefir all(r)a
yta vinr
ordlof fira.
77. þat er vist
at Jons verda
metord mest
mistar runna
einardlyndz
þar er eiguz vid
merkismenn
maalum skipta.
78. Nu vill kappi
vid konungs frænda
afreks madr
eingi deila.
giftudriugr
sem glikt er
verdr vinsæll
vella deilir.
79. þotti aurr
ok osuikall
fadir hans
flestum monnum.
vissi Loftr
vndir lǒfi skyia
vuin sijn
eingann fæddann.
80. Enn Sæmundr
sina vissi
Sigfus sonr
snilli iafnan.
fadir Loptz
sa er firum þotti
haufudsmadr
vid hluti alla.
81. þat hefir ætt
Oddaveria
iofra kyns
alla prydda.
dottur sun
sa er dogum oftar
fremst margnytr
Magnus konungs.
82. Nefnda ek aadr
nær þria tigi
tigna manna
tijri gædda.
þrætulaust
enn þeir eru
Jons ættar
allir iofrar.
83. Nu bid ek Krist
at konungs spialli
hafi þat allt
er hann æskir ser
giftudriugr
af gudi sialfum
allan alldr
ok vnads nioti.

## Brenna Adams byskups.

453. Þa er Jonn byskup anndadiz a Katanesi sa er Haralldr jarl leet meida var tekinn byskup j stad hans sa er Adam het ok vissi eingi madr ætt hans þuiat barnit hafdi fundiz vid kirkiudyrr nockurar. hann þotti Katnesingum helldr hardr j byskupsdominum ok kendu þat mest munk þeim er var med honum. Þat var forn sidr at byskup skylldi hafa spann smiors vndan tuttugu kuum. skylldi þetta huerr bondi giallda sa er var a Katanesi. sa meira er fleire kyr aatti enn hinn þui minna sem færi [533] hafdi ok skylldi huerr eftir þui giallda sem teldiz til. Enn Adam byskup villdi æxla gialldit ok hafa spann vndan .xv. kuum. ok er þat feckz beiddiz hann at hafa vndan .xij. kuum. ok er þat var vppi laatid villdi hann hafa vndan .x. kuum. enn þat þotti ollum vdæmi. Þa foru Katnesingar a fund Jons jarls hann var þa a Katanesi ok kærdu þeir þetta fyrir honum. Jarl leez her mundu ecki til leggia. kuez þat þickia ouandaz. kuat tua illa fyrir hondum. kuat þetta vera vþolanda enn leetz eigi mundu annan vpp kueda. Þa var Adam byskup at haakirkiu i Þorsdal enn Jonn jarl var skamt þadan. Katnesingar hofdu þa þing a fialli yfir bæ þeim er byskup var aa. Rafn laugmadr var þa med byskupi ok bad hann byskup vægia helldr monnum kuez ella reddr vm huersu færi. Byskup bad hann vera kaatann kuad bændr munu sialfa staudfa sik. Þa var sent til Jons jarls ok bedit at hann skylldi sætta þa byskup enn jarl villdi huergi nær koma. Þa runno bændr ofan af fiallinu ok foru akafliga geystir. ok er Ramn laugmadr sa þetta bad hann byskup gera nockut raad fyrir ser. þeir byskup drucku i lofti einu. ok er bændr komu at loptinu geck munkrinn wt j dyrnar ok var þegar hogguinn vm þuert andlitid ok fell daudr inn i loptid. Ok er byskupi var þetta sagt þa suaradi hann. þat kom eigi fyrr fram enn likligt var þuiat hann lagdi iafnan þungliga til vorra maala. Þa bad byskup Rafn segia bǫndum at hann vill sættaz vid þa. ok er þat var sagt bændum wrdu þui fegnir allir þeir er vitrari uoru. geck byskup þa wt ok ættladi til sætta. enn er þat sa hinir verri menn þeir er odazstir voru toku þeir Adam byskup ok færdu hann i eitt litid hus ok slogu sidan i elldi. enn husit brann sua skiott at þeir er byskupi villdu biarga fengu ecki at gert. leez þar Adam byskup ok var likit lijtt brunnit er fanz. þa var likinu veittr sæmiligr grǫftr ok virduligr vmbunadr. enn þeir menn er hellz hofdu verit vinir byskups þa gerdu þeir menn a fund Skota konungs. Þa var Alexander Skota konungr son Vilhialms konungs hins helga. enn konungrinn vard vid þessi tidendi sua illa at menn hafa þær hrakningar at minnum er hann gerdi eftir

brennuna byskups i manna meidingum ok manndraapum fiaarraanum ok brottrekstri manna af landinu. Kunnum ver nu eigi greiniligar at segia af þeim tidendu(m) er til heyra Orkneyinga iorllum enn sua sem ver hofum sagt.

---

# PROLOGUS.

Her hefr vpp at segia fra þeim tidendum er giorst hafa i þeirra manna minnum sialfra er þessa bok hafa i fyrstu saman sett ok eftir þeirri bok (er) ritadi Karl aboti Jonsson med fullu vitordi sialfs Suerris konungs ok hann fyrir sagdi hue rita skylldi[1] edr huernig setia skylldi. enn eftir þeirri bok skrifadi Styrmir prestr hinn frodi. enn þessa Suerris sogu ritadi þar eftir þeirri bok Magnus prestr þorhallzsun. ma þui eigi þetta maal i munni geingiz hafa. er ok ei likt huart sannligri eru þessi saga er sua er til komin rǒksamliga edr hinar adrar er ymisligir menn hafa fyrir sagt ok haft þo ecki til nema sǒgu sǒgn eina ok mega þo sannar vera. Geingr þersi saga er nu ætlum ver at segia mest af Suerri konungi syni Sigurdar konungs munz Harallz sunar gilla Magnus sunar berbeins Olafs sunar kyrra Harallz sunar Sigurdar sunar syrs Haalfdanar sunar Sigurdar sunar hrisa Haralldz sunar hins haarfa(g)ra Haalfdanar sunar hins suarta Gudrǒdar sunar hins gofuglaata Halfdanar sunar hins millda ok hins matarilla Eysteins sunar Haalfdanar sunar huitbeins Olafs sunar tretelgiu Jngialldz sunar hins illraada Brautaunundar sunar Ynguars sunar Eysteins sunar Adils[2] sunar Ottars sunar vendilkraku Egils sunar Ana sunar hins gamla Jǒrundar sunar Yngua sunar Alreks sunar Agna sunar Dags sunar Dyggua sunar Domars sunar Domallda sunar Visburs sunar Vandlanda sunar Sueigdis sunar Fiolnis sunar Ynguifreys sunar Niardar sunar af Noatunum. En modir Haralldz konungs hins haarfagra var Ragnhilldr dottir Sigurdar hiartar Aaslaugar sunar Sigurdar dottur orms i auga Aaslaugar sunar Sigurdar dottur Fafnisbana Sigmundar sunar Volsungs sunar Siga sunar Rera sunar Odins sunar Frialafs sunar Finz sunar Godolfs sunar Biârs sunar Skiallda sunar Hermods sunar Trinams sunar Atraas sunar Beduigs sunar Seseps sunar Magna sunar Moda sunar Vingeners sunar Vingiþors sunar Eredeirs sunar Loreks sunar þors sunar. hans modir var Troana dottir Priami hofudkonungs i Troio Lamidons sunar Jlus sunar

[1]) skulldi *Cd.* [2]) adill *Cd.*

Ereaas sunar Erichonijs sunar Dardans sunar Jupiters sunar Saturnis sunar Chelijs sunar Chretis sunar Chipris sunar Zechims sunar Japhans sunar Japhets sunar Noa sunar Jamechs[1] sunar Matusalems sunar Eneks sunar Pharets sunar Malaleels sunar Kainans sunar Enðs sunar Seths sunar Adams sunar hins fysta manz. þat er vpphaf sǫgu Suerris konungs at segir nockut af hans orrostom. enn sua sem aa lidr bokina vex styrkr hans ok maa sua kalla at þat væri fyrirbodan hinna meiri luta er sidar komu fram vm hans hagi eftir guds forsio. kolludu menn þui enn fyrra lut bokarinnar grylu at margir menn toludu at þa efnadiz nockurr otti edr hrædzla sakir mikils strids ok bardaga enn mundi skiott nidrfalla ok at allz eingu verda sem oll likendi [584] þottu til standa sakir styrks ok ofreflis þess er i moti var. sem var Erlingr iarl ok Magnus sun hans er noga hofdu vini ok frænda styrk. enn Suerri studdi huarki fe ne frændr eigi helldr vinir sem vita maatti þo hann kæmi vngr ok einmana ok ollum vkunnigr inn i landit mundi sua ok farit hafa sem margir ættludu nema sialfr gud i himinriki hefdi hann viliat styrkia ok hefia til þers rikis er hann vnti honum at styra til daudadags ok hans afkuæmi huerium eftir annan. Enn hinn sidarra lut bokarinnar kalla menn perfectam fortitudinem huat er reikna ma algiorfann styrkleik. sem vita maatti at gud hafdi honum sua mikinn styrk gefit at hann eyddi ok nidr braut huern valldarflock þann er honum reis a moti huart er hann var settr med meira styrk edr minna. Nu þo at her verdi eigi sua greiniliga sagt fra ollum bardogum edr framferdum Suerris konungs edr þeir lutir liggi eftir er frasagnar se verdir megu þeir laata vid rita er betr kunnu ok giorr vita. ok þo at summir lutir se her annan veg sagdir enn mest likindi mundi a þickia huersu orrostur hafa geingit sakir fiolmennis ok lidsmunar þa vita þo allir at þetta eru full sannindi ok allz ecki aukit. þickir oss ok likligra at þær sogur muni sannar er a bokum eru sagdar fra agætum monnum þeim er i forneskiu hafa verit þott þeir hafi mikit vnnit. Nu mun þetta maal morgum nogu langt þickia ok leiti þeir ser þa annarrar skemtanar er þat þickir liufara enn hinir heyri her til er þat vilia helldr. væntir mik at verda mune huarirtueggiu ok hygg ek at hyggnum monnum ok haattaprudum þicki sogur betri skemtan enn onnur su gaalauslig gledi er margir verda einum at skemta enn med sogum ma einn morgum gamna. Hafi nu huerr þat til gamans ok gledi sem skapfelldaz er. enn forlyti einginn fyrir odrum sina atferd þa er vel stendr at gera. þuiat sinni naatturu er huerr fusazstr at fylgia.

[1]) r. Lamechs

---

HER HEFR VPP SOGHU

# SUERRIS KONUNGS SIGURDARSONAR.

---

J þann tima er styrdu Noregi Sigurdr Jngi ok Eysteinn Haralldz synir gilla ofarliga a þeirra dogum var Hroi byskup i Færeyium. brodir hans var Vnaas kambari. Vnaas feck konu norænar er Gunnhilldr het hon gat skiotliga sun er Suerrir het ok sagdi hann vera sun Vnaas. Fyrir þessum sueini birtiz storir ok merkiligir draumar sem oftliga kann at at beraz[1] fyrir þeim sem sidarr meirr verda miok volldugir ok mikils raadandi. Gunnhilldr modir hans sagdi einn draum adr Suerrir var fæddr. henni þotti sem hon væri i agætligu lopthusi nockuru ok hugdiz hon lettari skylldu verda at barni þui er hon geck med. enn þionustukona hennar sat fyrir kniam henni ok skylldi taka vid barninu þegar fæddiz. enn er henni þotti sem barnit væri fætt þa slo þegar hræzlu mikilli a konuna þa er yfir henni sat ok kalladi akafliga ok mællti sua. Gunnhilldr min þu hefir fætt virduligan burd ok miok ogurligann. þa þottiz hon foruitnaz til huat getnadi væri þat er hon hafdi fætt. enn henni syndiz sem þat væri steinn einn vel mikill enn sia steinn var huitr sem sniorr at lit enn gloadi af honum sua miok at alla vega flugu gneistar af sem af iarni þui sem akafligaz verdr heitt i afli. hon mællti vid þionustukonuna. geymum vit vandliga burd þenna ok hirdum sua at eigi verdi adrir menn varir vid þuiat flestum mun þickia vndarligt er sia. Sidan þotti henni sem þær tæki steininn ok legdi i stol einn mikinn ok huldu vandliga med klædum. enn er þær hofdu hann huldann sem þær villdu þa flugu gneistarnir alla vega i gegnum klædin ok vm allt lopthusit innan. þær gerduz nu miok ræddar af þessi ogn er af steininum stod. þa vaknadi hon. Vnaas ok Gunnhilldr aattu sun er Hydi het ok dottur er aatti Suinastephann. þeirra sun var

[1]) **berat** *Cd.*

Petr steypir. enn aattu þau Vnaas fleire dætr. Suerrir var fimm vetra er (hann) for or Noregi ok vt til Færeyia ok var þar med Hroa byskupi at fostri ok vppfęzlu. setti byskup hann til bækr ok gaf honum vixlur ok var hann til prestz vigdr. Enn er hann var roskinn madr samdi hann sik lijtt vid kennimannzskap ok var helldr veirinn. hann vard vsaattr vid Bryniolf son Kalfs sendimannz er þa hafdi syslu þar i eyiunum. hafdi Suerrir lostid mann enn þeir Bryniolfr veittu honum atferd margir saman enn hann for vndan. ok lagdi sua nær med þeim at Suerrir liop inn i stofu nockura ok fal kona hann i ofninum ok setti hellu fyrir munnan ok giordi elld fyrir. þeir leitudu hans vm stofuna ok fundu eigi. mart þottuz menn nu sidan er vissu at huerium manni hann vard hafa at merkium at hann þotti mikillar natturu vera.

## Fra draumum Suerris.

2. [585] Sverri dreymdi drauma stora ok toku summir menn þat fyrir hegoma ok hofdu at spotti. hann dreymdi þann einn at hann þottiz vera i Noregi ok verda at fugli sua miklum at nef hans tok austr til landzenda enn velifiadrar allt nordr i Finnabw enn med vængium huldi hann allt land. hann bar þenna draum fyrir vitran mann er Einarr het ok spurdi huat er hann ætladi at merkia mundi. Einarr let ser þat blint vera ok þotti likligt at saa draumr mundi fyrirboda riki nockut. Ok enn mællti Einarr. vera kann at þu verdir erchibyskup. Suerrir suaradi. þat þicki mer allvlikligt at ek verdi erchibyskup þuiat ek er illa tilfærr at vera prestr. Suerrir hafdi fiora vetr ok xx. þa er hann vard viss hins sanna vm faderni sijtt. Einn vetr var hann i Færeyium aadr hann for til Noregs. Magnus konungr ok Erlingr iarl hofdu i þenna tima styrk mikinn af rikismonnum ok af allri alþydu. var konungrin bædi vinsæll ok aarsæll enn iarlinn var rikr vitr hardraadr ok sigrsæll voru þar ǫll landraad sem hann var. aufundarmenn aatti hann marga bædi rika ok vrika voru þeir mest nordr i þrændalogum. enn Eysteinn erchibyskup er ollu reed nordr þar var hinn mesti aastvin Magnus konungs ok hellt þar ollum styrk vndir hann nordr i land. Magnus konungr hafdi med ser hina stærstu menn i landinu summa i hird enn summir helldu veizlur af honum ok þar med samþyckti oll alþyda at hefia hann ok hallda til rikis ok naut þar mest at forelldra hans at allt landzfolk villdi þiona afkuæmi Sigurdar iorsalafara helldr enn Haralldz gilla.

Suerrir vard viss vm faderni sitt.

3. þat var til tidenda einn tima at Gunnhilldr modir Suerris for or landi sudr til Roms. enn er hon var fyrir þeim er skriptir setti þa sagdi hon at sun hennar aatti ecki þat faderni sem hon hafdi aadr til sagt ok sagdi Noregs konung vera fôdur at honum ok hefdi hon þessu sun sinn leynt. Enn er þetta maal var borit fyrir pauann. þa var henni þat bodit i skript at hon skylldi segia syni sinum retligt faderni sijt þegar hon fyndi hann. Hon gerdi sua ok for þegar er hon kom̄ heim vt til Færeyia ok sagdi Suerri at hann var sun Sigurdar Noregs konungs munz. honum feck þessi (saga) mikillar aahyggiu ok þotti torsottligt at deíla i hendr þeim Magnusi ok Erlingi til rikis enn þotti þo litilmannligt at hafaz ecki at helldr enn bonda sun einn. ok er hann mintiz aa huersu draumar þeir hofdu þyddir verit er hann hafdi dreymt af vitrum monnum þa blidkadi þat helldr hug hans ok styrkti til hefndar eftir sina frændr.

Draumr Suerris.

4. Sva hefir Suerrir sagt þenna draum at hann þottiz vera kominn til Noregs vestan vm haf ok til nockurrar tignar kiorinn þat hellz at hann væri kosinn til byskups. enn honum þotti vfridr mikill i landinu af konunga deilld. þotti honum sem Olafr konungr Haralldzsun ætti deiluna moti Magnusi konungi ok Erlingi iarli. þottiz hann hugsa i hug ser huarra fund hann skylldi sækia ok þottiz hann kiosa at fara a fund Olafs konungs. ok er hann kom þar var honum vel fagnat med mikilli blidu. enn er hann hafdi þar eigi leingi verit vard saa atburdr einn morgin at honum þotti sem fair menn væri med konungi fimtan edr sextan ok þottiz hann standa vid trapizsu i lopthusi einu. ok er konungr var þueginn þa villdi annarr madr þua ser i þui sama vatni enn konungrinn skaut fyrir hendinni ok bad hann hætta. sidan nefndi hann Suerri Magnus ok bad hann þua ser i þui sama vatni. hann þottiz sua gera sem hinn baud. ok er hann þottiz þueginn vera þaa kom madr inn laupandi med braadum tidendum ok bad menn skiott til vopna taka sagdi at vuinir konungs voru fyrir dyrum. enn konungr suaradi ok sagdi at ecki mundi til saka ok bád menn taka vopn sijn ok ganga sua wt. hann kuez hafa mundu skiolld sinn ok hlifa ser ok ollum þeim. enn þeir gerdu sem konungr mællti. þa tok hann suerd eitt ok selldi þessum vnga manni Suerri ok þar med merki sijtt ok mællti. taktu merki mitt herra sagdi hann ok vit fyrir vist at þu skalt þat iafnan bera hedan af. hann þottiz vid taka merkinu ok þo ræddr.

siþan tok konungr skiolld sijnn ok geingu wt allir saman. honum þotti sem fordyrit væri sua langt þar sem þeir geingu wt at eigi væri skemra enn sextugt ok þotti honum eigi mega bera allhaatt merkit medan þeir voru inni i husinu. ok er þeir voru at dyrunum komnir þar sem skylldu wt ganga þa komu a moti þeim .vij. menn med vopnum ok villdu hauggua merkismannin enn konungr geck fram fyrir merkit med skiolld sinn ok hlifdi honum ok ollum þeim sua at ecki sakadi til ok komuz siþan vt a rumlendi ok a fagran vỏll ok þottiz hann þa reisa vpp merkit ok bera i fylking Magnus konungs ok Erlings iarls ok þyntiz þegar su fylking er þeir sottu at fram. þa vaknar hann ok ihugar draum sinn ok segir vinum sinum ok þo faam. var þui næst raadinn sem sidan geck ok er honum komu slikir lutir i hug þa styrktiz hann.

## Suerrir kom fyst til Noregs.

5. Sverrir byr nu ferd sina til Noregs at sia huat i vill geraz. ok er hann kom þangat hafdi saa madr ser laatid konungs nafn gefa er Eysteinn het ok voru þeir brædra synir. enn er Suerrir spurdi þat grof hann vandliga eftir þess mannz atferdi ok fannz honum þat i sem iunglig væri hans raad ok tiltektir ok hnekti þat at honum syndiz ser eigi fallit þar til at raada. þa gerdi hann fer(d) sina nordr i land med þui at Roi byskup fostri hans hafdi þat raadit honum at sækia a erchibyskups fund ok tia fyrir [586] honum sinn vanda. enn er hann var a leid kominn þa gerdiz hann spurall vid þa menn er nordan komu. hann dualdiz vm hrid i Seliu þuiat þar voru hans kunnigir vinir fyrir ok þar hitti hann prest einn þann er honum sagdi inniliga slikt er hann villdi vita ok þadan af ser Suerrir huerr erchibyskup hafdi verit hans brædrum. þott(i) ser litil van þadan vppreistar er adrir brædr hans feingu steypingar. vendir aptr siþan ok gerir ferd sina or landi for siþan med byrdingsmonnum til Tunsbergs ok þadan til Konungahellu. Opt var hann aa tali vid iarl sialfan ok feck sua leynz fyrir honum at eigi vissi hann huat er honum bio i skapi. hann var ok optliga a tali vid konung sialfann ok menn hans ok var sua gladr vid þa at þeim þotti hitt mesta gaman at hans maalsendum enn þo grof hann sua vndir þeim at þa vard hann margra luta þeirra viss af þeim er þeir villdu giarna eigi hafa i lios latid siþan er þeir vissu vid huern er þeir hofdu talat. hann ihugadi vandliga ef alþydan væri nockut tuiskipt i sinum ordum þuiat eingan grunadi hans ord ok eingi vissi huat honum bio i skapi. sua fanz honum sem alþydan væri haull vndir Magnus

konung. Or Konungahellu for hann til Liodhusa ok feck vôs mikit ok erfuidi. hann kom med mikilli mædi i hitt eystra Gautland. þrimr nattum fyrir iol kom hann til Birgis brosu er aatti faudursystur hans er Brigid het. þar bar hann vpp sin vandamaal fyrir iarlinum ok frændkonu sinni. toku þau lijtt aa hans maali til greida ok baaru til þess tueir lutir. annar saa at Eysteinn frændi hans hof þadan flock sinn ok villdu þau fyrir þui eigi efla annann medan hann lifdi. saa annar at þat var borit i eyru Birgi at Erlingr iarl hefdi hann gert til gabs þangat. Ok var hann þar vm iolin ok tiadi oft fyrir honum sijnn vanda ok bad hann leggia til heilrædi huat til raads skylldi taka. enn þar bar þat til sem opt kann verda at þar voru staddir vid þeir er aufundsiukir voru meirr enn gæzsku. ok þetta hagadi honum til mikils haaska þuiat margir skamsynir menn hugdu þessi tidendi sônn vera ok villdu drepa hann. Enn iarl vildi þat eigi vera laata nema nockurar væri brynar sakir ok villdi hann laata eftir leita ok var honum gefit vin at drecka ok miodr at hann yrdi druckinn ok mætti nockut finnaz i hans ordum at hann væri sakbitinn ok fyrir þat draps verdr. enn med þui at Suerrir var a huerri stundu hugsiukr vm sitt maal þa gaf hann litinn gaum at midi edr vini þott honum væri þess ærin gnott helldr veitti hann þui meirr vidrsiaar er hann fann þat er vndan voru dregin andsuorin vm þau maal er hann vaurdudu. ok hôfdu þeir ecki at sôk er hann villdu druckinn gera. ok at lidinni iolatidinni sneri hann ferdinni til Vermalandz þuiat hann þottiz eigi ands(u)aur þau faa af iarli er honum þotti orlausn vera. ok eigi kom mikill voxtr i foruneyti hans þuiat hann for þadan i brott vid annan mann. þar feck hann mikit vaas i þeirri ferd. var þui likaz sem i fornum sogum er sagt þa er konungaborn wrdu fyrir storum alaugum þuiat þat var sex daga edr siau i samt er hann for villr vm merkr storar ok skoga vkunna ok þoldi bædi hungr ok kulda. enn er hann kom a Vermaland ok mætti þar monnum er komnir voru af Noregi kunnu þeir honum ny tidendi at segia at Eysteinn konungr hafdi farit nordan ok austr i Vik ok þeir Magnus konungr hofdu boriz aa Rę̧ ok Eysteinn konungr hafdi þar fallit ok mikill luti lids hans enn þeir flyit a Vermaland þelamork ok sudr til Danmerkr er vndan kuomuz. þetta þotti honum auka mikit sina harma ok vanda. ferr þa þo fyst til systur sinnar Ceciliu. þegar hafdi hon buit veizlu i moti honum er hon spurdi til ferda hans. ok er þau funduz vard hon fegin honum ok fagnar honum sem hon kunni bezst. siþan velktu þau syskin fyrir ser huat til raads skylldi taka þuiat honum var þa eigi aftrkuæmt i Noreg. var þa komin

frett vm hans ferd ok þotti þeim þat vænligaz at hann mundi sækia verda a vkunn lond nockura rijd ok bida þar þeirra tidenda er gud villdi til handa senda.

### Birkibeinar[1] toku Suerri til konungs.

6. Nv spyrr þetta sa hinn fatæki flockr er mist hafdi sins hofdingia at sun Sigurdar konungs munz var a Vermalandi. enn huerr er þat spurdi for til hans fundar ok baadu hann bindaz fyrir sijtt maal ok geraz fyrir hofdingi. enn lid þat var med mikilli rædzlu sumir miok sarir enn sumir klædlausir enn allir naliga vopnlausir ok sua miklir æskumenn at honum synduz þeir vlikligir til raadagerdar. Hann suaradi þeim. huarigum syniz mer fysiligt þetta raad vpp at taka þuiat ek se eymd ydra mikla sua snaudir menn sem þer erud enn ek er madr felitill ok ydr vkunnr. megi þer sua mæla ef ydr mislika min raad at þer vitid vgiorla huerium þer þionit. er ek ok þar fæddr er menn eru litt vanir slikum storrædum edr starfi. syniz mer sem ver hofum faatt til felags huorir vid adra nema feleysi ok vanda ok verd ek þess eigi buinn at auka ydr vanda ok mer ahyggiu. nv med þui at þer hauit til var stundat þa vil ek raad gefa ydr þat at mer syniz. Birgir maagr minn a þria sunu ok eru þeir iafnbornir til landz sem Magnus konungr Erlingssun. farit þangat ok bidit hann fa ydr nockurn til forstiora. hefi ek ok athugat vandliga ok skodat lid yduart ok finnz mer þat i at litil manna grein mun med ydr vera. ok er mer afhent vid flocki at taka. ok se ek stor forfaull [687] a voru maali ok fyrir þessa sok hlutarins er oss gegndi siz huorumtueggium at missa er meiri vaan at eingi se faungin aa i ydrum faurum sua mikil landraad sem þurfa mun i moti Erlingi iarli. er ek ok til eingra raada færr þuiat ek hefi verit vppfæddr i einu vtskeri litlu fiarri odrum monnum hæuerskum set ok litt fyrr annarra manna sidu enn ek kom i þetta land. enn myklu sizst kann ek þo med her at fara edr landraadum skipa vkunnr ollum. veit ok eingi mina ætt ganga allir þess duldir nema þat eina er ek segir einn saman ok kann vera at nu męli þer slikt vid mik sem vid hinn fyrra hofdingia at þer vissut eigi huat manna saa var er ydr þionusta hneigdiz til ok verdr þa iafnan yduarr hofdingi at brigzlum huar sem þer mætid ydrum vuinum. vitu ok allir menn vaan sona Birgis enn min eingi madr. þangat foru þeir med þessi maalaleitan. Birgir iarl harmadi skada þeirra ok mællti sua. synir minir eru born at alldri ok kunnu eingi rad gera huarki fyrir ser ne audrum ok eru þeir

[1]) bb. *Cd.*

ecki til sliks færir ok þo mest fyrir æsku sakir. syniz mer ok litil vaul i ydrum flocki þeirra manna er raad geri fyrir sonum minum. ma ek ok eingum her hedan lypta þuiat ecki þola Noregsmenn at gauzskr herr ridi aa þa ok i land þeirra. legg ek þat raad hellz til med ydr þui at mer liz þat vænaz. gefz sem gud vill. sun Sigurdar konungs munz var med oss nu vm iolin enn nu mun hann vera i Vermalandi. takit hann ydr til hofdingia hann hefir bædi til alldr ok vit at styra slikum monnum. bidit hann binndaz fyrir yduart maal. þeir suara. ver hittum þann mann ok visadi hann oss af hendi ser. Jarl eggiar þui meirr ok mællti sua. mer segir sua hugr vm at þer fait einga vppreist yduars maals af eigi kemr fra honum til. skulu þer ok hans fund sækia ef þer vilit min raad hafa ok sua megi þer honum min ord bera at ek heit honum minni vingan allri slikri sem ek ma vid komaz ok hann skal her hafa ok hans fylgd fridland huar sem hann kemr i Suiavelldi. gerit honum þann kost at hann skipiz vid allra ydra naudsyn edr þer munit drepa hann ella. þeir hofdu sett gisla at gæta hans medan þeir foru til Birgis þuiat hann hafdi ætlat faur sina vt til Jorsala sidan hann fann þa menn allz einga er honum þotti ser nockurs styrks at von. enn Magnus konungr ok Erlingr iarl hofdu sua mikit vm mælt at eingi madr þordi Sigurd edr Hakon med konungsnafni at nefna. Nu komu þeir aftr er til Birgis voru sendir med brefum Knuz konungs ok iarls ok mælltu sua. su er bæn vor at þer skipiz vid at hialpa þessum fatæka flocki. nu med þui at þer virdit ord vðr þa helldr enn aadr. sua litt sem fyrr tokvm ver ydrum maalum. þa skulum ver nu þat allt sem ver megum vid komazst yduart riki stydia. Enn þo at þeir lockadi hann medr þuilikum goligum ordum sa hann þo eigi at sidr vanefni sin til sua mikils storrædiss ok kuat nei vid. þa mintiz þeir alyktarorda Birgis iarls ok baadu hann þa kiosa vm tua kosti huart hann villdi helldr þeirra maali miskunna edr eiga von bradra vandræda. ok enn mælltu þeir. ver hofum þionat ydrum frændum latid fedr vora ok brædr ok sua marga frændr ok fridland fyrir sakir faudur þins ok hofum iafnan þionat þinum frændum ok enn biodumz ver allir i vandan fyrir ydrar sakir. enn þu villt fyrirlijta oss ok sæmd sialfs þins. nu skalltu vist vita at ver frændr munum drepa ydr ok kaupa oss sua i frid vid Magnus konung ok Erling iarl ok vera ydr grimastir er aadr vorum hollazstir. Suerri þotti þa sitt maal vandaz enn af nyiu ok hugdi at med sialfum ser ok sa at þa mundi skiotaz aldauda verda þat kyn ef hann hætti til þeirra enna hðrdu kosta. Drottinsdag at .vij. vikna fðstu bundu þeir sijtt felag. enn manadaginn eftir geingu .vij. tigir

manna til handa Suerri. gerduz sumir hirdmenn hans enn sumir gestir sumir huskarlar. Vm nottina næstu eftir dreymdi Suerri konung at hann þottiz vera austr i Bergi þar sem Raumelfr fellr i sio ok þotti honum þar vera Magnus konungr ok Erlingr iarl i bænum ok þotti honum allt folk i eftirleitan huar hann mundi vera. hann þottiz fara leyniliga or bænum ok þotti verda fyrir ser Mariukirkia ok sotti þangat tidir. ok er hann þottiz leitaz fyrir i kirkiunni þotti honum ganga at ser madr einn ok tok i haund honum ok leiddi hann i stuku eina nordr i fra saunghusdyrum ok mællti vid hann. gack med mer brodir ek hefir leynt maal vid þik. hann þottiz ganga med honum ok hugdi vandliga at alitum hans ok syndiz sia madr gamall ok sniohuitr fyrir hærum skegg miok mikit ok klædi æfar sijtt riodr i andliti ok stutt haar vmhuerfis ok ogurligr. hann þottiz verda ihugafullr huat sia madr mundi vilia honum. ok fann sa hinn gamli madr þat a honum ok mællti. hræz eigi þu brodir þuiat gud hefir mik sendan. þa þottiz hann hniga til iardar fyrir honum ok mællti. huat manna ertu herra at ek megi vist vita at gud hefir sendan þik. þa suarar hann i annat sinn bad Suerri eigi ottaz ok kuat gud sik sendann hafa til hans. þa vard hann slikt edr hræddari. þa tok sa hinn gamli madr i haund honum ok reisti vpp ok mællti hitt þridia sinn. hræz eigi þu brodir fridr verdi med þer þuiat ek er Samuel spamadr ok ber ek guds erendi þer til handa. eftir þat tok hann horn or skreppu er hann hafdi a haalsi ser ok þotti honum sem krismi væri i. þa mællti sia hinn gamli madr vid Suerri. lat mik sia hendr þinar sagdi hann. hann þottiz fram retta baadar hendr. siþan smurdi þessi madr hendr hans ok mællti sua. smyriz ok helgiz hendr þessar til hatrs vvinum ok motstodumonnum at stiorna morgum lydum. siþan mintiz hann vid Suerri ok tok i haund hans hægri ok mællti vid hann. leita þu nu [583] austr or þraung vuina þinna þuiat þu skalt vera konungr. ok enn mintiz hann vid Suerri ok mællti. styrkstu ok ver hraustr þuiat gud mun fulltingia þer. þa vaknadi hann ok sagdi þegar drauminn þeim .xij. monnum er i þui herbergi voru. þat voru prestar .ij. ok .x. menn adrir. ollum þotti draumrinn mikill ok merkiligr ok wrdu allir þeim draum fegnir. ok er hann leitadi eftir at þeir mundi raada drauminn þa bar eingi traust til. enn ollum þotti betr dreymt enn vdreymt. ok er hann fann at draumrinn mundi eigi raadinn verda. þa bad hann þa ecki mart vm tala þott slikt hefdi fyrir borit. allir þottuz þat finna þeir er þar voru staddir at storum skiptiz hans lunderni eftir þenna draum. var honum þat mikil raun allt saman er hann var i (v)kunnu landi ok vid alla vkunna þiod

ok var þat allt senn er hann hafdi vid foruneyti tekit ok vard þa at bera allann vandan fyrir þeim er honum þionudu. þuiat eingi var sa annarr er raad kynni at gera enn hann sialfr i þessu lidi.

## Suerrir bioz af Vermalandi.

7. Midvikudaginn eftir er ver kollum ðskudag tok Suerrir vid flocki þessum ok hðf ferd sina af Hamri i Vermalandi ok hafdi eigi meira lid enn .lxx. manna ok for i Vikina. enn a þui meeli dreif til hans lid sua at hann hafdi halft fiorda hundrat manna aadr hann kom þar er Saurbær heitir i Vikinni. þar let hann þing stefna ok villdu hans menn þa laata gefa honum konungs nafn. enn hann taldiz vndan þui ok let betr fallit at hans maal væri birt aadr med sannindum. enn þeir villdu þat eigi heyra kuoduz eigi vilia þiona þeim manni er eigi hefdi meiri nafnbot enn einnhuerr þeirra. þat var drottinsdaginn fysta i. fostu. geingu menn þa til handa Suerri ok toku vid suerdi hans. Eigi hafdi hann þeim flocki leingi styrt adr hann sa þat sem fyrr hafdi hann grunat at eigi mundi hann miok mega stydiaz vid þeirra raadagerd. tok hann þa alla ahyggiu ser a hendr at leggia. enn medan þeir voru i Vikinni þa hugdi hann vandliga at haattum þeirra ok athæfi er þa voru komnir i foruneyti hans ok syndiz honum þat folk misiafnt sumir godir dreingir ok spakir menn enn sumir vspakir. þa kom honum i hug at freista huart þat folk villdi fylgia honum til nockurs annars enn vspekta ok raana. þa for hann aftr a Vermaland þuiat hann villdi eigi ræna i Vikinni. villdi hann helldr beriaz til landz sem hann aatti burdi til. þadan gerdi hann ferd sina ok ætlar nordr i land. foru til þess er þeir komu til Eidaskogs. hann kannadi þa lid sitt ok reyndiz sua at margir hofdu med litlum dyggleik til handa honum gengit ok meirr af þui at þeir hug(d)uz raansmenn at geraz helldr enn konungi sinum til sæmdar at beriaz þuiat hann hafdi þa eigi fleira manna enn eina .lxx. þeirra .cccc. er von var. saa hann þa eigi efni sin til þess sem hann hafdi ætlat vid sua litid lid i gegn sliku ofrefli sem van var. sa hann at ecki var at stunda aa þat lid er eigi villdi fylgia honum nordr ok nordan. þottu þeir helldr vilia eggia alla alþydu i hofud ser af raanum ok vspekt enn fylgia ser i mannraunum. ok var honum þa miok annsamt þuiat hann var naliga fyrir ðnduerdu naudigr til konungs tekinn af þessum monnum enn veitt ser einga goda fylgd siþan. Nu ihugadi hann sitt raad ok þottiz engi fong a sia at hann gæti vid þa skiliz af þui at þeir er hellz villdu fylgia honum gættu hans vandliga siþan hann hafdi vid konungs nafni tekit ok gerst ollum kunnr i

landinu. snyr hann nu aftr a Vermaland ok hafdi paschavist med presti einum er vegliga veizlu bio i moti honum. þa sendi hann bref sin nordr a þelamork þuiat þeir voru þa i vsætt vid Magnus konung ok Erling iarl. hann het þeim nockurri rettarbot ef þeir sneri til hans ok stefndi þeim nordr i land til motz vid sik ef þeir villdi til hans.

## Af ferdum Suerris.

8. At lidinni paschavikunni sa hann at þeir mundu eigi komaz nordr i land nema þeir tæki med nockuru erfidi vkunna stiga. þuiat sua storr vidbunadr var vm allt land siþan er menn spurdu at flockr tok at hefiaz austr i landi ok aattu þeir huergi kost at komaz þar i landit er nockurar storbygdir voru fyrir ok sa hann þat at sinu raadi at snua ferd sinni at Eystra salti ok ferr yfir þann skog er var .xij. rasta langr adr Rikisheradit[1] tok til. ok er þeir foru þadan a þann skog er enn var sua langr ok til þess er heitir Molungr. þadan foru þeir enn .xij. rasta skog til Jarnberalandz. a þessum skogum ollum var eingi fæzla aunnur enn fugla holld ok i þessi ferd gerduz margir lutir erfidligr ok þungligir þuiat þeir foru leingi vm vby(g)dir ok þoldu bædi hungr ok mikla mædi þuiat ecki matti hesta vid niota ne annarra fararskiota. þuiat i þenna tima voru vestar færdir er snio leysti af fiollum skogum ok votnum. þeir foru stundum vm moa mosa ok myrar storar. Jarnberaland er vndir Suiakonungs velldi ok var þa enn heidit. hofdu þeir ok alldri fyrr set konung koma i land sijt ok voru þeir vuanir konungs yfirferd. maatti sua at kueda at þar fyndi þann mann trautt er skyn vissi aa konungi edr vissi huart þat var madr edr dyr. var þat ok mikil raun at flytiaz a milli sua ouitra þioda. enn sua mikla miskunn gerdi almattigr gud ok heilug Maria vid Suerri konung at hann feck af þui folki mikinn fagnat ok leyfi til yfirferdar þegar þeir heyrdu ord hans enn optaz vard at fara vm eydimerkr mosa ok vbygdir storar aar ok stauduvötn helldr enn vm mannabygdir. af Jarnberalandi foru þeir vm þann skog er attian rasta var yfir til herads. þadan for hann þann skog er var atta rasta hins fiorda tigar yfirferdar. a þeim skogi var ecki at eta nema borkr ok saafi ok þau ber er vndir snio hofdu legit.

## Ger iartein Suerri konungi.

9. Sa atburdr gerdiz at Suerrir konungr skylldi fara yfir eitt mikit vatn i einni eydimork ok voru þar eingir farskostir i naand nema menn gerdu ser flota or hraam vidi .iij. edr .iiij. saman sua sem

[1]) r. Eikisheradit.

þa maatti verda. ok sa floti er konungr var aa var eigi mikill ok voru þeir .iiij. saman. ok seig þegar flotinn er þeir komu skamt fra landi sua at þeim tok vatnit i mitt bein a flotanum enn vatnit var haalf(r)ar viku breitt. J þui bili kom madr einn a vatzstrondina þreyttr miok af gaungu þuiat þa voru þeir a hinni mestu morkinni enn lidit hafdi aadr verit matlaust .ij. daga. þa kallar sia madr a þa sem a flotanum voru ok bad þa hialpa ser ok kuez vera naliga farinn af mædi. annat lidit var þa komit miok yfir vatnit. ok er konungr heyrdi kall manzins ok þottiz vita at lif hans la vid ef hann tæki hann eigi enn honum þotti þo flotinn varla bera mundu þa sem a voru. hann let þo flotann at landi aftr ok tok manninn þott eigi væri færiligt. ok er sa madr kom a flotann til þeirra þa tok vatnit yfir kne þeim ok foru sua yfir vatnit ok lendu vid laag eina ok geingu þar af flotanum ok for konungr sidazst. ok þegar hann steig af flotanum þa sauck hann nidr sem steinn ok þotti ollum þessi atburdr merkiligr vera. Enn nu er þat ollum synt at sa floti bar þann farm er ætladr var til þeirra storvirkia er þa voru eigi fram komin ok hærri tignar var enn þa hafdi hann er hann flaut vndir mannfarminum enn sauck þegar er menn voru af honum. .II. nætr voru þeir sidan i eydimorkinni ok hofdu eingann mat vtan þeir aatu saafa ok sugu birkiu. enn hinn þridia dag var allt lidit at þrotum komit ok sottu þeir þa sua hart morkina at þa voru stuttar .xij. rastir eftir. þa bar sua til at lidit for yfir aa eina mikla ok lagdiz nidr a aarbackanum sua sem þat kom yfir aana ok nenna eigi at ganga leingra fyrir mædi. voru þeir .iij. saman er sidazst foru ok rak þa langt ofan eftir anne ok sueif at landi vm sidir ok toku huilld eftir þat. þa eggiadi konungr menn sina skoruliga vid at herdaz ok kuat vera skamt þadan i bygdina ok sagdi enn rautt mundu fyrir brenna ef þeir kæmi i bygdina til cristinna manna.

## Fra ferdum Suerris konungs.

10. Nv kom konungr til Jamtalandz ok villdu þeir honum a mot standa. hann sendi þa fyrir Sigurd af Salltnesi ok ætladi sem reyndiz at þeir mundu minnr varaz vitrlig raad er hofdinginn var eigi kominn. enn i þeirri ferd feck Sigurdr skip þeirra oll er þeir hofdu ætlat ser til landvarnar. ok þa er konungr kom sialfr missa bændr skipanna ok var sa þa hinn bezsti at ganga til handa Suerri konungi. þar voru margir lendir menn Magnuss konungs ok geingu þeir allir til sættar. þar voru þa veizlur bunar ok allr greidi. þeir fengu honum .lx. manna. þa byrr hann enn ferd sina þadan ok foru þa enn med sua miklu erfidi

at .v. daga hafdi eingi madr mat ok eigi helldr suafu þeir þuiat konungr villdi at eingi bod færi fyrir þeim. hann kom friadags nott fyrir huitasunnudag i nand vid bæinn. þa spurdu þat kaupangsmenn ok foru ofan yfir ana Nid i moti þeim med .xij.c. manna. þar voru þeir Sigurdr Nichulassun Eirekr Aarnasun Juarr horti Juarr silki Juarr Giafualldz sun. ok er konungr spurdi þessi tidendi þa for hann sialfr i moti þeim vid .i. mann het sa Jon. Suerrir kom i lid þeirra ok vard þa sannliga viss huerr lidsmunr var. ok sa hann sik eigi til færann at beriaz med eitt hundrat manna j moti .xij.c. hurfu þa aftr vid sua buit. þa voru Selbuar enn i safnadi fyrir þeim med .ccc. manna. enn lid Suerris var þa sua mætt af fostu ok erfidi at þeir vrdu þa huilld at taka. þa sendi hann menn (til) Vigleiks af Digrinni at hann mundi fæda lid hans ok vard hann vel vid. ok er þeir foru þadan þa greiddi gud sua maal konungs at hann ok lid hans komz a milli safnadarins ok skipanna. taka þa huert skip þeirra Selbuanna. foru siþan i bygdina þeirra er giarna villdu sitia vm lif þeirra ok bygdu i buum þeirra huersu hagliga er þeim þotti sem aattu. komu þeir sua heim at eingi var annarr til enn iata þui er konungr beiddi. þa lagdi hann gialld a þa haalfs manadar vist. var konungr þa i holmi einum i Selabui. er saa konungs holmr kalladr siþan. þadan foru þeir vm nott sua at eingi madr vard varr vid enn þeir sa oll tidendi til beiarins ok sua heyrdu þeir mart þat er vm þa var talat. Gauldælir hofdu ok mikinn safnat ok sa þeir þat ok gerla. enn nockura daga vard eigi vart vid þa. þa slitu þeir safnadinum. þeir Birkibeinar sa þetta þegar ok sloguz eftir a hæla þeim ok komu i bygdina at þeim vuorum. vrdu þeir þa vndir allt þat at ganga er konungr krafdi þa. þetta spurdiz braatt til biarens ok gerdu þeir þa enn mikit lid or bænum eftir þeim. þeir letu þa enn vndan at sinni ok foru vpp i Soknadal. ok þa er konungr kom þar spurdi hann at Rutr ok .lxxx. manna med honum voru komnir af þelamork eftir ritum þeim er Suerrir konungr hafdi sent þangat. þeim tidendum vard hann feginn ok for i mot þeim vpp i Rennabu.

## Sigr Suerris konungs.

11. Eftir þetta vendir hann aftr ok hafdi þa .lxxx. manna ok .c. þeir foru þar til er þeir komu til Gaularass ok flutluz þar yfir a e(i)kium. ok þa .xx. menn er fyst foru yfir aana gerdi konungr a niosn. var þar Jonn Gudrunar [590] sun af Sandi fyrir þi lidi. bæiarmenn hofdu ok sent niosn af sinni hendi .vij. menn ok hittuz þeir a niosninne ok voru bæiarmenn drepnir .iiij. enn einn handtekinn enn .ij. komuz at bera

bod til bæ(ia)rins. þa foru bęiarmenn vt med fylktu lidi ok hofdu .xij.c. manna. þa mællti Juarr horti. nu skulum ver beita þa brogdum. munu ver fela lid vart sumt þuiat eigi þora þeir til at raada ef þeir sia allt lidit. Siþan settu þeir .vij.c. manna vndir gard einn ok ætludu at þeir skylldu koma i opna skiolldu þeim er saman lysti lidinu. þeir taka ok þaa dirfd a sik at taka merki hins helga Olafs konungs ok letu bera a mot Suerri konungi. Gafz þeim þat sua sem nu megi þer heyra. sa madr var settr a hestbak er merkit bar ok leypir eftir lidinu ok feck eigi stauduat hestinn hleypir vpp a .ij. menn ok feck annar þegar bana enn annarr aurkuml sua at alldri vard heill enn hann sialfr fell af baki ok misti þa merkit. Suerrir konungr fylkti þa sinu lidi a moti þeim .v.c. manna er i fylkinginni voru. skipadi hann saman bogmonnum sinum ok neytti þa huerr sinna vopna. enn þeir er stodu vndir gardinum vrdu eigi fyrr vid varir enn ǫrfar flugu huinandi yfir hofut þeim. komu þeir fystir a flotta er Juarr hugdiz allan sigr vndir eiga. þa rennr huerr at odrum ok attu þeir sigri at fagna er vlikari mundi til þickia fyrir lids-fiolda sakir. felldi konungr þar Juar silki ok Juar Giafualldz sun ok med þeim meirr enn .c. manna. þeir toku þa merki hins helga Olafs konungs ok baaru i bæinn med fogrum sigri enn hofdingiar þeir sem eftir voru foru hingat ok þangat sem mys i holur. Eirekr Aarnasun var þar handtekinn. toku menn ser þa grid ok geingu margir þa med miuklæti til Suerris er adr hofdu med ofmetnadi blasit i mot honum. enn hann kunni gudi almatkum aufusu sigrs þess er hann hafdi þa feingit ok syndi hann med þui at hann gaf huerium manni grid er til hans kom ok þess krafdi. Hann þottiz þat sia at sua mart stormennį sem vndan flydi at þat mundi vilia suikum at honum koma ef hann sęgi eigi vid. þa sendi hann niosnarmenn wt ok inn fra bænum. voru þeir þriar nætr a brottu komu aftr med þeim tidendum at Jnnþrændir hofdu saman dregit lid mikit ok voru þa aa faur komnir. enn Juarr hafdi .l. skipa vid Raudabiorg. Enn er þessi tidendi koma aull fyrir Suerri konung þa sa hann at eigi var setuefni. hliopu þa til skipa ok feng(u) .xi. skutur. ok er þeir hofdu skamt rǫit fra Holmi saa þeir flota Jnn-þrænda er innan foru ok komu i skotmaal vid þa enn .ix. byrdingar laagu vid Raudabiorg ok villdi konungr ecki vid þa eiga þuiat þat voru kaupmenn nordan or Vǫgum. enn konungr villdi eigi kaupmonnum mein gera. þar laagu ok skutur .xj. ok langskip eitt er Juar hafdi saman dregit. þeir flydu þegar ok þordu ecki at eiga vid Birkibeina. enn konungr for wt til Agdanes ok hitti þar .ix. skutur ok lagdi þegar at þeim. þeir fengu þeskonar kaupferd at þeir selldu (klædi) sin ok

vapn enn fengu i moti knuskun ok illeikni. letu ok allt þat er þeir hofdu laust annat. konungr let eigi drepa þa. þadan foru þeir til Folksnar ok hittu þar byrding er Juarr aatti ok a fiarlut til .vj. marka gullz ok toku þeir þat allt. þadan foru þeir sudr a Mæri ok hittu þar .xiiij. skutur ok var þar slikr markadr þeim giorr sem hinum fyrrum enn huorirtueggiu villdu til Juars fara ef eigi kæmi troll milli huss ok heima.

## Gefit Suerri konungsnafn a Eyrarþingi.

12. Eftir þetta snyr konungr nordr aftr til kaupangs. ok er þeir komu þangat þa gerdu biarmenn sem þeim somdi vid konung ok hringdu vm allann stadinn ok geingu processionem i mot honum. siþan let hann stefna Eyrarþing ok nefndi til .xij. menn or hueriu fylki þeirra aatta er eru fyrir innan Agdanes. enn er þeir komu þar þa var Suerri konungsnafn gefit a þessu .viij. fylkna þingi ok dæmt med vopnataki ok honum suarit land ok þegnar eftir fornum landzlogum. þessi nymæli koma braatt fyrir Magnus konung ok Erling iarl. þeir saufnudu þegar lidi ok stefndu nordr med landi. þat spurdi Suerrir konungr ok villdi eigi bida. tok skip sin ok menn sina. foru vt i Orkadal settu vpp skipin logdu i elld ok brendu. enn siþan foru þeir a Vpplond til þess er þeir komu yfir Dofrafiall i Gudbrandzdali þar attu þeir þing. þadan foru þeir til vatz þess er Miors heitir. enn i Miors var safnadr lendra manna ok hofdu attian skip. þar voru .iij. lendir menn Juarr af Saastodum Snæbiorn Sindrasun Juarr gęllingr. þeir hofdu annan safnat a landi .xij.c. manna enn Suerrir konungr hafdi .cc. manna. þa le(i)tadi konungr raads vid lid sitt huersu haatta skylldi enn þeir villdu allir beriaz. Konungr suaradi. eigi syniz mer þetta þannig sem ydr. þuiat mer þickir her ofrefli vid at briotaz. ætla ek odruviss vænna til minna harma at reka helldr enn i slika snðru at ganga þuiat eigi er mins fodur edr brædra at hefndra edr margs annars forelldris at ek se vid iordu lagdr edr rekinn a flotta. þa foru þeir at vvilia sinum eftir raadi konungs dagleid þadan ok gerdi konungr fyrir fram .xl. manna a Hadaland[1] til vatz þess er Raund heitir ok toku aull skip þau er þar voru. Enn er konungr kom þar þa voru þar fyrir .iij. samnadir .ccc. i tueim stodum enn .v.c. i einum stad. þa skipti konungr lidi sinu i helminga. hafdi hann sialfr .c. manna enn annat .c. sendi hann til bws Ozsorar bilsa ok taka þar vel til .xx. marka gullz. Enn medan þeir voru i brottu þa villdi konungr eigi ecki at hafaz reed hann þa til atlogu eigi med fleira lid vid þann safnat er fyrir [591]

[1]) Haurdaland *Cd.*

var .ccc. manna. þa biugguz huarirtueggiu vid eftir sinum fongum. genguz sidan a moti. Enn er Birkibeinar ofrudu vopnum sinum þa skaut hinum þegar skelk i bringu boandkǫrlunum. toku þeir ser þa betra raad. baadu grida kaustudu vopnunum ok syndu sua hræzluna. Suerrir konungr gerdi sem hann var vanr ok gaf huerium manni grid er bad. ok er adrir þeir er i safnadinum voru saa huersu fostbrædr þeirra hofdu farit þa sættuz þeir vid konung. ok var þa þeirri hlydni iattat sem alldri var fyrr a Hadalandi ok var þar þing stefnt. skylldi konungr eiga saattarfund vid þa. Sa sættarfundr var eigi ætladr prettalauss af bændum þuiat þeir saa at konungr hafdi lid litid ok ætlu(du) þeir at veita konungi atgaungu þar a þinginu. Enn þann dag er þingit skylldi vera komu þeir þar er farit hofdu at taka bu Ozsurar ok var þa meira lid konungs enn bændr ætludu ok þordu þeir þa ecki ord i adra skaal at leggia enn konungr villdi. lagdi hann slikt allt a hendr þeim sem hann villdi at væri ok iattudu þeir þui ollu er konungr mællti til ok voru þeir þa kalladir saattir. enn þa reyndiz sem fyrr at skollr var i skapi boandkarla. toku þeir þa þat raad at senda Ormi konungsbrodur ord at hann skylldi fara vtan or Vikinni at konungi þuiat hann hafdiz þa aa skipum vid. enn þeir kuoduz mundu koma a moti ef hann villdi vndan. þa let Ormr myklu lidi safna ok let draga storskip or þui vatni er Tyrfi heitir ok ætladi vpp i Raund at Suerri konungi. þa var Suerrir konungr a skipum. sua var gislum fyrir skipat at a Heidmork voru .xiiij. skip i Miors. Allt þetta spurdi Suerrir konungr. hann gerdi þa raad sijtt ok let sem hann villdi fara wt a mǫt Ormi ok gerdi þangat alla niosn sina. þa for hann i skog ok .lx. manna med honum ok felldi vidu. þat vissi eingi huat þui skylldi. enn hann hafdi sua bodit sinum monnum at allir skylldu eftir honum breyta ok sua gerdu þeir ok þagat skylldu allir koma sem hann var. i dagan vm morgininn kuodu ludrar vid ok stod þa lidit vpp allt enn þo vissi eingi huat konungr villdi at hafaz. enn er menn voru klæddir þa skipadi hann lidi sinu þat at gera er a alla kom vuara at draga skip þau er i Rǫnd voru .v. rastir þar sem alldri hafdi fyrr med skip farit verit. þa þurfti eigi at spyria at huat vidr sa skylldi er hann let fella i skoginum þuiat þat voru þa hlunnar. þeir lettu ei fyrr enn þeir komu i Miǫrs. ok er þeir komu þar þa veittu þeir atrǫdr vonum braadara at þeim lendum monnum er þar voru fyrir. þeirra vidskiftum lauk sua at saa feck gagn er gud villdi. Suerrir konungr rak þa i brott sina fiandmenn. enn er þar var hreinsat for hann til Hamars kaupangs ok aatti þar þing. mællti þa engi a mot hans vilia eitt ord. enn þo at lendir menn flydi

fyrir konungi þa foru þeir sudr i vatnit enn konungr var nordr ok var þo langt a milli þeirra þuiat Miðrs er sua mikit vatn at likara er sio.

## Ferd Suerris konungs.

13. Halluardr a Sastodum ok adrir lendir menn hofdu mikla veizlu a Saastodum ok baud ollum til þeim er þiggia villdu at þeirra flockr yrdi sem mestr. ok var þar kirkiumessa. þar voru .ccc. manna at þui bodi enn þo komu fleiri enn bodit var. Birkibeinar komu ok til kirk(iu)messo dags ok biugguz til orrostu. ok fylktu huorirtueggiu lidi sinu. genguz siþan a moti ok skutuz aa ok braatt þegar logdu lendir menn aa flotta ok lid þeirra. voru drepnir fyrir þeim .vij. menn en .v. handteknir. Nu toku þeir veizluna er vbodit kuomu enn hinir a brott eltir er bua leetu. þeir runnu til Orms konungsbrodur ok sogdu sinar farir eigi slettar. þa let konungr spyria þa menn er handteknir voru huar folgin væri skip þeirra ok sogdu þeir þar til. tok konungr þau haundum ok hofdu þeir þa aull skip þau er i Miðrs voru sma ok stor. þar tok konungr fiaarlut þeirra hinna lendu manna ok allra þeirra er vndan flydu sua landzskylldir þær allar er Magnus konungr ok Erlingr iarl ætludu ser. Suerrir konungr hafdi þa eignaz Vpplond ðll ok Eystridali ok vard iafnan þeirra luti betri er til hans miskunnar leitudu enn hinna er fra beittu. Nu sua sem menn sa þat at afli hans vox meirr af vitrligum raadum enn af fiolmenni þa þotti morgum fysiligt til hans at stunda. safnaz þa lid til handa honum sua at þa hafdi hann .ccc. manna. þa komu þeir i Vikina Magnus konungr ok Erlingr iarl ok heyrdu þessi tidendi fra Birkibeinum er nu voru sogd. saufnudu nu lidi af nyiu vm alla Vikina ok fa sua mart lid at þat var vuigr herr ok ofrefli i mot .ccc. manna. ok er Suerrir konungr spyrr þat þa sa hann at honum var þat vraad at bida i stad þessa haaska ok ens mikla ogrynnis lids.

## Suerrir byr ferd sina til Biorgyniar.

14. Nv byrr Suerrir konungr ferd sina ofan i Sogn ok ætladi til Biorgyniar. Nu af þui at almattigr gud ok heilug Maria hafa margann sigr fagran Suerri konungi gefit þa kann vera at ofundarmenn vuitrir vili eigi trua frasogn vorri ok kalli at ver munum eigi vera sannfrodir ef ver segium hann iafnann sigr haft hafa. nu skulum ver hneckia þeirra tortrygd ok syna einurd vorrar frasagnar segia nu bædi liuft ok leitt þuiat margann vijlstig vard Suerrir at troda ok hans menn

aadr rekit yrdi sua margra ok storra harma sem hann atti þeim fedgum at giallda edr hann fengi sina fodurleifd med suerdi sôtt af sliku stormenni sem i mot var ok ei med meira flock enn hann hafdi. enn þo hann hafi [592] haft morgu sinni mikil vandrædi þa kom þo alldri sua mikill akafi allzkonar vhæginda bædi af mædi ok illindum suefnleysi ok matleysi a haund Suerri konungi sem i þessari ferd. Nv byriar hann ferd sina ok ætlar til Biorgyniar. enn er hann kom i Sogn þa hofdu skiotara farit niosnir fiandmanna hans ok mætti hann þar miklum safnadi. Var þat hitt fysta er hann kom ofan med lid sitt i Sogn at leid hans laa i eitt einstigi þar er aa var a adra hond sua straung at oll fell med forsum sua at ecki maatti kuikt yfir komaz nema fugl einn fliugandi. a adra hônd voru flugabiorg þau er eingann veg maatti yfir komaz. einstigit var sua þraungt at eigi maatti fara meirr enn einn madr senn. þar saatu bændr yfir vppi a homrunum med mikinn safnat ok hofdu þar griot ok storuidu ok ætla at fella ofan fyrir hamrana ef lid konungs geingi undir nidri. Ok er konungr sa þetta mællti hann vid lid sitt. nu skal raad raadi mæta skolu þer færa ydr vpp vndir bergit sua at þeir megi ydr ecki mein gera enn þer skulit þo vid þa glettaz i þui sem þer megit vid komaz enn ek mun vita at ek megi koma stauck i lid þeirra. For hann sidan ok nockurir menn med honum þar sem hann maatti komaz a fiallit vpp ok kom siþan a bak þeim at þeim vuorum. þa komu þeir þegar a flotta ok nockurir drepnir. Siþan for hann i bygdina i Leradal[1] ok var þar med lid sitt. enn vm morguninn vrdu þeir eigi fyrr varir vid enn Ozsur bilsi kom þar med .v. skipum ok .xx. taka Birkibeinar þaa til vapna sinna ok geingu a mot þeim. enn þott skipamenn hefdi lid mikit þa treystuz þeir eigi vpp at ganga þuiat þeim þotti vreint i hofninni fyrir ok helldu þeir fra.

### Fra Hakoni (!) konungi ok hans monnum.

15. Nv sa konungr at ecki maatti þar skipum naa þuiat allstadar foru niosnir. ætla nu at fara a Vôrs ok koma sua ofan i Biorgin. þat var mikil haaskaferd a vetrardag þuiat þat er mikill fiallvegr var þa vân mikilla sniofa. þat raad taka þeir þuiat þeim var bardaga audit i þui sinne. þeir fara vpp a Vôrs ok braaz þeim eigi margfalldr haaski. var sa hinn fysti at þa hofdu saman safnaz fiandmenn þeirra Vaursar allir ok margir Sygnir Hardengir Sunnhaurdar ok var þat vvigr herr. kom þat lid allt a vuara Birkibeina Simons messudag er konungr sat at mat ok

[1]) Veradal *Cd.*

ætladi sidan at ferdaz. ok er þeir vrdu varir vid hliopu þeir vndan bordum herklædduz ok bidu lidsmanna sinna þuiat þeir hofdu eigi allir eitt herbergi haft vm nattina. ok er allt lidit kom saman fylktu Birkibeinar lidi sinu ok sua bændr. enn þo at Birkibeinar væri lidfærri þa villdu þeir eigi at sidr til raada. gerdu sua harda hridina fystu at þegar hrðck fylkingaroddr þeirra bændanna ok flydu þeir yfir aargliufr nockur ok foru siþan sinu megin huorir ok skutuz aa ok villdu bændr komaz fyrir þa ok siþan i opna skiolldu þeim. enn gliufrin voru þui breidari sem ofarr var ok vatn at ofanverdum. var þeirra ok þui leingra a millum er þeir foru leingr. tok þa at natta sua at fal syn a milli þeirra sua at þa maatti ecki at hafaz. var þa eingi kostr at fara til Biorgyniar þuiat allt var niosnum fyrir komit ok var i Biorgyn sua mikill styrkr fyrir ok mannfioldi at Birkibeinum var þar vuært. Nu villdi konungr hallda aftr somu leid. þa tok hann .v. leidsogumenn þa er veguissastir voru ok þess þurfti þa ok vid þuiat þa gerdi vedr sua hord at sialldan verda slik. kom þa mikill sniorr sua at furda var at. fra þui er skiott at segia þar letu þeir meirr enn .xx. hesta ok .c. med gylldum sodlum ok bitlum ok margskonar gripum i klædum ok morgum odrum lutum. þat fylgdi ok þui at þeir vissu ecki huar þeir foru ok sua matlausir at eigi feingu þeir vatn helldr enn annat. þat var .viij. daga at þeir bergdu eingu nema snio. var sua stort vedr enn næsta dag eftir allra heilagra messo sem vlikligt ma þickia at af þui feck einn madr bana at vindrinn braut hrygginn i þrim stodum sundr i honum. ok sa einn var til þa er bylirnir komu at hallda skiolldum yfir sik ok kasta ser i snioinn. þa logduz leidsogumenn fyrir þuiat þeir vissu eigi huar þeir foru var ok sua myrkt at ecki maatti fyrir sia. var þa ok sua fyrirkomit lidit þeirra sem huerr ma ætla af ollu saman sullti ok mædi enn sumir af kulda. þa var sua fyrirkomit megin þeirra bædi af illuidri ok odrum lutum at engi villdi leingra fara. ok þa er helltz maatti nockut sia fra ser þa saa þeir at þar voru fyrir brattir hamrar sem þeir voru at komnir. þa kom illr kurr i lid þeirra. sumir mælltu at þeir mundi ganga fyrir hamra fram ok þola eigi leingr sua mikla k(u)aul ok þa mundi skiotaz vm gera. sumir mælltu sua. dreingiligra syniz oss til fornra minna[1] at taka ok gera eftir dæmum þeirra er sialfir baaruz vopn aa ok drapuz helldr enn vilia naudgir þola pinur til dauda.

## Tal Suerris.

16. Þa tok Suerrir konungr til orda ok beiddi ser hliods þa er hann sa at þetta mundi eigi fyrirfaraz. hann mællti sem gud kendi

[1]) m̄ (*d. e.* manna) *Cd.*

honum. nu þo at ver megim eigi slikum ordum til koma þa verdr þo med ordum hueria sogu fram at flytia. ek hefi at hugat segir hann yduarri rædu ok syniz mer audsyn allmikil spell a vera. þuiat ecki uetta dugir at þessi ætlan ef þer gangit fyrir hamra fram ok raadit ydr sialfir bana. þat er ærra manna tiltekia þeirra er eigi kunna fotum sinum forraad. enn med þui at þer vilit sialfir vopn a beraz þa er þat þo enn ærra manna haattr ok þo þeirra er ecki vitu til guds. enn ver erum kristinna manna [593] bǫrn ok vitum ver at sa huerr er sialfr rædr ser bana a einga vân til guds. nu er þetta fiandans aminning ok skulum ver eigi at hans vilia gera. skulum ver nu snuaz til guds. laatum oss þat i hug koma þott oss þicki strangr bardagi guds at hann mun þo eigi gaguigr at verda ok þar mikit a leggia[1] er litid er af gert. nu idrumz ver synda vorra ok vitum at af lidi illvidri þat er ver erum med bardir af gudi. þui skulum ver med miuklæti ok litillæti til hans snuaz þui hann sialfr mællti sua. nemi þer at mer þuiat ek er miuklatr ok litillatr i hiarta minu ok munu þer finna huilld ǫndum ydrum. nu ma huerr þat sia at betra er at luta med godum lutum til guds miskunar helldr enn hrapa med vraadum i fiandans hendr. vil ek at þer iattid þui at þat heit er ek set skolu þer hallda. nu skulum ver allir kalla til guds ok heilagrar Mariu ok hins heilaga Olafs konungs med bænahalldi. Attu þeir at þessu vapnatak þat heit at hallda er konungr rede vpp kueda. Enn sua mikill akafi var af huassleik illuidris er konungr tok at tala at varla naamu þeir er næstir voru. enn þa er hann hafdi fyrir heitinu skilt þa gaf gud sua haleita miskunn at þa þottiz eingi vita huatan vindr var aa. gerdi þa þegar heiduidri ok solskin ok sua blitt vedr sem mitt sumar væri. Nu kendu þeir huar þeir voru komnir ok hofdu þuers farit fra þui er þeir villdu. enn sua var lid þeirra dasat at .xxx. manna fellu daudir nidr aa skamri stundu. Nu leitudu þeir til bygda var ferd þeirra sein ok omiuk komu þeir til sætra nockurra. þar fysti þa at huilaz. þa leitudu þeir vid at taka ser elld þuiat ærin þǫrf var til þess. þat var nær midri natt. sua voru þeir farnir miok at engi var til þess færr. nu var þat sem fleira at i einn stad var til at sia med guds miskunn elldinn at taka en þar la lijf þeirra vid. ok feck sa elldinn tekit er mestri giftu styrdi i þeirra flocki ok oll raadagiord fylgdi. Suerrir konungr sialfr tok elldinn vid tinnu ok tendradi vid kerti feck þa i hond sinum monnum. gerdu þar af elld mikinn. siþan þurkudu þeir sik ok vermdu sik. þar var einn litill bær ok for konungr til bonda er þar bio enn sumt lid for i meginbygdina. enn

[1]) liggia *Cd.*

er konungr sa at lid hans var mott þa for hann sialfr ok þeir menn hans er bezst voru færir at hallda vord þuiat þar var einstigi þat er þeir voru allir hirdir ef þess var gætt. Konungr var a þui vardhalldi til hins þridia dags enn þa vildi hann fara til meiri bygdar. torfæra var þar mikil milli bygdanna fiallvegr storr ella vard at fara vm berghlid bratta sua at mannhaaski var i. lid konungs villdi eigi a fioll þuiat þegar lagdi hinu somu illvidri a er þeir komu i bygdina. Siþan for hann vpp aa Valldres ok tok þar veizlur a buum sinum ok þadan i Gudbrandzdali ok var honum þar buin haalfs manadar veizla at bui konungs a Steig ok ollu lidi hans. hedan i fra var enn eigi vm kyrt at sitia. voru þeir .xij. a Heidmork er saman sofnuduz sua at huerr þeirra var fyrir .c. lidi. þar voru ok menn Magnuss konungs or Hamarkaupangi. Ok er Suerrir konungr vard varr slikra tidenda þa bio hann ferd sina or Daulunum ok villdi eigi verda inni læstr ef þeir kæmi fyrir dalminnit. Sa bondi er nefndr þorgrimr er fyrir var bændunum ok mest huatti. enn konungr flytti ferdinni .þuiat hann sialfr villdi helldr bera niosn enn adrir bæri fyrir honum. þa for konungr sialfr eina natt vid .v. mann fra lidi sinu. þa nott for hann ok kom til þorgrims ok hitti hann heima vid niunda mann. ok vard fundr þeirra med odrum hætti enn þorgrimr hafdi til hugat þuiat gud skipti sua med þeim at sa hafdi hærra lut er tignari var ok var bondi bundinn enn huskarlar hans bardir. sua lauk þeirra mali at konungr tok þar mikla fiarluti fyrir þorgrimi ok a ofan gallt hann konungi haalfa mork gullz ok vard þo feginn er konungr villdi þiggia þat ok hann vard lauss.

## Fra ferdum Suerris konungs.

17. þa for konungr til Hamars kaupangs ok var Haralldr þar hondum tekinn Gudbran(dz)sun. hann var frændi konungs ok baadu margir at hann leti eigi drepa hann ok gallt .xij. aura gullz enn adrir menn Magnuss konungs komuz af hlaupi vndan ok letu fiarluti mikla i allzkonar lutum. þa for Suerrir konungr i Eystridali ok kom þar .v. nattum fyrir iol. hugdu bændr at hann mundi setiaz i kosti þeirra vm iolin med sitt lid ok toku sua vid at sia at engi madr let ser iulaue(i)zlu bua huarki mungaat ne adra kosti. enn er konungr sa þeirra raad gerir hann sitt raad. þuiat hann ok lid hans þurfti eigi at sidr iolavistina þott bændr villdi eigi bregdaz vel a beina vid hann. snyr hann ferd sinni i brott þadan ok let at hann mundi fara til Vermalandz ok for til Eidaskogs sem leid la. enn er hann kom þar skilr hann flock sinn ok lætr fara .c. manna austr til Vermalandz ok voru þeir þar vel

komnir. konungr sneri þa aftr leidinni i Dalina med .cc. manna þuiat hann þottiz vita at þegar mundu þeir bua iolaueizlurnar er þeir hofdu brott farit. ok reyndiz þat sem mart annat eftir ætlan hans. komu þeir aftr at iulunum i bygdina ok vard þa at veita huersugi er vasikampr villdi ok hafdi konungr enar bezstu veizlur vm iolin þar sem hann kom.

## Fra Erlingi iarli ok hans raadum.

18. Erlingr iarl var þa i Vikinni er hann spurdi þetta ok eirdi honum illa. let hann þa lypta miklum leidangri þegar a bak iolunum ok hugdiz [594] mundu koma þeim dyn fyrir dyrr at teppa þa alla inni i Daulunum ok taka þa i einni kui sem saudi til skurdar. enn þar mætti raad raadi ok hafdi konungr sett þar snemma forka vid at eigi skylldu vuinir hans geta veiddann hann i þessi snauru ok hafdi sett radit at taka hinar fystu veizlur i nordanverdum Dolunum ok sotti sua sudr at mynnum sem a leid iolin. ok var hann fyrr a brottu ok vppi a Vermalandi (enn jarl kom vpp þannig ok atti hann þa at blistra i spor honum. ætlar iarl nu at fara austr eftir honum a Vermaland). enn þeir hnecktu þui ok kuodu hann (eigi) verri faur farit skylldu hafa. taka þa ok felldu brota fyrir hann a skoginum. ok vid þat allt saman huarf [Suerrir konungr[1] aftr af Vermalandi.

## Suerrir konungr brendi bu Simonar.

19. Suerrir konungr safnar nu saman ollu lidi sinu ok reid med .v.c. manna ofan i Vikina til bua Simonar i Skrixvik toku vpp buit enn brendu bæinn ok oll langskip hans ok austrfararskip alnytt ok .xl. nauta let hann reka a Vermaland. Enn er Simon fra skada sinn þa let hann skera vpp heraur at þeim Birkibeinum ok boda þangat þegn ok þræl til þeirrar herfarar. Simon var hofdingi mikill ok rikr ok þordi engi madr moti gera þui er hann villdi ok dro hann saman a litilli stundu .cccc. ok .xx. enn konungr var farinn allt austr til Elfar ok var kominn til landamæris. Simon for vpp med Gautelfi þa er konungr var i einni bygd ok var vida lidi hans dreift til gistinga sem van var i litilli bygd enda vissi konungr eigi sua braadann haaska sem gerdiz. ok er konungr var sofa farinn ok lid hans þa kom honum niosn er vinir hans sendu honum af Gautlandi at Simon for med vuigiann her ok mundi skiott standa a hondum honum nema hann varadiz. enn er konungr spurdi þat þa vard skiott til klæda at taka ok vapna. sendir bod lidinu ok var þat eigi skiott þuiat lidit var her ok huar. Konungr for i skog þann er heitir Hufanes skogr ok beid þar lids sins. ok er menn

[1]) r. Erlingr iarl

voru komnir leitar hann vid lid sitt huat til raads skal taka. kuat eigi mundu raadligt at beriaz vid Magnus konung edr Erling jarl ef þeir skylldu flyia fyrir lendum monnum fyrr enn þeir vissi huat fyrir væri þott þeir hefdi mikit lid. allir kuoduz helldr beriaz villdu vid Simon enn flyia ok ætludu þo eigi sua mikit lid Simonar sem var. foru siþan i moti lidinu ok mættuz vid dag i sua miklu nidmyrkri at engi sa fyrr enn merkit gnæuadi yfir þeim vppi toku þa þegar at beriaz. var su orrosta allhord ok eigi lǫng enn sua lauk at gud gaf konungi fagrann sigr ok fell af Simoni .c. manna ok .xl. enn af konungi .vj. einir menn. þeir treystuz eigi at reka flottann bædi fyrir fiolda lidsins ok myrkri þui sem aa var.

## Suerrir konungr kom i Vermaland.

20. Her eftir for Suerrir konungr til Konungahellu ok feck þar fiarluti mikla þeirra manna er flyit hofdu. enn lagdi gialld a bæinn .xx. merkr vegnar. þo var hann þar eigi leingr enn .ij. nætr þuiat hann hugdi at sua mikit lid sem flyit hafdi med Simoni at þat mundi aftr huerfa. þadan for hann til Liodhusa ok dualdiz þar nockura daga. þa drogu þeir Magnus konungr ok Erlingr iarl mikit lid saman sua at alla lenda menn þa er i voru Vikinni hofdu þeir med ser. enn þo bar sua til at huorigir vissu til annarra ok foruz þo i mot þuiat Suerrir konungr hafdi enn ætlat at gilldra til veida nockurra i Vikinne ef i hendr bæri. þat var eina nott at eigi (var) lengra a milli nattstada þeirra enn raust ok vissu þat huorigir. enn af þui nattboli foru huorir a mot odrum til þess at eigi var leingra milli þeirra enn fiordungr rastar. þa vard Suerrir konungr varr vid huar þeir foru fedgar med lid sitt ok sneri þegar aptr vnz hann kom a Vermaland. þa hafdi hann stefnu vid alla hina vitruzstu menn ok ena rikuzstu ok spurdi huart þeir villdi hafa vid hann samband edr eigi. ok væri hann briost fyrir þeim ok hlifiskiolldr enn landzmenn legdi til fiolmenni. þeir kuoduz giarna þat kaup vilia vid hann eiga at beriaz sua med honum sem hann væri þeirra konungr. Sunndælir mælltu slikum ordum at þeir mundu gefa þeim bakslettu[1] ecki hagliga ef þeir leitadi a hendr honum austr þangat. Magnus konungr ok Erlingr iarl þa er þeir heyrdu þetta hurfu aftr vid sua buit. þa sendu þeir Orm konungsbrodur a Vpplond þuiat þar var frænda afli hans allr. skylldi hann sitia þar fyrir ef Suerrir konungr leitadi þangat af Vermalandi. þa sa Suerrir konungr at þar var ecki arenniligt. byr hann þa ferd sina allt i et Eystra sallt ok hafdi þa eigi

[1]) babslettu *Cd.*

meira lid enn .cc. manna. ok er hann kom til Jarnberalandz þa var þar mikill safnadr fyrir. þeir kuoduz ecki vanir konunga yfirferd ok ei kuoduz þeir enn vilia. þa reid konungr at fram ok aatti tal vid þa enn sua lauk tali þeirra at þeir leyfdu honum at fara sem hann villdi ok gerdu honum allan greidskap sem bezstann mattu þeir.

### Ferd Suerris konungs. capitulum.

21. þa for Suerrir konungr i Helsingialand ok er hann kom þar er Alftar heita þa mætti hann þar miklu fiolmenni ok safnadi i mot ser eigi minna enn .xxx.c. allt til bardaga buit ok var .c. manna albryniat. þetta lid allt hafdi lagt vid nidingsord huerium manni er þeim eirdi eda leti þa fram fara. ok hofdu haft at þessu vapnatak. þat fylgdi ok at þeir leyfdu eingum hans manna a sitt þing at koma ne eitt ord at mæla. enn þat vard vm sidir at þeim var leyft at heyra maal manna. þa mællti konungr vid sina menn. at þeir skylldu fylkia lidi sinu ok vera vid bunir huat er þessi lydr tæki til. Enn er landzmenn saa þat geckz þeim vid þat hugr. ok þadan af skilldi konungr ganga a þing þeirra enn menn hans skylldu bera fram erindi hans enn sialfum honum var eigi lofat at tala. Helsingiar kuodu hann alldri þar skylldu fram komaz ok baadu hann aftr huerfa somu leid. Nu kom þar vm sidir at konungi var lofat at tala eitt erendi. hann tok sua til orda. eigi er oss kunnigt huern sakarstad þer megit oss gefa enn at þui er ydr at hyggia at ver eigum einn gud allir ok kollum hann vǫrn faudur. þa er þat naudsyn [555] at huerr vorr hafi grid ok frid vid annan ok gæti huerr annars sem sialfs sins. þat er ok at minir menn hafa ydr alldri mein gert. hyggit at huersu litid gott þer hafit haft af Magnusi konungi edr Erlingi iarli. Siþan lætr hann leida fram ross .ij. ok kuez slatra skyll(d)u ok kuat þat a huert land fara mundu ef þeir sperdi sua mat sinn at kristnir menn þyrfti at eta rossakiot hia þeim ef þeir skylldi hallda lifinu. Ok er hann lauk sinu maali þa baud sa honum til veizlu vid .xl. manna er aadr hafdi nidingsnafn vid lagit ef hann nædi yfirfǫr. Siþan bioda bændr lidi hans til veizlu. Jamtar spurdu huersu Helsingium hafdi farit ok toku þeir vel vid konungi ok ferr hann at veizlum vm landit austan. ok er hann kemr nordr i landit treystir hann vel þeirra vinmælum ok sendir fra ser lidit i bygdina til gistinga sua at konungr hafdi eigi vm .c. lids eftir. þa var þat a midri nott at madr kom til hans ok bar honum niosn at Jamtar hofdu safnat saman lidi austan af landinu ok foru eftir honum med þegn ok þræl ok ætludu at drepa hann ok allt lid hans. i þessu raadi voru allir

lendir menn. Konungr stod vpp þegar ok let vekia alla sina menn ok bad þa vopnaz sem skiotaz sagdi þeim huerra tiþenda hann var viss vordinn. quaz mest rædaz vm menn sina er i bygdina hofdu farit. þa for (hann) þegar vm nottina med þat lid er honum fylgdi ok i moti þannig er hann spurdi er Jamtar voru. enn þeir hofdu farit i þrimr flockum ok kringt sua vmhuerfis konung. ok þa er Suerrir konungr for yfir valzvik nockura milli Vndukseyiar ok meginlandz þa kom a mot honum herr Jamta ok var ringr sleginn vm þa ok hofdu Jamtar þar .xij.c. manna. þa mællti konungr til sinna manna. hafit þa eggian ok þat ordtak milli yduar sem þer heyrit Jamta hafa ok heimtumz þegar er ver megum or her þeirra ok vt i eyna. enn veitum þeim fyst harda araas freistum ef þeir vikni fyrir. Birkibeinar æſtu herðp ok helldu fram diarfliga. enn Jamtar sottu at þeim huadanæfa. var þar orrosta mikil þar til er sua var myrkt af natt at eingi kendi annann at syn. þa heimtaz Birkibeinar or þys bænda ok opi i eyna. bændr fundu eigi þat ok borduz sialfir. var þa i dagan er bændr hættu at beriaz. þa veita Birkibeinar þeim sua harda araas at bændr hrucku fyrir. þar fell af Jamtum .c. manna. enn fiold(i) var saar. enn er þeir sia vfarar sinna manna þa flyia þeir enn Birkibeinar snua eftir ok drepa af slikt er þeir villdu. Suerrir konungr hafdi .c. manna enn Jamtar .xij.c. Suerrir konungr gerdi ord lidi sinu ok komu þeir til hans Jamtar leitudu ser grida ok fengu konungi gisla ok sættuz vid hann. lagdi konungr a þa mikit gialld gerduz þeir þa hans þegnar. setti konungr þar syslumenn yfir ok settu þetta med eidum. ok at gialldinu luktu ok gislunum settum skilduz þeir vid sua buit.

## Raadagerd Suerris konungs.

22. Her eftir ferr Suerrir konungr nordr vm fiall ok kom ofan i Naumadal ok fengu ser þar skip er bændr aattu ok lðgdu vt i Skillingar. þar atti konungr husþing vid lid sitt þuiat hann villdi eigi at landzmenn yrdi varir vid huat þeir tauludu. hann leitadi þa vid lid sitt huersu þeir skylldu hatta ferdum sinum sagdi at honum synduz .iij. kostir fyrir hondum. sa einn at fara nordr a Halogaland ok afla ser þar at vinum ok skipum sækia siþan sudr til Biorgyniar ok vita ef þeir fengi nockut suig vnnit a vuinum sinum. hinn er annar at fara or landi ok vestr til Eyia let[1] þess meiri vðn at hann mundi faa þar nockurn afla. sa er hinn þridi at heria til Jrlandz ok a onnur Vestrlond quaz ætla at þui meiri mundi ovinsæld Magnuss konungs ok

[1]) letu *Cd.*

Erlings iarls sem þeir hefdi leingr raadit landinu. lidit quaz vilia sækia til bęiarins inn ok kuodu ecki mundu fyrir verda at na bænum quadu eigi konungs lid ne iarls i bænum quaduz vilia vinna Nidarós er konungr aatti þar marga vini ok koma þar afla vndir sik. Konungr kuez þess ecki fuss kuat sik sua dreymt hafa. syniz mer raadligra enn sem fyrr at þer vikit eftir minum radum ok forum eigi til bearins. Lidit vill ecki annat enn til bęarens. konungr sagdi þa raada mundu. Nu fara þeir at vuilia konungs sudr til þrandheims. ok er þeir koma til Folksnar þa sagdi konungr at hann vill sudr til Biorgyniar ok uita huersu tækiz enn eigi villdi hann inn i fiordinn quaz ætla at þat mundi eigi[1] sæmdarferd uerda at sinni. lidit quad eigi annat vissara. vrdu allir aa eitt saattir at þeir skylldu inn fara quadu ecki fyrir at na bænum. reru þeir inn i fiordinn til Raudabiarga ok logdu þar at. ok let konungr kalla menn þar vpp af skipum ok spurdi i liodi hueria ætlun þeir hefdi vm atlogu sina. þeir quaduz ætla at roa at bænum ok vita ef þeir nædi vppgaungu. Konungr suarar. ecki lijz mer þat raad. mun ydr varin vppganga þui at þeim mun þickia von at ydr Birkibeinum raan ok fetðkr. mundi þat mitt raad at gera eina skutu adr lysa tæki yfir fiordinn fyrir innan Holm ok laata hana liggia vndir Ladhamri sua vtarliga at þeir sæi or bænum þa er liost er ok lata tiallda sem bezst. enn menn gangi allir þeir er aa eru vpp i skog ok fram hitt efra fyrir ofan Hladir ok stefna a bæinn fyrir ofan bruna ok sitia þar til lysingar. enn ver roum yfir fiordinn inn til Fladka ok sua inn med Gaularaasi ok inn vndir Gullhamar. þa væntir ek segir hann at þa er lysa tekr siai þeir or bęnum at skip liggr vid Hladhamar. munu þeir hyggia at þar se lid vart allt munu þeir þa bua skip sin or bęnum. nu þætti mer oss þat raad medan þeir roa til Hladhamars at ver rerim inn med Eyrum. veri þess meiri vaan at ver ættim þa at veria þeim bæinn enn þeir eigi oss. Gudlaugr suarar stallari konungs. eigi mun oss lid vort þickia of mart þo at ver tuiskiptim þui eigi. Ok fylgdu honum fleiri enn konungi. var þat af raadit at þeir skylldu roa at benum þegar liost er. konungr kuez vera mega þar sem þeir voru enn quaz vera ofuss ok ætla at illa mundi hlyda þeirra radagerd i moti sinum vilia. nu redu þeir.

### Bardagi med Suerri ok erchibyskups monnum.

23. [596] Eysteinn erchibyskup var fyrir i bænum ok hafdi latid blasa til motz annan dag adr. quaduz þeir hafa spurt til Birkibeina at

[1]) er *Cd.*

þeir voru ofan komnir nordr i Naumudal ok hofdu vikit sudr. ok væntir oss þess at þeir muni vitia hingat til fiardarins. er mer sua sagt at þeir hafi litit lid ok sma skip ok se lidit mott ok vesallt. ok er þat vfallit bondum edr kaupmonnum at gefa þeim klædi sin edr fee þiofum edr illþydissmonnum er Suerrir hefir saman harkat. vilium ver helldr veita ydr nockurn styrk til þess ef þer vilit vorn hallda fyrir bænum. quaz lata mundu til skip sin ok alla huskarla þa er voru i byskupsgardi ef bæiarmenn ok kaupmenn villdi sik til leggia. þat raad quaz ollum syniligt þickia ok quaz helldr þat vilia enn sæta vppgaungu Birkibeina. voru skipat .iiij. skip af beiarmonnum ok kaupmonnum. enn eitt var erchibyskups skip er aa voru huskarlar hans ok var þat bezst skipat. þar var Sigurdr forrædismadr sun Ozorar balla. Bæiarmenn þottuz vord vita a Digrmula ok settu vpp vm morgininn er lysti ok þeir sa at skipin voru vid Raudabiorg fleyia elldi i vitann. ok er bæiarmenn sia þat blesu þeir til skipanna ok lǫgdu vt or anni. Birkibeinar hofdu rekit tiolld af ser ok reru yfir fiordinn ok inn vndir Gaularaas enn bæiarmenn vt yfir vik. ok er þeir quomu vt vm Digrmula sa huorir adra mættuz þa a vikinni fyrir innan Hattarhamar. þeir hofdu .iiij. skip þau er vid bardaga kuomuz enn Suerrir konungr aunnr .iiij. ok var eitt at einu tuitugsessa. Nu tokz bardagi snarpr ok var gott vedr a landnyrdingr lettr medan er þeir baurduz ok hof oll saman skipin at landinu ok til þess er landit tok vid. Ok er þeir hofdu bariz vm rid þa for fram erchibyskupsskipit. þeim hafdi seinna vordit or bænum. enn er Birkibeinar sa þat þotti þeim eigi vænna horfa er adr geck þeim þungt er þetta skip kæmi. brast þa flotti a þeim. hliopu Birkibeinar a land af skipum sinum. Suerrir konungr var sua klæddr at hann var i kufli blaam ok sidum. hann for fram miok snemma a skipi sinu ok ætladi ser til landgaungu. ok er hann kom fram um siglu skautz nidr þilian vndir honum ok fell hann i rumit. enn menn liopu sua þykt at hann komz eigi vpp fyrir ok dualdi hann þat stund miok langa medan menn liopu þyckaz yfir hann. sa madr liop i sidarra lagi er Helgi het bygguaumb. konungr leit vid honum ok kendi hann. Helgi mællti. illa munu ver skilia vid vorn konung ef hann skal liggia her i austrinum. þa mællti konungr. Helgi sagdi hann konungadu nu sem minz. Liopu þeir þa badir saman a land ok er þeir komu vpp i fioruna þa kom(u) a mot þeim .iij. menn af bæiarfolki. Helgi greip vopn sin ok tok vid þeim. konungr kleif i backa einn brattann. enn er hann var miok sua kominn a bachann þa steig hann a kuflinn ok spruttu honum þa fætrnir ok hrapar hann þa ofan aftr. þa leypr at honum

einn sa er sotti at Helga. enn er Helgi sa þat skyz hann vndan hinum .ij. er honum voru i moti ok skræmiz þangat til. ok vrdu þau þeirra vidskipti at Helgi drap þann er at konungi sotti. Konungr leitadi til annat sinn. þeim var nu minna vm atsoknina er fyrr sottu at Helga ok hurfu nu aftr. konungr var eigi vel færr þuiat hann var saar a fæti ok var skotinn i bard med gaflaki. þat saar veitti honum Serkr af Riodum. Nu for Helgi vpp med konungi ok fluttuz sua vpp eftir Gaularasi þar til er lid dreif at þeim þat er vndan hafdi flyit. veik konungr fram a fiallit ok huilldiz þar ok heyrdi vmrædu bæiarmanna. þeir tôludu vm huart Suerrir konungr væri fallinn. þa suaradi Helgi. Suerrir konungr gerir ydr enn rijd sidarr meirr. þar hofdu margir godir dreingir fallit Sigurdr af Saltnesi Jonn ketlingr brodir hans. Vilhialmr brodir þeirra hellt vndan a einu skipi vt fyrir nesit. bęiarmenn sottu eftir honum hann hliop a land ok fell þar i fiorunni enn þeir skiptu vopnum þeirra. Gudlaugr stallari vard saarr miok ok komz vpp aa asinn ok var i skarlatzkyrtli. þar mætti hann bonda einum ok þottiz (sa) sia at hann var af flottamonnum. bondi hafdi bolauxi i hendi ok hio til hans þar sem mætiz haals ok hnacki. Gudlaugr fell vid hoggit. þottiz bondi hafa drepit hann. hann hio ris a hann ok fletti hann aadr. þar skilz hann vid hann. Gudlaugr vitkadiz ok stod vpp ok komz til bear nockurs var þar vel vid honum tekit. siþan for hann nordr eftir konungi. greru saar hans. þui kolludu Birkibeinar hann stundum Gudlaug gnitaskaur.

## Fra Magnusi konungi ok Suerri.

24. Her eftir fara þeir a Vpplond. sumir kuomu ofan a Mæri til Serks ok drepa hann med .xx. mann. Nu spyrr Magnus konungr til Birkibeina ok Ormr konungsbrodir bua ferd sina at leita þeirra. Birkibeinar sækia vndan þuiat þeir hofdu lid litid hia þui sem Magnus konungr. Suerrir konungr taladi vid lid sitt sagdi at þat hefdi miok verit at hans vuilia er þeir foru inn i þrondhe(i)m. hofum ver þar latit lid vort ok ena bezstu dreingi. ok er vorar vfarir hafa spurst erum ver reknir ok riadir huar sem komum ok þickir mer harþla litils vm oss vert. enn þa er ver fengum iafnan sigr ottuduz flestir at fara i mot oss med vfridi. nu ferr Magnus konungr eftir oss med mikit lid munu ver ecki leingi vndan rekaz adr bædi mun liggia a oss þegn ok þræll ok mun lid vart allt vera dreift ok drepit med litlum ordztir sua sem allir þeir er i flotta falla. nu litz mer dreingiligra at snuaz i mot vuinum vorum ok med þui at ver seem ofrlidi bornir þa megum ver sua til haga at ver fallim med ordztir miklum ef ver beriumz vid Magnus

konung sialfann. enn ef ver sigrumz a honum þa mun þadan af vaxa mikit vǫrr styrkr munu ver ok eigi fa land þetta nema ver siaim merki Magnuss konungs a lopti. hofum ver ok nogu leingi vndan rekiz ok þolat morg vandrædi. Eggiadi hann þa lid sitt ok quaz vel hugr vm segia.

### Bardagi [med konungum.[1]

25. [597] Eftir þat foru þeir ferda sinna þar til er þeir koma fram yfir bru nockura ok aa þa er Heyrta heitir. þa hofdu þeir sanna niosn at Magnus konungr var kominn nær þeim ok let Suerrir konungr fara lidit i kiorr nockur skamt i fra brunni. Magnus konungr ok Ormr hafa ok sanna niosn af Birkibeinum ok er þeir koma at brunni let konungr þegar merki sitt fara yfir bruna ok fylgdi sialfr ok þeir Ormr baadir. Ok er Magnus konungr var kominn yfir bruna ok sumt lidit þa veittu Birkibeinar þeim aaras ok tekz þar orrosta ok ecki lǫng aadr enn fell lid Magnuss konungs enn hann sialfr flydi aftr yfir bruna ok sua Ormr ok urdu badir saarir. let Magnus konungr i þessi orrostu mart manna. eftir þat skutuz þeir a nockura rijd yfir aana þuera. Eftir þat ferr Magnus konungr aftr til Tunsbergs til skipa sinna ok eftir þat austr i Vik. enn Suerrir konungr for vpp a Raumariki ok austr et efra til Liod-husa ok þa spyrr hann at Magnus konungr er i Konungahellu. ferr þaa þangat ok kemr a vuart. vard þa enn bardagi nockurr ok ecki mikit mannfall. hellt Magnus konungr vndan ofan eftir anni. tok Suerrir kon-ungr þar nockur skip ok let brenna. Magnus konungr for þa inn i Vik ok inn til Osloar ok sat þar vm rijd ok gerdi fra ser niosnir allt til Elfar. Suerrir konungr lagdi vndir sik enar eystri syslur allar. voru þa i Vikinni huorirtueggiu Birkibeinar ok Heklingar ok veittu ymsir odr-um araasir. hofdu ymsir betr.

### Fra Suerri konungi. capitulum.

26. Sverrir konungr for nordr i Vikina med lidi at gilldra enn til nockurra veida ok einhueria natt reid hann sialfr a niosn vid enn .vij. mann ok ridu i skogh skamt fra Saurbæ. A þeirri natt for sueit Heklunga med .l. manna ok ætludu at drepa nockut af Birkibeinum. enn nattin var myrk. þa heyrdi Suerrir konungr reid þeirra. voru þeir miok druknir ok maalgir ok vgdu ecki at ser enn gatan var eigi rymri enn einn matti senn rida. þa mællti Suerrir konungr vid sina menn at þeir skylldu vera hliodsamir ok hafa buna boga ok ganga tueim megum

[1]) [*usikkert i Cd.*

gǫtunnar. enn er þeir koma gegnt oss skioti allir sem tidaz. kann vera at þeir ætli lid vart meira. enn ver munum forda oss ef ver verdum ofrlidi bornir. Nu skutu þeir sem tidaz enn sua var myrkt at huergi maatti sia. hinir hugdu at vera mundi margir menn a skoginum ok toku vndan sem skiotaz. Birkibeinar sækia eftir meþan þeir maattu. Vm morguninn fundu þeir .xiij. menn drepna ok marga hesta.

## Olafr gerdi iartein Suerri.

27. Um haustid for Suerrir konungr til þrandheims ok bardiz vid Heklunga ok feck sigr. toku þar .x. skip. Eftir vm vorit for hann sudr a Mǫri ok sigldi vtleid er sudr sotti. ok er þeir sigldu nordan at Stadi þa kom þar i mot þeim Magnus konungr Erlingr jarl Eysteinn erchibyskup Ormr konungsbrodir ok mart lendra manna ok hofdu allmikinn her ok stor skip. Enn er Suerrir konungr sa þetta ofrefli ok huarir kendu adra þa beita þeir a haf vt. gerdu sua huorirtueggiu sigldu ok reru slikt er maattu. þa nalguduz þeir Magnus konungr skipin ok koma sua nær at þeir sia menn a bordum. þa bad iarl hefla ok bida þeirra er sidar færi. ok er allir voru eftir komnir skipar iarl til atlogu. bad menn þa minnaz hue mikinn skada Birkibeinar hofdu gert (i) manndrapum ok raanum. bad alla menn þat varaz at eingi yrdi sua diarfr at grid gæfi Birkibeinum. enn vel kuez honum þickia at Suerrir prestr væri tekinn ef þess væri kostr ok færdr honum lifandi. þessu iattudu allir ok letu siþan siga or heflum ok sækia eftir þeim. Enn er Suerrir konungr sa at miok dro saman med þeim sa hann engi þau raad er duga mætti ef ei veitti gud þeim sinn fullting. Suerrir konungr lagdiz þa til bænar ok het a hinn heilaga Olaf konung. ok a þeirri stundu lagdiz a sioinn sua þyck þoka at ecki skip sa fra odru. Ok þa er Magnus konungr ok Erlingr jarl sa eigi leid sina snua þeir stofnum ok beita inn til landz. þa mællti jarl. eigi for þa sua er vel villdi fara. Nu koma þeir saman hernum ollum i Hereyium. enn annan dag spyria þeir at siglt hofdu tua(u) skip inn vm sunndin af Birkibeinum ok hofdu stefnt inn i fiordinn. Jarl kallar menn til tals vid sik ok raadagerda segiz hann eigi vita huart Birkibeinar hafa beitt sudr edr nordr. syniz mer sem huartueggia muni lids þurfa. vil ek at sudr til Biorgyniar fari Eysteinn erchibyskup Ormr konungsbrodir lendir menn ok skipstiornarmenn þeir er ek nefnir til at veria þar land enn konungr ok ek skulum fara nordr ok meiri lutr lids. Nu var sua gert sem jarl mællti.

Fra bodum Suerris konungs vid Magnus ok Erling jarl.

28. þa er Erlingr jarl ok Magnus konungr kuomu a Nordmæri þa spyria þeir at Suerrir konungr hefir siglt vtan hia Ædey ok sua nordan at Knarrarskeidi. Suerrir konungr for þadan nordr til þrandheimsminnis ok þadan til kaupangs ok lagdi skipum sinum vid bryggiur. Magnus konungr ok Erlingr jarl fara eftir þeim. ok er Suerrir konungr sa segl þeirra þa let hann blasa til motz sinum monnum ok sagdi þeim ætlan sina. at hann vill ganga fra skipum ok engi skylldi sua diarfr vera at flytti eftir ser annat enn vapn sin ok þau klædi er hann stod i. Eftir þetta ganga Birkibeinar vpp i bæinn enn skipin aull flutu tiolldut fyrir bryggium. hudfot laagu i rumum halfrymiskistur stodu a skipi enn luklar settir i lok. þa er Magnus konungr ok Erlingr jarl reru vtan i aana þa geingu Birkibeinar vpp vm bru. ok sua hefir Suerrir konungr sialfr sagt at faa dæmi mundi til þess vera at flottamenn hefdi sua skiliz sid skip ok fiarlut sem þeir. quad vera mega at ymsir nyti fiar klæda ok annarra fanga. Menn Magnus konungs ok Erlings jarls logdu at vid Brottueyri fyrir vtan Skipakrok ok geingu [598] þar vpp. enn þa er jarl liop a land steypliz hann fram a knein ok stack nidr badum hondum. hann mællti. fall er far(ar) heill. Siþan foru þeir vpp vm stræti huerr med sinni skipshaufn sem buinn var. jarl vard fyst buinn med sina sueit. ok er hann kom vpp vm Kristzkirkiu ok byskupsgard til bruarinnar þa ser hann merki Suerris konungs fara skiotliga. stefna vpp þiodleid til Kleppabus ætlar jarl at þar muni konungr vndir vera enn flest lidit sotti vpp vm bruna a Sprotavollu enn Suerrir konungr ok flest allt lidit la i dal þeim er stund eina var vpp fra brunni skamt fra Sandbrecku enni nedri. Jarl vissi eigi at hann var þar fyrir þuiat hann hugdiz mundu taka nockura menn af þeim er sidarr færi. þa lupu þeir Birkibeinar vpp ok þegar at þeim fram. Jarl sotti vt aftr til bruarinnar ok yfir bruna. Birkibeinar fylgdu þeim allt til gardz þess er gerdir milli bruarspordzins ok bearins. enn er lidit Magnuss konungs ok Erlings jarls sotti vpp i moti þeim þa snero Birkibeinar aftr ok skutuz þeir a vm rijd yfir aana. Jarl bad sina menn ganga or skotmalinu ok setiaz i akrinn ok sia huat Birkibeinar hafaz at. þeir settuz ok nidr i odrum stad med backa þeim er verdr med sandbrecku ok saatu huarirtueggiu langa rijd vm daginn. Menn Magnuss letu taka ser dryck vm daginn ofan i bæinn. Margir geingu af lidi huarratueggio ok skutuz a vm daginn ok voru særdir nockurir menn af huorum. ok er a leid daginn sua at komit mundi at noni geck Gudlaugr stallari Suerris konungs til bruarsporzins ok hafdi skiolld fyrir

ser ok kalladi a lid Magnuss konungs ok quaz vilia tala vid þa ef þeir villdi til heyra. Juarr horti suarar af lidi Magnuss konungs ok kuaz vel mega heyra huat er hann segdi. Gudlaugr hof sua sina rædu. Suerrir konungr vill segir hann gera Magnusi konungi ok Erlingi jarli ok ollu lidi þeirra .iij. kosti. skal sa einn vera at hann gangi yfir bruna enn Suerrir konungr mun ganga langt vpp fra med lid sitt. fylki jarl lidi sinu sua vandliga sem hann vill ok beriumz a Sprotavollum. hafi sa gagn er gud vill. enn ef Magnus konungr ok Erlingr jarl vill eigi þenna þa byd ek þann annan at þeir gangi vt med lid sitt til Borgar ok fylki þar i ærnu tomi. enn ver Birkibeinar munum sækia yfir bruna til yduar ok laata skapat skera. sa er hinn þridi ef þer vilit huarngann hinn at hann gangi vt til skipa sinna aa Eyrar ok fylki þar sua vel sem hann vill enn ver munum koma i moti ok sækia vt vm bæinn. þuiat beriaz vill Suerrir konungr ef hann skal raada. þa geck Juarr af backanum ok vpp a akrinn ok hitti jarl ok sagdi honum þessi bod. enn Magnus var sofnadr hia jarli enn jarlinn klappadi hendi sinni a herdar honum ok bad hann vaka. Konungr spyrr huat er titt var. Jarl sagdi honum þessa kosti er Suerrir prestr hefir bodit honum. Magnus konungr bad hann kiosa. Jarl quaz engann kiosa mundo. quaz helldr vilia gera Suerri presti kosti enn hann honum. þa geck Juarr ok sagdi Gudlaugi suor jarls. Siþan for Gudlaugr aftr ok sagdi Birkibeinum huersu jarl hafdi suarat. þa þyrptuz þeir saman stund nockura ok eftir þat taka þeir gaungu ok stefndi konungr vpp a veg fyrir austan aana til Kleppabus. enn þeir haattudu sua gaungunni at huerr geck eftir odrum ok þotti þa langr vera hali þeirra ok skilia at þui sinni. For Suerrir konungr vpp med aanni til bear þess er Kot het. ok let þar taka ofan hus ok gera af flota ok flutluz þeir a þui yfir Nid. ok vm midsaptanskeid fara þeir vt yfir þiodsmyrar ok sua ofan til Stafs ok flutluz þar yfir Gaul a eikium. ok er þeir voru yfir komnir bad konungr þa huilaz ok let ser vera haufugt ok kuaz sofa vilia. Konungr sofnar bratt. ok er komit var at nattmaali for þar bondi einn med mall(t)-klyfiar ok villdi til kaupangs at selia malltit. Birkibeinar drifu at honum. konungr vaknar ok spyrr huat er vm væri. þeir sogdu at bondi einn var þar kominn med mallt. Konungr vill hitta hann ok sagdi at hann mun ecki seinka ferd hans ok bad hann fara sem hann villdi. ok seg satt i fra attu hittir Birkibeina ok þeir voru komnir yfir Gaul ok þeir ætla natt(stad) sinn at Medalhusum i natt. At þui skiliaz þeir. Bida Birkibeinar .v. nætr aadr þeir sækia bæinn.

## Fra Erlingi jarli.

29. Einn aftan er jarl hafdi mataz kom til hans Sigurdr Nicholassun ok Jonn af Raudabergi. þa spurdi Sigurdr huart greiddir væri vtverdir. oss er sagt at Birkibeinar muni bratt vitia a yduarn fund ok er þat mitt raad at lidi væri blasit vt til Borgar med vopnum. þa suarar ſarl. ek villda at satt væri at þeir færi hingat þuiat þa varir mik at þeir hafi skapnadar erendi. enn vrædda ætla ek oss sofa mega naattlangt fyrir Birkibeinum. þuiat mer er sagt at þeir muni hafa snuit til fiallz ok eigi mun Suerrir þora at sækia hingat at oss sua at ver verdim varir vid sem nu er. þa mællti Jonn fra Raudabergi. þetta skylldi oss gods furda er jarl het oss at ver þyrftim ecki at ottaz Birkibeina. enn mæla þat sumir menn herra segir hann at þer gefit meira gaum at gera ydr drukna af midi ok vini enn gera raad fyrir lidi þinu. þa suarar jarl ok reiddiz. þat hefir sialdan verit mællt til min fyrr at ek hafi eigi verit hellzsti varr. enn nu veit ek eigi huart helldr er at ek mun einga ætlun kunna fyrir oss sem þer segit edr mun hitt at þer seet helldr ræddari enn þurfi. ok fyrir þa sôk skulu þer liggia vræddir i naatt at nu skal ek sialfr vord hallda ef þer truit mer til ok hefir þat fyrr þott nockur hlit ok aattu ver þa vid meira ofrefli at skipta enn nu. Eftir þetta ganga þeir i brott Sigurdr ok Jonn til skipa sinna. enn nockurri stundu sidarr for jarl til sængr ok til suefns ok allt lid hans nema vtverdir voru greiddir at vanda.

## Suerrir konungr taladi fyrir sinu lidi.

30. Nu er at segia fra Birkibeinum at þeir koma i nætrelllding vtan at Steinbiorgum. þa spurdu lendir menn hueriu gegndi vm ferdir þeirra. Suerrir konungr sagdi at hann ætladi at jarli. ok er þeir koma a aasinn at Feginsbrecku þa steig Suerrir konungr af baki ok fell a kne ok bad fyrir ser. eftir þat taladi hann fyrir lidinu. bad þa vel fylgiaz. þuiat nu munum ver fagrann sigr vega. eigi þarf ek at tia fyrir ydr i huerium naudum ver hofum stadit her i landi enn tekit faatt vpp til gæda her til. ek [599] ma marka a minu skapi at ydr mundi maal þickia at taka meira gott vpp fyrir yduarn starfa ok storligann haaska enn ver hofum enn kosti aatt her til. slikt hofum ver vpp tekit sem ver hofum vegit til veizlur ok annat fe er ver hofum naad. enn nu liggr nockuru meira fe fyrir hondum enn ver hofum oft aatt vm slikt at tala edr leika er bærinn er i Nidarosi. her er nu ok Magnus konungr Erlingr jarl mart lendra manna ok hirdmanna. er nu eftir meiri sæmd at sækia enn optaz mune færi aa gefa. þicki mer nu ok likara at ver

faaum nu sigr at þui sem mik hefir dreymt. sækium nu þui fastara eftir sem ver munum meira eftir taka enn fyrr. vil ek nu yfir þui lysa til huers at þer skulut vinna. sa er lendann mann fellir sa skal lendr madr vera ok þess kyns tignarmadr skal huerr vera sem hann rydr fyrir ser med sönnum vitnum. sa hirdmadr er[1] hirdmann drepr ok taka þar med godar sæmdir. nu er vm slikt at leika ok hygg ek at þeir hafi einga sanna niosn vm vorar ferdir ok meiri vön at þeir se hamingiulausir ok komit at endadegi þeirra. enn ver munum faa sigr ok tign sem oss byriar ok mun gud sua skipta med oss. þeir hafa leingi yfir voru setit. kann vera at nu missi þeir þess er fyrr fengu þeir rangliga ok þar med lifit. gerit sem hardazsta hrid i fystu ok mun þa vel lyda. þeir munu vera druknir ok syfiadir raadlausir sumir a skipum sumir her ok huar i bænum ok munu varla vita huert þeir horfa edr huat þeir skolu at hafaz. Enn er hann lauk sinu maali toku allir þui vel.

## Buiz til bardaga.

31. Menn Magnus konungs voktu vt a Eyrum vm nattina ok hofdu þar leik. ok þa er þeir sa lid Birkibeina fara vtan vm Steinbiorg þa var blasit ok kallat at lidit skylldi ganga vt ok vopnaz. Lid Magnus konungs la mikit vppi i bænum ok hafdi verit daudadruckit vm kuelldit. þuiat konungr hafdi veitt þeim vm daginn ok laagu i gaurdum þeim er þeir hofdu ser herbergi tekit. enn jarl þa er hann vard varr vid ofridinn stod hann vpp ok klæddi sik ok bad lidit vopnaz. þa kom Juarr frændi hans ok mællti. lid vart er vppi i bænum ok mun mart hafa vfært nidr lagiz ok munu ver eigi saman koma lidinu sua skiott sem þurfti ok er þat mitt raad at blaasa ollu lidinu vt til skipa ok laata siga vt fra bryggiunni. buaz i tomi ok beriaz ef ydr syniz þat raad vera enn at odrum kosti roa vt vr aanni þuiat bæiarlydr þessi mun oss vtrur vera til lidsemdar. þa suarar jarl. eigi veit Juarr nema þat væri raadligra enn eigi maa ek þat vita at diofuls prestr þessi setiz i rum sonar mins. Stod jarl þa vpp ok bad menn buaz sem huataz ok ganga aa land. ok er a land var gengit lidit ok jarl sialfr ok merkit var fram komit þa geck jarl vpp vm bæinn at stræti ok mintiz til kirkiu. kom þar til hans Magnus konungr med sinu merki Sigurdr Nichulassun Jonn af Raudabergi Juarr horti med sinar sueitir. ok logduz margir a knebed ok baaduz fyrir. þui næst sneri jarl fra kirkiunni ok mællti til sinna manna. standit vpp ok takit vopn ydr vera kann at nockurum se

[1]) ok *Cd.*

kostr at liggia her vm rijd. Erlingr jarl hafdi raudann kyrtil af fustani ok silkihufu spangabryniu[1] ok spenti ecki at ser hann hafdi brugdit suerd ok kastadi vpp i hendi ser ok mællti. enn skolu þeir þat sia at þessi hinn gamli skal kunna at beita suerdi i dag. Hann mællti þa til ludramanna at blasa skylldi sem tidaz ok er þeir komu vt vm stopul þa mællti jarl er hann leit a tuær hendr ser. huar eru ver nu allir.

### Fall Erlings jarls sonar Kyrpingaorms.

32. Nv fara Birkibeinar vt at bænum ok funduz þeir a vollunum fyrir ofan stopul litlu fyrir ofan bæinn. Suerrir konungr hafdi haft or Gaulardal .ccc. manna edr meirr ok var þat litt vopnat. enn er þeir foru vtan vm Steinbiorg hliop fram madr einn fra odrum monnum mikill ok sterkligr. reiddi vm ǫxl staur einn enn hafdi ecki vopna. Hiarrandi huida spurdi hui hann hlypi sua med staurinn edr huar eru vopn þin. Hann suarar. þeir þurfa helldr vapn er beriaz vid Erling jarl enn hinir er her hlaupa vm heidar enda ætla ek skiott at vega med þeim vopnum er jarlsmenn fara nu med. þeir spurdu hann at nafni enn hann quaz Eyuindr heita. þa mællti Hiarrandi. mælþu dreingia heilazstr. þu munt vera vaskr madr. Ok feck honum kesiu sina ok hanndǫxi. ok berstu þar med. Magnus konungr ok Erlingr jarl mundu þa hafa .v.c. manna. vard þar bardagi mikill ok en snarpazsta orrosta ok eigi long. þorir spala bar merki jarls. nu fellu menn af huorumtueggiu ok meirr af jarli. þa var sott fast at merki jarls. ok þa er þorir var i naudum skaut hann nidr merkistaunginni i akrinn sua at stod þa tok at siga aftr fylking jarls ok sua kom at naliga stod merkit a bak Birkibeinum þeim er mest sottu fram. ok þeir sidar foru hugdu jarl þar fylgia ok hugdu at flotti mundi kominn i lid þeirra. Ok er þetta fann Suerrir konungr þa bad hann nidr hauggua merkit. A þeirri stundu feck Erlingr jarl lag af spioti ok kom a hann midiann. þa mællti madr. hættligt lag herra Jarl suarar. fylgi þer vel merki konungsins ecki mun mik saka. Litlu sidarr geck Ozsur prestr hia ok Helgi þorfinnzsun. Erlingr jarl hio Ozsur vm þuert andlit ok var þat mikit saar ok liott. Eftir þat fell Erlingr jarl ok sueit su er næst honum stod. eftir þat brast braadliga flotti i lidi Magnuss konungs. Magnus konungr kom þar at i flottanum er Erlingr jarl fadir hans laa ok horfdi i lopt vpp. konungr laut at faudur sinum ok mintiz vid hann ok mællti. finnumz a feginsdegi fadir minn segir hann. Varrarnar rærduz a jarli enn eigi var megin til at suara. konungrinn matti þa ok ecki dueliaz ok vard at hialpa ser. Magnus konungr flydi ok tok þat skip er jarl hafdi aatt ok komz vt or anni. þar fell a akrinum Sig-

[1]) spang aa bryniu *Cd.*

urdr Nichulaassun Jonn af Raudabergi Juarr horti Einarr litli lendr madr Botholfr or Fiordum ok synir hans .ij. Biorn buckr hliop i beinn ok vt aa Nid ok villdi leggiaz yfir til Skellingar [600] hellu. hann var i bryniu ok sauck nidr ok drucknadi. mart annarra manna liop aa ana ok tyndiz sumt enn sumt feck lif. Juarr Sueinssun fell ok þeir Guthormr snerill. þessir voru allir lendır menn Magnuss konungs. nær .lx. fell hirdmanna ok mart annarra manna. Suerrir konungr tok þar Olafssudina er aadr hafdi styrt Magnus konungr ok flest aull skip þeirra. þar tok hann skip sin þau er hann hafdi aadr mist.

## Tala Suerris konungs.

33. þa er lik Erlings jarls var borit fyrir sunnan kirkiu til graftar. enn nu er groftr hans i kirkiu. Suerrir konungr taladi yfir grefti hans. hann mællti. eigi hæfir at þagat se med ollu yfir sua gofugs mannz grepti sem nu stondum ver yfir. alldaskipti er nu mikit vordit sem þer megut sia. enn þo er vndarliga vordit at einn madr er fyrir .iij. fyrir konung fyrir jarl ok fyrir erchibyskup. ok er ek sa. her eru nu morg tidendi at sia ok vita þau er mikils eru verd at bædi til þessarrar kirkiu ok annarra eru bornir margir likamir þeirra manna er fylkt hafa Erlingi jarli. enn þat er sem morgum ma kunnigt vera at Eysteinn erchibyskup ok margir lærdir menn hafa sagt at þeir allir er berdiz med Magnusi konungi ok verdi land ok letiz med þui þa sogdu þeir at salur þeirra manna allra væri fyrr i paradiso enn blodit væri kallt a iordu. nu megum ver fagna her sua margra manna heilagleik sem her munu nu helgir hafa vordit ef sua er sem erchibyskup hefir sagt enn hann redi þui er Magnus var til konungs tekinn þui hann (var) þa barn ok siþan hefir hann studt hans riki allt her til. mun monnum þat nu vera mikil hialp vid gud þeirra aarnadarord ef eigi væri þat at erchibyskup hafi verit nockut vinhallr i maalinu þui er hann sagdi þetta. enn sua hefir nu til skipt at ver stondum nu yfir þeim er leingi baaru ægishialm yfir oss ok morgum odrum. se ek nu margann þann hrygg-ann standa her yfir þessum greftri er fullkaatr mundi vera ef sua yfir mer stædi þo at vm mik væri eigi vanndliga buit. enn þat maal syniz mer skammsyniligt vera at þui sem oft hefir tiad verit fyrir ydr til huers at huorir ætti at hyggia þa er ver letim lifit med slikum atburdum. nu syniz mer sem huorumtueggium mætti mikill fagnadr a verda er sua hefir til skipz vm lif manna sem gud villdi. mættum ver lifa til nockurs batnadar ok med minna otta enn her til þuiat ver munum nu eigi þa ottaz sem ver stondum nu yfir. enn ydr ma þo myklu meiri

fognudr a vera þeirra dauda er nu eru vid ydr skildir likamligri samvistu ok hugsit nu fyrirheitit erchibyskups. er nu lidin su stund er kallt ma vera blod þeirra ok þo at ver megim eigi þegar iarteinum fagna þa mun þat þo sidarr meirr birtaz. munu þer eigi hafa þeirra mist helldr munu þeir nu mikit gott mega ydr ef þer dyrkit þa sem helga menn sem þer hafit til hugat. enn ef sua illa er sem ek er ræddr vm at se at brostin mune vera þau hinu fogru fyrirheit er þeim voru heitin þa munu þer ærit leingi golldit hafa þessarrar lygi ok loklausu ok þeir allir er þui trudu. er þat nu raad at skipta a adra leid til bidia helldr til guds at Erlingi jarli fyrirgæfiz þær syndir er hann gerdi med(an) hann var i þessum heime ok einkannliga þat er hann tok sua mikla dirfd til einn lendr madr at hann let gefa konungsnafn syni sinum enn reisti flock ok merki moti konungi sinum Hakoni konungi syni Sigurdar konungs ok Eysteini konungi ok felldi þa fra rikinu ok hellt siþan med Magnusi konungi ok eigi rettligar enn nu megi þer heyra. sua skulum ver nu ok bidia fyrir salum þeirra manna allra er latiz hafa i þessu vandrædi enu rangliga bædi nu ok fyrr. ok bidia þess gud at hann fyrirgefi þeim ok biargi saalum þeirra. fyrirgefa vil ek þeim fyrir guds sakir allt þat er þeir hafa misgert med mik. ok nu geri huerr sem syniz ok ser hyggr bezst gegna munu ok þeim er sua skiott voru vid heiminn skildir þionustulausir ok nockut med minna vidbuningi ok grimmara hug enn nu mundu þeir kiosa. vil ek ok þui sidr banna ydr at gera eftir þa at ydr skal at mikilli hialp verda þat gott sem þer gerit fyrir þeirra saalum helldr enn hitt at raadit se at þeir þurfi eigi. Ok er konungr hafdi þetta talat sneri hann sinu maali til þeirrar sidueniu sem þa var titt at tala yfir gofugra manna leidi. þackadi fyst kennimonnum sitt bænahalld ok allri alþydu er yfir stodu ok slikar eftirgerdir sem huerr ueitti eftir sinn naavng at gera edr vin. hann bad huern mann bua sua vandliga vm sinn hugdarmann sem hann villdi sialfr. enn hann kuez mundu fa menn til at bua vm þa menn sem eigi yrdi adrir til. Hann lauk sua sinu maali at ollum vard hugþeck hans ræda ok gerdu margir godann rom at.

## Fra Magnusi konungi. capitulum.

34. Magnus konungr for med þui lidi er vndan komz sudr til Biorgyniar ok hitti þar Eystein erchibyskup ok Orm konungsbrodur ok sagdi þeim þessi tidendi. þar aatti Magnus konungr þing vid lid sitt ok bearmenn ok sagdi fra skada sinum enn bad ser fulltings. þa suarar erchibyskup maali hans ok sagdi at allir dugandi menn mundu vel til

viliadir at styrkia hann til rikis. ok hefir sia fundr sua farit sem margir mundu vilia er þer herra komuz heilir a brott er allr lydr ann. enn þo at Erlingr jarl væri madr vitr ok rikr þa þotti morgum hans ofsi sua mikill at þungt þotti at bera. enn allir menn munu þui vilia iatta at leggia sitt lif vid yduart lif at þer megit na landinu. þessu iattudu allir at helldr villdu deyia med Magnusi konungi enn þiona Suerri prest. For þa Magnus konungr austr til Vikr ok lid hans ok var þar vm vetrinn ok hafdi mikinn vidrbunat.

## Fra Suerri konungi. capitulum.

35. Eftir þessa orrostu ok fall Erlings jarls vox sua miok riki Suerris konungs at eingi madr var sa i Noregi at ei kalladi hann konung nema Magnus konungr ok hans menn. þar til þotti þat hædiligt ef madr var kalladr Birkibeinn enn þadan fra þotti þat nafnbot ok þeir mikils verdir er sua hetu. ok þeir hinir somu sem verit hofdu verkmenn ræ(n)ingiar ok ribballdar enn siþan er þeir voru med Suerri konungi eftir þenna sigr baaru þeir skrud skarlat [601] ok god vopn sem aadr hofdu borit hir(d)menn Magnuss konungs ok lendir menn. ok þo at menn kendi þa at syn þa dulduz vid at þeir mundu vera sem fyrr hofdu verit faatækir ok varla mundu þeir sialfir ena fyrri æfui sina. þat er maal manna at eigi hafi verit fræknara lid enn þa var med Suerri konungi ok þat vottadi hann iafnan sialfr siþan ok gat hinna fornu Birkibeina þa er honum þottu sinir menn slaz i giolifi edr ofdryckiu ok gæta eigi vardhallda edr þola illa vǫs ok erfidi.

## Suerrir gæddi hird.

36. Sverrir konungr gaf þa mala hird sinne ok iok vid marga nafnbætr ok setti þa syslumenn vm allann þrondheim. þat hafdi at boriz i Vik austr at stafkerling nockur hafdi andaz enn hon aatti eftir heklu eina. þar fanz i silfr mikit. enn er þess vrdu varir menn Magnuss konungs þa toku þeir hekluna ok brenndu enn skiptu silfrinu med ser. enn er Birkibeinar spurdu þetta þa kolludu þeir þa heklu arfa edr Heklunga.

## Fra draumi Suerris konungs.

37. þat dreymdi Suerri konung aadr enn Erlingr jarl fell. þar af þottiz hann vita huersu þeirra skipti mundu fara. hann þottiz sofa i lopti einu ok vissi hann at natt var lios. hann sa mann ganga at reckiu þeirri er hann laa i ok mællti. ris vpp Suerrir ok gack med mer.

honum syndiz hann ogrligr ok þottiz eigi odru treysta enn gera eftir þui sem hann bad. sa madr for vpp or bænum enn Suerrir eftir þar til er elldr vard fyrir þeim ok madr steiktr laa aa glodum. þa mællti draummadrinn at Suerrir skylldi nidr setiaz ok mataz ok leggr sidan manninn fyrir hann. hann þottiz suara sem honum var i hug quaz alldri etid hafa rækindi ok quaz eigi þa eta mundu. þa mællti draummadrinn. þu villt eta ok þu skallt eta. sua vill sa er ollu rædr. hann þottiz þa til taka ok eta holld af beinum ok þotti huerr biti trekt nidr ganga. ok sua leingi sem hann hafdi etit þa þotti honum þui minna fyrir sem ofuar var. ok þa er hann kom at hofdinu villdi hann ok þat eta enn draummadrinn tok hofudit til sin ok quad hann hætta skylldu ok þotti honum þa litlu minna fyrir (at) hætta enn til at taka fyrir ondverdu. ok sagdi þa hinn rikari raad. geingu siþan aftr i bæinn. ok er hann þottiz kominn i somu sæng sa hann leidtoga sinn ganga vt ok vaknadi siþan. Ok þui hafdi hann sua miok eggiat lid sitt i bæinn at hann red sua drauminn at madr sa er a elldi laa mundi vera Erlingr jarl er þa tok at elldaz. enn þar er hann aat hann mundi hann eyda lendum monnum ok hirdmonnum ok honum sialfum at alldrlagi verda. enn Magnus konungr mundi vndan komaz þar sem hofudit var vetid.

## Fra Suerri konungi.

38. Drifu þa at Suerri konungi margir audgir menn ok ættstorir i þrændalogum ok margir vinguduz þeir vid hann er heima saatu. fal hann þa miok sitt traust ok trunat vndir þrændi þuiat þeir hofdu alla stund verit litt vingadir Erlingi jarli sem segir i þeirra vidskiptum. Suerrir konungr kalladi heimili sitt i þrondheimi iafnan siþan ok gerdi hann ser kærsta þrændi ok iafnan gat hann þess huersu þrændir hofdu traustir verit Sigurdi konungi faudur hans edr Hakoni konungi brodur hans edr Eysteini Birkibein ok hofdu þeir iafnan þionat vndir enn sama skiolld. Suerrir konungr leet bioda vt leidangri vm allann þrondheim bædi at mat ok lidi. hann hafdi huert bondafar er hann feck sem kuedit er.

Fylgdu ræsi
Rygir Hordar
Fialir Sygnir
sem fyrda[1] lid.

Mærir allir
menn raumdælskir
erchibyskups
aull laug þrænda.

[1]) r. Firda

Ok er hann var buinn hellt hann sudr eftir Magnusi konungi. ok er hann kom til Biorgyniar var Magnus konungr farinn vndan austr. Suerrir konungr setti syslumenn sina vm oll þau riki er þa for hann yfir enn for vm haustid aptr til kaupangs ok sat þar.

### Birkibeinar drapu Heklunga.

39. Um varit baud Magnus konungr sunnan or landi aullum almenningi austan fra Lidandisnesi ok nordr vm Agdir vm Hordaland Rogaland Sogn[1] or Fiordum af Mæri huarritueggio ok Raumsdal. þa var med honum Eysteinn erchibyskup Ormr konungsbrodir Nichulas ok Philippus synir Arna konungsmaags ok allir lendir menn sunnan vr landi. Magnus konungr kom lidi sinu i þrondheim ok lagdi vid Benstein sunnan at nesi ok laa þar nockurar nætr. Suerrir konungr var þa inn i kaupangi ok gerdi fra ser þiodolf rympil ok þiostar suarta Eyiolf Aflason ok Hauard lax med sueit mikla. þeir koma fram aa bæ þeim er Langloar heita. Menn Magnuss konungs vrdu ecki vid varir fyrr enn Birkibeinar komu þar at þeim. þa hafdi Magnus konungr geingit a land til bads a Bensteini. enn er hann vard varr vid Birkibeina for hann skyndiliga til skipa. Birkibeinar drapu þar .xxx. manna. enn er þeir Magnus konungr voru vopnadir hliopu þeir a land. Birkibeinar fordudu ser. foru til motz vid Suerri konung.

### Fra Suerri ok Magnusi konungi.

40. Eftir þat lagdi Magnus konungr inn til Holms enn Suerrir konungr bioz vid i bænum. þa gerdi Magnus konungr skip i brott. þui styrdi Birgir gaurn ok þrandr lyrta ok sendi eftir bonda þeim er Afli het ok lee(t) færa ser. Sun Apla var Eyiolfr hirdmadr Suerris konungs. Magnus konungr sendi bref til Eyiolfs med Hedni af Hlodum ok setti þat aa ef hann villdi frelsa lif fodur sins at hann skylldi fara til konungs ok geraz hans madr. Hedinn for ok færdi Eyiolfi brefit. hann syndi Suerri konungi. Konungr suarar. fair syna mer slikt ek kann her gott raad til. Hann sendi a mot bref annat er sua sagdi. ef þu Magnus konungr gerir Apla grand þa skal drepa Eilif eplastaung ok Skruducirik Eindrida slandra þuiat synir þeirra eru þar med ydr þorir knappr Eindridasun Ulfr kneiti[2] Eirekssun Gunnar Eilifssun. slikann dauddaga skolu þeir hafa sem þer veitid Apla. Nu for Hedinn ok færir Magnusi konungi brefit. ok er hann sa vard hann sua reidr vid at hann liop [602] fram or lyptingunni med brefit ok mællti. þat se ek at þeir

[1]) Skðn *Cd.* [2]) *eller* kueiti

ætla at raada huern drepa skal edr huerr lifa skal enn eigi ek. Nu tala þeir vm Vlfr þorir ok Gun(n)arr at konungr sefiz sogdu hann ecki nær landi þo hann leti drepa einn bondkarl. kuoduz eigi vilia hætta lifi fedra sinna vndir illvirki Suerris. er nu Afli lauss latinn ok for aptr til bua sinna.

## Buiz til bardaga.

41. Menn Magnuss konungs roa einn dag inn at Eyrum til vidtals enn Suerrir konungr geck i mot. þa baud Suerrir konungr at þeir skylldu skipta landi i helminga ok vera baadir konungar sem voru synir Magnuss konungs berbeins. Var þar mart talat. menn Magnuss konungs fystu sumir enn sumir lốttu. vard ok ecki af þessi sætt þui Magnus konungr villdi ecki aa lita. skildu vid sua buit. reru þeir Magnus konungr vt vndir Holm. Maanadag i gagndogum aardegis reri Magnus konungr vpp at Eyrum eggiudu þa huorir adra. Birkibeinar eggiudu at þeir sky(ll)di leggia at Eyrum enn Magnus konungr eggiadi þa or treborginni at þeir berdiz vid hann a Jluvollum. Suerrir konungr kuaz þui mundu iatta. festa þat med ser. skilia siþan. Lætr Magnus konungr nu vid buaz vm skriptagaungur ok vopnabunat. þridiadaginn i gagndogum er sol rann let Magnus konungr blasa til brottlogu. þeir logdu at fyrir vtan Jluvollu vndir bergit. þa hafdi Magnus konungr skeid ina miklu var hon logd vt vm ackeri enn smærri skip roa at landi. geck Magnus konungr ok allt lidit vpp i Steinbiorg ok bidu þess er solin sotti vpp a himininn sua at allir ætti iafnt at sia gegn henni. Siþan fylk(t)u þeir lidi sinu ok sottu vt a volluna naliga vndir bergit. Merki konungs ok hirdmenn voru i þann arm er vissi at sionum. þuiat hann sa merki i lidi Suerris konungs mikit ok fagrt ok hugdi þat konungs merki. þui merki styrdi Gudlaugr stallari ok med honum bêarmenn heradsmenn ok leidangrsmenn. enn Suerrir konnngr for et efra med berginu med sitt merki. þuiat menn Magnuss konungs voru eigi allir vr berginu ok vænti hann þadan snarprar orrostu. Magnus konungr setti lid til þess at veita Birkibeinum bakfoll ok var þar hofdingi Nichulas Aarnason brodir Jnga konungs. Suerrir konungr gerdi lid mot þeim ok var þar hofdingi fyrir Vlfr af Laufnesi ok kom fylking Nichulas at at eingu gagni Magnusi konungi.

## Suerri(r) konungr taladi fyrir lidinu.

42. Sverrir konungr taladi fyrir lidi sinu aadr fylkingar geingu saman ok hof a þa leid. her er mikill herr samankominn ok fritt lid

ok mun nu þat synaz at ver eigum at deila vid mikit ofrefli lids er fylkingar standa vm alla vollu med gylldum vopnum ok dyrum klædum. væri þa vel syslat ef þer bærut huartueggia til bæiar i kuelld. siait nu at gott er at eiga tua kosti. sa er annarr at vega sigr enn annarr at deyia med dreingskap. eigi er sem ydr se visat i skog til timbrhauggs er þer skulit skipta hǫggum vid lenda menn Magnuss konungs. ok er þat skammlaust at þiggia ok gefa stor haugg. kemr at þui sem skaaldit kuat.

Erat sem kolvid kliufui
karl sa er ferr med jarli.

Sua sagdi einn bondi er hann fylgdi syni sinum til herskipa ok red honum raad. ok bad hann vera hraustann ok hardann i mannraunum ok lifa ord leingz eftir huern sagdi hann. edr huern veg mundir þu med fara ef þu kemr i orrosto ok vissir þu at þu skylldir falla. Hann suarar. huat mundi þa gera vid at sparaz at hoggua a .ij. hendr. Karl mællti. nu kynni þat nockurr at segia vist at þu mundir eigi þar falla. Hann suarar. huat þyrfti þa at hlifaz vid at ganga fram sem bazst. Karl mællti. i huerri orrostu er þu ert staddr þa mun annathuart at þu munt falla edr a brott komaz ok vertu diarfr þuiat allt er aadr skapat. ecki kemr vfeigum i hel ok ecki ma feigum forda. flotti er fall verst. vita megu þer þat at ydr mun illt at koma a grid Heklinga. nu er einn vtvegrinn sa er at standa sem fastaz ok lia þeim ecki framgangsins. gott er ydr Birkibeinum at reyna suerdin a miadaristrunni þeirra Vikuerianna. ver hofum ærit lid enn þeir hafa þat ofrefli er þeir megu þui ecki vid koma. hafa þeir þat lid flest er betr væri fallit til brudmanna enn hermanna ok meirr hafa vaniz miadardryckiu enn herskap. hird min(a) sagdi hann ok mitt merki villda ek lata fara i mot merki Magnuss konungs. þuiat af hirdinne er oss vǫn snarprar atsoknar enn lendir menn hans munu meirr hlifaz vid edr bondamugr saa er þeir hafa naudgan dregit hingat. veit ek ok glǫgt vm þrændi at þeim er sua farit sem skaaldit kuad.

Ætla ek mer hina mæru
munnfagra Jngunni
huegi er fundr med frægum
ferr Magnusi ok Suerri.

Þessi maal oll saman vrdu þeim at frameggian ok miklum h(u)autum Birkibeinum ok treystuz miok konungs forsia. Þiodolfr rympill ok brodir hans Karl kiotlær ok þeir .xij. volduz til ok geingu fyrir framan fylkingar i orrosto

## Orrosta med Suerri ok Magnusi konungi.

43. Nv siga saman fylkingar ok vard þegar en snarpazsta orrosta ok einga orrosto hafa þeir aatta med iafnmiklu fiolmenni. var þo enn myklu meira lid Magnuss konungs. þar er fram for merki Suerris konungs þar fylgdi hird hans ok gestir. þar let vndan siga fylking Magnuss konungs ok brast þar flotti. enn i odrum stad þar er fram for merki Magnuss konungs þa hnigu þar fyrir fylkingar Gudlaugs ok bearmanna ok var þar komit at flotta ok sumir a raas komnir. Suerrir konungr sat a hesti ok er hann sa vfarir sinna manna þa leypir hann at þeim ok kallar haatt. hui flyi þer. snuiz aftr ok beriz. siai þer eigi huar flyr allr herr þeirra til skipanna dugit nu mannliga ok rekit flottann her sem þar. Ok er þeir sia konung sinn þa treystaz þeir sogn hans snua aftr ok taka a mot. enn er hirdin Suerris konungs sa at flyia tok afl hers Magnuss konungs þa venda þeir [603] þar til er þeir sa merkit hans ok koma þui a bak þeim ok verdr þa mikit mannfall. þa mællti einn madr. flyr nu Magnus konungr. Annarr madr suarar. eigi enna sagdi hann. ok hliop at honum ok hio hann banahogg ok var þat sialfr Magnus konungr. Flyr eftir þetta Magnus konungr ok allt hans lid nema þat er drepit var. þar fell Philippus Aarnasun Bryniolf(r) blanda sun Eindrida Jonssunar. Juarr galli vard saarr. ok er flotti var rekinn reid Suerrir konungr i valinn ok kom at Juari ok laut nidr a hestinum ok spurdi huart Juarr mun grædandi ok baud honum grid. hann suarar ok quad meiri vðn at saar hans mundu groa ef læknar fengiz til. þar laa madr miok saarr skamt i fra. þat var Bryniolfr sun Kalfs sendimannz af Færeyium. hann færdiz a knein ok hio med suerdi til Suerris konungs ok stefndi a halsinn. hann bra vid staalhufunni ok barminum ok kom þar i blodrefill suerdzins. suerdit[1] tok eyrat ok skeindiz hann a haalsinum ok var þat miok mikit saar ok kastadi ser af hestinum fra honum. ok þegar stodu kesiur ok suerd sua þyckt a Bryniolfui at varla matti hann falla fyrir. þa var drepinn Juarr galli ok Sigurdr frændi hans er sat vndir herdum honum. þessir fellu enn lendir menn a Jluvollum. Nichulaas maundull sun Andress Jonn kalle Kolbeinn Gislasun Einarr laukr. Nichulaas maundull var allra manna sterkazstr ok hafdi trausta bryniu ok brynhosur sua at ecki vapn festi aa. hann hio baadum hondum ok stod einn manna vpp vm rid. hann vard sua modr at hann fell. þa flettu Birkibeinar vpp vm hann bryniunni ok drapu hann sua. Suerrir konungr tok skeidina miklu ok morg skip aunnur ok reru eftir þeim ok naadu [vid Digrmula[2] Eindrida Kaalfssyni ok .xxx. manna

[1]) suerdzins *Cd.* [2]) [b'gimula *Cd.*

er þeir gaafu grid. Eindridi komz a land. Annat skip toku þeir fyrir innan Raudabiorg ok .v. vistabyrdinga. Nicholas Aarnasun for med sueit sinni vt vm Gaularaas ok sua vt til Steins feck ser þar skutu. mart lid Magnuss konungs for landveg. Magnus konungr for sudr til Biorgyniar var þar tekit vel vid honum. hann aatti þar þing ok bad bearmenn at dueliaz þar enn let þo meiri vôn at Suerrir kæmi þar braatt. þui toku allir vel ok budu sitt lid at veria bæinn med honum. þa let Magnus konungr aull kaupskip taka er i voru bęnum ok leggia vt fra Holmi ok yfir til Munkabryggio ok streingdi allt a milli bryggnanna sua at ganga maatti vm þuerann voginn. þa mælltu þat raadgiafar Magnuss konungs at vraadligt væri at trua sua Biorgyniar monnum at byrgia sik inni ok skip sin i voginum. þa for Magnus konungr sudr med landi ok allt til Danmerkr a fund Valldimars konungs frænda sins ok dualdiz þar vm rijd.

### Fall Paals Andressunar fyrir Birkibeinum.

44. Sverrir konungr for nordan vm sumarit ok kom til Biorgyniar næsta dag fyrir Petrsmesso ok gaf þa grid ollum bęiarmonnum. þeir taka vid honum sæmiliga. lagdi hann nu allt land vndir sik. Lendir menn Suerris konungs foru at Paali lendum manni Magnus konungs ok komu þar snemma vm morgin ok vard Paall ecki varr vid fyrr enn heyra maatti ludragang. þeir laagu i huilum spruttu vpp ok toku vel vid. vard þar mikill bardagi þar fell Paall Andressun ok mart manna.

### Suerrir flydi or Biorgyn.

45. þann sama vetr i annarri viku langafostu vm naattina eftir maanadaginn vard sa atburdr at vardmenn Suerris konungs vrdu varir at langskip reru a voginn môrg ok var reist merki a einu skipi. þeir heyrdu vopnabrak mikit til hersins. vardmenn letu þegar kueda ludra vid ok gerdiz i bænum brak mikit. for sa kurr med herblæstrinum at Magnus konungr mundi kominn med her sinn. margir klædduz þa skyndiliga. sumir vopnuduz enn sumir eigi allir flydu i kirkiur edr a fiall vpp. Suerrir konungr var geinginn or herberginu ok vt i sualirnar vid hinn fysta herblaastr. þa mællti hann. nu gæti gud til ok hinn helgi Olafr konungr. Hann hliop ofan i gardinn ok inn eftir stræti ok fann eingann mann fyrir ser fyrr enn hann kom vpp til Nunnusetrs þa reid bondi einn a mot honum. konungr bad bondann fa ser hestinn. bondi sagdi nei vid. þa vard konungr at kosta sua mikils þann hest at hann syndi bonda at hann mundi med vopnum sækia hestinn adr hann feck. enn

eigi fyrir mikit gull ok silfr mundi hann rida[1] vilia þeim hesti naudsynialaust þuiat alldri kuaz hann verra hesti ridit hafa. enn þo reid hann vpp til Alreksstada ok hittu þar nockura Birkibeina ok bidu þar nockura rid. komu þa Birkibeinar nedan or bęnum ridlum saman. spyrst þa þat at þetta var bondaherr enn eigi Magnus konungr. voru þetta Vǒrsar ok Ǒstreyingar ok Hǒrdar. Jon kutiza red fyrir þeim ok hofdu þeir roit at landi vid Jonsbryggio ok skutu þar a fylking inn a Jonsvollum. ecki vard af tilrædi þeirra i bæinn. summu lidinu lendu þeir vt i Holmi ok geingu vpp fyrir vtan Kristz kirkiugard ok blesu ok æptu herǒp. komu inn i konungsgard ok foru helldr vdiarfliga. enn fyrir þui at myrkt var af naatt sua at Birkibeinar sa eigi lid þeirra þa flydu þeir. enn ef þeir hefdi vitad vm lid þeirra þa mundu þeir skiott hafa þa af ser rekit þuiat þeir hofdu meira lid yfir a vollunum. Enn er Suerrir konungr vissi at þetta var bændaherr enn eigi lid Magnuss konungs let hann þa kalla saman sina menn þa er þar voru ok bad þa huerfa aftr til beiarins quad lid þeirra þegar mundu fiolgaz er Birkibeinar heyrdi ludr hans Andvoku. ok er þeir konungr sottu ath bænum droz honum miok lid var þat i dagan. ok er hann kom til Olafskirkiu let hann blasa ok reisa merki. hafdi mart Birkibeina verit i Olafskirkiu i Krosskirkiu i Nicholaaskirkiu ok i Steinkirkiu. kom þat allt til konungs ok mart vtan or bæ. þa fylkti Suerrir konungr fyrir ofan allra heilagra kirkiu ok taladi fyrir lidinu. bad þa ganga diarfliga til orrosto þuiat bændr munu þui verri faur fara sem þeir eru fle(i)ri saman. þa suara allir senn baadu þann alldri þrifaz [634] er hræddiz bondaherinn ok æptu herop ok runnu or fylkingu ok vpp a volluna at bondafylkingunni med kalli opi ok eggian. enn er bændr sa a moti dagsbruninne huar merkit gnæfadi ok heyrdu ǒp ogurligt þa skaut þeim skelk i bringu ok skaut huerr odrum fyrir sik. þui næst drifu vopn Birkibeina a þa. sneriz sa bændanna fyst a flotta er fremstr stod ok þa huerr at odrum. geingu þa Birkibeinar eftir ok hiuggu nidr sem bufe. sumir bændr lupu aa skip sumir a kaf. Birkibeinar fylgdu þeim til strandar. enn er rekinn var flottinn sneri konungr aptr til bearins. komu þa til hans bændr gaf hann huerium grid þeim er hans fundi naadi. geck konungr vt vm bæinn ok mintiz til allra hofudkirkna gerdiz þa liost af degi. Jonn kutizsa hafdi eigi vpp geingit fyrir þui at hann var gamall ok þungfærr. bændr reru þegar or voginum þottiz sa frægstr er fliotazstr var. þotti eigi for farin enn sia nockur verri.

[1]) ridia *Cd.*

### Fra Suerri konungi.

46. Sverrir konungr for þegar litlu sidarr med skutnalidi sudr i Hardangr ok miok vida vm Hordaland tok af bændum sættir ok vtgiolld. flydu þa summir austr til Vikr a leidina fyrir Magnus konung. enn hann var þann vetr i Danmorku medr Valldimar konungi i godum fagnadi. Hafdi Magnus konungr allt sina menn i syslum vm Vikina tok hann þadan skatta ok skylldur. var þar optaz Ormr konungsbrodir ok nockurir lendir menn enn sumir med Magnusi konungi. ok er a leid langafðstu sottu þeir Ormr sudr a mot Magnusi konungi. Suerrir konungr sat i Biorgyn fram yfir paascha. þa bioz hann med fritt lid ok mikit. hann mællti þa þat fyrir sinum monnum at hann hafdi i pussi sinum einurd allra lendra manna Magnus konungs nema Nicholas kufungs þuiat þeir hofdu sent honum leyndarbref ok leitudu til hans grida ok vinattu ok þau bref hafdi hann i pungi sinum.

### Tala Suerris.

47. Sverrir konungr for or Biorgyn nockuru eftir paschaviku ok austr med landi ok geck allt folk vndir hann huar sem hann for. hann for þa austr i Vik ok tok þar allt skylldir ok vtgerdir ok allt þat er hann beiddiz af bondum. hann spurdi at Magnus konungr var i Danmorku med lid sitt. Suerrir konungr sotti langt austr i Vikina. hann laa j Spiorrinni i Sallteyiarsyndi. þat var vm dag at Suerrir konungr geck a eyna til vardmanna sinna a berg nockut þa saa þeir morg segl at austan sigldu. þa sagdi konungr at þat mundi vera herskip ok bad blasa ollu lidinu til landgaungu ok til tals. þa taladi Suerrir konungr fyrir lidi sinu ok sagdi sua. ef Magnus konungr ferr her med her sinn at oss liz mer enn sua sem ver Birkibeinar munem eiga at skipta vid mikit ofrefli lids. enn þo hefir ek sua mikit lid ok traust til bardaga at mer þickir þuifua[1] at taka af vitrum monnum raad. Enn Hauardr iarlssun ok þeir Vlfr ok annarr Vlfr med odrum sue(i)tarhofdingium voru spurdir af konungi. huart skulum ver leggia til orrostu vid Magnus konung ok vænti ek þadan snarprar atlogu edr skulum ver leita vndan nordr ok þangat i land er ver eigum nockura vine enn her eru eingir. tokum nu at guds vilia gott raad ok skiott. þa suaradi jarlssun. skiott mun ek birta minn vilia. gaungum vt a skip rekum af oss tiolldin ok roum vt or þaularvogi þessum reisum viduna ok siglum nordr vndan ok beriumz eigi her vid Magnus konung ok ofrefli hans. þuiat þetta landzfolk er oss verra fyrir at hitta enn hitt versta heidit folk þuiat

[1]) raad þarfua *Cd.*

her a eingi vorr lifs von ef kemr a valld Heklunga edr Vikueria. þa vard romr mikill at maali hans. reru þa allir vt or hofninni. Enn er Birkibeinar hofdu dregit seglin þa renna skip Magnuss konungs sunnan at þeim ok fara fyst skutur ok lettiskip. enn Birkibeina skip foru þau sidaz er stærst voru. þa logdu skutur Heklunga i skotmaal vid þa enn þordu eigi at teingia vid storskipin. enn skutur Birkibeina logdu at storskipum ok bundu vid ok geingu menn af skutunum ok a storskipin þuiat þeim þotti þa likara at beriaz mundi skolu. Eyiulfr Aflasun styrdi skutu er Refna het. hann geck a skip Vlfs flys ok bundu eftir skutuna. þar var a skipi Vlfs Paall sun Nichulas kufungs ok var þa barn eitt. Birkibeinar hofdu tekit hann aadr litlu ok fostra hans med honum. saa tok sueininn vpp ok liop med ofan j skutuna hio sundr festina milli skipanna rak fra skutuna. taka hana menn Magnuss konungs. tok þa Nichulas kufungr vid syni sinum. Huorirtueggio vrdu sarir af skotum enn fatt fell. huorirtueggiu reru vndir seglunum. komuz storskip Magnuss konungs ecki i skotmaal. eigi skorti þar eggian ok ludragang. Suerrir konungr geck a skutu ok rere hia skipum sinum ok lagdi raad til med þeim. hann bad þa aka skiott seglunum ok vikia vt i sund nockut þraungt milli eyianna ok sua gerdu þeir. Menn Magnuss stefndu mitt leid at sundinu ok gaadu eigi at Birkibeinar hofdu vt snuit milli eyianna fyrr enn storskip þeirra hofdu brunat inn vm þat sund er Birkibeinar hofdu vt hleypt. Magnus konungr hafdi skeggiann .vij. rum ok .xx. ok vard þeim seint at leggia seglit ok hitt enn seinna at taka androdra. reru þa onnur skip at honum ok taluduz vid ok redu þa at fara leid sina. enn skutnalid Magnuss konungs ok þeir er aptr sneru. toku Birkibeinar af þeim .ij. skip. het Andress sa er odru styrdi. ok draapu huert mannz barn af baadum. Suerrir konungr sigldi hafleid nordr vm Folldina ok fara sem akafligaz þar til er þeir koma til Biorgyniar var þat i vikunni fyrir huitadaga. dualdiz hann þar vm rid. Magnus konungr for ok skyndiliga austan vm Vikina. vrdu honum allir menn fegnir. hann kom til Tunsbergs ok dualdiz þar litla rid sneriz nordr ok hafdi vgrynni lids. for dag ok natt nordr eftir Suerri konungi. ok laa þa at eins i hofnum er andvidri voru.

Raadagerdir Suerris konungs moti Magnusi.

48. Svnnudaginn næsta eftir huitadaga var Suerrir konungr i Biorgyn med lid sitt. skip hans laagu fyrir bryggium aull buin ok viggyrdlut. suaf a skipum mestr luti [605] lids enn sumt vppi i bænum. Suerrir konungr stod vpp i solarrod ok geck vpp a backa til Olafs-

kirkiu ok þa til vardmanna sinna. þa sa þeir at reyri skuta a voginn sunnan fyrir Nordnes ok logdu at i Holmi ok runnu vpp þegar. Konungr sneri ofan i moti ok kendi at þat voru niosnarmenn hans. ok þegar þeir hittuz segia þeir konungi tidendi at þeir hofdu set segl Magnuss konnngs eigi færri enn a fiorda tigi ok sigldu nu sunnan af Hardsio. þa suarar konungr. ok hellzti nær oss. kalladi a ludrasueina ok bad þa blaasa titt. Konungr geck þegar a skip sitt ok bad reka af tiolldin let roa vt or voginum. sua gerdu allir hans menn logdu saman skipin a voginum. Suerrir konungr taladi þa. Magnus konungr mun skiott koma med her sinn hingat a vorn fund ok hefir hann nu sem þer hafit spurt meirr enn .xxx. skipa enn ver hofum .xvj. skip. mun ydr eigi vænligt þickia at beriaz i moti sua miklum her. at odrum er raad at flyia nordr j land. þotti mer þa stund vest fara vorr flockr er ver hofdum flyit fyrir Hattarhamri ok þar til er ver vogum sigr vid Hirtubru. nu flydum ver fyrir Magnusi konungi i Vik austr ok ef ver flyium enn orrostulaust vænti ek at litil ogn þicki af oss standa. Flestir kuoduz fusari at fara vndan enn baadu konung raada enn þotti ofrefli vid at eiga. Suerrir konungr mællti þa haatt. nu at guds vilia ok ens heilaga Olafs konungs þa buiz sua vid at ek vil beriaz vid Magnus konung ok rekaz eigi leingr vndan. þott her se mikill lidsfiolda munr þa hofum ver stor skip ok vel skipud at lidi ok vapnum. enn Heklungum mun minnisamt at Birkibeinar kunna suerdum beita. latum þa hafa sama taum sem fyrr at þeir verdi a hæl at hopa. eru þeir iafnan snidhuassir i fystu enn eru vdriugir i allar þrautir. er sa annarr huerr i her þeirra at þegar mun skiota skelk i bringu er þer horfuit vid enn ganga dia(r)fara ef þer flyit. nu vænti ek at ver skulum sigr vega. hefir ydr þat sialldan rofuiz er ek hefir sagt ydr. nu er enn sem fyrr at vort traust er þar sem gud er ok hans helgir menn enn eigi vndir lidsfiolda. skyt ek minu mali til guds ok hins heilaga Olafs konungs ok ennar helgu Sunnifuu. bid ek at þessi fundr fari sua med ockr Magnusi konungi sem gud ann ok maalaefni okkr standa til. þa mælltu Birkibeinar. mæl þu allra konunga heilazstr. þat hefir oss alldri logiz er þu hefir oss sigrinum heitid. verdi saa nidingr er eigi vill helldr falla med dreingskap enn flyia med bleydi. Konungr mællti. hafit þauck fyrir. roum i moti leggi huerr sitt skip sua fram sem dreingr er til enn ecki skal teingia. þa reru þeir vt fyrir Nordnes ok bidu þar nockura rid.

### Magnus konungr taladi fyrir lidi sinu.

49. Magnus konungr siglir sunnan fyrir Huarſsnes bar þa bratt at voginum hlada þeir seglum sinum. let þa Magnus konungr blasa til tals ok samløgu skipunum. þa taladi Magnus konungr. nu megum ver sia skip Birkibeina ok berr nu vel til at ver munum naa at beriaz vid þa þott þeir hafi leingi vndan rekiz. huat mun mer tia at eggia þa menn til atsoknar vid Birkibeina ef nockurir eru þeir med oss er eigi vilia muna laat frænda sinna er Birkibeinar hafa nidr hoggit[1] edr þær suadilſarir er ver hofum fyrir þeim farit. nu mun þickia vænt til stefnt at þeir fai slikann skada sem ver fyrr. enn þo eru vor skipti vmaklig fyrir þa sauk at ver hofum til motz goſugmenni ok godmenni enn þeir hafa ecki nema þioſa ok raansmenn rauſara. allir præla ættar ok staf-karla. sem gud steypi þeim. ok er (eigi) at rettu hefnt goſugra frænda vorra þott ver dræpim þa alla enn brigxlalaust er oss þo at gera þat. enn einginn veri sua diarſr minna manna at nockurum þeirra gefi grid ver hofum ærit lid ok gerum þeim þa hina fystu rid at þeir þurfui eigi adra. þeir hafa lid litid ok se gud þess lofadr at nu mun kominn enda-dagr lifs þeirra. leggium at sua þyckt skipunum Olafssudinni sem rum hafa ok þa hon er hrodin væntir ek at þeir er eftir eru bleydiz helldr vid. enn skutur vorar ok lettiskip kringi vm þa ok laati ecki skip brottu komaz. þa mællti Ormr konungsbrodir. buumz sua til þessa[2] fundar at Birkibeinar munu mot horfa ok veita harda vidtoku þo þeir hafi lid minna enn þo er naudsyn at huerr dugi sem ma. væri þat mitt raad at hrioda þau skipin fyst er smæst eru þuiat storskipum koma þeir eigi vndan oss. Nu þott Ormr mællti þetta þa red Magnus kon-ungr. hann hafdi Skeggiann .vij. rum ok .xx. Ormr Gragasina. Haufda-buzsuna halfþrituga hofdu þeir Narfui af Sastodum ok Steinfinnr frændi hans. þessi .iij. logdu at Olafssudinni ok .vii. onnur þar voru ok þa med Magnusi konungi Asbiorn Jonssun[3] or þiorn Nichulass kufungr Paall smaattauga Jonn ok Munann Gautzssun af Ænesi ok margir adrir gofgir menn. þeir hofdu .ij. skip ok .xxx. þeir hittuz fyrir Nordnesi. Med Suerri konungi voru þessir lendir menn Vlfr af Laufnesi Vlfr fly Hauardr jarlssun Baardr Guthormsson ok Juarr silki. Olafssudin var haalfþritug ok var allvel skipud. Gaurnin var haalf-þritug henne styrdi Gudlaugr stallari. Haarknifrinn .iij. rum ok .xx. er gestir hofdu. Fiardarkolluna hofdu huskarlar Aasgeirr hamarsskalli styrdi henne. mart hofdu Birkibeinar storskipa.

[1]) huoggit *Cd.* [2]) þessar *Cd.* [3]) af *tilf. Cd.*

Bardagi med Suerri ok Magnusi konungi.

50. Olafssudin for yzt at henne logdu x. skip. vard þessi orrosta bædi hord ok [606] laung. sottu fram menn Magnuss konungs fast at Olafssudinni baaru a þa griot ok skot ok kesiur. enn fyrir þui at þeir stungu stofnum at kuomu þeir ecki hoggum vid. var þa sua mikill vopnaburdrinn at þar er þrir menn voru i halfrymi a Olafssudinni þa stod einn vpp enn sumstadar eingi. adr Magnuss konungs menn skorti griot ok skotvopn ok þeir ætludu til vppgaungu. þa toku Birkibeinar til skotuopna ok eggiudu til varnar. reis þa sa margr vpp er aadr hafdr fallit fyrir grioti ok vapnum ok dugdi nu huerr slikt er maatti ok gerdu nu harda rid. Suerrir konungr liop vpp a viduna ok hafdi huitan kufl ok vel buit vndir med raudum skilldi. hann eggiadi sina menn. þa sneriz hann ok leit a bakborda Olafssudinne. þa laa Gudlaugr stallari hans med halfþritugu skipi ok hafdi eigi leingra fram lagt enn til eftra austrums. þa kalladi Suerrir konungr ok mællti. þrifiz saa alldri er sua leggr fram haalfþritugu skipi. Gudlaugr quaz eigi rada mega. Suerrir konungr tok paalstaf einn ok stack vid kinnunginum a skipi Gudlaugs ok het a menn sina at þeir skylldu draga fram med skipinu. þeir gerdu sua ok komuz til fremsta austrrums. litlu sidarr var engi sa madr a skipi Gudlaugs fyrir framan siglu at eigi blæddi. var þessi orrosta bædi hord ok long ok sua mannskæd. Audbiorn gestahofdingi lagdi at gestaskipi Magnuss konungs ok hafa menn þat at agætum gert huersu diarfliga þeir sottuz. þottiz þat engi madr skilia huorir sigraz mundu. Halluardr gæla het vikverskr madr hann skaut allra manna bezst. hann skaut vm sinn auru til skips Magnuss konung ok flo fyrir ofan skipit. þa skaut hann annarri i bordit ok enni þridiu vndir kiolinn. þa mællti madr. lengra skauztu i sumar ok beinna er fe la vid ok konungr setti vid silfr huerr beinaz skyti ok fecktu þat silfr. meiri þaurf væri nu at vera beinskeyttr ok veria lif konungs. Hann suarar. þickir þer eigi gegnt skotid. Sa suarar. engi mun sa a skipinu at iafnobeint mune skiota. Siþan tok hann vpp tylft aurfa ok skaut einni aa skip Magnuss konungs ok hæfdi þann er hann skaut til vnz allar voru vppi ok hafdi mann fyrir huerri. ok er su tylft var vppi þa tok hann bogann ok lagdi vndir fot ser ok braut sundr. þa mællti konungr. hui fortu sua. enn er oss sama lidsþorf sem fyrr. Halluardr segir. leyst hefir ek minar hendr med skotum enn veria skal ek mitt rum enn hedan af sem einnhuerr annarra. Tok hann skiolld ok suerd ok geck vt at bordi ok bardiz. þa er orrosta var sem akaufuz ok menn þottuz eigi vita huersu hniga mundi geck Suerrir konungr fram a þiliur ok lagd iaf ser vapn sin ok

fell a kne ok hellt hondum til himna ok saung sequenciuna Alma chorus dei til enda ok hlifdi ser ecki a medan. Eftir þat vard sa atburdr at Magnus konungr geck fram a skip sitt ok bardiz i fyrirrumi ok var allakafr. hann geck sua nærr Birkibeinum at hann liop odrum fæti vt a bordit ok ætladi at na med hauggi til mannz. enn Birkibeinar kendu hann at vopnum ok baaru þyck(t) aa hann vopnin. einn madr skaut suerdi til hans ok kom i ristina ok liop nidr i gegnum enn konungr braz vid skiott ok fordadiz ok skridnadi odrum fæti a þiliunni er blodugt var ok fell a bak aftr. þat sa Birkibeinar ok æptu sigrop. þa mællti Ormr konungsbrodir vid sina menn hann laa næst konungsskipinu. huat veit op þetta. þa suarar madr haatt. þar fell nu Magnus konungr. þa suarar Ormr. skipt mun þa londunum ok hauggui teingslin ok roi vndan sem hardaz. Ok sua gerdu þeir ok þui næst Aasbiorn Jonsson ok þa huerr at odrum. Magnus konungr liop vpp skiott ok kalladi bad þa eigi flyia ok kuat sik ecki saka. enn þa let eingi sem heyrdi ok leystu þeir þa Skeggiann fra Olafssudinni ok reru i brott. enn Birkibeinar komu stafnliam a Hofdabuzsuna ok ruddu hana millum stafna. Steinnfinn(r) stod einn vpp(i) frammi i stafninum ok vardiz alldreingiliga ok fengu þeir eigi fyrr sott hann enn þeir toku aas fram or stafninum ok lustu hann med. fell hann þa med mikinn ordztir. morg skip ruddu Birkibeinar þar ok mart fell af þeim. allr herr Magnuss konungs flydi med honum.

## Ormr komz brott.

51. Ormr konungsbrodir lendi yfir i Grafdal þuiat hann hafdi skip mikit ok þungt vndir aarum. geck hann þar vpp ok allir hans menn. toku Birkibeinar skipit ok allt þat er a var. sottu sumir vpp i fiallit eftir Ormi. Ormr var þungfærr ok leiddu hann .ij. menn. enn er Birkibeinar sottu hann miok þa spretti hann fesiod digrum ok let hlaupa nidr silfrit. gestir foru honum næstir af Birkibeinum. toku þeir vpp silfrit ok duolduz þar at. dro Orm þa vndan i fiallit vpp ok skildu þar. Suerrir konungr gaf gestunum mikit skakr þar fyrir er þeir hofdu Orm latid vndan reka enn kropit þar vm ris eftir nockurum silfrpenningum. Birkibeinar hofdu eigi fang aa at reka langt flottann sua voru þeir saarir ok bardir. allz toku þeir skip Magnuss konungs .xviij. ok fluttuz med inn til bęar. þar feckz mikit lutskipti. þuiat Magnuss konungs menn aattu þann tima gott til lausafiar ok dualdiz Suerrir konungr þa i bęnum vm rid ok skipti monnum sinum til skipstiornar a þau skip

er þeir hofdu tekit af monnum Magnuss konungs. hann let ok niosnir hallda.

## Af Suerri konungi.

52. Magnus konungr for i ridinne sudr til Stafangrs ok kom þar saman lid hans þat er eftir var. sua toludu menn at eigi mundi færa fallit hafa af huorum enn .ccc. Eirekr byskup tok vel vid Magnusi konungi i Stafangri [607] ok eggiadi miok at hann sneri aftr til Biorgyniar ok let meiri van at Birkibeinar mundu ecki vera vel vid bunir at beriaz. konungi likadi þetta radligt. sysladi Eirekr byskup þeim allt lid þat er hann feck ok skipadi langskip huskorlum sinum ok for sialfr med konungi. Magnus konungr feck mikit lid af herudum. foru siþan nordr til Biorgyniar faam nottum sidarr ok sottu leidina sem akafaz. Eyiolfr Aplason var a niosn med skutu nockura ok funduz þeir eigi fyrr enn þeir sa i sundinu fyrir ser her Magnuss konungs. þa mælltu þeir milli sin at þeir hefdi hættliga roit. þa mællti Eyiolfr at þat mun hellz til at roa fram i sundit ok lata sem þeir se Heklungar ok segia konungi tidendi er þeir stefndi þannig beint at. Enn þa er at sotti kendu þeir er fyrir laagu at þat voru ecki þeirra menn gripu þa tiolldin af ser þeir er a skutunum voru ok reru at þeim. Birkibeinar lustu vid hart ok reru sudr or sundinu. Heklungar reru eftir þeim ok for þat skip næst þeim er Eirekr byskup var aa. þar var aa ok mart kennimanna ok gaatu þeir eigi tekit þa. enn er byskup sa þat at þeim sottiz seint þa mællti hann at þeir skylldu bregda at landi ok laata af lærda menn ok letta sua skipit. þa munu þeir teknir verda. þeir gerdu sua enn Birkibeinar sottu vndan a medan ok gatu eigi byskupsmenn tekit þa. þa stefndu Birkibeinar vt til hafs ok aftr et ytra med hafi til Biorgyniar ok baaru Suerri konungi niosn ok sogdu honum þessi tidendi er þeir hofdu sua kunnliga seet. Enn er Birkibeinar vrdu þess varir at Magnus konungr mundi skiott koma a hendr þeim þa hafdi Suerrir konungr tal vid sina menn ok leitadi raads huersu haatta skylldi. enn allir voru nu vfusari at beriaz enn fyrr ok villdu helldr leita nordr vndan ok kuoduz nu ecki vel vid orrosto bunir. margir miok sarir enn halldit orrosto faam dogum aadr vid mikit ofrefli ok sogdu sua margir at fyrir Nordnesi hofdu (þeir) sua nauduliga staddir verit at þeir villdu giarna hafa flyit ef þeir hefdi lausari vid verit orrostona. Ok var sua slitit þessu maali at þat var stadradit at buaz sem huatligaz a brott ok fara nordr vndan. þa skiptuz menn a skipunum sua at oll skylldu fær verda med nockuru moti. feck Suerrir konungr Eyiolfui Aplasyni til forrada Hofd-

abuzssuna er Narfui hafdi aatt var þat mikit skip ok miok reidalaust. Eyiolfr Aplason kom sidla vm kuelldit er hann bar niosnina. enn eftir vm morgininn er sol var litt farin var Suerrir konungr farinn or bænum med flest allt lid ok hafdi sua litt skipat at þeir vrdu flytiaz a baatum milli skipanna at reisa viduna ok draga seglin. þa sa þeir skip Magnuss konungs at þau sigldu sunnan fyrir Hvarfsnes. þa sa Heklungar skip Eyiolfs ok þottuz vita at Birkibeinar mundu vera ok sigldu eftir þeim a .v. skipum ok raaku þa allt nordr i Furusund. þat var Birkibeinum enn mesti vaadi allt fyrir sunnan Stad huar sem þeir skylldu niosnum hallda alla þa stund er stod deila milli Magnuss konungs ok Suerris konungs þa var þat iafnt huart sem þeir hittu bændr edr landzfolk kaupmenn edr fiskimenn at þeim mun alldri sagt vera til Magnuss konungs edr hans manna þoat eitt annes væri milli þeirra edr eitt leiti ef þeir voru a landi. enn ef Magnuss konungs menn hofdu meira lid þa sogdu allir til Birkibeina huar sem þeir voru staddir. ok kom þetta skipti opt Birkibeinum til manntions edr lifshaaska. enn þat mælltu allir bædi vinir ok vuinir at þeir þottu furdu diarfliga bera niosnirnar optliga ok komaz þa iafnan vndan er engi vænti þeim lifs ok opt þar i mot huerfa ok fa sigr er vlikligt þotti vera. Fyrir Nordnesi fell Sindri Sæbiarnarsun af Suerris konungs lidi ok mart manna. er þat ok maal manna at eingi orrosta hafi snarpari verit er Suerrir konungr hafi aatt ok vsynna hafi verit huarn veg hniga mundi adr enn audna skipti sigrinum. enn eigi sottu menn Magnuss konungs vdiarfligar fram allt þar til er þeir flydu ok þeir þottuz sigrinn hafa handtekit i fystu ok mest fyrir þui at þeir hugdu at Birkibeinar mundu ecki vel kunna at beriaz a skipum. þuiat eitt sinn fyrr þa er þeir hofdu a skipum bariz nordr fyrir Gaularaasi þa flydu þeir Birkibeinar. Suerrir konungr for nordr skyndiliga til þrondheims ok þui næst til Nidaross var þa vid honum vel tekit let hann vpp setia skipin ok bioz vm i bænum. var þa vpphalldit vel treborginni vt vid Jluvollu er Eysteinn erchibyskup hafdi gera laatid. þa let ok Suerrir konungr setia kraka vtan fra borg et fremra med sio ok vard þat eigi algort a þui sumri. sat konungr nu þar.

## Eirekr kom til Suerris konungs.

53. þat sama vár kom til Suerris konungs Eirekr sa er kalladiz sun Sigurdar konungs Haralldzsunar ok hafdi verit langa rid vtanlandz ok allt til Jorsala ok farit i aana Jordaan ok hafdi loganda kerti i hendi ok var þat hans sogn ok hans manna at aadr hann stigi i aana

mællti hann at gud skylldi lata kertid loganda koma vpp or anni. ef ek er sannr sonr Sigurdar konungs. ok sogdu þeir at hann geck vpp or aanni med loganda kertid. Eirekr hafdi ok verit i Miklagardi a mala med Grickiakonungi. vida haf(d)i hann verit siþan i Sudrriki ok med morgum tignum monnum. hann var miok kurteiss madr ok margs vel kunnandi litill madr vexti ok ecki fridr. hann beiddiz þess af Suerri konungi at hann leyfdi honum at flytia skirslur ok færazst i ætt þa er hann kuaz eiga at hann væri son Sigurdar konungs. Suerrir konungr bar þetta maal fyrir hofdingia sina fyst ok leitadi af þeim raadagiordar. enn þui næst hafdi hann vppi maalit a hirdstefnum ok kuaz þar vita vilia af ollu lidinu huert þeirra samþycki væri. enn þar fenguz þau suor af ollu lidinu at þeir villdu þiona Suerri konungi enn engum odr-um. enn hofdingiar fystu þess at vnna Eireki sannz fadernis. þa mællti Suerrir [608] konungr til Eireks. med raadi vina minna vil ek gefa þer orlof til at flytia skirslur sua at gud sanni faderni þitt. enn þo at sua beri til at þu verdir brodir minn ok son Sigurdar konungs þa hefir mik sua mikit kostad konungsnafnit ok riki þetta er nu hefir ek ok sua morg volk ok vandrædi ok storar mannhættur hefi ek þolat ok ver Birkibeinar at eigi þer ok engum odrum vil ek lia edr vpp gefa konungsnafn edr riki þetta. nu maattu taka þenna kost ef þu vill med sætt ok orlofui af mer enn at odrum kosti skalltu fara hedan i gridum sua sem þu vart ertu komt her. Eirekr þackadi konungi med fogrum ordum þuiat hann var sniallr madr i maali er hann lofadi honum skirslur ok kuaz þann kost giarna vilia at sanna faderni sitt enn eiga þatan af sitt maal a guds valldi ok konungs. Litlu sidarr fastadi Eirekr til iarns ok þa er hann skylldi iarnit bera skildi Suerrir konungr fyrir eidstaf-inn ok mællti sua. at her leggr þu hendr a helga doma ok þui skytr þu til guds ok sua laati hann hond þina heila vndan iarni koma sem þu ert son Sigurdar konungs ok brodir minn. þa suarar Eirekr. sua laati gud mik bera heila hond mina fra iarni at ek em son Sigurdar kon-ungs. enn eigi vil (ek) þetta iarn bera fleirum monnum til fadernis enn mer. Ok eftir þessum eidstaf bar hann iarn ok vard vel skirr. Suerrir konungr tok þa vel vid frændsemi Eireks ok setti hann hofdingia innan hirdar. var Eirekr vinsæll madr ok manna litillaatazstr ok hellt allra manna bezst sina menn.

## Vidtal konunga Suerris ok Magnuss.

54. Magnus konungr kom til Biorgyniar lidi sinu ok dualdiz þar vm vorit. ok er fram leid lætr hann bua her sinn ok ferr nordr til

kaupangs ok koma þar at Olafsvoku enni sidarri. Suerrir konungr bioz vid i bænum ok hafdi mikit lid fyrir þui at bændr hetu honum geingi sinu. er þar var fioldi kominn i bæinn eftir þui sem vandi var til at fara til bearens vm gilldistid. Ok la Magnus konungr miok leingi vt vid Holm þuiat honum þotti eigi arenniligt vera vid mannfiolda þann allan er hann saa þann er Suerrir konungr hafdi ok villdi bida þess er lokit[1] væri gilldistidinni ok bændr færi heim. ok i þessi bidstund toluduz konungar vid stund nockura a huerium degi. ok let Suerrir konungr bioda enn sem fyrr Magnusi konungi at skipta landinu i helminga. baud hann at skipta enn Magnus konungr keyri. eftir þat tal var huarki iattad ne neitad af Magnusi konungi. þa let Suerrir konungr blasa til þings i bænum ok sagdi bondum huat þeir hofdu talat ok sagdi þeim bod sin ok tal. at þessu vard godr romr ok kuoduz allir fegnir þui ef fridadiz ok enn legdi þeir til vmrædu. ok voru sett grid medan sætt þeirra stod. Reri þa enn Magnus konungr inn at Eyrum med einni skutu. enn Suerrir konungr sat a hesti vppi a eyrunum ok var med honum fioldi mannz ok flest bændr ok bȩarmenn er foruitni var aa huat konungar toludu edr huersu þeir lyktadi ræduna. Nichulas Arnason taladi þa fyrst af hendi Magnuss konungs ok for su ræda likliga til sættar eftir þeirra vmrædu er aadr hafdi milli farit taladi langt erendi ok sniallt. Menn Magnuss konungs hofdu roit nockurum skipum vpp i aana enn Birkibeinar geingu ofan i mot þeim ok letu bera mungaat ofan or bȩnum ok settuz allir samt ok drucku vt a Brottueyri ok toluduz vid. ok þo at þeir væri i tuennum flockum þa voru þeir þo margir frændr ok hofdu fyrr verit vinir. þa tok Suerrir konungr til maals ok kuez fwss vera at sættaz vid Magnus konung sua at fridadiz land. baud þa enn at skipta landinu i helminga ok væri þeir badir konungar sem fyrr hofdu verit synir Magnuss konungs berbeins edr synir Haralldz gilla. taldi ok þat er Magnus konungr enn godi hafdi midlat halft land vid Haralld konung fodurbrodur sinn. þa hofdu oftaz .ij. verit senn konungar at Noregi enn stundum fleiri ok sagdi sua at þat maatti vel gera at dæmum hinna fyrri konunga. Bændr ok bȩarmenn gerdu godann rom at þessu ok kolludu vel bodit. Magnus konungr stod vpp ok mællti. haatt ok tok þo fyst stilliliga[2] til orda ok sagdi sua. þat er mer sagt vm Noregs konunga þa er þer takit til dæma at .ij. hafi senn verit. þa hefir su midlan verit gerr med kærleik ok blidu milli brædra edr annarra frænda ok hefir optaz lokit med vsætt þeirra vidskiptum enn sumstadar med alldrtila ok berr þat hingat næst voru minni. enn min vaandrædi

[1]) likit *Cd.* [2]) stirliliga *Cd.*

ok vgipta hefir vordit sua stor nu vm rid i laati gôfugra frænda minna ok vina þa veit ek þat þo at ek ganga at nockurum naudasættum at ecki mun ockr Suerri hirdir þessar verda hægar at hafa i einum kaupstad edr i einni maalagiof at þuilikum sokum sem her er a milli manna. nu mun þat af þui skammr fordi verda þo at þess se freistat. þa suarar Suerrir konungr. þat er satt er þer segit Magnus konungr at vera kann vm fridinn þo at vit vilim hallda at þo riufui adrir. nu helldr enn ockr vgifta veri leingr sua margra manna mein þa vil ek fara brott or landi med lid mitt ef þer vilit binda þat suardogum at ek skal hafa til forraada haalft land ok setia þar yfir mina menn i fridi ok frelsi. þa mun ek dueliaz or landi .iij. vetr. enn er ek kemr aftr þa skolu þer ok ydrir menn ryma land fyrir mer adra þria vetr med þuilikum kosti sem ver gerum adr þa suarar Magnus konungr. þat vil ek Suerrir at þu farir brott or landi ok þat med at þu komir alldri aftr. ek var vigdr ok koronadr af legatanum af Romaborg ok at raadi allz landzfolks. ek suarda þat i vigslu minni at ek skylldi hallda landzlôg ok veria med suerdi þui er ek tok i vixlunni land þetta fyrir vfridi ok agangi vondra manna. ek het ok þui at laata helldr lif mitt enn ganga a þenna eidstaf. nu raadi gud hue langt lif mitt verdr enn ecki er [609] vm þat at tala at ek muna riufa eida vixslu minnar fyrir bleydi sakir sua at ek midla landit fyrir þer Suerrir. at ek hefir aadr latid fyrir ydr Birkibeinum .c. lendra manna ok þann einn er mer var meiri skadi at enn hinum ollum enn þat var Erlingr jarl fadir minn. þat er mer ok vgeranda at midla rikit þer Suerrir þeim manni er ek hygg at enga ætt eigi til at vera konungr huarki her ne i odrum stad. er þat sannaz at ek skal annathuart hallda ollum Noregi edr laata allan ok þar lifit med. þa suaradi Suerrir konungr. þess eina minniz þu nu Magnus konungr huerr yduarr skadi er vordinn i vorum skiptum. enn þer litid eigi aa hitt huat ek hefir laatid af ydrum frændum er meira er at telia ok stærra enn þat sem nu [hefir ek talt ok þer[1] fyst þat at fadir minn var felldr Sigurdr konungr sudr i Biorgyn ok þui næst var felldr Eysteinn konungr i Vik austr faudurbrodir minn ok nockurri stundu sidarr eftir fall Jnga konungs ok Hakon brodir minn var til konungs tekinn vm allt land þa reisti Erlingr skacki flock i mot honum ok felldi hann sudr a Mæri ok marga lenda menn med honum ok adra dreingi goda. Haralld brodur minn let Erlingr heingia sudr a Huarfsnesi sem einn krakuvnga. Sigurdr brodir minn var hogginn sudr i Biorgyn. Eystein brædrung minn felldu þer a Ræ. nu matta ek þat mæla sem

[1]) r. hafi þer talt

þer mælltud at eigi mætta ek konungr vera ef ek skyllda sættaz vid ydr edr skipta ydr af minni fodurleifd fyrir þui at þat vard enn alldri fyrr i Noregi er eigi var konungr konungsson fyrr enn þu Magnus konungr. ok enn skal it sama vera af minni hendi sem fyrr var. gack vpp a Jluvollu ok buz til bardaga enn ek skal ganga or borginni medr minu lidi ok muntu enn fara þuilikum fǫrum edr verri enn næst er ver bǫrdumz þuiat nu mun gud vilia at endir verdi a þessu rangliga riki er þu hefir haft vm rid.

## (Af) bodum Magnuss konungs.

55. þa suarar Magnus konungr. eigi munum ver nu ganga optar vpp aa blotvoll þinn Suerrir. gack helldr a skip ok skipa iafnmorg skip ok leggium vt or anni. þa suarar Suerrir konungr. skip vor eru nu vpp sett ok ecki buin til bardaga at sinne. enn þo ma ek fa .iij. skip enn þu skipa onnur .iij. sem þer likar ok leggium þau saman .vj. þa suaradi Magnus konungr. ek ætla at hitt mune bezst fallit at tyna nu eigi fleirum monnum enn aadr hafa laatiz i þessi þrætu. fyrir þui at þat er satt er þer segit at ek hefir oft vordit skyndiliga at fara fyrir ydrum monnum enn þu Suerrir liggr i fylgsnum ok i hreysum huert sinn þa er bardagar eru. ok ef þu þorir þa gack fram med vopnum þinum enn ek mun einn koma i mot þer ok skiptumz. þa hoggum vid ok hafi sa konungdominn er sigrazst. þa suarar Suerrir konungr. helz audsæ er monnum ockur vgifta þott eigi beriumz vit sialfir ok eru til þess menn ockrir settir at beriaz fyrir ockr i bardogum. syniz mer þat ok okonungligt at beriaz i einvigium sem kempur þær er eingra manna eigu forraad. enn med þui Magnus konungr at þu girniz helldr at beriaz vid mik einn saman enn fleiri menn se vidstaddir þa tak þer hest enn ek mun annan ok ridum turnreid (þat) er rikra manna sidr. Sua sem a leid talit þa dro þui meirr i sundr med þeim ok sua þeim er samdryckiuna helldu. geingu nu allir Magnuss konungs menn a skip ok reru vt or anni. þa skutuz þeir aa ok reru Heklungar þa vndan. faam naattum sidar for Magnus konungr ut or þrondheimi ok sudr til Biorghyniar.

## Vidreign konunga Suerris ok Magnuss.

56. Suerrir konungr let draga skutur vpp or anni yfir Eyrar a sioinn ok hliopu menn þar aa ok laugdu vt at Heklungum ok kuomu sua nærr at huorir skutu spiotum a adra. reru Heklungar þa vndan ok faam nottum sidar sudr til Biorgyniar ok vard eingi bardagi i þat sinn.

dualdiz Magnus konungr i Biorgyn þann vetr. J þeirri snerru fellu margir menn af huarumtueggium ok miok mart vard saart. Karl kiotlær feck þar banasaar. Magnus konungr hafdi þat sumar tekit leidangr ok allar tekiur fyrir sunnan þraandheims mynni. enn Suerrir konungr hafdi þa ecki lidi sinu til vidvistar nema þat er þeir fengu or þrondheimi. Enn er Suerrir konungr spyrr at Magnus konungr var kominn sudr vm Stad med lidi sinu ok voru þa med honum flestir lendir menn hans þa gerdi hann þat raad at byria ferd sina til Vpplanda enn setti eptir i þrondheimi Eirek brodur sinn ok annan hofdingia Kol Ysakrsson i Fol(s)kn ok sumt lidit med þeim at gæta skipanna. voru þar ok margir sueitarhofdingiar adrir. Suerrir konungr for alla leid til Vpplanda ok gerdi fyrir ser i bygdina sina menn at gilldra til veida ef þeir fengi nockut tekit af Heklungum edr fe þeirra. þa drapu þeir Ozsur vaagadrumb Jonssun ok Eyuind dyra Jonssun ok marga adra. for Suerrir konungr ofan til Osloar ok setti sina menn i syslur allt vm Vikina. enn Heklungar flydu vndan sumir austr enn sumir nordr til Magnuss konungs ok sogdu honum vm ferdir Suerris konungs ok hans manna.

### Bardagi Magnuss konungs ok Eireks.

57. Magnus konungr skipadi lidi sinu. sendi austr til Vikr mestan luta lids i moti Suerri konungi. var fyrir þui lidi Ormr konungsbrodir. enn Magnus konungr for sialfr med .vij. langskipum ok skuta et aatta ok vendi hann nordr med landi ok kom til þrondheims litlu fyrir Marteinsmessu. enn Eirekr konungsson ok Kolr Ysaksson hofdu feingit nockurn afspring vm ferdir Magnuss konungs ok laata þeir vaka vm nætr i gilldisskaala. enn þeir vrdu eigi fyrr vid varir vm ferd Magnuss konungs enn þeir saa at skipin sigldu vtan fyrir Digrmula. þa var þegar blasit ollu lidinu ok settar fylkingar. aunnur vt a Eyrum ok var þar sett merki er Kolr fylgdi Ysaaksson ok sumt bæiarfolk. enn Eirekr konungssun hafdi fylkt vppi vid Skipa [610] krok ok vt til Brottueyrar enn bearmenn sialfir hofdu fylking a bryggionum. þeir Magnus konungr logdu segl sin er þeir foru inn vm Holm ok vtan at Krossi. þa logdu þeir oll saman skipin ok laagu þar langa rid dags. þat var laugardagr i vikunni. þeir er a eyrunum voru vodu vt margir ok kostudu grioti enn sumir skutu ok eggiodu þa til landgaungu. enn þar komu engi suor i moti af Magnuss monnum fyrir þa sauk at hofdingiar voru aa tali ok gerdu raad sin. Hagbardr muntari geck þa at brudlaupi sinu i bænum. hann kalladi a Magnus konung ok kuez vilia bioda honum til

brudlaups sins ok ollu lidi hans ok var þat gert miok vid spott. Ok vm nonskeid leysa þeir Magnus konungr flota sinn ok greida atrodr ok roa .iiij. skipum til aarinnar þau er stærst voru enn aunnur .iiij. at Eyrum. konungr sialfr reri i aana ok lagdi at þar er fyrir var merki Eireks konungssunar ok vard þar haurd vidtaka ok skaum. logdu þeir Magnus konungr sibyrt vid sandinn ok skutu bryggiunum vpp vndir fætr Birkibeinum. letu þar med ganga vtan af skipunum griot spiot ok skot sua at Birkibeinar hopudu vndan. þa redu Heklungar þegar til vppgaungu enn Birkibeinar toku vid þeim ok fellu menn af huorumtueggium ok var mart saart. þa leiddiz bearmonnum þar at standa ok drifu þeir i bæinn vpp. Enn er Birkibeinar saa at þyntiz fylking þeirra ok þat at Heklungar sottu at fast þa snuaz þeir vndan ok flyia. enn Heklungar fylgia þeim ok fella marga menn. Enn þeir er vt logdu at Eyrum liopu þegar fyrir bord sua at siorr tok vndir hendr þeim ok ganga vpp enn Birkibeinar i moti ok tokz þar hardr bardagi. þa mællti madr til Kols. vpp ætla ek nu Heklunga komna i aanne. þa suarar Kolr. þat mun oss þaa raad at flyia. þa suarar madr honum. mun nu eigi of seinat[1] Birkibeinum at flyia. Kolr snaradiz a mot honum. þar eru þeir komnir dioflarnir Heklungar. Ok hio þegar til hans ok huarr þeirra til annars. Ok þa er Eirekr konungssun flydi ok hans lid þa sneruz Heklungar vt a Eyrar sumir. ok voru þa komnir at þeim Kol ok hans monnum ok gafu þeim vhagliga bakslettu. fell þar Kolr ok mart hans sueitunga. enn allt flydi lidit þat er eftir var. Eirikr konungssun flydi vt vm borg ok sua vt til Gaulardals ok med honum mart lidit. sumt flydi vpp vm bru. sumir hliopu i kirkiur inn ok voru þeir flestir drepnir. fyrir þui at þa hellt eingi kirkia monnum ok þa var þat gert er eigi var fyrr at menn voru dregnir or Kristzkirkiu. Eyuindr skraapr het madr forn Birkibeinn enn mesti hermadr mikill ok sterkr. hann toku þeir or korinum i[2] Kristzkirkiu ok drogu hann vt ok logdu a kialka ok drogu vt a Eyrar ok drapu hann þar. Gudlaug vala toku þeir i kirkiunni ok hǫfdu hann med hǫndum langa stund ok pindu hann at segia huar Suerrir konungr hafdi folgit lausafe sitt edr huar vera mundi Lauardr sun Suerris konungs er aadr hafdi Gudlaugr fostrad Hann sagdi til huarskis ok var honum þat vel borid siþan. Magnus konungr let drepa Gudlaug ok naligu fengu eingir grid af Birkibeinum þat er kostr var at drepa. Magnus konungr tok þar Olafssudina ok allan skipastol Suerris konungs .xxx. langskipa ok .iij. aull skip let hann fram setia ok brott bua þau er þeir maattu med fara enn brenna oll

[1]) sein at· *Cd.* [2]) ʒ (ɔ: ok) *Cd.*

onnur. Magnus konungr styrdi þa Olafssudinne ok bioz or benum sem skyndiligaz þuiat hann spurdi at Eirekr konungssun hafdi bondasafnat inn i Gaulardal. ok er þeir foru vt eftir firdi gerdi hann til menn sina at hoggua[1] vpp bu fyrir Apla a Aastum ok fyrir Tosta a Ystum. þridia fyrir Helga a Rydaasi. þeir toku ok vpp fyrir Eireki ok Aarna efio ok foru allvspakliga hvar sem þeir kuomu vid medan þeir voru i þrondheime. Eindridi torfi son Jons kutizu la eftir einskipa i Orknaarosi. þann dag kom Baardr Guthormssun med .xxx. manna or Hefni sunnan ok a hlidina fyrir ofan Tungu. þa sa hann huar langskip laa ok þottiz vita at vera mundu Heklungar ok treystiz eigi til at raada. voru þar vm nattina ok gerdi monnum helldr kallt. Hann sendi menn til bear a Gelmini til Ceciliu konungsdottur ok spyr tidenda. Hon segir þeim mart a laun ok þat at menn Magnuss konungs voru þar. þeir villdu þegar fara at þeim ok drepa þa. Baardr villdi eigi til raada ok red hann. Foru Magnuss konungs menn a brott vm daginn eftir ok komu eftir Magnusi konungi. Bardr for inn til kaupangs ok dualdiz þar vm rid ok setti þar sueit sina. sottu þa til lags vid hann sueitarhofdingiar Birkibeina Helgi þorfinnzsun Ottarr knerra Eyiulfr Aplasun. enn Eirikr konungssun for austr til Vikr til Suerris konungs ok sagdi honum sina ferd eigi sletta. Magnus konungr for þa sudr til Biorgyniar. þa var med Magnusi konungi Hallr skalld Snorrasun. hann orti þa visur þessar.

Glymvoll ristr gulli
god er stillis faur roda
Olaafssud vnd eydi
audgrims buinn raudu.
nu er ægr or faur frægri
fellr kufr i suig dufu
suelldr med sæmd ok milldi
siklingr kominn hingat.

Berr fyrir Holm þar er haarri
hlyrs fagrgota styrir
staal bruna raud aa reydar
rymfioll vnd gram sniollum.
frægr med fremd ok sigri
folkbradr konungr haadi
darra þing vid dreingi
daugling kominn hingat.

### Vidreign gesta ok hir(d)manna.

58. Magnus konungr let bua veizlu. hann veitti hirdmonnum i hirdstofunni miklu enn gestum i Sunnifustofu. Gestum likadi illa er hirdmenn drucku miod enn þeir drucku mungat. ok fimta kuelld iolanna er gestir voru miok druknir liopu þeir til vopna ok gengu at konungsstofunni ok villdu vpp hoggua ok er konungi sagt. hliop hann skiott til dyranna ok villdi staudua þa. enn Baardr skiolldr þræll hans liop fyrir hann vt i forstofuna ok var þegar drepinn. þa sneri konungrinn aptr. raku hirdmenn aftr hurdina enn gestir brutu vpp. þa liopu

[1]) huoggua *Cd.*

fyrir dyrnar þeir er halldit hofdu fylgd vm daginn. þuiat þeir einir hofdu vopnin i stofunni sumir toku ofngriotid ok bordu vt i forstofuna. enn er bearmenn vrdu vid varir ok huskarlar Magnuss konungs taka þeir vopn sin ok geingu til hirdstofunnar ok stucku þa gestir fra ok vrdu enn margir menn saarir. ok vm morgininn eftir let Magnus konungr taka gestina er fyrir þessu hofdu raadit let hann summa fothoggua summa handhoggua. enn voru drepnir nockurir.

## Fra Eiriki konungssyni.

59. Þa er Eirikr konungssun kom austr til Suerris konungs ok hans lagsmenn bad hann konung fara nordr til Þrondheims sem skyndiligaz sagdi at þrændir hafdi þess beitt at hann skylldi vera forstiori fyrir þeim sem hann hafdi heitid. þuiat Magnus konungr hafdi þess heitaz þa er hann for or Þrondheimi at koma sua i annat sinn at hann hefdi meira tom til at giallda þrændum þau suik ok vêelrædi er þeir hofdu haft vid hann ok Erling fodur hans. Suerrir konungr suarar sua (at) hann mun ecki fara at vm ord þeirra. kuat þa litla vitzsku synt hafa i raadagerd sinni. veitti þeim hardar atolur. quad hann ok þar stofnat til iolaveizlu med starfui ok kostnadi quaz ecki fyrr mundu fara enn a bak iolum.

## Fra Ormi konungsbrodur.

60. Ormr konungsbrodir kom austr til Vikr med lidi miklu for hann til Tunsbergs. ok laagu þeir a skipum iafnan ok foru stundum austr yfir Folldina stundum nordr a Agdir edr vm Vestfolld. hendu þa huorir menn fyrir odrum sua sem vid kuomuz. enn eigi foru Heklungar til Osloar ok ecki maatti konungr at þeim fara þuiat hann hafdi eingi skip. Suerrir konungr for or Oslu nordr til Þrondheims. vard þat til tidenda þa er hann for vm Hadaland at þeir ridi yfir [Raund at[1] isi. þa brast nidr isinn ok tynduz þar .vij. menn ok allir agætir. Jonn skutilsueinn ok Halluardr leppr Sunnifusun. Augmundr Hallsteinssun brodir Lodins. vard huarki borgit monnum ne hestum.

## Ferd Magnuss konungs.

61. Magnus konungr bioz nu eftir iolin nordr til Þrondheims ok for or bænum eftir kyndilmesso ok hafdi hird sina ok villdarlid ok var skorat aa skipum .viij.c. manna. for hann skyndiliga ok laagu þo

[1]) [raun a at *Cd.*

sumstadar i hofnum vedrfastir miok longum. enn þo komu þeir allt a vuart ok sua inn til bearins. þat var laugardag i annarri viku langafostu. þeir skipudu sua atrodrinum at sum skipin logdu at vt vid borg[1] sum at Eyrum sum reru vpp i aana ok liopu þeir vpp i bæinn enn skutur .ij. logdu at yfir vid Backa hlupu þar vpp vm Erlendzhaug stefndu til bruar. Birkibeinar voru i badstofum margir ok allir vbunir vid. Bardr Guthormsson vard fyst varr vid vfridinn ok liop yfir bru ok allir hans menn. Ozsur knerra ok Helgi þorfinnzsun aattu skutu fyrir bryggium i konungsgardi ok hliopu þangat. Eyiolfr Aplasun hafdi geingit til bads a Grioti. hann heyrdi barn eitt mæla. her fara Heklungar. Eyiolfr tok klædin i fang ser ok liop vt ok vpp hia Crosskirkiu. foru þa Heklungar margir vtan. liop hann þa vpp vm Kristz kirkiugard. kom þa sueit i mot honum er vpp hafdi geingit. sneri hann þa ofuan a bryggior ok komz a skutu ok let fra bryggionni. sumir brugdu suerdum vpp enn sumir buklarum edr þui er i hondum hofdu ok letu þegar fra landi ok suipudu yfir aana. ok er þeir skylldu lenda fyrir nedan Skellingahamar enn fyrir ofan Erlendzhaug þa vissu þeir eigi huat volldi er skipit geck huergi hugdu sumir at kominn mundi vera a þa herfioturr ok allir mundu feigir. hitt var raunar at ackeri hafdi hangit fyrir bord ok hofdu þeir eigi gaad at draga vpp i skipit ok hellt þeim þat þa er gryntiz at landinu. hiuggu þeir nu þegar streinginn er þeir vissu enn þeim sueif þegar at landi. hlupu þeir þa a land. þeir foru baadir samt Ottar ok Eyiolfr. sniorr var fallinn mikill. Nu hlaupa Heklungar þeir er lent hofdu vid Backa mot þeim vid gatnamot fyrir ofan Erlendzhaug. hlupu huorir sem maattu. vrdu þrir fothuatazstir af Heklungum. þeir mættuz ok voru þeir Eyiolfr ok Ottar .ij. saman ok redu Heklungar eigi aa. komuz Birkibeinar a gotuna til sinna manna ok voru þa .xv. saman i dal nockurum fyrir nedan Berg. Ottar quaz vilia vid taka enn Eyiolfr latti. helldu Birkibeinar vndan ok vpp i Kleppabu ok þar yfir Nid. sua vt i Gaulardal komu þar allir saman þeir er vndan kuomuz. foru þa vpp vm Soknadal ok stefndu sua til fiallz. ok er þeir komu i Hiarkinn kom þar i mot þeim Suerrir konungr austan or Vik. þeir segia honum sinar vfarar ok laat margra sinna manna. enn þeir er konungi hofdu fylgt austan letu helldr hædiliga yfir þeirra ferd. Vm daginn eftir foru þeir ofan til Vppdals ok ridu þeir allir er konungi hofdu austan fylgt villdi eingi midla sinn hest þeim er nordan hafdi komit ok geingu þeir allir. Biarni Kalfsson var med Baardi Guthormssyni. hann kuat þetta.

[1]) b'g *Cd.*

Fant se ek huern a hesti
her er nu sidr hinn versti
leid eigum ver langa
en lendir menn ganga.

hir(d)menn skolu hlaupa
her er ei gott til kaupa
mun ek ei morgu kuida
enn matsueinar rida.

Suerrir konungr for ofan til Orkadals a þann bæ er Griotar heita. voru þar fyrir syslumenn Magnuss konungs het annarr Sigurdr enn annarr Hakon. toku Birkibeinar hus aa þeim ok drapu þa ok alla sueit þeirra. einn madr komz vndan vt vm skialldþili er het Ottar gaasi. þeir hleyptu hestum eftir honum .v. saman ok komz einn honum næst ok fylgdi honum leingz. þat var Suerrir konungr. Ottarr komz i kiarrskoga nockura ok stefnir sua ofan til Orkaaross. for þar yfir a baati ok sua inn til Steins ok þadan inn vm Gaularaas.

## Magnus konungr sigradiz a Birkibeinum.

62. Nu er at segia fra Magnusi konungi ok hans monnum. þeir sueima vm bæinn ok drapu mart af Birkibeinum þui engi þurfti þar grid at nefna. dualdiz konungr þar vm helgina ok sendi ord vt i Orkadal at hann mundi þar koma miduikudaginn eftir ok eiga þar þing. enn Gauldælir skylldu koma til bear friadaginn eftir. skal þar þa þing vera. Magnus konungr for vt til Orkadals med ollu lidi sinu. geck þar vpp til þings enn bændr voru [612] komnir þar er stefnt var þingit. Konungr stod vpp ok taladi. langt mun ydr þrændum þickia aa at minnaz þa er ver aattum adr næst samþinga. hafa nu sua lidit .iij. vetr at þer hafit eingar skylldur mer gert. nu vil ek at þer gialldit leidangr allann almenning þann er þer hafit aatt at gera a þeima .xij. manudum ok þar med tuenna adra. latid þar ok fylgia gialld fyrir rodr ok reida ok allar vtvinnur þær er konungr aa at hafa ok þar med landzskylldir ok sakeyri þann er þer hafit aadr greitt ok golldit fiandmonnum vorum ok hafi þeir fyrir þat guds reidi ok mina. Ok þadan af taladi (konungr) sua hart ok sua vard hann reidr at hann bannadiz vm ok bændr hugdu vm rid at hann mundi ganga at þeim ok drepa þa. Hroi het madr a Biarkastodum er suaradi konungi nockurum ordum. hann beiddi bændum fridar ok grida ok nockurra fresta a vm gialldit. konungr lagdi þeim haalfs maanadar stefnu at þa skylldi koma inn til bear gialldit. enn het bondum gridum ef gialldit kæmi fram. var þa konungi dæmdr leidangr. þa foru þeir syslumenninir Sigurdr ok Hakon vpp a Griotar enn konungr for inn til bæar vm kuelldit.

## Hersaga til Magnuss konungs.

63. þridia dag er lokit var formessum i bænum þa kom ecki (bonda) til þingsins. þa sa þeir fara nockura menn vtan vm Steinbiorg med vidarhloss. Magnus konungr var at herbergi i gardi Eireks Aarnasunar. J þui bili kom Ottarr gaasi er fyrr var fra sagt. ok þa er hann kom i bæinn stefndi hann i gardinn Eireks enn hirdmenn voru nockurir i gardinum. ok er þeir sa at madrinn for akafliga þa spurdu þeir ef hann vissi nockut til Birkibeina. Ecki segir ek ydr þat sagdi hann. huar er konungr. Vppi i Cristzkirkiu a stefnu sogdu þeir. Hann stefnir þegar or gardinum ok til konungs. Litlu sidarr kom konungr i gardinn ok liop akaft ok kalladi at menn skylldu taka vopn sin ok vt a skipin sem skiotaz. her fara Birkibeinar at oss. þui næst quat ludr vid. tok þa huerr sin vapn ok klædi ok miok af skyndingu. hlupu a skipin ok logdu vt til Holms. Ok er a leid daginn komu ecki Birkibeinar ok ecki Gauldælar ok þotti þat vndarligt ef Birkibeinar væri eigi i nand enn þat þotti flestum likara at niosnarmadr mundi logit hafa. enn hann hellt sinni sogn iafnan ok var hann a konungs skipi. margir baadu þa konung orlofs at fara inn til bear þeir er eftir aattu vopn ok klædi edr silfr. sumir villdu sækia ser dryck sumir aattu konur i bænum. Magnus konungr latti þa at fara til bearens enn lofadi faam. enn margir foru eigi at sidr.

## Vidreign Birkibeina ok Heklunga.

64. Sverrir konungr ok Birkibeinar laagu vpp a asinum ok vissu oll tidendi i beinn. enn konungr villdi at þeir bidi enn þar til er flest lidit væri i badstofum. enn lidsmenn redu ok voru helldr veidibradir ok redu snemma i bæinn. þa var a regn mikit. vard engi vidtaka ok drapu miok mart manna. þar fell Einar skipstiornarmadr Magnuss konungs. sumir komuz vndan aa batum ok reru vt til Holms. þa foru ok batar miok margir vtan fra Holmi ok ætludu inn til bear aadr þeir sa at Birkibeinar foru vtan at borg. Magnus konungr for þegar i brott med lidinu vt eftir firdi ok sua alla leid þar til er hann kom til Biorgyniar. þat var mal manna at þa þotti miok syna huersu Magnusi konungi ok hans monnum var þa otti mikill at ganga i fylkta orrosto i moti Suerri konungi ok hans lidi er þeir flydu orrostolaust or bænum þegar (er) þeim kom niosn vm ferdir Birkibeina. ok hafdi Magnus konungr þa atta .c. manna. enn Suerrir konungr hafdi eigi meirr enn halft fiorda .c. manna ok þat enn at þa var treborginni sua vel halldit ok

dikinu fyrir vtan at betra var at veria med haalfu minna lidi enn til sækia. J þenna tima hafdi Magnus konungr einn skipastolinn ok hafdi hann þui einn allt landit fyrir sunnan þrandheims minni at skylldum ok skottum nema þat eina er Birkibeinar skutuz sudr aa Mæri enn huorirtueggiu foru med skutur ospakliga þegar er eigi voru hofdingiarnir nær. Birkibeinar hofdu sueitir sinar i Vik austr edr vm Upplond þuiat þat var þeim vænst til fefangs. Heklungar veittu þeim oft aaraasir ok huorir odrum ok hofdu ymsir sigr. ok væri þar mart af at segia. enn þo munu ver helldr rita þa atburdi er oss þickia merkiligri ok þat er konungarnir sialfir hafa vid verit staddir. Suerrir konungr let þa vm vorit eftir setia kraka sua at allt var krakat et ytra med sio inn vm gilldisskala ok þa vpp vm eyrarnar þuers til arinnar. þa med anni allt vpp at bryggium. sett var ok valslaungua vt a Brottueyri ok gerr kastali vpp vid bru.

## Fra Magnusi konungi ok Suerri.

65. Magnus konungr bioz vm sumarit eftir or Biorgyn ok droz honum þa enn mikill herr sunnan or landi. voru þar med honum flestir allir lendir menn hans. ok er hann kemr til þrondheims lagdi hann herinum inn vid Holm ok la þar nockurar nætr. Suerrir konungr sat i bænum. þa for Magnus konungr inn i þrondheim ok tok þar leidangr. foru sua vt til bear. hann laa hina fystu nott vid Depil fyrir innan Hladhamra. enn vm morgininn er lysti var sua mikill myrqui a sionum at ecki maatti sia meirr enn stafna a milli ok reri þa Magnus konungr i logni til Holms. Ok er Suerrir konungr heyrdi rodr þeirra enn saa eigi þa hugdi hann at þeir mundi at leggia ok let ollu lidi blaasa vt aa Eyrar. enn þeir Magnus konungr voru vid Holm vm nottina. Vm morgininn logdu þeir inn at Jluvollum ok gengu vpp med mestum þora lidsins ok foru nær innborginne. Birkibeinar sottu moti þeim vt til borgarinnar ok skutuz aa. Magnus konungr ok menn hans ætludu at banna allar atflutningar at bænum bædi af sio ok landi. þa brenndu þeir bruna a Nid. Suerrir konungr sotti vt til borgar med lid sitt ok let þar gera tialldbudir. hann let þar taka .ij. stofur or bænum ok flytia vt þangat ok setia vt vid borgina. saatu nv sua huarir vm rid. Magnuss konungs menn voru flestir a skipum vm nætr. enn skipt til sueitum vm nætr at vaka vid borgina. ok hofdu þar iafnan fiolment. þeir hofdu vm nætr ellda stora vt a vollunum. þat sa Birkibeinar at þangat var liost at lita enn þa var myrk nott sua at skamt maatti sia fra elldinum. A einni nott vapnaz Birkibeinar [613] ganga vt or borginni ok

veita Heklungum aaraas. finna þeir eigi fyrr enn orfar huina yfir hofdi þeim. ok þui næst var eigi langt at bida at spiotum var skotit. þui næst neyttu Birkibeinar suerda sinna ok drapu vm nottina mikit lid enn allt flydi er þui kom vid. enn þeir er a skipunum voru heyrdu ludrana ok herop mikit vpp a volluna. þa roa þeir at landi ok setia vpp merki sitt ok ganga vpp ok vilia duga sinum monnum. enn fyrir þui at myrkt var finna þeir eigi fyrr enn flottamennirnir hlaupa vpp a þa ok þui næst mættu þeir kesiulogum ok suerdshoggum Birkibeina. fellu þa þar margir þeir at med hlaupi hefdi vndan komiz ef eigi hefdi þeirra felagar sialfra stoduat þa. enn er þetta lid var komit i lid Heklunga þa vard ecki of vidtokunni. ok flydu þeir þa hardaz til skipanna er mest hofdu eggiat vppgaungunnar. fellu margir ok margir hlupu a kaf enn margir naadu skipunum Suerrir konungr for aftr til landtiallda sinna inn vm borgina ok hans menn ok hofdu feingit mikit lutskipti i vopnum klædum gulli ok silfri. Enn er lysti of morginin þa sa Birkibeinar at Heklungar laagu þar þyckt ok bleiktu sidurnar vt a volluna. þeir Magnus konungr reru vt til Holms ok faam nottum sidarr fara þeir vt or þrondheimi ok sua sudr til Biorgyniar ok sat þar vm vetrinn. Enn Suerrir konungr sat þann vetr i kaupangi. þann vetr let Suerrir konungr efna til borgargerdar vt a Steinbiorgum ok var hans herbergi buit i ondverda langafostu. for þa konungr vt til borgar ok var þar iafnan vm vorit ok sumt lidit enn sumt var i bænum. þann vetr let ok Suerrir konungr reisa skip i kaupangi meira myklu enn onnur skip þau er þa voru i Noregi. þat voru .ij. rum hins fiorda tigar ok þo mikit at þui. þat var kallat Mariusudin.

## Fra Suerri konungi.

66. þat var a onduerdum vetri at Suerrir konungr let blasa til þings bædi sinum monnum ok bæiarmonnum. þa taladi hann sua. mikil vandrædi hofum ver haft vm rid huortueggia minir menn ok bearmenn ok slik sama bændr i herudum. er her nu sultr ok seyra sem vaan er þar sem mikill herr er saman kominn i einn stad ok fæz vm .ij. vetr siþan ver mistum skipa varra er oss hafa oll þyngsl af stadit. nu veit ek her fa skip innan fiardar þau er herfær se ok er þat satt at segia ef ek vissa von þess at ver Birkibeinar ok Heklungar mundum ymsir at roaz. enn nu med þui at minum monnum leidiz þessi belltadrattrinn þa se ek engan vtveg oss annann enn snuaz til Vpplanda ok þadan vpp aa Vermaland ok allt a Gautland. Lauk sua maalinu at allir hans menn skylldu til ferdar

buaz. enn eftir i vikunni voru skôdir .xx. hestar ok .c. ok var buiz til ferdar. þetta spurdiz af kaupmonnum þeim er nordan foru til Biorgyniar. enn þar var þa saman komit fiolmenni mikit Magnus konungr ok allir hans lendir menn ok hofdingiar ok hofdu þar oll storskip sin ok ætludu at fara nordr at Suerri konungi. enn þui dualdiz at þeir spurdu at hann ætladi brott or þrondheimi. raufz þa safnadrinn. enn Suerrir konungr dualdiz fram vm iol i kaupangi. Eftir iolin for Suerrir konungr skyndiliga a skutum nockurum sudr til Biorgyniar ok ætladi at koma a vuart. enn er hann kom a Mæri tok hann þa anduidri ok laa þar vm rid. enn er hann þottiz vita at niosn mundi kominn i bęinn sneri hann nordr aftr til þrondheims ok sat þar vm vetrinn.

## Capitulum.

67. þorgils het syslumadr Suerris konungs hann hafdi syslu nordr a Halogalandi i nôrdzstu þingaa. hann hafdi ok finnferd ok foru vm vetrinn a fiall at finnkaupum ok skatti. þa bio i Biarkey Vidkunnr Erlingssun er manna vænligazstr þotti vera a vngum alldri a Halogalandi. hann var þa attian vetra gamall ok hafdi nytekit vid fodurleifd sinni. Magnus konungr sendi ord Vidkunni at koma til sin ok taka af ser lendz mannz rett sua sem burdir hans voru til. þat var ok margra manna maal at fleira mundi vera i ordsending konungs vid Vidkunn ok munu þat vera einkamaal milli þeirra. Vidkunnr aatti .ij. systr ok baadar fridar ok þottu þær kostir agætir. þa var ok vgift Ragnhilldr systir Magnuss konungs. Vidkunnr for vm vetrinn inn i fiordu ok niosnar vm Birkibeina. ok þa er þorgils kom af fialli ok hafdi mikit fe þa sat Vidkunnr fyrir honum i Ægisfirdi ok drap þar þorgils ok þaa .xij. saman ok allt feit ok hafdi med ser til Biarkeyiar. Vm vorit eftir bioz Vidkunnr nordan at fara. hann hafdi Gullbringuna tuitugsessu ok mikit at þui er aatt hafdi Eysteinn erchibyskup. var hon allvel skipud at vopnum ok monnum. vistabyrding hafa þeir annat skip. þar voru ok med honnum systur hans baadar ok Jon drumbi modurbrodir hans. þeir Vidkunnr foru diarfliga ok vgdu ecki at ser. hofdu skiolldu sina vid stafna enn bryniur allar i kistum vndir þilium nidri. Suerrir konungr spyrr huat Vidkunnr hafdiz at ok gerdi i mot honum Baard Guttormssun ok Juar selka med .vij. skutum. enn er þeir komu nordr i Aungli[1] þa sa þeir skip Vidkunnz at hann sigldi nordan yfir Ofota. þat var vppstigningardag snemma. Birkibeinar reru inn vndir Steigarbiorg ok bidu þar. enn þeir Vidkunnr sa þa eigi fyrr enn skipin rendu naliga saman

[1]) aaungli *Cd.*

leyptu þeir þa ofan seglinu. enn Birkibeinar logdu at þeim a bædi bord ok veittu harda atsokn. enn Vidkunnz menn hofdu ecki at veriaz med nema hoggvopn sin ok sneri mannfallinu braatt a þa Vidkunn. þa villdu þeir skiota baati ok villdu flytia af konurnar ok vard þat ecki þuiat skiott red vm. Birkibeinar hofdu sigr. fell þar Vidkunnr ok all(t) foruneyti hans. [614] toku Birkibeinar Gullbringuna ok allt þat er aa var ok hofdu sudr til þrondheims ok hittu Suerri konung. lofadi hann miok þessa ferd.

### Fra Birkibeinum ok Heklungnm.

68. Vm varit eftir pascha atti Suerrir konungr opt þing vid sina menn ok bearmenn ok gerdi fyrir þeim ymsa ætlan. ok stadfestiz ecki vm þat ok þar kom at engi þottiz vita huert raad hann mun taka. stundum var þat mællt at þeir skylldi austr til Vikr ok austr til Gautlandz. stundum þat at ganga a skutur ok sigla vestr til Orkneyia edr allt til Sudreyia. allt hafdi Magnus konungr niosn af þessu. sat hann i Biorgyn ok droz honum þa enn mikill herr ok hafdi fiolda skipa. þat raad tok Suerrir konungr at hann steig a skutur ok hafdi .xx. skip ok flest sma. sagdi hann lidinu at hann villdi snuaz nordr a Haalogaland. enn er hann kom vt or þrondheimsmynni til Agdaness þa var a huass vindr nordan ok let hann blasa ollu lidinu af skipunum ok aatti husþing ok mællti. þann kurr sem ek hefir a gert vm nordrferdina til Halogalandz edr at rida vpp a Gautland þa var þat ecki alhuga gert. ok er oss þat þungt at roa nordr erfidann storm til litilla gæda eru ver þar komnir naliga i botnholu fyrir þeim Heklungum. nu se ek at þat er inndælla at laata suifa skuturnar foruindis sudr eftir sundum. ok er sua sem mællt er at sa hefir er hættir. eigum ver kost þegar ver vilium at bregda til hafs vt ok sigla et ytra til hafs ok til Vikr austr. Allir suorudu at þetta væri hitt bezsta rád ok sigla þeir þa sudr alla leid til þess er þeir kuomu sudr vm Stad. þa let konungr saman leggia ok atti tal vid menn sina. nu syniz mer vel raadit vm vora ferd her til ok mun nu raadligaz at snua vtleid ok sua til Vikr austr ok er gott heilum vagni heim at aka. er ok sa kostr at leita til Biorgyniar ef nockur fong þætti a vera ok er þat ecki raadligt enn heita maa þat Birkibeinum huaut[1]. enn eigi vil (ek) þess einkum fysa. þat kuro margir Birkibeinar at fara til bear ok þotti þeim gott ef þeir fengi nockut fang a Heklungum. þa gerdi konungr skutur nockurar inn i Vlfasund hann sigldi sialfr et ytra til Aleyiar sundz. Birkibeinar toku

[1]) haut *Cd.*

inni i Vlfasund .ij. skutur af Heklungum er verit hofdu a niosn drapu flest gaafu grid nockurum monnum ok hofdu tidendi af. þeir sogdu at .iij. skutur laagu i Aleyiar sundi a[1] niosn. enn viti var sudr a Haeyinni enn annar innan a Fenring ok ser fra þessum vita bædi inn nerdra vitann ok sua inn til bear. sogdu þeir ok at allr herrinn suaf vppi i bænum ok sua i huerium gardi huerr suaf rikismanna ok oll skip þeirra flutu tiolldut fyrir bryggium ok þeir vgdu ecki at ser. koma þeir til Suerris konungs nu þessum tidendnm. Ok þa er þeir sigla nordan vm sundit gerdi konungr lid fyrir med þeim skutunum er þeir hofdu tekit af Heklungum ok bundu þar vid stafna skiolldu þa er audkend-azstir voru er Heklungar hofdu att. foru þær skutur sudr fyrir. enn er þeir sigldu a fiordinn sudr fra Drifeyium þa sa Heklungar ok kendu bratt skuturnar ok skiollduna ok hugdu at vera mundi felagar þeirra ok voruduz ecki ok fundu eigi fyrr at vfridrinn væri enn skuturnar brunudu i sundit at þeim. Birkibeinar sendu þeim bædi orfar ok spiot hopudu Heklungar vpp a land ok voru margir drepnir ok særdir. Birkibeinar toku skuturnar ok allt þat er aa var ok bidu þar konungs. Eftir þetta roa þeir sudr leid sina ok er þeir sækia sudr i sundit þa gerdi konungr fyrir skutur þær er þeir hofdu tekit af Heklungum ok bidr þa taka vitann af Haeyiunni. enn Birkibeinar voru veidibraadir ok reru eftir skiotara enn konungr villdi ok verdr vitakarll varr vid ok skaut elldi i vitann. ok iafnskiott quomu Birkibeinar ok brutu i sundr vitann ok vard ecki vart til ens sydra vitans. roa þeir sudr med sialfu landinu þuiat þar bar skugga a sioinn af fiollunum.

## Fall Heklunga.

69. Adr þeir reru at Holldhellu atti konungr tal vid lid sitt ok mællti. eingu er enn i spillt vm vort raad. megum ver enn sudr laata fliota vm bæinn ok laupa sua yfir hond þeim. enn allir kuoduz fusari til bearins at leggia. Nu segir konungr at hann vill þess ecki letia ok kuad þat likara at Heklungar mundi konungi sinum ecki miok stodugir ef þeir vakna suefnqrir ok aulodir þa er ver komum þeim dyn fyrir dyrr. ver skulum sua haatta atrodrinum at Eirekr brodir minn ok .x. skuturnar enar stærri skolu roa vndir bergit ok ganga þar vpp. laata fara hans merki vtan vm Cristz kirkiugard ok sua i konungsgardinn. enn ek mun roa fram fyrir Holm ok inn fyrir bryggiur ok leita til skipanna. munu ver vppganga sumir þegar fyrir innan Sandbru enn sumir vm Miklagard ok vpp i Mariu kirkiugard enn sumir inn i Petrs

[1]) 3 (*d. e.* ok) *Cd.*

kirkiugard ok sua vpp vm stræti. Vlfr af Laufnesi skal roa med .ij. skutur inn i vagsbotn ok ganga þar vpp med merki fara sua innan vm stræti ok gegna þeim er þann veg stefna. Suerrir konungr greidir nu atrodrinn sua sem skipat var. liosta þeir nu i aarum ok roa sem akafligaz inn fyrir bryggiornar þar sem langskipin lagu hoggua streingina ok hrinda vt bryggiunum. fliota skipin vt a voginn þuiat eingir voru menn a skipunum til gæzslu. Birkibeinar hlaupa þa vpp a bryggiur. for þa merki konungs vpp ok æpa herðp ok hlaupa vpp i bæinn stefna þa vpp i gardana þa er þeir vissu von Heklunga fyrir. fell þar mart af Heklungum enn fioldi allr flydi. þa er Suerrir konungr kom vpp til Mariukirkiu þa var þar fyrir honum Jonn Hallkelssun ok bad grida. konungr gaf honum grid ok sonum hans .ij. Rðgnvalldi ok Hallkatli. Suerrir konungr sneriz nu vt eftir stræti ok sum sueitin. enn sum inn eftir bryggium ok hiuggu vt bædi kaupskipin ok langskipin ok var fullr vogrinn allir af skipum. þeir Vlfr sottu innan vm stræti ok drapu þar marga menn ok finna einga vidtoku. þa er þeir Eirekr lenda vt i Holminum heyra þeir herðp mikit i bęinn ok hugdu at [615] Heklungar mundu hafa vordit varir vid ok mundi veita þeim vidtoku þuiat þeir vissu ef Magnus konungr væri vidbuinn at hann hafdi sua mikinn her fyrir i bænum at Suerri konungi væri vfæra i at beriaz vid hann. enn eigi at sidr laupa þeir vpp diarfliga æpa herðp. renna vtan vm Cristz kirkiugard. Magnus konungr suaf i hallinni ok oll konungs sueitin. Magnus konungr var i suolunum vti ok heyrdi er vpp kom et fyrsta herop vt i Cristz kirkiugardi ok liop þa fram eftir suolunum ok vt i sualirnar ok ofan i kirkiugardinn ok var þat furdu haatt hlaup. Konungr stefndi vpp vm byskupsgard ok sua fyrir ofan Veisuna ok sua inn fyrir ofan Kopr ok sua fyrir ofan Nichulaskirkiu ok kuomu þa þannig hans menn. foru þa allt it efra inn til Olafskirkiu. kom þa saman lid hans. Birkibeinar hofdu ecki rannsakat bæinn þuiat þeir villdu huata vt i konungsgard. þa er merki Suerris konungs for innan i konungsgard þa vod annat merki ofan eftir gardinum i moti þeim. skutu huorir at odrum ok var vid sialft buit at þeir mundi beriaz adr þeir kenduz. þar for Eirekr konungssun. sneruz þa allir samt ofan at hallinni ok sækia þar at enn Heklungar vorduz med vopnum ok ofngrioti. var þat long rid fell þar mart godra dreingia. ok er þeir vissu at Magnus konungr var ecki þar let Suerrir konungr gefa grid þeim flestum er beiddu. Eysteinn erchibyskup var med skip sitt yfir vid Jonsbryggiur. hlupu menn hans vpp med vopnum ok ætludu til lids vid Magnus konung enn Birkibeinar mættu þeim ok drapu af þeim .xxx. manna enn raaku aftr

allt annat. þar fellu frændr erchibyskups Olafr langi ok Gudbrandr þorbergssun. enn vt i hallinni fellu þeir Halluardr marardraf Paal Eireksson vr Vppdal. þa er Magnus konungr kom vpp vm Nunnusetr mætti hann lidi sinu ok spurdi ef monnum þætti raad at snua til bearins. hann quad ser sagt at Birkibeinar hefdi faat lid. margir quadu þat hitt mesta vraad vopnlausum monnum at ganga til orrosto þuiat faatt eitt manna hafdi aluæpni enn mart litt klætt er menn hofdu hlaupit or reckium sinum. Konungr hafdi ok ecki merki ok eingan ludr ok þui þottuz þeir ecki til orrosto færir ok sneru sudr til Strindarfiardar ok þadan i Hardangr ok fengu ser þar skutur nockurar. margir foru sudr med landi. enn þat er seinna liop or benum sneri vpp vm Alreksstadi ok sua nordr i Ostrarfiord ok þadan vpp a Vǫrs ok it efra nordr i Sǫgn ok þa vpp a Valldres ok et efra allt i Vik austr.

## Suerrir var i Biorgyn.

70. Suerrir konungr tok i Biorgyn allann skipastol Magnuss konungs ok ena agætuzstu gripi hans. koronu ok gulluǫnd er Magnus var vigdr med ok allt vixluskrud hans. þa fengu lidsmenn mikit lutskipti. Eysteinn erchibyskup hafdi þat sama vǫr komit vestan af Englandi. .iij. vetr var hann a Englandi fra stoli sinum. þa sættiz hann vid Suerri konung ok for vm snmarit nordr til stols sins. Enn er Jonn Hallkelssun ok synir hans koma a fund Suerris konungs þa baud hann þeim at fara i gridum huart þeir villdi nordr til bua sinna edr austr eftir Magnusi konungi. enn þeir beidduz at fara til Magnuss konungs. tysuar hofdu aadr suarit honum eida ok huariga halldit. ok enn suordu þeir eida ok litlu sidar foru þeir austr til Magnuss konungs. Suerrir konungr for austr eftir Magnusi konungi ok funduz ecki at þui sinni. sneri hann aftr a Augdum til Biorgyniar ok dualdiz þar vm rid. enn Magnus konungr for sudr til Danmerkr aa fund Valldamars konungs ok flydi nu annat sinn land fyrir Suerri konungi. Suerrir konungr skipadi monnum syslur allt vm Haurdaland ok Rogaland. inn i Sogn sendi hann Juar dafa. Suerrir konungr for nordr i þrondheim ok sat þar vm vetrinn. þat var litlu fyrir iol at syslumenn krǫfdu vtgerda til iolaveizslu ser ok ætludu at sitia i Lusakaupangi. enn bændr vrdu vid þetta odir ok sofnuduz saman Sokndęlir ok Eidbyggiar ok foru at þeim ok kuomu þar iola aptan ok safnaz þa til med þeim kaupangsmenn. þessir voru fyrir þeim. Arnþorr af Huali. Ysakr þorgilsson ok synir Algeirs prestz Gautr ok Karlshofud. Juar dafi bad grida ok baud at fara i brott med alla sueit sina. bændr vilia ecki þat ok ganga at ok drapu syslumenn

ok alla sueit þeirra. enn þeir er lifit þaagu komuz a hlaupi vndan ok sua nord(r) et efra til Suerris konungs ok sogdu honum þessi tidendi ok sogdu at Sygnir quædiz drepit hafa þiofa ok raansmenn.

## Fra Suerri konungi.

71. Þat sama sumar var Mariusudin alger. þa let hann setia fram skipit. hafdi gert verit fyrir ofan beinn ok var þat maal manna at eigi muni mega fram setia nema gardar væri brotnir til ok sogdu menn at konungr lysti i skipgiord þessi mikla girnd ok ofsa. mælltu margir illa fyrir skipinu. enn at hinu reyndiz þa er fram var sett at konungr hafdi sua til ætlat at skipit geck fram ok þurfti huarki hus ne garda at briota til. enn er skipit liop af stockunum a aana vt þa biladi skarir nockurar. Þat hafdi at boriz vm vetrinn þa er Suerrir konungr hafdi farit sudr a Mæri þa var reist skipit a medan i kaupangi ok komnar vid .ix. syiur a huart bord þa er konungr kom aftr. enn er hann saa smidina þa mællti konungr. þetta skip er myklu minna efnat enn ek vil at se. nu skal hauggua i sundr skipit ok leggia i kiol .xij. alna langan. Smidrinn mællti a mot enn þo reed konungr. ok var þat at skipinu at samskarat var allt vm botninn ok hafdi þui bilat at skaurunum þa er fram var sett. Suerrir konungr stod vpp i skipinu þa er a vatn var komit ok mællti. gud se þess lofadr ok hin heilaga Maria ok hinn helgi Olafr konungr at þetta skip kom heillt a vatn ok eingum manni at meini sem margir gaatu ok ræddu þar um morg vuislig ord sem gud fyrirgefi þeim. nu þicki mer þat vænst at fair munu set hafa meira langskip a vatni fliota. þetta er mikil landvorn fyrir vuinum vorum ef hamingia vill fylgia skipi þessu. vil ek þetta skip gefa a traust innar helgu meyiar [616] Marie ok kalla þetta skip Mariusudina ok þar med þess bidia at hin heilaga mær Maria se vornn ok gæzsla fyrir þessu skipi ok her til iarteina vil ek gefa Mariu þa gripi er meirr heyra til guds þionustu enn vorrar. þat eru messukledi þau er erchibyskupi er sæmiligt at hafa haatidir. ok vænta þar a mot at hon mune med sinum styrk heill ok gæfu gefa þessu skipi ok þeim er aa ok sua þeim er a bua. Suerrir konungr let grafa i ennispaanin bædi fram ok aptr helga doma. hann skipti ok messuklædunum let fara hǫkulinn til Mariu kirkio kantarkaapu til Helgisetrs enn oll ǫnnur a Backa til nunnusetrs. Mariusudin var ecki fagurt skip. var þat allt minna til skutanna enn vm mitt ok volldi þui mest þat er aukit hafdi verit. konungr let gera at skipinu þat er lestz hafdi. Suerrir konungr let gera vm vetrinn

nockur langskip enn bæta sum. þa var gior Hialpin er þiodolfr rympill hafdi ok var .vij. rum ok .xx. þa var ok ger Vidsiain er Vlfr af Laufnesi hafdi þui nær mikit at rumatali.

## Sigling Suerris konungs or Kaupangs.

72. Vm vorit eftir pascha bioz Suerrir konungr nordan or kaupangi ok hafdi .iij. skip ok .xx ok flest stor. þar var þa med honum Eirekr konungssun Vlfr af Laufnesi Vlfr fly Baardr Guthormssun Jvar selki Hauardr Jarlssun. Suerrir konungr hafdi þa Mariusudina. þar var talit aa .cc. manna ok .lxxx. konungr let bera a skipit vt þriar kistur ok baaru .iiij. menn hueria. þottuz menn vgerla vita huat i mundi vera. Eirekr konungssun hafdi Oskmeyna ok var hon haalfþritug. Suerrir konungr for sudr med landi. i Steinavogi hafdi konungr husþing ok sagdi sua at hann hefdi einga frett til Magnuss konungs sua at þeim væri braads vfridar vôn. bad menn vera spaka ok fridsama. fretta vandliga huat vid sik væri vm tal manna huart er væri meiri fyrir ser edr minni ok kunna at segia honum allar nylundr þo þeim þætti litid til koma. Hann taladi skamt ok snialt. J Hereyium hafdi konungr annat husþing ok taladi allt sem aadr. þadan sigldi hann austr fyrir Stad ok fengu huast vedr ok hofdu raaskot .fyrir staalinu ok vard Mariusudin klauck ok skaut lyckiunum. Sneri konungr inn til Vlfasunda. ok þa er hann laa þar vrdu menn vid varir huat i hafdi verit þeim enum miklum kistum er konungr let bera vt a skipit. var þar i reksaumr ok skipsaumr. feck konungr þa i huert halfrymi fiolda reksaums bad þa varducita er þar byggi ok þa til taka er þurfti. Suerrir konungr for nu þar til er hann kom sudr at Sognsio. þa sagdi hann lidinu at hann vill snua inn i Sogn ok heimta giolld eftir menn sina þa er Sygnir hofdu af tekit. þa beidduz menn at fara til Biorgyniar þeir er erendi þottuz eiga. nu fyrir þui at konungr vissi ser enkis vôn bradligs haaska þa lofadi hann ollum þeim er beid(d)uz at fara. þriu skip fara sudr red fyrir þui lidi Suinapetr. skiptuz menn milli skipanna foru þeir sudr er erendi attu.

## Suerri(r) brendi i Sogni.

73. Suerrir konungr sneri inn i Sogn ok hafdi .xx. skip. la fyst i Ruslum ok sendi bod inn i Sôknadal at bændr skylldu koma til hans ef þeir villdi sættaz ok lagdi þeim stefnu i Huamsey for þa konungr inn. þangat quomu þar bændr ok festu honum gialld. enn konungr dæmdi a hendr þeim .xv. merkr gullz. ok lagdi þeim þriggia naatta stefnu at

gialldit (skylldi) fram koma. foru bændr heim ok sogdu sina ferd slika sem var. gera þa bændr raad sitt allir samt. ok kom þat asamt at þeir nyta ser stundina þa er konungr hafdi gefit þeim. flytia nu fe sitt allt a fioll ok merkr ok eyda alla bygdina. Enn er konungr finnr at bændr vilia riufa stefnulagit ok lidin var stund su er akuedin var þa leysir konungr flota sinn ok siglir inn eftir firdi. enn er hann kemr þar sem firdir skiliaz þa gerir hann fra ser Vlf af Laufnesi ok þiodolf rympil med .vj. skipum ok bad þa ellda þeim þar badstofur ok taka fe at verdkaupum slikt er þeir fengi. Nu er þat at segia af þeirra ferd at þeir koma til Lusakaupangs ræntu þar fe ollu þui er þeir fengu enn brendu kaupstadinn enn fengu ecki af monnum. Suerrir konungr sneri inn Norafiord .xiiij. skipum ok lagdiz inn vid Soknadal. var þat fimtadaginn at aptni. Fostudag at morni let konungr blasa lidinu til tals ok sagdi ætlan sina bat lidit vôpna sik ok ganga vpp i dalinn þar .ij. er einn þeirra sueitungr var eftir at gæta skipanna. let þa til skipta af ollum skipunum. Hann mællti. fari menn gætiliga þeir er vpp ganga. þa er menn fara nær skogum edr þar er leyni er fyrir at menn fai eigi mein af skotum. drepit ok eigi menn nema þeir sæti alaupum vid ydr takit fe þar sem þer megit. enn ef bændr fordaz fund yduarn ok vorn ok vilia eigi sættaz þa skulum ver sua hedan fara at bændr skolu þar eiga bakellda ok smidarkol er nu eru beir þeirra. latid alldri kot eftir standa nema gætid kirkna ef sua maa. farit nu hermannliga er ydr er þat bodit þuiat fara sua vspakliga at þeir mætti refsing fyrir taka þa er þeim er bannat margir af minu lidi. Nu lętr hann setia vpp merkit ok sua a leid. þa geystiz allr mugrinn eftir. litadiz þa konungr vm ok sa at faatt eitt var eftir hia skipunum. þa kallar hann bad eigi sua a land ganga at eyda skipin vndir oss þuiat ver fengum þau med starfui ok mannhættu. Enn sua var folkit geyst at faat eitt let sem heyrdi þat sem konungr mællti þa sneri konungr sialfr ofan til skipanna ok er hann saa at þar var faatt lid þa let hann heimta skipin vt vndir strengi. enn er Birkibeinar gengu vpp vrdu þeir ecki vid menn varir ok eingann busmala ok aud voru aull hus þar sem þeir koma. ganga þa Birkibeinar vpp eftir dalnum ok vm nottina eftir ok fundu einn mann þann er þeim sagdi [617] þau tidend(i) at allt folk ok fee hafdi flyit a fioll ok heidar. Vm morgininn þegar i solarrod viku Birkibeinar ofan eftir dalnum ok þa er einshuerir koma til þess bear er þeir fundu efstan i dalnum þa skiota þeir i elldi ok brenna. ok er þat sa adrir lidsmenn þeir er nedarr voru staddir gerdu þeir slikt et sama. ok nu gera sua huerir at odrum leggia nu elld i hus huerir sem fyst mega naa. þa

var litill vindr enn sua reykmikit er naliga logadi oll bygdin senn i dalinum at huerr reykrinn tok annann. foru Birkibeinar sua allt ofan eftir bygdinni. sidazst brendu þeir a Stedia ok duolduz þeir þar miok leingi þuiat elldinn villdi leggia at kirkiunni. þeir baaru fyrir segl ok vættu. ok þa er husin voru fallin fara þeir til skipa. tiu tigi bęia brendu þeir ok var þat fogur bygd. let þa konungr brott leggia skipunum ok yfir til H(a)ugastrandar ok logdu þar at sem heitir Fossreik.[1]

### Fra Magnusi konungi. capitulum.

74. Fra Magnusi konungi er þat at segia at hann var vm vetrinn i Danmork ok for vm varit sunnan til Vikrinnar. Aasbiorn Jonssun kom fiorda dag pascha til Konungahellu ok var þar motz kuatt. taladi hann ok kuat til bear von Magnuss konungs ok samir ydr vel vid honum at taka. hann vill vingaz vid allt folk þat er honum vill sæmd veita edr nockura lotning. segir at Danakonungr hefir styrkt hann med miklu lidi ok heitid honum sinum styrk enn konungr væntir vinganar at ollum hofdingium þeim er (eru) austr i land. heitr þeim i moti lén ok trausti ef hans riki megnaz. taladi sniallt.

### Magnus konungr kom til Biorgyniar.

75. Drottinsdagin eftir paschaviku kom Magnus konungr fiorum skipum ok .xx. til bęarins ok var gior processia a mot honum. geck hann þa i beinn ok drack i gardi Ragnhilldar. þar voru þa med honum margir lendir menn. Ormr konungsbrodir Munaann Gautzsun Hallkell Jonssun Asbiornn Jonssun Haralldr sun Jnga konungs ok mart annarra rikismanna. Konungr atti optliga husþing ok taladi. hann var vel maali farinn. optaz var hann skammtaladr. allir toku vel hans maali. þar var hann .iij. vikur ok for þadan til Tunsbergs. Af Konungahellu hafdi hann .ij. Jslandzfaur. het annat Keipa enn annat Vallabuzsa. J Tunsbergi feck hann godar vidtokur. kom þar mart lid af landi ofan. aatti hann þar husþing ok mællti. kunnigt mun ydr vera huert valk ok vandrædi ver hofum i rikinu. villdum ver beidaz af ydr nockurs styrks at ver mættim naa rikinu. enn ek skal ydr eigi opt beida hedan af. enn eigi er vndarligt þott monnum leidiz at roa leidangra med oss þuiat skadsamir verda. enn fyrir þui at ek var smurdr ok koronadr til landz þessa þa þorir ek eigi fyrir gudi at riufa þa eida er þar fylgia ok vil ek helldr sækia til landz þessa med oddi ok eggiu medan mer endiz lif til ok landzmenn vilia fylgia mer enn se ek þat raad er mer er

[1]) r. Fimreiti

meira hoglifi ok minne mannhætta at taka leen ok veizlur af Valldamar konungi frænda minum. Menn gerdu mikinn rom at maali hans ok mælltu allir sem eins munni at honum villdu þiona ok fylgia ok betra væri at deyia med honum rettum konungi enn þiona presti þeim er einga ætti retta tiltolu at vera konungr. Tunsbergs menn fengu honum langskip vel skipat af bearmonnum. Konungrinn dualdiz þar halfann manud for þa nordr ok byriadi seint. þeir laagu viku i Unnardys ok Lista. ok er þeir foru þadan laagu þeir tuær nætr edr .iij. i sama höfn. Menn Magnuss konungs voru katir ok miok i leikum enn konungr var optaz faalaatr. þeir laagu i Karmsundi .ij. nætr ok spurdu af Suerri af byrdingsmonnum er norþan foru. þa gerdi konungr a niosn til Biorgyniar Eilif Aarasun ok Klement af Grafdal. þeir komu aftr ok sogdu at Birkibeinar voru i bænum .iij. skipum ok Suinapetr var fyrir þeim. Magnus konungr bad reka af ser tiolldin. Birkibeinar eru i Biorgyn ok munu vilia hafa gaungudryckiur ok mun þeim þickia sem þer ættid at skeinkia. Enn er lidit heyrdi þetta drogu þeir seglin ok reru vndir. vedr var vott ok þuert. Magnus konungr hafdi Skeggiann Ormr konungsbrodir Skialldmeyna Nichulas kufungr hafdi Eikisudina er erchibyskup hafdi gefit honum tuitugsessa. Munaan Gautzsun hafdi Hreinenn en gestir fleyit mikla. þat var austrfaraskip. Aa skipi Munans brotnadi treit ok vard madr fyrir ok feck bana. tok þa vedrit at vaxa. þoralldi þrymr het madr er var i stafni a konungsskipi. hann mællti. vott gerir a þilium frammi ok drifr vm soxin ok þætti frambyggium betra at sigla minna. Konungr suaradi ok stod vpp. ek vissa eigi at elld skylldi taka fram a saxinu ok skal eigi suipta beri a huert reip sem hardaz. þorsdaginn vm midmunda skeid sigldi konungr inn a fiordinn[1] ok logdu þegar at bryggium ok hlupu vpp. þeir voru Birkibeinum vogestir þuiat þeir hofdu ecki spurt til ferda Magnuss konungs. liop vpp huerr sem staddr var sumir til vopna enn allir or bænum þeir er lifit þaagu. sua var at sia i fiallit vpp sem a loga sęi er rodadi a skiollduna. drepit var nær .xxx. manna i bænum enn sumt fyrir ofan. Heklungar flettu likin. Magnus konungr mællti at eingi skylldi vera sua diarfr at lid þeirra græfui fyrr enn hann kæmi aftr enn let þo[2] bezst fallit at þeir bidi þar hundz ok rafns. Konungr let blaasa til husþings ok mællti sua. ver væntum styrks ok fulltings af ydr. hafi þer sua fyrr gert bædi vid mik ok fodur minn. var her heimili mitt iafnan þa er ver aattum kyrrsæti eru her flestir frændr minir ok fostrbrædr. nu mun ek leita fyrst ef fund varn Suerris berr saman. enn eftir skilnat varn

[1]) r. voginn [2]) þu *Cd.*

ætla ek hingat til ýduarr ok koma þa med fridi ok fagnadi ollum oss. þa var mikill romr at maali hans ok mælltu allir. gud laati ydr heila aftr koma ok þat allt faa er þer vilit. Sneri þa konungr til skipa sinna. enn sua margar krakur voru a konungsskipinu at huert reip var þakit ok hofdu menn eigi fyrr seet slik vndr. Magnus konungr [618] for vm kuelldit or bænum ollu lidinu nema Gestafleyit þat hafdi fiarat[1] vppi ok foru þeir vm nottina or bænum. Magnus konungr sigldi nordr vm sund leid sina veik inn vm Sognsæ ok hofdu litinn byr. enn er Sygnir kendu ferd hans. þa reru margir menn aa baatum vt til konungs. geingu margir þeir aa skipin vpp ok sloguz i ferd konungs. þeir sogdu þau tidendi at Suerrir konungr hafdi gert fra ser flest lidit ok þat allt er hardaz er. enn hann laa i Norafirdi med faa skip ok hafdi þar gert mart illt. þessum tidendum vrdu menn fegnir ok sogdu margir at nu mundi at guds vilia steypt verda þessum valldarflocki er sua mart illt hafdi gert i Noregi at seint mundi landit bætr bida. Juar ellda het gǫf-ugr madr er bio a Syrstrǫnd. hann sat yfir bord þa er sên var sigling Magnuss konungs. hann stod þegar vpp ok geck til skips ok reri vt til flotans ok geck vpp a konungsskip fagnadi konungr honum vel. for Juar med honum. Hann sigldi inn þar til at firdir skilduz ok for þa inn i Norafiord. hann hafdi .vj. skip ok .xx. ok flest stor oll vel skipud at vopnum ok monnum.

## Tala Suerris.

76. Nv er at segia fra Suerri konungi at .friadaginn eftir er hann hafdi brent i Soknadal laa hann vid Hugastrond þar sem heitir Fior-leiti[2] ok matadiz þar at noni. hann hafdi .xij. skip enn .ij. laagu inn vid Soknadal. Enn er menn hofdu mataz heyrdi konungr at vardmenn þottuz sia morg skip sigla vtan eftir Sognsio voru stundum at sia .vj. edr .vij. enn þa er meirr bar i sundr ok dreifara for þa sa þeir .x. edr .xij. Vardmenn mælltu sin a millum huat skipum vera mundi. sogdu sumir at væri feriur Sygna ok hefdi samflot sunnan or Biorgyn enn sumir kuodu likara langskipa seglum. enn er konungr heyrdi þetta stod hann vpp ok geck þangat er vardmennirnir voru ok margir menn med honum. gat sins huerr til. Suerrir konungr stod vm rid ok leit a ok mællti. ecki er at dyliaz vid at vfridr er. let þegar blasa ollu lidinu til land-gaungu. Ok er lidit var allt saman komit tok konungr til orda ok mællti. sua kann vera vm oss Birkibeina at se sem fyrr at ver eigim starf fyrir hondum þuiat mer syniz at ecki þurfi at dyliaz vid at Magnus

[1]) fiarar *Cd.* [2]) r. Fimreiti

konungr muni braatt koma at vitia vor. ok er ydr þat kunnigt at lid vart er mikit a brottu sumt til Biorgyniar sudr ok raadi gud huert erindi þeirra hefir þangat vordit enn sumt inn til kaupangs at brenna þar. nu væntir mik ef ver bidum her Magnuss konungs þo opt hafi mikill lidsmunr verit þa mune þo alldri meiri hafa verit. nu vil ek at ver gerim raad vort allir samt huart ver skolum veita vidtoku med þessu lidi sem nu hofum ver edr syniz ydr at missa skipa ok ganga aa land. ok mun þat þo likara þickia at ver hofum ecki miok vingaz vid þa er fyrir bua her i Sogni ok mun audsærr vorr kostr at Magnus konungr ok herr hans ok þeir er her bua i Sogni munu eftir fara ok reka oss ok þar med allz landz mugi huar sem ver komum. nu er þat at segia ydr at mer þickir likara at ek raada eigi optar til skipanna i Noregi ef ek missi þessarra myklu hefir mik þau meira kostad ok mun þa verda huerr at leita fyrir ser. nu vil ek eigi med einrædi minu leida ydr i sua mikit vandrædi ef allir þickiaz sia at ei muni lyda. Ok er (konungr) lauk malinu þottuz menn vita huat er hann villdi ok suorudu naliga allir senn quoduz beriaz vilia ok leggia alldri a flotta at ollu vreyndu. sogdu at ecki vetta mundi til saka quaduz opt hafa bariz vid mikinn lidsmun ok vnnit sigr. Suerrir konungr suarar. nu hafi þer þat kiorit er mer er skapfelldra ok nu kann ek þat at segia ydr ok verdit vid at dreingiligar ok beriz þui betr at nu munu þer konunginn i hel setia. þat ord feck morgum ahyggiu huarr konungrinn sa mundi vera. Konungr bad menn reka af ser tiolldin ok roa inn med landi. enn skuta ein skal roa sem akafaz inn til Soknadals eftir lidi voru enn ver roum i moti þeim. siti madr vid aar a hueriu skipi enn annarr i hueriu halfrymi roi baatum inn til landz ok flyti wt griot þar med allir þeir er lausir eru buiz vm ok viggyrdli skip sin. Var sua gert toku nu reksauminn þann er konungr hafdi feingit þeim ok festu suardlyckiur allt innan i bordum ok settu þar i studla ok festu þar vid viggyrdla. enn þeir er inn reru a skutunni mættu sinum felogum er innan komu ok sogdu þeim þenna kur. enn þeir bregda vid skiott liosta aarum i sio sækia vt i moti lidinu briota ararnar. þa kallar konungr. bad snua at landi segir at þar skal bida Magnuss konungs. kuat bera skylldu vt skutfestar a hueriu skipi enn snua vt framstofnum leggia arar til rodrar. laa konungsskipit ytzst vid strondina. Konungr bad menn vopnaz ok skipaz i rumum. Suerrir konungr geck a land þar er einn beckr flaut ok let gefa ser handlaug ok striuka klædi sin sem hann skylldi til veizlu ganga. hann hafdi oll brunud klædi. Eftir þat geck hann ofan a bergit þar sem (skip) hans laa ok taladi þa enn nockurum

ordum ok tok vm skipstafninn enn menn hans toku af hendrnar þuiat bradit var eigi þornat a brandinum. Konungr mællti. ecki munu ver teingia skip vôr þess skolu ver niota ef lyda skal at ver hofum bord haa snart lid ok kænt vid orrosto. ver eigum einn vtueg þann er ver megum hallda lifi at stiga yfir hofud fiandmonnum vorum enn huarki dugir oss at flyia ne fridar at bidia. gætid vopna yduarra ok berit eigi fyrir bord at vnytu. hlifit ydr fyrst gæti huerr yduar annars enn gud allra vor. setid vpp merkin. Litid klepparnes geck fram fyrir vtan ok sa þeir ecki vt a fiordinn. let hann roa skutu eina at sia til lids Magnuss konungs. ok er þeir hofdu faa vôrru roit fra landi þa reru þeir haalfu hardara aptr ok sogdu at þa for flotinn at þeim. var þa þegar blasit. toku þa Birkibeinar at roa [619] vt ollum skipunum i moti ok æptu herôp. þordr Finngeirs brodir styrdi Mariusudinne.

### Tala Magnuss konungs.

77. Magnus konungr sotti inn i fiordinn eftir Birkibeinum. ok þa er þeir vissu at skamt var i milli þa lodu þeir seglunum ok letu renna skipin at vidum ok foru miok samfast. voru þa herklæddir ok bunir til orrostu. þa taladi Magnus konungr ok mællti sua. kaupskip þessi enu storu er ver hofum her þar maa litt roa aa. þau skal teingia milli skipa ockarra Orms ok skolum ver flytiaz a enum miklum skipunum ok festa þau saman ok mundi ek þat vilia at þau væri eigi i sundr leyst fyrr enn onnur huar væri hrodin. ok veit ek at þat mun vera margra manna skaplyndi at sa orskurdr fengiz at vit Suerrir þyrftim eigi oftar at krefia þessa starfs ok vel ætla ek þess nu gud bidianda at sua yrdi ok nær er þat minu skapi ok hugbodi. ek var fimm vetra gamall er hofdingiar ok landzfolk þetta gaf mer konungsnafn enn .vij. vetra þa er legatus af Romaborg ok Eysteinn erchibyskup vigdu mik til konungs ok med þeim allir byskupar landz þessa. var ek þa sua vngr ok bernskr at ek kunna huarki at raada fyrir ordi ne eidi ok betra þotti mer þa at vera i leikum med vngum sueinum enn sitia a milli hofdingia. eigi kepptumz ek til konungdomsins ok litid yndi ok hoglifui hefir ek haft i konungdominum. nu hefir ek aatta vetr ok .xx. ok a þessum atta er nu hafa næstir lidit hefir riki mitt vordit bædi minn skadi ok þar med allra landzmanna. enn gud launi minum monnum ok hofdingium ok allri alþydu aastsamliga fylgd er þer hafit mer veitt i morgum raunum. ecki þarf ek miok aeggianarord til at leggia vid ydr sia megu allir naudsyn vora til þess at huerr dugi sem mannligaz. ok eru nu ærin efni til þess þuiat lid skortir oss eigi ok se gud þess lofadr þuiat

huar sem ver komum vid land þa hefir lid til vor drifit. enn Suerrir hefir dreift lidi sinu hingat ok þangat ok hefir nu faatt eitt eftir eru nu ok luktir fyrir oss i firdinum. lati gud ok sua luka þess(um) fundi at ver megim siþan hafa frid ok frelsi fyrir vuinum vorum huart sem ver erum lifs edr daudir. Vard nu mikill romr at maali hans ok mælltu allir senn. mæl þu allra konunga heilazstr ok gud laati þik steypa þinum vuinum. þa mællti Ormr konungsbrodir. þat væri mitt raad herra at ver legdim fyrst at smaskipunum ok mun þar verda litil vorn. enn it mikla skip ætla ek verda tôrvnnit medan þeir hafa nogann lidskost a ôdrum skipum. Konungr suarar. mer þickia oll vnnin ef hitt mikla skip er vnnit. Nu var sua gert sem konungr mællti. voru þa saman teingd fiogur skip. for konungs skipit næst sudrlandinu. Asbiornn Jonssun lagdi fram skipi sinu hia Orms skipi ok let þar vid teingia. þa mællti Aasbiorn.

## Tala Asbiarnar Jonssonar af hendi Heklunga.

78. Nv er sa dagr kominn er ver hofum langat til er Suerrir ok þeir Birkibeinar eru her nu fyrir oss sua reknir sem saudir i kui ok er nu lokit brogdum hans ok slægdum. þuiat nu mun sa bregdaz honum er hann truir a ok hefir oll raad af tekit enn þat er fianndinn sialfr ok er (hann) sua vanr vid sina vini at gera at faa þeim framgang vm rid enn bregdaz þeim a endadogum lifs þeirra. Suerrir er nu raadlauss. hann sendi fra ser Suinapetr til Biorgyniar ok hafdi hann þangat skapnadar erendi. inn i Sogn eru þeir sendir er vestir eru fiandalimirnir gesterner ok einn saa er flest illt hefir gert Vlfr þorparasonrinn. Suerrir hefir nu ok a aukit vm illuirki ok heruirki. hann hefir nu eytt kristit land. þat eina illt hefir hann aadr vgert sua sem nu skal hann þess giallda. sækium nu at Birkibeinum .ij. edr .iij. at einum ef þat þickir betra. hauggum nu stort þat er at oss horfir hirdum eigi huar a kemr ouant er oss at brytia mat fyrir aurn edr vlf. visi Sokndælir saalum þeirra. Mikill romr vard at maali hans. mælltu allir at þetta væri vel talat. þa teingdu þeir skipin .iiij. edr .v. saman ok var roit a vtborda enum yzstum. rendu nu oll iafnfram inn eftir firdinum ok foru nær synra landi. Magnus konungr hafdi haalfskiptan kyrtil af raudu skarlati halfann enn af huitu halfann. med sama lit ok klædi hafdi kyrtil Magnus mangi son Eireks stagbrellz. konungrinn hafdi þat suerd er hann kalladi Fiskhrygg allra suerda bitraz.

## Bardagi Suerris konungs ok Magnuss konungs.

79. Nv er at segia nockura atburdi þa er gerduz i fundi þessa tueggia konunga er nu .var aadr fra sagt. er þar til at taka er Birkibeinar reru fra landi ok er þeir saa at floti Magnuss konungs rendi at þeim ok þat med at sua var at lita a sioinn sem þa er stort regn er i logni. þessi skur leid skiott yfir ok var þat orfadrifua ok þurfti þa skiolldu vid. Mariusudin reist langann krok adr henni vard snuit. þa renna saman skipin. kom Magnuss konungs skip a hlyrit ok slo flatri vid Mariusudinni. stafnar Magnuss konungs skipa horfdu a fremra austrrum ok sua huert fram sem rum hafdi. tokz nu orrosta. voru Magnuss konungs menn miok akafir enn Birkibeinar hlifdu ser. sueif ollum saman flotanum inn med landinu. vgreitt tokz Birkibeinum atlaga var sua sem Mariusudin yrdi a millum þeirra. þa liop Suerrir konungr a baat ok einn madr med honum ok reru til skips Eireks konungssunar. kalladi konungr ok quad þa illa fara ok vdiarfliga bad þa roa vt vm it mikla skip ok leggia þar til er smæri skip voru ok vita huat þeir gæti þar at gert. Suerrir konungr ræр enn til annars skips ok sua til huers fra odru ok eggiadi menn sina ok sagdi þeim huar þeir skylldu at leggia. vrdu Birkibeinar vel vid ord hans ok logdu fram diarfliga ok gerdu harda rijd. allt slikt þaagu þeir i mot. letu [620] þa huorirtueggio allt ganga þat er til vopna var. Konungr reri þa aftr til skips sins ok var lostid auru i batstafninn yfir honum. þegar kom aunnur fyrir kne honum. konungrinn sat ok braaz ecki vid. enn sa madr er honum fylgdi sagdi. hætligt skot herra. Konungr suarar. þa kemr nær er gud vill. þa sa konungr at sua var þyckt vopnaburdrinn ok griotflaugin yfir Mariusudinne at eigi maatti hann naa skipinu. reru þa i brott ok inn til landz. Munaan Gautzson lagdi skip sitt at landi. liopu þeir vpp ok baaru stort griot vt a Mariusudina allt vm fyrirrumit ok fram til ens eftra austrums. ok fengu þeir allillt slag frambyggiarnir vrdu þeir mest fyrir atsokn Heklunga. mælltu þeir þat sin a milli at þeir fyrirrumsmenn skylldu launa konungi miodinn ok kyrtilsklædin. þa hetu skutbyggiar a stiornbyrdinga at þeir skylldu roa fram. ok þeir gerdu sua. drogu fram skipit sua at Skegginn la vid et eptra austrrum. hofdu þa allir bakbyrdingar ok fyrirrumsmenn ærit at vinna. þuiat þa laagu .xiiij. skip a þat bord. Heklungar letu þa ganga skot kesiur ok hardsteinagriot er þeir hofdu or Skidunni austan ok var þat hinn mesti mannzvodi. þeir kostudu handsoxum ok paalstofum enn eigi bar þa sua nær at hoggum mætti vid koma. Birkibeinar hlifdu ser ok maattu ecki fleira gera ok fellu þo margir enn naliga allir sarir bædi af vopnum ok grioti. sua voru þeir bardir ok

þreyttir at þeir voru sumir daudir at annathuart hofdu litid saar edr ecki. enn fyrir þa sok dualdiz vppgangan Heklunga at þeim var vhægt vid at komaz er þeir aattu at sækia fram vm stafn a skipum sinum enn ef þeir hefdi sibyrt vid þa mundu adrirhuorir hafa vpp geingit.

## Orrosta ok sokn Eireks konungssunar.

80. Nv mun þickia þeim sem til lyda sem eigi se liklig frasognin er sagt er fra lycktum orrostvnnar. enn þo skal þat inna huat mest bar til med hamingiunni er sua sneriz sigrinn til sem vuænna þotti horfa. Eirekr konungssun med þau .xiiij. skip Birkibeina er laus foru reru vt vm et mikla skipit sua sem fyrr greinir ok laugdu þeir at þeim .xiij. skipum er laus voru ok eigi hofdu lagt at Mariusudinni. voru þau oll smæst af Magnuss konungs skipum. vard þar en snarpazsta orrosta. hofdu Birkibeinar þar stærri skip ok fleira lid sottu at hart ok vigmannliga. Heklungar gerdu harda vidtoku ok borduz snarpliga sua at eingi madr þottiz vita huart fyrr mundi vm skipta þar med þeim edr mundi et mikla skipit verda vnnit. fioldi var baata er Sygnir hofdu ok laagu i skotmaali vid Birkibeina ok skutu aa þa. Eirekr konungssun lagdi sitt skip sibyrt vid þat skip er yzst laa þeirra er teingd voru ok hafdi hann þar myklu meira bord. vard þar firna hörd orrosta þuiat Heklungar toku vaskliga aa mot. enn er soknin Eireks hafdi stadit vm rid vrdu Heklungar ofrlidi bornir fellu sumir enn sumir eyddu halfrumin. þa sneriz Eirekr ok hans menn til vppgaungu. Benndickt hofut bar merki Eireks ok geck fystr vpp ok þa stafnbuar. enn er Heklungar saa þat sottu þeir at i moti ok draapu Benndikt ok enn fleiri enn raaku alla ofan. þa eggiadi konungssun lid sitt ok red til i annan tima sialfr ok nockurir fair menn med honum ok gaatu þegar feingit merkit. sottu þa sua akafliga at Heklungar aattu eingan kost annan enn hrauckua vndan ok laupa aa þat skip er næst þeim laa. enn konungssun med fylgdarmonnum sinum sotti eftir med ðpi ok eggian. vard þa sua sem optaz verdr þegar felmtr kemr a mennina i orrostonni at sialldan verda flottamenn godir aftrhuarfs þott roskuir se i vidtokunni. nu var her aa þessu skipi minni vidtaka enn a hinu fyrra ok hlupu allir af þui skipi ok enn a þat er þeim var næst ok þa huert af odru. enn Eirekr konungssun ok Birkibeinar eftir þeim med kalli ok ludraþyt hiuggu þa ok drapu allt þat er fyrir þeim vard. enn magnit flottans geystiz inn a storskipin. þa lupu þeir a kaf af konungs skipinu þuiat þat laa næst landinu. enn onnur .iiij. þau er stærst voru sucku

nidr vndir mannmuginum. þat var Orms skip ok Asbiarnar skip ok Gestafleyit.

### Rædur Suerris konungs.

81. Sverrir konungr var a landi. ok er hann sa þessi tidendi geck hann ofan til batzins ok med honum Petr son Roa byskups. þa reri þar at vtan skuta ok ættludu þar til landgaungu. Suerrir konungr kalladi aa þa ok mællti. snuit aftr siai þer nu at þeir flyia. Enn þeir a skutunni gerdu ok sua. sneru þa vt aftr ok sa þa þessi tidendi lustu i aarum ok reru vt eftir firdi. Petr mællti til konungs. kendu þer þa herra edr hui mælltu þer sua. Konungr suarar. mundi eigi þat eina til at mæla sua huorir sem væri. For konungr þa vt til skips sins ok geck aftr i lyptingina hof vpp kirial ok fagnadi sigri sinum ok allir sungu.

### Fall Magnuss konungs.

82. Magnus konungr hliop fyrir bord af skipi sinu ok allt þat lid er honum hafdi fylgt. tyndiz þar allr fioldi hersins. Birkibeinar hlupu vpp a landit ok taka vid þeim i fiorunni er til landzins leitudu kom fyrir þui engi fioldi hersins til landz. nockurar skutur reru vt eftir firdinum ok komuz þær vndan. Birkibeinar reru vt aa smabaatum ok drapu mennina a sundi ok summum gaafu þeir grid. allir fengu grid er naadu konungs fundi. Lendir menn Suerris konungs ok adrir skipstiornarmenn gaafu grid frændum sinum ok vinum.

### Nefndir hofdingiar huerir fellu.

83. þessir hofdingiar fellu med Magnusi konungi. Haralldr sun Jnga konungs Magnus mangi Eirikssun ok dottursun Rognualldz iarls. Ormr konungsbrodir Asbiorn Jonssun Rognualldr sun Jons Hallkelssunar. Paall smaattauga Lodinn af Manvikum. Olafr Gunnualldzsun Eindridi torfi sun Jons kutizu Juar ellda Vilhialmr af Torgum [621] Andres son Eireks Gudbrandzsunar kulu. Juar steik[1] sun Orms konungsbrodur Hallsteinn snikr Botolfssun frændi Magnuss konungs Ketill Lafranzsun Ketill fluga. þar fell at flestra manna ætlan eigi færa enn .xviij.c. manna. þat var Vitus messo at aptne er orrostan hofz enn þat var vm solarfallz skeid er meginflottinn brast enn þat var vm midnættis skeid er lokit var ollum manndrapum ok Birkibeinar hofdu flutt skip sin til lægiss tialldat ok vmbuiz.

[1]) r. steig

### Tala Suerris konungs.

84. Um morgininn eftir aardegiss let konungr blasa til husþings. stod þa konungr vpp ok mællti sua. Gud sialfan skulum ver lofa fyrir sigr vorn er hann hefir myklu berara veitt oss enn fyrr sinn styrk ok krapt i þessarri orrosto ok þat at ver megum eigi oss kenna sigrinn annan veg enn þetta hefir farit eftir gudligri skipan. nu veitum honum her a mot makligar þackir ok þægilig laun þat er at hallda vel grid vor vid þa menn er til grida hafa gengit. veitum hialp saarum monnum veitum ok gæzlu likum þeim er ver megum naa eftir sidueniu kristinna manna. ek vil þat bioda med skylldu minum monnum at þeir leiti lika med strondinni huerr med þeim brogdum ok efnum sem tilfærr er. er þat bædi þeim er gera þauck til guds ok fefang þuiat allir munu nockut fe haft hafa a ser enn sumir mikit. nu væntir mik at valld land(z) þessa mune vndir oss komit huart er ver vilium þui stiorna vel edr illa. ok mun gudi þauck a vera at ver seem nu fridsamir ok rettir ok þess munu nu ok margir þurfa. nu er þat at mæla til yduar minna manna at gud launi ydr aastsamliga fylgd at þer hafit mer veitt i morgum þrautum. launa skal ek ok ydr eftir hinum bezstum fongum er ek til hefir. gott er nu at vita þat at þær eignir ok allt þat fe er þessir hafa att gullhaalsarnir er her liggia fyrir strondinne þa skolu þer hafa ok enu bezstu kuonfong er til eru i landinu ok þuilikar nafnbætr sem ydr likar sialfum. þer hafit nu fleira aflat i þessarri snerru enn odrum ok þat sumt er ver hofum aadr ærit enn þat eru ofundarmenn ok skolu ver gæta vor vid þeim enn gud gæti allra. At þessu erendi vard godr romr. þockudu þeir konunginum vel sitt maal. þa let Suerrir konungr roa i brott skipunum inn med strondinne ok lagdi þar vid land er eigi var vǫn at kenna mætti hræfadaun af valinum. la konungr þar vm rid. komu þa til hans Sokndælir ok kaupangsmenn sættuz þeir þa vid konung ok mælltu engu a moti þui er konungr villdi vera laata ok bundu þat suardogum sin a milli. kom þar fram þat er mællt er at margr kyssir aa þa hond er hann villdi at af væri. Konungr skylldadi þa ok til med odrum bǫndum at fylgia likum til graftar. hann lofadi ok huerium manna at bua sua vm lik sem hann sialfr villdi ef voru frændr edr vinir. foru þa huern dag margir menn aa baatum bædi konungsmenn ok bændr at leita likanna. ok einnhuern dag fannz lik Orms konungsbrodur. toku vinir hans þat ok fluttu sudr til Biorgyniar toku þa vid Vikueriar ok fluttu austr til Osloar ok var hann lagdr i steinvegginn i Hallvardzkirkiu hia Jnga konungi brodur sinum ok Sigurdi konungi iorsalafara.

### Gert rad fyrir likum.

85. Sunnudaginn eftir annan er aleid vm kuelldit foru margir menn aa baatum at leita likanna. Suerrir konungr reri a litilli skutu til þeirra. Liotr Haralldzsun var a baati ok .ij. menn med honum Arni Gudmundarsun ok Jonn kollr. þa mællti konungr (til þeirra. siti þer her a fiskinni fast edr huersu veidiz. Ok i þui bili drogu þeir vpp lik. Konungr mællti). dyrann[1] drogu þer nu at bordi ok er ydr gifta i þessu. Liotr suarar. aa hefir þa bitid ef þetta er konungslikit. Suerrir konungr suarar. þetta er lik Magnuss konungs. þeir skutu skilldi vndir likit ok hofu i skutuna þa er Suerrir konungr var aa ok reru med til landz inn. var likit þa borit vpp ok gengu menn at kenna. var audkent likit þuiat ecki var brugdit yfirbragdinu ok eigi rodinn or kinnunum ok ecki stirdnat. Manadaginn eftir var kista ger ok buin. ok aadr lik konungsins væri sueipt dukum þa let konungr til ganga þa menn er aadr hofdu verit Magnuss konungs menn bad þa kenna likit ok bera vitni vm ef Vikveriar slægi þui vpp at Magnus konungr lifdi ok efldi þeir med þui nockurn illgerdaflock. þeir geingu til liksins ok maattu naliga eingir vatni hallda geingu til sumir ok mintuz vid likit gengu brott siþan. Lik Magnuss konungs var sueipt siþan. bioz konungr i brott ok gulldu Sokndælir honum aadr .xv. merkr gullz. for þa Suerrir konungr fyrst sudr til Biorgyniar enn aadr for likami Magnuss konungs ok komu þeir fyrr til bearens.

### Tala Petrs i Biorgyn.

86. Laugardaginn næsta eftir orrostona sem aa leid kom skip til bearens ok leggr at vt vid konungsgard var skialldat allt vm stafna ok vel skipat ætla sumir at vera mundi Magnus konungr. geingu þeir a land ok var blasit ok sagt at Suinapetr vill þing hafa. kemr þar allr bearlydr. þa stendr Petr vpp ok mællti. nu kemr at þui er mællt er ok karl sagdi. opt et sama suin i akri. ek heitir ok Suinapetr enn skamt er a at minnaz at ver vorum hedan keyrdir or þessum bæ helldr hædiliga enn erum nu aptur komnir. tidendi eru mikil at segia ydr fall Magnuss konungs Haralldz Jngasunar Orms konungsbrodur Asbiarnar Jonssunar ok margra lendra manna. ok er hingat von til bear Suerris konungs þa er hann ferr or Sogni ok bad þess at þer skylldit sæmiliga vid honum taka sem tign hans hæfir. edr hueriu gegnir þetta at allir menn drepa nidr hofdi edr bera klædi yfir hofud ser ok þat veit gud at alldri fyrr saa ek sua alla menn at vndri verda sem her. þat kann ek ydr at segia med sonnu at alldri lati þer nu sua illa snauktid

[1]) duran *Cd.*

edr syrgit at eigi se hann nu daudr Magnus konungr ok þar med allr hans herr ok mun þeim nu eftirgiord su vænni vera at þer latid hringia edr syngia fyrir saal þeirra edr gefit fe fatækum monnum edr klerkum til bænahalldz. ecki tiar nu at tauta edr trutta hann Suerri af konungdominum. beyckt hefir hann nu haalsa a meirum storbockum en þer erud her husbændr vasikamparnir edrkaupmannakuidinn. hann kuidir ser. hann kuidir fe sinu. hann [622] kuidir fyrir vind ok vætum. ek vil nu raada ydr heillt. latid fara Magnus konung sua sem hann hefir fyrir ser gert. takit nu vid Suerri konungi er gud hefir ydr sent þa hafi þer hofdingia vitrann maalsniallann milldann rettlatann frid-samann gridsamann agætann sigrvegara oruggan til landuarnar ok stiornar. nu er a brottu sa Suerrir er med hernadi for til kaupstada. brottu eru þeir Birkibeinar er her sueimudu vm bæinn ok sopudu hond-um vm fehirdzlur[1] ydrar. her mun nu koma med konungi hird spauk ok hoguær er vera skal laass ok lykill fyrir frelsi ok fridi bædi þessa kaupstadar ok annars. laati þer nu i brott fals flærd ok drottins suik enn geriz hollir ok truir ok þionustufullir konungi ydrum. latid i brott þa er konungr kemr her þa er sannir eru at suikrædum vid hann ok hafi eigi til sættar geingit. gæti þeir sin fyrir vmrenningum (konungs) þeir sia ecki leingi i augu monnum enn vopn þeirra eru ecki ættfrod. konungr sialfr bydr ollum grid ok sætt þeim er þess leita fyrir þui mun gud hann i frid leida ok hans heilagir menn eftir lifit lidit.

## Suerrir konungr kom til Biorgyniar.

87. Suerrir konungr sigldi fagrann byr til Biorgyniar. ok þa er þeir sigldu fyrir bæinn bad konungr þa sua haga ferdinni at bæiar-monnum syndiz sem mest lid þeirra huart sem þeim þætti þat gott edr illt. ok sua gerdu þeir. Enn er konungr kom til bear þa var ringt aa mot honum vm allann stadinn ok gengin processia a mot honum. toku menn vel vid honum.

## Lik Magnuss konungs grafit.

88. Lik Magnuss konungs var borit til graftrar var hann iardadr i Kristzkirkiu vtar fra kornum fyrir framan steinvegginn enum synnra megin. stod yfir greftri hans Suerrir konungr Pall byskup ok oll alþyda er i var bænum. ok aadr lik konungsins væri lagit i steinþro þa kallar Suerrir konungr menn til at kenna ok sia likit at eigi segdi þeir sidan at sia Magnus konungr berdiz a mot þeim. ganga margir til at sia ok skilduz gratandi vid ok einn af gestum Magnuss konungs mintiz

[1]) fehyrdzlur *Cd.*

vid likit ok felldi taar. Suerrir konungr leit eftir honum ok mællti. seint mun slikum at trua. þar voru fagrlig erendi taulut yfir greftri hans. Nichulaas sulltan modurbrodir Suerris konungs var manna sniallazstr at maali. ok sialfr Suerrir konungr taladi langt erendi ok hof a þessa leid. yfir þess mannz greftri stondum ver nu er godr var ok aastudigr sinum monnum þott vid frændr bærim eigi giptu til samþyckis ockar a milli ok hardr var hann mer ok minum monnum sem gud fyrirgefi honum þat nu allt sem hann vard offari i. hann var þo sæmiligr hofdingi i marga stadi ok pryddr med konunga ætt. Hann mællti morgum fogrum ordum sem eigi skorti þau þann veg sem hann villdi hellzt snua. Suerrir konungr let bua vm leg Magnuss konungs vandliga gera grind vm vtan legsteininn ok let breida yfir kaugur. Magnus konungr huilir i þeirri somu kirkiu sem hann var vigdr. gud geymi hans saal.

## Her segir fra atferli Magnuss konungs.

89. Magnus konungr var madr vinsæll ok aastsæll vid allt landzfolk. hann hafdi mest traust af Vikuerium. var þat mark vm vinsæld hans at sua sem skadasamt vard at fylgia honum þa skorti hann þo alldri lidit til fylgdar medan hann lifdi. ok lengi sidan elldi af þui at þeim vard gott til lids er hans afspringi quaz vera sem enn muñ sidarr sagt verda. ok hyggium ver at þess hafi at notid at ollu landzfolki var sua kært afkuæmi Sigurdar konungs iorsalafara edr Eysteins konungs brodur hans enn hôtuduz vid ætt Haralldz gilla ok villdu henni fyrirkoma ok kuodu þa versta sending komit hafa i Noreg er hann kom. Magnus konungr var litillatr gladr miok vid alþydu ok vid vngra manna lunderni dryckiumadr mikill þotti gott at leika. hann var vmfram adra menn vm fimleik ok helldr sterkr aurr ok storgiofull sniallr i maali. slikir lutir fellu vel i skap giolifismonnum. allra manna var hann vopndiarfazstr skarzmadr mikill sundrgiordamadr at klædum. helldr haarr a vôxt hardvaxinn ok alluel vaxinn. midmiorr limadr allra manna fegrst. vel at andlitz skopum nema nockut munnliotr. kuennamadr mikill. sidsamr ok trumadr. Suerrir konungr let blasa ollu lidinu ok bæiarfolki vt i holm[1] i Cristz kirkiugard ok hafdi þar þing. stod vpp fyrst Haauardr Jarlssun ok hlynti fyrir konungi ok sagdi monnum hueria skylldu þa heimti til at taka vel vid honum ok sæmiliga. þar er hann maa oss marga luti i mot veita. færi þa vel ok makliga at hann væri oss traust ok hlif sem honum somir enn ver veitim honum traustliga fylgd ok truliga. megu þer nu sia huat hann hefir til kostad aadr hann ngdi riki sinu ok þolat morg volk ok vandrædi ok lagt i hættu sitt lif ok margra

[1]) holm̄ *Cd.*

annarra godra dreingia. enn gud hefir nu frelstan hann af morgum haaska sem nu hafi þer sannspurt. er nu einsætt ollum at gera vel til konungs þo aadr hafi aa mot honum verit. mun hann ollum miskunna er honum vilia þiona at flærdlausu. hyggit at huorum betr ferr þeim er hniga til hans vinattu edr þeim er a mot eru hans vilia. gerit nu sem gud kennir ydr ok snuit ydru maali til godra lykta.

### Suerrir konungr taladi fyrir lydnum.

90. þa stod vpp Suerrir konungr sialfr ok litadiz vm leingi tok seint til maals ok hof a þa leid. Til þeirra orda munu ver taka er psalmaskaalldit mællti. miserere mei deus quoniam conculcauit me homo tota die impugnans tribulavit me. þat segir sua. miskunna þu mer gud þuiat madrinn trad mik vndir fotum ok bardiz allan dag i gegn mer ok kualdi mik. Su spasaga er nu fram komin a vorum dogum er spaad var fyrir morgum aarum er Magnus konungr frændi minn bardiz mer i mot ok bioz at tapa minu lifui enn gud leysti mik nu sem fyrr ok skipti mer riki hans. hefir gudi ok ecki iafnleitt verit allar stundir sem ofmetnadarmenn ok þat hardazst refsat. fyrst er hann rak fra ser eingilinn er honum villdi samiafnaz. var honum sua golldit at hann vard at hinum versta diofli. siþan er hinn fyrsti frændi vorr Adam gerdi i moti gudi var hann rekinn or paradiso ok hingat i heim i þessa anaud. ok er rikin hofuz ok [623] Pharao þreyn(g)di guds lyd ok hans laug þa kvamu[1] .x. vndr yfir landit er slik hafa onnur alldri vordit i verolldinni. sua þa ok (er) Saul grimdiz guds lyd þa flackadi hann siþan med vræinum anda. ok þott þessa teli ver þa hefir sua æ verit ok framfarid i heiminum. enn kann þat vera at ydr þicki hefiaz nær bordi vor ræda. sua hefir her ok framfarit i landinu at þeir menn hafa vpp hafiz i landinu at ecki voru konunga ættar sem var Erlingr jarl son Kyrpingaorms. let gefa ser jarls nafn enn syni sinum konungs nafn ok drapu nidr allar konunga ættir ok eingi skylldi kalla sik þeirrar ættar ella skylldi huern drepa. hǒfdu med ser hitt bezsta raaduneyti er i var landinu ok toku allt riki konunga þeirra er ættbornir voru til allt þar til er gud sendi vtan af vtskerium einn litinn mann ok laagan at steypa þeirra ofrdrambi. kemr at þui er mællt er at sárt bitr soltin lws. eigi var sakleysi vid Magnus konung edr Erling jarl sem folk þetta segir at ver geingim at raungu ok eigi eru ver sua skamminnigir at ver munim eigi huat af (var) gert vid oss. fyrst er þat at Biorgyniar menn drapu Sigurd konung fodur minn er ættborinn var til landz þessa enn

[1]) koamu *Cd.*

siþan efldu þeir flock med Erlingi jarli i mot Hakoni konungi brodur minum ok felldu hann. sidan tok Erlingr jarl brædr mina .ij. ok festi vpp annan sem kraakuvnga annarr var hogginn. þetta maa oss seint fyrnaz ok opt hefir su naud aa oss legit at myklu voru ver fusari at skiliaz fra ef ver sæim eigi eymd a folki vorú edr þeir rikti yfir voru er eigi voru tilbornir. nu er þat frelsat enn þer laatid fyst koma i stadinn faaheyrdann fiandskap. þetta mæla sumir. sigrsæll er Suerrir. vitr er Suerrir. þa er suarat. mikit hefir hann til vnnit. gefiz hefir hann fiandanum. sumir segia at ek se diofullinn sialfr kominn or helviti ok se þadan lauss vordinn ok muna ek af honum vordit hafa. nu þa hyggit at sialfum ydr huerir þer erut. ef þer segit at gud hafi leyst diofulinn ok se ek hann. huat erut þer þa nema diofuls þrælar er þer þionit honum i sifellu ok þui vesalli enn allt folk annat i verolldinni at þer skulit honum þiona nu enn brenna annars heims med honum. eru eigi slikir lutir storum folskligir at mæla vid huern sem einn en allra hellzst vid konung sinn. fol veri Suerrir þa ef hann (ynni) þat til þessa vesluga rikis er a eingri stundu er i frelsi er þo væri einkis vert at i fridi stædi enn tyna þar i mot saalu sinni ok allri hialpinni. enn sua liz mer sem her vadi allt saman vlfar ok kaalfar. kann vera at ydr þicki rumborat saald mitt. margr lytr saa nu minni hendi er giarna villdi at af væri. sa kallar nu frændann er skommu kalladi fiandann. þat hygg ek ef nu mætti sia huers mannz hug er her er kominn ok stædi huerium horn or enni er mer hyggr illa at margr mundi knyflottr fram ganga. þat mælir barnit er þat geingr til vatzsins ok hefir stein i hendi ok drepr nidr a griotid. her skylldi hofut Suerris vndir vera. slikt kenni þer ydrum bornum. slikt mælir gridkonan er hon geingr vt ok hefir vifl i hendi ok lystr a helluna. her skylldi vndir vera hofut Suerris. enn vera ma þo at Suerrir verdi sottdaudr eigi at sidr. vita nu þat ok allir Magnuss konungs menn þeir sem verit hafa a þessum fundi at þeir verdi a brottu or bænum fyrir þridiu sol hedan i fra. hafi allir þauck vorir vinir er her hafa komit a þetta þing.

## Suerrir konungr feck allan Noreg.

91. Eptir fall Magnuss konungs for Suerrir konungr vm sumarit i Vik austr ok allt til landzenda ok lagdi allt land vndir sik ok mællti eingi madr a mot honum ok skipadi allt syslumonnum ok var þa Suerrir einn konungr i Noregi. þa voru lidnir .vij. vetr fra þui er honum var konungsnafn gefit enn .v. siþan er Erlingr jarl fell. Suerrir konungr gaf monnum sinum nafnbætr summum syslur summum veizlur. morgum

feck hann kuonfong gǫfug. gerdi hann þa marga hofdingia er honum fylgdu til landz ok marga gerdi hann þa at rikismonnum at ecki aattu ættir til þess. voru þeir æ honum orugir siþan. Suerrir konungr gifti Cecilu systur sina Baardi Guthormssyni a Reini. Jvari selka gifti hann Skialldvoru dottur Andres Skiallduararsunar. Petri ranga gifti hann Jngibiorgu er aatt hafdi Jvar ellda. morg onnur kuanfong feck hann þeim monnum er honum hofdu fylgt til landz ok hof þa til rikis ok voru þa giorfir giaflendingar. Einum vetri eftir fall Magnuss konungs feck Suerrir konungr Margretar Eireks dottur Suia konungs Jatuardar sunar hins helga. hann huilir i skrini at Vppsolum. Brǿdir hennar var Knutr Suia konungr. Suerrir konungr aatti .ij. sonu var enn elldri Sigurdr lauardr enn annarr Hakon. Dætur hans voru Cecilia ok Jngibiorg.

---

## HER BYRIAR ÞAATT KUFLUNGA OK SUERRIS KONUNGS ER MIKINN VALLDARFLOCK REISTU.

Einum vetri eftir fall Magnuss konungs gerdiz þat til tidenda vm haustid i Vik austr at flockr hofz þar ok var sa hofdingi fyrir er þeir kolludu Jon sun Jnga konungs Haralldzsunar gilla enn sidarr mun skyrra vm skrifat huerr hann var. at þui raadi hurfu margir hofdingiar med honum. þar var Simun son Aulrukaara Nichulaas Biarnar sun[1] boks Andres brasadr Baardr saala Þorbergssun Jonn kutiza Paall i Hettu. þeir komu ofan i Tunsbergi Michials messodag ok var þar þa kuatt þings. Jonn hafdi verit munkr i Hofudey. hann lagdi kuflinn þar a þinginu. var hann þa til konungs tekinn ok suarit honum allt land. Jonn lagdi lostigr koflinn enn Birkibeinar kuodu hann eigi skylldu minna hafa i rett reglunnar enn nafnit ok kolludu hann kuflung ok sogdu honum þat sannligra enn konungsnafn. lid mikit dreif til hans ok fritt allir hinir bezstu manna synir i Vikinni ok redu þar til skipa ok foru nordr med landi fyrir þui at Birkibeinar sofnuduz saman i Vikinni ok fengu lid mikit. helldu þui Kuflungar vndan þegar þeir [624] fengu skip Birkibeina. foru þeir ok þui eigi eftir þeim at þeir hofdu eigi skip til þess. Ok þegar er Koflungar sottu vtan Agdir þa geck vndir þa allt

[1]) sunar *tilf. Cd.*

folk þar ok þadan i fra logdu þeir vndir sik allt land huar sem þeir foru. þa er Koflungar komu ofan i Tunsbergi drapu þeir þar Simon scriplu er þa hafdi syslu i Tunsbergi. þar fell med honum sueit hans oll nær .xxx. manna. þa byriudu Koflungar ferd sina nordr med landi ok geck landzlydr vndir þa huar sem þeir kuomu fengu þeir ok ecki motris. þeir komu þegar til Biorgyniar ok logdu þegar at bryggium er þeir komu. Koflungar logdu vndir sik land allt nordr til Stadar. þeir saatu i Biorgyn vm vetrinn. Suerrir konungr hafdi laatid setia vpp Mariusudina vt i Holmi þa er hann kom innan or Sogni ok let gera hrof yfir ok kom alldri optar a sio. Koflungar villdu fram setia skipit ok var blasit til ollum bearlyd ok var skipit sua hrist at i sundr gengu brandarnir ok geck hon eigi or stad. þa logdu þeir i elld ok brendu. Koflungar komu a Biorgyniar vog þann tima dags er sungnar voru haamessur ok kom(u) þar miok a vuart. Aaskell kuzsa hafdi þa bear-syslu ok helt sueit i bænum. hann var þa at messu at steinkirkiu ok vard eigi fyrr varr vid enn Koflungar komu i kirkiuna med aluæpni. Askell liop vpp ridit ok sua vpp i stopulinn. Koflungar hlupu eftir honum. þa fell steinn einn ofan or stoplinum i hofut einum þeirra ok feck sa þegar bana. þa sueittiz rodan helga sua at draup aa alltarit ofan. þeir Aaskell raaku aftr þegar stopulinn ok helldu sik þar leingi til þess er bearmenn leystu þa vt med fe. Koflungar duolduz þar langa hrid i bænum ok vendu siþan austr aptr i Vikina. enn fyrir þui at Koflungum droz miok lidit sottu þeir at Birkibeinum. Suerrir konungr hafdi setta til landgæzslu i Vikinni Vlf af Laufnesi ok Vlf fly Haauard Jarlssun þorolf rympil ok enn fleiri sueitarhofdingia. veittu huorir odrum alaup sem vid komuz. ox sua styrkr Koflunga at Birkibeinar flydu or Vikinne ok nordr i land nema Vlfr af Laufnesi hann hellz vid med sinni sueit ok kuez eigi flyia mundu þott Koflungar væri þar.

### Fra Suerri ok Kuflungum. capitulum.

93. Um vorit eftir for Suerrir konungr nordan or þrondheimi med allmikinn her ok kom til Biorgyniar vm vaknaskeid. var þat ok ðf huersu mart kaupskipa komit (var) til bearens nær af ollum londum. Sudrmenn hofdu þangat vin mikit flutt sua at þa var eigi dyrra vin enn mungaat i Biorgyn. þat var eitt sinn er menn saatu i vindryckiu at þeir uilldu taka meira uinit enn sueit Sudrmanna villdi eigi taka ok skildi[1] þa eigi meirr aa enn vm einn pott ok þrættu þeir til þess er Nordmenn villdu ganga til ok briota vpp budina. enn Sudrmenn voru

[1]) skildu *Cd.*

fyrir innan ok lôgdu vt suerdum ok særduz menn. ok þui næst spurdiz vm bæinn ok lupu menn til vopna allir þyuerskir menn ok bearmenn ok borduz ok fellu margir menn ok flest af bearmonnum. Sudrmenn lupu til skipa ok logdu kuggana vt a voginn alla saman. enn bearmenn biugguz til at sækia at þeim. ok vm sidir vard gridum a komit. þat sumar var morg vspekt gior vid dryck. einn madr var sa af Birkibeinum er hann var sua vitlauss af dryck at hann liop ofan or hallinni milli ok konungsstofu ok þottiz laupa aa sund ok feck þegar bana. annar liop af bryggiu or konungsgardi ok druknadi. Suerrir konungr var þa eigi (i) bænum. enn er hann kom til bæiarins vard braatt sa atburdr einnhuern dag at .ij. menn deildu druknir annar gestr konungs enn annarr huskarl ok þui næst villdi huarr odrum veita tilraad. ok i þui kom þorolfr rympill gestahofþingi vt or dryckiustofunni. hann hafdi ecki vopn ok tok hann stalhufuna af hofdi ser ok laust huskarlinn. enn hann laust þorolf i moti med handoxi. eftir þat hellt madr a manni ok let ganga huerr þat er til hafdi ok voru allir ôlodir. þorolfr rympill sleiz or þraunginni a brott ok for til lids sins ok let blasa gestaludri. enn er gestir quomu allir saman þa bad þorolfr þa vopnaz. huskarlar sofnuduz saman ok geingu ofan a skip sitt. Asgeirr hamarskalli red fyrir þeim. enn er gestirnir quomu allir saman þa fleygdi þorolfr rympill suerdinu vt a skipit ok liop hann þegar eftir sialfr ok gat fengit suerdit ok bardiz þegar. vt liopu gestirnir eftir honum ok vard þa þegar orrosta mikil ok letti þorolfr eigi fyrr enn hrodit var skip huskarla ok fell mart af huskorlum enn flest allt liop a kaf. enn er konungr vard varr for hann til ok kom a gridum ok stefnulagi ok sætti þa siþan. Nockuru sidarr hafdi Suerrir konungr þing i bænum ok mællti. þacka vilium ver hingatkuomu enskum monnum er flutt hafa lerept lin vax edr katla, þa vilium ver ok til nefna er komnir eru af Orkneyium Hialtlandi Færeyium edr Jslandi ok hingat hafa flutt þa luti er ei ma missa. en þyuerskir menn er hingat eru komnir med storskipum ok hedan ætla at flytia smior edr skreid er mikil landeyda er at þeirre brottflutningu enn kemr i stadinn vin er menn hafa til lagiz at kaupa bædi minir menn ok bearmenn ok kaupmenn ok af þui kaupi hefir stadit mart illt enn ecki gott. her hafa tynt margir menn lifinu fyrir þessa sôk. sumir limunum. sumir bera annarskonar ôrkuml allan sinn alldr. sumir suivirding verit særdir edr bardir. ok velldr þessu ofdryckian. kann ek þeim Sudrmonnum mikla vþauck fyrir sina ferd. ok med þui ef þeir vilia hallda lifi ok fe verdi þeir a

brottu hedan ok hefir þeirra erendi vordit oss vþarft ok riki varo. þer megit a minnaz huert efni ofdryckian [625] er edr huers hon aflar edr hueriu hon tynir. þat er hitt fyrsta er minz er at telia at sa er þydiz ofdryckiu þa fyrirlætr hann fiaraflan ok tekr i mot ofdryckiu ok hennar anduirdi tynir fenu ok glatar. þar til er sa madr er fullsæll var at fenu þa verdr hann vesall ok voladr ok fatækr ef hann fyrirlætr hana eigi. þat er annarr laustr ofdryckiu at hon tynir minninu gleymir ok ollu þui er honum væri skyllt at muna. þat er hitt .iij. at þa agirniz madr alla ena rongu hlutina ok hrædiz þa ecki at taka fe med rongu edr konur. sa er hinn .iiij. lǫstr ofdryckiu at hon eggiar hann þola eingann lut huarki ord ne verk giallda i moti ollu haalfu meira illt enn til er gert. ok enn vmfram eggiar hon þessa at leita lastanna a þa er vvaldir eru. þa er enn þessi lutr at hann hrapar til þess sem [hann maa[1] at þola vandrædi mædaz af vokunni tyna blodinu i ollum lidunum ok spilla blodinu til vanheilsunnar ok þar med tyna allri heilsunni ok þat enn vmfram þa er fyrirfarit er allri eigunni af ofdryckiunni ok heilsunni ok þar med vitinu þess eggiar hon þa at fyrirfara þui at vlogat er enn þat er saalan. eggiar þaa at afrækiaz alla retta sidsemi ok rett bodord enn girnaz syndirnar enn hyggia af sinu ok ollu hinu retta. minnaz a eingann lut þann er hann hefir gert. litid a ofdryckiumennirnir þa er þer skiliz fra ollu senn dryckiunni ok lifinu huat likaz er huerr þa gripi salina. minniz a huersu vlikt þetta athæfi er þui er vera skylldi þuiat ollum lutum skylldi stilling fylgia. hermenn skylldu vera hoguerir i fridi sem lamb enn i vfridi agiarnir sem leo. kaupmenn ok bændr skylldu fara vel med sinu edl̄i afla fiarens med rettu ok þo med erfidi gæta med vitzsku enn veita med milldi. enn hinir sem minni eru skylldu vera þacklaatir ok þiona huerr sinum yfirmanni med godum vilia huerr eftir sinum efnum. Lauk hann sua maalinu bad sina menn vera fridsama vid bearmenn ok kaupmenn. var þetta maal vel romat af ollum vitrum monnum. Suerrir konungr for nordr vm haustid til kaupangs ok sat þar vm vetrinn. voru þar med honum flestir allir hofþingiar hans enn Koflungar voru i Vikinni.

### Raan Kuflunga.

94. þat sumar biugguz Kuflungar at fara at Suerri konungi ok vrdu sidbunir vm haustid. enn er þeir komu nordr vm Stad fengu þeir radbyri nordr til Agdaness. þa kuad Næfari visu þessa.

[1]) [honum aa *Cd.*

Rænum Birkibeina
beri Suerrir hlut verra
laatum ranghæing reyndann
rida hart ok tidum.
hælumz minz i maali
mektumz helldr af val felldum
laatum skipta giftu
gerum rid þa er þeim suidi.

þa fengu þeir litinn landnyrding ok reru inn i fiordinn vm kuelldit ok onduerda nott komu þeir til kaupangs ok engi niosn fyrir þeim. Suerrir konungr sat i borginni a Steinbiorgum ok faatt lid med honum enn flest oll hirdin ok hofþingiar voru i bænum ok hofdu ecki vordit varir vid Kuflunga fyrr enn þeir hofdu tekit bæinn þeir drapu þar miok mart Birkibeina ok goda dreingi enn flest hliop i kirkiur inn. þar fell Brynjolfr Rognualldzsun Ottarr knerra Sigurdr dotafinnr Andress krista Andress biugi. Jonn kuflungr gaf grid ollum Birkibeinum þeim er handteknir voru ok sagdi at þeir skylldu vera hans menn. ok þa er þeir skylldu geraz handgeingnir þa gaf Koflungr þeim vpp eidana ok quad þa vera mundu sua goda dreingi at þeir mundu hallda ord sin eigi sidr enn eida. þegar vm kuelldit eftir geingu Birkibeinar med vopn sin .ij. edr .iij. saman edr enn fleiri vpp til borgar til Suerris konungs ok at morni voru þeir allir a brottu fra Koflungum ok sogdu Suerri konungi huer(su) Koflungar hofdu þeim grid gefit. enn konungr segir at hann mun ecki kunna at vera hofdingi ok quad hann þat synt hafa i þessu raadi. Kuflungar toku þar skip Suerris konungs ok hofdu sum med ser enn sum brendu þeir. enn konungr sat alla stund þessa i borginne ok þottiz eigi hafa lid til at beriaz vid Kuflunga. Jonn kuflungr for enn annat sinn til kaupangs med miklu lidi. Suerrir konungr hafdi laatid gera kraka vm vetrinn allt et ytra med sionum ok sua fyrir ofan bæinn. foru þa ord i milli ok baud Suerrir konungr at Kuflungar berdiz vid hann a landi ok hann leyfdi þeim landgaungu. enn af þui vard ecki. foru Kuflungar aftr til Biorgyniar med sua buit. Enn þat et sama sumar eftir foru Kuflungar nordr med margar skutur ok ætladi at koma a vuart enn Suerrir konungr for norþan i moti þeim med mikit lid. þa quad Blackr visu þessa.

Reisum vær fyrir visa
verum þungir Kuflungum
laatum bryndann hior bita
bolum tafn vnd klo rafni.
hneckium fianda flocki
fridum land iofrs brandi
riodum daurr i dreyra
drepum þeirra lid fleira.

Enn skutur Koflunga skilduz i Angri. þa kom Suerrir konungr þar at med storskipum morgum ok drap af Kuflungum nockura menn. enn adrir komuz af hlaupi vndan fyrir Suerri konungi enn sumt lid Kuflunga hitti a Birkibeina Atla skaalma. hann var gestr ok drapu huert

mannzbarn er a var skipinu. enn litlu sidarr kom lid Koflunga til hans ok for sudr til Biorgyniar. Suerrir konungr gerdi a niosn sudr eftir þeim Vlf af Laufnesi ok Hida brodur sinn med sex skutum. þeir Vlfr reru at Koflungum i hofnina ok æptu þegar herðp. Koflungar ætludu at þar mundi kominn Suerrir konungr med ollu lidi sinu ok reru vt or hofninne ok sudr vndan. þeir Vlfr toku af þeim .ij. skutur ok drapu huern mann er a var. enn þar styrdu þeir Erlendr Gudbrandzsun ok Paall varskinn enn lid Kuflunga for ser huat. Jonn kuflungr for langa rid einskipa adr lid kom til hans. fara Kuflungar til þess er þeir koma til Tunsbergs. þa kuat Blackr.

Aulld man hitt hue hellduz
huatir gulldu þess skatnar
fyrr or flocki þeirra
foraz Kuflunga.

nu kna bergs i biorgum
bok reidir laa siukann
[626] mettr vard hrafn i hrotti
hotz annan veg þiota.

## Andlaat Eysteins erchibyskups.

95. Eftir vm vetrinn vrdu tidendi mikil i þrondheimi Eysteinn erchibyskup feck vanheilsu þegar vm haustid ok laa vm vetrinn til þess er leid jol. ok þa er at leid mætti hans gerdi hann ord Suerri konungi at hann kæmi til hans ok ræddu þeir sin a milli marga luti er fyrr hofdu verit i þeirra vidskiptum. ok ath skilnadi bad erchibyskup at konungr skylldi fyrirgefa honum af guds haalfu allt þat er hann hefdi oftekit vid Suerri konung þa stund er stadit hafdi deila þeirra Magnuss konungs ok sætluz þeir þa af nyiu ok fyrirgaf huarr odrum alla luti þa er þeirra hafdi i milli farit. Eysteinn erchibyskup andadiz næstu natt eftir Paalsmesso ok var buinn groftr hans i skrudhusinu i Cristzkirkiu. siþan taladi Suerrir konungr a kornum j Cristzkirkiu ok sagdi fra huersu farit hafdi tal þeirra erchibyskups et sidazsta sinn. segir at erchibyskup hafdi þui iaatad at hann hefdi oftekit motgaungu vid sik meirr enn sua at hann vissi at þat væri guds rettr ok eigi hefdi sidr adrir lutir til þess borit er hann þottiz ei mega vid skilia lidueizlu vid Magnus konung.

## Fall Jons kuflungs er Petr het vid sannindi.

96. Kuflungar saatu þann vetr i Vikinni. Eftir vm vorit bio Suerrir konungr her sinn ok hafdi lid mikit ok for sudr til Biorgyniar ok dualdiz þar leingi vm sumarit. var þar þa byskupa fundr ok annarra rikismanna. var þar rætt vm kosning til erchibyskups var mest til nefndr Eirekr byskup af Stafangri þuiat Eysteinn erchibyskup hafdi

hann hellz til nefnt. Suerrir konungr mællti helldr i moti quad hann ecki vel til fallinn fiarforraada. hann er aurr madr. menn sogdu at þann þyrfti at vel veitti af fenu til erchibyskups at kiosa ok quodu eigi stolinn mundu skorta fe. vard þat vm sidir af raadit at Eirekr byskup var kosinn ok for hann or landi et sama sumar. Enn Suerrir konungr for med lid sitt austr til Vikr. konungr braut eitt skip i ferd þeirri þeir sigldu a sker ok let konungr brenna skiphræit ok foru siþan leidar sinnar. Kuflungar voru i Tunsbergi ok hofdu mikinn her enn litinn skipakost. enn er konungr sotti i naand bænum þa hofdu Kuflungar niosn af ok logdu skipum sinum vt vidr Hrafnabiorg ok hofdu .xiij. skip. Enn er Suerrir konungr kom þar lagdi hann at vt vid eyna vid Smiorbiorg. hann let roa .v. skip inn til bear ok logdu þar vid bryggiur. konungr hafdi allz meirr enn .xxx. skipa. þeir laagu þar .iij. nætr ok villdi (konungr) eigi leggia skip sin vndir stort griot ef þeir bæri aa. eigi treystuz Kuflungar at honum at leggia. A hinni þridiu naatt logdu Kuflungar inn at bryggium liodliga þar at sem Birkibeinar laagu fyrir a sinum skipum. enn sua var myrkt at huorgir saa adra fyrr enn skipin rendu at þeim er fyrir laagu ok tokz þar bardagi nockurr. ok er Suerrir konungr vard varr vid er þeir borduz ætladi hann at menn hans mundu illa staddir ok logdu til sem hardaz. enn Kuflungar villdu eigi bida þeirra ok gengu a land vpp ok laagu menn eftir af huorumtueggium. Koflungar foru landveg nordr til kaupangs ok komu litlu fyrir Michialsmesso. voru þar fyrir i bænnm Juarr Klemetzsun med skipshaufn sina nær .lxxx. manna. var þa blasit ollu lidinu fyrir i bænum lidsmonnum ok bearmonnum vt til borgar at veria þar. Kuflungar hofdu atta .c. manna ok sottu hart at borginne enn bearmenn vorduz. vard þeirra orrosta hord ok eigi long þuiat Kuflungar hiuggu vpp treborgina. ok er þeir komuz inn þa flydu bearmenn. þar fell Juarr Klemetzsun ok sueit hans flest oll enn Kuflungar toku bæinn. Eftir þat var þing aatt vt aa Eyrum ok gaf Biornn Erlingssun Joni konungsnafn. þorsteinn kugadr gætti borgarinnar ok var griot i borginni sua at eigi skorti til varnar. Koflungar foru vpp til borgar ok skutuz aa ok gaatu Kuflungar ecki at gert. enn er þeir saa þat þa toku þeir i Kristzkirkiu Nichulas sultan modurbrodur Suerris konungs ok fluttu hann til borgar ok reistu þar galgatre ok sogdu at þeir skylldu þar heingia Nichulaas. enn þessu velldr þu þorsteinn kugadr ok þer borgarmenn ok skal Nichulas hafa grid ok þer allir ef þer gefit vpp borgina. enn ef þer halldit borgina þa er þat bani Nichulas ok fyrir þat sama mun Suerrir konungr lata ydr vpp festa ok eingum mun lægra ok er

þat vel. sliks eigi þer ok af oss von þegar ver megum vid komaz. þorsteinn ottadiz nu ok vgdi at þeir mundi satt segia at hann mundi illa kominn huora sem hann hitti ef Nichulas væri vpp festr. red hann þat af at gefa vpp borgina. Kuflungar gafu þorsteini grid ok fe hans ollu. lifs grid hofdu ok allir borgarmenn enn Kuflungar toku fe allt ok brendu borgina ok brutu alla. þar fengu Kuflungar margar gersimar Suerris konungs. var þar mikit lutskipti er þeir komu til bear. Kuflungar logdu gialld mikit a beinn ok sogdu at þeir mundi ella brenna þar ok launa bearmonnum safnat ok motstǫdu. biugguz Kuflungar a brott enn bearmenn lottu þa ecki ok baadu þa vel fara ok villdu þo helldr at þeim færiz illa. Koflungar duolduz þar nockura daga siþan er skuturnar voru bunar. þa kom kurr ok kuittr i beinn at lid for vtan vm Gaularaas ok þar muni vera Suerrir konungr. Ok er Kuflungar heyra þenna pata þa lupu þeir til skipa ok raku af ser tiolldin liosta i aarum ok roa drifanda vt or anne. baadu bearmenn þa alldri aftr koma. foru Kuflungar vt eftir firdi ok helldr vspakliga huar sem þeir kuomu ræntu byrdinga þar sem þeir naadu. þeir komu i einn stad ok toku þar Jslandzfar þat var kallat Stangarfolinn ok vordit aftrreka ok ræntu þar hueriurn penningi. eftir þat foru þeir sudr til Biorgyniar ok kuomu þar litlu fyrir iol. Kuflungar hofdu þing i bænum ok krofdu bearmenn gialldz til jolaveitzlu ok sogdu at odrum kosti at þeir mundi brenna beinn allann vpp. bearmenn mælltuz vndan vm gialldit ok baadu ser fresta enn Kuflungar hetu þeim afarkostum i moti ok stod þannig vm rid. Litlu fyrir iolin var þat einn morgin i lysing at .xiij. langskip ok helldr stor sigldu sunnan fyrir Huarfsnes til bæarins. enn er Kuflungar vrdu varir vid hlupu þeir til vopna sinna ok flestir or bænum [upp i [1] fiallit edr i Olafskirkiu. Jonn kuflungr let blasa lidinu til skipanna liop hann aa sitt skip ok þeir menn er med honum foru ok reru vt a mot a vǫginn. enn er þeir sa at ecki lid kom til þeirra þa sneri hann yfir til Munkabryggio ok nær yfirlandinu reru þeir vpp a sker ok [627] festu þar a skipit. enn i þui bili renna at þeim skip Birkibeina. hlupu þa Kuflungar fyrir bord ok logduz til landz enn sumir tynduz. Jonn kuflungr hliop eigi fyrir bord ok beid Birkibeina a skipi sinu ok fell þar ok einn madr med honum ok flettu Birkibeinar lik þeirra. Enn er Suerrir konungr fretti þessi tidendi let hann flytia lik Jons yfir til bear ok let bera vpp til Mariukirkiu ok let leggia nidr vndir sudrueggin ok let breida yfir vadmaal. Kuflungar hlupu ofan or fiallinu inn til Olafskirkiu ok fylktu lidi sinu ok æptu a Birkibeina ok eggiudu þa

[1]) [edr *Cd.*

at beriaz. enn konungr bad sina menn ecki eiga vid þa. ok munu ver ecki eiga vid hofudlausa menn. sagdi þeim at hofdingi þeirra liggr þar vndir Mariukirkiu ok skildu þeir illa med hann enda var eigi gods hofdingia at gæta. Kuflungar ræddduz vid i bænum ok vard eingi bardagi. sneruz þeir i brott ok skilduz at sinni. Enn sa madr var i bænum er Petr het er Birkibeinar kolludu faudur þessa mannz er Ormr het enn Aastridr steik var modir hans ok þann sama Orm sogdu þeir at Kuflungar hefdi kallat konung sinn Jon Jngason ok sa sami Ormr lægi nu þar vndir Mariukirkiu. ef Petr kendi þar sun sinn baadu hann til ganga ok kenna ok segdi adr nockur merki aa enn hann sęi likit. Petr suarar. þat er til marks ef hann er minn sun at sueinninn liop a lia ok skeindiz miok a ilenne a hægra fæti. nu er þat vist ef þetta finnz her ecki a þa er hann ecki minn sun. enn ef þetta finnz þa mun ek eigi vid dyliaz. þa let konungr leida hann þangat er likit var ok draga af skoinn ok hosuna ok quaz Petr þar kenna þat mark er a hans syni hafdi verit. Suerrir konungr lysti þui fyrir bearmonnum at sa Jonn er Kuflungar kolludu konung sinn het Ormr sun Petrs ok Aastridar ok þat at Petr var þar ok kendi lik sunar sins. ok mun ydr bearmonnum sagdi hann þat kunnigt vera huart þau Petr ok Astridr eigu nockura ætt til þess at sun þeirra væri konungr yfir Noregi ok ma þar sia fals þat er sia raansflockr hefir med farit. þa var iardat lik Jons kuflungs at Mariukirkiu i Biorgyn. þa var þat fyrsta sinni at Suerrir konungr ok lid hans kom sua til Biórgyniar at allr lydr vard honum feginn. ok var nu Suerrir konungr einn yfir Noregi. Eftir þetta var hann i Biorgyn vm hrid.

---

## HER HEFZ ÞAATTR SIGURDAR BRENNIS OK BIRKIBEINA.

A morkum austr efldiz flockr saa er helldr þotti vspakr hąnn liop ouan i Vikina ok gerdi þar mart illt. drap menn rænti fee brenndi bygdir. þar var sa hofdingi fyrir er nefndiz Sigurdr sun Jnga konungs Haralldz sunar gilla. hann kolludu bændr brenni. þat var til marks vm at hann væri rett kominn til rikis ok tignarnafns at Sigurdr brennir hafdi fundit Jon kuflung ok hafdi hann tekit vid frænsemi hans ok kuat

hann hardla miok likiaz i ætt sina kuat hann bædi mundu reynaz hardraadann ok ahugamikinn. Jonn baud honum til sin enn Sigurdi þotti litil landraad yfir þeim Kuflungum ok treysti ser betr til landraada ok hirdstiornar til vitzku ok vinsælda enn quad þessa mundu allz vid þurfa vid raad Suerris prestz. sagdiz ok allitils mundu virda vid Suerri ef þeir fyndiz venzl ne vigslur. kuaz þickia hann sua gera vid sina frændr. þui villdi hann helldr fara einn med flocki. hafdi hann þa .ccc. manna vm rid. Vm sumarit eftir fall Kuflungs er a leid foru bændr ok nockurir lidsmenn at Sigurdi brenni ok toku hus a honum ok sottu þa i stofu nockurri ok þeir vorduz vel ok karlmannliga. ok þa er menn voru fallnir flestir aller inne þa kalladi Sigurdr brennir aa þa ok bad þa lyda ser. ok er hann feck liod mællti hann. nu er þat likaz at þer komit þui a leid sem þer hafit ætlat at fa lif mitt ok drepa mik. enn þa er þer hafit þat vnnit munu þer segia sua Suerri konungi ok odrum landzhofdingium at þer hafit her drepit ok fra landi fellt Sigurd brenni hofþingia flocksins sun Jnga konungs. enn þetta er minni myklu frasagnar vert enn þer hyggit ok margir munu ætla þott þer fellit mik fyrir þui at þat er med sonnu at segia at ek heiti Hedinn sun þorgrims hrossaprestz vtan af Jslandi. er ek islenzkr at allri ætt ok þo litillar ættar at mannvirdingu þo at ydr væri buit vid mik fyrir konung at hafa. Siþan skutu þeir at honum enn hann vardiz allkarlmannliga. þo felldu þeir hann vm sidir ok sogdu hann vera allraustann mann ok hinn hardazta dreing.

## Fra Suerri ok Nicholasi.

98. Um sumarit eftir fall Kuflungs kom i Noreg Eirekr erchibyskup ok hafdi feingit pallium i Rom. for hann nordr i Nidaros til stols sins. þat sama sumar andadiz Haauardr jarls sun. þat var maal margra manna at taka til byskups i Stafangri Nichulas sun Aarna af Stodreimi konungs brodur. Suerrir konungr mællti aa moti. ok er Nichulaas vard þess varr sendi hann bref Margretu drottningu ok var þar talat mart fagrliga til Suerris konungs ok sua hennar ok talin frænsemi vid hana. Margret drottning leitadi eftir þessu vid Suerri konung ok sagdi god heit Nicholai. enn Suerrir konungr quaz vfuss vera at gera hann at meira manni enn þa var hann ok let þess vân ef hann fengi nockut riki i Noregi meira enn adr hafdi hann quez hyggia at hann mundi hafa hinn sama hug til hans ok ecki mun truleikr hans vaxa þott hann fengi nafnbætr nockurar. enn drottningin bad at hann skylldi

eigi a moti standa ok sagdi huersu mikit Nichulaas hafdi laatid i deilum þeirra Magnuss konungs i falli frænda sinna ok quad sua mest mega bæta honum at gera hann at tignarmanni innan landz ok quad hann einga vtruleika syna mundu ef hann legdi vapn sin ok gerdiz vigslumadr. enn konungr sagdi at þetta mundi hann veita henni enn eigi vænti ek at hedan lidi langt aadr bædi vit munim þessa idraz ok margir [628] adrir. Eftir þetta fenguz bref konungs at Nichulas skylldi til byskups vigia ok var gert sua at Eirekr byskup vigdi hann. J þann tima andadiz byskup i Oslo ok feck Nichulas lof til þess af erchibyskupi at setiaz at stoli i Oslu enn þa var Niall byskup vigdr til Stafangrs ok var hann þar.

## Greinir med konungi ok erchibyskupi.

99. þa er Eirekr erchibyskup kom til stols i Nidaros toku korsbrædr vel vid honum. enn er hann taladi a kor ok predikadi þa mællti hann hordum ordum til Birkibeina ok þegar voru þeir margir af lidsmonnum er hug sinn settu vid honum ok lagdiz vmiukt a med þeim. Margar voru greinir med þeim Suerri konungi ok erchibyskupi þuiat Magnus konungr ok Erlingr jarl hofdu standa laatid (þat mal) medan þeir redu rikinu er Eysteinn erchibyskup hafdi a komit vid bændr at þar er erchibyskup ætti sakir at taka skylldi taka i þær skulldir silfrmerktann eyri enn aadr hafdi geingit sakeyrir sem i konungs maal. Erlingr jarl hafdi ser þetta lika laatid med þui at erchibyskup villdi vigia Magnus sun hans til konungs. enn þa verdr helmingar auki vm auralag[1]. Suerrir konungr beiddiz af erchibyskupi at standa skylldi lagarettr enn forni sua vm byskupsmaal sem konungsmaal ok sagdi at Erlingr skacki mundi eigi eiga at briota lög hins heilaga Olafs konungs til þess at sun hans væri til konungs vigdr er eigi var at rettu tiltekinn fyrir þui at alldri fyrr hefir þat verit i Noregi siþan er cristni kom at sa madr væri konungr kalladr er eigi var konungs sun ok eigi helldr i heidni. þat er ok fyrirbodit i landzlogum þeim er hinn heilagi Olafr konungr setti þo þat væri kaup þeirra erchibyskups ok Erlings jarls at erchibyskup skylldi vigia sun hans enn Erlingr skylldi leggia orlof til at erchibyskup færi fram þeim vlogum ollum sem hann mætti koma vid bændr med riki sinu. ok lizs mer sua sem þat mune huarki gert at guds logum ne landzlogum. enn at odrum kosti ef þu erchibyskup villt miklu auka rett þinn þa vil ek at þu leggir leyfui til at ek

[1]) vm *tilf. Cd.*

auka iafnmiklu konungsrettinn ok abyrgz þu vid gud ok bændr ok landzlyd huersu þa ferr stiornnin i landinu. Erchibyskup neitti þui ok villdi hafa rett sinn ok sagdi at byskups rettr ætti avallt at vaxa enn huergi at þuerra. enn þer herra segir hann hafit þann rett ok þau log sem þer hafit suarit til enn þer abyrgiz sialfir bædi fyrir gudi ok monnum huart er þer halldit edr eigi fyrir þui at alldri hefir aukiz auralag i konungsrett.

## Landaskipti ved Eirek.

100. Eftir fall Magnuss konungs leitadi Eirekr konungssun vid Suerri konung brodur sinn at hann mundi gefa honum nockura nafnbot meiri en þa hafdi hann ok þar med nockurn lut rikis. enn konungr bad hann vera innan hirdar ok hallda sueit sem lendir menn ok vera þo fremstr þeirra allra enn hann dro vndan landzskipti. Eirekr let ser eigi þickia vel ok var þo sua buit vm rid. Hann hellt sueit mikla ok med þui at hann hellt vel sina menn enn hafdi litlar veizlur vard honum fefaatt. Vetri sidarr byriadi hann ferd sina or landi ok for i Austrveg at heria a heidin lond. til þeirrar ferdar rez med honum mart lidsmanna. skipi styrdi Ozsur prestr audru þiodolfr pik enn þridia Hermundr quada .v. hofdu þeir allz. þeir heriudu til Eistlandz þar sem heitir i Vikum ok i Tuntu ok fengu fe mikit ok sneru aftr til Gautlandz ok vrdu missaattir vid Saxa ok vnnu af þeim kugga .ij. ok taka þar vgrynni fiar. foru þadan til Suidiodar ok hittu þar Knut konung voru þar i godum fagnadi. gaf hann Eireki langskip aadr hann færi brott. foru þeir Eirekr helldr vspakliga aftr bædi vm Suiavelldi ok Danavelldi. quomu aftr vm haustid ok hofdu þa .xj. skip. þat sama haust hofuz Kuflungar i Vikinne Hrafnabiargahaust. þa er Suerrir konungr var i Vikinni skipti hann landi vid Eirek brodur sinn gaf honum land austan fra Suinasundi ok nordr til Ryiarbitz ok þar med Vpplond oll. hann gaf honum ok þar med jarlsnafn. Eftir þat feck Eirekr jarl ser hird ok gerdiz enn mesti hofdingi. Aasa het kona hans.

## HER HEFR VPP ÞATT VIKARS VARBELGS.

Simun Kaarasun ok Aulfir af Gudranni ok þeir hofdingiar er verit hofdu med Kuflungum foru sudr til Danmerkr enn sumir austr a Markir. duolduz þar vm sumarit eftir. Enn vm vetrinn efter enn næsta þa er a leid sottu þeir til Danmerkr ok hittu þar Simun Karasun. hafdi hann þar þa med ser sun Magnuss konungs Erlingssunar er Vikarr var kalladr. hofu þeir þa þegar flock ok fengu miok fiolment. foru vm sumarit nordr i Vikina ok hofdu .xiij. skip ok foru vspakliga ręntu bædi bændr ok kaupmenn. foru austan vm Vikina. Enn er Tunsbergsmenn spurdu þessi tidendi þa raada þeir til skipa ok hofdu nockur langskip ok sua byrdinga ok leggia skipin vid bryggiur ok skipta lidi a skipum ok biugguz vid at veria bæinn. þann flock er þeir Simun hofdu kolludu menn Varbelgi. Simun spurdi huat Tunsbergsmenn hofduz at ok at þeir hofdu lidssafnat þa treystuz þeir eigi þangat at fara. sigldu þa austr aftr yfir Folldina. Nu spurdu þat Tunsbergsmenn. þa hlaupa þeir a skip sin ok snua eftir Varbelgium. redu þeir þar fyrir lidi þorlakr Vlfgestzsun ok Vlfr suarti Asleifr bondi. þeir Simun fara nu austr vndan enn Tunsbergsmenn eftir þeim ok leita þeirra hitta þa sudr vid Bristein. logdu þegar at þeim ok vard þar þegar bardagi hardr ok mikill ok hofdu bændr skip stærri ok bordmeiri. ok er orrostan hafdi stadit vm rid sneri mannfallinu a hendr Varbelgium ok rudduz skipin þeirra ok lauk med þui fundinum at þar fell Simun Karasun ok Aulfir af Gudranni ok flest allt lid þeirra sua at faatt eitt komz vndan. A skipi þui er styrt hafdi Simun Karasun fundu þeir vndir þilium nidri i fyrirrumi Vikar konung Varbelgia ok var hann farra vetra gamall ok drapu hann þegar. [629] Fengu Tunsbergsmenn i þessi ferd enn mesta ordztir ok mikit fe ok fara vid sua buit aptr. Enn aa þui sama aari er Varbelgir fellu feck sott Eirekr jarl. þa var hann i Tunsbergi. ok er sottin dro at honum gaf hann sik til munklifis ok tok munkaklædi. hann andadiz þa er hann hafdi legit .v. nætr. ok þann sama dag andadiz Aasa kona hans enn .v. nottum sidarr andadiz sun þeirra er Magnus het. ok var þar allmargrætt vm þau tiþendi. var þat margra manna maal at vandir menn mundu hafa gert þeim suik ok liflaat. Eftir þat tok Suerrir konungr vndir sik riki þat er Eirekr jarl hafdi haft setti syslumenn yfir. **þui nær andadiz Juarr selki.**

### Þaattr Þorleifs breidskeggs.

102. Þat sama sumar er Eirekr jarl andadiz hofz flockr a Morkum austr. enn sa var þar formadr er kalladr var Þorleifr breidskeggr ok var sun Eysteins konungs Haralldzsunar ok þat til iarteina at a medal herda honum væri aurr groit i kross. þeir koma i Vikina ok fara helldr spakliga keyptu ser mat ok onnur þarfindi. Þorleifr breidskeggr hafdi verit munkr. var þessi flockr med litlum styrk vard þeim skiott fefaatt. voru þeir þa sumir i flockinum at staalu er þeim var bannat at ræna. Þat þottuz margir menn spurt hafa at Þorleifr var sua vitr at ecki kæmi honum a vuart. sua þat at hann væri sua sidugr at lif hans væri likara munka reglu enn leikmanna sua ok at hann væri sua sniallr madr i maali at hann kynni sua mæla fagrt at eingi mætti honum reidaz sa er heyrdi. enn þetta var þo allt hinn mesti hegomi sem siþan reyndiz. Þessi flockr var vppi vm vetrinn eftir a morkunum optaz enn annat sumarit eftir foru bændr at þeim þar sem þeir laagu i skogi nockurum vm nott. reyndiz þa þat at huarki var vm Breidskegg at hann vissi fyrir vm atferdina enda mællti hann ok ecki þat er lifi hans væri holpnara enn aadr. var hann þa drepinn ok flest allt folk þat sem med honum hafdi verit enn sumt liop a skoga. Eftir fall Breidskeggs var þui vpp lostid at hann væri heilagr. enn Black(r) skalld mællti þui a moti ok quad þetta.

Biort kueda brenna kerti
Breidskeggs yfir leidi
lios veit ek at mun missa
meirr hofþingi þeirra
vitum at vonir betri
verr hugdumz þui brugdit.

Blackr orti erfuidraapu eftir Breidskegg ok er þetta stefit i.

Hafdi her medan lifdi
huortueggia Breidskeggi
nu er fridspillir fallinn
fæst gott enn dul hærsta.

### Vidtal konungs ok byskups.

103. J þenna tima gerduz margar greinir milli þeirra Suerris konungs ok erchibyskups. skaut konungr iafnan sinu maali til landzlaga er[1] sett hafdi enn heilagi Olafr konungr ok til logbokar þrænda þeirrar er kollud var Gragas er skrifa hafdi laatid Magnus konungr enn godi

[1]) enn *Cd.*

sun Olafs konungs. Erchibyskup baud fram þa bok er Gullfiodur var kollut er rita let Eysteinn erchibyskup. þar med baud hann guds lög romuersk ok þat sumt er hann hafdi til bref pauans ok innsigli. Su var ein[1] grein milli þeirra at þat voru forn lög ok siduenia at konungr ok bændr skylldu laata gera kirkiur a bæium sinum ok med sinum kostnadi ef þeir villdi ok skylldu þeir sialfir raada fyrir þeim kirkium ok raada presta til. enn erchibyskup lagdi sitt valld ok forraad a hueria kirkiu er vigd var ok at ollum þeim er hann lofadi saung at. Konungr beiddiz þar laga af enn erchibyskup neitadi. þa let konungr lesa vpp lögbok a þingi ok stod þar a bokinni at erchibyskup skylldi hafa med ser þa er hann væri i syslu sinni .xxx. manna ok .xij. skiolldu ok alla huita. þa beiddiz Suerrir konungr her laga af þessu ok sagdi sua. erchibyskup þarf einga hird at hallda hermenn edr herskip ok hefir hann eigi minna yfirburd vm þat er login segia enn hann ferr med sneckiu tuitugsessu ok a .ix. tige manna ok allt skialldat. ok munu ver Birkibeinar reka minni til at oss þotti hellzti hardskipad erchibyskupinn hafa af sinum huskörlum þat skip er hann let leggia at oss fyrir Hattarhamri. sua var ok i Biorgyn þa er ver sottum skipin þa var erchibyskups skip skiotara ok hans sueit til vopna i mot oss enn konungssueitin. þætti mer erchibyskupi gudrettligra vera at hafa einga hird sua at aflaga væri fyrir þui at eingi mun heria a hann edr stadinn ok hafa helldr kostnadinn til þess at laata menn vera i griotbergi edr griotflutningi edr steintaalgu ok veita vpphalld musterinu sua sem adr er til efnat. Erchibyskup suarar þa. pafuinn i Rom setti mik forraadanda yfir stad þenna ok stadarins fe ok ma ek fyrir þui vel raada fenu. er þat ok guds fe ok heilagra manna. enn satt er þat herra at flestum dugandi monnum mun betra þickia at vera med mer i fridi enn i illgerdum med ydr. þui at fair na nu kyrrsæti. enn þo at minir menn hafi god klædi edr vopn þa er þar eingum penningi rænt til. þeir fara med spekt huar sem þeir koma. nu mun þat eigi þickia sæmiligt i onnur lond at spyria at erchibyskup skyli eigi sialfr raada huerium hann gefr mat sinn ok klædi. enn syslumenn ydrir þeir er þer hafit tekit af stafkarla stigum skulu hafa margar sueitir ok storar sem þeir vilia ok fara (a) hendr bændum ok taka aflaga bædi mat ok mungat ok skal þo sa er aa verda þui feginn at hann se eigi meira rænlr. Suerrir konungr krafdi þa laga ok þess at bændr skylldi dæma at landzlogum huersu marga huskarla erchibyskup skal hafa. Eftir þat lagdi konungr fimtarstefnu þeim monnum er fleiri væri med erchibyskupi enn skraain

[1]) einn *Cd.*

skyrdi at eftir .v. daga skylldu þeir allir vtlægir ok hafa fyrirgert fe ok fridi ok vera dræpir þar sem þa væri þeir staddir. Enn er erchibyskup spurdi þetta bioz hann brott or bænum helldr af skyndingu ok hafdi brott med ser alla sina menn ok lausafe þat er þeir naadu. for þa erchibyskup allt sudr til Danmerkr [630] a fund Absalons erchibyskups ok tok hann vel vid honum ok dualdiz erchibyskup þar langa rid i godum fagnadi. Eirekr erchibyskup feck þar vanheilsu mikla sua at hann misti synar sinnar ok vard blindr med ollu.

---

## HER HEFZ ÞAATTR EYIARSKEGGIA.

### capitulum.

Hallkell Jonssun Hallkelssunar aatti Ragnhilldi dottur Erlings jarls ok Kristinar konungsdottur. Hallkell hafdi raad med hondum þat er fleiri voru samuitendr med honum. Hallkell hafdi þa tekit af Suerri konungi lendz mannz rett litlu aadr. Sigurdr sun Erlings jarls var frillusun ok var þa fostrsun Suerris konungs. hafdi hann þa leingi verit med honum i godu yfirlæti. hann vissi ok þetta raad med Hallkatli ok Ragnhilldi. Olafr maagr Haralldz jarls var enn einn hofdingi at þessu raadi med þeim. Sigurdr het sun Magnuss konungs Erlings sunar ok Gyridar dottur Aaslaks vnga. hann var þa kominn a halld ok traust Hallkels ok Ragnhilldar. Þat var raadagiord þeirra at þau fengu Sigurd konungssun i hendr Olafi jarlsmaag ok var þa eingi grunr a giorr. Ok eitt sinn er skip Olafs var buit þa mællti Suerrir konungr ok hofdu þeir aadr verit a tali. trur skylldir þu mer nu Olafr. Hann suarar. hui mæli þer slikt herra. Suerrir konungr hafdi knif i hendi ok stangadi fyrir sik ok mællti. sueima her nu fylgiur vuina varra. Ok er Olafr geck i forstofuna liop þar sueinninn konungssun. Olafr mællti. nær hafdi nu fostri. Hann hafdi med ser sueininn vm haustid vestr til Hialltlandz. hann aatti þar eignir miklar. þa voru lidnir fra falli Magnuss konungs .viij. vetr. Vm vorit eftir for Olafr ok Sigurdr sudr til Orkneyia a fund Haralldz jarls ok fengu þar godar vidtokur. þat summar bioz Hallkell Jonssun ok kuez fara skylldu i vestrviking. hann hafdi langskip vel skipad ok sigldi vestr til Orkneyia. enn er þeir hittuz ok Olafr jarlsmaagr þa var þetta maal kært fyrir Haralldi jarli at þar væri kominn

sun Magnuss konungs ok badu at jarl veitti honum styrk nockurn. Jarl stod vel vndir ok feck honum langskip gott. Magnus konungr hafdi verit enn mesti vin Haralldz jarls ok lofadi huerium manni er fara villdi til þeirra Olafs ok Hallkels ok þeirra foruneytis. gaafu þeir Sigurdi konungsnafn. gerduz menn þa handgeingnir Sigurdi ok sôru honum eida. dreif þa til hans fioldi mannz af Orkneyium ok Hialltlandi. redu þa til skipa ok biugguz vestan vm sumarit. Enn er þeir komu vid Noreg helldu þeir austr med landi til Vikrinnar ok foru akafliga ok quamu a vuart til Tunsbergs. þar var fyrir Jonn systrungr Suerris konungs. þeir drapu þar Jon ok Helga bring er fyrr hafdi borit merki Suerris konungs. þar fell mart Birkibeina. Eptir þat aattu þeir þing ok var Sigurdr til konungs tekinn. þenna flock kolludu menn Eyiarskeggia edr Gullbeina. þeir foru inn til Osloar ok geck vndir þa allt folk ok sua i Vikinni huar sem þeir komu. þeir foru spakliga ok letu huern sinu raada. enn med þui at þeir hofdu lid mikit enn litid af landi þa vard þeim fefaatt. þa toku þeir þat raad at venda ollu lidinu sudr til Danmerkr ok koma allt sudr til Trafnar ok vnnu þar kaupskip ok toku vgrynni fiar ok mest i klædum enn þo mikit i gulli ok silfri. þeir sneru þa aptr til Noregs er haustadi. Enn er Suerrir konungr spurdi vm flockinn þa var hann i þrondheimi gerdi hann þa lid mikit til Vikrinnar et efra enn sumir hofdingiar voru aadr i Vikinni. Enn er þeir spurdu at Eyiarskeggiar sottu sunnan i Vikina þa sofnuduz Birkibeinar saman i Borg. voru þessir hofdingiar þar Sigurdr laauardr konungssun ok Philippus sun Birgis jarls Hakon galinn systursun Suerris konungs Petr styggr Hiarrandi huida ok enn fleiri sueitarhofþingiar. þeir hofdu .ccc. manna. Eyiarskeggiar spurdu þat ok logdu vpp eftir elfinne ok logdu vid Borgarvollu. geingu þar vpp ok fylktu lidi sinu. enn er þeir sa huersu mikit lid Eyiarskeggiar hofdu þa flydu Birkibeinar enn Eyiarskeggiar skutu eftir þeim ok drapu nockura menn af þeim. Birkibeinar flydu a land vpp enn Eyiarskeggiar fengu hedan af einga motstodu i Vikinne ok foru er a leid haustid nordr til Biorgyniar ok voru þar vm vetrinn. logdu vndir sik land allt at skottum ok skylldum fyrir sunnan Stadi. þeir villdu laata kalla sik Gullbeina. Suerrir konungr hafdi latid gera borg i Biorgyn a berginu vpp fra konungsgardi. saatu Birkibeinar þar vm vetrinn med sueit mikla ok red fyrir Sigurdr borgarklettr. Veittu þeir Eyiarskeggiar opt atsoknir borgarmonnum ok komuz litt vid annat enn skiota. borgarmenn skutu i moti ok fengu Eyiarskeggiar optaz verra af. Mart lid dreif til Eyiarskeggia vm vetrinn ok gerduz handgeingnir. Sigurdr jarlssun hafdi laupiz fra Suerri konungi vm haustid til Eyiarskeggia

ok var hann einn forstiori med þeim ok var kalladr vitr madr. þat barst at einnhuern dag a onduerdri langafostu at Olafr iarlsmaagr hafdi messo at Olafs kirkiu a Bockum ok stod vm messuna hia kirkiunni ok lagdi hondina a kirkiustodina. enn einn madr i borginni dro at laasboga ok setti i hondina sua at broddrinn stod fastr i stodinni. var þat mikit saar. Eyiarskeggiar gerdu fra ser lid sitt i syslur ok ymissa stadi þuiat þeir væntu Suerris konungs ecki fyrr enn a lidi vorit. Suerrir konungr sat vm vetrinn i þrondheimi ok hafdi nefnt lid med ser af herudum bioz hann þannig vit sem Eyiarskeggiar mundu þa ok þa þangat koma. Lid Birkibeina laa mart vm vetrinn vt i gilldisskala allt til þess er hann for norþan vm vorit a langafostu or kaupangi hafdi eingi skip stærri enn tuitugsessur ok þadan af smæri. hann for miok af skyndingu sudr til Biorgyniar ok fengu Eyiarskeggiar einga niosn af ferd konungs. Eyiarskeggiar aattu þing laugardaginn fyrir paalmsunnudag. þa taladi Olafr iarlsmaagr til sinna manna. nu hofum ver spurt vm ferdir Suerris konungs at hann mun koma bratt a vorn fund. nu skulum ver gera raad vart huart ver skulum bida hans her ok beriaz [631] med þui lide sem her er edr vili þer gera annat raad þuiat lid vart er mart a brottu. Sigurdr jarlssun er nu med .vij. skipum sudr i Stafangri. er sa til at sækia vndan ok a þeirra fund. Eysteinn korpr er med þrimr skipum inne i Sǫgni ok mun oss þat litt koma at halldi. þa suarar Hallkell Jonssun. þess er mer von at oss skorti eigi lid þetta sinn vid Suerri konung ef oss verdr eigi meirr raadfaatt eda eigi audna til falla med oss vm var skipti meirr enn til se stefnt. raadin synaz mer flestum bilat hafa vid Suerri konung ok þess varir mik at ver sigrimz a honum nema ver rasim fyrir raad fram. ok er þat at varaz þui ver erum eigi til þess vvænni enn þeir er þat hefir hent adr. Voru þess ok fleiri fusari at beriaz. Suerrir konungr kom vm aptaninn þann sama eftir solarfall nær bænum i Biorgyn ok steig a skutu ok reri inn til bear enn annat lid hans reri sudr til Grafdals. Suerrir konungr hafdi þa alla sanna niosn af huat Eyiarskeggiar hofduz at. hann geck vpp i Holmi til Cristzkirkiu. ok var þat þar tidenda at Paall byskup hafdi andaz vm daginn ok stod þa vppi lik hans þar i kirkiu. Siþan for hann vpp til Borgar ok segir borgarmonnum at þeir skylldu fa honum lid til orrostu. Konungr dualdiz litla rid i bænum ok reri sudr eftir lidi sinu. þaa logdu þeir skipunum sudr til Huarfsness. þa for Suerrir konungr a baati vt i Floruvaga at skynia vǫrd Eyiarskeggia ok heyrdi hann þa vidrædu þeirra ok alla ætlun. sagdi Hallkell at þeir skylldu beriaz þegar er lysa tæki. er þat mitt raad kuat Hallkell at teingia skip vor

saman ok mun þa lid vort bezst fylgiaz. gerum þeim griothrid fyrst medan þat vinz enn þui næst laatum ganga skotvopn ok enn eftir þat veitum hoggorrosto ok mun þa vm skipta. ok dugi huerr sem maa ok gæti þa gud til. þa for Suerrir konungr aftr til lids sins ok sagdi þeim fyriætlun Eyiarskeggia ok tilskipan. þicki mer raad at leggia braatt at þeim ok yrdi þeir varbunir vid oss helldr enn þeir yrdi skiotari. nu skolum ver segir hann marka skip vor oll knyta lindreglum vm framstafn a hueriu skipi ef ver sua leggium at þeim at eigi se liost. sua skolum ver ok vara oss i atlögunni sem ver munim enn vid bordamun eiga at deila. hofum laus vid skip vor fyrst medan þeir eru sem odazstir. gæti þer yduar ok hlifit ydr fyst. latid þa bera vopn sin fyrir bord. gæti menn vel vapna sinna ok aara þeirra munum ver þurfa huorir sem sigraz. Suerrir konungr hafdi .xx. skip ok helldr sma flest enn Eyiarskeggiar hofdu .xiij. skip ok flest stor. J dagan laagu Eyiarskeggiar i Floruvogum tialldlausir ok þui næst slogu þeir landfestum ok reru vt or voginum. þeir logdu streingi milli skipanna sinna bædi fram ok aftr reru ollum iafnfram ok ætludu at leita Suerris konungs. enn fyrir þui at myrkr var sa þeir eigi fyrr enn skip Suerris konungs rendu at þeim ok lustu þegar vpp huorirtueggio heropi. þa gripu Eyiarskeggiar sem akafaz til streingianna ok drogu saman skipin enn þau rendu at vidum fram. þa rendi huert a ararnar ok braut i sundr. þeir drogu skipin oll i teingsl. rendu þa ok at skipin Birkibeina. tokz þa þegar orrosta. sottu Eyiarskeggiar i akafa enn Birkibeinar skutu skiolldum yfir sik sua þyckt at huergi saa þa bera. þeir letu vacka vid skipin ok hofdu i glett sua ok var þat audsynt at þeir voru vanir þessu starfi. sua fara þeir kænliga. Enn er Eyiarskeggiar toku at mædaz ok renadi enn snarpazsta skothridin þa eggiadi Suerrir konungr Birkibeina ok mællti. standit vpp ok takit vapn ydr verit nu Birkibeinar ok laatid sia huersu vopn ydr bita. þa risa vpp Birkibeinar vndir skiolldunum ok gerdu harda rid sumir gryttu sumir skutu sumir lögdu sumir hiuggu ok logdu at skip sin fast. enn Eyiarskeggiar toku vid þeim allhraustliga. nutu þeir þa bordamunarins. þeir komu stafnliaam a konungs skipit ok draapu stafnbuana enn toku merkit ok ruddu skipit miok sua framan at siglu. Enn er þeir greiddu vppgaunguna þa eggiar Suerrir konungr sina menn. sottu Birkibeinar fram at þeim sua frækliga at Eyiarskeggiar rucku vndan ok voru sumir drepnir sumir hrucku aftr i skipin ok fengu þa Birkibeinar leyst skip sin fra. hofdu eina ferd þeir er sua nær hofdu lagt at Eyiarskeggiar fengu vid festz ok hrudu sum skip Birkibeina. ok vard su rid allmannskæd ok fell myklu fleira

af Birkibeinum. þa logdu Birkibeinar fra skip sin. þa mællti Suerrir konungr. hafiz vel vid godir haalsar. faar munu þeir slikar ridir gera oss verdum vel vid þeir munu ei sidr tannsaarir enn ver. Enn er Eyiarskeggiar sa þat at Birkibeinar logdu fra skipin ok hugdu at þeir mundi flyia vilia þa mællti Olafr jarlsmaagr. dugum ver vel nu þuiat nu bleydaz þeir. se ek sua flestum fara er i ofreflit koma. fylgium nu sigrinum hoggui nu teingslin rekum þa nu karllmannliga. Allir voru þess fusir ok var sua gert. Enn er skipin losnadu ok þeir skylldu greida atrodrinn þa mistu þeir aranna rak þa skipin fyrir straumi ser huert. Birkibeinar reru þa at ok logdu at .ij. skip eda .iij. at einu. ok i þui bili komu þeir innan or bænum borgarmennirnir hofdu þeir langskip ok voru a niu tigir manna ok hofdu allir hringabryniur. kom þat lid vel at halldi ok rudduz þa skip Eyiarskeggia. enn huert sem hrodit var geingu Birkibeinar af smaskutunum ok a þau eno stærri skipin. Eyiarskeggiar hofdu sett vpp merki Suerris konungs Sigrfluguna i stafninum a hofþingiaskipi sinu ok sa Birkibeinar fullgiorla huar eftir henni var at sia. sottu Birkibeinar þar fast at ok lettu eigi fyrr enn þeir naadu merkinu ok þui næst geingu þeir vpp a skipit ok ruddu med stofnum. enn Sigurdr konungssun hliop fyrir bord þa er skip hans var hrodit ok var drepinn a sundi. ok þa reru a brott a .ij. skipum Lodinn sun Paals smaatzauga ok Halluardr bratti. Olafr jarlsmaagr hliop ok fyrir bord þa er skip hans var hrodit ok suam til landz. Birkibeinar vodu vt a mot honum ok draapu hann fyrr enn hann kæmi a land. Hallkels skip var sidazst hrodit þuiat þat var mest bordi ok bezst skipat. Hallkell fell a skipi [632] sinu ok skipshaufn hans flest aull. þar fell flest allt lid Eyiarskeggia nema þeir er grid voru gefin. Suerrir konungr hafdi mællt at eigi skylldi messur syngia i bænum fyrr enn hann kæmi ef eigi geingi miok vr lagi. Suerrir konungr reri inn til bear ok let flytia med ser skip oll. enn er hann kom þa var haatt messumaal ok voru þegar sungnar messur. Litlu eftir orrostona andadiz Baardr Guthormssun Benndict litli ok enn fleiri lidsmenn. enn er lik Sigurdar ok Olafs funduz þa let konungr syna lik Sigurdar i fiolmenni ok sagdi þar lik hofþingia þess er sia flockr hafdi fylgt ok bad likit iarda fyrir sunnan saunghus i Mariukirkiugardi. var gior grauf mikil þar voru mørg lik Eyiarskeggia i logd ok efz lik Olafs jarlsmaags. þat er maal manna at eigi hafi su orrosta verit er menn hafi sigraz vid iafnmikinn bordamun sem var i Floruvøgum. gerdi þar mikinn kænleiks mun med þeim vm atloguna ok volli þui mest at Birkibeinar voru vanari bardaga. enn diarfir voru Eyiarskeggiar vid vopn enn helldr vgætnir

at hlifa ser. Enn er Sigurdr jarlssun spurdi þessi tidendi þa vendi hann sudr med landi ok allt i Vik austr ok sudr til Danmerkr fylgdi honum sumt lidit enn sumt dreifdiz ymsa vega sumt geck til grida.

### Fra ordum Suerris konungs.

105. Eirekr erchibyskup ok Absalon erchibyskup sendu menn med brefum sudr til Roms a fund pauans. var þar a ritad allt fra Suerri konungi eftir vitnisburd Eireks erchibyskups ok hans manna sua ok vm oll þeirra vidskipti er verit hofdu adr erchibyskup for fra stolinum. enn þar fenguz þau andsuor af pauanum sem erchibyskup hafdi ord til sent at pafuinn lysti stormælum yfir Suerri konungi ef hann leti eigi erchibyskup allt hafa slikt er hann kalladi til med rettu. þessi bref let Eirekr erchibyskup vpplesa i Danmork ok lysti huern sunnudag a kor vppi banni a hendr Suerri konungi. Enn er Suerrir konungr spurdi þetta þa taladi hann opt a þingum vm þetta maal ok sagdi at þat var vpplost Dana enn eigi pafans ord ok quaz ætla at Eirekr blindi mun ecki fyrirliuga konungdomi hans ok þat bann ok blotan er hann nefnir mik til þat hefir nu drifit i augu honum ok er nu fyrir þui blindr. ok munu þeir i banni vera er bannzverk gera enn ek er konungssun ok rett kosinn til landz þessa ok rikis ok hafdi ek marga naud fyrir adr enn ek nædi. vil ek ok eigi laata þat fyrir þessar sakir. fari Eirekr heim til stols sins þo at hann se blindr ef hann vill hallda landzlaug þau er her eigu at standa. enn þo at hann hefdi bædi augu heil þar er hann er baadum blindr ok sua hugskotinu at sia et retta þa mun ek eigi briota log ens heilaga Olafs konungs fyrir hans sakir þott hann banniz æ vm ok blotiz.

### Norrænir menn rægdu Suerri konung.

106. Braatt eftir paschana for Suerrir konungr austr eftir Sigurdi jarlssyni ok villdi dreifa flockinum þeim er saman helltz. hann for vm vorit allt austr i Konungahellu. þa kom þar pauans sendimadr legatus ok hans forunautar. baud Suerrir konungr honum til sin ok let legatan vera i bodi sinu. þa leitadi konungr eftir vid hann at hann mundi gefa honum konungsvixlu ok corona hann enn legatinn tok þui likliga. Enn er kennimenn vrdu þess varir þa sogdu þeir legatanum at konungr var vsaattr vid erchibyskup ok hann var fra stolinum ok legatinn skylldi eigi vigia hann ne iatta þui. fundu þeir þat til saka konungi at hann hafdi verit vigdr til prestz ok þat annat at hann hafdi tekit eiginkonu enn aatti adra aadr þa er hann hafdi logfeingit ok lifdu þa baadar.

marga luti adra fengu þeir til rogs vid konung. Enn þa er konungr kom næst a tal vid legatann þa syniadi hann konungi vixlunnar ok bad hann sættaz vid erchibyskup ok sagdi at hann ætti at vigia hann. þa suarar Suerrir konungr. ek se huert þitt erendi er hingat i land. þat sama sem margir falsarar gera at þeir laupa vtan or londum hingat ok vilia fa ser penninga enn gera vort riki at spotti þa er þeir fara i brott. nu vil ek at þu farir brott or þessu landi ok vil ek eigi at þu falsir fe af minum þegnum her i minu landi. Eftir þat for hann i brott Suerrir konungr sneriz nordr aftr i Vikina. konungr gerdi menn eftir Nichulasi byskupi ok er byskup kom til konungs þa heimti konungr hann a tal ok sagdi at hann var þess varr vordinn at oll þau suikrædi er þeir Hallkell hofdu haft vid konung þa hafdi þat komit vndan tungurotum byskups ok bar þat a hendr honum med iarteinum. Byskup mællti i moti ok syniadi enn konungr segir at þat mundi ecki stoda kuez allt vita et sanna aadr. het konungr byskupi hordum afarkostum ok quad hann drottinsuikara ok landraadamann. Byskup bad konung vægdar het honum trunadi ok baud at binda þat suardogum kuaz ok allt þat skylldu bæta er hann hafdi af gert ok konungr beiddiz sialfr ok var hann þa hinn miukazsti. Suerrir konungr hafdi byskup nordr med ser. Konungr sendi ord þori byskupi af Hamri at hann skylldi koma til Biorgyniar sem fyrst. hann gerdi sua. þar kom ok Niall byskup af Stafangri. þar var vm kosning talat huern kiosa skylldi i stad Paals byskups i Biorgyn til stols. þa var til tekinn Marteinn hirdprestr Suerris konungs. hann var enskr at kyni ollu ok klerkr godr. þeir vigdu hann til byskups at raadi Suerris konungs ok var þar at Nichulaas byskup þorir byskup Niall byskup. Nichulas byskup var þa i miklum kærleikum vid Suerri konung var hann þa hofudsmadr at ollum raadum þeim er konungr villdi laata fram fara. þa var gior veizsla mikil i konungsgardi ok var þat raadit at þessir byskupar mundu gefa Suerri konungsvixlu ok korona hann. þat for fram at þeir vigdu hann a degi postulanna Petri ok Pauli til konungs tok hann þa koronu ok var Nichulas byskup hofudsmadr at vixlunni. konungr gaf ollum godar giafir ok skilduz med miklum kærleikum. Vm vetrinn adr hafdi andaz Thorlakr byskup enn helgi aa Jslandi. enn þat sumar eftir kom vtan af Jslandi Paall sun Jons Loptzsunar. var hann vm vetrinn i Nidarosi. Vm vorit eptir for hann hit efra i Vik austr. hitti hann Suerri konung i Oslu hafdi konungr þar setid vm vetrinn. Paall for þadan sudr til Danmerkr ok tok byskupsvixlu af Absaloni [633] erchibyskupi ok for aftr vm sumarit til Noregs ok sua nordr til Biorgyniar var þar þa logd byskupa

stefna til vmraada med Suerri konungi. þuiat Eirekr erchibyskup hafdi þa sent bref sin i Noreg ok stefnt or landi ollum byskupum a sinn fund. koma byskupar allir i Biorgyn. þar kom ok Paall byskup Jonssun. Et fyrra sumarit hafdi Suerrir konungr þat miok i ætlan at gera lid vestr i Orkneyiar ok giallda þeim suikrædi. enn er þetta spurdiz vestr þa gerdi Haralldr jarl ok Biarne byskup þat raad fyrir þeim at jarl bioz vestan ok Biarni byskup med honum ok allir hinir bezstu menn med honum af Orkneyium. þeir komu at þessum byskupafundi til Noregs. aattu þa hofþingiar stefnur sin a milli ok radagiord ok var þat raad tekit at gera menn med brefum a pafans fund. var fyrir þessi bref sett innsigli Suerris konungs ok allra byskupa þeirra er nefndir voru fyrr. reduz med þessum erendum til ferdarinnar þorir byskup ok Rikgardr suartameistari. foru þeir med þessum bodskap a fund Celestini pafa. þeir kiærdu þa maal sin Suerrir konungr ok Haralldr jarl. var þa stefnt þing vt i Cristz kirkiugardi stod hirdin allt vm konungssætid enn sumt sat þar fram fra. þa stod enn mart manna vtan at. var þar iarl. Tok hann til orda ok mællti. her er nu mikill mannfioldi godra manna. þyrfta ek at minu maali godann rom alþydu. er ek nu sua gamall sem a gronum maa sia ok hefi ek komit morgum konungum fyrir kne stundum med kiærleik enn opt med vandamaalum. nu er nyrr vandi til handa kominn reidi mins herra Suerris konungs ok er mer meira af þui kent enn ek er valldr. eigi red ek vppreist flocksins enn saatt er þat at eigi bordumz ek a moti þeim. ma ek ok eigi hataz vid allann lyd þar i landi medan ek skal þar iarl vera. ok eigi lata Orkneyingar allt at mer. margir hlaupa vt af Orkneyium ok heria a Jrland edr Skotland edr ræna kaupmenn ok allt at vuilia minum ok er þat þo mællt at ek se eigi vrefsingasamr. enn ecki er her langt vm at tala sua gert sem nu er legg ek allt mitt maal a guds valld ok Suerris konungs. Geck siþan fram milli manna ok fell til fota Suerri konungi. konungr litadiz vm ok tok seint til orda ok mællti. mikit hervirki gerdu þeir i Noregi er sua sterkann flock efldu hingat i land sem Eyiarskeggiar voru ok þotti mer þat ok minum monnum miok i moti skapi. enn nu er jarl her kominn sem þer megut sia ok idraz nu þess er hann hefir illa gert til vðr bidr nu miskunar. ok hana vil ek veita honum. ek mun þess þurfa af gudi at hann miskunni mer framarr enn ek hefir til gert. ok statt upp herra jarl ok ver i guds gridum ok minum. enn ek mun sætt okra vpp segia i meira tomi. Suerrir konungr let rita alla sætt þa er hann gerdi vid Haralld jarl. hann let ok skra iardir þær allar ok eignir i Orkneyium edr Hialltlandi er fallit hofdu i

konungsgard ok þeir menn hofdu aatt er fallit hofdu i Floruvogum. hann lagdi .iij. vetra lausn at frændr enna daudu skylldu leyst hafa innan .iij. vetra. enn ef þa væri ei leyst þa fell allt at alldaredli i konungsgard. Suerrir konungr tok vndir sik Hialltland allt at skauttum ok skylldum enn setti Haralld jarl yfir Orkneyiar med þeim skildaga at konungr skylldi hafa haalfann allann sakeyri ok setti þar syslumenn yfir. sðr Haralldr jarl eida at skilnadi þeirra. Suerrir konungr geck siþan a tal vid byskupana ok mællti. þat er mitt raad vid ydr godir hofþingiar at þer gætid med vitzku rikis þess er gud hefir ydr vnnt. laatid ydr þat i hug koma at þat er ecki fðdurleifd ydr ne arfr sua ok þat ef Eirekr blindi flæmir ydr af rikinu at hann mun litid gott faa ydr i stadinn ok mest fyrir þui at hann fær ecki sialfum ser. hann hefir nu eigi meirr enn .ix. menn edr .x. ok þo a annarra kosti. enn ef þer halldit gott samband med mik þa skal ek vera forstiori fyrir allra vorra maali. þeir hetu allir godu vm þat at skiliaz eigi vid konung edr hans maal. Hreidarr het madr vikuerskr er leinge hafdi þa verit af landi a brott ok vida farit. hann kom þat sumar i Noreg med brefum ok jnnsigli þui er kallat var Gullboluskraa. þat jnnsigli hafdi sent Kirialax Girkia konungr Suerri konungi. enn þat stod a brefum at Suerrir konungr skylldi senda Girkia konungi .x.c. godra hermanna. sent hafdi hann ok i Danmork til Valldamars konungs þann mann er Petr illzka het med þuilikum ordsendingum ok enn þridia mann til Suia konungs. Hreidarr sendimadr taladi opt fyrir Suerri konungi sitt erendi ok tok konungr fyrst likliga ok kuaz hug skylldu a leggia. var Hreidarr med konungi vm vetrinn. Eptir þat haust andadiz Knutr konungr i Suidiodu ok kom þar til rikis ok konungdoms Sðrquir karl sun hans eftir hann.

## Suerrir konungr birti bref pafans.

107. þat haust for Nichulas byskup sudr til Danmerkr a fund Absalons erchibyskups ok Eireks byskups ok sættiz vid þa. ok vm vetrinn eftir komu sunnan fra Rom til Danmerkr þorir byskup ok Rikardr suartameistari ok med þeim cardinalis af Romaborg. enn allir fengu þar braada sott ok onduduz. komu eingi tidendi bradliga til Noregs vm þetta erendi huert vordit var. enn nockurri stundu sidarr komu danskir menn ok fluttu til Suerris konungs bref ok innsigli pafans ok sogdu sua at þorir byskup ok Rikgardr meistari hefdi sett þessi bref at vedi enn þeir kuoduz hafa feingit þeim byskupi fe at laani ok færdu þat konungi. fengu honum brefin ok hann feck þeim fe slikt er hann

villdi. Suerrir konungr let bref þessi lesa a kor vppi ok syna þar pafans innsigli ok bref ok stod þat a brefum at þegar (er) pauinn vissi hitt sanna at konungr mællti rettara enn erchibyskup þa leysti pauinn hann ok allt riki hans fra ollum stormælum. Konungr sagdi at þeir hefdi verit i bodi med presti nockurum ok vm kuelldit var kastad eitri i dryck þeirra ok dǒ þeir allir. Vm vorit eftir leitadi Hreidarr vid Suerri konung huert hans erendi skylldi vera. Konungr suarar sua. ecki liz mer fridvænligt her i landi spyr ek þat at Danir muni ala oss vlfua ef þeir mega sua vid komaz. sitia þeir ok sumir her innan landz er ek trui ecki vel. þegar nockurr flockr hefz vil ek ecki senda lid i brott at sua bunu. [634] þa spurdi Hreidarr ef konungr villdi gefa orlof bondasonum edr kaupmannasonum at fara ef þeir villdi enn konungr kuez þat gera mundu. Feck Hreidarr ser sueit nockura ok for or landi vm sumarit ok sudr til Haaleyrar þa er þar var markadr ok kaupstadr. þar kom Nichulas byskup ok var mikit fiolmenni Nordmanna med honum ok flest Vikueriar.

---

HER HEFR VPP ÞAATT BAGLA AF JNGA ER SUERRIS MENN KALLA ÞORGILS.

Þar hafdi Nichulas ok Vikueriar med ser suein einn er þeir kolludu Jnga sun Magnuss konungs Erlingssunar. þann sogdu Birkibeinar vera danskann ok heita þorgils þufuskitr. Ok þar aa eyrinni reistu þeir flock ok reez til þess flocks mikill fioldi manna. til þeirrar ferdar reez Eirekr erchibyskup. for hann med þann flock nordr i Noreg. J þeirri ferd var Sigurdr Erlingssun jarls ok margir adrir rikismenn. þessi flokkr var kalladr Baglar. Suerrir konungr var þa i Vik austr. Baglar fara til þess er þeir koma i Sallteyiarsund. Suerrir konungr spurdi til þeirra i Seimsfirdi ok for a fund þeirra. Suerrir konungr hellt sialfr niosn ok Nichulaas af Vestnesi ok vrdu varir huert lid Baglar hofdu ok syndiz þeim afli þeirra mikill. Konungr mællti vid Nichulaas ok Sigurd laauard at þeir skylldu leggia skipum sinum til bear þess er Sonaberg heitir. bad þa ef þeir fengi nockurt færi at þeir glettiz vid þa Bagla. Enn konungr reri til Haasteins ok fann þar vardmenn Bagla ok ellti þa. þadan reri hann inn til lids sins ok aattuz þeir vid

nockura skotrid. vard þar litid manntion. su skuta laa næst landi er konungr styrdi. Baglar voru a landi. þar heita Mugavellir. Baglar hofdu dregit skip sin vpp hia ser. þeir hofdu .v. langskip ok c. smaskipa enn Suerrir konungr hafdi .xxx. skipa ok flest sma. Enn er konungr saa at þeir fengu ecki at gert vid mug mannz er fyrir var þa bad hann sina menn fara varliga ok laata eigi skipin draga vpp vndir ser. þa lagdi hann or skotmaali vt yfir sundit vid eyna ok laa þar vm rid. Hann leet reisa valslaungu a bergi nockuru gegnt skipum þeirra Bagla. ok vm kuelldit er valslaunguan var buin þa slaungdu Birkibeinar vm rid ok brutu skipin fyrir Boglum. enn vm kuelldit er myrkua tok setr konungr menn til at gæta valslaungunnar Lauard sun sinn ok Eilif rauda. þeir styrdu einu skipi baadir ok var þar nær .xxx. manna. Konungr mællti þa. varit ydr her koma Baglar i nott. Konungr geck til skipa. vedr var geysi kallt ok meidduz margir a fotum. foru sumir til ellda sumir logduz i kos vndir valslaunguna ok var a nidamyrkr sem mest. Rif nockut geck milli landz ok eyiar ok geingu Baglar þat vm nottina at fioru vpp i eyna. þeir hofdu .c. manna ok allt bryniat. fundu Birkibeinar eigi fyrr þeir er vndir valslaungunni voru enn kesiurnar standa a þeim. hlupu þeir þa vpp. þa mællti Eilifr. rekum þa af oss. þeir hafa hond fulla manna. Sneriz hann þa til varnar ok faatt manna med honum. fellu þar flestir. Sigurdr lauardr konungssun steyptiz ofan vm kleif nockura ok sua þeir fleiri. stefndi þat lid til skipa ok sua þat er aadr hafdi brott geingit. Baglar fylgdu þeim ok foru allir saman ok baarg þeim þat miok Birkibeinum at myrkt var miok ok þeir kenduz eigi. Baglar brutu i sundr valslaunguna. Enn er vart vard þessa tidenda til skipanna þa letu Birkibeinar blasa til landgaungu ok vard skiotazstr Nichulaas af Vestnesi. letu þa Baglar vndan suifa ok aftr til lids sins. Enn Suerrir konungr veitti ill ord ok morg Sigurdi lauard syni sinum ok sagdi þat er satt var. annan veg hellt ek vðrdinn þa er (ver) gengum til landz i mot Magnusi konungi. vei verdi þeim konungssyni er sua gætir sinnar fylgdar sem þu ok dragz a land vpp ok kom eigi i augsyn mer fyrr enn dagar. Geingu þa margir menn vpp a land ok vðktu til dags. þat var einnhuern dag þa er Suerrir konungr laa i Seimsfirdi at hann var a skutu ok reru þeir þa inn vndir land enn Baglar gengu a berg nockurt fram ok kolludu þa mællti Sigurdr jarlssun. er Suerrir konungr matgiafi minn aa skipinu. þa suarar Liotr Haralldzsun. her er Suerrir konungr a skutunni enn hitt er satt at hann hefir eigi verra manni mat gefit enn þer ok muntu nu syna þat. þa mællti Nichulas byskup. hui geingr þu nu eigi a land Suerrir. villtu

eigi beriaz nu gudnidingrinn. þer þickir ecki iafngott lifi sem ræna ok heria. nu skal ek her bida þin se her nu handlin mitt. Hann hellt vpp skilldinum. nu hefi ek mitur ok staf þann er ek skal bera i moti þer at bodi pauans enn þat er stalhufa ok suerd þat er þu skallt drepinn med vera edr rekinn or landi. Birkibeinar skutu ordum i toluna hans ok mælltu sua. eigi þætti oss vandi i vm landgaunguna ef slikir einir væri fyrir sem þu nidingrinn ok þau ein vopn muntu fram bera a domsdegi Sumir mælltu. illa muntu þin vopn bera sem þu hefir fyrr borit. Konungr bad þa hætta ok mædaz[1] eigi i ordum vid hann. Enn mællti byskup. opt fryi þer mer hugar Birkibeinar. nu gacktu Suerrir einn a land enn ek mun einn i moti þer ok skal þa reyna huart meira ma veita mer Petr postuli ok enn heilagi Halluardr enn hon kyfla en gautzska er þu truir aa mun veita þer. þa suarar Suerrir konungr sua at hans menn heyrdu. þat mundi mællt ef vit Nichulas berdimz at þat væri greyia atgangr at i huorigum er hugrinn. Let konungr þa roa i brott til lids sins. Ok vm morgininn eftir slagit hafdi konungr husþing ok spurdi menn raads at huat til skylldi taka. Nichulas af Vestnesi suarar. illt þickir oss at vera her vid matleysi herra. vilium ver nu leggia at þeim ok beriaz edr falla med dreingskap edr at odrum kosti fara i brott ok þangat er ver faam oss mat. Konungr suarar. sua er nu Nicholas at þu segir margra hug ok veit ek at leidangrsmenn eru heimfusir. enn sua illt sem þeim þickir her at liggia þa þickir þeim eingum mun betra er her liggia fyrir innan sundit ok mundu þeir nu riufa safnadinn ef ver lęgim leingr. enn med þui at þer vilit nu i brott fara þa skal sua gera. Hann bad leggia i brott skipunum ok var sua gert. þat var drottinsdag ok let konungr flytia lik sinna manna til kirkiu i Sallteyiarsundi. Eftir þat hellt konungr ollu lidinu nordr ok gaf honum godann byr til Biorgyniar. lofadi hann ollum leidangrsmonnum fra ser at fara. [665] enn hann hellt nordr ok drack jolin i þrondheime ok var þar vm vetrinn. Enn Baglar sottu nordr i Vikina. þa letu þeir setia Borgarþing ok toku til konungs Jnga sun Magnuss konungs Erlingssunar logdu þa allt land vndir sik vm Vikina ok Vpplond ok settu menn yfir syslur allar. Var Nichulas byskup vm vetrinn i Oslu at stoli sinum enn stundum i Danmork. þa var ok vigdr til byskups i Hamarkaupangi Juar skialgi. þa kom ok til flocksins Halluardr af Saastodum ok margir adrir. þann vetr toku þeir Nicholaas ok Sigurdr jarlssun mikit fe Suerris konungs or Mariukirkiuvegg i Hofudey ok hofdu þat med ser. Vm vorit eftir foru þeir Nichulas byskup ok Sigurdr jarls-

[1]) r. meidaz

sun vpp aa Heidmork ok gerdu lid fra ser nordr vm fiall ok kom þat lid fram i firdi þeim er heitir Halldi[1] inn fra Rugsundi ok drapu þar[2] syslumann Suerris konungs þori darra ok Einar lygru ok sueit med þeim. enn þeir syslumenn er þar voru næstir þorir kraakr ok þorgyls flydu vndan til Suerris konungs. enn Baglar foru aftr a Vpplond. Vm vetrinn eftir jol atti Suerrir konungr þing vid bændr ok baud vt leidangri vm ôll þrændalôg Halogaland ok Mæri huoratueggiu stefndi hann til sin ollu lidinu til Biorgyniar ok einn veg or Raumsdal. ok hafdi hann þa .xxx.c. manna ok allt a skipum. Hann sat leingi i Biorgyn vm sumarit allt til Margretarmessu ok beid leidangrs er vt var bodit allt fyrir sunnan Stad almenningi. dreif þa lid til hans sua at skorat var .lx. hundrada manna þa er hann for or Biorgyn. Hann sigldi sudr Grængasund enn lidi hans þotti vndarligt er hann for eigi leidar sinnar. ecki gaf hann at þui gaum huat vm var talat. hann atti þing vid bændr ok tal(ad)i mart fyrir lidi sinu sua at huorirtueggio heyrdu bændr ok lidsmenn. hann hafdi mikinn fiolda leidangrsmanna ok var þat mart vspakt ok litt stillt. Suerrir konungr taladi fyrir þeim aa einu þingi ok mællti sua. vfallit er þat godum bondasunum at fara til þess or þrondheimi edr af Halogalandi af Mæri edr þott skemra se atkomnir at beriaz vid bugogn bonda kerolld edr adra burs buluti. hauggua þat edr meida þott fyrir þeim standi. er ydr þat eingin snilld enn hinum er vgagn er eigu. ræd ek ydr at gera ei sua leingr. væri slikt eigi konungligt erendi at tala ef eigi bęri naudsyn til. nu ma ek eigi heita stiornari landz þessa nema ek gera sua at vfridrinn lægiz enn eigi gangi fram. bid ek ydr vinsamligum ordum at þer laatid af fyrir þui at mer þickir mikit fyrir at refsa ydr enn þat verdr þo at gera ef eigi batnar vid þetta. sua þickiumz ek ok fullkominn vera þott Nichulas byskup segi þat eigi til rikisstiornar landz þessa at ek þickiumz eigi þurfa til ens sama at tala .ij. sinnum edr .iij. þat (er) eigi liggr meira vid enn nu hefir ek vm talat. enn þat þickiumz ek eigi vita huat Nichulas finnr til þess at ek mega eigi konungr vera yfir Noregi. þeir hafa konunga nofn borit margir er ambaattar synir hafa verit. enn ek er sannr sun Sigurdar konungs ok Gunnhilldar. er þat ok morgum monnum kunnigt huer ætt hennar er. enn ef þeir eru sumir her at þat er eigi kunnigt sem mik varir þa kann ek nu nockut þar fra at segia. þa taldi hann kynkuislir hennar fyrir ollum þingmonnum i allar kuislir ok kannuduz þa margir vid sina frændr bædi fodurætt ok modurætt er aadr vissu eigi skil aa. Hann lauk sua sinu erendi at eingan quaz hann vita

[1]) *r.* Alldi  [2]) þat *Cd.*

betr tilfallinn þa i Noregi huarki fyrir gudi ne monnum at bera konungsnafn enn sik. enn þott Nichulas byskup villdi helldr annan hafa þa munu ver Birkibeinar litt at þui fara nu helldr enn fyrr. konungr sa þarf er rikinu styrir bædi at vera hardr ok raaduandr. enn oss syniz þott Nichulas se tungusniallr madr at hann hafi hera hiarta ok trygd sem refr opt hefir oss sua reynz. ok þott ver telim vpp allann afspring Jngridar þa mun faarr vera tryggr. eigi var Magnus tryggr eigi var Buriz trur sem merki hafa a boriz. nu er þat bezst at laata slikt kyrt vera þuiat allt mun reynaz vm sidir huerr huergi er. enn ek vænti nu þess at skamt se til at ver Birkibeinar munim sækia a fund þeirra Bagla ok mun þa vita huersu dyggr hann verdr þeim edr traustr skaufhalinn i raadunum fyrir oss Birkibeinum. Eftir þetta erendi raufz þingit. foru menn heim enn Birkibeinar ok leidangrsmenn foru ofan til skipa. Skamt var þess a milli at byrr rann aa ok let konungr blasa til brottlögu ok var til segls tekit ok sigldu austr fyrir land ok lettu eigi fyrr enn konungr sigldi inn til Osloar. þar voru Baglar med allann her sinn fyrir. Jacobsmesso aptan lagdiz Suerrir konungr vid Hofudey ok geck vpp vm morgininn ok lyddi tidum. enn er hann kom til skipanna þa aatti hann husþing vid lid sitt ok mællti. Baglar eru i bænum med allmikit lid ok ætla at taka vid oss. hlydit nu vandliga huernig ek skipa til atlögunnar. Hakon sun minn med allar sinar skutur skal roa a leiruna fyrir innan Nunnusetr ok sua i bæinn ganga þar vpp ok veita bakslettu þeim er a bryggionum eru. enn lendir menn minir Gregorius Jonssun Sigurdr af Modastodum Eysteinn Rögnualldzsun ok mikit lid skal at leggia vt aa Eyrum vid Mariu kirkiugard ok ganga þar vpp vm et sydra strætid. enn allt annat lid skal fara med minu merki vtan at bryggium þar mun vera fyrir meginlid þeirra. gaungum nu til skipanna ok leggium inn at þeim. Var þa blaasinn herblaastr reru þa inn ollum herinum. greinduz þa skipin sem konungr hafdi fyrir sagt.

## Bardagi Suerris ok Bagla.

109. Nichulas byskup taladi fyrir hond Bagla ok skipadi ollum fylkingum. Sigurdr jarlssun med sina sueit ok Halluardr af Sastodum medr Upplendinga skal hafa eina fylking fyrir innan Nunnusetr ok gæta þar til at komiz eigi vpp. enn þeir synir Onundar hlyns ok Kolbeinn strynefr ok su sueitin er einna er horduz skolu veria vteyrarnar ok bryggiurnar. hefir Suerrir konungr ecki sua mikit lid sem þer hyggid. er sua þunnskipad at einn madr er i halfrymi þar er mest er. siai þer eigi at þeir hafa sett vpp hudföt sin i rumunum edr hyggi þer at þat

se menn. þeir eru sua bannsettir Birkibeinar at suerd þeirra bita ecki ok eigi munu þeir þora at leggia til orrosto. verdi þer nu vel vid feigr mun hann nu Suerrir ef hann leggr at. kann vera at hann leggi sua at sem i Seimsfirdi. Byskup var a hesti ok nockurir klerkar med honum vppi a strætinu hia gardi sinum er atlagan tokz. æptu huarirtueggio herop. [636] Suerrir konungr lagdi at sua fast at byrdingar þeir er fyrir laagu brotnudu. Baglar hofdu sokt nockurum skipum fyrir bryggiur ok maattu Birkibeinar þui eigi na vel atlogunni. skutu þa huorirtueggio bædi bogaskoti ok handskoti. Birkibeinar sottu vpp yfir byrdingana. Bengeirr langi ok Botholfr Aufurssun komuz fyrstir a bryggiurnar. enn enskr madr hio til Bengeirs ok mællti at þeir skylldu ecki þar vppganga. Bengeirr skelfdi suerdit hann kunni allra manna bezst vid suerd ok skiolld. hann slo enn enska mann vndir skiolldinn kom a fyrir nedan nefit ok i sundr kialkana ok af þat er tok. Birkibeinar sottu þa margir vpp a bryggiurnar enn Baglar toku vel vid ok vard þar haurd suipan. Einn madr mællti til byskups. herra ridit nu fram hart nu þurfu vorir menn at þer reystit þa þuiat sua litz oss nu sem Birkibeinum biti nu suerdin. Byskup mællti. ridum vndan sem hardaz lauss er nu vordinn diofullinn i dag. Enn þeir hleyptu vpp or bænum ok naamu eigi fyrr stadar enn þeir komu vpp a Giolluraas ok þar bidu þeir lids sins. þeir Gregorius Jonssun logdu at eyrunum vid aarosinn ok var þar vtgrunt. enn er skipin kendu nidr hlupu þeir fyrir bord ok vodu til landz ok geingu vpp allroskliga. Sueitin Bagla hafdi verit vppi vid Geitabru. enn er þeir saa at Birkibeinar voru vpp komnir þa veita þeir þeim aaras sua harda at Birkibeinar laata fyrir ok vt aptr til skipanna. fellu sumir enn adrir lupu aa kaf. enn er þeir komu a skipin þa logdu þeir vt til þrælabergs ganga þar a land vpp ok sottu inn eftir vollunum til bearins. Ok er Baglar sa þat sottu þeir vt i moti þeim vm Geitabruna ok vard þar orrosta haurd med þeim i annat sinn. Hakon konungssun lagdi at inn at leirunni ok sua i fyrstu at skuturnar rendu vpp a þurt land. lupu þegar fyrir bord ok skutu a fylking ok gengu at þeim Bauglum. skutu fyrst. enn þui næst skutu[1] þeir kesium. Baglar[2] bidu eigi or stad ok flydu vpp fyrir nordan bæinn. Birkibeinar fylgdu þeim fast fram ok drapu af þeim allt þat er þeir naadu enn sumir sloguz i bæinn ok veittu þeim haalsslǫg er a bryggium stodu. þa var ok Sigrflugan merki Suerris konungs komit vpp a bryggiurnar. ok i þui bili flydu Baglar ok bearmenn sumir vpp or bænum sumir i gardana. Suerrir konungr geck vpp vm langastræti ok er hann kom vpp i gǫturnar þaa saa

[1]) r. logdu [2]) bǫgl' *Cd., saaledes ofte senere.*

hann vt a volluna huar þeir borduz. snyr þa fyrir aana ofan ok sua bæinn ok vt eftir vollunum. veittu nu Boglum vhagliga baksleltu ok drapu flest allt lid þat er þar var. Birkibeinar rannzokudu bæinn ok brutu hus til Bagla drapu marga enn margir komuz vndan ok stefndu vpp or bænum. Sueitir þeirra Birkibeina voru sumar vppi a vollunum enn sumir vppi a Mðrtustockum ok gegndu þeim Boglum sua sem þeir komuz vid. vard þar allmikit mannfall ok þo myklu meira af Boglum. vndan droguz þetta sinn hofþingiar þeirra flestir allir.

## Fra Suerri konungi. capitulum.

110. Eftir þetta lætr Suerrir konungr blasa ollu lidinu vpp a Mðrtustocka ok aatti þaa tal vid þa ok sagdi sua. Gud hafi þess þauck at hann hefir eigi horfinheilla gert vid oss Birkibeina vm sigrinn nu helldr enn fyrr. ok er mer þess vaan at varla muni Nichulas skaufhali med vræddu hiarta hafa vndan sðtt. enn ek vil þat þo segia ydr ollum saman at ek vil laata leggia skipum ollum vt til Hofudeyiar. vil ek at ver faaim einga flaugu af þeim ok siaim vid alaupum þeirra ef nockurir eru þeir er nenna aftr at huerfa til bearins þegar þeim þickir þess van at menn leggiz i ogaa edr ofdryckiu i bænum. ann ek þeim eigi þess at komaz aa vedr minum monnum. þa foru menn til skipa ok gerdu sem konungr mællti. vpp var tekit allt fe fyrir monnum aadr þeir foru or bænum þuiat bændr ok kaupmenn hofdu verit i mot konungi. langskip þau er til voru toku þeir ok brendu flest enn hofdu med ser Bokaskreppuna er Nichulas byskup hafdi aatt ok Gullsudina er Hydi hafdi fyrr gera laatid. Hydi tok vid Bokaskreppunni enn brendi Vidsiana er hann hafdi aadr haft hirti segl ok saum þuiat bændr aattu reidann. þa laa konungr vid Hofudey let þar bera vpp lutskipti a vðll sunnan a eyna. siþan let hann skipta i fiora stadi herfanginu. ok eftir þat var blaasit til husþings ok aatti hann tal vid lidit. þa let hann menn ganga vndir staung ok var skorat huersu mikit lid hann hafdi ok var þa a fimta tigi hundrada. þa kom madr fra Nichulasi byskupi prestr nockurr ok hafdi bref at færa Suerri konungi ok villdi sættaz vid konung. Konungr suarar sua. gert hefir hann þat fyrr ok veit ek eigi at hann halldi nu betr enn fyrr. enn vnna mun ek honum grida ef hann kemr sialfr aa minn fund ok mattu sua segia honum at mart þicki mer meira til frægdar at vinna enn drepa hann ef hann kemr a mitt valld. hann rædr. kemr ef honum syniz. þa beiddi konungr lidsmenn ok leidangrsmenn at hann vill skip ok skipreida allann saman at hann hafi fyrir .xv. merkr gullz enn monnum hugdiz sua at at eigi mundi þridiungr verdz

vppi ef hann hefdi sua. ok geingu þeir til Sigualldi karl Sigurdr af Modastodum ok Eysteinn Rognualldzsun ok drogu i sundr reidann ok seglin i fiordunga sem annat fe. ok er konungr visse þat hliop hann af skipinu ok hafdi suiga i hendi ok let ganga. flestir geingu vndan ok kaustudu vidr þui er aa helldu þuiat þeir saa at hann var reidr. Sigualldi beid ok geck eigi vndan. Konungr laust hann .ij. hogg vm herdarnar þuerar. Sigualldi gerdi ecki a mot taka. Konungr hætta þa enn sagdi at þeir gerdi illa at þeir brutu bod hans quaz vilia hafa landuarnir fyrir þeim ok sua skip. ok var sua at hann lagdi verd eftir slikt er hann villdi. A þridia degi var blasit lidinu til skiptis ok lagdir lutir a fiordunga. eftir þat skipta huerir sinum lut ok fiordungum i tylftir ok var sua skipt fenu til þess er i hluti kom vm [637] sidir. þat var eigi minna fe enn huerr madr hlaut til tueggia marka veginna. konungr la þar litid skort haalfan manat.

## Suiknir Birkibeinar af sinum monnum.

111. Nu er at segia fra Boglum er þeir hofdu flyit at hofdingiar ok meginflockrinn vendu et efra vm Vpplond nordr til þrondheims ok sua til Nidaross. ok er þeir komu til Steinbiarga settu þeir lid sitt vmhuerfis borgina ok quodu þar skylldu tiallda. þa voru fyrir i borginni þorsteinn kugadr ok Bialfi skinnstackr ok Aasgeirr ok hofdu betr enn .lxxx. manna ok skorti huarki vopn ne vistir ok eigi dryck. gaatu Baglar ecki at gert. Siþan aattu þeir stefnur vid bearmenn ok þeir þing vpp i Cristz kirkiugardi vid bæarmenn ok logdu vistagialld a bæinn ok krofdu bændr leidangrs or heradi. þa letu þeir hallda veniu Birkibeina letu sueria ser trunadareida ok at þeir skylldu eigi vera i gagnstauduflocki þeirra ne i konungs flocki. siþan foru þeir vpp til borgar ok gerdu þeim skotrid miok langa. sidan kolluduz þeir aa. Nickulas byskup mællti til þorsteins. vraadligt er þat at hallda borgina ok vera i banni. þu munt lata meira i odrum stad. ver munum gera lid til Steigs ok Gudreksstada til bua þinna ok laata þar ræna ollu þui sem til er enn leggia elld i bæinn. þorsteinn kalladi til sin Bialfa skinnstack ok sagdi honum at vradligt var at hallda borginni ef þeir sæti leingi vm. lauk sua þeirra vidrædu at þeir vrdu a þat saattir at vpp skylldi gefa borgina. ecki vissu adrir borgarmenn i þessu raadi. Laundyrr voru a borginni. þar geck þorsteinn til sua at hann maatti tala vid Bagla. enn Gudbrandr vngi geck til motz vid hann ok gerdu raad i milli sin. bad þorsteinn Bagla fara ofan i bæinn enn koma vpp vm kuelldit þa er borgarmenn varadi sizt. mun ek þa opnar laata

til siofarins. hann let skera diki fyrir vtan herbudirnar allt nordr fra voginum ok sudr til Skeliasteinssundz ok setti þar kraka allt fyrir innan dikit ok var þat allt gert vid aalaupum landhersins. Konungr let vpp setia skip sin ok vmbua. hann skipti lidi sinu i vmsatir. voru gestir nordr vid gautuna er ofan liggr or Frodaæsi. var Petr steypir hofþingi fyrir þeim. toku þeir hus i bænum ok fluttu vpp þannig ok er þat kallat Gestabacki. Konungr suaf optaz i bænum ok sumt lidit med honum. Suerrir konungr skipadi lidi sinu til atgaungu at berginu. let konungr fara sitt merki vpp sunnan i kleifina enn gestirnir sottu at enum neyrdra kastalanum. Enn er Birkibeinar sottu vpp i bergit þa hofdu Baglar skipaz til varnar ok baaru þeir a þa bædi griot ok spiot ok skot. Birkibeinar gengu allt vpp vndir kastalann ok logdu kesium huorir at odrum. Baglar voru i kastalanum ok baaru þeir ofan griot þat er sua var stort ok flo sua snart at ecki helltz vid. meiddiz bædi fyrir skilldir ok staalhufur. hrucku Birkibeinar ofan i kleifina saarir ok bardir. Sa konungr þa at þat var sua mikill vigismunr at ecki mundu þeir af atgongunni fa vnnit bergit. Baglar voru þa kaatir ok storordir. Enn er konungr hafdi þar dualiz vm rid þa sendi hann menn fra ser i herud at flytia at ser leidangr ok vistir ok greiddiz þat allt vel medan Birkibeinum var hægt at fara med skipum fyrir isum Suerri konungi þotti þat mein mikit er engi madr kunni honum at segia af vmbunadi þeirra a berginu. konungr gerdi þat raad at teknir voru kirkiustigar i bænum at bundinn var huerr vid annann ok settir sunnan vid stopulinn i Lafranzkirkiu. for einn madr þar allt vpp eftir ok allt vpp aa rafrit þar er fra vissi berginu ok spenti hondum vm knappinn ok sa hann þa oll tidendi a bergit. Baglar saa hann ok þa skaut Reidar sendimadr at honum ok setti hann ena fyrstu ðr i knappinn ok þegar adra ok kom su milli handa honum vid þat er hann let laust. enn rafrit hlifdi honum vid fleirum skotum. for hann þa ofan ok sagdi konungi þat er hann hafdi seet. Baglar hofdu dregit vpp skutur nockurar a bergit ok skamt ofan fra enum nedra kastalanum var brunnr þeirra. ok hofdu þeir þar huelft yfir skutu nockurri sua at þeir maattu ganga til af berginu. Kastalarnir voru sua giorfir at stafir .iiij. stodu vpp ok syllt vpp i milli ok þar a enar nedri hurdir milli stafanna. þat var a einni nott vm haustid er var a nidmyrkr at konungr gerdi mann einn vpp a bergit er nefndr er Sueinn munki. hann hafdi med ser einn kadal ok .ij. spiot. var annat skamskept ok hafdi þat vndir bellti vid sik. hann geck vpp a bergit ok bar kadalinn vm einn kastalastafinn sem optaz. enn odrum enda kadalsins fylgdi meirr enn .c. manna. Sueinn laust a kadalinn

ok bendi þeim at þa var fastur endirinn. liopu þeir siþan a kadalinn ok drogu fast. tok þa kastalinn at rijda miok. enn Baglar þeir er i voru vrdu ottafullir miok ok i þui brast kadallinn i sundr. Sueinn munki geck vpp a bergit ok austr. þa sa hann vardmenn .ij. lagdi hann annan standanda enn annan liggianda ok drap þa baada. for hann þa austr af berginu ok sua aftr til Birkibeina. Suerrir konungr leitadi þa margra bragda i at vinna bergit. hann let gera flaka af vidum ok vndir digra stafi. let hann bera vndir kastalann ok vard þat at engu raadi. Jafnan gengu Birkibeinar i skotmaal vm daga ok skutuz aa ok stodu Baglar vm allt betr at vigi. Jngi hofþingi þeirra Bagla ok Sigurdr jarlzsun ok Aarni byskupsfrændi ok margir adrir sueitarhofþingiar ok meginlidit Bagla var a Vpplondum ok stundum vt i Vikinni. þeir hofdu þat raad gert sin i milli ef naudsyn bæri til at huorir skylldu odrum vid hialpa. Enn vid vmsaatir þær er Suerrir konungr gerdi þeim Reidari þa þotti þeim seint til lidveizlu af sinum monnum enn þottuz sitia i haaska miklum. gerdu þeir þat raad at senda menn til þeirra Jnga med þui tilstilli at a einni nott taka þeir skutu eina miok litla er aatta menn reru a bord ok draga vestr a bergit til siofar ok logdu aarar i homlu ok baaru a festar ok hofdu til vegur ok vogu fram af berginu ok gengu þar a menn .x. þordr aucka var fyrir þeim. letu siga i reipi skutuna ofan aa sio ok var þetta hættuferd mikil ok þo mest fyrir þui at Birkibeinar laagu aa skutum fyrir berginu ok helldu þeir vðrd hueria naatt. þeir þordr lustu nu aarum i sio ok reru sua drifanda vm sundit ok hlaupa a land fyrir innan Smiorberg. Birkibeinar reru eftir þeim ok fengu skutuna toma enn ecki af monnum. foru þeir leid sina þar til er þeir hittu Jnga ok Sigurd ok sogdu þeim ordsending Reidars ok þau tiþendi er þar hofdu gerst. Baglar kuoduz þat eina spyria af Birkibeinum er þa langadi ecki til þeirra funda. segia at Suerrir konungr mundi fra huerfa berginu þegar er sniofa tæki edr friosa. Suerrir konungr vard þessa varr vm morgininn eftir [656] at Baglar hofdu laupit af berginu. hann mællti. sua leitt sem ydr er at sitia vm bergit þa siai þer nu at þeim er enn leidara þar at sitia.

### Fra Suerri konungi ok Ribbolldum.

129. Jonn Englakonungr hafdi aadr vm sumarit sent Suerri konungi þa er hann var i Biorgyn .cc. hermanna þeirra er Ribballdar voru kalladir. þeir voru sua skiotir a fæti sem dyr ok bogmenn miklir ærit diarfir ok spaurdu eigi illt at gera. Suerrir konungr gerdi þa a Vpplond ok setti þann hofþingia fyrir þeim er Hijdi het. litt var hann lof-

adr af monnum. Ribballdar komu ofan i Haddingiadal ok foru et efra vm Soknadal ok ofan a þelamork. enn huar sem þeir kuomu draapu þeir menn alla vnga sem gamla konur ok karla. draapu þeir ok bufe allt er þeir maattu. þeir brendu bygdina alla þar sem þeir foru. Enn er safnadr var gerr at þeim þa liopu þeir a fioll ok merkr ok quomu þar fram er engann mann vardi. þeir raaku hernat i þær bygdir er alldri fyrr hafa komit flockar til hernadar ok gerdu þau hervirki er engi madr mundi til sliks. þeir komu til Suerris konungs þa er hann sat vm bergit ok geingu opt diarfliga til motz vid Bagla ok skutu huorir at odrum. Ok einn dag lustu Baglar einn Ribballdann med auru sua at hann feck bana. enn þeir Ribbaldar skræktu haatt er þeir sa þetta ok liopu stundum fra enn stundum til ok skutu at þeim. ok litlu sidarr laust einn þeirra Viking vefuiu sua at hann feck þegar bana kom i hostinn hinum vinstra megin. hann hafdi verit enn mesti hermadr. Suerrir konungr spurdi at þordr aucka var sendr af berginu til þess at þeir Reidarr þottuz þurfa lidueizlu af þeim Jnga ok Sigurdi. munu þeir nu vænta hingat sagdi konungr þeirra lidueizlu ef þeir vilia nockut vid skipaz ordsendingina. nu skolum ver hafa einn prett vid þa i nott i nidamyrkrinu. skolo vorir menn fara vpp vm Frodaæs med miklu lidi ok gæta at Baglar verdi eigi varir vid edr beiarmenn. enn þeir Birkibeinar er eftir væri skylldu hlyda til er konungr leti blaasa ok bregda til vapna. siþan skolu þeir fylkia huorirtueggio lidinu ok laata sem þer beriz enn þyrmiz þo sem skyllt er. enn þeir er or bænum fara skolu falla fyrir hinum er til sækia ok gerit mikinn yssinn ok laatid sem þer hafit betr. ok at lycktum latid þer allir vndan ok a flotta. þa ma vera at Baglar gangi af berginu. mætti þa troll koma milli huss ok bonda. þessi raadagerd var fraımmi hofd. Vm morgininn er liost var vordit þa sa vardmenn Bagla af enum neyrdra kastalanum at lid mikit ok vel buit for veginn ofan at Frodaæsi. þeir gengu þegar ok voktu Reidar ok sogdu at þar mundu fara þeirra menn. stod Reidarr vpp ok bad lidit vopna sik. enn er þeir voru vopnadir sottu þeir nordr til kastalans. þa sa þeir merki i huorutueggia lidinu þui er ofan for or Frodaæsi ok sua þui er or bænum for. heyrdu þeir ok ludragang. brugdu þa sumir suerdunum ok þui næst toku þeir at falla enn sumir flydu. þa eggiudu Baglar Reidar at þeir skylldu ganga af berginu ok veita sinum monnum ok laata eigi Birkibeina komaz inn vm dikit. Reidarr suaradi. siaam fyrst hue þeir skipaz vid ef Birkibeinar rekaz af dikinu. þuiat þeim mun seint verda at klifa vpp a krakana. munu vorir menn drepa af þeim slikt er þeir vilia. Ok enn mællti hann. vndarliga

ferr flockr þessi ok syniz mer sem þetta se leikr nockurr. siai þer at þeir leita ser fallstada þar er þurt er vndir elligar a skiolldum sinum ofan edr siai þer nockut blodug vopn þeirra edr klædi. Nei huorki siaum ver þat sogdu þeir. þetta mun vera prettr Suerris. Enn þa er konungr sa at þeir voruduz vid at ganga af berginu þa sneriz konungr aftr til herbuda med lidi sinu.

### Tala Suerris konungs. capitulum.

130. Nu lidr fram haustinu ok tekr at vetra lagdi isa. gerdiz þa Birkibeinum verra vm at sopaz til vista enn bændr gerduz þeim hardir i horn at taka. uersnadi þa matlifit ok gerdiz kurr i lidinu villdu flestir heim leidangrsmennirnir. Konungr hafdi husþing vid þa ok mællti. þat heyri ek nu af lidinu at seta þessi þickir oforsyniu ok nu[1] væri gott heima ok sæll væri sa at heim skylldi fara: ohermannligt er slikt at kurra at konungi sinum þott þer þenit eigi sua vombina sem verkmadr i vist. vlikir eru þer þeim er i forneskiu eru sogur af gerfar er veittu vmsatir sua þraatt at eyda fiandmonnum sinum þott þeir væri sua leingi vm at sitia at funadi klædin af þeim enn þeir aatu skaalpa af suerdum sinum ok yfirledr af skom sinum ok lettu alldri fyrr enn þeir sigruduz. enn þo at ek taka þessi dæmi þa er her skemra aa at minnaz meiri stadfesti ok þralyndi at þeir syna Baglar a berginu er þeir gefaz eigi vpp. nu laatid mik eigi leingr heyra þenna kurr. þuiat her skal sitia huart er ydr þickir liuft edr leitt blitt edr stritt biugt edr bratt þar til er ver hofum valld yfir Boglum. Ok er minkadiz vist a berginu vm vetrinn sa Reidarr at þeirra kostr mundi braatt minkaz ef þeim kæmi engi hialp af Jnga ok Sigurdi. enn þeim komu engi suor nema þau eina er Birkibeinar sogdu þeim huern dag at Jngi konungr þeirra er kominn med allmikinn her ok mundi braatt leysa þa. enn Boglum þotti þat spott sem var. þa let Reidarr gera bref til Jnga ok Sigurdar ok var þat sagt at þeir mundi halldaz a berginu [657] ok þo med hordum kosti til Nichulaasmesso ok bedit med fogrum ordum at þeir skylldu koma ok hialpa þeim vid. þa var komit a frost mikit ok lagdi is a voginn fram med berginu. Vm nottina eftir gerdi Reidarr einn mann nordr af berginu ok hafdi .ij. skid ok skreiddiz sua fram med landinu vm dikit. vrdu Birkibeinar eigi fyrr varir vid enn sa madr var allr a brottu. for hann leid sina vnz hann kom til Jnga. hann aatti stefnu vid sueitarhofþingia ok let bref vpp lesa. Sigurdr jarlssun suaradi sua. ver hofum vafiz i flockum vm rid hofum ver opt vora menn

[1]) ny *Cd.*

latid fyrir Suerri ver hofum ok gert honum mannskada. nu munum ver eigi rasa i helina opna þott Reidarr vili þat. ver munum gera annat raad forum nordr i fiordu ok faaum oss skip ok mun Suerrir konungr þat til vor spyria at honum mun þickia meiri þorf at veria landit enn sitia vm fa menn þar a berginu. þa leiz ollum þetta hofudraad.

## Fra Birkibeinum ok Boglum.

131. Baglar snua þa til ferdar nordr i dali ok komu ofan i Raumsdal ok fa ser þar skutur ok rekaz sudr med landi. Enn er þeir koma sudr fyrir Sognsæ vitia þeir inn i Vik. þa toku þeir mikinn androdr. þeir komu vm nattina inn i Vik ok toku þar skutu vndan Joni staal ok allt þat er aa var. hann liop a land vpp. Jonn hafdi þa ætlat sudr til Biorgyniar. hann liop vpp i skog ok allir hans menn. bændr fengu þeim vopn ok klædi. Vm morgininn eftir foru Baglar .l. saman vpp til Hofs til bads. þa sa Jonn staal ferd þeirra hann var i fiallinu vppi vid .xviij. mann. ok er honum þotti hellz færi a vera liop hann ofan a bæinn. enn er Baglar sa ferd hans taka þeir vndan enn hann fylgdi þeim i Alldinshaga ok felldi þar einn mann. þa veik hann vpp aftr ok annan dag eftir sneriz hann a ferd til Biorgyniar sudr et efra. fann hann i Biorgyn Einar konungsmaag ok Dagfinn ok biugguz þeir þegar med þui lidi er til feckz ok redu til skipa ok fara nordr til Sogns. þeir spurdu þat til Bagla at þeir hofdu setz inn i Lusakaupangr ok hofdu stefnt þing vid Sygni ok hofdu bodit vt leidangri. þar var Jngi til konungs tekinn. Gunnþiofr het sa bondi er honum gaf konungsnafn. Baglar samþycktu þat er Gunnþiofr kuat vpp. Birkibeinar reru vm nattina inn i Sogn ok komu i dagan til kaupangrs ok logdu vid bryggiur ok letu þa ludra vid kueda ok geingu vpp diarfliga. enn Baglar liopu til vopna ok sneruz aa flotta. þa fellu nockurir menn af þeim. Biorn furuleggr het madr vmrenningr einn hann hitti i sætri nockuru vppi i fiallinu vpp fra Lusakaupangi Aarna byskupsfrænda. hann var saarr miok ok hafdi eigi komiz leingra. Biorn drap hann til klæda ok fiar er hann hafdi aa ser ok myrdi hann. funduz beinin vm vorit. þa lupu þeir vpp i Kaupangursfiall ok sua inn i Fornafiall. enn sumir a Folk. þa fluttuz þeir a ferium ok a smærum skipum inn i Lystr. enn Birkibeinar toku fe þeirra ok skip ok mikinn þora vopna ok klæda. Baglar heimtuz saman i Lystr ok sneru ofan i Ardal yfir fiallit. þa spurdi Jonn staal til þeirra ok for inn at þeim. enn Baglar voru þa komnir vpp yfir vatnit ok vm morgininn eftir sneru þeir þar a fiallit ok vpp a Valldres ok þadan til Vpplanda.

## Suerrir konungr suellti Bagla a berginu.

132. Suerrir konungr sat nu vm bergit. var þa lidin su stefna er Reidarr hafdi akuedit i brefum at hann mundi halldaz a berginu. gerdiz þar nu sua hord vistin ok reidan a berginu at litid var til matarins annat enn þa hiuggu þeir suardreida sinn ok var vm þat at velia til jolavistar ok þo eigi haalfærit. A ofanverdum jolum aa einni nott liop Halluardr bratti af berginu vid annan mann ok komuz þeir a fund Suerris konungs ok gaf hann þeim grid. Enn eftir vm morgininn vrdu lidsmenn Suerris konungs varir vid þetta ok þotti þeim flestum illa er Baglar skylldu grid hafa. Baglar a berginu vrdu þessa vissir at konungr hafdi grid gefit Halluardi. væntu þa margir ser grida þeir er aadr þottu engi likendi til. liopu þa margir af berginu til konungs ok fengu allir grid. Konungr vard þa ens sanna varr at Baglar hofdu þa enga lifsvaan ne hialp a berginu ok þeir voru at þrotum komnir af matleysi. hafdi þa ok Reidar latid segia konungi at annan dag eftir mun hann ganga af berginu ok þola helldr dauda fyrir vopnum enn af sulti enn þiggia giarna grid ef kostr væri. beiddi hann ok grida ollum felogum sinum. Suerrir konungr let þa blaasa ollu lidinu til husþings. hann taladi sua. ek vil nu leita raada vid ydr huernig skipa skal vid Reidar ok hans felaga ef ver faaum valld yfir þeim. ok ef sua verdr þa munu þui allir fagna vorir menn at slita þessi þrasetu ok þeir fegnazstir er verst letu i haust ok þa skylldu fra huerfa. huort skolum ver nockurum monnum grid gefa edr engum huert er yduart raad. Margir suorudu ok mælltu. her a berginu eru þeir saman komnir er flest illt hafa gert oss ok vorum monnum ok mun sa kostr eigi godr þickia at hafa solltid her i vetr fyrir þeirra sakir ok haft marga võsbud enn nu skyli taka fodurbana edr brodurbana sina ok gefa grid ok skipa siþan i haalfrymi hia oss. þa suarar Suerrir konungr. siait godir menn huerr yduar er saa er mer þickiz ofstorr ok eigi vill þola at iafnaz vid mik. minniz aa þat huart nockurum [658] mun þat brigzlat sidarr at hafa her af min dæmi. her i Tunsbergi felldu Baglar Hyda brodur minn enn i Oslu Philippum jarl frænda minn ok marga adra. enn nu i vetr munu þer heyrt hafa at þeir hafa Suerri kallat bickiu edr meri ok morgum odrum illum nofnum. nu vil ek þat fyrirgefa þeim fyrir guds sakir ok vænta þar a mot af honum fyrirgefningar þess er ek hefir honum a moti gert. eigu þer ecki sidr saalur enn ek ok eigit þess at minnaz. engi madr mun kalla ydr at helldr bleydimenn fyrir þessa sauk. Lauk sua þinginu at allir iaattudu at konungr skylldi raada. let konungr þa gera ord til Reidars at þeim var gridum heitid. geingu þeir Reidarr þa

af berginu vm morgininn at daguerdar maali. Suerrir konungr let [leida þa[1] fyrir sik ok suordu honum allir eida. Enn siþan let hann skipta þeim i sueitir. tok konungr Reidar i sina sueit. hann bad menn mikinn hug a leggia at næra þa ok var sua gert. bad hann þa ok sialfa taka fyrst med varygd bædi mat ok dryck. enn þeir gerdu þat allmisiafnt. Enn sua nær voru þeir komnir dauda at allir fengu siukleik fyrr enn styrk ok margir ǒnnduduz margir kromduz lengi þeir er lifui helldu. Reidarr var lengi siukr ok lagdi Suerrir konungr þar til morg lækn-ningarbrogd. Suerrir konungr sat vm Tunsberg .xx. vikur enn bratt þegar bergit var vppgefit bioz konungr til brottferdar ok let fram setia skip sin.

## Siukdomr Suerris konungs.

133. Sverrir konungr tok siukdom i Tunsbergi ok for su sott ecki ott. For konungr i brott þa er hann var buinn ok nordr til Biorgyniar ok kom þar at fǒrstu edr litlu fyrr ok la hann lengzstum vm daga aptr a skipi vpp i lyptingunni. Reidarr laa ok þar. var honum buit rum vid lyptingina a haasætiskistunni. let konungr veita honum alla hiukun ok hialp sem sialfum ser ok taladi vid hann optliga. Reidarr var vitr madr ok margra luta vel kunnandi. Suerrir konungr for vpp til borgar i Biorgyn ok var honum veittr vmbunadr i hallinni. þat var hinn þridia morgin i annarri viku faustu at Suerrir konungr hafdi fengit sueita ok þottiz þa verklauss. quomu þa til hans margir menn. enn optaz var faatt manna hia honum. Ok er flestir menn voru brott farnir taladi konungr til Petrs suarta ok kuez vilia segia honum draum sinn. Madr kom at mer sagdi hann sa enn sami er mer hefir oft fyrr synz ok alldri villt fyrir mik borit. enn ek þottumz vita at ek var siukr ok maattfarinn. þottumz ek spyria huersu sott þessi mundi lukaz. enn mer þotti hann þegar snua a brott fra mer ok suara a þessa leid. buz þu vid vpprisunni einni Suerrir sagdi hann. nu litz mer þessi draumr miok tuislægr enn þess væntir mik eftir þetta at adrahuora skipan taki skiott. Petr mællti. allt muni þer þetta herra kunna giorr at sia enn nockurr annarr. enn a þat horfir minn hugr at vm þa muni rætt vpprisuna er a enum efzsta domi er ok munda ek sua vidbuaz herra at þat mune draummadrinn birt hafa. Konungr suarar. ecki er þetta varædiligt. Var ok sua at þa tok konungi at þyngiaz sua sem a leid daginn. Enn vm morgininn eftir let konungr senda i bæinn ofan eftir kennimonnum. var þa buit til at veita honum oleun. let hann þa vpp

[1]) [leidada *Cd.*

lesa bref þau er hann sendi Hakoni syni sinum vm skipan rikissins ok let þau bref innsigla. Hann mællti þa fyrir ollum þeim er hia voru. at allra vitni segir hann veit ek mik engann sun eiga a lifi nema Hakon einn þo at þeir komi sidarr er sua kalliz ok vili fyrir þat vfrid gera her i landi. nu vil ek aadr enn ek se oleadr laata hefia mik vpp i haasætid ok vil ek þar bida annathuort bot edr bana. ok mun þetta aa annan veg fara edr til spyriaz enn Nichulaas byskup Aarnasun mun vænta ef ek deyr her i haasætinu ok standi yfir mer vinir minir enn hann hefir sagt at ęk munda hogginn nidr sem busmali fyrir hund ok rafnn. enn gud se þess lofadr er hann hefir gætt min i morgum þrautum fyrir vopnum vvina minna. Var þa konungi veitt olean. enn eftir þat minkadiz megin hans. Ok er hann fann at nær dro andlaati hans þa mællti hann. vid dauda minn segir hann latid bert andlit mitt. latid þa sia bædi vini mina ok vuini huart þa birtiz nockut a likama minum bann þat er vuinir minir hafa bannat mer edr bǫluat. ok mun ek þa ecki mega leynaz ef eigi eru betri efni i enn þeir hafa sagt. hefir ek meira starf vfrid ok vandrædi haft i rikinu enn kyrrsæti edr mikit hoglifi. er sua at minni virdingu sem margir hafi verit minir aufundarmenn þeir er þat hafa laatid ganga fyrir fullann fiandskap vid mik sem nu fyrirgefi gud þeim þat ollum ok dæmi gud milli vor ok allt mitt maal.

## Andlaat Suerris konungs.

134. Laugardaginn i ymbrudogum andadiz Suerrir konungr. var vm lik hans buit vegliga sem vǫn var at. Nu var ok sua gert sem konungr hafdi bedit at berat var andlit hans ok saa allir þeir er hia voru ok baaru siþan allir eitt vitni vm at engi þottiz sét hafa fegra likama dauds mannz enn hans. var hann ok medan hann lifdi allra manna fegrstr a hǫrundit. Suerrir var allra manna bezst laatadr. hann var laagr madr a voxt ok þyckr sterkr at afli madr breidleitr ok vel farit andlitinu. optaz skapat skeggit. raudlitud augun ok laagu fast ok fagrt. hann var kyrrlaatr ok athugasamr. manna var hann maalsniallazstr storraadr skyrt ordtakit ok romrinn sua mikill yfir maalinu at þo at hann þætti eigi haatt mæla þa skildu allir þott fiarri væri. hann var sæmiligr hofþingi þar er hann sat i haasætinu med vegligum buningi. hann var haar i sætinu enn skammr fotleggrinn. alldri drack hann afeinginn dryck sua at hann spillti fyrir þat viti sinu. Suerrir konungr mataddiz iafnan einmællt. hann var diarfr ok frækn ok [659] eliunarmadr mikill vid vǫs ok voku. þat birtiz her sem opt reyniz at eigi ma fad-

erni manna marka at skaplyndi þuiat þeir fedgar Sigurdr konungr ok Suerrir voru vlikir i skapshofnum þuiat Sigurdr var lettlaatr ok aakaflyndr enn Suerrir var stadfastr ok stilltr vel. Sigurdr audtryggr ok talhlydinn. Suerrir varudigr ok vinvandr. Sigurdr huerfraadr ok mislyndr. Suerrir fastvdigr ok iafnlyndr. Sigurdr odlaatr ok opinspiallr. Suerrir fastordr ok faalyndr Sigurdr faafrodr ok fiolraadr. Suerrir raadugr ok raaduandr. Enn þo voru þeir i morgu likir. baadir voru storraadir ok storlyndir huorrtueggi hirdprudr ok hegir vid vini enn stridir vid vvini. huortueggi aastsæll vid sina hird ok fylgd þuiat baadir voru þrautgodir ok voru þeir mestir vinir huorratueggio er kunnazstir voru þeirra haattum. Suerrir konungr var harmdaudi sinum monnum ok aastvinum ok iafnvel mælltu þeir þat er vuinir hans hofdu verit at eigi hefdi slikr madr komit i Noreg a þeirra dogum sem Suerrir.

## Greftadr likami Suerris konungs.

135. Ofan til Kristzkirkiu var borit lik Suerris konungs med prydi mikilli. Vtar fra korinum enn innar fra sudrdyrum var opnadr steinveggrinn ok lagit þar i lik konungs. laatinn aftr siþan veggrinn ok fest þar aa tabola af eiri ok þar ritad a medr gullstofum vers þau er þat segia. at þar liggi tign konunga stod ok stolpi mynd ok dæmi truar prydi ok dreingskapar. hardr skörugleikr skiol ok hlifd sinnar fosturiardar ok faudurleifdar. hreysti hardrædinnar nidran vvinanna vegr Noregs dyrd sinnar þiodar efling rettinda retting laga aastud allra sinna manna. þar var fest a vegginn pell eitt ok þar hia merki hans ok skiolldr hans suerd ok staalhufa. Suerrir konungr andadiz octauo idus marcij anno ab incarnacione domini nostri Jesu Christi .m°.cc°.xv. A sama aari andadiz Knutr Danakonungr ok kom til rikis Valldamar brodir hans. þa andadiz Birgir jarl brosa. þa toku Suiar til konungs Jon son Sorquis konungs var hann þa vetrgamall. hofdu þa Suiar konung broklausann. Suerrir hafdi verit konungr .xx. vetr ok fimm vetr. þa (voru) lidnir .xviij. vetr fra falli Magnuss konungs Erlingssunar. Lykr her nu sogu Suerris Noregs konungs.

